# SKÝRÍNGAR

**PÁLS lögmanns JÓNSSONAR VÍDALÍNS**

Á

# FORNYRÐUM íslenzkrar LÖGBOKAR

ER

**JÓNSBÓK**

NEFNIST.

---

að tilhlutun ens íslenzka

**Bókmentafèlags.**


**Reykjavík.**

Prentað í prentsmiðju landsins, af prentara Helga Helgasyni,

1848.

# Skýríngar

yfir

# Fornyrði Lögbókar

þeirrar, er Jónsbók kallast,

samdar

af **Páli** lögmanni **Vídalín**.

**Reykjavík 1854.**

Prentað á kostnað hins íslenzka bókmentafèlags í prentsmiðju Íslands, hjá Einari Þórðarsyni.

# Yfirlit efnisins.

## G.



## H.

## I.



## K.

## L.



## M.



## N.

Bls.

## O.



## P.



## R.



## S.

Bls.

## Þ.



## Æ.



## Ö.

## Leiðrjetting.

Við byrjun 31. arkarinnar hefur blaðsíðutalan skekkzt, svo að þar stendur 479 í stað 477, og heldur svo blaðsíðutalan áfram þannig, að ávallt er hún tveimur meir en vera skyldi.

# ÆFISAGA

## PÁLS lögmanns JÓNSSONAR VÍDALÍNS.

*Skrásett 1846*

af

**Þórði Sveinbjarnarsyni.**

---

Páll lögmaður Jónsson, að viðurnefni Vídalín, er fæddur að Víðidalstúngu í Húnaþíngi árið 1667. Höfðu þeir faðir hans og föðurafi búið þar hver fram af öðrum, og jörðin, hvaðan ættarnafnið að líkindum er tekið, verið lángfeðga eign víst framm á 15. öld. Faðir Páls lögmanns var Jón bóndi Þorláksson, Pálssonar sýslumanns, Guðbrandssonar biskups, Þorlákssonar prests, Hallgrímssonar bónda, Sveinbjarnarsonar *Officialis* Þórðarsonar. Móðir Páls lögmanns var Hildur, dóttir Arngríms lærða *officialis,* Jónssonar bónda á Auðunnarstöðum, Jónssonar, Hallvarðssonar. Þorlákur bóndi Pálsson, föðurafi Páls lögmanns var giptur Kristínu dóttur Jóns lögmanns, Sigurðarsonar sýslumanns, Jónssonar á Svalbarða, Magnússonar á Skriðu, Þorkelssonar prests, Guðbjartssonar. Páll sýslumaður Guðbrandsson átti Sigríði Bjarnadóttur Benediktssonar, systur Magnúsar lögmanns Bjarnarsonar. Og þó eg telji ei ætt þessa leingra, er þó af þessu auðsært, þeim er til þekkja, að Páll lögmaður var nær eða fjær í ætterni og venzlum við helztu menn lands þessa, þá er verið höfðu, og eins við þá, er á hans dögum voru uppi. Þannig voru þeir Jón biskup Vídalín og hann systkina synir. Bróðir Árna assessors Magnússonar, Jón, prestur í Hjarðarholti og síðar sýslumaður á Ströndum, Magnússon átti Kristínu, systur Páls lögmanns, og annar bróðir Árna, Magnús prestur Magnússon á Hvammi í Hvammssveit, átti aðra systur hans, Sigríði. Frændsemi Páls við Gísla biskup á Hólum Þorláksson verður síðar getið.

Um barns- og úngdóms-aldur Páls lögmanns verður að vonum fátt sagt, því þar um er, að því mèr er kunnugt, lítið í rit fært; mun hann hafa uppfæðzt heima hjá föður sínum í

Víðidalstúngu, en 7 vetra gömlum var honum komið til Þorláks bónda Guðmundssonar á Stóruborg, til að læra að lesa og skrifa. Lærði hann þar að lesa skrif á fornri og bundinni kálfskinns lögbók, og átti við miðdagsmáltíð að gjöra grein fyrir því, hann lesið hafði um daginn, og sagði Páll sjálfur, að fyrir þetta atvik hefði hann aldrei getað gleymt lögbókinni, og það væri þessum sínum lærimeistara að kenna, að hann hefði hnigið meir að því veraldlega. En til skólalærdóms var hann undirbúinn af móðurbróður sínum, Bjarna presti Arngrímssyni á Höskuldsstöðum, að því er Grunnavíkur-Jón segir. Í uppvexti sínum var Páll að sönnu hvatur og ötull, en ekki bráðþroska, og fremur lingerður að heilsu og burðum, sem ráða má af vísu þeirri, er hann orti, þá er hann var 18 vetra, og eptir hann finnst rituð:

Átján er eg vetra, sem lífinu mínu hlífir;
ýtist vöxtur lítið; ei fèkk odda-knýir
lof sè guði ljúfum, afl nè dígul-skafla:

Prestur nokkur, sem hjá var staddur, jók þessu við:

Vitið er verði betra, valla hafa það allir.

Enda er það sagt, að Páll strax á úngum aldi væri frábær til náms og vitsmuna[1]. Ei þurfti hann optar en tvisvar eða þrisvar að lesa opnuna í bókum, til að kunna hana utan að. Og er það líka til sanninda, að hann árið 1685, þegar hann orti vísuna, 18 ára að aldri, var búinn til siglíngar til frekari lærdóms-iðkana í Kaupmannahafnar háskóla, og hafði því lokið öllum skólalærdómi hèr á landi. Páll var í Hólaskóla; hefir það verið í tíð Gísla biskups Þorlákssonar, sem var í frændsemi við hann, þar eð þeir Jón bóndi Þorláksson í Víðidalstúngu og Gísli biskup voru þrímenníngar frá Guðbrandi biskupi. Um sama leiti mun Egill Sigfússon, síðar prestur í Glaumbæ, hafa verið skólameistari á Hólum, hverju embætti hann þjónaði frá 1680 til 1695.

Páll lagði hèðan til háskólans í Kaupmannahöfn, sem áður er ávikið, árið 1685, en dvaldi þar ei leingur en 3 ár; því árið 1688 kom hann aptur til Íslands[2], og hafði þá þegar tekið opinbert lærdómspróf í guðfræði með meðal-einkunn, að því er Hálfdán Einarsson segir[3]. Svo segir Grunnavíkur-Jón, að

---

1) Espólíns Árbækur VI, 7, 8. 2) Finns biskups Jónssonar hist. eccles. Isl. III, 538. 3) Sciagraph. hist. lit. Isl. pag. II., not. b.

þegar Páll geingi frá lærdómsprófinu, losnaði hællinn undan skó hans. Kvað Páll það fyrirboða þess, að hann mundi heltast úr lestinni frá guðfræðismönnunum. Strax fèkk Páll kóngs Christjáns V. skipun til biskups Þórðar Þorlákssonar, að hann gjörði Pál að skólameistara í Skálholti eptir Ólaf skólameistara Jónsson, sem árið áður hafði feingið Hítardal. Er skipun þessi dagsett 10. Marts 1688 [1], og má vera gildur vottur þess, hvílíkt álit að Páll, eptir 3 ára dvöl við háskólann, hafði áunnið sèr, að honum 21 árs gömlum, fremur öðrum, var trúað fyrir embætti, svo alvörumiklu og áríðandi. Páll mun, sem vonlegt var, hafa borið sig fram, þegar híngað kom, um embættið við biskup, en hann var í vanda staddur, því annar hafði þegar ísezt, strax við burtför síra Ólafs, og það var Þórður Þorkelsson Vídalín, systkina barn við Pál. Báðir voru þeir frændur Þórður og Páll vel að sèr, og því hæfir til embættisins, en þó að annar hefði kóngs veitíngarbrèf fyrir því, sem var Páll, var samt hinn tekinn af biskupi, sem þá voru lög og venja til; hafði og þessi þjónað að embættinu þann liðna vetur, og þá bætt fótaveiki biskups (þó hún seinna yrði hans banamein), því skólameistari Þórður var læknir góður. Biskupi mun hafa verið næst geði, að Þórður hèldi embættinu, en hefir ei viljað kveða það upp, þvert á móti kóngs skipuninni, sem Páll hafði með að fara; rèði því til, að leggja málið undir úrskurð Amtmanns Mullers, sem þá var nýr af nálinni, og studdi, ásamt landfógeta Heðemann, málstað Þórðar; og gjörðist það þá að álitum, að hann ætti að sitja í fyrirrúmi, og það var látið ráða málalyktum, að hann, en ekki Páll, hefði unnið skólameistara eið, eptir enni nýu kirkjusiða reglugjörð, sem út er gefin 25. Júlí 1685 [2]. Það mun hafa átt að heita nóg fyrir land þetta, að kirkjusiða reglugjörðin er skipuð Noregi fyrir lög, en af því þetta fyrst er skeð með tilskipun 14. April 1688, þá má hafa verið hrapað að eiðunníngu Þórðar, af þeim biskupi og Muller. Páll varð nú að lúta í lægra haldi að svo stöddu; en líkindi eru til, að Þórður hafi ei treyst því, að vel mundi útseljast til leingdar, því 2 árum seinna, eður 1690, gaf hann embættið upp við Pál, og var sjálfur ei meir en 28 ára að aldri, og lifði þaðan af embættislaus og ókvæntur til elliára [3].

---

1) M. Ketilsens Samling af Kgl. Forordn. og aabne Breve III, 279. 2) Hist. eccles. Isl. III, 537, 538. 3) Samastaðar.

Í 6 ár en næstu, eður til 1696, gegndi nú Páll skólameistara störfum. Fræðimanna öldúngurinn, Bogi stúdent Benediktsson á Staðarfelli, segir svo (í því, er hann safnað hefir til æfisögu Páls Vídalíns, og verið svo góður að ljá mèr), að á þessum árum hafi Páll farið að leggja sig eptir fornfræðum, og hafi mest að því gjört vinátta hans og kunníngskapur við Einar Eyólfsson, sem þá var lögsagnari í Árnessþíngi, og má þetta vel vera, því Einar var vel að sèr í hvívetna. Þessi árin, líklegast 1693, sókti Páll um vonarbrèf fyrir Staðastað, en fèkk ekki, og þókti honum það vel orðið, því hann kvað sèr rísa huga við ábyrgðarhluta prestanna í andlegum efnum. 1696 ætla eg Páli hafi veitt verið Dalasýsla. Það sem Stephensen getur til, að Páll þetta ár hafi að eins verið settur yfir sýsluna, er mjög óvíst, því þessi tilgáta er bygð á þeim valta grundvelli, að Andres Andresson hafi þetta ár í píngreið dáið frá Dalasýslu[1]; en það er auðsèð á veitíngarbrèfi Bjarnar Jónssonar, líklega þess á Staðarfelli, fyrir Dalasýslu, dagsettu 7. Maí 1695[2], að Andres var þá burt frá Dalasýslu og hafði feingið Snæfellsnessýslu, eptir Magnús lögmann Jónsson, sem dó 25. Apríl 1694. En þar eð nefndur Björn Jónsson einnig dó árið 1695, var Dalasýsla laus og gat veizt Páli að fullu og öllu 1696. Veitíngarbrèf Páls fyrir Dalasýslu frá árinu 1696 hafa menn ei, það eg tilviti, og þaðan er óvissan sprottin, og þetta ár er Páls ekki getið á alþíngi, en sem lögsagnari mætti þar Bjarni Bjarnason á Arnarbæli Jónssonar Dans. Árið eptir þann 20. Apríl veitti kóngur Páli varalögmanns-embætti austan og sunnan. Átti hann að vera Sigurði lögmanni Bjarnarsyni, eptir ósk hans um aðstoðarmann, til aðstoðar í elli hans eða lasleika, og gánga að embættinu að honum látnum. Þetta veitíngarbrèf sitt lèt Páll sjálfur lesa á alþíngi 3. Júlí 1697, og er það orðrètt prentað í þess árs alþíngisbók, og viss vottur þess, að Páll var áður að fullu og öllu sýslumaður í Dalasýslu, því þannig er hans þar getið. Sama daginn lèt Páll lesa: „Confirmationis og staðfestíngar„brèf, útgefið Páli Jónssyni Vídalín, upp á Dalasýslu, það hann „hennar njóti sína lífstíð, *dat. Kaupenhavn* 17. Apríl 1697, „með kóngl. Maiestets undirsettu nafni og signeti“. Af öllu þessu þykir mèr auðráðið, að Páll hafi feingið Dalasýslu að

---

1) Eptirmæli 18. aldar, bls. 665. 2) M. Ketils. III, 294.

fullu og öllu 1696, en farið þá að hugsa hærra, og sigldi um sumarið, sókt þá fyrstur allra til kóngs um varalögmanns-embætti og von um sjálft lögmanns-embættið eptir Sigurð Bjarnarson, sem hniginn var á efra aldur; þókt þó uggvænt um, hvort hann þá haldið feingi Dalasýslu, sókt því ásamt um staðfestíngu á því embætti og lífsfestu fyrir því. Hvortveggja veittist honum, og ekki eru nema 3 dagar milli dagsetnínga staðfestíngar- og veitíngar-brèfsins. Vice- eða vara-lögmanns embættið var þá óþekt hèr á landi, að nafninu til, og þá skjaldan lögmenn hèr höfðu feingið aðstoðarmann í embættinu, var það ráðið í lögrèttu, en þess ekki beiðzt hjá kóngi: t. a. m. þegar Daði Guðmundsson í Snóksdal var ráðinn aðstoðarmaður Þorleifs lögmanns Pálssonar 1542[1].

Eptir að Páll var orðinn varalögmaður, kom hann á alþíng á hverju ári, hafði þó ýmsa lögsagnara fyrir sig í Dalasýslu, fyrst Bjarna Bjarnason áður nefndan í 2 ár 1696 og 1697, og í önnur 2 árin 1698 og 1699 frænda sinn Þorlák Guðbrandsson Vídalín, og bar á þeim árum fátt til tíðinda í lífi Páls. Þar eptir var mágur hans Jón Magnússon, sem mist hafði prestskapar í Hjarðarholti, Páls lögsagnari í Dalasýslu framm að 1708, samt aðrir fleiri, er eg hirði ei að telja. Á þessum árum 1700—1709 fylgi eg helzt frásögn Þorsteins Ketilssonar, sem síðar var prófastur í Vöðlusýslu og prestur á Hrafnagili, merkur maður og rèttorður, en sem um þessi árin var sveinn Páls og handskrifari, og því kunnugastur því er tilbar, sem sjónar og vitundar vottur þess. Hefir Conferenceráð Amtmaður B. Þorsteinsson auðsýnt mèr þá velvild, að ljá mèr annálabrot Þorsteins til aðstoðar.

Við endalok 17. aldar var hèr hallæri mikið um allt land, svo margir menn dóu af sulti[2]; var því á alþíngi um sumarið 1700 gjörð bænarskrá til konúngs um, að hann á einhvern hátt sæi aumur á bágbornu ástandi landsins. Hefir bænarskráin átt að fylgjast með hyllíngar- eiða-tökunni til Friðriks konúngs IV., sem þá var nýseztur að ríkjum[3]. Svar kom frá konúngi árið eptir, dagsett 30. Apríl 1701, að einn af lögmönnum sigla mætti, til að gjöra af landsmanna hálfu skýrslu um, hvernin ástadt væri[4], og urðu um það greinir miklar á alþíngi 1701. Þókti fleirum óþörf ferðin, og að konúngur vel

1) Hist. eccles. Isl. III, 538 not. b. 2) Espól. Árbækur VIII, 66. 3) ibid. 68. 4) Alþíngisbókin 1701 Nr. 3. Ketils. III, 312.

mætti trúa skýrslum embættismanna, þó einginn væri utan sendur, en landið mundi ei, í hallæri því er þá var, staðizt fá kostnað af utanförinni. Hurfu að þeirri meiníngu Jón biskup Vídalín, amtmaður Muller, Páll og sýslumenn Jón Eyúlfsson, Jón Magnússon og Haldór Einarsson, og prestar allir úr Skálholts biskupsdæmi, þeir er á alþíngi voru. Lögmaður Gottrúp vildi gjarnan fara ferðina, og samþyktist það Sigurður lögmaður og sýslumenn nokkrir, beiddu hann farar og hètu honum launum fyrir af landi. Höfðu þeir lögmenn Sigurður og Gottrúp haft um það undirmál sín á milli, hvernin kostnaðurinn jafnast skyldi á fasteign landsins og lausafè, og mundi það *nema 1300 dala* af fasteign landsins einsamalli. Páll og Muller töluðu við Sigurð lögmann, að bezt væri, að allir helztu menn ráðguðust um þetta í eining í amtmanns-búð, áður fullráðið yrði, og fèlst hann á það; Páll vildi fá Gottrúp á sama mál, og tjáði honum, hvað þeir amtmaður og Sigurður hefðu orðið ásáttir um, og gaf hann ei annað svar, en: *„de gaae deres Veie, og jeg gaaer mine“*. Varð ei af samkomu í amtmanns-búðinni, en til lögrèttu voru allir helztu menn kallaðir. Bar þar Sigurður lögmaður fram bónarbrèf til Gottrúps um að fara förina og bera fram nauðsynjar landsins, og hafði hann einn undirskrifað. Páll kvaðst eingum einum trúa fyrir að bera fram, hvað honum sýndist, nema það væri áður ráðið af beztu mönnum landsins, andlegum og veraldlegum, hvað helzt frambera skyldi, og þyrfti þá ásamt að ákveða, hvað sá hafa skyldi að launum, sem færi, svo það ei orkaði tvímælis á eptir; en þessu var ei gaumur gefinn. Flestir flyktust að, undir að skrifa með Sigurði, en Páll gekk úr lögrèttu[1]. Þá var það amtmaður Muller kom í lögrèttu, og stakk hjá sèr fullmaktar-skjalinu, sem Gottrúp átti að fara með[2]. Gottrúp reiddist þessum vel og viturlega huguðu tillögum Páls; og seinni aldar menn, einkum Stephensen[3], hafa að orsakalausu lagt honum það til ámælis, að hann hefði gjört þetta af óvild við Gottrúp, hvað þó ei var annað, en hvað hver einstakur aðgætinn maður mundi gjört hafa við sinn erindsreka. Gottrúp reið af alþíngi til skips, en Muller setti Pál yfir lögmannsdæmið norðan og vestan, meðan Gottrúp væri frá.

Gottrúp lögmaður kom aptur 1702 litlu fyrir alþíng, og

1) Þorsteinn Ketilsson við árið 1701. 2) Espól. Árb. VIII, 74; Alþing. bók 1701 Nr. 19. 3) Isl. i 18. Aarh., pag. 315.

hafði þá með að fara nýan taxta frá 10. Apríl 1702, sem landinu var, einkum hvað járn, trè og færi snerti, bærilegri en sá frá 1684. Eignaði Gottrúp og hans fylgismenn honum alla framgaungu með taxtann; en að líkindum hefði sá góði konúngur Friðrekur IV., eptir sem þá var ástadt hèr í landi, án allrar sendifarar, verið fáanlegur til að gefa eptir í 4 ár 6000 rbd. af hafnartollunum, ef hann hefði þess beðinn verið, og á þessari eptirgjöf bygðist þó línunin í taxtanum, ef hún að öðru leyti var stórvægileg og meir en nafnið tómt. Þannin til dæmis segir taxtinn af 1684 „*god Ruugmeel*“, þar sem sá af 1702 nefnir að eins „Meel“, og mundu því kaupmenn einhvern tíma hafa selt þar bygg- og hafra-mèl að sama verði sem rúgmèl. Ekkert nýttist það annað, er Gottrúp fór fram á við konúng, að telja megi[1]. Það sýndi líka erindisbrèf þeirra Árna Magnússonar assessors og Páls, hvers strax mun getið, að konúngur ekki að öllu óreyndu reiddi sig allt á framburð Gottrúps einnsaman.

Þann 22. Maí 1702, líklega um það skeið Gottrúp fór frá Höfn, voru þeir Árni Magnússon, sem áður er nefndur, og Páll varalögmaður, kvaddir af konúngi í nefnd til að yfirvega ástand landsins, því til viðreisnar. Var erindisbrèf þetta sama dag tilkynt báðum lögmönnum Sigurði og Gottrúp, og þeim skipað að veita nefndarmönnum allt það liðsinni, er þeir orkuðu með ráðum og dáð, svo landinu yrði viðbjargað og ýmsum ókynjum afstýrt[2]. Erindisbrèf sitt lètu nefndarmenn lesa á alþíngi 17. Júlí 1702, og 2 dögum seinna auglýsíngu um, að þeim, auk annara erinda, einnig væri umboðið að semja fullkomna jarðabók yfir allt landið[3]; skipuðu þeir því harðlega hverjum einum, sem fasteign ætti eða hefði undir höndum eða í umráðum, að láta sèr í tè staðfest eptirrit allra jarðarskjala, samt greinilega skýrslu um hverrar jarðar dýrleika, landskuldarhæð, kúgildatölu, samt hver önnur gæði þeirra og gjöld af þeim, og í hverju hvað eina goldið væri, ef ei væri í skileyrir goldið. Hjáleigna og búða skyldi eins getið vera. Færa þeir til atriði úr erindisbrèfi sínu, sem leggi við missir fasteignarinnar fyrir hvern þann jarðeiganda, er ekki láti þeim áður nefnd skilríki í tè[4]. Höfðu þeir af konúngi sèrlegt erindisbrèf (Instruction) í 30 póstum, auk þess almenna, er þeir

1) Esp. Árb. VIII, 77, 78. 2) Ketilsen III, 329. 3) Alþíngisb. 1702. Nr. 13, 14. 4) Alþíngisb. 1702 Nr. 19.

lètu birta', því hvorki er þar þessarar viðlögu, nè jarðamatsins getið[1]. Espólín lætur Árna Magnússon einn gefa þessa skipun, og það fyrst 1703[2], en hvorugt er alls kostar rètt, eptir alþíngisbókunum, er þó að líkindum eru áreiðanlegasti votturinn, og hvorki í kóngsbrèfinu því nefnda, nè öðrum seinni til þeirra fèlaga, ekki heldur í auglýsíngum þeirra, finn eg spor til annars, en að Páll hafi að rèttindum, sem nefndarmaður, að öllu staðið við hlið Árna, þó þessi væri fyrri nefndur, sem æðri að mannvirðíngu. Segi eg þetta til athuga því, er segir í *Nordisk Tidsskrift for Oldkyndighed III. bls. 79.* Eptir alþíng 1702 hittust þeir Páll og Árni að ákveðnum degi á Hvammi í Hvamms-sveit, og hófu þaðan jarðamatsferðir sínar fyrst um Skógarströnd Helgafells og Eyrarsveitir. Á Staðastað gáfu þeir enn nýa skipun um allt land, að talið skyldi fólk og fènaður hvervetna, og þókti allt þetta sæta nokkrum nýlundum meðal almúga. Þaðan reið Páll heim, en Árni í Skálholt, og þar gisti hann optast á vetrum, þá hann var hèr í landi.

Um Kyndilmessu leitið veturinn 1703 ferðaðist Páll norður um land, til að skrifa upp Hólastað og klaustrin norðanlands; gisti hann þá 2 nætur hjá Gottrúp lögmanni á Þíngeyrum, og krafði hann launa fyrir lögmanns þjónustu árið 1701—1702, meðan Gottrúp var erlendis, og synjaði hann þess; ekki varð heldur af uppskriptinni á Þíngeyraklaustri, því Gottrúp vildi ei að öllu uppi láta, og skildu þeir Páll í styttíngi. Um vorið fyrir þíng skrifuðu þeir nefndarmenn upp jarðir í Eyahrepp og á Barðaströnd, og hvurfu þaðan til alþíngis. Eptir þíngið fóru þeir yfir alla Gullbríngusýslu, og enduðu þessa árs störf sín í Nóvember mánuði[3]. Á alþíngi um sumarið ítrekuðu þeir Páll og Árni skipun sína eð fyrra árið, um eptirrit' jarðarskjalanna með öðru þar að lútandi, og lögðu með öðru skjali ríkt á við alla, þá er opinberar jarðir hefðu að lèni, að gjöra slíkt eð sama[4]. Á þessu sumri feingu þeir líka kóngsskipun um að jafna niður á landið fararkostnaði Gottrúps 1701—1702, eptir sem þeim sanngjarnast þækti, og gjörðu þeir það fyrst 9. Júní 1707, að Vogatúngu í Leirársveit, því margar skýrslur þurfti að fá frá sýslumönnum, áður þeir feingi því á veg snúið; þeir ætluðu svo til, að Gottrúp feingi 600 rbd. að launum og end-

---

1) Arnes. isl. Retterg. Pag. 521; Hoffmanns Fundatzer I, 214. 2) Esp. Árb. VIII, 82. 3) Þorsteinn Ketilsson. 4) Alþíngisb. 1703 Nr. 15, 16.

urgjaldi fyrir ferð sína[1] Það er ekki ómerkilegt, að lesa brèf nefndarmanna hèr um gjört, og set eg það því hèr, að mèr virðist það fróðlegt, og lýsa vel nákvæmni og alúð nefndarmanna, og veit eg það ekki annarstaðar til vera. Það hljóðar þannig:

„Öllum mönnum á Íslandi, andlegum og veraldlegum, hærri „og lægri stèttar, heilsum vèr undirskrifaðir Kónglegrar Maie-„statis Commissarii, með óskum alls hins bezta!

„Það er öllum alkunnugt, að herra lögmaðurinn Lauritz „Gottrúp fyrir nokkrum árum reisti til Danmerkur landsins „vegna; sömuleiðis er og að miklu leyti kunnugt orðið, og „þeim, sem ekki enn nú vita, gjörum við hèr með vitanlegt, „að hæstnefnd konúngleg Maiestæt hefir okkur allranáðugast „skipað, að láta herra lögmanninum af landsins innbyggjurum, „eptir jafnaði, betalast fyrr skrifaður hans reisukostnaður; svo „höfum við þá með gaumgæfni athugað herra lögmannsins sigl-„íngarkostnaðar reikníng, og landsfólksins eignir og fjármuni, „það framast okkur hefir mögulegt verið, viljandi svo til sjá, „að opt nefndur herra lögmaðurinn af sinni hálfu, fullt upp-„bera kynni, fyrir það, sem hann landsins vegna tilkostað hefir, „og landsins innbyggjarar annars vegar ekki skyldu fyrir meiri „útlátum verða, en sem hèr til nægðist. Nú að öllu þessu „yfirveguðu tilsegjum við, og í hæstnefndrar kónglegrar Maie-„statis nafni befölum öllum og sèrhverjum þessa lands inn-„byggjurum, andlegum og veraldlegum, þvílíkri Contribution „út að svara til fyrr skrifaðs reisukostnaðar lúkníngar, sem „eptir skrifað stendur:

1) „Allir jarðeigendur skulu gjalda 6 fiska virði af hverju því „hundraði, er þeir í landskuld uppbera af sínum eignar-„jörðum; af 10 aura landskuld, eður inntekt, 3 fiska, eð-ur þeirra virði; af 20 álna landskuld, 1 fisk; af 10 álnum, „½ fiskvirði, og svo að jafnaði eptir þessu, þó minni land-„skuld taka eigi.

2) „Sömuleiðis skal gjaldast af eignarjörðum kirkna, þeirra „sem standa á bændajörðum, hvort sem þær landskuldir „uppbera andlegir eður veraldlegir jarðeigendur.

3) „Allir þeir, sem kúgildi eiga á leigustöðum, skulu fyrir

1) Þorsteinn Ketilsson við ár 1707.

„hvert þeirra gjalda ½ fiskvirði, og að jafnaði eptir ½ kú-„gildi, eða þótt minna sè í leiguburði.

4) „Allir andlegrar stèttar menn, sem til uppheldis sèr eður „embættislauna halda jarðir og inntekt af hafa, skulu af „sömu jarðar landskuldum gjalda þriðjúng við það, sem „fyrr skilur um jarðeigendur, nefnilega af hverju land-„skuldar hundraði 2 fiska, eður 2 fiska virði, af 10 aurum „1fisk, og að jafnaði af minni landskuldar inntekt.

5) „Af kúgildum þeim, er á sögðum andlegrar stèttar manna „lènsjörðum í leiguburði standa, skulu þeir sömuleiðis „gjalda þriðjúng, við það sem áður er sagt um eignar „kúgildi á leigustöðum, nefnilega af hverjum 6 kúgildum „1 fiskvirði, af þremur ½ fiskvirði, og að jafnaði eptir færri.

6) „Hèr með meinast ekki hospitölin, kristfjárjarðir, eður aðr-„ar þær, sem gefnar eru til uppheldis fátækum ekkjum, „eður öðrum guðs-þurfamönnum, af hverjum öllum jörð-„um ekkert gjaldist, hvorki af landskulda tekju nè kú-„gilda leigum.

7) „Af kirkna kúgildum, þeim sem eru á bænda jörðum, og „prestar taka hálfar leigur eptir, skulu sömu prestar „gjalda hálfu minna, en fyrr skilur um þau kúgildi, er á „andlegrar stèttar manna lènsjörðum í leiguburði standa, „nefnilega: af hverjum 6 kúgildum ½ fiskvirði, og svo að „jafnaði eptir færri. Hèr undirskiljast og prestskaup, þau „er takast af bænda kirkjum og öðrum útkirkjum, af hverj-„um eins skal gjaldast, og þau væru kirkna kúgilda leig-„ur, nefnilega af hverju þvílíku hundraði 1 fiskvirði, og „svo að jafnaði af minni prestskaupum.

8) „Þeir sem af kónglegri Maistæt að lèni hafa nokkurt „jarðagóz, hvort heldur eru klaustur, umboðsjarðir eða „einstakar kóngsjarðir, skulu lúka 1 fiskvirði af hverju „því hundraði, er í landskuld geldst af sömu kónglegrar „Maiestatis jörðum.

9) „Af leigum þeim, sem gjaldast eptir kónglegrar Maiesta-„tis kúgildi með sömu jörðum, skulu þeir lúka 1 fiskvirði „af hverra 12 kúgilda leigum, ½ fiskvirði af 6, og svo fram-„vegis eptir jafnaði.

10) „Hèr frá skiljast Vestmannaeyar, *item* kónglegrar Maie-„statis jarðir, liggjandi í Gullbríngu og Kjósarsýslum, sem

„fylgja kóngsgarðinum Bessastöðum, hvar allra jarða land-
„skuldir öldúngis eiga frí að vera.

11) „Allir þeir, sem lausafè eiga svo mikið, að þeir tíunda 5 „hundruð eður meira, skulu af sèrhverju þvílíku tíundar- „virðu hundraði, gjalda ½ fiskvirði, af 6 hundruðum 3 „fiska virði, af 10 hundruðum 5 fiska, og svo framvegis „og þar á milli eptir jafnaði.

12) „Þeir, sem minna fè eiga en 5 hundruð tíundarvirð, og ekki eru í skipta-tíund, skulu fríir vera, og ekkert í „þessu nafni gjalda.

13) „Þessi fyrr skrifuð Contribution skal betalast í gildri „kaupmanns-vöru, nú í sumar, og tilskyldast einn og sèr- hver að láta það, sem honum gjalda ber, komast til þeirra „innanhrepps móttöku-manna, sem sýslumenn tilsetja, „svo snemma sumars, að nógur tími verði til að koma í „næstu kaupstaði, því er geldst.

14) „Þeir sem fyrir nokkrum árum af hendi látið hafa nokk- „uð, mikið eða lítið, til lúkníngar fyrr tèðs reisukostnað- „ar optnefnds herra lögmanns Laurits Gottrúps, skulu að „svo miklu fríir vera, sem þá iðgoldið hafa, og alleinasta „nú viðbæta því, er vanta kann til að fylla þá summu, „sem þeim eptir ofanskrifuðu gjalda ber. Þeir og, sem „í þessa útsiglíngar Contribution svo miklu hafa útsvarað, „sem nú gjaldast á, eiga þar með fríir að vera, og ekk- „ert framar úti að láta.

15) „Finnist nokkur, hvers við þó ei vonum, sem annaðhvort „ekki vilja gjalda þessa Contribution, eður og með leynd „eður prettum undandraga nokkuð af því, er þeim gjalda „ber, þá mega þeir sömu búast við tiltali og straffi, svo „sem fyrir þrjózku eður svik, og höfum við tilsagt sýslu- „mönnunum grandvarlega hèr eptir að líta, og okkur því- „líkt, ef viðbæri, yfirhylmíngarlaust að tilkynna.

16) „Við þar á móti búumst við, eptir það þessi Contribution „söfnuð er, og herra lögmaðurinn sinn reisukostnað upp- „borið hefur, að gjöra (sem skyldugt er) skil fyrir öllu „þessu efni, í kónglegrar Maiestatis Rentukammeri, og „með rökum að sýna, hvern veg með þessa Contribution „á allar síður höndlað verður.

„Öllu framan - og ofan - skrifuðu til staðfestu setjum „við okkar nöfn og signet hèr undir.

„Að Vogatúngu í Leyrársveit, þann 9. Júní
Anno Christi 1707“.

„*Árni Magnússon.* *Páll Jónsson Vídalín*“.
(L. S.) (L. S.)

Strax er voraði 1704 tók Páll sig upp til jarðamatsins og reið í Skálholt; yfirskoðaði þar fyrst manntalsbækur sýslumanna; skrifaði síðan einn upp jarðir í Mosfellsveit, því Árni var við sömu störf á Vestmannaeyum. Eptir að Árni kom aptur, hèldu þeir jarðamatinu áfram um Kjalarnes fram til þíngs. En eptir þíngið riðu þeir austur undir Lómagnúps-sand, og gjörðu jarðabók yfir hinn vestari hluta Skaptafellssýslu, allt á milli Lómagnúps og Mýrdalssands, og gistu, á meðan erindi gjörðust, á Kyrkjubæar- og Þykkvabæar - klaustrum[1].

Ei veit eg það kæmi neitt fyrir á alþíngi þetta ár, er Páli við kæmi, en skipað var þeim nefndarmönnum með amtmanni Muller að segja upp álit sitt um Möðruvalla rèttarbót, hvort hún eigi að verða í gildi eður ei. Gottrúp lögmaður fèkk og konúngs leyfi 5. Apríl 1704 til að sigla og fylgja fram máli við hæstarètt gegn amtmanni Muller og Jóni Magnússyni, sýslumanni á Ströndum, útaf þjófnum Þórоddi[2]. Gottrúp neytti leyfisins, en amtmaður setti Pál aptur í Gottrúps stað, sem lögmann norðan og vestan; þá feingu þeir nefndarmenn líka þetta sumar skipun um, sem fljótast að láta það uppi, sem þeim þækti landinu horfa til viðreisnar og fljótt yrði ákomið[3], og var skýrsla þeirra tildrög til tilskipunar 15. Maí 1703 um aftöku ýmsra ókynja á Íslandi. Stephensen telur hana lítilsverða[4], en þó er hún enn eptir 140 ár í gildi, og verður víst margt úr henni notað við komandi landbúnaðarlög. Nefndarmenn gáfu og þetta árið, sem 2 en undangángandi, konúngi skýrslu um ástand landsins, og eru brèf þeirra þar um dagsett að Hvammi í Hvammssveit 16. Apríl 1702, að Hvalsnesi 30. Ágúst 1703, og að Þykkvabæarklaustri 20. Sept. 1704[5].

Strax á bak páskum veturinn 1705 reið Páll norður um

---

1) Þorsteinn Ketilsson við ár 1704. 2) Ketilsen III, 335. 408. 409. 3) Þorsteinn Ketilsson l. c. 4) Island i det 18. Aarh. pag. 415. 5) Ísl. Lærd. lista. fèl. r. XIV, 102, 104, 105, nott. 177, 179, 180.

land, og þíngaði hann þá 17. Apr. á Skriðu í Hörgárdal þriggja hreppa þíng um barns útburðarsök konu nokkurrar í Þíngeyrarþíngi, Sigríðar Vigfússdóttur, sem árið áður hafði fleygt barni sínu í Skjálfandafljót. Dæmdi hann hana frá lífi, og var henni að lögmanns dómi, að þeirrar aldar sið, strax rèttað. Þann 23. sama mánaðar, sem var sumardagur fyrsti, og fylgjandi 5 daga hèlt Páll enn fjölment 3 hreppa þíng að Saurbæ í Eyafirði um mál Magnúsar Benediktssonar á Hólum og Jóns Hálfdánarsonar, sem meint var að myrt hefðu hússkonu á Úlfá, Guðrúnu að nafni, þúngaða að Magnúsar völdum. Hafði Laurits Hansson Scheving, sýslumaður þar, dæmt Magnús og Jón seka, en þeir báðir og sýslumaður löglagt sig undir dóm lögmanns, og dæmdi hann Magnúsi tylftareið, eptir Jónsbókar þjófabálki 19. kap. til undanfærslu, en varðhald eða vörzlur nægar, meðan eiðsfresturinn liði. Þaðan reið Páll suður um land og gjörði einn jarðabók í Kjós, og á því er eptir var af Kjalarnesshreppi. Þá hitti hann Sigurð lögmann Bjarnarson, sem þá bjó á Saurbæ á Kjalarnesi; og var heldur fálegt með þeim. Páll sagði honum, að eptir því sem fram hefði farið milli þeirra á Vallá áður, skyldi lögmaður eingrar vináttu af sèr vænta, en ei er getið, hvað þetta var. Skildu þeir þó skipulega[1]. Þaðan reið Páll að Bessastöðum, og var þar í boði hjá Páli Beyer landfógeta, er ásamt var um veturinn í amtmanns stað, því hann hafði verið erlendis. Þeim varð þá sundurorða nöfnunum, út af dómi þeim, er áður er nefndur í sök Magnúsar Benediktssonar, og níddi Páll Beyer dóminn. Páll Jónsson svaraði honum: „Eg „vil svara fyrir mína dóma; þèr eruð ekki maður til að hrekja „þá. Veizlu Yðar þarf eg ekki með", og stökk hann úr boðinu og inn í Kjós aptur og bjóst þaðan til alþíngis. Þíngið settu þeir Sigurður lögmaður og Páll vegna Gottrúps, því hann var ei aptur kominn, og þó hann kæmi aptur um þíngið, kom hann ei þángað. Eptir að þíngið var sett, birti Niels Kjer, sem þá var orðinn sýslumaður í Kjósarsýslu, en nýlega var kaupmannsdreingur í Hólminum, í amtmanns umboði kóngsbrèf 24. Marts 1705, að lögrèttumanna nefnd ætti fram að fara eptir N. L. 1. 7. 2., en ekki að fornum sið. Páll var til ansvara og inti Kjer eptir: hvort amtmaður eða nokkur

---

1) Þorsteinn Ketilsson við ár 1705.

hans vegna hefði gjört nokkurn undirbúníng til ennar nýu lögrèttumanna nefndar? Kjer neitaði því. Voru þá allir sýslumenn og lögrèttumenn tilkallaðir, og leizt öllum sama, að ei mætti fresta þínginu, og var það því undirbúið að fornum sið, og svo frá lögrèttu geingið. Amtmaður Muller kallaði Pál fyrir sig, og var svo reiður yfir spurníngu hans, að ei fèkk talað nema með hvíldum, en ofsi hans sefaðist við það, að bæði Kjer og Jón Eyólfsson kváðu lögmann hafa rètt gjört[1].

Lögmaður Gottrúp hafði 1703 stefnt bónda nokkrum, landseta sínum, Þorláki Ólafssyni á Forsæludal, fyrir jarðar ábúð með öðru fleira, og dæmdi lögsagnari Gottrúps, Sigurður Einarsson, bóndann í 11 marka sekt. Bóndi bar sig upp við amtmann, sem 1704 stefndi bæði Gottrúp og Sigurði fyrir lögrèttuna 1705, en Sigurður lögmaður var umboðsmaður Gottrúps, meðan hann var utan, og vildi því ei dæma, en gekk frá, þegar stefnan var framborin. Amtmaður tvískipaði honum að dæma, en það tjáði ekki. Loks kom hann í lögrèttu og reyndi til að sætta þá Þorlák og Sigurð lögsagnara. Páll vildi dæma málið og sagði þó: „Eg sit hèr ekki til að sætta mál manna, nema með dómi, en eingum góðum sáttum vil eg spilla“. Þær urðu lyktir sættanna, að ellefu marka sektin fèll niður, en þeir lögmaður og Sigurður Einarsson guldu Þorláki 3 hundruð í ómakslaun[2]. En því færi eg þessa sögu til, að bæði lýsir svar Páls manninum, og líka sagan, hvernin lög geingu þá í landi hèr. Gottrúp lýsti á alþíngi 1706 ósátt sinni á þessum sáttum, en lèt þó svo búið standa[3]. Þann 24. Marz 1705 var þeim Páli og Árna af konúngi skipað, að dæma ásamt amtmanni í 24 manna rèttinum í máli milli Gottrúps lögmanns og 8 bænda í Húnaþíngi[4]. Hafði Gottrúp, er ásamt var þar sýslumaður, heimtað þar vitnisburði sína, en þessir 8 voru tregir til að gefa, og lèt hann því lögsagnara sinn Sigurð áður nefndan fella dóma á þá til sekta í Júní 1703, og var þeim skotið til alþíngis sama ár, og dæmdu þeir lögmenn báðir, Sigurður og Gottrúp sjálfur, með lögrèttunni bændurnar skylda til að biðja Gottrúp fyrirgefníngar, þola opinberar skriptir, að því er sýnist, og lúka sektum til fátækra, eptir því sem lögsagnari Gottrúps vildi ákveða og þeir megnuðu[5]. Þetta hefði

1) Þorsteinn Ketilsson við ár 1705. 2) Samastaðar; Alþ. bók sama ár, Nr. 12. 3) Alþ. bók 1706 Nr. 20. 4) Ketils. III. 417. 5) Alþ. bók 1703 Nr. 2.

nú þótt lagaleysi á okkar dögum, og var því ei að undra, þó þeir Páll og Árni bæru klögumál um þetta til stjórnarráðanna, því 6. grein í erindisbrèfi þeirra hafði boðið þeim að frambera öll alþýðunnar klögumál yfir amtmanni, lögmönnum, jarðeigendum, klaustrahöldurum, umboðsmönnum, sýslumönnum og hreppstjórum [1], enda skaut Friðrekur IV. máli bændanna kauplaust fyrir æðra rètt, með brèfi til amtmanns Muller 13. Maí 1704 [2]. 24 manna rètturinn dæmdi þá lögmenn báða og Sigurð Einarsson lögsagnara, til að endurgjalda bændum kostnað sinn og verkatafir, og Gottrúp að auki til að svara kóngi í sekt 1 mörk fyrir hvern rángsóktan bónda [3]. Þá var þeim nefndarmönnum enn þetta árið 12. Maí 1705 skipað ásamt Sigurði Sigurðarsyni landþíngis-skrifara og Eggerti Jónssyni á Stóru-Ökrum, að útkljá með nefndardómi ýmsar þrætur, sem voru milli amtmanns Muller og Gottrúps [4]. En árið eptir þann 10. Maí voru þeir Páll og Árni leystir frá þessari sýslun [5], því Gottrúp hafði það fyrir borið, að þeir væri viðriðnir málin, og mætti því ei dómarar vera. Sama árið 1705 var þeim Páli og Árna enn fremur frá Rentukammeri send mörg og mikil skjöl, viðvíkjandi verzlunar-málefnum landsins, og þeir spurðir atkvæða um, hvort landinu væri ei betri fèlags (Compagnie) verzlun, en sú er þá var, að einstakir verzlunarmenn hefðu hafnir sèr, með aðgreindum bygðarlögum til aðsóknar. Hafði amtmaður Muller verið fèlags-verzluninni næsta meðmæltur. Báru þeir Páll og Árni saman ráð sín um þetta vandamál, og kom það ásamt, að fèlags-verzlunin væri hinni skaðvænni, og skyldi því Árni sigla að haustinu til, að sporna við henni af alefli, gegn þeim amtmanni og verzlunarmönnum, en Páll skyldi framhalda jarðamats-störfum á meðan [6]. Má af þessu sjá, að ei hafa þeir Espólín og Stephensen alls kostar rètt fyrir sèr, er þeir eigna þetta Árna eingaungu [7]. Þá var þeim Páli og Árna enn þetta árið 3. Febr. 1705 skipað, ásamt amtmanni Muller, að dæma í 24 manna rèttinum, um illyrði Jóns Snorrasonar prentara gegn Guðmundi, syni Jóns prests Gíslasonar á Torfastöðum [8], en ei veit eg, hvernin máli því reiddi af. Í þínglok um sumarið sagði Sigurður

---

1) Arnes. isl. Retterg. p. 522. 2) Ketils. III, 336. 3) Þorsteinn Ketilsson við árið 1705. 4) Ketils. III. 419; Alþ. bók, 1705 Nr. 18. 5) Ketils. III, 423, 6) Þorsteinn Ketilsson við ár 1705. 7) Esp. Árb. VIII, 99; Isl. i det 18. Aarh. 317, 1. 8) Ketils. III, 416.

lögmaður Bjarnarson af sèr embætti, og tók því Páll algjörlega við lögmanns embætti sunnan og austan, en Sigurður fèkk Árna Magnússon til að semja við Pál um miðlun á lögmannslaununum þeirra á milli, og skeði það með góðri eíngu á Görðum á Álptanesi[1]. Árni sigldi, sem ákveðið var, um haustið 10. Sept. úr Keflavík, og skildu þeir Páll ei fyrr en segl voru uppdregin[2]. Á heimleiðinni frá skilnaði þeirra Árna, hitti Páll í Norðvík innri Jón sýslumann Eyúlfsson í Nesi og Hólmfast Guðmundarson, og sætti þá, með 20rd. bótum af sýslumanni til Hólmfasts, fyrir húðstroku þá, er hinn hafði látið á hann leggja á Kálfatjarnar þíngi fyrrum, fyrir það hann seldi fáeina úrgángs-fiska öðrum verzlunarmanni, en bar, að þeim lögum, er þá geingu[3]. En því skipti Páll sèr af þessu, að konúngur hafði, að því er Espólín skrifar[4], umboðið þeim nefndarmönnum að prófa sök Hólmfasts. Um haustið gjörði Páll einn jarðabók um Hrútafjörð, Miðfjörð, Vatnsnes og Vesturhóp, en áður hann fór í þá för, er þess viðgetið, að hann fór í Spákonufellshöfða; var þar fyrir Gottrúp lögmaður frá Þíngeyrum, og vildi Páll hitta hann; en Gottrúp reið á burt, þegar er hann sá Pál kominn. Páll elti Gottrúp, og hittust þeir við Hólanes. Voru kveðjur þurlegar í fyrstu, stigu þó af baki og töluðust við[5]. Páll sýndi honum konúngsbrèf 21. Marts 1705[6], sem skipaði þá biskupa báða, Árna Secretera og amtmann Muller í nefnd, ásamt 2, 3 eða 4 öðrum af Gottrúps hálfu, til að útkljá misklíð milli hans og Páls um endurgjald fyrir þjónustu Páls við Gottrúps lögmanns embætti, meðan hann var erlendis 1701—2 (mikils hefir þókt viðþurfa). Fór þá með þeim Gottrúp meinlauslega, og beiddi hann Pál að finna sig um þetta á heimleiðinni, og það gjörði Páll. Ætla eg þessi misklíð hafi þá þó ei samizt með þeim, því 16. Maí 1707 var með kóngsbrèfi amtmaður Muller og biskup Björn tekinn úr nefndinni af Páls hálfu, en Gottrúps megin voru með öðru kóngsbrèfi frá sama degi í hana skipaðir: Sigurður landþíngsskrifari Sigurðarson, og Vigfús sýslumaður Hannesarson[7]. Hafði Gottrúp borið það fyrir, að þeir Björn biskup og amtmaður væru málið viðriðnir,

---

1) Þorsteinn Ketilss. við ár 1705. 2) Samastaðar. 3) Ketils. III, 341. 4) Espól. Árb. VIII, 77. 5) Þorst. Ketilss. l. c. 6) Þetta ætla eg þá einu rèttu tilvitnun hjá Stephensen Isl. i det 18. Aarh. p. 322. 7) Ketilss. III, 428, 429.

biskup sem vitni, en amtmaður sem partur, þar hann hefði kyrrsett lögmannstolla Gottrúps Páli í vil. Má af þessu sjá, hvað rètt það er, sem Espólín ritar hèr um, að Gottrúp hrundið hafi með lögum öllum nefndarmönnum Páls, því eptir voru þeir Jón biskup og Árni[1]. Ei veit eg, hverninn mál þetta lyktaði. Um veturinn 1706 eptir nýárið skrifaði Páll upp hús og kirkju á Hólastað, því þó hann ferðaðist þángað um veturinn 1703, sem áður er sagt, gat ei, í það sinni, orðið af uppskriptinni, vegna heyaskorts á staðnum, því fjölhýst var og fólk þurfti til að kalla, sem hefði orðið að dvelja þar svo dögum skipti[2]. Um föstuskeið sendi Bessi Guðmundarson, sýslumaður í Múlaþíngi, til Páls og beiddist hans úrskurðar, um barnsútburðar-sök Hallfríðar Magnúsdóttur í Kjölsvík og Ólafs þjófs Kolbeinssonar, en Páll var ei þess búinn og kvaðst eingan óheyrðan dæma, og beið því sökin alþíngis[3]. Um vorið gjörði Páll einn jarðabók um 3 syðstu hreppa Borgarfjarðarsýslu. Í þeim störfum fèkk hann á Hvítasunnudags-morgni með Hólmsskipi brèf frá vin sínum Árna, og varð næsta glaður við. Hafði Árni um veturinn, eptir sem áður var undirlagt þeirra á milli, hrakið allt fyrir þeim amtmanni Muller og verzlunar-mönnum, um fèlags-verzlunina, og þókti Páli það vel orðið, og hirti ei þó hann heyrði eptir Muller, eptir að hann kom út laust fyrir þíngið, öfugyrði eða jafnvel heitíngar til sín um það efni[4]. Alþíngið settu þeir lögmenn Páll og Gottrúp 8. Júlí, sem venja var til, og spurði þá Páll eptir, eins og árið fyrra, hvert nokkur vissi til, að amtmaður haft hefði nokkurn viðbúnað til nýrrar lögrèttumanna-nefndar, eptir kóngsbrèfinu 24. Marts 1705, og níttu allir því. Voru þá nefndir lögrèttumenn, að fornum sið. 2 dögum seinna fèkk Páll brèf frá Muller, hvar í hann harðlega skipaði lögmönnum að fylgja kóngsbrèfinu. Páll tók votta að, nær hann hefði brèfið feingið, og bar það eptir helgina 12. Júlí í lögrèttu, og vildi einginn framar gegna því[5]. Má af þessu marka, að Páll ekkert far gjörði sèr af, að vingast við amtmann, þó hann vissi hann Gottrúp fráhverfan[6]. Ýms mál komu til dóms á alþíngi, og hirði eg ei að telja, en markvert var það, að í

1) Espól. Árb. VIII, 94, 2) Þorst. Ketilss. við ár 1703 og 1705. 3) Samastaðar. 4) Samastaðar. 5) Alþ. bókin 1706 Nr. 1 og 4. 6) Isl. i det 18. Aarh. p. 315.

tveim þeirra vildi Gottrúp ekki dæma, þó amtmaður Muller harðlega skipaði honum það, og eru afbatanir Gottrúps næsta ómerkilegar[1]. Páll dæmdi því einn með lögrèttunni um bæði málin, eptir skipun amtmanns. Annað var um morðsök Magnúsar Benediktssonar, hvers áður er getið. Hafði Páll dæmt honum tylftareið til undanfærslu hið fyrra árið, en amtmaður skipað sýslumanni Haldóri Einarssyni að taka eiðana, en þegar til átti að taka, varð Magnúsi eiðfall, því öll nefndarvættin svörðu á móti honum, og var því nú að meta, hver sekt Magnúsar væri fyrir morðgruninn og tylftareiðs- fallið, og dæmdi Páll með lögrèttunni hann útlægan af landi eptir Llb. 30. Capít. Hitt málið var um þrætu milli Aðalbóls í Miðfirði og Hreiðarstaða um afrèttina Lambatúngur, og dæmdi Páll og lögrèttan Aðalbóli afrèttina. Fleiri greinir urðu á þessu þíngi með þeim Páli og Gottrúp, svo sem þegar hann vildi reka Pál úr dómssæti í máli Gottrúps við landseta hans Brynjúlf bónda Hálfdánarson á Saurbæ í Vatnsdal, út úr tarfsfóðri, og bar þó lítið annað fyrir, en að málinu væri stefnt fyrir lögrèttuna, en lögmaður ei sèr í lagi nefndur í stefnunni[2]. Líka þegar hann berlega mótmælti og vildi vefeingja allar sættir, er Páll hefði gjört milli málsparta í norður og vestur lögdæminu, meðan Gottrúp var erlendis, og er þó óvíst, hvort þær, er frá Húnaþíngi voru, hefðu horft Gottrúp til meiri sæmdar, að dæmdar hefðu verið, því vegna fèdráttar og harðýðgi átti hann í sífeldum erjum við landseta sína og sýslubændur, en lèt þá lögsagnara sinn skakka millum sín og bændanna, og fór þá að vonum sá ekki sekur af þínginu, er sjálfur átti að dæma.

Eptir þíng um sumarið 1706 gjörði Páll einn jarðabók yfir Selvog, Grafníng og nokkurn hluta af Ölvesi. En þá norður kom, hèlt hann einn sömu störfum fram um haustið yfir Svínadal, Ásahrepp Fremri, Vatnsdalshrepp og Víðidal[3].

Um vorið 1707 tók Páll sig upp og reið suður um land, gjörði þá einn jarðabók í Skilmannahreppi á Akranesi. Rètti hann í þeirri ferð hluta kotúngs eins, sem Jón hèt Alexíusson, og aflaga var borinn af hustrú Guðríði Þórðardóttur á Leirá, sem þá var önduð, og syni hennar Jóni. Höfðu þau

---

1) Alþ. bók 1707 Nr. 7, 8, 11, 12 og 14. 2) Alþ. bók 1707 Nr. 19. 3) Þorsteinn Ketilsson við ár 1706.

mæðgin feingið dóm Jóns sýslumanns Sigurðarsonar, bóndanum til áfellis, en af því teingdasonur hustrú Guðríðar, Jón biskup Vídalín, þá kom að austan, til arfaskipta á Leirá eptir hana, þá samdi Páll við hann um málið, bóndanum í hag, og fèll málið svo niður; ei er getið, hvar um það var. Svo hèlt Páll áfram jarðamatsstörfum einn í Leirár- og Melasveitum, Andakíl og Skoradal. Var þá komið að þíngi[1]. Um vorið komu út embættisbrèf þeirra Odds Sigurðarsonar og Jóns sýslumanns Eyúlfssonar[2]. Átti hinn að vera varalögmaður Gottrúps, en Jón sýslumaður varalögmaður Páls, og var Páll þá fertugur, en Jón hafði 65 ár á baki, og þókti þetta heldur kýmilegt. Páll fèkk þá konúngsleyfi 13. Maí 1707, að mega búa á eignarjörð sinni Víðidalstúngu, meðan á jarðamatsstörfum hans stæði[3]. Þá feingu þeir nefndarmenn og konúngsskipun sama daginn, að dæma um ákæru þeirra Ásbjarnar Jókkumssonar og Guðbrandar Þorlákssonar, gegn lögmönnum Sigurði Bjarnarsyni og Gottrúp. Mál Ásbjarnar var 27 ára gamalt; hafði Gottrúp þá verið umboðsmaður fógeta Jóhanns Kleins og sendi umboðsmann sinn Pètur Andresson yfir Skerjafjörð, að hann sagði, í fógeta erindum. Pètur heimtaði flutníng kauplaust yfir fjörðinn, og var Ásbjörn ei þess búinn. Gottrúp stefndi honum fyrir þessa óhlýðni og dæmdi Sigurður lögmaður Bjarnarson Ásbjörn til hýðínga tvennra, sem hann mest mætti bera. Var sú fyrri strax álögð, til þess Ásbjörn leið í aungvit; þegar af honum bráði, var honum gefið að drekka, og hann svo hýddur á nýan leik, svo hann aptur fèll í ómegin[4]. Stephensen þegir yfir Gottrúps nafni við þessa sögu[5], og Espólín virðist ekki að gjöra mikið úr henni[6], og þó er kóngsbrèfið til vitnisburðar um, að sönn sè sagan, þó ljót sè. Guðbrandur Þorláksson hafði það að kæra á Gottrúp, að hann ei vildi skila frá sèr silfurkaleik með diski, er Grundarkirkja í Eyafirði átti, en Gottrúp hafði tekið að veði, fyrir skuld Guðbrandar. Fleiri voru slíkar sakir á Sigurð og Gottrúp, og átti Oddur að vera sóknari í þeim öllum fyrir nefndarmanna dómi. Dómar í þeim fóru ei út fyrr en 1708, þann 28. Júlí, og telur Espólín flesta þeirra[7].

---

1) Þorsteinn Ketilsson við ár 1707. 2) Ketils. III, 428. 3) Samastaðar III, 427. 4) Samastaðar III, 347. 5) Isl. I 18. Aarh. p. 329 not. 2. 6) Espól. Árb. VIII, 105. 7) Samastaðar, 115, 116.

Svo segir Þorsteinn Ketilsson[1], að Gottrúp og kona hans riðu skömmu fyrir alþíngi 1707 til Bessastaða, og hafi þá kona Gottrúps fyrir meðalgaungu Páls Beyers og konu hans, feingið að mæla við amtmann, og grátandi beðið reiði hans af manni sínum, og að Gottrúp feingi viðtal við hann. Amtmaður veitti það og sættist við Gottrúp fyrir auðmýktarfulla bæn hans. Þykir mèr þetta sannlegra, en frásögn þeirra Stephensens og Espólíns, að amtmaður yrði hræddur við þíngsvitna töku Gottrúps[2], því ekki veit eg, nær hún hefir átt fram að fara, og ekki finn eg hennar getið í alþíngisbókunum; en á því má marka hreinlyndi og staðfestu amtmanns Mullers, að hann þá hafði í höndum frá rentukammeri ýmisleg fáryrði frá Gottrúp, bæði til sín og Páls lögmanns, en lèt Pál fá, skömmu eptir sættina, staðfest eptirrit þessara skjala, og sýndi honum stóryrði þau, er hann ætlaði að svara gegn Gottrúp. Gottrúp var veikur um þíngið, og gegndi Jón Eyólfsson störfum hans 12. Júlí eptir tilmælum Páls, meðan Oddur varalögmaður Gottrúps ekki kom til. Ekki vildi Páll heyra flymtun um það, að veikindi Gottrúps væru skrópar einir[3]. Á þínginu kom fátt merkilegt fyrir, það Pál snerti, nema að lesið var kóngsbrèf 24. Maí 1707 til þeirra Mullers og nefndarmanna, að gegna þeim mótmælum gegn 4. grein, í tilskipun 15. Maí 1705, um leiguburð úrdauðra kúgilda, er Gottrúp hafði gjört eð fyrra árið[4]. Enda má það sjá á sögnum Þorsteins Ketilssonar við árið 1704, að ákvörðun þessarar greinar leit ekki sízt til framferða Gottrúps á Þíngeyra-klausturs jörðum og í Húnaþíngi. Oddur varalögmaður lèt á þessu þíngi lesa skipun stiptamtmanns Gyldenlevs til sín, að vera allsherjar sóknari gegn embættamönnum, fyrir yfirsjónir þeirra, og annara, og krafði með öðru skjali alla til að gefa sèr slíkt til vitundar[5]. Af alþíngi riðu þeir Páll og Árni til Bessastaða, til þess að svara ásamt Muller til kóngsbrèfsins, er seinast var nefnt; var þá Muller í óða önn að búast til siglíngar, og varð því ei af samverkum þeirra, sem ætlað var. Reið amtmaður til skips í Hólminum, en þeir nefndarmenn áleiðis til Snæfellsnessýslu. Þegar Páll snöggvast hafði brugðið sèr til búss þess, er hann þá

1) Við árið 1707. 2) Isl. I 18. Aarh. p. 322, 323; Espól. Árb. VIII, 105. 3) Þorsteinn Ketilsson við ár 1707. 4) Alþ. bók 1707 Nr. 8. Ketils. III, 353. 5) Alþ. bók 1707 Nr. 4 og 16.

átti í Reykjadal enum nyrðra, að Deildartúngu, hittust þeir Árni og hann aptur við Barnaborgir í Staðarhrauns-hrauni til að leita þar saltpèturs, og fundu hans nokkrar menjar. Þaðan riðu þeir til Rauðamels og gistu þar at Odds varalögmanns um nóttina. Oddur fylgdi þeim daginn eptir út fyrir Hafursfell; þar lagði Árni sig til svefns, en Páll og Oddur töluðust við, báðir nokkuð drukknir, þó Oddur einkum. Varð þeim þar meir en lítið sundurorða, og var það efni deilunnar, að Páll kallaði Odd jafnan varalögmann, en Oddur vildi láta hann kalla sig allsherjar sóknara, en Páll vildi ei. Skildu þeir allfálega. Má af þessu marka, hvert dramb Odds var frá upphafi. Þaðan riðu þeir nefndarmenn til Slítandistaða og gerðu þar brèf sín. Þaðan fór Páll út á Stapa, og gjörði þar jarðabók yfir Breiðuvíkurhrepp út að Öndverðunesi, og með honum Pètur Markússon, áður ráðsmaður á Hólum, en nú í þjónustu Árna. Þegar Páll kom aptur að Slítandastöðum, kom þar Oddur varalögmaður, sem sendiboði Jóns nokkurs Torfasonar sýslumanns á Barðaströnd, til að stefna þeim Árna og Páli fyrir hæstarètt í máli Magnúsar Sigurðarsonar á Bræðratúngu gegn Árna. Önnur hæstarèttar stefna var á Páli í morðsök Magnúsar Benediktssonar, hvers áður er getið.

Um þessar mundir var bólusótt sú, er síðan hefir verið köllluð stórabóla, orðin hvervetna svo mögnuð, að bæir máttu heita aleyða af heilbrigðum mönnum, og urðu nefndarmenn því frá að hverfa jarðamatsstörfum. Á Stapa lögðust 3 menn af Páli, einn þeirra var sá Þorsteinn Ketilsson, er opt hefir verið nefndur. Á Slítandastöðum láu 3 fylgdarmenn Árna. Páll hèlt því nú fáliðaður heimleiðis, en meðan hann hálfa eykt stóð við á Staðastað, komu þar 6 lík til kirkju, þó ei nema 1 í einu. Páll reið til Hítardals, því Jón prófastur Haldórsson, er þar bjó, var góður vinur hans; báðir höfðu þeir verið saman kennarar við Hólaskóla; láu þar þá 15 manns bólusjúkir, og kona prófasts að auki, af þreytíngu yfir heimilisfólki sínu; 9. dag Októbris kom Páll heim til sinna, og var þar eins ástadt; þar láu 13 veikir, og Páll Jónsson, er kendi börnum lögmanns var dáinn. Páll vildi strax ferðast norður um land, til að halda fram jarðamatsstörfum, eptir því sem þeir Árni höfðu ráð fyrir gjört, þá þeir skildu vestra; en frá því varð hann að hverfa, því allstaðar var eins ástadt, og eingan gat hann feing-

ið til fararinnar. Árni var yfir þeim veiku á Slítandastöðum[1].

Um vorið 1708 strax í Maímánuði tók Páll til jarðamatsstarfa. Reið suður Holtavörðuheiði og gjörði einn jarðabók í Norðurárdal og Þverárhlíð í Mýrasýslu. Þaðan fór hann suður yfir Hvítá, og lauk því, er eptir var orðið af Borgarfjarðarsýslu. Leið svo til 10. Júnímánaðar, þá reið Páll til Þíngvalla, því tveim dögum síðar áttu en fyrstu mál að berast fyrir nefndardóm þeirra Árna, þeirra er þeim var skipað um að dæma hitt eð fyrra árið. Árni kom að ákveðnum tíma, og hèldu þeir á málum sínum. Þá kom fregn um, að Muller kæmi ei optar út híngað, en að landfógeti Páll Beyer ætti að vera hans fulltrúi hèr, en Oddur Sigurðarson Gyldenlevs stiptamtmanns. Þegar á milli varð fyrir þeim Páli og Árna, fór Árni í Skálholt, en Páll til Snæfuglsstaða í Grímsnesi, og gjörði jarðabók yfir sveit þá, fram til þíngs. Þíngið var sett á mánadag, og voru allfáir komnir; varð því ei að málum gjört seinni hluta dagsins, og bauð þá Beyer öllum heldri mönnum í búð sína um kvöldið. Oddur varalögmaður var kominn og setti hann sig efstan í boðinu, sem fulltrúi stiptamtmanns. Þar var drukkið í meira lagi, nema af lögmönnum báðum[2]. Gottrúp gekk bráðum á burt og kom ei aptur, þó hann lofaði. Páll sat nokkru leingur og Jón Eyúlfsson varalögmaður. Tók þá að færast öl á þá Odd og Beyer, og sló með þeim í heitíngar; báðir gripu til vopna, en Páll og Jón lètu þá ei ná að berjast. Háreysti varð mikil og smánaryrði, og flyktist fólk að búðinni alla vega. Einhverju sinni er Páll gekk frá, sögðu menn að korði Odds hefði snortið eyra á konu Beyers, sem fylgdi þeim lögmönnum í að stilla óróann. Oddur krafðist vitnisburðar um orð Beyers, en Páll kvaðst verða að sofa út í nótt, áður hann vitnaði, og vita hvað hann myndi til orðanna að morgni. Nú gekk Jón Eyúlfsson burt, svo Páll var einn eptir embættismanna með þeim Oddi og Beyer. Vildu þeir þá hlaupa saman, en Páll hrakti þá Odd út úr tjaldinu og í búð hans, en kona Beyers loddi á honum á meðan. Páll kom þángað aptur strax og hjálpaði henni til að koma Beyer í sæng. Þaðan flýtti Páll sèr til Odds, sem þá var í óðakappi með að rífa upp tjöld sín til að flytja leingra frá Beyer. Páll

---

1) Þorsteinn Ketilsson við ár 1707. 2) Sami við ár 1708.

fèkk hann frá því, og sýndi honum, hver missmíði á því væri, eins og einnig á öllu þessu athæfi. Oddur sansaði sig og þakkaði Páli fyrir tillögur hans og stillíngu, og hèt góðu á móti, þó aldrei efndist. Beyer og kona hans hètu Páli daginn eptir öllum virktum fyrir hans umsýslun. Páll hvatti þá mjög til sátta sem bráðast, og þegar Jón varalögmaður kom til lögurèttu daginn eptir, gladdi sú fregn hann, að þeir Oddur og Beyer væru sættir[1]. Páll átti ekki í annð sinni annríkara, en á þessu þíngi, því hann sat í lögrèttu að sínum lögmanns erindum; aðra stund stóð hann fyrir dómi enna 24 manna, og þó varð hann líka að vera á tali við Árna um þau mörgu vandamál, er þeir áttu um að dæma, að kóngsboði; hann varð að heyra þau, og sitja yfir málspartanna sókn og vörn, og ei gátu þeir uppkveðið dóma sína fyrr en 28. Júlí[2]. Má lesa um dóma þessa hjá Espólín[3], og ekki vefeingi eg það, er hann þar segir, en ramskakt er það, er Stephensen segir hèr um[4], því frá æru dæmdu þeir Páll ekki Sigurð Bjarnarson, og lögmaður var hann ekki, nema að nafninu til, síðan 1705, að hann sagði af sèr. Í 24 manna rèttinum átti Páll að gegna 3 stefnum, og voru lögmannsdómar hans með þeim ákærðir, en markvert er það, að þeir lögmenn Gottrúp og Oddur, sem ásamt honum dæmt höfðu dóma þá, er áfríaðir voru, eru ei ásamt honum stefndir til andsvara, og Oddur nefndi með Beyer dómsmenn sjálfur í 24 manna dóminn til álita um Páls verk, sem honum voru þó sameiginleg með Oddi. Eitt af málum þessum vann Páll að öllu; á annað sættist hann mót vilja sínum, að bón Árna og annara vina sinna; í enu þriðja máli var lögmanna dómurinn, í máli Vigfúsa sýslumanns Hannesarsonar og Arngríms Bjarnasonar vefeingdur[5], og var margrædt um, að valdið hefði múta til Níels Kjer teingdasonar Jóns Eyúlfssonar, sem var Beyers æðsta ráðaneyti[6]. Þrískipt var líka um dómendur, meðan á sökinni stóð[7]. Að þínglausnum reið Árni í Skálholt og bjóst til utanferðar, en Páll á Eyrarbakka, og gjörði jarðabók um Flóa-sveitir. Árni kom til skips og sigldi á Eyrarbakka 9. Sept. um haustið, en Páll reið

1) Þorsteinn Ketílsson við ár 1708. 2) Samastaðar. 3) Espól. Árb. VIII, 115, 116. 4) Isl. i 18. Aarh. p. 332, cfr. 336. 5) Dómabók yfirrèttarins 1708—1715 á skrifstofu stiptamtsins bls. 6, 7. 6) Þórsteinn Ketilsson við ár 1708. 7) Dómabók yfirrèttarins bls. 3, 5.

þá strax eptir norður og gjörði jarðabók fyrir norðan Blöndu í Húnaþíngi[1].

Þess er getið, að þeir Páll og Árni hafi þetta árið feingið áminníngar-orð konúngs um, að flýta jarðamatsstörfum þeirra[2], og að hið sama hafi enn alvarlegar verið ítrekað af rentukammeri síðar, árin 1710 og 1712[3]. En lítið gáði þá stjórnin þess, að hún hafði með erindisbrèfi nefndarmannanna, hvers áður er getið, sett þá til höfuðs, svo að segja hverjum manni í landi, og sjálf flækt þá samt, sem dómara, í eldgömul og flókin vandamál, yfir aflaga gjörðum stríðlyndra stórbokka, sem aptur leituðu allra bragða til hefnda, og til að ránghverfa málunum, en tefja þeirra rèttvísar úrlausnir. Það var ei heldur að undra, þó þeir herrarnir í Danmörku væru 1708 orðnir lángeygðir eptir endalokum jarðamatsins, fyrst þeir voru svo ókunnugir högum landsins, að þeir hèldu, að öllu jarðamatinu yrði aflokið á einu ári, 1702, hvað ráða má af brèfi Árna 28. Ágúst 1703 til yfishofmeistara Walther[4].

Um vorið 1709 fór Páll suður til Borgarfjarðar og hèlt fram jarðamatsstörfum vestur yfir Mýrar allt í Kolbeinsstaðahrepp. Á Staðarhrauni fèkk Páll brèf frá vin sínum Árna og frèttir af því, er gjörzt hafði erlendis um veturinn. Var mál þeirra Magnúsar Benediktssonar, sem Páll hafði áður dæmt til útlegðar, og Jóns Hálfdánarsonar dæmt í hæstarètti 16. Marzmánaðar og Magnús dæmdur á Bremarahólm, en Jón til útlegðar. Páll reið til alþingis á ákveðnum tíma. Þar lèt Sigurður lögmaður fyrst allra lesa konúnglegt leyfisbrèf 4. Maí 1709, að hann mætti innstefna fyrir 24 manna dóminn öllum dómum nefndarmanna honum á móti hið fyrra árið[5]. Tveir menn, Þorsteinn Pálsson og Bjarni Bjarnason, höfðu þar stefnt Jóni Magnússyni sýslumanni í Strandasýslu, bróður Árna, en mági Páls, og feingu þeir Oddur og Beyer þá til að mótmæla Páli sem dómara fyrir mægða sakir við Jón, og vèk þá Páll úr sæti[6]. Þriðju stefnu yfir Jóni höfðu þeir Oddur og Beyer, fyrir Jóns annað hórdómsbrot. Þegar málið kom fyrir í lögrèttu sagði Gottrúp lögmaður við Pál: „jeg veit ei, hvort „þèr megið í þessu dæma fyrir mægða sakir“. Páll svaraði:

1) Þorsteinn Ketilsson við ár 1708. 2) Espól. Árb. VIII, 114, 115. 3) Isl. i 18. Aarh. p. 333. 4) Nord. Tidskr. for Oldkyndighed III, pag. 77, 78. 5) Alþ. bók 1709 Nr. 2. Cfr. Ketils. III. pag. 438, 439, 443. 6) Samastaðar Nr. 16, 17, og Þorst. Ketilss.

„mèr er heldur einginn hugur á því". Gall þá Oddur við: „málinu er ei fyrir yður stefnt, heldur Gottrúp lögmann og norðan lögrèttuna". Stóð þá Páll upp og gekk á burt, og með honum hans lögrèttumenn. Oddur lèt kalla eptir þeim, en þeir gáfu því ei gaum [1]. Gottrúp og hans lögrèttumenn dæmdu Jón frá embætti, samt til sekta og hýðíngar [2]. Páll sat í sæti sínu það eptir var þíngsins. Undir þínglausnir heimtaði Sigurður landskrifari sonur Sigurðar lögmanns Bjarnarsonar, vitnisburði föður síns, Páll mótmælti, að þeir væru teknir, að sèr og Árna óvörum, því þeir mundi ætlaðir þeim til mótfalls, en því var ei gaumur gefinn. Oddur tók og vitnisburði um hans tveggja ára fulltrúa þjónustu [3].

Af þíngi reið Páll ofan til Eyrarbakka og gjörði jarðabók yfir það eptir var Flóa-sveitanna. Þá kom Árni þar út á seinasta Eyrarbakka skipi 4. dag Ágúst mánaðar, og fylgdust þeir að í Skálholt. Páll reið þaðan norður, og var við jarðamatsstörf í Skagafjarðarsýslu framm allt til vetrar, en Árni gjörði jarðabók yfir Biskupstúngur og Hrunamannahrepp [4] Það er því ei alls kostar rètt, er Espólín segir um útkomu Árna [5], og að hann færi hvergi að konúngs erindum þetta sumar [6].

Árni hafði setið í Skálholti veturinn 1710, sem endrarnær, en um vorið tóku báðir nefndarmenn sig upp, og fóru vestur um land að jarðamatsstörfum, hèldu þeim framm til alþíngis. Páll fór til þíngs. Hafði hann þar margt að annast, því þeir Jón Eyúlfsson varalögmaður og Beyer höfðu, eptir kóngsleyfi hið fyrra árið, stefnt nefndarmönnum fyrir 24 manna dóminn, um 4 dóma þeirra gegn Sigurði lögmanni, en Páll var einn til ansvara af þeirra hálfu, því Árni hèlt á verki þeirra vestra um sumarið [7]. Páll sat í sæti sínu fram til 15. Júlí. En daginn eptir kom fram umkvörtun Gottrúps um, að lögrèttan dag eptir dag yrði að bíða eptir þeim Páli lögmanni og Sigurði landskrifara, sem væru að málum sínum við 24 manna dóminn, hvar eitt átti að berast í rètt 10., annað 14., þriðja 16. og fjórða 19. Júlí [8], og brugðu þeir fljótt við Oddur og Beyer og skipuðu í sæti Páls Sigurð lögmann, en í stað Sigurðar sonar hans Jón nokkurn

1) Alþ. bók 1709 Nr. 16, 17, og Þorst. Ketilss. 2) Alþ. bók 1709 Nr. 20. 3) Alþ. bók Nr. 32, 34. 4) Þorstein Ketilsson við ár 1709. 5) Espól. Árb. VIII, 119. 6) Espól. Árb. VIII, 120. 7) Samastaðar IX, 2. 8) Dómabók yfirirrèttarins bls. 28, 29.

Jónsson frá Grenivík. Þegar Sigurður lögmaður var seztur, kom Páll, og las, án orðlofs, stefnu yfir lögmanni, til að mæta fyrir 24 manna dóminum hið næsta ár. Nefndi hann sèr stefnuvætti sýslumennina Hákon Hannesson og Bjarna Pètursson. Sigurður landskrifari, sonur Sigurðar lögmanns, bauðst til að rita á stefnuna að hún birt væri, en Páll kvað hans vitnisburð ei betri en stefnuvættanna, er hann nefnt hefði. Tveim dögum síðar settist Páll aptur í lögmanns sætið[1], en fám dögum síðar lètu þeir Oddur og Beyer lesa lángt skjal, og vildu með því sanna, að Dalasýsla ætti að bjóðast upp, sem laus orðin. Páll hafði haft hana að lèni frá upphafi, með lífsfestu og eptir kóngsbrèfi, sem áður er sagt, en skipti henni fyrir Strandasýslu 1708 við mág sinn Jón Magnússon, með leyfi stiptamtmanns Gyldenlevs. Þegar nú Jón var dæmdur frá embætti, sem áður segir, vildi Páll gánga að sínu fyrra kóngslèni Dalasýslu, en þeir Oddur og Beyer vildu láta hann sitja með Strandasýslu, buðu líka Dalasýslu upp, hvað sem Páll sagði, og bauð einginn, nema þeir sjálfir hvor í kapp við annan. Oddur þóktist bjóða konúngsins vegna, en Beyer fyrir rentukammerið, og hlaut Oddur, fyrir 70 rd. festu[2], líklega af kóngi. Af þessu urðu ýmsar greinir, og Páll mátti 1711 sitja með Strandasýslu, hvað ráða má af auglýsíngu hans í alþíngisbókinni fyrir þetta ár Nr. 31., en Oddi virtist þó ísjárvert að halda til streitu, og lèt því Pál 1711 halda Dalasýslu, til þess svar kæmi út híngað, hvað vera skyldi[3].

Páll var þeirrar meiníngar, að nefndir dómar þeirra Árna ættu beinlínis að stefnast undir hæstarètt; mótmælti því 24 manna dóminum í málum þeirra Sigurðar lögmanns, og varð því lítið aðgjört. Skipt var um meðdómendur í miðjum klíðum, sem áður, og einn stökk á burt og kom aldrei aptur, Guðmundur Finnbogason lögrèttumaður frá Árnessýslu. Þeir Jón Eyúlfsson varalögmaður Páls, og Beyer, dæmdu að eins í sök Jóns Hreggviðssonar, sem meint var að drepið hefði böðulinn með aðbeiníngu Sigurðar lögmanns. Þeir Páll og Árni höfðu dæmt Sigurð af embætti fyrir misgrun þann, er á honum lá um samtök við Jón, en nokkuð má hafa verið mistryggilegt í þessu, því 24 manna dómurinn dæmdi Sigurði lögmanni friunar-eið, og átti hann eptir 14 daga liðna, að vinna

1) Alþ. bók 1710 Nr. 7. 2) Samastaðar Nr. 19, 21. 3) Espól. Árb. IX, 3; Alþ. bók 1711 Nr. 23

eiðinn á Bessastöðum[1]. Sigurður landþíngsskrifari flutti mál föður síns, og var heldur illyrtur til þeirra Páls og Árna í innleggi sínu, en Páll fèkk ei eptirrit þess, þó beiddist, og ekki heldur að bera eptirrit dómsgjörðanna saman við þíngbókina, og þurfti til þess kóngsskipun árið eptir 27. Júlí 1711[2]. Páll beiddist orðlofs 18. Júlí að svara innlegginu, annaðhvort munnlega eða skriflega, en hvorugt var fáanlegt. Hann beiddist orðlofs að sækja til tjalds síns eitt skírteini máli Jóns Hreggviðssonar viðkomandi, en það fèkk hann heldur ekki[3]. Markvert er það, að öll nöfn dómsmanna eru skrifuð undir þenna dóm með hendi Hákonar Hannessonar, og þó eru þeir vanir að skrifa undir með eigin hendi og setja innsigli sín við[4]. Jóns Hreggviðarsonar eigin sök var stefnt til hæstarèttar, en þegar hún 1713 átti þar að framberast, vantaði öll helztu skjöl sakarinnar, sem Sigurður lögmaður hèlt hjá sèr, og þurfti enn kóngs-skipun 10. Júní 1713 til að fá þau[5]. Ei veit eg, hvað þeir Páll og Árni gjörðu að jarðamatsstörfum um haustið, því nú er lokið sögnum Þorsteins Ketilssonar, sem eg mest fylgt hefi híngað til, og um það var kunnugast. Árin 1711 og 1712 bar fátt það við í lífi Páls, er teljandi sè, að því er mèr er kunnugt. Bæði árin hèldu nefndarmenn Páll og Árni fram jarðamatinu, þó gjörðu þeir það ei sjálfir í Múlasýslu, heldur sendu í þær erindagjörðir þángað Þorstein son Sigurðar Þorgilssonar á Jörfa, svein Páls[6]. Hið seinna árið var lokið þessum störfum öllum, og sigldi þá Árni með öll verk þeirra nefndarmanna, þó ekki gjörði hann full skil fyrir þeim, meðan hann lifði[7]. Á jarðabók þeirra Páls og Árna, eptir sem hún er komin okkur í hönd, verður síðar minnzt.

Á þessum stað, þegar jarðamats-störfum er lokið, hlýðir að minnast á ákjæru Finns biskups, gegn nefndarmönnum, hverja Stephensen hefir eptir honum tekið, að þeir hafi rúið landið þess mörgu og dýrmætu handritum. Sögnin mun í sjálfu sèr, að nokkru leyti, sönn vera, en ákæran fyrir það snertir Pál ekkert, heldur Árna, og kemur því ekki heldur nefndinni við, sem slíkri. Þó Páll hefði, að gjöf eður kaupi

1) Espól. Árb IX, 3; Alþ. bók 1711 Nr. 23. og dómabók yfirrèttarins bls. 42, 43, 44. 2) Ketils. III, 445. 3) Dómab. yfirr. bls. 37, 38. 4) Samastaðar 44, 45. 5) Ketils. III, 455. 6) Espól. Árb. IX, 7. 7) Isl. i 18. Aarh. p. 334.

eignazt einhver handrit á jarðamatsferðum sínum, misti landið einkis í við það, og hvergi voru þau betur komin. Árna mega þeir ásaka, sem vilja, þó óvíst sè, að meira hefði úr handritunum orðið, að kyrr hefðu verið, eptir sem þá var farið að fara með þau. Árni tíndi, sem kunnugt er, sumt saman úr bókaspjöldum, og sitt blaðið úr hverri áttinni, þó úr sömu bók væri[1].

Páll sat bæði þessi árin, að því er mèr er kunnugt, í lögmanns sæti sínu, og ekki ætla eg það sè rètt, er Espólín skrifar[2], að Páli hafi 1712 verið vikið frá lögmanns embætti, því honum var fyrst vikið frá, með auglýsíngu enna „fullmektugu“ 11. Júlí 1713[3], og hafði Páll þá þegar nefnt lögrèttumenn til alþíngissetu[4]. Að vísu er það líklegt, þegar litið er til kóngsbrèfs 18. Júní 1712[5], að dómar þeirra Páls og Árna um mál Sigurðar lögmanns hafi verið í 24 manna rèttinum 1712, því þá áttu þau mál þar að dæmast, hvort Páll og Árni vildu mæta eða ekki, en ekki finn eg spor til þess í alþíngisbókinni 1712, að Páll ei alljafnt gegnt hafi lögmanns störfum fyrir það, og þó kóngsbrèfið hefði komið nógu snemma til landsins 1712, hvað valla gat verið, mun hann og Árni, að líkindum, enn sem fyrri, hafa þverskallazt við, að svara fyrir nefndar-dóma sína, annarstaðar en fyrir hæstarètti, fyrir hverju þeir höfðu líka sanngjarna laga ástæðu N. L. 1. 6. 6.[6]. Það má annars sjá á fleiru, að hvorutveggju málspartar reyndu allt, til að draga mál þessi og ránghverfa þeim, ekki sízt mótpartar Vídalíns, því til að koma í veg fyrir að mál Jóns Hreggviðssonar gæti komið fyrir hæstarètt (og þángað höfðu þeir Páll og Árni stefnt því), heimtuðu þeir Jón Eyúlfsson og Beyer veð af Páli fyrir Jóni Hreggviðssyni 1712, en hvorki Páll eða neinn alþíngismanna vildu gefa það[7]; þar að lýtur það líka, er áður er sagt, að Sigurður lögmaður hèldi hjá sèr skjölum málsins. Dómabók yfirrèttarins, sem áður er áminnzt, heldur ei heldur neitt veraldlegt mál árin 1711 og 1712, og ei nema þau 8 andlegu mál, er dæmd voru af Jóni biskupi Vídalín og dómprestum hans 1711. Oddur varalögmaður var ekki á þíngi 1712, því hann var þá í haldi hjá enskum við

1) Hist. eccl. Isl. III, 575; Isl. i 18. Aarh. p. 166. 2) Espól. Árb. IX, 12. 3) Alþ. bók 1713. Nr. 2 og 3. 4) Samastaðar Nr. 1. 5) Ketilsens III, 449, 450; Alþ. bók 1713 Nr. 5. 6) Alþ. bók 1713 Nr. 2. 7) Alþ. bók. 1712 Nr. 8.

Búðir[1]. Espólín segir[2], að Páli væri þetta sumar stefnt með [illegible] stefnum til ens næsta alþíngis, og vil eg ei vefeingja það. Eingin mál hafði Páll þó fyrir lögþíngis-rèttinum 1713. Það munu því verið hafa stefnur til 24 manna rèttarins, að Páli hafi stefnt verið sem dómara á lögþínginu, því skjaldan finnst það, að hann á annan hátt hafi átt í málum, en til að svara fyrir dóma sína, með því öðru, er þar af spannst í stórbokkaöld þeirri, er þá var.

Skjaldan átti Páll andstæðara en árið 1713. Strax er hann nefnt hafði lögrèttumenn til alþíngissetu í lögrèttunni sunnan og austan, bar hans gamli fjandmaður Gottrúp lögmaður það 10. Júlí 1713 fyrir þá Odd og Beyer, að margar svo þúngar sakir væru þær á Páli, að hann ei mætti lögmaður vera[3], og voru þó þessar þá enn ódæmdar, og náðu ei til annars en þess, hvort Páll hefði dæmt rètt eður ei. Þeir fèlagar hlupu strax til handa og fóta, og sviptu hann embætti daginn eptir; báru þar þó ei til klögumál Gottrúps fyrir sig, heldur það, að Páll gjörði 24 manna rèttinum óvirðíngu, að vilja hvorki mæta þar sjálfur, nè láta annan mæta fyrir sig[4], og þó var þar safnað fyrir til dómenda flestum helztu óvildarmönnum og áklagendum Páls undir forustu þeirra Odds og Beyers[5]. Af sjálfum áklagendum Páls í þeim 7 málum, er honum við viku og komu fyrir yfirrètt (í 2 þeirra voru á honum 4 stefnur), sátu sem dómarar Oddur og Beyer, Vigfús Hannesson, Brandur Bjarnhèðinsson, líka Hallgrímur Thorlacius bræðrúngur áklagandans Brynjúlfs. Þegar framm í sókti mótmælti Páll þessum og mörgum öðrum af lögrèttumönnum, sem ei gátu skrifað nöfn sín, en það tjáði ekki. Jón Eyjúlfsson varalögmaður var settur í sæti Páls, í lögrèttu, en teingdasonur Jóns, Niels sýslumaður Kjer, var gjörður að landþíngsskrifara, því Sigurður var ei apturkominn, síðan hann sigldi eð fyrra árið, í málum þeirra Páls og Sigurðar lögmanns. Það er mjög rángt, er Espólín skrifar[6], að þau 2 kóngsbrèf, er lesin voru í lögrèttu 12. Júlí 1713, vefeingdu mjög dóma þeirra Páls og Árna, því annað brèfið um Hákon sýslumann Hannesson viðkom þeim alls ekki, heldur ónýtir aðgjörðir þeirra Odds og Beyers,

---

4) B. Benediktsson á Staðarfelli. 2) Esp. Árb. IX. 12. 3) Alþ. bók 1713 Nr. 3. 4) Samastaðar Nr, 2. 5) B. Benediktsson á Staðarfelli og Dómabók yfirrèttar bls. 61, 79. 6) Esp. Árb. IX, 15.

er vikið höfðu Hákoni frá embætti fyrir litlar sakir 1711[1], en hitt vefeingir að eingu dóma þeirra nefndarmanna. Of hermt mun það líka af Espólín[2], að Páll, þegar hann vildi víkja Gottrúp úr dómssæti, í sama sinn[3], hafi boðizt til að gegna málum í hans stað, því ekkert er það nefnt í alþíngisbókinni 1713 fyrr eða síðar. Seint um sumarið kom Sigurður landþíngsskrifari út í Hólminum og lèt strax lesa á alþíngi hæstarèttar dóm í sök Jóns Hreggviðssonar, að því leyti faðir hans Sigurður var við hann riðinn. Átti Sigurður lögmaður að öllu að vera laus við ákærur Odds í sókninni, sem og þeirra Páls og Árna og þeirra ósönnuðu og ósennilegu ásakanir, sem og þeirra ómildi og ástæðulausi dómur skyldi ei á nokkurn hátt koma honum að gjaldi. Sigurðar lögmanns ósæmilegu orð til þeirra nefndarmanna voru líka ónýtt, en Páll og Árni skyldu svara Sigurði í sakarkostnað 300 rd.[4]. Þetta ætla eg sè dómsins réttsagða efni, en í sektir eingar voru þeir nefndarmenn dæmdir, þó Stephensen segi það[5], og er það ei það einasta, að hann rángfærir það, er þá Pál og Árna snertir. Páll varð, sem vænta mátti, undir í flestum málum sínum við yfirrèttinn, þó slapp hann ómeiddur frá ákærum Guðmundar Jasonssonar Vest, Stepháns lögsagnara Jónssonar, Vigfúsa Hannessonar, Níelsar Kjer, Brands Bjarnhèðinssonar og sèra Jóns Haldórssonar. En eptir ákærum Brynjúlfs Thorlacii, Hákonar Hannesarsonar, Odds og Beyers, var hann feldur, og verður þess síðar getið. Það má sjá á kóngsbrèfi 7. Júlí 1714[6], að Oddur hefir ekki viljað veita þessa dóma skrifaða, þó Páll beiddist, því víst hafa þeir, er hlut að áttu, sèð, að lítið var tilhafið um sumt, og má lesa þriggja þeirra sáraumu tildrög í alþíngisbókinni 1712[7]. Fleiri af ákærunum gegn dómaraverkum Páls (og annað var honum ekki tilfundið) voru jafnmagrar tyllisakir, svo sem það, að hann gefið hefði 2 ólík atkvæði í sama máli; hafði Sigurður landþíngsskrifari komið því á lopt, en sjálfur svo ásamt Gottrúp gefið um það vitnisburð, og var það í orðamáli síra Jóns Haldórssonar á Þíngvöllum og Magnúsar á Úlfljótsvatni, hvert lesa má á seinast tilvitnuðum stað; en

1) Alþ. bók 1711 Nr. 19. 2) Esp. Árb. IX, Nr. 15. 3) Samanbr. Alþ. bók 1713 Nr. 12. 4) Alþ. bók 1713 Nr. 31. 5) Isl. I 18. Aarh. p. 332. 6) Ketils. III. 459, 460; Alþ. bók 1715 Nr. 7. 7) Alþ. bók 1712 Nr. 2, 11, 15, 17.

sárlítið er þar líka tilefnið. Páll skírskotaði frá dómum 24 manna rèttarins til hæstarèttar.

Þegar Björn biskup á Hólum Þorleifsson, vinur Páls, andaðist 1710, tók Páll að sèr umsjón með ekkju hans, Þrúði húsfrú Þorsteinsdóttur sýslumanns Þorleifssonar; og þegar Steinn biskup settist að Hólum 1711, samdist allt vel með þeim Páli, Þrúðar vegna, og Steini biskupi, og vinir voru þeir alljafnt síðan, og aldrei í mótkasti hvor við annan. Það árið, sem hèr er frásagt, sömdu þeir á Þíngvelli um stofu Bjarnar biskups, með fleiru, og seldi Páll hana Steini biskupi fyrir 15 hundruð í gildum landaurum[1]. Páll samdi þá og með Jóni biskupi Vídalín og próföstum margar nytsamar greinir um uppheldispenínga handa biskupa ekkjum, og annað fleira, þó því yrði ei framgeingt seinna.

Það ætla eg ekki hafi verið, að Páll hafi af 24 manna rèttinum verið dæmdur frá embætti á þessu þíngi. Að vísu virðist Espólín að ætla það[2], og konúngsbrèfið 7. Júlí 1714 segir það[3]; en eg ætla, að meint sè einúngis til úrskurðar þeirra Odds og Beyers, því varla hefði kóngur með nefndu konúngsbrèfi skipað, að Páll skyldi halda hálfum lögmanns tekjum frá þeim degi, honum var vikið frá, ef hann væri með laga dómi frá dæmdur, og sama rètt gaf hann sama dag Hákoni sýslumanni Hannesarsyni[4], sem á sama hátt var rekinn frá sýslu sinni án dóms. Það er líka merkilegt, að Páll aldrei lèt lesa á alþíngi neinn hæstarèttar-dóm, sem ónýtti aðgjörðir þeirra Odds, Páli á móti, og mundi hann þó hafa gjört það, að dæmi Sigurðar lögmanns, ef dómur um embættis-glöt hefði á undan geingið. Full úrslit á þessu gjörir en upprunalega dóma-bók yfirrèttarins, er eg í höndum hefi, með nöfnum og signetum dómsmanna. Þar hafa þeir í máli Brynjúlfs Thorlacii og Hákonar, Páli á móti, dæmt þannig í upphafi: „því ályktum vèr, að þetta mál eigi heima í NL. 1. 5. 3., og „að lögmaðurinn Páll Vídalín hafi sig í þessu máli á móti „sínu dómara-embætti forsèð, og eigi því ekki hèr eptir að „beþèna"; en þar við er yfir línunum aukið: „heldur byrji hon„um þar frá að vera súspenderuðum, inn til Hans kóngligu „Maiestæts allranáðugasta *resolution* hèr um kann fyrst að „innkoma". Í kærumáli þeirra Odds og Beyers gegn Páli um

1) Esp. Árb. IX, 17; cfr. Ketils. III, 361, 449. 2) Esp. Árb. IX. 21. 3) Ketils. III, 459. 4) Samastaðar III, 460; Alþ. bók. 1715, Nr 3.

aðtekt á stefnu hjá Sumarliða Clementssyni hafa dómsmenn í fyrstu ekki nefnt embætti Páls, heldur dæmt einn sinna meðdómenda, Hinrik Brandsson, undir ákæru og sektir í hèraði, yrir það hann án orðlofs hefði hlaupið burtu frá yfirdóminum; en yfir allt þar að lútandi er aptur dregið, en skrifað yfir línurnar: „framanskrifaðar dáms-ályktanir setjum vèr 24 í yfir„rèttinum nú sitjandi, og þar innefndir dómsmenn í allraund„irdánugasta máta til vors allranáðugasta arfaherra og konúngs „allranáðugustu *resolution*, og hèr með gefum vora allraundir„dánugustu meiníng til vitundar, sem er, að vèr þeinkjum, það þetta fátæka land muni ei ná hinum fyrri og gömlu rólegheit„um, og verða frí frá ónauðsynlegu þrætuvastri, allt svo leingi „Sgr. Páll Jónsson Vídalín lögmanns embættinu beþènaði". Það virðist, sem þeir ekki hafi vogazt að Páli öndverðum, meðan hann var á upprèttum fótum, til að dæma hann frá embætti. Þessar breytíngar í dóma-bókinni, sem ekki er hægt að vita, hvort gerðar sèu strax, eða seinna af Oddi, ollu því, að Fúhrmann 1720 tók bókina til sín, og innsigluðu þeir hana Fúhrmann, Benedikt lögmaður og Brynjúlfur Thorlacius, var hún svo flutt í Hafnarfjörð til Stiptamtmanns Raben, og opnuð þar, en Raben tók hana með, til að sýna kóngi, hvernin Oddur geingi frá rèttarverkum sínum. Þetta hafa þeir Raben og Fúhrmann ritað á bókina, og sett innsigli sín við og þriggja votta, varalögmanna beggja og Þorleifs Arasonar skólameistara.

Lítil sjást merki þess í alþíngisbókinni, að Páll hafi á þíng komið 1714; þó hefir svo verið, því stefnumál hafði hann þar gegn Sumarliða Klemusarsyni og Jóni Eiríkssyni, lögsögnurum Gottrúps lögmanns í Húnaþíngi, fyrir framferðir þeirra gegn honum[1]. En stefnuna fram bar hann skriflega 17. Júlí, og mótmælti um leið þeim Oddi og Jóni Eyúlfssyni, sem dómurum; en af því aðrir voru ei settir, og Páll ekki framfylgdi stefnunni, en hinir buðu sig til andsvara um málin, er líkast, að stefnan hafi niður fallið. Oddur var og þá orðinn lögmaður að fullu og öllu, því Gottrúp hafði sagt sig frá; höfðu þeir samið um þetta Oddur og Gottrúp 24. Júlí árið áður, en lètu nú fyrst lesa samníng sinn 14. Júlí; og virðist sem þeir hafi viljað koma Oddi í dómssætið, áður stefna Páls væri í rètt borin.

1) Alþíng. bók 1714 Nr. 10.

Páll hafði og mál við yfirrèttinn þetta ár. Fyrst átti hann að svara þar stefnum Sigurðar landþíngisskrifara í málum þeim, er ei varð um dæmt 1710, brennumáli Ara Pálssonar, húðlátsmáli Magnúsar Benediktssonar og sifjaspellamáli Geirnýar Guðmundsdóttur, en tveimur þeim fyrri var frá skotið, en hið þriðja aldrei nefnt. Hvort það skeði af meðhaldi með Sigurði lögmanni, læt eg ósagt. Páll hafði þar og 3 stefnur til Gottrúps lögmanns, Jóns Eyólfssonar og Sumarliða Clemenssonar, en vildi fyrst víkja Oddi úr dómssæti, og bað hann hugleiða, að hvorki mættu sakaðir menn nè sifjaðir um annars mál dæma, og kvaðst hafa klagað hann við kóng um órèttan dóm. Meðdómendur dæmdu Oddi kyrrsetu, en Páli ákæru í hèraði fyrir ofdirfsku sína. Páll vildi þá ei framfylgja stefnunum og gjörðist nokkuð hávarr, og var hann sektaður, en stefnurnar fèllu niður. Ekki urðu nema 15 af þeim 24 dómsmönnum til að rita nöfn sín undir dóminn.

Páll hafði nú feingið konúngsleyfi, að stefna þeim mótstöðumönnum sínum fyrir hæstarètt, þeim er dæmt höfðu í 24 manna rèttinum honum á móti; gjörði hann það um sumarið, og reið heim til hvers þeirra, er bústað áttu syðra og vestra, og var að því fram til hausts[1].

Sumarið 1715 fór Páll utan í málum sínum á Höfða-skipi, og samdi hann áður kveðju þá ena markverðu til vandamanna, vina og óvina, er Espólín hefir fundið[2]. Lýsir kveðjan einkar vel hugarfari Páls. Ætla eg Páll hafi lagt frá landi laungu eptir þíngtímann með Höfðaskipi, og Oddur orðið á undan, en vitað ei vonir til, að Páll mundi ætla að fara. Oddur sagði þínginu slitið, þegar það hafði staðið í 12 daga, og bar fyrir, að á honum væri stefna til hæstarèttar[3], fór og utan með fyrsta Ólafsvíkur skipi[4], þó ei fyrr en eptir 18. Ágúst. Skip höfðu komið tímanlega um samarið, því varnarskip fylgdi þeim, en árið áður var hèr skipakoma lítil og torveld, vegna styrjaldar milli Dana og Svía. Svo er að sjá á vísu þeirri, er Páll orti, þá er hann stè á skip í Höfða:

> Látum líða og bíða, börn,
> befölum drottni tíma;
> Þegar eg kemst yfir þessa tjörn,
> þá er mèr ráðin glíma.

1) Espól. Árb. IX, 22. 2) Samastaðar IX, 25, 36. 3) Alþ. bók 1715 Nr. 18. 4) Espól. Árb. IX, 25; Alþ. bók 1715 í fylgiskjölum.

sem á honum hafi verið glímuskjálfti, og hann hafi ekki ætlað sèr að vægja til við óvini sína í ferðinni. Páll kom til Hafnar ei fyrri en 4. í Jólum, og hitti Árna, og urðu þar fagnaðarfundir. Oddur var kominn laungu á undan, og segir Grunnavíkur-Jón, að honum yrði bilt við komu Páls, og að hann nóttina eptir þrettánda veitti sjálfum sèr bana-tilræði með að skera sig 2 skurði á hálsinn með rakhnífi, var hann af mörgum eptir það kallaður Oddur Barki. Ekki er sagt að Páll hafi sjálfur talað málum sínum við hæstarètt, heldur málafærslumaður nokkur, Brostrúp Albertín að nafni [1], en sá hèt Lyckey, er af Odds hálfu flutti málin [2]. Hæstirèttur dæmdi í þeim flestum öndverðlega á árinu 1716, og hefir Espólín talið, hvernin dómar fellu [3], en hvaðan það er tekið, læt eg ósagt, og ríður það þó á miklu um sagnir frá þeim óaldar tímum, er þá voru, þegar alt var í uppnámi af flokkadráttum, og er því undirkomið, hvort sá var óvilhallur báðum, er frá sagði. Svo segir Espólín [4], að sáttum hafi orðið á komið með þeim Páli og Oddi; en nærri má geta, að þeir ei hefðu getað sæzt á yfirrèttardóm um embættis-glöt, ef hann hefði á verið; get eg til, að sættirnar hafi verið þær einar, að stiptamtmanni Gyldenlev hafi þókt fulltrúi sinn Oddur gánga of frekt að, og hafi að öllu ónýtt athafnir hans, hvað afsetníngu Páls snerti, en dómara aðgjörðirnar hafi hann látið gánga götu sína. Víst er um það, að ofsi Odds spilti fyrir honum, þegar farið var að gjörskoða málin ytra, svo Gyldenlev fann næga ástæðu til, að bera kveinstafi upp við stjórnina um þetta. Og þó hann enn lèti Odd halda völdum, bjó hann þó svo undir, að þeim hallaði úr þessu, og má svo að kveða, sem við þessa utanför hafi skipt um með þeim Páli og Oddi. Oddur og Beyer áttu, að því að sagt er, að hæstarèttar dómarnir hafi ákveðið, að gjalda Páli 300 dali, Páll erfingjum Vigfúsar Hannessonar sýslumanns 100 dali, Brynjúlfi Þórðarsyni 100 dali og til Frelsaranskirkju í Kaupmannahöfn 170 dali [5]. Þessi úrslit málanna, þó Páli væru þau þúngbær, eru ei svo furðanleg, þegar á allt er litið. Páll gat ei vænt að fá útskriptir málanna öðruvísi, en þeir vildu, er voru fjandmenn hans hvað mestir, Sigurður landþingsskrifari, Gottrúp og Jón Eyúlfsson, en ekki var að leita til amtmanns-fulltrúans Beyers, eða stiptamtmanns-full-

---

1) B. Benediktsson á Staðarfelli. 2) Alþ. bók 1723 Nr. 17. 3) Espól. Árb. IX, 30. 4) Samastaðar. 5) Samastaðar.

trúans Odds, og að Páll hafi áður misgrunað útskriptirnar, sýnir kóngsbrèfið 27. Febr. 1711[1]. Þess má einnig gæta, að dómar Páls voru gjörðir að íslenzkra laga rèttar-atferli, en hæstirèttur, eins og líka stjórnin, vildi þá þegar, að norsku-laga rèttar-atferli væri hèr viðhaft.

Þeir komu báðir út um sumarið 1716 eptir þíng, Páll og Oddur. Hafði Laurits Hansson Schevíng sýslumaður haft stiptamtmanns völd á þínginu, en við sjálft lá, að hann eingan feingi til að sitja í lögmanns sæti Odds, því hann tvískipaði það Sigurði landþíngisskrifara, og Beyer einu sinni, en hann fór þó hvergi. Svo tvískipaði Schevíng það sýslumanninum í Norðursýslu, Benedikt Þorsteinssyni, en hann lèt heldur ekki tilleiðast, fyrr en Beyer endurnýaði skipanina[2]. Stóð í því stappi 6 fyrstu daga þíngsins. Eitt hið fyrsta, sem gjört var á þessu þíngi, var að lesa samníng milli Hákonar sýslumanns Hannessonar og þeirra Odds og Jóns Eyúlfssonar, dagsettan 19. Júlí 1715, hvar með þessir eðla dómendur, er síðast voru nefndir „voga til í guðs trausti og eptir laganna leyfi", að ónýta að öllu sinn eiginn dóm, er þeir geingu árið áður í lögrèttu, sýslumanninum til mótfalls[3]. Segi eg þetta til merkis um, hverninn allt það, er rèttarfarið snerti, gekk hèr þá á trèfótum.

Á alþíngi 1717, settust þeir Páll og Oddur hvor í sitt lögmanns sæti, og bar ei neitt sèrlegt til tíðinda. Svo virðist, sem Beyer hafi þá viljað vinga sig við Pál, því hann veitti Páli þá 19. Júlí bæði Dala- og Stranda-sýslu[4], sem Oddur áður ýmist hafði veitt honum eða hripsað aptur, en Oddur ætla eg hafi verið til hans líkt og áður, því 2 dögum síðar veitti hann Dalasýslu Bjarna sýslumanni ríka Pèturssyni[5], þorði þó ekki að leggja leingra fram í það, og reif það upp aptur 2 dögum síðar, en fèkk þá af Páli að sleppa við sig Dalasýslu, en Strandasýslu við Orm Daðason, og lofaði Páli aptur hálfri Snæfellsnessýslu og hálfu Stapa-umboði, og skyldi hann kostnaðarlaust fá þar af 135 vættir fiska árlega, hverninn sem áraði[6]. Útgjaldið varð í hapti strax 1718, svo Páll vildi þá fá Dalasýslu aptur, en Oddur lèt þá bjóða hana upp, og varð Páll

1) Ketils. III, 445. 2) Alþ. bók 1716 Nr. 2, 5, 6, 7, 8, 9. 3) Alþ. bók 1716 Nr. 3. 4) Alþ. bók 1717 Nr. 16, 5. 5) Samastaðar Nr. 16, 6. 6) Eptirmæli 18. aldar, bls. 665, not. 291.

hæstbjóðandi með 96 dala 3 ℳ festu[1]. Bjarni ríki Pètursson, sýslumaður, gjörði þá að undirlagi Odds 200 dala eptirboð í Dalasýslu, en Páll mótmælti því harðlega, og bar fyrir sig tilskipun 20. Febr. 1717[2]; hèlt og Dalasýslu úr því til dauðadags, því veldi Odds fór nú að rèna, við komu amtmanns Fúhrmanns um sumarið 1718, og burtför fèlaga hans Beyers árið áður. Hafði þá Beyer farið hèðan alfari, og kvaddi áður Pál og aðra landsmenn með miklum virktum[3].

Það var á þessu ári, að því er Grunnavíkur-Jón segir, að þeir deildu Oddur og Brynjúlfur Þórðarsson á Hlíðarenda út af niðurjöfnun þeirra á milli, á kostnaði þeim, er þeir höfðu varið við hæstarètt til málssókna gegn Páli; og tóku þeir þá Pál sjálfan til gjörðarmanns; hann jafnaði milli þeirra með skynsamlegri röksemd, svo báðum líkaði, og varð hann þá þess vísari, að málssóknirnar höfðu kostað þá fèlaga meir en 2200 dala. 1718 var á alþíngi lesið veitíngarbrèf sýslumannsins Níelsar Kjer fyrir að vera varalögmaður Páls, því Jón Eyúlfsson var nú dauður, og var dánarbú hans þrotabú, en Páll fór að eldast og lýast. Er brèfið dagsett 18 Júní árið áður[4]. Þá lèt og sá nýi landfógeti Cornelíus Wúlf lesa skjal nokkurt, um opinbert uppboð sýslna, en Páll svaraði því næsta skynsamlega[5], kvað það að vísu vel mega vera, að sýslur væru uppboðnar, en ekkert ættu ársgjöldin að hækka við það, því þau væru frá upphafi hóflega ákveðin, og ef sýslumenn ættu ei að kúga almúgann, mætti heldur ekki kúga þá; ei mætti það eitt ráða málalokum, hver hæsta byði festuna, heldur yrði líka að líta til hins, að sá, er mest byði, væri hæfur til sýslumanns, hvorki ölgjarn, nè kunnur og sannur að því, með ýmsu yfirskyni að kúga fè af almúganum. Ekkert mætti það metast, þó þeir tekið hefðu vitnisburði sína í eigin sýslu og feingið þá góða, því ekkert væri tíðara en það, að almúginn þyrði ei að gefa þá öðruvísi, þar sem stórgerðir og harðlyndir ættu hlut að, en sem þeim væri að skapi[6]. Auðsèð er það, að Páll hefir dregið velhugaða lærdóma þessa af þeirri öld, er þá var, og eingan hlut átti Páll að því sjálfur, þó Espólín segi það[7], því hvorki var hann ölgjarn, nè kúgaði bændur, og aldrei tók hann vitnisburði sína, að því er kunnugt er. Jón biskup Vídalín hafði á

---

1) Alþ. bók 1718 Nr. 12. 5°, samb. Esp. Árb. IX, 39. 2) Samastaðar Nr. 32, III. 3) Alþíngisb. 1717 Nr. 13. 4) Alþ. bók. 1718 Nr. 2. 5) Samastaðar Nr. 18. 6) Samastaðar. 7) Espól. Árb. IX, 40.

þessu þíngi 10 stefnur í rètt að bera í einu, en bágt var aðgjörða, því Oddur kom ei þann dag, og einginn í norðan og vestan lögrèttuna, og sendi þó Páll út menn að kalla hann, eða hans þá orðinn varalögmann Benedikt sýslumann Þorsteinsson, en Oddur fannst ei, og Benedikt vildi að vonum ekki setjast, fyrr en hann væri þess beðinn af Oddi, hvað ei skeði fyrr en degi síðar[1].

Það var fyrir laungu, að einkar góð vinátta var með þeim Oddi Sigurðarsyni, hvers opt hefir verið getið, og Guðmundi bónda á Narfeyri Þorleifssyni lögmanns Kortssonar. Guðmundur var afarríkur bæði að löndum og lausafè. Hafði elzta dóttir Guðmundar, Guðrún, verið heitmey Odds, meðan hann var við háskólann, en bæði hún og aðrar 3 dætur Guðmundar dóu í stórubólu 1707, svo hann var barnlaus, þegar Oddur kom út. Tók Guðmundur honum þá samt með kostum og kynjum, gaf honum Narfeyri prýðilega húsaða, með öllu því fè, er þar stóð saman, allt að upphæð hundrað hundruð, með því skilyrði, að hann reyndist honum, sem góður sonur, lánaði honum þar að auki 1000 dali í peníngum. Það orð lèk á, að Guðmundur og kona hans, Helga Eggertsdóttir, mundu gefa Oddi allt fè eptir sig, því hann hafði kóngsleyfi til að gefa fè sitt, hverjum hann vildi. Sjálfur var Guðmundur með lítinn kvikfènað húsmaður hjá Oddi á Narfeyri. En bráðum tók að grynnast á vináttunni. Guðmundur var fèskygn og óáleitinn, en þúngur í skapi, vildi helzt nirfla fè saman sem mestu, en leggja ekkert í sölurnar; Oddur var ör af fè og stórritasamur, ölgjarn, stórorður og ósvífinn, ok feldu þeir því ei geð saman til leingdar, og gjörðist af fullur fjandskapur. Guðmundur tók sig því upp frá Narfeyri og settist í Brokey, en tók undir bú sitt líka Íngeyar frá Narfeyrar kirkju. Við þetta og mörg afbrigði Odds þrútnaði enn meir um óvináttu þeirra, en Guðmundur bar því verr, sem hann þóktist betra maklegur af Oddi, og sá sèr ekkert færi á að ná rètti sínum á Oddi vegna valda hans og ofbeldis: hann var þá í stiptamtmanns stað, lögmaður, sýslumaðar í Snæfellsnessýslu og Arnarstapa umboðshaldari. Þegar amtmaður Fúhrmann kom, og grynna tók á veldi Odds, fór Guðmundur að hugsa á rèttíngu sinna málefna, sem aðrir, er kalt þóktust kent hafa af völdum Odds. Klagaði Guðmundur við Fúhrmann, sem um vorið 1719 gjörði sèr

1) Alþ. bók, 1718 Nr. 7.

ferð vestur í Brokey, til að grenslast um, hvernin ástadt væri, og setti varalögmann Níels Kjer, sem dómara milli þeirra Odds og Guðmundar, en Jóhann sýslumaður Gottrúp var skipaður Guðmundi að talsmanni. Var þíngað um haustið í Októbermánuði á Draungum á Skógarströnd, og kom þar amtmaður sjálfur, líka fleiri en færri ákærendur Odds, og tók hann þá þann kost, að sættast við Guðmund, setja honum jarðir í veð fyrir skuldinni skila aptur Narfeyri og hálfu búinu þar, en hálft gaf Guðmundur eptir, fyrir tillögur amtmanns. Skömmu fyrir andlát sitt, sem aðbar eptir jólin 1720, gaf Guðmundur allar eigur sínar amtmanni Fúhrmann, og var því nú við hann að eiga um skuldina hjá Oddi, sem hann nú ekki vildi gjalda, stefndi amtmaður honum því fyrir dóm varalögmanns Níelsar Kjer, og sókti sjálfur, sættist Oddur enn á Íngjaldshólsþíngi um haustið 1721, og galt amtmanni 6 jarðir í skuldina. Er saga þessi tekin úr áreiðanlegu riti, *hirðstjóra Annál* Jóns stiptprófasts Haldórssonar[1], en því hefi eg hana tilfært í æfi Páls, að mèr virðist hún bæði eðlileg og sennileg, og er skrásett af rèttorðum samtíðismanni þeirra Odds og Páls, sem ekki nefnir þar Pál með einu orði, þó að seinni aldar menn hafi, að eg ætla ástæðulaust, dreift honum við, bæði að vekja óvildina milli Odds og Guðmundar, og að hafa verið hvatamaður að þeim þínghöldum, er þar af spunnust[2], já jafnvel, að hann hafi látið þènara Odds stela frá honum gjafabrèfi Guðmundar (sem óvíst er hvort nokkurn tíma til var), svo hann hefði það ei fyrir sig að bera[3]. Er það óviðurkvæmilegt, að bera slíkt fram í sagnaritum, dánum merkismanni til niðrunar, er ekki byggist nema á átyllulausum orðrómi og getgátum hatursmanna.

Ólíkt er það því, er Grunnavíkur-Jón segir, að sá eini, sem liðsinti Oddi á Drángaþíngi, væri Páll, og að það hafi verið að hans tilstilli, að Oddur fèkk eptirgjöf á hálfu Narfeyrarbúi, fullu 500 rd. virði, og að Oddur þá gæfi Páli pottkönnu af silfri fyrir holl ráð hans og liðsemd.

Bæði árin 1719 og 1720 kom Páll til alþíngis í tækan tíma, eins og hann ætíð var vanur, og setti þíngið, en aleinn, því hvorugt árið kom Oddur til, eða neinn af hans hálfu, fyrr en 2 dagar voru af þínginu. Fyrra árið handsöluðu þeir Jón

1) Æfi Níelsar Fúhrmanns. 2) Esp. Árb. IX, 48. 63. 3) B. Benediktsson á Staðarfelli.

Ísleifsson og Jón Þorsteinsson, klausturhaldarar, Páli og báðum varalögmönnum gjörð í máli því, er þeir áttust við og höfðu þegar bæði sókt og varið[1]. Er það vottur þess, að þeir hafa treyst rèttdæmi Páls, því við gjörðar-handsöl er ekki vegur opinn til umbóta.

Þeim lögmönnum báðum Páli og Oddi hafði 29. Maí 1719 verið skipað að framhalda því lagaverki, er lögmönnum Sigurði Bjarnarsyni og Magnúsi Jónssyni var 1688 14. Aprílis umboðið að semja. Skyldu þeir þá byrja það, ef hinir hefðu ekkert aðgjört, og fullkomna það með ráði enna vitrustu sýslumanna. Líka áttu þeir lögmennirnir að vera biskupunum báðum til aðstoðar, að semja ný kirkjulög[2]. Páll gjörði í þessu með alúð, hvað honum var boðið, og samdi einn fyrst frumvarpið til veraldlegu laganna, en þegar fara átti að gagnskoða það, gat hann eingan til þess feingið. Hann kallaði sýslumenn í suður og austur lögdæminu í þessu skyni saman á Þíngvöll til 24. Júní 1723, og kom einginn, nema Hákon sýslumaður Hannesarson úr Rángárþíngi. Hann kvartaði um þetta við Fúhrmann, sem gaf harða skipun til sýslumanna, að gegna köllun lögmanns, og Páll endurnýaði hana því og ákvað 25. Júní 1724 til nýrrar samkomu á Þíngvelli, en allt fór á sömu leið. Þar komu eingir, nema Níels Kjer og Sigurður sýslumaður Jónsson úr Borgarfirði[3]. Mátti þar fráhverfa. Frumvarpið fannst að Páli látnum, og var selt í höndur þá orðnum lögmönnum Níelsi Kjer og Benedikt Þorsteinssyni, sem sendu það um kríng til sýslumanna[4], og varð það við það að eingu, þó nýtilegt hefði verið. Oddur kom hvergi að, því hann hafði nóg að annast um eigin málaferli. Kirkjulögin umbætti Páll með þeim biskupum Steini og Jóni Vídalín að 19. kapítula þeirra[5].

Um sumarið 1720 kom herflotaforíngi Pètur Raben hèr undir þíngmaríumessu, sem þá nýorðinn stiptamtmaður, og sendi aðvörun gegn ýmsum ósiðum á alþíngið, sem og skipun til lögmanna og sýslumanna, að gjöra nákvæma skýrslu um ástand landsins, og sat Páll yfir því í nokkra daga á þínginu, en varalögmaður hans gegndi málum í hans stað[6]; er og ekki ólíklegt, að þá hafi verið samið, undir forustu Páls, það frumvarp til lögreglu-stjórnar laga, er um haustið kom frá Raben

1) Alþ. bók 1719 Nr. 15. 2) Alþ. bók. 1720 Nr. 8; Ketilsen, III, 473. 3) Ketilsen, III, 377. 4) Isl. i 18. Aarh. bls. 410. 5) Ketils. III, 380, 381. 6) Alþ. bókin 1720 Nr. 12, 13, 14; Hirðst. Ann.

til stjórnarinnar, og sem með kóngsbrèfi 9. Júní árið eptir sent var lögmönnum aptur til umbóta[1], og ætla eg það haft hafi lík endalok, sem hin áður nefndu, að lítið hafi úr orðið, að Páli látnum.

1721 setti Oddur að vísu alþíngið með Páli, en bráðum varð Oddur ekki viðlátinn að gegna lögmanns störfum, og vildi fá varalögmann sinn að gegna sinna vegna, en Benedikt var þess ei búinn, nema Oddur sannaði lögmætar hindranir, hvað hann ei gat[2]. Oddur hèlt og hjá sèr stefnunum, svo að ei varð að málunum gjört, fyrr en honum líkaði[3]. Páll og Benedikt kvörtuðu yfir þessu við Fúhrmann, sem tók þeim fram um það, er hlut áttu að. Þegar ein af stefnunum kom fram 15. Júlí, vildi Páll ei dæma með Oddi, þar eð málinu væri stefnt fyrir Odd eingaungu, og það til 14. Júlí, að Páli fornspurðum. Oddur gaf þá góð orð, og kvað það þægð sína og ósk, að Páll dæmdi með sèr, og samdist það þá, að allar lögþíngisstefnur skyldu framvegis ákveða 8. Júlí, sem tökudag mála, en Páll sagði, að fyrst góð orð væru á milli komin, vildi hann í eingu gjöra rèttinum töf fyrir þessa litlu misgrein[4]. Má af þessu marka, að Oddur var farinn að lægja seglin, enda hafði Fúhrmann þá árið áður sent kóngi 2 klaganir yfir Oddi, og svaraði kóngur þeim 17. Febr. 1721 heldur þúnglega[5]. Oddur átti og í málum á þínginu, einkum því svo nefnda setskautamáli, og varð í því fyrir sektum þúngum. Espólín segir[6], að Páll ætti hlut að málinu, en eg ætla það orðum aukið, og dregin líkindi af, að Páll ekki dæmdi málið, en þess er ei gætt, að Páll þá daga sat á ráðstefnu með biskupum báðum, um kirkjulaga-verkið[7]. Á þessu þíngi lèt Páll lesa konúnglega staðfestíng á veitíngu til hans á Dalasýslu, dagsetta 29. Apríl 1720[8].

Á alþíngi 1722 varð Páll lasinn fyrri hluta þíngsins, en setti það þó, sem hann var vanur. Gegndi því Níels Kjer hans vegna fyrst um sinn[9]. Frá þessu virðist heilsu Páls að hafa farið hignandi. Var það einkum fótaveiki og verkur í hægri mjöðminni, sem honum var að meini, og ætla eg það væru helztu, ef ei einustu, laun hans fyrir nefndar-ferðalögin,

---

1) Ketils. III, 481; Alþ. bók 1721 Nr. 27. 2) Alþ. bók 1721 Nr. 10, 12. 3) Samastaðar Nr. 13, 14. 4) Samastaðar Nr. 19. 5) Ketils. III, 367—370. 6) Esp. Árb. IX. 60. 7) Alþ. bók. 1721 Nr. 24. 8) Samastaðar Nr. 31. 1. 9) Samastaðar 1722 Nr. 2.

fyrir utan mannhatur og kostnað. Oddur hafði á þínginu ýmsum ákærum að gegna, og var ein af Páli sjálfum. Hafði vinnumaður Páls, Bjarni Andresarson, róið undir jökli veturinn 1720, og var þá ákærður um að hafa stolið hrosskinns-leingju, og feingust litlar sannanir að. Oddur, sem sýslumaður í Snæfellsnessýslu, dæmdi þó Bjarna sekan 9. Jan. 1720, og lèt hýða hann 16. s. m.; en seinna sannaðist, að Bjarni var sýkn sakar. Þegar Páll varð þess vís, skrifaði hann Oddi 18. Maí 1720, og beiddist að fá rèttargjörðirnar skrifaðar, og lofaði borgun fyrir. Oddur vildi ei gefa, fyrr en Páll sendi mann gagnleiðis 4. Sept., en tók ei stefnu út til lögþíngis fyrr en 12. Maí 1721. Bar því Oddur nú fyrir, að stefnan væri of seint tekin, og fèkk það áheyrn, og var málinu vísað frá[1]. Páll fèkk seinna konúngsleyfi 4. Júní 1724, að málið mætti dæmast af lögrèttunni, og geingu báðir varalögmenn dóm í því 19. Júní s. á. og dæmdu Odd til stórra fjárútláta[2].

Um þær skærur, sem Espólín skrifar[3] að um þetta leiti verið hafi milli Páls og Haldórs prests Hallsonar á Breiðabólstað, er mèr nokkuð óljóst; get eg til það með fram verið hafi smáglettni í kveðskap, því báðir voru skáldmæltir og margfróðir. Má og vera, að fleira hafi undirbúið, því Haldór prestur hafði verið sveinn Odds Sigurðarsonar fyrr 1713—1716, og er ei ólíklegt, að þángað hafi lotið brèfagjörðir prests, þær er fèllu í Páls höndur, og voru þess eðlis, að prestur fann sèr haganlegast að vægja til við Pál, og friðmælast við hann[4]. Grunnavíkur-Jón telur enn eina ástæðu til óvildar milli þeirra Páls og Haldórs prests, og má vel vera, að sú hafi verið en upphaflega og einhlít, þá nefnilega, að Haldór prestur hafi beðið Hólmfríðar dóttur Páls, en Páll synjað honum konunnar, þó með ljúflyndi, og hèt hann honum umsýslun sinni á öðrum stað, hvað prestur ei vildi þiggja. Páll kom þá dóttur sinni í Skálaholt til vinar síns Jóns biskups Árnasonar. Ormur prófastur Bjarnason á Mel veitti, með samþykki Fúhrmanns, Páli eptir það prestslega þjónustu.

Það er markvert, að Oddur, sem á alþíngi 1723 fór að komast í ýmisleg vandræði af skuldabrèfum og málavastri, lèt þar lesa vexilbrèf, dagsett 28. Júní 1716, frá hæstarèttar mála-

---

1) Alþ. bók 1722 Nr. 22. 2) Samastaðar 1724 Nr. 12, 14. 3) Espól. Árb. IX, 67. 4) Samastaðar 68.

flutníngsmanni Andresi Lyckey, hvers áður er getið. Átti Laurus Schevíng sýslumaður, sem þá var dáinn, eptir því að borga til Odds 306 rd. 4 mark Specie, fyrir það, sem Lyckey áður átti að launum hjá dómurum í 24 manna rèttinum, fyrir málaflutníng gegn Páli við hæstarètt[1]. Óvíst þykir mèr, hvort Oddur gjörði þetta af ertni við Pál, til að minna hann á fornar væríngar, eða af áleitni við erfíngja Schevíngs. Páll ansaði því eingu, en erfíngjar Schevíngs þyktust við, og lètu lesa skjal nokkurt, sem átti að sýna Oddi, að hann skyldi einkis hjá þeim vænta[2]. Hafi hver af þeim 24 átt að borga Lyckey jafnmikið, má svo aðkveða, að sektir Páls 1716 hafi orðið þeim dýrkeyptar. Espólín segir[3], að Páll hafi 1. Sept. 1723 samið klögun þúnga til konúngs yfir Oddi Sigurðarsyni, og sama segir Stephensen[4], en þar ætla eg lítið tilhafið. Páll kvartaði að eins yfir, og víst ei án orsaka, að lagaverkinu geingi svo seint fram, vegna óvilja ýmsra sýslumanna og Odds sèr í lagi; má þetta sannast af kóngsbrèfi 11. Apríl 1724[5], en hitt kóngsbrèfið, er Stephensen nefnir, lýtur að eins að klögunum Fúhrmanns yfir Oddi, hverra áður er getið, og er því ránglega tilfært.

Á alþínginu 1724 var í óefni komið. Páll setti þíngið að vanda 8. Júlí og nefndi til lögrèttumenn sunnan og austan; en svo var kominn 12. Júlí, að einginn kom í norðan lögrèttuna. Fèkk Páll þá Fúhrmann til að láta Níels Kjer, þó hann væri varalögmaður Páls, skipa lögrèttuna af Odds hálfu. Þann 14. kom fyrst Benedikt, varalögmaður Odds, og settist í sæti hans, en hafði aldrei verið kvaddur til þess af Oddi, enda var lítil vinátta þeirra, og hafði Oddur nú stefnt Benedikt, fyrir 24 manna rèttinn[6]. Eptir að hrosskinns-leingju málið, hvers áður er getið, var dæmt af varalögmönnum báðum og Oddi til áfellis[7], er sagt að Páll hafi kveðið:

> Hrosskinns-leingjan er nú elt
> (allt fór það með snilli),
> hún hefir leingi legið melt
> lögmannanna á milli.

Páll vèk sèr varhygðarlega frá á þessu þíngi að dæma í málum þeirra Odds og Johanns Gottrúps, er hvor sókti ann-

1) Alþíngisb. 1723 Nr. 17. 2) Samastaðar Nr. 21. 3) Espól. Árb. IX, 72. 4) Eptirmæli 18. aldar, bls. 611. 5) Ketils. III, 371, 372. 6) Alþ. bók 1725 Nr. 1, 3, 5, 6, 8, 12, 13. 7) Samastaðar Nr. 12, 14.

an til æru og eignatjóns[1], en báða þá rak Fúhrmann frá embættum að svo stöddu, enda var lýst haldi yfir Oddi, eptir kröfu Gottrúps, en hann sjálfur fèkk veð þeirra Páls, Kjers og Sigurðar landþíngsskrifara, að ei skyldi hann umhlaupast[2].

Sagt er, að þetta ár hafi þeir samið um milli sín á Þíngvelli, Steinn biskup og Brynjúlfur Þórðarson á Hlíðarenda, að prentsmiðja sú, er Brynjúlfur selt hafði Birni biskupi, hafi frá upphafi verið eign Hóladómkirkju, að gjöf Guðbrandar biskups, og gekk því Brynjúlfur að, að gjalda Steini biskupi svo marga penínga, sem prentsmiðjan var af húsfrú Þrúði, ekkju Bjarnar biskups, látin fyrir í álag Hólastaðar[3]. En því get eg þessa hèr, að Páll var helzti milligaungumaður sáttanna, og telja sagnamenn vorir það Páli til niðrunar, að hann sem umsjónarmaður húsfrú Þrúðar hafi látið prentsmiðjuna koma í álag staðarins, en þó seinna, og í hefndaskyni við Brynjúlf, liðsint Steini biskupi til að ná henni fyrir ekki[4]. Eg læt hvern ráða um þetta meiníngu sinni, en ekki finn eg ástæðu fyrir því, er biskup Finnur segir[5], að Páll hafi eins í þessu, sem öðru, upphaflega mótþægt Steini biskupi, því ekki verða rakin rök til annars, en að allt hafi fallið vel ásamt með þeim, og áttu þeir þó margt saman að sælda, meðan þau húsfrú Þrúður og biskup Steinn ekki voru skilin að skiptum. Páll var ekki leingur umsjónarmaður Þrúðar, en meðan á þeim viðskiptum stóð, heldur Brynjúlfur, sem var hennar einasti erfíngi, að sögn ens sama biskups Finns[6]; og fyrir það utan, hvað óljóst það er, hvors rèttindi voru betri til prentsmiðjunnar, Hólastóls eða Brynjúlfs[7], þá mátti Páll líka vel hafa feingið betri upplýsíngar 1724, en hann hafði, þegar Steinn biskup tók við af Þrúði 1712, og því í hvortveggja skipti fylgt því, er hann þá meinti rèttast, án allrar hefndargirni við Brynjúlf. Biskup Finnur segir, að það orð hafi á leikið, að Páll væri pottur og panna til apturköllunar prentsmiðjunnar[8], en Espólín gjörir þenna orðróm að fullum sanni, og leggur Páli orðin í munn[9], þar sem Finnur biskup sjálfur þó leiðir líkur að, að Steinn biskup hafi frá upphafi síns biskupsdóms farið

1) Alþ. bók 1725 Nr. 20, 26. 2) Alþ. bók 1724 Nr. 26. 3) Esp. Árb. IX, 75; Hist. eccl. Isl. III, 746. 4) Esp. Arb. IX, 71; Hist. eccl. Isl. III, 747, a. 5) Samastaðar. 6) Hist. eccl. Isl. III, p. 747. 7) Ketils. II, 352, 353. 8) Hist. eccl. Isl. III, p. 747. not. a. 9) Ísl. Árb. IX. 71.

að búa sig undir apturköllunina og feingið 1713 þar að lútandi skilríki frá Cancellíi[1].

Árið 1725 sátu þeir fyrir í lögrèttu Páll og Benedikt, því Oddi var vikið frá árið fyrir, sem áður er sagt. Kom þar fyrir illorða-mál Odds við Jóhann Gottrúp, og varð nú Páll að dæma, því Níels Kjer var viðriðinn málið, þar sem hann hafði dæmt það í hèraði[2]. Um það leiti mun Páll hafa kveðið:

Nú er sagan nógu laung,
nú eru dómar hreptir:
Broddi er kominn í glæfragaung,
Gottrúp rekur á eptir.

Oddur var kallaður, en kom ekki. Þeir lögmenn dæmdu af Oddi æru og fè 21. Júlí og heimfærðu N.L. 6. 4. 18 og 6. 21. 2, en embætti Odds er ekkert nefnt í dóminum, því er viðbætt af þeim, er síðar hafa frásagt, þó sjálfsagt væri, að það mistist með ærunni. Hvað sem um það er sagt, hve hæfilegir dómarnir hafi verið, varð þó dómur þeirra staðfestur af hæstarètti 13. Apríl 1727[3].

Páll var mjög lasinn um þíngtímann, en varð þó að gegna lögmanns störfum allt að þínglausnum, því Kjer kom bæði seint og hafði málum að gegna[4]. Á þessu þíngi var lesið konúnglegt leyfisbrèf, að Páll og kona hans mættu, meðan lifðu, halda Húnavatnssýslu jörðum að lèni[5]. Þá lýsti Páll því líka yfir á þessu þíngi, að dóttir hans Hólmfríður skyldi eptir móðurina taka jafnan arf með sonum hans[6]. Var Hólmfríður þeirra hjóna einasta dóttir. Um haustið 1725 dó fyrst Hildur Arngrímsdóttir lærða, móðir Páls, og hafði lifað í 82 ár, því faðir hennar var fæddur 1568, en hafði þá 5 um sjötugt, er hún fæddist[7].

Oddur hafði farið utan um haustið í málum sínum, og kom aptur sumarið 1726, og fór á alþíng; vildi þar setjast í dómssæti, en amtmaður Fúhrmann bannaði það harðlega, líka Benedikt varalögmaður, en Oddur matti það að eingu, og settist, hvað sem hver sagði, 24. Júlí, en Páll hafði, lasleika vegna, hvorki getað setið lögrèttuna þenna dag, nè daginn áður[8], en svo virðist, sem einginn hafi að neinu metið þrásetu Odds,

1) Hist. eccl. Isl. III, pag. 747. 2) Alþ. bók 1725 Nr. 9, 12. 3) Eptirmæli 18. aldar, bls. 611. 4) Alþ. bók 1725 Nr. 23. 5) Samastaðar Nr, 27, 3. 6) Samastaðar Nr. 28, 42. 7) O. Wormii epistolæ. I, 344. 8) Alþ. bók 1726 Nr. 24.

og einn dæmdi Kjer í málinu um jarðirnar Hnappavelli og Svínafell í Öræfum, er þá var fyrir. Oddur bannaði og sýslumönnum að gjalda nokkrar lögmanna-tekjur til Benedikts[1]. Á sumri var lesið afsalsbrèf húsfrú Þrúðar Þorsteinsdóttur á jörðunni Kvíindisfelli við Tálknafjörð 30 hundr. til Páls dagsett 8. Maí 1726; átti jörðin að vera gjöf og gjald fyrir auðsýnda aðstoð í hennar ekkjustandi[2], og má af því marka, að þó Páll hefði verið Steini biskupi hlyntur með apturköllun prentsmiðjunnar, hefir þó hvorki húsfrú Þrúður nè erfingi hennar talið það gjört til mótþróa við sig.

Árið 1726 var að öðru leyti mæðu-ár fyrir Pál, því á því misti hann 2 efnilega syni, og hètu Jónar báðir; Jón ýngri var mesti náms og lærdómsmaður, og hafði dáið við háskólann í Kaupmannahöfn 1725, og var greptraður í September s. á., þó Páll frètti ei lát hans fyrr en 1726. Árni kostaði greptrun Jóns ýngra með 31 dal 2 mark 2 sk. Cróner. Jón eldri hafði og mannazt vel erlendis, en kom út 1723; gjörði Steinn biskup hann þá að heyrara við Hólaskóla, og gipti honum Helgu dóttur sína 1726. Þeirra einasta barn var Síra Jón í Laufási, faðir Geirs biskups Vídalíns. Jón eldri Vídalín var á alþíngi 1726, og mæltist þá landfógeti Wúlf til, að amtmaður vildi það árið setja hann fyrir Vaðlasýslu, er þá var laus eptir dauða Hannesar sýslumanns Schevíngs[3]. Þessu varð framgeingt, og reið Jón norður, og í sýslu sína um haustið, ætlaði þaðan 12. Október yfir Hjaltadalsheiði til Hóla, en varð úti á heiðinni með 2 mannvænlegum mönnum öðrum; fundust ei líkin, þó leitað væri, fyrr en vorið eptir. Páli fèll þúngt um andlát sona sinna; var og þá fóthrumur og lítt fær, og sendi Arnór Jónsson, þènara sinn, til að reka sýsluna[4]. Sá Arnór varð seinna sýslumaður í Borgarfjarðar-sýslu, og er móðurfaðir Arnórs prófasts Jónssonar í Vatnsfirði.

Beygður af þessu mótlæti, þreyttur af ýmsu andstreymi lífsins og hrumur að heilsu, reið Páll til alþíngis 1727, sem hann var vanur. Er þá mælt, að eptir að hann lesið hafði ferðabæn sína, hafi hann snúið við hestinum, litið heim og sagt: „Vertu nú sæl, Víðidalstúnga mín! Eigi sè eg þig aptur meir“. Hann kvað fyrir munni sèr, þá er hann reið með Ármannsfelli:

1) Alþ. bók 1726 Nr. 28. 2) Samastaðar Nr. 30, 17. 3) Samastaðar Nr. 17, 1. 4) Espól. Árb. IX, 86.

Leiðast tekur himin og hauður,
hagur bágur alla daga,
andvana frá auð burtvendi.
Undarligt er stríð lífs-stunda[1].

Er sem í vísunni liggi falin bæði ósk um hvíld, og spá fyrir því, að sú mundi ferð hans en seinasta. Páll setti þíngið með Benedikt varalögmanni, en lasnaðist svo bráðum af megnri beinverkja sótt, að ei gat á felli verið, enn síður gegnt málum manna; settist því Kjer í hans sæti. Á þínginu var lesinn hæstarèttar-dómur í æruleysis-sök Odds, og var hann nú dæmdur í 40 silfurs-lóða bætur og til búslóðar og ærutjóns; líka átti hann að borga Gottrúp í kostnaðarskyni 300 rd., Fúhrmann 100 rd., Benedikt 100 rd., Páli 50 rd. og Sigurði landþíngsskrifara 30 rd.[2]. Meina eg þetta rèttara, en það Espólín segir[3], ef það er ei ritvilla.

Það hafði verið siður, að hríngja til lögrèttu með klukku, er alþíngið átti, en þessi klukka brotnaði 1722[4]; hafði þá Páll samið við prestinn á Þíngvöllum, Jón Haldórsson, að hann lèði klukku til alþíngis brúkunar. Klukkan var alljafnt brúkuð síðan, bæði fyrir lögrèttuna og yfirrèttinn, þá haldinn var, en misbrestur varð á þessu, hvað yfirrèttinn snerti, þann 16. Júlí 1727 um morguninn, hverra orsaka vegna, er ekki hægt að segja. Fúhrmann reiddist því, og kendi það illvilja Páls, sem lá þá í rúminu þúngt haldinn, og kvað hann hafa gjört það til vanvirðu sèr og mótþróa; hafði þó ætíð verið gott þeirra á milli. Amtmaður krafðist, að Páll væri strax dæmdur og sektaður, en einginn var til ansvara. Fjórum sinnum var sent að rúmi Páls í þessu þjarki, og fèkst ei annað af honum, en að hann ei hafi mátt brúka klukkuna til annars en þess, er prestur hefði lèð hana til, lögrèttu hríngínganna; en aldrei hafi hann hindrað yfirrèttar hríngíngar, þegar prestur hafi leyft, og sè það til vitnis þar um, að þènari sinn hafi ætíð hríngt, eptir bón sinni; hann sendi eingan í sinn stað til rèttarins, en guð vissi, hann gæti ei sjálfur komið. Er svo að skilja, sem yfirrèttar hríngíngarnar hafi ei nefndar verið í samníngi Páls við prestinn, en Páll, meðan hann var á upprèttum fótum, feingið til þeirra í hvert sinni sèrlegt leyfi prests, en eptir að Páll var lagztur, hafi þetta farizt fyrir. Fúhrmann gekk fast að

1) Espól. Árb. IX, 88. 2) Alþ. bók 1727 Nr. 13. 3) Espól. Árb. IX, 88.
4) Alþ. bók 1723 Nr. 33.

með dóminn, og var hann feldur 17. Júlí, daginn áður en Páll deyði, og hann sektaður um 4 rd. til Klausturhóla-spítala, og eins mikið til lögrèttu og lögrèttumanna[1]. Þetta er nú það þras, er Stephensen segir Páll hafi verið flæktur við, þá hann deyði[2]. Þann 17. Júlí elnaði sóttin á Páli, var þá sent í Skálholt eptir Hólmfríði dóttur hans til að mæla við hann, og kom hún. Hún heilsaði föður sínum, en hann leit við henni og mælti: Guð hjálpi mèr! hvernin ertu! Var það eð seinasta, er menn heyrðu hann tala. Hólmfríður var þá þúnguð að völdum Bjarna skólameistara Haldórssonar, er síðar varð sýslumaður í Húnaþíngi, og trúlofuðust þau litlu seinna[3]. Bjarni var sonur Haldórs prests á Húsafelli Árnasonar og Haldóru Illhugadóttur. Páll andaðist um sólaruppkomu 18. Júlí, 10 dögum eptir það hann setti þíngið, þá sextugur að aldri, og kom það þá fram við hann, er hann hafði áður mælt, að sá dauði væri vænstur, er aðbæri, meðan einn gegndi embættisköllun sinni. Sigurður landskrifari Sigurðarson bjó heiðarlega um líkið, og var það, að fyrirsögn Páls, meðan hann lifði, flutt norður að Víðidalstúngu og jarðað, þar sem hann áður hafði tiltekið, sunnan fram við kirkju dyrnar, og fylgdu því af Þíngvelli meir en 100 menn, og allir höfðíngjar[4]. Sigurður sýslumaður Jónsson frá Hvítárvöllum fylgdi því alla leið norður. Var lík hans súngið til moldar af Ormi prófasti Bjarnasyni á Mel, og sú líkræða viðhöfð, er Páll hafði sjálfur, fyrir meir en 20 árum síðan látið Ólaf prest Jónsson, seinast í Grunnavík, gjöra eptir sig. Inntakið var: „Eg sleppi þèr ekki, fyrr en þú blessar mig". Páll hafði opt, og ei skjaldnar en einu sinni á ári, lesið hana fyrir sjálfum sèr. Kvaðst hann vilja vita, hvað mælt yrði yfir moldum sínum. Það grafletur hafði hann og gjört yfir sjálfan sig mörgum árum áður hann dó: Hèr liggur Páll Jónsson hinn Víðdæli. Sofi bein hans í friði!

Þannig hefi eg þá rakið Páls lífsgötu, eptir því sem faung eru á, en svo er lángt síðan hann fór hana og til þess nú, að líklegt er, að margt sporið sè ei af mèr rakið, svo greinilega, sem skyldi; færri krókagötur ætla eg þó hann hafi geingið, en orð hefir verið á gjört, en hvort eg hefi getað tekið þær allar af, læt eg ósagt, hitt hefi eg ætlað að kappkosta, að

1) Alþ. bók 1727 Nr. 16. 2) Eptirmæli 18. aldar, bls. 608. 3) Espól. Árb. IX, 90. 4) Samastaðar.

byggja sagnir mínar á skilríkum vottum og enum upprunalegu alþíngis brèfagjörðum.

Páll var alls einu sinni giptur, og eignaðist Þorbjörgu, dóttur Magnúsar digra í Vigur, Jónssonar prests í Vatnsfirði, Arasonar sýslumanns Magnússonar sýslumanns, Jónssonar á Svalbarða. Voru þau Páll og Þorbjörg fjórmenníngar að frændsemi frá Guðbrandi biskupi, því Ari Magnússon átti dóttur hans Kristínu. Móðir Þorbjargar var Ástríður, dóttir Jóns prófasts í Holti í Önundarfirði, Jónssonar Sveinssonar prófasta þar, Símonssonar prests. Eigi giptust þau Páll og Þorbjörg fyrr en 1698. Þau höfðu þó verið trúlofuð, frá því Páll var í Hólaskóla, en samþykki Magnúsar í Vigur fèkst ei til ektamálanna, fyrr en Páll var orðinn skólameistari, og það þó enn með tregðu nokkurri af föðursins hálfu. Þorbjörg var svarri mikill, ríklunduð og stórgerð, og þóktist Páli ofgóð, einkum fann hún sèr það til, að hann væri ei kallmannlegur eða höfðínglegur að álitum; þeim samdi þó í fyrstu allvel, en bráðum versnaði um sambúð þeirra, og hèlt því allt af áfram, og var það Páli ekki lítill mæðuauki, einkum eptir að heilsu hans förlaði. Má og vera, að Páll hafi sjálfur nokkuð aðstudt, því hann var glettyrtur og ertinn. Eitthvert sinn er þau ætluðu til altarisgaungu, sagði Páll við hana blíðlega: „eigum við ekki að sættast?“ hún mælti, og með þjósti nokkrum: „það má vera, hvort er vill;“ þá kvað Páll:

> Þó þú lofir fögru fljóð,
> fer það, sem er vani:
> sættin verður á Svenskra móð,
> sem þeir gjöra við Dani.

Og batnaði ei um við þetta. Þau hjón áttu 4 börn, er úr barnæsku komust, og eru 3 þeirra nefnd hèr fyrri.

1. Jón eldri, sem úti varð 1726 og hvers sonarsonur var biskup Geir Vídalín, sem áður segir:
2. Jón ýngri, sem dó erlendis við háskólann 1725 í September-mánuði.
3. Magnús, sem leingi bjó í Núpsdalstúngu, ókvæntur og kallaður barnlaus; og
4. Hólmfríður, hverrar áður er getið. Henni unni Páll mikið, sem öðrum börnum sínum, og var hún mentuð í handiðnum, strax á únga aldri, og síðan komið í Skálholt, sem áður er ávikið. Á 10. aldurs ári er svo sagt hún saumað

hafi pellsaums-yfirbreiðsl, og þar um kríng þessa vísu föður síns:

Níu vetra nú í vor
naumar með íþróttir
hefir saumað hvert eitt spor
Hólmfríður Pálsdóttir.

Þau Bjarni sýslumaður og Hólmfríður áttu 5 börn, og hafa 2 þeirra látið börn eptir. Haldór, síðar klausturhaldari á Reynistað, og Þorbjörg, er átti Jón varalögmaður Ólafsson. Þorbjargar þessarar og Jóns einbirni var Hólmfríður, er giptist Friðriki presti Þórarinssyni, og er það einn sonur Hólmfríðar ýngri, er enn býr á óðalseign ættarinnar, Víðidalstúngu, Jón stúdent Thorarensen, er látið hefir einn sona sinna heita að öllu eptir móður sinnar nafnfræga lángafa. Enn þá áttu þau hjón, Páll og Þorbjörg, 2 sonu, Hákon og Jón, er eigi komust úr barnæsku, og voru fyrr fæddir en þau áðurtöldu. Hákon varð 4. ára, og fellst Páli mikið um að missa hann. Þá er mælt hann hafi sagt: „hefði annar en guð tekið hann Hákon frá mèr, munda eg hafa leitazt við að hefna hans“.

Aldrei ætla eg Páll hafi mátt auðugur heita, að því er þá var kallað, enda sjást ei þess merki, að hann hafi fjárdráttarmaður verið. Aldrei átti hann, það eg veit, í málum um eignir eða óðöl, og skjaldan finnst þess getið, að hann keypti eða seldi jarðir. Í fyrstu voru tekjur hans litlar, meðan hann var varalögmaður, því þó hann þá hèldi Dalasýslu, hèlt hann þar líka ætíð lögsagnara, sem launa þurfti. Sífeld ferðalög, meðan á jarðamats-störfum stóð, og málavastur seinna, má og verið hafa honum útdráttarsamt. Þó var hann ætíð við sæmileg efni og útbú hèlt hann um tíma á Deildartúngu í Reykjadal enum nyrðra, en hvort hann átti þá jörð, er mèr óljóst. Víðidalstúngu erfði hann eptir föður sinn, og Ögur við Ísafjörð fèkk hann 1702 eptir Magnús digra, teingdaföður sinn. Litlaland í Ölvesi átti hann, og skipti því 1722 fyrir Nup eða Núp í Dalasýslu við Brynjúlf Jónsson á Hvammi í Ölvesi; Núpa í Þíngeyarsýslu átti hann og seldi 1724; Garðsá við Eyafjörð fèkk hann sama ár, að gjaldi, frá Oddi Sigurðarsyni, en seldi aptur; Kvíindisfell við Tálknafjörð fèkk hann að gjöf húsfrú Þrúðar Þorsteinsdóttur, og er þess áður getið[1]. Nokkra fasteign fèkk hann og að arfsali með Margrètu Bergsdóttur, systur Markús-

1) Sjá kaupbrèfa lýsingar alþíngisbóka.

ar sýslumanns Bergssonar, en ekkju Þorgríms lögrèttumanns Jónssonar í Reykjahlíð. Gjörði Páll og Margrèt þar um arfsalsbrèf 19. Maí 1710, og hafði hún þó árið áður selzt arfsali til Brynjúlfs Þórðarssonar á Hlíðarenda, en hann gaf það góðviljugur eptir 1710. Er það eitt merki þess, að þó þeir ætti í málum saman Páll og Brynjúlfur, var þó eingin óvinátta þeirra á milli. Páll fèkk staðfestíngu kóngs á arfsalsbrèfið 13. Júní 1721[1]. Að bú Páls heima hafi framan af verið allreisuglegt, má ráða af því, að stórubólu-árið voru í einu undir jökli, mest til fiskikaupa, frá honum 25 hestar tamdir, auk þeirra er þá voru í Páls eigin för[2]. 5 hundruð fjár hafði hann og, þegar bezt lèt, en eptir siglíngu sína 1715 aldrei meir en 3 hundruð. Fjárhagur hans þverraði heldur, og lítið lèt hann eptir sig, því arfar barna hans Magnúsar og Hólmfríðar og sonarsonar Jóns, er öll geingu jafnt að, unnust ei fyrir 1101 rd. 24 sk. Króner, er hann skuldaði Árna vin sínum. Skuldar þessarar var, að Árna látnum, harðlega krafizt af Ormi sýslumanni Daðasyni, fyrir hönd bróðurdóttur Árna Ástríðar Magnúsdóttur, sem erfa átti ein, allt hvað Árni átti hèr innan lands, og luku þeir skuldinni Bjarni sýslumaður Haldórsson vegna konu sinnar og Magnús Pálsson að þeirra hluta, en Steinn biskup gekk frá arfi og gjaldi, vegna dóttursonar síns, en Páls sonarsonar Jóns, og misti Ástríður þar 14 rd. 12 sk. Króner, þó hún tæki allt arfalóð barnsins, sem því verið hefir 352 rd. 92 sk. Króner. Skuld þessi hjá Árna hafði gjörzt mest 1712 og 1716 við utanför Páls, sumpart líka af því, er synir Páls Jónarnir tóku til láns hjá Árna 1721 og 1722. Allar þessar skuldir voru upphaflega samanlagðar 810 rd., og þó Páli smátt og smátt lyki þar af 325 rd., óx þó skuldin til áður nefndrar hæðar 1101 rd. 24 sk., því bæði tók Árni rentu-rentu og 5 rd. af hundraði. Staðfest eptirrit allra þeirra skilríkja, er hèr að lúta, hefi eg í höndum eptir Orm Daðason.

Páll var fremur lítill meðalmaður vexti, og ekki fyrirmannlegur að útvortis álitum, óknár að líkamsburðum. Dökkur var hann á hár og skegg. Ennið var í meðallagi hátt. Augun smá, snör og svartblá. Nefið hátt, mátulega þykt og slètt. Svipurinn var hreinskír og djarflegur. Bæði andlitsfall og útlimastærð var vel niðurskamtað. Handsmár var hann og

---

1) Ketils. III, 482—84. 2) Þorsteinn Ketilsson við ár 1707

þykkhentur og gildnaði með aldrinum; rómurinn lá hátt, en var þó veikur. Bendir til þess vísa sú, er Haldóra Jónsdóttir, systir Jóns sýslumannns í Grenivík, en móðir Sveins lögmanns Sölvasonar lèt gjöra til hans og rita á kirkjubitann í Bólstaðahlíð, þar Páll átti um að gánga:

Á gráum klæðum skartið skín,
skríngilega kvað hann;
Virðar segja Vídalín
vera skrækhljóðaðan.

Átti þetta að vera hefnd fyrir gamanvísu, er Páll hafði áður ort til Haldóru. Honum urðu strax ljóð að munni:

Dóra! þú lèzt dikta ljóð,
dári þig sèrhver maður!
Búri þinn hefir bekra hljóð,
blestur og dimmraddaður.

Má það sjá, að báðar vísurnar eru gamanvísur, en þó með eljara-glettu nokkurri.

Það er ætíð vandasamt, og skammsýnum manni valla fáandi í hönd, að dæma um hugarfar manna af verkunum. Enda þó verkin sèu unnin svo að segja fyrir augum manns, má þó fara vilt í slíku. Opt eru en minnstu tildrög, og það, er harla lítið sýnist í varið, sem hvað bezt leiðbeina má dómum manna í þessu. Hættast er því við skjátla megi, er meir en 100 ára öld er liðin frá verkinu, til þess dóminn skal á leggja, ok flest tildrög og smáatvik eru að öllu gleymd, en fleiri hafa gjörzt til að smíða getgátur um hið lakara, af getgátunum líkindi, og af líkindunum vissu, til áfellisdóms. Eg hefi hèr og þar að framan bent til, að rithöfundar vorir hafi ei ætíð sagt alls kostar rètt frá verknaðinum, hvað Pál snertir, og má þá ekki síður ætla, að þeim hafi skjátlað í dómum sínum um hann. Segi eg þetta helzt til Stephensens, því þó margur fái, sem menn kalla, ókroppaða hnútu hjá honum í riti hans „Island i det 18. Aarhundrede", er þó einginn svo illa meðfarinn, sem Páll, og honum valin orð, sem rèttvísum dómara miður sæma, og á vorum dögum ekki, við samtíðismenn, mundu ákærulaust afkomast[1].

Eg ætla Páll hafi verið guðhræddur maður. Færi eg fyrst rök til þess, því eg ætla fleira megi þar eptir fara. Kveðja

1) Isl. i det 18. Aarh. p. 315, 321, 327, 366, 367 etc.

sú en hjartnæma, er Páll samdi við siglíngu sína 1715, sýnist mèr lýsa þessu berlega, og þekki eg þá ekki, ef upphaf hennar og endi er ei sprottinn af innilegri tilgjörðarlausri guðrækni. Sálmar hans, sem og þýðíngin af sálmunum: „*Á guð alleina*“ og „*Jesú þín minníng mjög sæt er*“ mundi ei heldur hafa hepnazt svo vel, sem skeð er, ef hugur hefði ei máli fylgt. Loks minnist eg þess, að heima hjá sèr, og þar sem hann kom eða var á kirkjustað, var hann vanur daglega að gjöra bæn sína í kirkjunni. Þessa getur líka Þorsteinn Ketilsson, þó ófyrirsynju, um Pál, þegar hann stórubóluárið á heimferð sinni frá Slítandastöðum kom að Staðastað [1]. Að hann hafi opt hugsað um dauða sinn, sýnir það, sem áður er frásagt um líkræðuna og legstaðinn. Að Páll hafi trúað galdri, má vel vera, því ekki er það öllum gefið að hefja sig yfir aldar sinnar hègiljur, og á Páls tíðum var galdra meðferð enn ákærð og dæmd á alþíngi [2], en að hann sjálfur hafi með galdur farið, neita eg að öllu. Hverjar vísur Páls að bendi til þessa, veit eg ei. Það ætti þá að vera vísan: *dimt mèr þótti Dals við á,* o. s. frv, ef hún er Páli rètt eignuð. En þó er hún af skálds munni eingin líkindi, enn síður sönnun. Með vísunni: *Eitt er það sem ángrar mig,* o. s. frv., virðist mèr hann hæðast að draugatrú þess, er hann átti við. Páls margfalda þekkíng á ýmsu fremur öðrum samaldar-mönnum, hans útivera á kvöldum til að aðgæta himintúnglanna gáng, sem rit hans sýna, að honum var gjör kunnugur, já, jafnvel djúpsæi hans og viturleiki og heppni í ýmsu stríði við óvini sína, var á þeirri öld nóg til að koma á hann fjölkyngis orði, einkum þegar hann sem fornfræða iðkari, líka hafði með að fara rúna-stafróf af ýmsum myndum, og stafir þeir ýmsist voru límíngar eða sundurlausir. Bogi stúdent Benediktsson hefir á vesturlandi sèð kver eitt með Páls eigin hendi, gamalt og máð; á því voru rúnastafir bundnir og óbundnir, og ýms villuletur, en ekki spor til hjátrúarfullrar brúkunar þeirra. Hverjir þeir sveinar Páls sèu, er hafi borið hann slíku, sem Espolín segir [3], er mèr óljóst, en hvorki gjörir það Grunnavíkur-Jón, nè Þorsteinn Ketilsson, er kunnugastir voru háttum hans. Eg vil ekki með þessu hafa Pál undan þeginn að hafa verið í einu eða öðru nokkuð einkennilegan í athöfn sinni, og átti hann

---

1) Þorsteinn Ketilsson við ár 1707. 2) Alþ. bók 1702 Nr. 7; 1708 Nr. 5; 1711 Nr. 6, 13, 15; 1712, Nr. 23. etc. 3) Espól. Árb. IX, 90,

ætterni til slíks, þar sem faðir hans var, og var það eitt nóg til að styrkja almúga trúna á galdra-meðferð hans. Þar að mátti það einnig styðja, að honum, sumpart vegna djúphyggni hans, kom ei allt á óvart. Talið er til þess eitt dæmi, að kvöldið það sem Jón sonur hans varð úti, sat hann í húsi sínu, eptir að ljós voru kveikt, og las í Grágás, með hönd undir kinn. Allt í einu leit hann upp og mælti við þá er inni voru; *„annaðhvort er eg nú feigur, eða Jón sonur minn er „dauður“*.

Að Páll hafi elskað föðurland sitt af alhuga, um það þarf eg ei annað en skírskota til hans merkilegu ritgjörðar, *„Guði, kónginum og föðurlandinu“ (Deo, Regi, Patriæ)*[1], á hvert síðar verður minnzt. Eg ætla viðreisn föðurlandsins hafi legið honum ríkt á hjarta, og valla var hann kominn til embættis, fyrr en hann fór að hafa þann þánka um hönd, því að því er Conferenceráð Werlauff skrifar[2], geymist í handrita safni A. M. áður óþekt rit Páls, um viðreisn landsins, og það reit hann sem skólameistari í Skálholti, en *„Deo, Regi, Patriæ“*, reit hann seinna 1699. Ætíð var og Páll með þeim fyrstu á alþíng, og gegndi þar störfum sínum með alúð og árvekni til dauðadags. Er það auðsèð á alþíngisbókunum, að hann var þar nokkurskonar siða-maður, meðan tilentist. Opt hèlt hann á jarðamats-störfum fram á vetur, og tók sig upp til þeirra, strax sem voraði, jafnvel um hávetur.

Páll var bæði ættrækinn og góður þeim honum voru við hönd, og stöðugur vinur vina sinna. Er til sanninda um það, að hann stöðugt hèlt í hönd með þeim Guðbrandi Arngrímssyni mági sínum og Jóni Magnússyni, systurmanni sínum. Son Guðbrandar, Þorlák, tók hann á verferð, mannaði hann vel og kendi honum lög, og fræddi hann um góðan skáldskapar smekk með fleiru, og loks skipaði hann sèr að lögsagnara í Dalasýslu og líka seinna Jón Magnússon. Þorlákur hafði átt 2 börn með Helgu Bjarnadóttur Arngrímssonar, en þau voru bræðrabörn, og útvegaði Páll þeim uppgjöf þessara brota og giptíngarleyfi[3]. Það ætla eg hafi verið helztu upptök til óvildar milli þeirra Páls og Gottrúps, að Gottrúp hafði Húnavatnssýslu undan Guðbrandi 1684[4], og þraungvaði seinna kosti

1) Útgefið í Sórey 1768 af Jóni sál. Eiríkssyni Conferenceráði. 2) Nord. Tidsskr. for Oldk. III, 75. 3) Ketils. III, 400, 401. 4) Espól. Árb. VII, 108.

hans í öllu með ágeingni og málaferlum, eptir að Guðbrandur var orðinn embættislaus landseti á Ási í Vatnsdal, sem Gottrúp hafði að lèni, frá hverri jörðu Gottrúp bygði honum út 1712 og kastaði eign sinni á kvikfè hans, en setti á jörðina lögsagnara sinn, Sumarliða Clemensson[1]. Um dóms aðferðir yfir Jóni Magnússyni, með fram af Gottrúps hendi og að hans undirlagi, er áður getið við árið 1709. Allt gjörði Páll, það er í hans valdi stóð, til mönnunar barna sinna, og margir komu börnum sínum til hans til læríngar; þannig voru 6 slík honum á hendi veturinn 1712—13, og fèkk hann mág sinn, Jón Magnússon, er þá bjó embættislaus á Ásgeirsá, til að kenna börnum þessum þann vetur, að líkindum með fram Jóni til stoðar[2]. Allir þeir, er Páli voru við hönd sem sveinar, mönnuðust vel, og að hans umsýslun, og gjörðust flestir fræðimenn miklir seinna[3]; nefni eg helzt til Þorstein prófast Ketilsson, áður nefndan, og Jón Ólafsson frá Stað í Grunnavík, sem var fóstursonur og sveinn Páls, og kom föðurlaus til hans 7 ára, þessi hefir eptir sig látið mörg rit og merkileg, þessi Jón var sonur þess Ólafs prests Jónssonar, er líkræðuna gjörði yfir Pál, meir en 20 árum áður þessi dó. Síra Ólafur dó í stórubólu 1707. Meðal sveina Páls má enn telja Guðmund prest Bjarnason á Stað við Hrútafjörð; Eggert prest Sæmundarson á Undirfelli, Þorkel prest Þorsteinsson á Fagranesi, sem drukknaði með sonum biskups Steins, Arnór sýslumann Jónsson, og þó eru enn fleiri. Stöðug var vinátta milli þeirra Páls og biskupanna Bjarnar, Steins og Jóns Vídalíns, og þó þeir 2 fyrr nefndu væru hógværir og óáleitnir, þá var þó enn síðast nefndi ekki svo væginn, ef eitthvað hefði verið til hans gjört; og valla mundi hann þá hafa látið litla frændsemi aptra örlyndi sínu. Þeir Páll og Árni voru alt af sem einn maður, og gott var á milli þeirra Páls og Jóns stiptprófasts Haldórssonar í Hítardal, og er merki til þess áður talið.

Það ætla eg, að Páll hafi ekki verið ásvellur í tekjum, hvorki við sýslubúa nè landseta sína, því aldrei kom neitt klögumál fyrir um það, og mun þó óvild Odds og þeirra, er hans taum drógu, til Páls, hafa verið svo þjóðkunn, að vænta mátti, að klögumál yfir Páli mundi fá góða áheyrslu. Ólíkt

1) Esp. Árb. IX, 9. 2) Nordisk Tidsskr. for Oldkyndighed III, 8. 3) Esp. Árb. IX, bls, 90.

má það hafa verið framferðum Gottrúps lögmanns í Húnaþíngi, sem átti iðuglega í málaferlum við sýslubúa og landseta Þíngeyra-klausturs um gjöld, og voru sum ekki fögur, t. d., tarfsmálið 1706 og fleiri.

Mest álas hefir Páll hlotið fyrir það hann verið hafi áleitinn og óeirinn við óvini sína og þeim þúngur í skauti. Eg vil ekki neita því að öllu, að hann hafi verið lítið gefinn fyrir að vægja til við þá, er honum voru mótfallnir, og vegna viturleika og nokkurrar kænsku gat hann verið skæður óvinur. En sú var öldin þá, að annaðhvert var að gjöra, að liggja undir með öllu, eða að verjast, sem faung voru á. Aðalrót og uppspretta allra Páls málaferla frá öndverðu var 6. grein í erindis-brèfi þeirra Páls og Árna; eptir henni áttu öll klögumál almúgans gegn æðri og lægri rèttar þjónum, samt jarðeigendum, klaustrahöldurum og öðrum lènamönnum að berast fyrir þessa nefndarmenn, en þeir áttu að skýra kóngi frá. Nóg var yfir að klaga og frá nógu að skýra í öld þeirri, þegar yfirmönnum þókti mest stórmennska í að traðka lögum og rètti, og kúga þá, er undir þeirra valdi voru. Þegar nú kóngur fyrst hafði gjört nefndarmennina að sögumönnum, og svo skipaði þá á eptir að dómurum í þeim málum, er þeir sjálfir höfðu borið, hvar um mörg dæmi eru áður talin, var ei að undra, þó allir þeir er fyrir urðu, gerði samdrátt móti þeim; af einu málinu spannst annað, svo allt varð loks í uppnámi, og ekki var annað fyrir Pál og Árna að gjöra, en verjast sem þeir máttu. Jeg neita ekki, að mèr virðist þeir nefndarmenn væru um of ákafir, með að fylla kóngs skipunina um söguburðinn, og tóku jafnvel málefni afgömul, sem mál Jóns Hreggviðssonar, brennumál Ara Pálssonar, húðlátsmál Magnúsar Benediktssonar og fleira slíkt; en báðir voru úngir og framgjarnir, og ef klaganir voru annars vegar, varð eitthvað við að gjöra, að skipun kóngs. Eg hrósa því ekki, ef Páll hefði goldið íllt gegn illu, en það lasta eg ekki, þó hann verðist, sem hann mátti, óvinum sínum, úr því sem komið var, og hverr sem er án þeirrar syndar, hann kasti fyrstur á hann steini, en stíngi fyrst hendi í eiginn barm og spyrji sjálfan sig (ef nokkurt táp er í honum), hvað hann mundi gjört hafa í Páls stað, á þeirri öld er hann lifði á. Hægt átti Páll með, ef hann hefði viljað, að skjótast burt úr Beyers boði 1708, og láta þá Odd mannskemma sig hvorn á öðrum, þegar þeir

Gottrúp og Jón Eyúlfsson voru fráhorfnir, en það gjörði hann ekki, en stuðlaði heldur til friðar og sátta þeirra á milli. Hægt var Páli, að taka undir alþýðu flymtun um, að veikindi Gottrúps á alþíngi 1707 væru skrópar einir, en hann barði það niður; hann miðlaði málum, svo báðum líkaði, milli Odds og Brynjúlfs 1717, sem áður er sagt, og var sá eini, er liðsinti Oddi á Drángaþíngi 1719. Má af því marka mannsparta hans, jafnvel við óvini, er allt vildu gjöra honum til hnekkis. Ýms tildrög má telja til óvináttu þeirra Páls og Gottrúps, auk þess er áður segir um viðskipti Gottrúps og Guðbrandar Arngrímssonar, svo sem tillögur Páls við siglíngar ráðagjörðir Gottrúps 1701, tregðu hans í að launa Páli lögmannsstörfin, að nokkru, meðan hinn var erlendis, bæði 1702 og 1705, með fleiru, sem á milli bar: en færra verður talið til óvildar milli Páls og Sigurðar lögmanns, sem ætið var fáskiptinn og óáleitinn; ætla eg helzt það hafi ekkert verið annað en það nefndar-manna skýrslurnar áhrærði, og þau málefni hafi verið umtalsefnið á Vallá 1703, þegar þeir hittust þar Páll og Sigurður, sem áður er frá sagt við ár 1705, og eru öll líkindi til, að Sigurður hafi þá orðið stórorður við Pál. Að óvinátta yrði milli þeirra Páls og Odds, er ekki að undra; Oddur var meiri stórbokki og óreiðumaður, en svo, að neinum kjarkmanni gæti við hann samið, sem ekki að öllu vildi fylla hans flokk, meðan hann vóð mest uppi.

Stephensen virðist að eigna allan ófriðinn þeim Árna og Páli[1], en ef litið er til kríumálsins 1691 og þar á eptir, eða til málaferlanna gegn Bauka-Jóni 1670 og þar á eptir, þá má það sanna, að fyrri var hèr róstusamt í landi, en þeir Páll og Árni komu til. Það hefir líka verið sagt, að Árni hafi feingið bróður-hlutann, af óvildinni, sem spannst af málaferlunum[2], en það ætla eg fjærri sanni, því bæði höfðu þeir innlendu stórbokkar Pál allt af hjá sèr, en Árni skauzt optast undan til Hafnar á haustum, og líka ræður að líkindum, bæði að Páli, sem lögvitrum, fremur hafi kent verið um dómana, en Árna, og að viðkomendur síður geingi í berhögg við hann en Pál, þar sem þeir vissu Árna handgeingnari stjórnendunum ytra, hjá hverjum margur hèr þá var hlífðar þurfi. Þess er áður getið, að Páll var einn til andsvara fyrir dóma þeirra fyrir yfirrètti 1710, og var þó Árni þá í landi.

Að Páll hafi verið vitur maður og djúpsærr, þarf eg valla

1) Isl. i det 18. Aarh. p. 333. 2) Nord. Tidsskr. for Oldkyndigh. III, 79.

að nefna, því flest, er eptir hann liggur, vitnar um það. Um það vitna tillögur hans á alþíngi 1701 um siglíngar ráðagjörðir Gottrúps; um það vitna tillögur hans á alþingi 1718 um uppboð sýslnanna; þar um vitnar hvervetna rit hans „*Deo, Regi, Patriæ*“, og margt fleira. Það var því ekki að undra, þó allmargir, bæði skyldir honum og vandalausir og jafnvel óvinir hans, sæktu hann að ráðum viturlegum, og feingi uppreisn af. Þegar vandræði einhver vina eða óvina voru undir hann borin, var það orðtak hans: „*úr því er að ráða, sem komið er*“: Það er heldur ekki að undra, þó ráðum hans og jafnvel brögðum væri kent um margt það, er einhverjum tókst kænlega, þó hann eingan hlut ætti að, því svo er það vant að vera enn í dag. Mæli eg þetta helzt til sagnanna um afskipti hans á viðureign þeirra Odds og Guðmundar ríka Þorleifssonar í Brokey, hverra fyrr er getið, líka til þeirra, að hann spilt hafi milli Gottrúps og amtmanns Mullers, 1701, en til þessa þurfti ei annað, eptir því sem Muller var gerður, en þau tildrög, er eg, eptir trúverðu vitni, hefi frá sagt við árið 1701.

Páll var mikill reglumaður og umsjónarmaður á heimili sínu; ætíð fór hann, að sögn Grunnavíkur-Jóns, fyrstur á fætur og gætti þess, hvort fjárhirðir og nautamaður væru komnir til verka. Heilbrigðum umrenníngum, ef utan-hèraðs voru, var hann ekki hýr í horn að taka, leyfði þeim þó gistíngu um nætur-sakir, en innan-hèraðs ómögum gjörði hann mikið gott.

Einginn mun með sönnu fá því neitað, að Páll var mentavinur og lærður fremur öllum á hans öld, og í fornum fræðum fremur flestum á seinni öld. Allir góðir rithöfundar hafa unt honum þessa sannmælis[1]. Það var þessa vegna, að hann helzt hnè að þeim, sem gáfaðir voru og skáldmæltir, því fornfræði og skáldskapur skemti honum mest. Einn af þessum var lögsagnari hans Jón, sonur Sigurðar Dalaskálds Gíslasonar, og hjá honum gisti Páll jafnaðarlega, þá hann var nærri honum á ferð. Jón var líka glaðværðar maður, og kallar Espólín hann „æskumikinn“. Opt áttust þeir Páll og við glettni í kveðskap; líka kváðust þeir á Páll og Steinn biskup, en allt í vinsemd mestu. Eitt sinn er Páll kom til Jóns, töluðu þeir, að vanda, um góðan kveðskap og um ljóðmæli Sigurðar Dalaskálds, föður Jóns. Páll kvað: Sigurður Gíslason kvað margt, sá var skáld í Dölum. Jón tók við og kvað:

---

1) Schiagr. hist. lit. isl. pag. 10, 11; Hist. eccl. Isl. III, pag. 566, 539; Espól. Árb. IX, 27, 90.

sumt var gaman sumt var þarft, sumt við ei um tölum. Páll mælti: mikill gáfumaður ertu Jón. Jón kvað: Skaparann ekki skorti neitt, skildu þessi orðin mín, ætlarðu' hann hafi það eingum veitt, utan Páli Vídalín? Þeim er báðum eignuð vísan: Hani, krummi, hundur, svín, &c.[1]. Það er þessi Jón, sem kvæðið, „*Tímaríma*", er eignuð, en þó svo væri, virðist samt ástæðulítill dómur Stephensens um hann: „*Et forvorpent Menneske og skjændig Pasquillant*"[2]. Páll var einn bezti lagamaður sinnar aldar, og lýsa því dómar hans flestir; ei má það villa neinn, þó þeir væru vefeingdir við æðra rètt sumir hverjir, því þar sátu flestir fjandmenn Páls, er gjörðu sèr leik af, að dæma þar eptir Norskulögum, er Páll hafði dæmt eptir íslenzkum, ef þeir sáu sèr með því færi á að vefeingja dóminn og sekta Pál. Til þessa höiðu þeir átyllu í kóngsbrèfi 14. Apr. 1688, en nærri má geta, að við hæstarètt voru þeir dómar aðgeingilegri, er dæmdir voru að Norskulaga reglum. Á Páls tímum hófst fyrst stríðið milli Jónsbókar og Norskulaga rèttargángs aðferlis, og klagar Páll sjálfur næsta berlega yfir þessari samblöndun laganna, í skýrslu sinni um orðin „rèttari, sóknari, sýslumaður"[3].

Áður eg skil við lýsínguna á Páli, ætla eg til sönnunar að setja hèr kafla úr lýsíngu Grunnavíkur-Jóns á Páli; hann segir svo: „Hann var ötull, hvatur og kvikur í úngdæmi — „Ramlyndur var hann, kappgjarn og einharður, og því kom „það hans máltæki: *það skal fram, sem horfir, meðan rètt „horfir.* Eigi fannst á honum æðra í raunum eða mótlæti; „þar af trúi eg hafi komið það orðatiltæki hans: *það er eigi „kóngakraptur, að kveina sèr í nauðum* — Guðelskandi maður var hann, mátti svo skiljast, sem hann hefði nokkuð af „trúarbragða frelsi, og kvað eigi rètt að þvínga samvizkur „manna í þeim efnum. Hann var hugnunarsamur; ól upp ýmsa „dreingi; varð optast táp í þeim, svo hann kom þeim „flestum til lærdóms eða annarar menníngar. Tók altíð börn „um nokkurn tíma, er til skírnar voru færð heim að kirkjunni „í Víðidalstúngu, en sum börn ól hann upp, þeirra foreldra, er „bjuggu á jörðum kirkjunnar. Sjúkra barnsængur kvenna í sókn„inni lèt hann vitja jafnvel dóttur sína Hólmfríði. Hann var „maður vitur og lærður, lángsær og ráðhollur vinum, en nokk„uð kýminn móti óvinum sínum, við hverja þó hann æ var sátt-

1) B. Benediktsson á Staðarfelli. 2) Isl. i det 18. Aarh. pag, 399. not. 2 3) Sjá Arnes. isl. Rettergang bls. 22.

„gjarn — Barngæla var hann ætíð hin mesta og reiðmaður mik-
„ill framan af æfi sinni“.

Þeirri enni óþreytandi iðjusemi Páls og frábæra lærdómi eiga menn mörg og markverð rit að þakka, og skulu þau nú að endíngu talin:

1) Ritið: *Deo, Regi, Patriæ,* eður Guði, kónginum, föðurlandinu. Þar i telur hann allt það, er að hans meiníngu þèna má föðurlandi hans til viðreisnar. Er það einkar markvert, og sá ódauðlegi lærdóms og föðurlandsvinur, Jón sálugi Eiríksson Conferenceráð, hefir fundið það verðugt til að láta helzta innihald þess prenta í Sóreyu 1768. Vídalín samdi rit þetta 1699, þegar harðindi og dýrtíð geingu hèr fast að, svo til landauðnar horfði, og hafði hann þá tvo um þrítugt[1]. Önnur grein þess lætur sèr í lagi í ljósi alvöru-miklar hugmyndir, og innilegar, þó fjörugar, tilfinníngar, er miða að guðrækni og föðurlands ást. Það er að öllum líkindum uppruni til þessa rits, er nefndur er í nordisk Tidsskrift for Oldkyndighed III, bls. 75. not. 1, og sem áður er um getið.

2) *Jarðabókin.* Er hún að nafninu eignuð Árna Magnússyni, en það áður talda sýnir, að Páll átti ekki alllítinn þátt í henni. Árni sigldi, sem áður er sagt, með allan undirbúníng til hennar 1712, en ekki fyrr en að Árna látnum, og það 1730, varð hún fullbúin, og vantaði þó enn yfir báðar Múla- og báðar Skaptafells-sýslur, líka Barðastrandarsýslu, og er haldið, að faung þar til hafi brunnið 1728, þegar mest brann í Kaupmannahöfn. Jarðabók þessi er 15 bindi í 2 blaða broti, og er hana að finna hjá rentukammerinu, kunnugir kalla hana nærfærnari og betri, en allar þær eldri, þó nokkuð megi að finna[2].

3) *Framvarp til lögbókar fyrir Ísland,* sem löguð er eptir Norskulögum. Biskup Finnur segir, að það sem seinni menn hafi við þessa lögbók Vídalíns gjört, sè lítilsvirði, og megi að eins telja sem leiðrèttíngar[3]. Hvar frumvarp þetta nú er að finna, er mèr óljóst. En áður hefi eg tilgetið, að það sè samið 1720 og þar eptir. Má þetta ráða af kóngsbrèfi 2. Maí 1732. Segir það, að Benedikt lögmaður Þorsteinsson hafi 1728 og 1729 látið gjöra 2 eptirrit þessa frumvarps, feingið Níels lögmanni Kjer annað, en sent hitt um kríng til sýslumanna sinna. 1730 gjörðu lögmenn báðir nokkrar breytíngar á frumvarpinu, og

---

1) Deo, Regi, Patriæ bls. 11. 2) Thorsteinsson om Kgl. og Off. Afg, i Isl. p. 4, 5. 3) Hist. eccl. Isl. III, pag. 540.

sömdu 1. og 3. bók að nýu, en leingra komst það ekki fyrr eða seinna.

4) *Skálda og rithöfunda tal* á 17. og 18. öld hefir Páll einnig eptir sig látið[1]. Líka

5) *Orðabók íslenzka.* Hana átti 1757 Hálfdán Einarsson og tjáir hann Pál draga þar uppruna orðanna frá enni gömlu Norrænu, en áður voru menn vanir að leita að undirstöðu orðanna, þegar hún var miður ljós, í hebresku máli[2].

6) Rit eitt í brèfsformi, til meistara Jóns biskups Árnasonar, um *rèttindi kirkna eigenda* að kalla prest til þeirra og ráða fè þeirra *(de jure patronatus).* Er rit þetta prentað á danska túngu, að ráðstöfun Magnúsar Ketilssonar sýslumanns í Dalasýslu[3], hverjum rit þetta, en þó órèttilega, er eignað í Nordisk Tidsskr. for Oldkyndighed III, 163. Magnús Ketilsson á einúngis formála þess og eptirmála, og hefir þýdt það á danska túnga.

7) *Sálmasafn.* Þeirra sálma eru 3 prentaðir: *„Jesú þín minníng mjög sæt er"* og *„gleð þig Guðs sonar brúð"*, þýddir úr latínu máli, og: *„á Guð alleina"*, úr dönsku. Allir þessir finnast í grallaranum, og hrósar Finnur biskup því, hve vel Páli hafi tekizt þýðíngin[4].

8) *Ljóðmæla safn* mikið og ýmislegs efnis. Finnur biskup hrósar einnig því, hve ljóðmælin sèu snillilega kveðin[5].

9) Ætla eg hann skrifað hafi gegn Bergþórs statútu, því víst er um það, að á móti honum og Árna skrifaði meistari Jón biskup Árnason *Vindiciæ constitutionis Bergthorianæ.*

Ei er ólíklegt, að mörg af þessum ritum 4—9 muni upphaflega hafa verið í handrita safni Árna Magnússonar, en hvort þau nú samt öll finnast í leifum handritanna, á svívala turni í Kaupmannahöfn, er mjög óvíst, þar eð 2 þriðjúngar handritanna brunnu í eldinum mikla í Kaupmannahöfn 1728.

10) *Skýríngar Páls yfir fornyrði lögbókar* eru þá enn ótaldar, þetta yfrið markverða ritsafn, sem hið íslenzka bókmentafèlag hefir nú í áformi að láta prenta. Allir, sem það sèð hafa, og bærir eru um að dæma, hrósa því að verðugleikum[6]. Nokkuð af því er áður komið í ljós, þó ei nema í örstuttu ágripi í ritum ens íslenzka lærdómslistafèlags 2—8

---

1) Hist. eccl. Isl. III. pag. 540; og Espól. Árb. IX, 90. 2) Schiagr. hist. litt. Isl. pag. 12. 3) Hist. eccl. Isl. III, pag. 540 not. a; Schiagraph. hist. litt. Isl. pag. 197. 4) Hist. eccl. Isl. III, 540. 5) Samastaðar. 6) Dignum qvod integrum lucem videat publicam. Hist, eccl. Isl. III, pag. 540. Præclarissimum opus & varia eruditione refertum, Schiagr. hist. litt. Isl. pag. 11.

bindi, og fáein orð, líka í ágripi, eru tekin hèr og þar inn í „*Arnesens islandske Rettergang*". Orðið „dönsk túnga" finnst líka á latínu-máli aptan við söguna af Gunnlaugi Ormstúngu og Skáld-Hrafni. Mörg munu alls til handrit „*fornyrðanna*", en næsta ólík hvert öðru, ollir það því, að Páll samdi skýríngarnar yfir eitt og eitt orð í einu, á lausum blöðum, að því er Grunnavíkur-Jón segir, en valla var hann búinn með hvert eitt, fyrr en vinir hans og kunníngjar feingu blöðin, stundum þessi, stundum hinn, og söfnuðu í syrpu hjá sèr, en Páll sjálfur hirti ei um að safna því ritaða í eitt. Það var því undir komið, hverr mestu gat náð hjá Páli, og seinna, þegar handritunum sló saman, var farið að bæta í eitt, því sem það ekki hafði, en í öðru var að finna. Allir gátu ei feingið hið sama, og blöðunum skiluðu þeir, er þau feingu, aldrei Páli, mátti því heita, að hann geingi frá fleirum orðanna hálfkörruðum; þó eru mörg þeirra, er hann lauk við til fulls, sem honum líkaði, t. d. orðin: *alin og meðalmaður; allur dagur til stefnu; dönsk túnga; jól, konúngur; sessum að telja; Svíþjóð; tíund*; *þíng*, *&c*. Tvö eru þau handrit er auðugust eru, að því er eg tilþekki, eða hefi haft spurn af. Annað var fyrrum eign Skúla lándfógeta Magnússonar. Seinna átti það Þorsteinn prestur Helgason á Reykjaholti, eptir hann keypti eg það, en gaf það aptur bókmentafèlaginu íslenzka, með því skilyrði það prentað yrði. Hitt er eign Conferenceráðs Bjarna Þorsteinssonar á Stapa, og meinast það safnað af Grunnavíkur-Jóni sjálfum, sem líka hefir ritað þar formála fyrir. Eptir Jón fèkk það Grímur Thorkelín, og frá honum þess núverandi eigandi. Eg á sjálfur 3 söfn önnur, sem í eingan jöfnuð komast við þessi fyrr nefndu, en þeirra er þó bókmentafèlags handritið lángauðugast, þó vita menn, að nokkru leyti af sögnum Grunnavíkur-Jóns, að Páll að vísu gjört hafi skýríngar, hèr um bil 93 orða, er ei eru í þessu auðugasta handriti, er þó í registrinu hefir getið þeirra, og við sum þeirra er skrifað: „á blöðum hjá Arnóri Jónssyni", „á blöðum hjá Bjarna Haldórssyni" og svo frv., og má af því ráða, að þessir hafa mest hripsað úr höndum Páls af skýríngum hans, enda hafði annar verið sveinn hans, en annar var hans dótturmaður. Þess væri að óska, að þeir sem hafa mættu í höndum eða geta yfirkomizt, skýríngar Páls þessara orða, vildu sem fyrst senda þær bókmentafèlaginu, svo sem mest geti feingizt, þess er til er, til prentunar. Þau orð sem eg ætla að vanti, eru þessi: *Ábúð. Álægja. Ábóti. Búlkabrún. Brjóta jörð. Barð. Berfè.*

*Bjórverplar. Caprún. Dýflin. Dufl. Erkibiskup. Fjötur. Fènaður. Flet. Flokkur. Forn lögbók. Forsagnarvitni. Fullrètti. Farkostur. Garður. Gegn dyrum. Hafurhvalur. Hertogi. Heimiliskviðar vitni. Heimstefnu vitni. Helmíngsaukníng. Hes. Heiðíngi. Hirðstjóri. Hnakkmiði. Hvervetna. Hvarki. Hrjóstur. Kápa. Kvöðuvitni. Klofarúm. Kviðdragi. Lausgyrdtur. Leikfáng. Leiðángur. Landvörn. Lögveð. Leysi arf sinn. Manngjöld. Morent vaðmál. Mjólk-kúm til þings. Olpa. Óvísavargur. Ónotið. Pústur. Rýfur skipan. Ræða* (um Svín). *Rítíngar. Rávörður. Samkunda. Saxland. Skin. Skildarvopn. Spillir stefnu. Staka. Sýkn. Stallari. Skyti. Stjarff. Sýsla. Síðarla. Skaut. Sót. Traðgjöf. Tröð. Tvídregin. Vebönd. Vettugi. Vika særra daga. Uppáleggja. Valdsmaður. Vararfeldur. Voskeytt. Vogrek. Útleggja. þegn. þegnskapur. þing (Alþing). þingfararkaup. þegngildi. þjósir. Yxna. Öreigi. Ölfær. Ölmusa. Örskotshelgi.*

Grunnavíkur-Jón heldur, að Páll hafi byrjað þessar fornyrða skýríngar 1700 eða 1701, eða haldið þeim fram einkum frá 1716, eptir sem honum gafst færi á, en ekki voru vindhöggin af honum slegin, að ei væri að einhverju sýslað, því er þarflegt væri. Og lýk eg hèr að segja frá Páli lögmanni Jónssyni Vídalín; hafi mèr það miður tekizt, má kenna um það skorti þekkíngar, en ekki vilja.

# A.

## Ábyrgð.

Það er eflaust, að ábyrgð hefir þar af nafn, að sá, sem ábyrgist, á að borga, það er gjalda, betala það, sem í hans ábyrgð er, að því leiti, sem hann það ábyrgist; en svo sem eiginleg merkíng þessa orðs og ættareðli er auðskilið, þá er þó brúk un þess í lögunum eigi jafnan auðskilin; og skal eg telja greinir þær fyrst, sem ljósar eru:

Erfðat. 24. *Hann* (sem tekur fè eptir dauðan mann til útfarar) *skal verja því fé, sem óvarið var áður, til þeirra hluta sem híngað er vart, og geyma sem síns fjár og ábyrgjast að engu.*

Erfðat. 23. *Skal allt það fé* (eptir norræna menn er hèr andast) *virða, sem eigi taka erfíngjar við, hvert sem það er arfur, eður vígsbætur, eður annað fè, og flytja svo í hendur eiganda og ábyrgjast að engu, en varðveiti sem sitt fé.*

Llb. 50. um kvikfè það, er lengi geingur óvirt, og hann, er geymir, skal hafa af kálfa, lömb og kið, ull og nyt: *annist sem sitt fé, en ábyrgist að engu.*

Rekab. 12. um vogrek, eður þess andvyrði: *varðveita sem sitt fé og ábyrgist hann þá ei.*

Landabr. 2. um uppboðið jarðarverð, sem eigi er meðtekið: *hafi að láni þartil hinn heimtar, og ábyrgist að öllu.*

Farm. L. 25 og 27 eru ljósir að öllu, og svo Llb. 29.

Nú koma þær þúngskildu.

Kaupab. 20. *Nú vilja þeir eigi leisa* (er það hlotnaðist: grip þann, er tveir eigu saman,) *þá selji hverjum, er vill, og*

*lúki þeim sinn hluta verðs; vilja þeir eigi viðtuka, þá hafi að ósekju þar til hinir heimta, og ábyrgist sem sitt fé.* Þar segir Lbr. 2. *ábyrgist að öllu.*

Erfðat. 23. *Skal bóndi sá, er hann er á vist með, taka það fé virðt og ábyrgjast, og hafa vöxtu af.*

Erfðat. 24. *Skal garðsbóndi hans taka það fé virðt og ábyrgist sem sitt fé, og hafi gagn af, þar til etc. þar segir* 23: *taka það fé virðt og ábyrgjast, svo sem að ábyrgjast sem sitt, væri að ábyrgjast að öllu.*

Farm. 1. 22: *Nú leggja menn hjáfélag, þá skal sá, er viðtekur, klæðast og fæðast af sínu fé, en eigi af hins fé taka, er hjáfélag gjörði við hann, nema skipleigu og uppburð fyri það, er í hjáfèlag var lagt, það skal hann ábyrgjast sem sitt fé.*

Ef nú að þetta: „ábyrgjast sem sitt fè", skal vera að ábyrgjast að öllu, hvörju eykur þá hitt við, er eptir kemur í sama kap. um sama hjáfèlag: Ef hann flytur eður færir annan veg (enn þeir höfðu skilið sín á milli) „þá ábyrgist hann það fè at öllu". Membrana segir: „ábyrgist hann við hvívetna". Eg kann ekki betur að sjá, enn þetta: „ábyrgjast sem sitt fè", sè það sama sem þjófab. 15. segir um geymslufè: „skal sá, er viðtekur, hyrða og varðveita sem sitt fè, þat er hann vill vel varðveita"; því að sá kapítuli gjörir þá varðveitslu eina grein ábyrgðarinnar, þar hann segir litlu síðar: „nema hann segði þat, þá er hann tók við, að hann vildi að engu ábyrgjast". Mèr verður svarað, að Llb. 50. niðurbrjóti þetta; þar segir: „annist sem sitt fè, en ábyrgist at engu". Eg svara: eigi skilst mèr svo, því „annast", meinar hann um forsorgun kvikfjárins, því „hinn skal hafa fyrir fúlgu mjólk og kálfa" etc. Og svo að þetta því ljósara verði, hvað það sè „að ábyrgjast sem sitt fè, og hyrða sem sitt fè", þá les Chr. 5. NL. 5—8—17, og eptir þess artikula boði skil eg Erfðat. 23 og 24 áður innfærðar greinir. En Kaupab. 20 og Lbr. 2. sem tala um efni næsta því að öllu sama báðar, þá er ekki svo að skilja, vegna þess er Lbr. 2 segir: „ábyrgist að öllu". Það er og furðu athugaverðt, að sitt fè ábyrgist hverr maður svo, að þegar það týnist, svo að ei valda því aðrir, þá tekur sá skaðan allan, er sitt fè missti; og í þeirri hugleiðing sýnist það næst, að það

sem einn „skal ábyrgjast sem sitt fè“, skuli, ef það ferst, verða hönum svo til skaða, sem hann hefði síns eigin fjár misst, en honum ei er átti, því hann skuli eiga sitt óskaðað hjá þeim, er „ábyrgjast skyldi sem sitt fè“, því ekki gètur það undireins beggja skaði verið. Nú er þar á móti hitt, að aldrei betalar maður sjálfum sèr fè það, er hann missti, því þótt hann afli fjár að nýu, borgar hann ekki sèr hins fyrra fjár missir, þvíað eins vel hefði hann mátt þessa nýfengna fjár abla, þótt hitt eigi týnst hefði og engu síður; því kynni maður að *inferera*: svo sem hann aldrei betalar sèr það missta fè, svo skal hann hinum eigi gjalda það, er hann „ábyrgist sem sitt eigið“. Það er víst, að greinin af Farm. l. 22: „það skal hann ábyrgjast sem sitt fè“, mun enganu leiða til þess, að dæma farmanninn til að borga hjáfèlags innstæðuna, ef hann missir hana og sitt eigið á skipbroti. Og að hugleiddu öllu þessu, meina eg að orðin: „ábyrgjast sem sitt“ muni í flestöllum, eður öllum greinum eigi merkja: að „endurgjalda“, heldur að „hyrða, hafa umhyggju fyrir og varðveita með gætni svo sem sitt fè, það er hann vill vel varðveita“, það er: hann skal borga það fyrir öllum þeim skaða, sem hann gètur af sínu fè hrundið, og eigi fremur.

Nú er enn í Kaupab. 4 um það fè, sem uppboðið verður í eindaga, ef enginn er þar sá, (sem fè vill taka) þá skal sá segja fèð úr sinni ábyrgð, er lúka á, og virða lèt löglega, og hafa síðann sjálfur, og „ábyrgjast við handvömmum sínum, þar til er sá kemur“ etc. Þetta efni er mjög líkt því, er Lbr. 2 og Kaupab. 20 talar um, og þó frá hvörutveggjum nokkuð mismunandi. Hvað er nú þetta? Hann segir fèð úr sinni ábyrgð, en skal þó „ábyrgjast við handvömmum sínum. Það er víst, að Kaupab. 25, 26, 27, skilja eigi neina frekari ábyrgð á fúlgufè nè leigufè, enn þá, „að ábyrgjast við sínum handvömmum“. Hvaða ábyrgð er þá sú, er hèr er í Kaupab. 4. skal hann segja sèr af hendi, er fèð átti að lúka? Sú: að ábyrgjast við því öllu, svo sem hann varð að gjöra meðan það var hans eigið fè, svoleiðis, að hann tók allan skaðan, ef því varð nokkuð, hvört lambburður eður kèlfíng, lúngnasótt eður reiðarslag, og hefði þá orðið annað að gjalda, áður þetta var tileinkað, enn þótt hann hverki ætti að borga öðrum missir þess, nè gæti hann borgað sjálfum sèr, sem áður er sagt og sýnt. Nú á hann við því einu að

ábyrgjast, að handvömm hans eigi valdi þeim óförum. En hèr verður spurt, hvört „handvömm“ skuli í þessari grein heita það allt, sem Kaupab. 27 telur handvömm, og munu flestir kveða já til þess, í líkíng við Lbr. 2 og Kaupab. 15 og 16. Þótt þessi skuli kvikfèð leigulaust hafa til annara fardaga, ef síðar enn eptir hálfan mánuð er frá skuldunaut fjárins vitjað, mætti sýnast, sem leigan mundi í fúlgu nafni niðurfalla, svo sem nyt kèmur fyrir gras og gætslu í Kaupab. 16. En mèr virðist „handvömm“ þessi eins eiga að skiljast að öllu, sem sú, er hann skal ábyrgjast fyrír í Kaupab. 16, sem kú vill eigi lengur leigja og afseigja leigumanns ábyrgð, en hún er sama sem fúlgumanns Kaupab. 15, og fúlgumanns handvömm er það, sem Rekab. 17 reiknar. Og að öllu þessu hugleiddu, mundi sú handvömm færra innibinda, sem hèr talar um, Kaupab. 4 og 16, þar einn vill ekki lengur kú leigja, heldur enn „fúlgumanns handvömm“ Kaupab. 17, og „leigumanns“, Kaupab. 15, og mun þá enn spurt, hvað eg vilji þessa „handvömm“ kalla. Eg svara: það er menn sjá af völdum hans, óvilja og vanrækt orðið hafa; því gæta skal hann þess fjár, eður og hinn kýrinnar, Kpb. 17, svo sem hann lætur síns fjár gæta, sem þess kyns er. En skyldu þessar „handvammir“ allar sömu sem „fúlgumanns“ í Kpb. 17, hvað væri það þá sem segir Kpb. 16 um þann, er ekki vill kú lengur leigja: „segi af sína ábyrgð, veiti vörð sem sínum nautum, og þyggi nyt af, hafi það fyrir gras og gætslu, og ábyrgist við handvömmum sínum einum“? Nú er aldrei frekari ábyrgð á leigumann í lögunum skilin enn sú: „ábyrgist sem fúlgufè“ Kpb. 15, og engin önnur „fúlgufjár-ábyrgð“ í lögunum áskild enn sú: „skal hann ábyrgjast við handvömmum öllum“ Kpb. 17. Skoði menn þetta með athygli, gètur það ekki verið hin sama „ábyrgð“, er hann skal „af hendi segja,“ og hin, er „á honum skal liggja“. Engin stærri la á honum, enn „ábyrgjast leigukúna svo sem fúlgufè“ Kpb. 15, það er: „fyrir handvömmum sínum öllum“ Kpb. 17. Hana hefir hann afsagt að lögum, „þó skal hann ábyrgjast fyrir handvömmum sínum einum“. Þá er ómögulegt, að þessar handvammir sèu allar sömu sem hinar, þvi frá einhvörri ábyrgð skal hann fríast með afsögn ábyrgðarinnar. Hitt er skýrt um handvammir í fúlgufjár málunum og leigufjár í sama máta, sem nú hefir þrástagað verið. Meiri verður torveldni á að koma því

saman við þessa gætnu varðveitslu, sem eg skil hèr ábyrgð kallaða, er Erfðat. 23 segir: „ábyrgist að engu, en varðveiti sem sitt fè. Erfðat. 24: „geymi sem síns fjár, en ábyrgist að engu. En þetta þarf að bera saman við Þjófab. 15, sem áður er gètið, að fyrst gjörir varðveitslan einslags ábyrgð, og síðan leggur til: „nema hann segði það, þá er hann tók við (geymslu fènu) að hann vildi at engu ábyrgjast". Og þar sem skilmáli sá er í lögum ákveðinn, Erfðat. 23 og 24, þá *exspirerar* sú *species* ábyrgðarinnar, sem annars væri í því fólgin, „að hyrða og varðveita sem sitt fè þat er hann vill vel varðveita". Svo með þessu móti ætla eg Chr. 5 NL. 5—8—17 besta skilníng á öllu þessu gjöra, svo öllu megi vel samanbera. Nú er enn hèraðauki, er ábyrgð merkir „vogan og háska", er viðliggur, ef illa tekst þá vogað er í háskan. Noregs konúngasögur: þá sagði Oddur (Ófeigson) við skip verja sína: „ferð þessi er með nokkuri ábyrgð, því at enginn maður á kaup at eiga við Finna norður hèr, nema með kóngs leyfi ok sýslumanns". Sturl. lib. 3 cap. 9 „Falaði Eiólfur löndin oc erfðina, oc keypti síðan litlu oc nær hálfvirði, oc skyldi sjálfur ábyrgjast hvað lög væri". Edda, *codex regius*, um Hrugni heimkominn: „Og er hann hafði skorað Þór hólmgöngu, þóttust Jötnar hafa mikið í ábyrgð, hverr sigur fengi". *Codex Wormii* orðrètt eins. *Confer* Vígaglúms S. um Eiólf Hrúgu, er hann barðist við Ásgaut berserk, kap. 4. Í þessum öllum greinum merkir orðið „ábyrgð", hættu og vogan, að líða skaða, eða komast frá skaða. Verður það eigi fremur skýrt enn svo, og sjá allir dæmin ljós. Eiólfur Hrúga vogar lífi sínu í einvígið við berserkinn, Hrugnir við Þór; þeim, er um þá er hugað, er eignuð ábyrgð, en það er hættan fyrir mannskaðanum. Sama er um Odd Ófeigson; þar er háskinn fyrir kóngs reiði, en í Sturlúngu fyrir missir hinnar keyptu erfðar.

## Áfángi.

Landslb. 37. *Ef menn reka hross frá mönnum at áföngum.*

Allar mínar fimm elstu *membranæ* af vorri lögbók, og ásamt þeim Grágás, í síns Llb. 38, segja hèr „áiföngum eður átföngum". Munu flestir svo vilja skilja, að þessi *vocula* „áfángi", og hinn í Þjófab. 17. „áfáng", sè að öllu sama; en

eg gèt eigi svo skilið. Vèr höfum enn í daglegu máli þann áfánga, sem í Lldb. 37 stendur, og þarf hann eigi útskýríngar, því að vandsèð er eg hitti á uppruna glósunnar. Þó hefi eg því minnst á, að hinar elstu *membranæ* og Grágás kalla það „áifánga", að eg skil það muni dregið af „æja", sem í sama kapitula stendur litlu fyrri; en að æja, heitir að taka sèr hvíld, til að kasta mæðinni og blása henni frá sèr, svo sem að gjöra bæði menn og málleysíngar, þegar þeir setjast niður, eða leggjast eptir aflokið erfiði; þar af hefir þessi „áfángi" nafn, að í þeim hvíldarstöðum fái menn, „fángi" menn. „ái", það er „æji", blástur mæðinnar, *respirandi dulcem opportunitatem*, þá æskilegu svölun, sem hvíldin færir. Og læt eg þar um nóg sagt.

## Afarkostur.

Kaupab. 15. *Hverr maður er skyldur at hjálpa jamchristnum sér afarkostalaust:*
R. B. H. Hert: *Eigi viljum vér bændum sé afarkostir gjörvir, siðan þeir coma til skips.*

Það skilur hvörr maður, að afarkostur er ofharður kostur, og heldst það enn í daglegu máli, hvar af það er auðsært, að „afar" er hèr sama og „ofur, um of"; allopt þýðir það sama sem *adverbium* „yfrið" þ. e. „mjög eður ærið mjög", sem og er skyldt við „of". Er málfæri þetta með sama hætti sem *Latini* kalla *infinitum numerum pro magno numero.* Og undir þá merkíngu heyrir það, er mælir Edda um Ask yggdrasils: „þrjár rætur trèsins halda því upp, oc standa afarbreiðt" þ. e. og er geysi lángt milli þeirra. Svo er alltíðt í Landnámu um ímsa menn: „hann var hið mesta afarmenni", það er: gjörði mikið af sèr, svo nær gèkk, að um „of" væri. En þó er þetta orðtak eigi meint til niðrunar þeim, er svo talar um; eins og „ofláti" í sögunum er dregið af „of og læti", og meinar þó ekki til vansa þeim, er þannig er frá sagt. Með sama móti er það máltæki, er vèr heyrum daglegt, að einn eður annar sè „afarreiður", það segir: mjög reiður, geysi reiður, yfrið reiður. Eins mælir Snorri Sturluson um Ólaf konúng Kyrra: „Hann hafði gult hár og fór afarvel", þ. e. yfrið vel, ágæta vel. Þar segja Noregskonúnga sögur um sama konúng: „hár fór fagurlega", Enn segir Sn. Sturluson, í Háttalykli í Eddu: „fær Gotna vinur vitni, valbjór afarstóran" þ. e. yfrið stóran. Og enn segir hans Háttalykill: „Gleður vellbroti vellom, verðúng

afarþúngum" þ. e. yfrið þúngum mjög þúngum. Svo allt lýtur til þess, að „afarkostur sè ofurkostur, ofharður kostur". Sömu ættar og náskyldt er *adverbium* „æfa", svo sem: menn „æfareiðir", yfrið reiðir. Eins er í frændsemi hèr við og sama uppruna, *adjectivum* „æfur", í vísu Hornklofa, sjá Sn. Sturluson, „æfur gall hjör við hlífar".

## Á h e n d u r.

*Mannh. 9. Sá skal vera mannsbani, er návístar menn bera vitni um, og þeir segja á hendur og ei eiðum fyrirkoma etc.*

Mèr hefði ei til hugar komið að *notera* þessa *formulam loquendi* meðal fornyrða, ef ei hefði Christian Ostersen í sínu *glossario*, farið svo ramlega vilt í hennar útskýríngu, að hann meinar, þar sem stendur í Chr. 4. háloflegrar minníngar, norsku lögum Mannh. 9: De der hos vare vidne det aa hand, skulu þeir norsku lögmenn hafa meint: „vitna að hann sè eignarmaður að víginu", þar sem þó allir þeir, sem norræna túngu kunna, vita að þetta: „segja honum á hendur" er á dönsku þessara tíma: sige hannem det paa, eins og þar stendur í Chr. 5 háloflegrar minníngar NL. 6, 21—1 saadan Snak og Paasagn. Sè eg eigi nauðsýn til að skrifa hèr fleira um, því að sama *phrasis* í Mannh. 9. „skal sá vera mannsbani, sem vígi lýsir á hendur sèr", er öllum ljós, og að meiníngunni rètt *verterud* af þeim norsku lögmönnum í sömu Chr. 4 lögbók: være den Banemand som kjendes Gjerningen. Og enn þá í vors þíngfb. 6 cap. „dæmist þeim á hendur, er sóktur var, hvarki fè nè eiðar„ etc. Er meiníng þessarar *phraseos* öll hin sama sem bókin segði: „dæmist á þann, er sóktur var", etc.

## Á h ö f n.

*Farml. cap.* 1. *Sá skal segja til áhafnar sinnar, er far tekur.*
*Farml.* — 13. *Nú tekur maður sér far, ok ber áhöfn sína á skip.*
*Farml* — 24. *Sessum má telja ok áhöfnum skipa.*

Þetta er svo ljóst, að eigi verður gáta gjörð að „áhöfn" skuli annað merkja enn farareyrir, eður farmþúnga þann, sem hverr hefir á skipi, sem nú heitir í því nýa danska og norska lögmáli, „Føring", og á fyrri öldum var ekki svo leiðis niðurskikkað sem nú, þar sem vissir reiðarar leigja skip undir sitt

góts; en í gamalli tíð vórra fornmanna voru hásetar allir, eður flestallir, kaupmenn, og átti hverr einn sinn vissann hlut í skipfarminum, sem þeir ætluðu sèr til verðslunar og ávaxta, og það er hèr kölluð „áhöfn". Sýnir það *natura rei,* að svoddan „áhöfn" kann ekki bundin að vera við víst punda nè lestatal, því einn átti meira, en annar minna, svo þá sem nú. Og svo gjöra lögin ráð fyrir að vera muni Farml. 4: „Enginn íslendskur maður skal hèðan fara með minna fè, enn hann hafi til 10 hundraða, nema hann þjóni" etc.; og allur Farml. kap. 7, að misjöfn muni verið hafa fararefni kaupmanna, en áður er sagt hvað þau máttu minnst vera. Vottar það Eyrbyggjas. kap. 39. um Ásbjörn frá Kambi, bróður Bjarnar Breiðvíkínga kappa; hann lètst og ei hafa farar[1] efni, (þ. e. „áhöfn") meiri enn leggja megi á búlka (austmenn höfðu áður sagt, að þá væri búlki bundinn og þóttust ei leysa[2] mega.) Og strax eptir á: „var hann einsamann í mötuneyti á þiljum fram„. Í hans bagga voru 3 ꝍ vaðmála, 12 vararfeldir og fararnesti hans. Hèr á að minnsst á, að þá var enn ekki með lögunum ákveðið, hvað þessir farmenn mættu minnst hafa; og það annað, að Ásbjörn fór ekki til kaupstefnu, heldur að leita Bjarnar bróður síns. Að öllu þessu hugleiddu heitir áhöfn eins sá minni fareyrir og sá meiri, og gèt eg ekki skilið að þetta verði hrakið; því eins vel mátti sá far taka sem átti til 10 hundraða, sem hinn, er átti til 60[3] hundraða kaupeyri, og skyldi þá hvörr segja til áhafnar sinnar, Farml. 1, það er: hvað margra skippunda eður lesta far hann leigir, eptir Farml. 7 og 13, en[4] stýrimaður segi til skipleigu Fml. 1, þ. e. hvað mikið kosta skyldi flutníngur og skiprúm fyrir hvört pund eður lest; en sá er til áhafnar segja skyldi, hefir undir eins orðið að greina stýrimanni þúnga vörunnar, og hvörs háttar hún væri til rúmþurftar í skipinu, því 5 hundruð vaðmála og lýsistunnur eður flottunnur 2 jafnþúngar, þurfa misjafnt rúm, og margir eru þesskonar hlutir. Þá enn framar: þegar í öðrum löndum skyldu vorir landsmenn sèr fari[5] taka hjá þeim íslendskum stýrimönnum, er skip áttu í förum[6] og út þángað vildu, mundi þá ærinn munur á járni og klæðum, víni og silki, etc. til rúms og þúnga. Meina eg þessi rök minnar sögu svo skír og ljós, að þau verði ekki krókum vafin, (nè með sönnu hrundin[7]. En

1) A farmar. 2) A leyfa. 3) B 40. 4) B eður. 5) B feri. 6) B förinni. 7) því sleppir B.

hitt, sem Björn á Skarðsá segir, að „áhöfn" sèu 12 lestir, er grundvallarlaus hègómi, og gètur ekki staðist, allra síst ef ei skal áhöfn heita meiga minna enn 12 lestir, svo sem hans skrif sýnist *inferera*; því að eptir hans reikníngi og undirlagi, verður hver lest 288 fjórðúngar, það eru 36 vættir, (og hver áhöfn, 432 vættir[1]. Sjá það allir, að slíkur þúngi nær með engu móti saman við 10 ꝏ áhöfn þá sem eg hefi áður af sjálfum lögunum fyrir sjónir leiðt, því að þó einhvers áhöfn hefði[2] verið blástur járn alleina, þar sem hvör fjórðúngur er 7[1] fiskur[3] eptir Kaupab. 5 kap., þá verður þó áhöfnin, eptir reikníngi Bjarnar 9 hundr., og fararnesti kaupmannsins allt að auki. En Björn hefir svo misgáð um skippunda þúngann í þessu sínu skrifi, að mismunar um 5 fjórð. 16 merk. á hverju skippundi, svo sem síðar skal *demonstrerað* in lest og pund. En ef það væri rètt talið[4] af honum, þá yrði þó áhöfnin af eintómis blásturjárni 10 hundr. 112 og hálf alin að verðaurum, þó að eigi sè lest reiknuð meir enn 10 skippund, er eg þó síðan leiði sterk líkindi til að vera eigi 12 skippund í lest hverri, og munar[5] þá því fremur, að Björn krefur stærri fararefna enn lögin, að þá verður áhöfn af eintómis blásturjárni 12[6] hundr. 52 álnir. Þar á ofan er til þess að líta, að í þann tíma voru gjarnan margir menn á Íslands förunum, yfir 20 allopt og undir 30 manna, en skipin smá, svo róið varð í stórum viðlögum, svo sem sýnir Sverris saga, kap. 76, og enn þá má ráða af Farml. 23: „er uppihaldi róðri og austri". 15 voru íslendskir á skipi því, er Guðmundur biskup Arason[7] sigldi á til vígslu, Sturl. lib. 3 cap. 16. Teljum hann frá kaupmönnum, og Rafn Sveinbjarnarson og Tómas Ragnheiðarson, fylgjara biskupsefnis[8] og enn tvo menn aðra honum til þènustu, þá eru þó eptir kaupmenn, 10 menn íslendskir, og austmenn allir að auki. Á skipi með Ásmundi Kastinrassa[9] voru margir íslendskir menn, er hann týndist, Sturl. lib. 3 kap. 8; með Íngimundi presti Þórissyni, er hann týndist á Stángarfolanum[10], var margt íslendskra manna og svo norræna, lib. eod. kap. 7. Á kaupskipi því, er Eiríkur konúngur Blóðöx ræna lèt og brenna fyrir Eigli Skallagrímssyni, voru 28 menn, og svo því[11], er Arinbjörn[12] gaf honum aptur með viðarfarminum. 30 voru

1) slept í B. 2) B hafi. 3) A 8 fiskar 4) B talað. 5) B mun 6) B 7 hundr. 7) A Arnason. 8) „efnir" sleppt í B. 9) B Kartin. 10) B Stángarfólunum. 11) B þeim. 12) B Ásbjörn.

manna á skipi[1] því, er Brinjúlfur Þorbjarnarson, víkverskur maður var á, á Eyrar[2] austur, í Hólmverja sögu 11 kap. En á kaupskipi Eisteins Hvíta, því er hann sigldı út af Eyafirði og ætlaði til Noregs, en braut við Flateyardal, segir Sturl. lib. 9. kap. 1, að drukknað hafi með Eisteini á 6ta tígi manna, en af komust 9 menn eða 10, og var einn af þeim Ari Íngimundarson, er um veturnætur næst eptir skipbrotið, var að Flugumýrar brennu með Eiúlfi; og er það ærinn fjöldi 60 menn á einu skipi[3], með vopnum og vistum og húðfötum, að auk áhafnar sinnar. 24 menn voru á skipi þeirra Ásgríms og Þóris Keilismúla í Landn. 36. 15 kap. 40[4] vígra manna voru á kaupskipi[5] Þorgríms Trölla, en 20 vígra manna á skipi Þorgeirs Hávarðssonar, áður hann var felldur, Ólafs h. saga kap. 119 *ex membr.* Þegar vèr nú teljum 20 menn á skipinu, sem kjölurinn var 24 álnir þeirrar aldar, sem skýra skal *infra* „sessum að telja", *ex*[6] Farml. 24, og gjörum síðan hverjum háseta áhöfn eptir reikníngi Bjarnar á Skarðsá, 432 vættir til manns[7], þá verður farmurinn 8 þúsund 640 vættir, og að auki sè vist öll, vopn, húðföt og klæði manna, tjöld og vatnskèr, akkèr og bátar, þá verður sá farmur meir enn mundáng hlaðið á þeirrar aldar kaupförum, sem enn verður ljósara, þegar eptir á segir af „sessum að telja". Hèr á ofan skortir það hjá Byrni, um orðið áhöfn, að hann leiði[8] rök til sögu sinnar. En það sem í Farml. 24 stendur: „sessum má telja og áhöfnum skipa", skil eg svo, að í fartekju skal greint vera, hvar í skipinu hverr skal vera með áhöfn sína, t. d. stýrimaður[9] byggir Þorviði far fyrir 7 lestir og 9 pund í fremra austurrúmi á stjórborða, en Þorleiki 3 lestarúm og 7 punda aptur í fyrirrúmi á bakborða. Þessu til líkinda er það, sem áður er sagt úr Eyrbyggju um Ásbjörn einn fram á þiljum; og svo það, er Vigslóði segir: kap. 106[10], ef menn verða vegnir á skipum, er menn fara út híngað, og ver-mönnum[11] eigi „samvista" við veganda, þar til er menn koma til vors lands, „þeim megin siglu", er menn eiga síður sakir við menn. Svo segir sagan af Ólafi konúngi Haraldsyni kap. 122: Gèstur tók sèr rúm á búlkabrún aptur. Mun allt þetta verða því ljósara sem gjör er hugleiddur Farml. 24; þar skýrir hvar á skipinu hver verk hefja skuli, svo hver

1) B kaupskipi, 2) B kom á E. a sundi. 3) B kaupskipi. 4) B 11. 5) B skipi 6) B er. 7) B samans. 8) B leiðir ei. 9) B Stiremur. 10) kap. 98. Kmh. útg. 1829. 11) B vèr meigum.

megi síns gæta, eptir því sem hvers[1] áhöfn og rúm hefir tilskipast[2]; eður hvað skyldu[3] annars þær reglur, ef ekki væri víst, hvar helst á skipinu, hvört á stjórborða eður bakborða, framarlega eður aptarlega hverr einn af skipverjum hafði takmarkað rúm fyrir sig og áhöfn sína, og ætti þar eptir að gæta[4] sinna skylduverka? Því segir lögmálið: „nú eru þau embætti talin, etc. Og svo segir Frostaþíngsb: „Einn[5] skal stýrimaður á skipi hverju, sá er næstur hvíli borði á stjórn“.[5] En upp á það að menn sjái því gjörr, hvað stórlega Byrni á Skarðsá, gætnum annars og fróðum hugvitsmanni, hefir mistekist um glósu þessa „áhöfn“ rètt að skýra, þá bið eg hugleiðt verði það, sem anno 1707 er í Kaupmannahöfn á prent útgengið, aptan við almanak þess árs, um hæfilega hleðslu stórskipa; það segir, að skip það, sem er 30 danskar álnir á lengd, 8 og hálf dönsk al. á breidd, 4 dansk. áln. og 3 kvart. á dýpt, skuli bera 40 lestir, og vera þá mundáng hlaðið; skuli þar telja 13 tunnur smjörs í hverja lest; [og hver smjörtunna vega með trènu 16 ℔[7]; verður þá hver lest 208 ℔], en 5 ℔ eru í vætt hverri; verður þá hver lest 41 vætt 4 fjórð. 16 merk., gjöra þá 40 lestir 1,664 vættir. Nú skal enn[8] gjöra það Byrni í vil, að telja ei nema 10 skipverja[9], þá er hverr hafi eina áhöfn eptir hans reikníngi, þá verður farmurinn 4,320 vættir; hefir þá Björn samt ofhlaðið um 2,656 vættir, þó að hann ætti að tala um svo lángt, djúpt og breiðt skip, sem áður hefi eg sagt, af því danska álnamáli, hvað miklu fremur vill þó slíkt úr hófi gánga af[10] þeim smáu skipum fornaldar fornmanna[11], sem ei voru á kjölinn meir enn 24 áln. þeirrar aldar, það voru minnst haffarandi[12] skip, og ei breiðari enn svo, að róa mátti í viðlögum, en svo grunn, að þegar Þormóður Kolbrúnarskáld stóð í austrinum og rètti upp bitturnar, þá mátti Gèstur, sem stóð á þiljunum, taka við bittunum af Þormóði og færa austurinn útbyrðis, sem vottar Ólafs konúngs[13] saga, kap. 122, en Þormóður var hverki stór nè sterkur, þó Gestur væri hverttveggja, v. „alin, meðalmaður“. Svo sýnist og af[14] Sverris sögu, kap. 28, sem ekki hafi lángskip Sverris konúngs, er hann barðist á fyrir Háttar-

1) B hvörr. 2) B til skips. 3) B om: skyldu. 4) B gjalda. 5) B Enn
6) B næstur hvílir stjórn. 7) A [20 Lpd.] 8) B eg. 9) B skip vera. 10) B alii: á. 11) B fornmanna alii: manna. 12) B haffærandi. 13) B Ólafs helga s. 14) B á.

hamri tvítugsessa, djúpara verið enn svo, að þegar þiljan[1] skrapp undan fótum konúngi og hann stóð í austrinum, hafði[2] þá höfuð konúngsins tekið jafnhátt upp sem þiljurnar, og var hann þó lágur maður vexti[3], sem sagan vottar[4] í síðasta kapítula.

## Álagðir.

Framfb. 12. *Þá má boð stefna þeim þíng, er áður eru álagðir fyrir vottum.*

Margir menn og vel skynugir hafa skignst[5] að þessu orðatiltæki, og kann eg ekki[6] segja, að það sè orsakalaust. Skynsemdarmaðurinn Björn á Skarðsá hefir skrifað hèr um, „álagðir", það er: lagt á þá eður fyrir þá með vottum og[7] boðinu, að þeir skuli þíngvítin bæta[8] á því þínginu, sem boðið segir þeim til síðar meir. Ræður Björn þetta af Hákonarbók, þar hún segir í Mannh. 17. kap. „fyrir vottum scal hann örvar scjera, sá scal örum fylgja, er á ero lagðar". Er því eigi að neita, að þessi grein úr Hákonarbók heyrir til að upplýsa bók vora um orð þetta, og litlu munar, að eg samþykki með Byrni þessa *glossum*, ef sú er rètt skílin meiníng hans, að með því fyrsta boðinu (sem[9] gèkk fyrir því þíngi, er bændur þeir sóktu ei, sem nú skulu með boðinu stefnast á það þíng, sem dómur skal gánga á mál þeirra um þíngvítin) hafi því verið yfirlýst við votta, bændum áheyrandi, að[10] hvörr sá, sem eigi sækti þíngið, sem þá var boðað, skyldi sekur um þíngvíti, og viðbúinn að svara til þeirrar sakargiptar, nær sem því næst yrði þíngað í sveitinni; og kènnir þá þessi grein, svo skilin sem nú er sagt, hvörsu rètt sè skilið fyrir boði, nær og hvar sem borið verður í hreppnum; og þetta skilst mèr Hákonarbók segja með áður innfærðum orðum: „fyrir vottum scal örvar uppskèra, sá votturinn scal örum fylgja, sem á ero lagðar", við hverjar lögð er sekt, ef felldar verða kunna. En því skil eg þetta svo, að í upphafi þessa kapítula segir Hákonarbók: „þrjár eru þær örvar, er fè liggur við", og sá er málskvíður einhverr tíðastur í vorri bók, „að sekt liggur við", og í stefnuförum: „legg eg þèr fullar sakir við". Svo sem nú að sakir eru viðlagðar,

---

1) B om: þiljan. 2) B hafi. 3) B á vöxt. 4) B segir. 5) A skignast 6) B að. 7) A á. 8) B þíngvítum svara. 9) A om: ( ). 10) B og.

svo heitir og, að sök sè á misgjörðum og sakeyrir sagður á hendur manni, Þjófab. 23, sakir dæmdar á menn. Því munu þá ekki heita „örvar álagðar“ þær, sem fèsekt liggur við og sakir liggja á, ef felldar verða. Þá er og enn í almenníngsmáli, um hald á þegnskyldu, og á tíundum, að þær svarist með „álögum“ þ. e. viðliggjandi sektum, ef eigi gjaldast í rèttan tíma; Nota: Statutu Gissurar biskups frá 1096, um tíundargjald; hún seigir, „rètt er at stefna einni stefnu um báða fjórðúnga[1] (tíundarinnar) og fylgja þá ein álögin, því að einn er aðili að báðum“. Og svo sem eg ætla ei því verði mistrúað, að „örvar álagðar“ sèu þær, er sekt er viðlögð, svo kann eg ekki að sjá því verði hrundið, að þeir menn heiti hèr álagðir fyrir vottum, sem undir votta hefir lýst verið þíngvíta[2] eður boðfalls sök á hendur, ef þeir annaðhvört felldu boð, eður forsómuðu þíngið forfallalaust. Það leiði eg enn til styrktar þessari Bjarnar og minni *glossa*, að ein af mínum *membranis* segir hèr: „ef þeir eru sakaðir“, þ. e. sök lýst þeim á hendur við votta; svo sem Grágrás segir um þá menn, „er ei skulo þíngreiðt eiga“. Vígsl. kap. 38 og 39 pag. Þá er önnur mín bók, *apographum*[3] ágætrar membranæ; hún segir hèr: „þá má boð stefna þeim þíng, ef þat er álagt fyrir vottum“, það er: ef á boðið er[4] lagt, að sakfellast skyldi hverr maður um boðfall og þíngvíti, eins og áður er sagt um „örvar álagðar“. Hèr á ofan er það til bevísíngar, að[5] með þessari skýríngu, sè margtèð grein Framtb. rètt skilin, að nærri með sama formi skipar Þíngfb. 5, við þá að *procedera*, sem á Öxarárþíngi[6] víttir verða; þar segir: „en öll þíngvíti, sem tilfalla og eigi greiðast á því þíngi (Anno 1281) þá dæmi lögþíngismenn að greiðist á öðru Öxarárþíngi (Anno 1282), og taki þá við sýslumaður hverr í sinni sýslu (um vorið í fardögum 1282) og færi það fè[7] til Öxarárþíngs (Ao. 1282). En þeir menn, sem þetta fè“ (þíngvítin, sem dæmd voru 1281) „greiða ei fyrir þrjótsku sakir“ (í fardögum um vorið 1282), „þá sè þeim sjálfstefnt til næsta Öxarárþíngs“ (1282) „og svari þar sektum og dómsrofum, ef þá (á alþíngi 1282) greiðist eigi“. Hèr segir, að þeim skuli sjálfstefnt til alþíngis 1282, ef þeir greiða eigi sýslumönnum í hèraði þíngvítin í fardögum 1282.

---

1) B fjórðúnga tíundarinnar. 2) A þíngvíti. 3) B om. apogr. 4) B var. 5) A om: að. 6) B Öxarþíngi. 7) A om: fè og í [ ] er allt þetta

Er þeim ekki lengri[1] stefnu frestur ætlaður, hvar á landi sem þeir búa, og engin önnur sókn, enn *reverentia legis* skuli þá *obligera*, eins og hèr er skipað um þíngvítin eður boðfall, að alleinn skyldugur heiður við lögmálið skuli skylda[2] þá til að svara þingvítamálinu, þegar að eins kallar þíngboðið þá á næsta þíng, eptir það þeir hafa forsómað það þíngið, sem næst áður var þeim stefnt með boðinu, sem þá gèkk og fyrir þeim var lýst undir votta, að sektir lægi við, ef hann ei sækti[3] þíngið, svo hann veit sig þá í því sekann vera, eins og hinir, er eigi[4] bættu fyrir sig á lögþínginu 1281, skyldast til að mæta óstefndir að öðru enn boði laganna 1282, svo framt sem þeir eigi bæta um vorið áður. En af því hèr er lögþíngisvítin búið að dæma 1281, eiga þau strax að greiðast 1282 á lögþínginu; en hin lögvítin í hèraði eru[5] álýst að eins, en ekki dæmd fyrr enn að heyrðum forföllum hans, ef til eru, því[6] eiga þau ekki þá strax á næsta lögþíngi að gjaldast, heldur lætur lögmálið nóg, að hann svari þá til málsins og þoli dóm, og skuli lögstefndur með boðinu alleinu, því að með hinu fyrra boðinu var sektin lýst og viðlögð, „álögð undir votta í fyrstunni“, og það „vottorð“ bar hverr granni til annars með því boði, og á eiður um að skilja, ef ei eru vitni til, Framfb. 10. En það Björn skrifar þeir skuli þíngvítin bæta á því þínginu, sem boðið segir þeim til, gèt eg honum[7] ekki samþykkt, því allur sakeyrir löglega sagður á hendur manni, skal goldinn að næstum fardögum, Þjófab. 23, að því einu fráteknu, sem bókin gjörir sjálf á annan skildaga, þíngfb. 8, Mannh 10, eður annarstaðar gjörir ráð fyrir. Það er og enn, að meta skal með dómi nauðsynjar þeirra, sem R. B. H. K., innfærð í þeim prentuðu bókum Framfb. 10 vottar: „kom ei boð til forfallalaust“. Þà hið þriðja: „að dóms er hverr verður fyrir sínu að hafa“, Kaupab. 1, en það kann vel skè, að ef ofan á þíngvíti kèmur boðfalls sekt á hendur einhverjum, verði sú sök ærin, eptir R. B. H. K. í Framfb. 10, og því síður líklegt, að þeirrar sektar mætti strax á þíngi krefja, meðan engin ransókn væri á gjör, hvört að forfall nokkuð valdið hefði, eður eintómis hyrðuleysi. Það sem Björn innfærir hèr framar úr Hákonar bók: „nú ef örvar taka hann, og sækir hann ei þíng“ etc., það talar lög-

1) B lengur. 2) B skylði 3) A sækir. 4) B hèr. 5) A er. 6) A þá 7) B því e. s. að.

málið um þann, er fyrir vígsökinni er í það sinni hafður, en ei um bændur þá, er örvar skyldu bera, fyrr enn koma þessi orð: „bóndi hverr scal til þíngs fara, er ör kemur til" etc. Hitt er Björn skrifar hèr, að Hákon konúngur Hákonarson Sverrissonar kóngs, hafi sendt til Íslands með Þorvarði Þórarinssyni og Sturlu Þórðarsyni anno 1271 lögbók þessa, sem vèr köllum Hákonar bók, gèt eg ekki skilið, hvernig svo gætnum manni skuli mistekist hafa; því það er öllum kunnugt, að Hákon kóngur Hákonarson andaðist í Orkneyum 15 decembris anno Christi 1263, en Ísland eignaðist hann ekki til fulls fyrr enn á alþíngi 1263, sem vottar Sturl. libr. 10 cap. 9, og vantaði þó Austfyrðínga fjórðúng í það sinni. Það er víst, að Arngrímur *in Crymogæa lib.* 3 cap. 2, eður heldur að að segja, *rege secundo,* skrifar, að sú lögbók hafi til Íslands komið 1271, og hún mest öll viðtekin verið 1272, en loksins öll 1273, og citerar til þess vitni [1], annála forna. Hann segir og, að með þessa lögbók komið hafi Þorvarður Þórarinsson og Sturla Þórðarson; þori eg varla að meina þá lögbók aðra enn hèr nefnda Hákonarbók, því að *reformatio* þeirra norsku Frostaþíngs, Gulaþíngs og Heiðsævisþíngs [2] lögbóka var ekki fyrr búin enn anno 1274, svo sem allar þær votta, hver í sínu niðurlagi; en þótt undarlegt megi [3] virðast, að landið undir kóngs vald komið 1262, skuli í samfeld 9 ár, inn til 1271, hafa mátt blífa við hin [4] fornu lög. Það sýnir Sturl. s. lib. 10 cap. 18, að anno 1264 hafi Sturla Þórðarson vænst fyrir Byrgi [5] jarli, að Magnús kóngur hefði sèr orðlof gèfið til Íslands, og það hafi kóngur látið honum leyft vera, en hvað lengi sú Íslands för Sturlu dvalist hafi, greinir sagan ekki skýrlega. Það segir hún í síðasta kapitula, að Sturla fór til Íslands með lögbók þá, er Magnús konúngur hafði skikkað. Var Sturla [6] þá skikkaður lögmaður yfir allt Ísland; voru þá lagaskipti; Út frá þessum orðum stendur á spáziunni á minni bók ártalið [7] 1265. Nú þótt eg þykist all-lítt [8] treysta mega því árstali, virðist mèr það nær líkindum, að ei hafi lengur frestast útkoma Sturlu þaðan frá, sem áður greinir samtal hans við kóng og jarl, en þó fremur líklegt að lagaskiptin ei hafi lengi undandregist, eptir svo stóra umbreytíng sem orðin var með konúnglegri stjórnan líðs og lands; hvað fyrir reformation sem

1) B til vitnis. 2) A om: þíngs. 3) B mætti. 4) B sín. 5) B Byrni. 6) B hann. 7) B om: ártalið. 8) A alltíðt.

þá skyldi vera sú, er Arngrímur vænist og Björn að gjörst hafi 1271 v. 1272[1], hafi það ei mátt vera skikkun Magnúsar konúngs, að hèr skyldu þá strax viðgángast þeir bálkar af hans norsku lögbókum, sem þá voru fullgjörðir[2], og kannskè jafnótt[3] í tíðkan innleiddir í Noregs ríki. Urðu þá og mótmæli nokkur um ímsa hluti bókarinnar, sem allfárra gètur anno 1281, þegar Jónsbók kom út híngað og var á alþíngi publiceruð; mismunar hún þó miklu meir frá þeim norsku lögbókum um innstæðu eyrir hins únga manns, heldur enn Hákonarbók, sem þar um er þeim næsta samhljóða, og mjög er framfærslan harðari í þeim norsku bókum og forlagseyrir minni enn í Jónsbók, en Hákonarbók gètur hennar að engu v. Frostaþb. item Gulaþb. Erfðat. 14 & 15 og Hákonarbók c. Erfðat. p. m. 66. 67.

## Alin að lengd og Meðalmaður.

| | | |
|---|---|---|
| Landslb. | 7. | *Álnarkèfli.* |
| Landslb. | 31. | *Þeim manni, er hann er hálfrar fjórðu álnar hár.* |
| ibid. | 32. | *Hlið er, þar til er hálfrar fimtu álnar er breiðt.* |
| ibid. | 44. | *Nú skal þjóðgata vera fimm álna breið.* |
| Rekab. | 2. | *Álnar kéfli.* |
| Rekab. | 6. | *Þorskur flattur, álnar í Öxarþærum.* |
| Kaupab. | 5. | *Nú er lögeyrir 6 álnir vaðmáls, nýtt og ónotið, tveggja álna breiðt.* |
| ibid. | — | *Alin í tuttugu álnum.* |
| ibid. | — | *Mórendt vaðmál sex álnir.* |
| ibid. | 6. | *Albreiðt lérept, 3 álnir fyrir 2 aura. Enskt lérept tvíelnt, 2 álnir fyrir eyrir.* |
| ibid. | 26. | *Tvær álnir gjöra stiku.* |

### § 1.

Það er ei að nýúngu skýrlega greint með rökum, hvað laung hafi verið sú alin, sem hèr á landi eður í Noregi gèkk á þeim tímum, sem lögbókin var útgèfin, eður nokkru[3] fyrr eður síðar. Grágás segir að vísu, í Kb. 82, að kvarði sè merktur á kirkju vegg á Þíngvelli, skuli þeir 20 gjöra 10 stikur, og skuli leggja þumalfíngur fyrir hvörja stiku; það skilst mèr,

---

1) A segir: A. v. og B. að g.h. 1271, 1272, 1273. 2) A jafnvel. 3) B litlu.

að kvarðinn hafi þá verið hálfum þumlúngi styttri enn hálf stika, því að 10 þumlúngar gánga til að auka 10 stikurnar, svo þær hafa það yfir 20 kvarðana, eður stikan hafi verið stytt um 1 þumlúng til þess Jónsbók var útgèfin ao. 1280, því hún skipar, að 2 álnir skuli gjöra eina stiku Kaupb. 26. Hitt er að athuga, hvernig skiljast eigi þetta: „sem verit hefir at fornu," því að eptir Grágás, þá var 1um þumlúngi meira enn fullir 2 kvarðar í stiku hverri; því kann eg[1] það eigi að meina svo, að tilforna hafi 2 álnir gjört fulla stiku, og eigi skil eg, að það skipi álnina fornu að lengja, til þess stikan verði með öllu full af 2 álnum, heldur ætla eg það segi „með þeim hætti sem var til forna," það er svo, að einum þumlúngi sè bætt við hverja stiku fram yfir 2 álnir. En ef þetta er misskilníngur minn, þá er hitt meiníngin, að lengja skuli kvarðan um hálfan þumlúng, svo 20 álnir gjöri fullar 10 stikur, og ei skuli þurfa til að leggja þumlúng þann, er Grágás hafði boðið, eður að stytta skuli stikuna um 1 þumlúng. En hvört heldur sem er, þá komumst vèr þarmeð eingu að nær um leingð álnarinnar, því-að einginn maður á vorum dögum þekkir nú stein þann, er í tíð Grágásar skyldi verið hafa í kirkjuvegg á Þíngvelli; er og kirkjan færð úr sínum forna stað, og stendur utan kirkjugarðs, síðan Alexíus, hinn síðasti ábóti í Viðey, flutti hana þángað, sem hún[2] nú er. Heyrt hefi eg munnmæli þau, að í þeirra minni, sem lifðu á mínum barndómsárum, hafi sá markaði áln-ar steinn til verið í Þíngvalla kirkju vegg, en eingin eru mèr skilmerki sögð eptir þeim til þessa.

## § 2.

Nú er margföld nauðsyn til að rannsaka hvörsu laung sú alin hafi verið, allt svo leingi nokkurr hyrðir um að skilja lögbókina. Munu þeir flestir er hyggja sú alin verið hafi sama, sem nú geingur, og eru í þeirri hègómlegri almúgavillu, að vöxtur mannkynsins hafi svo mjög til þurðar og rírðar geingið á þessum 436 árum, að þá hafi meðalmenn verið hálfrarfjórðu álnar háir að vexti, slíkrar sem nú geingur hèr á landi, og þeir stærstu menn í þá daga miklu hærri. Hafa þeir, er í þessari meiníngu gánga, sèr til trúarstirkíngar ýmsar fornsögur, er nefna það og það um vöxt fornmanna, þótt eg geti fárra.

---

1) A om: eg. 2) A om: hún.

§ 3.

Svarfdæla (*historia quidem, sed fabulosa usque ad ineptias nugasque*, ɔ: sönn að vísu í mörgum greinum, en skröksögum og ýkjum blandin, sem eru þreifanlegur hègómi) segir: að Klaufi hafi verið 5 álna og þverhandar hár; vil eg nú láta um stund sem eg trúi því. Item segir Snorri Sturluson, um Harald kóng harðráða Sigurðarson eptir hann látinn: „5 álna er hátt mál hanns;"[1] það vilja þeir skilja að svo hafi kóngurinn hár verið, en eg ætla það muni meint um líkneski gjört eptir honum. En látum nú hina ráða um stundarsakir og gjörum reikníng eptir þeirra *thesi*, svosem alin þeirrar aldar hefði verið sama sem vor alin á þessum tímum. Klaufi, sem Svarfdæla talar um, skal hafa verið þverhandar og 5 álna; látum Klaufa lifað hafa a⁰. Chr. 900; það er ei allfjærri miðri landnámatíð, en víst ætla eg hann lifði nokkru síðar. Haraldur kóngur harðráði Sigurðarson var 5 álna. Frá dögum Klaufa ofan til Haralds konúngs, sem var 15 vetra í Stiklastaða bardaga anno 1030, en deydi anno 1069, vil eg telja til andlátsdags kóngsins, 166 ár. Um þann tíma skyldi vöxtur þessara stóru manna þurðað hafa um þverhönd, það eru 4 þumlúngar. Nú frá andláti Haralds kóngs til þess er andaðist Magnús kóngur Lagabætir anno 1280, verða 214 ár. Nú er það ljóst af vorum Llb. 31 kap,[2] að meðalmaður skyldi þá vera hálfrar fjórðu álnar hár, það er 30 þumlúngum lægri enn Haraldur kóngur. Mèr verður svarað: Haraldur konúngur var allra manna hæstur á vöxt, og bar lángt af meðalmönnum Eg læt það vera gott, og tel hann hálfri alin hærri verið hafa, enn meðalmenn á hans dögum. Vona eg eínginn sá, er mótmælir mínar *theses* í þessu, muni krefja meiri vaxtarmunar, því ella gjörði þeir kónginn *monstrosæ proceritatis*. Því gjöri eg, að meðalmenn hafi þá verið hálfrar fimmtu álnar að hæð, en í tið Magnúsar kóngs Lagabætis voru þeir hálfrarfjórðu; það vottar Lögbókin. Skyldi þá samt vöxturinn hafa mínkað á 214 árum um eina heila alin, það eru 20 þumlúngar, þeir gjöra heila alin. Nú eru síðan Magnús kóngur andaðist 436 ár, og skyldi þá vöxtur mannkynsins eflaust eins mikið og hvergi minna hafa til þurðar geingið[3] eptir *Proportion* á þessum 436 árum, sem á hinum 214, þá ætti það að vera 50 þuml-

1) B manns. 2) A om: kap. 3) A hnígið.

úngar og þó nokkru meir; svo að eptir þessara minna mótmælenda *thesi* vill það eptir fylgja, að nú á vorum dögum skyldu þeir, sem eru meðalmenn, vera: „einnar álnar á hæð;" en fæst munu þau börn veturgömul á vorum dögum, að ei sèu á leingð ein alin þessara tíma, og eiga þau þá að heita meðalmenn fullorðins vaxtar. Veit eg, að þessa mína *illation* sjá allir rètta vera, því einginn heilvita maður efar, að sjötigum[1] manni hrörna burðir allir árlega jafnmikið sem fimmtigum. Eg segi jafnmikið, þar meina eg nokkru meira enn fimmtigum, og vil ekki *prætendera*, að það sè miklu meira, þótt allir sjái, að ellin er því þýngri og nær hrörnuninni, sem hún verður hærri. Þarfyrir, ef elli veraldarinnar hefir á svo mörgum eða fáum árum, sem þessi reikníngur getur, látið svo þverra vöxt mannkynsins, þá getur ekki þurða sú vaxtarins þaðanaf[2] orðið minni, því veröldin ýngist ekki til að taka sèr og skepnunum nýa krapta, þarsem hún skal vera *ex thesi nobis adversa* komin í svoddan örvesi, sem þeir vilja á mannkyninu segja að orðin sè, um svo stuttan tíma. Skil eg nú eigi betur enn svo, að annaðhvert verða þeir að *concedera* það, að alin þeirra gömlu tíma hafi verið miklu styttri enn vor alin á þessum dögum, eður gánga við því, sem dagleg raun sýnir heimsku að vera, að einginn meðalmaður skuli nú á dögum hærri að vexti, enn alin þessara tíma. Er eg ekki skynugri enn svo, að með þessu eina mínu *argumenti* meina eg *adversæ theseos* forsvarsmenn *redactos ad absurdum*, svo þreifanlegt sè, að þeirra *thesis* eigi staðist geti, og annaðhvert sèu sögurnar ýktar yfir allt hóf, eður alin þeirrar aldar hafi miklu styttri verið, enn nú er vor alin á þessum dögum. *cfr Mornæum de veritate rellig. cap.* 9 *pag*186. Hann segir: ef elli veraldarinnar væri sem þeir vilja kennt hafa, þá skyldu menn vera 3 spannir að vexti; og eru nú yfir 100 ár síðan hann skrifaði þetta.

§ 4.

Það er nú enn, að Haraldur Englands kóngur Guðinason vill unna áðurnefndum Haraldi Noregs kóngi[3] 7 fóta rúm af Englandi, eður það meira, sem hann er hærri enn aðrir menn, svosem vottar Snorri Sturluson og Noregs kónga sögur; [þær segja: hærri enn flestir menn aðrir]. Þó mèr verði

1) H sjötugum. 2) H hèðanaf. 3) B Sigurðarsyni.

svarað, að þetta bevísi ekki vöxt Haralds kóngs Sigurðarsonar, nema það hann hafi verið hærri enn flestir aðrir, þá svara eg, að þetta *demonstrerar* meðalmanns vöxt þeirra tíma verið hafa 7 fóta, það er hálfrarfjórðu álnar og ekki meir, jafnt sem í tíð Magnúsar kóngs Lagabætis, svo að frá dögum Haralds kóngs hafi vextinum ekkert munað í heil 214 ár niðureptir; en hitt er fjærri líkindum og hefir einginn sagt, að Haraldur kóngur hafi verið hálfri annari alin hærri enn aðrir menn.

§ 5.

Svo segir Hákonar kóngs saga Hákonarsonar anno 1253: „borðit var 9 álna fyrir ofan sjó á Kross-súðinni". Mundi mögulegt að eitt lángskip væri svo borðhátt, ef þeirra alin hefði svo laung verið, sem nú er vor alin? Ekki er hèr greint, hvert skipið var tómt eða hlaðið; hitt er ljóst, að komið var það á leiðángursreisuna, og hafði inntekið, líkast til að ráða, bæði menn, vopn og vistir. Strax áður greinir um sama skip, að þegar Kross-súðin kom í lagi hjá öðrum skipum, bar jafn hátt borðin á henni, sem tjaldásana á öðrum skipum og Olafssúðinni; hefir það að sönnu verið ærinn munur, en þó virðist mèr eigi trúlegt, að „sú" alin geti „vorri" samboðið, er 9 álnir skyldu fyrir ofan sjómál, því hversu væri mögulegt, að hræra þær árar, er draga skyldu þvílíkt skip, að venju lángskipa róðurs yfir þvert skipið?

Herra Pètur Clausson í Ínga kóngs Bárðarsonar historíu getur þess, að ár 1206 og 1207 um veturinn, hafi Baglar látið byggja 3 skip svo stór, að eigi hafi slík fyrri sjen verið í Noregi, og hafi árarnar verið 20 álna lángar, og þó hafi skipin eigi hærri verið enn svo, að hár maður hafi mátt ná breiðöxi á siglubjálkan (eg ætla það þverbitan, sem mastrið hefir stuðt,) ef hann stæði á búnkanum. Hvörnig sem nú var alin þeirra, þá gjöri eg yfirskipsins breidd einn þriðjúng úr 20 álnum, það eru 6 álnir 2⅔ kvart; annan þriðjúng gjöri eg skakkreitis af borði niður að sjómáli, og svo 6 álnir 2⅔ kvart; þann hinn þriðja þriðjúng gjöri eg í sjó fallið[2] hafi, til framdráttarmagns á skipinu, það eru 6 álnir 2⅔ kvart., og nú er árin 20 álnir, því að 13 álnir og 1⅓ kvart. gánga til skipsbreiddar og skakkans áður enn sjó nemi, og með þessu móti alleina sýn-

1) A og B. 2) B sjófallið, om. hafi.

ist mèr mögulegt að hræra slíkar árar, en þó varla eður eigi, skyldi sú alin vorri jöfn verið hafa, og enn þá síður eptir 9 álna borðhæð á Kross-súðinni, því þar[1] sjá allir, að eigi hrökkur frek hálf sjöunda alin til að gegna skakkanum sem verður fyrr enn árin náir sjáfarmagnið á sig að taka. Þess er og hvergi getið í sögu Hákonar kóngs, að Kross-súðinni hafi róið verið, þó kóngur sjálfur sigldi henni til Danmerkur í þá einu herför; *concludera* eg því, að þótt róður hafi mátt á henni vera tilætlaður í orustu, muni hún aldrei þar fyrir utan hafa árum dregin verið; en hún kom aldrei í orustu svo eg minnist að þess verði getið. Hitt virðist mèr líklegt, að þó hún væri gjörð til að sýna stórmennsku og dýrð Hákonar konúngs, muni hún hafa verið með lángskipa formi, það meina eg hvergi nærri svo breið, sem knerir og farmaskip, er breidd sína gjarnan hafa í samjöfnuð við leingð kjalarins, stundum til þriðjúnga, stundum fjórðúngs, eður þar í nánd um, svo sem nú eru skipabyggíngar. En það ætla eg fornaldar herskip hafi lángskip kölluð verið, að þau hafi verið hvergi nærri svo breið, sem kjöl þeirra sambyði, ef að farmaskipa lagi bygð væru.

## § 6.

Eg er nú kominn nokkru lengra frá efninu enn mig varði, þarsem eg á hèr um alin að tala og meðalmanns vöxt á dögum Magnúsar kóngs Lagabætis. Mun eg fá þau svör um það, er skipavöxt hèr greindan snertir, að eingar geti þaraf orðið fullkomnar *illationes* um leingð álnanna, því hver alin sem tekin sè, gegni hún altíð sinni *proportion* í öllum reikníngi, svovel um mannanna vöxt sem skipanna. Hvað sem hèrum[2] segjast kynni, þá eru þó hlutir þessir, um borðhæð skipa og áranna leingð, mjög til líkinda; því að[3] þegar her kónganna skyldi alla hluti gjöra með slíkri snarmennsku, sem orustur krefja, væri nauðsynlegt, að áhöldin öll væri til þess löguð, að þau eigi bæri liðið ofurmagni, og yrði þeim eigi stjórnað, svosem nokkrum sinnum lá hætt við, bæði þegar drekinn Knúts ens ríka Danakóngs, var fyrir leingðar sakir óhægur í snúníngum, sem Ólafs helga saga vottar kap. 160. Og svo þegar Sverrir kóngur vildi sigla frá Björgvín, eptir orustuna fyrir Norðnesi; item þegar snúa skyldi Maríusúðinni á Sogn-

1) A það. 2) A þarum. 3) líkinda því, að.

sæ, áður Magnús kóngur Erlíngson félli. En hèr til fæ eg svar; Menn þeirrar aldar voru svo miklum mun stærri og sterkari, að samt gat vöxtur skipanna verið svo forkunnar stór, sem alin vorri sambjóða kynni. Eg andsvara: þetta er sjálft ágreiníngsefnið,[1] og *ponerar* alleina, en *proberar* ekkert, nema það, að þeir hraustu menn þeirrar aldar gátu þó ei ráðið við skipin.

§ 7.

Það er enn, að vèr höfum eingin dæmi til þess á öðrum skepnum, að vöxtur þeirra fari til þurðar, hvört sem vèr lítum á fugla loptsins eður ferfættar skepnur, fiskana í vötnunum eður skriðkvikindi jarðarinnar; að eg þeigi nú aldeilis um örkina Nóah; því skyldu ferfættu dýrin og klófuglarnir hafa rúm í ekki stærra skipi, þá hafa þær skepnur[2] ei mátt stærri vera, enn nú eru þær fyrir vorum augum; hvernig má þá trúlegt vera, að manneskjan allein hafi svo furðulega rírnað, sem allmargir meina?[3] Því svosem Guðs óútskýranleg góðgirni hefir gjört á vorri sál og annara skepna þann stóra mismun skynseminnar og ódauðleikans, svo reynum vèr á öllum háttum vorum, að líkami vor og þeirra ferfættu dýranna jarðarinnar, eru mjög nærskyldir, því skyldi þá vexti mannsins þurða, framar enn annara dýranna?

§ 8.

Það er almenn[4] sögn þeirra, sem veiða látur-sel í netjum, að selanótar-möskvi sè þá hæfilegur, er hann má komast yfir mannshöfuð niður að eyrum; svo hefir að fornu verið, og svo er enn. Annaðhvert er þá, að bæði stendur í stað vöxtur mannsins og selsins, eða báðir fara jafnt til rírðar. (NB. *Exstant hujus commatis objectiones Mag. Arnasonar*).

§ 9.

Til eru þær lögbækur á membrana, sem í Rekab. 2. segja: „það eru netlög utarst, er selnet stendur grunn 20 möskva djúp að fjöru sjóar, og koma þá flár uppúr sjó, en það[6] er 12 álna djúp að fjöru“. Eg hefi þá eina, er svo les, og er hún skrifuð eptir[7] *reformationem*. Önnur er skrifuð fyrir

1) A ágreiníngar. 2) A om: skepnur. 3) B hyggja. 4) A almennileg. 5) B omitt. 6) A eru. 7) A fyrir,

*reformationem* að sönnu, en þar eru þessi orð með annari hendi sett orðrètt eins á spássíunni. Er sú hönd þvílíkust, sem menn skrifuðu síðarst á *seculo* 16º. Sú er hin þriðja, er skrifuð er að vísu fyrir *reformationem*, og hefir margar *notas antiquæ lectionis*, en er þó ei eldri enn svara megi[1] *seculo* 14º, eður öndverðu seculo 15º. Hún hefir þessa grein inni í textanum svolátandi: „þat eru netlög utaz, er selnót stendur grunn 20 möskva djúp ath fjöru, oc komi þá flár uppúr sjó, þat er fjögra faðma djúp". Þegar eg hugleiði með gaumgæfni þetta gjörvalt, *concludera* eg svo: að þegar sú membrana, er eg hèr fyrsta nefndi, hefir skrifuð verið, þá muni svo lángt verið hafa framliðið á tíma, að Hamborgar alin var hèr orðin tíðkanleg sú er vèr nú höfum, og 3 gjöra meðalmanns faðm, en 12 fjóra faðma, og því hafi skrifarinn látið sèr vera *indifferent*, hvert hann segði[2] 12 álnir, eður 4 faðmar. Sama *ratiocinera* eg um þetta *comma* í þeirri, sem það hefir *in margine* með nýrri hendi skrifað; en um þá þriðju, sem í textanum hefir „4ra faðma djúp," skil eg að hann meini „málfaðma," það eru 14 álnir *seculi* 13., sjöunda hlut styttri enn þessa dags alin, *adeoque* 12 Hamborgar[3] álnir, svosem þær ýngri segja. Nú bið eg menn taki selanót 20 möskva djúpa, og skal hún gjöra það satt, að 12 álnir vorra tíma sè það djúp, er hún standi grunn; eg hefi það mælt á 5 möskvum og 3ja álna hæð á þurru lopti, og svo á 6 álnum vorum og 10 möskva djúpri nót, og fellt svo netið, að möskvinn standi ferskeittur, sem lagnet eiga að gjöra.

## § 10.

Því verður og eigi neitað, sem dagleg raun ber vitni um hið gamla „vallamál, sem í öllum stöðum hèr í landinu, sem eg til veit, hefir verið í faðmatali mælt að fornu og nýu; kalla menn það með ýmsu móti í ýmsum landsins hèröðum, sumir eyrisvöll, sumir 10 álna völl; norðanlands er það dagslátta kölluð, og þá 2 eyrisvellir fylgjast að, heitir það tveggjadaga sláttur, og svo framvegis, þartil sem eru 6 eyrisvellir, það heitir vikuverk. Öllum ber þó saman í því, að hverr[4] eyrisvöllur eður dagslátta skuli vera 30 málfaðmar í hvert horn,[5] það eru alls 900 ferskeittir málfaðmar *intra suos terminos*.

1) A muni. 2) A sagði. 3) B Hamborgskar. 4) B hverr sá. 5) B hvert ferskeitt.

*Hæc nostræ terræ recepta ab initio primo consvetudo, vicem apud nos obtinet jugerum Romanorum.* Hafa þesskonar vellir að fornu mæltir verið með vað eður taugum, eins og skipar Lbr. 3. kap. „meður skapti" (*decempeda*) eður taugum „má jörðum skipta innangarðs", segir þar. Eru þess ótal dæmi hèr á landinu alla vegu, að slíkir dagslættir eru fyrir allra manna minni já að vísu fyrir 250 árum deildir[1] í mörgum stöðum til vissra merkja, helst þar sem nú eru kóngsins góts, þau er fyrir *Lutheri reformationem* láu til klaustranna, og hafa í þá daga vaðirnir eður taugarnar mæltar verið á föðmum meðalmanna, svo sem sýnilegt er af Grágás, Landabr. þ. 15. „Löggarður 5 fóta þykkur við jörð niðri, en 3ja ofan, og skal hann taka í öxl þeim manni,[2] er bæði hefir gildar álnir og faðma. [[3] Hèr sjáum vèr, að ekki er ríkara álagt enn svo, að maður sá, er garðurinn skal mælast við, hafi bæði gildar álnir og faðma]. Þetta er að mínum skilníngi allt hið sama, sem Jónsbók segir, „meðalmanni". Og svosem þessi boðorð lögmálsins, bæði hins forna, og Jónsbókar Magnúsar kóngs, eru samkvæm að öllu, ætla eg útþrykkilega *demonstrerad,* að á því stóð vallamálið allt og aðrir slíkir hlutir, sem þá voru meðalmenn háir og faðmlángir. Nú síðan komið er niður á öld vorra daga og það heldst víst, að hver dagslátta eður eyrisvöllur sè og skuli vera 30 málfaðmar í hvert ferskeitt horn, ɔ: 900 ferskeittir faðmar alls:[4] þegar nú síðan ágjarnir menn, sem eigi vissu rök og grundvöll þessa máls, ætluðu, eður lètust ætla, að sama væri álnamál nú og að fornu, sáu það, að vellirnir, sem eptir *veteri canone* áttu af leiglendíngnum slegnir að vera fyrir 20 álnir í landskuld þeirra ɔ: 3 eyrisvellir fyrir 20 álnir (og er þetta svo innkomið, að húsbóndinn, það er ábótarnir í klaustrunum, gáfu bændum 2 álnir meir enn aðrir til að þjóna sèr; því bóndinn klaustranna fèkk 20 álnir ístaðinn 18 álna), gjörðu ekki fulla 30 málfaðma eptir alin þessara tíma, þá hverr málfaðmur skyldi vera hálffjórða alin; juku þeir vallamálið eptir alin þessarar aldar og reiknuðu 105 alnir vorra tíma fyrir 30 málfaðma gamla álnamáls; urðu þá landskuldavellirnir þeir gömlu allir ofrírir, og náðu hvergi saman við þá málfaðma, sem með vorri alin þessara tíma mælast skyldu. Þessari minni sögn til áþreifanlegrar bevísíngar er það sem lögmaður Gottorp gjörði;

1) A deildar. 2) B add. af þrepi. 3) A om: [ ]. 4) A ( ).

þegar hann hafði nýlega fengið Þíngeyra klaustur, mælti hann með alin þessara tíma landskuldavölluna; urðu þeir þá svo rírir, að allur landskuldavöllurinn frá Miðhópi, þriggjadagasláttur að fornu máli, og allur landskuldavöllurinn frá Hólabaki og svo þriggjadagasláttur eptir gamalli mælíngu, voru aflagðir og auknir ofan á hina aðra, til að gjöra þá nóga við álnamál[1] það, sem nú geingur. Sjá menn hèr, að það hefir eigi lítill munur verið, er fullt vikuverk, þ. e. 5400 ferskeittir málfaðmar, þurfti til að fylla mál þessara tíma framyfir það, sem frá aldaöðli verið hafði, og það alleina ofaná[2] 8 landskuldavölluna, sem enn eru eptir, síðan Midhóps og Hólabaks völlum var ákastað. Hefir með þessú móti aukist hverr þriggjadagasláttur hins gamla máls um 675 ferskeitta málfaðma, það er allur fimmti hluti framyfir það, sem áður hafði verið. Svo munar það miklu og raskar þó hvergi því, er eg hefi hèr áður sagt, að þessa dags alin væri sjöunda hlut lengri, enn að fornu verið hefði, því að *circumferentia* vallarins gjörir ferskeittu faðma muninn svo stóran, þó vaðurinn eigi sè meiri enn einum sjöunða hlut lengri enn hann[3] var til forna.

## § 11.

Það er annað dæmi, að túnvöllur á Hnjúki í Vatnsdal, Þíngeyra klausturs jörðu, var að gamalli sögn haldinn 14 daga sláttur, enn fyrir fáum árum var hann vaðdreginn eptir alin þessara tíma; (mæltist) hann þá ekki meira enn 10. daga sláttur. Svo sagði mèr Hákon Jónsson lögrèttumaður) anno 1713. þann 10da júní, þegar eg gjörði jarðabók þar í sveitinni að Steinnesi, og kvaðst hann hafa vaðdregið hèrnefndan völl. Nú er það ofstór fjarski, að svo miklu skuli muna, því get eg að fornmælin[4] muni rángflutt, og kallað hafa 12 daga slátt það, sem hann sagði 14, en reyndust 10., og skakkar þá[5] um sjöttúng einn, sem þó er meiri enn sjöundi hlutinn[6] eptir mínum líkindum, og kann það hafa tilkomið af óglöggri mælíngu, sem heimtar stóra *accuration*, þá er allfáir bændur vita; hitt er ljóst, að verða muni nú vaðurinn sjöunda hlut styttri enn áður.

---

1) A álnatal. 2) A uppá. 3) B omitt: hann. 4) A forn alin. 5) A þó. (6 A hlutur.

§ 12.

Það lýtur og híngað, sem bókin segir, Rekab. 6 kap. „Þorskur flattur, álnar í öxarþærum," það er: útá bæði þunnildanefin, svosem sagt skal verða *in voce* „öxarþærur". Sá þorskur skal vera sjaldfenginn mjög, ef hann skal á vorn kvarða mælast, og þótt vèr köstum frá hinum sjöunda hlut, eptir minni tilætlun um alin hina fornu, þá mun hann að vísu meir enn gyldur þorskur, sá eð nú heitir svo lángar stundir, og skal að vog, þá harður er orðinn,[1] 4 merkur eður 2 skálapund.

§ 13.

Um þær axir fornaldarmanna, sem getur að verið hafi álnar nær[2] fyrir munnan; ein í Laxdælu, þar smalamaður í Skoradal greindi yfirlit og búníng Bollasona og fylgðarmanna þeirra, sem fóru þá til víga að Helga Harðbeinssyni. Önnur í Egils sögu Skallagrímssonar, sú er Steinar fèkk í hendur Þrándi þræli sínum, er beita skyldi engjar Þorsteins Egilssonar í trássi. Er það fyrst að merkja hversu þarum greinir tæpilega; „nær álnar segja sögurnar; annað, að það muni nokkuð ýkt, þriðja það, að alinin hafi styttri verið enn nú. Þó menn vildu færa hèr[3] til líkinda þá öxi, sem Eiríkur konúngur Blóðöxi sendi Skallagrími, og Grímur hjó með uxana tvo í einu, leidda svo á víxl, að hálsarnir á báðum láu nær saman, svara eg, að sú öxi þurfti ekki að vera meira enn hálftþriðja kvartil þessarar aldar fyrir munnan, til þess að höggið tæki bæði nautin í senn; reyndi eg það anno 1712 þann 17 octóber, að tveir uxar gamlir stóðu svo á víxl, og voru neðanundir kverkina báðir saman, hálf alin vorra tíma, og ekki fullt hálft kvartil hið[4] þriðja, en ofanyfir hálsana beggja var tæp hálf alin. Nú skulum vèr gjöra þá öxi með hinum stærstu þesskonar vopnum, og uxana svo stóra, að varla finnist þeirra makar, þá verður þó öxi sú aldrei meira enn tæp 3 kvartil vorrar álnar og köllum því nær verið hafa, þar sem kallast „nær" álnar, sem allt horfir til þess, að alin hafi þá sjöunda hlut styttri verið, enn hitt væri geip ferlegt, skyldu þær axir verið hafa alin vorra tíma, þvíað þúngi vopnsins með auganu og spaungunum uppá skaptið, er vera skyldu ramlegar, eptir boði Landvarb: í

1) A þá hann er harður. 2) A cel. 3) A vèr. 4) A til. 5) B. ferl: geip.

Frosta — og Gulaþíngslögum, og sköptin há sem gaungustafur, vildi gjöra þvílíkt vopn miklu þýngra enn sverðið Oddgeirs danska, sem síðan verður hèr getið eptir *Mabillonis*[1] commate 26. Skyldu þá vorir fornmenn einhenda þær að vígi, því skjöldinn bar sú vinstri höndin tíðast.

§ 14.

Þá er enn að merkja það sem skipa Frosta - Gula - og Æidsivjaþíngsbækur Magnúsar konúngs Lagabætis um „Baugreið til vegabóta: mæla skal spjótskapt 8 alna lángt og gjöra til hænkir af viðju etc.“ Hvörjum þykir trúlegt að skotvopn eður lagvopn hafi svo lángt verið, sem 8 álnir vorrar aldar, þar sem þó að allmörg voru svo, að taka mátti hendi til fals? Enn veit eg að Noregskonúnga sögur segja það á lágu skapti, sem svo var, að hönd náði til fals, þar sem talar um Sigurð Hranason, er hann gekk til sátta við Sigurð konúng Jórsalafara. En eigi er það spjót lágskept kallað í Ólafs helga sögu kap. 153, sem átti Arnljótur Gellina, þá er hann bjargaði Þóroddi Snorrasyni í flóttanum af Jamtalandi, og er þó greint á því spjóti að[2] tók hendi til fals. Þó mætti það furðumiklu skipta, ef önnur hefðu 8 álna verið, slíkra sem nú; og þótt vèr gjörum alin þeirra eptir minni *thesi*, sjöunda hlut styttri, þá verður þó spjótskaptið fullar 6 álnir vorar, og meir enn 3 kvartil hinnar sjöundu; því gjöri eg mèr þá þánka hèrum, að staung sú, er hafa skylði til að mæla breidd þjóðgötunnar hjá Norðmönnum, hafi verið að digurð svo sem spjótskapt, og því spjótskapt kölluð, þótt hún væri miklu lengri.

§ 15.

Hèr færi eg það til merkis um venjulega leingð spjótskaptanna, að í Sturl. s. libr, 4 cap 16 meðal fyrirburða þeirra, sem urðu fyrir Hrafnseyrar brennu, er það nóterað svo sem merkilegur hlutur, að spjótið[3] tók lengra fram enn hesturinn og svo aptur. Nú eru þeir hestar í stærra lagi, sem eru 3 álnir og $1\frac{1}{2}$ kvart:[4] vorrar álnar að leingð fram á hausbrúnina milli eyrnanna, og aptur allt þángað sem róann beigist niður. Fæstir munu þeir, er á þann veg mæltir; verði[5] full hálffjórða alin þessara tíma, en þeir allmargir, að ei sèu lengri enn 3 álnir

1) A Mabíllins. 2) A om: að. 3) B spjótskaptið. 4) A 2 kvart. 5. A er á þann vig eru mæltir, verða ect.

og 1 kvartil vors mælis. Því gjöri eg mèr það líklegt, að spjót þau, er þá mátti taka hendi til fals, hafi verið hèrum 3 kvartil hinnar fjórðu álnar, sem nú er tíðkuð, og hefi eg það reynt, að þeir menn, sem eru 3 álnir að hæð á vorn kvarða, taka það hendinni upp fyrir sig hæfilega, að munar um 3. kvartil framyfir hæð þeirra. En hvað einn kann að vera armalengri enn annar, færi eg ekki til reiknings, þvíað um það er hèr að tala og meta, sem almennast er á meðalmönnum. Nú höfum vèr í þessu hestinn hið fyrsta mál, eins stóran á vorum dögum sem þá, svo sem síðan skal *domonstrerað* verða með reið Þórðar Kakala [Comm, 45[1]]. Nú höfum vèr spjótið nokkru lengra enn hestinn, það er 3 kvart. á fjórðu alin á vorn kvarða. Nú höfum vèr meðalmanninn, er tekur hendi til fals á sama spjótinu, eins nú og þá, og hèr sjáum vèr hvað skapthá sól vill verða[2] í Kristinrètti þeirra Þorláks og Kètils byskupa. Nú mun mèr svarað verða af hinni fornu Gulaþíngsbók í[3] Llb. „Þjóðgata oc Sæturgata oc allir Rekstrar skulu vera, sem legit hafa at fornufari etc". og strax eptir á: „Maðr skal sitja á hesti söðurlaðum, oc setja á jörð niður geyrskapt, taca upp þumalfingri til fals, oc se spjót spannarlángt fram í frá. Það skal leggja niður um þvera götu. Scal vera eigi breiðari. En ef hann spillir víðara akri eður eng, þá skal hann gjalda þat aptur". Hèr til svara eg, að af þessu er bágt að *concludera* hæð hestsins, þykkt söðulsins, seilíng mannsins, leingð spannarinnar. Mèr verður svarað: látum allt þetta reiknast að meðalhófi. Eg segi: um hestinn, manninn, seilínguna og spönnina kann allt það nærri að láta, en þykkt söðulsins[4] þeirrar aldar veit eg ekki hverr ákveðið geti. Enn verður mèr sagt, að hèrum tali þær norsku lögbækur Magnússar konúngs Lagabætis, það þjóðgata skuli vera 8 álna breið, og muni því mælir hinnar fornu Gulaþíngsbókar láta því nærri. Jeg svara: gáta er þetta, en eingin vissa, þvíað tvennt er til, fyrst, að í konúnganna valdi er[5] að *reformera* lögin, hvar þeir vilja, svosem hin sama Gulaþíngsb. vottar, að Ólafur kóngur hafi boðið, en Magnús kóngur aftekið það eður það. Og sjáum vèr það í vorri bók, Llb. 44, að þjóðgata skal vera 5 álna breið hèr á landi, en 8 álnir í Noregi, þar þó öll var hin sama alinin. Í annan stað köllum vèr,[6] að hèr skuli reiknast 8 áln-

1) B om; [ ]. 2) A vera. 3) B add. hennar. 4) B. söðulreiðisins 5) B stendur. 6) B om: vèr-reikna.

ir. Setjum mann á hesti, þann er sè meðalhestur, hálfþriðja alin á herðakamp; leggjum á hestinn þykkvan þófa, og gamlan Norðmanna bryggjusöðul, það skal hækka nær hálfri alin þeirrar tíðar; setjum mann í söðulinn, þann er sè 3 álnir vorrar aldar [og seilist 3 kvartil vorrar aldar[1]] og þá er ennú spönn uppá geirsoddin. Leggjum allt þetta saman, þá verður þjóðgötu breiddin 6 álnir vorrar aldar, það eru 7 álnir lögbókar tímanna og sex sjöundu hlutir vorrar álnar, það gjörir fullar 8. fyrri tímanna álnir. En hvað helst sem í þessu kann að vera misreiknað,[2] læknast allt með laganna *reformation,* þvíað Magnús kóngur heitir ekki forgefins Lagabætir, og skil eg nú ekki hvað af fyrrskrifaðri grein Gulaþíngsbókar verði *concluderad,* það er minni *thesi* hrinda kunni.

§ 16.

Jeg vil eingvu svara til þess dárlega vitleysis, er stendur í hinni prentuðu sögu Olafs kóngs Tryggvasonar, í frásögn Nornagèsts um hestinn Sigurðar Fafnisbana. Part 2º cap. 32 pag. 141. Þar segir Nornagestur:[3] „strauk (*corrige*: stökk) Sigurður af baki, en ec strauk hest hans, oc þó ec leir af hönum, oc tók ec einn lepp (ɔ: lokk) úr tagli hans til sýnis vaxtar hans; sýndi Gèstur þá leppinn (lokkinn), oc var hann 7 álna hár. Er heimska þessi svo þreifanlegur diktur, að hann hrindir sjálfum sèr, og gjörir hestsins vöxt jafnan eða meiri enn stærstu fíla. Eins er þusslegt vitleysi það, er sami þáttur meðfærir, *eodem cap. ead. pag.* um jaxlinn Starkaðar, er vega skyldi 7 aura, það eru 16 lóð, sem vèr nú köllum, og er slíkt ekki svara verðugt. Og þó hefir ekki sögumeistarinn gáð að gjöra þennan Gest svo yfirfurðu stóran, sem með skyldi þurfa, til 300 ára rírnunar á vexti mannkynsins, þvíað ekki kveður sagan þarað fremur enn svo, að hann var meiri enn flestir menn aðrir, pag. 133. *Ergo* voru þó nokkrir á hans vexti, og ekki getur að kóngur fengi sèr til orða vöxt hans, fyrst er þeir sáust, og er þetta sannlega vangá þess, er diktað hefir, að hann lèt ekki hvað öðru sambjóða.

§ 17.

Nú að gleymdum og foröktuðum slíkum hègóma, þá er þó þess að geta, sem kunnugt er, að til eru þær heilar

1) A om: [ ]. 2) B misgáð. 3) A Gestur.

þjóðir í heiminum, að flesta menn hafa hávaxna, þó eigi svo, að ýkjum sæti, fram yfir aðra, sem eru meðalmenn í hærra lagi, svo sem eru meiri hluti af holsteinskri *Nation*, er vèr sjáum daglega. Og sama skrifar *Curtius* um *Schytas. Libr.* 7. Þarámóti eru aðrar þjóðir svo, að flestir menn eru lágvaxnir, en allfáir stórir, svosem vèr sjáum *Æthiopes* flestalla, og eins er sagt af *Samojedis* og af Skrælíngjum, þeim er á Amerika norðan verðri og á vesturhluta Grænlands, þar sem norður sækir eptir *freto Davídis,* hafa fundnir og sjeðir verið. En svo sem þetta er á *particulair Nationum* mjög almennt, svo er hitt *in universum,* þegar vèr rennum huganum um heiminn allan, miklu framar almennt og *universale*, að í sömu *Nation* eru bæði smáir og stórir menn og kvinnur; og þeirra meðalmenn eru það, sem vèr nú umtölum, og eg segi, að allt frá Krists híngaðburði hafi svo verið til vaxtar aldeilis sem nú sjá vor augu hversdagslega.

## § 18.

Því er ekki að neita, að stöku *familiæ* í heiminum, hafa verið yfirburða stórvaxnar og í því fráleitar öðrum mönnum, og voru því í sinni tíð risar kallaðir, svosem Goliat[1] 1 Sam. 17 og frændur hans, sem um er talað 2 Sam. 21 v. 16—17 et. seqq. og slík eru fleiri dæmi, bæði í fornum sögum og nýum. Eiga slíkir menn alls ekki skylt við þetta mál, þvíað vèr tölum um almennilegan vöxt meðalmanna. Það er varla eður ekki andsvaraverðt, sem skrifar *Plinius hist. nat. libr.* 7 *cap.* 16. svo er það þreifanlega *fabulosum,* að nokkur manneskja í heiminum muni fundist hafa 46 álna há; mörg eru fjöllin lægri. En látum satt það[2] hann segir, að í tíð *Claudii* keisara hafi fundist einn maður úr *Arabia* meir enn 9 feta[3] lángur, og í tíð *Augusti* þeir, er verið hafi hálft tíunda fet. Þá liggur enn hèrtil hið sama svar, að slíkar skèpnur voru furðumenn, fráleitir almenníngi og meðalmönnum, einsog þeir smávöxnu, sem hann í sama kapítula nefnir, einn 2ja feta og þverhandar, annann 2ja álna.[4] þeir voru ekki meðalmenn heldur enn hinir, svo þetta brýtur að eingu mína *thesis,* sem um meðalmenn talar, en ekki um[5] þá, sem verið hafa furða

---

1) B. add. voru. 2) B add: sem. 3) A fóta. 4) B. aðra 2 álnir. 5) B. om: um.

náttúrunnar, ofstórir eður ofsmáir, á hverri tíð veraldar, sem þeir lifað hafa.

Þykja mun flestum vandhæfi nokkurt á, hvað eg muni[1] svara *maximo viro Hugoni Grotio,* sem *libr.* 1 *de veritate relig. christ.* (eptir það hann citerað hefir þá eldstu heiðnu *Scribenta: Berosum in Chaldaicis, Manethonem in Ægyptiacis, Heromum in Phoeniciis, Hæstiæum, Hecatæum,*[2] *Hellanicum in Græcis,* og ámeðal skáldanna *Hesiodum,* að allir þessir vitni mannkynsins[3] aldur næst eptir sköpunina verið hafa 1000 ár, eður þar nærri) sjálfur segir: Er það því síður ótrúanlegt, að flestra þjóða sögur bera það fram, að þá fornmanna grafir hafi verið opnaðar, sè það sannreynt, að forðum hafi líkamir mannanna miklu stærri verið, og nefnir til þessara sagna meðal Grikkjanna *Pausaniam* og *Philostratum,* og meðal Rómverja *Plinium.* Gjörði sá hávísi og hálærði Grotius vel í því, að segja oss, hverjar sögur hann meinti, og er þess fyrst að gæta, sem hann ætlar til, að ekki skuli sjálfum hönum eigna þær sagnir, um hina miklu ýkjustærð fornmanna, ef það skuli *universale,* almennt á öllum skiljast; þar næst, að nærri lætur, að[4] hann bendi því til þeirra, er fyrir flóðið lifðu; og í þriðju grein, að hann selur það ekki dýrra enn menn vilja metið hafa vitni *Pausaniæ. Philostrati* og *Plinii.* Því segi eg enn sem fyrri hèrum, að þótt stöku manneskjur á ýmsum heimsins öldum hafi geysi stórar fundist, kemur ekkert við almennum meðalmanns vexti, sem eg er um að tala. Um vöxt þeirra sem fyrir flóðið lifðu 900 ár, og þar undir eða yfir, tala eg alls ekkert; þarum trúi hverr það honum líkar; þótt eg meini vöxtur þeirra muni verið hafa mjög viðlíkt sem eptir flóðið voru sonarsynir Noah. Hitt get eg ekki kallað ótrúlegt og enn síður ómögulegt, að finnast hafa mátt nokkrum hundruðum árum eptir flóðið nokkurra[5] þeirra bein, sem í flóðinu týndust, þótt varla sýnist mèr líklegt nè trúlegt vera, að þau hafi varað ofan til þess að Grikkir[6] tóku sögur að skrifa. Hitt má ske, að *Chaldæi,* Egiptskir og *Phoenices* hafi numið af Canaanitum, er lifðu samtíða við Mósen, frásagnir einhverjar um slíka hluti, og Grikkir[7] síðan, af einhverjum þessara rínglað svo með ýmsu móti sögunum og ruglað tímanum[8] til stór muna, svosem öll sú öldin forna er hjá þeim í þoku

1) B. skuli. 2) A om: Hecatæum. 3) A. mannsins. 5) B. sem. 6) A. om: nokkurra. 7) B Grikir. 8) B tímunum.

og skröksögum, ofan allt til tíma *Thesei,* svosem flestir lærðirmenn viðurkenna, en Theseus lifði samtíða Trójumönnum, þó hann væri þá í aldurdómi, svosem vottar *Helvicus*[1] í sinni *chronologia.*

Verðt er að lofa furðulegt erfiði og ástundan *Plinii* i hans *historia naturali,* en það ætla eg flesta lærða menn undra muni trúgirni hans og skrímslislegar ýkjur, sem aðrir hafa fyrir honum logið um fjarlæga hluti. Lesi menn hans *libr.* 7. *cap.* 2; þar skulu þeir finna menn með einu auga í enni miðju; aðra með augun á herðunum; þriðju einfætta; fjórðu með skóleisti fótarins apturvendum; fimmtu með hundshöfðum; sjöttu munnlausa, sem lifa af liktinni eintómri;[2] sjöundu nasalausa, með holum í þeirra stað; ítem konur, sem 7 vetra fæði börn; aðrar, sem 5 vetra fái gètnað. Hverr trúir skrímslum þessum? [[3] Jeg vil þegjandi gánga framhjá skrímslum þeim, sem *Alexandri Magni* brèf til *Aristotelem* talar um, þó eg sjái *Munsterus Geogr. lib.* 5 *cap.* 71 hafi hartnær trúað því og þessum sögum *Plinii;* hverigu trúi eg, og ekki því, að Alexander Magnus hafi það brèf skrifa látið, og efablandinn er *Munsterus* um skrímsli þessi síðar í sama kapitula, og segir eingin rök til þess fundin, nema sögusögn hinna gömlu eintóma]. Er það vel, sem Plinius segir 1 cap lib. 7.[4] að ekki skuldbindi hann sína æru og trú við allt þetta. Nú vitum vèr að *Plinius* lifði 70 árum eptir Híngaðburðinn *sub Vespatiano,* en *Pausanias* og *Philostratus* meir enn 100 árum síðar, undir *Marco Antonio* og *Severo,* sem *Vossius* kennir *de hist. Græc. lib.* 2 *cap.* 14 og cap. 15. Hvad kunna þessir menn glöggvara hèr til að segja enn *Plinius*? Svo að ekkert þessara stendur á neinum fótum, nema sögusögn ýkjumanna, og höfum vèr þær nógar enn í dag. En[5] í flestum slíkum hlutum vantar rannsókn sannorðra og vitugra manna. Fyrir nokkrum árum (eg fæ ekki tóm til[6] að leita upp hvert árið var) sögðu oss þær dönsku „Maanedlige Relationer" að í Noregi hefðu fundist mannsbein, þess er verið hefði 9 álna lángur. Næsta mánuð eptir var sú sagan efuð. Þriðja eður fjórða mánuðinn kom hið sanna fyrir ljós, að þá reyndust sömu beinin ekki stærri enn nú eru meðalmanna. Svo mundi í fleiru fara, þegar vitugir

---

1) A Helvicius. 2) A tómri 3) B. om: [ ]. 4) B og er það vel, sem Pl. segir í 1ta kap sömu bókar. 5) B om: Enn. 6) B om: til.

menn leggja rannsókn á. Eitt er það eg get ekki *Plinio* fyrir gefið, er hann sjálfur segir Libr. 7 cap. 16: *in trimatu* [illegible] *cuiqe dimidium esse mensuram staturæ, certum est, in plenum autem cuncto mortalium generi minorem indies fieri propemodum observatur.* Það er: þrèvetur maður hverr hefir hálfnað hæð sína, það bregðst ekki, en að hæð fullvaxinna manna fari daglega mínkandi á[1] öllu mannkyninu, er næsta því sannfundið. Ef svo er, hvað veldur þá að inntil þessa dags hefir enginn getað bevísað það, þegar fyrir alvöru skyldi reyna? Eg meina hina seinni grein orða *Plinii.* [Hjálpar það í engu þessu máli, þótt vitleysa sú sè allt frá Homerí[2] tíðum til vorkomin, meir enn 960. árum fyrir Krists fæðíng, svosem *Plinius* umgetur í sama kapítula. Eru munnmæli þvílík ótal mörg, sem aldrei verða sönn gjörð, þegar gylda skal].

§ 19.

Það á enn hèr til að leggja, sem skrifar *Suetonius in Augusto cap* 43 [illegible] dverg þann, er keisarinn hafði til sýnis, að hann var minni enn 2 fet á hæð, það er alin, enn 17℔ að þýngd; það er að vog Rómverja 3 fjórðúngar vorir og 8 merkur. Yfir þessa grein Suetonii hefir sá víðfrægi Isaak Casaubon skrifað, að venjulegur vöxtur þeirrar aldar hafi verið 6 fet, meðalmanns hæð, það eru 3 álnir vorar, eður þar allnærri, enn þúngi meðalmanns í þá daga 100℔ rómversk, það eru 15 fjórðúngar vorir. Hvað er nú tíðara meðalmönnum vorum enn 3ja álna hæð og 15 fjórðúnga þúngi? Og svo fávísir menn eigi skuli þeinkja, Casaubon dikti þetta af[3] eigin þótta sínum, eður getgátum, þá citerar hann til þess *Varronem, Aulum Gellium og Solinum,* þar sem hann *commenterar* yfir orð *Suetonii* um vöxt *Tiberii* keisara cap 68. Sjálfur vottar það *Suetonius in Nerone cap.* 19, að hann hafi látið útskrifa eina *legion;* það voru 4000 eður 5000 manns, sem hverr væri 6 fóta hár að vexti; og er þá enn hinn mikli Casaubon líkur sjálfs síns áður skrifuðum orðum, er hann skrifar yfir þessa grein og *citerar Vegetium lib* 1 *cap.* 5, að 6 feta hæð, eður 5 fóta og 10 tólftúnga hins sjötta fets, sè meðalmannshæðin almennust. En um þúnga mannsins tekur hann bevísíng af *Plauti Asinaria Act.* 2 *Sc.* 2 *v.* 35. Þar segir með fullum orðum þúnga nak-

1) B om: á. 2) B om: [ ]. 3) B að.

ins manns 100 ℔ rómversk. Ef að nú þá á þeirri öld í tíð *Varronis* og *Plauti* nærri 100 árum fyrir Krists fæðíng voru menn ekki þýngri enn svo, hvernig gátu þeir þá verið svo geysi stórir, sem margir og jafnvel lærðir menn vilja meina? Þvíað skuli vöxturinn hafa verið svo geysilegur fram[1] yfir þessarar aldar manna vöxt, þá hlaut og þúnginn[2] að fylgja; og þarmeð er svarað þeirri *objection*, sem segja vill, að fet þeirra hafi verið miklu stærri enn vor, svo sem bæði móðurfaðir minn Síra Arngrímur, *Chrymogæa lib.* 1 *cap.* 4 *pag* 36—37, og Síra Pètur Clausson í Noregs Beskrivelse kap. 20 pag. 92 hafa meint. Er það af rótföstum þaunkum, sem þeir í barnæsku inndrukkið hafa, og síðan eigi rannsakað, á hverjum fótum stæði, og þarfyrir utan af engum grundvelli. Eða hversu máttu hèr norður í heimi vera slíkar ýkjaskepnur svo seint á tímum, meir enn 1200 ára síðar, enn í betstu löndum heimsins voru menn eigi þýngri enn svo sem áður er sagt og með rökum er bevísað.

## § 20.

Þó mèr enn verði svarað, að hinns helga Ólafs líkneski í Niðarósi, sem lögmaðurinn Jón Sigmundarson, sannorður og vitugur maður, hafði[3] sjeð og greinilega frásagt Síra Pètri Claussyni, hafi verið stærra enn meðalmanna nú á dögum, þar þó sagan skýrir, að Ólafur konúngur Haraldson var lágur á vöxt líkamans í sinni tíð, þá er gott hèr til að svara, að byskuparnir og múnkarnir í Niðarósi vissu vel skyn á, hvað rótfastar innbirlingar almúgans og annara, þótt meira ættu að kunna, voru sterkar meðal flestra, og því hafa þeir svo, hvað eptir annað, þegar um þurfti að skipta, útvegað þann líkama, sem helst mundi sambjóða átrúnaðinum aldarinnar. Þarmeð er og þess hèrvið að gæta, að sá, sem flatur liggur, einsog framliðinn maður, sýnist lengri enn þá, er hann stendur upprèttur, og því ætla líkkistnasmiðir fyrir krossleggíng fótanna hálfa alin framyfir hæð mannsins. Það er hið þriðja, að Jón Sigmundarson var þá úngmenni, er hann sá þann líkama, er múnkarnir kölluðu Ólafs helga, og hefir það tvennt mátt tilbera, að honum sýndist líkið svo stórvaxið, bæði að hann hefir haft á því helgidóms virðíngu, þarmeð að úngmennum sýnast þeir gömlu

---

1) A om: fram. 2) B þýngðin. 3) B hefði.

jafnan[1] stórvaxnari enn þeir eru, og á þeim sínum[2] barnæsku tímum hefir Jón verið í sömu meiníngu sem alþýðan, þótt hann síðan tæki siðaskiptin og yrði vitugur maður.

§ 21.

Og af því sem nú sagða eg, að úngmennum — eg meina börn fyrir innan 12 og 10 vetur — sýnist þeir gömlu stórvaxnari enn þeir eru, koma þær grundvallarlausu sagnir margs gamalmennis á vorum dögum, er þeir vilja innbirla oss að feður sínir og þeirra jafnaldrar, hafi miklu stærri verið enn nú eru meðalmenn, og verið þó meðalmenn á sínum aldursblóma, sem eptirá getið verður [commate 31].[3] Orsökin þessara ráungu sagna gamla fólksins er hjá fleirum eigi lýgigirni, heldur hitt, að þeir hafa þá meiníng inndrukkið með móðurmjólkinni, og heyrt hana mótmælalausa síðan fyrst þeir muna til; og það annað, að alla þá stund, sem þessir voru smábörn, urðu þeir að horfa upp fyrir sig á þá fullvöxnu, og þótti því ærinn vöxtur þeirra, þótt hann ekkert væri framyfir vora meðalmenn. Eg bið að heilvita menn og gætnir leiti vitnis í sinn eiginn barm, hvert þeir eigi finni þar sannindi þessarar sögu minnar. Furða skal mig, ef það bregðst hjá vitugum mönnum, sem vilja láta skynsemina við síg ráða; en að kappgirni þrálátra manna og heimskíngja gef eg engan gaum.

§ 22.[4]

Það vottar Sturlúnga saga lib. 8 cap. 4. þegar Þorgils Skarði gjörðist handgeinginn Hákoni kóngi, gaf kóngur honum laufgrænt klæði 14 álna lángt; það skil eg verið hafi tilætlað Þorgils í alklæðnað. Nú gjöri eg þær 14 álnir þeirrar aldar 12 Hamborgar álnir vorrar tíðar; gánga þar af 6 í skikkju Þorgils, en aðrar 6 í kyrtil og buxur og fær svo Þorgils enga treiuna, þótt hann sè engu stærri enn meðalmaður hverr á vorum dögum. Þótt mèr verði svarað að álnirnar skuli 14 verið hafa, og jafnlángar vorri þessa dags alin, en kyrtill Þorgils hafi verið stuttur og skuli svo verða nóg efnið í skikkju, kyrtil, brækur og treíu, þá svara eg, að á dögum Sverris kóngs voru tíðkaðir lángir kyrtlar; því sagði hann, þá er hann barðist á skipum í Þrándheimi við þann mikla borðamun Baglanna fyrir Þórsbjörgum kap. 143: „Eigi eru Birkibeinar sem fyrr voru;

---

1) B gjarnan. 2) A sömu. 3) B. om: [ ]. 4) hèr byrjar B. § 21.

eigi lögðu þeir þannig að sem þèr leggit, með dragkyrtlana; þeir höfðu kyrtla styttri og snæfrari en hjörtu betri". Síður var og kyrtill Arnórs Hjörleifsonar í Grímsey, því hann[1] drap upp blöðunum, þá er hann barðist í fjörunni, segir í Sturl. s. lib. 4. cap. 31. Enn seigir Orkneyínga saga: Sigurður Murtur var í rauðum skarlatskyrtli og drap blöðunum undir belti sèr. Sumir mæltu, at svo mundi hann og gjöra í bakit.[2] Hann bað ei uppdrepa, því ei mun ec öfugur atgánga í dag.[3] Nú þótt þetta sèu líkindi nokkur til þess, að í tíð Hákonar kóngs muni kyrtlar lángir verið hafa, þá mun það ei þykja bevísað hèrmeð og má eg gjarnan láta þá hafa stutta verið; þá skal þó Þorgils hafa í kápu sína fullar 6 álnir af klæðinu sem fyrr er sagt, en í kyrtil stuttan og háar brækur — því þær heyra endilega til stuttu kyrtlunum[4] — og treiuna nægja honum þó aldrei minna enn fullar 8 álnir vorra tíma, þó engan vöxt hafi hann yfir meðalmenn þessarar aldar. Og ef hann var ekki stærri enn svo sem nú var mælt,[5] þá var hann ekki hálfrar fjórðu álnar sem nú tíðkast, heldur 3ja alleina,[6] sem nú eru flestir; og er það nóg til að sýna, þá hafi álinin verið sjöunda hlut styttri enn hún er nú brúkuð. Það er og eigi víst kóngur hafi í þann tíð látið gefa hirðinni meira enn kápu, kyrtil og brækur, svo sem enn í dag gefa kóngar og *potentatar* sínum *militi*, en eigi vestið með, sem komið er í staðinn treiunnar.

## § 23.

Orðatiltæki það, sem Sturl. s. segir libr. 8 cap. 16, sýnir og það, að furðu smávaxnir hafa sumir menn verið jafnvel á þeim öldum svosem nú. Þar stendur: kom maður í kirkjuna (á Hólum í Hjaltadal) alsnjóugur. Hann var lágur og kollóttur,[7] þó gekk hann heldurenn valt. Þetta er Loðinn Sigurðarson, frændi minn, segir Þorgils (Skarði). Verður því ekki neitað, að allfáir munu þeir nú finnast, er svo mætti að kveða, og helst þá menn athuga, hvað alvarlegan og skrimtlausan stíl öll Sturlúnga færir.

## § 24.

Mèr sýnist það og ekki marklaust, að hvar sem Grettir Ásmundarson kom á mannfundi, þá var hann eigi fyrir vaxt-

1) A eg. Hann. 2) B á. 3) B byrjar hèr § 22. 4) B kyrtlanna. 5) B almennt. 6) B að eins. 7) B sköllóttur.

ar sakir auðkenndur frá öðrum stórvöxnum mönnum sinnar tíðar. Svo var, þegar hann var hjá Einari bónda á Jaðrinum í Noregi, þar sem hann felldi Snækoll berserk, kap. 42. Svo var, þegar hann fór til Þóroddstaða að vega Þorbjörn Öxnamegn,[1] að konur kenndu hann eigi kap. 50, og ei heldur Þorbjörn, er[2] hann sá manninn að koma, fyrr enn Grettir hafði setst niður og Þorbjörn hugsaði sig um, í sama kap. Svo var, þegar hann mætti mannflokki Þóris í Garði norður á fjöllunum vestan Jökulsá í Öxarfyrði, kap. 61. Aptur í sama kapítula fór hann svo norðan öndverðan vetur, að hann kenndist eigi. Svo var, þegar hann bar hússfreyuna frá Sandhaugum og dóttur hennar yfir ána til jólatíðanna, kap. 62. Svo var, þegar hann kom seinast til leiksins á Hegraness þing, kap. 66. Afl hanns var það, er menn furðaði, en ekki vöxtur. Mèr mun sagt verða, að þá voru meðalmenn geysi stórir og það miklu yfir þá sem nú eru. Eg svara: það er ekki bevísað, og er sjálft *dísputatiu* efnið.

§ 25.

En ef þessi *observatio* um Grettir þènar ei til annars, þá sýnir hún þó, að aflið fari ekki eptir vextinum; að þótt sönn mættu vera stórvirki þau ýmisleg er sögurnar eigna fornmönnum, þá fylgir það eigi strax eptir, að þarfyrir hafi vöxtur þeirra samboðið slíkri furðu, sem oss þykir[3] á þrekvirkjum þeirra, og má að vísu þykja, ef sönn væru. Sjest það eigi af sögunum, að Ormur Stórólfson nè Þórólfur frændi hans hafi stærri verið enn aðrir menn, þótt afl þeirra væri meira, enn trúlegt mætti sýnast; og víst tel eg[4] að allmargar og flestar slíkar frásagnir sèu nokkuð ýkjum blandnar svo vel hèr[5] sem í öðrum löndum. [[6] Þó er ekki að synja hverjar undranir í náttúrunni finnast, og allt svo gömul sem hún er, þver þó hvergi kraptur þess almáttuga, sem hana gjörði. Eru kunnar og á prent útgeingnar sögurnar af þeim furðusterka manni Johan Carl von Ekkenberg, sem var í Kaupmannahöfn anno 1702, og sýndi þar með ýmsu móti sitt forundrunarverða afl, sem sögurnar votta; samt hafa þeir, er hann sáu, sagt mèr fyrir sann, að líkamsvöxtur þessa manns hafi verið svosem meðalmanna þeirra, er þreklegir eru, og geldur þetta samkvæði því, er nú

1) B megin. 2) A þá, 3) A tilfèllu. 4) B meira. Ennfr. m. s., og v. 5) A om: hèr. 6) B om: [ ].

hef eg sagt, að aflsmunirnir fylgja ekki jafnan vextinum, og er gamall orðskviður sá, að margur er knár þó hann sè smár].

§ 26.

Vita menn þær ýkjur,[1] er í Karlamagnúss sögu standa af ýmsum köppum hans og eigi minnst af Oddgeiri Danska. En þegar hið sanna kom[2] fyrir dag um sverð hans, er Thomas Bartholin *Antiquit Daniæ lib.* 2. *cap.* 13. *pag.* 579 eptir *Johanne Mabillonio* segir enn skuli sýnt í klaustri því, er Oddgeir liggur grafinn, og sè það að leingð upp að hjöltunum 3 fet og 1 þumlúngur, en hjöltin með meðalkaflanum og knappinum aptaná hjaltinu alls 7 þuml.; upp við hjöltin sè sverðið 3ja þuml. breiðt, en hálfs annars þuml. á oddinum, og vigt eður þúngi sverðsins alls, sè hálf ellefta mörk — hvörnig má þá þetta sambjóða þeim ýkjum, sem kunnar eru um afl Oddgeirs? Eg ætla þeir finnist enn einhverjir, er svo þúngt sverð væri vopnbært. En það vitum vèr, að Oddgeir danski var dauður áður enn Ísland byggðist.

§ 27.

Til eru á báðum byskupsstólunum, frá gamalli tíð, byskupsmítur þeirra pápisku byskupa, sem enginn veit hvað gömul eru, og þó svo mörg, að eigi munu þau öll átt nè brúkað hafa þeir seinustu pápisku byskupar. Eru hver[3] öðru lík að stærðinni og ekkert af þeim stærra enn svo, að vel er til hæfis meðalmönnum vorra tíða. Sum eru þraung þeim, sem hármiklir eru eður höfuðstórir, og er það full bevisíng, að eigi hafi rírnað vöxtur höfuðsins á mönnum síðan þau voru gjörð. Því má eg þá eigi þaraf *argumentera* á saman[4] hátt, sem *Gellius libr* 1. *Noctium atticarum cap.* 1 skrifar eptir *Plutarcho*, að spekíngurinn *Pythagoras* hafi dæmt um vöxt *Herculis* af feti hans, og segja sem satt er, að hafi vöxturinn á höfði mannsins ekki þurðað síðan, þá hafi honum ekki aptur farið á öðrum limum líkamans, allt frá þeirra byskupa tíðum, sem þau voru til hæfis.

§ 28.

Til eru á Grund í Eyafirði sverð þau tvö, er menn hverr eptir öðrum segja verið hafa þar síðan bardagan 1361 eður

---

1) B ýkjasaguir. 2) B kemur. 3) B hvert. 4) B sama.

1362, er þeir voru felldir, Smiður og Jón Skráveifa; vegur annað þeirra 14½ mörk, og hefir sýslumaðurinn Mons. Brynjólfur Thorlacius gefið mèr af[1] því skýrlega undirrèttíng, svo látandi orð fyrir orð: „Grundar sverðið, sem heima liggur, „mælist:[2] blaðið á leingð 1 al. 3 kvartil 3 þuml. Íslands alin „undir hjöltin. Þar strax við blaðið á breidd 2½ þuml., um „miðjuna 2 þuml., en fremst við oddinn 1 þuml. Fyrir ofan „blaðið, Bøilen eður handverjan, *ex parte circuli lineal* milli „sporðanna 2 kvartil 1 þuml.; ummáls íkríng að utan eptir bugð„unni 2 kvartil 3½ þuml. Handfángið yfir falnum er af trè innan í og hrútshorn utanum, að leingð ½ alin ⅔[3] þuml. upp„undir knappinn. Hann er af járni áttkantaður, á leingð hálft „kvartil; ummáls yfir miðjuna þar sem hann er gildastur 6½ þuml. „Í sverðinu er blaðið almennileg bakkaþykkt á brúkanlegum „ljá i þessum sveitum, en er þunnt til beggja eggjanna. „Það er flatt og randarlaust um miðjuna, höggvið í báðar „eggjar mörgum skorum allt uppá ½ af Klingen, síðan ekkert „skor; það vegur 14½ mörk". Hverjum sýnist[4] þetta sú undrun eður furða, að eigi mundu þeir menn fást á vorum dögum er vega kynnu með slíku sverði, ef ekki til leingðar með annari hendi, þá[5] með tveim höndum, þegar á skyldi reyna? En hitt er oss kunnugt, að höggorustur fornaldar stóðu sjaldan lengi; einn klukkutími eður hálf eikt þótti laung höggorusta; en hverr veit dæmi til, að hún hafi varað[6] eiktartíma? Lesi menn Sturlúnga-sögu; hún skal kenna það, að eptir skotvopnaburð og lagvopna var höggorustan skömm alloptast. Skoði menn Snorra Sturluson; hann grípur yfir lángar aldir og geldur þó Sturlúnga-sögu samkvæði um þennan markverða póst. Saga Sverris kóngs og Hákonar kóngs Gamla vitna hið sama, þá með athygli er skoðað.

## § 29.

Nú kemur hèr til sverð það, er anno 1718 fannst í ánni Bugðu í Kjós. Þess *descriptio*, svo sem hr. vicelögmaður Niels Kier hefir mèr gefið, hljóðar orð fyrir orð sem fylgir:[7] „Det gamle og rustede Sverd, som jeg underskreffne kom i Lovrètten med og der lyste næstafvigte Aar 1718, er i Længden [Breeden og Vægten

1) B á. 2) B mældist. 3) B þrírfjórðu. 4) B þykir. 5) A bætir við: vel. 6) B verið. 7) B eptirfylgir.

som efter følger: i Længden[1] ] $1\frac{1}{2}$ al. $2\frac{1}{2}$ Tomme dansk Alen. I Breeden oventil $1\frac{3}{4}$ Tomme, i Odden $\frac{1}{2}$ Tomme; dette er Bladdet i sig selv. Fæstet i sig selv til Knappen $11\frac{1}{2}$ Tomme. Knappen oventil 2 Tommer lang; i Circumference omkring $5\frac{1}{2}$ Tomme; in Alles 2 Al. $3\frac{3}{4}$ Tomme lang, veier endnu $3\frac{1}{2}$ Ꝑ.[2] At dette saa udi Sandhed er, testerer underskreffne.

Ness den 16de Febr. 1716. M. Kjer mpp.

þetta sverð hef eg haft í höndunum,[3] þegar því var lýst í lögrèttu, og fannst mèr sem það mundi vopnbært hverjum meðalmanni vorra tíða. Mèr verður sagt, að ekki sè víst hvað gamalt þetta sverð kunni að vera; það er satt! Þó er hitt víst að yfir 100 ára mun það vera, og skyldi þá sannlega örvesi veraldarinnar sýna merki þess, að um svo lángan tíma hefði vöxtur og afl manna merkilega til þurðar geingið, ef sönn væri *thesis* minna mótmælenda [vide supra comm. 3.[4] Í selskap við þessi mín Argument, sem af sverðum eru dregin, leiði eg það, sem Sturlúnga kennir lib. 4 cap 26, að Björn Þorvaldsson bróðir Gissurar (eptirá jarls) var veiginn á Breiðabólstað í Fljótshlið anno 1220 með spjóti því, er Grásíða var kallað, og átt hafði Gísli Súrsson, en hann dó í heiðni nokkru fyrir árið 1000, og sjá menn þar, að eptir meir enn 220 ár, er með sama vopni veigið í bardaga; hefir því allnærri farið um afl Gunnlögs, er Björn vo, og mikla kappans Gísla Súrssonar, og hvar er þá rírnun vaxtarins á þessum frekum 220 árum?].

## § 30.

Um silfurskjöldinn þann er Livius lib. 25 cap. 39 að veigið[4] hafi *pondo centum triginta octo cum imagine Barcini Asdrubalis*, svara eg, að hann hafi gjörður verið að *ostentutionem*, það er til sýnis alleina og undrunar eptirkomendanna, en ekki til að vega með, nè bera í orustum, alltaðeinu og *Curtius* segir af vexti sænganna, er Alexander hinn mikli hafi látið marka við fljótið Gangen, miklu stærri enn vexti manna væri til hæfis. [[5] *Verba Curtii sunt: Munimenta quoque castrorum jussit extendi* (ɔ: Alexander), *cubiliaque amplioris formæ quam pro corporum habitu relinqui, ut speciem omnium augeret, posteritati fallax miraculum præparans libr.* 9. *cap.* 3]. Og meina eg hèrmeð þessu svarað ánægilega, Öll gef[6] eg hin sömu

---

1) A om: [ ]. 2) B 3 einnfjórði. 3) A höndum. 4) B. om: [ ]. 5) A 30 verið. 6) B om: [ ]. 7) A hefi.

svör nm ýkja-líkneskið á Hofi í Vopnafyrði, sem menn segja vera skuli Þorkels Geitissonar, og svo hátt, að mons.[1] Björn Pèturson, Sýslumaður þar í hèraði nú í dag, megi gánga undir hönd þess á stígvèlum með hatt á höfði. Er mons.[2] Björn einn af stórvöxnustu mönnum þessara tíma. Og skuli þetta satt af hæð líkneskisins, þá er það án alls efa smíðað einsog sængurnar *Alexandri* eptir hugarstærð manna, en ei eptir líkamans vexti, til að pretta *posteritatem.* Eg vil þegja um vitleysi þeirrar *traditionis,* að Þorkell hafi á sinni tíð þótt svo lítill vexti, að þarfyrir hafi hann ei mátt lögmaður verda. Óvitar þeir, er slíkt hafa diktað, hafa ekki minnst, að Davíð kóngur[3] var lágur á vöxt, svo Alexander Mikli, svo Agesilaus, svo Fabius Maximus, svo Augustus keisari, svo Sverrir kóngur, svo Ólafur helgi. [Nóta: þá sem dikta slíkt í vil við *defensores adversæ theseos, cogita* Hávarð í Krukksspá[4] ].

§ 31

Til er hríngabrinja Bjarnar Guðnasonar, sem bjó í Ögri. Hann var á sínum betsta blómaaldri ár 1500 og þar fyrir og eptir. Er sú brinja þeim einum, sem eru af smávaxnari meðalmönnum vorum, til hæfis, en stórmönnum bæði stutt og þraung; og sýnir það að ei hafi vöxturinn rírnað í þessi næstu frek 200 ár. Er þó hvergi þess[5] getið, að Björn Guðnason hafi verið neitt afmenni til vaxtar á sínum dögum; það er ljóst, að í vitsmunum og mannvirðingu var hann nær mikilmenni, og hvergi með lítilmönnum talin. Til er og stálhúfa Bjarnar, engum ofstór meðalmönnum[6] vorra tíma. Hjálm á eg einn, sem að er 170 ára gamall að vísu, ef ei eldri, og er hann engum ofstór meðalmanni; mættu það undur vera að í þessi 200 ár hefir vextinum mannkynsins ekkert aptur farið, ef áður[7] á næstu seculis hefir honum svo hnignað, sem áður er sagt um Harald kóng og Klaufa [Comm. 3.] En af þessum þreifanlegum vottum 200 ára gömlum, og þar lítið yfir eður undir, megum vèr sjá vitlausar ýkjur gamalmennis þess, er við oss talar daglega, og segir oss, að í sinni barnæsku hafi gömlu mennirnir verið miklu stærri enn nú. Þessir muna til í 70 eða 80[8] ár, og allra sanninda röksemðir vitna, að um 150 ár fyrir þessara ýkjumanna minni, hefir vöxturinn ekkert

1) A om: Mons. 2) A om: Mons. 3) A om: kóngur. 4) B om: [ ].
5) A om: þess. 6) B manni. 7) A að. 8) B 50.

rírnað, og engin merki sýna þeir á[1] dauðum hlutum, að stórvöxturinn feðra þeirra hafi neitt borið af vorum meðalmönnum. Líkneski Margretar drottníngar Valdimarsdóttur liggur úthöggvið í Hróarskeldu. Hafi hún ekki stórvaxnari verið, sem trúanlegt er, þá hefir hún haft ekki stórra meðalkvenna vöxt, þeirra sem nú eru, og eru nú frá hennar andláti meir enn 300 ár. [[2] Híngað heyrir það, sem kansellíráð Weilant í hans: „Lærde Sager" hefir þrykkja látið 1724, af 17 Febr. N<u>o</u> 7 pag. 109 og 110, að einn fríherra von Berger hafi útgefið eitt skrif *sub titulo*: *Commentatio de Personis. vulgo Larvis seu Machinis*, um þær andlitsmindir, sem manngjörðar eru, til að setja yfir höfuð þeim, er leika cómediur fyrir stórherrum og hoffólki. Þar seigir Weilant: „Udi det andet Capitel bliver af en vatikanisk Codex af Terentio. som er over 1000 Aar gammel, ei alene paa 7 Kaa„berplader viist alle de Larver eller Skadeckener, som de Gamle toge „over deres Hovveder, men endog alle Terentii Comedianter paa 117 Blade „i Kaaber forestillede; og ihvorvel de meget ligne i deres Posituren de „nuomstunder levende italianiske Comedianter, saa kand mand dog ey „sætte Tvisl til deres Ælde". Ef að nú þessi meir enn 1000 ára gömul mannshöfða og mannsandlita líkneski eru enn í dag til hæfis meðalmönnum, þeim er leika cómedíur á Ítalía í gær og í dag, þá get eg ekki skilið, hvörnin þeirra svo gamalla manngjörðu mannsandlita og mynda vitni verði hrundið frá því, að í þau meiri enn 1000 ár, hafi líkams vöxtur manneskjanna verið allur hinn sami, sem nú sjáum vèr daglega. Til er ennú gullhríngur, sem uppkom úr gröfinni í Hóla dómkirkju anno 1720, og flestir hyggja verið hafi Bjarnar byskups, sem var sá þriðji Hólabyskup, og deyði anno 1162. Hef eg þennan hríng í höndum haft, og þá eg lèt hann á miðfíngur minnar vinstri handar, veitti mèr treglega að ná honum fram af fíngrinum, svo eg vildi ekki optar á það hætta. Lærleggur, sem kom upp úr sömu gröf var á meðalmanna vöxt vorrar aldar. Nú kynni hèr til svarað verða, það ei sè víst hann hafi svo gamall verið. Eg svara til þess, að svo er hann gamall, að enginn getur minni til hans rakið, ef ei má hann vera þess fyrrnefnda Bjarnar byskups, og í papiskri tíð hefir hann gjörr verið, þvíað yfirskript hríngsins ákallar Maríu til hjálpar (Hilff Gott und María máín), svo allt er hann yfir 170 ára gamall. Til er

1) A add þeim. 2) B om: [].

laugin í Reykholti með bekkjum fornaldarmanna, og vindauga því, er útrás vatnsins af lauginni skamtar. Er allt þetta meðalmönnum vorrar aldar svo hæfilegt, sem það hefði fyrir þá gjört verið. Eg vil ekki tala um munnmæli þau, sem sýna einn stein í gólfi laugarinnar, er verið skyldi hafa Guðmundi byskupi til hæfis á að sitja, svo hann hakaði þá vatnið undireins og það náði útrennslinu af því til gjörða vindauga. Eru þeir enn í dag margir menn, er sitjandi á sama steininum haka vatnið svovel sem Guðmundur byskup, og eru nú 487 ár frá hans andláti. Til eru beinin í Þorláks skríni í skálholti, þau er menn eigna Þorláki byskupi, sem menn hafa kallað helgan; skoðaði eg þau margopt, þegar eg var í Skálholti, og báru þau engan vöxt af meðalmönnum vorra daga; eru nú 530 ár síðan þessi Þorlákur byskup deyði.

§ 32.

Anno 1723 eða 1724 var opnað leiði Þórðar Hræðu, sem mann frá manni eptir ómótmæltri frásögn hefir alkunnugt verið. Þar fannst umbúníngur slíkur, sem í heiðnum sið var tíðkað: kol undir líkinu, steinar skikkanlega hlaðnir allt í kríng, hella yfir, og grjót síðan vel fellt ofaná helluna. Engar funnd ust þar leifar líkamans, nema eitt herðarblað og brot af einu mannsrifi. Þau bein er mèr sagt að enn sèu til sýnis varðveitt í eskju, sem geymð sè í kirkju á Miklabæ í Óslandshlíð. Vöxtur þessa legstaðar að sögn þeirra, sem upp grófu, aldeilis að vorrar aldar meðalmanns líkamaleingð og þykkt, innan þeirra takmarka, sem steinarnir afgyrðtu kríngum kolin, og vöxtur beinanna rètt að hófi meðalmanna vorra tíða, en kunnugt er, að Þórður dó í heiðni].

§ 33.[1]

Geta verð eg þess, er Laxdæla saga talar um frábæra atgjörvi Ólafs Pá í bernsku hans,[2] að þá sveinninn var tvævetur, var hann almæltur og rann einsamann sem fjögravetragömul börn. Að hann hafi svo snemma altalaður verið, er að vísu frábært, en að hann tvævetur hafi geingið áfram, er engin furða. Það þykir nú í dag góður meðalþroski á döfnunarbörnum, að þau gángi sjálf á afmæli sínu, það er á jafnleingð frá fæðíngu þeirra, en afstyrmi eru þau, sem eigi gánga

1) hèr byrjar § 32 eptir B. 2) A barnæsku sinni.

tvævetur fullum fetum sins vaxtar. Hvar er þá atgjörvi Ólafs Pá yfir meðalbörn vorrar tíðar, nema ef svo á að skilja, að hann tvævetur hafi hlaupið svo hart sem önnur börn fjögravetra? Og sýnir þetta með öllu skýrlega, að allt barna atgjörvi á þeim tímum var jafnt sem nú, og hvergi fremur. Því er það Ólafi Pá til stórkosta talið, er þó sjáum vèr enn í dag á börnum þeim, er nokkurt afbrygði hafa yfir meðalbörn vorrar aldar? Hvergi hefir þa þeim vexti mannanna til hnignunar geingið i þessi frek 700 ár.

§ 34.[1]

Það, sem í Egils sögu Skallagrímssonar segir, að hann hafi þrèvetur riðið frá Borg útyfir Mýrar allt að Álptanesi, eru vitlausar ýkjur; þvíað *posito, quod negamus*, að kraptar[2] líkamans hefðu dugað þrèvetru barni til þess, þá er hitt víst, að vitsmunir þess aldurs hefðu ekki verið til að forðast ófærur þær og foröð,[3] sem á þeirri leið eru margföld, yfir einstígisbrýr, um dýki og[4] aurbleytukýla, sem heilvita menn þurfa með gætni að ríða. En það er efalaust, að skynsemi mannkynsins þurðar hvergi, og ekki veit eg þá, er það vilji segja. En villan er í fyrstu tilkomin af vangá þess, er skrifað hefir eptir membrana einhverri gamalli, og lesið 3 (III) þar, sem hann átti að lesa 6 (VI) [eður 9 (IX)[5] ], því leggirnir voru[6] jafnmargir að ofan. Síðan hefir einhverr ýkjutrúar maðurinn, til að styrkja þá vitleysu, diktað vísurnar, sem Egill skyldi í veitslunni kveðið hafa, og ekki að gáð, að þá hið fyrsta kollsteipti hann til fulls áratölunni, er hann eignaði þrèvetru barni það, sem af 9 vetra væri lítt eður ekki væntandi fyrir vanvitsku sakir þess aldurs; og hefir enginn meiri vitleysu diktað í slíkum efnum, enn eigna þrèvetru barni kvæðagjörð þá er standast mætti, auk heldur betri; hafa og þær vísur engan únggæðis smekk. Sú fyrri er þessi:

Kominn em ek til arna  
Yngvars er beð língva  
Hann var ek fús at finna  
fran þveingjar gefur drengjum  
mun eigi þú þægir  
þrèvetran mèr betra  
ljós undinna landa  
linns óðar smið finna.

Samanlesníngin:[6] *) kominn em ek til Yngvars, er ærna beð

---

1) B § 33. 2) B kraptur hefði. 3) B foræði. 4) A om: og. 5) [ ] vantar í B. 6) B eru. 7) vantar í B.

*) In Ed. Havn 1809. carmen ita ordinatur & vertitur:

fran língva gefur þvengjar drengjum; þ. e. ærinn, eður ærið mikinn beð glansandi orms (þvíað styrnir á húð ormanna) ɔ: gulls; gefur drengjum þvengjuðum, þ. e. gyrðtum með ólar-gehengi. Hann var ek fús at finna (er parenthesis skáldunum alltíð): Þú þægir ɔ: frá þèr ýtandi og stjakandi. Ljós undinna (fegurð vafinna) linns (orms) landa gullsins munt eigi finna þrèvetran óðarsmið betra mèr. Það heitir í daglegu máli að þægja öðrum, að þoka honum með óhugnan og víkja frá sèr, og þekkja allir *compositum* þaðan, að „mótþægja". Því kallar skáldið Yngvar þægir orms landa. Sá sem nú vill trúa, að þrèvett barn hafi[1] þessa vísu kveðið, hann tel eg þrèvetran í trúgirninni. Seinni vísan er í mínu exemplari svo böguð,[2] að eg get hana ekki ráðið. Þarí móti er vísan, sem honum 7 vetra gömlum er eignuð, lík þeim aldri og úngmenna skáldskap, og læt eg mèr trúlegt þykja, að hana hafi Egill kveðið:

Þat mælti mín móðir
at mèr fá skyldi
fley ok fagrar árar
fara brott með víkíngum;
standa upp í stafni
stýra dýrum kneri,
halda svo til hafnar
höggva mann ok annann.

Við þessa fyrrsagða mislesníng kálfskinnsbókanna gömlu, og þaraf sprottna vitleysu um aldur Egils, er það samkynja, sem stendur í sögunni af Droplaugar sonum kap. 19; Sveinúngur geingur þá til rúms síns og[3] tekur ofan sax eitt mikið, það var 9 álna hátt, það festir[4] hann á sig, síðan geingur hann til fjóss[5] og lýkur upp. Þetta 9 (IX) álna[6] er án alls efa *corruptum* úr 3 (III) álna, því leggirnir í IX og III eru eins margir að ofanverðu,[7] en vinstri handar niðurgángandi bugur af X, er membranæ hafa mjög ýmislegan, hefur viðaukist af missýni *exscriptoris* af[8] dimmu pergamenti, eður kannske að línan næst fyrir neðan hafi haft hèr einhverja *virgulam* yfir einhverju af sínum mörgu Ium. Þær *virgulas* jörðu þeir tíð-

---

Eg er enn kominn til arna *) Yngvars, þess er beð **) fran þveingjar lingva gefur drengjum, hann var eg fús að finna. Þú þægir †) ljós unðinna landa linns mun eigi finna mèr betra óðarsmið þrèvetran,

*) focos. **) pulvinum micantis serpentis. †) qui exerces luculentum & tortuosum solum serpentis.

1) A skylði hafa. 2) B corrupte bjöguð. 3) Og, vantar í A. 4) B festi 5) A fjós. 6) álna vantar í B. 7) vantar í B. 8) B á.

ast með skakkstryki á þennan hátt (í), þar sem nú setjum vèr púnkt (.) yfir vorum í um. Hefir þessa[1] skrifarans glámsýni stirkt ýkjutrúin athugalaus, að það var óbærilega óþènanlegt vopn að festa upp á nokkurn mann, sem væri 9 álna, og því kallar sagan það mikið, er var 3ja álna. Hugleiði menn og, að Sveinúngur geingur með þessu saxi girðtur inní fjós sitt, og allt inn í hlöðuna, þá veit eg enginn er svo vanvitugur, að hann ekki sjái, það innan húsa var Sveinúngi ómögulegt, að vega með saxi 9 álna laungu, þótt hann hefði við annan átt enn Helga Droplaugarson, mesta kappa og hreystimann, jafnvel þó vèr látum alin þeirra tíma vera sem eg segi, sjöunda hlut styttri enn nú er vor alin; því samt væri þó saxið full hálf áttunda alin vorra tíma og sex sjöundu hlutir þess þriðja kvartils, þeirrar áttundu álnar, sem nú er tíðkuð,[2] og er þá eins ómögulegt með svo laungu saxi að vega innan húsa, og einna mest í fjósi, eður hlöðum meðal heykumla.

§ 35.[3]

Því getum vèr ekki neitað, að í frá Davíðs tímum inn til vorra daga hefir aldur mannsins ekki þurðað. Hann segir, Sálm. 90. v. 10: vort líf er 70 ár, og þegar það kemur hátt, er það 80 ár. Daglega sjáum vèr þetta og sönnum á vorrar aldar mönnum. Eins verða þeir gamlir nú og þá. Hvar með gjörist hitt þá satt, að vöxtur líkamans á mannkyninu hafi til rírðar farið? Eg vil eigi spyrja: hvert svo mjög sem alþýða meinar, því það er þreifanlegur hègómi. [[4] Eg vil leiða hjá mèr að innfæra hèr, hvað eg hefi heyrt eður lesið nokkra *theologos* vilja *disputera* um næst áður skrifuð Davíðs orð; þeir ágætu menn eru ekki jafnan aflátssamir, þótt þeim sèu rök sýnd á móti meiníngum þeim, er þeir hafa tekið fyrir sig að forsvara. Hitt er ljóst, að þó þeir kunni nokkur dæmi að leiða til þess, að stöku menn hafi á Davíðs tíðum orðið meir enn áttræðir, þá niðurbrýtur það í engu mína *illation* af Davíðs orðum, og skil eg þau einsog þau hljóða króklaust og yfirskotalaust í alla staði; finnast og á vorum dögum dæmi til þess, að stöku menn hafa lifað lengur enn 80 ár, bæði hèr á landi og í öðrum löndum. Sá nafnkunni sýslumaður, Ormur í Eyum í Kjós, andaðist á sínu 99da aldurs ári. Sá nafnkunni lögrèttumaður

1) B þessi. 2) B tíðkan. 3) B § 34. 4) [ ] vantar í B.

Árni Daðason varð eins gamall maður, og lifa nú enn barnabörn þeirra. Fyrir fáum árum er andaður Sigfús Steingrímson á Grund í Skagafirði. Hvert hann hafði 2 eður 3 um tíræðt, minnist eg ekki; hann var móðurbróðir biskupsins Mag. Steins- Í barndæmi mínu var á lífi sá maður, er Höskuldur hèt Björnsson. Hann hafði að vísu 6 um tíræðt, ef ekki meir. Annó 1724 í Octobri mánuði, andaðist móðir síra Jóns, sem er prestur á Knappstöðum, 102 ára, og gat hún þá lesið gleraugnalaust velkta skript og smáa, eptir því sem mèr var tilskrifað af góðum manni og vin. Það segja þær „Adviser", sem Kansellíráð Weilant lætur þrykkja, að anno 1724 hafi í Krakau — svo heitir borg ein í Polen — andast maður 127 ára gamall. Árið sama annar í Kristjánssandi 104 ára gamall. En segja sömu „Adviser" að eina mílu frá Polen hafi jarðaður verið maður 114 ára gamall, og hafi þá lifað ekkja hans 108 ára gömul, er með honum hafði lifað í hjúskap 93 ár. En hvað gefa nú þessi stöku dæmi til þess að svoddan aldur skuli almennur vera, eður hafa verið á Davíðs tímum, eður síðar?].

### § 36.[1]

Samkvæði geldur mèr í þessu sá mikli maður Franciscus Baco de Verulamio í þeirri bók, sem hann kallar *Historiam vitæ et mortis,* Þar segir hann cap. *de longævitate hominis,* pm. 516[2] þegar hann er búinn að skrifa, að í frá Mosis tíð hafi mannsins aldur ekki styttst, leggur hann til; Svo virðist einnig, að með sama móti sè háttað stærð eður vexti líkamans, þvíað ekki rírnar hann með því, að hverr kemur í annars stað, og hverr lifnar af öðrnm. Og aptur segir hann, p. m. 161: þótt sumstaðar í heiminum fundist hafi nokkur stöku manna bein geysi stór, þá segir hann með útþrykkilegum orðum, að í 3000 ár höfum vèr nóglega vissar sögur, og sè í öllum þeim ekkert slíkt að finna, sem almenníngur trúir um ýkjastærð fornaldar manna.

### § 37.[3]

Hèr má lesarinn ekki gjöra þeim víðfræga Baconi þann órètt, að skilja þessi orð um öll *individua* í öllum heiminum, því hans meiníng er, að almennilegs[4] meðalmanns vöxtur sè

1) B § 35. 2) vantar í A. 3) B § 36. 4) A almenníngs.

nú á vorum dögum allur sami að hæð,[1] þýngð og digurð, svo sem hann var fyrir næstumliðnum 3000 árum; og sama er það, sem eg vil hèr bevísa, að meðalmannsvöxtur allur og þúngi líkamans sè nú í dag eins með öllu og hann var á Kristi sýnilegrar hèrvistar tímum. En hverki Baco nè heldur eg neitum því, að funndist hafi stöku manneskja, karlmenn eður kvennmenn, yfirburða stórvaxin, og fyrir þann ýkjavöxt fráleit öðrum. Israelis fyrsti konúngur, Saul, var höfði hærri enn allir aðrir menn í Ísrael 1 Sam. 9. 2—(10—23,[2] og ótal eru slíkra hluta dæmi í sögunum á öllum öldum og svo kunnug, að leiðindi væri slíkt upp að telja. En þvílíkar einstaka manneskjur gefa ekkert efni til að trúa það meðalmenn sèu þá strax almennilega jafnstórir, nè hafi nokkurntíma verið svosem þeir fáeinu ýkjastóru[3] kappar.

[4] Þegar eg var úngur í Kaupmannahöfn anno 1687 eður 1688, (en man ei hvert heldur árið var) þá kom þángað kvennmaður eigingipt frá Brabant. Hún var 15 kvartil danskrar álnar á hæð, og að öllum vexti þar eptir; hafði verið fríð álits, en var þá heldur við aldur. Svo var hún að umgeingni og skikkun sem annað siðsamt fólk, og ávarpsgóð við hvern sem til hennar kom að sjá vöxt hennar. Nú var eigi þarfyrir vöxtur meðalfólks að[5] þeirri stærð, þótt ein kona í heilli Europa fynndist[6] svo stór á því *seculo.*

## §. 38.[7]

Ítem segja þær dönsku maanedlige Relationer *anno* 1706 *in Martio*, að skamt frá Amsterdam í Hollandi hafi andast stúlka nokkur, sem heitið hafi Anna Margret Eiriksdóttir, svensk að ætt, og fædd anno 1684, svo hún hafði þá tvo um tvítugt, er hún deyði á reisu sinni, þá hún hafði víða farið að láta sjá sinn ýkjavöxt. Af henni segir, að hún hafi verið nær 8 feta að hæð, en 460 ℔[8] hafi veigið[9] hennar nakinn líkami, mèr skilst þegar hún var látin. Ef þar eru meint fet þau, er dönsk alin mælir, þá er hún nær einu kvartili dönsku hærri enn hin, sem næst var getið, en vigtin er á vora vog 5 vættir og 6 fjórðúngar; það eru 6 fjórðúngar meir enn nú eru 2 allra þýngstu meðalmenn. Samt gjöra þvílík fádæmi enga

1) A og. 2) vantar í B. 3) B stórir. 4) B ‖ 37. 5) A af. 6) A sýndist. 7) A § 39. 8) A 400. 9) A verið.

reglu, og vita mega þeir, sem heilskignum augum hèrá líta, það eins hafi að fornu verið.

§ 39.[1]

Anno 1671 kom einn hollendskur maður til Kaupmannahafnar úr Físlandi og lèt þar sjá sig fyrir peninga. Hann var höfði hærri enn hæstu menn, sem fundust þar í borginni á þeim tíma, svo sem vottar Johannes Achillis Tausanus í *Dissertatione de gigantibus et pumilionibus, edita* 1683. En hvað gefur slíkur eins manns vöxtur til meðalmanns hæðar, sem vera skuli almennileg?

§ 40.[2]

[[3]Það sem skrifar kansellíráð Weilant í hans Adviser 1724 No. 9. af 31 Janúarii: að nálægt Gadebusch hafi einn opnað eina fornmanns gröf, og þarí fundið ýmisleg *antiquitet,* sèrdeilis, að kroppurinn af þeim dauða skuli hafa verið 11 álnir. En mæla sömu Adviser No. 20 af 10 Apr., að frá Neapóli sè sagt, að menn hafi fundið í jörðu marga fásèða hluti og peninga, og líkkistu eina; hafi lokið verið 15 fóta lángt. Nú trúi um hvertveggja þetta hverr það honum sýnist; en skyldi svo reynast, að þessar sögur sèu með sanni bornar til kansellíráð Weilant, hefi eg sömu svör, sem áður eru sögð, að þeir, sem átt hafa þau stóru bein, hafa verið furðuskepnur sinna tíða, yfirburða stærri enn meðalmenn þeirrar aldar, og koma því alls ekki þessu máli við, sem um meðalmenn eina talar, en ei um furðuskepnur.

§ 41.[4]

Eg vil auðmjúklega biðja, að hálærðir náttúruspekíngar kenni mèr hvað víð sè kvokin á hvalfiskunum; hitt hefi eg lært af ritníngunni, að einn af þeim gleypti Jónam spámann, og skilaði honum heilum aptur, þegar Drottins almætti befalaði. Mun þá Jónas spámaður, hafa verið miklu stórvaxnari enn nú eru meðalmenn, eður mun Drottinn hafa látið sèrdeilis hvalfisk hafa haft sèrdeilis víða kvok til að gleypa spámanninn? Eg vil gjarnann læra það mèr með góðgirni kennt verður, en bið, að lærðir menn ekki gjöri fáfræði mitt að athlæi].

1) A § 40. 2) A § 41. 3) [ ] vantar í B. 4) A § 42.

§ 42.[1]

Kunnugt er hvað skrifað hefir *Curtius in historia Alexandri Magni libr.* 8 *cap.* 14 *pm.* 609 um geisilega líkamastærð á Poro Indía kóngi, hvarum Freinshemius leiðir vitni Aríani og Diodori Siculi, að hann hafi verið 5 álna. hár, og bætir því á ofan, að Eustatius skrifi, margir finnist á Indíalandi 5 álnir að vexti cfr. Plin libr. 7 cap. 2 pm. 107.; en trúgirni Plinii ofstór er í[2] þeim kapitula svosem víða, þreifanleg, og yfir sannindi fram. En hèr má lesarinn ekki skilja vorar álnir, þvíað alin þessi Pori leingðar og annara heitir hjá grískum Skribentum *pechys* og á latinu *cubitus*' það er leingðin frá olnboganum fram á laungutaungina, því framhandleggur mannsins[3] heitir *ulna*; þaðan er dregin alin og öln[4] í gömlu máli voru, sem allir vita, þeir er Statútú Gissurar byskups um tíundargjörð hafa lesið á *membrana*, og sú var í fyrndinni alin allra þjóða, það híngað á Norðurlönd er kunnugt orðið. [En hvernin alin vor sè hjá oss í tíðkan fyrst innkomin, *miratur in sua Færoia Lucas Debes,* og svarar rètt til þess, að hún sè með kaupstefnum Hamborgara komin í landið, pag. 280. Þarum þarf eg af Árna Magnússyni að fræðast, nær þeir tóku fyrst að sigla híngað. *Consulantur* Christiani 5ti brèf 1594 um rèttargáng þeirra, og *annales* um skansinn í Hegranesi[5]]. Nú voru það ýkjamenn - allir,[6] er voru slíkra 5 álna, svo að vöxtur Pori er að undrum hafður um heiminn allann. En þegar vèr mælum slíkar 5 álnir á vorn kvarða, þá gjörir hann af þeim 4 álnir sem nú eru tíðkanlegar, og er það alin full yfir meðalmanns vöxt vorra tíma; undur stór og furða eins þá og nú, hvar sem einn mætti svo hár finnast, og þó eru hèr dæmin áðursögð af viðlíkum vexti stökumanna, sem vor augu sjeð hafa nú á dögum. Hverr vill þarfyrir trúa, að almenníngur hafi svo stór verið að fornu? Það sjáum vèr, að hann er nú eigi svo, eður hverninn mátti Porus þá undur kallast? Mèr verður sagt, að þeirra *cubiti* voru miklu stærri. Eg svara: það er eigi bevísað. *Affirmanti incumbit probatio.*

§ 43.[7]

Nú sýnist mèr öll rök sagnanna lúta öll til eins, og hvert

1) § 43. B § 40. 2) A er ofstór. 3) A leggurinn om: manns. 4) öln. vantar í A. 5) [ ] vantar í B. 6) B allt. 7) A § 44 B } 41.

öðru samhljóða til að niðurbrjóta villu þá og fávíslega meiníng um geisivöxt fornaldarmanna, sem almenníngur trúir nú á dögum. Þarímót finn eg engar *demonstrationes partis adversæ*, og engin önnur argument enn *præconceptas opiniones*, sem frá barndómi hafa þeir inndrukkið [[1] af þeim eldri], sem á villu sinni[2] höfðu engan efa, og *examinerudu* því aldrei hvað satt væri þarum, eður grundvallarlausar ýkjur.

§. 44[3]

En hef eg það *argument* ótalað,[4] sem eg ætla torveldlega muni verða fyrir mèr hrakið; það var lögklif í Grágásar tíð, 12 fjórðúngar að vog, sem ráða má af Rekaþætti 5ta kap. (lbrb. 56 kap., þar skýrir hún fyrst, að hlasshvalur[5] er það, er einn eykur má draga á þákslèttum velli; og strax á eptir: hlasshvalur[6] er 6 áttafjórðúnga vættir. Nú er það kunnugt, að hesturinn dregur tvöfaldan þúnga við það, er hann megnar að bera, sem eg ætla enginn efa kunni, og enn í dag heldst venja sú, að tvennir 12 fjórðúngar heita lögklifjar af aldaöðli. Nú skortir oss eigi þá hesta enn á vorum tíðum, er hreinlega beri 3ja vætta þúnga fullum dagleiðum, svo að víst er, að eigi hefir hestunum þverrað aflið, síðan lögklifja nafnið er fyrst uppkomið.

§ 45.[7]

Þó báru þó almennir hestar þeirrar aldar menn eins lengi og eins lángt, sem[8] nú megna vorir hestar að bera þessarar aldar menn á jöfnum tíma, svosem ljóst er af Sturlúngasögu margfaldlega. Og nefni eg helst til þess lib. 7 cap. 10, þegar Þórður Kakali reið á fimmtudeigi frá Þíngvöllum, en kom föstu nóttina, er stjarna var í austri til Helgafells. Nú mun hèr Sjöstirni meint, og er það sú furðureið, sem fást mun varla þvílík, því að nóttina fyrir föstudaginn skil eg hèr meinta, heldur enn hina fyrir laugardaginn. En í staðinn fyrir það hèr stendur: stjarna var í austri, á sannlega að lesa í Vestri, þvíað kvöld var fimmtudagsins, þá þeir Þórður komu til Hvítárvalla, og nótt, er þeir fóru frá Þíngnesi. En þótt mèr verði sagt, að Þórður sjalfur hefði hestaskipti í Þíngnesi, og fáeinir hans menn, þá reið þó allur fjöldinn sömu hestum til Helgafells. Nú er áður sýnt af lögklifjum, að eins eru sterkir hest-

1) [ ] vantar í A. 2) A villunni. 3) A 45. B 42. 4) B ótalið. 5) A Hlaðhvalur. 6) A Hlaðhvalur. 7) A 46. B 43. 8) svosem.

ar nú á dögum, sem þá, og mundi þó fæstir endast að bera meðalmenn á jöfnum tíma slíka leið, því er það *necessaria consequentia,* að ei hafi meðalmenn á þeim tímum þýngri nè stærri verið enn nú eru vorir meðalmenn; og ef meðalmenn þá og nú voru jafnstórir, þá er ljóst, að alin þeirrar tíðar hefir miklu styttri verið, enn nú er vor alin. Og víla eg ekki að segja, alin Magnúsar kóngs Lagabætis hafi verið sjöunda hluta styttri enn vor alin, svosem flestir meðalmenn eru nú 3ja álna á vora alin, sem eflaust væru hálfrarfjórðu álnar á þá gömlu, en brestur til þess sjöunda hlut að kvartila talinu, þegar þá skal á vora alin mæla; þvíað fyrst þeir eigi voru þýngri, þá voru þeir ei heldur stærri; og fyrst þeir voru eigi stærri enn vorir meðalmenn[1] þá var alinin styttri, og það að sjöunda hlut, því þá var sá 3½ álnar, sem nú er 3ja álna.

## § 46.[2]

Nú er það enn til vitnis, að tvo menn [[3]vopnaða segir Curtius libr. 7 cap. 7 borið hafi hverr hestur Spitamenis foríngja þeirra Bachnænorum, sem fèllu frá Alexandro Mikla, þegar Spartamenes feldi Meneitemum, sem af Alexandró var sendur til að hefna landráðanna, nær 330 árum fyrir híngaðburðinn Christi. Tvo menn:] bar hverr hestur Sigurðar Orkneyínga jarls, þá er hann sveik Melbrigða jarl hinn skottska í Ólafs s. Tryggvasonar libr. 1 kap. 177. Það var um þann tíma sem Ísland byggðist, hèrum anno Chr. 880. Hefir þá ekki þúngi manna verið fremur enn nú, því eins voru sterkir hestarnir, sem lögklifjarnar sýna. Hvernin máttu þá mennirnir stærri vera, fyrst eigi voru þeir þýngri? [[4] Tvímenning riðu þeir Guðmundur Þorsteinson Íngimundarsonar Vatnsdæla Goða og flugumaðurinn Svartur, er drap Guðbrand]. Tvímenníng riðu þeir Sturla Sighvatsson til bardagans á Hundadalseyrum, þegar Þorvaldssynir frá Vatnsfirði voru drepnir, sem segir Sturl. lib. 5 kap. 16. Hverr verður þá munur á mannsþúnganum frá því sem nú reynum vèr daglega? Í landnámatíð tvímennir Sigurður jarl; í Sturlúnga tíð, 350 árum síðar tvímennir Sturla, og enn í dag ríður þá hverr tvímenníng, er honum líkar, 480 árum eptir Sturlúnga tíðir. Þó er hestanna kraptur allur sami nú og þá; lögklifjarnar eru þess vottur ómótmælanlegur; það

---

1) A menn. 2) A 47. B 44. 3) [ ] vantar í B, 4) [ ] vantar í B.

sýnir Grágás ut supra, og er þó enn þess að gæta, að Rekaþáttur í henni er allur, eða þvínær allur, úr Ulfljótslögunum heiðnu;[1] þvíað Norðmanna Rekaþáttur er í lögbókunum mjög ólíkur vorum, síðan Haralður kóngur Hárfagri tók frá þeim rekarètt allan undir kóngdóminn.

§ 47.[2]

Til eru enn í dag sængurnar eður legurúm fornaldarmanna í skálanum á Valþjófstað í Fljótsdalshèraði, í skálanum á Hrafnagili í Eyafirði, í skálanum á Silfrastöðum í Skagfirði, í skálanum á Auðkulustöðum í Húnavatnsþingi, í skálanum á Ljáskógum í Dalasýsln. Um alla þessa skála og um legurúm í þeim öllum segir með einum rómi mál allra manna hèr á landi, sonar og sonarsonar etc eptir föður og föðurföður frá aldaöðli mótmælalaust, að þá hafi smíðað Þórður Hræða með slíku formi rúmanna og slíkri lögun smíðarinnar, sem nú er sýnileg, og skal þó ekkert[3] af þessum legurúmum öllum reynast meir á leingð enn tæpar 3 álnir vorra tíma, svosem trúverðugir[4] menn hafa sagt mèr frá skálanum á Valþjófstað og Hrafnagili. Hina 3 hefi eg skoðað með eigin augum og mælt með athuga og fundið sem nú er sagt. Hverr trúir að Þórður hefði gjört sængurnar svo stuttar, ef[5] að mannfólk þeirrar aldar hefði þurft þær[6] lengri? Og hugleiði nú ópartiskir menn hversu öll mín *argument* eru samhljóða, og koma í einum[7] stað niður.

§ 58.[8]

Um Þorgeir Hávarðsson segir sagan af Ólafi kóngi Haraldssyni eptir Flateyarbók kap, 66., að hann var mikill maður vexti, sterkur og[9] ódæll og kappsfullur (svo leiðrètti eg það, er mitt exemplar segir skapsfullur, og tel eg þann eina bókstaf ofaukinn:) En um sama manninn, Þorgeir Hávarðsson, segir sama sagan eptir sömu Flateyarbók kap. 116., að allur hans líkamaþúngi hèkk á einni hvannarnjóla rót, þá allur líkaminn hèkk (lafði) fram af sextugum sjáfarbjörgum, og svo lengi hèlt hvannarnjólarótin öllum þúnga Þorgeirs, að Þormóð Kolbrúnarskáld undraði hvað laung dvöl hans varð, að Þorgeir kom ekki upp úr tónni, og mæltust þeir við áður

1) B gömlu. 2) A 48. B 45. 3) B enginn. 4) A eru verðugir. 5) A om: ef. 6) A þau. 7) A einn. 8) A 49. B 46. 9) A om: og -svo.

Þormóður gekk ofanaf hamrinum í tóna að vitja Þorgeirs. Hversu þúngur mundi nú Þorgeir, að hvannarót ein hèlt honum svo lángan tíma? Mundi sá ekki margur á vorum dögum,[2] sem hvannarótin, hvað sterk sem hún er, ei gæti svo lengi á lopti haldið, allrasíst þá að aurskriða brast undan fótum Þorgeirs, svo að hann greip um hvannarnjólan á fluginu hrapandi niðureptir, og missti fótanna.

§ 49.[3]

Það kennir Ljósvetníngasaga með skýrum orðum kap. 31, þegar Ísleifur frá Gnúpufelli og förunautur hans höfðu drepið Þorbjörn Kimpil, er fyrir Guðmund Ríka hafði njósnað um Þorkel Hák, og forráðið hann í hendur Guðmundar, þá flúðu þeir Ísleifur í Saurbæ til Hlenna enns spaka; en hann lèt leggja þá sinn í hvort hrip og hey í kríngum þá, og sinn kálf ofaná hvern manninn, Ísleif og förunaut hans. Voru þeir svo báðir fluttir á sama hesti í hripunum frá Saurbæ í Eyrarskóg framhjá Guðmundi Ríka, og markaði hann hverki ofurstærð hripanna nè þýngð klifjanna fyrr enn eptirlits, að hesturinn hefði stígið fast að grjótinu, svo hófarnir lögðust fyrir. Látum nú hvern manninn vera að þýngð 17 fjórðúnga og hvern kálfinn 5 fjórð. og hvert hripið 2 fjórð., þá hefir hesturinn borið tvennar lögklifjar, og er ómögulegt að ætla honum meira. En samt verða mennirnir ekki þýngri enn nú eru meðalmenn allmargir [[5] á vorum dögum] svo eigi þarf um 2 bæi að gánga, áður 2 sèu fundnir.

§ 50.[6]

Það legg eg að síðustu hèr til, að ef sönn væri þeirra *thesis*, sem rírnan mannburðanna og vaxtarins árlega og daglega *propugnera*, þá forgeingi snart á 700 árum þær ýmsar furðugáfur Guðs, sem hann hefir manneskjunni gefið til gagns og nauðsynlegrar velfarnanar, svosem eru siglíngar um höf[7] á milli landa, húsabygging, ei alleina sú, sem stór og prýðileg er, svo sem kirkjur og konúngaslot[8] og hallir, heldur einnig hin, sem nauðsynleg er til[9] að viðhalda lífi mannskepnunnar, og geta staðist veður og vind; þarmeð megn til að fella stórviðu skóganna og felldar skógareikur að hræra, ítem öll stórvirki þau,

1) B hvannarótin. 2) B tíma. 3) A 50. B 47. 4) A om: enns. 5) [ ] vantar í A. 6) A 61. B 48. 7) A haf. 8) B konúngleg slot. 9) om: til.

að brúa vötn og stórár, og grafir þær, sem hafnir gjöra *in urbibus maritimis,* item allur sá umbúnaður hafnanna, sem trèverk varðveitir bakkana fyrir vatni, og hvað sem að þvílíku hnígur. Það allt, segi eg, tækist burt úr heiminum á stuttum aldri. Eður hvernig skyldu álnarhá vesælmenni slíku gjörvöllu til leiðar koma? Hestanna tamníng mundi og hálfu torveldari verða enn nú[1] fílanna. Eður hvar munði slík rírnan staðar nema? Þá sýnist mèr ekki trúlegt að mönnum kæmi seinasti dómur á óvart, er hans undanfari[2] væri svo margur og þreifanlegur. Hverr mundi þá grafa járn úr jörðu til að smída plóg og ljá, pál, og reku? Hverr mundi taka við fiskibátum í landtöku? Hverr mundi flytja klifjar á hestum og múlum yfir fjöll og fjarlæga staði? Hverr trúir að[3] allt þetta vilji Drottins óútskýranleg góðgirnd aldeilis eyðilagt hafa fyrir þann síðasta dag, eður undir hans tilkomu? Mèr verður svarað: hann kemur fyrr enn oss varir. Eg trúi því vissulega, að óvörum muni hann koma þeim, er þá búa á jörðu, hvenær sem hann kemur, en það er líkast, að fyrr munið bæði þèr og eg fráfallinn verða, og vitum vèr, að andlátsdagur hvers er hans dómsdagur. Látum því af að mistrúa miskun Drottins um viðhald gjafa sinna vor á meðal, bæði þeirra, sem nú hefi eg taldar, og svo annara sem vor er nauðsyn á, svolengi sem heimurinn stendur; en ekki geta þær[4] mannkyninu færst í nyt, ef sönn væri yðar trú um rírnan vaxtar manneskjannna.

## Alin verðaura.

| | | |
|---|---|---|
| Kóngsþegnsk. | 1. | *Þetta eru alls* 20 *álnir.* |
| ibid. | — | *skal konúngur taka* 10 *álnir, en aðrar* 10 *sá, sem konúngur skipar.* |
| ibid. | — | *ei skal meira gjalda enn einar* 20 *álnir.* |
| Landslb. | 27. | *alin skal kaupa gætslu á hrossi á alþíngi.* |

Það er öllum kunnugt, að þessi *vocula,* þegar hún merkir dýrleik eður verð hlutanna, segir 2ja fiska verð, eður 4 skildínga specie, það er hálf örtug forna, *vide nostrum* Ortug. En glósan er í þessa merkíngu komin af því, að í þann tíma lögbók gjörðist þessi og laungu fyrr, og líka nokkrar stundir eptir, gyldti álnarleingð af vaðmálum eins mikið til dýrleika, svo

1) A om: nú. 2) B undanfæri. 3) A om: að. 4) B om. þær

sem vottar Kaupab. 5 kap. Nú er lögeyrir 6 álnir vaðmáls nýtt og ónotið. Cfr. Statutu Gissurar byskups um tíundargjörð anno 1096 etc Grágás kb. 85. kap.

## Allur dagur til stefnu.

Llb. 26. Hvernig þetta á að skilja, segir Grágás kb. 5.: „Ef eycð helgan dag er eindaginn (til að gjalda skuldir), oc á maðr cost at stefna fyrir eycð, ef hann vill, en við scal hann taca, þótt við aptan gjaldist, ef allur dagur var til stefnu“.

Nú munu nokkrir, ef einhverr les þetta, kalla það myrkt og óskýrt, þvíað bæði vantar hèr að greina hvað Eykt sè, og svo, hvert það sè sama og nón, item: skuli það ekki vera að öllu sama, hver þá sè mismunurinn. Verður þessi minn athugi í mörg horn að líta, fyrr enn eg *concludera* megi hversu mèr skiljist.

[[1]Svo segir Gulaþíngsbók hin forna í Kristindb. kap. 16: „Nú eru þeir dagar, er Olafur hinn helgi oc Grímkell byskup settu á Monstrarþíngi, oc buðo fausto fyri oc nónhelgi, þeim skal sva þyrma, sem sunnudögum. Nú er ein Jónsmessa en önnur Pètursmessa“. En aptur í næsteptirkomandi kapitula. „Nú ero dagar aðrir, er ei er nónheilagt fyrir nè fasta, er þó sculo jamhelgir fyrir verkum, sem sunnudagar“ etc. Aptur segir Frostuþíngsbók Hákonar konúngs, í gamla Kristinrètti: kap 24. „Sunnudags helgi rís upp at nóni á þvottdegi, oc heldur til mánadags, er lýsir“. Síðan telur hann 16 daga, er allir eru jafndýrir sem sunnudagar. Þar strax eptir segir bók hans í næsta kapítula: „En þessir ero þeir, er eigi er nónhelgi fyrir: Einn er Pálsmessa, annar er Matthiasmessa“ etc. Hèr bið eg fyrst, að lesarinn hugleiði, það báðar fyrrnefndar lögbækur eru Noregsmönnum gefnar, en oss Íslendskum eigi, sem í þann tíma vorum eigi undir Noregs konúnga valdi. „Kristinrèttur sá, sem um hvertveggja þessa tíma gekk hèr á landi][2] þeirra Þorláks byskups Runólfssonar og Ketils byskups Þorsteinssonar, [[3] hann mælir svo] í minni *membrana* frá Leirárgörðum kap. 12.: „Vèr sculum halda þvottdag hinn sjöunda hvern nónhelgan, næstan fyrir drottinsdag hvern, svo at scal ekki vinna nema þat er nú man ec telja at liðinni

1) [ ] vantar í B. 2) B. Svo segir Kristinrèttur þeirra etc. 3) [ ] vantar í B.

eyct“. Nú sje eg að mèr verður sagt, að nón og eykt sè hèr allt hið sama. [[1] Eg svara til þess, að argumentin af hinni fornu Gulaþíngsbók og Frostuþíngsbók Hákonar kóngs *evincera* það eigi, því þær eru Norðmönnum gefnar svosem áður er sagt, og má vel hafa verið nónheilagt hjá Norðmönnum, þó eigi tæki sú helgi til hjá oss, fyrr enn hálfum klukkutíma eptir nón, og ei þó með öllu fyrr enn halfri annari stundu eptir nón, sem litlu síðar skal eg *demonstrera;* einsog í því mismunar, að helgin hèldst í Noregi til þess er lýsa tók á mánadaginn, en hjá oss endaði hún á miðnætti sunnudags og mánadags, sem eptir á sýnir Kristinrèttur Jóns Erkibyskups og Árna byskups. En til þess á eg að svara, hvert eg geti með rökum sýnt, það eykt hjá oss hèr í landi hafi ekki merkt að öllu sama, sem nón hjá Norðmönnum, eður hvernin eg geti saman komið með nokkrum rökum nóni Norðmanna við eykt vora, þá er Kristinrèttur *definerar*].

Þetta eru mín andsvör:

§. 1.

Þess er að gá, að glósan „eykt“ hefir tvenna merkíng, þá[2] fyrst, sem er *communis* öllum áttundu hlutum dags og nætur, beggja samantalinna, til að gjöra *nychthemeron;* þá aðra, sem er *peculiaris* og *propria* einni klukkustund, frá því klukkan er hálfgeingin 4 e. m. og til þess hún er hálfgeingin 5, að jafnnærri báðum, nóni og miðjum aptni. Skiptu vorir fornmenn tveim dægrum í 8 eyktir, og 8 áttir himins, og hafa þær nafn af því átturnar, að þær eru 8. Fylgir þá hverri áttu ein eykt *communis vocabuli* af tveim dægrum, og er sú eyktin, sem útsuðurs áttunni fylgir, mið á nóni, en byrjast klukkan[3] hálfgeingin 2. og endast kl. hálfgeingin 5, því þar tekur til vesturáttan, svo þá verður útsuðursáttan 180 mínúta tími. Þar af tek eg tvo þriðjúnga, það eru 120mínútur, þá er klukkan 3 (sem vèr köllum nón) og 30 mínútur betur. Þar hefst eykt, *peculiariter sic dicta*, og eyktarhelgin Kristínrèttar allra fyrst, og varir eyktin, *speciali illo nomine insignita*, þartil sól hefir geingið til fulls útsuðursáttuna, það verður kl. 4 og 30 mín., svo þar er lokin síðasti þriðjúngur útsuðursáttunnar og eyktin enduð, *proprie sic intitulata*. Hèr, þá klukkan er hálfgeingin 5, byrjar apt-

1) [ ] vantur í B. 2) vantar í A. 3) vantar í A.

aninn; hann varar einnar eyktar, *communiter nuncupatæ*, tíma, eður 3 klukkustundir, og er þá miður, að sól er í fullu[1] vestri. Það heitir hjá oss miðuraptan, en endar [aptaninn], þá klukkan er 7 og 30 mín. þá eru náttmál. Hefst þar nóttin, og varir síðan nótt í 3 eyktir og endast kl. 4 og 30 mín. Þar[2] byrjar morguninn, og er hann þá miður, að sól er í austri. Heitir þar[3] miðurmorgun enn í dag. Hann (morguninn) varir enn þá síðan í hálfa eykt, og endast þá klukkan er 7 og 30 mín; Þá eru dagmál, er sól kèmur fyrst í takmark ríkis' landsuðursáttar, varir svo dagurinn 3 eyktir, inntil þess klukkan er 4 og 30 mín. e. m., það er þá liðin er eykt *peculiaris nominis*. Þetta bevísa eg með eptirfylgjandi rökum:

§ 2.

Svo segir Kristinrèttur Þorláks og Ketils byskupa á *membrana* frá Staðarfelli, sem Assessor Arni Magnússon á, en í mínu *apographo* stendur: „Þat er norðurátt, er sól er komin í beggja ætt, norðurs oc landnorðurs". Orðrètt eins segir mín *membrana* frá Leirárgörðum í sama Kristinrètti. Eins að öllu *membrana* frá Arnarbæli i sömu grein sama Kristinréttar. Þessum öllum samhljóðar orðrètt *apographum* af *membrana* frá Staðarhóli.[4] Hèr sjáum vèr að norðuráttin hefst hálfri eykt fyrir miðnætti, og endast hálfri eykt eptir miðnætti, einsog eg hefi sagt um útsuðursáttuna, og þessi framanskrifuð grein *demonstrerar*, að allar átturnar byrja á hálfum eyktum, eptir þeirri *hypothesi*, sem nýgjörvíngar vilja, að á miðpúnkti höfuðáttanna skuli eyktamótin vera, og er það *ex libera compositione philosophorum*, en ei eptir *rationibus ordinis naturalis*, sem áttadeilíng Kristinrèttar fylgir. Eins fer og hitt, að dagmál og náttmál hefjast með áttunni á hálfri eykt, svo talinni, sem strax var sagt eptir nýgjörvíngum, þegar klukkan er 7 og 30 mín. annað f. m., en annað e. m. Þessu gjalda hinar tíðirnar samkvæði, miðurmorgun[5] og miðuraptan, sem á heillrar eyktarmóti standa báðar eptir *thesi* nýgjörvínga, en byrjast og endast hver um sig með[6] átt sinni á hálfrar eyktar móti, sem áður er sagt.

§ 3.

Skyldi það nú rètt, sem nýgjörvíngar halda, að nótt væri

1) vantar í B. 2) B þá. 3) B því. 4) A Staðarfelli. 5) A morguninn. 6) A eptir.

2 eyktir alleina, svo morgun, svo dagur, svo aptan, þá hefst engin með áttu sinni, heldur á miðjunni þeirrar næstu áttar, þvert á móti áðurnefndri[1] reglu Kristinrèttar um norðuráttuna.

§ 4

Nú að eg fremur sýni það eykt, *specialis vocabuli,* sú eð helgina byrjar á þvottdögum, sè ekki með öllu hið[2] sama sem[3] nón *in sensu strictissimo* (en það samþykki eg með öllum öðrum, að *in ipso æquinoctio* standi nónið rètt á útsuðurslínunni), þá gjöri eg með eptirfylgjandi greinum enn nú skilmerki til þess:

1, Af Kristinrètti Þorláks og Ketils byskupa, eptir optnefndri *membrana* frá Staðarfelli. Hann segir: „þá er eykt, er útsuðursátt er deild í þriðjúnga, oc hafi sól geingit tvo, en einn ógeingit". En aptur segir sama *membrana* í Kristinrètti Jóns Erkibyskups og Árna byskups. „Drottinsdag hvern skulum vèr helgan halda; hefst sú helgi á þvottdag, þá sól hefir geingið tvo hluti af suðurátt, oc einn ógeinginn, oc helst til miðrar nætur eptir drottinsdag, ef rúmheilagt er annan dag vico.

2, Enn aptur segir *membrana* frá Arnarbæli í Kristinrètti Þorláks og Ketils byskupa: „Vèr sculum halda þvottdag hinn sjöunda hvern nónhelgan, sá er næstur[3] drottinsdegi fyrir, sva at þá skal eigi vinna lengur enn eyct líður, nema þat, er nú man ec telja. Þat á at vinna allt, er drottinnsdag á at vinna. Þá er eyct, er útsuðursátt er deild í þriðjúnga, oc hefir sól geingit tvâ hluti, en einn ogeingit". Síðan segir sama *membrana* í næsteptirkomandi kapítula: „Ef maðr vinnur drottinnsdag eður þvottdag eptir eyct etc.. þá verðr sá útlægur um þat 3 mörkum". Enn aptur segir sama *membrana* í Kristinrètti Jóns Erkibyskups og Árna byskups: „Drottinsdag hvern skulum vèr helgan halda, hefst sú helgi á þváttdag, þá er sól hefir geingit tvâ hluti af útsuðursátt, en einn ógeingit, og heldst til miðrar nætur eptir drottinsdaginn, ef rúmheilagt er annan dag viku".

3, Samkvæði geldur *membrana* frá Leirárgörðum. Hún mælir svo í Kristinrètti Þorláks og Ketils byskupa kap. 12. „Vèr skulum halda þvottdag hinn sjöunda hvern nónhelgan næsta

---

1) B áðurskrifaðri. 2) A hin — og. 3) A er.

fyrir drottinsdag hvern, svâ at þá skal ekki vinna nema þat, er nú man ec telja at liðinni eyct. Þat á at vinna allt, er drottinsdag á at vinna. Þá er eyct, er útsuðursætt er deild í þriðjúnga, oc hefir sól geingit tvâ hluti, en einn ógeinginn". Sama *membrana* síðar í sama kapítula: „Ef maður vinnur drottinsdag eður þvâttdag eptir eyct etc. þá verður hann útlægur 3 mörkum". Enn ber sama *membrana* hið[1] sama vitni í Kristinrètti Jóns Erkibyskups og Árna byskups. Þar stendur: „Drottinsdag hvern skulum vèr heilagan[2] halda, hefst helgi á þvottdag, þá er sól hefir geingit tvo hluti af útsuðursætt,[3] en einn ógeinginn, ok helst til miðrar nætur eptir drottinsdaginn, ef rúmheilagt er annan dag vico."

4, Öllu þessu samhljóðar *apographum membranæ,* sem var á Staðarhóli, og nú á assessor A Magnússon, en bróðir hans Jón Magnússon hefir *apographerad* bæði Kristinrètt þeirra Þorláks og Kètils byskupa, og svo hinn, Jóns erkibyskups og Staða-Árna, þar stenður svo: „Vèr sculum halda þvâttdag hinn sjöunda hvern nónhelgan, svâ at scal ekki vinna þá er eyct líður, nema það, er nú man ec telja; *et mox:*" þá er eycð, er útsuðursætt er deild í þriðjúnga, oc hefir sól geingit[4] tvâ luti", enn einn ógeinginn. Sami Kristinrèttur *capite proximo*: „Ef maðr vinnur drottinsdag eður þvâttdag eptir eycð, etc. þá er hann útlægur um þat 3 mörkum". Kristinrèttur Jóns Erkibyskups og Staða-Árna af sama *apographo:* „Drottinsdag hvern sculum vèr heilagt halda, hefst sú helgi á þvottdag, þá er sól hefir geingit tvâ hluti af útsuðursætt oc[5] einn ógeingit, oc helst til miðrar nætur eptir drottinsdaginn, ef rúmheilagt er annan dag vico.

## § 5.

Nú er bón mín, að lesarinn hugleiði það, sem[6] áður hefi eg sagt um skiptin áttanna, að þær byrjast allar miðleiðis sín á millum, svosem ég ætla mig *demonstrerad* hafa með vitni 4ra *membranarum*, áðurskrifuðu um norðurátt, og þeim *ratiociniis,* sem eg hefi þaraf dregið, *ut supra vidimus.* Hvað vantar þá til eg sýnt hafi skilmerkilega[7] mismun milli nóns, *stricte sic dicti,* og eyktar *specialis?*

---

1) vantar í A. 2) B heilagt. 3) A suðurætt. 4) B geingna. 5) B enn. 6) vantar í A. 7) B í annari röð.

§ 6.

Mèr verður svarað, 1º, að allir mínir vottar af þeim gamla Kristinrètti Þorláks og Ketils byskupa kalli nónhelgi[2], og enn þá kannske[3] af Staðarfells membrana, þáreð segir: „Vèr sculum halda þvottdag hinn sjöunda hvern nónhelgan, svo at þá scal ekki vinna lengur enn nón líður.

§ 7.

Hèr til svara eg: þessi sami[4] vottur *adversæ partis, interpreterar* sjálfur ljósast hvað hann meinar með *vocula:* „nón, þegar hann, svo *diserte* sem áður er sagt, *definerar* hvað eykt sè,[5] og nær hún hefjist, *nimirum:* þá sól hefir geingið tvo hluti af útsuðursætt, en einn ógeinginn, það er *præcise* þegar klukkan er 3 og 30 mín, betur. *Ergo:* getur það eigi verið nón *in accurata linea* útsuðursáttar, þvíað eyktin *specialis* þessa Kristinrèttar hefst ekki fyrr enn liðinn er hálfur klukkutími frá nóni *in sensu strictissimo.*

§ 8.

Svo hefir þá *terminus* nón verið hjá þeim *in strictiori et latiori significatione* og niðurbrýtur að engu það, sem[6] eptir á segir um eykthelgina, og sjálfan leiði eg hann til vitnis mínu máli, þareð hann segir litlu síðar: Ef maður vinnur þvottdag á eykt, verður hann útlægur um það 3 mörkum. Hèr segi eg: hann gjörir ekki þann sekan, sem á nóni vinnur, *accurate sic dicto,* heldur þann, sem vinnur á eykt þeirri, sem hann hefir *definerad,* og til helgi talið.

§ 9.

Og enn svara eg því: að þessi grein er með nýmæla teikni *noterud* í Staðarhóls *membrana,* og því má ske að hún hafi verið rèttarbót þeirra um stundarsakir, en *abrogerud,* þegar inn kom Kristinrèttur þeirra Jóns Erkibyskups og Árna byskups, og þá verið tekið upp hið forna, að sekja menn ekki nema þá sem unnu eptir eykt.

§. 10.

Ef þetta er ei nóg svarað, þá segi eg: að *posito:* þetta hafi í öndverðu staðið í þessum Kristinrètti Þorláks og Ketils

---

1º vantar í A. 2) B nónheilagt, 3) máske. 4) A eg þessu: sem. 5) B heiti. 6) B hann.

byskups: „Ef maðr vinnur þvottdag á eycð, verður hann útlægur 3 mörkum; svara eg, að þegar vèr athugum hina greinina: „Ef maðr vinnur drottinsdag eðr þvàttdag eptir eycð“, þá sjáum vèr að það vill undarlegt sýnast, að jöfn er með öllu sektin á „eycð á drottinsdag“ og[1] „á þvàttdag eptir eycð“; og er þó tilgreint hvað á eykt megi[2] vinna,[3] sem ekki má á sunnudaginn vinna, svo sem er; að saxa kjöt, skera mör, að gjöra til mat þann, er um helgina skal hafa, og þótt afgángs verði (þ. e. meira verði tilreiðt enn hafa þarf um helgina) þá varðar það ekki við lög. Því skil eg svo þessi orð: „Ef maðr vinnur þvottdag á eycð“, að hèr meini það, að engan nýan verknað megi fyrir sig taka, síðan komin er eykt, það er kl. 3 og 30 mín. *ut supra*, heldur skuli menn þá strax fara til að leysa verk af höndum sèr, hyrða verkfæri sín og leggja verkið niður, svo því sè hreint aflokið að liðinni eykt. t. d. í heybands önn skal ekki senda reipi að nýu til að sækja meira hey enn þá er bundið, en það, sem komið er í bönd, megi þó heim bera, ef því sè[4] aflokið áður eykt sè liðin; og þessu til styrktar færi eg það, sem stendur í sama kapítula um klifjaburð reisandi manna, og hvað fleira þar greinir um sjómenn og brúðfólk og þíngmenn, svo[5] og hitt, sem áður er getið um sláturs hyrðíng, og hvað sem þar að lýtur.

## §. 11.

Eg vil ekki *dissimulera* það er stendur í minni *membrana* frá Leirárgörðum í sama kapítula; í staðinn þessarar greinar: „ef maðr vinnur á eycð“, segir hún: „ef menn vinna þvottdags nón, þá verða þeir sekir 3 mörkum“. Ætla eg til þessa[6] nóglega svarað með því, sem eg talað hefi [[7] comm 7] um *æquivocationem* á orðinu nón, og sýnt að Noregsmenn[8] lètu[9] þann terminum gylða hjá oss sama, sem þeirra *specialiter* kallaða eykt, hverja þeir hafa þó[10] svo *accurate definerad*, að menn geta ekki villst um, nema viljandi villist; og svo með því, er næst er sagt, hversu skiljast ætti að vinna á eykt, og eptir eykt, og vil því ei að þarflausu staga það upp aptur.

## §. 12.

2º) Verður mèr svarað af sama kristinrètti í sömu *membrana*:

1) vantar í B. 2) A skuli. 3) B það. 4) B fær. 5) A sem. 6) A þess 7) [ ] vantar í A. 8) B vorir. 9) A láta. 10) vantar í B.

„Ef maðr vinnur drottinsdag eður þvàttdag eptir nón etc". Hèr til svara eg einsog áður: Nón vill hann hèr skilja láta[1] *in sensu latiori,* allt hið sama, sem hann hefir *definerad* eykt, en ekki *in sensu strictissimo* að láta það standa *præcise* á útsuðurslínunni. Þessa mína *interpretation* votta með mèr[2] allar 3 *membranæ* áður *citeradar,* frá Leirárgörðum, frá Arnarbæli, frá Staðarhóli, þareð þær segja: „Lengur[3] enn eycð líður; að liðinni eycð, og:[4] er eycð líður etc.[5] Og þar að auk það, er sömu *membranæ* allar 3 segja í áðurskrifuðum greinum orðrètt hver með annari: „Ef maðr vinnur drottinsdag eður þvottdag eptir eycð". Það sjá allir, að þetta segir: þegar eyktin er enduð. Nú veit eg ekki hvað til þess skortir, að með rökum hafi eg sýnt, hvað eykthelgi sè, og í hverju hún mismunar frá nónhelgi, ef það ætti *in sensu strictissimo* að skiljast nón fyrir suðvesturslínuna.

## § 13.

En ef mèr verður svarað: 3º) að þær norsku lögbækur, Gulaþíngsbók hin forna og Frostoþíngsbók Hákonar kóngs Gamla, gjöri enga *limitation* á nónhelginni, [[6] Frostoþíngsbók Hákonar k. hefir í sínum Kristinrètti endíng helgarinnar seinna, svo það munar miklu um lángnætti á vetrum. Hún segir svo: „Sunnudagshelgi rís upp at nóni á þvottdegi, og heldur til manadags er lýsir]. Þá svara eg til þess: vèr viljum síðar (Comm. 28) examínera það með stærri gaumgæfni, og mun eg þá sýnt geta sterk og merkileg líkindi til þess, að nón Gulaþíngsbókarinnar fornu ei hafi meint suðvesturslínuna *præcise,* heldur sama sem vor eykt 30 mínútum síðar, hvað sem um Frostoþíngsbók Hákonar kóngs er að segja. ([7] En þegar hún gjörðist, hafði Hákon kóngur ekkert[8] vald yfir Íslandi, en makt byskupa var hèr í þann tíma og þar fyrir ofan mikil, helst af því að landsmenn vorir máttu á margri þeirra góðgirni þreifa, að þeir voru vakandi yfir velferð landsins og þess nauðsynjum[9]. Eg meina til Þorláks og Ketils byskups Þorsteinssonar, sem gjörðu hinn forna Kristinrètt, laungu fyrri enn landið var Noregs kóngi játað; vildu því vægja vinnuhelginni, slíkt sem nærri lèti siðum Norðmanna, þar sem Erki-

---

1) vantar í B. 2) B hinar. 3) A lengra. 4) B. og — item. 5) etc. vantar í B. 6) [ ] hafa sum manuscripta en hverki A nè B. 7) þessa ( ) vantar í A. 8) B ekki. 9) B fyrir velf. o. nauðs. landsins.

byskupinn var; og voru þá fyrir laungu í hug Norðmanna komin þau klóku ráð, að fá þetta land undir Noregsríki með mjúklæti, sem síðan lukkaðist Hákoni kóngi. En byskupinn Staða Arni, hversu íllgjarn sem hann var í mörgu, skammaðist sín að niðurbrjóta landsins innbyggjara nytsemd í þeim smávæga pósti, sem að þessu nónhelgis og eyktarhelgis haldi lýtur' þegar hann anno 1275 kom híngað í landið með þann Kristinrètt, sem Jóni Erkibyskupi og honum er síðan eignaður). Þótt það kynni satt að vera að Frostoþíngsbók Hákonar kóngs meini með sínu nóni *præcise* suðvestur, sem eg efa mjög vegna þess sem eptirá (comm. 28.) skal af hinni fornu Gulaþíngsbók sýnt verða.

§ 14.

Það *offenderar* mig ekki neitt í þessu, þótt nónheilagt sè kallað hið sama og eykthelgi, þareð helgin hófst þó ekki fyrri enn hálfri klukkustund eptir nón, *in sensu strictissimo* fyrir suðvesturslínuna, því að hinir lærðu menn þeirrar aldar gjörðu sèr[1] ekki mun að[2] svo litlum tíma. Sjáum vèr það glöggt af Ólafs sögu Helga, kap. 112, að Þórarinn Nefulsson gaf prestinum á Ögvaldsnesi 2 aura silfurs til að hríngja til nónu, jafnskjótt sem kóngur gekk frá borðum, svo að Ásbjörn Selsbani mætti halda lífinu um helgina; og af Noregskónga sögum, þegar Gils Illugason átti að deyðast fyrir víg Gjafalds, að þá var hríngt til nónu, og lèt Magnús kóngur hyggja að sólu, er hann heyrði klukkuna, og var þá öndvert nón. Sýna bæði þessi dæmi, að skeika lètu kennimenn i þessu, þá er þeim þótti nokkuð á ríða. Og þar[3] svo var hjá Norðmönnum unðir hanðarjaðri kóngs, því þá ekki hjá oss hèr á landi, helst þar sem af áðurskrifuðum greinum Kristinrèttar augljóst er, að ekki fèlli sekt á verknað manna, fyrr enn eykt var enduð, eins og[4] þar stendur: „að liðinni eycð", og aptur: „lengur enn eycð líður", og „er eycð líður". [5]En það segi eg að var, þegar sól hafði geingið hinn seinasta þriðjúng útsuðurs áttar, því heitir það eyktarstaður, eins og þá heitir nónstaður, er liðin er *hora nona*, og hádegisstaður, þá fullt er komið hádegi.

§ 15.

Hvað mun það, er hinn gamli málsháttur vor segir, að tví-

1) A hèr. 2) af. 3) A sem. 4) A svosem 5) [illegible] 15.

nóna við verk sitt? Mun ekki sá *tropus* af því dreginn, sem áður hefi eg sagt, að eykthelgin eður nónhelgin byrjast kl. 3. 30 mín., og sè það hið fyrsta nónið, en afalli þá til fulls, að kl. er 4 og 30 mín., og sè það nónið seinna á sjálfum eyktarstaðnum? Og svo er allra klukkustundatal hjá öðrum þjóðum, að þá[1] er kölluð hver stund, er hún er liðin, en hverki þegar húu hefst, nè meðan hún er að líða. En dagmál og náttmál, eykt og ótta hafa það *plane diversum*, að þau nafngipta tímann,[2] sem eptir þeim kemur.

§ 16.

Tel eg það víst, að eyktarnafnið hafi hèr miklu eldra verið enn nónið, sem að vísu ekki hafði nafn[3] hjá oss, fyrr enn kristnihaldið var svo magnað, að klaustramenn höfðu fengið í verk sitt reglulegt tíðahald með[4] óttusaungum*) og *prima etc.*, þótt að ekki festist við í daglegu máli meir enn nónið alleina og *prima*, sem þó *exoleradi* aptur strax sem niðurfèllu þær katólsku tíðagjörðir, svo nónið eitt var eptir. Hefir það sannlega komið af því, að Norðmenn kölluðu nónhelgi það er vorir menn þurftu vara á að taka, vegna eykthelginnar, sem þá var svo nær í hönd komin.

*) *Ottu pro tempore matutino est ipsa eademqne vox ac Græcorum orthros. Cum utrumque idem significet, utrumq, literis iisdem scribatur, mutato r Græcorum in t, et terminatione masculina in fæmininam. Exemplum mutati r in t petatur in Salmasii lingva hellenistica, a. p.* 366 *usque ad* 375[5].

§ 17.

Þó mèr verði svarað, að tíðabækur hinna katólsku klaustramanna hèr á landi telji miðsmorgunstíð sína *primam*, en sína *tertiam* kalli þeir dagmálatíð, *sextam* miðdagstíð, en *nonam* nón, síðan miðaptanstíð og kvöldsaung, eður náttsaung, sem allt standi á heillra eykta mótum. En það efi enginn, og ei heldur eg, að glósan „nón" sè smíðuð úr þeirra *nona*, og því verði nónhelgin efalaust *præcise* að byrjast á nóni.

§ 18.

Þá svara eg: 1°) neita eg því,[6] að *horæ* múnkanna *can-*

1) A það. 2) B eru nafngipt af tímanum. 3) vantar í B 4) B og 5) Skýríngargreinina setur A aptan við § 39. 6) vantar í A.

*onicæ* þannin taldar standi á eyktamótum fornaldarmanna, því allar eru þær settar í eyktinni miðri. En það er eyktamótið rètt, og náttúrlegri deilíng áttanna samkvæmt, sem Kristinrèttur setur áttanna takmörk, enn þótt eyktanna takmörk hafi nygjörvíngar skipað á sjálfa miðpúnkta höfuðáttanna, *de quo supra* § 2.

§ 19.

2°) Þeir katólsku klaustramenn höfðu í nafngiptum tíða sinna þegar þeir vildu kalla þær á vora túngu, enga þá *akribeian,* sem menn kunni nokkra[1] skilmerka bevísíng af að draga, til að *demonstrera* á hverju heimsáttanna striki standa skyldu tíðir þeirra, heldur lètu þeir sèr nægja að gefa þeim nöfn á vora túngu af því dagsmarki, sem túngan hafði sjálf til, og í *decursu* tímans var þá næst þeirra *horis canonicis,* þó það munaði ei alllitlu frá því, sem glósurnar í vorri túngu áttu sitt rètta sæti.

§ 20.

Þessu til bevísíngar leiði eg þeirra tvo óttusaunga; með kenna sjálfir þeir þann fyrra vera settan til miðrar nætur, og kenndu hann þó við óttu; annann þeirra óttusaung, er þeir munu hafa átt að halda kl. 3 eptir miðnætti, kölluðu þeir hinn efra óttusaung, þar þó að ótta, *akribós dicta,* innfèll ekki fyrr — að minni meiníng — enn 30 mín. síðar, svo að hverigur óttusaungurinn nær til hennar aldeilis. Eður mun það nokkuð kunna *demonstrerad* að verða, að ótta, *proprie dicta,* varað hafi allt frá miðnætti og til þess klukkan var meir enn 3 eptir miðnætti? Eg trúi nei, þángaðtil eg læri rèttara.

§ 21.

3º) Sama er að segja um þeirra dagmálatíð; ef hún var haldin *præcise* á þeirra *tertia,* þá var hún engu voru dagsmarki nær enn dagmálum, og því við þau kennd, þótt hún væri haldin hálfri eykt síðar. Sína *sextam* kalla þeir miðdagstíð, því ekki hádegistíð? Þar þó allir vèr vitum, að miðmunda og miðdegi, er vèr köllum, er *præcise* kl. 1 og 30 mín., hálfri eykt eptir hádegi.

---

1) vantar í A.

§ 22.

4º) Því skal þá nónið alleina eptir þeirra nafngipt *deturbera* vora gömlu eykthelgi úr sínu forna sæti, sem Kristinrèttirnir báðir *definera til punkt og prik*? Hverr vill trúa, að svo skjátlandi nafngiptir tíðanna klaustramanna hafi dregið eykthelgina upp eptir deginum um 30 mín? eður — skuli menn telja þar til eyktin endar — um fullan 1½ klukkutíma?

§ 23.

5º) Enn vil eg spyrja: hvað er vissara að tíða nafngiptir múnkanna hafi bundið sig við vor hin rèttu dagsmörk í þessum eina pósti um nónið, heldur enn í því, er þeir settu nöfn á sína *primam, tertium, sextam, nonam*, allt eptir dagsmarka tali gyðínga, en beigluðu nöfnin á hinum eptir vorri túngu, sem ljóst er af óttusaungunum. En kvöldsaung sinn[1] lètu þeir einu gylda hvert þeir nefndu kvöldsaung eður náttsaung. Mun það þá þarfyrir sama, kvöld og nótt, ef vèr viljum með gætni tala?

§ 24.

Svo er þá sýnt,[2] að af múnkanna *horis canonicis* kunnum vèr ekkert *argument* í þessu efni víst að gjöra. Þarámót eigum vèr allar bevísíngar þessa máls að læra af vorum gömlu fornaldarmönnum, byskupunum Þorláki og Katli, og ráðgjöfum þeirra, Markúsi lögsögumanni og Sæmundi presti Fróða og þeirra *synchronis*. Þeir vissu hvað hinir heiðnu menn, þeirra og vorir forfeður, höfðu til dagsmarka talið, og á hèr ekki að akta hvað[3] nýgjörvíngar á vorum dögum dikta vilja, og skapa ný sæti dægradeilíngarinnar, eptir því sem hálærðir menn í öðrum[4] löndum telja sín dægratakmörk, alls ókunnugir[5] vorum *antiquitetum*. Mun það enginn hyggja, að vorir heiðnu menn, Þorsteinn Surtur og Stjörnu-Oddi, hafi af[6] flasi eður[7] ógætni dagsmörkum skipað eður gefið þeim nöfn. Og efast eg ei að báðar glósurnar, „eykt“ og „ótta“, sèu frá heiðnum mönnum til vor í erfð komnar. Og sèu það óttunnar rèttu takmörk, að hún hefjist eptir miðnætti kl. 3 og 30 mín., þegar sól hefir geingið tvohluti landnorðursáttar en einn ógeinginn, og endist þegar kl. er 4. 30 mín. við það augnablik er morguninn skal

1) vantar í A. 2) A það. 3) B sem. 4) B framandi. 5) B ókunnir 6) B að. 7) B og.

fyrst hefjast. Það er gátulaust, að seinasta hlut næturinnar skal óttan fylgja, því að svo segir Edda um för Þórs til[1] Útgarðaloka: „þar dvaldist Þór um nóttina, enn í óttu fyrir dag stóð hann upp og klæddi sig". Hèr er óttan fyrir dag og því fyrir venjulegan uppstöðu tíma. Snorri Sturluson *in* Hálfdán Svarta: „Hárekur bjóst og hafði 100 manna; stilti hann svo „ferðinni, að þeir komu[2] yfir vatnið í óttu til bæar Haka, tóku „dyr allar og[3] skála, er húskarlar sváfu í; síðan geingu þeir „til svefnbúrs þess, er Haki svaf í og brutu upp, og tóku í burt Ragnhildi og Guttorm bróður hennar, og allt fè það er „þar var, en þeir brenndu skálann og alla menn þá er inni „voru". (Heimskr. 2—5.). Hèr var enginn uppstaðinn af nætursvefni. Enn segir Snorri Sturluson og þar ásamt Noregs konúnga sögur:

Brenndur var upp með endum
allur, en það má kalla
hraustlegt bragð, er eg hugða
Heiðar[4] bær af reiði.

Von er að vinnum Sveini,
vark í nótt fyrir óttu,
gaus hár logi úr húsum,
harm, á borgar armi.

Hèr er það tvennt merkilegt. 1) að hafa staðið á borgararmi um nóttina, og 2) að það var fyrir óttu. *Ergo*: er óttan seint á nóttunni, og þó, sem Edda segir, fyrir dag. Eður hvernin skyldi miðmunda alleina hjá oss eptir orðið, ef að eykt og ótta, dagmál og náttmál hefðu aldrei neitt átt að merkja nema sjálf höfuðstrikin 8 stóráttanna í kompásnum, sem hèrum anno 1300 er fundinn, nærri 400 árum eptir Þorstein Surt.

§ 25.

Nú þótt að fornmenn vorir tæki við kristni, þá er hverki trúlegt, og ekki veit eg að það hafi nokkur skrifað, að þeir hafi þarfyrir umskipti gjört á dagsmörkum sínum. Hitt sjáum vèr, að fèránsdóma takmark var hið sama í heiðni og í Kristni; það sýnir sagan af Hrafnkeli goða, sem í heiðni gjörðist, samanborin við Sturl. lib. 1 cap. 18, sem gjörðist á kristinni öld. Eður hvaðan mun skapthá sól, nema frá heiðnum mönnum?

§ 26.

Ofaná allt þetta bið eg að hugleiddur sè sá vitlausi skakki dagsins, að hann skal hefjast á dagmálum nýgjörvínga kl. 9,

1) A og. 2) A hann kom. 3) A og. 4) B á. 5) B Heiða.

einum 3 stundum fyrir hádegi, en endast á náttmálum nýgjörvínga, 9 stundum eptir hádegi, og svo hið sama um nóttina. Eru þetta þó stóru stykkin, dægurin sjálf, af öllum svo kölluð, hvert[1] fyrir sig.

§ 27.

Mèr verður svarað, að morgun og aptan jafni þann skakka. Eg segi nei, allt svo lengi sem *thesis* Kristinrèttar Þorláks og Ketils byskupa um deilíng áttanna skal staðist geta, nema menn vilji innfæra það *absurdum*, að hverki skuli morgun nè aptan byrjast með átt sinni[2] nè endast, heldur miðt í ríki þeirrar áttar, sem þeim er næst fyrir og eptir.

§ 28.

Nú þegar vèr, sem áður er (sagt og[3]) ráð fyrir gjört, [comm. 8[4]]. hugleiðum ennfremur skipti dagsstundanna hjá Norðmönnum hinum eldri sjálfum, hvað skulum vèr þá af gjöra Kristindómsbálki Noregs konúnga í hinni fornu Gulaþíngsbók, þar sem stendur: „þat er nú þvínæst, at hinn sjöunda dag hvern er heilagt, oc köllum vèr þann sunnudag. En þváttdagur fyri scal heilagur at nóni, þá er þriðjúngur lifir dags, oc mánanótt at[5] hana—óttu, [svâ at ekki scal vinna[6]] etc. (v. comm. 31). Eg vildi gjarnan fá þetta rètt skilið, og vita hvenær sá dagur byrjast skal, er þriðjúngur hans sè þá eptir, að á nóni stendur *akribós* kölluðu, þegar sól er á sjálfum púnkti útsuðursáttarinnar. *a*) Ef hann skal byrjast á dagmálum nýgjörvínga, kl. 9 fyrir hádegi, og af honum 2 þriðjúngar á nóni, þá vill hann endast á miðjum aptni, og hafa 2 eyktir *communis tituli* frá hádegi, en alls eina fyrir, og verður hann þá einar 9 klukkustundir, þarsem þó hèr eru [dægurin[7]] talin [og[8]] dægraskiptin, og *nychthemeron* eigi deilt nema í tvo staði. Sleppir þá dagurinn allri tiltölu til morgunsins, en tekur aptaninn hálfan. Nóttin þarámóti fær hálfan aptaninn í sinn hlut og morguninn allan, og verður að leingð 15 klukkustundir, það eru tvær heilar eyktir fram yfir daginn. Og nú verður því ekki hèr til svarað, að morgun og aptan skuli jafna þann skakka, því allur helfingur aptansins er kominn í dagsins reikníng. *b*) Ef dagurinn skal byrjast á miðjum morgni

1) A hver. 2) A áttunni. 3) ( ) vantar í B. 4) [ ] vantar í A. 5) A til. 6) [ ] vantar í A. 7) [ ] vantar í B. 8) [ ] vantar í B.

og endast á miðjum aptni, þá er ekki nema fjórðúngur hans óliðinn á nóni því er sól stendur á útsuðurslínunni, og getur það eigi staðist við þessa fyrrskrifaða reglu Kristindómsbálks Gulaþíngsbókar, þótt þá yrðu dægurin óskökk, og kæmi 4 eyktir í hvers hluta, dags og nætur. Svo misstu þá líka dagmál og náttmál sína merkíngu, bæði þau fornu og nýgjörvínga. *c*) En ef hann skal byrjast á miðjum morgni, og eigi fyrr endast enn á náttmálum nýgjörvínga, þá verður dagurinn 5 eyktir að leingð, en nóttin 3 alleina, og þó getur ekki þetta staðist við þriðjúngsleifina dagsins á útsuðurslínunni, því þá skortir á tvo þriðjúnga heilan klukkutíma; og skyldi þá nón Gulaþíngsbókar ekki verða[1] fyrr enn kl. 4, þá eru fyrst liðnar 10 stundir frá miðjum morgni, en 5 eptir til náttmála nýgjörvínga, en dægra skakkinn fullar 6 stundir, sem strax var sýnt.

§ 29.

Hvar skal hann þá hefjast, svo *nychthemeron* skiptist jafnt í 2 staði og sè þó eptir þriðjúngur dags óliðinn á nóni? Eg get ekki til þeirra skipta nokkurt meðal fundið, ef að þetta nón skal standa *præcise* á útsuðurslínunni. Því segi eg, að þetta nón er kallað svo að eins í líkíng þeirra katólsku *horarum canonicarum*, er því voru svo nærri, en merkir og meinar allt hið sama að öllu, sem eykt hjá oss, *proprio nomine* kölluð, og svo margopt áður af Kristinrètti Þorláks og Ketils byskupa, svovel sem Jóns Erkibyskups og Staða-Árna Kristinrètti *accuratissime definerað:* „Það augnablik tímans, er sól hefir geingið 2 hluti útsuðursáttar, en einn ógeinginn", það er kl. 3 og 30 mín. eptir miðdag (vide comm. 1). Er þá eptir einn þriðjúngur dagsins, 4 stundir, til náttmála, kl. 7 og 30 mín., en liðnir 2 þriðjúngar dags, 8 klukkutímar, frá því endaði morguninn kl. 7 og 30 mín., í mínum og fornaldarmanna rèttum dagmálastað. Þá eru og ljós helfíngaskiptin millum dags og nætur óskökk, að aptan allur er með deginum talinn, en morgun allur með nottunni (v. c. 37).

§ 30.

En ef morgun og aptan skyldu jafnlángir hverr um sig, sem nótt og dagur hvert í sínum *terminis*, því skyldu þá dag-

1) vantar í A.

ur og nótt alleina dægur kölluð, en hverki morgni gefið það nafn nè aptninum, nema fyrir því, að stærri hlutirnir tímaleingðarinnar *absorbera* báða þá í dægraskiptunum.

§ 31.

Hvað er nú síðan líkara til hanaóttu þessa Kristindómsbálks, enn það, sem eg áður sagt hefi, að hún hefjist um nóttina kl. 3 og 30 mín. (§ 24). Mun ekki það nærri láta *gallicinio secundo?* Eður hver eru rök til að *destruera* það, er eg *tanquam probabile statuera*, að ótta vari um klukkustund nætur hina síðustu, gagnvart eykt, er gjörir hina síðustu dagsstund, þegar morgun og aptan hafa ríki sín óskerðt, og *subordinerast* ekki degi og nóttu?

[Eg hefi áður sagt (comm. 13) að mèr sýndist efanlegt, hvert Frostoþingsbók Hákonar kóngs með sínu nóni, meini *præcise* suðvesturslínuna, þareð hún[1] segir: „sunnudagshelgi rís upp að nóni á þvottdegi (cap. 24); því að eptir á síðan (cap. 35) um hlöss á helgum tíðum segir hún:[2] „Ef maður gjörir heyhlass eða viðarhlass fyrr enn heilagt er, þá skal hann reiða, þó heilagt sè, og það eitt innbera, er neyta skal um helgina við hjörð og hjú, en timburhlass og fjalahlass standi þar kyrt, sem komið er, þá er þriðjúngur dags lifir eptir, en önnur hlöss reiði til húss, þar er hann fyrst má fá hús[3]]. Eg skil ekki betur enn þetta sè að öllu samhljóða áður cíteraðri fornu[4] Gulaþingsbók, og liggi hèr til öll hin sömu svör og rök, sem þar eru sýnd og greind um þriðjúng laugardagsins hinn síðasta].

§ 32.

Að síðustu beiði eg, að mínir mótpartar í þessu máli gjöri grein og skil á hvað orðið „miðmunda" þýðir, hvernig það sè tilkomið, og hvarfyrir það sè[5] miðt í milli suðuráttar og útsuðursáttar. Því kann enginn að neita, að orðið „miðmunda" sè hjá oss almennilega kallað öðru nafni „miðdegi" og að miðdegisskeið, miðdegisbil, miðmundaskeið, miðmundabil, sè hjá öllum allt hið sama, þeim er vora túngu kunna.

§ 33.

Nú vantar mig svörin *partis adversæ;* en eg gjöri þá grein

---

1) B hann. 2) B hann. 3) [ ] þessa grein hefir B í nótu við § 28. 4) „fornu" vantar í A. 5) B situr.

á miðmunda nafni og merkíngu þess: Mund heitir tímapúnktur á vora túngu, svosem vèr segjum: „annað ár í þetta mund“ etc. Sumir tala þetta *in plurali et genere fœminino,* og segja: „þær mundir“, það er: um það tímabil. Þetta er kunnugra enn bevísíngar þurfi til að leiða; skortir þær þó ei í fornum sögum, því að svo segir Örvaroddssaga:[1] hafði Hildir fengið benjar á höndum[2]. Hann mælti: það skil eg við þig, Oddur! að þú komir í þenna stað annað vor í þetta mund. Item: Vígaglúmssaga cap. 21: nú fór Árngrímur á Grund, en Steinúlfur er eptir í Möðrufelli um nótt. En um morguninn sat Steinúlfur við eld og hafði smíð nokkra fyrir hendi, var það baukur nokkur, sem hússfreya átti. Í það mund kom Árngrímur heim og Þorvaldur Krókur með honum. Sagan af Jóni byskupi Ögmundsyni: í þetta mund var sá atburður á staðnum á Hólum. Vopnfirðíngasaga cap 6: það var sá siður í þær mundir, að beiðast úr búi. Laxdæla kap. 29: taka þeir bræður, Höskuldssynir, tal með sèr, að þeir muni efna til erfis eptir föður sinn, því það var tíðska í það mund. Sagan af Eigli einhendta og Ásmundi berserkjabana: í þær mnndir. „Mið“ vitum vèr að er miðja; því segi eg að „munda“ er *genitivus pluralis* af *nominativo* mund, svo að miðmunda er miðjan tímapúnktanna; því spyr eg: hverra tímapúnkta? Til þess andsvarar *synonymum grammaticum*[3] miðdegi, miðjan tímapúnkta dagsins. Enn spyr eg: hvernig má það satt vera, ef að dagurinn hefst á nýgjörvínga dagmálum kl. 9 og endast á nóni, svosem þeir vilja að þá skuli byrjast aptaninn, því að þá hefir fyrri helfíngur dagsins hálfa aðra eykt, en sá síðari ei nema hálfa eykt. Og þó þeir segi að dagurinn skuli teljast til nýgjörvínga náttmála, kl. 9 um kvöldið, einsog hann hefst á dagmálum þeirra, þá verður skakkinn samt um eykt, eður heilar 3 stundir, því að eptir miðmunda verður þá hálfþriðja eykt, en hálfönnur fyrir.

## § 34.

Hèr munu nýgjörvíngar mega hugsa sig um svar það, er hvergi skuli hrinda nè stjaka þeirra *thesibus.* Eg get engu hèr til svarað, ef þeirra *thesis* skal rètt vera. Því svara eg til annarar minnar spurníngar, að miðmundað, eður miðdegið hef-

1) B víða. 2) B höndunum. 3) B að það heitir. 4) B mega nýgjörv. etc.

ir bæði nafn og rentu, svo tilkomið, að það situr á miðpúnkti dagsins, þegar hann er byrjaður á sínum rèttu dagmálum, hálfri eykt eptir miðjanmorgun kl. 7 og 30 mín., og endaður á rèttum náttmálum, hálfri eykt eptir miðjan aptan kl. 7 og 30 mín. Hefir [þá[1]] hinn fyrri helfíngur dagsins [sínar[2]] fullar 2 eyktir, og svo hin síðari tvær aðrar þar á móti. Því situr og heitir miðmundað, miðsreitis í millum suðurs og útsuðurs, hálfri eykt eptir hádegi og hálfri eykt fyrir nón. Höfum vèr þá dægrið fullt, að 4 eyktir fylgja deginum, en aðrar 4 nóttunni frá náttmálum um kvöldið, hálfri eykt eptir miðaptan, og til dagmála um morguninn, hálfri eykt eptir miðjanmorgun. Og nú er áttadeilíng Þorláks og Ketils byskupa óskekkt og ótrubluð.

## § 35.

Ofan á það, sem öllum almenníngi[3] er kunnugt, að þá heiti miðmunda dagsins, að sól er komin *præcise* á suðsuðvesturs[4] línuna og liðin er hálf eykt frá hádegi, þá meðkennir það byskupinn mag: Þórður Þorláksson í sínu seinasta útgèfna rími 1692 kap. 19. pag. 97., og játar þar, að klukkan sè þá eitt og 2 kvarter; eykur því og hèr við, pag. 98, að hálf eykt sè millum hádegis og miðmunda, og hálf eykt millum miðmunda og nóns. Og þótt sá góði mann ekki væri gjarn á að láta sèr *persvadera* mót sínum *præconceptis opinionibus*, þá leiddu þó mínir *discursar* hann til þess, að hann skrifar á sömu pag. 98 náttmál, þá sól er í vestnorðvestur kl. 7 og 2 kvart., item, milli miðaptans og náttmála hálf eykt. Lètst hann það finna til röksemda þessu, að alstaðar hèr á landi væri náttmál með dagsmörkum talin, þar þó allvíða næði sól aldrei norðvesturs áttu, sem vèr köllum útnorður, og víða næði hún þángað eigi nema fáeina daga í sjálfu *solstitio vernali*. En samt vildi hann ekki láta af sínum nýgjörvínga dagmálum kl. 9. í suðaustri rèttu, jafnvel þó eg sýnda hönum, að öll gömul dagmálamörk hjá oss, hvar sem maður kemur í landinu, standa rètt á austsuðausturs[5] línunni kl. 7 og 30 mín. f. m.; og mátti það ekki hjá honum gylda, að dagmál og náttmál ættu hvert öðru gagnvart að standa; dagmál þegar sól kemur allrafyrst[6] í ríki landsuðursáttar, náttmál þegar sól kem-

1) [ ] vantar í A. 2) [ ] vantar í A. 3) A almennilega. 4) A suðvesturs. 5) A austsuðurs. 6) A fyrst.

ur hið fyrsta augnablik til útnorðursáttarinnar,[1] það er hálfri eykt fyrr enn hún kemst í miðpúnkt ríkja þeirra kl. 9. En ef þetta er ei rètt, þá bið eg mèr sè kennd rök og [meiníng[2]] miðmundans.

§ 36.

Ef mèr verður svarað, að rök miðmundans gjörist öll hin sömu með því að byrja daginn á nýgjörvínga dagmálum kl. 9 f. m. og enda hann á miðjum aptni kl. 6 e. m., því þá sè jafnt frá miðmunda, hálfönnur eykt fyrir og eptir; þá svara[3] eg, *ut supra* comm 28, að[4] skakki dægraskiptanna líður það með engu móti, þegar *nycthemeron* skal að jöfnu deilast, svo sem allar þær greinir tilætla[5], sem í helgitalinu geta dags og nætur,[6] því að þá skyldi nótt strax á miðjum aptni, og væri þá náttmál alls ekki náttmál og svaraði að engu nýgjörvínga dagmálum, *quantum vi vocis infertur*, sem hèr[7] gjörir allan krapt merkíngarinnar og í engu stjakar hvað öðru nè hrindir eptir mínum *thesibus*.

§ 37.

En það er[8] eg tel[9] deginum allan aptaninn, en nóttunni morgun allan, kemur af því sem tíðast er hèr á Norðurlöndum, að menn hafa seint aflokið verkum sínum að kvöldi, og tegja því meir fram á nóttina, en taka síðan daginn í þess[10] stað, því að menn verða ei strax fullhvíldir,[11] þegar jafnlángt er liðið frá miðnætti, sem þá var til þess, er menn geingu að sofa, svosem vottar þjónustufólks venja hjá öðrum þjóðum, að gánga ei til sængur fyrr enn klukkan er[12] 10, og rísa ei fyrr enn hún er 5 að morgni.

Ef það er þá[13] rètt, sem nú hefi eg sagt um miðmunda, hvarfyrir skal þá ekki mega á saman hátt láta Kristinrèttina ráða fyrir, hvað að sè eykt og[14] eykthelgi, sem eg þykist af 4 *nobilibus membranis* hafa *demonstrerad*.

§ 39.

Per hanc itaque nostram evidentem, ut nobis quidem videtur, demonstrationem, discutitur obscuritas loci vexatissimi,

---

1) B þegar hún nemur hið fyrra augnabl. útnorð. 2) [ ] vantar í B, 3) B segi. 4) A sá. 5) vantar í A. 6) segja A. 7) vantar í B. 8) om: A. 9) A öllum. 10) B þann. 11) A hvíldir. 12) B sè. 13) A nú. 14) A eður.

quem in Addendis ad Vinlandiæ[1] suæ pag. 7am profert celeberrimus Rerum Norvegicarum historiographus Thormodus Torfæus, latitudinem Vinlandiæ[2] ex ortu et occasu solis monstrare conatus. Locus ex Snorronis Sturlæsonii Chronico norvegico, quod Historia Regum septentrionalium vocatum, sub titulo Heimskringla prodiit in lucem opera clarissimi Johannis Peringskjold, prout ex capite CVI pag 320 illum Thormodus exscripsit; hic est: „meira var þar jafndægri enn á Grænlandi eður Íslandi. Sól hafði þar eyktarstað og dagmálastað um skammdegi". In quo non vertendo tantum sed et[4] enodando operam luserunt nobilissimi et antiquitatum nostrarum peritissimi viri, quorum Thormodus meminit loco allegato: videbor forte non mediocris philautiæ, si existimem, mea versione dilucidum fieri posse, in quo tot perspicacissimi viri caligarunt. Sperans autem illorum veniam ita transfero verbum verbo reddens: Major erat illic dierum ac noctium æqualitas, quam in Grönlandia aut Islandia. Sol illic hora dimidiata post meridiem quinta occidit, ortus hora dimidiata ante meridiem, octava brumæ temporibus. Qvid in his tam dilucidis obscuri sit, ego non video; quod enim lingva originalis „jafndægri" nominat, non intelligit diem ipsius æquinoctii, cum sol Arietem aut[5] Libram primo ingreditur, sed[6] docet, non fieri in Vinlandia tantum discrimen longitudinis noctium in comparatione longitudinis diei, quantum fit in Islandia aut Grönlandia; quippe cum in Islandia dies brevissimus sit horarum trium et triginta minutorum, nox autem longissima horarum viginti et triginta minutorum, ab occasu ad ortum solis hyberni discrepantia seu inæqualitate septemdecim horarum, quibus longitudo noctis diem superat. At in Vinlandia ab exortu solis, Capricornum ingredientis, ad eius occasum, horæ novem numerentur, a dimidiata octava matutina ad dimidiatam quintam post meridiem, nec noctis longitudo longitudinem diei, nisi sex tantum horis, excedat. Hoc ipsum est, quod ait „meira jafndægri, ɔ: majorem æqualitatem longitudinis inter partes

1) A Vindlandiæ. 2) A Vindl. alstaðar. 3) A XV. pag. 331, B CV. pag. 331. 4) vantar í A. 5) A et. 6) B id.

*nycthemeron*", meiri jöfnuður dægranna", minor discrepantia inter dierum et noctium longitudinem, quod illi „meira jafndægri" vocat. Voculas autem „eykt" et „dagmál", quæ tam perspicacibus oculis tantam caliginem obfuderunt, tot præmissis argumentis enodasse videor, ac in aprico constituisse, ut ab æquis rerum censoribus adprobationem confidenter mihi pollicear, quæ proinde[1] toties repetita, repetere nihil attinet.

Id saltem[2] pace nobilissimi Torfæi orare liceat, velit pro sua, qua pollet, eximia comitate docere, quibus nixus rationibus synonyma grammatica fecerit[3] „óttu" et „rismál", cum „ótta" vel tertiam matutinam horam notet, vel, quod verius credo, incipiat hora[4] dimidiata quarta, et desinat dimidiata quinta matutina, ut superius diximus. „Rismál" vero légimus in codice juris islandici titulo „Landslb. cap 16º: hírðisrismál", quod ibidem definitur, cum sol ipsum punctum orientis plagæ medium occupat, ortus videlicet æquinoctialis, quod vulgo „miðjanmorgun" dicimus. Nec abludit historia „af Hrafnkeli Freysgoða cap. 11mo: voru þá liðin rismál, eigi var fólk neitt uppstaðið". Ubi negligenda non sunt, quæ præmittuntur, nempe quod prima aurora devenerint[5] in Jökulsdal, ubi fluvium Jökulsá ponte transgressi, summum collis jugum, quod Jökulsdal et Hrafnkelsdal dirimit, secundum longitudinem emensi sunt, vitato[6] hominum in vicinia Hrafnkillis conspectu; unde præcipites descenderunt ad prædium Adalbol, Hrafnkillem invasuri. Qvod quidem iter aliquantulum temporis poposcisse nemo non videt, utpote sesquimilliare germanicum. Hæc autem, cum circa nonas Julii gesta sint[7], apprime conveniunt horæ sextæ matutinæ præterlapsæ, quod „liðin rismál" vocitat, ut et ea, quæ cap 14to ejusdem historiæ leguntur: „þá var jafn nærri rismálum og dagmálum"; adeoque non video, quomodo nostrum „rismál" et „ótta" pro eodem haberi possint, cum „ótta" perpetuo antelucanum tempus, vix autem summum mane, seu ipsum diluculum, denotet, ut superius ex Edda Snorronis monstravimus, cui concinit[8] Edda Sæmundi

1) vantar í A. 2) A autem. 3) B vocem. 4) B horam. 5) A devenerunt. 6) A in tuto. 7) A sunt. 8) A corrupte: concinnit.

in Atlamálum „grænlendsku“, conjungens tamquam [ordine[1]] sequentia „óttu alla og öndverðan dag“; nec uspiam „rismál“ in alio sensu hactenus observare licuit, quam qui[2] exacte sextam matutinam horam inferret, uti nec „óttu“, quæ tempus aliud, quam noctis ultimam partem, notaret, exceptis saltem monachorum „óttusaungum“, qui quam[3] fluctuent [supra[4]] discussimus. [[5]Otta pro tempore matutino est ipsa eademque vox ac Græcorum *orthos*' cum idem utrumque significet, utrumque literis iisdem scribatur, mutato *r* Græcorum in *t*, et terminatione masculina in fæmininam. Exemplum mutati *r* in *t* petatur ex Salmasio de lingva hellenistica, pag. 366 ad 375].

Nú máske eg þurfi til þess að svara, sem Edda mælir: „Frá jafndægri er haust til þess er sól setst í eyktarstað. Þá er vetur til jafndægris. Þá er vor til fardaga. Þá er sumar til jafndægris“. Hèr vilja þeir segja mèr, að eyktarstaður sè þegar kl. er 3 *præcise* e. m.; það er eptir rími mag. Þórðar útgeingnu anno 1692 undir *gradu latitudinis* 65 á miðju landi, þann 3ja novembr, í gamla stíl, en 14da novembr í nýa stílnum. Verður þá haustið frá 12ta septemdr í gamla stíl og 23 sept í nýa stílnum, að meðtöldum þeim deginum sem sól geingur í vigtarmerki, en eigi þeim sem hún setst í þeirra eyktarstað, 52 dagar. En veturinn til 10da marts í gamla stíl og 21ta í nýa stíl, að meðtöldum þeim deginum er sól setst í[6] eyktarstað, en eigi þeim er hún geingur í hrútsmerki 127 dagar. Síðan vorið frá 10 marts í gamla stíl, og 21 marts í stílnum til fardaga þann 24da mai í gamla stíl, en[7] 3ja juní í nýa stíl — það er miðmunda fardaganna, sem hrærast á 7 dögum — að meðtöldum þeim deginum, sem sól geingur í hrútsmerki, en eigi þeim, er vera skal hinn fyrsti fardagi, 75 dagar eptir gamla stíl, en 74 dagar eptir nýa stílnum. Sá eini dags munur kemur af því, að í stiptun fardaganna nú í nýa stíl, var eigi burtkastað nema 10 dögum fyrir það sem stíllinn var úr lagi geinginn, og það þessvegna; að fardagarnir skyldu hjá oss verða[8] aldeilis í sama púnkti, sem þeir höfðu staðið frá anno 1600. Nú er þá sumarið frá fardögum þann 24 maí í gamla stíl, eður 3ja júní í nýa stíl, til jafndægris, 12ta septembr

---

1) [ ] in A omiss. 2) víst rèttara: quod, eður quæ. 3) A jam. 4) in A omiss. 5) [ ] eptir B sem Skýríngargr. við § 16. 6) A þeirra. 7) B eður. 8) B vera.

þess gamla stílsins, eður 23ja sept. Í þeim nýa stílnum, að meðtöldum þeim 24 maí eður 3ja júní, en ótöldum þeim 12ta eður 23ja sept., 111 dagar í stílnum gamla, en 112 í hinum nýa stíl, því hèr kemur fram í nýa stílnum sá eini dagurinn, sem þessu næst brast hann uppá leingð vorsins, fyrir þá orsök, er eg til þess sagða; og nú höfum vèr alla fjórðúnga ársins með dagatali millum sinna takmarka, þeirra sem Edda greinir, og það svo sem mótpartar mínir um[1] eyktarstaðinn vilja sjálfir eyktarstað kalla. En Edda skipar eyktarstaðinn takmark haustendíngar og vetrarinngaungu. Er svo:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| haustið . . . . . | dagar | 52. | | |
| veturinn . . . . | „ „ | 127. | | |
| vorið . . . . . . . | „ „ | 75. | v. | 74. |
| sumarið . . . . . | „ „ | 111. | v. | 112. |
| | Summa | 365. | | |

Skortir nú haustið á jöfnuð við leingð vetrarins 75 daga, en uppá leingð vorsins 23 daga og á mót leingð sumarsins 59 daga. Vorið er 36 dögum skemra enn sumarið, en 52 dögum skemra enn veturinn, og þó samt 23 lengra enn haustið. Sumarið 16 dögum styttra enn veturinn, og þó 36 dögum lengra enn vorið, en 59 dögum [[2] lengra enn haustið, þarsem þó að sumarið er 4 dögum lengra enn veturinn, þegar árið er skipt í 2 missiri alleina, svosem *demonstrerad* skal verða[3] *in voce* „Tvímánuður“. Þarámóti verður í þessu ferskipta ársins dagatali veturinn 16 dögum lengri enn sumarið, en 52 dögum lengri enn vorið, og 75 dögum lengri enn haustið, svo að enginn af þessum 4 pörtum ársins verður öðrum jafn að dagatali, á millum þeirra takmarka, sem vorir fornaldarmenn hafa þeim ákveðið, jafnvel þó nýgjörvíngar telji sinn eyktarstað, þá klukkan er *præcise* 3[4] e. m. En í þann eyktarstað 3ja novbr í gamla stíl og 14da novbr í nýa stíl, náir aldrei nokkur vetrarkoma sínu sæti; þvíað í gamla stíl er hún allra seinast Lúcasmessu þann 18da okt., og það alleina á varnaðarári, og í nýa stíl síðast á þann 27da okt., deginum fyrir *Simonis et Judæ;* þó eigi svo seint nema á sumarauka ári.

Vilji menn telja vetrarkomuna með nýgjörvíngum á sólstöðum, þá sól geingur í steíngeitarmerki, þá fer allra fjærst eyktarstaðnum hèr á landi og í öllum Noregi fyrir norðan Stað,

1) vantar í A. 2) [ ] vantar í A. 3) B eg dem: skal. 4) 3 vantar í B.

og því meir sem norðar er. Vilji menn eptir gamla *calendario* þeirrar rómversku kirkju telja vetrarkomuna á Klemensmessu, svosem versið hljóðar: „*Dat Clemens hyemem*“ etc. „Klemens vottar vetur“ etc., þá náir sólin aldrei eyktarstað nýgjörvínga þann 23ja nov., á Klemensmessu nú í nýa stíl, þvíað undirgángur hennar skal þá vera hèr á miðju landinu kl. 1 og frekar 54 mín. eptir rími mag. Þórðar; vantar hana þá heila klukkustund og nær 6 mín. af annari, til að ná eyktarstað nýgjörvínga. Og enn síður náir það heim, ef vèr sköpum Klemensmessu það sæti í þessum nýa stíl, sem hún átti næst áður í stílnum, því það yrði[1] á sjálfa Barbarumessu, 4da dec., þá er sólsetur kl. 1 og 28 mín. ekki full, eptir rími mag. Þórðar; svo nú skortir hana heila klukkustund og 32 mín. af annari til að ná eyktarstað nýgjörvínganna sjálfra, svo eg get eigi skilið hvar þeir kunni sinn fót að festa, til að *salvera* þeirra eyktarstað á útsuðurslínunni, þegar eyktarstaðurinn skal vera takmark haustsins endíngar og vetrarins inngaungu, svosem reglan af Eddu krefur og skipar.

En fyrir þann eyktarstað, sem eg kalla vera, þegar kl. er 4 og 30 m., og samkvæmur skuli vera reglunni, sem skipar hann fyrir takmark hausts og vetrar, gef eg þessi rök:

1) Það er öllum kunnugt, að vetrarkoma hrærist á 7 dögum upp og niður, og á varnaðarári hrærist hún á hinn 8da, en gángur sólarinnar stendur óbrygðull, svoað jafnan nemur undirgángur hennar í eyktarstað á þann sama tímapúnkt í sama stað heimsins, þótt það verði eptir því fyrri eður síðar á dögum ársins, sem staðurinn er norðarlega eður sunnarlega, sem smábörn vita. En eg get þess alleina fyrir þá orsök, að eigi sè rímreglan af Eddu skilin íllgjarnlega, svosem hún niðurbrjóti sjálfa sig með þrítugnætta mánaðatalinu og vetrarinngaungunum æfinlegum á laugardegi, þeim er þó skeikar á mánaðardaga tali *calendarii juliani* um heila viku fram og aptur; Þvíað reglan í[2] Eddu [um eyktarstaðinn[3]] meinar svo, að á þann laugardag, sem næstur vill innfalla fyrir sólar undirgáng í eyktarstað, eður á hann sjálfan, eður allra síðast deginum eptir þá sólar niðurgaungu, sè takmark vetrarkomunnar æfinlega.

2) Sama er að öllu fyrir haustmánaðar inngáng að segja,

1) A b., við nú. 2) B af. 3) [ ] vantar í B.

að fimmtudagur, hans komu takmark, skeikar upp og niður á septembr mánaðar dagatali, og ratar sjaldnar á sjálfan jafndægrapúnktinn, heldur enn á fimtudaginn honum næsta fyrir eða eptir. Því eiga reglunnar orð: „frá jafndægri er haust" að skiljast svo: það er regla himintúnglanna gángs, að haust hefjist með jafndægri, en vèr köllum þann haustmánuð, er á fimmtudaginn jafndægrunum næstan inngeingur, svo að þaðan sèu 30 nætur til laugardagsins fyrsta í vetri.

3) Af áðurnefndu[1] rími mag. Þórðar er sýnilegt, að sólarundirgángur hèr á landinu undir gr. 64, sè vafalaus kl. 4 og 30 mín., það er í eyktarstað fornaldarmanna, sem eg *propugnera* á þann 17da okt. í gamla stíl, það er þess ríms síðasta vetrarkoma á föstudag, og nú náir sól eyktarstað undireins og veturinn geingur inn. Nú verður sá dagurinn í vetrarkomu reglum[2] nýa stíls hinn 27 okt., vegna þess eina dags, sem fyrr er getið að vèr eigi vildum burtkastað hafa frá almúgans búmannareglum; og náir þá enn sólin hjá oss eyktarstað hinna gömlu, þegar vèr fáum vetur. Þegar nú í gamla stíl var rímspillis ár, og vetrarkoman var eigi böguð[3] úr skorðum — þeirra gömlu — uppá föstudag nýgjörvínga, þá kom vetur á laugardaginn 18da oktobr., sjálfa Lúkasmessu, það er næsta daginn eptir það sól hefir niðurgeingið í mínum eyktarstað, og eins geingur það minni vetrarkomu nú í þessum nýa stíl.

4) Á þess enn nú hèr að gæta, sem sumar og vetrarkoman hafði[4] skeikað upp eptir dögum *calendarii juliani*, ámeðan gamli stíllinn varaði, frá því rímregla þessi var *conderud* á heiðnum tíðum, að vetur kæmi þá er sól setst í eyktarstað, og fram til anno 1700, þá stílsins *reformatio* skeði. Og að því hugleiddu, sjáum vèr, að þá í fyrstunni hefir veturinn náð sólsetrinu í eyktarstað optar enn á rímspillisárum og sumarauka, svo sem ljóst verður af Stjörnu-Odda tali, því er Blanda skýrir frá í sínum rímreglum, að sólstöður urðu þá 15da decembr, *et sic de ceteris*, sem allt hnígur til þess, að vetrarkoman í þrítugnætta mánaða-ríminu verði því optar og nær sólarundirgánginum í eyktarstað hinna gömlu manna, sem haustmánaðar inngánginn miða við jafndægri.

5) Það er enn til vitnis, að strax eptir þráttnefnda reglu telur Edda alla 12 þrítugnætta mánuði [ársins][5] svosem eg

---

1) A áðurminnstu. 2) A vetrarkomunni n. st. 3) B. bjöguð. 4) A vetrarkomurnar hafa. 5) [ ] vantar í A.

hefi þá uppteiknað í mínum tvímánuði, og byrjar Edda það tal mánaðanna[1] með þessum orðum: „Haustmánuður heitir hinn næsti fyrir vetur. Fyrstur í vetri heitir Gormánuður; þá er Frermánuður, þá er Hrútmánuður, þá er Þorri etc“ Hvar fáum vèr nú rúm eður leyfi til að tegja fram haustið lengra enn til venjulegra veturnátta, þegar sól setst í eyktarstað fornmanna kl. 4 30 mín., þann 17da októbr í gamla stíl, að vitni mag. Þórðar, sem áður er ritað? Og þó þeir vildu svara, að þessi vetrarkoman sè gjörð til missiraskiptis, þegar sumar og vetur *absorbera* vor og haust, þá sýnir reglan undangeingna, að fjærri fer því, þar sem hún hefir takmarkað [sèr[2]] haust og vor, og lætur samt veturinn þennann inngángspúnkt eiga, en klippir af honum ofanverðum, það er: hún leggur vorinu til í þess hluta, og svo af ofanverðu sumrinu, að allir sjá, að hún skiptir árinu í 4 parta, þótt mislángir verði svo mjög sem áður er *demonstrerad*. En því einu á við þá *demonstratión* að auka, þegar hèr er komið, að eptir *thesi adversæ partis* var í þeim reikníngi leingð haustsins ofaukin um 22 daga. Og þar sem nú meina eg mig sýnt hafa, að sá eyktarstaður nýgjörvínga, sem þá var eptirleitað, hefir engan þann grundvöll, er staðist geti við nokkra vetrarkomu, þá eiga nú þeir 22 dagar frá haustinu að takast og setjast framan við veturinn, svo að hans dagatal í þessum rèttskilda *computo* [verði[3]] 149 dagar, en haustsins einir 30, og síðan vors og sumars dagatal, sem fyrr ákveður, nema menn vilji heldur skjóta haustsins inngángi *præcise* uppá jafndægrapúnktinn, eins þegar hann fellur inn á seinustu dögum tvímánaðar, og eykur það þá haustins leingð um eina nótt, tvær eður þrjár, þótt haustmánaðar inngángur brjálist hvergi af sínum fimmtudegi, 30 nóttum fyrir vetrarkomu laugardaginn.

6) Vil eg nú loksins gjöra skil fyrir því, hvernig það kemur til, að vorir fornmenn öktuðu svo lítils skakka tíma þessara,[4] þar 4 skyldu teljast partar ársins; bið eg því, að menn athugi, hvernig þeir katólsku skiptu sínum fjórðúngum. ***Dat Clemens hyemem etc,*** ei af því, sem himintunglanna gaungu stórmerki fyrirmynduðu sèrdeilislega, heldur eptir því sem í þeim heitu löndum var tíðast, að veðuráttufarið tæki til að kólna um Klemensmessu skeið, 23ja nóvembr, mildast aptur um Pèturs-

1) B mánaða. 2) [ ] vantar í A. 3) [ ] vantar í B. 4) A þessa.

messu bil., 22 febr., hitna merkilega við Urbanimessu, 25ta maí, en einna sterkastur hitinn við Symphoriani tíðir, 22 aug. Eins lètu vorir fornaldarmenn í þessum köldu löndum, meðalára veðuráttufars tíðustu venju gjöra fjórum ársins pörtum nafngiptaskiptin; kölluðu þá haust, er nótt gjörist lengri enn dagur, sem sól er uppi, og lètu það vara, þartil sól væri undir horizonte fimm áttundu hluti dags og nætur samantalinna. Þaðan frá skyldi vetur heita til jafndægris, því að ógjarnan feingi sólin jafnsnart[1] aptur blíðkað veðuráttuna, svo sem hún hafði kólnað, og fellt á jörðina jökul, snjó og ísa, svo sem raun gefur vitni, að opt fellur sá snjór hjá oss á einu dægri, sem ekki leysir 7 daga blíðviðri. Þá samt þegar svo var áliðið, að sól var leingur uppi enn undir horizonte, þótti þeim að líkindum sem blíðkast mundi loptið, vermast jörðin og jökull þiðna, kölluðu því vor með jafndægrunum. En af því þá þurfti sól alloptast lengri stund til að bræða lángstundum frosinna ísa lög og klakaðar grundir, teygðu þeir sitt vor, til þess er sýnilegur væri sumargróðinn í fardögum, og lètu svo þaðan í frá heita sumar fram til haustjafndægra, en gáfu engan gaum að hverr mismunur tímaleingðar yrði, heldur lètu eðlilegt meðalárferði nöfnum tímanna ráða, svo sem landsins náttúru þótti sambjóða.

Af þessari helgi sem byrjast með eyktinni, hálfri klukkustund síðar enn sól væri í útsuðri, kemur það, er Grágás mælir og öndverðlega var ritað um eykthelgan dag. Hann fráskilur Llb. 26 frá fimmtarstefnum, þareð hann mælir: „sè allur dagur til stefnu“. Svo kveður og Grágás að orði um hinn síðasta dag í alþingi hinu forna: „Rèttur er sá dagur allur til stefnu“. Og má það ekki hneixla lesarann, er hèreptir skrifa eg *in voce* „Þíng“, að alþing hið forna hófst áltíð á fimmtudegi þeim, er byrjaði hina 11tu viku sumars, sem þar skýrir. Nú vildi svo bera við í þá daga, þegar sumar kom hinn 10da apríl, þá hófst alþíng á fimmtudegi, 19da júní, en endaðist á fimmtudag, 2ann júlí; þó var sá dagur allur til stefnu, sem Grágás segir í áðurskrifaðri grein, þvíað í þær mundir var enn þá ekki stiptuð Maríumèssa, er vèr köllum *visitationis;* Þá helgi bauð fyrstur Urbanus páfi 6ti. Hann varð páfi 1379, og deyði 1389. Hvert árið síns[2] páfadóms hann hafi þá helgi

1) A skarpt. 2) A hans.

boðið, þori[1] eg ekki að segja fyrir víst, enn þó mèr sýnist líklegt það hafi verið á hans síðustu árum, og eigi mjög altíðt orðið, áður hann deyði; þvíað Bonifacius 9di, sem varð páfi næstur eptir þennan Urbanum, *confirmeradi* messudaginn, svo sem vottar Helvaderus, en árið[2] hefi eg sett eptir *Chronologia Helvici*. Er þessi Maríumessa *visitationis* í engum þeim gömlu Kristinrèttum, sem þá voru til er Jónsbók var útgefin.

Af öllu þessu er sýnilegt, að þau *formalitet* Llb. 26, sem færa þetta skilorð: „sè allur dagur til stefnu", eru eintómis *residua pontificiæ religionis*, sem aldeilis hafa sinn anda uppgefið, síðan viðtekin er sú evangeliska *Religion* eptir kenníng Lutheri. Þó eiga ekki hèr að gleymast konúngs Kristjáns 5ta hálofiegrar minníngar, og síðan vors allranáðugasta *regerandi* konúngs Friðriks 4da fororðníngar, um þann árlega föstu- og bænadag, á[3] fjórða föstudag eptir páska. En fyrir utan þann eina fimmtudag á árinu, sem næstur er fyrir þann bænadag, eru allir sýknir dagar rèttir til stefnu og annara lögsókna meðan sól er uppi um sumar, en dagur um vetur, eptir Framfb. 10 kap, að ógleymdum þeim tímum, sem eptir boðorði lögmálsins eru fráskildir [því[4]], að halda megi rèttargáng og þíng, eður dóma, hverjir þó ekki fyrirbjóða, að lesa mönnum stefnur, svovel þá sem ella.

Ef mèr verður svarað, að Svithúnsmessa hafi samt heilög verið á þann sama dag, 2 júlí, þá andsvara eg, að sú helgi var ei haldin hèr á landi. Það sýna Kristinrèttirnir, sem hèr geingu í þá daga, og ekki var hann meir enn 3ja aura dagur hjá Norðmönnum. Það er ljóst af Kristinrètti Gulaþíngsbókar hinnar fornu og Frostaþíngsbókar Hákonar kóngs, og í hverigum þeirra Kristinrètta er nónhelgi nè fasta boðin fyrir þeim messudegi; þó var hann hjá Norðmönnum löghelgur fyrir verkum, en virkur hèr á landi, og er því ekki að undra Grágás segi þann allan dag til stefnu.

## Arðuruxi.

Kaupab. 6. *Arðuruxi gamall á vor, þat er metfè.*

Björn á Skarðsá segir, að arður sè dregið af erjan, og er það svo mjög líklega sagt, að eg hefi það fyrir full sannindi; en

1) A kann. 2) B ártalið. 3) A þann. 4) [ ] vantar í A.

orðið að „erja“ eður „ara“ á ætterni sitt allt og uppruna sama sem orðið gríska *arao* eg yr eður erja, af hverju latinumenn hafa dregið sitt *aro*, eg erja. Svo er þá arðuruxi = erjunaruxi = sá sem dregur plóg í akuryrkju; og er það víst, að arðuruxar allir meiga akneyti heita; en hvert öll akneyti séu rèttkölluð arðurnaut, læt eg ósagt af ókunnugleik akuryrkjunnar, þó mèr skiljist sem öll akneyti megi vel spennast fyrir plóg og akuryrkju. Á þess hèr að gæta, að allskonar yrkíng jarðar er í þeim fornu Noregs lögum, sem vorri lögbók eru næstum jafnaldra, skilin undir því eina orði: arðurmáli, svosem bæði í Frostuþíngs og Heiðsivja þíngsbókum segir í Llb. 1.: „Scal hann á þeirri jörðu sitja, svo lengi sem vottar vitu, at hann tóc sèr arðarmála“. Item Llb. 6 segja báðar: „En ef umboðsmaður kóngs byggir kóngsjarðir at arðarmála rèttum“, Þetta hvorttveggja skilst mèr yrkjumáli, yrkíngarmáli. Annars er það og víst. að arður merkir stundum ávöxt, og þaðan er orðskviðurinn: það dregur lítinn arð; en þó í því sè *tropus metonymiæ efficientis pro effecto*, því yrkíngin er orsök ávaxtarins. Stundum er arður settur fyrir sáðkornið *per metonymiam adjuncti*, svo sem Arnór Jarlaskáld kvað: „aurð sær Yrsuburðar“, það er; hann sær (sáir) aurð (arði) Yrsuburðar (sonar Yrsu) ɔ: Hrólfs Kraka, sem gulli sáði á Fýrisvöllum.

## Afsifjar hann.

Erfðat. 28. *Gefa má maður vingjafir at sèr lifandu, hesta eður yxn, vopn eður þvílíka gripi, svo og klæði, oc afsifjar hann sèr, þó svo, at skynsömum mönnum virðist ei til arfsvika gjört.*

Hèr er í orðinu „að afsifja“, *tropus metaphoræ* dregin af mægðum; þær heita sifjar í gömlu máli, *vide* sifjar *suo loco*. Svo glósan merkir ei annað enn hann skilur svo fyrir, að þeir gefnu gripir skuli þaðan í frá alls ekkert eiga skyldt við hann, nè hans frændur og tengðamenn, og hverki gefandi nè neinir hans frændur nè mágar, skuli til gripa þeirra neitt tilkall þaðan af eiga.

## Á b ó t i.

*Abbas*, formaður reglubundinna klaustramanna og konventubræðra, sem múnkar voru kallaðir hjá oss af *monachus*, svo

sem þeir heita einlífismenn. En *abbas*, af hverjum ábóti er smíðaður, er bagað eptir ebresku „abba", svosem væri hann faðir, foríngi, yfirvald, stjórnarmaður og forsjónarmaður múnkanna. Þá voru klaustrin hèr á landi: Múkaþverá, Þíngeyrar, Helgafell, Viðey og Þykkvibær í Álptaveri, en á Möðruvöllum og á Skriðu voru priorsklaustur.

## Áfáng.

Þjófab. 17. *Sá fer til, er léði, oc tecur af hönum lánið, þá gjaldi sá hálfa mörk at áfángi, er scip eður hross átti.*

Þetta áfáng er rèttur sá, sem hann, er misgjörð líður, skal fá (fánga) á þeirri misgjörð, að gripir hans eru brúkaðir leyfislaust, svo sem vèr segjum í daglegu máli: Hvað fær þú á því? Ekki fær hann á því; það er: engar bætur fær hann fyrir það. Vitni til þessa eru Gulaþíngsbók hin forna síðast í Leysingslögum: Ef maður tekur svein manns og ræður á verk fyrir sèr, þá ábyrgist hann sveininn og gjaldi honum áfáng, ef hann heimtir, nema hann taki hann á laupstígi". Hèr sjáum vèr, að áfáng eru bæturnar. En allra ljósast verður þetta af sömu bókar Llb. 21. Þar segir: „Nú skal engi maður taka „skip manns, nè hross, nema hinns sè leyfi, er á; nú ef hann „tekur, þá skal hann gjalda hálfan annan eyrir; nú ef hann „stendur hann á skipi sínu, eður á hrossi, og krefur hann á-„fángs, þá er vel ef hann vill gjalda honum, en ef hann vill „eigi, þá eykst hálfu, og ránbaug konúngi Nú tekur maður „skip manns, það er sessum má telja, þá er sá sekur af 3r „mörkum, er stýrimaður gjörist að því skipi, en hálfan ann-„an eyrir gjaldi hann fyrir þóptu hverja; hvarki skip er tek-„ur þá skal sitt áfáng gjalda hverr frjálsra manna. Afáng á „maður á hrossi sínu, hvert sem hann tekur eða ríður, eða ber „byrðar á, þá er áfáng, og ef hann hefir lengur enn lènt sè. „Allir menn eiga áfáng jafnmikið, bæði þegn og þræll. Ef „maður tekur skip manns, þá skal hann einu áfángi fyrir bæta „bæði mann sinn og sig, og svo þá, er í ómegð eru. Kon-„úngur skal eigi áfáng taka og eigi gjalda. Hleypur maður á „hest manns söðlaðan, þá skal hann leysa sig áfángi ofan. „Nú ef hann hleypur á hest manns ósöðlaðan og keyrir hann „fram, þá skal hann leysa sig áfángi ofan; ef hann keyrir eigi

„fram, þá skal hann eigi bæta. Item: þræll á ei áfáng á sínu „fè, en ef maður hittir þræl manns á hesti sínum, eða á skipi, „þá á hann ei á sèr, þó að hann sè barður, en drottinn hans „gjaldi ei áfáng“.

Hèr er eitt öðru skýrara til að sýna það áfáng sè rèttur sá eða bætur, sem gjalda skal þeim, er misgjört var móti; og verður eigi sagt að rángt sè tiltekið að hafa þetta vorri bók til upplýsíngar, því efnið er allt hið sama. Hèr segir, „að allir menn eigi áfáng jafnmikið, bæði þegn og þræll“. Þar segir — vors Þjófab. 16 —: „jafnan rètt og öfundarbót á hverr maður á fè sínu“ etc. Hèr segir: „Kóngur skal eigi áfáng taka og ei gjalda“. Þar segir vor Þjófab. 16: Ekki á kóngur á þessum fjártökum“. Orðið „áfáng“ og „áfángi“ hefir verið hjá þeim gömlu ýmist *neutrum* eður *masculinum*.

## Áljótur vel Áljót.

Grág. kb. 75. *Þat eru nauðahandsöl, ef maður handsalar svá, at ella er hætt við fjörvi eður fé, eður hann ugði sér áljót eður fjárrán.*

ibid. cap. 80. *Nú hyggur maður sér hætt við áljót eður bana, er sætt skal uppsegja.*

Vígsl. cap. 75. *Ef maður ræður um mann dreprádum eður áljótsrádum — þat ero áljótsráð eður förráð, ef hann gildrar til þess, at vopn skuli sjálf falla á mann.*

ibid. cap. 85. *Ef maður biður annan mann fara til áverka við mann, eður til áljótar, eður til fjörs manns, eður hann ræður um hinn áljóts eður fjörráðum.* ibid: *fjörvi sínu at fyrr, eður áljóti at nær.*

ibid. cap. 105. *Ef maður bregður manni brýxlum oc mælir áljót, þótt hann segi satt, oc ver þat fjörbaugsg.*

Í öllum þessum greinum sýnist orðið „áljótur“ merkja lýti, lemstrarsár, limalát, áverka, örkumsl, item: last, sem viðloðir síðan.

## Á v æ n i.

Kóngs. E. 4. cap. *7m erfð.*

Það er svo mikið sem von er á. Örvæni úr von. Banvænn sá bana er von. Örvona er óvani, úr væni. Vænast til skila, vænast heimild.

## A l d a v i n i r.

Sturl. lib. 1. cap. 6. *Guðmundur prestur Brandsson bjó í Hjarðarholti, hann var náfrændi Þorgils Oddssonar, oc aldavinur.*

Vígsl. cap. 113. *aldartrygðir oc ævintrygðir.*

Þær er æ skulu standast, meðan mold er og menn lifa. Iterum, meðan öld er og menn lifa. Griðsetníng Þorgils Arasonar kallar „trygðir og megintrygðir, ævintrygðir og metnartrygðir".

## A m b á t t.

*Dicitur ab Ambath, antiquo germanico, quod servum vel ministrum notat. Vide Cæs. de Bello Gallico lib VI, et in eum notas Montani ibid. Affine est: „Ambt"*, embætti; *adeoque* embætti *proprie servitus. Servante*, þjónustustúlka.

## A n d v i r k i.

Þetta orð hefir fleiri merkíngar enn eina. Og sjá menn það efalaust, að í Llb, 34. merkir andvirki hey manna, hvert sem það er samanrakað eður órakað, flatt eður sætt, á túni eður engjum, eður í garða komið, og sýna það allar kríngumstæður. Sömu merkíng hefur það í Hákonarsögu annó 1225: „andvirki gekk þar upp fyrir hestum". Eins merkir það í Grág. Landslb. 9.: „nema fè gángi í akur, eða engi, eða töður, eða andvirki". Og í Kristinrètti Þorláks og Ketils: „meðaldaga alla á jólum er lofat at láta fè, oc heita munngát oc reiða andvirki, þat er þeim þykir þurfa til fjár etc. Eigi á hann meira hey heim at reiða enn vel vinnist of jólin.

2) Merkir andvirki allskonar verkfæri, búsgögn, umbúðir og reiðskap, kláfa og króka, reip og klifbera. Svo merkir það í

Kristinrètti: „Manni er rètt að fara, þó drottínsdagur sè, til sels með byttur eður sleða eður andvirki sitt, þótt þat sè meira enn hálfvætt, kvatki sem er, þat er hann þarf hafa í gegn skrúði því, er hann vill úr selinu færa eptir helgina. Manni er oc rètt at fara, þótt drottinsdagur sè á rekastrandir eður scóg, ef hann á, með andvirki sitt, þat er hann þarf at hafa i gegn viði eður kolum". Og þessi merkíng er því nærskyldust, er Llb. 59 talar um andvirki manna í almenníngi. En hvertveggi merkíngin náir eins vel heima í Llb. 5, og er það efalaust, að hann meinar með andvirki alla haglega hluti í dauðum aurum, svovel skipanaust og fiskihjall, veiðiskála og heygarða, sem selstöðubyggíng, stekk og færikvíar. Og allt þetta skilur Kristinrèttur, þá er hann leyfir að bjarga andvirki sínu fyrir vötnum og skriðum, veðrum og eldi, jafnvel á stærstu hátíðum.

3) Grettissaga kap. 33. mælti Barði við Grettir: „legit hafa mèr andvirki nær garði enn berjast við þig fyrir sakleysi," ɔ: látið hefi eg aðgjörðalaus liggja þau þarfleg verk, er mèr hefði verið meiri hagur að starfa, enn berjast við þig. Og væri þá „andvirki sitt" fyrir allskonar þarflegir hlutir og nauðsynjaverk, sem næst er fyrir hendi að afljúka.

## Árborinn.

Mannh. 2.

Sá er árborinn, sem kominn er til alls rèttar, arfborinn, arfgeingur, af frjálsum foreldrum.

## Argafas.

Mannh. 23.

Skuli eg segja það með öðrum orðum á vora túngu, þá er argafas huglausra manna látæði, blauðra manna læti, því að argur er *proprie:* blauður, huglaus, duglaus, svosem vottar Sæmundar Edda í Hamarsheimt:

Mic mano Æsir ef bindast læt
argan kalla, brúðar líni.

Og svo segir Lokasenna:

Átta vetur varstu oc hefir þú þar
fyrir jörð neðan börn of borit,
kýr mjólkandi oc kona, oc hugða ec þat args aðal.

Hvaðan er það, að ljónið heitir dýrið óarga, og nafn úlfs hins óarga? Svo vottar máltækið: Enginn er argari, þótt ílt hræðist. Item: argur er sá sem engu verst. Það er: blauður er sá og huglaus, sem enga vörn ber fyrir sig. Og svo hefir þetta skilið Sigurður Blindi, merkilegt skáld öndverðlega á seculo 16°, eður hverr sem Andrarímur hefir orkt. Þar segir orð Háreks, er hann stóð einn uppi sinna manna: Andri kalla' eg argan þig, (opt má slíka spotta); sendir aðra að sækja mig, sjálfur fjærri skottar. Þú hefir fest þá faldanipt, fyrðar Svanhvít kenna. Dárlega var sú drosin gipt, dreng skal blauðan spenna. Hèr lætur skáldið þessi hvertveggi orð: „argur" og „blauður" merkja allt hið sama. Sömu ættar er glósan „ergi" hjá Snorra Sturlusyni, þar sem talar um þá fjölkýngi Óðins, er seiður heitir. Hann segir svo: þessi fjölkýngi, ef framin er, fylgir svo mikil ergi, að eigi þótti karlmönnum skammlaust við að fara. Var gyðjunum kennd sú íþrótt. Samkvæði geldur öllu þessu getspeki Heiðreks konúngs í sögu hans kap. 12., svosem niðurlag hennar er innfært í Barth. Antiqt. lib 1 cap. 6 pag. 71: „undur oc alla bleyði". Þetta kallar Bartholin á latínu: *mirabilia et timorem et quamvis formidinem.* Ber þá ei á milli rèttum skilníngi hans og mínum á þessari glósu „argur"; þó hefði eg að vísu til að uppfylla sem útþrykkilegast meiníng original túngunnar sagt þetta sama á latínu: *stuporem et muliebrem meticulositatem ad omnia more fæminarum trementem pusillanimitatem;* og þótti slíkt karlmönnum eigi þolandi í þær mundir. Vígslóði vottar kap. 105: þar er glósan „ragur", ístaðinn þess, sem áður er hèr argur, en stroðinn og sordinn fyrir það, sem hèr er nefndur blauður, og segir þar, að maður á vígt ímót þeim orðum þremur. Nú mun mèr til þessa svarað verða af Vígsl: kap. 90, þar segir: „ef maður mundar til manns og stöðvar sjálfur og ver fjörbaugsg: og á hinn eigi vígt ígègn. Má því eigi neita, að hèr talar skýrlega um það sama, sem Jónsbók kallar: argafas. Eg svara þartil, að eigi má undra þótt önnur lögin gjöri straffið á sömu misgjörð misjafnt frá því, er önnur skipa, svosem í þessu skipar Grágás fjörbaugsgarð, en Jónsbók í staðinn þess hefir fèsektir engar, en nafngiptir gjörníngin með óvirðíngar titli, þar er Grágás lætur vígt ígegn, þar sem við saklausan væri mælt; og þykist[1] þá Magnús konúngur rèttilega straffað hafa

1) þykjunst.

með orðunum alleinum. Sje eg eigi, að hèr af fylgi neitt gagnstæðilegt, þegar slíkt er athugað. Grágás lætur þann, er svo gjörði, vera fjörbaugsmann, það er útlægan, svo að honum sè eigi friðt, nema í vissum takmörkum; en Magnús kóngur kallar atvik hans bleyðimanns æði, og straffar eigi fremur. Seinni hluti glósunnar er enn nú til í daglegu máli, og merkir yfirbragð eður látæði og framgaunguháttu manna. Svo segjum vèr einn í reiðuglegu fasi og reiðisvip. Einnín köllum vèr fasgóðan mann látprúðan og dagfarsgóðan; ætla eg hina sömu glósu, fas og far, þvíað bókstafirnir r og s skiptast margfaldlega, sèrdeilis í gömlu máli, svo að s geingur fyrir r, sem ljóst er af *Schedis* Ara Fróða og öðrum fleirum dæmum. Og svo allir viti, að hvertveggja hefir *pronúncerad* verið í sömu orðum ýmist r eður s, þá er til vitnis vísa, er kvað Sighvatur, stallari og skáld Ólafs Helga og Magnúsar Góða, svo sem hún stendur í Eddu, Cod. Worm.

Þegi vass sem þessum mjöð fyrir málma kveðu
Þengils á jó strengja mær heiðþegum bæri.

Heiðfè heitir máli og gjöf, er hofðíngjar gefa, segir Edda strax eptir vísuna, og er hún þá að öllu ljós, svo að eigi þarf fremur skýríngar við. Hendínguna fyrstu þessarar vísu skrifar *Codex regius* af Eddu: þegi var sem þessum. Nú hefir Sighvatur tilætlað, að samhendan skyldi á þessum orðum, og bókstafirnir standa: vass, þessum. Hvað bannar þá, að argafas og argafar, dagfas og dagfar sèu rèttmæli? Og „far" kallaði Grettir látæði eður fas griðkonunnar á Reykjum, þá er hann syndti úr Drángey kap. 80: „voskeitt er far flasu. „Flasu" kallar hann griðkonuna, er fór flaslega. Ef að eigi þykir vísa Sighvats nógu ljós, þá lesi menn orð hennar saman í þessa röð: þegi var sem þessum heiðþegnum þengils bæri mær mjöð á strengja jó fyrir málmakveðu, það er: ekki var sem þessum hirðmönnum, er mála þiggja konúngs, bæri mey mjöð á skip, áður berjast skyldu.

## Ás á borði.

Farm. I. 20.
Sturl. lib. 7. cap. 30. *Beitiásum.*

Það eru þeir sem hafðir eru til að beita með ɔ: bera neðan í seglskautið, þá ásað er út; *ergo:* skal sjá ás á borði ɔ:

sjá skal hversu þeir bera seglið fram eða aptur, og hvar ásinn liggur út, þegar beitt er.

## Auðkvisi.

Í sögu Ólafs Helga, *forte* kveisugjarn, smákvellíngasamur, sá er ber sig lítt af litlum verkjum; og merkir þá *particula* „auð", *pronum*, *proclive*. Auðsótt, auðtekið, auðfengið auðsært ɔ: í auðrúmi fengið.

## Áþèttarorð.

Vígsl. cap. 104.

Áþèttisorð *pro* saknæmt orð, það er rèttur liggur við, *unde dicitur* áþèttisorð.

## Abbadís.

Landslb. 18.

Dregið af *abbas* ábóti, því hún var á sama hátt yfir nunnum eður systrum í systraklaustrum, sem ábóti var yfir múnkum. Hafa hèr ekki verið á landi nunnuklaustur, nema tvö, eitt á Kirkjubæ, annað á Reinistað. Skuli menn gefa norræna glósu yfit orðið „abbadís", þá er það hreinlífismey og skírlíf ekkja, frú móðir, eður Guði helgaðra ekkna og meya stjórnarmóðir.

# B.

## Blæsma.

Landslb. 55. *á blæsma til hrúts, geit til hafurs.*

Á þessari *voce* „blæsma" þarf enga skýríng fyrir þá, sem vora túngu kunna; allir þeir vita, að hún á hvergi við, nema það eina, að hún segir náttúrueðli sauðarins, þegar ásauðurinn og geitin vilja fjölga hverr sinnar tegundar afkvæmi, eptir boðorði Drottins Gen. 1. *vide* „álægja, ræða, yxna". Glósan þessi er eins og hinar, *vox adjectiva indeclinabilis*, og hefir þá

alla *casus* sem *grammatici* kalla, það er, í þeim orðum, sem hneigð verða, niðurlagsbreytíng. En þessi glósan og hinar: alægja, ræða og yxna, breyta ekki niðurlaginu, hverr sem er *casus nominis* ær eður geit. „Breima“ segist um köttinn, „lóða“ um hundinn, „oða“ veit eg ekki um hverja tegund.

## Bolöxi.

Farml. 9.: *Ef hann stendur eptir í óbygðri eyu, þá scal leggja hönum eptir 7 nátta vist oc eldfæri, bát oc bolöxi oc hversdags skykkju*

Það er rètt sem Björn á Skarðsá segir, að bolöxi, er viðaröxi, sem höfð er til að fella skógareikur og kljúfa skíði til eldiviðar, og hefir hún af því nafn, að hún fellir bol trjanna frá stofninum, sem er höfuð skógareikarinnar, svosem vottar Heiðreks saga í gátum Gests blinda;

Hvat er þat undra, höfði sínu vísar
er ec úti sá á helvegu,
fyrir Dellíngsdurum, en fótum til sunnu snýr?

Heiðrekur kóngur svaraði:

Höfuð veit
í hlódynjar scaut
en blöð í lopt á lauk.

Og er það ei á skógareikum alleinum, að stofninn er höfuð kallað, heldur og í þá líkíngu höfuð á mönnum, „hjálmstofn“ í fornkvæðum, svo sem sýnir hin síðasta vísa Haralds kóngs Harðráða hjá Snorra Sturlusyni.

Hátt bað mic þar er mættust hlakkar ís oc hausar
menscorð bera forðum hjálmstofn í gný málma.

Og eins heitir það í Sturl. lib. 6 cap. 15 í fyrirburðinum fyrir Örligstaða bardaga.

Rökkur at eli hrýtur harðsnúinn
rignir blóði hjálmstofn af bol.

Þar sem nú að stofninn heitir höfuð, og höfuðið stofn, þá er ljóst, að sá hluti viðanna, sem felldur er af stofninum, heitir bolur, af hverjum bolöxin hefir hja oss nafnið fengið, eins og hún er hjá latínskum kennd við stofninn, og heitir þar *securis caudicalis* hjá *Plauto in Pseudolo* Act. 1 scen 2 v. 25, jafnvel þó þar ætti hún að hafast til að kljúfa skíði til elðíngar; og svo segir Grettissaga kap. 85, að bolöxi tók Grettir

í hönd, þá er hann gekk út að höggva til elðíngar rótina, sem kerlíng hafði galdrað honum til óheilla. Þarímót lèt Hákon kóngur Gamli höggva með bolöxum brota þann, sem Vermar höfðu fellt fyrir hann, og var þar ei allsmátt höggvið. Nú þarf hann, sem eptir stendur í ey óbyggðri, hverttveggja við, að fella skógarvið og kljúfa skíði til eldsneytis, sem bolöxin skal hverttveggja vinna. Er hann þá ekki heldur vopnlaus, því líka voru bolaxir að vopnum hafðar, sem Svarfd. segir kap. 2. „Geingu þeir bræður til vopnakistu Þórólfs, og fann Þorsteinn þar bolöxi, þá er honum þótti við sitt skap vera, og færir hana í breiðaxarskapt“. Svo hafði og Hólmgaungu-Ljótur bolöxi i hendi, þá er þeir bræður Þorsteinn og Grímur drápu hann á Rauðasandi, sem segir í Ísfirðingasögu. Þó ætla eg, að velsterkum mönnum alleinum hafi bolaxir vopnbærar verið.

## Björgvin.

Kaupab. 26. Rb. II. k. innfærð í þær þrykktu lögbækur. *Björgvinur askur mótmarkaður skal gánga hèr til hunángs og lýsis.*

Allir vita, að þessi glósa merkir borgina í Noregi, þá sem nú er kölluð Bergen; þann kaupstað setti fyrst manna Ólafur Kyrri son Haralds kóngs Harðráða, sem votta bæði Snorri Sturluson, Noregskonúnga tal og Noregskonúnga sögur, en áður sýnist þar verið hafa bóndabær, eður garður og kirkjustaður. Það ræð eg af Noregskonúnga sögum. Þar segir: Hann lèt og þar (í Björgvín) reisa Krists kirkju af grundvelli, hina miklu steinkirkju, og varð að henni litið gjört, en hann lèt algjöra trèkirkjuna af fornu Kristskirkju. Fornu Kristskirkju, segir hann, því var þar áður kirkja, og er nú þetta ljóst allt; hitt munu og allir kalla víst, að nafn borgarinnar sè af björgum dregið, þeim er um staðinn girða á 3 vegu, eður því nær, og þá *etymologiam* setur síra Pètur Clausson Undalinus í sinni Noregs Beskrivelse kap. 12., en hvernig það sè *formerad*, er vandara að skilja, þvíað ýmist er borg þessi kölluð og skrifuð í sögunum Björgvín eður Björgyn. Þótt einhverr vildi segja, að Björgyn sè kallað af því, að sú bugtin millum fjallanna [hamranna], sem borgin ste dur í, sè gap hjarganna ɔ: *rictus rupium vel os montium hians,* gapandi munnur klettanna, þori eg því eigi að treysta, þvíað sagt verður, að

*genitivus* Björgvínar eður Björgynjar, sem hverutveggja er altítt, hrindi þessari gátu, og það annað, að gin sè skrifað með i, en eigi gyn með y, svosem Edda, bæði *codex regius* og *wormianus*, skrifa það um gin úlfsins að ragnarökkri, og báðir eins í Þórsdrápu Eilífs Guðrúnarsonar; þar kallar hann gin Suðra, munn dvergsins, og er í hverutveggja í, en hvergi ý, svo að eg í vandræði þessu skapa mèr, að Björgyn sè *formerad* eins og hlódyn og fjörgyn, það er jarðarheiti hjá skaldunum; við. Eddu, *cod. reg.* pag 289. Hið fyrra [er] dregið af lóð, það er allur ágróði jarðar, hið síðara af fjöri eður fjörvi þess mikla fjölda skepnanna, sem jörðin fæðir. Þessi tvö nöfn jarðar hafa í *genitivo* hlódynjar og fjörgynjar, sem hvertveggja *membrana* af Eddu skrifar. Item Völuspá:

| | | |
|---|---|---|
| Þá kemur inn mæri | etmox: | geingur fót nýu |
| mögur hlódynjar, | | fjörgynjar burr |
| geingur Oþinns sonur | | neppur frá naþri |
| við úlf vega, | | niðs ókviðnum. |

Og eins sögurnar margfaldlega Björgynjar. Á saman hátt er og formeradur *genitivus*: Sygynjar af Sygyn. Svo heitir kona Loka í Eddu. Svo að þessi þrjú exempla kenna það *terminatio* (niðurlag orðanna) yn, kvennkennt, hafi ynjar í genitivo. En það borgin er skrifuð og kölluð stundum Björgvin, sje eg af Eddu, að öld hin forna hefir látið það niðurlag gánga á víxl til skiptis við yn, svosem gyldti þar einu hver *terminatio* væri. En *masculina* (karlkynið) eru þau dæmi: Þar er Frigg kona Óðins kölluð Fjörgvinsdóttir, þar sem fyrst er nefnt greint föðurnafn hennar, en Fjorgýnsdóttir, þar sem fráskýrir hversu hana skal kenna, svo þá er allt hið sama Fjörgvinur og Fjörgynur, eður Fjörgin og Fjörgynn, þvíað bæði er vinur og vin *nominativus*, og vinar *genitivus* af hverutveggju. En þótt Fjörgvin, karlmannsheiti, sè *musculinum*, en Fjörgyn, þá það merkir jörð, *fæmininum*, þarf í engu að fæla; liggur það svar hèr til, að slík *terminatio* sè ýmist karlkennd eða kvennkennd. Það má ekki trubla þessu máli, sem mismunur finnst bókstöfunar í Sygynjar nafni fyrst, þar hún er nefnd í *codice wormiano*, svosem *assessor* Magnússon hefir hann með eigin hendi afskrifað, stendur: „kona hans“ [Loka] „heitir Sygyn“. Þar hefir *codex regius* „lygyn“, og er auðráðið, að af fyrsta stafnum er máður burt krókurinn að ofan. Aptur í Haustlaung heitir Loki *in cod. worm.*: „farmur Sygynjar arma“; svo er í fyrsta

atkvæði i þar áður var y, og í öðru atkvæði y þar áður var i. Hèr hefir *cod. regius:* „farmur Sygynja rarma með y, bæði í fyrsta og öðru atkvæði. En áður nokkru fyrri er skipað að kenna Loka Sigynjar ver, og er það eins skrifað í báðum þessum ágætu *membranis*, að i er í fyrsta atkvæði en y í öðru, hvar af eg dæmi: 1) að atkvæðið fyrsta megi skrifast hvert er vill i eður y. 2) enn hið annað sè tíðara með y *in genitivo*, og megi hann eins vera svo skrifaður, þótt *nominativus* endist uppá *in*, svosem Sygin, Björgvin, Fjörgvin, *in genitivo* Sigynjar eður Siginjar, Björgvin, Björgynar og Björgvinar, og hið sama hlódyn.

## Björgvínar askur mótmarkaður.

Kaupab. 26.

Eiðsiviaþl. Kaupab. 29. *Hvers mark scal vera á hverju mælikeraldí slíct sem merkist á lögþíngi.*

Þetta lögþíngið er það mót, á hverju Björgvínar askur mótmarkaður skal merktur vera. Askur ætla eg tekið hafi fjórðúng, *qvod infero* af því, sem framar í þessum kapítula stendur: „kvennaskar eru 4 í fjórðúngi. Þar segir í Frostuþíngsb. kaupab. cap. ult.: Þar er fyrst askur oc hálfur askur, bolli oc hálfbolli, jústa, oc eru tvær júst ur í hálfbolla, en tveir hálfbollar í bolla, fjórir bollar í ask. *Ex hoc computo nostro* vill þá bolli verða 5 merkur eður 2½ pottur, hálfbolli 2½ mörk ɔ: 1 pottur og 1 peli, jústa 1¼ mörk ɔ: ½ pottur og ½ peli. Hirðskrá í Rb. M. k. Lagabætis: „gaf hann oc at láta bera bollakorn á kvöldum um jól at Ólafsminni“.

## Barón.

*Vox gallica og italica, idem ac* lendur maður.

## Bast.

Landslb. 33.

Það er band eður taug. Það er og það, sem næst er undir berkinum á lifandi trjám.

## Berserksgángur.

Þorl. og Ket. Kristinr. kap. 16.: *Ef maður geingur berserksgáng, varðar hönum fjörbaugsgarð, oc varður svo körlum þeim, sem hjá eru, nema þeir hepti hann at, þá varðar engum þeirra, ef þeir vinna stöðvat, en ef optar kemur at, þá varðar fjörbaugsgarð.*

Þessi *locus* er mèr mjög þúngskilinn, ef svo á að skilja berserksgáng, að hann sè alleina sú ofurbræði, sem á nokkra fornmenn skal svifið hafa í reiði og aflraunum, svosem vottar um Kvöldúlf, er hann hefndi Þórólfs, og svo Skallagrím, er hann drap Sigtrygg, Klaufa í Svarfdælu, er hann frelsti Karl Rauða, item Arngrímssyni í Örvaroddssögu, áður enn þeir voru felldir. Því slík ofurbræði og stjórnlaus reiði sýnist eigi sjálfráð verið hafa, heldur nær æði og vitleysu, er menn vita að sjúkdómur er, og eigi í sjálfræði að stöðva, þegar að kemur. Mætti því undur sýnast, að í lögum skuli sekt við því lögð. Þó er sá mismunur þessa tilfellis og hins, er með rèttu kallast æði, að berserksgángurinn líður af, þegar lokið er þrekvirki því, sem hann á að vinna, svo sem öll áðurtalin dæmi segja. Egilssaga kallar slíkt „að hamast", um þá feðga báða. Örvaroddssaga kallar það „berserksgáng", og með því það heitir að „hamast" ɔ: ***mutare habitum, giganteum habitum induere***, og „tryllast", ***quod idem est***, er gátulaust, að það eigi sannlega skyldt við fjölkýngi og hamskipti, því slíkir eru kallaðir eigi einhamir, item hamramir menn ɔ: ***habitum aut formam humanam mutantes***, um þá, er sögurnar kalla brugðist hafi í annara kvikinða líki, svosem Stórúlf og Dúfþak, Landn. V. kap. 5 og Geirhildi, III kap 14. Kormaks s. kap 18; er enginn efi, að þar fylgdi fjölkýngi með hin stærsta. Og svo hamfarir, sem Vatnsdæla segir um Finnana er Íngimundur sendi, og Snók Sturluson, af þeim er Haraldur kóngur Gormsson sendi til Íslands; er því ei hèr til þeirra meint. En um bererksgánginn, og að hamast svo, að slíkir brygðust þó eigi í líkíng annara kvikinda, er athuginn, hversu það hafi skyldt átt við fjölkýngi, og því saknæmt verið. Það segir Kristindómssaga um Haukana, berserki, að þeir óðu eld, og sakaði ekki fyrr enn Friðrikur byskup vígði, kap. 2. Og svo

hafa fleiri verið sjálfráðir hèri, sem segir í dæmum hèr fyrir framan. Þó sagði Þórir Íngimundarson: á mig kemur þá helst berserksgángur er eg vildi síst. Þarum segir Þorsteinn: vil eg heita á þann sem sólina hefir skapað, því eg veit hann máttkastann, að sá úvin hverfi af þèr.

## Bessastaðir.

Það er sú fyrsta jörð, sem hèr á landi fèll undir kóng, þegar Hákon kóngur kastaði sinni eign á góts Snorra Sturlusonar, eptir það kóngur hafði látið drepa hann, fyrir það Snorri sigldi frá Noregi í forboði kóngs. þá náði þó Þorgils Skarði ei bráðlega eignum Snorra, og varð honum það fyrst ágeingt, að hann náði í kongsins nafni landskuldum af Eivindarstöðum á Álptanesi og Bessastöðum. En á Bessastöðum hafði verið eitt af höfuðbólum Snorra, er því líklegt þar hafi verið vel hýst, og hafi kóngsmönnum sýnst þar sætilegt, þá þeir alvarlega tóku til hèr að búa undir kóngsvalds nafni. Vid. Sturl. lib. 8 cap. 10.

## Blásturjárn.

Kaupab. 5.

Það er það, sem fyrst rennur saman í hnött eður hellu úr abli rauðasmiðjunnar, ásmundarjárn forðum daga, svo sem sindur, sem tekið er frá rauðasmiðju, mjög hrjóstugt og hrufótt utan, misjöfn að vexti. 1 fjórðúngur af þeim var á 10 fiska. Það reyndist opt vel til bits. Sumir vóru hnöttóttir, sumir aflángir, en flötur var á þeim flestum. Fáir voru þeir minni enn ljásefni, fáir stærri enn tvö. Annað var stángajárn, sem taxtinn nefnir, og það fluttist í laungum staungum.

## Bókarvitni.

Llb. 40: *scal hirðir vita hvað af hjörð verður, oc bera um bókarvitni.*
Mannh. 9: *Sculu tveir menn bóka sögu þeirra á þíngi.*
ibid. *Kemur saga hans bókut fram á þíngi.*

Að öllu þessu hugleiddu, er ljóst, að bókarvitni er vitni með bókareiði svarið, og að bóka sögn á þíngi, er að byrja söguna

með bókareiði. Saga bókuð, er svarin saga. Að virða við bók, er að vinna eið að virðíng.

## Brautargeingi (*comitatus*).

### Bryti.

Framf. b. 10. *Þarnæst bryta eður hinum hezta manni.*

„Bryti“ er dregið af að brjóta það, er í sundur skal skipta, svo sem orðtækið segir, að eigi verði brotið í tvennt, þegar vanefni er á að skipta í tvo staði eður fleiri; þaðan er í daglegu máli að brytja fisk eður kjöt, það er: að skipta því í hæfileg stór stykki, sem eptir á verði mátulegt á borð að bera, svo sem Eysteinn konúngur komst að orði við bróður sinn, Sigurð kóng Jórsalafara: „Þú brytjaðir blámenn á Serklandi fyrir Fjandann“. Var það brytanna verk, sem enn er kunnugt á báðum byskupsstólunum, að þeir skulu útdeila til þjónustufólksins það, er búsins nauðsynjar útheimta, og af því krefja skyldrar þjónustu til viðhalds búinu, eptir húsbóndans forsögn, sem hann gefur brytunum. En með því sá kann engu að skipta meðal annara, sem ekkert hefir í höndum, þá fylgir það eptir, að brytunum hafi verið í hendur fengið, svo þá sem nú, það er til búsins nauðsynja hlýddi, svo þeir vóru ráðsmenn yfir heima-búi, sem nú kallast á dönsku: Garðsfógetar, og voru þeir nokkrum sinnum frjálsir menn, þó optar trúreyndir þrælar í fyrrum öldum; á konúngsjörðum, hertoga, erkibyskupa og jarla voru slíkir „ármenn“ kallaðir; því virti Þórir Hundur og annað stórmenni, frændur Ásbjarnar Selsbana, það fyrir stóra svívirðíng, að Ólafur konúngur skipaði Ásbjörn gánga skyldi í ármanns þjónustu í stað Þóris, sem sagan vottar. En með hinum fremstu þrælum telur Gulaþíngsbók hin forna, þjón og bryta, þ. e. svein og ráðsmann, einsog hún telur með ambáttum, „setu“ og „deigju“; þær heita nú þjónustustúlka, eður stofupíka, og matselja, eður ráðskona. Og eins skilst mèr að gjöri Frostuþíngsbók Hákonar konúngs, þótt eigi sè það skýrt með öllu, þar sem hún talar um rètt hölds: „höldur scal taca III aura talda á bryta sínum oc þjóni oc deigju oc setu. Er þetta rèttarfar lægra enn á frjálsum

mönnum, og áttu þeir frjálsu menn, þá fulltíða voru, sjálfir rètt á sèr. En það virðist mèr, að Vestgota lög Svíanna láti bæði „bryta" og „deigju" frjálsa menn vera, Erfðab. 12. 15. Er það til skilmerkja þarum, að í þeim 16du kap. láta þau bryta synja tylftareið, ef bóndi mistryggir hann um bús-forustu, og er það eigi þræla verk. Svo hefir og hèr á landi verið bryta stand og stètt frjálsum mönnum meir til sæmdar talin enn óvirðíngar, sem öllum er kunnugt; sýnir það og bókin sjálf, í áður skrifaðri grein Framfærzlub., að svo hefir í þann tíð haldið verið hèr á landi, því segir hún: „bryta, eður hinum bezta manni á bæ". Það er skrifar hinn frægi Johan Stjernhoch: de jure Sveonum lib. 2 cap. 4 pag 207 um brytastètt hjá Svíum, stirkir meir enn niðurbrýtur þessa mína sögu, og sýnir að í ýmsum stór-hèröðum Svíanna hafi þarum haldið verið ýmislega. En uppruna nafnsins þykist eg að glöggvu á rökum sýnt hafa, og virðist sem það vísi nóg til grundvallar hans sagnar, þótt brytar ættu og tilsjón að hafa með hjónum, bæði frjálsum og nauðgum, þegar brjóta skyldi jörð til akurs eða töðuvallar, þar sem hèr voru verk brytanna miklu fleiri, svo sem ljóst er af Östg. lagh. Drapm. b. 14 kap., sem Stjernhoch sjálfur cíterar, þar telur kóngs bryta og jarls og byskups og lögmanns og bónda; og er vert að lesa þann allan kapítula. Það lýtur og híngað, sem Grágás mælir Llb. 58, þar sem hún taxerar verknað þjónustufólks og kaupgjald. „Sex álnum", segir hún, „scal caupa gætzlo á gamla sauði 30. Á 40 lömb scal oc caupa sex álnum gætzlo. Sex álnum scal oc brytjan caupa fyrir 10 menn". En sýnilegt er það, að matarskamt meinar hann hèr með glósunni „brytjan", og ei meiri ráðsmennsku. Eru þeir nú kallaðir undirbrytar í Skálholti, sem það starf hafa, en á Hólum er það yfirbrytanna verk.

## **B ú.** *pró:* málnytt kvikfè.

Þjófab. 10.

og Heiðsivjaþ. L. Llb. 35. *Ef maðr mjólcar bú mannz, láti húð sína eptir lagarefsíng réttarans, nema solltinn maðr mjólci, og gjaldi þá nytfall sem vert er, þeim er bú á.*

# Byggíngarbrèfs - Formular.

(Eignað lögmanni Vídalín).

Eg undirskrifaður (N N) byggi og heimila til allrar löglegrar leiguliða - brúkunar búandanum (N N) alla jörðina (N N) að dýrleika (N N) fyrir (N) í landskuld, að 12 mánuðum hverjum, og þarmeð kúgyldi þau (N), er jörðinni fylgja, og eru það (N) kýr, en ær (N). En þessir eru byggíngar - skilmálar, sem fylgja:

1. Að hann búi á jörðinni eptir lögum, og hirði um leigumála sinn sem betst honum er mögulegt. Skal hann rækta tún og engjar, svo að hverugt spillist í því neinu, sem mögulegt er, það hann fær við sèð, og skal hann uppvinna hvert um sig árlega, svo sem lög standa til.

2. Ekkert skal hann af jörðinni ljá nè á leigu selja af slægjulandi eða torfskurði, hrísrifi eður eldiviðartaki nokkru, og ekki selstöðu neina úr, nema eg, eður minn umboðsmaður leyfi; og einkanlega skal hann fyrir sjá, að ekkert undan jörðinni gángi með hefð eður brúkun annara; en taka má hann gripi til hagagaungu, sumar eða vetur, þó svo, að ei gángi í bittröð.

3. Veiti nokkur ólöglegan ágáng eður ásælni þessum hans leigumála, þá skal hann bæði halda undir jörðiná því, sem hún á með rèttu, og líka viðvara mig eður minn umboðsmann þarum, svo þeim megi með lögum tiltalað verða, sem ásælni gjöra.

4. Hann skal gjalda mèr landskuld árlega (N) álnir í gyldri vöru, (N) í vaðmáli, prjónlesi, fóðri, peníngum o. s. frv, sem allt sè gylt, og afhendist til (N) ekki síðar o. s. frv.

5. Eptir kúgyldi hvert skal hann leigur gjalda (N) heim til míns heimilis, eða þángað, sem eg eða minn umboðsmaður tilsegir, og þó aldrei lengra veg frá áðurnefndri jörðu, enn tvær dagreisur einleiðis.

6. Kúgyldin skal hann ábyrgjast við öllu því, sem lög skilja undir ábyrgð leiguliða; en þegar elli eða eitthvað það, sem lögbók skilur undan hans ábyrgð, verður kúgyldunum að meini, þá skal hann annaðhvert skila þeim heim til míns umboðsmanns, sem vera skal innan hèraðs, eða þyggja slíka uppbót á kúgyldin, sem löglegt er og honum semur um við mig; annars skal hann halda kúgyldin vel að öllu, svo þau sèu vel fær og tæk. Hann skal af engum fóður taka mega, til þess,

að mín áðurnefnd kúgyldi ei sèu byrg, og þeim með öllu óhætt fyrir heyskorti.

7. Skal hann viðhalda húsum jarðarinnar öllum að veggjum og þaki, og það árlega umbæta svosem nauðsýn krefur og lög fyrir skilja, svo að viður enginn skemmist af þakleysu, veggjabresti eða neinu því sem torfverk snertir. Þegar viðir fyrnast, þá vil eg af landskuld gefa honum svo mikið, að hann megi viðu keypta fá til húsanna, svo að óhætt sè mönnum og fènaði; og skal hann gjöra þarmeð hús svo góð, sem ábýlinu sambýður, og að öllu þessu gjöra svo til hagnaðar mèr og jörðinni, sem sá mætti betst, er fyrir sjálfan sig byggði. En ef hann gjörir í einhverju þessu skaða eður kostnað ónauðsynlegan, þá skal hann vera ókvittur um svo mikið af landskuld, sem sá óhagnaður er verður.

8. Þau nýu hús skal hann með þessu móti byggja mega, sem skylt er að jörðinni fylgi. Vilji hann önnur hús stærri eða fleiri gjört hafa, þá leggi sjálfur viðu til, og skeri þó hvergi mína fyrrnefnda jörð með torfskurði úr túnum, þar sem í nokkurn máta er til óhagnaðar töðuvelli eður engi, eða þeim grundum eða valllendi jarðarinnar, sem til slægna ræktast megi.

9. Skal hann halda lögskilum fyrir jörðina um hreppnauðsynjar allar og tíundargjald, svosem að fornu hefir verið.

10. Skal hann neyta svo allra kosta jarðarinnar, þeirra sem leiguliði njóta má, svo sem betst hagar jörðinni.

Hvað af þessum skilmálum sem hann rýfur forfallalaust, þá hefir hann forbrotið ábýli sitt. Honum skal gefast kvitteríng fyrir það sèrhvað, er hann geldur, þegar það er eptir áðursögðum skilmálum mèr afhendt eður umboðsmanni mínum. Þegar hann vill ekki lengur ábúa, segir hann jörðinni lausri að lögum.

## Buðlúngur. Bútúngur.

Buðlúngur, bútúngur og bolúngur er dreigið af sjálfum bol viðarins.

## Bjálki.

Landslb. 9. *Naglfast undir bjálka eður bita.*

„Bjálki“ er allt stórt trè í húsinu, sem eigi stenður uppá endann, hvert sem það liggur þvert um, eða lángs eptir, svo

það heita einsvel hliðásar og sillur, vegglægjur og vaglar, sem ljóst er af dönskunni, er allt þetta kallar „Bjelke" og líka bitana sjálfa, einsog orðið „*trabes*" hjá Latinis, merkir allt þvílíkt, og „*dokos*" hjá Grikkjum, þegar að eins er stórtrèð á lopti, svo að á því liggur annara viða þúngi. Herra Guðbrandur hefir látið sèr líka útleggíngu Odds lögmanns Gottskálkssonar Matt. 7. 3. 4. Lúk. 6. 41. 42, sem í þessu efni hefir gánga viljað næst eiginlegleika norrænunnar og kallað vagl, því svo heitir bæði stórský á augum og þvertrèn millum hliðásanna í húsunum; en í latínunni, sem Oddur fylgði, *trabs*, *græce*: *dokos*, það er stórtrè eður máttarviður í húsi, svo vel biti sem vagl. En herra Þorlákur, sem hèr fylgði þeirri dönsku biblíu Resenii, hefir þaðan innfært bjálka fyrir vagl, með því sú glósan uppfyllti meir skilníng orðsins gríska, þótt bjálkinn ætti síður skylt við augað.

# C.

## Capitulum.

*pro collegio, seu societate clericorum.*

Unde nomen duxerit vix ausim conjectare, cum jam evecta ad summum culmen romani pontificis divinitas, infandam barbariem omni eruditioni obfuderit, eandemque barbariem evexerit ad summum fastigium. Nec enim fortassis audior, si conjecero, Capitulum pro collegio episcoporum, abbatum, priorum, prælatorum, canonicorum et monachorum omnium ordinum nomen accepisse a capitibus sacri codicis, quod sueuerint religiosorum istorum societates certum aliquod caput bibliorum quotidie legere; vide Christiani IVti Ordinationem de canonicis N. L, et confer matutinos pariter ac vespertinos cantus, et Hauniæ et in patria nostra usitatos. Nec abludunt ab hac Capituli etymologia residuæ voces barbaræ: Abbatia, quod abbatis et monachorum sustentationi destinatum est; Allodium, ab „al auðt (vacuum), quippe quod a primorum devacui occupantium tempore eorum proprium per occupationem factum sit; Bene-

ficiatus, Canonia, Canonicatus, pro bonis immobilibus canonicorum sustentationi destinatis, et hæc quidem omnia a canone seu scriptura. Caneva siue Cavena, a cavena Longobardorum, quod cellam notat; Castaldia, Castaldus, Castellans, a castello, unde et nostrum „kastali"; Fallentia - tiæ fæm. 1 decl. pro exceptione in tabulis Rolandinis; Emenda - dæ pro mulcta pecuniaria, qua commissum emendebatur; Capitulatio pro legibus fundamentalibus inter imperatorem Romano - Germanicum et status imperii; item pro conditionibus deditionis, cum urbes deduntur; Felonia, Jacobo Rittero, Dasipodo Micrælio et Calepino: Fallonia, infidelitas vasalli in dominum feudi; Feudum a sustentatione, quæ nobis „fæði", Danis „Føde", Germanis veteribus „Voeden", quod est alimentare, teste Micrælio, Gothis et veteribus Longobardis „Fede", quod profecto „fæði", non vero fidem notavit; erant enim beneficia eximiis militibus data, ut haberent, unde deinceps honeste viverent, præstitæ fidei et virtutis præmia, vide Jacobi Ritteri Jus feudale cap. 1. § 3., et præcipue Caroli Magni orationem ibidem citatam. Ipsam orationem leges apud Christ. Matth. Theatro hist lib. 4 pag. 480 col. b. Feuda franca, id est libera; Feuda ligia, id est obligata; Feudatarius; Guardia a germanico „warden"; Guardianus, Guardio, Guardius, Guarnison, omnia ejusdem originis: Infeudatio; Jurista - tæ; Legista - tæ; Postillator; Præbenda - dæ fæm. 1 decl.; Præbendarius et Præbendatus; Præfatia - tiæ; Sala Longobardorum pro „Gemach"; Scabinus et Scabinatus a Scamno; Solgata - tæ „Naadens Brød", quod a solidorum, id est monetæ, donatione nomen habet, teste Jac. Rittero, Jure feud. cap. 4 § 19.; Sequentia - tiæ; Statista, qui de status rationibus. Volvasor idem quod Vasallio, vide Nomencl. Persii col. 89, et Hadr. Junii pag 430. Vasallagium, juramentum fidelitatis, quam vasallus domino feudi pollicetur. Werigeldus a „wehren" et „Geld" mulcta pecuniaria, quam exsolvit reus, ut a delicto liberetur. Spec: Saxoniæ lib. 1. art. 42; et quantula hæc particula est mille milliorum barbarismorum barbari seculi, quos tamen non rejecit florescens eruditio. Id constat, collegia, quæ seculo barbaro pro scholis et gymnasiis erant, capitula

fuisse dicta, et in quolibet coenobio pariter ac ad templa omnia cathedralia et sedes epicoporum peculiaria sibi domicilia habuisse, quorum collegiorum, id est capitulorum reliquiæ, quibus rationibus etiam post Reformationem Lutheri manserint, vide apud Hvitfeldium in Christ. III anno MDXXXVII, qui illustris locus est, atqne iterum in Christ. III MDXLIV; confer itidem Christ. III diplomata „um skóla á Helgafelli og Viðey“. dat. „Kjøbenhavn, Vor Frue Aften“ Præsentationis, id est 21 november MDXLII, ut et aliud ejusdem regis diploma eodem die, eodem anno edictum „um skóla á Kyrkjubæar, Skriðu og Þykkvabæar klaustrum“; non equidem quod ista diplomata de capitulo probent diserte quidpiam, sed quod repræsentent similitudinem quandam eorum, quæ scribit Hvitfeldius in Christ. III MDXXXVII ut jam allegavimus. Quoniam vero omnem ad se jurisdictionem pertrahere conabatur clerus pontificius, (vide regis Magni Lagabætis et Johannis archi - episcopi Nidarosensis conventionem seu reconciliationem anno MCCLXXVII, in vigilia beati Laurentii að castrum Tunsbergense) obtinuerant, quod jam tum aliquot seculis continuerant, ut in causis omnibus matrimonia, cognationes et affinitates, incestus et libidines omnis generis spectantibus, jurisdictio að religiosos istos pertineret, vide „Kristinnrètt Árna byskups“; et quod hi soli, qui in eorum scholis, id est capitulis, eruditi erant, eruditi, crederentur, factum est, ut etiam post Reformationem remanerent illa collegia aliqvantulo tempore, ut et nomen capitulum pariter ac jurisdictio in causis matrimonialibus, (prout leges regum Lutheranorum usque ad Freder. III tempora, abunde testantur), etiam, postquam evanuerunt illa collegia, eorumque nomen capitulum, quatenus collegia judiciaria notaverat; successit vero in totum vocis „capitulum“ pro judicum consessu significatio, „Lærde Mænd eller Sognepræster, som næst ved dennem (Stiftbefalingsmændene) boende ere“, Juris Norvegici libr. I cap. 2 art. 14., et Danici libr. I cap. 2 art. 17. Quantum in his omnibus hallucinetur et fluctuet Ostersen in suo Glossario, id judicent alii; ego certe fateor ab illo me nihil in voce „capitulum“ potuisse discere, imo, cum omnia dixisset, videri mihi nihil dixisse;

prout autem id forte hebetudinis meæ vitium est, ita non miror, quod Christ. IVti Reces, capitula non adeo diserte definiat, quamquam eorum mentionem faciat, et lib. I cap. IV art 18, 44 et lib. II cap VI. art. 24.; fuit enim id temporis capitulorum istorum jurisdictio notissima. Confirmabit in his meam sententiam, Christ. IVti Ordinatio de Canonicis fol. n. V utraque pagina, fol. n. 6 pag. a, ubi diserte, consessus iste vocatur consistorium. Christiani vero III ordinatio ecclesiastica in præsentiarum ad manus non est; hospitatur, nisi me fallit memoria, in manibus nobilissimi domini fautoris. Vix ausim dicere, anno MDCCV in cænobio „Múnkaþverá", ubi diutissime peculiaria ista monachorum domicilia servata sunt, adhuc superfuisse ædem inter ceteras nobilem, „capitulum" dictum. Id diserte memini, superfuisse „ábótastofu", „málstofu" et „bast". Qvod si et capitulum superfuit, non aliud certe notavit, quam ædem, in qua collegium haberi sveverat, quemadmodum consistorium, et homines et ædem notat. Quod si in his quidpiam erravero, libens erudiar.

Postquam hæc scripseram, relationibus certissimis integerrimi viri edoctus sum, adhuc anno MDXXVII in cænobio „Múnkaþverá klaustri" superesse domum, quæ „kapítuli" dicitur, residuam ex monachorum peculiaribus ædibus. Sed ad capitula ista pontificiorum si vertamus oculos, excrevit in tantum eorum superioritas, imo insolentia, vigente papismo, ut et principibus secularibus dubiam sæpiuscule facerent auctoritatem judiciorum in imperio, præsertim Romano — Germanico, maxime postquam archi — episcopatus Moguntinus, Trevirensis et Coloniensis in electoratus evecti sunt, et ecclesiastici isti principes officia secularia susceperunt, vide Bull. aur. Imperat. Caroli IIdi anno MCCCL. 9 Januarii. Quorum deinde gloriam secularem, pro sui quisque ordinis proportione, sibi adaptarunt episcopi, abbates, prælati, præpositi, capitulares, id est: consiliarii et assessores in consiliis istis principum ecclesiastico-secularium, quæ „capitula" dicta sunt, idque tamquam capita judiciorum et consiliorum, neglecta et obsoleta prima vocis origine, quippe quæ tantam gloriam non afferre videbatur, ut

sufficeret pontificiorum insanæ dominandi libidini. Hinc est quod capitulis istis electio episcoporum tribuitur, ut et postulatio, apud Lampadium de republica Romano-Germanica cap. 6. p. 148 usque 153, imo quod et judiciariam potestatem exerceant, prout ejusdem Lampadii opus passim indicat, et vel evidentissime cap. XI p. 184—185. 186. Vox ejus; „quatenus capitulares in partem regiminis admittuntur, eatenus „religionem ordinant; et post pauca": quod soli episcopo non „licet, id episcopo cum capitularibus integrum esse". De his itaque, ni fallor, origo capitulorum et progressus evidens est, ut et eorumdem deliquium in regnis omnibus, quæ absoluta monarchia reguntur. Quamquam enim Romano—Germanicus imperator in compluribus imperat monarchice, in multis tamen, et haud scio an paucioribus, partem imperii sibi vindicant, non electores tantum, vel reliqui etiam principes et comitia, omnes imperii status admittentia, etiam in lutheranis reformatisque principatibus per universum imperium Romano—Germanicum; quamquam enim apud eos mutata est religio, mutata tamen non est forma politici regiminis. Versatum in politicis scriptorem adeat Ostersen, qui omnium Germaniæ capitulorum numerum inire velit; Hildisheimense solum constat ex 40 capitularibus („Domherrer" danice vocantur), quorum omnes esse nobiles requiritur, lutheranos pariter ac reformatos, nescio an et pontificios. Præses autem hujus capituli religioni protestantium addictus erit, qui simul etiam episcopi cancellarius; nec paucis expediri potest infinita id genus collegiorum in infinitis similitudo et dissimilitudo. Vide: „Deutsche extraordinaire Relationen" MDCCXXIV. num. 16. 25 febr. Nec ad nos quidquam ista adtinent, adeoque nec capitulorum judicia, quæ spiritum efflaverunt, ex quo jurisdictio omnis politica ecclesiastico ordini abrogata est, substitutis in eorum locum diversis conciliis, collegiis et judiciis diversarum auctoritatum ex monarchæ voluntate. Quod autem his temporibus capituli vel capitula dicuntur, episcoporum et templorum cathedralium susentationi addicta et sacra bona mobilia pariter ac immobilia, id, quantum ego percipio, nomen solum est, et velut

umbra veterum capitulorum, imo, verius residuum corpus aut caput, exteris omnibus membris truncatum, cum hæc sola bona ex veteribus capitulis, supersint in hac quidem insula, ceteris, quæ fuerunt, omnibus seculari magistratui subjectis. Nec per ista nomina: „Domkapitul“ et „Kapitul“ intelliguntur sedes episcoporum solæ, sed sedes cathedrales cum omnibus adhærentibus bonis, judiciariam potestatem nec inferentia nec significantia, postquam volentibus regibus, sublata ab iis secularium jurisdictio est, vide: „Norske Lov“ libr. 2 cap. 17, art. 19. Nec aliter capere possum, quod adhuc „Dómkirkju“ dicimus, quam quod, superstitibus capitulis, summum judicium de sententiis capitulorum, ad episcopos id temporis pertinuerit. Falluntur enim, qui vocem „Dómkirkju“ derivari volunt a dominus, vel domus, kyriake. Qvis enim non videt ineptire hybridæ vocis etymologos, quamquam in aliis vocum hybridarum abunde deprehendimus. Ejusdem farinæ sunt: dominica esto mihi, invocavit, reminiscere etc. quippe quæ stupenda stupiditas cleri pontificiorum invexit, qvod mirum est viros adorandæ eruditionis post Reformationem non rejecisse, et, quod adhuc mirabilius, sacerdotes evangelicæ religionis vel pro suggestu monstrosas istas locutiones, tamquam pia devotaque inventa, omni orationis colore tingere, magno stultæ plebis applausu, cum id genus ferculi, originem scientibus, nauseam moveant. Longe profecto melius sapientiusque fecit rex optimus Christianus III, qui in compluribus suis edictis et diplomatibus adjecit: „qua cantatur“; ex. gr. feria 2, 3, 4. ante vel post dominicam, qua cantatur quasimodo geniti, qua cantatur misericordia domini etc.

## Chirographum.

Kaupab. 12. *En ef ei fær innsigli, gjöri chirographum, og beri þat vitni kaupi þeirra.*

Eg heyrða í úngdæmi mínu og optlega síðan marga tala um hvað þessi glósa þýddi, en síðan eg eldtist, og hafði lært nokkuð á bók, þeinkta eg að slíkum spursmálum mundi það valda, að allir, eður nær svo allir verðslegir menn hèr á landi

voru ólærðir og höfðu lángvarandi svo verið hverr eptir annan, nema Árni lögmaður Oddsson og Vigfús Gíslason; þeir höfðu verið lærðir menn; hina, þótt fáeinir hafi mátt vera dimissi úr skólum hèr, tel eg ólærða. Eigi að síður þeinkta eg svo, að glósa þessi „chirographum“ merkti ekkert annað enn það sem hún segir *vi vocis:* „eigin handskrift“, og ætlaði eg svo mundi *sensus legis,* að ef eigi fengist innsigli eður vottar, skyldu seljandi og kaupandi skrifa með eigin höndum nöfn sín undir sín gjörníngsbrèf. Og í þessari *opinion* var eg, allt þartil herra assessor Árni Magnússon kenndi mèr, að „chirographum“ hèti brèf þau, er að ofanverðu væri skorin hvert frá öðru í króka marga, svo að þar yrði á öðru þeirra oddi, sem skarð yrði á hinu, og þegar þau væri aptur samansett, mætti oddinn skarði, en skarðið oddanum, og fèlli þá að öllu saman svosem áður, fyrri enn þau voru hvort frá öðru skorin. En yfir um þennan krókotta oddaskurð væri að skrifa orðið „chirographum“, svo þegar síðan væri sárið á brèfunum samansett, mætti þar lesa á báðum samsettum brèfunum þetta orð „chirographum“; mætir þá sèrhverr leggur bókstafanna sínum fráskornum parti, og sýnist sem heilt sè; sagðist hann mörg svoddan í *archivis* ýmsum sèð hafa. Er þá í fyrstu tekið til á miðju bókfellinu að skrifa, og horfa brèfin hvort frá öðru á þessa leið:




*Þat gjörum vit, Dagfinnur lögmaðr i Gulaþíngslögum, oc Gunnar lögmaðr í Þrændalögum, o. s. frv.*

Segir hann að svoddan brèf heiti „chartæ dentatæ“ af oddunum, sem upp af þeim gánga. Kristj. 4da norska lögbók, kaupab. II: Have de ikke Indsegel, da gjore de udskorne Skriffter, og bere de da vidne om deres kjob. *Codex Mscr* eldre kap. II.: Om hand ikke fanger Indsegel, tha skulle the gjore en udskoren Skrifft, og hun skal bere vidne til deres kjob. Og vitnar þetta með assessor

Árna Magnússyni. *Vide etiam, si vis, in Glossario Ostersens:* Udskaarne Skrift.

# D.

## Dags-tímatal eður Eyktamörk*).

Dagur sèrhverr og nótt tilsamans, deilast í 8 eyktir. Tvær eyktir eru frá miðnætti til miðsmorguns, aðrar tvær frá miðj-

---

*) Handritið B. hefir þessa ritgjörð þannig:

Dags-tímatal.

Þetta er stundatal á hverjum 2 dægrum, svosem það er í almanaki sett, og sambýður voru dagsmarka tali, þegar það er óskekkt, og eptir ásetningi fornaldarmanna.

Almanakið byrjar daginn einsog Rómverjar gjörðu, á því augnabliki sem næst er eptir miðnætti, því þá tekur sólin að hefja sinn gáng upp, til að lýsa og gjöra daginn, en allt fram til miðnættis er sólin að gánga niður undir jarðarhnöttinn.

Þú skalt athuga, að dagur og nótt tilsamans er hèr kölluð einn dagur. Í þessum degi, eður dægrum báðum saman, eru 8 eyktir, en 24 klukkustundir; í hverri klukkustund eru 4 kvartil, eður 60 minútur, því að 15 minútur eru í hverju kvartili.

Þegar klukkan er 1 eptir miðnætti, það heitir í almanakinu fyrir miðdag, þá kallar almanak liðinn þriðjúng eyktar framanaf deginum.

klukkan 1 og 30 minútur fyrir miðdag, þá er hálf eykt frá miðnætti. Hèr endast ríki norðuráttar, austur frá norðrinu, og á þessu augnabliki kemur sól á yztu landamerki landnorðurs ættar. Norður frá henni kallast á kompásnum Nord-Nord-Ost.

Klukkan 2 fyrir miðdag, þá eru tveir þriðjúngar af eykt liðnir framanaf deginum.

Klukkan 2 og 20 mín. f. m. þá eru liðnir fimmsjöttúngar af eykt eptir miðnætti.

klukkan 3 f. m. þá er eykt frá miðnætti liðin. Þetta er miðpúnktur landnorðursáttar.

Klukkan 3 og 30 min. fyrir miðdag, það er hálfgeingin 4, hálfum klukkutíma meir enn eykt eptir miðnætti. Hèr hefst sú eina klukkustund af tveim dægrum, sem heitir ótta. Það er, sem kveður í sálminum:

um morgni til hádegis, þriðju tvær eyktir frá hádegi til miðs aptans, fjórðu tvær eyktir frá miðjum aptni til miðnættis. Á

---

Þann þriðja dag um óttu stund
uppreis Kristur frá dauðum.

Hèraf er kallaður óttusaungur í klaustrafólks tíðagjörðum.

Klukkan 4 fyrir miððag, þá er liðinn þriðjúngur annarar eyktar frá miðnætti, og nú er hálfnuð klukkustundin, sem heitir: ótta.

Klukkan 4 og 30 mín. þá er liðin hálf önnur eykt frá miðnætti, og hèr endast óttan og ásamt henni seinasti hluti næturinnar, þegar morgni og aptni er rètt skömtuð þeirra tiltala, þvíað nú strax eptir þetta augnablik uppbyrjast morguninn. Hèr endast og ríki landnorðursáttar austur frá henni. Og á þessu augnabliki kemur sól í fyrstu landamerki austuráttar. Norður frá austrinu, það heitir á kompásnum Ost-Nord-Ost kl. 5. f. m., þá er liðinn sjöttúngur eyktar af morgninum, en heil eykt og tveir þriðjúngar af annari frá miðnætti. Kl. 5 og 30 mín. f. m. þá er liðinn af morgninum þriðjúngur eyktar, en frá miðnætti fimmsjöttúngar annarar eyktar.

Klukkan 6 f. m. þá er miður morgun, og er nú liðin af morgninum hálf eykt síðan hann byrjaðist við endíng óttunnar, þá klukkan var hálfgeingin 3, það er klukkan 4 og 30 mín. sem áður er sagt, og nú er sól í austri miðju.

Klukkan 6 og 30 mín. fyrir miðdag þá er liðinn einn sjöttúngur eyktar frá midjum morgni, en tveir þriðjúngar eyktar, eður fjórir sjöttúngar frá því er byrjaðist morguninn.

Klukkan 7. f. m, þá er liðinn þriðjúngur eyktar frá miðjummorgni.

Klukkan 7 og 30 mín. f. m., kallað hálfgeingin 8, þá er liðin hálf eykt frá miðjum morgni og morguninn þar með endaður. Hèr endast og landamerki ríkis austuráttar suður frá austrinu, og kemur sólin strax í fyrstu takmörk landsuðursáttar, austur frá landsuðrinu, Á því augnabliki eru þau rèttu dagmál, svosem fornaldarmenn sett og haldið hafa frá alda öðli. Þetta stryk tímapúnktsins kallar kompásinn Ost- Syd-Ost.

Klukkan 8 f. m. þá er liðinn einn sjöttúngur eyktar frá dagmálum þeim rèttu, sem fyrr var frásagt, en tveir þriðjúngar eyktar frá miðjum morgni.

Klukkan 8 og 30 mín. f. m. Þá er liðinn einn þriðjúngur eyktar frá dagmálum rèttum, en fimm sjöttúngar af eykt frá miðjum morgni,

Klukkan 9 f. m. þá er liðin hálf eykt frá þeim rèttu dagmálum, en eykt frá miðjummorgni. Nú er sól á miðpúnkti landsuðursáttar. Þetta eru dagmál nýgjörvínga, diktuð eptir stunda - tali hálærðra manna úti í heimi, sem alls úkunnir veríð hafa vorra fornaldarmanna dagsmörkum.

Klukkan 9 og 30 mín. f. m. Þá eru liðnir tveir þriðjúngar eyktar frá þeim rèttu dagmálum gómlumanna, en einn sjöttúngur eyktar frá nýgjörvínga dagmálum.

miðnætti er sól í fullu norðri, og er þá búin að útenda sitt dagshlaup, svo hún lækkar ekki sinn gáng þaðan í frá, en

Klukkan 10 f. m. þá eru liðnir fimmsjöttúngar af eykt frá rèttum dagmálum, en einn þriðjúngur eyktar frá dagmálum nýgjörvínga.

Klukkan 10 og 30 mín. f. m., þá er liðin full eykt frá rèttum dagmálum, en hálf frá dagmálum nýgjörvínga, og hèr endast takmörk landsuðursríkis á móti suðri, en taka til landamerki suðuráttarinnar á móti landsuðrinu. Þetta stryk heitir á kompásnum Syd-Syd-Ost.

Klukkan 11 f. m., þá er liðin eykt og einn sjöttúngur af annari frá dagmálum gamallra tíða, en tveir þriðjúngar eyktar frá nýgjörvínga dagmálum. Klukkan 11 og 30 mín. f. m., þá er einn sjöttúngur eyktar til hádegis.

Klukkan 12 um daginn, það kallar almanak og allar þjóðir Norðurálfunnar middegi á þessum tímum, nema vèr einir köllum það hádegi, því þá geingur sólin hæst. Og þetta er sá tímapúnktur, sem almanak meinar, þar það segir eptir miðdag og fyrir miðdag, og svo á það að skilja allstaðar í þessu dagstímatali, sem nú skrifa eg. Nú er sól í fullu suðri. Það er miðpúnktur og höfuðstaður suður-áttarinnar. Hèðan frá lækkar sólin sinn gáng, svosem á daginn líður.

Klukkan 30 mín. e. m., það á að skiljast eptir hádegi, sem strax var sagt, þá er liðinn einn sjöttúngur eyktar frá hádegi.

Klukkan 1 e. m., þá er þriðjúngur eyktar frá hádegi.

Klukkan 1 og 30 mín. e. m., það er tíðast kallað utanlands hálfgeingin tvö, þá er liðin hálf eykt frá hádegi, og þetta köllum vèr „miðmunda“ því það er miðjan tímapúnktanna dagsins, þegar hann er talinn með rèttum takmörkum frá dagmálum fornaldarmanna til náttmála, sem eptir á skal eg sýna. Hèr endast aðal-ríki suðuráttarinnar vestur frá suðrinu, og byrja hèr allra fyrstu landamerki útsuðursáttar á mótsvið suðrið. Þetta kallar kompásinn Syd-Syd-Vest 1).

Klukkan 2 e. m., þá eru liðnir tveir þriðjúngar af eykt frá hádegi. Klukkan 2 og 30 mín. e. m., þá eru liðnir fimm sjöttúngar af eykt frá hádegi.

Klukkan 3 e. m., þá er liðin eykt frá hádegi, en hálf eykt frá miðmunda. Kalla menn það „nón“ almennilega. Þar er púnktur útsuðursáttar, og kallar kompásinn það Syd-Vest. Klukkan 3 og 30 mín. e. m. þá er liðinn sjöttúngur eyktar frá nóni, og hèr byrjar þá klukkustund, sem sèrdeilislega kallast: eykt. Þar tók til eykthelgin í pápiskri tíð, að eigi mátti lengur vinna á laugardögum, nè deginum fyrir þá hátíðisdaga, sem eykthelgi átti undan að gánga. Klukkan 4 e. m., þá er liðinn þriðjúngur eykt-

1) B. Ost.

tekur þá strax til að hækka sig aptur, og því er alltíð seinni hluti næturinnar (í almanökum) talinn með þeim degi, sem eptir kemur. Sèrhverr dagur og nótt til samans deilast ogsvo í 24 klukkustundir. Eru 3 klukkustundir í hverri eykt. Þetta klukkustunda-tal byrjast strax eptir miðnætti, þá sólin tekur að hækka sig á loptinu til að færa oss daginn. Þegar liðinn

---

ar frá nóni, og hálfnuð sú klukkustund, sem sèrílagi var kölluð eykt og strax var getið. Klukkan 4 og 30 mín. e. m., þá er liðin hálf eykt frá nóni, og er þá jafnnærri báðum, nóni og miðjum aptni. Hèr enðast aldeilis sú klukkustund, sem eykt var kölluð sèrdeilislega, og undir eins með henni endar hèr ríki útsuðursáttarinnar við landamerkin á mótsvið vesturáttina, og hèr byrjazt vestursins fyrstu takmörk mót útsuðri. Þetta kallar kompásinn Vest- Syd-Vest,

Klukkan 5 e. m., þá eru liðnir frá nóni tveir þriðjúngar af eykt, en þriðjúngur óliðinn til miðaptans. Klukkan 5 og 30 mín. e. m., þá er einn sjöttúngur af eykt óliðinn til miðaptans.

Klukkan 6 e. m., þá er miður aptan, og er nú liðin af aptaninum hálf eykt, síða sólin kom fyrst í landamerki vesturáttarinnar, og hann byrjaðist við endann stundarinnar, sem heitir eykt, þá klukkan var 4 og 30 mín. e. m., sem áður er sagt, og nú er sól í vestri miðju. Klukkan 6 og 30 mín. eptir miðdag, þá er liðinn sjöttúngur eyktar frá miðjum aptni og tveir þriðjúngar eður fjórir sjöttúngar af eykt frá því að byrjaðist aptaninn.

Klukkan 7 e. m., þá er liðinn þriðjúngur eyktar frá miðjum aptni, en fimm sjöttúngar af eykt frá því að byrjaðist aptaninn. Klukkan 7 og 30 mín. e. m., þá er liðin hálf eykt frá miðjum aptni, en full eykt síðan að hófst fyrst aptaninn, og hann þarmeð endaður. Hèr endar og landamerki vesturáttarinnar til norðurs frá vestrinu, og kemur sólin strax í fyrstu takmörk útnorðursáttarinnar, þau er vita til vesturs frá útnorðrinu. Á þeim tímapúnkti eru þau rèttu náttmálin, svosem fornaldarmenn haldið hafa frá aldaöðli, og standa rètt gagnvart áður sögðum fornmanna rèttu dagmálum. Meðkennir byskupinn, Mag. Þórður, þessi náttmál rètt að vera í sínu rími, prentuðu 1692, og er það furða að af nýgjörvínga dagmálum vildi hann ekki láta, einsog þau ættu eigi að standast á andspænis hver öðrum, dagmál og náttmál. Þetta tímapúnktsins stryk kallar kompásinn Vest- Nord-Vest.

Hafa vorir fornmenn engin dagsmarka-nöfn gefið hèr á landi síðar dagsins enn á náttmálum, sem nú eru sögð og sýnd, og eignað nóttinni það er eptir kemur í dægra skiptunum fram til miðnættis, um hvert upphaflega var talað. Og að þessum tímareikníngi verður vort miðmunda rètt á miðpúnktinum, eður stryki helmínga-skiptisins á millum dagmálanna rèttu og þessara náttmála, sem eg segi rètt að vera.

er frá miðnætti einn þriðjúngur eyktar, þá telst að klukkan sè 1 fyrir miðdag, og svo 2, 3, 4, eptir því sem margar stundir eða eyktar þriðjúngar líða fram til dagsins, og er ætíð þriðjúngur eyktar í hverri klukkustund, svo að þegar klukkan er 3 fyrir miðdag, þá er eykt af miðnætti, og önnur eykt til miðsmorguns. Þegar klukkan er hálfgeingin 5 á morgnana, þá er hálf eykt til miðsmorguns, og þá endar nóttina en byrjast morguninn. Þá hún er 5 fyrir miðdag, er einn þriðjúngur eyktar til miðsmorguns. Þá hún er 6 á morgnana, er miður morgun; þá er sólin í fullu austri, og liðnar 2 eyktir frá miðnætti, en eptir eru aðrar 2 til hádegis. Klukkan 7 á morgnana er þriðjúngur eyktar af miðjum morgni. Klukkan hálfgeingin 8 á morgnana, þá eru dagmál; þar endast morguninn en byrjar daginn, því rángt er hitt sem meistari Þórður segir, að dagmál sèu, þá klukkan er 9. Klukkan 8 á morgnana þá er lítil stund, eður hálfur klukkutími af dagmálum. Klukkan 9 á morgnana, þá er hálf eykt af dagmálum; þá er sól í suðaustri. Klukkan 9 og 3 kvart. af 10da tímanum þá er jafn nærri báðum hádegi og dagmálum. Klukkan 11 f. m., þá er, að kalla, jafnlángt frá jöfnu báðum hádegis og dagmála; það munar að sönnu um hálft kvart., að þá er nær hádegi enn jöfnu báðum, en þegar klukkan er rètt 11, þá er þriðjúngur eyktar til hádegis. Klukkan 12 um miðdaginn, þá er sól í fullu suðri og er hádegi, en því svo kallað, að þá geingur sól hæst þann dag, og er þá eins lángt til sólarlagsins og frá sólaruppkomu, þar sem ei hindra fjöll nè hæðir.

Þess er nú að gæta, að svosem dagurinn (eg meina tvö dægur, dag og nótt til samans) skiptist í 8 eyktir, eður 24 klukkustundir, svo skiptist hver eykt í 3 klukkutíma, og hverr klukkutími í 4 kvart., og hvert kvart. í 15 mínútur; heitir því að klukkan sè hálfgeingin þann eður þann klukkutíma, þegar hún er búin að gánga af honum 2 kvart., en eptir eru önnur 2, svo sem sjá má, þar sem talað er um dagmál, og aptur þar, sem segir hvaðnær sè jafn nærri báðum, hádegi og dagmálum. Strax sem liðið er hádegi, taka menn til að telja upp aptur að klukkan gángi til 1, 2, 3, 4, o. s. fr., eins og eptir miðnætti. Því að svo sem frá miðnætti til hádegis eru að framanverðum deginum 4 eyktir eður 12 klukkutímar, svo eru frá hádegi til miðnættis aðrar 4 eyktir, eður 12 klukkustundir, og skiptast þær eins í kvart. og mínútur, einsog

hinar. Þegar nú að klukkan er 1 eptir miðdag, þá er liðinn þriðjúngur eyktar frá hádegi. Klukkan hálfgeingin 2 eptir hádegi, þá er miðmunda, því að frá hádegi til miðmunda er ekki nema hálf eykt, eður hálfur annar klukkutími. Klukkan 2 e. m., er stundarkorn af miðmunda, en tveir þriðjúngar úr eykt frá hádegi. Klukkan 2 og 1 kvart. af hinum þriðja klukkutíma er jafn nærri báðum, nóni og miðmunda. Klukkan 3 e. m., er nón; Þá er sól í suðvestri, og liðin heil eykt frá hádegi, en hálf frá miðmunda. Klukkan. 4 e. m., þá er liðin þriðjúngur eyktar frá nóni. Klukkan hálfgeingin 5 e. m., það er, þegar liðin eru 2 kvart. af hinum 5ta tíma frá hádegi, þá er jafn nærri báðum, nóni og miðaptani; þá endar daginn, en byrjar aptaninn. Kl. 5 e. m., það er lítil stund af jafn nærri báðum, nóni og miðaptni, og einn þriðjúngur eyktar til miðaptans. Kl. 6 e. m., þá er miðaptan og sól í fullu vestri; þá eru liðnar 2 eyktir frá hádegi, og eru eptir aðrar 2 eyktir til miðnættis. Kl. 7 e. m., þá er liðinn þriðjúngur eyktar frá miðjum aptni. Kl. hálfgeingin 8 e. m., þegar liðin eru 2 kvart. af hinni áttundu stund frá hádegi, en hálf eykt frá miðjum aptni, þá eru náttmál, því að á millum þeirra og miðaptans er eigi nema hálf eykt, einsog er á milli miðsmorguns og dagmála. Hèr endast dagur en byrjast nótt. Kl. 8 e. m., er stundarkorn af náttmálum. Kl. 9. og 3 kvart. af 10da tímanum e. m., þá er jafn nærri báðum, náttmálum og miðnætti; kl. 10 e. m., þá er ekki full eykt frá náttmálum, en tveir þriðjúngar eyktar til miðnættis; kl. 11 e. m., þá er þriðjúngur eyktar til miðnættis. Kl. 12 um nóttina þá er miðnætti og sól í fullu norðri. Síðan hækkar hún aptur sem áður er sagt.

Þess á nú að gæta, að dagurinn er hèr talinn 9 klukkutímar, eður 3 eyktir, en nóttin aðrar 9 klukkustundir eður 3 eyktir; það eru til samans 18 klukkustundir eður 6 eyktir; en morguninn 1 eykt, eður 3 klukkustundir, og aptaninn 1 eykt eður 3 klukkustundir, og þá verður talan full, 24 klukkutímar, eður 8 eyktir. Það kemur eigi til af því, að nótt og dagur sèu jafnan eins laung hvert um sig á öllum tímum ársins, því allir vita, hvað mikill munur á því er um skammdegi á vetur, lángdegi á sumur og jafndægur á vor og haust, heldur kemur það svo til, að hinir gömlu menn hafa til ætlað, að hverr maður skyldi á öllum tímum ársins láta sèr á hverjum 2 dægrum nægja 3 eyktir til hvíldar og máltíða - stunda, og

talið til þess nóttina 9 tíma; en morgunstundirnar 3, daginn allan 9 stundir og aptanstundirnar 3., hafa þeir ætlað mönnum til erfiðis. Nú af því oflángur föstutími verður í 15 stundir eður 5 eyktir, sem morguns, dags og aptans tímar eru, svo menn þurfa að taka 2 stundir af þessum 15 til máltíðar - tíma, þá skyldu menn í þann stað leggja 2 stundir framan af nóttunni eptir sjálf náttmálin til erfiðis og þjónustu sinnar, en láta sèr nægja 7 klukkutíma til svefns, og helst enn nú í dag sú venja í öllum löndum, þar sem góð skikkun er, að þjónustufólk allt erfiðar í 15 klukkutíma á hverjum 2 dægrum, en hefir 2 til máltíðar og 7 til að sofa, nema í þessu auma landi, þar sem letin, sjálfræðið og agaleysið hefir yfir hönd tekið og aflað oss fátæktarinnar, sem hvergi er í veröldinni eins mikil, og þaraðauki vankunnáttunnar á flestum handverkum og góðum listum.

Listir fækka, letin eykst,
land er fátækt rúið,
agann vantar, íllskan, leikst;
er við háska búið.

## D o k k.

Llb. 35. *Ef hross er rekit í dokk eður dý, fyrir fjall eður forrað.*

Segja þær gömlu trúverðu *membranæ*, en sú þrykkta lögbók segir „bekk eður dý“. Auðskilin er glósan og sýnilegt, að hún meinar gryfjur allar skaðnæmar, hvert sem í þeim er vott eður þurrt. Er það og mjög eptir *genio lingvæ*, að iðka svoddan upphafsbókstafanna ítrekan á þeim orðum er næst hvert öðru standa, eður allskammt er í milli, svosem hèr næst eptir dokk og dý, kemur fjall og forrað. Eru þvílíks ótal dæmi, og er það snilli málsins mjög viðlík sem *anaphora* lærðra manna. Svo er títt í sögunum: sultur og seyra, húngur og harðlífi; sjá menn, að slikt er af ásettu ráði, *quæsita elegantia.* Vil eg eitt leiða til úr Vestgota lögum. Bygðab. 13 comm. 4.: „Saa aa hara, er hendir. Saa aa ref, er reisir. Saa aa varg, er vinnur. Saa aa björn, er beitir. Saa aa elg, er fellir. Saa aa oter, er aatekur“. Og þvilíkt er sá *lepor et decor orationis*, snilli, málsfegurð, sem Snorri Sturluson eignar Óðni.

Hann talaði svo snjallt og slètt, að öllum, er á heyrðu, þótti það eina satt. Mælti hann allt hendíngum, svosem nú er kveðið, er skáldskapur heitir. En slík *alliteratio*, eður upphafsstafanna *repetitio*, er *nostræ poeseos anima et spiritns omnia penetrans.* Eins er þetta Östgotal: Bygðab. 36.: „Nu a then ref, som roser, och hara then höndum far". „At reisa dýr" er að leggja þau í einelti og koma þeim á rás. Í orðalistinni Svía bak við Vestg. lögin stendur dokk eður dý sèu *loca paludosa et voraginosa.* Segi eg það gott nóg, að dý megi *paludes* heita, en „dokk" er *puteus* eður *fovea,* hvert sem hún er gjörð af vatni eður manna höndum.

## Drepur.

*pro lystur = verberat, cædit, pulsat.*

Vígsl. kap. 13.

Ólafs saga *ex membrana* kap. 153: *drápu þeir sèr eld oc bjuggust til matar.*

Heiðsævisl. Mannh. 12.: *Ef maðr drepur mann til dauðs.* *item* Frostoþíngsb. Hákonar k. lib. 1 kap. 17.

## Drottins-svikari.

Mannh. 4. *Landráð og drottíns - svik við konúng.*

Rb. H. R. *Ef maðr kallar mann drottins - svikara o. s. frv.*

Mèr finnst það ekki lítils athuga vert, að sýna skilmerk rök til þess, hvað hèr skuli meina glósan „Drottinn". Það má af Mannh. 4 ráða, að fleiri sèu hèr meintir með drottins nafni enn konúngur alleinn, því tekur bókin það til svo skilmerkilega, að þau drottins - svik, er ske kunna mót kóngi, og með landráðum eru blönduð, sèu frá þeirri vægð útilukt að erfíngjar megi njóta neins af arfinum. Það er og víst, að drottnan sú, er þeirrar fornaldar - menn höfðu yfir þrælum sínum, á hèr efalaust heima, svo með réttu heitir sá drottinssvikari, sem að þræll eins og svíkur sinn drottinn, sem í lögunum kallast „skap - drottinn" og hans kvinna drottníng. *Vide* Grágás í Vígsl. kap. 108, og eru þau svik þar með stæstu níðíngsverkum og stór - ódáðaglæpum talin. Skapdrottnar heita og slíkir herrar í hinum forna Kristinrètti og Heiðsævisþíngs-

bók kap. 34. Þar segir: „Ef þjón mannz etr kjöt í langaföstu, þá er hann útlægr, oc scal vera í valdi skapdrottinz hans er á, hvert hann vill leysa hann undan því gjaldi, hálft þegngildi, oc kaupa honum svo landzvist, eða hitt ellegar, at hann fari af landi burt". Þeir heita og skapdrottnar í hinni fornu Gulaþíngs-bók allvíða, og nær jafnopt sem drottnar. Nú af því eg hefi það sagt, að slík drottins-svik sèu í þessari rèttarbót meint, þá á eg að bevísa það í tíð Magnúsar Lagabætts hafi enn þá eigi þrældómarnir aldeilis afteknir verið. Vitni mín til þess eru: 1, Stiernhoch de Jure Sveonum lib. II cap. 4., og skulu menn allan lesa kapítulann. 2, Pètur Undalinus, in Magnus Eirekson, sem Svíar kölluðu „Smekk". 3, skortur sagnanna, sem votti þrældómana aftekna vera, samanborinn við Stiernhoch. cap. cit. 4, Frostuþíngsbók Hákonar konúngs, sem vottar, að þá voru þeir til, Mannh. 54. 55. 5, Það vor lögbók áskilur sèrlega frjálsa menn og fulltíða, og því undanskilur Þræla, að þeir voru til í þann tíma Mannh. 5 et 10. 6, fororðníngin, sem þá aftekur, sýnir, að allt þángaðtil vöruðu þeir; og er svo eigi að furða, þótt slíkra drottins-svika sè getið í lögunum. En það virðist mèr, sem lög Svíanna gjöri fleiri drottna, enn konúng einn og þessa skap-drottna, þareð svo mæla „Wästgotha-Lagh. Arðar b. kap. 1 og 7: Dräper maðher lånardrotten sinn, þat är nidingsvärk". Þótt einhverr segi mèr að lánardrottinn og skapdrottinn sè allt hið sama, svara eg, að vox „lánardrottinn" er *longe generalior*, tekur miklu víðar, og grípur í sèr alla þá, sem með einhverjum herraskap eður yfirboðan hafa vald að befala öðrum í sínu eigin nafni. Það sýna Upplandslög Mannh. 15 § 3. Þar standa leigudrengir og leigukona skilmerkilega greind frá þræli og ambátt; þó heitir hússbóndinn herra þeirra, og veit almenníngur að herra og drottinn er allt hið sama, og drottins-svik eru að svíkja sinn herra. Svo er hèr nú hússbóndinn herra og lánardrottinn leigumanns og leigukonu, en skapdrottinn þræls og ambáttar. Sama er enn um lánardrottinn að sjá og segja af Svíanna Landslagh. Hogmålisb. kap. 10. Og hvar sem þrælum kom sök á hendur, var skapdrottni talað til um bætur og refsíngar, sem áðurskrifuð grein hins forna Kristinrèttar Norðmanna skýrlega sýnir. Verður svo ljóst, að drottins nafn og lánardrottins eiga miklu fleyri enn skapdrottnar einir; já, ogsvo, sem eg hefi sagt, drottins nafnið náir til

allra þeirra, sem með einhverju móti hafa vald yfir öðrum til að skipa þeim í sínu nafni sjálfs. Sá sem í Jónsbók heitir landsdrottinn, hann heitir í Vestsgotalögum lánardrottinn, Erfðab. 22. p. m. 29. Þeir, sem þau nýu Dönsku - og Norskulög Kristjáns 5ta kalla „Kirkeværger", heita kirkjudrottnar í Vestgotalögum Kirkjub. 24. p. m. 13. Þó að nú vilji menn ei láta þessa landsdrottna eður kirkjudrottna neitt tilkall eiga til drottins nafns, þegar tala skal um drottins-svik, þá verðum vèr þó hinu að játa, að drottins nafn eiga „Jord - drottnar í Kristj. 5ta NL. 3-13, og Kristj. 4da NL. Landslb. 9, 11, 13 kapp., hvaraf eg inferera, að þegar svikin ske í þeim pósti, af hverjum þessir hafa drottins nafn, þá eru það drottins-svik. Ex. gr. Landseti minn, hvert heldur hann er mèr nær eða fjær, lætur vísvitandi undan jörðu minni hefða landsnyt, eða einhverja kosti, hverju nafni sem þeir heita, það eru drottins svik, því að í þeirri grein er eg hans drottinn, því verður ekki neitað, þó menn eigi vilji láta mína drottnan til hans ná í öðrum greinum. Eg segi og berlega, að svo víðt sem lánardrottins nafn tekur, þá eru það drottins-svik í þeim greinum, að forráða sem sú lánardrottnan til nær; og vil eg það sýna í hinni æðstu tröppu og lægstu. Áður er sagt, að drottnan kónganna getur enginn efað, en þeir heita og lánardrottnar, svosem kvað Sighvatur um Ólaf konúng Helga í Bersöglisvísum:

Eg vissa þá ossum
ótta lanardrottni.

Og er nú sögð hin æðsta trappan. Sjáum hina lægstu! Grettir Ásmundarson, þótt hann væri af höfðíngjum kominn, og svo stórættaður, að hann var fjórmenníngur við Ólaf Helga, þá var hann samt skógarmaður hèr á landi ɔ: friðlaus maður, útlægur og óhelgur. Þó kallar Þorbjörn Aungull Gretti lánardrottinn Þorbjarnar Glaums, þegar fjendur Grettis tóku Glaum sofanda við stigana. En þareð Grettir var skógarmaður, átti hann hverki þræla nè annað fè. En Þorbjörn Glaumur var einhleypíngur og nennti ei að vinna, segir sagan kap. 88, og er það ljóst, að eigi var hann þræll ánauðugur, enn þótt hann sè nokkrum sinnum í sögunni þræll kallaður; kemur það svo til, að sögumeistarinn metur hann ei þrælum betri, og því eru þau orð Gretti eignuð, sem gjöra Þorbjörn Glaum þræls jafníngja. Af öllu þessu *inferera* eg, sem fyrr er sagt, að

allir þeir, sem í sínu [sjálfs] eigin nafni ráða boði og banni yfir nokkrum manni sèu meintir undir drottins nafni, og svik þau öll við svoddan yfirboðara, sem líf þeirra eður æru, virðíng eður embætti forráða, sèu drottins-svik, og svo ef þau forráð koma fram á konum þeirra eður börnum, þeim til líftjóns eður lima, spotts eður háðúngar, já og, ef slíkir undirgefnir forráða frá sínum herrum, það er: hússbændum, gótz þeirra með ásettu ráði, skil eg ei betur enn þeir heiti með rettu drottins-svikarar. Því verður eigi neitað, að drottins-svik eru það, er Þorbjörn Glaumur forrèð líf Grettis með leti þeirri, er hann ekki nennti að draga upp stigann, og þó var það eigi af ásettu ráði Glaums, og verður því athuginn, hvert þeir sèu drottins-svikarar, er af vangá annað hvert gjöra, eður láta ógjört það, sem síðan verður hússbóndanum að líftjóni, svo sem þeir, er á verði sofa, þegar von er fjandmanna, sem hússbóndans líf eður æru skaða vilja. Eg skil eigi betur, enn rètt sè að kveða já við þessari spurníngu, enn þótt þeir eigi gjöri það af ásettu ráði til að selja síns herra fè eður fjör í fjandmanna hendur. Mèr verður sagt, að eigi hafi Magnús konúngur Lagabætir lagt við því landráðasök, þótt menn sofni á verði, í sínum lögbókum. Landvarnarb. kap. 4. (Þar er varðvíti mörk silfurs) nema við þeim tvennum, er austast og norðast eru, tveir hverjir; þar liggja við 8 örtugar og 13 merkur, en útlegð eigi. Hèr svara eg, að *voluntas legislatoris*, ɔ: vilji þess, er lögin gaf, sè hèr grundvöllur, en eigi *natura rei*, það er: gjörníngurinn í sjálfu sèr. Aptur verður mèr sagt: þó máttu eigi dæma það, nema svo sem lögin bjóða. Eg svara: að vísu má eg það eigi í þeirri grein, sem lögmálið hefir ákveðið; en hvert sá kapítuli bindi mig í öðrum greinum öllum, þar sem viðlíkt efni, og þó eigi sama, fellur til, er annað spursmál. Það sè eg, að hin fornu Gulaþíngslög hafa þessi varðvíti þreföld, og er það vottur þriðjúngsfallsins, sem Hákonar konúngs Rèttarbót gjörði á sektunum, nema í þessari grein, um setu á vitaverði. Þar liggja við 12 aurar í Útgerðarbálki í þessari fornu Gulaþíngsbók, ef eigi verður skaði að, en útlegð ef að skaða verður. Það greinir Magnús konúngur ekki hvað gylda skuli, nema í síðustu grein kapítulans, um forsómun barúns að rannsaka, hversu verðir haldizt; þar liggur við 8 örtugar og 13 merkur, ef skaði verður að. Nú verður mèr enn sagt: *nihil infers* til að *concludera*, [að] þetta sèu drottins-svik. Eg

svara, það Hirðskrá leggi við því nafnbóta - töpun öllum handgeingnum. kapp. 26 og 32; en í 12ta kapitula leggur hún níðíngs nafn við, ef einhverr handgeinginn maður ber eigi njósn öðrum, þegar vart verður við ófrið. Því ætla eg það megi drottins-svik heita, er að minnstakosti gyldir embættistöpun, og þá níðíngs nafn, er meira nemur. *Atqui,* það er á leiðángursmönnum eigi svo straffað, vilt þú segja, í áður *citerudum* Landvarnar og Útgerðar bálkum. Eg svara: vera mega tröppur í drottins - svikum, svo sem öðrum glæpum, og þó rètt kölluð drottins - svik eigi að síður. Hvinn bætir sig 2 aurum við konúng, og er þó jafnan síðan maður að verri. Mèr verður sagt, að skuli það vera drottins - svik á verði að sofa, þá sèu þau að vísu við konúng sjálfan meðal stæstu óbótamála talin, Mannh. 4. Eg svara þar sèu og tröppur til í drottins - svikum við konúng, og sè talað um þau allra stæstu í Mannh. 4. Það finn eg í Kristjáns fimmta Krigsartikler 78 og 80, að svefn á verði, drykkjuskapur á verði, burtgánga frá boðnum verði, gyldir allt lífið. Þótt þau sèu lög önnur enn Magnúsar konúngs, þá styrkja þau mína *thesin,* að það heiti drottins - svik, ef maður sefur á verði, og rètt hafi Þorbjörn Aungull sagt um Þorbjörn Glaum, sem áður vottar. Nú innfellur hèr það spursmál, hvert að öll drottins-svik sèu strax æruleysi, og sá alltíð maður að verri, sem að þeim verður kunnur og sannur. Eg svara: drottins - svik öll við konúng eru sannarlegt æruleysi, rofinn trúskapur og meinsæri, og flestar þær greinir drottins - svikanna, sem áður hefi eg hèr tilgreint, eru því svo náskyldar, að eigi skilur, nema meinsærið alleina. Því ætla eg til þess skygn augu þurfi, að sjá drottins - svikum bót frá æruleysi, helzt ef svikin gjörast af ásettu ráði, til líftjóns, eður ærutjóns, eður smánar eður þess fjárskaða, sem svikarinn eigi meinar að bæta fèbótum. Samt mundu nú á tíðum flestir dómendur vilja kalla þann mann vottbæran, sem af eintómu hirðuleysi og forfallalaust gjörir sínum herra þann fjárskaða, er hann eigi getur endurgoldið, þótt eg mundi trauður að því ráða, þar eg ei skil, að nokkurr megi þann ódygðamann kalla valinkunnan nè skilamann, dugandi mann nè ráðvandan mann, því eg skil ei betur, enn að slíkir sèu rèttnefndir óráðvandir óskilamenn, og að íllu kenndir ódygðamenn. Mèr verður sagt: Allt það, er þú talar af sögum og svenskum lögum, talar um líf, en ekki fè, nema kóngs,

og það svo stórt, að sèu lönd heil, Mannh. 4., en í Þjófab. 10 er þar ei lagt við nema þjófs nafn alleina og eyðfall til fjögra marka þeim er kaupir. Eg svara því fyrst hèr til, að þessi þjófnaður verður einn með þeim stæstu, sem næst gángi þjófsins lífi, því varla mun að vænta konúngs eignar á svo lítilli jörðu, að eigi sè merkur verð, eður tveggja marka, og sýnir Þjófab. 1 hvað þá liggur nærri. Hitt er ljóst, að töpuð er þjófsins æra. Ef maður tekur upp marksteina og setur hvergi niður, þá er hann sekur 6 aurum, seigir Þjófab. 10. Eg spyr: við hvern? Mèr verður sagt: við konúng, sem ljóst má kalla af sama kapítula. En hverju er hann sekur við þegna þá, er áttu marksteininn, 2, 3 eður 4? Mèr mun verða svarað: svosem kennir Llb. 19., um þann, sem upphöggur merkibjörk vísvitandi. Eg spyr: mun það lítil sök? Og enn legg eg það til, sem mælir Þjófab. 16.: „hver öfund í var gjör. Nú veit það hjón eitthvert landeiganda manns, hvar að liggja marksteinar fyrir þeim reit, er prætuvænn er, eður undir þrætu liggur. Hann fer til og tekur upp steinana, en setur hvergi niður. Mótpartur hins bóndans er þessa vís orðinn, eður það var gjört með hans heimuglegu ráði; Hann færir sèr þetta í nyt, og setur steina í líkíng hinna fyrri þar, sem honum líkar, stefnir síðan hússbónda þess, er hina rettu merkisteina upptók, og beiddi hann lagabeiðslu og lýrittar, eptir Llb. 26. Hinn mætir, sá stefndi, og hyggzt að gánga að vísum lýritta sínum, og nú þá er hann horfinn, og því tapar hann landsnytjum allt til hinna nýu merkisteina. Síðan er honum eigi vært fyrir landþraung á eigin jörðu sinni, og verður því að flýa burt og gjörast leiguliði. Hverr mun forsvara hann fyrir drottins-svikum, er steininn tók upp? Það læt eg annað dæmi, að eldur er í kolagröf, sem hússbóndinn hyggur fyrir laungu slokinn vera, en vinnumaður veit að gröfin rýkur, og þeigir um það. Gröfin er allnær heygarði, og stendur vindur af henni upp á garðinn; bóndi er kominn til hvílu, og geingur vinnumaður til svefns, svo hann varar engan. Um nóttina logar gröfin upp, og feykir vindurinn eldinum í heyin, svo þau brenna til lokins að björtu báli, og eru veturnætur og allt bóndans kvikfè bjargarlaust. Mun ekki þessi vinnumannsins eintóma þögn drottins-svik? Hverr þorir síðan að kalla þann vottbæran ærumann, er með slíkri dygðalausri þögn forrèði svo velferð hússbónda síns? Nú er annar hússbóndinn orð-

inn hússgángsmaður fyrir svik leigumanns, annar leiglendíngur, hrakinn frá óðali sínu fyrir svik hins. Kaupmaður á skuldir að heimta, nokkur þúsund ríkisdala, eður minna, eptir hans megnunar háttum, og hefir sterkar *obligatiónir* þar upp á til viss eindaga. Jafnmiklar skuldir á hann að gjalda viku síðar, og hefir þar uppá gefið jafnsterkar *obligatiónir*. Það veit þènari kaupmanns, og svo hvar *debitóranna obligatiónir* sèu varðveittar í einhverjum kjallara, sem eldur skyldi síður ná, ef húsið kynni að brenna, en það stendur á sjáfarbakka. Kaupmaður heimanfarinn hefir engar sèrdeilis orður hèrum gefið. En á meðan hann er í burtu kemur sjáfarflóð óvandalegt og flýtur inn í kjallarann og þó eigi óðhröpum, svo vel má þaðan öllu bjarga, ef um hirt væri. Það lætur þènarinn ógjört; því kemur sjór í kistilinn og fordjarfar allar þessar *obligatiónir*, svo þær rotna gjörsamlega og verða alls ónýtar, þegar kaupmaður kemur heim. Síðan kemur að hans skuldadögum, og hefir hann eigi að gjalda með, þar sem hann fær enn ekkert af sínum *debitórum*; verður hann þá settur í arrest, og fellur öll hans höndlun. Mun ekki sá þènari hans, sem fyrr var um talað, rèttnefndur drottins-svikari? Það læt eg hið fjórða til dæmis, að embættismaður einhverr hefir nýlega fengið einhverjar sèrdeilis konúngsins skikkanir til nýrra erinda í fjarlægum stöðum, og látum það vera hèr á landi, þar sem menn skulu reisuplögg á hestum færa yfir vötn og aðrar torfærur. Þessar konúngsins orður lætur sá, er þær fær, hirða vel, og setur tjaldmann fyrir sína lest svo menntan, að vel má alls gæta. Lestamenn ferðast einhvern dag alfæran veg, sem þó þarf gætni við, á gljúfurbakka; þar gánga klifjahestar í bága, og snarast af þeim, sem kóngsins orður bar, svo sá kistillinn steypist í gljúfrið og flýtur til hafs. Annar lestamaður eins búinn, við allt eins löguð erindi, rekur hestana út í stórt vatnsfall, og hyggur hverki að silum nè gjörðum áður í ána geingur lestin; mitt í ánni er brostin gjörð á hestinum, er kóngsbrèfin bar; snarast því af, og ferst svo kistillinn með öllu saman; en embættismenn eru hverstveggja þessa lestamanns hússbændur, og kalla, svo sem vonlegt er, í stóran háska komið um kóngsins náð eður ónáð fyrir þetta. Nú gjörði þó hverigur þessara lestamanna af ásettu ráði, heldur af eintómis hirðuleysi. Hvað getur þá afsakað frá drottins-svikum? Ekki skil eg þeir sèu betri enn Þorbjörn Glaumur í Grettis sögu;

því er hjá mörgum mannæran svo rír, að hegníng kemur engin fyrir slíkar ódygðir. Fimmta dæmið set eg, að á bæ einhverjum er kvikt í neyzlubrunni, maðkar ýmsir og vatnsormar, og vita það allir heimamenn: er því venjulega síað neyzluvatn allt, og þá fullgott til matar og drykkjar, eður, ef eigi er það síað, þá er það þó skoðað við ljósan dag, eður kveikt ljós með athuga fyrir voða þessum. Eitthvert sinn lætur matselja það ógjört, og kemur þetta vatn órannsakað í súpu, eður í graut eður drykk, og verður mönnum til líftjóns eður vanheilsu vegna forgiftar ormanna. Munu það eigi drottins-svik, er matseljan gjörði, þótt af gáleysi væri? Hennar athuga er fyrir þessu verki trúað. Eg skil eigi, hver afsökun henni verði fundin frá drottins-svikum. Eg vil þeigja um þræl Arnkels Goða í Eyrb. kap. 37, þegar hann skyldi vekja upp fylgðarmenn Arnkels til liðveizlu mót Snorra Goða, er þá við 15 menn sótti líf Arnkels; en þrællinn fór fyrr til að bera inn heyhlassið með öðrum samþræli sínum, heldur enn hann vakti fylgdarmenn Arnkels. En þó sagði hann þeim hvað tíðt var, er Arnkell var fallinn, sem barizt hafði alleinn við 15 menn, meðan dygða-snauði þrællinn bar inn heyið. Það veit eg, hèr er drottins-svika lifandi speigill, og sýnist þó, að eigi hafi þrællinn gjört af ásetníngi, að Arnkell yrði drepinn. Og til þessa dæmis ætla eg mig leiða mega Kristjáns fimmta forordníng um þjófa og ótrúrra þènara straff, dat. 4 marz 1690. Stóru drottins-svikin eru, að ráða lönd og þegna undan konúngi sínum; en þetta ætla eg sè sömu ættar aldeilis. *Majus et minus non variunt speciem*, segja lærðir menn; það er: Davíð var eigi svo stórvaxinn sem Golíat, þó voru þeir menn báðir. Eyris stuldur og tveggja marka stuldur eru misstórir, og þó stuldur og æruleysi hverr um sig, og svo eru þessi fyrr sögðu drottins-svik rèttkölluð drottins-svik, þó annar þessara drottna sè miklu meiri herra enn annar, og frá þeim hærra herranum sè meira svikið enn frá þeim lægra að fjárvextinum, en eigi meira eptir herranna beggja fjármagni, svosem Kristur kenndi um ekkjuna, sem mest lagði inn í ölmusukistuna. Suðurmanna-lög Svíanna Mannh. 36 láta alla hússbændur drottins nafn eiga, svo það er ljóst aldeilis.

En þótt eg nú þykist með nokkrum dæmum sýnt hafa, það þessi margföld drottins-svik kunni að ske í þeim hlutum, er fè og peninga snertir, jafnvel meðal þegna kóngs, sem á

milli konúngs og þegnanna, þá munu mótmælendur kalla mig skorta greinileg orð lögmálsins til þessa. Því bið eg þeir með athygli lesi vorrar Mannh. 11 kap, og serdeilis orðin þessi: „allt það, hinn fær skömm af eður svívirðíng etc. Lífi at firr, eður nokkri skömm at nær". Og enn bið eg þá að lesa Mannh. 25: „Ef maður mælir þá skömm við konu mannz etc., eður kennir þat dóttur mannz eður systur". Báðir tala þeir kapítular um hverja sem vera kunni, þótt hann sè þeim að engu vandabundinn, sem í hlut eiga; því skil eg ei betur, enn hverr sá þènari, sem ræður hússbónda sínum einhverja skömm eður vanvirðu, lokkar kvinnu manns til saurlífis eður dóttur í föðurgarði, eður systur í bróðurgarði, sè sannur drottins-svikari. Eg tala um þènara þess, er rèttinn á að heimta; um framandi tala eg ei; Þeir eiga í slíkum tilfellum ekki þann skammar-titil, þvíað drottnan hins náir hvergi til þeirra. Lögbrot gjöra þeir með svoddan hætti, en drottinssvik engin, fyrir mannlegum dómi. Mèr verður enn svarað, að með þessu móti kalla eg allar ávirðíngar vinnufólks mót hússbóndanum drottins-svik, þar eg láti bæði vilja-verk og óviljaverk eiga það nafn. Eg svara það ei má svo mín orð skilja. Þau öll vilja-verk, er hússbóndanum ráða skömm eður vanvirðu, kalla eg drottins-svik. Þau verk, sem af hirðuleysi gjörast og á eins miklu ríða, kalla eg drottins-svik; þvíað dygðarviljan, sem hússbóndinn á með rèttu skilinn, lætur hirðuleysíngurinn vanta, þar sem hann þó veit hvað hússbóndanum liggur við, virðíng hans eður skömm. Þau vilja-verk um fjärskaða, sem hjúið ei meinar að bæta með sínum peníngum, kalla eg og drottins-svik, því hèr vill hið íllgjarna hjú hússbóndanum bæði fjártjón, og þá óvirðíng, að hafa skaða sinn óbættan, og þau hirðuleysis verk, sem hússbóndanum gjöra það fjártjón, er aldrei megnar hjúið honum að bæta, þvíað dygðina vantar til að varðveita síns hússbónda virðíng frá því, að neyðast til að þola skaðann bótalaust. Dæmin, sem eg framsett hefi, gjöra þetta ljóst, og aðskilnað glöggan frá smávægum hlutum, sem hússbóndann láta standa jafnbyrgan eptir sem áður. Og enn set eg það dæmi: hrútur kemur óskeyttur í fè hússbóndans um Marteinsmessu; það veit smalamaður, og þeigir um, en sauðurinn fordjarfar ásauðinn til stórs skaða; það tel eg með drottins-svikum. Annað: frá hrút hússbóndans, sem skeyttur er, losnar speldi, og gjörir hann skaða á

10 eða 20 ám af 100; verður þá smalamaður þess var og segir til. Það kalla eg ekki svik, þótt smalamaður hefdi vel mátt þess fyrr gæta, og firra svo sinn hússbónda skaða málnytunnar; vangá er það allein, en má varla kallast hirðuleysi.

## Dyrðill.

Kölluð skikkja Þorkels, af því hún var svo góð, en nafnið dreigið af dýrð, og er skartsklæði, skrautklæði, prýðiklæði, það er gjörir dýrðlegan, tignarmanni líkan, þann er slíku skrauti skartar.

## Dönsk Túnga.

Erfðat. 23: *af öðrum túngum enn danskri túngu* [*scal engi maður at frændsemí arf taka hér, nema etc.*][1].

Að „dönsk túnga" sè vor íslenzka túnga, vottar Grágás Vígsl. kap. 37:

„Ef útlendscir menn verða vegnir á landi hèr, danskir eða sænskir eða norrænir, og í[2] þeirra konúnga veldi þriggja, er vor túnga er, þar eiga frændur þeirra þær sakir, ef þeir eru út hèr, en af öllum túngum öðrum enn af danskri túngu, þá á engi maður hèr vígsök at sæcja at frændsemis-sökum, nema faðir, eður sonur eður bróðir".

Nú máske þótt þetta sè ljóst, að menn vilji svara, það sagan af Gunnlögi Ormstúngu láti danska túngu víðlendari kap. 7, þar segir: „þá rèði fyrir Englandi Aðalráður konúngur Játgeirsson, og var góður höfðíngi. Hann sat þenna vetur í Lundúnaborg. Ein var þá túnga í Englandi, sem í Danmörk og Noregi. En þá skiptust túngur í Englandi, er Vilhjálmur Bastarður vann England. Gekk þaðan af Vallands túnga, er hann var þaðan ættaður", segir hún. Það vita menn að var anno 1066, eptir fall Haralds kóngs Guðinasonar, en það var 19 nóttum eptir fall Haralds konúngs Harðráða. Og er það ljóst af Snorra Sturlusyni, að um kvöldið, þá fallinn var Haraldur konúngur Sigurðarson, og Styrkár stallari falaði kausúngin að bóndanum enska, þá skildu þeir hverr annan, og var

1) [ ] vantar í A. 2) B. oc í.

mjög lík túngan, eður öll hin sama. Þar stendur: „mælti Styrkár: viltu selja kausúngin, bóndi? Ekki þèr, sagði hann, þú munt vera Norðmaður; kenni eg mál þitt. Styrkár mælti: ef eg er Norðmaður, hvað viltu þá? Bóndi svarar: eg vil drepa þig etc“. Hèr sjáum vèr 1, að hverr skildi annan, 2, að bóndi gat til, en vissi ekki fyrir víst [1] að hann væri Norðmaður. 3, kenni eg mál þitt; það hefir verið af einhverjum keimi *pronunciationis*, svosem enn þekkja menn norska frá dönskum af *sono enunciandi*, þó dönsku tali, eins og vèr kennum austfyrzka af þeim sama *spiritu efferendi*, og vestfyrzka hjá oss af ymsum glósum; fólk frá Jökli af sínu *ai* fyrir *á*; Sunnlínga af *o* fyrir framan *r*,[2] svosem hvorigur, morauðt. Í slíkum orðum *pronunciera* þeir bókstafinn *o* einsog almenníngur *pronuncierar* fyrsta atkvæðið í Norvegur. Norðlínga kennum vér af *generibus vocum grammaticis*, svosem „skúr“ er hjá þeim karlkennt, en kvennkennt hjá Sunnlíngum; klára Norðlínga og klár Sunnlínga (vallar-vinnu verkfæri), svo hèr eru fjórar *dialecti* í einni túngu. Platþýzkir og Svíar draga gjarnan seim *in efferendo*, svosem vorir austfyrzkir, og af svoddan einhverju mátti bóndinn kenna Styrkár. 4, Lætur Styrkár stallari það í efa, hvert hann sè Norðmaður, eður Enskur maður, sem ómögulegt var, ef sèr var hver túngan. En svarað verður hér, að hann hefði kunnað að tala á enska túngu við bóndann, þótt hann væri Norðmaður, og kennast af því, að mistaka til í einhverjum *idiotismo;* en því skyldi þá bóndinn heldur eigna hönum Norðmanns nafn, enn aðra *nation?* Og sýnist mèr þetta *argument* mjög styrkja það, sem áður er ritað af sögu Gunnlögs Ormstúngu, að ein hafi þá túnga verið þar og í Noregi; lætur það og eigi allólíklega, þarsem Anglo-Saxones skulu þar á Englandi yfirvöld fengið hafa á dögum Theodosii 2di keisara, sem vottar Johannes Cluverus p. m. 387, og svo hið sama Munsterus lib. 2 cap. 9. p. m. 48. 49., og báðir, að það hafi verið 449 árum eptir Híngaðburdinn. Það vitnar og *ibidem* Munsterus eptir sjálfum Beða, enskum manni, að í gamla daga hafi túngan í Englandi þýzk verið, það er að skilja saxisk af Anglo-Saxonibus. Nú mælir svo Rímbegla í Þormóðar: *Serie Regum lib.* 3. *cap.* 4.: „Upphaf allra frásagna í norrænni túngu, þeirra er sannindi fylgja, hefst þá er Tyrkjar og Asíamenn byggðu

---

1) B. sagði eigi víst. 2) vantar í A.

Norðrið; því er það með sönnu að segja, að túngan kom með þeim norður híngað, er vèr köllum Norrænu, og gekk sú túnga um Saxland, Danmörk og Svíþjóð, Noreg og nokkurn hluta Englands. Þetta segir Rímbegla og ber því saman við niðurlagið af [*prologo*] Eddu, þar svo[1] stendur: „Þeir (Æsir) tóku sér kvonfáng þar innanlands (i Svíþjóð), en sumir sonum sínum, og urðu þessar ættir fjölmennar [sva][2] at um Saxland, og allt þaðan um Norður - álfvor dreifðust, sva at þeirra túnga Asía manna var eigin túnga um öll þessi lönd. Og þat þykjast menn skynja mega, af því að skrifuð eru lángfeðga nöfn þeirra, at þau nöfn hafa fylgt þessi túngu, og þeir Æsir hafa haft túnguna norður híngað í heim, í Noreg og í Svíþjóð, í Danmörk og í Saxland, og í Englandi eru forn lands-heiti eður staða - heiti þau, er skilja má, at af annari túngu eru gefin, enn þessi“, vide Sn. Sts. Það hèr nefnir „aðra túngu“, skilst mèr að meini þá, er gekk á Englandi, áður Anglo-Saxones inntóku það ríki. Og svo lætur þetta, sem enginn efi sè á, að á Englandi geingið hafi þessi túnga.

Enn segir það Munterus eptir Polydoro Virgilio, að þegar Anglo - Saxones tóku yfirhönd í Englandi, hafi leifar *Brittannorum* sezt niður í Vallia, það er furstadæmið vestan á Englandi, og má þaraf að líkindum ráða, að ei hafi þeirra túnga með öllu undir geingið, þótt hin tæki þá yfirhönd, sem Anglo-Saxones innfærðu, svo að enn[3] nú ber öllu saman til þeirra líkinda, að danska túngan sè úr Saxlandi komin, hafi þar geingið, og þó blandast nokkurn part af þeirri, sem áður hafði þar verið, og nú var nokkurn part eptir í Vallis (Wales) hjá leifum þeim, er fyrr höfðu byggt landið.

Nú þótt Polydorus Virgilius, ítalskur maður, hafi lítið hrós af sinni historia hjá Henrico Savilio[4], sem Vossius innfærir *de historicis latínis lib.* 3 cap. 12 p. m. 679, þá er þó líklegt, að eigi hafi Saxones svo með öllu útslökkt *gentem Brittannorum,* að leifarnar hafi ei eptirstaðið, til að menga túnguna, en samt hefir túngan af Anglo - Saxonum yfirhönd tekið, og að öllu meira mátt, svosem af öllu því má ráða, sem *Elzeviri in Republica Scotiæ* cap. 4 p. m. 90 og 91 skrifa eptir Boethio, skottskum manni, Luthero samtíða, að Skottar þeir, er búið hafi við Englands grenndir hafi með nábúaskap Anglo-

---

1) vantar í B. 2) vantar í B. 3) A og enn. 4) B Savelio.

Saxonum forlátið sína eigin túngu, og tekið við þeirri saxisku, hvað þá enn fremur þeir undirþreyngdu Britanni, sem þá misstu bæði nafn og frelsi?

Þá er hèraðauk það, er mælir Snorri Sturluson í sögunni af Hákoni konúngi Aðalsteinsfóstra, um Eirík konúng Blóðöxi: „Norðumbra land er kallat[1] fimmtúngur Englands. Hann (Eiríkur Blóðöxi) hafði aðsetur í Jórvík (*Eboraco. York*), þar sem menn segja, at fyrr hafi setit Loðbrókar synir. Norðumbraland var mest byggt Norðmönnum, síðan Loðbrókar synir unnu landit. Herjuðu Norðmenn og Danir optlega þannig, síðan [er][2] vald landsins hafði undan þeim geingið. Mörg heiti landsins eru þar gefin á norræna túngu, Grímsbær og Hauksfljót[3] og mörg önnur". Allir sjá, að þessi saga lýtur þar til, að síðan eptir magnaða ríkisstjórn Anglo-Saxonum var túngan á Englandi mestan part saxisk, það er gamaldönsk, svosem í Saxlandi hafði danskan haft sína *dialectum*, og þó eptir líkindum nokkuð blönduð við hið forna mál leifanna *Britannorum;* þá hafi með nýu veldi Loðbrókar sona eflst að nýu og á fætur aptur komizt *genuina lingva Danorum,* eigin art dönsku túngunnar, í þeim hluta landsins sèrdeilis, er mest byggðu þá Danir og Norðmenn.

Nú þótt frá tíðum Loðbrókar sona fram til Eiríks Blóðaxar vera megi, eptir reikníngi *Thormodi, in Serie dynastarum* lib. 3 cap. 2 p. m. 241., hèrum 130 eður hæst 150 ár, þá er líklegt, að enn hafi þar verið túngan að mestu leiti sama, og hefir [hún][5] sannlega mátt viðhaldast hvað bezt þá stund, er Sveinn konúngur Tjúguskegg herjaði þar með hræðilegum yfirgángi mörg samfelld ár, sem Hvítfeld vottar, Tom 1 pag. 56—63., og þá enn fremur um þau 24 ár, sem Knútur konúngur Ríki hafði konúngsvald yfir Englandi. Hann dó, að vitni Hvítfelds p. 34, anno 1035 eður 1036. Ber því saman við Ólafs Helga sögu á[6] *membrana* kap 242, og eru þá ein 30 ár til þess, er Wilhjálmur Bastarður vann England og gjörðist konúngur yfir, svo öll má líkleg[7] þykja sagan Ara prests ens Fróða af Gunnlögi Ormstúngu.

Það er meira, að Ólafur Hvítaskáld Þórðarson Sturlusonar, í þeim hluta Eddu á *codice Wormiano*, sem hann hefir gjört *de Orthographia, Prosodia, Rhetorica og Poetica* vorrar túngu,

---

1) B. kallaður. 2) [ ] vantar í A. 3) A Haugsfljót. 4) B. Blóðöxar. 5) [ ] vantar í A. 6) B. af. 7) B. trúleg.

það er menn hafa kallað Skáldu, talar enn um skyldsemi vorrar túngu við Enska[1] sinna tíða þessum orðum: „Rita enskir menn Enskuna latínu stöfum öllum, þeim er rèttræðir verða í Enskunni; en þar þeir vinnast eigi til, þá hafa þeir við aðra stafi, svo marga og þesskonar, sem þarf, en hina taka þeir úr, er eigi eru rèttræðir í máli þeirra. Nú eptir þeirra dæmum, alls vèr erum einnar túngu, þó at gjörzt hafi mjög önnur tveggja, eða nokkut báðar, til þess at hægra verði at rita, þá hefir eg ritat oss Íslendíngum stafrof etc.“ Og litlu síðar segir hann: „Nú má verða at því at nokkur svari svo: eg má vel lesa danska túngu þó at latínustöfum rèttum sè ritat“. Þrennt kennir Ólafur hèr: 1) að dönsk túnga sè vor túnga; 2) að vor túnga og Enskan sè ein túnga að uppruna magni; 3) að Enskan hafi mjög umbreizt frá uppruna sínum, og vor nokkuð einnig. Þetta skrifaði Ólafur seint á dögum Hákonar konúngs Gamla Hákonarsonar, laungu síðar enn [meint hefir][2] móðurfaðir minn sèra Arngrímur, *Crymogæa lib.* 1 *cap.* 3 *p.* 26, og eptir honum *Bartholin*, *Antiquitt: Dan: lib.* 3 *cap.* [2][3] *pag.* 655[4] *anno* 1216; þá var Ólafur á úngdóms eður[5] barns aldri. Játa það allir menn, þeir eð bæði kunna enska túngu þessara tíma og vora túngu, að auðsèn sè þeirra náskyldsemi í ótalföldum greinum, þeim er Enskir eigi hafa breytt til Völskunnar, er Bastarður innfærði með sinni regering.

Samt til þess vèr fyllilega vita meigum, að eigi vilji lögbók vor í áðurnefndri grein, Erfðatal 23, meint hafa með danskri túngu fleiri kóngaríki enn alleina Danmörk, Noregsríki og Svíaveldi — en undir Noregsríki skilur hún bæði Grænland og Færeyar, Hjaltland og Orkneyar — þá er 1) að hugleiða, það bókin sjálf gjörir á þessu ljósan skilníng áður í sama kapítula, með þessum orðum: „Nú andast útlenzkur maður hèr af Noregs konúngs ríki, þá skal þann arf taca hèr til burtflutnínga eptir hann hinn skyldasti frændi hans, þeirra sem þá eru hèr“ etc. Og síðan að óslitnu máli: „Svo scal oc fara um arf dancra manna og svenscra, ef þeir andast hèr; en af annari túngu enn danscri, scal eingi maður“ etc. 2) athugi menn, að þegar vor lögbók gjörðist anno 1280, var að mestu útslokin danska túngan á Englandi fyrir meir enn

1) B add. menn. 2) [—] vantar í B. 3) [—] vantar í B. 4) B meint hafa. 5) B og.

tveim[1] hundruðum ára, svo að ekki lifðu eptir nema torkenndir gneistar hennar, samanruglaðir við þá vallenzku túngu, og gat því eigi leingur heitið dönsk nè norræn túnga. Og af sama grundvelli er það aldeilis, að Vígslóði fráskilur enska Nation frá danskri túngu, þegar hann var ritaður anno 1117 og 1118, eptir tölu *Mag.* Þórðar byskups við Schedas Ara Fróða pag. 12, samanborinni við *catalogum* byskupanna, móðurföður míns sèra Arngríms, *in Commentario de Islandia pag.* 59; en Húngurvaka samanborín við Schedas Ara Fróða, lætur það vera 7 árum fyrri. Hvort árstalið sem vèr tökum, þá verður þó alltíð meiri enn 40 ára tími frá upphafi Wilhjálms Bastarðar og undirgángi þeirrar dönsku túngu hjá enskum mönnum, inn til þess að Vígslóði var ritaður; það er ljóst af Ara, að var um veturinn næstan fyrr enn Þorlákur Runólfsson fór utan til byskupsvígslu, svo þá var hvergi danska túngan heil á hófi nema hjá Dönum, Norðmönnum og Svíum, og þeim er Orkneyar og Hetland, Grænland og Færeyar bygðu, þegnar Noregs konúngs, og í þessu landi. Og augljóst er af Grágás, Erfðaþ. 6, að frá danskri túngu vill hún enska menn skilið hafa; þar segir: „Norrænir menn oc danscir eiga hèr arf at taka eptir frændur sína þriðju bræðra[2] (þ. e. fimmenninga) og nánari, en at frændsemi af öllum öðrum túngum enn danskri túngu scal eingi maður [hèr][3] arf taca, nema faðir eður sonur eður bróðir". Og nokkru síðar í sama kapítula: „Nú andast enskir menn hèr, eður þeir, er híngað eru enn ócunnari, oc eigi scylt at selja þeim, nema hèr hafi verit fyrr sonur eður faðir eður bróðir þeirra". Og enn mælir hún svo, Erfðaþ. 18: „Nú andast enskir menn hèr, eður þeir menn, er menn kunnu ei hér máli eður túngu við, oc er eigi scylt at láta arf þeirra útgánga" etc.

Þessi síðasta grein þætti mèr eigi ljós til að skilja þá ensku menn frá túngunni[4], þótt þeir sè frá erfðum skildir, nema þær, er fyrr voru ritaðar af enum sjötta kapítula, gjörði skýrslu þaryfir. Þegar allt þetta er samanborið, verður málið vafalaust, að öllu Danaveldi, öllu Noregsríki og Svíaveldi, sem fyrir norðan *Sinum Codanum* (austursjóinn) liggur[5], og vora túngu mælir, eignar lögbók danska túngu. Og innfellur hèr sá athugi, hvort Kyrjálaland[6] og Finnland skuli skilj-

1) A þrem. 2) B þriðja bröðra. 3) [—] vantar í B. 4) A túngum. 5) A er. 6) A Kyrjaland.

ast undir danskri túngu, eður og það af Lapplandi, sem heyrir undir þá svensku regering. En það sagði Þorgeir lögmaður á Upplöndum Svíanna, að Uppland og Kyrjálaland[1], Eystland og Kúrland hefði Eyríkur Svíakonúngur Eymundarson undir sig lagt, sem vottar Ólafs Helga saga *ex membrana* kap. 63. Liggur hèr til fáort svar, að eptir mínum skilníngi[2] fá þeir eingir arfinn[3] sem ekki tala danska túngu, þótt þeir sè þegnar Svíakonúngs; og þarf því rannsókn á að leggja, hvort Lappar, Kyrjálar og Finnar hafi í þann tíma, [sem vor lögbók gjörðist][4], Norrænu talað, [eður tali nú á dögum. Meina eg það ekki vera nè verið hafa; en reynist annað rèttara, þá vil eg hlýða þeim, er það með rökum kennir][5].

[Enn þótt sýnast kynni til þess nokkur líkindi, sem skrifar Sperling *de voce* „Konning" § 6. 13 og þar í milli, að á Líflandi, Kúrlandi og Garðaríki hafi að fornu geingið norræn túnga, þá þætti mèr heldur trúlegt, að mörg hafi hjá þeim þjóðum vera mátt þau orð, er hafa skyldsemi nokkra við danska og norræna túngu, einkanlega við sjósíðuna, er til Austursjáfarins vissi, og það fyrir nálægðar sakir og kaupmanna höndlan iðuglega. Hitt, er hann segir, *ejusd. operis* pag. 30, að Danir, Norðmenn og Svíar hafi *seculo* 11° *per interpretem* talað við Rússa, er til þess nóg að útilykja þá frá hinni dönsku túngu, og erfða tilkalli því, er vor lögbók *sec.* 13° ætlar þeirri túngu alleinni. Og eingin skil eg þau rök af honum leidd, sem láti Finnland og Kyrjálaland Norrænu talað hafa. Jamtaland og Gestrekaland kann eg ekki í sömu röð að telja. Þau öll fylki eður stórhèröð hafa sannarlega Norrænu talað á fyrri öldum. Verður það oflángt að innfæra hèr fleira um þess hálærða Sperlingii *argument*, sem þetta *ventilera*, og því vil eg hugleiða þau síðan, þá eg hefi mínar ástæður sagt um danska túngu[6]].

En eigi kann eg undir danskri túngu að skilja hvað sem í þann tíð eður síðar hafa Svíar átt eður haft af löndum, annaðhvort á hinum þýzku *grensum*, eður Eystlandi, Líflandi eður Kúrlandi, því að ljóst er það af Noregs konúnga sögum og Snorra Sturlusyni um Harald konúng Gylla, að eigi skildu Norðmenn túngu Vindanna þegar Rettebur rændi Konúngahellu. En kynni það að gjöra nokkurn skugga í þessu máli,

1) Kyrjaland. 2) B vorum lögum. 3) B add. hèr á landi. 4) [—] vantar í A. 5) [—] vantar í B. 6) [—] vantar í A.

sem Snorri Sturluson í upphafi sinnar bókar skrifað hefir. "Á bók þessi lèt eg rita fornar frásagnir um höfðíngja þá, er ríki hafa haft á Norðurlöndum ok á danska túngu hafa mælt, sva sem ek hefir heyrt fróða menn segja". Hèraf máske nokkrir segja vildu, að historían, sem Snorri skrifaði, sè bæði um Saxland, af Ottó keisara, og um Garðaríki, England, Skotland, Irland [1] og jafnvel útum Asíam og Africam, Miklagarð og Spaniam, þareð segir af Haraldi Harðráða og Sigurði Jórsalafara. Hér til liggja þau svör, að þótt allra þessara landa og ríkja getið sè í *Chronico* Snorra, og sumstaðar höfðíngja þeirra, er þar hafa ríkt, þá heita eigi sögurnar af þeim herrum, né ríkjum þeirra, þvíað þess eins er um þá og löndin viðgetið í históríu Snorra, sem eigi mátti útilykja [2] af historíu Norðmanna, Dana eður Svía. Hvað þeir Norðmenn, Danir og [3] Svíar hafi gjört eður unnið í öðrum löndum og samskiptum við þá höfðíngja, sem þar áttu ríki; heitir því *Kronikan* eigi af Miklagarðs keisara, nè Baldvin Jórsala konúngi, Jarisleyfi konúngi í Görðum, nè enskum, írskum eður skotskum konúngum, að einkis er um það getið annars, enn þess alleina, sem snertir einhvern þriggja Norðursins konúnga og þeirra þegna. Er það og víst, að svosem hvorki í Spanía nè Miklagarði, Jórsalalandi nè fyrir suðaustan *Mare Balthicum* hefir dönsk túnga geingið, svo hefir hún og aldrei geingið á Írlandi fyrir eigin túngu: það vottar Laxdæla kap. 20,: „Melkorka mælti" við Ólaf Pá, son sinn: „heiman hef eg þig búið, og kennt þèr Írsku að tala, svo þig mun eigi skipta, hvar þig ber að Írlandi." Item kap. 22: „fara tveir menn á báti til skipsins; þeir spyrja, hverr fyrir ráði þessu skipi. Ólafur mælti, og svarar á Írsku, segir að norrænir menn eigi skipið." Og litlu síðar: „Olafur kvað það lög vera, er [4] Írar mæltu, ef eingi væri túlkur með kaupmönnum.

Þó mèr verði svarað, að af því *Bartholin, Antiquitt. Dan. lib. 2 cap.* [9] [5] *p.* 464 *citerar ex Vareo, Antiqtt Hyb. cap.* 25, af írskum silfurpeníngi ANLAF CUNUNC, [6] svara eg að það hafi verið mynt Ólafs Hvíta, sem vann Dýflina, og varð konúngur yfir, v. Landn. og sé ekki þessi peníngsins yfirskript Íranna túnga. [7] [Þótt að eg sjái, að hinn hálærði Otto Sperling, *de voce* Konning, kalli þenna *nummum, suppositium,* og vilji

1) B Sæland. 2) A útilátast. 3) A Danskir eda. 4) B ed. 5) [—] vantar í B. 6) A ANLAFCUNUMC. 7) A og ekki þarfyrir eigin túngu Íranna.

samt pag. 3 og 4 af hönum *inferera*, að á írska túngu hafi konúngurinn heitið *Cununc*, svo vel sem á Norrænu; læt eg þar hvern trúa hvað hann vill, hvað konúngur hafi á Írsku kallaður verið. Hitt hefi eg af Laxdælu *demonstrerad*, að Norðmanna túnga og Íranna túnga væru sitt hvor, og skildi hvorug aðra, nema túlkur kæmi til][1].

Það er oc merkilegt, að Snorri kveðst rita þeirra sögu, er ríki hafa haft á Norðurlöndum, og gjörir hèr aðgreiníng Norðurlanda[2] þeirra, sem á danska túngu mælt hafa, og hinna, sem aðrar túngur hafa talað, svosem Bjarmar, Gyrzkir og Írar, þótt allra sè þessara getið. En hversu vítt sem danska túngan hefir [fremst][3] útbreitt sínar greinir, þá var hún þó allstaðar um heiminn eyðilögð, eður til stærstu torkenníngar umbreytt, þá Vígslóði var gjörr, og enn fremur þá Jónsbók var rituð, sem áður er sýnt, nema í Danaveldi, Noregsveldi og Svíaríki; þar var hún í blóma sínum til þess yztu takmarka, svovel á Grænlandi, sem öllum Noregs ríkis áðurtöldum skattlöndum, og þau öll vill vor Erfðatals optnefnda grein skilið hafa, svo leingi sem Orkneyar og Hjaltland fylgðu Noregs ríki. Er það nú hèr með sýnt, að dönsk túnga og norræn túnga sè *synonyma grammatica*, og merki hið sama túngumál. Í Rímbeglu nefnist hún hèr áður bæði norræn túnga og Norræna, og í *Prologo* Snorra Sturlusonar stendur: „Ari prestur hinn fróði Þorgilsson Gellissonar, ritaði fyrstur[4] manna hèr á landi at norrænu máli fræði, bæði forna ok nýa.“ Og aptur í fyrrskrifaðri grein hans um Norðymbraland, kallar hann norræna túngu, en allra tíðast sjáum vèr hún er Danska kölluð, og dönsk túnga, sem allar [fyrr][5] innfærðar greinir votta, og vel hundrað fleiri.

En hvaðan Verelius, í titlinum við hina þrykktu Hrólfssögu Gautrekssonar, sè kominn til að nefna þessa túngu gamla Gauzku, veit eg eingin rök til að leiða. Máske þeir hálærðu meðal Svíanna gefi þær sögur í ljós með tíðinni, sem sýnir til þess grundvöll; fyrir mig hafa þær eigi borið, þvíað þótt finnast meigi eptir Guðmund Andresson eður Guðmund Ólafsson það eitthvað, að þeir hafi vora túngu kallað Gauzku eður Gauta-mál, þá met eg! að eingu þá sögu eður nafnagipt þeirra, meðan eigi eru til þess skilmerkilegar röksemdir, leiddar af fornum

---

1) [—] vantar í A. 2) A Norðurlandanna. 3) [—] vantar í A. 4) A og B fyrst. 5) [—] vantar í A.

*dókumentum.* Veit eg að menn kalla *Novum Testamentum Ulphilæ, Gothicum,* og það skrifar *Alstedius, Politicæ suæ* cap. 18 p. m. 1145, að Ulphilas verið hafi byskup Arianus, og frá heiðnum dómi snúið til kristinnar trúar Vestgota konúngum Athanarico og Fridigerno eigi lángt eptir annum Christi 369. En hvað kemur það við eystra eður vestra Gautlandi Svíaveldis? Hverr trúir, að af þeim hafi túngan feingið nafn? Eður hverr hefur í fornöldum Gauzko kallað nokkurntíma?

Það virðist mèr fjærskylt Gauzku nafni, þótt að þeir, er á latínu skrifað hafa, nefni þessa túngu lingvam gothicam, sem efalaust er af nafni *Gothorum universali,* svosem þá kölluðu menn alla þá er af Reiðgotum, það er Jútlandi og Eygotum, það er dönskum eylöndum komnir voru, og svo einnig af þeim hluta *Scandinaviæ,* sem Skáney, Halland og Gautland hvorttveggja grípur; og í þessari meiníng skil eg það, er móðurfaðir minn, séra Arngrímur, Crymog. lib. 1 cap. 4 p. 23, nefnir *lingvam gothicam;* það er, að hans meiníngu, Jötna túnga, en eigi Jótlands túnga eður[1] Júzka, nè heldur í þeirri meiníng að hann segi: vér, eður aðrar þjóðir höfum sjálfir í vorri fornu túngu þetta mál Gauzku kallað. Það vitum vèr, að nú á dögum kalla danskir þá sína *dialectum,* sem á Jútlandi geingur, Júzku, en eingin munu dæmi til þess finnast, að svo hafi danska túngan að fornu kölluð verið. Því neitar einginn, að *Novum Testamentum* [það][2], sem eignað er Ulphilæ, og *gothicum* kallað á latínu, hafi margfalda líkíng og skyldsemi vorrar túngu, en að túngan þarfyrir heiti Gauzka, kann eg eigi sjá að eptir fylgi; það nafn á að bevísast með þeim *dókumentum,* sem í sjálfri túngunni skrifuð sèu. Þreifanlegt er, að þau smástykki [tvö][3], er Bartholinus innfærir af *lingua anglo-saxonica,* annað Antiqtt. Dan. lib. 2 cap. 8 pag. 427, annað lib. 2 cap. 9 pag. 494. 495, sèu af vorri gamalli dönsku og norrænu túngu; þó fylgir það eigi á eptir, að þarfyrir hafi vor túnga kölluð verið Saxiska eður Enska hjá oss á fyrrum öldum; conf. Barth Antiqu. Danic. lib. 3 cap.[4] 2 p. 655. Eg neita því ekki, að til þess mætti hafa verið mikil orsök, að nefna þetta danska túngumál gauzka túngu eður gauzkt mál, og læt það eflaust vera, sem vor frægi Þormóður skrifar í *Serie Regum Daníæ,* að nafn Gothorum hafi jafnt eignað ver-

1) B nè. 2) vantar í B. 3) vantar í A 4) A cap. 4.

ið sjálfum Dönum og þeim öðrum þjóðlöndum, er hann greinir til þess, lib. 2 cap. 1 pag. 89 og 90, og aptur bevísar hann með formála Grottu[1] saungs, sama *operis* lib. 2. cap. 2. p. 104; hitt er víst, að á latínu hafa menn það kallað *linguam gothicam,* en það beiðist eg að sýnt verði, að á vora túngu, það er danska og norræna, hafi hún Gauzka eður Gauta-mál kölluð verið fyrir 300 eður 400 árum, eður fyrri nokkurn tíma. Það er og ekki *genius* hennar að heita Gauta-mál, *pro lingua gothica,* það ætti að vera hið gauzka mál, gauzkt mál eður gauzk túnga, sem eg strax sagða. En Gauta-mál eptir *nativo genio* norrænnar túngu, kann eg eigi betur að segja með öðrum hætti danskrar túngu, enn að það skyldi merkja kvæði eitthvert, sem annaðhvort hefði Gauti nokkur kveðið, einsog: Hávamál, Sigrdrífumál, Fafnismál, Bjarkamál, Krákumál, Hrafnsmál, Vafþrúðnismál, Alvissmál, eður kveðið væri um eður við nokkurn Gauta, svosem: Hákonarmál, Eyríksmál, Atlamál, Hamþismál.

En svosem eg gjarnan með virðíngu minnist séra Magnúsar Ólafssonar í Laufási um lærdóm hans og góða skynsemd um skáldskap og í fornyrðum, svo þykir mèr vitna vant[2] til þess, er Stephanius *notis in Saxonem* p. 12, eptir honum innfært hefir, að skáldskapar mál vor hafi fornmenn vorir kallað Ása-mál; ætla eg að hèr hafi misminni sèra Magnúsar til komið, og trúi því eigi fyrr enn vitni sèu til þess leidd af[3] fornum sögum, í vorri túngu rituðum. Sama er beiðni mín til Þormóðar, *nobilissimum historiographum.* Kenni hann mér rök, og leiði vitni til þess, er hann in *Serie Regum,* lib. 2 cap. 4 p. 129 segir eptir Sheringhamo, og, svosem mèr skilst, *adproberar,* að túnga Gothorum hafi nokkurn tíma kölluð verið Asa-mál fyrir 300 árum eða fyrri í því einhverju dókumenti, sem á danska og norræna túngu sè skrifað, svo þaraf meigi sjá, að *vocula* Ása-mál, hafi [þá][4] verið nafn túngunnar almennt; því það er ekki nóg, þó *scribent* einhverr eða *author dókumenta* nefni það svo einusinni, nema það komi eins vel við og Snorri Sturluson kallar danska túngu og norrænt mál í sinni *præfatione.* Eg veit og eingin dæmi til þess, að þessi túnga sè nokkurstaðar nefnd eður [skrifuð][5] Dana-mál, heldur dönsk túnga, norræn túnga, Norræna eður norrænt mál, en

---

5) B Grotta. 2) A vitni vanta. 3) B að. 4) vantar í A. 5) vantar í B.

aldrei, það veit eg, Norðmanna-mál; það væri formerað eins og Ása-mál.

Stephanius, Notis in Saxonem p. 14, kallar hana Ása-mál, og vænist eingum vottum, en þó er sýnilegt, að hèr hafi Stephanius fylgt og trúað því, er hann eptir sèra Magnúsi Ólafssyni áðurnefndum, innfært hafði í sömu sínar Notas p. 12, sem strax var getið. En pag. 45 kallar hann sömu túnguna[1] Rúna-mál, vitnalalaust með öllu. *Verba ejus sunt, cum runarum mentionem fecisset: ab hisce runis lingua danica antiquitus* Rúna-mál *appellata*[2] *fuit.* Menn meiga ekki leyfa sèr í öllum slíkum hlutum að *argumentera* af *sola analogia,* og skortir þá[3] í þessu *exempla* þau, er *usus* hafi *próberad,* er eiga til slíks að leiðast, ef *genius linguæ* og *nativus decor* skal eigi ofríki líða. Svo kallar einginn, sem vora túngu kann, hestinn skjöldóttan, nè kýrnar skjóttar; það væri bögumæli hvort um sig. Svo heitir kýrin dumbótt, sú sem eins er lit og hesturinn vindótti; og er það varla að vænta af *peregrinis,* hvað hálærðir sem þeir eru, að kunna slíkt aldeilis, allrasizt af bókum alleinum.

Eg meðkenni, að Ólafur Hvítaskáld í Skáldu segir: „samhljóðendur eru tólf í Rúna-máli; fimm, þeir eru[4] nálægir raddarstöfum, eru kallaðir hálfraddarstafir af úfróðum mönnum.“ Et mox; „það er r, n, m, l, f, kalla sumir menn með þessum stöfum teljandi í latínu stafrofi.“ Og aptur segir hann, strax sem[5] hann hefir framtalið orð Valdemars konúngs, sem rúna stafrof innihalda: [nefnilega þessi: Sprengd mannz hök, flýði tvvi boll. — ᛋᛕᛦᛂᚿᚷᛏ ᛘᛅᚿᚿᛋ ᚼᛆᚴ ᚠᛚᛦᚦᛁ ᛏᚢᚢᛁ ᛒᛆᛚᛚ][6]. „Z hefir náttúrlega í sèr tveggja stafa hljóð, t og s, eður d og s, og (er) því hvargi stafur x og ■ ritaður í Rúna-máli, eða í fornu latínu stafrofi.“ Hèr í hvortveggi þessari grein er það sýniligt, að Ólafur Hvítaskáld kallar Rúna-mál *discursus suos* [et][7] *grammaticam doctrinam de runis, utpotequi hic totus agit de alphabeto,* en í hvorugri þessari grein get eg skilið, að hann kalli túnguna Rúna-mál. Skyldi það svo heita, þá ætti túngan að heita Rúnir, ef fylgt væri *genio* túngunnar, að *formera* Rúna-mál einsog norrænt mál. Svosem nú að rúnir merkja á vora túngu eigi alleina bókstafina, heldur og[8] kunstir þær ýmislegar, er með rúnum voru kenndar, svo vill

1) A túngu. 2) A allata. 3) A það. 4) A er 5) B eptir það. 6) vantar í B. 7) vantar í A. 8) A ogsvo.

Ólafur hèr kallað hafa Rúna-mál það, er hann kennir um rúnirnar, það er: bókstafa ritið í dönsku túngunni, sem hann kallar ýmist, eður Norrænu. Eg vil gánga framhjá því, er skrifar Resenius, *in præfatione* yfir Eddu fol 1 3. a, að túngan hafi að fornu kölluð verið Ása-mál. Það er af eingu dreigið, nema því sama, er fyrr var getið, að Stephanius hafi skrifað eptir grundvallarlausri undirrèttíngu sèra Magnúsar Ólafssonar. Þótt að allir þessir hafi ágætismenn verið, þá þurfa þeir vitni til sögu sinnar. ef hún skal gilda, og er hèr enn ekki meir enn eins sèra Magnúsar vitni, því að hinir tveir vitna eptir honum. Það er og þreifanlegt, að rètt hafi eg [hèr] sagt meining Skáldu, þar hún nefnir Rúna-mál, að það er bókstafa kunnst hennar, þvíað hún tilvelur þá sömu bókstafina r, n, m, l, f, sem hjá latinis grammaticis heita semivocales, þótt Ólafur hafi *inverterad ordinem alphabeti latini.*

[Allteins við horfir orðatiltæki rímbæklíngsins Blöndu. Hún byrjar sinn sjötta kap. með þessum orðum: „Sólaröld er kölluð *concurrentes-* öld ath bókmáli"; það er eptir þeim reglum, er lærðir menn hafa á bókum ritað, í hverri túngu sem þeir skrifuðu, en ekki svosem hann segði: „á bóka túngu". Svo segja menn: að á bókum sè mikið, eður ekki mikið mál, það er: innihald, lærdómur eður reglur, en ekki túnga eður túngumál. Eins er þá hèr kallað Rúna-mál, lærdómur og reglur um rúnir og þá *grammaticam*, sem rúnanna náttúra krefur að *observerist,* og hefir Bartholín þetta rètt skilið, lib. 3 cap. 2 pag. 656, þar hann eptir innfærða grein Skáldu segir: *esse sibi sermonem de literis runicis, satis innuit in diffusa trium literæ accidentium explicatione;* ɔ: að hann sè um rúna letur að tala, er nógu ljóst af lángorðri útskýríngu þriggja tilfallandi hluta, sem um bókstaf hvern athugast eiga. En það Bartholin strax á eptir *verterar* orð *authoris:* „í Rúna-máli" *in lingua runica*, get eg ekki samþykkt Bartholin, og uppástend, að það átti að segjast *in doctrina runica*, svosem nú þykjumst eg sýnt hafa, og sjálfur *author* gjörir ljóst, þar hann kallar skrif sitt um x og z Rúna-mál, og jafnar því við fornt latínu stafrof.][1]

Túngan þessi hefir og aldrei Orkneyska, Hjaltlenzka, nè Grænlenzka eður Færeyska kölluð verið, og þó geingið á öll-

---

1) vantar í A.

um þessum löndum, og ekki minnist eg mig lesið hafa, að hún sè Íslenzka nefnd í gömlum sögum nè *dókumentum* fyrr enn svo var hún umbreytt [orðin][1] hjá Dönum og Norðmönnum og Svíum, að þeir eigi skildu sitt forna móðurmál í vorum munni, sem þá höfðum það einir eptir hreint og ómeingað. Sú umbreytíng túngunnar í Noregsríki skeði helzt merkilega um[2] tíð Eyríks konúngs[2] af Pommern, og svo þaðan í frá hvað af öðru. Og ekki er því að neita, að síðan andlát Guðbrands byskups 1627, hafi túngan hèr á landi stórlega breyzt frá sinni fornu snilli, og með ýmsu móti blandazt framandi glósum, en einna mest síðan deyði Brynjólfur byskup, anno 1675, því síðan hefir einginn hèr á landi kunnað til gagns að bókstafa túngu vora, þá rita skyldi, nema *assessor* Árni Magnússon, hann alleina og þeir fáir, sem af honum numið hafa, og er grátlegt að sjá þann afmyndaða bögu-stýl, sem nú skrifa hèr allmargir, sèrdeilis *in particulari nativo decore* stórir ættlerar orðnir frá forfeðrum vorum. Þó skiljum vèr enn í dag hið gamla danska og norræna túngumál betur enn nokkur önnur þjóð í heiminum. Samt eru þau öll fornyrði, sem þessi minn bæklíngur inniheldur, vottur þess, hvað mjög danska túngan sé hjá oss breytt orðin, en[3] hvað eru þau að reikna, svo fá í heilli lögbók, hjá ótalföldum Norrænunnar orðgnótta ríkdómi?

En um skáldskapar mála myrk og þúngskilin orð er lángt á annan veg háttað; þau eru að sönnu mjög torveld orðin geysimörg, svo nær örvænt er að skilin verði hèr eptir sum hver nokkurntíma. Veldur það einna mest þeim torveldleik, að eigi fást *membranæ* nógu margar til að samanbera það sem vandlesið er, eður *mancum* orðið. Það þvínæst, að skáldin sjálf á fornöldum hafa margopt með ásettu ráði gjört sín kvæði dymm, svosem Edda vottar: „Þetta er nú (segir hún) að segja úngum skáldum, þeim er girnast at nema skáldskapar mál, og heya sèr orðafjölda með fornum heitum, eður girnast þeir at kunna skilja þat, sem hulit er kveðit.“ Hèr sjáum vèr, að strax í fornum öldum voru kenníngar huldar almenníngi, það er: þúngskildar og mýrkvar þeim, er eigi vissu rök þeirra. Og eigi skildi Grettir vísu Lopts*) (þ, e. Hallmundar á Kili), þá er hann svaraði

---

1) vantar í A. 2) A í — kóngs. 3) A og. *) Raunar kom það helður til af óljósri nafngreining plázins, því hann nefndi eigi nema Jökul, en

í huldum skáldskap um heimili sitt, kap. 56. Sýnir þetta, að eins var það [1] í gamla daga, svosem nú á vorum tímum, að almúginn [2] greip ekki kenníngar skáldskaparins, svosem sèra Magnús Ólafsson í Laufási mælt hefir í hans *discursu* [3] *de poesi islandica* hjá Resensio í *præfatione* Eddu 1. 3. a citeruðum. Og hafa skáldin, svo vel á fyrrum öldum sem á vorum dögum, greinir *tropornm* og *figuras*, þær [4] sem sundurlaust mál eigi líður. Og sú er orsök til þeirrar greinar Mannh. 27. „Eigi scal at scáldscapar málum ráða", sem Rèttarb. Eyr. kon. skipaði síðan að útiláta úr bókinni. Því er það *argumentum* magnlaust aldeilis, er Petrus Resenius í sinni *Islandia msc.* leiðir, að af því menn skilja nú torveldlega fornvísur, þar sem hulið er kveðið, þá sè eigi túngan sama hjá oss, sem að fornu; Er sú misgætni hans þar af sprottin, að hann meinar skáldskapar mál og daglegt mál verið hafa með öllu sama að fornu og nýu; hefir honum þá verið úr minni liðið það, er fyrr hefir hann skrifað í *præfatione* við Eddu 1. 3. a; „að skáldskapar mál hafi verið og sèu að allmörgu fráleit almenníngi, svo vel á fornöldum sem þessum."

*) Það stendur með berum orðum í Örvarodds sögu, að það, er Bjarmar töluðu, skildi hann og Ásmundur ekki heldur enn fugla klið; en það var gáta Odds, að birlarinn mundi kunna að tala norræna túngu, og svo reyndist. Hitt er öllum kunnugt, að Arkangel, nafnfræg borg Rússanna, stendur á Bjarmalandi við ána Vinu, og inn í ósinn á Vinu lögðu Þeir Oddur og félagar hans skipi sínu í þeirri ferð, sem nú er getið. Hitt, er [síðan] [5] mælir sama saga, að Oddur og Hildir jötun á Risalandi, ɔ: *in Russia septentrionali*, skildu hvorr annars túngu, kynni svo til komið, að Oddur í sínum sífeldum hernaði, svovel í Austurveg sem annarstaðar, hefði kunnað að læra þá túngu, En öll sú frásögn, sem að risanum lýtur, er annaðhvort geysilegum ýkjum blandin, eður einbara diktur. Svo er það [og] [6] allt *fabulosum* (ɔ: ýkjum blandið) og [í] mesta rugli, sem þar eptir skrifar sama saga um þau mörgu og ýmislegu kónga ríki, sem í *Russia*, ɔ: Garðaríki, skyldu í

---

þeir eru margir á landinu. Var því eigi von að Grettir skilði fyrr enn hann nefndi Ball-jökul. Sjá hèr um vísurnar sjálfar. B.

1) B þetta. 2) B almenníngur. 3) discursi. 4) A þar. *) það, sem eptir er af ritgjörð þessari, kallar B apendix. 5) vantar í A. 6) vantar í A.

þá daga verið hafa þar í Austurvegum, það er að reikna frá *ponto Euxino* og *mari Caspio,* allt norður til *mare Tartaricum.* Læt eg mèr það ekki sýnast ómögulegt nè alls ótrúanlegt[1], að yfir öll eður flestöll þau lönd og ríki geingið hafi sú norræna túnga, þvíað bæði nefnir þar Hólmgarð og Surtsdali svo vel sem í vorum sögum; hver öll [nöfn][2] segja sig að vísu í ætt danskrar túngu, þótt þau einnig kynni svo tilkomin, að einhverr danskur, norskur eða svenskur herra hefði feingið þar ríki, og síðan nafnagipt það á sína túngu, og innfært sinnar fósturjarðar manna nöfn í landið. Það er víst, að danskrar túngu ættar eru þessi nöfn, en þó all tíð í Görðum austur, og sögum þeim, er segjast þar hafa gjörst: Álaborg, Álfur, Bjálki, Brynjólfur, Eyríkur, Geirrauður, (sá er geir rjóðar) Grímur, Gyðja, Gyða, Hergeir, (*gladius exercitus,* brjóst fyrir öllum hernum) Herrauður, (sá er blóðgar herinn. Hún rauð hörgin). Úlfstannlitaður sagði Egill Skallagrímsson.[3] Hertryggur, (*fidus exercitui, in cujus providentia spem collocat miles*) Hólmgeir, Hreggviður, Íngigerður, [Kænugarður],[4] Kolur, Skúli, Viðgrýpur, Þórður. *Nomina propria* [*adde peregrina*][5] *non sunt adeo validi testes eandem esse linguam, ut*: Carl, Clemens, Elizabeth, Lisbeth, Ellisif, Ermengerður, Hadrianus, Hildur, Jóhannes, Jónas, Magnús, Páll, Þrúður. En fjærri fer eg geti trúað, að á *seculo* 13º hafi nokkur þeirra þjóða Norrænu talað, og hvernig kynnu vor lög að hafa þeim þjóðum erfða vonir ætlað hèr á landi eptir frændur þeirra, þar sem eingin munu rök til finnast, að fornmenn vorir hafi leingra í Austurvegu fært sinn kaupmannskap, enn til innstu botna *sinus Codani* (Austursjáfarins), innst í Finnufjörð, og innst í bugtina undir Sámland, millum Cúrlands og Königsbergs, *vide nostrum*: „Samland", *item*: „rýfur skipan í Görðum austur, af Farm. L. 8. Eg segi: til innstu botna; það meina eg: eigi all-lángt frá sjó, og kalla það eigi all-lángt, þótt vera hafi mátt nokkrar dagleiðir upp í landið, svosem frá Aldeiguborg, sem tvíllaust verið hefir ei all-lángt þaðan, sem nú er Pètursborg, og upp til Hólmgarða, er sagan af Ólafi Helga vottar, kap. 238 og 240, að [þeir][6] Einar Þambaskelfir og Kálfur sóttu Magnús konúng til Jarisleifs konúngs og Íngigerðar drottníngar. Því verður eigi

---

1) A ótrúaniegt nè alls ómögulegt. 2) vantar í A. 3) A Hún rauð Holginn úlfstannlitaður, s. E. Sk. 4) vantar í A. 5) vantar í A. 6) vantar í A.

neitað að sagan af Hrólfi Sturlögssyni, sem hún kallar Gaungu-Hrólf, og lætur vera Norðmann, *sed longe diversum* frá þeim rètta og sanna Gaungu-Hrólfi, *postea Normanniæ duce*, hafi þau bæði staða og manna nöfn í Garðaríki, sem eru *pure* norræn. En þessi saga er yfir allan máta fabulosa, adeo, ut merito dubitetur, an unquam exstiterit magna pars hominum, quos memoret, quamquam enim non magnopere contendimus, fuisse quidem hunc Rolfonem peditem. Vix tamen quispiam sanæ mentis credat gesta esse, quæ narrat fabulosissima illa historia. Sed altius ruminanti et ab extrema antiquitate historias relegenti [2] non videbitur incredibile gentibus istis omnibus communem olim [3] fuisse linguam Asianorum, quam Odinus e Turcia, ɔ: regionibus inter pontum Euxinum et mare Caspium sitis, in Europam intulit, teste Sturlæsonio, et in Chronico rerum Norvegicarum, et in Eddæ prologo. Nec etenim [aliud] [4] per eorum *Góðheima*, quam regna Turcica, per *Svíþjóð hina miklu*, universam Russiam [omnemque illam Tartariæ partem, quæ Russiam attingit] [5] intelligere possumus. Utut autem hæc septuaginta aut fortassis octoginta annis ante Christi nativitatem ita fuerint, eaque lingua, quæ post Odini in septentrione, Dania, Suecia, Norvegia etc. dominatum danica et norvegica dicta est, Turcis, Russis et Tartaris occidentalioribus [materna][6] fuerit, vix ullus persvadebitur eandem tamdiu inter gentes istas incorruptam viguisse, ut post annum Christi millesimum pro eadem potuerit haberi. Statuat igitur — per me licebit — nobilissimus Sperlingius Russis, Curlandis, Liflandis, Estonibus, Finnisque et Kyrjalis linguam danicam maternam olim fuisse. De Wandalibus occidentalibus, ɔ: Pomeranis, et orientalibus, ɔ: Borussis, eandem quidem, sed diversæ non parum dialecti nemo refragabitur, dum modo id nobis largiatur, ante seculum duodecimum elapsum, tantas gentibus istis linguæ mutationes accidisse, ut seculo tertio decimo et deinceps non debuerint censeri pro danice loquentibus. Hoc enim est, quod agimus, nullas harum gen-

1) A Rulvonem. 2) A legenti. 3) dum. 4) vantar í A. 5) vantar í A. 6) vantar í B.

tium lege nostra significari titulo de Hæreditatibus cap. 23. his verbis: „En af öllum öðrum túngum enn danskri, skal engi maður at frændsemi arf taka, nema faðir etc."].

## Einmánaðar-samkoma

Llb. 54. *Rètt er þeim manni er næstur býr afrètt, at gjöra stefnu á Einmánaðar-samkomu við sig til garðlags.*

Hvergi skýrir Jónsbók [ákveðnum orðum],[1] hvílík verið hafi þessi Einmánaðar-samkoma, en ráða má það strax af sama kapítula, þar svo mælir: „Allt það, er þar í milli spillist af þessum görðum, þat skal í þessum stefnum[2] bæta", þær þrjár tilnefndu garðlags-stefnur.

Nú kunni það [ekki][3] ljóst að vera allri byggðinni hreppsins, hvað hverjum þótti áfátt um garða sína, nema til þess væri samkoma nokkur. Hún gat eingin hagkvæm verið til hinnar fyrstu garðlags-stefnu, nema á Einmánuði, þvíað umbóta tíminn á garðinum fór þá í hönd, strax er torfuþýðt væri, sem þessi sami kapítuli skipar, svo að ekki væri það geymt til þess lokið væri túnyrkju, ef veðuráttan vildi fyrr leyfa; mátti og eigi dvelja fundinn, því fimmt skyldi gjöra til görðum að skipta, Llb. 32, og ef slíkt þyrfti með í mörgum stöðum, urðu grannar að skiptast til að[4] jafna slíka hluti. En því er þessi Einmánaðar-samkoma ekki framar skýrð í bókinni, að venjan var í þann tíð öllum kunnug í Grágásar lögum af Llb. 50. þar segir skírlega, að „sá sem færa vill bú sitt hreppa í millum, hann skal biðja sér byggðarleyfis á samkomu þeirri, er menn eiga á lángaföstu." Nú bregðst aldrei það, að lángafastan eigi taki fram á Einmánuð í hinum gamla stýl. Og enn segir Grágás í Llb. 52, að „bóndi sá, er í bæ sínum á bæði skála og stofu, skal kjósa á samkomu um vorið, hvort hann vill heldur, menn ábyrgist með honum eldhús eður skála".[5]

Þó nú að þessi byggðarleyfis-beiðsla og ábyrgð hrepps innbúa fyrir voveiflegum skaða granna síns sè fyrir vort minni

---

1) vantar í B. 2) B þessari stefnu. A þessar stefnur. 3) vantar í B. 4) B og. 5) hvort vill menn ábyrgist með honum heldur eldhús enn skála.

niðurfallin, þá er þó sýnilegt, að þeir hlutir hafa búið í þánka landsmanna vorra, þá er þeir settu í lög þessa Einmánaðarsamkomu, svosem einn hlut öllum kunnan. Líka sýnir Grágás nokkurnveginn rök til þessa, Landabr. þ. kap. 15 og 16. Þar segir, að „til landsskiptis, eður búfjár ítölu í haga, og til garðlags skuli stefna heim sjö nóttum fyrir sumar, og á þeirri stefnu kveðja landsskiptis, eður ítölunnar, eður garðlags jöfnunar á hinn fimmta dag viku, þá sex [1] vikur eru af sumri". En þarfyrir þurfti í vorri bók þessu að breyta, að hún eykur við hinni [2] fyrstu garðlags stefnunni, þá torfuþýðt er, en ákveður ekki, nær [3] lokið skuli voryrkju, því margt kynni henni til dvalar aðbera. Þarámóti ákveður Grágás í Ldbr. þ. 16. að vorönn skuli lokið, þá mánuður er af sumri, og lætur á fimmtudaginn næstan fyrir vera stefnudag mæltan til að skipta garðlaginu millum þeirra, sem hlut að eiga. Daginn eptir skiptið lætur hún til viðurbúníngs umsvifa að slíku starfi, sem þá hefir hverjum [einum] [4] hlotnast, og þetta föstudagskvöld er liðinn mánuður af sumri, og þar lætur hún á laugardagsmorguninn hefjast garðönn hina fyrri.

Það er enn að merkja, að vor bók skipar granna stefnur Bótólfs vökudag til að meta garða, og skuli þeir þá gjörfir, Llb. 31., og er það eptir hinum norsku lögbókum framyfir þau boðorð, er Grágás hafði gefið; þurftu því vorir landar [því] [5] fyrr að hefja verkið, ef mikils var að þörf hjá einhverjum, eður allmörgum. Vèr sjáum af hinum norsku lögbókum, að í Frosta [6] þings, Gula- og Heiðsævis- [6] þings lögum, [7] hefir miðföstu þíng haldið verið til vegabóta, Llb. heilum tveim kapítulum; því máttu þá eigi, eður skyldu, vorir landar föstuþing eiga til garðbóta? Svo segir Grágás Lbr. þ. 27. p. 586: „Eru rètt mál þeirra ávallt, þar er þeir skulu virðíngar hafa, eður skiptíngar á meðal manna, búarnir, þó þá sè lögheilagt eður lángafasta, hvervetna þess er eigi eru hèraðsdómar. Það segir Sturlúnga, lib. 10. cap. 7., að annan veturinn, þann er [8] Gizur jarl var á Reininesstað, felldu menn mjög fè sitt. „Það [vor] [9] stofnaði Gizur jarl heit til Guðs og hins helga Ólafs konúngs að Einmánaðar-samkomu, að vatnfasta skyldi jafnan fyrír Ólafsmessu". Ibidem litlu síðar: „Sigurður byskup lét festa heitið sjálfan páskadaginn í

1) A fjórar. 2) A þeirri. 3) hvenær. 4) vantar í A. 5) vantar í A 6) A Frosto Eidzivia. 7) B bókum. 8) B sem. 9) vantar í B.

Skálholti". Mín bók les: „að vorþíngi", í staðinn fyrir „Einmánaðar-samkomu", og er það eflaust rángt, það sýnir páskastaðfestíngin í Skálholti; því á hèr að lesa „Einmánaðar-samkoma", svosem heldur Sturlúnga-saga hústrú Þrúðar. Híngað sýnist mèr lúta muni það [er][1] segir Reykdæla, *alias*: Ljósvetnínga saga, kap. 38.: „Einmánuð öndverðan var samkoma að Hálsi í Fnjóskadal, en nú er hún í Kaupángi undireins, og kom því Eyólfur seint þángað, og var þá lokið öllum samkomu málum, er hann kom".

## Eyrir.

Þessi glósa er svo tíð í bókinni, að hlæilegt mundi þykja, vildi nokkur spilla tímanum til að leggja tölu á það. En af því eyrir er partur merkurinnar, en ortug er partur eyris, þá gjöri eg grein hvað eyrir og ortug sèu, bæði veigin og talin, þar sem eg eptirá skrifa um mörk, bæði vegna og talda; *vide:* Mörk. Samt fyrir því að nokkrar eru þær greinir lögbókar, sem orðið eyrir hafa í þeirri merkíngu, er ekki lýtur til verðhæðar eður dýrleika, svo þá merkir eyrir, ekki parta merkurinnar, heldur stundum allskonar fèmætt lausafe, og er *contradistinctum* frá fasta gózi, þá vil eg í þessum stað minnast á þær greinir lögmálsins, er svo skilja *voculam* eyrir. Og stundum framkoma þær greinir bókarinnar, að eyrir merkir bæði lönd og lausafè og allskonar fèmæta hluti.

§. 1.

Þessi hin fyrri merkíng verður ljós og þreifanleg af þíngfb. 5: Ef einhverr geingur á þessi grið: (þau er sett eru á Öxarárþíngi) og vegur mann eður veitir lemstrarsár, þá hafi sá fyrirgjört fè og friði, landi og lausum eyri". Eins er það í Rèttarb. Eyríks[2] konúngs 5. um falskonúnga og liðsmenn þeirra, og í Mannh. 1. um þann er geingur á saklausa frændur veganda, mót þeim kapítula, eptir hinu forna saktali bauggildis og nefgildis manna. [Mannh. 2. um þá er hefna óbótamanna].[3] Mannh. 4. þarsem vænzt er lögum Ólafs konúngs Helga, áður enn segir, hver vægð á þeim sè. Item Erfðat. 28. og Llb. 30. Item þjófab. 1, um þann er í einu stolið hefir

1) vantar í B. 2) A. R. E. 3) vantar í A.

til tveggja marka, og stelur í annað sinn, þá hefir hann fyrirgjört landi og lausum eyri og lífinu með, *cfr* Heiðsævislög og Frostaþíngslög Magnúsar konúngs Lagabætis *passim*, *et in pecies* Mannh. 12; item Rèttarb. Magnúsar konúngs strax eptir, Item Frostaþíngsbók Hákonar konúngs [1] Mannh. *libr.* 2. *cap.* 47. um tryggðarof, p. 142, 143., *et lib.* 1 Mannh. *cap.* 6. p. 87. um víglýsíng. Hèraðauki er farareyrir, þingfb. 2 kap. nokkrum sinnum nefndur allskonar lausafè það, er lögrèttumönnum gelzt til þeirra þíngfarar. Item Landabr. 1: „Hinn snúizt á sinn sala eptir slíkum aurum“ *etc.* Lbr. 2: „Sá er þessari jörðu brigðir, skal greiða fulla aura fyrir þá jörð af sínu fè að næstum[2] fardögum. Nú vill hann ei við aurum taka, þá sýni hann aura, hvort [sem] [3] það er búfé eður annað fè“. Lbr. 9. „Fyrir landsverð eður aðra aura“. Lbr. 12: „Ómaga eyrir [4] skal í því landi liggja“, ɔ: forsorgun ómagans skal koma upp í andvirði jarðar þeirrar, og aldrei bregðast ómaganum. Kaupab. 5: „Ef mæltir eru lögaurar“. Ibid: „Skilur ei frá aðra aura, þá neitar hann frá lögaurum“.[5] Þjófab. 23: „Sakeyrir“. Ibid: „Fella ei til vöru nè búfjár, en virða þó til fullra aura“. Vel má ske, að í þessum síðustu orðum: „fullra aura“, merki verðaura hæð, svosem lögmálið segði: þó að ekki sè jafnmikið lagt í hverja mörk, að slíkir ávextir takist af sem búfè (þ. e. málnytu-fè) eður slíkt ábata fè, sem af vöru mætti vænta, þeirri sem flutt er frá öðrum löndum og hèr á landi selst með ábata, þá skal þó í þenna sakeyri leggja svo mikið, að jafnboðinn sè hverr eyrir 6 álnum vaðmáls, sem áður eru skipaðar svosem mæliþráður lögaura Kpb. 5. Og slíka dýrleika hæð meinar bókin í Lbr. 9[6] þar hún mælir: „Hann skal taka jafnmarga aura sem 6 skynsamir menn virða“, þ. e. svo margra 6 álna aura verð skal hann taka í jörðunni, sem hann á fé að hinum.[7]

Að þessum tveim síðustu greinum frátölðum, er í öllum hinum [uppreiknuðum] [8] lögmálsins orðum það sett andspænis eður gagnvart hvort öðru, land og lausir aurar, svo að glósan eyrir eður aurar, merkir alltíð lausafè, en ekki fasteignir, einsog Gulaþíngsbók hin forna gjörir skírari aðskilnað þess á millum í Erfðab. 1. Þar segir hún: „verður hún aura arfi,

---

1) A. Frþb. Hák. k. 2) A og B í næstu. 3) vantar í B. 4) A og B eyri. 5) og B neyti ei. 6) A og B 12. 7) B. að hinum fèit. 8) vantar í B.

en hann óðala". Item síðar: „verður hann arfi aura, en þeir óðala", og kap. 2: „bæði aura og óðöl".

§ 2.

Þá er enn að finna forlagseyri í sumum[1] greinum bókarinnar nefndan, það er lausafè meinar, en ekki fasta eignir[2], svosem Erfðat. 21: „Harðlega haldinn af þeim forlagseyri, sem fyrr skilur", þ. e. ávöxtum 5 hundraða þeirra, sem upphaf[3] kapítulans umtalar. Ibid: „Ætla honum forlagseyri, þartil hann er 18 vetra", [þ. e. svomikið lausafé, sem endist til þess hann er 18 vetra][4] og sè þá eyðt.

§ 3.

Nú eru í annan stað þær greinir laganna, að eyrir merkir allskonar eigur manna, fastar og lausar, kvikar og dauðar, svosem í Erfðat. 19: Nú er [þar] ómaga eyrir í garði, og máli konu". Það sýnir Erfðat. 21, að bæði hèr og þar eiga að skiljast fasta eignir og lausafè. Erfðat. 20: „Ef hann sezt í óvirðan ómaga eyri". Erfðat. 21: „Innstæðu eyrir full 5 hundruð í jörðu, eður því fè, sem hann má vöxtu eður[5] nytsemi af hafa". Erfðat. 22: „Nú ef ei vinnst innstæðu eyrir". Að hèr sè meint fastagóz, sýnir sami kapítuli: „þóað ómagi eigi ekki annað fè, enn jörð þá, er 10 aurar takast af" etc. Svo er og rèttskilinn forlagseyrir allstaðar í Framfb. 1, 2, 7 og 12 kapp., að þar meinar bæði fastagóz og lausafè[6] það allt, er af kann að gánga árleg renta, 12 áln. af hundraði, eður 20 álnir, síðan verðhæð smjörsins er svo hækkuð, að einn fjórðúngur gildir 10 álnir; hann gildti þá 6 álnir, er[7] bókin gjörðist.

Nóta. Alþíngisdómar um fasta eignir til framfæris, þeir eru með ýmsu møti, og fáir af rèttskildum lögum byggðir, sem oflángt er hèr ad greina.

§ 4.

Er þess með fáum orðum að minnast, sem síðar skal *in voce*: Mörk, Eyrir og Ortug *demonstrerad* verða, að lögbók vor meinar alltíð 6 álna eyrir silfurs talinn í öllum sektar á-

1) B. sínum. 2) fasta eign. 3) B. umtal. 4) vantar í B. 5) B. og. 6) B. lausagóz. 7) B. þá.

kvæðum, og kemur alls ekkèrt við saktal hennar, þótt bæði hèr í landi og svo í Noregi væri fyrrum tíðkað fleira slags auratal. Ekki minnist eg í Noregi nafngreinda 3ja álna aura, sem hèr á landi voru til á fyrri dögum, að vitni Sturl. s. *lib.* 3. *cap.*. 29, um bætur eptir Þorstein og Snorra Arnþrúðarsyni, og þá Hildibrand og Hákon Þórðarsyni frá Laufási. Gjörðu þeir Þorvaldur Gizursson og Teitur Oddsson 30 þriggja álna aura eptir hvorn. En til var hjá Norðmönnum 9 álna eyrir; það vottar hinn gamli Kristinnrèttur, sem er í sumum Heiðsifja-þíngs bókum, kap. 34. Til var og hjá Svíum þessi 9 álna eyrir, og er hann þar nefndur karlgildur[1] eyrir, sem sjá má i Upplandslögunum, Mannh. 23. Þar segir: „þá er blóðsárs voði í huldi[2] (það skil eg þar sem hylja klæði) bót með eyri karlgildum. Blóðsársvoði í höfði, bót með örtugum 9. Fullsæris voði i huldu,[3] [bót með örtugum 9. Fullsærisvoði í höfði],[4] bót með 6 aurum". Hèr sjáum vèr, að sár þau, er á höfði gjörast, lætur hann tvígild við sár þau, er þar gjörast, sem hylja klæði. Nú eru hèr bætur fyrir full sár í höfði, 6 aurar, það eru 18 ortugar, en 9 ortugar,[5] það eru 3 aurar, bætur fyrir full sár, sem klæðum hyljast. Blóðsár í höfði gilda 9 ortuga, það eru 3[6] aurar, en blóðsár það sem klæðum hylst, bætist karlgildum eyri, það er $4\frac{1}{2}$ ortug, [það er][7] helmíngur af 9 ortugum, og þarfyrir 9 álnir í karlgildum eyri, því hver ortug er 2 álnir. Tíu álna eyrir. Það vottar hin forna[8] Gulaþ. b. í saktali næst framan þjófabálk, og tólf álna eyrir, sem hún ogsvo vottar í sama saktali, *vide* Mörk, og líka hefir sá næst áðurnefndi Kristinnrèttur þann 12 álna eyrir, kap. 46, um sjúkan mann, er vill láta prest olea sig. Er þessi kristinnréttur að vísu eldri enn lög Magnúsar konúngs Lagabætis, því hann hefir bæði járnburð og ketiltak, sem Vilhjálmur kardínali aftók hvorttveggja, þá er hann kórónaði Hákon konúng Gamla 1247, á þrítugasta ári ríkis hans. Þó[9] stendur járnburður í Kristinnrètti þeim, er Hákon konúngur hefir sett í sína Frostaþíngsbók; er það til merkis, að hann sè fyrr útgefinn, enn járnburðar-skýrslur voru af teknar;[10] og í þeim sama Kristinnrétti, svovel sem víðar í [sömu][11]

---

1) B karlgildar. 2) B hendi. 3) B ætt haldi. 4) vantar í B. 5) 8 A ortugum. 6) A 6, 7) vantar í A. 8) B gamla. 9) A þá. 10) B var af tekin. 11) vantar í B.

Frostaþíngsbók stendur verðhæðar eyrir, sem þessir fyrrnefndu tólf álna aurar, þó undir öðru nafni; þvíað hèr í Frostaþb. Hákonar konúngs, heitir hann silfurmetinn eyrir, og er [það] [1] nafns hans þar alltíðt. Þar stendur og skírum orðum, *lib.* 2 sama Kristinnrèttar, *cap.* 1. *comm.* 2, „allar sektir silfur metnar í Kristinnrètti." *Item* síðar *lib.* ▮ cap. 2. „sekist þrim morkum silfurmetnum." En um verðhæð þessa silfurmetins eyris, að hann var jafn tólfálna aurum, og hversu [2] hann komst inn í Kristinnrèttar sakeyri með ágirnd, slægð og ráðríki Eisteins erkibyskups, um það tímaskeið, þegar [3] allt Noregs ríki var á reiðiskjálfi af stríði og óróa, greinir Snorri Sturluson með þessum orðum: „Erkibyskup hóf það [4] mál við bændur, að hann sagði fyrst um fjárþurft staðarins, og þarmeð hversu mikla uppreist staðurinn þyrfti að hafa, ef hann skyldi [þá] [5] vera þeim [mun] [6] sæmilegar enn áður, sem hann var þá tignari, er þar var erkibyskups stóll settur. Beiddi hann þess bændur, að þeir vildu veita honum silfurmetinn eyri [í sinn sakeyri], [7] en áður hafði hann sakmetinn eyri, sem gekk í konúngs sakeyri; en þess auralags er helmíngsmunur, að sá er meiri, er hann vildi hafa, silfurmetinn eyrir. En við styrk frænda hans og vina, og framkvæmd erkibyskups, þá gekkst þetta við, og varð dæmt um öll Þrændalög og þau fylki önnur, sem hans erkibyskups ríki stóð yfir". Allt eins segja [8] þetta Noregs konúnga sögur. En til þess að einginn efa kunni, hvað þann tíma var sakmetinn [9] eyrir, skýrir það Rèttarb. Hákonar konúngs um þriðjúngs fallið á 40 marka sektum, þeim er Ólafur konúngur Helgi skipað hafði, að sex álnir vaðmáls höfðu geingið í eyri þann hvern. Til hefir og verið hjá Svíum þessi 12 álna eyrir, það sýnir Östgothalaghen í Drapamalabalk, kap 16. Þar ánefnir 3 merkur vaðmála tólf álna eyris. Grágás, *codex regius*, þíngsk. þ. kap. 51. pag. 203: [10] „Fésátt skal hann gjöra slíka sem [11] hann vill, og kveða á aura hve marga hann skal gjalda og hve stóra, eður hvað hve margir aurar skulu í gripum, eður hve margir fríðir, En það er hin forna Gulaþb. í Llb. nefnir skattvaran eyri, Leysíngja landnám, og aptur í Mannh. um

---

1) vantar í B. 2) A bætir: það. 3) A sem. 4) B þá 5) vantar í B. 6) vantar í B. 7) vantar í B. 8) B segir. 9) A silfurmetinn. 10) B 57. p 202. 11) A er.

legorðssakir, að leysíngi skuli eiga skattvarar eyri á sinni beztu ambátt, en son hans í[1] hverri þessari sök eyri, svo í landnám sem í legorðsrètt á ambátt sinni beztu, þori eg eigi víst að ákveða hvað verðhæð hafi verið, þar eg minnist mig eigi það lesið hafa. Samt ætla eg það verið hafa hálfa fimmtu[2] alin, og hefi það til líkinda, að þar sem sama lögbók í Mannh. greinir rèttarfar manna, lætur hún rètt leysíngjans vera fjórðúngi minni en rètt leysíngjasonar, svo að þar sem leysíngi tekur 6 aura, þar tekur sonur hans mörk í rèttarfar; og það annað, að í þeim forna Kristinnrètti, sem áður hefi eg hèr getið, að í sumum Heiðsifjaþ. bókum finnist, stendur kap. 47: „Legkaup eptir leysíngjason 4 álnir, en álnir 3 eptir leysíngja“; svo að hèr er í báðum stöðunum rèttur sonarins, *libertini*, hærri enn föðursins, *liberti*, fjórðúngi. Eg skal þakka þeim, er mèr kennir rèttara. En hvaðan það sè dreigið, að hann er kenndur við skatt og varið fè, læt eg öðrum eptir að rannsaka. Veit eg eigi hvort það muni ödrum[3] líklegt sýnast að vera kynni af skitníngum eður drykkjuhúsum dreigið, þar sem skotsilfur gelzt fyrir drykk, mjöð eður munngát, og margir lögðu saman á kvöld, eður miðjum dögum, og hafi í svoddan samkvæmum rètt goldid eður varið verið slíkum peníngum undir eyris nafni, sem annars eigi gildtu nema hálfa fimmtu alin, eður tvær ortugar taldar[4] og hálfa alin. Það sje eg af Ólafs Helga sögu, kap. 155, að Leifur kallaði það silfur, sem Þrándur í Götu bauð í annað sinn, geingt í skuldir þær, sem ei skyldi vanda gjöld fyrir, en samt eigi gjaldgeingt í konúngs skatt af Færeyum.

## Efst pro síðast. Efsti pro síðasti.

Grág. Lbþ. kap. 46. *Efsta vetur.*
Krist. b. kap. 1. *Á efsta degi.*
Þíngskþ. *Gángi sá fyrstur út, er efstur gekk inn.*

## Eptirgángsmenn.

þ. e. fylgjarar, liðsmenn.

## Eykur.

Það eru hestar lítt tamdir, og meir klyfjahestar enn reið meigi þá prýða.

1) B á. 2) það hafi verið hálffimmta. 3) vantar í A. 4 B) bætir við, eður.

## E i r í k u r.

Nafn Eiríks konúngs, sonar Magnúsar konúngs Lagabætis, skrifa allar þær *membranæ*, sem eg hefi sjeð það nefna, Eiríkur, en eingin Eirekur nè Eyrekur; og hvar sem eg hefi fundið Eiríks nafn á *membranis*, eður þeirra *accuratis apographis*, hvort sem nefndir eru konúngar, eður jarlar, eður nokkrir nafnbótar menn, eður nafnbótarlausir, skrifa pergamentsbækur Eiríkur, en aldrei Eyrekur. Hefir hin meiníngin innkomið í þánka manna þaraf, að þeir ei athuguðu, að *particula* „ei" í mannsnafninu, merkir ei *negationem*, heldur „æfinlega", svoað Eiríkur þýðist: „æfinlega ríkur", eins og eilífur, æfinlega lifandi, ælífur. Hávamál: Hans mun æ verða at góðu getit

## Fimmt- Fimmtar - stefna.

Landslb. I. 5. 13. 15. *per consequ. etiam* Llb. 10. 16. *collatum* við 25. 26. 27. 52. 56. Rekab. 3. etc.

Hvað skiljast eigi fyrir „fimmt" munu vitrir lögspekíngar vilja *disputera*, svo sem þeir gjöra gjarnan mikil mál úr litlu efni, hvort að í fimmtinni skuli teljast sá dagur, sem stefnandi birtir stefnuna fyrir þeim stefnda, og hinn, er dæma skal um stefnuna, þ. e. fimmtar þíngdaginn, annar eður báðir, eður hvorugur, og hvorr þeirra,[1] ef annarhvorr skal teljast.

Kristjáns fimmta Norske Lov, *lib.* 1 *cap.* 4 *art.* 7: „Femte Stævne, som er fem Nætters Stævne", og gjörir það enn eigi úrlausn á fyrrsögðum[2] spurníngum. En það skýrir Kristinn rèttur Árna byskups og Jóns erkibyskups (eg hefi hann á fjórum ágætum *membranis*, frá Leirárgörðum, Arnarbæli, Staðarfelli og frá Skarði á Skarðsströnd). Segja þessir þrír ágætu *codices* samhljóða, næst á eptir leyfi Vilhjálms kardínala: „Sókn scal eigi hefja á þriðja degi (viku), þvíat þá ber fimmtina á drottins dag". *Membrana* frá Arnarbælis segir: „Sókn skal oc hefja á þriðja degi, því at fimmt ber á drottinsdag". Er þetta[3] skinbarlega *corruptum*, þvíað allur *contextus* fyrirbýður að gjöra að málasóknum á helgum tíðum, og allir [þessir][4] *codices subnectera:* „Nema hann skjóti á fernætting eður sex nætting þaðan". Sýnir allt þetta, að sá dagurinn skal eigi teljast, sem sækjandinn birtir stefnuna þeim er sóttur er, en

1) A add. eður. 2) A fyrir lögum. 3) A það. 4) vantar í A.

telja skal þann daginn, sem er stefnu þíngdagurinn. Og með því að í öðrum stefnum fellur hinn sami athugi um fjórtan nátta stefnu, í Rèttarb. Eiríks konúngs, innfærðri í Kaupab. 3. *Item:* „sjö náttum fyrir sumar" Lbr. 10. *Item:* „komi þar allir að sjöund", Erfðat. 18, og svo um hálfs mánaðar, mánaðar og tveggja mánaða stefnur til lögmanns, í þíngfb. 9, þá sje eg eingin líkari efni til að undirstanda það rèttilega, enn eptir fyrrsagðri grein Kristinnrèttar; þvíað hvað sem um hans lögmæti þar fyrir utan er að segjá, þá er hann skír og gildur vottur þess, að svo hafi verið *praxis seculi.* Sama er forboð Kristinnrèttar Hákonar konúngs, í hans Frostaþ 1. *lib.* 2. *cap.* 20: „Sókn scal ei hefja á Týsdegí, þvíat fimmtin ber á sunnudag; en sá er hefur sócn á þessum tíðum, þá hefir hann fyrirfarit sócn sinni, nema hann scjóti á fernætting eður sexnætting þaðan". Það er og verðt að færa til styrktar og líkinda þessu máli, sem að skrifar *celeberrimus et laude nostra major* Stjernbook, *de Jure Sveonum*, lib. 1. cap. 2. um fimmt, að þegar stefnt var á laugardegi, skyldi málið *tracterast* á fimmtudaginn, en ef á mánudag væri stefnan auglýst, þá skyldi dæma málið á næsta laugardag eptir. Nú læt eg þetta vera sagt þarum, hvað lángan frest lögmálið hafi fimmtarstefnum ætlað. Hins er þvínæst að geta, að því leingur og fremur sem eg hefi eptir leitað í bókinni, hverr vera skyldi frestur þeirra stefna, sem gjörast innsveitis, því líkara hefir mèr sýnst, að það skyldi jafnan vera fimmtar stefna. Rök til þess eru þessi:

1) að í Þíngfb. 9. kap. er einginn ákveðinn [1] stefnufrestur innan hrepps, þó að þar sèu alleina *determineradar* stefnur heima til lögmanns.

2) að Mannh. 20 skipar að stefna víglýsíngar vottum fimmtar stefnu til þings, og eykur því við nokkru síðar. „Svo skal [og] [2] um öll vitni vera. Upplykt fjár þessa skal greidd vera á fimmtarþíngi." Hèraf er ljóst, að reglan næsta áður, um merkur sektina, er ekki meint allein með því: „Svo skal um öll vitni" (*nota:* Mannh. 19. Fimmtarstefnu þíngfall). [3]

3) þriðji vottur minn [4] er Llb. 1. Þar skal með fimmtarstefnu sækja eptirstöðvar af landskuld, og svo þótt til allrar [5] þurfi að sækja.

1) B er lengur. 2) vantar í B 3) B þíngrètt. 4) B minnar frásögu. 5) A allra.

4) Fjórða vitni er landleigubálks 4 kap, að þar skal fimmtarstefna til að njóta leigumála síns, ef landsdrottinn eigi vill halda.

5) Landslb. 13: Þar skal gjöra fimmt til húsa skiptis á leigu jörðum.

6) Er Landslb. 15, þar skipar fimmtarstefnu, ef í er ort töðuvelli, eingi eður akri; er það sýnilegt, að á þeirri stefnu skal dómur gánga.

7) En eptir dóm geinginn, skal fimmtar stefna til aptur að færa hey eður korn, áður aðför gjörist.

8) Er Landslb. 25. þar sem sjór eður vötn hafa rekið saman hey manna: lögfesti heyið, og leggi á fimmtarstefnu; hafi það hverr, er dómur dæmir.

9) Er Landslb. 26. sem allir hafa gætt. Þar er fimmtarstefnan fjórum sinnum á [nafn][1] nefnd, og er það ekki smávægi, sem þar er um að dæma; er og merkilegt, að ef þeim semur ekki, sem í þeim dómi sitja, þá skal leggja til lögmanns, og því sýnilegt, að sýslumaður muni[2] dóminn setið hafa.

10) Er Landslb. 27 af velflestum velathugaður, hvort hann er af öllum vel og rètt skilinn, má eg efa. En þegar hann er með aðgætni samanborinn við næstundangeinginn 26 kap. þá vil eg biðja menn umfram áðurtaldar greinir laganna að lesa með athuga: Llb. 10, 19, 20, 21, 16, 22, 23, og munu menn þá sjá, hver *intention* er í því merkilega atriði, er 27 kap. segir: „Skal þeirri stefnu eigi spilla meiga; en ef nokkur spillir etc.“ *Vide nostrum* „Spillir stefnu.“

11) Er Llb 32: „Fimmt skal gjöra til[3] görðum að skipta, og liggur þarvið ábyrgð garðs og usla gjalda.“

12) Er Landslb. 33. þar er er fimmt síðasti útlausnar frestur á innsettum peníngi.

13) Ljósastur allra þessara fyrrgreindra kapp. er Landslb. 52.[4] Þar er fimmtarstefna skipuð í því merkilega máli, er á svo stóru ríður, sem þar er um að tala; og svosem kapítulinn getur hennar sexsinnum, svo er ljóst, að í því máli tilætlar hann fimmtarþíng jafnan, [og fimmtarþíng og fimmtarþíng][5] og ekki sóknar form annað.. Bið eg menn eigi láti sig villa[6] það er hèr stendur: „Stefni þíng þar er menn eigu því máli að

1) vantar í A. 2) B sjálfur í dóminum. 3) B að. 4) A 53. 5) vantar í B. 6) B hneixla.

skipta. og skeri upp þíngboð fyrir fimmt“ (það er að mínum skilníngi fyrir fimmtarþínginu) þ. e. krefji bændur að mæta á fimmtarþíngi, þvíað áður er búið að skipa það í sèrhverjum hrepp skuli vera ákveðið, hvað lángan frest skuli boðgaungu ætla, og hversu [það skuli] [1] tafarlaust fara, í Framf. b. 10: „Hèraðsmenn skulu reiða náttstað að boði.“ Þessi grein sýnir berlega, að ekki þurfi hèr i Llb. 52 nýtt boðorð til að skipa boðburðar frestinn, heldur alleina til þess að láta menn vita hvar þingstaðurinn væri, og lýsa undir eins, það þíngið væri venjulegt fimmtarþíng.

14) Er Llb. 56. Þar mun öðrum svosem mèr sýnast ljóst fimmtarstefnu þíngið, til að fá dóm yfir þeim óhelga þvergarði, og annar fimmtar fresturinn af því þínginu til að brjóta garð úr ánni.

15) Fimmtándi vottur minn er Rekab. 3 kap., þar sem menn þræta um eign á hvalreka. Þeir eð nú efa vilja það eg skilji rètt það allar þíngstefnur innan hrepps hafi reglulega verið fimm nættar, að fráteknum þeim alleinum greinum, sem sèrdeilis ákveða stefnufrest annan, svosem Llb. 39, þíng þrínætt. Erfðatal 18 Sjöund. Llb. 10 um sjöund, og Rèttarb. Eiriks konúngs, um fjórtán nátta stefnu, í Kaupab. 3 þeirra þrykktu lögbóka, um hvað allt eg tala *in voce* „Tvímánuður.“ Þeir, segi eg, sem efa þenna minn *Commentarium*, bið eg að leiði fram þær greinir bókarinnar, sem gjöri ljóst, að hún hafi hèraðsstefnum innan hrepps ætlað nokkurn annan reglulegan stefnufrest, leingri eður skemmri enn fimmtarstefnur alleinar. Þvíað stundar stefnur í Rèttarbót Hákonar konúngs, sem innfærð er í Þíngfb. 9, og stundarstefnur þær, er Lbr. 3 segir: „svo laungu fyrr, að um lið megi sýsla“, eru ekki reglulegar sóknir, heldur *extraordinaire* í vissum tilfellum.

Þó að nokkur vilji svara mèr, að Rèttarb. Eiríks konúngs, sem þær þrykktu lögbækur byrja þannig: Svo skipaði virðulegur herra Eiríkur konúngur etc., segir berlega: „Skulu þær stefnur vera eptir leiðar leingd“, þá segi eg: þessi er vottur hinn merkilegasti til þess, að aldrei var sá stefnufrestur ákveðinn í bókinni, annar enn fimmtarstefnur, þegar hún inn kom 1280. En vera má, að landsmönnum vorum hafi þótt sá sefnufrestur stundum vera kortur, og því ráðið [til], [2] að færa sèr í nyt þau *fragmenta*, þ. e. slitur, þessarar Rèttarbótar, sem

---

1) vantar í B. 2) vantar í B.

prentuð eru; og um hana vil eg síðan skírlega tala, þar sem *in voce* „Tvímánuður" talar um hálfs mánaðar og mánaðar stefnur. Nú strax vil eg geta þess, að eigi hafa landsmenn vorir búnír verið að sèr að taka þessa Rèttarbót Eiríks konúngs, þegar Hákon konúngur, bróðir hans, sem næst eptir Eirík tók ríki, gaf þá Réttarbót híngað, sem áður er getið, að í þíngfb. 9 kap. sè innfærð. Hennar ártal er 1314, þann 14ða júní, svo sem hún vottar, þar sem hún er heil frá Leirárgörðum á *membrana*; þviað ef að hin, Eiríks konúngs, hefði þá verið hèr innkomin, var þessi grein Rèttarb. Hákonar konúngs ónauðsýnleg landinu. Hún stendur þar brèfið er heilt, *lege* 3.[1] Mèr verður sagt, að í henni sè greind stundarstefna að eins, en ekki svo sem í Rèttarbót Eiríks konúngs: „Skulu þær stefnur vera eptir leiðar leingd, þó svo, að stefndur hafi nóga stund að koma að öllum gögnum og vitnum." Eg svara: Guð láti menn ekki verða svo blinda og vitstola, að þeir meini stundarstefna sè sú, er lesin verði manni á þínginu samstundis, eður sama daginn, eður deginum áður! því orðið „stund", merkir hèr nægan tíma, svosem þreifanlegt er af orðum konúngsins:[2] „Stefndur hafi nóga stund að koma að gögnum og vitnum." Eins Eiríks, eins Hákonar. [*Lege* 20 í Rb. Eiríks konúngs],[3] en *lege* 3 og 4 í Rèttarb. Hákonar konúngs. Vil eg nú ekki fá mèr til orða það er í nokkrum dómum, sumum eldri, sumum ýngri, má sjá, að menn hafa stundar stefnur kallað þær, eð einhverjum voru lesnar á sama þínginu, sem málið skyldi dæmast, því að skelfileg lögleysa sú er ekki andsvara verð, og stendur á eingum grundvelli í fornum nè nýum lögum, nema hún kunni að fá [náð][4] lögmálsins af því, að sá, sem stefndur verður, taki ljúflega við sókninni, og vilji[5] svara svo sem hann væri lögstefndur, þó hann sè að ólögum stefndur; og hafa menn [hèr][6] kallað það löglegging, en í nýu lögunum heitir það, að maður taki[7] við gjenmæli. NL. 1—4—1 og 1—10—2. Undir þessari miskun kann slíkum stefnum skjól að verða, en annars er þeim eingin rèttlætingar von. Þótt að eg nú viti, að allmargir, og kannske flestir landsmenn vorir láti sèr þetta ekki skiljast, já, og mislíki stórlega[8] það eg skrifa svo bert á móti oflángri venju, sem

---

1) A 33. 2) B kónganna. 3) vantar í B. 4) vantar í B. 5) B verður. 6) vanta í B. 7) B að taka gjenm. 8) B láta sèr mislíka.

hèr hefir viðgeingist innanlands yfir 100 ár, að menn hafa skapað hálfsmánaðar stefnufrest undir sýslumanns dóm innan hrepps, og sagzt gjöra það eptir því sem Þíngfb. 9 skipar stefnufrest, þegar einhverr sækir mál sitt undir lögmanns dóm, annan enn þann, sem á Öxarár alþíngi er von að lögmaður gjöri, og misbrúka til þess Rèttarb. Hákonar konúngs, sem í Þíngfb. 9 innfærð er: „Svo sè laga stefna til sýslumanns, sem til lögmanns, og hálfu minni sekt við. Eg skrifa eptir *membranis*, en eigi þeim böguðu bókum. Þetta vilja þeir skuli segja: Jafn skal vera stefnufrestur, hvort sem menn stefna til lögmanns eður sýslumanns; en eg bið þeir segi mèr hvar í lögunum er ákveðinn stefnufrestur til lögmanns, ef lögmaður er innan hrepps. Í Þíngfb. 9 finnst ekki sá stefnufrestur. Hvar er hann þá? Eg mundi[1] trúa, þótt einhverr segði mér, að þessi grein, Rèttarb. Hákonar konúngs, dat 14. júní 1314, skyldi segja: Eins er það löglegt að menn stefni málum sínum undir lögmanns dóm. Og til þess allir sjá meigi, að þetta er eigi líkindalaus diktur þánka míns, og aflagar hvergi lögmálsins *intention*, þá hugleiði menn *praxin seculi* 13tii, þ. e. venju framferði þeirrar aldar, er lögbókin gekk út, að þá var tíðast, að menn stefndu málum undir lögmanns úrskurð, *neglecta prima instantia*. þ. e. slepptu[2] hèraðs sókninni undir sýslumanns dóm. Líti menn hugarins auga til Rèttarb. Eiríks konúngs, svosem[3] hún er innfærð í þær þrykktu lögbækur K. k. a: „Hvervetna þar sem lögmaður er nær, þá skal hann nefna menn til dóms, einkanlega þar sem um stórmál er að dæma, en ella sýslumaður.“ Það er í Editione 1707 pag 462, og svo hið sama í Editione 1709. Eg vil eigi í þetta sinn fá mèr til orða, hversu *accurat* þessi Rb. Eiríks konúngs sè í hinum þrykktu lögbókum, en þess vil eg minnast, að í nokkrum gömlum *membranis* finnst þessi grein hennar með nokkrum orða atvika mun, sett allra síðast við niðurlag þíngfararbálks í sumum, en í sumum allra næst fyrir framan *Epilogum* bókarinnar. Eg hefi Rèttarbótina heila eptir *apographo membranæ*, sem assessor Árni Magnússon hefir með eigin hendi emenderad; þar er þessi grein *lex* 13,[4] og nefnir ekki lögmann, eigi heldur sýslumann, en kallar *in genere* umboðsmann. En verðt er þess að gæta, sem mælir Rèttarb. Hákonar hertoga,

---

1) B mun. 2) B að slepptri. 3) B einsog. 4) B 23.

dat. 1293, 22. apríl: „það fyrirbjóðum vèr og,“ segir hún, *lege* 3a, „að sýslumenn eður lènsmenn stefni nokkrum bónda til lögmanns, utan lögmaður sè innan [þeirrar][1] lögsagnar, sem hann er yfirskipaður.“ Veit eg einginn má neita, að þetta sèu sterk líkindi venjunnar; þó eru þau allra sterkust, er mælir landstjórnar bréf Hákonar konúngs, dat. Túnsbergi á Bótólfsvöku [2]. 1308. Þar stendur ljóst, *lege* 20a: „Það skipum vèr [og], að lögmaður fari með sýslumanni, þá er hann fer að rètta menn í sýslu sína, og hafi 2 sveina á þeirra kost, slíkan sem sýslumaður hefir. En klerk skulu þeir báðir hafa þann, er skrái alla dóma og laga orscurði, er lögmaður segir manna á millum, oc gjöri brèf eptir sèrhverjum laga orscurðinum einslega undir hans (lögmannsins) innsigli, óg taki þeir það, sem orscurðinum tilheyra.“ *Lex* 21a; „En sýslumaður skrásetji í quaterni hvern dóm, oc lagi orskurð eptír því sem brèf lögmanns votta, svo at því síður meigi dómarnir oc orscurðirnir gleymast“. Eg veit einginn er svo fávís, að hann meini orðin: „fer að rètta menn í sýslu sína“[3] skuli meina, að taka menn af lífi, heldur enn hverja aðra lögdóma, því það segir, að gjöra rètt í millum manna. Hèr virðast mèr dulmælin af dreigin um plagsið þeirra tíma, sem gjörir[4] minn skilníng á Rèttarbótinni þvínær þreifanlegan. En látum þá nú ráða, sem vilja Rèttarbótin skuli meina[5] stefnufrest undir sýslumanns dóm; þá bið eg þeir leiði fyrir sjónir þær utan hrepps stefnur, eður utan hèraðs, eður utan fjórðúngs, sem undir sýslumanns dóm heyra skyldu, nema alleina stefnur[6] til votta áheyrzlu, sem um er talað í Erfðat. 27, [og á sá kapítuli glöggt saman að berast við Erfðat. 25][7] sèrdeilis fyrstu grein, ella munu báðir þúngskildir verða. Eða hvað skyldi annað kunna til þess að bera, að utan hrepps stefnur væru gjörvar fyrir sýslumanns dóm?[8] því að erfðarèttar sóknin, sem áður er getið í 25 og 27 Erfðat. geingur á saman hátt og jöfnum fótum sem jarðadeilur, að þar dæmist um arf, sem hann er dáinn, þar um jörð og alla jarðnautn og nytsemí, sem jörð liggur, *vide* Llb. 26. 27. Það er flest vel skrifað og með góðri gætni, sem *anno* 1680 hefir sýslumaðurinn Magnús sál. Jónsson, faðir assessors Árna Magnússonar og bræðra[9] hans, skrifað um hèraðssókn-

---

1) vantar í B. 2) B messu. 3) A sinni. 4) A gjöra. 5) B meini 6) A stefna. 7) vantar í A. 8) B dómi. 9) B bræður.

ir. En ekki get eg honum samþykkur orðið um fimmtarstefnu mál, því mèr skilst hann láti þann rèttargáng sèrdeilis *special* sóknum[1] tilheyra, þarsem eg meina hann almennastan í bókinni. Eg skil og ekki hvað sýslumaðurinn meinar með óðals bálki. Það vantar mig og, að einga gjörir hann í þessu skrifi þar á grein, hverr verið hafi í þær mundir, og vera eigi að rèttskildum texta bókarinnar, stefnufrestur innan hrepps. Eg segi sá stefnufrestur sè í lögum tilætlaður 5 nætur, það er þriðjúngur af hálfsmánaðar stefnufrestinum, sem ætlaður er lagasóknum utan hrepps, en[2] innan hèraðs. Nú er enn fremur, svo menn hafi sýnilegan speigil og þreifanleg merki sanninda röksemdar til minnar sögu, þá hugleiði menn form hèraðs sóknanna í Noregs ríki; þar var fimmt, og fimmt, [og fimmt][3] í málunum svo tíð, sem nú viljum vèr athuga af Frostaþíngs, Gulaþíngs og Heiðsævislögum; og lítum fyrst til Kristinnrèttar í Heiðsævisbók 8 kap: „Fimmt til barnsskírnar tvisvar“ *Ibidem* kap. 16: „Fulltíða manni sem efaður er, hvort skírður sè, fimmt til að skírast, ella fari útlægur.“ *Ibid.* kap 31. „Fimmt til að lykja tíund og tíundarhalds sektir.“ *Ibid.* kap. 37. „Fimmt til kirkjugarðs bóta, og 6 aura sekt, ef eigi er hlýðt á fimmt.“ *Ibid.* kap. 38. „Fimmt til kirkjugjörðar, ella forbrotinn kirkju staður.“ *Jbid.* kap. 50. „Fimmt til að jarða lík, ella 3ja marka sekt.“ Nú kemur rètturinn um verzlegar sakir eptir öllum fyrrnefndum Noregs lögbókum: Mannh. 12. „Gjöra fimmtarstefnu til vitnis um víglýsíng“; *et mox*: „upplykt fjár þess [skal][4] greiðast á fimmtar þíngi.“ *Quæritur:* Hvort sama þíngi, sem dæmt var, eður á næstu *ordinaire* fimmt? *Credo* [*ego*][5] á næstu fimmt. *Idem sentio* um Jónsbókar sömu greinir, Mannh. 10. Eins er þetta í Frostaþíngsbók Magnúsar konúngs, og þó mismunur straffs[6] vitnanna; því þessi Frostaþíngsbók hefir það einsog Frostaþb. Hákonar konúngs, Llb. 4 um rofinn leigumála, einsog Jónsb. Llb. 5, eins Frostþb. kap. 4. Llb. 3, um bætur fyrir ógjört hús, sem á var skilið, eins Frostaþb. *ibidem;* um það er ekki sóknar aðferð ákveðin í Jónsbók Llb. 3, *utpote* sjálfsögð fimmt. Llb. 7: „Gjöri fimmt til húsa skiptis;“ eins Frostaþb. *ibidem,* eins Jónsb. Llb. 13. Llb. 16, um yrkíng akurs eður eingis, fimmtarstefna, og fimmt til aptur-

---

1) B sóknum. 2) B edur. 3) vantar í B. 4) vantar í B. 5) vantar í B 6) B mismunar straff.

færzlu; Frostaþb. *ibid*, allteins; allteins Llb. 15. Í öllu þessu kemur síðan vitafjár sóknin, hálfsmánaðar heimstefna, þ. e. þrennar fimmtir, og síðan þíngstefna; hún var eflaust fimmnætt. *Legamus* með athuga *nostrum* Tvímánuð. Llb. 21 og 22; orðrètt eins í Frostaþíngsb. og Heiðsævislögum,[1] og báðar samhljóða vorrar bókar 26 og 27. Llb. 29. Fimmt til garða skiptis; allteins í Frostaþb. og svo í vorum Llb. 32 er fimmt um efnið sama. Llb. 30 fimmt til uslagjalda, allteins í Frostaþb., og svo vors Llb. 33.[2] Llb. 46 fimmtarstefnu af þíngi, til að taka þvergarð úr á. Hvaða þíngi nema því, að þíng var í hverri viku? Eins Frostaþb., eins vors Llb. 46 um síld af að[3] færa fyrir sumarmál, ef hann hefir fimmtað af áður. *Quid est* annað, enn gjöra honum[4] fimmt til af að færa? Frostaþb. Llb. 60, um misgreiníng sem rís af eign almenníngs;[5] Frostaþb. allteins, og með báðum Jónsb. Llb. 52. *Nota!* Frostaþíngsbók og Jónsb. segja: „Ef fimmt ber á helgan dag," en Heiðsævislög: „Ef þíng ber á helgan dag;" *nimirum* það eru synonyma fimmt og þíng, því innansveitar þíng öll voru að mínum þánka[6] fimmtir, og ekkèrt annað, nema þar, sem það[7] er *specialiter definerad*. Þó samt verður sækjandinn til vitnanna varnarþíngs þar innsveitis, sem þau eiga heimili, að stefna vitnunum, sem[8] verjandinn skal heyra. *Nota!* Framfb 9. „Sá skal þíngi ráða, er þíngs þykist þurfa. Nú stóðu þessar Magnúsar konúngs lögbækur í fullum blóma [enn][9] í tíð Eiríks konúngs, sonar hans, er næstur regeraði. Því mælir svo Rèttarbót hans til Björgvínar manna, dat. miðvikudag fyrir miðföstu á fimmtánda ári ríkis hans, þ. e. 12. Marz 1295: „Lærðir menn og handgeingnir menn allir gjöri leiðángur af görðum sínum tímanlega, þegar er krafið verður, og haldi uppi[10] öllum slíkum staðar rètti, sem allir aðrir hússbændur, ellegar sè fimmtað mönnum og görðum þeirra; en hverr sem yfir situr fimmtina, sè sakaður 3 mörkum, og veri þó fær út með mótmönnum. Þetta sýnir nú þreifanlega *praxin* Noregs í tíð Magnúsar konúngs og í tíð Eiriks konúngs.

Nú viljum vèr sjá fimmtirnar híngað innkomnar með lögbók Hákonar konúngs. Þar er fimmt í Mannh. til að bera víglýsíngar vitni, og strax eptir: „Til þessarar sóknar skal ei[11] heim

1) B Frþ. lögum og Hsþ. lögum. 2) B 32. 3) A sílda fat. 4) B gjört hèr. 5) A eður almenníngi. 6) B add. iðil. 7) B það sem. 8) B þeim 9) vantar í A. 10) A upp. 11) B enn.

stefna. Þíng skal stefna af fimmtar þíngi um svo margar nætur, sem menn hafa tekið í þínghá þeirri. Þessi orð Járnsíðu sýna það hèr á landi hafi áður misjafn verið frestur sóknanna í ýmsum hèröðum, eptir viðtekinni samþykkt hèraðsmanna. En Jónsbók, þegar hún kom inn, *determinerar* þetta þíng til fimmtar, Mannh. 10, sem áður er sagt, svo að hún þarmeð *abolerar* hina fornu venju, þar sem öðruvís [1] kynni hafa verið enn fimmtar stefnur. En aptur segir Hákonarbók í Mannh. um örvarþíng, kap. 19. „Verður tvinni örvarþíng, og í sínum stað hvort, og koma báðir til fimmtarþíngs." [2] Hèr er það, að mínum skilníngi, ljóst, að þessi [fimmtar] þíng hafa verið *perpetua*, að hverri fimmt í hverri viku, eins og enn nú eru utanlands *stata tempora* í hverri viku til þíngdaga, bæði í borgunum og á landinu, svo sem að segir Danske Lov *lib.* 1 *cap.* 3 *art.* 5, en þótt hèraðsþínga tafla bak við hin nýu Norskulög sýni það, að hin fornu og sífeldu fimmtarþíng hafi, síðar á öld, eg mundi trúa í tíð Eiríks konúngs af Pommern, aflagzt í Noregi. Enn mælir Járnsíða [svo] [3] í Erfðat. kap. 23: „Ef maður fer af landi, og spyr arfi [4] andlát hans og [hefir] [5] vitni fram á fimmtar stefnu." Hvað er þetta annað enn *ordinaire* fimmtarþíng? Í Llb. segir Járnsíða kap. 6: Ef nokkurr sezt á jörð annars heimildarlaust, „þá skal gjöra honum fimmtar stefnu af." Sá stefnufrestur er ekki ákveðinn í Jónsbókar Llb. 10, því að fimmtin er *ordinaire*. Aptur segir Járnsíða í Llb. um veiðispjöll, kap. 83: „Gjöra honum fimmtar stefnu á þíngi að brjóta úr," einsog segir [vor] [6] Llb. 56. Hvaða þíng mun þetta [7] annað enn [8] hið venjulega fimmtar þíng í hverri viku, sem áður er sagt?

Nú höfum vèr skoðað lögbækur Magnúsar konúngs Lagabætis, og allir vitum vèr, að þær eru mæður, brunnar og uppspretta að vorri bók í öllu því, sem staðizt gæti við þessa lands háttu, svo að hin fornu Grágásar lög eigi væri oss betri. Vèr höfum skoðað venjuna niðurstígandi í tíð Eiríks konúngs. Vèr höfum sjeð [9] venjuna uppstígandi um þau 17 ár, sem Járnsíða var í landi hèr.

---

1) B öðru. 2) B örvarþíngs. 3) vantar í A. 4) B maður. 5) vantar B. 6) vantar í B. 7) B add. skuli. 8) þetta. 9) B skoðað.

## F a l s.

Farml. 2. *Ef stýrimaður lætur ausa skip á laun við háseta.*
*Item* Járnsíða *Kaupab.* 9. *Þat er fals, er skynsamir menn sjá at fals er; ef maður kaupir sand eða saur, þar sem hann kveðst kaupa mjöl eður smjör, og allt þat, er ei má sjá utan á.*

Gulaþíngsbók forna kallar það „fár“ í sínum Kaupabálki. Svensku lög, Kaupam. b. 3. Flærð er þá maður selur íllt fyrir gott, margt fyrir ekki margt; og fals er, þá mann skýlir íllt undir góðu, svosem kopar undir gulli, eitur blandast með vaxi, steinar sjást í för með járni. Svo er þá vatnsblandið brennivín, rúg með byggi, skyr, smjör, svikið, flærð, forgylltur kopar, fals.

## F a s t a.

*Kristinnréttur Þorláks og Ketils: Sá maður, er fastar, skal etið hafa fyrir miðja nótt, þá er fasta um daginn eptir, og matast eigi áður líður nón.*

## F a l l i ð.

*Þingfb.* 3. *Þing skal standa svo leingi lögmaður vill, og honum þykir fallið, fyrir mála sakir og lögrèttumenn samþykkja.*
*Item: Vel til fallnir og vænastir til skila.*

Það er: svo hagkvæmir til þess, sem vel heflaðir viðir falla hverr við annan, svo eigi má sjá misfellur. Vestgothalag, Brigðab. kap. 13: „Allir þeir sem í vestra Gotlandi búa, svo at enginn sè undantekinn, skulu byggja varga-garða, þar sem til er fallið.“

## F á t æ k u r.

*Framfb.* 7. *Mannh.* 4.

Þetta orð er dreigið af því, að þeir eiga á fáum hlutum að taka er þeir vilja eitthvað útrètta það, sem efni krefur, og fè þarf til að kosta.

## F e l l u - j á r n.

Kaupab. 5. *Vætt fellu-járns fyrir sex aura.*

þá er hverr fjórðúngur á 9 fiska. Heyrt hefi eg þá menn, iafnvel skynuga, sem gjört hafa sèr *disputatíur* um merkíng orðs þessa, og kveðst Björn á Skarðsá meina það samfellt ásmunda-járn, en ekki get eg goldið honum samkvæði til þess, ef hann ekki meinar með orðinu „samfellt" annað en vel þètt og soralítið ásmunda-járn; því eg efast ei, að fellu-járn sèu uppsmelt og að nýu soðin ásmunda-járn, þau eð með hinni síðari smeltíngu samanhlaupa í aflinum í svo stóra járnhnetti, sem tengur þær, er til þess eru gjörðar, fá yfir gaupnað, og einn maður getur með þeirri taung borið fram á steðjann undir hamar þann, sem þar slær járnið í þær aflaungu stengur, sem vèr fáum allopt hjá kaupmönnum, ýmist leingri eður styttri, en allra tíðast sundurhöggnar í þau smástykki, sem almenníngur kallar járn-milti. Og er það fellu-járn, sem lögbók nefnir, allt hið sama, sem sá danski taxti kallar Stængejern. Er þá járnið fyrst fellt, eður fellu-járn, þegar það með hinni síðari smeltíngu, sem fyrr er getið, uppkokkað verður slegið í þær aflaungu stángir. Hafa menn enn nú í voru máli leifar glósunnar, þar vèr köllum niðurfellu-járn, það sem úr mörgum smábrotum og járnmolum saman rennur í einn kökk fyrir aflinum, og er svo þar eptir slegið fram í teina á reksteðjanum. Ætla eg það efalaust, að ásmunda-járn og stánga-járn hafi Guðbrandur biskup meint í sínu testamenti, þar eð hann segir: „Ekkert járn var hèr við stólinn á Hólum, hverki fellt nè ófellt." „Fellt" segir hann, það skil eg stánga-járn, en „ófellt" það skil eg ásmunda-járn. Það er víst, að fellt járn, sem vættin gildir sex aura í Kaupab. 5. kap., hefir hann ekki kallað teint járn, það er, fram rekið járn, því að Kaupab. 6. kap. segir það vera metfè, *vide supra* Blástur-járn, og þar innfærða *relation* sèra Jóns Tómássonar á Hálsi í Fnjóskadal; þar kallar hann fellt járn og fellu-járn, það er nú flyzt tíðast híngað til landsins.

## F e n.

Llb. 23.

Það heita vatnsbleytur með fúinni grasrót yfir, og er svo leðjan undir grasrótinni; líka þar sem húðlaust er og vatns

kílar liggja. Það er og fen, sem pyttir eru djúpir, og lítið gras ofan yfir. Stór fen eru díki.

## Fèráns-dómar.

Voru háðir í örskots helgi á grjótshóli utan garðs, þá sól var í miðju suðri, *vide* sögu af Hrafnkeli Freys-goða.

## Festa eið, lög, fè.

ɔ: lofa, heita, tilsegja.

Kaupab. 4. *Eið vinna, nè fè festa.*

Llb. 52. *Festi sá lög fyrir, er sèr kallar.*

*Ibid.* 26. *þá skal lög festa fyrir,* et sic ibid. 27. membr., *lögfesta til.*

*Ibid.* 15. *Fara til og festa lög fyrir akur eðr eng.*

Mannh. 23. *Krefur sá lagafestu og rèttar síns, er fyrir vanvirðu varð.*

Llb. 6. *Halda skila-dómi fyrir kaupi sínu.*

Proverbium: *Eg býð lög og dóm fyrir mig,* ɔ: Eg festi lög og skýt máli mínu til laga.

Llb. 30. *þá skal sá, er synja vill, festa tylftar-eið þar á þínginu, og hafa þann unnið innan 10 vikna.*

Knytl. s. kap. 24. *Síðan festu bændur kóngi sjálfdæmi.*

Kvennag. kap. 5. *Konu, er maður hefir sèr festa,* ɔ: lofaða eður handselda (keypta), *unde:* Handsals-öl, festar-mey, lofuð mey, heit-kona.

Upp á þessar greinir eptirfylgir innlegg lögmannsins Vídalín, er hann sendi á þíngið á Holti þann 20. Maí 1721 fyrir sýslumanninn Hákon Hannesson, þá lögmaðurinn hafði stefnt fyrir hèraðsrètt Skæríngi nokkrum um lögfestu, er hann hafði gjört fyrir landsreit að Yztaskála. Hvað að er til góðrar undirvísunar, hvað lögfesta merki, og hversu henni skuli framfylgja eptir gömlum landslögum.

Göfugi sýslumann!

Góðir ærlegir þíngmenn!

Ef hugur minn spáir rètt, um lögkænsku Skæríngs, þá mun hann kalla sig undri það, er nú stefni eg honum til að gjöra lögleg skil og bevísíngar fyrir þeim landamerkjum, sem hans lögfesta vænzt hefir milli Núps og Yztaskála, og mun láta, sem mèr tilkomi að framleggja skjölin, þar eð eg stefni nú. Hèr til svara eg: Hann hefir lögfest fyrri, ɔ: fest lög, lof-

að lögum fyrir slík landamerki, sem lögfestan hermir, svo sem snart skal eg bevísa þreifanlega. Nú fyrst hann hefir lofað lögum að fyrra bragði, þá segi eg af Llb. 26: Sá skal fyrri tjá sína votta fyrir dómsmönnum, er fyrr lagði lög og dóm fyrir. Þar sem nú að Skæríngur hefir svoddan gjört með lögfestu sinni, og síðan sjálfur ei framfylgt lögum þeim, er hann hafði fest, þá klaga eg hann nú fyrir rofið loforð, að ei hefir hann lögfestu sinni, það er festum lögum, lofuðum lögum, fyrirheitnum lögum, til dóms haldið, og kref hann nú að gjöra það, því að hann skal fyrri tjá votta sína, sem málið hóf með lögfestunni. En þessar eru greinir laganna, sem þreifanlega skulu bevísa það, að lögfesta sè, að lofa lögum og að framfylgja máli sínu að lögum. Skoði Skæríngur, hvort hann vill eður ekki, Llb. 52. Þar segja bækurnar, bæði fornar og nýar: „Festi sá lög fyrir, er sèr kallar". Hèr sjáum vèr, að það er sækjandans verk, að festa lög fyrir því, er hann kallar sèr, og hefir því Skæríngur hafið sóknina, þar hann festi lög til þess, að gjöra það satt, að hann ætti það, er með lögfestunni kallar hann til. Sækjanda verk er lögfestan. Llb. 15., þar segir: „Skal sá, sem á, fara til og festa lög fyrir akur eðr eng", segja hèr þær gömlu og rèttu bækurnar. Sú prentaða segir: „lögfesta fyrir." Það verður málleysa með öllu, ef orðið „lögfesta" skal ei meina hèr að festa lög. Því hvað er það, að lögfesta fyrir akur eður eng, ef það merkir ei að binda sig til lögsókna og lofa að halda þeim fram? Skæríngur mundi hèr segja vilja: „lögfesta akur eður eng." Eg spyr: hverjum festir hann akur eður eng? Hverjum lofar hann því? Sjálfum sèr, meina eg; en hvernig? Með lögum, skilst mèr. Nú beiðist eg af honum þeirra laga, og fylgi þó hans stílan. En eg bið hann að fella ei burt orðkornið „fyrir", heldur láta Magnús konúng ráða stíl sínum, er hann skipar „að festa lög fyrir akurinn", og vill sú festa (þ. e. loforð) haldið skuli, en ekki rofið, sem Skæríngur hefir gjört. Hèr stendur og litlu síðar í þryktu bókunum: „lögfesti fyrri"; það segja hinar óböguðu bækurnar: „lögfesti fyrir", og sjá heilskygnir allir það svo á að vera, því að annars fær hinn ei, eptir þessum kapitula, korn sitt eður hey aptur, sem síðar lögfesti, þótt hann vinni málið. En allir vita, að sá skal hafa sitt, er málið vinnur, hvert sem hann festi lög fyrir það fyrri eður seinna. Í Llb. 27. segja þær þryktu: „skal sakaráberi lögfesta fyrir", en þær gömlu segja: „lögfesta til."

Sýnir þetta enn berlega, að það er sækjandans verk að lögfesta, svo sem Skæríngur hefir gjört, og þar með hafið sókn á móti Núps eigendum. Hèr er enn athuginn sami um orðið „fyrir", sem áður er sagt, að það verður málleysa, nema það skuli skiljast að festa lög fyrir. Beiðist eg, að dómendur ekki láti rèttan skilníng laganna, sem nú hefi eg tjáð, villast frá augum þeirra fyrir misbrúkan vanvitrínga vorra tíma, sem ei skilja, hvað orðið lögfesta sè, og ætla það muni strax lagaskjal fyrir jörðu, ef einhverr djarfur glappi flanar til að segjast lögfesta til vissra merkja, þar sem hann aldrei síðan þorir að fylgja því máli til laga, en veit, að fjarlægir eigendur geta ei bráðlega náð hendi til, að draga þvílíka ásælnis-púka og pilta undir dóm. Annað er að tala um lögfestur þær, sem góðir menn, þeir eð nýfeingið hafa jörð einhverja, vilja með lögfestum lýsa eign sinni á, svo sem um talar Llb. 17; þar er ei nauðsyn til strax að framfæra laga-aðgjörðir frekari. Skoði Skæríngur Llb. 30: „þá skal sá, er synja vill, festa tylftareið þar á þínginu." Sljófskygnari er Skæríngur, en mig varir, ef hann ei sèr það hèr stendur, „festa tylftar-eið", segir „að lofa tylftar-eiði." En gæta skyldi Skæríngur, að sá eiður skal unninn, eins og honum ber að halda málinu til laga, því að hann hefir fest lög fyrir landamerkjum. Lesið mun hann hafa Kaupab. 4., þar segir: „Hann skal annaðhvert festa fè, eður synja." Og strax á eptir: „Nú vill verjandi hverki eið vinna nè fè festa." Mun ei Skæríngur enn nú sjá, að þetta „festa" segir að lofa. Enn bið eg hann lesa Farml. 7: „Svo mikla vöru, sem hann hefir sèr fari undir tekið og leigu fyrir fest." Lesi hann Farml. 13.: „Þá skal hann greiða stýrimanni svo mikla leigu, er hann festi honum." Nú ætla eg Skæríngur muni skilja, að í öllum þessum greinum merkir orðið „að festa" sama og að lofa. Það efa eg ei, að Þjófab. 5. kap. muni Skæríngur lesið hafa. Þar stendur: „Nú kemur hann sjálfur, þá skal hann eið festa," mun ei þetta sama og Llb. 30. segir, „að festa tylftareið", og hinir, „að festa fè, festa leigu?" Eður hvað segir Skæríngur að festar-mey sè? Skilur hann ei, að það er trúlofaður kvennmaður? Hvernig getur hann þá farið á mis við að skilja, það fest lög sèu trúlofuð lög, lög og rèttargángur, lofuð upp á góða trú, og lögfesta sú lofun, laga framfylgis skýrsla og skiladóms fyrir því, er hann hefir lögfest til? Eg vil ei hèr innfæra margföld

dæmi hèr upp á í sögum, því eg hygg með þessu, sem nú er komið, útþrykkilega að hafa bevísað það, að lögfesta sè að festa lög, lofa lögum. Og með því Skæríngur hefir ei það loforð haldið inn til þessa dags, að mínu viti, segi eg, (því að eg er fjarlægur), þá beiðist eg nú, að dómendur skyldi hann til þess nú, á rèttan stefnudag, eptir framanskrifuðum laganna greinum. En ef hann getur ei bevísað hefð sína eður sinna formanna á þessum reiti, fram til þess hann *anno* 1719 festi lög hèr um, ella með skjölum og vitnum bevísað eign sína reitinn, ef hann skal óræntur vera eptir Llb. 26, þá hefir hann, sem kunnugt er, með yrkíngu sinni sett sig inn á þenna landsreit án dóms og laga, þvert í móti Kaupab. 1. kap., þvert á móti kóngsins NL. *lib. 1. cap. 1. art. 3.* Ránkar mig þó til samtals hans við mig á næst höldnu lögþíngi, sem ekki flèttaðist honum að *citera* NL., þegar hann, annaðhvort af ásettu ráði til að villa lög fyrir mèr, eður af vanskilníngi vildi *invertera* hèr *statum quæstionis,* og kalla Núps eigendur nú heita skyldu byrja þetta mál, er sjálfur hefir hann höfðað og hafið með sinni lögfestu, sem nú er *demonstrerað;* og ærið þótti mèr hann þrámálugur á þeirri grein af Llb. 26: „Leggi sá fimtarstefnu, er heldur þykist þurfa.“ Vilda eg ekki í það sinn svara babbi Skæríngs, en nú vil eg með *respecti* við rèttinn svara þessu. Lögmálið sýnir hèr með berlega, að eingar þær lögfestur, sem um áverka þrætur og það eitthvað, er sá kapítuli til greinir, gjörðar verða, sèu neins aktandi, nema fimtarstefnan sè strax við þær á fest með því rèttar formi, sem þar er skipað, og eiga þær fimtarstefnur allar að byrjast með lögfestu, og þær lögfestur allar að endast með fimtarstefnu í sjálfrar lögfestunnar niðurlagi, svo sem öllum vitugum mönnum er sýnilegt, þá athugað er. Nú hefir Skæríngur þetta ei gjört, að láta fimtarstefnuna fylgja þessari sinni lögfestu, með hverri hann hefir þó bundið sig til að sýna lög til síns máls, og framfylgja því undir dóm; því er eg nú neyddur til að sækja hann til að efna sitt loforð, og er þessi grein Llb. þá rètt skilin og hugleidd móti vorum lögkæna Skæríngi. Þótt í fyrstu grein þessa kapítula ætti að standa landamerki, eins og hefir sú prentaða bók, en eingar hinar gömlu, sem eg hefi sèð; og ef þeim fornu *formalitetum* ættu menn nú að fylgja, sem þó er af tekið, síðan Norskulaga *formalitet* eru skipuð oss fyrir reglu. Enn mundi Skæríngur vilja segja mèr

af NL. *lib. 1. cap. 13. art. 9.* að eg hafi fyrri stefnt, því skuli eg fyrri tjá mína votta. Eg ætla mèr verði það einginn óhagur, þótt gögn mín verði strax heyrð; þó vil eg biðja dómarann að hugleiða, hvort eigi hafi Skæríngur stefnt til hálfs með lögfestunni. Forboð leggur hann nógu stórort við brúkun landsins innan ákveðinna takmarka. Mun það ekki vera fyrri hluti stefnunnar, sem Skæríngur gekk frá í miðju kafi? Skoði menn NL. 1—4—7; þar fylgir fimtarstefna strax lögfestunni strax *immediate,* allt eins og í Llb. 26. Og það er nú mín fyrsta sóknar grein, að eg klaga, það Skæríngur ei hafi, eptir þessum hvorutveggju laganna fornu og nýu boðorðum, framfylgt sinni lögfestu, og kref hann nú að gjöra það, og tjá sín gögn og vitni, svo sem höfund máls, er með lögfestunni hefir undir sig kallað þenna reit; en sýnilegt er, það eg ekki forðast mín gögn í ljós að leiða, og þar fyrir fylgi eg máli mínu til laga, svo sem eg í fyrra festi. Því hefi eg Skæríngi stefnt til að heyra mína votta, þíngsókn heila þar í sveitinni, og svo til að heyra skjöl mín í móti honum um deilu þessa. Ei lèt Skæríngur það á alþíngi vanta, að áminna mig, það mèr bæri öllum eigendum Yztaskála að stefna um þetta mál; en eg fæ ei skilið, að þetta mál komi þeim við, nema Skæríngi einum, því hvorki veit eg þeirra nokkurn, að honum fráteknum, eigna sèr þann landsreit, er við Skæríngur deilum af, og ekki veit eg, að neinn landseti þeirra yrki þráttnefndan reit, nè brúki, nema margnefndur Skæríngur einn, eður kannske hans landseti, ef annar er, en hann sjálfur, því skal eg þá sækja þá góða menn, er eg ekki veit við mig hafa misgjört, eður sèr eigni, þar eg þykjumst eiga; því daufheyrist eg við áminníngum Skæríngs fyrst að sinni. Læt NL. 1—4—15 vera mèr reglu, til að erta ekki saklausa landsdrottna með ónauðsynlegum stefnum, allt svo leingi Skæríngur ekki bevísar lögfestu sína og yrkíngu, sem eptir henni fylgt hefir, vera skena með ráði og vilja þeirra góðra manna, sem á mót honum eiga hlut í jörðinni Yztaskála. En þíngstaðinn hefi eg þó til nefnt eptir NL. 1—2—15, og þó er gleymt sömu bókar 16. kap. Eg vænti svo af dómaranum rèttinda um gjörvalt þetta málefni, og er hans þènustu reiðubúinn vin og þènari.

Víðidalstúngu d. 8. Febr. 1721

*Páll Vídalín.*

(L. S.)

# Lögfestu - formular.

(Lögmanni Vídalín eignað).

Eg N. N. lögfesti hèr í dag eign mína, þá er Þrætuból heitir í Rèttargángsdölum, til þeirra ummerkja, að fyrir vestan ræður Sólarfell frá Uppgaungustapa suður í Landsynníngsgil; þaðan ræður lækur, sem fellur um Hádegisvöll vestur til Foldusteins, þaðan á Ágirndarhamar, þaðan ofan í Saltárkvísl; þaðan ræður Saltárkvísl í beint norður í Slægmennisþúfu; þaðan rèttsýnis til austurs í Hávaðastapa; þaðan í Hveragróf hina djúpustu, sem beint liggur til norðurs frá Uppstapa, sem stendur á Sólarfelli. Lögfesti eg búslóð, og allt það, er innan þessara takmarka má af jarðar-gæðum gagn og nytsemi hafa, þar til dómur fellur í millum okkar að lögmáli rèttu. Gef eg fyrir orsök, Hrafn Úlfsson, að þú eignir þèr það, er eg þykjumst eiga innan áður talinna takmarka. Fyrirbýð eg þèr hèðan af að yrkja, eður gagn af að hafa, nema mitt sè lof eður leyfi til, að vitni þínu, N. N., og þínu N. N., og allra þeirra, er orð mín mega heyra. En eptir lögfestu mína legg eg fimtarstefnu við þig, Hrafn Úlfsson, á fimm nátta fresti, það er næstkomandi laugardag (þèr munuð lesa stefnuna á mánudegi, svo gikkirnir *disputeri* ekki um helgidaga í stefnufrestinum). Á þessari jörð, sem nú hefi eg lögfest, skulum við þetta fimtarstefnu þíng eiga, hvort eg vil úti eða inni á fyrr nefndum bólstað, og skal allur dagur til stefnu, þar til eg hefi málum mínum lokið við þig. Beiði eg þig lagabeiðslu og lýrittar, að þú leggir fimtarstefnu í mót lögfestu minni. Býð eg þèr, Hrafn Úlfsson, að gjöra heimildarmanni þínum stefnu til varnar, móti sakargipt minni, eptir lögum. Stefni eg að vitni þínu, N. N., og N. N., og allra þeirra, er orð mín heyra.

Yður, Hávarður Hægri, sýslumaður í N. N. sýslu, gef eg til vitundar, að eg hefi stefnt Rafni Úlfssyni fimtarstefnu til Þrætubóls í Rèttargángsdölum á næstkomanda laugardag. (Hèr má og standa: „Eg hefi ásett að stefna,“ og færi það betur, svo hann gæti með sjálfum yður látið fara boðseðilinn). Beiðist eg af yður, að þèr látið boð gánga um sveitina, og skyldið bændur til að gjöra lagadóm um fimtarstefnu mína. Svo beiðist eg þángað yðar nálægðar, því eg áset að leiða þar vitni, það er þèr munuð eið af taka, og í hverju öðru, sem mèr kann á fyrr nefndum stefnu-degi þörf að vera yðar em-

þættis og nálægðar. Beiðist eg þèr sjáið svo fyrir, að ekki missi rèttar míns sökum yðar fráveru.

Enginn efi er á, að þessi meðferð er lögleg. Ekkert kemur sýslumanni við að samþykkja dóm bænda á þessu þíngi, þó má hann það, ef vill. Ef þeim semur, þá stendur dómurinn; ef þá greinir á, eiga þeir að leggja til lögmanns, en ei til sýslumanns, sem þíngið setur. Nú gjörir sýslumaðurinn hvað honum lízt þar um. Ef hann setur þíngið, er vel nóg. Ef hann setur það ekki, þá mundi eg, ef eg ætti yðar mál, mæla þessum orðum, eður öðrum viðlíkum.

Því lýsi eg, N. N., fyrir bændum þeim og góðum mönnum öllum, sem hèr nú samankomnir eru, að eg hefi stefnt Rafni Úlfssyni fimtarstefnu á þenna stað og dag, og sýslumaður vill ekki setja hèr þíng, eða lýsa griðum; þá munu góðir menn samt hugleiða, hvað mælir Mannh. 19., að sjálfsett eru grið á þíngum öllum og fimtarstefnum, og mun eg ekki margyrða þar um fremur. Ekki gef eg gaum að, þó sýslumaður láti sèr ekki þessa aðferð líka, því ef það er honum alvara, þá er annaðhvort, að ekki kann hann lög, eður honum er rángsleitni í sinni, og þykir mèr það honum ekki ólíkt; en það þykir mèr líkast, að hann eður aðrir, vilji fæla yður frá rèttum framferðum á málinu, og koma yður til að hafa þá aðferð, sem eptir á skuli reynast ólögmæt, og yður svo leiðast málinu fram að halda. Ef stefndur ekki nefnir mennina til, þá beiðist eg þess af honum, og krefjið hann þess nú. Ef hann gjörir ei að heldur, þá nefnið sjálfir þèr alla tólf. Ekki get eg samþykt, að þeir sèu af hans hálfu. Það kynni að vera um landabrigði til ætlað, þar sem þrætan er, hvort að jörðin hálf eður heil sè ólöglega undan yður seld, gefin eður geingin; og ætla eg að vísu, að á þeim heimstefnum ættu tólf að vera dómendur. Það er satt um forföll; ef hann hefir ekki brigðað í rèttan tíma, er ákveðið, að sex menn skuli dæma um eign á jörðunni, og þar á sýslumaður menn til dóms að nefna eptir rèttarbótinni; en hèr er á fimtarstefnu málspartar. Og ræð eg yður, að þola heldur ólög og tröðkun á máli yðar, en gefa gaum að heimsku babbi vanvitrínga; það stendur ekki í þeirra valdi að skapa konúngunum meiníngar, þar sem lögmannsins orð eru skýr og ljós, svo sem Llb. 27. En hegrinn hatar því vatnið, að hann kann ekki að synda, svo fer þeim.

## Fjörumaður.

Rekab. 2. 3. 4. 5., og Rekamaður í Rekab. 2. og 5. er aldeilis allt hið sama, sem auðskilið er þar.

## Fjötraður.

Mannh. 16. *Færa sýslumanni bundinn eður fjötraðan.*

Það mun flestum sýnast, að sama sè bundinn og fjötraður, því svo er nú málið alment, að það kalla menn fjatrað og fjötrað, sem ríkbundið er og saumað með flækju hnútum, eður flóknum banda vafníngi, þeim er torvelt er að leysa; og deili eg ekki við neinn þar um, að þetta sè mjög svo náskylt, og allopt gildi hvorttveggja sama. Sè eg aðrir mættu svara, að þá hefði lögmálið ekki sett orðin bæði, ef hvortveggju eru með öllu sama. Eg andsvara til þess af Mannh. 2. kap., þar telur fyrst meiðsli, síðan sezt orðið „meiðir," sem öll hin þar undangeingin felur í sèr einu; og víðar mun það í bókinni finnast, að sett eru fleiri orð hvort hjá öðru, þau er merkja hið sama, svo sem „útlægur og óheilagur," „dræpur og deyðandi." En ei að síður ætla eg „fjötur" merki sèrdeilis járnhöpt á faungnum manni, og líka svo eiginlega þau, er af hlekkjum voru. Svo segja Noregs konúnga sögur um Gísla Illhugason: „Gísl var settur í fjötur þau, er gjöra hafði látið Haraldur konúngur Sigurðarson, og einginn enn hafði úr komizt." Ei mundu bönd og reipi geymd svo lángar stundir. Og svo kvað Gísl um fjötur þenna: „Járn tekr oss at orna at beinum." Og því ætla eg fjötrana af hlekkjum verið hafa, að Teitur biskups son hjó í sundur fjöturinn. Veit eg, að karlmennska hans mátti svo hafa gjört einlægu járni, þótt eg hyggi líkara, að fjötrinn mundi þá hafa brotinn verið. Hitt lít eg á því næst, að mèr sýnist fjötur hafa af því nafn, að í honum eru fitjaðir saman hlekkirnir, svo sem prjóna-fit eður vefjarfit kvenna, og þaðan er það, að fjatrað heitir það, sem í þá líkíngu er margbrugðið bugum, og læst með vafníngi hvað í annað. En segja það Noregs konúnga sögur úr Flateyar bók af Magnúsi konúngi góða kap. 4: „Sveinn konúngur lèt síðan taka Karl og setja í fjötra, og fèkk til 4 menn að gæta hans í einu húsi. Og er nú slitið mótinu, og gefur einginn gaum að Grími, en Karl situr nú í járnum." Síðar í sama kap.: „Hendur hans voru bundnar á bak aptur, en fjötur á fótum.

Hann ekur sèr þá þar að, sem lá eggsi eins þeirra varðmannanna, og færir þar ofan á bakið, og gnýr höndunum við eggsinni, uns hann gat skorið strenginn, og voru þá lausar hendur hans, en fætur í fjötri, en fjötrinn var rúmur. Hann leitar nú út, og ofan á sjáfar bryggju, og í jarð-hús eitt, þar er flæður gekk undir, og gat þar komið af sèr fjötrinum á öðrum fæti, og þó með þeim hætti, að hann hjó af sèr hælbeinið; síðan vindur hann fjötrinn við annan fótinn.“ Hèr sjáum við, að fjötrinn hefir af járni verið, því ella hefði Karl skorið hann með egsinni, eins og strenginn af höndum sèr. Hitt sýnist og, að hann hafi af hlekkjum verið, því hversu mátti hann ella vinda hann við þann fótinn, sem eptir var í hespunni fastur. Mèr horfir á sömu leið dikturinn um Örvarodd, þegar hann fèkk ósigur fyrir Sæmundi víkíngi á Gautlandi; þá skar Oddur strenginn af höndum sèr, en ei fjötrinn; þau færði hann af fótum sèr.

## Fjörbaugs-maður.

Hvað fjörbaugsmaður sè, eður hvernig hans sekt sè varið, skýrir Grágás í Þíngskþ. kap. 33: „Hann skal eiga þrjú heimili; þeirra skal eigi lengra miðlum vera, en fara megi á dag um annan veg. Hann skal heilagur vera at þeim heimilum, og í örskotshelgi við á alla vega, ok á götum á miðlum heimilanna, ef hann fer eigi optar en um sinn á mánuði, ok í örskotshelgi við götuna.“ Kap. 34: „Sá maðr, er fjörbaugsmanni fylgir til skips, skal beiða (honum) fars við votta.“ *Ibid:* „En annat sumar skal hann ok svo hit sama við för leita;“ *et paullo post:* „En it þriðja sumarit ver fjörbaugsgarð öllum þeim, er þá synja (við honum að taka), enda helpr honum þat ei at vetri, ef hann er hèr staddr.“ *Ibid:* „En ef hann kemr út híngat, þá er hann hefir þrjá vetr á brott verit, þá er hann svo sýkn, sem aldrei komi sú sekt á hendr honum.“ Hèr um talar Grágás miklu fjölorðara, sem eg hirði ei hèr að innfæra, en þetta er meiníngin:

1) Skóggángur var hèr straff á öllum óbóta-málum, var skógarmaður óferjandi, dræpur og óhelgur, hvar sem hann hittist utan lands og innan fyrir hverjum manni, rètt eins og segir í Jónsbók vorri: „Hafi fyrirgjört fè og friði, landi og lausum eyri.“ Eru þessir menn þar kallaðir óbóta-menn og útlagar; en áður, ámeðan þau fornu lög stóðu, hètu þeir skógarmenn eður skóggángs menn óferjandi; var upptækt fè þeirra

allt að fèráns-dómi (það er af gekk skuldum), og átti það fè hálft sækjandinn, en hálft fjórðúngsmenn, *puta:* fátækir í þeim landsfjórðúngi, er hinn seki var úr.

2) Aðrir voru þeir skógarmenn, er að vísu voru ferjandi út af landinu að ósekju, en voru þó óælir, það er: þá mátti einginn til heimilis halda nè hýsa innan lands, eður þess takmarks, sem þeir voru sekir. Grágás, Þíngskþ. kap. 36. „þeir skógarmenn, er farníng er mælt", etc. Gekk þessi skóggángs sök eptir því sem ákveðið var í dóms orði, eður sjálfdæmi, eður gjörðarmanna atkvæði. *Sub hoc genere* voru hèraðssektir, fjórðúngs-sektir, etc., og höfðu slíkir skógarmenn stundum meiri fríheit, en fjörbaugsmenn *ex voluntate judicis aut arbitri et qualitate causæ,* sem áður er sagt.

3) Fjörbaugsmaður var sekur dæmdur með því móti, að hann skyldi innan 3 ára vera burt af landinu, en í þau 3 ár skyldi hann hafa 3 heimili, sem hann væri friðhelgur á; átti hann eður hans umboðsmaður að kjósa, hver þau vera skyldu, þegar fèránsdómur (upptekt á fè hans, sem vera átti 14 nóttum eptir vopnatak) væri gjörður; átti til þess fèránsdóms að stefna öllum skuldamönnum hins seka, og gjalda hverjum sína skuld, einnin skaðabætur og rètt sækjandanum, en að því gjörðu eignaðist goðinn, sem háði fèránsdóminn, af fènu (ef svo vannst til) mörk lögaura, það sem heitir fjörbaugur, en einn eyrir þess fjár heitir aladsfestur, *(aliis:* aðalfestur), segir áður cíteraður þáttur, kap. 32.

Ef þessi mörk, ɔ: fjörbaugur, galzt goðanum, að afteknum áður skuldum öllum og bótum til sækjandans, þá naut hinn seki fjörbaugsmanns fríheita, að vera friðhelgur á þremur heimilum og beinleiðis á veginum millum þeirra, og frá einhverju þeirra til skips, og í örskotshelgi við þau heimili og veginn og skipið í næstu 3 ár eptir dóminn; svo var hann og friðhelgur utan lands, þó ekki í eyum hèr við landið; síðan skyldi hann vera utan 3 vetur og þar eptir vera frí af allri sekt utan lands og innan. En ef ei voru kosin honum heimilin að fèránsdómi, ef ei vannst fè hans til skulda eður bóta, eður svo, að gyldist fjörbaugur til goðans, ef hann fór ei utan í 3 sumur, hvað sem af þessu brast, varð hann alsekur skógarmaður. Um *formalitet* sakarinnar talar Njála, þar eð Mörður Valgarðsson stefndi Flosa Þórðarsyni til fimtardóms, fyrir það hann hafði gefið fè til málafylgis. Kvað hann svo að

orði: „Tel eg hann eiga að verða um sök þá sekan fjörbaugsmann, því að eins ferjanda, nè festum helganda, nema fjörbaugur eða aðalfestur komi fram að fèránsdómi, en alsekan skógarmann ellegar; tel eg sekt fè hans allt, hálft mèr, en hálft fjórðúngsmönnum," etc. Svo segir Vígaglúms s. kap. 19: „Vigfús skyldi þrjú sumur leita við utanför, hafa þrjú heimili á hverjum missirum, og var hann þá fjörbaugsmaður, vildi hann ei utan fara, af því máli varð hann þá alsekur (ɔ: skógarmaður). Var þetta, skóggángur og fjörbaugs sekt, að fornu *generaliter* kallað mannsekt, hvort um sig, þar sem hinn sakaði mátti ekki með fèsekt afplána sinn misgjörníng. *Atque hæc hactenus.*

Er nú eptir að gjöra grein á, hvar af dregið sè orðið fjörbaugur, og verður það því ljósara, ef að er gætt, að snemma á öldum gekk gull í stórar fèsektir; voru það allopt gullhríngar stórir, sem þá var títt að bera um úlfliðinn, hvar af það komst í venju . . . . .

## Fjörbaugur (fragment).

Grág. Llb. 75. *Bera skal þat vætti, er at var nefnt, þá er fjörbaugur galzt og alaðsfestur, og fè at fèránsdómi.*

*Lege totum caput antecedens, et nota vocem* baugur, fjárútlát *ut* Járnsíða: „kóngi baug." *Vide etiam* ránbaug og grasránbaug og þjófsbaug; *quibus observatis, cogita, sitne* fjörbaugur þau fjárútlát, að maður kaupi þar með fjöri sínu grið, ɔ: sjálfum sèr lífsgrið og lima, *ut frequens in* Sturlúngu. Þíngskþ. kap. 32. „Þar skal gjaldast mörk lögaura at fèránsdómi goða þeim, er fèránsdóm nefndi, þat fè heitir fjörbaugur." En einn eyrir þess fjár heitir alaðsfestur; *ibid. cap. 47. Deinde cogita, sitne* fjörbaugsmaður sá, sem með fjárútlátum má kaupa sèr lífsgrið og lima, og verður svo að frjálsu ferjandi af landi, *nempe* að goldnum fjörbaugi, goldinni alaðsfesti og goldinni sekt að fèránsdómi, en með öllu óhelgur, ef ei gelzt þetta allt. *Et denique* bregðist honum utanför, þá sè hann óhelgur og óæll, nema í ákveðnum takmörkum. Sturl. *lib. 1 cap. 11.* „Sekt Ólafs Hildissonar slík, að hann skal leita að utanför þrjú sumur, og varða ei bjargir hans (*credo*, því að fjörbaugur og alaðsfestur hafa goldizt) skyldi hann vera sýkn í förum með Þorgilsi, en sekur fullri sekt annarstaðar."

Kap. 13. Í veizlunni á Reykhólum mælti Þorgils: „Ef svo var Ólafi sýkna mælt, að hann skal sýkn meður mèr, en sekur, ef hann er annarstaðar, þá mun eg engan minn mann senda til bana." Um heimilis-vistir hans og farbeiðslu, helgi og óhelgi, les Þíngskþ. kap. 33. og 34., *item cap. 47.*

## Fjörbaugs-garður.

Landn. Pars 5. cap. 4., *um Örn í Vælugerði.*

Vígagl. s. kap. 19. *Vigfús skyldi þrjú sumur leita að utanför og hafa 3 heimili á hverjum missirum, og var hann þá fjörbaugsmaður.*

*ibid.* kap. 24. *Glúmur gekk til þíngs með hundrað manna, og náði ei nær að tjalda, en í fjörbaugsgarði.*

Schediasma *sál. sèra Eyólfs Jónssonar* de vocibus, *fjörbaugsgarður, fjörbaugur, fjörbaugsmaður.*

Sectio prior.

Að verða sekur fjörbaugsgarð *(in accusativo)*, sem forn lög segja, var ei sök til dauða, eins og skóggángs sök, heldur svo á sig komin. 1) þeir, sem svo urðu sekir, hlutu að vera frá öllum helgihöldum heiðinna, og eiga alls óheimilt til þeirra að koma og þar við að vera um vissan tíma, sem þessar fornsagna greinir sýna skýrlega; hin fyrsta í *Schedis* Ara prests Fróða, er svo hljóðar: „Menn skyldu blóta *(deos ethnicorum more cultu venerari, verbo hoc loco sumto in genere)* á laun, ef vildi, en varða (leggja við) fjörbaugsgarðr *(in nominativo)*, ef vottum of *(vocula illa more veterum per pleonasmum addita)* mætti at koma" (ɔ: á laun hefði verið blótað). Og af því háttalag og orð sektar þessarar hèldust við lengi, frá því kristni var lögtekin hèr á landi, finnst sú önnur grein í sögu Íslendínga, sem kallast hin mikla, kap. 43., svo látandi: „Ok sókti (Einar Þorgilsson, anno Chr. 1159, 159 frá upphafi kristninnar) þau mál, at (Hvamm-) Sturla hefði ráðit Þorvarði, at hann skyldi segja, at Þorsteinn væri bæði faðir Sigríðar, ok gjört þar mannvillu verk, kristni-spjöll ok lèt varða fjörbaugsgarð" *(in accusativo, ut ante)*, þ. e. liggja við, að Sturla skyldi útiluktur frá helgihöldum, jafnvel á sínu heimili í Hvammi, og þau vera honum þar aldeilis óheimil, *voce præcipue sacra spectante.* 2) En fyrir þá orsök, að því framar sem kristnin fór áfram lengra, leiddist þeim kristnu, að hafa þau orð við í andlegum efnum, er þeir heiðnu höfðu haft, lètu

þeir því þetta orð lenda í veraldlegum, sem önnur fleiri *(ex. gr. voces* goði *et* goðorð, *olim sacris cultibus et officiis dicatas, progressu temporis ad civilia transtulere, usque solummodo in civilibus uti coepere, teste toties prædicta patriæ historia)*, og hafa ei síður inni að halda veraldlegt sakfelli, heldur en hitt, sem var andlegt. Merkti það því útilokun frá heimilis vistinni eins og helgihöldunum, hvað hèr eptir sannast með meiri skilríkjum.

*Sectio posterior.*

*His antepositis voces ipsæ*, fjörbaugsgarður, fjörbaugr, fjörbaugsmaðr, *expendendæ veniunt, qua origines et significata.*

*1) Vox* fjörbaugsgarðr, *antedictum criminis genus denotans, composita est a duabus vocibus*, fjörbaugur *et* garður, *ut cuivis obvium.*

*2) Vox* fjörbaugur *componitur non a* fjara, *littus, et* baugur, *sinus, seu curvatura littoris, ut pridem quidam scripsit ineptissime, sed ab adverbio* fjar *vel* fjarri (*male:* fjærri), *procul, et substantivo* baugur, *in genere arcus sive circulus ex quavis materia, in specie, quod hujus loci est, annulus argenteus, ethnicorum idolorum suppedaneis, intra delubrorum sepes exstructis, impositus, adeoque sacer, quem curio ethnicus, et idem ipse judex provincialis, ex ethnicarum nostrarum legum præscripto forum habiturus gestabat, asserente Landnáma, p. 4. cap. 7. his verbis:* „Baugr, tvíeyríngr (vegandi tvo aura = tvo ríkisdali) eða meiri skyldi liggja í hverju höfuð-hofi á stalla; þann baug skyldi hverr goði hafa á hendi sèr til lögþínga allra, þeirra er hann skyldi sjálfr heya" etc. *Significat itaque dictio* fjörbaugr, *non idem quod* fjörbaugsgarður, *sed mulctam illam pecuniariam, crimine* fjörbaugsgarðs *damnatis indictam, qua persoluta ad libertatem sacrorum et domesticæ mansionis redire poterant, id quod testatum dedit Mördus Valgardius, cum in celebri illa generalis nostri fori actione, post Njalum crudeli igne exstinctum, constitutus inter alia sic os resolvit:* Aðalfestur *(sponsiones principales ex parte prædum sane potiorum ad exsolvendam pro dicto crimine damnatis pecuniam)* og fjörbaugur *(mulcta prius dicta ex parte damnatorum)* komi fram, *adattestante Njala. Ita autem mulctam hanc denotat hæc dictio, ut simul includat, a, statum ipsum hominis damnati miserum, non nisi absoluto ære multandum; b, exclusionis ejusdem a*

*sacris atque penatibus terminum, a quo, utpote annulum sacrum delubri et, quod sequitur, ipsum delubrum, sacraque ipsa rite facienda per metonymiam adjuncti pro subjecto. Verum hic non finis, quæret certe lector rei curiosus, nec sine causa, cur toties dictum crimen composita illa voce* fjörbaugsgarður *exprimere, vocique* fjörbaugur *vocem* garð *addere voluerint antiqui. Respondeo: Hoc ideo fecerunt, ut terminum illum (localem intellige) exclusionis a sacris et domesticis, reis designatum, et ejus qualitatem accurate monstrarent.* Garður *enim hoc loco non sepimentum, ut alias sæpius, sed terminum, dicto modo intellectum, notat, hac notatione vocis et hodie vulgata; statuebant enim iis, quibus dicta ratione sacris (publicis) interdictum fuisset, certum loci terminum, quem in eis adeundis non transcenderent, unde etiam hæc ipsa vox* fjörbaugsgarður *haud raro terminum ipsum significat, ita tamen, ut crimen subintelligatur, id quod ex historia Floanorum constat, ubi hæc habentur:* „Þorgils (Orrabeins fóstri, uppvaxtarpiltur) var eitt sinn með sveinum nokkurum í fjörbaugsgarði“, *i. e. in loco delubrum Thori ambienti, certis terminis non arctis circumscripto sibi seu insonti, ut et pueris ei colludentibus omni parte libero, damnatis autem prosus inaccesso, verbo intra, non extra, adstructum terminum. Fuit vero is duplex, alter sacer, alter civilis vel forensis, uterque profecto minus angustus, verum an æquali fuerit spatio, non abunde liquet. De sacro dictum est, de forensi testatur historia Vigaglumi, quando hæc effert, cap. 15.:* „Glúmr (sækjandi Hegranessþíng í Skagafirði) tjaldaði ekki nær (er hann kom til þingsins) en í fjörbaugsgarði.“ *Quibus evincitur, terminum hunc forensem ab ipso fori hujus loco aliquanto longius fuisse remotum, quod neutique mirandum; non enim minorem immunitatem, et, ut ex eorum sententia dicam, sanctitatem foris, quam fanis, assignabant ethnici, hoc probanti phrasi eis usitata,* „at helga þing“ *(in genere),* „leið“ *(in specie); non minus Landnama, parte 2. cap. 12., ubi hæc leguntur:* „Þar á nesinu sem hverr kvam á land, hafði Þórólfr (Mostrarskegg) dóma alla, ok þar setti hann hèraðsþíng, en er menn voru þar á þíngi, þá skyldi ei hafa álfreka á landi, ok var ætlat til þess sker eitt, þat er þeir kölluðu Dritsker, því þeir vildu ei saurga sva helgan völl, sem þar var“. *Si ergo tanta fuit campi sanctitas foro dicati,*

*quanta fori ipsius? Et ea de causa forensi illi immunitati non minus, quam si quæ fanis erat propria, laxiorem terminum constituebant.*

*3) Explanatis igitur duabus vocibus* fjörbaugsgarður *et* fjörbaugur, *venitur ad tertiam ejusdem prosapiæ, antiquis nostris primum ethnicis, postea christianis, usitatissimam ac admodum insignem, quæ est* fjörbaugsmaður, *et significat: 1) in sacris, hominem sacrorum aditu ac usu publica juris atque judicis sententia privatum, adeoque profanum (procul a fano), eo quidem sensu, quo Maro cecinit, Æneid. 6.*

*Adventante dea, procul, o procul, este profani!*

*Hujus poenæ causa duplex invenitur: a, inviolabilis nulloque delicto contaminanda fanorum sanctitas, cui addit calculum antea allegata Glumi historia de Vigfuso juvene Glumi filio, sic verba faciens, cap. 12.:* „Þá var hann fjörbaugsmaðr, er hann mátti ekki heima vera fyrir helgi hof-staðarins“ (á Múkaþverá, hvar faðir hans bjó, og var hof Freys eitt af höfuðhofum, í hverju án efa legið hefir baugur slíkur, sem áður er af sagt). *b, Deorum gentilium vel etiam totius eorum cultus criminatio conviciis expressa, qua causa Hjalto Skeggii filio, viro egregio, hanc poenam attulit, attestante historia christianismi nostri vernacula, cap. 9., hoc effato:* Í„ þeim dómi (á alþíngi um þann kveðlíng Hjalta: „Grey þykkir mèr Freya“) varð Hjalti sekur fjörbaugsmaður um goðgá“, goða-last. Gá, *1) latratus, ut* hundgá; *2) convicium per metaphoram, a verbo antiquo* gey ek, *a, latro: b, conviciis incesso, metaphorice). 2) In civilibus, præsertim domesticis, hominem mansione vel tota re domestica legum vi exclusum. Islend. s., l. c.:* „Ok gengu hvortveggju málin fram, ok varð hvortveggi fjörbaugsmaðr, Sturla og Einar.“ *Et quidem utroque sensu, sacro et civili, uterque exclusus a rebus sacris et domesticis, quod clare confirmat initium capitis sequentis hoc modo:* „Nú sátu hvortveggi (Sturla ok Einar) í sektinni þau missiri;“ *nota hic terminum temporis, lector!* ɔ: helgihaldanna og heimilisverunnar, og mátti þó hvorr þeirra kallast helgi-sekur og heimilis-sekur, ei síður en þeir voru hèraðs-sekir kallaðir, er hèraðsvist töpuðu, *voce* sekur, *eo loco, ut alibi passim, non solum crimen, sed et ejus consequens indigitante. Simile exemplum habet historia Romana Livii, lib. 10., ab urbe condita de Virginia Auli filia, femina Romana, quam ex plebe*

*oriundam patriciæ feminæ sacris arcuere, non autem domo; idcirco fixam, ob hunc ipsum casum antiquæ linguæ nostræ vocabulo describere liberet, omnino* fjörbaugskona *vocari deberet. 3) In forensibus, judicia vel rem pecuniariam primam spectantibus, vi vocis* fjörbaugur *supra ventilata, hominem mulctæ, voce comprehensa priusque descripta, legati sententia obnoxium. His ergo, licet opere tumultuario, depromptis, extra omnem dubii manet aleam, vocem*

fjörbaugsgarður *notare crimen,*
fjörbaugur — *mulctam,*
fjörbaugsmaður — *poenam.*

## Flatt smíði.

Kaupab. 6. *Flatt smíði nýtt. Vöru-smíði nýtt,* etc.

Björn á Skarðsá, og þeir allir, sem um flatt smíði og vörusmíði hafa við mig talað, vilja þýða það um járnsmíði alleina; veit eg ei, hvað þá muni einkanlega til þess leiða, því mèr sýnist það eins vel ná mega til allskonar smíðis, þess sem slètt er, og með engri sèrdeilis hagleiks art að öðru breytt frá efni sínu, en þeirri alleina, að skapa form þess til þarflegrar brúkunar. Svo skil eg undir þessu nafni kistur og skápa, sem heflað er að eins, en ei úthöggvið, svo matborð, stokka, ker og búsgagn, slètt látún og kopar, skygnd drykkjarhorn ógrafin, axir og vopn öll, sem ei eru búin að neinu, pál og torfskera og hvað annað þesskonar, jafnvel gull og silfur, sem fyrir þúnga sakir hefir verið mest allt, en lítt eður ekki af smíðinu.

## Flotrennar ár.

Frostaþ. b. Llb. kap. 9. og
Heiðsævisl. Llb.

Eru þær, sem svo eru vatnsmiklar, að þær bera viðarflota manna út til sjáfar, þar sem bændur hafa viðinn felt á vetrum og flutt á ísana, bundið þar í flota og látið svo liggja til þess á vorin, árnar leysir, þá bera þær flotann út til sjáfar. En þeir, sem tilsettir eru, taka þar vara á viðunum og annast til kauptíðar, en mörkin sýna eigendur. Peder Claussen, Norges Beskrivelse.

## Flumúsa.

Af flaum eður flum, sem er vatna-straumur *proprie;* en það er *translatum* bæði til orustu og annara hluta, sem fara fljótt, án dvalar, svo ei er hægt að hepta *vide.* Flóð *pro comitatu.*

## Fóli.

Þjófab. 2.

Það merkir þjófstolið fè; en það hefir sitt nafn af því, að þjófar vilja gjarnan hafa fólgið, það þeir stela; það er falið og geymt, svo eigi finnast megi.

## Fordæðuskapur.

Mannh. 2.

Hvað það sè, skýrir kristinnrèttur Þorláks og Ketils kap. 10. í *membrana* frá Leirárgörðum og Arnarbæli; en í *apographo membranæ* frá Staðarfelli er sá 6. kap. Þar segir: „Það er fordæðuskapur, ef maður gjörir jörðum sínum, eður fjölkyngi, sótt eður bana fè eður mönnum; þat skal sækja við tólftarkvið.“ En strax fyrir framan stendur: „Ef maður fer með fordæðuskap, það varðar skóggáng.“ En þá, er frömdu svoddan verk, kölluðu menn fordæðu. Og sem Grettis saga vottar kap. 89., þegar Aungull heimti af Þóri í Garði fè það, er lagt hafði verið til höfuðs Gretti, svaraði Þórir: „Ekki vilda eg mèr það til fjár vinna, að gjöra mig að ólífismanni eður fordæðu, sem þú hefir þig gjört.“ Og svo vottar í Sæmundar Eddu í Loka Sennu:

| | |
|---|---|
| Þegi þú, Freya, | Sitzu at bræður þínum |
| þú ert fordæða | siþo blíð regin, |
| ok meini blandin mjök! | ok mundir þú þá, Freya, frata. |

Eru þetta ljós orð, þegar menn skilja *voculam* siðo *pro* seiddu, eins og Snorri Sturluson segir um hundinn Saur, er Eisteinn Illi Upplendínga kóngur setti Þrændum konúng: „Þeir lètu síþa í hundinn þrjú manna vit.“ Kristinnrèttur forni í Heiðsævislögum, kap. 44., segir: „Biskups ármaður, hann má ei kenna manni fordæðuskap, hverki karli nè konu, nema það sè hèraðsfleygt“. Og aptur 45. kap.: „Engi maður á at trúa á Finna eður fordæðu“. Björn á Skarðsá segir líklega, að fordæðuskapur sè dregið af því, að þeir, er slíkar ódáðir fremja, höfðu sinni dáð fyrirgjört, og að dáð merki þar æru. Þessar-

ar ættar er fjölkyngi sú, er seiður heitir, og Snorri eignar Óðni, hvar af hann mátti vita örlög manna og óorðna hluti, svo og að gjöra mönnum bana eður óhamíngju eður vanheilindi, svo og að taka frá mönnum vit eða afl, og gefa öðrum. Þessari fjölkyngi, ef frömd er, fylgir svo mikil ergi, að eigi þókti karlmönnum skammlaust með að fara, og var gyðjunum kend sú íþrótt.

## Forneskjuskapur.

Mannh. 2. *Menn þeir eð láta líf sitt fyrir útilego*, etc., *ok svo fyrir morð ok fordæðu ok fornekjoskap ok spáfarir allar ok útisetur*, etc. segir sú þrykta lögbók.

Þessi glósa, forneskjuskapur, er í engum þeim *membranis*, sem eg hefi nú 12 í höndum; eru 5 af þeim *nobilissimæ antiquitatis*, aðrar 4 allar fyrir *reformationem*, 3 ýngri. Þrettánda *exemplar* er *apographum nobilissimæ membranæ*. Svo eru og mín Frostaþíngsbók og Hákonarbók *optimarum membranarum apographa accuratissime* samanlesin, og Heiðsævislög sæmilega góður *codex*, *item* annað *exemplar* af Heiðsævislögum eptir ágætri *membrana*; hafa engir þessara 17 hèr í grein Mannh. þessa *voculam*, og er hún með órèttu innkomin. [1] Er það víst, að allar þær *species* heiðninnar, sem hèr teljast í Mannhelgi í þeim góðu bókum, fordæðuskapur, spáfarir allar og útisetur, að vekja tröll upp og fremja heiðni með því, gilda lífsstraff, eru allar óbótamál og stórpóstar forneskjunnar. [2] En forneskjuskapur, sem þær prentuðu bækur hafa hèr innaukið, felur [3] í sinni merkíngu margar fleiri og smærri tegundir heiðninnar eður forneskjunnar. Nokkrar af þeim eru taldar í kristinnrètti Þorláks og Ketils biskupa, sem þar ekki gilda skóggáng eður óbótamál, heldur fjörbaugsgarð, það er annaðhvert utanferð af landinu, eður takmarkaða [4] vist innan lands, þá sem fjörbaugsmenn máttu ei yfir gánga, nema þeir vildi falla óhelgir, *vide alibi*. [5] Nú tel eg þær *species* forneskjunnar, sem eigi gilda lífsstraff nú í lögunum, og ei áttu að gilda að fornu, nè síðan Jónsbók inn kom, það eru signíngar og særíngar, yfir-saungvar, svo sem eru Blóðstemmu-vers og Tóustefna Klemens anno 1691, mælíngar, að gjöra þjóf uppvísan með slíkum háttum, rúna-ristíngar og hraun-vers, fisk-rúnir og

1) § 2. í B. 2) § 3. í B. 3) fellur, B. 4) takmörkuð, B. 5) § 4. í B.

kotru-vers, daga útvalníngar og hjátrú af fuglakvaki[1], hrafnafylgd og krúnki, og þesskonar hèrvilla, sem nýa lögmálið kallar dáraskap, *vide* Norske Lov, *lib. 6. cap. 1. art. 13.* [og Danske Lov *lib. 6. cap. 1. art. 13.* og *Christiani quarti* Reces umtalar *lib. 2. cap. 28. § 1*[2]. [3] Allar þessar tegundir þeirra konstra eru forneskjuskapur og forneskja og fyrnska kallaðar í gamla daga, og margt þesskonar fleira, svo sem vottar Ólafs saga Helga í þættinum af Þormóði Kolbrúnar-skáldi, þegar Þórdís af Laungunesi leitaði Þormóðar hjá Grímu í Eiríksfjarðarbotni á Grænlandi. Þar segir: „Gríma átti stól einn mikinn, og var Þór skorinn á stólbrúðunum, var það mikið líkneski", *etc*[4]. *Mox* segir orð[5] Grímu: „Stól minn mun ek setja á mitt stofugólf, og þar skal Þormóður sitja á stólnum í dag, ef menn koma. En þess bið eg þig, Þormóður, at þú rísir eigi upp úr stólnum, meðan búu-menn eru á bænum". Síðan: „Gríma settist í útidyr og spann garn, ok kvað fræði nokkur fyri munni sèr". „Ok eptir þetta geta þau nú at líta, hvar stóll Grímu stóð á gólfinu; þau sjá, at Þór með hamar sinn var skorinn á stólbrúðum, en ekki sjá þau Þormóð". *Mox:* „Þá mælti Þórdís: Eptir er enn nokkot fyrnsko þinnar, Gríma, er Þór er skorinn á stóli þínum". Flateyarbók hefir í þessum stað „forneskjuskapar þíns, Gríma", og svo segir Ólafs saga Tryggvasonar *lib. 1. cap, 183*[6]. [„Ei samþykkta eg[7] að leita fulltíngs af Finni þeim, er fyrnsku mun vita". Sæmundar Edda í Helga kviðu Hundíngsbana 3. segir: „þat var trú í forneskju, at menn væri endurbornir, en nú er þat kölluð kerlínga villa"; og enn segir í Fafnismálum: þat var trú í forneskju, at orð feigs manns mættu mikit, ef hann bölvaði úvin sínum með namni. [8] Í öllum þessum greinum merkir forneskja gamlan sið heiðinna manna, og það sama er forneskjuskapur og fyrnska allt heiðíngja trúarhald, með[9] hverju móti sem er, smærra eður stærra. Þesskonar voru atferli Bjargeyar í sögunni af Hávarði Ísfirðíngi, þegar hún rèri í kríngum skip Þorbjarnar Þjóðrekssonar og sáði úr posa sínum, og vísur Hávarðar um flug máfsins fyrir glugginn og hrafnanna yfir eyrar[10] tángann, *item* spá bóndans í Noregs konúnga sögum, þess er rèri með Ólafi kóngi Kyrra, og vissi merar-drápið af til-

---

1) flugi, B. 2) frá [ vantar í B. 3) § 5. i B. 4) vantar í B. 5) að, B. 6) 182, B. 7) eg samþykti, B. 8) § 6. B. 9) í, A. 10) eyar, B.

sögn kráknanna, *item* posinn Þóris Hunds, er hann sáði úr kríng um lið sitt á Bjarmalandi, svo sem vottar Ólafs Helga saga. En [1] atferli Þórhildar Vaðla ekkju í Ljósvetnínga sögu, þegar hún, fyrir bæn Guðmundar Ríka, vildi vita, hvert hann eður synir hans skyldu vegnir verða í hefnd eptir Þorkel Hák, var hún girð í brækur, hafði hjálm á höfði, en eggsi í hendi, og gjörðist heldur þrýstileg, óð út á vaðlana og hjó eggsinni í sjóinn fram, og þókti Guðmundi það enga skipan taka; því spáði hún, að ei mundi mannhefnd á Guðmundi fram koma. En þá er hún óð í seinna sinni, og hjó eggsinni sem fyrr, gjörðist brestur mikill og sjárinn blóðugur; því spáði hún að nærri mundi stýrt verða einhverjum sona Guðmundar, og lèt hún sig þetta ekki lítið kostað hafa, og kvaðst ei optar tilraun gjöra mundu — skil eg ei betur, en undir spáfara nafni teljast eigi. Mun það og sannast, að mörg dárleg galdra stykki hafi að þessu lotið, þó ekki kveði sagan fremur að Þórhildi en svo, að hún var forn í skapi. Eg vil ei *disputera* hèr um tilbúnað hreinbjálfanna, er eigi bitu járn í Stiklastaða bardaga, því það kynnu Finnar að [hafa gjört [2] með náttúrlegum meðölum. Ótal eru slíkra smáhjátrúa dæmi forn og ný. Eyrbyggja segir eptir drukknan Þorsteins Þorskabíts: „Það höfðu menn fyrir satt, að þá væri mönnum vel fagnað at Ránar, ef sjódauðir menn vitjuðu erfis sins, en þá var lítt afnumin forneskjan, þó menn væri skírðir og kristnir að kalla"; hvað sem þesskonar apaspil og hjátrúar atferli, annaðhvert heiðinna manna, eða vanvitugra manna, sem kristnir kallast, telja sögurnar, fornar eða nýar, fram yfir þær áður sögðu *species*, sem þær góðu *membranæ* nafngefa hèr í Mannh. 2. kap., að óbóta-mál skuli vera, og svo þann stóra póst óguðleikans, sem *Christiani quarti* Forordning 12. Okt. 1617, og þar eptir Recessinn, og síðan *Christiani quinti* dönsku og norsku lög ákveða *lib. 6. cap. 1. art. 9.*, og skipa lífsstraff yfir, þá eru hverki fyrr nè síðar í lögmáli þessa lands aðrar greinir forneskjunnar skipaðar óbótamál, samt eru þær rètt kallaðar forneskjuskapur og forneskja, sem nú hefi eg sýnt [af ýmsum dæmisögum [3], því á glósan forneskjuskapur ekki hèr að standa meðal óbótamála. [Það er víst, að [4] öll [þau hèr [5] í Mannh. 2. upptöldu óbóta-galdraverk eru forneskju-

1) sem, A. 2) gjöra, B. 3) frá [ vantar í B. 4) frá [ vantar í B. 5) frá [ vantar í B.

skapur, samt er þó ekki öll forneskja [eður forneskjuskapur[1] óbótamál. [Og svo menn hafi vitnin glögg, þá[2] hyggjum[3] að Grettis sögu kap. 89[4], þar kallar Þórir í Garði Þorbjörn Aungul fordæðu og ólífismann fyrir gjörnínga kerlíngar á Gretti, og í kap. 91[5] vill Ísleifur biskup og Þorvaldur mágur hans þeir gjörníngar skuli vera ólífisverk og fordæða (*vide supra* Fordæðuskapur). Þó með tillögum góðra manna hèlt Þorbjörn lífinu, [og svo segir Laxdæla[6] kap. 39., að þeir þóktu ólífismenn, er [frömdu slíka[7] fjölkyngi, sem Kotkell og Gríma [höfðu gjört[8] að Þórði Íngunarsyni, og sjálfur[9] Hallsteinn goði kvað rèttara, að þau væri drepin, og drepa lèt Ólafur Pá þau síðan[10] [eptir seiðinn[11] á Rútstöðum, [sem Laxdæla vottar kap. 41[12]; [höfðu þau í hvertveggju fordæðuskap gjört[13]. [Nú er í annan stað að merkja það, er í fyrrsögðum 91. kap. mælir Grettis saga[14]. „[15] Eptir víg þeirra Illuga og Grettis var það í lög leidt, að alla forneskju og galdramenn gjörðu þeir útlæga", ɔ: fèseka, en ekki friðlausa, [svo sem ótal dæmi sýna i kristinnrètti þeim forna og í Grágás[16], *vide infra:* útlægur. Var[17] þá enn ei ritaður kristinnrèttur, því þetta var í tíð Ísleifs biskups, var Dalla Þorvaldsdóttir kona Ísleifs þrímenníngur við Gretti. En þá er Þorlákur og Ketill biskupar settu kristinna laga þátt, hafa þeir hert lögin um galdrana og látið varða fjörbaugsgarð, það sem áður átti peníngum að bæta, svo sem sýnir þeirra kristinnrèttur kap. 16. Þar telur hann fjörbaugs sakir, ef maður signir fè sitt öðrum en guði og helgum mönnum, svo sem Hrafnkell signdi Frey hestinn Faxa, kap. 3. í sögu hans. Það annað, ef maður lætur kveða að[18] sèr eður fè sínu, þ. e. að gjöra galdur til heilla sèr, svo sem talar um í Sigurdrífu-málum og Rúnakapítula. Það þriðja, ef menn magna steina og trúa á þá til heilindis mönnum eður fè, svo sem mjög[19] er skylt við það, er hin prentaða Ólafs saga segir um Þorvald Tasalda og dúk hans. Það fjórða, ef maður á fè óborið, eður fer með hindurvitni (það er vitund eður kunnátta sú, er hindrar rèttan kristinndóm, eins og enn köllum vèr forvitni; og Hallfreður kallaði Þorkel Dyrðil snotran af snarri vitni

1) frá [ vantar í B. 2) frá [ vantar í B. 3) hyggi menn, B. 4) 71, B. 5) 72, B. 6) Laxd. segir, B. 7) fundu soddan, B. 8) gjörðu, B. 9) vantar í B. 10) vantar i B. 11) aptur síðan, B. 12) kap. 41. Laxdælu, B. 13) frá [ vantar í B. 14) Grettis saga 72 kap. mælir, B. 15) § 7. B. 16) frá [ vantar í B. 17) þar, add. B. 18) af, A. 19) vantar í B.

sunds í vísunum um Svoldar orustu). Það fimta telur kristinnrèttur með fjörbaugs sökum, ef maður gjörir sèr berserksgáng, [sem efalaust hefir galdra konst verið[1], svo sem dæmi sýnir á Haukum tveimur, er eldinn óðu, í kristinnd. s. kap. 2., [og Tjörfa berserk í sömu sögu[2] 8. kap. [Alla þessa hluti[3] lètu þeir Þorlákur og Ketill biskupar gilda landsvistar-missir, og ráku þá utan, er að því urðu sannir. En smærri greinir forneskju, [þær sem ei eru taldar í þeim kapítula[4] hafa [þá samt[5] staðið, [sem fyrr segir[6], undir fjár-útlátum, svo sem biskupar eður kennimenn vildu þá skriptað hafa, inn til þess að landið var konúngi játað.

## Forverksmenn.

Þíngfb. 1. *Nefni þá, er forverksmenn eigu.*

Það heita nú vinnumenn og líka hètu þeir öðru nafni svo, í þá daga, sem lögbókin gjörðist, svo sem votta 2 kapítular í sumum forgömlum *membranis*, sem margir nýrri hafa útilátið af Kaupabálki, næst fyrir framan Kaupab. síðasta. Í þeim báðum heita vinnumenn þeir sömu, sem nú eru kallaðir. En að forverksmenn, sem hèr nefnir, sèu það sama, verður ljóst af Grágás í Ómagab. 18.: „Ef maður kaupir mann til forverks sèr, þann er að ómaga verður, og á hann þann fram að færa“, *item* sögunni af Hrafnkeli Freysgoða kap. 3.: „Þorbjörn (fèlítill, en átti ómegð mikla) mælti til Einars (sonar síns elzta), að hann mundi leita sèr vistar nokkurrar, því eg þarf ei meira forvirki“, sagði hann, „en þetta lið okkar, sem hèr er“. *Et mox:* „Gjörast nú önnur börn mín hið fyrsta verkmenn“. Og svo segir Snorri Sturluson: „Klerkon þókti Þórólfur (Lúsaskegg, fóstri Ólafs konúngs Tryggvasonar) of gamall til þræls, og þókti honum ekkert forverk í honum, og drap hann“. Og enn segir Sturl. *lib. 3. cap. 12.:* „Björn (Gestson, illmenni í Ólafsfirði) hafði það sumar allt fylgt Önundi, og kom svo heim til bús síns, er lokið var þeim málum, og var lítið forverk orðið; hann átti ómegð, en fjárhlut lítinn.

## F o x.

Kaupab. 11. *Enginn skal öðrum selja fox eður flærð.*

Á því gjörir Kaupab. 14. skíra grein, hvað þessi glósa

1) sem var galdra k., B. 2) frá [ vantar í B. 3) allt þetta, B. 4) frá [ vantar í B. 5) frá [ vantar í B. 6) frá [ vantar í B.

skuli merkja, sem er það, er hinn átti ekki, er seldi, og ekki ráð eður umboð yfir á neinn hátt. Hèr af er kaupfox í Kaupab. 14. og veðfox í Kpb. 22.; það kallar Járnsíða veðflærð í sínum Kaupabálki, en hèr í Kpb. 2. kallar bókin það fox alleina. Hvert muni hafa nafn fengið af sviksemd og ódygð refa, sem á þýzku heita Fuchs, læt eg hvern dæma sem vill.

## Frilla v. Friðla.

[Þriðja Erfð.
Framf. b. 1. 6., *og annarstaðar víða í bókinni*[1].

Mèr sýnist mjög athugavert, hvert þeir menn skuli frillubornir heita mega, sem einhverr getur með þeirri konu, er hann legst með eina nótt alleina, því það er víst, að *proprie* heita þær konur frillur, sem einhverr maður heldur við eitt ár eður lengur, og öðru nafni heita fylgju-konur, af því menn láta þær fylgja sèr til frillulífis, svo sem mjög var títt á þeirri öld, sem lögbókin gjörðist, og einna mest hjá stórmenni. Þar um talar Sturlúnga saga margopt á þann veg: „Honum fylgdi at lagi sú kona" etc., og var það[2] svo opinbert, að næstum og allopt vissi almenníngur sambúð þeirra. Og allt svo lengi sem papisk *religio* varaði hèr á landi, voru þess lifnaðar ærnar[3] leifar. Vita menn og enn í dag slíkra hluta dæmi nóg í öðrum löndum, *vide Friderici secundi* Forordning om Adelens Boelskab[4] [1582 19. Júní[5]. Og[6] af því svoddan sambúð manns og kvinnu *in concubinatu* var svo mörgum kunnug, þókti næstum óefanlegt faðerni barna þeirra, sem með því móti voru getin. Þó mætti hèr um gjöra stórar íhuganir það sem segir í Kóngserfð hinni sjöundu: „Kóngur sjálfur hefir viðurgengið[7] faðerni hans, og sagt sjálfur skilríkum mönnum ávæni til fyrir samvizku sinnar sakir og móður hans" etc. En ei er þetta[8] kóngs-efni kallaður frilluson í þessari erfð. [9] Og' falla hèr enn margir athugar, því að eptir því sem hún gjörir ráð fyrir, gengu þeir til ríkis í Noregi, Hákon kóngur Gamli Hákonarson, Sigurður kóngur Munnur og Hákon kóngur Herðabreiður, og í sama skyni Sverrir kóngur. Eg vil ei tala um Magnús kóng Góða, borinn af Úlfhildi að lifandi Ástríði drottníngu, og sonu

---

1) víða í bókinni í þr. Erfð. og Frfb. 1. kap. og annarstaðar, B. 2) vantar í B. 3) ærið, B. 4) Voldskab, A. og B. 5) Janúar, 1592, B. ‖ 2. B. 6) vantar í B. 7) viðgeingið, B. 8) þessa, B. 9) § 3. B.

Haralds kóngs Harðráða, báða af Þóru Þorbergsdóttur, þá þó er[1] drottníng Elízabet var á lífi. Liggur til alls þessa það eitt svar, og jafnan hið sama, að þá voru ei þessi lög Magnúsar konúngs útgengin, og þar að auki stóð á móti hertoganum Skúla Bárðarsyni, sam-fæddum bróður Ínga kóngs[2]; það faðerni Skúla var ei af rèttri kónga ættinni komið, sem hin ellefta og tólfta konúngserfð áskilur, og sjáanlegt er, að við allar eigi að *applicerast,* um faðerni það, er kóng skal til ríkis leiða, og átti því Hákon konúngur Hákonarson ríkið eptir sjöundu kóngserfð fyrr, en Íngi kóngur Bárðarson eptir hinni áttundu, þótt hann hèldi því um barnæsku-tíð Hákonar konúngs Hákonarsonar; en það bar til þess, að Íngi var til[3] konúngs tekinn, meðan Hákon var í móður kviði, sem ljóst er af Hákonar sögu. Hefi eg nú of lángt gengið frá þeim athugan-um, sem fyrst var taldur, hvert að frillu son eður frillu dóttir heita megi þeir allir, sem ei verða í löglegum hjúskap getnir. Væri það mjög til efs, ef menn skyldu standa upp á þá fyrstu og rèttu meiníng orðsins frilla, sem eg hefi áður skýrt, hver eiginleg væri. [4]En að hugleiddum þeim öllum greinum lögmálsins, sem hèr eiga skyldt við, kann eg ei annað ráða, en svo sem venjan heldur, að frillubornir kallist þeir allir, er laungetnir eru, og þó hverki í hórdómi nè frændsemis spjöllum getnir. Lýtur það og til bevísíngar, að svo sè rètt skilið, að lögmálið gjörir hvergi ráð fyrir þeim mönnum til erfða nè foreldra framfæris, sem einhverr getur með lausakonu eða saurlífis skækju, þótt hún fái getnað, sem þó yrði eitthvert boðorðum að vera, ef eigi væri þeir[5] undir hinna laungetnu og frillubornu[6] nöfnum skildir. Ætla eg því rètt *infererað,* að í staðinn þess, sem *concubina,* þ. e. frilla og fylgju-kona er næstum opinber í sinni sambúð við þann, sem heldur við hana, gángi það fyrir fullt um hina, sem einhverr legst með einu sinni, og hann gengur[7] við samvistu þeirra og faðerni barnsins. Og[8] enn heyrir það til líkinda þessu máli, að Mannh. 12. gjörir ráð fyrir [þess manns[9] rèttarfari, sem ei er í föðurætt kominn að lögum. Líka styð eg þessi mín svör við Kristjáns fimta dönsku og norsku lög *lib. 5. cap. 2. artt. 70. 73.,* þó það mismuni nokkuð frá því; en það er sá mismunur, ef

1) að, A. 2) en ekki sammæddum, add. A. 3) vantar í B. 4) ¶ 4. B. 5) það, B. 6) frillubornum, B. 7) aðgengst, B. 8) vantar í B. § 5. B. 9) þessu með, B.

faðir hefir mótmælt[1], eður[2] ei viljað játa. Og sýnilegt er, að Upplands lög Svíanna Erfðab. 24., Helsíngjal. Erfðab. 14. gjöra engan greinarmun á þeim, sem af frillu rètt nefndri getinn er, og hinum, sem af lausakonu er fæddur, þegar að eins faðirinn veitir barninu viðgaungu. Það er og víst, hvaðan sem frilla hefir nafn fengið, að í Sæmundar Eddu í Völundar kviðu heitir Völundur friðill Böðvildar, er hann hafði sofið hjá henni eina nótt, og hverki fyrr nè síðar; þar segir:

Grátandi Böðvildur tregði (tregaði) fan[3] friþils
gekk or eyu, ok föður reiði.

Þó mèr verði svarað, að í sömu kviðu sè Böðvildur bæði kölluð kvan og brúður Völundar, ansa eg, að það eru orð Völundar sjálfs, og hælist hann svo um hefnd yfir Niðuði[4] konúngi; en skáldið sjálft kallar Völund friðil, og því er vafalaust, að Böðvildur á með sama rètti friðlu nafnið fyrir eina nótt.

[NB. Västgotha laghen Erfðat. 8. § 5. Þar heitir barn það, er kvæntur maður getur við ambátt sinni, frillubarn móðurinnar. En ef kvongaður maður getur barn fram hjá konu sinni með annari en ambátt, þá heitir það hórbarn *(superius ibidem)*. Mun þá eigi ambáttin í síns drottins valdi fá hèr með þau *privilegia*, að hún heitir frilla, þar sem hin heitir í þessum lögum hóra, sú sem legst með kvæntum manni, en er frjáls að ætt og burðum[5].

## Friðgælur.

Þ. e. tilmæli til friðar. Bjarnar saga Hítdæla-kappa um þverlegar viðtökur við Þorstein Kugga í Hólmi; segir Björn: „Ek ætlaði, at þèr skyldut önnur hafa ölmælin að Húsafelli, en þau, at ek bera friðgælur á yður.

## Fúlga.

Framfb. 2. *Ei er maður skyldur að fæða eða fúlgu fyrir inna, fyrr en hann veit það er hans ómagi.*

Llb. 50., Kaupab. 15. og 17. geta allir fúlgu, og sýna berlega, að það er sú meðgjöf, er einhverr geldur fyrir forsorgun kvikfjár, eins og áður skrifuð grein Framfb. sýnir, að fúlga

---

1) mótmæli, B. 2) og, A. 3) för, B. 4) Niðuður, A. 5) frá [ vantar í B.

er endurgjald laga framfærslu. Og er þessi glósa svo tíð í Grágás í Ómagabálki, að of lángt er inn að færa. Uppruna glósunnar og ætterni sýnir sjálfur Kpb. 17.: „Nú felur maður búfè sitt inni að manni að fúlgumála rèttum“, því það sem falið er, heitir fólgið, þaðan er fúlga dregin, að hún skal koma fyrir þess umsorgun, er fólgið var í hans varðveizlu. Eins kveður að orði Framfb. 4.: „þá skal fela honum á hendur ábyrgð þess ómaga“. Söm er ætt og uppruni glósunnar fóli. Ljóst og þreifanlegt er þetta af Grágás, *cod. reg.*, um heimilisfáng, Þsk. kap. 57.: „Skulu búar meta hvert meira sè vert verk þaðan frá, er hann lagðist, eður fúlgan. Ef sá „maður andast, er fólginn var inni, og skulu búar telja til, „hvers hann hafði neytt eður óneytt í vistinni“.

## Fylki.

Kóngs Erfð. 11. *Skulu þenna eið sverja kóngi svo margir menn af hverju fylki, sem honum líkar.*

Björn á Skarðsá segir fylki sèu 12 löghreppar, og skuli hverr hreppur gjöra herskip með eigi minna en 40 vopnaðra manna, þ. e. eigi minna en 480 manns af hverju fylki, [og kallar fylkíng 40 manns[1]. En af[2] hverjum rökum hann hafi þetta skrifað, er mèr alls[3] ókunnugt, og ekki stendur þetta á föstum fótum. Minnist eg eigi, að til þess finnist rök, að hreppar sèu í Noregi taldir, en skipreiður eru þar í staðinn; þar er og í fjórðúnga skipt fylkjum, og skilst mèr, að þar af heiti fjórðúngsþíng hjá Norðmönnum í Gulaþíngsbók hinni fornu, og Frostaþíngsbók Hákonar konúngs, að til þess skuli sækja fjórðúngur fylkis, það er miklu meir en skipreiðuþíng, sem nú er talið bæði í þeim fyrri og nýari Noregs lögum. Svo segja bæði Frostaþíngs og Heiðsævislög, þá er skip skal byggja: „Nú skal [til smíða krefja[4] alla þá, sem eru innan fjórðúngs fylkis“. *Item:* „Fari fjórðúngur hèraðsmanna og varðbúð með“, (þá vita skal gjöra). *Item:* Nú skal stefna skipreiðu-þíng vörð að bjóða“. *Item:* “Vopnaþíng skal eigi stærrum saman eiga en skipreiðu-þíng“.

[5]Nú verður eptir á sýnt *in voce hèrað*, að það eru allopt *synonyma grammatica* fylki hjá Norðmönnum og hèrað sjá

1) frá [ vantar í B. 2) að, B. 3) vantar í A. 4) smiði til krefja, D
5) § 2. B

oss, þegar vèr með orðinu hèrað meinum heil stóru þíngin, sem njá þeim heita fylki. Það er ekki til gátu, að fylkin í Noregi hafa verið misjafnlega talin og reiknuð, stundum fleiri og smærri, stundum færri og þá stærri. En eptir stærð [og bygðar[1] fjölda fylkjanna hafa þau verið skipt í fleiri eður færri skipreiður til útboða og leiðángursgjörðar. *Testamentum* Magnúsar konúngs Lagabætis, er hann gjörði 1277 í Febr., telur fylkin 25; það reiknar norðast Hálogaland, en syðst frá Svínasundi til Elfar, er þá Finnmörk ótalin, Jamtaland og Herjúlfsdalur, en undir Heiðmerkur nafni bæði Austurdalir og Sóleyar eður Solva-eyð, svo sem herra Pètur Klausson í Noregs Beskrivelse kap. 8. kallar; en undir Haðalands nafni Þotn, Valdres og Haddíngjadalur, og undir Rygjarbitu nafni Hríngaríki, en Fjalir samanlagðar með Fyrða-fylki. Af öllum þessum fylkjum nafngreinir *testamentum* ekki utan 279 skipreiður, nema hvað ráða má, að Upplöndin og Guðbrandsdalir eigi að reiknast til samans fyrir 40 skipreiður þar að auki, svo summan verði 319 skipreiður, að ótalinni Finnmörk, Jamtalandi og Herjúlfsdal. En ekkert ákveður þetta konúngsins testament, hvað stór skipin skuli vera, eða hversu skipuð. Eru það tvö þau minnstu, Verdæla og Skeinafylki, talin hvert um sig 5 skipreiður, en tvö þau stærstu, Hörðafylki og Rýgjafylki, 32 skipreiður hvert. Hin öll eru þar í milli.

[2] Í hinni fornu Gulaþíngsbók aptan við Útgjörðarbálk telur frá Elfi norður eptir og síðast af Hálogalandi alt til samans 192 tvítugsessur, en skip hálfþrítug 116, og eitt skip þrítugt; verður þá summan 309 skip. Ef að vèr nú reiknum 80 manna á hverja tvítugsessu, en 100 manns á þau hálfþrítugu skipin, og 120 á þrítugsessuna, þá verður summan 27,080 leiðángurs-lið, fyrir utan kóngs hirð og sveitir lendra manna. Framan við *membranam* af Jónsbók vorri, þá sem eg hefi eignast frá Leirárgörðum með því skriptarlagi, sem þar er á nokkrum rèttarbótum, og tíðkaðist á dögum Magnúsar konúngs Eiríkssonar og sonar hans, Hákonar konúngs, fyrir 1400, stendur: „Svo mörg skip eiga að gánga af Noregi [með fullkomnu leiðángri]: 6 tvítugsessur og 3300 tíræð, og á hverju skipi 100 manna". Er þetta þá alls 6 hundruð

---

1) lög-bygðar, A. 2) § 3. B.

manna og 3 þúshundruð og 30 þúshundraða, og er þá ótalt Jamtaland, Upplönd og skattlöndin öll, þar svo telur. Ef þessi hefir nú [á manntalinu[1] tírætt hundraða tal, þá verða 5 menn í hverjum sessi eður rúmi, en ef hann telur minna tólfræðum hundruðum, þá verður liðsfjöldinn 40,320 manns, og er það ekki svo ýkjulega mikið, að ótrúlegt þurfi að sýnast, þegar menn líta á Sverris sögu, um herhlaup það, er bændur sunnanfjalls og Túnsbergs menn gjörðu[2] á móti honum, og sagan greinir að verið muni hafa hèr nær 50,000, og var hverki í þeim flokki nein kóngs hirð nè lendra manna sveitir, því að sá ærsla þys gekk allur í móti kóngi sínum, en hans flokk fylltu hirðmenn og sveitir lendramanna, og fátt eitt af leiðángursliði.

[3] Nú er það kunnugt af Snorra Sturlusyni, að í tíð Hákonar konúngs Aðalsteinsfóstra var fylkjunum greinilega skipt í skipreiður, en þángað til sýnist mèr útgjörðir og leiðángur hafi nokkuð minni verið, nema þegar upp voru kvaddir bæði þegn og þræll. Færi eg til líkinda sögu minni, er Snorri Sturluson skrifar um Harald konúng Hárfagra, þá er hann var nýtekinn að fara herskildi yfir ríki þeirra saklausu fylkiskonúnga og þvínga þá undir sig, eður fella frá ríkjum: „Hann setti jarl í hverju fylki, þann dæma skyldi lög og landsrètt og heimta sakeyri og landskuldir. Jarl skyldi hafa þriðjúng skatta og skylda, til borðs sèr og kostnaðar. Jarl hverr hafði undir sèr 4 hersa eður fleiri, og[4] skyldi hverr þeirra hafa 20 marka veizlu. Jarl hverr skyldi fá kóngi í her 60 manna, en hersir hverr 20 menn“. Þetta er að minnsta kosti 140 manns úr hverju fylki, og á hèr að merkja það er segir: „4 hersa eður fleiri“, því að það sýnir, að í þeim stóru og fjölbygðu fylkjunum hafi lendir menn þ. e. hersarnir fleiri verið, og því optar 20 manns af þeim fylkjunum. Nú verður mèr sagt, að þessir 60 menn frá jarli hverjum og 20 menn frá hverjum hersi svari því, sem eptir á urðu sveitir konúngs, sýslumanna og lendra manna, en[5] leiðángurs-liðið hafi verið hèr að auki, svo vel þá, sem síðar. Eg læt það vera gott, en bið að hugleidt verði, það sæmdir jarls og lendra manna fóru mjög í vöxt, þegar fram liðu stundir, og fækkuðu jarlarnir, helzt eptir fráfall Hákonar jarls hins ríka Sigurðssonar. Er

1) meira manntal en, A, 2) höfðu, A. 3) § 4. B. 4) vantar í A. 5) að, A.

þetta ljóst af Hirðskrá, þar sem segir til sæmda jarls, og leyfir lendum manni hússkarla 40, og hafði þó Finnur Árnason 80 hússkarla, þá er hann sætti Harald konúng Sigurðarson við Þrændur, eptir víg Einars Þambaskelfis. Og svo sem þetta fór í vöxt, sýnist mèr að líkindum þar eptir hafi farið leiðángurs útboð konúnganna, og líkast ekki meira í fyrstunni, en jafnmörg skip af fylki hverju, sem í því voru lendir menn undir hverjum jarli, þeir eð eptir á voru sýslumenn kallaðir, þá jarls nafnið kom til stærri tignar. Skyldu þá vera 4 skipreiður af hinum smæstu fylkjunum, og eykur þá litlu við, er í tíð Magnúsar konúngs Lagabætis voru þær 5 í þeim, sem áður segir.

[1] Hvert sem þessi gáta mín um útboðun, stærð og skipreiðu fjölda í fylkjunum á fyrstu tíð einvaldsstjórnarinnar fer villt eður eigi um Noregs ríki, þá er það víst, að í Upplandslögum Svíanna er með skírum orðum sagt, Konúngsb. 10.: „Thet är laghe leidhanger fjögur skip af hundare hverju". En Vestmannalaghen Konúngsb. 10.: „Thet är lagha skip af hundari hvorju ledhangtu". Þó verður ei hrakið, að „hundare" Svíanna er hið sama og „hèrað" Norðmanna, og „herad" Svíanna sama[2] sem fylki Norðmanna, svo sem eg með rökum sýni [um orðið[3] hèrað. Nú er það víst, að Upplönd í Svíaríki er það allra máttugasta hèrað, og þar landsmegn mest í kríng um Uppsala konúng, sem ljóst er af Snorra Sturlusyni og Ólafs Helga sögu, Landsl. Svíanna Konúngsb. 5. kap. og Upplandsl. Kon. b. 1. kap., og þar af má ráða, að hvergi sè hjá Svíum meiri leiðángurs von af Upplöndum, og eru það 4 skip. Og þótt ekki komi þetta Noregs ríki við, þá samt skilst mèr, að það sè til líkinda þeirri gátunni[4], að í fyrstunni muni skipreiður af smáfylkjunum Norðmanna mjög fáar verið hafa, en testamentið Magnúsar kóngs gjörir það ljóst, hvað um hans daga var. Það er og ekki til gátu, að á skipreiðu tölunni af fylkjunum muni nokkrum sinnum umbiltíng orðið hafa, svo sem þar af er ljóst, að hin forna Gulaþíngsbók telur af Þrándheimi 80 tvítugsessur, en testament Magnúsar kóngs ekki nema 59 skipreiður, og eigi hvað stórar. Ekki getur heldur samkvæmt orðið skipreiðu talinu testamentisins við það, sem segir Hákonar saga Hákonarsonar *anno* 1223 um skiptin á Nor-

1) §. 5. B. 2) vantar í B. 3) in voce, B. 4) gátu, B.

egi millum Hákonar kóngs og Skúla jarls eptir lögmannaþíngið í Björgvín; þar stendur: „Mælti konúngur, að þriðjúngaskipti mundu á landinu vera, og væri hinn nyrzti þriðjúngur norðan til Sunnmæris, en jarl vildi, að hann væri allt suður til Sognsæs, og skorti hann þá 10 einar skipreiður, að hann hefði [hálft hundrað[1]. Þegar þetta er samanborið við testamentið, verður annaðhvort mismunur um einar 7 skipreiður, sem kóngur skyldi meiri hafa, eður um 47, ef að Guðbrandsdalir, Haðaland, Heiðmörk og Raumaríki skulu teljast hvert fyrir 10 skipreiður, sem eflaust á að vera, því konúngur vildi láta jarlinum í tè allt norðan til Sunnmæris, og kallaði það þriðjúng; það er, eptir testamentisins ávísan 105 skipreiður. Eru þá þeir tveir þriðjúngar, er kóngur skildi sèr, 214 skipreiður, að meðtöldum leiðángri af Guðbrandsdölum, Haðalandi, Heiðmörk og Raumaríki fyrir 40 skipreiður. En ef þau 4 fylki voru frá talin, þá verða skipreiður kóngs ekki nema 174, þær eð sjálfur hann ákvað sèr til handa á móti 105, er hann bauð jarlinum; hafði þá kóngur einar 60 framar en jarlinn. En það, er jarl óskaði, verða í testamentinu 136 skipreiður, munar það um einar 47, sem kóngur hefir þá framar en jarl; getur það ekki staðizt við söguna, og því *conjectera* eg, að hèr hafi skrifarinn, sá er ritaði *membranum*, eptir hverrar *apographo* mín bók er skrifuð, undanfellt einn bókstaf L, sem staðið hefir næst eptir X, og eigi í sögunni að lesa 40 einar skipreiður, það tal hafi sögumeistarinn sett, því að á tugi stóð, en aktað ekki 7 þær stöku skipreiðurnar, og kynni með því móti skipreiðna tal testamentisins að vera hið sama, sem líklegt mætti þykja, að á þeim 54 árum hafi það ekki svo stóra breytíngu fengið, sem áður er sýnt um Þrándheim af þeim fornu Gulaþíngslögum, og enn er af því ljóst, er þau skipa Víkverjum að gjöra 60 tvítugsessur, en testamentið Magnúsar kóngs telur 48 skipreiður, frá því er hefst Rýgjarbitur og allt austur til Elfar, að frátöldum Upplöndum. Þau telja og af Rýgjafylki 24 skip hálfþrítug, en testamentið 32 skipreiður; þó kynni með skipanna misjöfnu rúmatali allur þessi misgreiníngur að jafnast.

[2] Allt þetta skil eg ekki betur en niðurbrjóti með öllu það, er Björn hefir um sína 12 lögbreppa skrifað og 12 skip

1) haft landið, B. 2) § 6. B.

af fylki hverju. En það, er hann segir, að fylki sè dregið af fólki, samþykki eg með honum, þó hann hafi ekki skýrlega rök til þess leidt; en það kemur svo til, að fólk heitir orusta, þar sem barizt er með fylktu liði, svo sem kveður Þjóðólfur úr Hvini í Ýnglínga tali hjá Snorra Sturlusyni:

Frá - at[1] maður áður
eykja gervi[2]
[Freys afspríng[3]
í[4] fólk hafa.

Og svo sem Ragnar kvað:

Hefek fimtío ok eina
Fólkorustur framdar.

[5]Hèr á þess að gæta, sem altítt var á hinum smáu[6] herskipum, að 40 manns væri á skipi, svo sem eg með mörgum dæmum eptir á sýni *in* Sessum að telja, og þess er Edda segir: Fólk eru 40, fylki eru 50, sannur er 60. Þetta skil eg svo: „Fólk má ekki fyrr heita, en 40 sèu, þ. e. ekki má kalla, að menn berjist með fylktu liði, nema fjöldi sè svo mikill, að fylkíngin sè 40 manns á lengdina, hverr við annars hlið. Og *vertera* eg svo: Fylki eru 50, *justa acies sunt L*, (fullkomin er fylkíng af 50 mönnum); sannur eru 60, *satis numerosa acies sunt* LX (ærin fylkíng eru 60 manns). Allt er þetta meint og sagt um lengd fylkíngar, en hvað þykk hún skuli vera, kveður ei á. Það er víst að aldrei var hún þynnri en 3 menn á þyktina, sem ráða má af Frostaþíngsbók í Landvarnarb. um vopnaþíng: „þá er að lögum gengið, er gánga 3 menn á þykt". Og það segja Noregs konúnga sögur og Snorri Sturluson um Hákon konúng Herðabreið, áður en hann feldi Ínga konúng Haraldsson: „Hann lèt fylkínguna vera lánga, og ei meir en fimm menn á þyktina". Nú teljum vèr hina þynnstu fylkíng þrenna 40 manns, það er hundrað tólfrætt, og þá nær heim það[7] er Edda segir: „Her er hundrat". Strax sem vèr aukum hinum fjórðu 40, verður því þykkri fylkíngin, og her úti af hverju fylki, þótt ekki fari[8] meira en 4 skipreiður, og 40 manns af hverrri. [9]Ætla eg svo með rökum sýnt, að fylki hafi þar af sitt nafn, að þau skyldu megna að færa stríð með fylktu liði, aldrei færra

---

1) fregnat, A. & B. 2) gerst, A. 3) Freyrs afspreng, A. & B. 4) vantar í báðar. 5) § 7. B. 6) smærri, B. 7) vantar í B. 8) væri, B. 9) § 8. B.

en með fernum 40, eður fimm sinnum 40, og hètu það fólkorustur, er fylkin háðu.

## Fulltíða menn.

Mannh. 9. 10.

Kaupab. 10. *Frjálsir menn og fulltíða.*

Hvað er hèr fulltíða, hvort heldur 20 vetra gamall eptir Framfb. 4. kap. og Rèttarb. Hákonar konúngs, sem innfærð er í Kpb. 2? Það er víst, að í Kpb. 10. á hann að skiljast 15 vetra gamall, síðan útgefin var Rèttarbót, áður nefnd í Kpb. 2.; því að hún segir berlega, að sá 15 vetra skuli eiga sjálfur rètt á sèr, og Mannh. 23. segir: „Enginn skal gefa sök á annars sæmdum", og Kpb. 9.: „Enginn skal gefa sök á annars fè". En um Mannh. 9. og 10. mætti meiri athugi vera, þar eð á slíku stórmæli ríður. Svarað mun verða: Hann sem er 15 vetra, er þó alltíð vottbær, *ergo* líka svo í vígsökum. Andsvarað kann verða af Rèttarbót Hákonar konúngs um þá, er í stórmælum vitna skulu. En þá er að líta til Kristjáns fimta NL. *lib. 1. cap. 8. art. 16.*, og þá gildir vitni hins 15 vetra manns. Enn mælir Lbr. 1. kap.: „þá skal sá brigt hafa, ef hann kemur út fulltíða". Áður segir í sama kap.: „Hann skal brigt hafa innan 5 vetra, síðan hann tók við fjár-haldi sínu", en eptir Framfb. 4. á hann að taka við því tvítugur. Og það segir Rèttarbótin í Erfðat. 15., að eigi má hann fyrri játa fè undan sèr. Enn geldur því samkvæði Kvennag. 1.: „Karlmaður", segir þar, „tvítugur eða eldri", og þar að auki Framfb. 4.: „Ef karlmaður kvongast ýngri en tvítugur fyrir utan frænda ráð", *etc.* Sbr. Rb. H. k.: „Ef að annaðhvort hjóna, ýngra en tvítugt, missir annars við", etc. Og svo um fjárhaldsmeyu, Kvennag. 2., að hverju öllu hugleiddu þeir heita fulltíða menn til vitnisburðar í Mannh. 9. og 10., og í Kaupab. 10. til að gefa rök á sæmdum sínum, eptir Mannh. 23., sem eru 15 vetra gamlir og þaðan af eldri. En til að gipta konur, Kvennag. 1., játa erfð undan sèr, Erfðat. 15., taka við fjárhaldi sínu og kvonga sig, Frfb. 4., og brigðajarðir sínar, Lbr. 1., heita þeir einir fulltíða menn, sem eru tvítugir eða eldri. Sá er annar athuginn um þessa glósu, að hún er *adjectivum acliton*, og hneigist aldrei til nokkurrar niðurlags umbreytíngar, er þó tíðkanleg bæði í *singulari*, *duali* og *plurali*; svo segj-

um vèr með rèttu fulltíða maður, fulltíða kona, fulltíða barn, fulltíða menn, fulltíða konur og fulltíða börn. Margir kannske vilja kalla þessa glósu *adverbium*, en eg þykist ekki mega því samsinna, vildi því sízt ekki taka hin önnur *adjectiva aclita seu indeclinabilia* eins *formeruð*.

## Gagngjald.

Erfðat. 19.

Til að sýna með rökum, hvað að sè gagngjald það, er bókin nefnir hèr, þarf að athuga þann margtíða metnað giptíngarmanna, að þeir kalla það hið fyrsta jafnræði, að karlmaður á tvo peninga móti einum peníngi konunnar. Er þessi metnaður þar á grundvallaður, að þau skuli bæði verða jafnrík, þegar hann er búinn að gefa henni tilgjöfina, t. d.: maður fær meyar eður konu þá, sem á 60 hundr. í heimanfylgju; hann á til konu-mundar tvenn 60 hundr. Úr þeim 120 hundr. gefur hann henni tilgjöf, fjórðúng allan, það eru 30 hundr. Þá er máli hennar orðinn í hans garð 90 hundr., og hann á eptir 90 hundr., svo nú eru þau bæði jafnrík. En hann hefir með þessari tilgjöf keypt sèr til gagns og ágóða allan ávöxt hennar heimanfylgju, en tekið í ábyrgð allt hennar fè, svo það vex hvorki þaðan af, nè þverr, meðan hann hafði svo mikið fè, sem þessum 90 hundr. nemur. Er þetta vonar-kaup að sönnu, því guð einn veit, hvoru þeirra tilgjöfin hlotnast, eður hvað lengi honum auðnast að njóta fjár hennar ávaxta, og verður þess vegna tilgjöfin þess hjóna happ, sem hlýtur. En eptir þessum kaupmála á konan einkis gagngjalds von eptir bónda sinn liðinn, en tilgjöf sína skal hún fulla taka eptir ljósum lögmálsins orðum, Kvennag. 3.: „Skal sú tilgjöf konu heimil, sem til hennar var gefin", etc. Fyrsta hlut þessarar minnar *assertionis* eður *theseos* um jafnræði vottar með mèr samvitund allra landsmanna minna. Seinna hlutann, að maður kaupi með tilgjöfinni allan ávöxt á fè konunnar, bevísa eg með því, að lögin skipa henni þaðan af aldrei nema heimanfylgju og tilgjöf, og svo þíng sín, þ. e. gripi sína og kvennskart (*ut alibi notamus in voce* þíng sín), Kvennag. 3. og Erfðat. 19. Enn segir ljóst Kvennag. 1.: „Eigi skal meira í klæðum heiman gefast með konu en þriðjúngur, en það, sem meira gefur giptíngarmaður, skal vera í þarflegum peníngum,

að það megi vera þeim til þarfa og afla, er konu fær". Honum skal það vera til afla, en henni ekki, að svo vöxnum undirbúníngi, sem nú hefi eg umtalað. Nú af því það veit eg ekki jafnan, að konur og meyar fái þann biðil, sem eigi tvöfalda fèmuni við eigur kvennmanns, og verða þó konur giptar mönnum, að þeir sèu fèminni, eður og, að svo fellur til, eptir það konur eru gefnar mönnum og þær eru í hjónaband gefnar, fellur konum arfur til, sá er kannske miklu meira nemur en heimanfylgja þeirra, þá er nú hið fyrsta gagngjalds von til handa konunni, eptir bónda sinn látinn, með öðrum hvorum þessum hætti:

1. Ef að konan var miklu ríkari, höfðu giptíngarmenn áhyggju fyrir, að eigi skyldi þó fyrir það úr ættinni gánga þessir ávextir hennar fjár, sem meiri væri, en tilgjöfinni mætti nokkurn veginn sambjóða, þótt svo fèlli til, að konan dæi barnlaus, og ættu þeir að heimta arf eptir hana, eður dæi maðurinn barnlaus, og ætti konan við útarfa að skipta, töldu því konunni heimanfylgju þeirra í tvennu lagi, fyrst helmíng á móts við mannsins eignir, og gaf hann tilgjöf þar í mót, en skyldi þess fjár allan ávöxt eiga, sem áður er sagt. Þar næst töldu þeir í öðru lagi fè það, sem konan átti meir en helmíng við mannsins fè. Það allt, sem hún átti framar, skyldi bóndi hennar taka undir sína forsjón og umráð, en hún sjálf eignast alla þess ávöxtu, og skyldu þeir ávextir henni greiðast, auk hennar heimanfylgju og tilgjafar, eptir bóndann liðinn, og þeir ávextir fjárins heita Gagngjald. Svo skyldi og, ef konum fèlli til arfur, eptir það þær voru gefnar heiman, og búið var að gefa þeim tilgjöf þeirra, [þá skyldi] sá arfur undir bóndans tilsjón standa, en konan eiga sjálf hans ávöxtu, og þeir henni greiðast auk heimanfylgju og tilgjafar eptir bóndann liðinn. Nú á eg að sýna rök til þess bæði af lögum og sögum. Eru dæmin að sönnu fá til hins fyrra hlutarins, að konur verði svo giptar, að þær eigi nokkurn hlut ávaxtanna sjálfar af sínu fè, því er þeim þá fylgir heiman; þó er til kaupmálabrèf Staðarhóls-Páls og Helgu Aradóttur, gjört *anno* 1558 á sunnudaginn næstan eptir hinn áttunda dag jóla á Grund í Eyafirði. Þar stendur svo: „Af öllum þessum peníngum áður sögðum Helgu telur hún sèr til kaups við Pál Jónsson svo mikið, sem hann (Páll) á tvo

peninga í móti; en það hann, Páll, kann meira að fá eður meðtaka af hennar peníngum, þá reiknast það í hans garð, svo mikið sem það vill verða, það hann meðtekur, smátt og stórt, og verði svo með það síðasta samanreiknað í eina summu, þó hún leggi ei til kaups meir við hann, en hann á tvo penínga í móti". Brèfið hefi eg í brèfabók herra Guðbrands með hans eigin hendi skrifað, bæði að upphafi og að niðurlagi, en nokkuð efa eg, hvort hans hönd er á miðjunni, þó kynni þeim mismun valdið hafa penna-skipti. Nú verður mèr *opponerað*, að hèr sè eigi tilgreint, að Helga skuli þess ótalda fjárins ávöxtu sjálf eiga. Eg svara þar til, að það er nóg, að það er frá skilið þeim hluta heimanfylgjunnar, sem henni talinn er á móti hans fè, og mót tilgjöf þeirri, er hann gaf á brúðkaupsdegi, eður hvar fyrir skyldi það annars fráskilið vera? Því skynja mundu þau sèra Sigurður[1] Jónsson á Grenjaðarstað, föðurbróðir hennar, og Helga[2], að Páll átti þess fjárins ávöxtu, á móti hverju tilgjöfin kom. En skýrt er það hèr, að Páll skuli fyrir hinn hlutann reikníng og skil standa á því honum í hönd kom, smátt og stórt. *Atqui* ávextirnir af því skyldu honum í hönd koma, svo sem forsjónarmanni þess, *ergo* skyldi hann og á þeim standa skil, því þeir komu aldrei í fèkaup hans og Helgu, heldur voru því fráskildir með skýrum orðum brèfsins. En þetta verður þá enn ljósara, ef athugað er, að lögmálið gjöri ráð fyrir slíkum skilmálum. Kvennag. 3.: „Eigi á kona að synja bónda sínum fèlags (þegar þau eru í hjúskap saman komin, og var hún í fyrstunni málakona), en með því móti mega þau leggja fèlag sín í millum, að hvort þeirra leggi til fèlags allt það, sem þá á, eður eigandi verður með erfðum eður öðrum hlutum." Hèr gjöra lögin ráð fyrir, að þau kynnu að vilja svo gjöra fèlagið, að annaðhvort þeirra hefði nokkuð fè til ávaxta utan fèlagsins, og bannar þá fyrirtekt, því að síðar í kapítulanum stendur bót við þeirri skaða von, sem giptíngarmenn óttuðust, ef konur fengju engan ávöxt fjárins, nema tilgjöf sína. Þar segir: „Það hjóna, sem meira lagði til fèlags, skal meira upptaka". Og greinir síðan um skiptin aflans, og horfa þau aflaskipti eptir *regula societatis,* ef bóndinn átti fè tvöfaldt við brúðina, þá er þau komu saman; en ef eigi var svo undirbúið, að hún átti í heimanfylgju sína þriðjúng að eins við hans fè, svo skiptin á aflan-

1) Sigurð. A. 2) Helgu, A.

um, sem hèr eru greind, yrðu ei alltíð eptir *regula societatis*, hèr fyrst í texta bókarinnar niðurskipuð, þá gjörir Rb. H. k. lækníng á því með stórum fríheitum, þar sem segir: „Með slíkum arfatökum, sem þá gjörðu þau sín á millum“. Og enn segir texti bókarinnar: „Lýsa skal giptíngum kvenna og tilgjöfum,“ etc. Eg spyr: Til hvers? Svo það megi kunnugt verða, hverra fèskipta von er, nær sem annaðhvort fellur frá, en það verður allt bevísað með kaupmálabrèfinu, sem gjörast skal alla tíma, eptir Kpb. 12. *Respondeo:* Í því verður getið, hver að var heimanfylgja sú, er tilgjöf kom á móti, en óvíst, hvort þar kveður á upphæð þess fjár, sem konunni voru skildir ávextir af, þótt það hafi kunnað nokkuð að vera. En eigi kann þar getið verða, hvað hátt þeir ávextir stíga, og þar fyrir skal lýsa því tíunda hvert ár. Þess verður og ei getið í kaupmálabrèfinu, hvert þeim falli til erfðafè nokkurt, síðan þær giptast, og því er þörf að lýsa því, svo að allir prettir og arfsvik útibyrgist. Þess verður enn að gæta, að lögmálið hefir mönnum stór fríheit eptirlátið um skilorð í kvennagiptíngum, svo sem vottar Rb. H. k.: „Þar sem menn gipta börn sín saman, þá stendur sá skilmáli, hvort sem er fèlag eður tilgjöf“, og þó var hin fyrri gefin Rb. E. k.: „Rètt er, að frændur gjöri kaupmála sín í milli, eður helmíngs fèlag, eptir því sem þeim semur“. Allra stærst eru fríheitin í þeirri grein Rb. H. k., sem áður var tilnefnd: „Með slíkum arftökum, sem þá gjörðu þau sín á millum“. Híngað hnígur og það, er mælir í Erfðabálki Kap. 1.: „Hvervetna þar, sem er fèlag hjóna í millum, þá skal giptíng dætra og heimanfylgja greiðast af beggja þeirra fè, eptir því sem fèlag þeirra var gjört, en ef ei er fèlag hjóna í millum, þá skal eptir fjármagni hvort þeirra skuldum gegna“. Það er útgreiðsla heimanfylgjunnar, sem lofað var á giptíngar degi. Þar við er samhljóða Framfb. 2.: „Þá skal skipta ómögum þeirra, eptir því sem fèlag þeirra var gjört“. Báðar þessar greinir sýna það, að stór fríheit hafa menn átt um þvílík fjárkaups skilorð, svo að eigi hafi lögin viljað gjöra þar á neina útþrykkilega skýrslu, því með ýmsu móti kynnu slíkir kaupmálar og fèlagsgjörðar skilorð gjörð að verða, og því segir Rèttarbótin: „Með slíkum arftökum, sem þá gjörðu þau sín á millum“. Samt er alla tíma sá skilmáli undir fólginn, að eigi sèu arfsvik við erfíngja gjör. Enn segir lögmálið, Kvennag. 4.: „Ef hún tekur fè í erfð,

síðan þau komu saman, og verður það fè fyrir jörð greidt, þá skal sú jörð hennar". Hèr stendur að sönnu eigi tilgreint, að hún skuli þar með eignast landskuldir þessarar jarðar, en þótt eg að vísu því trúi, eða því mun hún heldur eiga sèr skilda þessa jörð, en lausafè slíkt, sem hún tók í arfinn, og bónda hennar kom í hönd, ef hún á engan meira rètt yfir þessari jörðu, en lausafè því og jörðum, er henni fylgdu heiman og tilgjöf kom í móti, þar sem hún á þá engan rètt til þeirrar jarðar, sem með gripum hennar var til keypt, sem hún hafði úr föðurgarði, og metnir voru í hönd bóndanum?

Nú vilja menn segja, að ekkert sè í þessu *demonstrative* bevísað, og megi þessar líkur heldur gáta kallast, en skilmerk rök og fullar bevísíngar; þá bið eg menn athugi það, sem Grágás mælir í Festarþ. 50. kap.: „Þar er hjú koma bæði í eina sæng, að þá er konu heimill mundur sinn (tilgjöfin) og svo ávextir af fè því öllu, er henni er mælt í mundar málum. Kona skal og af sínu fè einu taka til atvinnu sèr, enda skal hann eigi leigja það fè, er hún á í gripum". Þetta eru ljós orð; og enn segir Grág. í Festarþ. kap. 17.: „Það þeirra, sem erfð tæmdist, á kost á, að láta erfðafè eigi koma í fèlag þeirra, og taka sjálf vöxtu af". Fyrri greinin talar um mála-konu, en hin seinni um fèlag. Sami þáttur kap. 23.: „Skulu búar telja með þeim, hve lengi fè hennar hefir á vöxtum verið undir honum, og svo hvers hún hefir af neytt". Þetta er og um málakonu talað, *conf.* upphaf sama kapítula, *item* Festarþ. kap. 24., og af þessum greinum ætla eg greinilega nóg bevísað vera allt það, sem híngað til hefi eg sagt um þetta gagngjald.

Eiga menn að minnast þess hèr, það einir 12 vetur liðu frá því Grágás var lög hèr á landi, og þar til Magnús konúngur Lagabætir gaf híngað þessa lögbók, og þar í milli gekk hèr Hákonarbók, sem menn kalla Járnsíðu. Hefir hún og svo þetta gagngjald í sömu grein, sem hèr er það sett. Vilji menn segja, að af Grágás, sem hèr var lög, áður landið kom undir kóng, kunni menn ekkert að bevísa um þessa lögbók, sem híngað sè gefin af Noregs konúngum, og sè mest gjörð í líkíng hinna norsku laga, sem þá voru, þar með og standi glósan gagngjald í Frostaþíngs og Gulaþíngsbókum, en í Grágás hvergi, þá svara eg hèr upp á, það fyrst, að Grágás var að öndverðu Þrænda-lög, sem vottar Sverris saga, kap. 105.,

og þaðan tóku vorir landsmenn hana til umbótar sínum fornum lögum. Nú kom í hennar stað Frostaþíngsbók í Þrándheim, og hefir hún þetta gagngjald. Hverr vill þá efa, að ráðgjafar Magnúsar konúngs Lagabætis hafi líkt í þetta[1] lögmál sett við það, sem gekk áður? Og svo segir Gulaþíngsbók í rèttarbótum, að Magnús konúngur lèt saman setja af öllum bókum landsins, sem bezt þókti honum bera, með beztu manna ráði, og lèt skrásetja þá bók. Svo er þá ei lángt til að telja, þótt menn læri það af Grágás að skilja, sem fyrir umbreytíng tímanna þúngskilið er orðið í vorri lögbók, þar sem báðar hafa frá Noregi sinn uppruna, svo sem nú hefi eg skýrt með rökum. Það er og eigi líklegt, að Norðmenn hafi á svo fáum árum gjört svo stóra breytíng á kvennagiptínga-skilorðum, að aldeilis væri niðurfeldar ávaxta - vonir stórauðugra kvenna gjörvallar, nema tilgjafir alleinar. Það er enn að merkja, að í hinum Noregs lögum hefir þetta gagngjald verið, því að hvergi getur þess með rèttarbótum Hákonar konúngs Hákonarsonar, nè Magnúsar konúngs Lagabætis. Verði mèr svarað, að Grágás, sem vèr köllum, sèu Úlfljótslög, en Grágás ekki, þá svara eg af *Schedis* Ara Fróða: þau voru sköpuð flest úr Gulaþíngslögum Norðmanna. Og með svoddan móti er þá svoddan gagngjald, sem úr Grágás hefi eg nú talið, út úr hinum fornu Noregs lögbókum til vor komið, af sömu rökum, sem Magnús konúngur setti það í Frosta og Gulaþíngslögum. Það er og að marka, að þar sem Erfðat. 23. kap. segir: „Skal bóndi sá, er hann er á vist með, taka það fè virt og ábyrgjast og hafa vöxtu af, þar til sem erfíngi kemur", *etc.* Þar segir Erfðat. 24.: "þá skal garðsbóndi hans taka það fè virt og ábyrgjast sem sitt fè og hafa gagn af, þar til sem erfíngi kemur". Sjá menn hèr, að lögin sjálf kalla hið sama gagn og ávöxtu, svo það er eigi seilzt til lokunnar, að segja gagngjald sè ávaxtagjald. Þar á ofan er það enn í almenníngs máli, að gagn og ávextir eru hið sama, svo eg skil nú eigi, hvað á skortir, að eg hafi þá skýríng orðsins gagngjald með rökum sýnt, og á sjálfum lögunum grundvallað. Á móti öllu þessu mun mèr *opponerað* verða, að Frostaþíngsb. Hákonar konúngs, hún segir svo: „Karlmaður skal konu eyri ráða, *etc.*, á meðan þau eru hjón,

---

1) þessu. A.

og er úskilt þeirra á meðal, nema því einu, er skilt er að festum eða samfángi þeirra; það fè skal sjálf hún ábyrgjast og fyrir ráða. En ef konu manns tæmist arfur, og eru úmagar í erfð þeirri, en eigi fè, þá skal bóndi hennar fyrir þeim hyggja, og gjöra fyrir þeim róður og reiðu, en eigi skal heimanfylgja hennar af því þverra, er lýsíng kemur á í öldurhúsi. En ef fè er í erfð þeirri, þá skal virða jarðir og lausa aura alla, og hafi hann með ábyrgð og ávexti, og greiði slíkan eyri af höndum sèr, sem hann tók, nema landaleigur þær, er hann tók síðan". Eg svara: þetta er talað *peculiariter* um þá erfð konu tilfallna, sem ómagar fylgja, þá er bóndinn hefir annazt vegna konu sinnar, og fyrir þá önnun ómaganna tekur hann sèr landaleigur, sem ella fengi hún í sitt gagngjald. Er þetta svo alls eigi mèr á móti, en hitt markverðugt, er hèr strax áður greinir, „að ef kona manns erfir ómaga, en ekki fè, þá skal hann annast þá ókeypis og gjöra fyrir þá róður og reiðu", það er leiðángur allan eptir nefja tali. Svo að þar sem erfðin fellur konum til, sú er ómagar fylgja, þá er það bóndans happ eður skaði, hvort er fæst með þeim eður eigi, en konunnar happ einnar, ef fè fellur í erfð, það er ómagar fylgja. Það er sýnilegt í öndverðri greininni, að fè muni henni hafa verið skilið í festarmálum, það er hún skyldi sjálf ábyrgjast og fyrir ráða, og því sjálf hafa vöxtu og gagn af. Styrkir svo þessi grein Frostaþíngsb. alla mína framan sagða *thesin*, þegar hún er með athygli lesin. Vilji nokkur segja, eg dragi hana á hárinu til míns máls, andsvara eg: það er eigi svo, því að nema hún megi svo skiljast, sem nú hefi eg sagt, þá er hún gagnstæð öllum hinum greinunum lögmálsins forna og nýa, sem hèr hefi eg leidt minni sögn til vitnis; og vitum vèr þann skyldu-heiður, sem oss ber konúngunum að veita, öll þeirra lög og boðorð sem bezt að skilja til einíngar laganna, en eigi til gagnstæðleika, nema þar sem vèr vitum, að þeir síðari konúngar hafa viljað af taka úr þeim fornu lögum eitthvað, og annað skipa, sem hèr getur ekki verið, þar sem gagngjald er skipað eptir festarmála skilorðum, og allar hafa bækurnar, áður *citeraðar*, þetta gagngjald, þótt nafnið sè með ýmsu móti, svo sem Grágás vottar. Hana gjörði Magnús konúngur Góði, son Ólafs Helga, sem áður segir í Sverris sögu, og Ólafs Helga saga. Gulaþíngsbók hin forna hefir og þetta gagngjald, Kvennag. 4. kap.: Þar segir: „Konu sinni skal

enginn maður að höggum ráða, at öldri, nè að áti. En ef hann ber hana í fjölda manna, þá skal hann bóta henni slíkum rètti, sem hann á að taka á sjálfum sèr, og svo annað sinn, og svo þriðja sinn. (Ol:): Þá á hún kost að gánga frá honum með gjöf og gagngjaldi". Þessi Gulaþíngsbók eignar sig sjálf Ólafi konúngi. Það getur ei annar Ólafur konúngur verið, en Ólafur Kyrri, son Haralds konúngs Harðráða, því að eptir hann voru Noregs konúngar engir með Ólafs nafni, nema sá sonur Magnúsar konúngs Berbeins, sem dó í barnæsku, og að mestu leiti var undir forsjón og fjárhaldi Eisteins konúngs, samtíða Sigurði konúngi Jórsalafara. Er því að ólíkindum honum lög að eigna, svo að ei sè bræðranna getið, Eisteins og Sigurðar, sem eldri voru og honum samtíða ríktu. Ólaf, sem Norðmenn kölluðu Úgæfu, efa eg með konúngum að telja, því Erlíngur Skakki feldi hann snart frá ríki, og geta Noregs konúnga sögur engra laga nè rèttarbóta frá honum, sem og varla var von, því hann var úngur mjög, þá hann var feldur. Svo er þá alleinn eptir Ólafur kóngur Hákonarson og Margrètar, sem ríkti frá 1381 til 1388, og höfum vèr sögu hans svo vítt glögglega, að eigi mundi þagað um, ef hann hefði þá fornu Gulaþíngsbók *reformerað*, sem og eigi var þörf að gjöra, því að Magnús konúngur Lagabætir, forfaðir hans og sjötti konúngur fyrir ofan hann, hafði sínar lögbækur þar í milli útgefið með stórri *reformation*, sem þær til vísa. Verður það svo stöðugt og fast, að Ólafur kóngur Kyrri hafi þessa fornu Gulaþíngsbók útgefið. Það sem í henni greinir, helzt í framanverðum Kristindómsb., að Magnús hafi það eður það af tekið, eður á annan veg skipað, þækti mèr líkast til, að muni Magnús konúngur Erlíngsson, því að síðan jarlinn, Erlíngur Skakki, faðir hans, hafði felt þá frá ríki, sem rètt voru til þess komnir, var friður í landinu, þar til Sverrir konúngur tók við Birkibeinum; en Erlíngur var lagamaður mikill, og þeir feðgar hafa skipað þann annan kapítula Kristindómsbálks þeirrar bókar, sem talar um kóngserfðir; ætla eg þeim því hina Recessana frá lögum Ólafs kóngs Kyrra. En því ætla eg það síður Magnúsi kóngi Haraldssyni, bróður Ólafs kóngs Kyrra, að hann ríkti stutta stund, og dó miklu fyrri en Ólafur kóngur. Því ekki Magnúsi kóngi Berbein, að hann var í sífeldum hernaði, og ríkti 9 ár ein; því ekki Magnúsi kóngi Blinda,

að hann átti litla rósemd í sínu ríki, og var hans ríkisstjórn hvorki laung nè farsæl; þó vil eg hèr um af öðrum fræðast. En hverr sem sá Magnús kóngur verið hefir, þá lèt hann þó gagngjaldið standa, svo sem Ólafur kóngur skipað hafði, og Magnús Góði boðið í Grágásar lögum, svo sem þau eru til vor komin; svo nú er það víst, að svo gamalt er gagngjald hjá Norðmönnum. Ofan á allt þetta til þreifanlegrar styrkíngar minni sögu um þetta margnefnda gagngjald, bið eg að athugasamir hugvitsmenn gæti þess, að enn í dag höfum vèr þær leifarnar hèr af, sem daglega verða settar í kaupmálabrèf hjóna, að eptir það sögð er heimanfylgja kvenna af föður og móður fè, þá er gjarnan á nefnt, hvað meyar eigi sjálfar. Þetta skilst mèr *residua* af hinni gömlu *praxi,* hvað meyum var skilið í mundarmálum, að þær skyldu sjálfar eiga vöxtu af. Síðan að slíkar eigin-eignir heimasætanna voru allopt dauðir aurar, sem eigi gátu til ávaxta orðið, þá er smámsaman meira og meira aflagt að spyrja eptir gagngjaldinu, einna mest síðan brúðgumarnir af ást til brúðanna hafa látið sèr lynda, að taka í heimanfylgju þeirra meira en þriðjúng í klæðum og gripum, þeim sem eigi geta þó orðið þeim til þarfa eður ábata, það er gagns og ávaxta, sem konuna fèkk, eptir Kvennag. 1. Og er svo þetta hvað eptir annað í óvenju komið, og um síðir svo lángt, að fáir menn skildu, hvað gagngjald væri; og víst hefir Björn á Skarðsá það eigi skilið 1626. Kann eg engan að nefna þar eptir, sem eg viti það hafi skilið, nema, ef svo má kalla, Bárð Gíslason í Rángárþíngi. Hann hefir af sjálfu orðinu ráðið, að það skyldu ávextir vera einhverskonar. En að ólöstuðu nafni þess góða manns, sè eg eigi, að átyllur þær, sem hann færir til þess af Hólmverja sögu og Njálu, gjöri skýrt, hvað hann meinar; og víst sýnist mèr Njála tali um tilgjöf Unnar af Rúti, en gagngjald eigi, og nær því er, að eigi hafi Barður komið hèr fótum fyrir sig, nè til vissu ratað, þótt hann væri nærri götunni. Hann hefir skrifað *anno* 1665; sá eg þá bók úngur í Skálholti, en las hana eigi. Næst umliðið sumar 1718 fèkk eg hana til láns hjá sýslumanninum Brynjúlfi Þórðarsyni, en hefi fyrir nokkrum árum *communicerað* nokkrum góðum vinum þessa *voculam,* sem þeim er kunnugt. Nú þar eg sè, að Bárður vill að mínum kolum blása, þá vil eg gjarnan hans minnast að þessu margnefndu gagngjaldi, og bið, góðir menn lesi þar um skrif hans, svo þeir gjörr dæma kunni, hvað hvor

okkar segir. Þriðjúngsaukinn, sem Bárður talar um, er án allrar gátu tilgjöfin sjálf, en gagngjald ekki; það kennir Frostaþíngsb. Hákonar konúngs, Kvennag. 8. og 17. kapp., samanborin við Jónsbók, Kvennag. 2. og 4.; en alþíngis samþykt sú, er hann vænist, fælir mig alls ekkert frá að segja hið rèttasta, sem mig skynjar. Mínir formenn hafa verið svo sem eg, og hefir þeim kunnað að missýnast svo vel sem mèr; dæmi þar um eptirkomendurnir, þeir eð öfundarlaust unna hvorutveggjum sannmælis.

Síðan eg hafði þetta skrifað, er mèr frá lögþíngisskrifaranum Sigurði Sigurðssyni í hönd komin *copia* af kaupmálabrèfi Sigurðar Þorleifssonar og Kristínar Finnbogadóttur, lögmanns Jónssonar, er bæði nefnir gagngjald og gjöf. Ártal þessarar *copíu* er 1589, og það skinbarlega rángt, því þá var Jón Jónsson lögmaður hèr á landi norðan og vestan, en Þórður Guðmundsson lögmaður sunnan og austan, en þeir allir dauðir, sem þetta kaupmálabrèf nefnir. Er ártalið villt um 100 ár, og á að vera 1489, árið næsta fyrr en Piníngs-dómur gjörðist; þá var Finnbogi lögmaður norðan og vestan, Eyúlfur Einarsson sunnan og austan; kynni að vera brèfið í fleirum greinum afmyndað. En hvað sem þar um er, þá stendur nú í þessari *copíu:* „Gaf Sigurður Kristínu 60 hundruð í tilgjöf, en 30 hndr. í bekkjargjöf og morgungjöf, hvað er kallast gagngjald og gjöf.“ Hèr til svara eg berum orðum, að í lögmáli þessa lands fornu eður nýu, sem fyrir mín augu borið hefir, kallast aldrei bekkjargjöf eður morgungjöf, gagngjald, og alls hvergi, það eg hefi heyrt eður lesið, nema í þessu eina brèfi eptir ágirndar munni Finnboga lögmanns, sem þetta (ef *copían* segir satt á hann eður hans stílista) talað hefir án alls laga grundvallar og þvert á móti lögum. Hèr eru og í sama brèfinu rèttarbæturnar og lögmálsins greinir ástundunarsamlega misbrúkaðar til þreifanlegra arfsvika, frá erfíngjum Sigurðar og jafnvel sjálfum honum, en undir Kristínu og hennar erfíngja. Skilja það allir heilvita menn, sem áður hefi eg hèr sagt, að það er *regula universalis,* sem áföst á að skiljast við allar þær rèttarbætur og lögmáls greinir, sem að þessu máli lúta, að eigi sèu arfsvik við erfíngja gjör, og svo hin um fèlag, „að það skal meira uppbera, er meira lagði til fèlags, en síðan sè“, etc. Eru þessi arfsvik öll sprottin af ágirni Finnboga lögmanns, sem síðan varð honum að fótakefli, þegar hann *anno*

1509 var afsettur embættinu, og Jón lögmaður Sigmundsson í hans stað kom. En þenna grundvallarlausa dikt um merkíngu gagngjalds hefir Finnbogi skapað til skýlu við fèlagsgjörðina, sem síðast í brèfinu stendur, svo sem Kristín, sem fèkk í heimanfylgju 1 hundrað hundraða, en í tilgjöf 60 hndr, en loksins í hinar ólaga gjafirnar 40 hndr., legði til fèlags 1 hndr. hndr. og 2 hndr. á mót 3 hndr. hndr. og 20 hndr., sem þá átti Sigurður ógefin, eins og tilgjöfin eigi að reiknast af konunnar hálfu tillögð í fèlagsgjörðinni, þar þó lögmálið ætlar til, að hún skuli gleymast, þegar sú gjörist fèlags-kona, sem áður var mála-kona, og því eru þar tvenn form fjárskilorða hjóna í millum svo skýrlega *contradistincta* í lögmálinu. Kemur það alls ekki Finnboga lögmanni til málsbóta um þá tilætluðu fèlags gjörð, þótt að hin dönsku lög forn eður ný gjöri jafnan helmínga fèlag hjóna í milli, nè þótt vorra einvaldskonúnga norsku lög hafi skipað hið sama. Enginn, sem að nokkuð veit til hinna fornu Noregs ríkis og þessa lands laga, er svo fávís, að hann ei viti, hvað stórum þau mismuna frá hinum nýrri og dönsku lögum, og einna mest í erfðatali og kvenna giptíngum, það penínga snertir, og á því gjörníngur Finnboga lögmanns eptir norskum og vorum lögum alleina að metast. Er of lángt að *examinera* hèr þá margföldu ólögmæti, sem þetta kaupbrèf með sèr færir; en það vil eg mínu máli til styrkíngar færa hèr um, hvað fótlaus diktur það sè, sem gagngjaldið snertir, að allir þeir lögmenn, sem eptir Finnboga verið hafa hèr á landi, hafa þá lögvillu foraktað. Það vitna dómar þeirra, sem hafa skilið gagngjald fyrir sjálfa tilgjöfina; það vitna og allar þær *disputatíur*, sem um gagngjald hafa verið, því að þótt þeir eigi hafi að nýúngu ratað á þess rèttan skilníng, þá hafa þeir þó allir skilið, að Finnbogi sagði rángt til þess í sínu gjörníngsbrèfi. En það er merkilegt, að þá þegar á dögum Finnboga hafi *desvetudo*, þ. e. tíðkunarleysi komin verið á þetta gagngjald, ella mundi hann varla vogað hafa, það er hann áræddi, slíkt að segja röksemdarlaust með öllu. En hvað mun eg um vogun hans þora að segja? Þorði Jón lögmaður Jónsson að dæma, það sjöund í Erfðat. 18. skyldi vera fardagar, þar þó allir nafnkunnugir menn á hans dögum og síðan vita, það er sagt og meint með sjö nátta stefnusfresti hið naumasta. Þeir vissu sínar tíðir, og á hvern þeir treystu, þá þeir voguðu þetta. Eg skal ei biðja menn að trúa minni sögu um þetta gagngjald

fremur, en svo sem ástæður mínar sýna rök til. Það sjá heilskygnir menn, að lög hefi eg til votta minnar útskýríngar. Þess kref eg, að menn eigi hreki þeirra vitni! Og meðan það má gilda, munu sanngjarnir og rèttsýnir menn láta gagngjald standa við þá merkíngu, sem hèr hefi eg að framanverðu grein á gjört. En til þess að löghyggnir menn kunni að sjá, það eg ei af illgirni tali svo stórort um þetta margnefnda brèf, sem eignað er Finnboga lögmanni, þá innfæri eg það hèr næst eptir, svo það megi kunnugt verða og sjálft bera sèr þreifanlegt vitni ránginda sinna:

Öllum mönnum, sem þetta brèf sjá eður heyra, senda Einar prestur Benediktsson, Jón Guðmundsson, Grímur Jónsson, Broddi Sigurðsson, Ormur Jónsson, Stulli Sigurðsson, Steinn Steinmóðsson, Eyúlfur Þorvarðsson, Þórólfur Brandsson og Ketill Gíslason kveðju guðs og sína! Kunnugt gjörandi, þá liðið var frá guðs burði 1589, Jónsmessu Baptistæ um vorið í Ási í Öxarfirði í Kelduhverfi vorum vèr hjá, heyrðum og sáum á, að Sigurður Þorleifsson keypti Kristínu Finnbogadóttur sèr til eigin-konu, eptir því sem guðs lög segja, með ráði og samþykki Finnboga Jónssonar lögmanns, föður hennar, með svo feldu fèkaupi og skilmála: Í fyrstu, að nefndur Sigurður hafði til kaups og eiginorðs við sagða Kristínu alla þá peninga, sem hann átti þá í föstum eignum og lausum, reiknaði hann það 7 hndr. hndr. Hèr í mót gaf greindur Finnbogi dóttur sinni þrjár jarðir, er svo heita: Skarð, Hvammur, Vatnshorn, er liggja í Haukadal í Vatnshorns kirkjusókn, 60 hndr., og þar til önnur 60 hndr. í fríðum peníngum og ófríðum. Gaf Sigurður Kristínu 60 hndr. í tilgjöf, en 30 hndr. í bekkjargjöf og morgungjöf, hvað eð kallast gagngjald og gjöf. Skyldi hún eignast þessa jörð Márstaði með Grund aðskildri, er liggja í Vatnsdal, og þar til svo mikla peninga í gripum og þíngum, að gjafirnar með jörðunum reiknast 100 hndr. Gjörðu þeir Finnbogi og Sigurður svo feldan skilmála á milli hans og Kristínar, að Finnbogi skildi og kjöri, að Kristín skyldi vera helmíngakona í garð Sigurðar með svo skildu, að þau lögðu þá í fèlag allt það, er þau áttu þá, eður eigandi kynnu að verða með erfðum eður öðrum hlutum, undir þá grein og skýríng, sem Rb. H. K. útvísar, með þeim arftökum, að hvort þeirra um sig skyldi eiga við annað alla hálfa peninga, fasta og lausa, en erfingjar tæki allan hálfan helmíng annan, hvort sem fyrr

kann frá að falla. En ef þau eiga ekki börn eptir sig, þá skal það, sem lifir, taka auk þess helmíngs fimta hlut í löggjöf af peníngum þess, er frá er fallið.

## Gagndagar.

Grág: Festarþ. 13. *Menn skulu ei brúðkaup gjöra frá þvottdegi þeim, er næst er gagndögum, og allt þar til er lýkur hina helgu viku.*

Kristinnr. Jóns erkibps. 47. *Frá því er hefst gagndaga vika, og fram um hvítu-daga viku má ei brúðkaup gjöra nè konu fá.*

Ergo: *er helga vika hvítasunnu vika.*

## Gángvari.

Grág. Ómagab. 34. *Allt skal til virða, nema bús afleifar og hvers dags gángvara, og svo slíka náttbjörg í klæðnaði þeim mönnum, sem hans ómagar eru.*

Rb. H. k. 1308. *Allar gángverjur vorar (gángklæði).*

Parcevals s. 6. kap: *Árla um morguninn lèt hússbóndinn bera að honum riddara gángvera, svo ríka og dýrðlega, að vel mátti einn kóngur bera; skyrtu og brók af hvítu silki, hosur af rauðu skarlati, kyrtil af hinum bezta guðvef.*

## Garðar.

Farm. l. 8. *Eður austur í Görðum.*

Það er ljóst, að Garðar og Garðaríki er allt hið sama. Liggur þetta konúngsveldi við austanverðan innsta botn og svo suður með austursíðunni Finnafjarðar, þar sem nú heitir Rússland, og er sá vesturhluti af Rússía, sem nær til Austursjáfarins, svo að skipum má fara frá Eyrarsundi. Skiljast mèr svo sögurnar, sem Aldeigu-borg muni legið hafa austar og norðar, en það sem nú heitir *Ingvia* eður Ingermannaland, og muni það þó vera einn partur af Garðaríki til forna. Kónganna Residenz í þessu ríki var á fyrri öldum lángt frá sjó, og hèt það í Hólmgarði eður Hólmgörðum, en Aldeiguborg var nær sjó, og ætla eg þángað mætti skipum fara, svo sem sýna sögurnar, og einna ljósast er það af sögunni af Ólafi konúngi Haraldssyni, þar Kálfur Árnason og Einar Þambaskelfir fóru

um vorið austur um Kjöl til Jamtalands, og svo til Helsíngjalands, og komu fram í Svíþjóð; rèðu þeir sèr þar til skipa, fóru um sumarið austur í Garðaríki, og komu um haustið í Aldeiguborg; gjörðu þeir þá menn upp til Hólmgarðs á fund Jarisleifs konúngs. *Mox:* Norðmönnum voru grið gefin til fundar við Jarisleif konúng og stefna gjör, að þeir kæmi til móts við hann. En er þeir komu til Hólmsgarðs, staðfestist það með þeim, *etc.* *Item:* Magnús Ólafsson byrjaði ferð sína þegar eptir jólin austan úr Hólmgarði ofan til Aldeiguborgar, og bjó þar skip sín. Þess getur Arnór Jarlaskáld:

Var-at ellifu allra
ormsetrs hati vetra,
Hraustr þá er herskip glæsti
Hörða vinr úr Görðum.

Þetta síðara er orðrètt eins í *chronico* Snorra Sturlusonar, og eins segir í Ólafs Helga sögu: Annað sumarið fóru þeir Haraldur, eptir á kóngur, Sigurðarson og Rögnvaldur Brúsason eptir Stiklastaða bardaga austur í Garðaríki til Jarisleifs konúngs; tók hann vel við þeim. Þar um segir Bölverkur skáld í drápu þeirri, er hann orkti um Harald konúng:

Austr komstu árið næsta
örðuglyndr í Garða.

Öllu þessu samhljóðar Orkneyínga saga, kap. 6.

## Garðs-bóndi.

Erfðat. 24.

Það er sá, sem sá var á vist með, er arfinn eptirlætur hjá Austmönnum; því sá, sem í borgum eður kaupstöðum heldur stórt hús, heitir garðsbóndi, og garður heimili hans, en í hèraði heitir það stór jörð, eður höfuðból, *vide* Frostaþ. I. Landvb.: „Ef maður á hús í kaupángi“ ɔ: bú í hèraði (ɔ: landsbygðir). Hús heita í borginni það, sem hjá oss heita smærri jarðir; kaupstaðir heita borgir.

## Gautland.

Farm. I. 8. *Ef hann rýfur skipan undir stýrimanni í Danmörk, eður í Gautlandi, eður í Svíþjóð.*

Það er að kalla nær á hverju blaði í sögunum, að Gautlands sè getið; svo heita tvær provinzíur Svíaríkis, Vestragautland og Eystragautland. Vestra-Gautland liggur upp með Gautelfi fyrir sunnan ána, og á því vestanverðu, þar sem hal-

inn þess nær að sjónum, millum Noregs fyrir norðan og Hallands fyrir sunnan, stendur borg sú við sjóinn, sem nú um stundir hefir nafnfræg orðið, Gottenborg, sem útsent hefir þá flestu sjóræníngja, er af hálfu Svíanna gletzt hafa við vor Íslands för í þessu stríði, og hinu næsta, 1676. Ætla eg Svíar hana svo kallað hafi af nafni landsins, svo sem skuli hún heita Gautaborg. En ei er staður þessi þó eldri en svo, að hann hefir í sögunum ekkert nafn, nema það verið hafi Ljóðhús. *Consuletur Friderici tertii chronicon Resenii, item divisio* Svíaríkis og *Primatus* Uppsala konúngs og lögmannsins á Tíundalandi. *Describitur diserte* í Ólafs Helga sögu *ex membrana, cap.* 59., landsmegn allt Vestra-gautlands og upp með Elfinni; og síðan með því stóra vatni, Vani, liggur Vermaland. Var þessi Gautelfi til forna landamerki millum Noregs konúngs veldis og Svíaveldis, í tíð Hákonar konúngs Hákonarsonar og Magnúsar konúngs Lagabætis, svo sem Snorri kvað um Hákon konúng:

| | |
|---|---|
| Sjálfr ræðr allt oc Elfar | gramur er af giptu fremri |
| einn stillir sá milli | Gandvíkur jöfurr landi. |

Millum Vestra-gautlands og Eystra-gautlands skilur annað geysimikið stöðuvatn, og þó minna en Vanir. Úr því vatni fellur stór á í gegnum Eystra-gautand í Austursjóinn; en suðvestur endi Eystra-gautlands liggur áfastur við Vestra-gautland. Voru þessi bæði, Vestur- og Austur-gautland, kóngaríki í gamalli tíð, og stundum sinn kóngur yfir hvoru fyrir sig, sem sjá má af sögunni af Ragnari Loðbrók og Hrólfi kóngi Gautrekssyni, og var þá Svíþjóð ríki fyrir sig, sem lá undir Uppsala konúng, sem sagan af Hrólfi Gautrekssyni vottar.

## Gjaldkeri.

Það er rentumeistari eður býfógeti. Merkíng orðsins er svo: hann á kjör eða kost á gjaldinu. Slíkir nafnbóta-menn voru áður í kaupstöðunum við sjósíðu í Noregi, sem sjá má í Björgvínar lögum, Kaupab. kap. 6.

## Gotland.

*Färml. 8.* Ef maður rýfur skipan á Smálandi eður Gotlandi, *etc.*

Eg innfæri þessa grein, svo sem hún er í þeim gömlu og

góðu kálfskinnsbókum; en þetta Gotland er ein ey umflotin í Austursjónum nær því miðjum og nokkru norðarmegin þessa lands, sem horfir millum vesturs og suðvesturs, liggur í norður frá þeim nafnfræga stað Danzig. En sá endi Gotlands, sem veit til landnorðurs áttar, liggur nær í norður Konúngsbergi, ef að treysta má sjókortunum, svo að Smáland, það er eg eptir á á sínum stað um skrifa, verður nærri suður eður suðvestur frá þessu Gotlandi; það kalla nú Danskir Gulland almennilega, og koma þaðan þau góðu Gullands borð, sem híngað færast og bestilt verða. Segir hinn danski pílagrímur Ove *Flugs*[1], að í þeirri borg á Gotlandi, sem heitir Visby, hafi fyrr á öldum verið kauphöndlan merkileg af allskonar vöru frá Moskou, Persia og Grikklandi, svo þá væri líklegt, að margir hefðu tilsókt slíkt að kaupa. Nú læt eg hann ábyrgjast sögu sína, en til Gotlands sýnir lögbókin fyrir víst að fornmenn vorir hafi átt kaupstefnur. Má þá ei gleymast að greina millum þessa Gotlands og Gautlands í Svíaríki, sem áður er frá sagt.

## Gráskinn.

Framfærslub. 13. *Ólpu eður kápu tvídregna fyrir utan gráskinn.*

Hvað merkja skuli þessi gráskinn, verður ljóst, ef að menn hugleiða Egils sögu Skallagrímssonar, þar sem hann skýrir, að Þórúlfur Kvöldúlfsson hafði af Haraldi konúngi sýslu á Finnmörk, og átti þaðan að greiða Finn-skattinn. Sendi Þórúlfur konúngi skattinn með Þorgils Gjallanda. En áður en skatturinn afhendur yrði, segir Ölver Hnúfa: „Enginn mun sèð hafa jafngóða grávöru". Og þá skatturinn var afhendur, segir um Þorgils: Hann færði konúngi bjórskinn nokkur, er Þórólfur sendi honum". *Item:* „Ári síðar greiðir Þórólfur skattinn af hendi". Og strax eptir: „Þá bar Þórólfur fram bjórskinn nokkur og safala". En árið þriðja, þegar af Þórúlfi var sýslan tekin, og hann sendi knörinn kaupferð til Englands, segir sagan, að hann lèt þar á bera skreið og húðir og vöru ljósa, þar lèt hann og fylgja grávöru mikla og aðra skinnavöru. Þar um sögðu Hildiríðar synir við Harald kóng: „Knör nærri hlaðinn af grávöru". Þar hygg eg að finnast mundi bjór-

---

[1]) Plugs.

ar og safali. Að hugleiddum þessum greinum sögunnar, er auðsýnilegt, að í þann tíma voru þessi gráskinn, það er grávaran af Finnmörkinni, í miklu verði; og þau fyrirbýður Framfb. 13. kap. þeim að hafa til fóðurs undir yfirhöfn sína, sem þó eiga 80 hndr. Má það og sjá af Noregs konúnga sögum um Harald konúng Sigurðarson, að mikils þókti vert um þessi gráskinn, þar eð segir Oddur Ófeigsson við skipverja sína, að engi maður á kaupskap að eiga við Finna norður hèr, nema með konúngs leyfi eður sýslumanns; en Haraldur konúngur síðan við Odd, grunaðan um Finn-kaupin: „Vera munu sakir til þess, þó þèr væruð allir uppfestir". Síðan segir konúngur: „Eigi kunna eg að gefa þeim dauðasök á, meðan mèr var . . til." Þetta sýnir, að lífsstraff hafi við legið, ef þessi grávara var keypt að óleyfi konúngs, og því er ekki að furða, þó svoddan grávara væri hèr á landi dýrmæt. En lángt er frá, að þessi grein lögmálsins banni mönnum að fóðra klæði sín með melrakka belgjum, þó gráir sèu, eður katta nè lambaskinnum, ef hann megnar að láta þau svo verka, að þau megi til klæða fóðurs brúkuð verða, v. Chr. IV. NL. Kpb. 9., þar er konúngi skilið Loss og Morskinn, ɔ: skinn af Mustela Schytica; en úlfa, refa, oturs og bjarnarskinn og aðra villi-vöru, ɔ: villidýra skinn, mega þeir kaupa, sem megna.

## Grið, griðmenn.

Magnúsar k. brèf. *Grið sett og siðsemdum lýst.*
Þíngfb. 5. *Allir þeir menn* etc., *skulu í griðum vera.* Item: *En ef einhverr gengur á þessi grið,* etc.
Mannh. 19. *Sjálfsett eru grið í þessum stöðum öllum.*

Engin verður betri skýríng á gjör, hvað orðið grið skuli segja, en sú, er gjörði Magnús konúngur, Mannh. 1.: „Vor landi hverr í Noregs konúngs ríki skal friðhelgur vera við annan". Og er þessi glósunnar eginlegasta merkíng í *plurali numero,* svo sem það er í öllum næst áður skrifuðum greinum, og svo títt í fornum sögum og nýum, að ei verður tölu á komið. Hèr á það við allstaðar, er svo kveður, að menn skuli hafa lífs grið og lima. Og svo Mannh. 7.: „Leggi niður vopn sín, og er hann þá friðheilagur meðan," *etc.* En ofan á þessa almennilegu friðhelgi jók það allopt helgi tímans og staðarins; og til þess að allir vissu þann helgi-auka, var það í venju leidt, að lýsa

þá griðum, og jókst þá að helmíngi (tvöfaldaðist) bæði rèttur konúngs og þíngmanna, sem vottar Þíngfb. 1., Mannh. 19. Var sú til þess orsök, að helgi þeirra staða eður þeirra tíma var svo stór áður, að þó einhverr hefði til saka gjört það, er hann mætti á öðrum stöðum eður tímum óhelgan gjöra, þ. e. friðlausan og ógildan fyrir vopnum þeirra, er sakir áttu við hann, þá átti hann þó á griðastöðunum svo helgur að vera, að þar, sem hann er sakaður, mætti þó ei leggja höndur á hann, fyrr en lög og dómur hefði skilið hans og þeirra í millum. Sú er önnur merkíng orðsins grið, *in numero singulari,* sem nokkuð víkur frá hinni, og er henni þó ærið skyld, að grið merkir heimili manns, það er: hann á um ákveðinn tíma heimilis-heilagt, svo þar skal á honum heimilis-helgi og heimilis-rèttur vera, slíkur sem seinni hlutinn Mannh. 19. frá skýrir, og til er bent *ibid.,* þar eð segir: „það er óbótamál, ef maður vegur mann innan stokks, *etc.,* að heimili sjálfs hans. Þessa merkíng orðsins grið *in singulari* sýnir Grág. kb. 58. „Prestar skulu sèr hafa grið tekið að 8 vikum sumars, og segja til heimilis síns búum, eður að kirkju, ef þeir hafa þíng.“ Er of lángt að telja þær allar greinir af Grágás, er þetta sýna, og gjörir hún það skýrt *ibid.* 53. kap. Þar telur hún fardaga sömu, sem Jónsbók telur Llb. 8., og kveður síðan svo að: „Þann dag (drottinsdaginn) segja lögin hann að aptni af griði sínu.“ Þetta segir vor Llb. 8.: “Hann er af vist sinni árla mánadaginn.“ Grágás Kb. 55., er griðfángadaga kallar fardagana sjálfa. Eins er þetta þreifanlegt í Grág. Kb. 62. Og enn segir Egils saga Skallagrímssonar, þegar þeir Þórúlfur og Egill komu úr víkíng til Þóris hersis: „Mælti Arinbjörn við Egil: Við munum hafa eitt vetur-grið báðir.“ *Ibidem:* „Buðu þeir feðgar þá Þórólfi þar veturgrið; hann þektist það,“ *etc.* Af þessari merkíngu orðins grið *in singulari* er það, að heimilisfastir menn, þeir eð eigi eiga í búi, heita griðmenn. Rekab. 7. „Ef griðmenn manns finna hval á floti,“ það er heimamenn þeir, er eiga lögheimili að þess bónda, er sèr vill eigna hvalinn, hvort sem þeir hafa róið um daginn frá bæ þeim, er hússbóndi þeirra býr, eða eru þeir í fiski-veri. Get eg fyrir því þessara griðmanna, að þeir eru flestir, er um þá hafa við mig talað, eð meina griðmenn heiti vinnumenn bænda alleina, sem nú er þó auðsætt af framan skrifuðum rökum að eigi er svo. Eða því skyldum vèr ætla, að prestar mundi vista sig til vinnu-

manna stèttar, sem fyrr er getið af Grág. Kb. 58. Eða skyldi nokkrum til hugar koma, að flugauðugir víkíngar, Skallagrímssynir, muni í verkmanna tölu gengið hafa hjá svo ríkum hersi, sem Þórir var, og svo mægðum Þórólfi Skallagrímssyni, að Ásgerður, kvinna Þórólfs, var systurdóttir Þóris? En því ætla eg eigi verði neitað, að bæði prestarnir í Grágás, og Skallagrímssynir í Noregi, hafi griðmenn verið hja Þóri, þ. e. heimamenn hans, er þar áttu heimili, helgi á sèr, ef þeim væri misgjört. Hèr á það skilið við, er Sturl. *lib. 9. cap. 9.* segir, að Þorvarður Þórarinsson, er þá bjó á Hofi í Vopnafirði kallaði sèr misboðið í drápi Kolbeins Grana, þar hann var heimamaður Þorvarðar um veturinn, þ. e. griðmaður, að mínum skilníngi, því svo höfðu Kolbeini verið grið mælt í sama þáttar kap. 6. Útþrykkilegt er í Grág. Kb. 62., að griðmenn ei sèu í verkum fastir, talar þar ljóst um karl og konu. Og ef þetta er ei nóg að sýna það, að griðmenn sèu fleiri en vinnumennirnir, þá athugi menn, að sjálfur Rekab. í þessari grein kap. 7. gjörir ráð fyrir, vera kunni það, að bóndinn (hússbóndinn) eigi ei allt verk þeirra, sinna griðmanna, sem hvalinn finna, og því eru griðmenn hèr nefndir, að bæði meinar bókin fleiri en vinnumenn eina, og þar af, að öll þessi grein og meiri hluti Rekabálks er úr Grágás innkominn í vora lögbók, en miklu færri greinir Rekabálks úr þeim norsku lögbókum Magnúsar kóngs, nema 9. kap.; hann er mestallur úr norsku lögum; en rèttur Norðmanna til rekans er hvergi nærri eins stór og vor, síðan Haraldur kóngur Hárfagri tók undir sig óðöl öll í Noregi; náðu Norðmenn aldrei síðan rekarèttinum til fulls aptur, þó Hákon konúngur Aðalsteinsfóstri gæfi þeim aptur óðölin. Hafa lögmennirnir Sigurður Björnsson og Magnús Jónsson ekki þessa gáð, þegar þeir áttu að gjöra hið fyrsta *project* til nýrrar Íslands lögbókar 1688 *seqq*, því að vèr höfum aldrei hèr á landi mist vorn rekarètt, nema að því alleinu, sem konúngur Kristján fjórði 1595 tók vogrekarèttinn sèr til eignar, sem óvíst er að skeð væri, hefði hans konúnglegu náð verið þar um gjörð sú allraundirgefnasta undirrèttíng, er það hefði fyrir sjónir leidt, sem eg hèr tilbent hefi.

## Greyfi, Jarl, Prestur.

Nú embættis nöfn. Jarl, Earl, hefir sinn uppruna af árum, erli, aldurdómi. Greyfi af graw (grau) (ɔ: sá grái, grá-

hærði) þýzku, sami heiðurstitill og jarl hjá Norðmönnum, *comes* á latínu, af fylgdarmönnum herranna, teknir til að dæma landsrètt og taka skyldur kónga. *Sic* prestur, dregið af *presbyter*, öldúngur, góður gamall maður, því slíkir voru í fyrndinni til embætta teknir, *ut senatores Romani.*

## Gyrður í brækur.

Hafði gyrt kyrtilinn ofan í brækurnar, hökulbrækur þær, sem ná niður á ökla.

## Hálfrètti.

Vígsl. kap. 104.

Kemur til af því, að hann *definerar* fullrètti *ibidem,* og margopt áður *statum* öllum mönnum, *nempe* átta aura ens fimta tygar í öllum sökum, ɔ: 6 merkur, *prorsus contra quam fit in* Jónsbók, sem alltíð setur það til dómara. Grágás setur *ibidem* hálfrètti í þeim orðum, sem færa má til góðs og ílls, en Mannh. 27. skipar þau sektalaus. Það er enn að merkja, að þar í Grágás allvíðast, sem fullrètti liggur við, verður sækjandinn eigandi að öllum helmíngi þess fjár, sem hinn seki átti eptir, þá hann er fyrst búinn að taka af óskiptu sitt fullrètti, 8 aura og 40, ɔ: 6 merkur, eins og landnám í Grágás alltíð er *immobile* 6 aurar, en í Jónsbók stígur það upp og niður eptir vexti áverkans, svo sem miklu meir er *ad naturam rei. Vide infra* Rèttur á sèr *in fine.*

## Hálsan og Heflaskurður.

Farml. 18. Mínka skal sigling með hálsan og heflaskurði. Heldur skal niður leggja, en á aðra sigla.

[1] Þess hefir opt og lengi verið spurt, hvað hálsan sè og heflaskurður, og segja ýmsir eitthvað; en engan[2] man eg mèr hafa svo þetta sagt, að eg gæti skilið, nema svo megi heita, að fornsögur þær, er nú mun eg til minnar sögu leiða, gjöri þar úrskurð yfir; og skal eg segja minn þánka.

[3] Háls heitir á seglum skautið eður skautklóin hver um sig, sú er niður liggur í hornunum, og venjulega er fest í

---

1) § 1,. B. 2) enginn, B. 3) ‖ 2,. B.

skipinu, þar sem hentast þykir, fram eður[1] aptur, svo sem byr er hagstæður, og kalla menn það nú að gjöra skipfast.

[2]Hèr má lesarinn ekki virða mèr til ílls, þó[3] eg nefni, bæði niðurhorn seglsins stundum skaut og stundum hálsa, því þau skiptast til þess, svo sem nú kalla sjómenn horn segla, þau sem niður horfa, hvort sem aptur eptir skipinu er borið, og þar fest skaut, en hitt seglsins horn, sem fram eptir skipi borið verður, kalla þeir háls.

[4]Nú skiljast mèr svo sögurnar, að þessar klær eður hánkar hafi verið á seglunum fleiri en sá eini, hverjumegin neðst á skauthornum, og muni fyrir ofan þær neðstu klærnar eður hánkana hafa verið aðrir svoddan hánkar, upp betur á segljöðrunum, og líkast fleiri en einn, hverr upp af öðrum beggja megin, og sjá menn það enn í dag á hafskipa seglum;[5] og sè það að hálsa seglið, að láta lausar hinar neðstu klærnar, og lækka svo mikið seglið, að hánkarnir, sem næst voru fyrir ofan þá neðstu, sèu nú bundnir niður í skipið, þar sem áður voru hinir, svo þeir efri hánkar gjörist nú skaut og hálsar á seglinu neðan, eður heldur að segja, gjöri nýan háls á seglinu neðan; og svo megi enn aptur gjöra við þá þriðju hánkana, að þeir gjöri ný skaut og nýa hálsa á seglinu, en þeir neðri tvennir liggi þá í skipinu, eður sèu kastaðir fram undan seglinu, og undnir, svo þeir ei taki neinu veðri. Er þá seglið lækkað um svo mikið, sem þessir niðurdregnu hálsar hafa kipt því ofan, og segi eg, að þetta sè að minka siglíng með hálsan.

[6]Sögurnar, sem hèr til leiða mína þánka, eru: 1) Noregs kónga-tal. Það segir svo: „En þá er Ólafur kóngur (Digri) sá siglíng Erlíngs (Skjálgssonar), mælti hann, að hálsa skyldi seglin, þá hafi Erlíngur Skjálgsson heflað á skeið sinni, að eigi skyldi hún gánga hvatara en önnur skip. Þá mælti Erlíngur: Nú lægist segl þeirra, og draga þeir nú undan oss. Sláum við öllu segli á skeiðinni, og svo var gjört; gekk þá skeiðin skjótt fram hjá skútunum.

*Nota!* kóngur skipar að hálsa seglin, og svo var gjört; þá segir Erlíngur, að lægist segl konúngs.

2) Um þetta sama efni segir Ólafs saga eptir Flateyar bók: Þá lèt hann (Ólafur kóngur) kalla skip frá skipi, að síga

1) og, A. 2) § 3., B. 3) það, B. 4) § 4., B. 5) § 5., B. 6) § 6., B

skyldi láta seglin, og heldur seint, en svipta af handrif, og svo var gjört. Þeir Erlíngur fundu það". *Et mox* segir hann (Erlíngur): „Nú lægir segl þeirra". 3) Enn um sama efni segir Olafs saga L. lögmanns með hendi sèra Eyólfs prests á Völlum í Svarfaðardal eptir *membrana* góðri: „Þá lèt hann (Ólafur kóngur) kalla, að síga skyldu seglin, og heldur seint, en svipta af handrifi neðan". *Ac mox:* „Erlíngur mælti: sjáið þèr ei, að lægir segl þeirra"?

[1]*Nota!* að hálsa seglin, láta síga seglin og svipta af handrif, *item* láta síga seglin og svipta af handrifi neðan, er hèr allt hið sama, svo það er nú ljóst, að lækka seglin með því móti að svipta neðan af þeim handrifi, er að hálsa seglin. En hvað getur annað verið að mínka siglíng með hálsan, en að hálsa seglin? En að svipta neðan af handrifi er[2] að fella, eður niðri liggja láta, eður fram undan seglinu að beygja af seglinu rif handar-breitt.

*Notum est* rif í sjó eður vatni landjaðar eður grynníng mjó, að líkíngu rifbeina í kvikum skepnum. *Sic* handfáng köllum vèr handarbreidd, *palmum.*

4) [3]Enn mælir svo sagan af Friðþjófi Frækna: „Þá kom áfall svo mikið, að leysti frá báða hálsana", það skil eg neðri skautin, og eru hèr nú tveir hálsarnir; þó nú kalli sjómenn, sem áður segir, það háls á seglinu neðan, sem fram eptir skipinu er borið, á hverja síðuna sem það er, en hitt skaut, sem aptur með skipinu er fest, þá hefir það áður verið *promiscuum,* sem vottar þessi grein, því að þótt sagan sè *fabula* eður *fabulosa,* samt talar hún rètta túngu sinnar aldar.

5) [4]Hèr vík eg því við, sem í Eddu stendur; þar telur heiti hlutanna, sem á skipunum eru: „hefill, háls, hánki og höfuðbendur"[5]. Allt eru þetta bönd. 6) Þessa grein hefir *codex Wormianus* nokkuð öðruvísi; þar stendur: „söx, stoðníngar, sviptíngar og skaut". Hvað munu þessar sviptíngar annað en það, sem Ólafs Helga saga nefnir „að svipta af handrif neðan", sem híngað til hefi eg um talað.

7) [6]Leiði eg hèr til umþenkíngar[7], það enn heitir í daglegu máli háls á neti og net-háls, það eru endarnir á netinu.

---

1) § 7., B. 2) enn, A. 3) § 8., B. 4) § 9., B 5) höfuðbenda, A. 6) § 10., B. 7) beþenkíngar, A.

Nú heita netin voðir í Llb. 56.: „draga voðir að hverju landi, sem hann vill". Segl heita og voðir alltítt í skáldskap, og enn segja menn, að sjór sè ekki voðhæfur, þá of hvast er að sigla. Hákonar saga *anno* 1226 segir: „Þá hvesti svo, að varla var voðhæft á konúngsskipinu". Því munu þá eigi segl og net eiga mega háls-nafnið saman í endanum?[1].

8) [2]Enn í dag heitir í daglegu máli, að þeir, sem saga viðu, hálsi[3] trèð með söginni, [þegar þeir gánga of mikið fyrir sagarfarið[4], og gjöra þar með á báðum (efra og neðra) hlutum trèsins bjúgar bárur, sem hver kemur eptir aðra rètt[5] í þá líkíng, sem bugtir[6] á segli, og það mundi smá-stöllótt eður bárótt verða, ef á því sæi[7] mót eptir hvern[8] hálshánka, sem neðan af seglinu [væri feldur[9].

[10]Heflaskurður. Hæfill eður hefill heitir band, sem haft var til að hefja með seglið allt eður nokkuð af því upp undir segl rána. Og þegar allt seglið var hafið þannig með heflinum, hefir það allt við rána bundið verið, og urðu þá á seglinu stórir belgir, eða svo sem bogadregnir pokar á millum heflanna, sem enn nú má daglega sjá á skipum, þá segl eru bundin við rárnar. Og[11] í einn af þessum belgjum millum hæflanna (ɔ: seglbandanna) lèt Þráinn Sigfússon Hrapp, þegar hann fól hann fyrir Hákoni jarli. Þar segir Njála[12] Þráins orð: „Látum vèr Hrapp nú í seglið. [Það var heflað upp við rána[13]". *Et paucis interjectis* orð Hákonar jarls: Þráinn hefir fólgið Hrapp í seglinu. [14]Annar *locus* er í Noregs konúnga sögum [eptir Huldu[15] af Haraldi konúngi Sigurðarsyni um Odd Ófeigsson, þegar hjá honum var leitað eptir Finn-fènu. „Oddur mælti: látið nú koma fèit í seglið, og festit upp við rána". Þó nú að eigi nefni hèr hefil nè hæflan, þá sýnir þessi *locus*, að sama hefir verið aðferðin að fela Hrapp og fela Finn-fèð. Og litlu síðar segir: „Lèt hann (Haraldur kóngur) leita í seglinu, sem annarstaðar", sem strax er sagt, að fest var upp við rána, og sýnist mèr líkast, að allt hafi í þessum báðum stöðum seglið verið við rána bundið. [16]Þriðji *locus* er sá í Noregs konúnga-tali, sem áður hefi eg

---

1) á endunum, B. 2) § 11., B. 3) hálsa, B. 4) frá [: þegar þeir láta sögina gánga of mikið upp og niður frá því rètta sagarfari, B. 5) vantar í B. 6) bugt er, B. 7) er, A. 8) vantar í A. 9) frá [ vantar í A. 10) § 12., B. 11) vantar í B. § 13., B. 12) Njálssaga, B. 13) frá [ vantar í A. 14) § 14., B. 15) frá [ vantar í A. 16) § 15., B.

*allegerað* um hálsan: „Þá hafði Erlíngur hæflað á skeiðinni, að eigi skyldi hún gánga hvatar en önnur skip“. Um efni þess sama segir Ólafs saga eptir Flateyjarbók: „Lèt hann (Erlíngur) þá hæfla, og beið svo liðsins“. Þar segir bók L. lögmanns: „Þá lèt hann (Erlíngur) hæfla, og beið liðsins“. [1] Hèr ætla eg, að Erlíngur ekki hafi látið binda allt seglið upp, því ekki mundi hann láta taka allan gáng af skipi sínu, eður láta renna af tómum reiðanum; kynni því innan eða utan á seglinu ofarlega hafa fastar lykkjur eður hánkar verið yfir um þvert seglið, og af svoddan haunkum hafi verið tvær raðir eður fleiri, og í þær hánkir hafi dregnir verið hæflarnir (böndin), og með svoddan hætti hafið [2] upp seglið meir eður minna, svo að þeir hánkarnir, sem í voru dregnir hæflarnir, hafi verið hafðir upp undir seglrána, gengur þá ofan af seglinu það allt, sem varð fyrir ofan þessa hánka, og fellur sá hluti seglsins í flata lykkju eður brot, sem þrædt er upp við rána með mjóum snörum; það kalla sjómenn nú að [ripta seglið [3], er svo er gjört; fer þá seglið við veðrinu eins og jafnmikið væri skorið ofan af því, og þetta nefnist hæflaskurður, því hann gjörist á seglinu með heflunum; mínkar og þar með siglíngin, því að þá hleypur mikill hluti veðursins undir seglið.

[4] Nú þótt eg sjái, að þetta kunni svo að vera, og er að vísu nokkurn partinn, þá vil eg þó enn fremur *ratiocinera* hèr um, og tek þar til, sem áður hefi eg sagt, að mèr skildist ei, sem Erlíngur Skjálgsson hafi látið binda seglið allt við rána. Af því, sem hèr fyrir framan [5] hefi eg *ex antiquis allegerað,* hversu Hrappur og Finn-fèð var fólgið, *collato* [6] við *locum* Eddu, er það *demonstrative* bevísað [7], að hefill heitir á skipum band það, sem haft er til að hefja seglin upp, og binda við rána. Nú er það mönnum kunnugt, að þegar sjómenn fara til að hefja upp seglið frá neðanverðu (það er nú [8] kallað „at-brase op“) eður að taka inn segl sín á hafskipum, þá binda þeir fyrst seglið út á rámúlanum báðumegin, en síðast inn við mastrið; og þá er þeir halda til hafna, fara þeir stundum tómlega að því verki, ef þeim þykir svo haga byrnum, svo að lengi liggur niður seglið á skipinu miðju, þótt utan af jöðrunum sè búið að binda meira eður minna, og eru

1) § 16., B. 2) vantar í A. 3) rifte Seglene, B. 4) § 17. B. 5) ofan, A. 6) collatum, B. 7) bevísar, A. 8) vantar í A.

eptir því að neðanverðu skautin gjörð slakari smámsaman; samt er þó um alla þessa stund nokkurt veður í seglinu [1]. Eins *ex opposito* er aðferðin, þegar sjómenn sigla út af höfnum, að [2] þá er [seglinu fyrst hleypt [3] niður í miðjunni, og þá strax farið að festa skautin báðumegin, og þau eptir því bundin fastara smámsaman, sem leyst verður seglið út eptir ránni. Þegar nú að inn skal taka seglin, og binda þau með heflunum, fyrst út á rámúlana, og síðan smámsaman inn á skipið til mastursins, þá mínkar eptir því veðrið í seglinu, sem það mjókkar meir að ofanverðu, *et per consequens* mínkar siglíngin, eður gángurinn á skipinu, því að hæflarnir, sem búið er að binda, hafa skorið út af seglinu, og ráða skipverjar, hversu mikið eður óðum þeir hefla af [seglum sínum [4]. [5] Og eptir þessari athugan skil eg söguna, að Erlíngur Skjálgsson lèt hæfla á skeið sinni, ɔ: ripta ofan af, eður með heflunum utan af seglinu binda við rána svo mikið, sem honum sýndist, en eigi (svo sem mèr skilst) seglið allt; og því segir hann *loco citato* í Noregs konúnga-tali: „Sláum við öllu segli á skeiðinni, og svo var gjört"; áður var það ei allt við haft, og þó nokkuð af því.

> *Nota!* Til þess lèt Erlíngur hæfla, að skeiðin ei skyldi gánga hvatara, en önnur skipin, og þó eins hvatt, en [6] þau voru öll undir seglum og skriðu, sem hver gat bezt. Þar segir Flateyarbók: „Lèt hann (Erlíngur) hleypa úr hömlu [7] á skeið sinni". Það var hamlað, ɔ: riptað eður brasað, en ei af tekið. Bók L. lögmanns segir: Erlíngur lèt nú hleypa úr heflum seglinu á skeiðinni og gekk hún þá brátt, *etc.* „Heflum" segir hèr, ɔ: böndum, sem það var hafið með. Það hèt strax „úr hömlu", og nú var því slegið öllu við veðrinu.

[8] Enn segir svo Sverris saga, þegar þeir Magnús konúngur og Erlíngur Skakki sigldu út á haf eptir Sverri konúngi: „komu svo nær, að þeir sjá menn á borðum, þá bað jarl hefla (ɔ: brase op), og bíða svo þeirra, er síðar færu". *Et mox:* „Lètu síðan síga úr heflum, og sakja eptir þeim".

[9] Af öllu þessu mun auðsjeð virðast, að það sè að mínka sigling með heflaskurð, að binda með heflinum annaðhvort

---

1) § 18., B. 2) vantar í B. 3) seglið fyrst leyst, B. 4) segli sínu A. 5) § 19. B. 6) vantar í A. 7) segli add. B. 8) § 20. B. 9) § 21. B.

ofan af því, sem nú heitir að ripta, eður utan af ofanverðu seglinu, svo mikið eður lítið sem þörf krefur, að engum verði mein að, sem nú er kallað „at brase op". Og á þetta vel við *sensum* bókarinnar, er talar um, ef menn sigli til mjórra sunda í miklu samfloti, *etc.* Hvað er líkara því en *praxis* þessarar tíðar, sem nú hefi eg um talað?

[1] Hefir það í öllu þessu gjört *difficultet*, að þeim hefir gengizt hjá þessum nú *allegeruðu locis*, og ei ratað á[2], að hefill heiti sá *funiculus nautarum*, sem vafinn er um seglið, þá er við rána skal binda. En lögmálið setur til stýrimannsins athuga og ábyrgðar, hvort hann kýs, að mínka siglíng með hálsan, að neðan, eður heflaskurði, að ofan. Hitt skipa lögin, að hann skal siglíng mínka með öðruhvoru móti. Skil eg svo þessar glósur, sem nú er sagt, þángað til að læri annað réttara, og tek með þökkum, að mèr það kent verði.

## Háls - bók.

*Grág. Ómagab. 7.* Þá skal maður bók hafa, er meiri sè en háls-bók, eður kross ellegar.

*Puto esse* bók þá, er maður bar á hálsi sèr, og á voru þær papisku bænir og *legendur* þeirra, er í skriptum stóðu.

## Harðafáng.

Sýnist vera muni sá órèttur, er maður nær ei fè sínu lög sóknarlaust. Grág. Festarþ. kap. 59.

## Háseti.

*Farml. 7.*

Merkir alla innanborðs-menn, nema stýrimann.

## Háskerðíngur[3].

Rekab. 2.

Llb. 7. *Hann á þar og hnýsur allar og háskerðínga.*

Það er rètt sagt, að háskerðíngur sè hákall, og svo sem Björn á Skarðsá meinar, og það er víst, að hákall hefir nafn af háum, því hann er við hái, þ. e. við keipana bundinn, og há-

1) § 22. B. 2) vantar í A. 3) A skýrir í tveimur línum, hvað háskerðíngur sè, og af hverju dregið.

skerðíngur, af því hann er við hái, ɔ: keipa skertur, ɔ: með tilskornum götum, sem festin er í dregin, bundinn og festur. Svo heitir enn í dag ráskertur fiskur sá, sem svo er í flatníngunni skorinn, að hann er uppfestur á rár, og þær gánga gegnum fiskinn. Annars fortek eg ekki, að háskerðíngur heita kynni allur fljótandi dráttur, sem við hái er bundinn. En með því slíkir eru hèr ei tíðir, nema hákall, hefir hann *obtinerað* nafnið, og engin veit eg rök til, að háskerðíngur kallist annar fiskur neinn en hákall; og skyldi ekki háskerðíngur hákall vera, þá hefir hákall ekkert nafn á meðal þeirra fiska, sem Edda reiknar upp *longa serie.* Mætti það undarlegt vera um svo stóran fisk og svo mjög algenginn bæði hèr og í Noregi; og skuli það nokkuð gilda, þá hefir sèra Magnús Ólafsson í Laufási í sinni *Translation* yfir Eddu, þar sem hann telur háskerðíng, sett í dönskunni hákall; er sá vottur ljós til þess, að svo hefir hann skilið, og þeir, sem honum kent hafa. Nú var hann *Synchronus* Bjarnar á Skarðsá, og sízt fjærri um aldur þeirra, þótt Björn lifði honum lengur. En ljósasti vottur þess, að háskerðíngur sè að vísu hið sama, sem nú köllum vèr hákall, er sèra Pèturs Claussonar Norges Beskrivelse, Kap. 25. P. 115. Hann segir: „Om Vinteren for Juul, naar Natten er længst, da ligge de ude med deres Baader, (Háleygir og annað verfólk í Noregs norðurhluta) dog under Landet, eller paa dybe Fjorder, efter Haaskjerding, hvilken Fisk de nu kalde Haaurkjerling (dog uretteligen), og ligge stundom to Nætter og Dage ude efter een Fisk. Hand bider helst paa Krogen om Natten, thi hand seer da bedst, og skal Agnet, det er Maden paa Krogen være af en raaden Sæl, thi det siges, at Hun kand lugte en raaden Sæl meer end 10 Uger Søes langt, og skulle de have en Jernlænke 2 Alen lang paa Krogen, thi hun haver skarpe Tænder og bider Snoret af, om de have ikke Lænke deri. Denne Fisk fange de for den megen Lever, den haver, thi de kunde udi een Fisk af de største faae trei Lester *(corrige:* Tønder) Lever, hvoraf de kunde sjude 2 Lester *(corrige iterum:* Tønder) Tran. De drage og denne Fisk udi dybe Fjorder paa Isen om Vinteren, igjennem store Huller, som de hugge derpaa. Denne Fisk er ikke saa stærk, og haver Bene saa bløde som Bruske". Hèr sjáum vèr háskerðíng með öllum hákalls merkjum, beitum, vexti, sóknum og lagvöðum, sem enn í dag tíðkast hèr á landi, þá lagðir af skipinu, að sjór er ófrosinn, þá ígegnum ís, að sjór er ísum lagður. Hèr segir art beina hans þá sömu, sem oss er kunn á hákallsbrjóskinu. Það er enn til vitnis mínu máli, að í sátt-

argjörð þeirra Magnúsar kóngs og Jóns erkibiskups, þeirri sem er á Norrænu í þeim greinum, sem ekki standa í þeim latínska *original,* segja sum *exemplaria* Hákerlínga-lýsi, þar sem önnur segja Háskerðínga-lýsi. Nú ætla eg, það enginn efa muni, að hákall og hákerlíng sè hinn sami fiskur. En þetta áður sagt sýnir, að Norðmenn sjálfir hafa kallað hákerlíng og háskerðíng hinn sama fiskinn, er hákalla-haustið nefnir Hákonar saga *anno* 1234, og Hákalla-strönd, svo að líka hafa Norðmenn hákalls nafnið í sínu landi, og nú trúi eg mig sýnt hafa með skilríkum rökum, að háskerðíngur og hákall sè fiskur hinn sami að öllu, sem eg sè, að lögmenn hafa til spursmála fært í lögrèttu 1693, svo sem þíngbók sú Nr. 55. vottar; en það er sami þíngbókar póstur, sem spyr, og svarar um rosmhval og rostúng. Hefi eg í þessum fornyrðum greinilega bevísað, þar sem þeirra röð innfellur, að þær tvær glósur merkja sömu skepnu, hvort sem hún skal heita sela tegundar eður hvala.

## Haust.

Llb. 49. *Eignast hann á þriðja hausti, ef hann hefir at lögum lýst.*

Llb. 50. *Hann eignast á þriðja hausti, ef áður kemur ei eigandi eptir.*

Edda segir svo: *Frá jafndægri er haust, til þess er sól sezt í eyktar stað.*

Og enn segir hún: *Haustmánaður heitir hinn næsti fyrir vetur.*

[1] Eg hefi áður, þar sem talar um allur dagur til stefnu af Llb. 26., margort og greinilega skrifað um eykt og eyktarstað, og þar *ventilerað* þessa fyrrskrifaða grein af Eddu. *Item* hefi eg *in voce* Tvímánuður skilmerkilega sýnt rètta vetrar inngaungu hjá vorum fornaldarmönnum, og vil því ei sama *repetera* til leiðinda.

[2] Nú hefi eg látið mèr um haustsins inngaungu og endíngu[3] í þeim báðum stöðum svo mjög hugað vera, og þar á ofan gjöri nú þar mitt á millum minníngu þess sèr í lagi undir *vocula* haust, að eg sè spursmál verður, hvert þeir, er Llb. 49. 50. talar um, skuli þá strax, er haustið gengur inn, þann 23. Sept., eptir þeim nýa stíl, eður á þess[4] rètta mánaðar inngaungu degi, fimtudaginn sjálfu jafndægrinu næstan,

1) § 1. B. 2) § 2. B. 3) útgaungu B. 4) þann, B.

eignast sauðina, eður ekki fyrr en fram á það líður nokkuð, eður að þess niðurlagi, þá sól gengur í eyktarstað, því að bókin gjörir ei ljósa grein á því, að ekki muni vorir lögspekíngar margt þar um vilja *disputera.* En Grágás í Lbrþ. 37. kap. segir skýrum orðum: „Hann skal segja til fjárins ok til marks á vorþíngi þrjú vor, og reiða þeim verð, er á. Ef engi kemur eptir fyrir veturnætur hinar þriðju, þá á sá enga heimtíng til, er fèit átti". Þetta er sagt um fè það, er virt hefir verið; en um hitt, er eigi var virt, og vor Llb. 50. kap. talar um, segir Grágás í áður *citeruðum* kap. Lbrþ.: „Segja skal hann til, at þar er einkent fè, hvort sem þat eru naut eður sauðir, ok svo til þess, hver einkunn á var, í þíngbrekku á vorþíngi því, er hann heyir[1] sjálfur, ok láta verð uppi, er eptir er komið. Svo skal hann segja þrjú vor, en þá er at hausti kemur, eignist fèit at veturnóttum".

[2] Um þetta hið virta fè segir vor Llb. 50.: „Nú kemur eigandi eður hans umboðsmaður eptir, áður þrjú sumur eru úti, og eigi er virt". Það er enginn efi á, að lögbók vor er gjör eptir hvorutveggjum Noregs[3] lögum, Magnúsar kóngs, og eptir Grágás. Nú er það sýnt, að þessar fyrr skrifaðar greinir Grágásar eru í vorn Llb. 50. af henni innkomnar, en standa hvergi í Magnúsar konúngs Frosta-, Gula-, nè Heiðsævis-þínga bókum; því fylgir það á[4] eptir, að af Grágás eigum vèr þeirra rèttan skilníng að læra. Þó fellur hèr inn sá athugi, að vel má ske, vorir landsmenn, þeir sem Magnús konúngur hefir skipað að *condere legem,* hafi í þessu viljað á einhvern hátt *reformera* hin fornu Grágásar lög. [5] En eg fæ mèr og til íhugunar *termin* það, er vor Llb. 49. setur um hrúta og hafra: „Eignist að allraheilagramessu veturgamlan hrút eður hafur," *etc.* Og að hugleiddu öllu þessu verður fè þetta þrennslags: 1) Hrútar og hafrar; þá skal maðurinn, sem þeir koma ókendir til, eignast á fyrsta hausti strax á allraheilagramessu, þó svo, að í næstu tvö árin heil þaðan í frá, og allt sumarið þriðja skal hann lykja eiganda (ef hann kemur) verð það, er Llb. 49. hefir ákvarðað. En það, sem sauðirnir hafa batnað og uppstigið til verðaura fyrir aldurs sakir frá þeirri fyrstu allraheilagramessu, skal vera þess ágóði, sem sauðina hefir geymt, en eigandans ekki. Það skal og vera þess skaði, sem geymt hefir, þótt þeir farist um það tímabil, því að lögmálið gaf hon-

1) heyrir B. 2) § 3. B. 3) vantar í A. 4) vantar í B. 5) ‖ 4. B.

um leyfi til að skera þá að hinni fyrstu allraheilagramessu, og vera svo skaðlaus fyrir ábyrgð þeirra. 2) [1] Fè það, sem virt er í fyrstu viku Þorra. Ef að eptir því kemur eigandinn, þá skal sá, er fèð hefir geymt, betala slíkt sem virt var, og eignast sjálfur ágóðann, sem fèð hefir batnað, því bæði þetta fè, sem virt er í fyrstu viku Þorra, og svo hrútarnir og hafrarnir, sem lögbókin sjálf virðir á allraheilagramessu, standa í ábyrgð geymandans, og þess vegna fær eigandi verðið, ef hann kemur í rètta tíð, en ágóðann fær hann ekki. 3) [2] Er það fè, sem ei er virt, en þó lýst löglega. Um það eru ljós atkvæði, að eigandi skal fá það með þeim ábata, sem af aldrinum vex, ef hann kemur eptir, áður þrjú sumur eru úti, það er á föstudaginn þann, sem er næsti dagurinn fyrir laugardaginn fyrstan í vetri, ef vèr eigi skiptum árinu nema í tvo hluti, sumar og vetur; en ef vèr skiptum undir eins vorinu sinn hluta, og haustinn sinn, þá verður þetta *termin* miðvikudagurinn síðastur í Tvímánuði, mèr skilst það föstudagurinn seinastur í sumri, því að Grágás segir hèr „at veturnóttum,“ en hún er móðir að þessari grein [hèr tèðri[3] vorrar bókar, *ut supra*. En hina ávöxtuna, ull og nyt, kið og kálfa, eignast geymandi, og þau fríheit að auk, að hann skal, á meðan hann geymdi og annaðist sem sitt fè, að engu ábyrgjast, svo að hafi það farist ásamt hans fè, eður af einhverju voveiflegu tilfelli úr sömu geymslu, sem hans eigið fè, geldur hann ekkert verð, þegar hann að eins annaðist, svo[4] sem sitt fè; þó skal hann hafa ull og nyt, kið, lömb[5] og kálfa.

[6] Margur kannske dæmi, þetta sè buldur eitt og þvættíngur; en eg vil kjósa vitugra manna atkvæði, hvort að svo sè, eður hvort að ekki vantar enn nú þann úrskurðinn, nær á haustinu þriðja skuli geymandinn eignast þá tvenna sauðina, sem Nr. 1. og 2. umtalar. Eg meina svo að eignast þá, að hann eigi þurfi það andvirði, sem bókin segir um hrútana í Llb. 49., eður virðíngarmenn á Þorranum í Llb. 50., eigandanum forna í fè að láta, þótt hann komi þaðan í frá. [7] Enga minnist eg þá grein lögbókar, sem úr þessu greiði skýrlega, en eg þori ei að binda mig aldeilis við Grágásar þriðju veturnætur *propter metum reformationis*. Ef að bók vor segði „að þriðja hausti,“ þá skilda eg það með inngaungu haustsins þriðja. Nú segja allar mínar lögbækur „á þriðja hausti,“ því þori eg

1) § 5. B. 2) § 6. B. 3) frá [ vantar í B. 4) vantar í A. 5) vantar í B. 6) § 7. B. 7) § 8. B.

hvorki geymanda nè eiganda fjárins að dæma haustið allt, og frá hvorugum þori eg allt haustið að taka, og því skilst mèr það rèttast, að sá, sem fèð hefir átt, skuli ná þess andvirði, svo sem virt hefir verið, ef hann kemur eptir einhvern tíma á haustsins fyrra helmíngi, sem endast á fimtudagskvöldi, þegar daginn eptir eru 15 nætur til laugardagsins fyrsta í vetri. En þaðan í frá skuli sá, er geymt hefir, ekki skyldur andvirði að gjalda, þótt vitjað sè, því að haustsins allur helmíngur hinn seinni, skuli honum til góða koma, í þá líkíng, sem skipa Kristjáns fimta NL. *lib. 5. cap. 4. art. 13.*

## Handgenginn.

*þíngfb. 2.*

Þeir heita handgengnir menn, sem nafnbætur hafa þegið af konúnginum, og ef þeir halda lèni eður veizlur þær, sem einhver kóngsþènusta fylgir, og fyrir sakir sæmda þeirra, er kóngur hefir þeim veittar, skulu þeir hafa frelsi frá lögrèttunefndinni.

## Haukstalla-konr.

*a,* Þjóðólfur kvað:

| | |
|---|---|
| *Andaðr er sá,* | haukstalla-konr |
| *er of alla brá,* | *Haralds bróðursonr.* |

*b,* Sigurðar kviða í Sæmundar Eddu:

| | |
|---|---|
| *Hitt kvað þá Gunnar* | *heiptgjörn kona,* |
| *gramr haukstalla:* | *glöð á gólfi,* |
| *hlær-attu at því,* | *at þèr góðs viti.* |

*c,* Oddrúnar-grátur:

| | |
|---|---|
| *Vilmundr heitir* | *hann varði mey* |
| *vinr haukstalla,* | *vænnri blæu.* |

Haukstalla-konur, barn, sem haft er á handhnökkum. Haukstallur er hönd; hnakkur er stóll. Á handhnökkum eru þeir hafðir, sem menn bera á höndum sèr, eins og barn á handlegg sínum. Gramur hauskstalla = *rex omnibus dilectus* = konúngur á handhnökkum. Vinur haukstalla = alltíð á handhnökkum, sá er allopt er hafður á handhnökkum. *Nota* handhnakka *ex* Maríu sögu.

## Hegna.

*Þjófab. 11.*

Það merkir til hagnaðar að varðveita, svo sem það, er umgirt er með trè, eður torfi, eður grjóti.

## Heiðni.

*Mannh. 2. Vekja tröll upp, og fremja með því heiðni. Id est: Tituli legum nostrarum, qui appellatur Hominum Inviolabilitas, seu Jus homines invicem ab omni injuria vindicans, cap. 2. Evocare manes et ethnicismum eo modo committere.*

*Vereor, ne prolixitate lectorem fastidio afficiam, si primum ab etymologia hujus voculæ exordiar; quapropter ut ejus voluntati obsequar, prius indicabo, qua significatione huic sententiæ legum insita fuerit.*

„Heiðni" *significat omnem deorum cultum nec in promisso Messia, nec in revelato Christo fundatum, omnesque ritus religionum, qui invocationem vel cultum deorum gentilium aliquo modo spectant, aut sacrificiis, ut Eyrbyggjæ cap. 2. de Thorolfo Mostrarskegg et ejus posteris, et in historia Vigaglumi, cap. 9. de Thorkillo de Thvera taurum Freyo immolante; aut consecrationibus rerum suarum, ut Hrafnkillus, sacerdos choronomus equum Freyfaxa Freyo sacrum esse jussit, historiæ ejus cap. 3.; aut territorii habitationis culturæ destinati, ut Asbjörno Reirketilli filius consecravit Thoro terram a se occupatam, et* Þórsmörk *appellavit, ut refert* Landnáma, *p. 151.; aut invocationibus, uti Helgo Magri (id est macer) invocabat Thorum ad felicitandas sibi navigationes et omnia strenuiora facta; aut incantamentis, uti Svanus fecit,* Njála, *cap. 9., quorum innumera exempla.*

*Testem adducimus Jus Canonicum Thorlaci Runolfi filii et Ketilli, episcoporum, cap. 9.:* „Þá blótar maður heiðnar vættir, ef hann signir fè sitt öðrum en guði og helgum mönnum hans". *Hoc est: Tunc virtutes quivis invocat profanas, si pecus suum aliis, quam deo et sanctis ejus adsignat. Enumerat protinus idem caput varias ethnicismi species, quibus diversas poenas, diversas animadversiones,*

deinceps irrogat. Leges nostræ vero, Mannh. 2. certis nominibus prosequuntur eas species ethnicismi, quas causas capitales, modo patrentur, statuunt; *Fordæðuskap* (veneficia) *og spáfarir allar* (et cunctas oraculorum gentilium sollicitationes), *og útisetur* (nocturnas sub dio mansiones, carminibus oberrantium spirituum responsa extorquentes), *að vekja tröll upp, og fremja heiðni með því* (evocationes manium, et committendo per hæc ethnicismum).

Concordant hæc in omnibus illis sex egregiæ antiquitatis membranis, quæ mihi versantur in manibus, omnes 300 annis vetustiores; sic quoque in tribus membranis paulo recentioribus, omnibus tamen ante Reformationem conscriptis. Sic in *Frostaþings* et *Heiðsævisþings* legum codicibus regis Magni Legum Emendatoris. Sic in legibus Haquini regis, et ejusdem legibus Frostathingensibus. Verum leges Gulathingenses Olai Tranquilli statuunt hanc sententiam inter nova juris, adscribentes id Magno regi Erlingi filio in Jure Canonico; ibi enim sic habetur: „*Fordæðuskap og útisetur, að vekja tröll upp, og fremja heiðni með því* (explicationem vide supra). Hæc ea de causa tam dilucide refero, quod impressi legum nostrarum codices et ad eorum tenorem exarata exemplaria hanc periodum valde corruptam habent, quemadmodum in voce *Forneskjuskapur* demonstratum est, quæ vocula impressis perperam, ut et particula „*eður*“, simulque per corruptelam exclusa particula „*með því*“.

Recensuere leges in hoc commate species ethnicismi capite luendas ex intentione, ne commiscerent eas minoribus ethnicæ superstitionis speciebus, quæ non protinus inexpiabiles essent, sed pecuniis aut exilio mulctandæ; nam „*heiðni*“ vox est generalis, sola quatuor ante dictas species complectens, et multa præterea, quorum nonnulla videre licet in vocula „*Forneskjuskapur*“.

Historia Erici Rufi, cap. 6. multos enumerat ritus Thorbjargæ, quæ Parva Vates nuncupabatur, quum pyromantiæ accingeretur, nam illa cognata est *spáförum* (oraculis gentilium), ut in voce *spáfarir* monemus, et *fordæðuskap* (vene-

hefi eg aðra sèð, er eigi setji hèr „hún" með skýrum stöfum. Sagt hefir mèr Assessor Árni Magnússon, að hann hafi eina þá *membranam* lesið, er setji hèr „hann", og sýnir það *natura rei*, að svo á að vera, því hvar fyrir skyldi móðir mega frá sèr láta heldur þau sín börn fèlaus, er hún hafði getið með öðrum manni, heldur en þau, sem með þeim síðasta voru getin? Því hvortveggja eru þó hennar börn, og fèlaus, svo sem hèr greinir, þar sem hún á þó nokkurt fè þeim til framfærslu, hvernig má hún skyldast til að fæða heldur þau ýngri börn en þau eldri? Lögmálið segir: „Hún skal veita sínum börnum vörð", en eigi segir það: „börnum þeirra", svo þar af kynni að ráðast, að meint væri annaðhvort þau allein, sem hún hafði getið með þessum manni, eður þau öll, sem þessi síðasti væri faðir að, svo þar af mætti dragast, að stjúpbörn hennar væri og með talin. Nú er það enn, að ef ei skyldi hèr lesast „hann", þá er hvergi ráð gjört fyrir hans börnum, ef hann á önnur (börn) en af þessari konu, svo að öll *fundamenta juris, æquum et bonum*, lúta til þess sameiginlega, að hèr á að standa „hann" (dauði bóndinn) á önnur börn, þau er sèu stjúpbörn þessarar ekkju, þá skulu þau hverfa til föðurfrænda sinna. Og svo ber öllu saman við Framfb. 2: „Eptir því sem fèlag þeirra var gjört". *Item:* „Þau börn, er feðrum fylgja". Þótt einhverr vildi segja, að tilgjöfin í konu málanum sè af þessu síðasta mannsins fè, og því skuli hún fyrri annast sín seinni börn, en hin fyrri; þá svara eg: En ef hún hefir og tilgjöf fengið eptir föður sinna fyrri barna. Væri svo, þá er þessi síðasta tilgjöf betöluð með ávöxtum hennar fjár, svo sem eg hefi með rökum sýnt um orðið gagngjald, *vide* Gagngjald.

Hvað sem hèr um er að hugleiða, þá forundra eg mig stórlega, að svo skuli standa í *membranis* næsta því öllum: „En ef hún á önnur börn", sem nú hefi eg um talað; því hvað er það, þótt assessor Árni Magnússon hafi sèð eina bók, *membranam*, sem segir „hann", af svo mörgum, sem hann lesið hefir, og á sjálfur 30 eður fleiri? Frostaþíngsbók mín *accurat* eptir *membrana*, sem eg eignaðist frá Leirárgörðum, eptir Sigurð Arason, lögmanns Oddssonar biskups, en eg fèkk assessor Magnússyni, svo og Heiðsivjaþíngsbók, accurat *apographum* eptir *membrana*, sem átti Sigurður Björnsson lögmaður, lesa hèr báðar eins: „Ef hún á önnur börn". Nú hefi eg áður með röksemdum sýnt af *jure gentium, æquo et bono,*

sem er *regula universalis* til að finna grundvöll í skilníngi laga, að það getur ei staðizt, að móðir sè einu sínu barni heldur um framfæri skyldug, en öðru, ef þau eru bæði fèlaus og föðurlaus, og bæði framfæris þurfandi ómagar. Hitt hefi eg og sýnt, að vantar í lögbókina ráðagjörð fyrir stjúpbörnum þessarar konu, ef eigi má hèr lesa „hann". Og þótt einhverr vildi segja, að kona þessi hafi mátt eiga frillubörn, áður hún giptist, og sè faðir þeirra nú lífs og skyldugur þeim til framfæris, þá sýnir það bókin sjálf, að eigi sè þetta meint, þar sem hún skipar þau hverfa skuli til föðurfrænda sinna, sem eigi væri boðið, ef á lífi væri faðir þessara barna. En hvernin sem þetta er í mínum þánka óskiljanlegt, þá er það samt víst og óefanlegt, að í þeim norsku lögbókum, sem Noregs lögmenn hafa í höndum haft, þegar Kristjáns fjórða norsku lög voru þrykt 1604, hefir staðið: „En ef hún á önnur börn"; það sýnir sú þrykta bókin augljóslega, Arvebalk 14.: „Sidst døer Bonde, som haffver lagt Fællig med sin Hustrue, eller gifvet hende Hjemgaffve, og hun leffver igien og de ere barnbunden og ikke ere flere Pendinge til offvers, end hun bør at haffve, da skal hun selff sine Børn, hun ved den Bonde haffde, forsørge uden Vederlag. Eyer hun fleere Børn ved anden Mand, da skal hun dennem skicke til fæderne Frænder". Eins er þetta *in manuscripta versione*, sem gjörð er eitthvað í millum 1559 og 1604. Það er til vitnis þar um, að í henni stendur rèttarbót þeirra *Truidt* Úlfstand og Kláus Bilde, sem *anno* 1539 voru *commissarii* í Noregi; en hitt sjá allir, að ekki muni þessi *manuscripta versio* síðan hin þrykta vera útgengin. Get eg svo hèr um ei annað talað, en að *voluntas legislatoris stat pro ratione*, en það er skuld *ministrorum*, sem ei hafa sýnt konúnginum bæði það, að vantaði lögin um hin fèlausu stjúpbörn þessarar konu, svo og, að öll hennar eigin börn væri jafnskyld móður sinni. Það eina *exemplar*, sem assessor Árni lesið hefir, og hèr skrifar „hann", má vera svo tilkomið, að sá sem það ritaði, hefir skygnzt að efninu, og sett það til, er hann sá *juri*[1] *naturæ æquo et bono congruum*, en hugað, að hitt mundi *paragramma* skrifaranna. En til þess hefi eg íhugun mína skriflega teiknað, að ef nokkur lögvitur maður les þetta, meðan eg er á lífi, vildi hann segja mèr, hvað honum virðist, og hversu lögbækur hans hafa í þessari grein, „hún" eður „hann".

---

1) jure, A.

# Hundrað[1].

*þíngfb. 2. Sá er á 10 hundr. eður meira fè.*

Síðan er þessi glósa í bókinni mörgum sinnum, svo sem: *Kgsþsk. 1. ibid. Rb. II. k.* og *Kvennag. 1. Rb. II. k. Framfb. 1.* og *3. Rb. II. k. Framfb. 9. 12. 13. Llb. 31. 57. Rekab. 3. Farml. 4. 22.*

Ekkert er um þessa glósu sèrlegt að merkja, nema það, að þar sem danskir, þýzkir og svenskir enn í dag allir hafa þetta orð í brúkan sinni, meina þar með 10 tugi, þá má það í engri fyrrskrifaðri grein vorrar lögbókar svo skilja, heldur jafnan 12 tugi, svo sem hún ákveður sjálf um faðmatalið Llb. 31. 57. og Rekab. 3.: „Tvö hundruð faðma tólfræð", það er: sem innihalda tólfsinnum 10. Nú er það að fornu og nýu kunnugt öllum, að hundrað í vorri túngu merkir hvergi, sem svo viðhorfir vissa verðaura summu, *certam pretii mensuram,* sem er sex sinnum 20 álnir, eður tólfsinnum 10 alnir, og af þessum tólfsinnum 10 álnum hefir það nafn, að heita tólfrætt hundrað, þegar það talar um einhverra annara hluta tölu, og meinar ekki vissa verðaura hæð. Einnin í verðaura hæðar merkíngunni er *adjectivum* „tólfrætt" aldrei til lagt, þar eð allir vita, sem túnguna kunna, að þar meinast alltíð sex sinnum 20, en aldrei tírætt hundrað, það er fimm sinnum 20. Eins hefir þetta að fornu verið hjá Dönum, Norðmönnum og Svíum, að þeir hafa optar talið tólfræð hundruð en tíræð í sinni liðfjölda tölu, bæði á sjó og landi, svo sem auðsætt er um Dani af Ólafssögu Tryggvasonar. Þar hafa synir Strútharalds 1 hundr. manna til Jómsborgar, og að reyndu liði þeirra fór helmíngur burt, en eptir urðu 60 manna; og kap. 157. p. 159 hafa Vesetasynir 1 hundr. manns til Jómsborgar, var tekið við 80, en 40 fóru aptur. Um Norðmenn sýnir það Noregkonúnga-tal um Ólaf Kyrra; hann hafði 1 hundr. hirðmanna, 60 hússkarla og 60 gesti, sagði sjálfur það væri hálfu fleira, en venja föður hans stóð til. En Haraldur konúngur var vanur að hafa 60 hirðmanna, 30 gesti og 30 hússkarla; hèr er nú 1 hundr. hálfu fleira en 60. Hundrað tólfrætt er sannlega frá heiðni til vor komið, en hið tíræða er líkast, að norðurlönd hafi ekki vitað af, fyrr en kristni kom hèr, og með henni lærdómur þeirrar aldar.

1) vantar í B.

## Hundur[1].

*Mannh. 24.: Ef hundur bítur mann, þá krefji sá hunds, er bitinn var.*

*Llb. 40.: Ef hundur bítur fènað.*

*Þjófab. 1.: Ef maður stelur hundi manns eður ketti.*

Það er með stórum athuga merkjandi, hvort hundar allir skulu undir sömu merkíngu eður reglu. Segir almennings mál, að hundur dýrtækur sè hundrað til verðaura, og er hann að sönnu þess verður, ef hann veiðir dyggilega. Smala-hundur segja menn að sè 10 aurum, og tel eg þá gilda: dýrköttur 5 aurum, og mun það ei felt verða. Hvernin mun þá þjófurinn sækjast svo sem fyrir hvinnsku, því kötturinn verður í eyris stuldi, fjárhundur í merkur stuldi, dýrhundur í tveggja marka stuldi, og þá vèr teljum hunda þessa og ketti helmíngi verðs ódýrri, en nú var sagt, þá verða þeir lakari í eyris stuldar röð, en dýrhundur í merkur stuldi? Eg sè eigi, hverju hèr til verður svarað öðru, en þetta skiljist um allt það, er minna er vert en til eyris. Munu því bæði hundar og kettir verða metfè, svo vel sem knífur og belti, ef það er eyris-vert eður meira. Hverr má þola, að silfurbelti og búnir knífar skuli til hvinnsku reiknast, en sauður veturgamall til eyris stuldar. *Lucas Debes* í sínum „Færeyum", kap. 2. p. 120 og 121. segir skýrt af þeim merkilegu fjárhundum, og greinir þeir sèu metnir þar jafndýrt við kýr Færeyínga. Nú þótt eg viti ei gjör, hvað þar er verð á kúnni, þá samt þykist eg það skilja, að af árlegri leigu, sem þar gengur af kú hverri, ein vog, þ. e. 72 merkur smjörs, en 4 merkur smjörs gilda þar eitt skinn, og eitt skinn gildir þar 4 skildínga danska. Þar geldst og eitt skinn í leigu eptir hverja innstæðu-á árlega, sem Debes vottar, *cap. 6. comm. 2. pagg.* 279, 280, 281. Verður þá leigan jöfn af einni kú og 18 ánum árlega, því eru kýrnar sannlega ekki lítilsverðar: jafnvel þó af Sauða-Brèfsins *art. 5.* sjáist, að sauðir nokkrir muni þar eyris-virðir og sumir minna, *pag.* 268., fylgir það þó ei eptir, að ásauður í konúngsins innstæðu, sem leigan fyrrsögð gengur af, sè með sama verði. Svo eru hjá oss veturgamlir sauðir tveir fyrir eina á með lambi, og sauða dýrleikans mismunur öllum kunnur En þótt vèr *statúerum* á þeirra hverja eigi meir en eyris-virði, og síðan eptir

1) vantar í B.

*proportión* leigunnar 18 ær fyrir kú, og hundinn kúnni jafnan, þá mundi hann þó tveggja marka, tveimur aurum betur. Þó menn vildu segja lögin á Færeyum væru vorum ólík, þá vottar Debes, *cap. 6. pag. 262.*, að þeir rètti sig eptir Noregs lögum, og eru þau oss kunnug bæði forn og ný.

Það er ljóst af Frostaþíngsbók Hákonar konúngs, p. m. 276., að cafanrakki, ef drepinn er fyrir manni, skal gjaldast 12 aurum, mjóhundur 6 aurum, veiðihundur hálfri mörk, og svo nautahundur, en hundur, sem er húsvörður, eyri. Því þótt þessi taxeran hundanna mismuni bæði frá taxta Færeyínga, og þeim, er eg hefi getið að hèr væri í munnmælum, þá er nú svoddan ávalt stór-mun hjá öllum þjóðum, svo sem í Noregi gildir 1 hestur við 3 kýr, en hjá oss eru þau jöfn að verði, þá sýnir þó áður *citeruð* grein Frostaþíngsbókar, að svo dýrir eru þar hundar, ef drepnir verða með öfund, hvað þá, ef stolnir eru? Því mega þeir ei allir fyrir einbæra hvinnsku reiknast, ef þeim er stolið. Það lítur og hèr til, er stendur í landslögum Svíanna, Bygðab. kap. 47. *fol.* 39. Þar eru 6 aura bætur skipaðar fyrir dráp eður stuld á hundi, en 12 aurar, ef það er fjárhundur, sem ekki beit fè; ef þeir bíta fè, þá skulu bætur hálfu minni. Östgota lag. Svíanna í Bygdab. 24. *fol.* 59. Þar gildir fjárhundur 2 aura, en í Upplandslögunum Widarbúab. 29. *f. m.* 50 gildir köttur drepinn eða stolinn 3 aura karlgilda. Í Helsíngjalögunum Widarbúab. 24. *fol.* 21. gildir köttur drepinn eða stolinn eyrir, hundur drepinn eður stolinn 3 merkur til þrískiptis. Í Westgotalagh. Byggíngab. 67. *fol.* 46. liggur eyrisbót við drápi eður stuldi á ketti, en 6 aurar á drápi eður stuldi á hundi. Skaanske Lov, *lib. 9. cap. 21*, leggur 6 aura sök við því, ef maður drepur *Kjeneven*-rakka, halfa mörk, ef mjóhundur er drepinn, 2 aura, ef eyk er drepið. Það hefir Hadorphii 1676 *editio in folio, pag. 35.* Í henni stendur og *Konæu*-rakka; eg ætla það sè sama sem Östgota lag. Bygdab. *24. fol. 56.* kallar „*Köwerne*“, en Frostaþíngsb. Hákonar konúngs *caffan*-rakka, *ut supra.* Hann gildir 6 aura hjá Östgotum. Eg meðkenni, það hinar norsku lögbækur Magnúsar Noregs konúngs segja skýrlega, í 2. kap. Þjófab., orðrètt eins um hunda stuld og katta, svo sem vorrar bókar Þjófab. 1., enda tel eg því fullsvarað, sem áður greinir, að það meinar hund þann og kött, kníf og belti, sem minna er vert en eyrir, en ekki alla hunda, og eru þvílíkir gripir metfè jafnan.

## Hvítasunna, hvítavoðir, hvítvoðúngur.

Hvítan klæðnað báru þeir nýskírðu, og ætla eg þeir hafi svo gengið í 7 eður 8 daga. Eg meina þeir legðu hann af sèr á áttunda degi, frá því þeir tóku skírn. *Lege Bachium, Dominica quasimodogeniti.* Allt eins vottar Kachimius Curæus um hvítavoðir í bænabók þeirri, sem hann hefir gjört yfir helgidaga kríngum árið 1569. Hann kallar og *itidem: Dominicam in albis* næst eptir *pascha.*

## Hyrðíngi.

Sumir segja hyrðir, en flestir hyrðíngi; þar er sá maður meintur, sem hjarðar skal gæta.

## Jálkur.

*Llb. 35. Ef graður hestur bítur [eða lýstur*[1] *jálk til bana, það er algildi. Ef jálkur bítur hross til bana, það er hálfgildi.*

Margt hefi eg heyrt ýmsa menn tala um, hvað jálkur væri, en engan hefi eg heyrt um það tala með rökum, fyrr en Assessor Árni Magnússon sagði mèr, að enn nú sè glósan Jelk brúkuð í Noregi, og merkir hún þar geltan hest. Þegar eg síðan hugleiddi þetta fremur, fann eg, það bevísast með *Christiani quarti* þryktu norsku lögbók, sem sjálfir þeir innfæddu norsku lögmenn hafa sett á dönsku úr Frosta-, Gulaþíngs og Heiðsævisþíngs lögbókum, sem allar hafa þessa sömu grein eins og þær íslenzku lögbækur; þar segir fyrr nefnd *Christiani quarti* norska[2] lögbók, Llb. 33.: „Bider Hors Hestgjelding ihjel, da betale den Hors, Hest aatte, Gjeldingshest igjen, men bider Gjelding Og (ɔ: hross[3] *iisdem translatoribus)* ihjel, da betale den, Gjelding aatte, half saa meget, som Oget var værd". Önnur *manuscripta versio* dönsk sömu lögbókar, litlu eldri en sú þrykta, segir hèr: „End bider Hors galind Hest eller Gjeldhest [ til Dode[4], bode fuld Hesteværd", svo eg efast eigi, að jálkur merki geltan hest, og þykist það nú með[5] rökum bevísað hafa. Horfir og allur texti bókarinnar í þessum kapítula á þá leið, að rètt sè þetta sagt, því að framanverðu talar um graða hesta eður stóðhesta, og þessi grein *contradistingverar* graðan hest og jálk, svo ljós

1) frá [ vantar í B. 2) vantar í A. 3) Hors, A. 4) til Böde, B. 5) vantar í B.

verða líkindi, að þetta væri rètt, þótt eigi fengist svo sterkar bevísíngar, sem nú hefi eg til leidt með *citeruðum* þremur vitnum, hverra sú þrykta lögbókin er þó margra gildi, því að hún vottar, að allir Noregs lögmenn hafi svo skilið, þá eð hún var þrykt; en þótt *etymon* ekki fáist, þá eiga þar með sama *fatum* bæði[1] „hestur" og „meri", en samt vita menn, hvað orðin *supponera.* Til er og enn í dönsku orðið Vallach, *cantherius* og í þýzku [ein Wallach[2], *ex quo, mutato* W *in* J *et adjecto* seinna a, *fit* Jálkur. *Vide disserentem de literarum harum permutatione magnum Salmasium de lingva hellenistica.* Öll er sama *permutatio literarum in* Jættir = vættir, og *Jumneta* = *Vinetha in Trifolio* Assessors Þormóðar, *cap. 12.* Gjarnan vilda eg vita, hver að sèu þau fornu lög, sem Björn á Skarðsá vænist, þar hann skrifar um þetta orð „Jálkur". Svoleiðis segja gömul lög vor, að hann sè og heiti jálkur, upp frá því hann sè 12 vetra; en veita skal eg því viðgaungu, að aldrei hafa þau lög fyrir mig borið[3], og hvorki finnst það í Grágrás, nè þeim hlutum Járnsíðu, ɔ: Hákonarbókar, sem vèr höfum óskerta, en satt er það, að hún er *manca* til vor komin. Í Frostaþings nè Heiðsævislögum hefi eg það ekki fundið, og ætla víst, að ekki muni það í þeim uppgötvast, þar sem eg af *Christiani quarti* Norske Lov og *manuscriptis*, sem eg hefi frá þeim fyrri norsku lögmönnum[4] sèð, þeir hafi það öðruvísi skilið, sem fyrr er sýnt, og þótt það kynni í þeim að finnast, ætla eg eigi[5] að Björn mundi kalla þær vor lög; get eg því til, að Björn muni hèr meint hafa einhverja dröslu af Búalögum, sem af illri meðferð hafi sýnzt ellileg, en spánný verið, og þessi grein diktuð þar af einhverjum sèrvitríngi. Því eigi þykjumst eg mega geta þess til Bjarnar, gætins manns og skynugs, að hann hafi vænzt þar lögum, sem hann vissi engin. Það er víst, að eigi finnst það í Kristinrètti neinum þeirra 5, sem eg hefi lesið, einn í Heiðsævislögum, annan þeirra Þorláks og Ketils biskupa, þriðja Jóns erkibiskups, sem sumir eigna Staða-Árna biskupi, fjórða í Frostaþingsbók Hákonar konúngs Gamla, fimta í Gulaþingsbók hinni fornu, og í engri rèttarbót hefi eg það fundið, og ekki er það í Statútu Gissurar biskups um tíundargjörð. Eigi hefi eg það heldur fundið í dönskum lögum nè svenskum. Hvaðan er það þá?

1) vantar í A. 2) en Wallache, A og B. 3) komið, A. 4) lögum, B. 5) eigi eptir mundi, B.

Vera kann, að einhver munnmæli hafi hèr glapið minni Bjarnar, og hann svo ránkað til, þá er hann skrifaði, sem mundi hann það í lögum sèð hafa.

## Jarl.

Kóngserfð. 8. Llb. 18.

§ 1[1].

Til að uppleita þessarar heiðurs nafnbótar *etymologiam* þarf með gaumgæfni að athuga[2], hvílíkt í öndverðu verið hefir embætti jarlanna. Á því gjörir Snorri Sturluson þá undirvísan um Harald kóng Hárfagra, þá er hann hafði fyrst unnið Þrándheim: „Hann setti jarl í hverju fylki, þann er dæma skyldi lög og landsrètt og heimta sakeyri [og landskuldir[3]. Jarl skyldi hafa þriðjúng skatta og skulda". Samhljóðar það hèr við, það sem eptir á segir Snorri um Hákon jarl ríka: Síðan er Haraldur hinn Hárfagri hafði svo skipað, að jarl skyldi vera í hverju fylki, þá hèlzt það lengi síðan. Hafði Hákon jarl 16 jarla undir sèr". Enn segir Snorri um Hálfdán Svarta: „Þá kom til hans Atli jarl" (það skil eg svo: sá sem í þeirri ferðinni[4] varð jarl Hálfdánar konúngs)" mjóvi að Gaulum. Hann var vin Hálfdánar konúngs. Setti konúngur hann yfir Sygnafylki að dæma þar landslög og heimta skatta til handa konúngi". Þetta skil eg að væri að gjöra hann[5] jarl. Og[5] Snorri Sturluson áður[5] um Hálfdán Hvítbein: „Íngjaldur bróðir Hálfdánar var konúngur á Vermalandi. Eptir dauða hans lagði Hálfdán konúngur undir sig Vermaland og tók skatta af, og setti jarl yfir, meðan hann lifði". Hèr eru jarlar sýslumenn. *Nota* Hákonar kóngs sögu, hvar hvorr þeirra, Hákon kóngur og Skúli jarl, settu sína sýslumenn.

§ 2.

Það er kunnugt öllum, að greifa-nafn er sami heiðurstitill sem jarls-nafn hjá Norðmönnum, en hvaðan það sè dregið, veit eg enn nú eigi til fulls úrskurðar. Münsterus í sinni þýzku Cosmographia, *lib. 3. cap. 21.*, getur þess, að sumir meini þýzku glósuna „Graf" dregna af því þýzka *adjectivo* „grav (grau), það heitir á vora túngu grár, gráhærður, og vita menn, að ellin færir með sèr þann háralit *(vide cap. 20.* sömu bókar); en

1) greinaskiptin eru tekin eptir B. 2) yfirvega, B. 3) vantar í A. 4) fyrndinni, B. 5) vantar í B.

það er að líkindum, að þeir gömlu gráhærðu hafi margt reynt og af reynslunni lært vísdóminn, er þeir hafa skyldu, sem yfir öðrum dæma. Því er það framan eptir öllum öldum hjá öllum þjóðum heimsins í venju leidt, að dómarar skuli þeir einir vera, sem væru[1] vitugir, gamlir og í mörgu reyndir; en fyrir því ellin færði með sèr hærurnar, gráa litinn, þá voru þessir dómarar á þýzka túngu kallaðir „Grau", þ. e. gráhærði maðurinn. Og þegar allir eða flestallir voru hjá þeim gamlir[2] gráhærðir menn, má ráða af því, að hverr dómari var kallaður „Grau", gráhærður, sá gráhærði, eins og *seniores, senatus, senator,* og öldúngar hjá öðrum þjóðum. Og svo hið sama voru sömu greifar *comites* kallaðir á latínu, fyrir þá sök[3], að þeir, sem dómara embættin höfðu, voru af hofþènurum og fylgdarmönnum herranna. Úr þessu þýzka „Grau" varð hjá Dönum, nábúum þeirra, *variante saltim dialecto,* greifi á danska túngu.

§ 3.

Eptir á liðu svo stundir fram, að þó af yfirherrunum yrði einhverjir til dómara settir, sem ekki voru gamlir menn, nè gráhærðir orðnir, þá samt hèlzt við þá nafnið hinna, því það var þá orðið að embættisnafni, þó í fyrstu væri það af háralitnum dregið, alt eins og gengið er orðinu[4] gríska *presbyter,* sem allir vita merkir í fyrstu öldúng, gamlan góðan mann; það vita og allir, að prestur er þaðan dregið, og heita svo nú á dögum að embættisnafni, hvort þeir eru úngir eða gamlir.

§ 4.

Nú hefi eg það skýrt, hvaðan eg meina í fyrstu sè dregin greifa nafnbót og svo embætti þeirra, því það var dómaraembætti. Sumir voru Pfalsgreifar *(judices palatii),* dómarar á hofinu og residenzinu sjálfra furstanna, *conf.* Sachsen-Spiegel, *lib. 2. art. 12. in glossa;* þar segir að Pfalsgreifi sè sá, sem til dómara er settur, yfir sigraða þjóð eður ríki. Aðrir Burg-graven, dómarar í borgunum. Þriðju March-graven (Markgrafen), dómarar við yztu takmörk sinna herra ríkis-umdæma. Fjórðu Land-graven, dómarar á landsbygðinni. *[Adde, quod in vocabulario ad finem speculi Saxoniæ, fol. 270., diserte scri-*

1) voru, B. 2) gömlu, A. 3) orsök, B. 4) orðið, A.

*bitur:* Graff ist ein jeglicher Richter, *idem* Marchgraff, als weit sein Richt gehet[1].

§ 5.

En eptir því sem dómarar þessir fengu sèr innunnið náð sinna herra með trúskap og hollri þjónustu, fór í vöxt smámsaman vald þeirra og metorð, og urðu um síðir úr dómara valdinu lèni stór, og[2] veizlur fengnar þeim, er vel höfðu þjónað, en gengu þó samt ekki enn þá að erfðum, fyrr en þá framliðu stundir, svo að sum af þeim lènum voru gefin til að verða ætteign og erfðagóz, en sum eru greifadæmin lèni alt til þessa dags, *conf. Casp. Hedium*[3] *Hist. eccles. lib. 7. cap. 10. p. 811. [et Ritteri jus feudale*[4].

§ 6,

Mèr verður svarað, að enga skýríng gjöri þetta jarlsnafninu. Eg segi: Að vísu það, þegar þetta verður hugleidt, skulu menn þenkja, að eins hafi það gengið til fyrir jarldóminum. Hann var [í fyrstu[5] dómara embætti, svo sem eg hefi með þremur[6] vitnisburðum Snorra Sturlusonar bevísað; urðu nafnbótinni veizlur að fylgja, svo að jarlinn gæti[7] haldið sig sæmilega, og gjört með trúskap sitt embætti. Voru hèr norður í hinni dönsku túngu, svo vel sem annarstaðar í heiminum, tilsettir vitugir menn og til ára komnir, því segi eg, að jarl sè dregið af aldurdómi, elli, erli. Vita menn, þeir heita á engelsku allt til skammrar stundar „Earl", það er að fornu verið hefir „Erl", og er því orðið jarl, þ. e. öldúngur, *senior, senator.*

§ 7.

Earn höfum vèr fyrir[8] járn, earnhríng í fornvísu í Eddu, Eatmundur, Játmundur, Erde, jörð, Eisern, Eisarn[9], ísarn, *[ferrum,* járn[10].

Emjaðu ulfhèðnar
ok ísarn gullu,

segir Hornklofi, skáld Haralds kóngs hárfagra, hjá Snorra Sturlusyni. Úlfhèðnar þ. e. úlfaskinnum klæddir berserkir

1) þessa grein frá [hefir B fyrir aptan ritgjörðina nokkuð öðruvísi. 2) metorð og, add. A. 3) Hedion, B. 4) vantar í B. 5) frá [vantar í A. 6) þrennum, B. 7) fengi, B. 8) pro. B. 9) vantar í B. 10) frá [vantar í B, sem hefir í þess stað: Earl, jarl, er glósan sama.

Haralds kóngs hárfagra. Emjuðu, *ulularunt*, góluðu upp, sem ólmir vargar. Og ísarn, járnin, *pro gladiis*. Gullu, *stridebant vel fulminabant*, eins og:

Brandur gall á Írlandi.

*Item* Þjóðólfur hinn hvinverski í Haustlaung, sem Edda meðfærir:

Ok at ísarn - leiki
Jarðar sunrinn dundi

(fór svo hart, að dundi undir honum), *et ad ferri ludum [ɔ: pugnam*[1], *filius Terræ [ɔ: Thorus*[2], *adeo impetuose festinavit, ut sonitum ederent viæ, quaqua ibat*, eins og[3] Arnór Jarlaskáld kvað um flótta Valþjófs jarls fyrir Haraldi kóngi harðráða í Noregs - konúnga sögum:

Dyndu jarlar undan,

*Tanto cum terrore comites fugam egerunt, ut sonitum ederet tellus, quaqua fugiebant.*

§ 8.

Erlíngur, Earlíngur, Jarlíngur, er *diminutivum* af Erl, Earl, Jarl.

§ 9.

Nú legg eg það enn þá til, að umdæmi og embætti jarlanna var, sem áður er sagt, að dæma og taka kóngs þegnskyldu, það heitir eptir á sýsla eður sýslan. Sýslan heitir starf, erfiði. Eljan heitir sama, starf og erfiði. Svo kallaði Hornklofi Harald hárfagra eljunfróðan, ɔ: lærðan í starfsemi, reyndan og altaman erviði stjórnseminnar og forsjónarinnar fyrir landi og lýðum, hjá Snorra, þá er Haraldur kóngur herjaði vestur um haf:

Áður fyrir[4] æljanfróðum[5]
allur herr Skota þverri[6].

[Enn segi eg: Eljun eður erljun, af erill eður erli[7], og það heitir enn í dag að erla í starfi og umsjón, at vinna, svo sem plagar árvekni gamalla manna, er fyrir öðrum forsjón hafa.

§ 10.

Það lýtur og til styrkíngar þessari sögu, sem í Rígs-þulu

1) om. B. 2) om. B. 3) om. A. 4) fyrr, B. A her. 5) fróður, A. 6) fèlli, báðar, B. 7) eg segi eljun eður erljun sè af erill, etc. B.

standur, að manndómsmaðurinn, sem Rígur gat við konu Föður, þeirri er Móðir heita skyldi, var, þá er hann fæddist, nefndur Jarl, og síðan Rígur jarl. Hann gjörðist starfsmaður og sýslumaður hinn mesti um alla gagnvæna hluti. Hann fèkk sèr til konu[1] hersis dóttur, þá er Erna hèt, svo sem þulan diktar, og var hún eins ern og sýslunarsöm innan húss, sem eljunarmaðurinn Jarl var utan garðs. Ætla eg af beggja þessara hjóna, Jarls og Ernu, nöfnum sýnilegt, það er nú hefi eg sagt, að Jarl sè af erli og umsýslan dregið. *Vide nostrum* konúngur.

## § 11.

Skil eg nú ekki betur, en allt þetta lúti í sömu átt, og sýni nærri skilmerkilega, að jarl sè af erli og elli dregið, og forsjón þeirri, er af gamalmenni og öldúngum var að vænta fyrir löndum og lýðum[2], lögum og rètti. Og enn virðist mèr hingað hníga, það er Hirðskrá segir, kap. 9., „að konúngur gjöri jarl sèr til lèttis og sæmdar.“ Ætla eg það gjaldi samkvæði mínum áður töldum rökum, og því betur sem Hirðskrá verður athuguð frá 8. til 11.[3] kap. þá ætla eg sýnilegt[4], að elli, erli, ærli sè dregið af árum, áratölunnar fjölda. Þaðan[5] er „að erlast, ærlast“ af stað, það er með árvekni öldúnga til sýslunar og forsjónar að gánga. Eins er af sömu rökum dreginn „erill, ærill“, *quasi* „ærill“, „árill“ af „ár“ = snemma, árlega [*pro* snemma[6], og hèðan er að „erla, ærla“, það er snemma dags með öldúngs áhyggju [í störf að gánga[7].

## § 12.

Það gjörir mèr engan baga[8], sem ótal dæmin sýna, að þegar fram leið tímanum, urðu barnúngir menn opt til jarla settir, svo sem vottar Snorri Sturluson um Hákon Sigurðarson, að þegar herhlaupið varð í Þrándheimi eptir Sigurð jarl innibrendan: „En er her sá kom saman, tóku þeir til jarls og höfðíngja yfir liðið Hákon, son Sigurðar jarls“. Svo var Eiríkur jarl Hákonarson 13 eður 14 vetra, þegar Haraldur konúngur Gormsson gjörði hann jarl sinn yfir Víngulmörk og Raumaríki, sem Snorri Sturluson segir. Hefi eg áður svarað til þessarar *objection*, þar sem talað er um prest og greifa; og því gjörr sem að þessu verður hugað, þess glöggvara sjá menn,

1) om, A. 2) lýði, B. 3) 91, B. 4) þýðilegt, A. 5) þá, A. 6) frá [, om. A. 7) frá [, störf að gánga á, B. 8) ánka. A.

hversu vítt um túngumálin þessi ára og erlinnar ættkvísl og afsprengur útdreifðist.

§ 13.

Það er trúanlegt, að sá nafnfrægi riddari *Anglo-Britannus,* Henricus Spelmann, sem *celeberrimus* Olaus Worm cíterar í sinni *Literatura Runica, cap. 1. p. m. 4,* og aptur *cap. 13.*[1] *p. m. 82,* muni þessa *vocem* Erl eður Jarl enskunnar hafa nóterað í sínum *Archaiologo,* og kannske sagt hennar *etymologiam.* Kynni og vel vera, að Wilhelmus Lombardus í sinni *Archaionomia Anglicana*[2], geti þess, en mèr hefir ei auðnazt að sjá þessara ágætu manna bækur. Eður hvernig megum vèr í fátækt þessa lands til bóka ná, er þær einar sjáum, sem vort peníngaleysi getur hjá hverjum fengið, en engin er á landinu *bibliotheca publica?*

## Jól.[3]

Þíngfb. 9. *Nær jólum en stefndur megi vera fyrir lögmanni 3 nætur fyrir stundar sakir, og heim kominn at jólum forfallalaust. Ei skal um jól stefna.*
Mannh. 19. *Um jól eður skírdag.*

[4]Eg hafði þenkt að gánga fram hjá þessari glósu, þar sem hún er öllum mönnum auðskilin á þessum dögum fyrir Kristi fæðíngar-hátíð, og þá alla 13 daga, sem henni eru hjá kristnum þjóðum eignaðir. En þótt uppruna nafnsins jól sê bágt að finna, því orðið vita menn frá heiðnum mönnum er til vor komið, þeim er af híngaðburði frelsarans ekkert vissu, er það ekki minn ásetníngur í þessum fornyrðum að *etymologicera* jafnan, þótt öðru hverju sýni eg um upprás þeirra mína þánka. En þar eð sendibréf prófastsins í Strandasýslu, sèra Jóns Árnasonar, út af *calendario celeberrimi viri* sál. Johan Brúnsmann vekur mèr þenna *discurs,* þá vil eg gjöra ljóst, hvað mèr virðist líklegt um heiðna fornaldar meiníng glósunnar jól, þótt *etymon* þori eg ekki að segja. [5]Dreg eg þar af allan efa, að orðið jól merkir *proprie* allskonar ríkuglega veizlu, þar sem nægð er sælgætis til matar og drykkjar. [6]Þetta bevísa eg 1) með vísu þeirri, sem kvað Grani skáld um hernað Haralds konúngs harðráða til Danmerkur, og orustu þá, er hann átti

1) 3, B. 2) vantar í A. 3) danice: Juel, add. B. 4) § 1, B. 5) § 2, B. 6) § 3, B. § 1, A.

við Dani, þar sem hèt Þjólarnes í þann tíma; það[1] hefir verið á Jótlandi. Svo segir vísan eptir[2] Noregskonúnga sögum á[3] *membrana:*

Döglíngur fèkk at drekka
danskt blóð ara jóði.
Hörð frá eg hilmir gjörði
hugins jól við nes Þjólar.

Ætt spornaði arnar
allvítt um val fallinn.
Hold át vargur, sem vildi,
(vel njóti hann þess) Jóta.

Hèr sjáum vèr allt hvað til veizlunnar heyrir fyrir þá tilnefndu boðsgesti, að[4] ara-jóð (börn arnarinnar) fèkk danskt blóð að drekka. Ætt arnarinnar spornaði (þ. e. sparkaði og sleit með klónum) vítt og breitt um fallinn val. Vargur (þ. e. úlfurinn) át hold Jóta, sem hann vildi, og þetta kallar skáldið [hugins jól[5] (hrafnsins jól), sem konúngur hafi gjört fyrir Þjólarnesi, því [hrafninn] er og meðal gestanna talinn að þessum jólum (það er ríkuglegum sælgætis veitíngum), er Dönum var hart úti að láta.

[6] Annað vitni mitt er Sæmundar Edda í Loka-sennu, þegar Loki gekk í höll Ægis, þar sem guðin öll, Æsirnir, sátu að veizlu hjá Ægi í Hlèseyu:

Inn skal gánga
Æsis hallir í
á þat sumbl at sjá.

Jól ok áfó
færi ek Ása sonom,
ok blend ek þeim svo meini mjöð.

Hann kveðst á sumbl þetta sjá vilja, þ e. á drykkjuskapinn, svo sem hann er enn[7] nú sumbl eður suml kallaður, kveðst færa þeim jól, þ. e. heilsa þeim að veizlunni, svo sem nú er títt að óska mönnum nýárs gleði, og unna þeim veizlunnar, er sjálfur vilji hann ásamt með þeim njóta; ok áfó þ. e. áfengju drykkjarins, óskandi að drykkurinn skuli megna vel að gjöra þeim ölteiti, svo sem enn tölum vèr, að sterkur drykkur fái á þá, sem drukknir verða.

[8] Það er þriðja vitni, að björn heitir í Eddu jólfuður og jálfaður; jól og jál er allt það sama, svo sem Ólafur og Álafur; fuður eður fiður er sama og funnur [eður finnur[9], þ. e. finnandi, eins og Fiður Árnason = Finnur Árnason, Þorsteinn hólmuður[10] = Þorsteinn holmunnur[11] í Njálu. Breður í Bjarkey miðri, þ. e. brennur, í Noregskónga sögum af Magnúsi kóngi[12] berbein; svo að jólfuður og jálfuður er krása og

1) om. B. 2) í, B. 3) eptir, B. 4) om. A. 5) frá [ om. A. 6) § 4, B. 7) vantar í A. 8) § 5, B. § 3, A. 9) frá [ vantar í B. 10) Holmaður, A. 11) Holmannur, A. 12) vantar í A.

bráða finnandi, því að björninn er ástundunarsamur að finna sèr jól, þ. e. krásir, bráðir, átveizlur.

[1] Fjórði vottur minn er Jólnir, Óðins heiti í Eddu, og Jálfaður, og svo Óðins heiti, hvortveggja dregið af jól og[2] jál, því að Óðinn var höfundur að blótveizlunum, tveimur að vísu, sem vottar Snorri Sturluson, þar sem hann greinir marga og ýmsa setnínga Óðins, og á meðal þeirra: „þá skyldi blóta mót vetri til árs, en að miðjum vetri blóta til gróðrar, hið þriðja að sumri, það var sigurblót. Um alla Svíþjóð guldu menn Óðni skattpeníng fyrir nef hvert, en hann skyldi verja land þeirra fyrir ófriði og blóta þeim til árs.

> *Nota!* Hann tekur[3] skattpeníng til að verja land Svíanna fyrir ófriði; þetta skil eg ei alleina með vopnum, heldur jafnframt með sigurblótum að inngaungu sumars, og skyldi hann fyrir sama skattpeníng blóta þeim til árs að veturnóttum; og þessar tvær hátíðir skilst mèr Óðinn innsett hafi, en miðsvetrar blótinu hafi Svíarnir sjálfir átt á sinn kost uppi að halda, og hafi það eldra verið, heldur en Óðins tilkoma norður híngað.

Af þessari stiptan blótanna, þ. e. þeirra tveggja hátíðlegu veizlanna, sem haldnar voru goðunum til dýrðar, heitir Óðinn Jólnir og Jálfaðir, veizlu stiptari, eður höfundur og faðir, eður veizlumildur, veizlugjarn höfðíngi. [4] Svo heita og öll þau heiðnu guðin Jólnar í Eddu, og leiðir hún til vitnis Eyvindar Skáldaspillis *hemistichium:*

> Jólna sumbl,
> en vèr gátum
> stillis lof
> sem steina brú.

Þetta segir guðanna, sem jólanna gleðskap elska, samdrykkju eður samdrykkjur; „en vèr gátum“ (höfum nú í kvæði sett) „stillis lof“, sem vera mun uppi svo lengi „sem steina brú“, þ. e. undirstöður jarðarinnar, sem sá ólærði heiðindómur hugði á klettum mundi grundvölluð. Og eru leifar þess hjá oss eptir orðskviðnum forna vorrar túngu um það, er vara skuli æfinlega, segjum vèr það skuli verða eldra en steina brú.

Nú er þetta erindisbrot í Eddu svo fáort og *abruptum,* að bágt er að geta, hvað áður staðið hafi næst[5], en eg er af bókum svo vanefnaður, að eigi á eg Háleygja-tal Eyvindar,

1) § 6, B. § 5, A. 2) eður, B. 3) telur, A. 4) § 7, B. 5) vantar í B.

nema þau brot af því, sem í Eddu finnast á víð og dreif, *item* nokkuð í *chronico* Snorra Sturlusonar og nokkur í Noregskonúnga tali; hvort það sè til heilt að finna, vil eg af öðrum læra. Það er víst, að í því kvæði taldi Eyvindur forfeður Hákonar jarls ens ríka allt til Semíngs, sonar Óðins, þess er Óðinn gat með Skaða, dóttur Þjassa jötuns, sem Snorri vottar, og þángað lýtur það eitt erindi, sem í Óðins kenníngum hefir Edda úr Háleygja-tali Eyvindar:

Því at hans ætt (Hákonar),
í hver-legi (ketilslög Óðins)
gálga farms
til goða teljum.

Þetta er tvíllaust úr öndverðu kvæðinu. Nú er það gáta mín, að brot vísunnar, sem fyrr var ritað, muni vera úr Háleygjatals niðurlagi, eður hið allra síðasta, og muni Eyvindur þar hrósa guðrækni Hákonar jarls af ríkuglegri rækt og viðhaldi blótanna, sem öllum er kunnugt af jarlinum, og þessar blótveizlur kallar Eyvindur jólna sumbl, hátíðlegar drykkjur og mannfagnaði til guðanna dýrðar. Væri þá og smiðlega skilið við kvæðið, ei ólíkt og[1] Snorri Sturluson[2] lykur sitt mál í Eddu síðast þessum orðum.

Falli fyrr
fold í æginn
steini studd,
en stillis lof.

Meina eg svo með þessum fjórum vitnum sýnt, að orðið jól merki stór-veizlur, þar sem nægð matar og drykkjar er til sælgætis framborin.

[3] Hèr af eru þær leifar í daglegu máli vorra tíða, að kalla jólfeitt það, sem er svo feitt sem borðker, föt og diskar þeir, sem hafðir hafa verið á borðum undir mat í veizlunum, áður en þeir verða þvegnir aptur. [4] *Item* segja menn að kvoljóla, þ. e. að kvola, svo sem skeður matker og diska, sem í veizlum eru hafðir undir rèttum, svo sem Snorri Sturluson kveður að orði um hödduna í hrossaslátursk katlinum, þá er Hákon kóngur Aðalsteinsfóstri gein yfir, að soðreykinn hefði lagt upp af hrossaslátrinu, og var smjörug haddan, það er kvoluð, kvoljóluð af feiti gufunnar. Og eptir þessu á að lagfæra þá prent-

1) sem, B. 2) vantar í A. 3) § 8, B. § 5, A. 4) § 6, A

uðu Ólafssögu, er hèr um segir, *lib. 1:* „Var þá haddan orðin heit", það á að vera „feit", kvolug af gufunni.

[1] Enn er það til í vorri túngu, að sá[2], sem týnt hefir nokkru, hann hafi troðjólað því eður traðjólað, sumir segja taðjólað, allt í sömu merkíngu, að hafa það niðurfellt til að troðast undir fótum eður velkjast á gólfi, í sorpi, og undir misjafnt hreinum skóm, svo sem opt hendir í stórveizlum, að margur er sveinafár, en sjálfur lítt athugasamur um smáplögg sín, þau er menn þurfa á sèr að bera, matknífa og klúta, jafnvel smávægan borðbúnað, diska og drykkjar-ker, og horfir alt svoddan til jólanna, það er veizlanna, þegar sælkræsíngar og ölteiti gjöra margan allgleyminn, svo þvílíkt fellst um hendur.

[3] Það legg eg hèr til enn, sem almenníngur kallar enn í dag jólabál, það heitir glatt logandi eldur, og allmikið log á ljósum. Það skilst mèr af því dregið, sem skrifar Snorri Sturluson um allar blótveizlur heiðinna manna, eigi fremur um miðsvetrar blót, en hin tvö með vetri og sumri: „Eldar skulu vera á miðju gólfi í hofinu, og þar katlar uppi, og skyldi full um eld bera, en sá er gjörði veizluna og hofgoðinn var, skyldi signa full og allan blótmatinn. Skyldi fyrst Óðins full drekka til sigurs og ríkis konúngi sínum, en síðan Njarðar full og Freys full til árs og friðar." Hèr sjáum vèr nú[4] jólabálið, það er þann skært logandi veizlu eld í öllum blótveizlum, og er það *regula universalis* um gestaboð öll þeirra tíða, sem segir í Hávamálum: „Við eld skal öl drekka", og þá heitir gestaboðs eldurinn jólabál, veizlubál, gestaboðs logi. Laungu síðar, þegar aflögðust[5] þessir fyrrnefndu lángeldar, sem nú hefir sagt verið að hètu jólabál, og Ólafur konúngur kyrri hafði sett konúngs hásæti á þverpall fyrir gafli konúngs hallar, þá komu þau mörgu ljósin í stað eldanna, og á ljósin jólabáls nafnið, sem enn nú heldst í dag; þar um vottar Snorri Sturluson: „Þat var forn siðr í Noregi" *(Fragmentum Hist. Norv.* bætir við: Svo ok í Danmörku ok Svíþjóðu, þar sem voru stór kóngs-bú ok veizlu-stofur), að konúngs hásæti var á miðjum há-palli[6]; var öl um eld borið; en Ólafur konúngur (kyrri) lèt fyrst gjöra sitt hásæti á þver-pall; hann lèt ok fyrstur gjöra ofnstofur og strá gólf um

1) § 7, A. 2) einhver, B. 3) § 9, B. § 8, A. 4) vantar í A. 5) efldust, A. 6) láng-palli, A.

vetur, sem ok sumar". Og nokkru síðar segir Snorri: „Ólafur konúngur hafði þá hirðsiðu, að hann lèt standa fyrir borði sínu skutilsveina ok skenkja sèr af borðkerum ok svo öllum tignum mönnum, þeim er at hans borði sátu; hann hafði ok kertisveina, þá er kertum hèldu fyrir borði hans, ok jafnmörgum,[1] sem tignir menn sátu uppi". Og strax á eptir segir svo: „Haraldur kóngur ok aðrir kóngar fyrir honum voru vanir at drekka af dýrshornum, ok bera öl um eld". Sjáum vèr[1] nú, að hèr af er jólabáls nafnið frá eldinum komið á ljósin þessi mörgu, er í hverri stórveizlu lýsa skyldu, á hverjum tíma árs sem veizlan var haldin, og þó heita þau jólabál, og jól er veizla.

[2] Áður fyrri í sögu af Hákoni konúngi[3] Aðalsteinsfóstra skýrir Snorri Sturluson um ríkuglegan tilfeng að blótveizlunum, og nokkrar þeirra *ceremoniur* með þessum orðum: „Þat var forn siður, þá er blót skyldu vera, at bændur allir skyldu þar koma, sem hofit var, ok flytja þángat[4] faung sín, þau er þeir skyldu hafa, meðan veizlan stóð. At þeirri veizlu skyldu allir menn öl eiga; var þar drepinn allskonar smali ok svo hross. En blóð þat, er þar kom af, þat var kallat hlaut, en hlautbollar þat, er blóðit stóð í, en hlautteinar, þat var svo gjört sem stökklar; með því skyldi rjóða stallana alla[5] saman, ok svo veggi hofsins utan og innan, og svo stökkva á mennina, en slátrit skyldi sjóða til mannfagnaðar. Eldar skyldu brenna[6] á miðju gólfi", *etc.*, *ut supra*. Og engin sè eg hjá Snorra líkindi til, að miðsvetrar blótið hafi neitt haft *peculiare*, nè því einu eiginlegt atferli siðanna frá veturnátta blótinu eður sumarmála[7] blótinu, nema *intentionem* eður tilgánginn, til hverrar farsældar hvert blótið ætlaði sèr að blíðka guðina, svo sem það er áður skýrt af orðum Snorra um blótanna stiptun af Óðni, að þau skyldu þrjú haldast árlega, þar sem áður hafði verið eitt alleina.

[8] Veit eg mèr mun sagt verða: þar sem hið forna jóla hald heiðinna manna var með öllu móti skikkað og siðað á saman hátt, sem hinar tvær blótveizlur þeirra, [því skyldi þá[9] heldur miðsvetrar blótið heita jól, en hinar tvær blótveizlurnar, ef jól þýðir[10] veizla? Eg svara, að miðsvetrar blótið

1) vantar í B. 2) § 10, B. 3) om. B. 4) þannig, B. 5) öllu, B. 6) vera, B. 7) vantar í B. 8) § 11, B. 9) þá skyldi þó. A. 10) það er, A.

hèr á norðurlöndum hafi verið eldra, en Óðins og Ásanna koma norður híngað, og því hafi nafnið jól verið því síðan eignað *primario*[1] fremur en hinum tveimur blótveizlunum, sem Óðinn fyrstur stiptaði, og því sè hann [Jólnir kallaður og Jálfaðir[2] og Æsirnir Jólnar, *ut supra*, að þeir fjölguðu jólunum, enn[3] þótt nafnið síðar á tímum festist einkanlega við hina fornustu hátíðar veizluna.

[4] Nú verður af mèr hèr til vitna krafið. Þau er bágt að leiða, þar sem engar vorar sögur taka lengra fram, en til Óðins norðurkomu, [sem sjá er[5] hjá Þormóði *in Serie Reg. Dan. lib. 2. cap. 4. p. 148*. En það er til líkinda um aldur miðsvetrar hátíðarinnar, sem áður hefi eg ávikið: 1) að Óðinn tók skattpeníngin til að halda veturnátta og sumarmála blótið, [því þau[6] voru ný, og svo það, að hvar sem vorar fornsögur geta jötnanna gestaboða, þeirra, sem hèr skyldu búið[7] hafa fyrri en Óðinn kom, þá er þar ætíð jóla-nafn við blandað, svo mikið sem eg hefi getað *observerað* til þessa, af hverju ráða má, að annaðhvort hètu hjá Jötnunum allar veizlur jóla-nafni, eður þeir höfðu ekki í sinni tíðkan nema þá eina, er þar fyrir hèlt síðan jóla-nafninu fremur hinum, að hún var elzt. Á það hèr að marka, að Jötnar, Jótar, Gotar voru hèr eldri en Óðinn, og voru síðan Jötnar allar þeirra kynslóðir, þær eð eigi tengdust Æsunum, eður eigi[8] gengu þeim á hendur, *confer Thorm. Ser. lib. 2. cap. 2. pag. 100.*, svo sem Þjassi jötun og Gyllíngur[9], Suttúngur og Hýmir[10], voru þó allir þessir ágætir höfðíngjar; það má sjá af dætrum þeirra, er hinir fremstu af Ásum tóku sèr til kvenna, Skaða Þjassadóttur, [Jörðu Hýmisdóttur[11] og Gunnlöð Suttúngsdóttur, frillu sjálfs Óðins, sem margan loftitil fær í Hávamálum. Slíkir höfðíngjar og Jötna kynslóð öll, það er: þeir sem eigi gengust Ásum á hendur, hvar sem þeir hèldu veizlur, heita það jól í sögunum, og því hafa þeir haft þær veizlur fyrri] en Óðinn kom; er[12] og eigi strax við tekið hinum tveimur hátíðum hans, og þótt hans undirsátar og [fyrstir allra[13] Svíarnir tæki við þeim strax eptir hans boði, sem fyrr er sýnt að frásögn Snorra.

2) [14] Það eru önnur líkindi til elli þeirrar veizlu, sem síð-

---

1) prima ira, A. 2) Jólnir, Jálfaðir kallaður, B. 3) og, A. 4) § 12, B. 5) Rimbegla segir, B. 6) það, A. 7) boðið, A. 8) vantar í B. 9) Gyttíngur, A. 10) Gýmir, B. 11) Gerði Gýmisdóttur, B. 12) om. B. 13) allraheizt, A. 14) §.13, B.

ast behèlt jóla-nafninu, að þær heiðnar þjóðir hátt suður í Þýzkalandi, sem ekki sýnast dýrkað hafa guðdóm Óðins, hèldu þó hátíðlega og árlega veizlu allnærri miðjum vetri, sem vottar Caspar Hedion, *Hist. eccles. lib. 6. cap. 8. [p. m. 757*[1]. *Bonifacius,* öðru nafni kallaður *Vinfredus,* skrifaði til páfa Zachariam, hversu þeir Þýzku væri holdlegir, plumpir vanvitríngar, bæði þeir Beyrar og Frakkar, „og þegar þeir sjá, „að í Róm skeður eitthvað þeirra hluta, sem menn [ávíta þar „fyrir[2], meina þeir sèr sè það og leyft, og segja þvílíkt árlega „gjörast í Róm, að menn dansi bæði daga og nætur á stræt-„unum í kríngum st. Pèturs kirkju, eptir heiðinna manna skikki „á nýársdag, *item* eptir heiðnum sið að halda fagnaðarhróp, og „að sýngja allra handa galdravers og kvæði og að hlaða borð-„in með mat þá sömu nótt". Ætla sumir, að orðið[3] „Weinacht", vín-nótt (jólanótt), hafi sitt nafn fengið af slíku víni og sætum áfengum drykkjum. Þetta er talað um þær Þýzku þjóðir, sem lifðu hèr um *anno Christi 750,* samtíða *venerabili Bedæ,* og trauðir voru að taka við kristni. Hvað gengur nær en þeirra Weinacht af víni dregin og jól heiðíngjanna með veizlu nafni *kat'exochen* svo kölluðu, þar allar veizlur hètu þá jól, svo sem eg hefi rök til sýnt? Hvað má líkara vera þessu [Þýzk-ra heiðíngja[4] jólahaldi, kvæðum og[5] dansleikum, en vökunætur þær, sem hèr á landi vöruðu fram á vort minni með dansleikum og kvæðalátum, etc., sem fyrir utan allan efa voru leifar heiðinna manna hátíðis-siða, og voru gleði kallaðar, eins og hjá þeim hètu blótveizlurnar mannfagnaður, sem Snorri vottar?

[6] Nú verður mèr svarað, að þar sem eg segi, að *vocula* jól merki sama og veizla, þá sè önuglegt að kalla jólaveizlu, því það væri sama og veizlu-veizla. Hèr til svara eg: það er ekki meira önuglegt en að kalla blótveizlur, því að orðið blót merkir og svo veizlu þá, sem gjörð er guðunum til heiðurs, og offranir fylgja; það kennir sagan af Ólafi helga af ágætri *membrana, cap. 109.* um Sigurð, föður Ásbjarnar Selsbana: „Hann var því vanur, meðan heiðni var, að hafa þrenn blót, eitt að veturnóttum, annað að miðjum vetri, þriðja að sumri. En síðan Sigurður tók við kristni, hèlt hann teknum

---

1) frá [vantar í A. 2) ávita; þar fyrir, B. 3) nafnið, B. 4) Þýzka, A. 5) om. A. 6) § 14, B.

hætti um veizlurnar; hann hafði þá um haustið vinaboð, en um veturinn jólaveizlu, og bauð þá enn til sín mörgum manni. Þriðju veizlu hafði hann um páska". Hèr er það sýnt, að það, sem fyrst heita þrenn blót í heiðni, heita þrjár veizlur í kristni. Svo heitir í Vígaglúmssögu, kap. 6. veizla búin að veturnóttum Dísablót; og í sama kapítula þrífur Glúmur eldstokkinn úr drykkjustofu gólfinu, til að lemja berserkinn, því brann þar eldur inni um kvöldið, svo sem eg hefi áður sagt að hèti jólabál. Þá er það enn, sem sýnir, að blótveizla sú, er sker til [heiðinna guða[1] sæmdar, sem fyrr var sagt af skattpeníngi til Óðins, því hann skyldi blóta, það er hafa kostnað fyrir veizlunum þeim nýu tveimur. Og enn aptur það Snorri mælir eptir Frey dauðan, og Freya hèlt þá uppi blótum, það er blótveizlunum. Svo er hèr af sprottið það, sem segir Snorri, að Svíar blótuðu Frey til árs og friðar, þ e. dýrkuðu nafn hans með slíkum veizlum og fórnum þeim, er fólkið át að veizlunni og Snorri kallar blótmat, *ut supra.* En þótt *vocula* blót kæmi síðan í aðra merkíng, þegar menn höfðu kristni tekið, svo sem í Kristinrètti gömlum og Heiðsævislögum, kap. 23., [þar er nefnt[2] matblót[3] eður leirblót, gjört í manns líki af leiri eður deigi, þá er það eigi að undra; verður svo tíðast með þessum stórbreytíngum, að það útlæga gjörist *odiosum* (andstyggilegt), svo sem konúngs nafn hjá Rómverjum eptir *Tarquinium Superbum* og Óðins nafn hjá kristnum mönnum.

[4] Svo er þá ekki neinn önugleiki í því að nefna[5] jólaveizlu fyrir því, þó að sjálft orðið jól merki veizlu, og þá allra sízt, ef menn hugleiða, að kristnir menn hafa ritað sögurnar, síðan orðið jól var komið í þá heiðurs merkíngu, að fæðíngarhátíð lausnarans var svo kölluð, af því kristnir menn hèldu hennar minníng á þeim sama tíma, sem heiðnir hèldu sín jól, það er sælgætis veizlu haldið, upp frá því að Hákon konúngur Aðalsteinsfóstri gat því til leiðar komið, að jól heiðíngjanna væru þángað færð, frá miðsvetrar nóttunni, sem Snorri kennir: „Hákon kóngur", segir hann, „setti það í lögum, að hefja þann tíma jólahald sem kristnir menn, skyldi þá hverr maður eiga mælis öl, en gjalda fè ella, en halda heilagt, meðan öl ynnist, en áður var jólahald [haft höggu-nótt[6], það var miðs-

1) guðanna, B. 2) frá [ vantar í B. 3) mannblót, A. 4) § 15, B. 5) vantar í B. 6) frá [ vantar í A.

vetrar nótt, og haldin þriggja nátta jól". Nú sè eg eigi betur en svo, að þetta gjörvallt orða-tiltæki Snorra sýni það, að eins gott lætur hann að halda jól og halda veizlu, því kvað Hornklofi svo um Harald hárfagra hjá Snorra Sturlusyni:

Úti vill jól drekka,
ef skal einn ráða,
fylkir inn framlyndi
ok Freys leik[1] heya.

Hèr kallar skáldið að drekka jól, sem eiginlegt er gestaboðs og veizlulátum; en það sýnist hann kalli að heya Freys leik, sem að átrúnaðar siðunum laut, að stökkva blóði fórnanna yfir menn og hýbýli, heldur en það skuli til bardaga benda, því að strax í sömu vísunni kemur á eptir:

Úngur leiddist eldvelli[2]
ok inni að sitja.

Segir þetta, að eigi hafi kynt verið það vanalega jólabál, því úti voru drukkin jólin; eg minnist og eigi mig hafa lesið þá *phrasin* um hinar tvær blótveizlurnar að vetri og sumri, að drekka þær, en að drekka veizlu ætla eg mig lesið hafa, og drekka jól er nú fullbevísað[3].

[4] En þótt svo skyldi heita, að jóla veizla ætti að segja veizlu-veizla, þá er enn þá ekki neitt í því önuglega fráleitt *genio* vorrar túngu; þá væri það, sem menn segðu mikla veizlu, eður stórveizlan mikla, eins og Sæmundar Edda segir í Harbarðs ljóðum:

Þórr kvað: Hverr er sá sveinn sveina,
er stendur fyrir sundit handan?
Harbarður kvað: Hverr er sá karl karla,
er kallar um vaginn?

Hèr má nú tvent um dæma, annaðhvort að sveinn sveina sè hinn mikli sveinn, og karl karla hinn forkunnar mikli karl; eða sveinn sveina sè mikill aumíngi og afmán[5] annara sveina, og svo karl karla aumastur allra karla, svo að alltíð fylgir með slíku eitthvert afbragð, það er taki yfir[6] almennilega hluti. Annað dæmið sýnir Sæmundar Edda í Skírnisför:

Hvat er þat hlym hlymja,
er ek hlymja heyri nú til
ossum rönnum í?

---

1) frægleik, A. 2) eldvísi, báðar. 3) bevísað, B. 4) ¶ 17, B. 5) afmenni, A. 6) af, A.

Jörð bifast,
en allir fyrir
skjálfa garðar Gýmis.

Hèr kallar Gerður hlym hlymja, hljóm hljóma, það er dundi jörðin undir hesti Skírnis, er hann reið að garði, og er nú sýnilegt, að þessi hljómur hljóma merkir mikinn hljóm. Allt er hið sama að segja um vísu Hallfreðar Vandræðaskálds í Ólafssögu Tryggvasonar, og hjá Snorra Sturlusyni:

Eitt er þat sverð sverða
sverð-auðgan mik gerði.

Sverð sverða kallar hann ágætt sverð, afbragð sverða. [1] Svo það er ei undarlegt, þótt jól sèu kölluð jóla veizla, það er hin mikla stór-hátíðar [2] veizla, veizlan mikla, veizlu móðir, því hún var elzt af þremur stór-hátíðunum. En mín fyrst framtöldu sexföld rök af merkíngu sjálfrar glósunnar sýna [3] það *demonstrative* að mínum þánka, að uppruna þýðíngin sè *appellativum nomen,* sameiginlegt öllum gestaboðum og stórveizlum, á hverjum helzt ársins tímum sem þær gjörðust. Og hvað sem hverr kynni að vilja *opponera* um önnur minna [4] *exempla,* skil eg ekki, hvað sagt verður móti því, sem af Lokasennu var tekið, þar hann segist „færa jól ok áfó“, óska veizlu-gleði og ölteiti; þótt hann segist „blanda meini mjöð“ strax ásamt með hinu, má enginn undra, því að Loki mælir, sem ógjarna mátti láta sínar gjörðir og orð ómenguð vera. Það er og þreifanlegt af vísu Grana, að þar getur eigi *vocula* jól merkt annað en veizlu.

[5] Hefi eg áður grein á því gjört, hvar fyrir miðsvetrar veizlur heiðíngjanna voru, þegar fram leið, optar kallaðar jól heldur en hinar með vetri og sumri, þó að þær væru ýngri, og festist hið forna nafnið við þá elztu, þótt allar veizlur væru til þess jafnkomnar eptir orðsins uppruna þýðíng *(vi vocis),* og eigi þurfti til þess að koma nein guðanna dýrkunar merkíng, það sýnir sú optnefnda Loka-senna, að engin voru blót framin við Ægisdrykkju, og þó heitir hún jól. En síðar, þegar svo var tímum komið, að jóla nafnið var heldur eignað miðsvetrar blótinu en öðrum veizlum (því sú var veizlan elzt og árleg *stato tempore),* þá fèll inn hjá Norðmönnum ríkisstjórn Hákonar konúngs Aðalsteinsfóstra, kristins manns. Hann á-

---

1) § 18. B. 2) stór-hátíða, A. 3) segja, A. 4) minni, B. 5) § 19, B.

setti sèr, sem Snorri vottar, smámsaman að víkja siðum heiðíngjanna hátíðar til líkíngar kristinna manna siða, og lèt því færa miðsvetrar blótið á jóla-tímann kristinna manna, sem kunnugt er. Þetta var í fyrsta sinni *anno Christi* hèr um 950, þegar Hákon hafði svo staðfest ríki sitt, að hann tók að *reformera* Þrændalög. Samt hóf[1] hann ei kristniboðið opinberlega fyrr en tveimur árum síðar, og þykjumst eg af frásögu Snorra Sturlusonar ráða, það muni skeð hafa móti, um eða strax eptir þá blótveizluna, sem móti sumri gjörast átti, því að bændur skutu máli sínu til Frostaþíngs, og þar gjörðist ys bænda sá, er Sigurður jarl gat stöðvað. En það er augljóst af Snorra, að á veturnóttum næstum eptir þysinn á[2] Frostaþíngi, var blótveizla sú haldin að Hlöðum, sem bændur vildu neyða konúng sinn til hrossakjötsátsins, þegar hann gein yfir hödduna og gjörði krossinn yfir Þórs minni, sem Sigurður jarl, kóngi til afsökunar, kvað þá alla gjöra, sem trúðu á mátt sinn og megin. Þenna vetur að jólaveizlunni, sem þá var komin á tíð kristinna manna[3] jóla, var það, sem konúngur át af hrossalifrinni, og drakk öll minni krossalaust. Hèr undrar mig ekki, þótt jóla nafnið sè fast orðið á hátíðis-veizlunni, sem þá var meira en 1000 ára gömul. Þó hafa menn enn þá kallað fleiri veizlur jól í þær mundir, og meira en 100 árum seinna.

[4] Það er enn til merkis, að á miðsvetrar blótinu var ei jóla nafnið orðið *tamquam proprium*, að á dögum Þorra konúngs var hátíðin kölluð þorrablót. Hann lifði eptir reikníngi assessors Þormóðar, *Ser. lib. 3. cap. 8.*, á fyrstu hundrað árum eptir híngaðburðinn, og loddi Þorrablóts nafnið við hana lángar stundir hjá afkvæmi Þorra konúngs, Norðmönnum, en samt hèt hún jól, svo vel sem aðrar veizlur bæði fyrir og eptir Þorrablóts nafn ákomið.

[5] En hvaðan orðið jól hafi sinn uppruna, áræði eg ei að segja. Það er víst, að þeir sem vilja draga það af ebresku *jalad* (hefir fædt), svo sem það skyldi meina Kristí fæðíng, gæta þess ei, að jóla nafnið er miklu eldra, og hins ei heldur, að heiðnir menn hèr á norðurlöndum vissu ekkert til Kristí guðdóms nè holdlegrar fæðíngar, og hèldu þó jól ei að síður guðum síns heiðindóms til virðíngar, en eigi Kristó, sem þeir eigi þektu, og eigi vissu nafn hans.

---

1) hafði, A og B; al: hóf. 2) á þessu, A. 3) vantar í B. 4) § 20, B 5) § 21, B.

[1] Þeir, sem vilja draga það af nafni *Julii Cæsaris*, steyta á sama skeri, því að jólanna nafn og hald er eldra en fæðíng *Julii*, og liðu þó svo meir en 40 ár af hans æfi, að hann hafði fátt til frama unnið, og var eigi frægur orðinn. En þó síðan yrði vegsemd hans mikil, þá varaði blóm hennar hæsta í 3 ár alleina, svo[2] lítið var tóm til, að svo fjarlægar þjóðir, sem þessi þrjú norðustu ríki veraldarinnar, og ásamt þeim hin víðlendu Garðaríki, eður þau, sem liggja við norður-höfin[3], Bjarmaland og nábúar þess að austan, gætu fengið[4] stundir til að heiðra nafn hans með þessum hætti; en hitt er kunnugt, að þessar þjóðir gjörðu sèr lítinn athuga um, að heiðra fjarlæga herra, þótt mektugir væru. Það sýna sögurnar af *Gothis*, *Longobardis* og Gaungu-hrólfi, sem alkunnar eru. Það er og rètt *observerað* til að kollvelta hègóma þessum, sem prófasturinn í Strandasýslu, sèra Jón Árnasón, mælir í einu sínu brèfi til mín, að bilið á milli heiðinna manna miðsvetrar-jóla hèr norður og þess 1. Janúarí sýni það, að þeirra jól hafi hvorki nafn nè skyldsemi við *Julium Cæsarem* eða rím hans.

[5] Eg get og eigi heldur fallizt á þeirra meiníng, sem vilja jól sè dregið af *ἴουλος*, *lanugo*, únglínga fyrsta skeggvexti, því að hèla og hrímfall um þorra-tíðir sè því eigi ólíkt. Veit eg, að *Origines Norvegicæ* segja, að Þorri hafi blótað konur, til þess að snjóa legði og gjörðist skíðfæri gott, og sè það ár þeirra; en mèr skilst, að snjólög til skíðfæris sèu meiri en hèlufall eður hrímfall á jörðu. Hvað sem þar um er, þá sè eg ei þá líkíng á hèlufallinu við únglínga skeggvöxtinn, sem neinn veginn[6] gjöri líklegt, að af *ἴουλος* sè jól dregið, þar sem meiníngin á hvorki nafn nè niðja saman, og enga skyldsemi nema bókstafina. Satt er það, að nokkur orð vorrar túngu eru í ætt við hið gríska túngumál, en þá koma nokkurn part saman bæði bókstafirnir og meiníngin; er og eigi við mitt hæfi um að dæma, hvor eldri sè, eður annarar móðir. Mætti fáfræði mitt nokkuð í því segja, þá ætla eg nærri muni vera um aldur þeirra, og sè skyldsemin öll svo sem á millum hálfsystra, en hin gamla þýzka túnga sè þriðja systirin, og hún vorri túngu samborin til kalls og konu. Sagt verður mèr, að af latínu máli séu dregin mörg orð vorrar túngu. Eg segi þau flest síðar á tímum innkomin í málið, og hafi með tímalengdinni fengið landsvist í danskri túngu.

1) § 22, B. 2) og, A. 3) hafið, A. 4) sèr, add. A. 5) § 23, B. 6) meiníngin, A

[1] Það er enn, sem prófasturinn sèra Jón skrifar eptir Brúnsmann, en Brúnsmann eptir Beda, að hinn fyrsti mánuður í ári þeirra gömlu *Anglo-Saxonum* hafi heitið gjule, og það af sólar aptursnúníngi *(mallem* apturhvarfi[2] *dixisset)*, og svari sá vorum þorra. Segir prófasturinn þaðan vilji Brúnsmann draga jóla nafnið, en orðið gjule af hjóli, því þá sè hríngur ársins fullur orðinn, og byrji nýa veltu. Nú vil eg spyrja: Hvernig má gjule, *vox seculi septimi* á dögum Bedæ vera móðir þess orðs, sem að vísu var í tíðkan 70 eður kannske[3] 100 árum fyrir Kristí fæðíng? Mèr verður svarað: Beda segir ei, að það sè glósa sinna tíða, heldur þeirra gömlu *Anglo-Saxonum*, komin austan um haf með þeirra *infusion* í *Britanniam*. Gott er þetta svar. *Ergo* var orðið gjule tíðkað í þeirri *dialecto* dönsku túngunnar, sem gekk hjá *Anglo-Saxonibus seculo quarto* eptir híngaðburðinn, því að mitt *in seculo quinto* fengu þeir yfirhönd í *Britannia* og *Anglia*, Englandi. Nafnið hefir síðan[4] haldizt, sem vottar *Johannes Cluverus* og *Munsterus, lib. 2. cap. 9.* En hèr af fylgir ei eptir, að *septemtrio*, Danir, Norðmenn og Svíar, hafi fengið orðið jól af *Anglo-Saxonibus*. Nær er hitt, að *voces* báðar, jól og gjule, muni jafnaldrar, og með öllu sömu ættar, alleina eptir *varia dialecto* sömu túngunnar skrifuð með slíkum mismun. En hvaða rèttur er[5] til þess, að eitthvert orð megi kallast af öðru dregið, nema sýnt verði með rökum, hvort eldra sè? Og efa eg mjög, að gjule finnist eldra en jól. [6] Það legg eg enn hèr til, að skuli gjule vera mánaðar nafn, þá er sú glósan efalaust ýngri en jól og *necessario derivativa*, sem á vora *dialectum* skyldi heita jóle, og veit eg ekki það sè til í norrænu máli. Þetta lízt mèr Brúnsmann *agnosceri*, þar hann vill Gjule *derivativum* sè dregið af hjóli, og af[7] apturhvarfi sólar hafi[8] sitt nafn, sem eg eigi trúi, [og er það[9] eflaust vandalaust vorum jólum; þau eru sannlega ekki af hjóli dregin, að mínum skilníngi, eða hvað átti Ægisdrykkja skylt við hjól? Hvað Óðinn, til að heita Jólnir og Jálfaðir? Hvað Æsir, til að heita Jólnar? Eða björninn, til að heita jólfinnur? Hvaða sælgæti skyldi hröfnunum að því, þótt hjól hefðu verið fyrir þá borin eptir orustuna fyrir Þjólarnesi, þegar örn drakk blóð

---

1) § 24, B. 2) millum apturhvarfa, A. 3) vantar í B. 4) er síðan hefir, B. 5) það, add. B. 6) § 25, B. 7) vantar í B. 8) hafa, B. 9) þá er hann, B.

og sleit fallinn val, en úlfurinn át hold Jóta, svo sem hann vildi? Misskipt hefði þá Haraldur kóngur meðal varga og hræfugla, þegar þeir skyldu sjálfir skamta sèr mannablóð og kjöt, örn og úlfur, en hrafninn alleinn sitja yfir hjólunum; og er það nú sýnt, að hjólnafnið náir ei til slíkra hluta, og ekki getur [jól verið dregið af gjule[1], vegna þess, sem nú er sagt, að jól hefir *formam primitivi*, en gjule *formam derivativi.*

[2] Eg meðkenni, það er áheyrilegt og með stórum líkindum sagt, sem prófasturinn sèra Jón og aðrir fleiri hálærðir menn fyrir hann sagt og skrifað hafa, að heiðin öld hèr á norðurlöndum hafi byrjað ár sitt með miðjum vetri. Prófasturinn hefir og mikil og merkileg efni til þess, að mörgum hundruð árum fyrir Kristí fæðíng skuli miður vetur heiðinna manna fallið hafa upp á sólstöður skammdegisins og af þeim smámsaman þokazt niður eptir vetrinum fyrir óglöggva þekkíngu ársins lengdar, sem menn hafa síðan fremur og fremur athugað, og eru nú á það samþykkir orðnir, að á hverjum 400 árum verði sú þokun tímanna um heila 3 daga lengra niður en skyldi, svo sem Alsted, *Encyclop. lib. 17. de uranometria part. 3. cap. 6. reg. 4.* greinilega kennir. En svo sem þetta er merkilegt, svo falla hèr inn tveir hlutir stór-athugaverðir[3]. [4] 1) Hvort heiðnir menn[5] norður hèr hafi það sama ártal og takmörk árs og mánaðatal haft, áður Óðinn kom norður híngað, eður hafi með hans tilkomu [gjört á því nokkra[6] umbreytíng, sem ei er ólíklegt, því hans tilkoma færði ótal-margar[7] breytíngar. En hann kom híngað eigi fyrr en *circiter* 70 árum fyrir híngaðburð Kristí, sem assessor Þormóður hefir með sterkum vitnum sýnt, *in Serie reg. Daniæ lib. 2. et 3.* heilum. Og þótt vèr vildum kalla það skeð 100 árum fyrri, þá *anticipera* þau ekki tímana meira en um 18 stundir, þá verður það ekki nóg til að þoka Þorra-komunni frá 2. Dec. í gamla stíl á þann 9. Janúarii gamla stíls á einum 1800 ára tíma, það vildi verða 13 dagar að eins og 12 stundir, svo þá skortir 15 daga og 12 stundir til að fylla þá *anticipation,* sem á skyldi orðin, ef jól heiðíngja hefðu staðið á sólstöðum hjá *Anglo-Saxonibus* og öðrum hèr á norðurlöndum, þegar Óðinn kom híngað, og vildi það svo verða frekum 2060 árum fyrir híngaðburðinn. En hverr veit sögur þeirra tíma norður hèr? Hafi þau, þá er Óð-

1) gjule - hjóli, A. 2) ‖ 26, B. 3) athugaverðir, A. 4) § 27, B. 5) heiðindóm, B. 6) frá [gjörzt á því nokkur, B. 7) ótalfaldar, B.

inn kom með þessa túngu norður híngað, ekki staðið á þeim púnkti, hvernig máttu þá *Anglo-Saxones, posteri* Óðins, gefa þeim nafn af apturhvarfi sólar, og *per tropum* af hjólinu? Mèr verður sagt, eg *statueri* miðsvetrar jólin eldri en Óðins tilkomu, og[1] því megi þau ná upp eptir vetrinum svo lángt, sem hver vill. Eg svara: Miðsvetrar-veizluna, sem síðar hèt Þorrablót, hefi eg játað eldri en Óðins norðurkomu, en jóla nafnið við hana fest[2] hefi eg eigi sagt eldra, og það meira er: Eg hefi sagt, að jóla nafn áttu allar veizlur lengi eptir Æsanna til komu. Ef nokkur vill segja, Óðinn, sem híngað færði túngumálið, hafi sett miðjan vetur á sólstöðurnar, svara eg: það fellur af sjálfu sèr, því áður er *demonstrerad,* að 1800[3] ára tími nægir eigi til að þoka þeim svo lángt, sem þá voru komin fram í Janúaríum vorra tíma.

[4] 2) Verður að *demonstrerast,* jólanafnið hafi verið *proprium* miðsvetrar hátíðinni, svo laungum tíma fyrir Æsanna tilkomu, sem sambjóða megi miðsvetrar sætinu á púnkti sólstaðanna, ella getur jóla nafnið ekki neitt átt skylt við hjól nè sólar apturhvarf, hvað sem Beda og sá hálærði Johann Brúnsmann þar um segja. Nú afbrýtur sagna skorturinn frá þeim tíma alla þá bevísinga von, og get eg því ekki skilið, rök verði til þess leidd, að jól nè gjule hafi nafn af hjóli nè sólar apturhvarfi; og bið eg þeirra *sanctam memoriam* leyfis, að segja það gjule sè að vísu dregið af jól, og merki veizlumánuð, gestaboðsmánuð, blótveizlumánuð, en eigi hjólmánuð.

[5] Mèr verður sagt, að *anticipatio,* það kalla eg misgaung tímanna, megi gjörast svo stór, sem hver vilji, því að þá öld hafi vantað heilan dag í lengd ársins, þar eð þeir höfðu ekki nema 12 mánuði þrítugnætta, en þeirra *intercalandi ratio* (innskotsdaga regla) sè oss ókend, og megi því auðveldlega jólum[6] þeirra hvað eptir annað hafa verið kipt í liðinn á sæti sólhvarfanna, jafnótt sem þau höfðu frá því skeikað, á fáum árum; þar fyrir kunni bæði jól og gjule að draga nafn af hjóli og veltu tímanna með apturhvarfi sólar. Þessi svör eru merkileg. Og af því vèr vitum ei glögglega, hvernig sú öld hafi tímunum innskotið til að lagfæra skikkun þeirra, hefir prófasturinn sèra Jón Árnason hugvitsamlega uppþenkt gátu þá, að þeir muni á hverjum 24[7] árum hafa aukið lengd síns árs með

---

1) vantar í A. 2) fast, B. 3) 1080, A. 4) § 28, B. 5) § 29, B. 6) jól, B. 7) 23, B.

einum mánuði þrítugnættum, og innsett hann næst fyrir vetrar sólstöður. Þessa gátu skapar prófasturinn bæði að dæmi Grikkjanna um þeirra *Posideona* fyrsta og annan, og þar næst af orðum *Bedæ,* sem væntist, að tveir mánuðir þeirra gömlu heiðíngja hèr á norðurlöndum hafi heitið gjule, fyrsti svarað Decembri, annar Janúarió, og skuli því efalaust jól af gjule dregið, en gjule af hjól, sem fyrr er sagt. [1] Eg svara: þessi skynsamleg gáta vinnur það alleina, að sinn miðjan vetur hafi vorir heiðnu fornmenn gjarnan fært sem næst sólstöðunum, en hitt eigi, að jól og gjule sèu þar fyrir af hjóli dregin, því að 1) Óðinn færði með sèr túnguna norður híngað, og var þá eigi jóla nafnið fast orðið á miðsvetrar-veizlunni, sem áður er sýnt; vita menn og ekki, hvað hún hèt í þeirri túngu, sem hèr á norðurlöndum gekk, áður en Óðinn kom og hans selskapur. 2) Áður er *demonstrerað,* að allar stórveizlur hètu jól á fyrstu tímum Óðins hèrvistar[2], og strax sem Ásanna túnga var algeng orðin. 3) Því að Óðinn heitir Jólnir, [ Jólfaður, Jólfaðir[3], af sumarmála[4] og veturnátta jólunum, sem með hans tilkomu bættust við hina fornu miðsvetrar-veizluna, svo að jóla nafnið var ekki hennar *proprium* fyrr en laungu síðar. Getur því eigi jóla nafnið meira átt skylt[5] við hjól eður sólar apturhvarf, heldur en sólstöður eiga við sumarmál og veturnætur.

[6] Nú er það sagt, hvað mig fælir frá að samþykkja áðurnefndum fornum upprásum jóla nafnsins, og er það í þessu sem ella miklu auðveldara, en að finna þess rèttu rót, og vansèð, hvort það takist nokkrum, því að uppleita þeirra gömlu túngnanna *etymon* til hvers orðs, er að minni meiníngu örvænt efni[7]. Hver sem mèr kennir með skilmerkum orðum [ eða rökum[8] *etymon* orðsins öl, aul, auldr, sem öll eru alt hið sama, honum vil eg gjalda það til þakklætis að segja minn þánka um orðið jól, að það er *primitivum* og tvíburi við öl, alt hið sama að ætt og uppruna og allri merkíngu, þegar öl merkir veizlu, samdrykkju, gestaboð, mannfagnað, svo að jól og öl eru orðið sjálft sama með litlum mismun bókstafanna, eins og jöldusteinn í Landnámu[9] heitir öldusteinn sjálfur hinn sami í Njálu, ágætri *membrana* assessors Árna Magnússonar. Jölduhlaup

1) § 30, B. 2) vantar í A. 3) Jólfuður, Jálfaðir, B. 4) sumarnátta, B. 5) skyldu, B. 6) § 31. B. 7) vantar í A. 8) frá [, vantar í A. 9) greindur, add. B.

á Írlandi, í Landn.ölduhlaup, þar sem aurskriðan hefir fallið, og á henni orðið aurbylgjan, sem af öllum kallast alda enn í dag, svo sem aðrar misbæðir á[1] söndum og melum, öldurnar á Sprengisandi, Staður áÖlduhrygg og fjallið Ölduhryggur, alt svo nefnt í líkíng öldunnar[2] á sjónum. Svo sem þessi Jöldusteinn og Jölduhlaup er[3] öldusteinn og ölduhlaup, svo er jól öl, og má eigi furða þó í jólum, þegar þau voru[4] blótveizlur, sè *numerus pluralis*, því margir lögðu til ölanna, sem framanskrifuð grein Snorra Sturlusonar útþrykkilega kennir.

[5] Sagan af Ægisdrykkju, rituð í Sæmundar Eddu næst fyrir framan Loka-Sennu, mælir svo[6]: „Ægir[7], er öðru nafni hèt Gýmir, hann hafði búið Ásum öl, þá er hann hafði fengið ketil hinn mikla, sem nú er sagt (í Hýmis-kviðu næst áður). Til þeirrar veizlu kom Óðinn og Frigg, kona hans", etc. Þetta sama gestaboð, sem hèr strax var nefnt öl og veizla, heitir strax á eptir jól í orðum Loka, sem fyrr eru marg-nefnd. Skoði menn í daglegu máli: kaupöl, handsalsöl og festaröl manna og kvenna; það eru handsals-jól og festar-jól, trúlofunar-veizlan og brullaups-veizlan. Svo heitir ölhús og öldrhús í Frostaþíngslögum og öllum þeim fornu Noregs lögbókum, sem fyrir mig hafa borið. Sama nafn hafa[8] veizlurnar hjá Svíum í gamla daga og [líka nú[9] á tímum, þar eð í lögum þeirra standa festínga öl, brullaups öl, barns öl, kirkjugángs öl [útferðar öl eptir þann dauða ellegar erfða öl], það heita allt ölgerðir, Stadtslagh giftamåla[10] balken, kap. 2., hvað alt sýnir, það öl er allopt veizla, svo sem eg segi jólin, annar tvíburinn frá öli, eiginlega merki. Og enn er þetta sýnilegt af Ólafs sögu Tryggvasonar, *lib. 2. cap.* [16. p. 56[11]; þar segir *Martinus Turonensis* í draumi Ólafs konúngs: „Sá hefir verið háttur hèr í landi, sem víða annarstaðar, þar sem heiðið fólk er, og Þór og Óðni [hefir verið[12] öl gefið og Ásum eru full eignuð, þar sem samdrykkjur og gildi eru haldin". Hvað er öl í þessari grein annað en veizla, svo sem hún skýrir sjálf, er hún nefnir það samdrykkjur og gildi? Hún segir þessi öl samdrykkjur og gildi gefin Ásunum, það er signuð, helguð, eins og Snorri segir að hofgoði skyldi signa full Óðins, Freys og Njarðar. Mun það enginn geta til Eyvindar

---

1) og, B. 2) bylgjunnar, B. 3) vantar í A. 4) eru, A. 5) § 32. B. 6) vantar í A. 7) Egor, A. 8) eiga, B. 9) líkast enn, B. 10) gesto mala, B. 11) 18. p. 59, B. 12) er, B.

skáldaspillis, að [hann hafi[1] í Hákonar-málum, sem hann kvað til heiðurs framliðnum Hákoni Aðalsteinsfóstra, sagt, að Hermóður og Bragi, sem Óðinn skyldi sent hafa til að fagna konúnginum í Valhöll, hafi boðið honum þorstadrykk af munngáti einu, þegar Eyvindur gjörir þeim upp orðin[2] til Hákonar konúngs:

Einherja grið
skaltu allra hafa;
þigg þú at Ásum öl.

*Vide* Snorra Sturluson, og eptir hans kenníngu Barthol. *Antiqvitt. Dan. lib. 2. cap. 11. p. 526.* Sjá allir, að þetta var fagnaðar-öl að biðja kónginn velkominn, því áður hafði Göndul sagt um hans þarkomu: „Vex nú gengi goða". Var ekki mögulegt að uppþenkja stærri *hyperbolen* (yfirtak) til heiðurs Hákoni konúngi, að trú heiðinna manna, en þá, að vegsemd guðanna skyldi vaxa við hans tilkomu. Sýnir þetta, að fagnaðar-veizlan eigi mundi nóg með bjórdrykkjunni eður munngátsdrykk einum, og meira sælgætis mundi Ragnar loðbrók vænta sèr í Valhöll, þegar hann kvað á andlátsdegi:

Glaðr skal ek öl með Ásum
í öndvegi drekka.

Þetta *verterar* Barthol. *Antiquitt. Dan. lib. 2. cap. 12. p. 541.: Lætus ego cerevisiam cum Asis in summa*[3] *sede bibam.* Eg vildi það *verterað* hafa: *Lætus ego cum diis epulabor in summa (seu honoratissima) sede.* Eins *verterar* Bartholin öl í áður skrifaðri hendíngu af Hákonar-málum: „þigg þú að Ásum öl", *Accipe apud deos cerevisiam, Antiquitt. Dan. lib. 2. p. 526.* Það vertera eg: *Excipiere Deorum epulis;* því að mjöð skulu einherjar að drykk hafa, sem Edda kennir: „Geit sú, er Heiðrún heitir, stendur uppi á Valhöll, og bítur barr af limum très þess, er mjög er nafnfrægt, er Læraður heitir, en úr spenum hennar rennur mjöður sá, er hún fyllir skaptker það hvern dag, er svo er mikið, að allir einherjar verða fulldrukknir af"; og hefir sjálfur Bartholin þá grein innfært, *lib. 2. cap. 12. p. 545* og *546.* Eður hví skyldi spara þeim mjöðinn, þar sem geitin mjólkar honum svo yfirfljótanlega? Allt hið sama kennir Sæmundar Edda í Grímnismálum:

---

1) hafa, B. 2) vantar í A. 3) vantar í B.

Heiðrún heitir geit,
er stendur höllu á herja föðurs,
ok bitur af Læraðs limum;
skaptker fylla hún skal[1]
ins skíra mjaðar.
Kná-at sú veig vanast[2].

Og það segir Snorra Edda hèr strax áður í sömu *fabula:* „Margur kemur sá til Valhallar, er dýrt mundi þykjast kaupa vatnsdrykkinn, ef eigi væri betri fagnaðar þángað að vitja, sá er áður þolir sár og sviða til banans.

[3] Veit eg mèr verður svarað af Grímnis-málum, það er bæði stendur í Snorra Eddu og í Sæmundar Eddu:

Rangríð og Raðgríð
og Reginleif,
þær bera einherjum öl.

[illegible] sjálfur Barthplin innfært hefir, p. 554. Eg svara: Hèr er öl *vocula generalis,* og merkir allan áfengan drykk, sem ljóst er af því, sem Snorra Edda mælir næst fyrir framan þetta vers af Grímnis-málum: „Enn eru þær konur[4], sem þjóna skulu í Valhöll, bera drykkinn[5] og gæta borðbúnaðar og ölgagna". Þessi *vocula* ölgögn merkir ei þau ílát alleina, ker og verpla, sem höfð eru undir munngáti einu, heldur öll þau, sem einhverskonar drykk innihalda, þann er menn gjörast drukknir af. Og til sanninda hèr um heita drukknir menn allir ölir, ölgaðir, ölóra, ölóðir, sem ótal dæmi sýna, hvað fyrir drykk sem þeir hafa fengið, ef[6] gjörast drukknir af, og vita þetta allir menn. Skal eg því ei leiða dæmin mörg. Þeir höfðu vín drukkið í brúðkaupinu í Kana, sem kæmeistarinn talar um, Jóh. 2., svo sem Oddur lögmaður Gottskálsson, Guðbrandur biskup og Þorlákur biskup allir *verterað* hafa: „Nær þeir taka ölvaðir að gjörast". Annað dæmi leiði eg af Háva-málum. Þar drakk Óðinn mjöð hjá Gunnlöðu, sem Edda kennir, hversu hann komst að miðinum góða; þó kallar hann það öl:

Era svo gott,
sem gott kveða,
öl alda sona;

því at færra veit,
er fleira drekkur
síns til geðs gumi.

---

1) vantar í A. 2) vænaz, A. 3) § 33, B. 4) aðrar, B. 5) drykkju, B. 9) til að, B.

Óminnis hegri heitir,
sá er yfir öldum þrumir,
hann stelur geði guma,
Þess fugls fjöðrum
ek fjötraður varc
í garði Gunnlaðar.
Ölur ek varð,
varð ofur-ölvi,
at ins fróða Fjalars.
Því er öldur baztur,
at aptur of heimtir
hverr sitt geð gumi.

Hèr kallar hann mjöðinn öl, og af honum kveðst hann ölgaður orðinn, allt[1] eins og biskuparnir og Oddur lögmaður Gottskálksson kallar þá, sem [að bodinu[2] vínið höfðu drukkið í Kana. Allt hið sama er að skilja um *voculam* öl í málshættinum: Ölið er annar maður, sem Bartholin *citerar p. 559.*[3] af Jómsvíkíngasögu, Grettissögu og Ólafssögu Tryggvasonar, að það merkir allan áfengan drykk, en ekki *cerevisiam* eður munngát alleina, svo sem Bartholin skilið hefir. Og eins er það í Atla málum, þar sem Guðrún Gjúkadóttir talar um ölskálir úr hausum sona þeirra Atla konúngs, að það þýðir drykkjarker eður bikar, eigi meir gjörðan fyrir munngát, heldur en[4] fyrir vín og mjöð allskonar. Um Ólaf konúng kyrra segja Noregskonúnga sögur, að hann var glaður við öl, það er við drykkju, hvað helzt sem drukkið var, svo að það fèkk á kónginn. Enn segir svo Snorri Sturlusson og líka fyrrnefndar Noregskonúnga sögur um Ólaf kyrra: „Þat var forn siður í Noregi, at konúngs hásæti var á miðjum lángpalli, var öl um eld borið“, etc. Enginn trúi eg meini, að þetta öl[5] skuli merkja munngát alleinasta, heldur allan veizludrykkinn, bæði vín og mjöð. Þetta er ekki sagt til að lasta eður affæra loflegt erfiði *celeberrimi Bartholini.* Hann hefir að vísu framar öllum þeim mönnum á þessari öld, sem ei eru fæddir hèr á landi, skilið hina dönsku gömlu túngu, sem nú er vort móðurmál, og skyldugt er að lofa hans *Antiquitates.*

[6] Mèr verður enn[7] svarað af Loðbrókarkviðu hjá Barth. *libr. et cap. citato p. 558.,* ráðagjörð Ragnars um veitíngar í Valhöll.

Drekkum bjór at bragði
or bjúgviðum hausa.

---

1) vantar í B. 2) frá [ vantar í B. 3) 539, B. 4) vantar í B. 5) vantar í A. 6) § 34, B. 7) vantar í A.

Eg segi hèr sè *synecdoche speciei,* og merkir hèr bjór allan sterkan drykk, eins og í Sigurdrífumálum í Sæmundar Eddu:

Bjór færi ek þèr,
brynþíngs apaldr.

Hefir þess gætt vor frægi Þormóður, *in Ser. Reg. lib. 2. cap. 4. p. 135,* og þar fyrir *verterað* bjór *cerevisiam seu potionem,* munngát eður drykk einhvern. Annað dæmi þess er í Guðrúnarkviðu 2.

Förði mèr Grímhildur[1]
full at drekka, etc.
Voru í þeim bjóri[2]
böl mörg saman,
urt alls viðar, etc.

Hèr hefir assessor Þormóður, *lib. et cap. cit. p. 139., verterað* bjór *cerevisiam,* munngát; en hver sem les *originalinn,* mun meðkenna verða, að fyrir slíka byrlun, sem þar er getið af göldrum Grímhildar, muni valt á að gizka, hvort á kaleiknum væri munngát eður hverr annar drykkur. En mèr er tilgáta, hvort *vocula* bjór merki eiginlega *cerevisiam* af malti og humli. Það er gátulaust, að [ sá drykkurinn[3] heitir eiginlegast munngát, svo sem ótal dæmi kenna. [4] Og þó er líka[5] *vocula* munngát stundum *generalis* fyrir drykk alls konar; það sýnir vors þíngfb. 3. kap.: „Ef nokkur slæst í mat eður munngát,“ etc. En allra mest gjörir það mig styrkan á mót orðum Loðbrókar um bjórdrykkinn úr höfuðskeljunum, hvað ríkuglega gnægð mjaðarins Heiðrún geitin gefur, sem fyrr er getið, svo engin er Einherjum þörf á lakari drykkju.

[6] Enn er dæmið eitt í Ljósvetníngasögu, kap. 31., þegar Guðmundur ríki fèkkst um, að Ísleifur úr Gnúpufelli, er vegið hafði Þorbjörn Rimpil, kæmi seint í Eyrarskóg, eptir loforði Hlenna hins gamla, sá eð flutti Ísleif í hripinu hulinn með grasi fyrir augum Guðmundar: „Eg ætla þeim þætti ei til öls boðið“, það er, sem nú segjum vèr: ei til fagnaðar að flýta sèr, ekki boðið til veizlu, ei boðið til mannfagnaðar, að gánga undir vopn fjanda sinna, því Guðmundur ætlaði að drepa þá Ísleif fyrir víg Rimpils.

Hefi eg nú sýnt skilmerk rök til þess, að öl sè veizla, og

---

1) Ginhildur, A. 2) bjóði, A. 3) ádrykkurinn, A. 4) § 35, B. 5) vantar í A. 6) § 36, B.

gestaboð og mannfagnaður, eigi að eins í kvæðum fornaldar, heldur jafnt í sundurlausu máli bæði[1] fornu og nýu.

Nú til þess að *æqui rerum censores* þreifi á sannindum minnar sögu, það jól er veizla og jól er öl, þá bið eg þeir hugleiði það kristnin var úng og óstyrk að framanverðu, svo vel í Noregi sem annarstaðar, hvar sem hún var ný, svo að lángar stundir vöruðu nokkrar leifar eður líking heiðninnar, svo sem mælir Eyrbyggja, kap. 49., um upphaf að Fróðár-undrum, og það blóta skyldi á laun, kristind. saga, kap. 11. Og til þess að sigra heiðinn lýð með einhverri likíng siðanna, gjörðu forgángsmenn kristninnar ýmsa smávæga hluti þeim til eptirlætis, svo sem Ólafur konúngur Tryggvason að drekka Marteins-minni í staðinn fyrir Óðins-full eður Njarðar-full, sem sagan vottar, *lib. 2. cap. 18.* Svo varaði það og lángar stundir, að veizlunum, mannfagnaðinum, var uppi haldið í sama mund árs, sem hjá heiðíngjunum höfðu blótveizlanna mannfagnaðir verið, sem áður er sýnt af dæmi Sigurðar í Ömt á Þrándarnesi í Ólafs helga sögu, kap. 109., og lètu kristnir menn þessar veizlur snúast í kristinn sið og til skyldugs helgihalds; því líti menn á hina fornu Gulaþíngsbók, ekki þá, sem gjörði Magnús konúngur lagabætir, heldur hina, sem þeir hafa samið, Ólafur konúngur kyrri og Magnús konúngur Erlíngsson (að eg trúi), heldur en Magnús berbeinn, þar stendur í kristinrètti, kap. 5.: „Þat er nú því næst, at vèr höfum ölgerð heitit, það kalla menn samburðar-öl, mælis-öl, búandi eitt, en annat hússfreya; gjöri bændur þrír saman hit fæsta[2]; nema svo utarla búi í eyju, eður svo ofarla á fjalli, at eigi megi ölgerð sína færa til annara manna, þá skal hann jammikit öl einsaman sem þeir þrír[3] [ þeirra einhverr[4]; en sá er minna á en 6 kúa bú, eður 6 sálda sáð, þá skal hann því at eins öl gjöra, ef hann vill. Þat öl skal gjört vera Allraheilagramessu hit seinasta, en þat öl skal signa til Kristþakka og sánkti Maríu, til árs ok til friðar“. [ Hèr sjáum vèr öl það, jól þau, veizlu þá, sem hjá þeim kristnu Norðmönnum komu í staðinn veturnátta-blótsins heiðíngjanna. Berum saman frásögu Snorra Sturlusonar um mælis-ölið til heiðnu jólanna og helgihaldið, meðan öl ynnist, og sjáum, hversu þetta er gjört til árs og friðar, eins og heiðinna veturnátta-blótið var til árs. Nú var aukið friðnum, síðan kristnin var komin, og þessi veizl-

1) að, add. B. 2) fyrsta, A. 3) á, add. A. 4) frá [ om. A.

an heitir öl; það segi eg að sèu jól, og merki sælgætis veizlu og mannfagnað. Strax í næsta kapítula segir sami kristinrèttur: „Ölgerð höfum vèr enn heitit at gjöra, búandi og hússfreya, jafnvægi sitt hvort, ok signa þat nótt hina helgu, til Krists þakka ok sánkti Maríu, til árs ok friðar[1]. En ef eigi er svo gjört, þá skal bæta fyrir þat merkum þrimur biskupi. En ef hann situr svo vetur þrjá, at hann heldur eigi ölgerðum uppi, ok verður hann at því kunnur ok sannur, eður svarar ei þeim viðrlögum, er vèr höfum lögð til kristindóms vors, þá hefir hann fyrirgert hverjum peníngi fjar síns".

Nú kann eg ekki að sjá, með hverju fyrir mèr hrakið verður nè truflað, að hèr sè jólahaldið ölgerð kallað, eður hvað skortir nú, að jól sè öl og öl sè veizla, mannfagnaður, sælgætis samdrykkja, og loksins orðin öl og jól sèu alt hið sama orð, og Gjule, *variante dialecto,* sè þeirra nánasti niður? Tvíla eg ei, að „gildi" sè sömu ættar sem gjule, jól og öl, þó eigi sèu þau, gjule og gildi, í sama lið skyldseminnar, sem *primitiva* sjálf, jól og öl. [Hin[2] eru afkvæmi þeirra. Dæmið hefi eg sýnt um jöldu-stein, jöldu-hlaup og öldu-hlaup. Sjá menn, að[3] í orðunum Jótar, Gotar, Joli, Gjule, Judæus, á vora túngu: Gyðíngur, ɔ: Júðíngur, [er g og j sama[4], og mun slík *permutatio literarum* finnast mörg, þá að er hugað. Eg skal gjarnan læra rèttara, þegar mèr verður það sýnt og kent með skírum rökum.

[5] En af því að dæmin munu þykja hèr allfá tilleidd, þá er það og til merkis, hvað tíð muni slík *pronunciatio* í fyrndinni verið hafa, mjög líkt í ræðunni fram að bera atkvæðið „jó" og *diphthongum* „au" eður „ö", að þegar nú eptir *annum Christi 1400* tóku skáldin hèr á landi að gjöra *carmen,* það sem vêr köllum rímur, bæði eptir sönnum sögum og skröksögum, þá finna menn hjá þeim *reliquias* þess málfæris í kvæðunum. Sýna það Brönurímur, sem menn eigna Rögnvaldi blinda. Þar segir:

Járnhaus nefna öldin má,
jötuninn býr hèr nærri.

[Þetta á nú að eins að gilda, sem skáldið hefði sagt: Járnhaus nefna jöldin má[6], eptir vors skáldskapar reglum, svo að öldin og jöldin hafa þeir *promiscue* sagt og *pronuncierað*

1) frá [ vantar í A. 2) frá [, sem, A. 3) annað, B. 4) frá [ vantar í B. 5) § 39, B. 6) frá [ vantar í B.

mjög líkt og næstum eins. Ótal er slíkt hjá skáldunum, gömlum og nýum, um j framan við aðra *vocales*. Noregskónga sögur um hernað Haralds kóngs harðráða á Jótlandi:

Skaro jast úr osti
eybaugs Dana meyar.

Edda í Háttatali:

Röst gefur öðlíngr jastar,
öl virði ek sva, firðum.

Njála í fyrirburðinum fyrir Brjámsbardaga:

Nú er fyrir oddum
jarlmaður hniginn.

Egils Skallagrímssonar saga um fall Þórólfs á Englandi:

Gekk, sá er óttaðist ekki,
jarlmanns bani snarla.

Einar skálaglamm í Jómsvíkínga bardaga:

Sækjum jarl, þann er auka[1]
úlfs verð þorir sverðum.

Sæmundar Edda í Helga kviðu Hundíngsbana fyrri:

Því at þeir átto
jöfri at launa
fjárnám mikit
ok föður dauða.

Helga kviða Hundíngsbana önnur:

Lèztu eld eta
jöfra bygðir.

Egill Skallagrímsson um hernað Ólafs konúngs

Jörð spenur Engla skerðir
Álfgeirs und sik hálfa

Enn segir Lilja svo:

Engin trú ek jarðnesk túnga
eða háleitir stjörnureitar[2].

[ *Adde ex* Lilju:

Enginn heyrði, engin urðu
jöfn tíðindi fyrr nè síðar[3].

Í öllum þessum *metris* (ljóðum) krefja reglur og náttúra skáldskaparins að gleyma næstum því allri *pronunciatione* stafsins j, svo að kveðandi haldist, ɔ: *ut metrum sibi constet,* og er þetta efalaus vottur, að slíka *pronunciation* hefir túngan þekkja

---

1) auki, A. 2) [illegible] hefir í nótu: corrige inn háleiti stjörnu reita. 3) frá [ vantar í A.

viljað sèr eiginlega, [1] alt eins og [2] þeir fornu Svíarnir [3], á meðan vor túnga var hjá þeim ómeinguð, að í sama orðinu hafa þeir stundum haft j, en stundum kastað því frá. Það *demonstrera* Östgothalagen Bygðab. kap. 23., þar er ämgott þrisvarsinnum fyrir jämgott. *Item* í sama bálki, kap. 2., ämlakkumin *pro* jämlakkumin; þó hafa þeir jämnadh optlega í sama bálki, kap. 1., og jämt a mote jämnu, *ibid. comm. 3.* Og allra ljósast er þetta í sömu laga sama bálks kap. 5., þar sem um veg talar ämgodhan, ämgefan, jafngóðan og jafngæfan. Svo það er þreifanlegt, að *genius linguæ,* eigin art túngunnar, leyfir að gjöra, hvort maður vill, setja j fyrir framan *vocalem* í sama atkvæði eður kasta því [4], í þessum orðum að vísu, því þá ekki eins *in voce* jól og öl? [5] Og svo sem það er nú *demonstrerað,* að bókstafurinn j er stundum burtkastaður, en stundum við hafður í hinum sömu orðum, svo er það enn til styrkíngar því, að stafurinn *v* líður og svo sömu tilfelli margopt [6] í orðinu vor, vorir, sem Sæmundar Edda kennir í Helga kviðu Hundíngsbana 2.

Mara þraut ora<br>
á meginfjalli.

*Item* í Sigurðar kviðu:

Vilkat ek mann trauðan<br>
nè torbænan<br>
ok [7] ora sök<br>
aldrei tína,

Í Egilssögu Skallagrímssonar er *varia lectio* um hernað þeirra Þórólfs í Lundi í Skáney. Sumar bækur hafa:

Upp skulum vorum sverðum<br>
úlfs tannlituður glitra [8].

Aðrar segja: „Upp skulum orum sverðum", etc. Reglur skáldskaparins [9] krefja [10] hèr „orum", og er svo rètt að lesa, sem Edda vottar í sumars kenníngum *in cod. regio;* þar hefir *codex Wormianus*: „vaarum sverþum", og lærum vèr af því, að gleyma mætti *consonante* v í framburðinum, svo kveðandi haldist. Og svo kvað mærin, dóttir Arnmóðar í Egilssögu:

Eiga orir gestir<br>
aðra nest á frestum.

Helga kviða Hundíngsbana 2.

---

1) § 40, B. 2) hafa, B. 3) gjört, add. B. 4) þeim, A, honum, B. 5) § 41, B. 6) vatnar í A. 7) om. B. 8) glitja, A. 9) skáldskapar, B. 10) leyfa, A.

En Hróðmarr skal
hríngum ráða,
þeim er áður áttu
orir niðjar.

Lilja *in prologo:*

Stefnlig gjörð svo vísan verði
unninn[1] heiður af þessum munni.

Sama kvæði *in prologo:*

Skýr og sæt af vörum vorum
orðin þau, sem mæltust forðum.

Gimsteinn, *carmen* Eisteini eignað, *in prologo:*

Verði honum til vegs og dýrðar
unninn[2] hróður af mínum munni.

I þessum öllum *exemplis* er stafurinn v í burtu kastaður; það sker og *in prosa* (sundurlausu máli), svo sem í Sæmundar Eddu af Hjörvarði og Sigurlinn: „Um kvöldit oru *(pro* voru) heitstrengíngar, var framleiddur sónar göltur", etc. Og öllum er kunnugt Noregur, *usitatissimum pro* Norvegur, síðan Norr fór eptir honum endilaungum. *Origines norvagicæ contra Undalinnm.*

[3] Það er og nokkrum sinnum, að bókstafurinn þ er úr framanverðum orðum burtkastaður, með sama formi sem nú hefi eg sýnt um j og v. Vitni til þess er Sæmundar Eddu Grípisspá:

Er munut allir *(pro:* þér munuð allir)
eiða vinna.

Og aptur í sömu kviðu:

Þá hamum víxlit,
er it heim komit *(pro:* er þið h. k.).

Þriðja dæmi hèr til er í Sigurðar kviðu:

Þó þykkist er *(pro:* þykist þèr)
þjóðkonúngar.

Og enn hið fjórða í sömu kviðu:

Ið munuð lúta *(pro:* þið munuð lúta)
á laun saman.

Í þessu þriðja dæmi þarf að burtkasta þ, svo ei skuli ofhlaðið verða, en í hinu fyrsta, öðru og fjórða er þess engin nauðsyn skáldskaparins vegna; hann var eins fagur, þótt þ hefði kyrt

---

1) A og B í nótu: unninn, pro: vunninn. 2) A og B í nótu: pro: vunninn. 3) [illegible] 42, [illegible].

staðið, og er það ljós vottur frívilja og túngunnar samþykkis, að gera þar hvort er vildi, hafa þ eður kasta því að slíkum kríngumstæðum. Hvað er þá meir að önugmælum eður öfgum gjörandi, það er eg strax[1] sagði[2], að j megi vera hvort eð vill frá eður til *in voce* öl, og *vocula* jól sè fyrir því allt[3] hið sama, eigi að merkíngunni alleina, heldur sè það með öllu sama glósan?

[4] Þótt einhverr vildi segja[5], að mismuni hljóðinu stafsins ö í [ þessum tveimur orðum[6], öl og jól, því að ö *in* öl sè hèr með *virgula,* það er yfirdregnu stryki, og sè mjóraddað, en í jól sè ó digurraddað og stryklaust, svara eg, að slíks sèu ótal dæmi *in diversis dialectis* sömu túngunnar. Svo frambera jútskir aa eins og eitt a *tenue,* mjóraddað, í orðunum Maade og Naade, þar sem Sælands *dialectus* framber það, eins og vèr í vorri túngu nefnum o *in voce* hnoða; þar er rómur þess í meðallagi millum mjóraddar og digurraddar. Sjáum enn hjá oss *vocalem* a fyrir framan ng, það er digurraddað hjá norðlenzkum, en mjóraddað hjá vestfirzkum. Og svo er ó sjálft fyrir framan r hjá oss í sama landinu framborið með tvennu móti í sömu orðum. Sunnlendíngar segja hvorigur, *per o medium,* eins og vèr *pronuncierum* o *in* norð, en norðlenzkir frambera, eins og væri o, u *tenue,* hvurigur. Morautt segja sunnlendíngar með o *mediocre,* eins og hvorigur; mórautt segja norðlendíngar með o *crassum.* Lítum á Norðmanna *pronunciationem diphthongi latinæ* au, hversu hún er skyld við o *crassum,* og taka þeir ei rángt til hèr í; það vitnar *Latinorum Claudius* og *Clodius,* og hverr mun slíkt telja kunna? Og því síður sem hann kann fleiri túngurnar. *In voce* Noregur er o meðal-digurrómað; strax *in voce* norrænn[7] er *spiritus efferentis* ekki litlu *pinguior,* svo þar höfum vèr lifandi spegil *vocalis* o í orðunum jól og öl[8]. Orð segjum vèr með meðal o; orð segja Danir með feitum[9] rómi, og er öll túngan sama. Hvað er þá slíkt meira furða í jól og öl, heldur en hinum öðrum[10]? Jörð segjum vèr með *virgula signatum,* Danir segja Jord með o *pingve.* [11] Rennum auga til, hversu sömu glósurnar í *diversa dialecto* sömu túngunnar hafa j, eður burtkasta því. Eg vil þegja um Erde *Germanorum* og Jord *Da-*

1) vantar í B. 2) segi, B, 3) ávallt, B. 4) § 43, B. 5) mèr, add. A. 6) þessu tvennu, B. 7) Norðmenn, B. 8) B. add. Hol segjum vèr meðalraddar o feitrödduðu. 9) heitum, A. 10) orðum, A. 11) § 44, B.

*norum*, en nefna vil eg *Anglo-Saxones*, sem *sola dialecto* misgreinir við oss, Erl, þar vèr segjum jarl, Edmund, þar vèr segjum Játmundur, Edvarð [1], þar vèr segjum Játvarður. Og enginn kann að neita, að ár hjá oss, og Jahr hjá systur vorri Þýzkunni sè glósan sama. Eg vil enn gánga nær í [ þessum *dialectis*[2] á sama orðinu: Jeg segja Danir, *jag* segja Svíar, *eg* segja Norðmenn, og sleppa aldeilis j í framburðinum, en kveða tæpilega að g. Eg vil þegja um skript og *pronunciation* Jótanna á sömu glósunni nú á tímum. Vèr á þessu landi skrifum að fornu jafnan *eg*, en framberum *jeg*. Nú er um nokkrar stundir, lítið yfir 50 ár, innkomin sú *corruptela* gömlu túngunnar, að ýmist skrifum vèr *jeg*, og *pronuncierum* alla þrjá bókstafina, eður *eg*[3], og *pronuncierum* þá nær því eins og Norðmenn vorra tíma, nema kveðum á *g* mun fastara. Samt getur því enginn neitað, að *vocula* sè sjálf öll hina sama. Því má þá ekki jól og öl njóta sama frelsis? Hvað er únglíngur vorrar túngu annað en Jüngling Þýzkunnar? Og í Sverrissögu finnum vèr í sumum bókum skrifað[4], að Sverri (eptir á konúngi) þóttu júnglig ráð og tiltektir Eysteins Meyar. Enginn efar það, er allir sjá, að þetta er *únglig*, og svo lesa sumar bækur í sjálfri sömu túngunni og sömu *dialecto*. Hvað er júngfrú annað en úngfrú? Því skil eg ei, hverr mèr kunni að neita, að jól og öl sè glósan öll hin sama, þar sem eg hefi með þreifanlegum vitnum *demonstrerað*, að öl merkir veizlur, gestaboð, samdrykkjur, mannfagnað, og jól merkir veizlu, gestaboð, samdrykkju, mannfagnað.

[5] Þótt mèr verði svarað, að Írar hafi aldrei á norræna túngu mælt, það hafi eg bevísað *in voce* dönsk túnga, og því megi eg eigi draga jölduhlaup til vitnis sögu, þá svara eg, að jölduhlaups nafnið á einhverjum stað á norðanverðu Írlandi sè ekki gefið af Írum sjálfum, og því finnist það hvergi *inter nomina locorum* á Írlandi, heldur sè það gefið af Norðmönnum, sem í sínum árlegum víkíngskap herjuðu svo vel þar sem annarstaðar. Það votta sögurnar ótal, og eins vel þær, sem gjörðust fyrir Haralds hárfágra tíðir, og þó einna mest um hans daga, þótt ekki nefni eg hèr nema Ólaf hvíta, konúng í Dýflinni, og Ketil flatnef, höfðínga yfir Suðureyum, sem Eyrbyggja vottar og Landnáma. Má það[6] eigi furða, þótt víkíngar hafi

1) Etelvarður, B. 2) þessari dialecto, A. 3) vantar í B. 4) vantar í A. 5) § 44, B. 6) því, B.

sumstaðar nafn gefið á landinu, sem innlendir hafa þó ei viðtekið, en víkíngar, og þeir eð voru af sömu túngu með þeim, hafi viðhaldið og *propagerað*[1] í sínu máli. Eru slíkra nafna dæmin ótöluleg. Sjáum þau heilu Vesturindíin með nýum nöfnum þeirra, sem þángað hafa með hernaði gengið. Ef menn segja, þau haldist þó við, eg svara, já, af því að þeir, sem tóku þau með herskildi, settust þar að löndum og ríki. Það gjörðu Norðmenn ei til lángframa hjá Írum. En skoði menn dæmin önnur, hvað mörg nöfn hollenzkir gefið hafa í Noregi, sem enn halda þeir í sinni túngu, en Norðmenn sjálfir aldrei tíðka; eru þó hollenzkir þar kaupmenn alleina, en hermenn ekki. Svo hafa þeir engelsku fiskarar hèr undir landinu gefið ýmisleg nöfn, sem þeir alleinir tíðka, svo sem Tálknafjörð kalla þeir Lusebay, Önundarfjörð Mossenshol[2], Eldeyar Munken, og hvað fleira kann þenkt vera. Ætla eg svo læknaða þá *objection*, sem af jölduhlaups nafninu vill rísa, þar sem það ekki finnst í Írskunni. Þar í mót hafa vorar sögur og svo þau staðanöfn, sem enn í dag eru á Írlandi í sjálfra þeirra túngu, svo sem Dýflin, Cunactum, [Hlymrekur, Dungalsbær[3].

## [4] Innanlands.

Því líkast, að það meini bæði Noreg og Ísland, því Noregur var svo nær um þær aldir hálft heimili fornmanna vorra.

## [5] Ítala búfjár í haga.

Lbr. 4. *Þar skulu menn ítölu búfjar hafa í haga, er skynsömum mönnum virðist þær fleiri nætur, er fè gengur í annars land.*

Tvær orsakir eru til þess, að eg hefi þessa grein innfært í bæklíng þenna, þar sem orðin eru svo öllum auðskilin. Sú orsökin fyrri, að lögbækur þær prentuðu og allar, sem eptir þeim skrifaðar eru, hafa þá grein, sem eptir fylgir hèr í kapítulanum, og ítöluna sjálfa inniheldur, herfilega ránga og afbagaða, þar eð þær lesa: „Hross þrevett við kú, og svo þótt eldra sè; tvö hross tvævetur og ýngri við kú". Og sèð hefi eg nokkrar á pergamenti, sem eptir *reformationem* eru skrifaðar, og

---

1) pronunciera ð, A. 2) Snossenhol, A. 3) Hlymrokur, Dingalsbær, A. 4) vantar í B. 5) vantar í B.

þessa ítölu með ýmsu móti bagað hafa og stórlega afmyndað, sem oflángt er að innfæra. En allar gamlar og góðar pergamentsbækur, þær eð eg hefi sèð, hverra eg hefi nú við höndina 9 saman, lesa þetta svo: „Ross þrevett við kýr tvær eður eldra, tvævett við eina kú eður ýngra, eigi skal fyl telja". Og við þessa ítölu kálfskinnsbókanna samhljóðar aldeilis Grágás, Lbr. þ. kap. 14. Er og ítalan þaðan í vora bók komin, en eigi úr þeim norsku lögbókum Magnúsar konúngs. Önnur orsök, hvar fyrir eg get ítölunnar, er sú, að þessi regla er gjörð fyrir sumarbeit í búfjárhögum, eður afrèttarlöndum, en vantar hina, sem únghross og haustfolöld skamti til hæfis í vetrarhaga. Þá reglu setur Grág. í Lbr. þ. kap. 42: „Þar skal telja við tvævett hross og eldra, tvö hross veturgömul, en fyl fjögur, en annað fè sem í bú-land." Mèr verður svarað: Hvernin má þetta standast saman við hina fyrri regluna, sem telur þrèvett hross og eldra við tvær kýr, tvævett hross við eina kú eður ýngra? Eg svara: Nú er á tvævetra hrossið aukinn allur sumarþroskinn að haustnóttum, og því er það í vetrarhaga talið samjafnt hinum þrèvetru og eldri hrossum, og ekki því fullorðna hrossi meira grasnám ætlað, svo það tvævetra um haustið, sem gengur á þriðja vetur, skyldi nú teljast við kýr tvær, ef þær mættu í vetrarhaga bjargast. Eins er um þau veturgömlu, sem á annan vetur skulu gánga, jöfn að því sem þau muni verða tvævetur um vorið eptir, og þeim ætlaður hverju slíkur hagi, sem kú eður þrèvetra nauti. Hvorki þeim þrèvetra hrossum nè ýngri er veturinn ætlaður til framfarar, heldur að haldist við alleina. Allur sami athugi er um fylin fjögur, nema sá, að þau eru fram til vorsins talin tvö í staðinn kýrinnar, því um veturinn er þeim styrks von af mjólkinni, og ekki mundi þau, undan vanin með öllu, sett á útigáng einan.

## Jus patronatus.

*[Epistola ad amicum*[1].

Vèr lifum þá daga, að *nisi jussu regio* þori eg ekki að skrifa *de nostratium jure patronatus*, nema til svo ágæts manns og trúreynds vinar, sem þèr hafið mèr verið.

Það er gátulaust, að allir *proprietarii* hèr á landi, þegar þeir í fyrstunni lögðu jarðir og kúgildi til kirknanna, hafa

1) þannig, B.

sèr skilið og forbeholdið *plenum jus patronatus* fyrir sig og sína *posteros in æternum.*

Sá er fyrsti vottur[1] hèr til, er gefur kristinrèttur þeirra Þorláks og Ketils biskupa, gjörður eptir[2] 1122, en fyrir 1133. Hann segir með berum orðum, kap. 4.: „Þat er manni rètt, at hann láti læra prestling til kirkju sinnar", etc.

Annar vottur hèr til *irrefragabilis* er *nobilis illa controversia,* sem vorir landsmenn áttu við Staða-Árna, Skálholts biskup, *pestem patriæ nostræ,* sem alt fastagóz þessa lands hefði lagt undir *clerum pontificium,* ef ei hefði guð uppvakið Rafn Oddsson til að mótstanda óslökkvandi ágirnd og óseðjanlegri metorðagirnd Árna biskups, og hefði Rafn að vísu sigrað óvin sinn, ef honum hefði lífið enzt. En þegar guð tók hann burtu, og Eiríkur konúngur, ókunnugri málunum en verið skyldi hafa, tók að sèr *controversiam* Rafns *demortui,* gjörðist sáttmáli sá 1296, sem síðan er kunnur.

Nú *triumpheruðu* biskupar, er þeir höfðu *et vi et dolis* náð *jure patronatus* yfir *beneficiis,* en *proprietarii* hèldu þó í hinn lagðinn, *quamquam* það væri með veikum mætti fyrir allmörgum, sem annaðhvort voru *minus potentes,* eður fèllu í einhverjar sakir, helzt um legorðsmál; þeim ógnuðu biskupar með banni, og er sýnilegur vottur til þess Rb. Hákonar konúngs, dat. Ólafsvöku aptan fyrra, ɔ: 28. Júlí á seytjánda ári ríkis hans, ɔ: 1315. Sýnist allt þetta svo við horfa, að *potentiores proprietarii,* og þeir, er biskupar eigi gátu ógnað með bannsetníngum, hafi þessa rèttarbót útvegað til að *maintenera* sinn rètt mót *insaturabili*[3] ágirnd og ofstæki þeirra katólsku biskupa. Samt er auðsýnilegt, að þetta hafi svo *in perpetuis controversiis* lafað fram eptir öldum, og eru þær seinustu *controversiæ* Ögmundar biskups um Vatnsfjörð, og Gottskálks biskups við Jón Sigmundarson *et nobiles et famosæ,* [svo vel sem sú lánga þræta Páls Jónssonar um Staðarhól, og seinast allra Barðsmál, er Guðbrandur biskup átti við Jón lögmann Jónsson. Sú deila var undirrót þess óslökkvanda fjandskapar, sem Jón lögmaður hafði til Guðbrandar biskups[4]. Þegar nú *reformatio Lutheri* náði hèr á landi framgángi til fulls, *anno 1550,* sýnist líkast, og næsta því *infallibile,* að biskuparnir hafi sèr *tribuerað jus patronatus* yfir öllum *beneficiis,* en leikmenn faðmað *umbram solam veteris sui juris patronatus, [quantum ad vocationem sacerdotum ad-*

1) rèttur, A. 2) vantar í B. 3) inexsaturabili, B. 4) frá [ vantar í B.

*tinet*[1], og svo [ sýnist mèr[2] það hafi lafað við og gengið með skrikkjum inn til 1563. Þá hefir sá ágæti Befalingsmand, *sed avidus imperandi,* Páll Stígsson, sem þó hafði verið hèr í 5 ár, útvegað *Friderici secundi* brèf af 27. Martii, að prestanna *vocation* skyldi ske eptir Ordinanziunni, ɔ: Kristjáns þriðja Ordinanz, og skyldu þeir *vocati* taka sitt *collaz* af stiptsbefalíngsmanninum; þar með forgekk biskupanna *jus patronatus* aldeilis, alleinasta fyrir þögn þeirra Gísla Jónssonar Skálholts[3] biskups og Ólafs Hjaltasonar Hóla[4] biskups. En *proprietarii* hafa þá annaðhvort ekki vitað sinn rètt upp á að standa, ellegar með þögn og litilmennsku slept honum *in totum* fyrir stórmennsku Páls Stígssonar. [ Allt hvað híngað til hefi eg sagt *de jure patronatus,* frá því er það tók að lestast fyrir *vi et dolis* Árna biskups, er sèrdeilis meint *de jure vocandi.* En um alla þessa stund hèldu þó *proprietarii* þeim hluta rèttar síns, að þeir höfðu umráð yfir öllum föstum og lausum eignum kirknanna, með slíkum kennimanna stólum, sem þeir höfðu fyrir skilið, er gáfu, og luku ekki af framar, og hefir aldrei sá kristinrèttur, sem Árni biskup vildi kúga menn undir 1275, fengið lögmáls afl hèr á landi í þeim kapítula, sem er hans 4., og svo byrjar: „Nú skal biskup vor kirkjum ráða ok öllum eignum þeirra", etc. Eg fæ ei stundir í fáum orðum upp að reikna þau *loca juris,* sem eru þvert á móti þessum kristinrètti, og *demonstrera,* hvað mörgu hann hafi aldrei *vim legis obtinerað,* hverra á meðal það er eitt, að hann talar um fimtúng af helgra daga veiðum: „Ef afgjörð verður meiri en hundrað í einum stað, þá sè skipt sem tíundum í 6 staði". Það er *diserte contremanderat* í Rekab. 10., útgengnum 1280. En að hinn fjórði kapítuli kristinrèttar fyrr nefndur aldrei hafi móttekinn verið, og aldrei við gengizt, sýnir sáttargjörðin áður nefnd 1296, og eptir henni hafa *proprietarii,* allir þeir sem nokkurt hafa mál haft í munni, sig haldið inn til þessa dags, og engin veit eg dæmi til, að nokkrir góðir biskupar, allra sízt *evangelicæ religionis* hafi viljað kúga þann rètt af *proprietariis* fremur en svo, að þeir skyldu gjöra reikníng fyrir kirkju tíundir. Í þessari einni grein er að mínum skilníngi fólginn allur reikníngsskapur hèr á landi. Nokkrir biskupar hafa heimt reikníngskap af hálfum legkaupum, sem eg get þó ekki skilið á neinum fótum bygt, heldur virðist mèr það þvert á

1) frá [ vantar í B. 2) síðast meir, A. 3) vantar í B. 4) vantar í B.

móti hinum gamla kristinrètti, sem legkaupin hefir ætlað kirkjubónda upp á slembilukku, hvort hann þyrfti að kosta líkmenn meir eður minna, nokkurntíma eður aldrei. Og eptir hinum forna kristinrètti skipar Rèttarb. Hákonar konúngs Norðmönnum það að halda; því þá ekki jafnframt oss, eptir vorum forna kristinrètti? Um grundvallarlaust tilkall í ljóstollum er ei svaravert; þá á alla kirkjubóndi fyrir lýsíng á altari og ljós til prests, þegar hann gistir, og fyrir þá skilst mèr koma ábyrgð ljóss og elds, sem til kirkju verður borið, samt og eldur fyrir þau papisku glóðarker og vatn til barna skírnar; sumir vilja og hèr með reikna brauð og vín. Hins eru dæmin mörg, að góðir biskupar hafa gjört *accord* við *proprietarios*, þá sem þeir hafa virt óhætta skuldunauta, að þeir aldrei skyldu *portions* kirkjutíundar reikníng standa, en vera *in perpetuum obligeraðir,* maður eptir mann, til að viðhalda kirkjunum og öllu þeirra *inventario,* og ábyrgjast það við öllu, bæði fyrnd og voveiflegum skaða, hvort sem kirkjutíund yrði meiri eður minni, fyrr eður síðar; og þessi *accord* eru eptir *intima natura* og *intentione* þeirra, sem kirkjurnar í hverjum stað hafa fyrstir byggja látið, *quamquam jus vocandi sacerdotem* er frá *proprietariis* tekið, sumpart gint, sumpart *extorquerað* með þeim atferlum, sem fyrr hefi eg sagt. Eg vil ekki fá mèr til orða, hvað í þessum greinum væri að tala um befalíngsmennina ýngri eða eldri, fremur en áður er skrifað. Sumum hefir valdið ókunnugleiki á háttum þessa lands, og meint, að slíkar *rationes* kynnu að *regerast* eptir því sem utanlands viðgengst; sumir hafa af eintómum metnaði haft í höfðinu þann gamla aðallega herramannaskap, og af honum ásamt með forakti við vora *nation inviderað* og kepzt að *extorquera* allar *reliquias proprietariernes* forna rèttar til þvílíkra hluta. Sumir hafa af óforþenktu ráði farið slíku fram, ekkert athugandi, hvað eptir vildi fylgja. Þar í móti hafa allir góðir biskupar vorir hugleidt *posteritatem*, og þau öll *fundamenta juris proprietariorum,* sem hèr hefi eg áður talið, og því ekki gengið fremur, en að kalla tíundir *portionem, ut supra.* En því er þetta *portio* kallað, að þar kirkjan er einusinni bygð, skuli tíundirnar safnast, þángað til hana þarf að umbæta, eður að nýju byggja, og *residua* varðveitast til umbóta eða byggíngar í annan tíma.

En nú skal aptur hverfa til *jus vocandi,* sem með brèfinu

því, er Páll Stígsson útvegaði, var frá *proprietariis* tekið og lagt undir *election* sóknarmanna, að] samt hefir þó enn þá hrikt í því, að biskupar hafa verið óþolinmóðir, og *proprietarii* í sama máta, alt til 1595, þá Kristján fjórði gaf híngað sitt *patent* af 4. Marzí sama árs, af hverju sýnilegt er, að þángað[1] til hafa befalíngsmennirnir, eptir fyrr nefndu Friðriks annars brèfi, „eragtet Landets *privilegia*", um hver enginn hefir þá stund talað neitt tilstrekkilegt, gripið fram fyrir hendur bæði [ á biskupi og *proprietariis*[2] *omnia*[3] *sibi tribuentes* í konúngsins nafni. Þó hafa biskupar enn þá haft mikið að segja í þeim erindum; það bevísar[4] Kristjáns fjórða brèf af 24. Marz 1606, sem befalar Oddi biskupi að hjálpa kapellaninum á Bessastöðum, sèra Lopti Skaptasyni, til prestakalls. En bæði þessi brèf skjóta til *Ordinanziunnar*, *nimirum* til kosníngar eptir henni.

*Interea* hefir með öllu útdáið bæði biskupa og *proprietariers autoritas* til að halda *jus vocandi.* En hið næst áður nefnda Kristjáns fjórða brèf sýnir, hversu að befalíngsmennirnir hafa skaltað og valtað *monarchice* yfir prestaköllunum stærri og smærri.

Nú eptir allt þetta kemur Kristjáns fjórða brèf af 29. Nóvember 1622, sem líkast er að liggi í stiptskistunum báðum, og síðan veit eg ei, að nokkur *proprietarius* hafi upplokið munni sínum um þvílíkt *jus*[5] *vocandi,* nema hvað þeir fornemstu af þeim hafa í ýmsum stöðum verið forgángsmenn fyrir þeim, er[6] kosníngarbrèfin hafa undirskrifað, meðan þau vöruðu.

Þetta varaði nú inn til þess að Souverainiteten inn kom híngað 1662, 28. Júlí. Síðan hafa befalíngsmennirnir hverr eptir annan munað glögglega að *exstirpera* úr höfði mönnum tilkall[7] til hins forna rèttar í slíku *jure vocandi,* nema hvað biskuparnir hafa sèr eignað myndugleika til að kalla presta fyrir þær kirkjur, sem á gózum dómkirkjunnar standa, og hvað Brynjólfur biskup fyrirskilið hefir, þegar hann gaf Dvergastein og Ás í Fellum til *Beneficia,* og munu þær fundaziur í yðar höndum.

Það er ekki til gátu, að hefðu *proprietarii* þeir, sem eru nokkurs málsmetandi, góðan *patron,* og honum væri

1) híngað, A. 2) biskupa og propriet: B. 3) vim, A. 4) ávísar, A. 5) þvílík jura, B. 6) vantar í A, 7) allan þánka, B.

sýnd *graphice* þessi rök, er nú hefi eg tjáð, þá yrði tvíllaust nokkur bót á þessu; hitt er harmurinn, að sundurþykkið[1] *perturberar* allar þvílíkar *negociationes*, og væri margt hèr um að tala, *quod prætereo.*

*Dixi suspirans, et liberavi animam meam!*

## [2] Kaldakol.

Llb. 2.

Þetta orð hefir Björn á Skarðsá rètt þýdt af slíkum rökum, því þá verða kolin af eldiviðnum köld í eldstónni, og eldurinn sloknar. Og heita hèr kola nafni öll kulnuð aska, hverju sem eldt hefir verið, hrísi, viði, torfi eða taði, eins og vèr köllum alt þetta eldivið. Hitt er ei að furða, þó í skógríku landi, sem í Noregi er, sè getið viðar til eldíngar og kola, þar sem sloknar eldurinn, því að það er eldsneyti þar alleina í velflestum stöðum; en greinin er úr Noregsríkis lögbókum innsett í vora bók. Eru það uppruna rök orðsins kaldakol, sem nú eru sögð. En hversu það í lögunum merki, skýrir bókin sjálf l. cit.: „þá er þat kaldakol, ef maður fer af jörðu manns fyrir fardaga, svo at engi maður er eptir". Þær prentuðu bækur segja: „fyrir nóttina helgu"; og er það af óaðgætni þeirra, að þegar þessi Llb. 2. kap., sem eigi stóð í bókinni með fyrsta, var innfærður úr þeim norsku Gula-, Frosta-, og Heiðsævis-þínga lögum eptir skipan Rb. Eiríks konúngs, þá gleymdu vorir landsmenn að hagræða þessu eptir háttum landsins, og lètu standa *terminum* (atriðis orðið) eins og í Noregs lögum stóð, og því landi sambauð. En hinar elztu *membranæ* hafa þessa grein næst fyrir framan Llb. 8., sem þær prentuðu telja; og er greinin í *membranis* með rèttu lagi, svo sem eg hefi hana hér að ofan innfært.

## [3] Katlamáls skjóla.

Kaupab. 5.

Í Austfjörðum eru enn nú skjólur kallaðar, það vèr köllum fötur norðanlands; en augljóst er af l. cit., að viss hafi verið mælir á þeim, er *proprie* hètu skjólur, og annað var búskjóla, Kb. 26. Á *membrana* einni, sem eg hefi, stendur bak

1) ósamþykkið, B. 2) vantar í B. 3) vantar í B.

við á saurblaði tíundargjalds-reiknúngur, sem af bókinni má ráða skrifaður sè um það bil, er Snjólfur Rafnsson hafi sýslumaður verið í Múlasýslu (það var, meðan Hans konúngur ríkti, frá 1483 til 1513). Í þeim tíundargjalds-reiknúngi stendur: 6 merkur skyrs 1 alin, 5 áln. skyrskjóla, ɔ: búskjóla 1½ fjórðúngur. En katlamáls-skjóla er annað. Á prentaðri lögbók hefi eg sèð *noterað:* 8 skjólur eru 7 fjórðúngar; þá skyldi hver katlamáls-skjóla taka 17½ mörk.

## [1] Klukka.

*Campana, a Campania, Italiæ regione,* ef hún er stór, en *nola,* ef hún er lítil, af *Nola, urbe Campaniæ.* Segja menn, að þar hafi klukkur fyrst gjörðar verið.

## [2] Kelft.

Kpb. 6. *Hafi kelft um veturinn eptir Pálsmessu.*

Svo á að lesa, því svo stendur í öllum gömlum og góðum *membranis,* og er hitt orðleysa og misþrykt, er stendur í þeim prentuðu bókum: keflt. Á það bögumæli hvergi við þessa meiníng nè aðra, svo eg minnist, í vorri túngu, nema megi það vera *contractum* af keflað, og mega segjast um kefluð lèrept þvotta-kvenna, eður lömb þau, sem kefli er bundið í munn, svo eigi skuli þau sjúga búsmala. Sýnir það og Kpb. 18., að þetta er bókþrykkjarans vangá, því þar, í Kpb. 18., er orðið rètt stafað *kelft.* En hvort þetta *kelft* skuli hèr merkja „borið kálf“ eður „fengið kálf“, er stórathugavert. Það er víst, að kelfd heitir sú kýr, sem gengur með kálf; það er alment mál enn í dag. Það er ljóst, að kelfing heitir kálfburður í Kpb 16.: „við kelfing eður lambburð segir þar að leiguliði skuli ei ábyrgjast. En í Kpb. 17. segir, að við því ábyrgist hvorki leigumaður nè fóðurmaður, að kýr ei fái kálf, ef hann hefir graðúng með nautum sínum. Af hverju sjá má, að ef ei gengur tarfur með nautum, þá skuli hann ábyrgjast, ef kýrin eigi fær kálf; og svo er venja að bæta það tveim aurum, svo sem segir um kú geldmjólka, í Kpb. 6. *Ergo* er það ekki kelfing, að hún fær kálfinn, heldur það, að hún ber kálf. Eins hljóða hèr um Frostaþl. og hin nýu NL.,

---

1) vantar í B. 2) vantar í B.

*lib. 5. cap. 8. artt. 10. et 13.* Það er og *vox activa,* er hèr stendur: hafi kelft, og þýðir það að hún hafi borið, en skyldi það vera, að fá kálfinn, ætti þar að standa kelfzt, eður kelfst eður kelfz, því það er *passivum*, að kýrin kelfist og ærin lembist. Þá er það enn, sem Rb. Eiríks konúngs segir, hver innfærð er Llb. 55.: „Ef gráðúngur eltir fáng úr kúm". Þar heitir kálfurinn fáng, en ekki kelfíng, svo að *vocula* kelfíng finnst hvergi svo meint, að merki kálf-fáng eður höfnun kýrinnar, en hitt er opinbert, að kelfíng er kálfburðurinn, sem áður segir af Kpb. 16. Það er enn, að þar sem menn nefna kelfda kú, er það *participium passivum*, að kelfast, en ei af *activa voce*, að kelfa, sem hèr getur ei annað meint, en að bera kálfinn; en það, sem *activum* er *in generatione* kálfsins, er *tauri solius*, að hann kelfir kúna, þá hún hafnast, og er ekki sá háttur máls alltíður, en hún kelfir, þá hún ber kálfinn í ljós, og svo kveður þar að orði herra Gísli Jónsson, biskup í Skálholti, og herra Guðbrandur biskup, og eptir þeim báðum herra Þorlákur biskup, allir sameiginlega í Jerem. spádómsb. 14. kap. v. 5.: „Hindurnar, sem kelfa á skógunum, yfirgefa kálfana". Þar sem Lúthers *versio* hefir: „Die Hinder, so auf dem Felde worffen", etc., segja *Nurnbergenses:* „Laszen die Jungen", eins og selurinn kæpir, þá hann fæðir kópana, og talar það almenníngur. Svo segir í dönskunni um öll smádýr, svo sem hèra, rádýr, refa og kanínur, at de yngle, og yngler *in singulari*. Vèr segjum og aldrei það um kúna, þá hún fær kálf: hún kelfir, heldur að hún kelfist. Svo er og burðartími kýrinnar gagnvænlegastur einu búi, að hún hafi borið kálf um veturinn eptir Pálsmessu og þaðan frá til sumarmála; hafnast hún þá ekki fyrr að eðli rèttu, en í fyrsta lagi 16. Febr., og ekki síðar en þann 10. Maí, ef menn skulu í fardögum vita, að hún hafi fest fáng og sè með kálfi, sem þó á í fardögum víst að vera, því annars bætist hún 12 álnum fyrir fángleysi, svo sem almenn venja er á þessum tímum; er hún þar af dregin, sem segir í Kpb. 6. kap., að kýr geldmjólk eður kvíga að fyrsta kálfi skuli 2 aurum verri en kýr. Verður þá burður kýrinnar að vetrinum eptirkomanda aldrei fyrr en 16. Nóv. og aldrei síðar en 10. Febr., það er einhvern tíma fyrir þorralok. Hèr við leggst það, sem optast hendir, að kýrin hefir nokkuð af þeim tíunda sólmánuði, og það enn, sem nýi stíll þokaði tímunum, og á það hèr eigi meir að telja. En hvað aflagazt hafði í gamla stíln-

um um þau 420 ár, sem frá innkomu bókarinnar 1280 liðið höfðu, til þess stíllinn var reformeraður *anno 1700.* Lætur þá nærri fyrri viðtekinni venju, sem allstaðar eður víðast á landinu er í tíðkan, að sú kyr sè gild kölluð, sem borið hefir fyrir miðgóu um veturinn einhvern tima frá jólaföstu inngángi. Á þess hèr að gæta, að kýrin með þessum burði hefir alla sumarnyt eptir sínum kostum, og kemur eigi fyrr inn á gjöf um haustið, en hófi sætir, þó haustveður megi verða mjög snemmbærum kúm orsök til innistöðu. Og ef þær kýr eru nytsamar, sem seint á jólunum og til miðgóu burð eiga, þá er von þær muni mjólka um kálfburðinn framan af vetrinum, og vera lèttari á fóðri, þá stund sem þær standa geldar.

Að hverju öllu hugleiddu eg meina þessar framtaldar ástæður útþrykkilega sýni, að orðið „hafi kelft", í Kpb. 5. og 18. kapp., merki að hafa borið kálf, en eigi hafa fengið kálf. Og rètt hafi hèr um meint Björn á Skarðsá og sýnt athugasemi sína af Kpb. 16. og 17. En það sem hann vill meiníngu sinni til styrkíngar leiða af Noregskonúnga sögum, orð Sveinka Steinarssonar við Sigurð Gullstreing, sendimann Magnúsar berfætta, þar hefir vissulega rángskrifað *exemplar* prettað Björn, og vilt hans gætin augu. Hann hefir lesið: „Áttir þú einn veg andarrúm, sem í kelfu", og segir: það er þegar kálfurinn er borinn. En í mínum Noregskonúnga sögum ept-*membrana* skrifuðum stendur: „Áttir þú einn veg andarrúm, sem otur í kelpu", svo það er ljóst, að ekkert komi þetta við kálfa nè kelfingu, kú eða kálfburði. Það sýnir oturinn, sem vantað hefir í bók Bjarnar. Og þó eg gángi tæpt að, skýríng á að gjöra, hvað kelpa sè, þá lúta þar mjög að undangángandi orð Sveinka um mús í skreppu og hund í skipi, sem kelpa muni einhverr háski otursins, og líkast veiðivèl þau, er hann fángast í. Mætti kelpa skylt eiga nafn sitt við kilp, sem mjög er skaptur eins sem stál fyrir dýra-boga; heitir það og kilpað, sem ójafnt fer í blikkjum, svo sem mishertur saumur á klæðum, og kynni svoleiðis egnd að vera net fyrir oturinn á sjó eður landi.

## [1] Knapi.

Kristind. b. *þjónuðu opt velbornir menn þeim, er varla máttu vera knapar þeirra.*

Knapi, *german.* Knabe, *puer, puerulus,* smásveinn, drengur, únglíngs þènari, sem aga og hirtíngum hússbónda síns er undirgefinn, skósveinn, skódrengur. Hirðskrá, kap. 38., hversu herfángi skal skipta, þá sagt hefir verið, hversu nær megi gánga að taka herfáng af feldum val og sektir viðlagðar allt ofan til almúga leiðángursmanna: „En ef sveinn eður knapi ruplar meir lík, láti húð sína, en sektina gefi fátækum mönnum". Svo segja Noregskonúnga sögur: „Nú bar svo til á þessu sama kvöldi (sem Sigurður konúngur Jórsalafari hafði þraungt manninum á sundinu, þegar Erlíngur Gapamunnur kom til hjálpar), að Haraldur (gilli) sagði sveininum (sem honum þjónaði), að hann skyldi rekkja í húðfati hans um nóttina, en Haraldur gekk upp á land með Erlíngi. En er Loðinn varð þess vís, lèzt hann ei þola mundi, að knapar gengi upp á hann, og spurði, hverr honum hafði vísað að rekkja hjá dugandi mönnum? Sveinninn kvaðst það gjöra, sem Haraldur bauð honum. Snorri Sturluson hefir þessa sögu nær orðrètt, nema að knapar gengi á hann ofan; og er svo að sjá, sem, til að komast í húðfatið, hafi þurft að stíga upp yfir húðfat Loðins, og má það eins gilda til þessa máls, því það er ljóst bæði af orðum Snorra Sturlusonar og sagnanna, að þjónustusveinn Haralds er af Loðni knapi kallaður. Í átt hina sömu lítur sagan af Ólafi konúngi helga um Finn litla, þjónustumann Hræreks konúngs, þá er Hrærekur var tekinn á Upplöndum, þá slóst Finnur í för með þeim, og fór optast í för með knöpum, og hvert sinn sem hann mátti, kom hann sèr í þjónustu við Hrærek konúng. Hèr sjáum vèr, smásveinn Hræreks konúngs sækir þá sveitúnga, sem hans standi skyldu helzt sambjóða, og heita þeir hèr knapar.

## [2] Konúngur, kóngur.

*Magnús, með guðs miskun Noregs konúngur; og síðan ótalsinnum í bókinni.*

Margrætt er um, hvaðan þetta orð hefir sinn uppruna, en allir vita merkíngu þess, að það er titill hátignar þeirrar, sem

1) vantar í B. 2) vantar í B.

engan herra þekkir yfir sèr, nema guð almáttugan. Er því betur, ef kostur er á, að finna rök upprunans af þessu orði, og á þá ei að gleymast, að vísdómur konúnganna hefir sett á hátign sína mjúklátan titil, þann er undirsátunum skyldi vera ástúðlegur meir en ógnarlegur. Skyldi sá daglegi titillinn undir eins með hátigninni færa náð konúnganna, en ógnin því að eins farmkoma, að með íllgjörðum undirsátanna væri til þess unnið. Rök upprunans eru þessi: konur er gamalt orð og þó alltítt að fornu og lángt fram á aldir, að vísu allt fram á daga Ólafs konúngs kyrra *anno 1090*, og er sömu þýðíngar aldeilis sem maður. *Femininum* af því er enn í dag kona, og það skilja allir menn. Svo hèt þá að fornu konur, kona, eins og vinur, vina, í Hyndluljóðum:

Vaki mær meya,
vaki mín vina,
Hyndlu systir, etc.

og í Njálu: Vefur verþjóðar,
þann er vinur fylla.

Maki, maka, í Skikkjuþætti, kap. 8.: „Engar eru líkari mökur, en þið eruð“. Máli, mála í Eddu. Rúni, Rúna í Eddu. Hallfreður kvað: „Grams rúni lætur glymja“. Völuspá: „Glepur eyra rúnu“. Hórr, hóra *(adulter, adultera)*, Loka senna:

Ása ok álfa,
er hèr inni sitja,
hverr hefir þinn hórr verið.

Leysíngur, leysíngja, Grág. Festarþ., kap. 8. Þollur, þöll. Grettiss.: „Álmþoll ok söðulkollu“. Hávamál: „Hrörnar þöll, sú er stendur þorpi á“. Hlynur, hlein. Flutníngur, flutníng, Rekab. 8., Rekab. 2. Drottinn, drottníng, hvar um síðar. Dynur, duna, Sverris saga: „Gjörum dyninn sem mestan“. Grettissaga: „Heyrði hann út dunur miklar“. Hefi eg nú talið þessi *substantiva masculina* með þeim *femininis*, sem af þeim dregin eru, og þó heldur *substantiva, quæ eadem natura sunt, sed pro terminationis varietate notationem sexus variant*, eptir því sem eg sagði að gjörði konur og kona. Vitni til þess, að konur hafi tíðkazt, og merki aldeilis sama sem orðið maður, eru þessi:

1) Sæmundar Edda. Helga kviða Hundíngsbana:

Spurði Helgi
Hjörleif at því:

Hefir þú kannaða
koni óneisa?

En úngur konur utan fóru,
öðrum sagði: tólf hundrut
seint kvað at telja tryggra manna,
af Trönu-eyri þó er í Hátúnom
lánghöfðuð skip hálfu fleira
und líðöndum, víglið konúngs,
þau er Jörva-sund vanir erom rómo.

Allan þennan her kallar Helgi koni ónæisa = menn hneisulausa, ɔ: röskva.

2) Og enn segir Sæmundar Edda í Helga kviðu Haddíngja-skata af Hjörvarði og Sigurlinni, þar sem tröllið Hrímgerður spurði Atla, stafnbúa Helga, að nafni:

Hve þik heitir, halur enn ámátki?
kvað Hrímgerður, hve þik kalla konir?

Hèr getur enginn vafi gjörzt á því, að konir sèu menn.

3) Bragna konur = *vir populi, vir hominum, vir militum.* Svo kvað Sighvatur um fall Erlíngs Skjálgssonar, Ólafs saga helga:

Erlíngur fèll, en olli (bíður-at betri dauða)
allríkur skipan slíkri bragna konur með gagni.

Erlíngur fèll, bíður-at betri dauða, en slíkri skipan olli með gagni allríkur bragna konur. *Erlingus occubuit, nec alii meliori mors accidit (nec quisquam melior occubuit), talem mutationem (eventum) victoria sua causatus est vir populi,* ɔ: *rex.*

4) Heita konur. Edda. Arnór Jarlaskáld kvað:

Rèð heita konur hljóti[1] styrk fèkk ok of orkat
herþarfr vit mik gerva jarls mægð af því frægðar.

Herþarfur *(exercitui necessarius)* heita *(promissorum)* konur *(vir)* rèð gerva við mig hleiti *(meditato mecum fecit affinitatem);* af því fèkk jarls mægð og of orkað frægðar styrks *(comitis affinitas valuit ad acquirendam nobis gloriam, potentiam).*

5) Rögna konur = *vir deorum.* Snorri Sturluson um Hákon jarl, *ex* Velleklu:

Valföllum hlóð völlu hirðarás at hrósa,
varð rögna konur gagni hlaut Óþinn val, Fróða.

Rögna konur = *vir deorum,* hlóð völlu valföllum = *stravit campos cadaverum cumulis.* Hirðarás = *deus militum*

---

1) corrige: hleiti.

*vel satellitum suorum,* varð at hrósa gagni Fróða = *reportavit cum gloria proventus Frothonis,* ɔ: *aurum.* Þetta bendir til Grottusaungs, hlaut Óðinn val = *cæsi Othino obtigerunt.*

6) Siklínga konur = *vir regius,* ɔ: *rex.* Arnór kvað, sem Edda vottar:

| | |
|---|---|
| Siklínga venur snekkjur | hann litar herskip innan |
| síðlútar konur úti: | hrafns góð er þat blóði. |

Siklínga konur = *vir regius,* svo sem Eyvindur Skáldaspillir sagði í Hákonar málum. Konúngmaður, ɔ: *rex,* venur úti síðlútar snekkjur = *assvefacit pelago versari naves tardas ad submittenda rostra,* ɔ: *difficulter superabiles vel invictas, ipse tingit navis interiora sanguine (hostium), quod corvorum proventus est, seu, quod corvis bono est.*

7) Hildínga konur = *vir regius.* Noregsk. sögur. Steinn Herdísarson um Ólaf konúng kyrra:

| | |
|---|---|
| Ólafur gefr, sva at jöfra | Gramur er heiðum himni |
| alls engi má snjallra, | hann fremstur kóngmanna |
| höggit gull til hylli | (spyr þú hverr glíkt mun gerva) |
| hildínga konur mildi. | gjöflundur borinn undir. |

Ólafur hildínga konur = *Olavus, regius vir,* gefur höggið (haglega gjört) gull til hylli = *donat aurum affabre factum ad devinciendos sibi hominum animos,* svo að alls engi mildi snjallra jöfra má = *ita ut aliorum præcellentium regum liberalitas nihil possit.* Gramur gjöflundur (gjöflyndur), hann er fremstur konúngmanna borinn undir heiðum himni = *Rex ille liberalissimus seu magnificentissimus princeps virorum regiorum,* ɔ: *regum natus est omnium sub sereno coelo. Interroga vel investiga, an quispiam simile faciat.* „Konúngmanna" segir hann hèr, eins og áður er getið að Eyvindur skáldaspillir segir í Hákonar málum:

> Áður jafngóður
> á auða tröð
> konúngmaður komi.

Hèr sýnir Steinn Herdísarson í einni vísunni bæði „hildínga konur", *regum vir,* og konúngmanna, *virorum regiorum,* svo þreifanlega, að eigi verður gáta leidd, að hvort um sig merkir ekkert annað, en konúng, *quod nostro ævo dicitur contracte* kóngur. Það er og ekki einúngis í þessari glósu, að „konúngmaður" *pro rex* og „hildínga konur" *pro rex,* „siklínga

konur", *pro rex,* eiga sinn líka, eður að „maður" með öðru tillögðu orði brúkast fyrir það sama, sem hið undangengna og glósunni „maður" meðfylgjandi orð sjálft áður fulltalar; heldur er það eptir eigin art, *nativo decore et idiotismo* þeirrar gömlu dönsku og norrænu túngu, svo sem í fyrirburðinum fyrir Brjáms bardaga segir Njála, kap. 148:

Nú er fyrir oddum
jarl-maður hniginn.

Jarlmaður ɔ: jarl, og ekkert annað, sem aðgætt hefir *celeberrimus Bartholinus,* þar er hann *verterar* „jarlmaður" *comes,* og ekki framar, *Antiquitt. Dan. lib. 3. cap. 1.* Eins í Grettissögu segir Snorri goði „öldúngs mennið" ɔ: öldúngurinn, um Þorstein Kuggason; og enn í dag helzt þetta í almennu máli hjá oss, svo daglega segir allt fólk „höfðíngsmaður" = höfðíngi, veslíngsmaður = vesælíngur, karlmaður = karl, kvennmaður = kvinna. Er þetta eins tíðkanlegt í öllu landinu, eins og að segja: karl og kona, höfðíngi og vesælíngur. Get eg nú ekki sèð, að því verði neitað, að eg hafi með skilmerkum rökum sýnt bæði það, að „konur" er gömul og góð norræna og danska, og brúkanlegt allt til *anno 1090,* og þar undir eins, að „konur" í þessum *7 exemplis* merkir allt hið sama og maður, og er *masculinum* frá orðinu, sem enn nú höfum vèr, „kona".

8) Áttunda *exemplum* er í vísu Þjóðólfs um Magnús konúng góða Ólafsson Haraldssonar, sem Edda címerar í kenníngum þeim, að menn eru við ætt sína kendir, eður göfuga frændur:

Andaður er sá,
er of alla brá,
haukstalla konur
Haralds bróðursonur.

Hèr getur ekki „konur" haft sonar eða afkvæmis merkíngu. Til er í voru máli „konur" í annari merkíngu, og þýðir þá son eður afkvæmi manns eður frændur, svo sem segir Sæmundar Edda frá Regin:

Kominn er híngat seggurinn snarráði,
konur Sigmundar, til sala vorra.

Og í Snorra Eddu, þar sem telur frænda nöfn: Niður, nefi, áttúngur, konur, kundur; og enn aptur: konur, kynkvísl, kundur, ættbogi. En slíka hluti eður nöfn hlutanna má allmarga finna í vorri túngu, svo vel sem öðrum, að sama orð hefir

tvær merkíngar og allopt fleiri, svo sem er strax nefndur áttúngur; hèr merkir það „ættíngi", en ella áttunda hlut einhvers þess, er skipta má. „Fílúngur" heitir fugl, og „filúngur" fjalviðar-smiður. „Sinni" er lunderni, „sinni" er og fylgd, og þaðan „liðsinna." „Bekkur" heitir sæti, og „bekkur" lækur. „Lág" heitir trè, og „lág" er lægð í jörðu, og margt telur Edda þesskonar. Hitt er auðsèð öllum, að í þeim fjórum fyrstu *exemplis* af „konur", sem hèr hefi eg til leidt, getur það ekki skilizt fyrir „son", og ljóst er, að hin seinni fjögur meina það og eigi heldur, svo sem þrástagað er og eg sagt hefi, „konúngmaður *pro* „konúngur"; en niðurlagið eður *terminatio* „úngur" gjörir í þessu orði „konúngur" enga frekari merkíng, heldur en *terminatio* „íngi" gjörir í orðinu „höfðíngi", „foríngi", „ræníngi", svo sem eg vil með nokkrum dæmum sýna, því að eins segir vor túnga: Áttúngur, Týrs-áttúngur ɔ: Týrs-ættíngi, bröndúngur, bræðrúngur, bolúngur = eik frá rótum höggvin, búðlúngur, rapta-buðlúngur, bunúngur, hvals heiti í Eddu, filúngur = fjalviðar-smiður í Frostaþíngsbók, fílúngur fugl, fimtúngur, fjórðúngur, flysjúngur, fólknárúngur, Foldúngur (í Noregi), gárúngur, ginnúngur, Gjúkúngur, graðúngur *vel* griðúngur, grunnúngur, höndúngur (Skeggi skammhöndúngur), höklúngur, hemlúngur (skips heiti í Eddu), höfrúngur, hoppúngur (veiðarfæri), hornúngur, Hrauðúngur (jötun í Sæmundar Eddu), hrísúngur, hveðrúngur (fiskur stór einhverr), hvítvoðúngur, kinnúngur, kotúngur, kuðúngur, kuflúngur (Nikulás kuflúngur), lofðúngur, löndúngur, miðjúngur, miðlúngur, niflúngur, oflátúngur, öldúngur, ónytjúngur, piltúngur í Grettissögu, Ribbúngur, rifjúngur (sverðs heiti í Eddu), rostúngur, sèttúngur, sifjúngur, Skánúngur, skeljúngur, skjöldúngur, sköfnúngur, sköflúngur, skörúngur, slèttúngur, snoppúngur, Snorrúnga-goðorð, Snorrúngar, vinir Snorra goða, Sturlúngar, sveitúngar, sumbúngur, silúngur, systrúngur, tólftúngur, verfeðrúngur, vetrúngur, Volsúngur, þriðjúngur, þríkiðúngur, þumlúngur. Í öllum þessum orðum færir niðurlagið „úngur" með sèr þá merkíngu, sem aðalmagni fyrri hlutans í orðinu bendir til einhverskonar skyldsemi, vensla eða fèlagsskapar við það, er innigrípast má í orðinu framanverðu, eins og niðurlagið „íngi" bendir til höfuðs og hefðar *in voce* „höfðíngi", en til forustu og fyrirgaungu *in voce* „foríngi". Er það vel og rètt sagt, sem skrifar Langhornius hjá assessor Þormóði, *in Serie*

*regum Daniæ lib. 2.*, að niðurlagið „úngur“ og „íngi“, þegar það er áfast við eigið nafn eður frændbálks nafn, merki afkvæmis skyldsemi; en það tekur miklu víðara til ýmislegs fèlagsskapar og nauðleyta, það eru *necessitudines*, sem með þeirri alleinni *terminatione* sýndar verða margvíslega í fyrrskrifuðum dæmum; en öll þau, sem eg hèr talið hefi, skulu, ef hugleidd verða, styrkja, en hvergi veikja mína *thesin*, að niðurlagið „úngur“ í orðinu konúngur ekkert annað með færi, en þá *necessitudinem ac societatem, quæ regem, utpote caput, et subdita regni ejus membra, intercedit*, það er vensl þau, nauðleytir og fèlagskap, sem konúngurinn, að því hann er sjálft höfuðið, á við þegna sína, sem eru limir ríkis hans, hvort heldur sem ríkið er meira eða minna, á sjó eður landi.

Svo er þá orðið „konúngur“ *vi significationis grammaticæ, extra sensum politicum et ethicum* eigi annað en „mannúngurinn“ *vel* „manníngiun“ (*ut has voces fingam*, til að *exprimera* fyrir ólærðum landsmönnum mínum náttúru glósunnar), fyrirmaðurinn, yfirmaðurinn, foríngi liðsins, höfðínginn, maðurinn, sem fólkið hnígur að, maðurinn, sem fólkið fylgir, fólkínginn, fólkíngurinn.

Hèr innfellur markverður athugi, hverr konúnga sig hafi fyrstur konúng kalla látið, svo það skyldi tignarnafn vera. Það *exemplar* af Snorra Sturlusonar *chronico*, sem mèr í höndum er, skrifað með eigin hendi assessors Árna Magnússonar eptir ágætri *membrana*, eg meina þeirri, sem nú er sjálfur hann eigandi að, segir hèr um skýrlega: „Móðir Dyggva var Drótt, dóttir Danps konúngs ríks, þess er fyrst var konúngur kallaður á danska túngu, hans ættmenn höfðu jafnan síðan konúngsnafn fyrir hit æzta tignarnafn. Dyggvi var fyrst kallaður sinna ættmanna; en áður voru þeir drottnar kallaðir, en konur þeirra drottníngar, en drótt hirðsveitin. En Ýngvi var kallaður hverr þeirra ættmanna alla æfi, en Ýnglíngar allir saman. Drótt drottníng var systir Dans konúngs hins mikilláta, er Danmörk er við kend“. Þetta skil eg svo, að Danpur hafi verið ríkur konúngur, það er *supereminentis potestatis*, mikils metinn, í miklum völdum, *potens in potestate*, því ríkur merkir optast hjá þeim gömlu *magnæ potestatis, potens imperio*, þann er hefir hlýðni af sínum undirgefnum, annaðhvort af elsku eður ótta, og helzt af hvortveggju, en miklu sjaldnar *opulentum*, sá heitir auðugur v. fjáreigandi, *vide*

*nostrum* „ríkur“ af rèttarbót Hákonar konúngs, sem innfærð er í kvennag. 1. En það *exemplar* af *chronico* Snorra, sem assessor Þormóður fylgt hefir *in Serie reg. lib. 3. cap. 5.*, hefir hér haldið: „Móðir Dyggva var Drótt, dóttir Danps konúngs, sonar Rígs, er fyrstur var konúngur kallaður á danska túngu“, etc. Gjörir Þormóður sèr áhyggjusamt um þessa tvo, Danp konúng og Ríg, og vill láta þá átt hafa lítið ríki á einhverjum af þeim dönsku hèröðum, en alls ekki þjóðkonúnga verið. Þessari gátu sinni til líkinda leiðir hann kviðu gamla, sem hann kallar Rígsmál. Kviðan er til bak við Eddu þá, sem Snorra er eignuð á ágætri *membrana* assessors Magnússonar. Það er sá *codex*, sem Resenius í hinni prentuðu Eddu kallar *codicem wormianum*, er *Doctor* Ole Worm fèkk af móðurföður mínum; en ekki stendur þar titillinn Rígsmál, svo sem assessor Árni hefir þó sjálfur fyrir sjálfan sig *apographerað*, áður hann eignaðist *originalinn*. En á blöðum þeim, er allra seinast standa í *codice wormiano*, er í þræla nöfnum vísað til Rígsþulu, og trúi eg það vera þetta sama. Það er ljóst, að kviða þessi læzt með *mythologiis* sýna skuli upprásir tignarnafna, en líklegt, að annað meira sè undir þeim fólgið, og kannske það, er Þormóður skrifar, að sundurgreina stand og stèttir manna, og þó heldur hitt, að enginn megi treysta svo mikilmennsku forfeðra sinna, að hún alleina dugi að gjöra sonuna forfeðrunum jafna, nema þar til komi slík æskunnar mentan og iðkun íþrótta, sem frægð feðranna sambjóði. Svo urðu hèr fyrstu börn Rígs afmenni stærstu, þó faðirinn væri guðanna kyns, sjálfur Ásinn Heimdallur, og það annað, að alloptast kippi hverjum í kyn sitt, og þurfi því eins vel að vanda móður-kyn þeirra, sem til höfðíngja sèu ætlaðir, svo sem föður-kynið; svo líkjast öll þessi börn í móðurkyn, og eru þó samfeðra systkyn og ólík sín á millum. Það þriðja, að uppheldið gjöri þó mest til íþróttanna, svo sem hèr reyndist, að á öllum mátti sjá, hvar í garði grís hverr var alinn. Og það fjórða, að engum þeim, sem loflegar listir og íþróttir numið hafa, sè byrgður vegurinn til metorðanna, þótt þeir ekki jafnan sèu af háum stigum. Svo ræður hèr maðurinn Jarl, að Konur, sinn ýngsti son, skuli kosta kapps á, að jafnast við konúngana, Dan og Danp, og gefur Rígur jarl sjálfur Koni nafn sitt, að hann skuli Rígr heita, það skilst mèr að segja honum, að hann sè Ásanna kyns, og skuli gánga

í fótspor föðurföður síns, að vera fremur öðrum mönnum, keppast til tignar, og örvænta sèr engra sæmda. Það er og eitt með fremstum íþróttum Koni til lista talið, hvað vel hann var „kyndur“, það segir speki hans og vísdóm, sem að eru til allrar mönnunar og frama framastir fylgjarar og lífskràptur allrar lands og lýða stjórnar, sem tignarnöfnum fylgja; af þeim hrósar Óðinn sèr í Rúna kapítula, og þær kendi Brynhildur elskhuga sínum, Sigurði Fafnisbana, í Sigurdrífu málum.

Svo sem nú að allt þetta er að mínum skilníngi nærri lagi sýnilegt af kviðunni, svo bið eg lærðir menn hugleiði, hvort eigi muni sú sèrlegasta kviðunnar þýðíng, að allir menn, sælir og vesælir og þar í millum, eigi þó sitt fyrsta faðerni til guðs að rekja, hann sè allra faðir, svo þræls og þýar, sem konúngs og drottníngar, eins og sagði spekíngurinn: *ortus et occasus æquales nos facit, sola virtute distinguimur*, og jafnframt þessu, að konúnga ríkin sèu með það fyrsta af litlum upphöfum og bænda lýð vaxin til þroska smámsaman, inn til þess að manndáðir og vizka þeirra, sem af öðrum báru, gjörðu þau mektug, sem þá var komið, er kviðan var diktuð. Það er þreifanlegt, að hjónin Jarl og Erna, það er aldraði sýslumaðurinn og áhyggjusama fyrirsjónar-konan, eru hèr foreldrar ágætismannanna; meðal þeirra er Konur hinn ýngsti, og þó framast að speki og öllum íþróttum, *vide nostrum* Jarl. Kann eg ekki af kviðunni að sjá, það Rígur hafi konúngsnafn borið svo sem tignarnafn. Hún lætur *adpellativum* „Konur“ vera hið fyrsta *nomen proprium* þessa Rígs; og af því hann tók úngur sín afrek og manndáð að sýna, leggur hún *epithetum* úngur við hans *nomen proprium*, bæði áður og síðan að faðir þessa Kons, sem fyrst hèt Jarl og síðan Rígur jarl, gaf honum nafnið Rígur til vitnis, að Kon elskaði hann mest sona sinna, á sama hátt sem Rígur. Heimdallur hafði áður í sömu kviðunni gefið Jarli Rígs nafnið, þá hann kom til Jarls á skóginum, og gekk við faðerni Jarls. Nú sýnir það Orkneyíngasaga, að þegar höfðíngjar gáfu einhverjum öðrum nafn einhvers mikilmennis, var það nýa nafnið sett fyrir framan hið forna, og því sá síðari Rögvaldur Orkneyínga jarl, Rögvaldur Kali, síðan Sigurður konúngur Jórsalafari gaf honum með jarlstigninni nafn hins Rögvalds jarls, Brúsasonar.

Þegar nú alt þetta hugleidt er, kann eg ekki gjörr að skilja en svo, að af kviðunni *infererist*, það þessi síðasti Ríg-

ur, sem hún talar um, hèt fyrst *fingente poeta* „Konur", síðan „Konur úngur", eins og konúngarnir í Noregi hètu „Hákon gamli" og „Hákon úngi", og síðast hèt þessi Rígur „Konr úngur", og er þetta þó enn ekki tignarnafn, heldur *nomen proprium geminatum*, Rígur Konur, og því tillagt *adjectivum* „úngur". Allra sízt getur þessi Rígur hafa borið þetta svo sem tignarnafn fyrstur manna, því að Danur og Danpur eru hèr eldri en hann, og sitja að ríkjum, þar hann er á úngdóms aldri; það eru ljós orð í niðurlagi kviðunnar:

| | | |
|---|---|---|
| Hvat skaltu, Konr úngur, | hestum ríða | dýrar hallir, |
| kyrra fugla? | ok her fella. | æðra óðal, |
| Heldur mætti þèr | Á Danr og Danpr | en þèr hafit. |

Hvernig má Rígur Konur eptir þessu vera faðir Danps og nú áður konúngur orðinn? Hèr stendur og fyrri talinn Danur en Danpur; þó lætur Þormóður Dan vera getinn af Ólafi lítilláta og eptirlátinni ekkju Danps konúngs, en Drótt, móður Dyggva Svíakonúngs, dóttur Danps, vera sammædda systur við Dan konúng. Byggir assess. Þormóður föðurnafn Dans konúngs á merkilegum fótum, lángfeðgatali og *originibus norvegicis*, en faðerni Dróttar er áður sýnt af Snorra Sturlusyni. Hvað er þá loksins hèr um að segja nema það, að kviðan er ýngri miklu en tignarnafnið konúngur; og er þetta af því auðsèð, 1) sem strax var sagt, að Danur og Danpur eru eldri en hennar Konur úngur; samt er hún þó í heiðni gjörð, því hún lætur allar ættir af Ásum komnar. 2) er það til merkis, að kviðan sè ýngri en nafnbæturnar og tignarnöfnin, að allra stètta nöfn lætur hún vera *nomina propria*, eiginlegt mannsnafn, af þeim ásetníngi, sem fyrr hefi eg sagt, að minna alla menn á uppruna sinn og sameiginlegt eðli manneskjunnar; verður því af henni ekkert dæmt um uppruna nè *significationem grammaticam* orðsins „konúngur". Hvort heldur sem vèr nú fylgjum því *exemplari* af Snorra Sturlusyni, sem assessor Árni Magnússon *apographerað* hefir, eður hinu, sem assessor Þormóður fylgir, má oss jafngott vera. Eg munda ei síður trúa því, er segir Danp konúng hafa ríkan verið, því gátulaust er, að enginn smákonúngur hefir hann verið, af hvers dæmi allir þeir stórherrar, sem á danska og þýzka túngu mælt hafa síðan, láta sèr sóma það fyrir tignarnafn hafa, sem hann hafði sinni tign kosið. Sjáum keisara-nafnið eptir Cæsare, Skjöld hjá Dönum, Ýngva hjá Svíum, þó samt yfirgnæfði konúngs nafnið hjá

þessum hvorumtveggja og um alla danska túngu, já, það meira í þýzku túngunni alt til þessa dags. Um Ríg þann, er verið skuli hafa faðir Danps konúngs, kann eg ekki að mæla. Það finn eg í Hervararsögu og Heiðreks konúngs, að örnefni þau koma fram, sem skylt eiga við Danps nafnið og Ernu nafn, er kviðan optnefnda lætur vera móður Kons, sem eptir á nefndist Rígur Konur. Þar stendur, kap. 16., eptir það Ángantýr hafði hefnt föður síns og náð aptur Tyrfingi: „Fór Ánga týr nú heim, síðan lèt hann efna veizlu mikla á þeim stað eður bæ, er Danftstaðir heita í Ernar hèraði, var það höfuðborg á Reiðgotalandi í þann tíma, og drakk þar erfi eptir föður sinn.“ Þessir konúngar rèðu þá löndum, sem hèr segir:

| | |
|---|---|
| Ár kvaðo Humla | Valldar Dönum, |
| fyrir her ráða, | en vallar akur |
| Gizor Gautum, | Álfrekur enn frækni |
| Gotum Ángantýr, | enskri þjóðo. |

Assessor Þormóður *in Serie regum lib. 2. cap. 1.*, les hèr „Vaulum kiar“ eptir konúngsins *exemplari* af Hervararsögu. Nú þótt mitt *exemplar*, sem allvíða er *mendosum*, hafi hèr Danftstaði, þá ætla eg það megi lagfærast eptir Sæmundar Eddu kviðunni grænlenzku. Þar segir sendimaður Atla, Húna konúngs, Gjúkúngum:

| | | |
|---|---|---|
| Völl lèz Yggur | af geiri gjallanda | ok staði Danfar, |
| ok mundo gefa | ok af gyltum stöfnum | hrís þat it mæra, |
| víðrar Gníta heiðar, | skeraz meiðmar, | er maðr myrkvi kalla. |

Þetta skilst mèr Atli látist með sverði vinna skuli og gefa mágum sínum, því Hnitaheiði var á Reiðgotalandi eður Holsetulandi, það kennir Edda; því að frá Hjálpreki konúngi á Þjóði riðu þeir Sigurður Sigmundarson og Reginn að bæli Fafnis upp á Gnítaheiði. Nú er það ljóst af Noregskonúnga sögum, að hèraðið Þjóð eður Þjóða liggur á Jótlandi. Þar segir: Fór Haraldur konúngur því liði suður til Jótlands fyrir sunnan Vendilskaga, svo um Þjóðu, fóru þá herskildi yfir landið, fóru þeir suður til Heiðabæar. Þegar eg alt þetta ber saman, virðist mèr að Staðir Danfar í kviðunni grænlenzku sèu Danpstaðir í Heiðrekssögu, og nefnir hún þá enn kap. 16. í arfs-tilkalli Hlöðvis við Ángantýr. Þar kveður Hlöðver:

| | |
|---|---|
| Hafa vil ek hálft þat, | hrísi því enu mæta, |
| er Heiðrekur átti | er myrkviðr heitir, |
| af ál ok oddi, etc. | stein þann enn fagra, |

er stendur á stöðum Damſtar,
hálfar herborgir,
er Heiðrekur átti.

Hèr er nú sýnilegt, að sama er til mælt, sem Atli bauð Gjúk úngum, og því rètt, að *corrigera mendum* Heiðrekssögu eptir Sæmundar Eddu, *ut supra.* Þá mun enn þykja niðurlagið Danpar horfa til kvennkenníngar, þar eð Snorri skrifar Danps *in genitivo.* Til þess svara eg, að slík mörg orð hafa hjá oss *genitivum geminum,* með tvennu móti, svo sem eru, Sigmundur, Sigmundsson Sigmundarson, svo Guðmundur, Guðmunds, Guðmundar, Sigurður, Sigurðs, Sigurðar, Konur, Kons, Konar, Gripur, Grips, Gripar, Svipur, Svips, Svipar, Ásvaldur, Ásvalds, Ásvaldar, etc.; og svo læt eg þessa Danpsstaði og Staði Danpar hafa nafn af Danpi konúngi, og Ernar hèrað af Ernu, konu Jarls, sem kviðan talar um, það heitir Árheimar öðru nafni, kap. 16. sömu sögu; og álykta eg, að Danpur hafi voldugur og frægur konúngur verið á Reiðgotalandi, þótt ei sè víst, hann hafi ríkt yfir Eygotum. Hafi nú faðir hans Rígur heitið og fyrstur látið sig konúng nefna, svo sem tignar nafni, eða hafi það nafn sjálfur Danpur fyrst upp tekið fyrir tignarnafn, er sýnilegt, að þeir hafa gjört það til mannástar, að hylla fólk að sèr og undir sitt vald undan drambsömu metnaðarnafni drottnanna, og viljað svo með þessum spaklætis titli láta kenna sig við allan lýð ríkisins. Hefir þetta ráð lukkazt þeim svo vel, að ríki þeirra og vegsemd gjörðist svo mikil,að allir stórherrar af sömu túngunni og svo af þeirri þýzku vildu þeim í því líkjast. Sè það nú og svo, sem assessor Þormóður með stórum líkindum skrifar, að ekkjan eptir Danp konúng látinn hafi gipzt Ólafi konúngi lítilláta, sem sjálfur var þjóðkonúngur og sonur Vermundar vitra, sem með einvalds drottnum talinn er, þá er auðsætt, að Ólafur konúngur lítilláti hafi það gjört til ríkis sèr, að gjörast stjúpfaðir Dróttar, og að láta sèr gott þykja að leggja niður hið metnaðarsama drottins nafn, en kallast mjúkláta nafninu „konúngur", og skyldi sèr sóma það fyrir tignarnafn. Ratar og þetta beint heim, að þessi Ólafur, hvort sem hann var annar eður þriðji konúngur kallaður, fèkk að auknefni að heita Ólafur hinn lítilláti; og nú gjörir strax Dyggvi Svíakonúngur, stjúpdótturson Ólafs, í þá líkíng, og svo hverr af öðrum. Gekk það strax í erfð á Dan konúngi mikilláta, svo vel sem hans systursonar

syni, Dag Svíakonúngi; og svo sem hinir höfðu látið sig drottna kalla, af því að dróttin, það er hirðin, fylgdi þeim, svo heita þeir síðan konúngar; það er: Konir allir, ɔ: karlmenn ríkisins, fylgja þeim og þeirra boði. En drottnínganna titill blífur við það sama, því að þeirra ráð eru sèrdeilis meðal dróttarinnar, hirðarinnar, sem þeim, drottníngunum, er til fylgdar og þjónustu skipuð af konúngunum. Og af því að þá var öllum gjör kunnugur uppruni þessarar nafnbótar, kölluðu svo margir, sem manna forráð áttu, sig með þessu nafni, þótt þeir ekki rèði löndum nè þjóðlöndum, og þóktust rètt kalla eptir meiníng glósunnar, því þeir höfðu forráð manna; þá og þeir, sem hvergi sátu að löndum, hètu sæ-konúngar = sjómanna foríngjar, og her-konúngar = *ductores piratarum et prædonum.* Svo komu til þau mörgu konúnga nöfn, sem *historíurnar* greina, bæði hèr á Norðurlöndum og suður í heimi, fylkis-konúngar í Noregi, hèraðs-konúngar í Svíaveldi. Eins hefir það gengið út í heimi hjá ýmsum þjóðum og túngumálum. Skoðum og historíur ritníngarinnar. Eigi voru allir þeir mannmargir, sem konúnga nöfn báru; Abraham með sínum eigin afla barðist við fjóra konúnga, Gen. 14. Og af því að fjöldi þessara konúnga varð svo mikill, gjörðist vandsèð, hvað slíku konúngs nafni fylgja mundi. Þar af kom, að þeir voldugu konúngar, sem víðlendum ríkjum stýrðu, voru kallaðir þjóðkonúngar, og ríki þeirra þjóðlönd, en svo sem vóx máttur þjóðkonúnga, svo dró eptir því magn af smákonúngum, til þess að hinir lögðu þá undir sitt veldi, og lètu þó nokkrir þjóðkonúngar hina samt bera titilinn, með því þeir höfðu nokkur manna forráð, og voru þeir skatt-konúngar kallaðir; en aðrir þjóð-konúngar lètu þeim ekki líðast konúngsnafn að bera, svo sem Haraldur hárfagri og margir aðrir úti um heim áður og síðan. Sáu það og vitugir menn, því meir sem raun gaf opt vitni, að slíkur fjöldi konúnga var lýð og löndum skaðvænlegur, og risu þar af endalausar þrætur, sem sannaðist á sonum Haralds hárfagra og Eiríks blóðaxar; því var frá öllum þessum smá-konúngum tekin þessi nafnbót, eður þeir aflögðu sjálfir, þó manna forráð ættu, og bleif svo konúngs nafnið alleinasta þeirra og hjá þeim, er þjóðlöndum stýrðu, og hefir síðan eptir þeirra tign tekið og haldið merkíngu þá, er upphaflega var sagt, að það þýðir hátign þá, er engan þekkir yfir sèr nema guð alleinan; en hin forna merkíng þess, af sögðum rökum upprunans, er ellidauð orðin.

## [1] Kostur.

Kaupab. 5. *Nú er lögeyrir sex álnir vaðmáls, nýtt og únotið, og svo kosti, sem tekið er á alþingi.*

Þegar maður að eins leggur hèr eitt orðkorn til „sva at kosti sem tekit er" (sem skipað og meint er), eins og Mannh. 16. „er mælt og staðfastlega tekið", með sameiginlegu alþingismanna atkvæði, og staðfest um gæði þess og tónaðar verkan alla, að gjaldgengt heita skuli, þegar svo er tætt og þæft, sem alþíngismenn fyrirskilja. Kann þessi grein aðra þýðing að eiga, því strax áður er búið að segja verð vaðmálsins, að 6 álnir skuli vera fyrir eyri. En af því að annaðhvort hafa vorir alþíngismenn gjörzt of óvandaðir að vaðmálagjörðinni, eður ágirni kaupmanna hefir þróazt ofmjög, eður hvortveggja, þá kom Rèttarbót Magnúsar konúngs Eiríkssonar á 10. ári ríkis hans, Týsdaginn næsta fyrir Seljumanna vöku, þ. e. annó Chr. 1329 þann 4. Júlí, því að Seljumannamessa var það ár á laugardegi, að vaðmál þau, sem hèðan færast, segir hún, eru eigi svo góð að gjörð nè kosti, sem þau eiga að vera. Sjáum vèr, að kostur vaðmálsins er hèr skýrlega nefndur, svo sem í texta bókarinnar, og það áskilur Grágás í Kb. 82., að vaðmál skuli kostgóð vera.

## [1] Kveður að manni mikið, aðkvæða gripir.

Þ. og K. Kristinr. 16. *Það er galdur, ef maður kveður at sèr eður fè sínu.*

Laxd. kap. 52. *Mikit er kveðit at Kjartani ok kyni hans, ok mun óhægt vera at gjöra fyrir forlög þeirra (við forlögum þeirra).*

Hèr þyki mèr mjög *ambiguum,* hvort kóngurinn skuli meint hafa, að gott væri kveðið að Kjartani og kyni hans, ɔ: þeim væri góðum heillum spáð, eður íllt væri að honum kveðið, ɔ: illa fyrir honum beðið; og meir sýnist mèr þetta *inclinera in pejorem sententiam,* „og er íllt að gjöra við forlögum þeirra"; því það er enginn efi á, að einhverjar spár eður ummæli, góð eður íll, eru hèr meint. Svo kalla og sögurnar

1) vantar í B. 2) vantar í B.

atkvæða vopn, atkvæða gripi, atgeir, sverð, örvar, skyrtur þær, sem með göldrum einhverjum var seidt eður álagt, svo sem atgeir Gunnars, sverðið Sköfnúngur, Gusunautur, og ótal fleira.

## [1] Kveisa.

Kveisa heitir graftrar-mein, *inde* kveisu-nagli, *vide* Njálu um Þórhalla, *item* söguna af Hrafnkeli Freysgoða.

## Kúgildi.

Kgs. þegnsk. 1. *Sá bóndi, er hann á fyrir sjálfan sig og hvert skuldahjón sitt kú eður kúgildi, skip eður net, etc.* *Item* Kaupab. 6. nokkrum sinnum.

[2] Eg á það víst, að flestum muni þykja það nauðsynjalaust og fordild ein, að *nótera* þessa glósu meðal fornyrða, þar sem hún er enn í dag í almenníngs munni, svo að enginn kotkarl er svo fávís, að eigi skilji hann það, að hún merkir grip hundraðs-virðan, og hefir nafn af því, að sá gripur sè jafngildur við kú, þá er hvorki skerðir verð nè leigu, svo sem mælir í Kaupab. 18. kap. [3] En eg hefi því teiknað orð þetta, að eg meðkenni, það fyrir mín augu hefir enn til þessa dags aldrei borið þá lögbók, skrifaða fyrir *Reformationem,* sem ákveðið hafi, hve dýr kýrin sè, og þó allur kvikfjár dýrleiki, sem til er í landinu, við hana mæltur. Því[4] má það furða sýnast, að hennar [verð sè[5] hvergi í þeim fornu lögbókum greint[6] með skýrum orðum, og engan hefi eg þann fundið, er vænzt hafi sig þá nokkra lögbók sèð hafa, er það ákveði, nema alleinn[7] sèra Haldór sál. Jónsson, prest í Reykholti og prófast í Þverárþíngi sunnan Hvítá; hann kvaðst eina lögbók hafa sèð, þá er í Kaupab. 6. eptir þessi orð: „hèraðsræk að fardögum“ hafi sagt: „hún er 20 aurum“ eður: „hún er hundrað“; en ekki lèzt hann minnast, hvort heldur staðið hefði, og eigi sagði hann mèr, hverr verið hefði[8] þeirrar bókar eigandi, en svo lèt hann, sem *membrana* skyldi verið hafa, og talaði þó um það, svo sem óglögglega munað. [9] Tvær hefi eg sèð lögbækur á pergamenti, báðar skrifaðar eptir *Reformationem,* og það miklu, svo að önnur hefir sitt ártal 1581, þrem árum síðar en sú fyrsta prentaða. Hún endar svo fyrstu grein

---

1) vantar í B. 2) § 1, B. 3) § 2, B. 4) þá, B. 5) verður, B. 6) getið nè greint, B. 7) vantar í B. 8) hafði, B. 9) § 3, B.

Kaupab. 6.: „Ei verri en meðal-kýr, hèraðsræk að fardögum fyrir 20 aura". Er það víst, að hvorug þessara er eptir þeirri prentuðu skrifuð; það sýnir bæði þessi grein og mýmargar fleiri, sem í báðum frá henni mismuna; og engan efa leiði eg um það, að þessara 20 aura nafn er *glossa* einhvers, og hefir aldrei staðið í texta þeirra gömlu bókanna.

[1] Nú svo sem það er óefanleg *traditio* og *praxis inconcussa*, að meðalkýr með þeim skilyrðum, sem lögin *definera*, [ er og[2] hefir verið frá alda öðli hèr á landi haldin og kölluð hundrað, svo get eg, meðan frá eru taldar þessar tvær úngar *membranæ*, og þriðja sú, er sèra Haldór nefndi[3], eigi minnzt nokkra grein lögbókarinnar, af hverri *demonstrative concluderað* verður, að kýrin skuli í þeim dýrleika, nema megi þær vera, er eg nú vil telja:

[4] Kaupab. 15. segir: „Skal engi dýrra byggja málnytu kúgildi en tveim fjórðúngum smjörs, eður ala 4 lömb, og ábyrgjast sem fúlgufè, eða leysa 12[5] álnum vaðmáls". Og síðan *ibidem*: „En geldfjár kúgildi eptir samkomulagi er rètt að byggja 12 álnum„. Nú verður mín *illatio* sú af þessu tvennu: Það, sem gefa skal tveggja aura leigu, skal vera 20 aurum; *atqui* málnytukúgildi hvert og geldfjár-kúgildi skal gefa tveggja aura leigu, og eins kýrin sjálf: *ergo* er hún 20 aurum.

[6] 1) Bevísa eg mína *majorem* af berum orðum Grágásar í Kb. 1. kap. Þar segir: „Maður skal ei selja fè sitt dýrra á leigu, en 10 aurar sè leigðir eyri til jafnlengdar, hvatki fè sem er". 2) með *Statutu* Gizurar biskups um tíundagjörð; skal hún, þegar hugleidd verður, sýna þreifanlega, að tíund er tíundi hlutur ávaxta[7] þess fjár alls[8], er leiga eður eigið gagn má af gánga, [ og verður þá eyrir tíund af 5 hndr., svo sem nú er sagt af þeirri *proportion*, að 12 álna ávextir gánga af hundraði hverju, svo sem eg með rökum sýni *in voce* „tíund" og „tíundargjöf"[9].

[10] 3) Þriðja vitni mitt er *praxis* öllum kunnug um taxta kvikfjár þess, er minna nemur en kýrin, svo sem ær með lambi 20 álnir, veturgamall geldíngur 10 álnir, tvævetur 15 álnir, *etc.* Sýna þessir hlutir verðhæð kýrinnar, að 6 ær eru henni jafnaðar, og svo 12 sauðir veturgamlir og 8 tvævetrir, Kaupab. 6.

---

1) § 4, B. 2) frá [ vantar í B. 3) nefnir, A. 4) § 5, B. 5) 16, B. 6) § 6, B. 7) ávaxtar, B. 8) afls, B. 9) frá [ vantar í A. 10) § 7, B.

[1] 4) Fjórða vitni mitt skal vera Erfðat. 21., samanborinn við Erfðat. 22., þar segir hinn 21.: „Svo at þar er innstæðu eyrir full 5 hndr. fyrir ómaga hvern í jörðu, eður því fè, sem hann má vöxtu eður nytsemd af hafa, þá skal hann þat fè taka, skal þat fè hvorki vaxa nè þverra, gjaldi slíkt fè sem hann tók". Þetta skípar[2] útþrykkilega, að af ávöxtum þessara 10 hndr. skal hinn úngi maður forsorgast hjá fjárhaldsmanninum; en kap. 22. gjörir skýra grein á, hversu mikið fè þeim únga manni sè til forlags ætlað á 12 mánuðum: „Nú ef ei vinnst innstæðu eyrir til 5 hundraða, þá skal ómagi neyta 10 aura á 12 mánuðum hverjum. Skal þat minka innstæðu, sem við leigu þarf að leggja til þeirra 10 aura, er fyrir ómaga leggjast á hverjum 12 mánuðum. Nú þó ómagi eigi ekki annað fè, en jörð þá, er 10 aurar takast af í landskuld, þá skal þó ekki minkast innstæða" Af þessu er augljóst, að jörð sú, sem gefur 10 aura landskuld, og 5 hndr. í einhverju því, sem á lögleigu má setja, gefa jafnan ávöxt, þá eru 12 álnir eptir hvert hundrað, eins og Kaupab. 15 skipar kúgildisleiguna, og Grágás ákveður í fyrrnefndum kap.; *ergo* er kúgildi hvert hundrað.

[3] Þótt einhverr vildi segja, að því[4] sè aldrei ákveðið verð kýrinnar í Kaupab. 6., að hún skuli alltíð vera metin á vori í hverju hèraði, og draga[5] það af þessum orðum: „Svo sem lagt er dýrt á vor í því hèraði", þá svara eg, að orðin: „svo sem lagt er dýrt" segja, að í því, sem eptir fylgir, sè greint, hvað verðhæðin skuli vera. En orðin „í því hèraði" meina: svo sem í hverju landsins[6] hèraði er meðalgripum háttað að vexti og burðum, því á því er mismunur ekki alllítill, eptir því sem varið er haglendis gæðum og heygæðum og kvikfjár hirðíngu. Svo eru hestar fleiri smávaxnir í Hornafirði og margir í Eyafirði, sauðfè flest allrýrlegt[7] á Lángholti í Skagafirði og Flóa í Árnessþíngi[8], en ágæta ríflegt í Skagafjarðardölum; meiri hluti nautpeníngs óríflegur í Árnessþíngi, það er veit til fjallgarðs, en betri í Flóa og Ölvesi. Þó eru í öllum þessum hèruðum meðalgripir af öllu svoddan kvikfè gildir þar og[9] gjaldgengir flestra manna í millum, svo sem mælir Þjófab. 23. Því má af þessum orðum: „Svo sem lagt er dýrt á vor í því hèraði", ei annað *concludera*, en að taxtinn,

1) § 8, B. 2) hún, add. B. 3) § 9. B. 4) vantar í B. 5) dragi, B. 6) landgress, B. 7) flestalt rýrlegt, B. 8) sýslu, B. 9) vantar í B.

sem eptir fylgir, skuli standa á öllum meðalgripum sèrhvers hèraðs, þó [að *species* sama kvikfjár[1] sè ekki með öllu jöfn í öllum hèröðum landsins. Er það því rètt, sem áður hefi eg sagt, að verðhæð kýrinnar sè hvergi greind í bókinni, nema *per consequentiam* af þeim greinum, sem framtaldar eru.

[2] Undir eins er það augljóst, að þegar kúnni er svo varið, sem bókin ákveður, að hún er meðalkýr í því hèraði, sem hún skal takast, þá hefir enginn konúngsins þegna vald nè myndugleika til að fella hennar verð úr hundraðs gildi.

[3] Ættu þeir að minnast þess, sem virða fè til skatts og tíundar og ómaga framfæris, og optar en vera skyldi taka þá djörfúng á sig að víkja frá lögmálsins taxta, þar sem kóngur ei hefir sjálfur[4] umbreytt honum. Það gjörir hvorki bót nè skaða þessu máli, þó til hafi verið hjá Norðmönnum kúgildis nafnið[5], svo sem vottar Frostaþíngsbók Hákonar konúngs, Kristinr. *lib. 1. cap. 25.*[6] *§ 44.*: „Þeir menn er sitja í sultshúsi og eigu færra búfè, en tvö skyldarhjún búi um kú eða kúgildi“, því að hèr meinar alleina málnytan kvikfènað[7], sem jafnast við kú til uppheldis mönnum, en skipar ekki verðhæðar líkíng hlutanna; var og kýrin hjá Norðmönnum ekki dýrri en 20 aurum töldum, svo sem eg eptir á sýni *in* mörk, eyrir, ortug.

## [8] K y n g u r.

Það er fjölkunnugur, *inde* fjölkyngi. Svo segir Snorri *in* Hákon jarl, þar sem talar um níð Íslendínga við Harald blátönn: „Haraldur konúngur bauð kyngum manni að fara í hamförum til Íslands, og freista, hvað hann kynni.

## K y r t i l l.

Njála kap. 10. Hallgerður hafði möttul yfir sèr bláan og var undir í skarlatskyrtli.

## [9] L a n d g e n g i n n.

Kaupab. 6. Það er sama og hagagenginn.

---

1) sama species þess kvikfjár, A. 2) § 10, B. 3) § 11, B. 4) vantar í B. 5) nefnt, B. 6) 26, B. 7) vantar í B. 8) vantar í B. 9) vantar í B.

## [1] L a n d n á m,

Sem upp og niður stígur í Llb. 18., bæði eptir skaðabót og nafnbótum, er í Grágás *perpetuum* 6 aurar, Lbrþ. 34. og 35., eins og fullrètti.

## [2] L á t.

1) *Pro* „missir“: andlát, blóðlát, fèlát, mannslát, útlát.

2) *Pro* „læti“, *unde* hljóðlátur, fálátur, marglátur, seinlátur, óðlátur, treglátur.

## [3] L á t u r.

Rekab. 9. Örvar-Oddss. *En er menn höfðu látrazt (þ. e. gengið til hvíldar), og alt var kyrt, stóð Oddur upp.*

Látur sýnist af laut vera dregið, því það er bæli eður hvíldarstaður, þar sem hvilftir eru og afdrep fyrir stórviðrum. Heiðsævislög Lf. 8: „Nú ef maður stelur slætríngi af jörðu manns, þá er sá þjófur“. Frostaþíngsb.: „Lætríngi“ ɔ: sel úr látri; Jónsbók segir „sel“. En hvað er þá „slætríngi“? Ei annað en sellætríngi, selur lætríngi, ɔ: sem í látri liggur, svo hún leggur „sel“ úr Jónsbók og „lætríngja“ úr Frostaþíngsbók saman í eitt orð, og kallar „slætríngja“.

## [4] L a u s n.

Þíngfb. 2. *Engan skal til lausnar nefna*, etc.

Þeir munu flestir hjá oss af þeim, er látast kunna lög, sem þó ekki svo í bráð er gjört, skilmerka grein kunna þykjast á að gjöra, hvað þetta merki. Eg hefi spurt um það nokkra menn, og af engum greinileg andsvör fengið. Hefir mèr svo skilizt, sem aldrei hafi þeir gefið gaum að þessu, fyrri en við mína eptirspurn, og meðkenna vil eg, að eigi hefi eg það skilið, fyrr en það kendu mèr Gulaþíngslög. Þau tala svo í Landvarnarb. 8. kap. um leiðsögumenn: „Svo skal hverr fara, sem í fyrstu er nefndur, og eigi umskipti á gjöra, nema löglegar nauðsynjar gángi til. Eigi skal og lausnir taka, en sá er tekur, þá er sekur 8 ortugum og 13 mörkum silfurs við kóng, fyrir hvern, er hann tekur lausnir af, en sá hverr, er býður,

1) vantar í B. 2) vantar í B. 3) vantar í B. 4) vantar í B.

mörk silfurs kóngi". Hèr sjáum vèr, að þessar lausnir er fèmúta, með hverri sá, er nefndur var, kaupir sig frá leiðsögumanns reisunni, að þeim, sem hann tilnefndi. Og það fyrirbýður Þíngfb. 2. kap. að taka fè í skenk af þeim, sem til lögrèttu verða nefndir, til þess að gefa þá lausa frá þíngreisunni, eður lögrèttumanns embættinu. Þetta verður enn ljósara, ef vèr hugleiðum það, er Snorri Sturluson segir, að Magnús konúngur berfætti herjaði um Halland og fèkk þar mikið fè, sumt við rán, sumt við útlausnir. Hin þriðja bevísíng minnar sögu er af rèttarbótum Vilhjálms kardínála, sem eg hefi á *chartis*, fengnum eptir Einar heitinn Eyólfsson; þar stendur: „Það kærðu lærðir menn, að biskupar tæki veizlur eður lausnir, þó þeir kæmi ei í fylkið. Kardínáli sagði, að það væri í móti guðs lögum, og sagði, að þeir skyldi engar taka (veizlurnar nè lausnirnar), ef þeir færi ei, nema því að eins, ef þeir væri sjúkir, eður færi eptir kóngs boði til hans eða til erkibiskups". Af þessu er ljóst, að Snorri Sturluson kallar útlausnarfè það, er Magnús konúngur tók á Hallandi af herteknum mönnum til þess að gefa þá lausa, eður af þeim, er hann hafði ei til fánga tekið, til þess að ræna ekki bú þeirra, og hertaka þá ekki. Eins kallar hèr umkvörtun þeirra lærðu manna fyrir kardínálnum lausnir þau fjárútlát, er þeir urðu að gefa biskupum, þótt þeir ekki *visíteruðu* fylkin, í staðinn fyrir veizlur þær, er þeir voru skyldir að halda biskupum, þá er þeir *visíteruðu*. Híngað heyra þær tvær greinir af Hervararsögu, önnur kap. 2., þegar Svafurlami neyddi dvergana til að gjöra sverðið Tyrfíng með þeim atkvæðum, er sagan greinir, þá stendur: „þetta voru fjörlausnir þeirra". Önnur kap. 13., þegar Heiðrekur konúngur sagði við Gest hinn blinda: „Viltu þola dóm spekínga minna"? En hann svaraði: „Eru ekki fleiri undanlausnir"? *Confer* svensku Landslag. Þjófab. 12. Þar heitir lausn fjárútlát, það er þjófur gefur sèr til lausnar, síðan hann er fánginn og reyndur að stuld.

## Leið, leiðarþíng.

Þíngfb. 7. *Sýslumenn skulu þíng eiga á leiðum, [ er þeir fara*[1] *heim af Öxarárþíngi.*

[2] Það er alkunnugt, að þessa grein lögmálsins skilja flest-

1) nær þeir koma, A. 2) ‖ 1, B.

ir svo nú um stundir, síðan lögvillur og heimskuleg fordild lögvitrínga[1] hafa þreyngt sèr fram á mannamótum, að orðið „leið" skuli merkja reisuna sýslumannsins þá, sem hann fer til heimilis síns af alþíngi, og mun það enn sannast á þeim, að „íllt sè gömlum hesti gáng að kenna".[2]

[3] Björn á Skarðsá, athugasamur skynsemdarmaður, hefir séð, að eigi gat þetta staðizt, því að bæði vildi það gjöra sýslumönnum óbærilega bið, að láta boð gánga um alt Múlaþíng, Skaptafellsþíng, Þorskafjarðarþíng og Þíngeyarþíng, um hin vil eg ekki tala [ svo freklega[4]; og þar á ofan gjöra lögin ráð fyrir, í Kóngsþsk. 2. kap., að sýslumaður ei muni jafnan sitja sjálfur[5] innan fjórðúngs, því síður innan sýslu. Ætla eg flestum þækti það nýmælum sæta, þegar annó 1658 kom hèr inn í landið forordníng, að hverr sýslumaður skyldi búa í sinni sýslu; hvernig mætti þeir þá þínga á heimreisunni fyrir sinnar sýslu innbúendum? Björn hefir sýnt, hvað Gulaþíngs lög bjóði Norðmönnum um sama efni, að sýlumenn skuli þíng eiga innan þriggja vikna, sem þeir koma heim af lögþínginu, og lýsa[6] fyrir mönnum, etc., eins og Jónsbók mælir orðrètt samhljóða við Gulaþíngslög[7], Frostaþíngs og Heiðsivjaþíngsbækur, en engin þeirra kveður á þíngdaginn; kynni það þó hjá þeim nokkru að muna, því Frostaþíng hófst hálfum mánuði fyrir Jónsmessu, en Heiðsævis (það er sama og Æiðzivia-) þíng á Bótólfsmessu; voru og ekki þessi þeirra þíng, er leiðarþíngunum svara, eindöguð framar en áður sagt er. Kynni því annan stað nokkru að muna, hvað lengi lögþíngið stóð, en Jónsbók tilnefnir þessu þíngi vissan tíma, að það skuli vera á leiðum.

[8] Hefir Björn það athugað af Bandamannasögu, að leið hafi eindöguð verið. Þar segir: „Líður nú á sumarið að leiðum fram. Þat var leiðar morguninn sjálfan, að Oddur vaknar". *Item:* „Ríða menn nú til leiðarinnar; var þar margt manna fyrir, og var helguð leiðin". Sýna þessar greinir allar, að þessir mannfundir hafa þíng verið í vissum stað og á vissum ársins tíma. Eins er að sjá af Sturl. *lib. 8. cap. 20.*, er Þorgils Skarði[9] kom heim að Staðastað frá Bjarnarhöfn. „Sendi hann Þórð hítnesíng[10] suður í Borgarfjörð að

---

1) vanvitrínga, B. 2) íllt muni gömlum hundi kenna að húka, B. 3) § 2, B. 4) frá [ vantar í B. 5) vantar í B. 6) lesa, A. 7) bæði, add. B. 8) § 3, B. 9) add. in parenth. ei Skarði. 10) Hvítnesíng, B.

að helga Þverárleið, þeir voru 7 saman og gistu í Stafholti; latti Ólafur þá að fara til leiðar, kvað Þorleif og hèraðsmenn ílla vera til Þorgils, en Þórður vildi gjöra, sem fyrir hann var lagt. Riðu þeir til leiðar um daginn; voru þar hestavíg mörg og allmikið fjölmenni, og gekk Þórður í Þíngbrekku og mælti þar málum þeim öllum, sem skyldu lög til fyrir Reykhyltínga goðorð. Þorleifur úr Görðum, Egill og aðrir hèraðsmenn sögðu Þorgils hafa hóflega mikið af hèraði, þótt hann lèti helga leið, eður mæla slíkt er vildi. Þórður kvað hann engu að firr, þótt hann lèti þetta löglega gjöra.

[1] Þessi grein sögunnar gjörir í mörgu ljóst um leiðirnar, hvílíkir mannfundir þær hafi verið, fráleitar og fjarlægar sýslumanna reisum af alþíngi; og á það ekki hèr að gleymast, að Þorgils lèt gjöra þetta í því skyni, að eigna Hákoni konúngi Reykhyltínga goðorð eptir Snorra Sturluson, afabróður Þorgils[2]. Grágás segir með ljósum orðum: Ef maður vill færa þíngvist sína, þá skal þó[3] sitja um skapþíng 3 kyrr[4], vorþíng og alþíng og leið[5] *[hæc clausula habetur,* Kb. 66[6]. Hèr nefnir hún leið, ei alleina þíng, heldur og skapþíng, það er árlegt eindagað þíng, eins og vèr köllum skapadægur, *(diem fatalem* = eindöguð æfilok). Og svo kvað Sverrir konúngur að orði undir annars nafni, áður hann barðist við Magnús konúng á Íluvöllum: „Allt er áður skapat, ekki kemur úfeigum í hel og ekki má feigum forða". Hèr segir: „skapat" = ákveðið, eindagað í forlögum. Því heita þrjú þíng heldur skapþíng, en önnur, að þau voru árleg öll, og[7] á vissan dag vorþíng og leið, eitt í hverju þíngi á öllu landinu, sama dag, hvert fyrir sig hjá öllum landsmönnum, en alþíng eitt, sem vitum. Á vorþíngi skyldi sækja þau mál eður framfæra, sem lúkast áttu fyrir alþíng, eður búast þángað, ef ekki gæti menn á vorþíngi lokið. Á leið, það er á leiðarþíngi, skyldu menn mæla lögskil þau, er nauðsyn væri að hafa lokið fyrir veturnætur, eður kannske Marteinsmessu, svo að engin þvílík almennileg þíng [skyldi þurfa[8] um vetur að eiga, *cfr.* Vígsl. kap. 43. um þíng[9] helgað og 57., um skapþínga helgun. Sýnir það Grágás öll, þá að er hugað, að svo hefir verið, og það sjá menn, að í þann veginn hnígur Kóngsþsk. kap. 2.: „Á þessum tímum skal ekki sýslur reka hèr á landi,

1) § 4, B. 2) Þorgilsar, A. 3) þar, A. 4) vantar í B. 5) leiðar, B 6) frá [vantar í B. 7) vantar í B. 8) þyrfti, B. 9) vorþíng, B.

*etc.*, frá Marteinsmessu til Hallvarðsmessu, *etc.*, nema bændur beiðist optar, eður nauðsyn beri til, *etc.* En Kristinréttur þeirra Þorláks og Ketils biskupa segir eindaga lögleiðar svo skýrt, að eigi verður gáta gjör; þar stendur, kap. 15.[1]: „Prestar eiga að taka sèr lögheimili að fardögum, enda er rètt að þeir taki síðan[2] alt til lögleiðar þeirrar, er verður drottinsdag þann, er átta vikur lifa sumars, laugardaginn áður". Þessi grein er eptir ágætri *membrana* skrifuð orðrètt, og henni samhljóða önnur *membrana* forgömul, og þó nokkuð ýngri að allri meiníngu; en „þvottdag" nefnir hún þar, sem hin segir „laugardag". Sama boðorð gefur Grágás prestum í Þskþ. 57. kap.: „Prestar skulu sèr hafa grið á átta vikum sumars. Öllu þessu til upplýsíngar skoði menn með athygli Grág. Llb.[3] 41. kap.: „Ef menn ero úsáttir á afrètt, þá skal sá fara í þíngbrekku, er skil vill á gjöra, þann dag er fyrstur er rúmheilagur, í því þíngi, er hann er þíngmaður í, og nefna sèr votta tvo eður fleiri: Nefni eg í þat vætti, at eg kveð þá menn alla og bið eg, er sèr telja hlut í afrètt þeirri, og eiga látast, at hluta með sèr, hverr dómi skal halda uppi við mig, og hafa hlut at, sva at þeir kunni at segja mèr á leið, og kveða á afrèttina; ef þeir vilja skil á gjöra, þá skulo þeir fara til leiðar og hluta þar, ef eigi er áður hlutað, og skal sá handsala, er hlaut". Og litlu síðar í sama kapítula: „Ef þeir gjöra skil á, hverr dómi skal upphalda vit hann, svat hann viti á leið þeirri, er goði sá heyir, er hann (sækjandinn) er í þíngi vit hann (goðann) þeirra manna, er í afrètt þeirri á, og segja í þíngbrekku eður þar, sem menn segja upp nýmæli[4], nema sá sè þar, þá skal hann segja honum sjálfum. Hann skal með votta segja, og sva kjósa. Sá maður, er dóms vill kveðja, skal fara til heimilis þess manns, er hann vill eiga dóm vit, og nefna sèr vatta: Nefni eg í þat vætti, at eg kveð þig N. afrèttardóms at eiga vit mig, og koma til á 14 nátta fresti, og kveða á dómsstaðinn, og koma þar fyrir miðjan dag, [kveð þig[5] lögkvöð. Hann skal sva skilja á kvöð sína, at þeir eigi dóm annan dag viko, þann[6] er þvottdaginn áður hinn næsta lifa 4 vikur sumars; ef sá dagur er löghelgur, er 14 náttum er fyrir dóminn, þá skal kveðja hinn næsta dag rúmhelgan[7] áður". *Et mox:* „Svo skal maður dóms kveðja, að rúmheilagt sè, þá

1) 5., B. 2) vantar í A. 3) landabr., B. 4) rím, B. 5) kveði þá, A, 6) þar, A. 7) vantar í A.

er hann leggur dómsstefnu, og svo hinn næsta dag eptir". Margt er hèr af að læra skilmerkilegt, þegar rètt er hugleidt. Það fyrst, að á vorþíngi skyldi hann beiðast, að hlutaðeigendur[1] í afrèttinni vildu kjósa einn, að eiga dóm við sig, þann er dómsins óskar. Það annað, að þeir skyldu [ segja honum[2] (sækjanda) á leið, hverr dóminum vildi mót sækjanda uppihalda; hvar af ljóst er, að leið sú, er hèr nefnir, er viss staður einhvers á vissum degi. Það þriðja, að þeir skulu fara til leiðar og hluta þar, ef eigi er áður hlutað. Þetta sýnir enn, að leið þessi var í takmörkuðum stað, sem allír vissu, því ella varð ei á fundinn hitt, nema ákveðinn væri staður og dagur; og ef það skyldi í þeirra valdi staðið hafa, að ákveða stað og dag, væri þess hèr getið eins og hins, sem eptir á kemur, að kveða á dómsstaðinn til afrèttar-dómsins. Nú er það ei heldur[3] ánefnt, að eins það skuli gjörast á leið, því nær og hvar hún væri, vissi almenníngur, eins og menn vita nú, nær og hvar Öxarárþíng skal vera, svo það var að ákveða stað og dag, að nefna leið alleina. Það fjórða, er segir svo, að hann viti á leið þeirri, er goði heyir, er hann (sem sækir) er í þíngi við hann (goðann, sem þar heyir leið). Hèr af sjáum vèr, að leiðir voru margar á landinu, og allar þíng. [Hèr kallar „að heya leið", eins og „að heya þíng"]. Og svo menn geti ei þar um efazt, segir það fimta, að sá er kvaddur var af sækjanda, skal segja í þíngbrekku, hverr dóminum skal uppi halda, eða þar (á leiðarþínginu), sem menn segja upp nýmæli. Það sjötta, nema hann, sem dómsins kvaddi, sè þar (á leiðinni); þar af sjáum vèr, að það er til efs, hvort sá þíngmaður goðans mundi í það sinn fylgja goða sínum á leiðarþíngið, og þó á það að vera nóg, að því er lýst á leiðarþíngi því, er heyir goði sækjandans. Það sjöunda, að hvort sem hann, er beiðist dómsins, er sjálfur þar á leiðarþínginu, og hefir þar fengið að vita, hverr móti honum skal skilum uppihalda, eður spyr hann það[4] af goða sínum eptir leiðarþíngið, þá hefir hann svigrúm til að gjöra sèr ferð til heimilis þess manns, er hann vill eiga dóm við, og kveðja hann afrèttar-dóms; því eins víst er, að einhverjum þeirra öðrum, sem hlut eiga í afrèttinni, hafi hlotnazt að upphalda dóminum, svo sem þeim, er kvaddur var, og hafi sá, er það hlotnaðist, eigi

1) hlutaðeigar, A. 2) sækja hinn, A. 3) vantar í A. 4) þar, A.

verið á leiðarþínginu, þegar lýst var, hverr hlotið hefði að svara málinu. Það áttunda, að stefnufrestur þessi skal ekki skemri en 14 nætur. Það níunda, að dómurinn skal mánudag þann, er laugardaginn áður voru 4 vikur til vetrar.

Af þessu hvorutveggja, áttunda og níunda, [er ljóst[1], að leiðarþíngið hefir verið fullum 40 dögum fyrir vetur, því stefnu fresturinn er 14 nætur, og stefnudagurinn 26 nóttum[2] fyrir vetur, og enn hefir leiðarþíngið verið þeim mun fyrr, að goðinn mætti ná að láta þíngmann sinn (sækjandann) vita, hverjum hann ætti að stefna til afrèttar-dómsins, og hann (sækjandinn) hafa tóm til að gjöra stefnuförina, svo því væri aflokið 40 nóttum fyrir vetur, og einni nótt meir, ef sá dagur væri löghelgur, er innfèll til að gjöra stefnuna. Það tíunda, að á laugardag setur[3] þetta lögmál vetrarkomuna, eins og vor lögbók[4] gjörir, en ekki á föstudag, svo sem síðar er upp komið, og ber ekki saman við lögbókina. Það ellefta, að þegar vèr teljum frá þessa 41 daga fyrir vetur, þá er ekki meir en 14 dagar til að halda fyrst leiðarþíngið, síðan fyrir goðann að gjöra þíngmanni sínum ávísan, og svo fyrir þíngmanninn að gjöra stefnuförina. Horfir svo gjörvalt þetta í ena sömu átt, og er sjálfu sèr samsinna, að leið, eður leiðarþíng, var árlegur mannfundur í hverri sýslu í öllu landinu, og hófst eins í öllum stöðum á drottins-dag þann, er laugardaginn næstan áður voru 8 vikur til laugardagsins fyrsta í vetri. Á þessari venjulegri og árlegri samkomu sèrhvers stórhèraðs innbyggjara skipar lögmálið að sýslumenn skuli þíng eiga og lýsa, etc.

Mèr verður svarað: Hvað koma þessi fornu lög við boðorð Magnúsar konúngs? Eg ansa: Þau koma þar ekki við til annars, en að skýra þrálátum vanvitríngum, hvað orðið leið í Þíngfb. 7. með rèttu þýði; því þótt með konúnglegu valdi hèr á landi gjörðist sú umbreytíng, að þeir sem goðar hètu áður, og tóku sjálfir þíngfararkaup, væri nú konúngsins sýslumenn orðnir og ættu kónginum skil að standa á öllum helmíngi þíngfararkaupanna, þá tók samt eigi Magnús konúngur strax í burtu alla forna landsins venju, sem á fornum lögum hafði bygð verið, heldur vildi hann þetta leiðarþíng með öðru mörgu samt blífa láta, helzt þar sem það var svo náskylt lögum Norðmanna að erindinu, sem áður er ávikið, að Björn á Skarðsá sýnt hefir úr Gulaþíngslögum, [og eg úr Frostaþíngs og Heið-

1) frá [ vantar í A. 2) vantar í A. 3) hefir, A. 4) Jónsbók, A.

sævisþíngs lögum[1]. En öllum landsins innbyggjurum var kunnugt þetta þíng og menn því vanir; því segir þá boðorð Magnúsar konúngs í þessari grein, að í þeim stöðum og á þeim tímum, sem venjulegt sè hèr á landi leið að halda, skuli sýslumenn sínir vera til staðar og halda þíng; það er nú að helga leiðina [ í kóngsins nafni[2], eins og Þorgils Skarði lèt Þórð gjöra, sem fyrr er sagt. Og skipar konúngur sýslumönnum, hvað þeir skuli þar sýsla, svo að undir mjúklátu yfirskini fornrar landsins venju tæki konúngs vald og skikkun ríkis afl og yfirhönd.

Renni nú, sá er vill, auga til alþíngis tímans í hinum gamla stíl á Pètursmessu og Páls 29. Júní, og svo til sumarkomunnar á 9. og 15. Apríl, þá skal hann sjá, að þíng hófst aldrei fyrri en á 76. degi sumars, og aldrei síðar en á 82. degi sumars. Aptur líti menn til sumarkomunnar í nýa stíl á 19. og 25. Apríl, og svo til þíngtímans á Seljumannamessu þann 8. Júlí, þá sèst, að alþíng þessara tíma hefst aldrei fyrr en á 75. og aldrei síðar en á 81. degi sumars. Þetta kemur ei svo til, að sumarkoman sè úr lagi færð með rími prófastsins sèra Jóns Árnasonar, svo sem eg heyri[3] nú marga segja eptir rímtöflu prófastsins sèra Þórðar Jónssonar, og þó eigi með röksemdum, því að sèra Jón setti sumarkomuna aldeilis í sama púnkt sem hún hafði staðið frá *anno 1600* til *1700*, en sèra Þórðar rímtafla þokar henni niður um einn dag. Kemur þessi eins dags mismunur um þíngs upphaf svo til, að þegar *anno 1700* inn kom stílsins umbreytíng í landið, þá var með ásettu ráði þíngtíminn færður upp um þann eina dag ofar, en hann hafði staðið fyrir[4] frá annó 1600 til 1700, og af ásetníngi gjört, að fella úr tölunni[5] hlaupársdaginn, þann er 1700 var búið að halda eptir hinum forna stíl, áður en konúngsins boð var til vor komið um þann nýa stílinn. Gættu menn í þessu tveggja hluta, þess, að alþíngið varaði[6] lángt fram á sumar[7], og var búmönnum meira mein að missa einn dag um töðuslátt, heldur en fyrir sláttinn; þess annars, að enn þá ofar hafði staðið um það skeið, er lögbókin var útgefin, svo að ekkert var í þessu móti henni brotið. Þegar hvorstveggja þíngtímans er gáð, verður því ljósara, hvað litlu munar leiðartíminn, sem nú hefi eg um talað, frá þriggja vikna tímanum

1) frá [ vantar í A. 2) frá [ vantar í A. 3) hefi heyrt. B. 4) vantar í B. 5) töflunni, A. 6) opt, add. A. 7) sumarið, A.

þeirra norsku lögbóka. Köllum nú, að þíngið hefjist á þeim 78. degi sumars, það er miðmunda milli þess 75. og 81., þá 11 vikur eru af sumri, og vari 14 daga, [þá höfum vèr mitt sumar að þínglausnum, teljum þaðan 14 daga[1] reisu þeirra sýslumanna, sem úr fjarlægustu hèruðum eiga til að sækja; teljum þaðan 3 vikur Noregs sýslumanna, og þá tölum[2] vèr saman á leiðinni, sem áður hefi eg sýnt, nær eindöguð væri, sunnudaginn þann, er laugardaginn næstan áður eru 8 vikur til vetrar.

Síðast allra sýslumanna hèr á landi hefir Jón Sigurðsson, sýslumaður í Þverárþíngi, leiðarþíng haldið, og þó ekki jafnan á sama tíma, en samt, að eg skil af hans eigin undirrèttíng, allnær hinni fornu lögleið, eptir því sem honum hafa borizt þíngbækurnar frá lögþíngisskrifaranum, og svo faðir hans, Sigurður lögmaður Jónsson fyrir hann, og þá áður næst Jóns Vigfússon, sem eptir á varð Magister og biskup, og enn þá áður Árni lögmaður Oddsson, allir nær um sama tíma, og þó eigi, það eg get til vissu ráðið á einn[3] ákveðinn vissan dag. Sýnir það, að niður hafi þá fyrir nokkrum tímum[4] fallinn verið sá rètti skilníngur orðins „leið", sem eg þar af má ráða, að Björn á Skarðsá skrifaði um þessa meiníng, eður heldur að segja þess[5] rèttan tíma, *anno 1626;* en Árni varð ekki lögmaður fyrri en 1631. Það er og ljóst, að í tíð þeirra Jóns Jónssonar lögmanns og Jóns lögmanns Sigurðssonar hafa menn ekki fyllilega vitað eindaga leiðar, allt frá annó 1574. Á því ári varð Jón Jónsson lögmaður, því að Björn Jónsson ólst upp hjá Jóni Sigurðssyni lögmanni, sem með föðurbróður sínum Jóni Jónssyni lögmanni var í umgengni[6] bæði utanlands, annó 1593, og innanlands fyrir og eptir; hefði Björn það sannarlega lært, ef þeir hefði vitað. Sýnist mèr því líkast, að sá forni háttur leiðanna hafi [komizt í ólag eður[7] niðurfallið með pestinni, annó 1401, í tíð Eiríks kóngs af Pommern, eðurkannske 1495 og 1496 í pestinni, sem þá gekk hèr á landi í tíð konúngsins Hans, og hafa síðan leifar hennar að eins viðhaldizt nálægt hinum rètta tíma, af venju meir en vissu fram til vorra daga. Nú er aldeilis sú lögmæta venja niðurfallin, síðan lögþíngisskrifararnir halda lögbókunum inni fram úr öllu hófi. Er svo vanrækt embættis þeirra og amt-

1) frá [vantar í A. 2) teljum, A. 3) sèrdeilis, add: B. 4) vantar í B. 5) vantar í B. 6) úngdómi, A. 7) þó mest ólagður, B.

mannsins tilsjónarleysi hèr til orsök, málum allmörgum til mátalauss uppihalds, og mörgum þeim, sem málin eiga, til stórs skaða og rèttarmissis, v. Rb. H. k. dat. 1293[1], þegar hann enn nú var hertogi. Hún, *lege 7.*, leggur hans sýslumönnum embættis og lèns missi við, ef þeir láti forsómast það skylduþíng, sem andsvaraði voru þíngi á leiðum.

Bilager, sem hèr með skal fylgja:

Eðla herra lögmanninum Páli Jónssyni Vidalín, andsvarast upp á sinn memorial, að fyrir mitt minni hefir það verið, að lögmaður herra Árni Oddsson hafi haldið leiðarþíng sunnan Hvíta, þótt sèð og heyrt hafi eg dóma, er hann hafi þar gánga látið. En um tíð föður míns sæla og *Magister* Jóns sáluga voru þau alloptast haldin beggja megin Hvítár, því landþíngsskrifarinn Páll var svo nálægur. Um nokkra tíma hèlt eg þíng beggja megin árinnar, meðan Árni Geirsson var skrifari, þar til Söfren viðtók, og hèldust þau á öndverðum engjaslætti *in Augusto*, það eg til minnist, stundum fyrr, stundum síðar. Hans H. d. með öllu kærkomnu guðs vernd befala um allar stundir.

Vale!

H. H. d. vel T.

Jón Sigurðsson Eh.

Einarsnesi 17. Október Anno 1714.

## [2] Leistabrækur.

Þær eð skóleisturinn var áfastur við.

## [3] Lerkaður (at beini).

Noregskonúnga sögur *in* Ólafi kyrra: „Dramb-hosur lerkaðar at beini“, *credo esse* „ryktar, í fellíngar brotnar“, því það köllum vèr lerkað enn í dag, sem brotið er. Landn.. Vestf. 8. (Ísl. s. Kh. 1843, 1. b. bls. 147.): „Hann (Ljótur) var í kápu, og hötturinn lerkaður um hálsinn“.

## L e s t.

Farml. 7. *Allar lestir skulu jafnstórar vera at fullu fari, nema sumum hásetum sè skild meiri lest, en sumum minni. Svo skal hverr maður hafa margra punda þúnga í lest sína.*

Ibid, 10. *Þeir skulu meiri skipleigu hafa fyrir þá lest (yf-*

1) 1393, A. 2) vantar í B. 3) vantar í B.

*irburðinn), en fyrir aðrar, er þeim voru vegnar út i skip.* Et mox: *Er hverr hefir vegit sína lest fulla.*
Ibid. 13. *Leigi eins punds far at háseta.* Ibid: *Ef maður leigir tveggja punda far at háseta.*

Af öllu þessu er augljóst, að lestir þær, er í skipinu eru taldar til farma[1], teljast allar eptir þúnga vörunnar að pundatali, og á þar að merkjast skippund, 34 fjórðúngar, 12 merkur; *vide infra* „pund“. Það er enn til vitnis, að lest merkir hèr þúnga hleðslunnar, sem segir Farml. 10.: „Eptir fjármagni skal fè kasta, en ekki eptir mannmergð og lestatali. Hèr talar um skaðabætur eptir *regula societatis*, en hvað mörg skippund reikna skuli í lest hverja, skýrir bókin eigi. Það sem Björn á Skarðsá *in voce* „Áhöfn“ skrifar, að 10 skippund gjöri lest, veit eg eigi hvaðan hann hefir numið af þeim bókum, sem jafnaldra eru vorri lögbók, og ætla hann hafa dregið af venju þeirri, er[2] honum var jafnaldra, [eins og hann[3] reiknar skippund 24 bismara pund. Það er tekið eptir Kristjáns fjórða norsku lögbók hinni þryktu, og gjörir eptir vorri vog, sem nú tíðkast, 28 fjórðúnga og 16 merkur, því svo var skippund í Bergens og Þrándheims lèni talið í þann tíma, sem sú Kristjáns fjórða lögbók gekk út. En í tíð Magnúsar konúngs Lagabætis var skippund í öllum Noregi 34[4] fjórðúngar og 16 merkur, sem Frostaþíngs og Heiðsivjaþíngs bækur greina skýrlega, og síðar skal sýnt verða *in voce* „pund“. Og svo sem Björn hefir þetta misgáð um skippunds þúngann, þegar lögbókin gjörðist, svo efa eg, að hann hafi rètt áhitt um skippunda fjöldann í hverri lest, og þætti[5] mèr ei ólíkara telja[6] skyldi 12 skippund þeirrar aldar, það eru 415 fjórðúngar og 4 merkur, eður 51 vætt 7 fjórðúngar 4[7] merkur í hverja lest, þótt ei kunni eg til[8] gátu þessarar önnur rök að leiða, en venju þeirrar aldar, er slíka hluti taldi meira á tylftum en á tugum, og[9] á hálfum tylftum, og tveim þriðjúngum tylftar, sem því ljósara verður allt, er betur verður athugaður síðasti kapítuli kaupabálks í fyrrnefndum Frosta- og Heiðsivja-þíngs bókum, og enn þá í Kristjáns[10] fjórða NL. í Bergens og Þrándheims lènum er allur þúngi talinn á tylftum og hálftylftum og þriðjúngum tylftar. Vilji menn sjá ætterni þessarar glósu, þá er það þreifanlegt, að hún er systir hinnar þýzku „Last“, *onus*,

1) forna, A. 2) vantar í B. 3) og, B. 4) 24, A. 5) þykir, B. 6) skilja, B. 7) 8, A. 8) vantar í B. 9) vantar í B. 10) kap., B.

þúng byrði. Sama slektis er það, er vèr köllum lest, ɔ: klyfjaburðar hesta fleiri saman og eiginlega 10. Hafa þeir af því lestar nafnið öðlazt, að þeir bera þúngann.

## [1] Lendur maður.

Það er dregið af því í fyrstunni, að þeir stóru menn, sem bygðu löndin, hafa sèr miklar víðlendur tekið, og hefir svo nafnið haldizt við þessara manna afkomendur, sem haldið hafa uppi rausn forfeðra sinna.

## [2] L i ð u g u r.

Llb. 29. segir hin þrykta lögbók: *Ef fulltíða maður vísar ómaga annars at gjöra þat, er öðrum manni er mein at, þá skal sá bæta skaðann, er ómaganum vísaði, en sá sè liðugur, er ómagann átti, og svo ómaginn.*

Þar segja *membranæ* mínar fimm hinar elztu og beztu, *item* þrjár ýngri eins: „sá skal bæta skaðann, er ómaganum vísaði, en hann hlaupi laus undan“. Þetta „hann“ merkir ómagann, og *respicerar* bæði þessa greinina, er sá vísar ómaga, sem ei á hann, og hina fyrri, þar sem einhverr vísar ómaga sínum, að beggja vegna sè ómaginn laus undan ábyrgð verka sinna. En þetta má sannlega tala um ómaga þann, sem ýngri sè en 15 vetra, en eigi þann, sem fyrir elli sakir eður annarar vanheilsu er ómagi, nema ellióra eður óður sè; því þeir, sem sitt vit og rænu hafa óskert, eldri en 15 vetra, munu sjálfir ábyrgjast verk sín, þau er þeir gjöra öðrum til meins, ef það skeður eigi af vanheilsu þeirra eður vanmætti.

## [3] Líkami, líkamur.

Kristind. b. kap. 1. Þar sem hinar þryktu lögbækur segja: „Hvers manns líkami, er í er kominn heiminn, eður koma kunna til dómsdags, skal þá upprísa“. Þar segja *membranæ* þær hinar gömlu, sem fyrir mig hafa borið: „Hvers manns“ líkamur“, er í er kominn heiminn, etc.

## L ó ð,

Framfb. 11. *Hafi at heimilu lóð hálfa.*

---

1) vantar í B. 2) vantar í B. 3) vantar í B.

Llb. 10. *þá á landsdrottinn lóð alla.*
Llb. 26. *Lögfesti bú og lóð.*
Llb. 32. *Sekur mörk við þann, er lóð á.*
Ibid. *Lóð sú, er þar af spillist.*
Llb. 33. *Ef maður á akur, töðu eða eng,* etc. *Sá sem lóð á skal eptir mönnum gánga.*
Ibid. 33. *Sem hann, er búit á, missir fyrir þeim, er lóð á.*

Eg hefi með undrun mátt heyra þá, er lög skyldu kunna, [og meintir hafa verið að kunna *dispútera* af alvöru[1], að lóð sè jörðin sjálf eður landið, sem lángt er frá, því lóð er allur árs ávöxtur jarðar, og hvað sem af henni[2] er leiguliða í heimild selt með byggíngunni, að fráteknum af landi, sjó eður ferskum vötnum, eggver, fuglaveiði og þesskonar, lax eður silúngur eða sjófiskur, svo sem þreifanlegt má vera af Frostaþíngs og Heiðsævislögum Magnúsar konúngs. Þar segir, Llb. 3.: „Ef fornt hús er skylt upp að gjöra, [og verður eigi uppgjört[3], þá skal bæta, eptir því sem 6 skynsamir menn meta. En ef hann vill ei lúka, þá skal landsdrottinn festa lög fyrir lóð hans og leggja fimtar stefnu, og skulu bændur jamnmikið dæma úr[4] lóð hans landsdrottni, sem hún mezt". [5]Hèr sjáum vèr að bætur þær, sem leiguliði þrjózkast að gjalda, skal dæma landsdrottni úr „lóð" leiguliða, það er úr afla hans af jarðarinnar gróða. Og áður í Llb. 1. segja sömu lögbækur: „Ábúð jarðar heimilar tekju, en landskuld heimilar[6] lóð, og allan áverka þann, er í kaup þeirra kom. Lykt skal landskyld að sumarmálum, ella slær og sker | þeim er jörð á".

[7] Nú er víst, að lóð felst undir að slá og skera, og þar sem Llb. 32. einusinni og 33. tvisvarsinnum nefnir „lóð", þar segja Frostaþíngs og Gulaþíngsbækur „akur" í öllum þeim stöðum, í þeirra Llb. 30—32., svo hèr til þarf ei fleiri votta. Lýtur það og allt í áttina sömu, sem áður innfærðar greinir vorrar bókar nefna lóð, að það er grasnautn[8] og leiguliða nytsemi[9] jarðanna, ef ei býr eigandi sjálfur á. Og svo segir vor Llb. 5.: „Sá maður, er jörð leigir, á grasnautn alla á þeirri jörð". *Item* segir Llb. 16. og 32.: „Landnám þeim, er gras á", *cfr.* Llb. 7. um engjar og haga leiglendíngs.

[10] Um það er Björn á Skarðsá skrifar, að „lóð" hafi nafn

1) frá [ vantar í B. 2) honum, B. 3) frá [ vantar í B. 4) vantar í B. 5) § 2, B. 6) heimildar, B. 7) § 3, B. 8) grasnyt, B. 9) gagn, B. 10) § 4, B.

af „láði“, læt eg hvern dæma, sem vill. Það er hann segir, að lóð merki það allt, sem á láðum vex, má eigi skiljast um skóg nè hrís, því það vex ekki árlega til fullrar þróunar, heldur lauf þess og feiti-kraptur[1] alleina, svo sem lauf og ber á lýngi hverskonar.

## Lúngna-sótt.

Kaupab. 16. *Nema við bráðasótt og lúngnasótt, kelfíng eður lambburð, aldri, eða lýstr reið.*

Það er sagt af skynsemd, svo sem víðast vegar, er Björn á Skarðsá skrifar hèr um, að „lúngnasótt“ sè öll þau innanmein, er leiguliði má ei við gjöra; og er svoddan meiníng hans bygð á *æquo et jure gentium, vide* Púffendorff *de Jure Nat. et Gent. lib. 5. cap. 4.*, því hvernig má leiguliði heldur ábyrgjast við hjartverk, við höfuðsótt eður lifrarsótt, blindu, riðu eður uppvisnan, heldur en við því, að meinsemdin setji sig í lúngu leigu-fjárins. Því mun hann heldur eiga að betala gripinn, sem deyr af nýrnasótt eður gallsýki, heldur en hinn, sem sollin lúngu deyða. Um fúlgufè segir Kaupab. 17. kap.: „Ef fellur fyrir björg og fylgir ei fjárhirðir, þat er handvömm, en ef fylgir fjárhirðir og hann sýnir þat fè, áður húð er afflegin, og fylgir höfut, þá er þat ei handvömm hans, og skal hann þá ei við því ábyrgjast“. Eg segi: „Ef fjárhirðir fylgir því“. Það er augljóst af því, er undangengur: „Ef fellur fyrir björg, og fylgir ei hirðir“. *Ergo* skal hirðirinn fylgja, ef hann á að fríast frá ábyrgðinni; og það segja með ljósum orðum Kristjáns fjórða Norskulög, *lib. 7. cap. 15.:* Svo sem hann ábyrgist nú eigi fóðurpeníngínn við því, sem er undan hans ábyrgð skilið, svo má ei heldur leigufèð ábyrgjast við því sama, eptir Kaupab. 15., sem skýrlega segir, að leigufèð skuli maður ábyrgjast sem fúlgufè. Svo er þá augljóst, að þessu rètt hugleiddu og samanbornu, að þar sem Kaupab. 16. segir: „Skal sá ábyrgjast að öllu, er leigir“, meinar öllu, sem hann má að gjöra; en við sóttina má hann ei gjöra, sem ei tilfalla gripnum fyrir einhverja vanrækt hans. *Ergo* skal hann við engum þeim sóttum ábyrgjast, og því skilst undir lúngnasóttar nafninu allt það innanmeina kyn, sem ei kann leiguliði við að varða, og er það *synecdoche speciei pro genere.* Hèr sjá menn, að eigi má

1) knappur, B. 2) öllu, B.

með kappi og ágirnd rángfæra lögin í þessum stað, heldur en ella, því það er að gjörast laga snápur, sem Mannhelgi 17. talar um, að þeir ei segjast dæma utan lög. Þessi Kpb. 16, svo sem hann stendur í vorri lögbók, skilur og ekki undan leiguliðans ábyrgð, þó ofríki taki af honum, sem þó stóð í Hákonarbók, og bæði stendur í Frosta og Heiðsævisþíngs lögum, svo vel sem Kristjáns fjórða og Kristjáns fimta Norskulögum. En svo sem vor lögbók undanskilur ábyrgð á láni, er svo týnist, meðan lèð var, Þjófab. 16., svo er það auðsèð öllum heilvita mönnum, að við ofríki og hernaði kann enginn að ábyrgjast, heldur leigufè en aðra hluti. Eður hverr mundi dæma leiguliðann að betala kúgildin í Austfjörðum, Vestmannaeyum og Grindavík, þar Tyrkinn rændi í þeim stöðum 1627? Mun þá ei það sama um það eina ofríki, sem það annað? Vita menn og dæmin, hversu Spanskir og stundum Franskir hafa á Vestfjörðum, Ströndum og norðanlands í nokkrum stöðum skotið kvikfè manna í högum úti og tekið með sèr. Hvernig mátti þá leiguliði fyrir því ofríki kúgildi landsdrottins ábyrgjast, er ei mátti hann sitt eigið? Svo er um skriður, þegar hjörð er á beit í högum, sem um skógtrè fyrir veðrum; svo um björg, er úr fjöllum hrapa á kvikfè manna, svo sem fyrir fáum árum drap steinn leigukú á Ballarárhlíð, að við engu svoddan á leiguliðinn að ábyrgjast, þegar löglega ransakað er, að hvorki vanrækt hans nè hrekkir valdið hafa.

## Lýrittar.

Landabr. 3. *Marksteina skal þar niðursetja og grafa, sem þeir verða ásáttir, og leggja hjá þrjá steina, og eru þeir kallaðir lýrittar.* Hinc illud: *Beiði eg þig lagabeiðslu og lýrittar,* Llb. 26. ɔ: *beiði eg, at þú svarir lagasvörum til málsins og sýnir lýrittana, marksteinana*[1].

Og af þessum þremur steinum heita eiðvættin lýrittar, þeir sem eru einn eður tveir á hverja hönd, og af þeim lýrittar eiður.

[2] Nú mun lögspekíngum vorum lítils þykja um vert, að engin *etymologia* (uppruna rök) eru hèr innfærð, hvar af lýr-

1) Marksteinana (lýrittin), B. 2) § 1, B.

ittar hafi nafn sitt. En mèr þykir *iniquum postulatum* að heimta upprunarök sèrhvers orðs af þessarar aldar mönnum. Tel eg þá góðra gjalda vert, ef með skilmerkjum verður sagt, hvað orðin þýði, þótt ei verði jafnan uppruni þeirra skýrður. Munu þeir flestir, er ei kunna að segja mèr með fullum bevísíngum, hvaðan hið hæsta tignarnafn „konúngur" hafi sinn uppruna, og því það sè heldur eignarnafn en hin, drottinn og herra. Látum vèr oss lynda, er vèr skiljum, hvað orðið þýðir, þó ei kunnum vèr rök til, því það þýði svo. Munu menn um margt þvílíkt [verða að[1] huggast heima.

[2] Það er öllum kunnugt, hvað jökull merkir, en hvaðan orðið dregið sè, mun ei auðvelt að skýra. Það vitum vèr, að hlódyn og fjörgyn heitir jörð í skáldskaparmálum, en eigi tel eg víst, að neinn kunni þeirra glósna *etymon* að uppleita. Vil eg því heldur þegja um uppruna þessarar glósu, lýrittar eður lýritti, heldur en þvætta það, sem mèr finnst sjálfum á engum fótum standa[3].

[4] Björn á Skarðsá hefir viljað *derivera* þetta orð af „læ", þ. e. vèl eður undirhyggja, og ripta = *recuperare*, svo sem heiti þeir læriptar = undirhyggju og vèlabrigðendur; læt eg þá hans gátu ólastaða, og þeim yfir að dæma, sem með gætni og *judicio observerað* hafa *literarum permutationem*, eður víxlan bókstafanna í orðanna skyldsemistölum og rökum. En ef það er nokkrum í vil, að eg segi, hvað mèr þykir líklegt um uppruna og fyrstu merkíng þessarar glósu *lýritti*, þá bið eg menn hugleiði gætilega þennan Lbr. 3. kap. Þar sjá menn, að hann talar einkanlega um að skipta í sundur heilum jörðum. Þar næst bið eg athugað sè, að hlýrar eður hlýri[5] heitir bæði á mönnum og skipum og mörgum öðrum hlutum vángarnir, kinnurnar, armarnir og kinnúngar, og nær alltíð helmíngur hverr af einum hlut, sem að endilaungu klofinn lèti í hvern helmíng eins lim eður part af því enu heila. Svo kallar Einar Skúlason axlirnar á sèr hlýr, sem Edda vottar í gullskenníngum. Þar segir:

> Konúngs dýrkar fè Fenju
> fögur hlýr bragar stýri.

Les heila vísuna *in* „Öxarþærur". En kinnvángana kallar Laxdæla hlýra eður hlýri, þegar smalamaður Helga Harbeins-

---

1) mega, A. 2) § 2, B. 3) standi, B. 4) § 3, B. 5) hlýr, B.

sonar sagði frá Bolla Bollasyni, sèðum í skóginum. Hann var ljóslitaður á hár, sagði smalamaður, og liður á nefi, og nokkuð hafið framan, eygður allvel og ennisbreiður með fögrum hlýrum. Það er að sönnu skrifað „hlírum" í mínum þremur *exemplaribus*, og hefir þó eitt af þeim skrifað Ásgeir Jónsson, sem seinast varð sórenskrifari í Borgarsýslu í Noregi, en engu að síður þykist eg viss um, að það eigi að vera „hlýrum".

[1] Á skipi telur Edda heiti: „húfur, hlýr, hremmi og hálstemni", og svo segja Noregskonúnga sögur, að Þorkell Hamarskáld kvæði um Magnús konúng berfætta:

Vestur lèt varga nistir (hrönn brutu hlýrin stinnu)
(vann hilmir frið bannat) hugprúður för snúðat[2].

Nú er það með rökum sýnt, að á mönnum og skipum heiti hlýri eður hlýrar hver hliðin fyrir sig andlitisins og axlanna, og svo brjóstanna eður framborðanna á skipinu; en hvað víða það enn nú nær til á öðrum hlutum, verður ekki talað með fám orðum; það er tíðara, en að til þess þurfi vitni. Þess ætla eg að ei muni þurfa að geta, að hvort sem bókstafurinn h er frá eður til, hafi þeir gömlu sjaldan metið fyrir framan *l* eður *r*, því það vita smábörn.

[3] Það er og öllum kunnugt, að „hittast" og „mætast" er að fornu og nýu allt hið sama, og af þessum rökum ætla eg steinar þeir, sem lögmálið skipar niður að setja, þar sem heilar jarðir verða skiptar, heiti lýrittar = hlýra - hittar = helmíngamóts finnendur, helmínga mótar, helmínga mætendur, þeir eð vitna skuli um aldur og æfi, hvar hlýrar hittast, hvar helmíngar mætast.

[4] Nú verður mèr svarað af ýmislegri brúkun orðsins ýmislegum mótmælum, og það kannske fyrst, að vera megi jarðir heilar skiptist í fleiri en tvo hluti, þá er þeim verður skipt, svo sem berum orðum gjörir ráð fyrir í Lbr. 5. Eg svara þar til, að eigi brjóti þetta[5] tilfelli mína sögn nè líkindi, því þá verða *per tropum* hlýrar kallaðir hlutirnir allir, svo sem enn helzt á dauðum hlutum ýmislegum. Til dæmis tek eg fjaðrir á þeim lásum, sem hest - lásar eru kallaðir, og er þó svo í *tropo* til orðs tekið, sem allt væri það[6] helmíngur mót hinu, sem það er jafnað við, [svo að hvort sem[7] hlutirnir verða

1) § 4, B. 2) gnúðat, A. 3) § 5, B. 4) § 6, B. 5) svoddan, B, 6) hvað, B, 7) svo sem hvort að, A.

tveir eður þrír, fjórir eður fimm, *etc.*, [þá eru[1] alltíð hverjir tveir og tveir, hverr einn og einn, hlýri frá þeim, sem hann er á móti jafnaður.

[2] Nú af því að lýrittar, hlýra hittar, klofnínga-móts finnendur þessir eru vitni glögg í landamerkja þrætum, sem hin fornu Grágásarlög, svo vel sem vor [lög, ɔ: [3] Jónsbók, láta með lögfestum og stefnum undir dóm leiðast og deilast, er það[4] af orðið á hinum fyrri tímunum, að lögfestan sjálf heitir í Grágás lýritti, og svo hið sama forboð þau öll, er við votta gjörast, svo[5] og vottarnir sjálfir[6], eiðvættin, því að í landamerkja þrætunum grundvallar hvortveggja sín mál á marksteinunum, í öðrum forboðum á vottum sínum, því þar skulu hlýrar hittast, skilorðin mætast, sem þeir segja til, og þá eru sjálfir vottarnir hlýrar og [7] armar tveir, þess er mál sitt styður við þá, og aldeilis á sama hátt í lýrittar-eiðnum. Lögfestuna sjálfa merkir það í Grágásar Llb. 4. 5. 6. 7. 9. 20. og 33. kapp., samanbornum við vors Llb. 16. 18. 24. 31. 41. 43. kapp., sem of lángt er að innfæra; en hverr sem þá vill samanbera, hann skal þreifa á, að þeir landsmenn vorir, sem eptir skipun Magnúsar konúngs hafa gjört vorn Landsleigubálk út af hans Norskulögum og Grágás, þeir hafa *interpreterað*, það er útlagt, „lýritta" og „lýritta vörn" með orðinu „lögfestu", og að festa lög fyrir". Forboð undir votta heitir „að verja lýritti", Grágás Ómb. 1. og 9. fimm sinnum, I Festarþ. 6. tvisvar sinnum, 14. og 36. tvisvar sinnum; Vígsl. 58. fjórum sinnum. Eins er merkíng þess í Kristinrètti þeirra Þorláks og Ketils biskupa, kap. 13., um prest þann, er kirkju sína flýr, og eins í Vígaglúmssögu, kap. 24., *item* í Njálu, kap. 122., þá Þórhalli Ásgrímsson hratt málum Flosa, fyrir það er Mörður hafði sókt. Vottarnir sjálfir heita „lýrittar" í Gulaþíngsbók enni fornu, í Leysíngslögum, kap. 1. „Maður kaupir manns man[8] að öðrum, kaupi saman lagakaupi og lýrittar". Og er það hèr af auðsætt, að Norðmenn hafa og þetta orð í fleirum merkíngum en þeirri einni, sem það heita eiðvættin í hinum Norskulögum Magnúsar konúngs, Þjófab. 16.

[9] En til hverrar þessara merkínga færast eigi það, er mælir Grágás, Lbrþ. 13: „Verður framfærslan ei efnd[10], eður

---

1) En þá eru, A. 2) § 7, B. 3) frá [ vantar í B. 4) þaðan af, A. 5) já, B. 6) og, add. B. 7) ɔ:, B. 8) mann, B. 9) § 8, B. 10) end, B.

svo ílla, að búum[1] sýnist ei vært við, þá skal stefna til brigða of landið, þeim lýritt hefir fyrir landinu". Mun eigi víst, að öllum sýnist einn veg. Eg ætla það muni vera meintir vottar þeir, eð tilkvaddir voru að kaupinu, og um skilorðin fyrir heimildinni eiga að bera, svo lýritti þessi eigi að heita „heimildar skilmála vitni", eður það eigi að skiljast, þeir skuli gjöra skil ummerkjanna, til hverra hann tók eignar heimild á[2] mót fyrir heitinni ómagans framfærslu.

Hygg eg mig nú hafa nærri lagi sýnt uppruna þessarar glósu, og svo röksemdir til annara hennar merkínga, er mèr skiljast allar að einu lúta, að rètt sè sagt, það lýritti sè hlýrahitti, hlýra-mót, það er púnktur sá, er hlýrar hittast, hvort sem þeir eru tveir eður fleiri, og hvað margir sem eru.

[3] Það er kunnugt, sem Edda mælir af sömu rökum, að bróðir heitir „hlýri", og hvað margir sem eru bræðurnir, heita þó allir „hlýrar", því þeir eru fjaðrirnar af aðaljárni, og greinin eður kvistur af aðalstofni, svo að öllu bar saman, þegar menn að eins vilja minnast, að *aspiratio h* megi vera til eður frá í allmörgum orðum. Vil eg ei, að neinn ámæli Hornklofa, skáldi Haralds konúngs Hárfagra, þar sem hann í Noregskonúngatali segir:

> Lýði ríngberendur
> meðan ek frá Haraldi segi,
> odda íþróttar
> enum hárfagra.

Hvað er tíðara nú enn í dag, en kalla og skrifa sama[4] manninn Rafn og Hrafn, og nær ótal er svoddan.

[5] En [6] það er tvent til orsaka, að lögin hafa marksteina lýritta kallað, [ sú fyrst[7], að þeir votta, hvar hlýrar hittast, [ sú önnur[8], að það er til tignar lögmálsins, að í því standi merkileg orð fornaldar, svo sem mælir König í formálanum fyrir sínu Gazophylaceo pp. 3. 4. út af *Oratione Friderici Taubmanni*. Skoði menn *leges duodecim tabularum*, hversu stóra *majestatem* þeim gefur *adoranda vetustas, vide* Rosen *et* Dempster *lib. 8. a pag. 581. ad pag. 618.;* og er það æ til merkis, að þar sem lögin sjálf útleggja slík sín eigin orð, þá eru þau orðin gömul, og fyrir tign ellinnar höfð í heiðri. Skoði menn Svíanna Tjäldrusteina í Wästgotalag Bygðab.

---

1) honum, A. 2) að, A. 3) § 9, B. 4) vantar í A. 5) § 10, B. 6) vantar í B. 7) 1) B. 8) 2) B.

kap. 2., Tjäldrubrot Kirkjub. kap. 27.; Rå heita þeir og í Wästmannalag kap. 54. í Byggningabalk; Rå og Rör Upplandslag., Viderboabalk kap. 18., eins í Landslag Byggningabalk kap. 27., því þeir skulu í hornum merkjanna niðursetjast, og rá er hyrníng húss, segir Ólafur hvítaskáld í Skáldu.

## L ö g.

Það er öllum kunnugt, að þessi glósa merkir þau boðorð og guðs skipanir eður manna, sem til þess eru gjörð, að eptir þeim skuli menn laga líferni sitt og framferði við guð og menn, og eptir þeim leiðrètta og bæta allar þær ávirðingar og afbrot, sem einhvern hendir með orð eður verk á móti guði og mönnum; hafa þau nafn af „lögun", því þau skulu stjórnun lýðs og landa í lagi halda, vera form, til að mynda og laga þar eptir framferðir og fèlagsskap þann, er eins konúngs þegnar eður eins lands lýður eiga saman, og nauðsyn ber til að eiga, og sèrhvers eins skuld sèr í lagi. Því heita þau lög, að þau laga fèlagsskapinn, og halda honum í lögun þeirri, sem þau skipa, eins og trè þau tvö, sem annað er íhvolft, en annað með ávölum sveip, samanfeld laga blöð á hornspónum, og heita því spónalög, að þeirra lögun er á spónblaðinu. Svo skal lögun laganna vera á athöfnum manna og misverkanna brotum.

## [1] Lögfestu - form,

*Vide in* F „festa lög", etc.

## [2] M á l.

*Pro:* kvöld og morgun.

Llb. 34. *Fè missir máls.*
Grág. Llb. *Málnyta, málnytt kvikfè.*

Gud skee Lov for dette Maal! Imorgen skal vi have Kjød og Kaal.

## [3] M á l i konu.

*(Fragmentum).*

Erfðat. 19. *Nú er ómaga eyrir í garði og máli konu.*

Svo sem að kveður Festarþ. 50., það sem henni var mælt

1) vantar í B. 2) vantar í B. 3) vantar í B.

í mundarmálum, það er: „áskilið, þegar giptíngarmaður og biðill koma sèr saman um heimanfylgju og tilgjöf", svo sem segir Kvennag. 1.: „Giptíngarmaður skal skilja heimanfylgju og tilgjöf fyrir frændkonu sína, svo sem þeim kemur ásamt", ɔ: ákveða með greinilegum orðum, svo sem þeir verða sáttir á og sammála. Grágás kveður svo að þessu, Festarþ. 6.: „Mund skal hann (giptíngarmaður) heimta, sem mæltur var, og með þeim máldaga, sem mæltur var að festarmálum". Af öllu þessu er sýnilegt, að því er fè þetta kvenna-máli kallað, að þar um hefir með skýrum orðum útþrykkilega mælt og ákveðið verið, að hún skyldi svo mikið fè eiga í bónda síns garð, nær sem til skipta kæmi, og hefir „máli" þar af nafn, að svo var mælt fyrir, skilið fyrir, úttalað millum manna, sem nú segja *danizantes* „aftalað" (*vide* „máldagi, máli á landi", við hvort í sínum stað; *item:* „mæltir lögaurar").

## [1] Missiri.

Framfb. 1. *Et passim.*

Hvort það hafi nafn af „miðsæri" = miðjum hlut ársins, því það sè þess annar helmíngur, þá árinu er miðju sundurskipt, þykir mèr vandskoðað, en á hinu er enginn efi, að missiri merkir helmíng af árinu, hvort sem því er skipt í sumar og vetur, eður sèu þess helmíngar taldir millum fardaga og jólaföstu inngángs. Um altíðu skiptin í sumar og vetur votta rímin öll þau fornu og nýu, en því get eg hèr fardaga, að þaðan hefjast missiraskipti þau, er Jónsb. í Llb. 8. skipar þeim öllum, er sèr hafa tekið tveggja missira vist, og samhljóðar því Grágás í Þskþ. 57. Nú skil eg ei, hvort andspænis fardögum sett yrði takmörk öðrum ársins helmíngi, eður missirinu því síðara, annað en jólaföstuinngángur; því að kunnugt er, að hinir fyrri menn miðuðu gjarnan slíka hluti við hátíðir, nema menn vilji heldur byrja seinna missirið á Klemensmessu, 23. Nóv., eður á Katrínarmessu, 25. Nóv. Verður Klemensmessa aldrei fjær jólaföstu inngángi, en 9 dagar verði lausir millum hennar og sunnudagsins fyrsta í *Aðventu*, og aldrei nær en 3 dagar sèu í milli. En það getur ekki brugðizt, að á einhverjum þessara tíma skuli[1] byrjast annað missirið, þegar annað hefst í fardögum, sem nú hefi eg sýnt bæði af Jónsbók

1) vantar í B.

og Grágás. En hve nær það sé fyrst innkomið og síðan í venju leidt, að tveggja missira vinnuhjú skuli gánga í vist á krossmessu um vorið, 3. Maí, og byrja þar sitt missiris tal, vil eg af öðrum læra. Það sè eg af Kaupab. 17., að sá er fúlgufjár skildagi; en hvað kemur það hinum við? Þá veit eg, að þau eru fyrir jólavertíðarlok; en hvað er það af öllu landinu? Eður hvar fyrir skyldi það gjöra hjúum vistar skildaga og ný missiraskipti? Síðan það er í venju leidt, að tveggja missira hjú skuli eiga krossmessu skildaga, þá eru þau missiraskipti önnur á Allraheilagramessu. Nú síðan nýi stíll er innkominn, *anno 1700*, og vorra vinnuhjúa skildagi skal vera daginn næsta fyrir Hallvarðmessu, þ. e. 13. Maí, verður annar helmíngur árs eður missiris upphaf tveim dögum eptir Marteinsmessu, það er 13. Nóvember.

## [1] Mjölvægur matur,

Kaupab. 6.

Er ferskur lax, hörð hrognkelsi, feit rafabelti, Mývatns reyðar, ostar, bjúgu, slátur allt beinlaust og svo feitt, að ei þurfi annarar feiti við, hvort sem er nýtt eður salt, sem áður selt var að vigt, svo sem nú tíðkast utanlands, og er ósoðið kjöt jafnþúngt að vigt og hið soðna, ef flotið er vegið með.

## [2] Munaðarlaus.

*Orbus*, sem enginn man til, ɔ: enginn ber umhyggju fyrir; aumt ráð, sem enginn rækir.

## [3] Munaður.

Minni, tilminníng, tilhugsan; svo kallast og samræði manns og konu, því að líkindum lætur, þau muni síðan hvort til annars. *Corporum namque commixtio monumentum est et pignus amoris*; af því tilminníng *rerum delectantium* vekur eptirlángan til þeirra, er það orðið munaður merkir eptirlángan, *concupiscentiam*, og síðan sjálf lostaverkin, ɔ: *fruitionem rei cupidæ*, eins og *libido* merkir fyrst laungun, og síðan sjálft verkið; og enn lengra fram er þessi *metonymia* gengin, svo að munaður með tillögðum *substantivis* merkir einnig hlutina þá, sem með verki lostasemdanna eru tíðkaðir, svo að hvílubúníngurinn er og kallaður munaðar-voðir, a) ɔ: minn-

1) vantar í B. 2) vantar í B. 3) vantar í B.

is-voðir, af því þeir eð samrekkja, munu síðan minnast hvorr annars: eins er gengið um orðið griska *„Koitè"*, Rómv. 13, v. 13., að það merkir 1) sæng; 2) lostaverka-sæng; 3) hóruhús, og því er það í greindum pistli vel útlagt legukofi, eins og *ibidem „aselgeia"* merkir 1) ljót verk; 2) óskammfeilni; 3) lostaverk, og því vel íslenzkað „munaðarlífi". Hèr af er þetta komið svo lángt fram, að í Rèttarbót Magnúsar konúngs smekks merkir munaður hvílu, sæng, legurúm, og þar af munaðar-voð fyrir allskonar vaðmál til sængurvera gjörð og skömtuð, hægindisver, dýnuver og rekkjuvoðir. Þar segir: „vararvoð, munaðar-voð, hafnar-voð. b) Njála:

Ýtur þá línbeðs leitar lunddyggur munað byggja.

## [1] Mundáng.

Mannh. 17. *Og er allmjótt mundángs hófit.*

Það hefi eg heyrt, að mundáng heiti *proprie* túngan í voginni, og svo skrifar Björn á Skarðsá. Hefi eg það fyrir satt, að mundáng heiti túngan í pundaranum, og þar til *alluderi metaphora* í Mannh. 17.: „Og er allmjótt mundángs hófið", *quod in proverbium abiit:* „mjótt er mundángs hófið, ɔ: vanstilt er vogin, svo túngan hallist hvorki fram nè aptur; og „mundáng" ætla eg hafi nafn þar af, að hvort sem túngunni veitir fram eður aptur, því að hún er vottur, hvort að muni híngað eður þángað, og eru enn nú alltíð orð, sem sýna rök til þessa. Hvað er nú tíðara, en „hann eður hún og það dángast" smásaman, þ. e. þángast = því munar þángað. Alment er um það af kvikum skepnum, sem vöxtur er í, og þó ei allmikill, að „daungun" er í því, þ. e. „þaungun" = því munar þángað til framfararinnar eður þroskans. Svo segjum vèr „að láta dánka" = að láta fara sínu fram, ráða sèr sjálft, *sibi permittere,* þó því ýmist reiði fram eður aptur, eins og túngunni í voginni, meðan vigtin er að stillast, og henni miðar upp og niður fram og aptur, þar til þúnginn jafnast, og þar af kemur, að vogin heitir reizla í daglegu máli, og svo í Laxdælu, þar sem Höskuldur keypti Melkorku; þar segir orð Höskuldar við Gilla: „Lát fram reizluna, og sjáum, hvað sjóður sá vegur, er eg hefi hèr. Gilli gjörir svo, reiðir nú silfrið, og voru það þrjár merkur vegnar". Hann reiðir á reizlunni, þ. e. vegur á voginni. Eins kveður Snorri Sturluson að orði, þegar Haraldur konúngur

1) vantar í B.

Sigurðarson skipti gullinu milli sín og Magnúsar konúngs: „Því næst voru skálar teknar og met, ok reidt í sundr gullið“, ɔ: skipt öllu með voginni. Eins mælir Grágás um vogina, Vsl. 120.: „Ef maður reiðir rángar vættir“ = vegur rángt. Eins Ólafs helga saga, þegar Karl hinn mærski og Leifur í Færeyum tóku skattsilfur konúngs af Þrándi í Götu, mælti Leifur: „Fáðu mann til, Þrándur, að sjá vogirnar! *etc.*, og strax síðan geingu þeir út og skammt í burt frá búðinni og settust þar niður og reiddu þar silfrit.“

Svo sem nú að vogin heitir reizla þar af, að hana reiðir fram og aptur, upp og niður í tempran stillíngarinnar, því má þá ekki mundángið, þegar það merkir túnguna í voginni, hafa sína nafngipt þar af, sem því munar þángað eður híngað? Af því nú að mundángið, túngan í voginni, er vottur jafnvægis og hæfilegrar stillíngar, þegar hún stendur rètt, er það orðið *per metaphoram*, að mundáng merkir hóf, máta, stillíngu, meðalhóf, og því heitir í Farml. 2. „mundánglega hlaðið“, og „mundáng-hlaðið“. Og svo kvað Grettir, kap. 54., þegar þeir Hallmundur voru skildir á Kjalvegi:

> Mèr stóð málma skúrar
> mundáng-hvatur ok Atli
> (staddur vildak svo sjaldan)
> snarr Illugi fjarri.

*Item* í skikkjuþætti, kap. 6.: „því næst bliknaði hún af ángri og reiði, að ei var möttullinn mundánga“. Optar í sama þætti, kap. 9.: „Ok skal mundánglega fara“, og í sögu Hákonar konúngs Hákonarsonar *annó 1239* kveður Ólafur hvítaskáld um Skúla hertoga, þá er hann hafði látið sèr gefa konúngsnafn:

> Hauksnjallur tók hersa stillir
> hærra nafn, en mundáng væri[1].

---

[1] *Versio Jonæ Olavii.*

## Aequilibrium.

Mannh. 17. *Et aequilibrii moderamen perquam tenerum est.*

Olim ego accepi, mundáng (æquilibrium) proprie appellari linguam stateræ, cui etiam Björno de Skardsa assentitur, ac pro vero igitur habeo, quod mundáng (æquilibrium) appelletur lingua stateræ, ad quod alludit metaphora Mannh. 17.: Og er allmjótt mundángs hófið, perquam tenerum est moderamen æquilibrii, quod in proverbium abiit: mjótt er mundángs hófið, quasi dicas: Statera ægre cohibetur, ne

antrorsum aut retrorsum, sursum vel deorsum lingua fluctuet. Et mundáng (æquilibrium) inde appellationem traxisse non dubito, að munar þángað, id est, quod nunc huc, nunc istuc vergat, attollendo se vel deprimendo, cum lingua inter ponderandum sursum vel deorsum fertur; illa enim certissimum indicium exhibet, num huc, num illuc ponderis gravitas aut levitas inclinet, ut discernatur; multæ quoque voculæ, argumenta huic interpretationi nostræ subministrantes, adhuc supersunt. Quid enim usitatius, quam hann eður hún eður það dángast (hic, hæc aut hoc paulatim increscat), það er „þángast", (id est „sensim illuc fertur"). Vulgare autem est de animantibus, quibus incrementum, et quidem non ultra mediocre, inest, að „daungun" er í því (id est: aliquantulum sumit incrementi) ɔ: þaungun, motus crescendi illuc inclinans. Sic dicimus „að láta dánka" ɔ: sibi permittere, sui ipsius moderationi committere, quamquam vicissim jam antrorsum, jam retrorsum fluctuat instar linguæ in statera, interea dum statera justum moderamen investigat, et lingua vel sursum vel deorsum, antrorsum vel deorsum movetur, donec pondus æquatur, unde provenit, quod statera vulgatissima lingua „reizla" nominetur, etiam in Laxdæla, cum Höskuldus Melkorkam id temporis venalem ancillam emeret, ub' Höskuldi verba ad Gillum referuntur: „Expedi stateram, et quantum argenti marsupium istoc meum pendeat, examinabimus, id quod Gillus fecit, argentumque pependit, uncias viginti quatuor deprehendens". Hann reiðir á reizlunni, hoc est, libra librat. Eumdem tenet modum verborum Snorro Sturlæsonius, quum rex Haraldus Sigurdi filius inter se et regem Magnum aurum divideret. „Post hæc", inquit Snorro „lances et libræ allatæ sunt, aurumqne librando divisum". Iisdem phrasibus Grágás utitur de ratione ponderandi Vsl. 120. „Ef maður reiðir rángar vættir" (si quis corrupte libra librat, vel si quis inique pondera ponderat). Item historia sti. Olai, cum Carolus de Mæri et Leifus in Færeyis censum regis argenteum Thrandum in Götu posceret: „Virum, inquit Leifus, aliquem, Thrande, quæras, qui stateras inspiciat", etc. Et mox: „Deinde egressi, non procul a tentorio considentes argentum pependerunt". Itaque, ut statera nominatur libra, quod libratur rursum, prorsum, sursum, deorsum proportione temperantiæ, quid obstat, quin mundáng, dum significat linguam stateræ, suam nomenclaturam inde deducat, að því munar þángað eður híngað, id est, quod paulatim huc vergat aut illuc. Atqui mundángið (lingua libræ) index est æquilibritatis et æquæ moderationis, per metaphoram adeptum est, quod „mundáng" significet „hóf, máta, stillíngu, meðalhóf" (modum, proportionem, temperationem justitiæ). Quapropter in Farml. cap. 2. dicitur „mundánglega hlaðið" (moderate onerata navis). Hinc resultat, quod cecinit Grettirus, cap. 54., postquam ipse et Hallmundus alter ab altero discessissent:

*Mèr stóð málma skúrar (staddur vildak svo sjaldan)*
*mundáng-hvatur ok Atli snarr Illugi fjarri.*

Id est: Procul a me abfuerunt moderate acer (mundáng-hvatur) Atlas et (ejusdem sortis esse raro vellem) promptissmus Illugo. Item in Skikkju-þætti, cap. 6.: Deinde moerore et ira pallescebat, er ei var möttullinn mundánga, quum tunica non esset justæ proportionis. Rursus in eadem de tunica apologo, cap. 9.: Ok skal mundánglega fara (moderateque sedebit). Eandem vocis, de qua agimus, notationem probat historia Haquini Norvegiæ regis Haquini filii anno MCCXXXIX, cum Olaus Hvítaskáld Skulonem comitem carmine suo notaret, quod regis titulum sibi arrogari postulasset:

*Hauksnjallur tók hersa stillir*
*hærra nafn, en mundáng væri.*

Id est: Generosus ad instar accipitris baronum gubernator justo nobiliorem titulum assumsit.

## M u n d u r

Er *proprie* það sama, sem nú er kölluð tilgjöf.

Grág. Erfðaþ. kap. 3. *Sá maður er ei arfgengur, er móðir hans er eigi mundi keypt, mörk eður meira fè.* Et mox: *þá er kona mundi keypt, er mörk sexálna aura er goldin at mundi.*

*Ibid.* kap. 4. *Enda er ei mundurinn heimill, sá er hann handsalar, hinn heimski maður.*

*Vide* Festarþ. 7, 22.

Mundur sýnist vera *pro* „heimanfylgju". Hákonarbók í Kvennag. „Þá hefir hún fyrirgjört mundi sínum og tilgjöf".

## [1] Mörk, eyrir, ortug.

Orðið mörk er í lögbókum ferfaldrar merkíngar:

1. Merkir það þúnga þann, er gjörir að vog 16 lóð, eður hálft skálapund í Kaupab. 26., *item* í Kaupab. 6., mörk vax.
2. Mælir þann, er heyrir til fljótandi hlutum, og lög allskonar, mjólk, hunángi, lýsi, *etc.* *Ibid.* það sem vèr nú köllum hálfan pott, er það heilt skálapund að þúnga. Þetta er og *mensura aridorum*.
3. Þýðir mörk það, er af hinni fyrstu merkíngu er dregið, og eignað dýrleik hlutanna, kallað í lögunum „mörk silf-

1) vantar í B.

urs", „mörk lögaura", og „mörk talin" til aðgreiningar frá veginni mörk silfurs. Mörk þessa nefnir Þíngfb. 2. átta sinnum, og síðan er það í bókinni svo títt, að oflángt er að telja, og svo í [þeim gömlu konúnga[1] rèttarbótum margfaldlega.

4. Er mörk skógur kallaður í Llb. 19.

Vil eg nú að sinni leiða hjá mèr þá 2. og 4. merkínguna, en tala um hina 1. og 3., svo greinlega sem eg kann og ætla skiljanlegt skuli verða. En með því orðin „eyrir" og „ortug" eru þessum báðum merkíngum svo nær skyld, sem limirnir eru sínum heila líkama, þá verð eg og[2] um þau bæði hèr undir eins að skrifa, því þau eru partar merkurinnar. Eg verð og að greina hèr um „alin að dýrleika", þó að hún sè annarar ættar.

Það er víst, að mörk silfurs vegna nefnir Jónsbók aldrei, og mörk allsjaldan með tillagðri *vocula* „silfurs", sem hún þó alltíð undirskilur í sakeyris markatali; en 8 ortugar og 13 merkur silfurs nefnir hún í Kóngserfð 5. og Farml. 8, *item* mörk silfurs í Farml. [22. Samt er í engri þessari grein ti nefnt, að þær merkur silfurs skuli vegnar vera, er þær norsku lögbækur þó ákveða jafnan, þegar tilætlað er, að mörk silfurs skuli vegin gjaldast. Og hvar sem það er ei greint í þeim norsku bókum, meina þær alltíð talda mörk silfurs, sem hjá oss heitir öðru nafni „mörk lögaura". Til var og í það mund, svo sem Frostaþb. Hákonarkonúngs nokkrum sinnum ákveður, „silfurmetin mörk" og „silfurmetinn eyrir", og er sú hin þriðja greiníng merkurinnar og athugi til þess alleina, að vèr eigi slengjum saman við vorrar bókar rèttskilinn texta því, sem ekkert við kemur. Eg hefi talað hèr við tvo þá menn, er báðir að vísu kunna vel til laga, og þó fyrir eintómis misgáníng vildu af fyrr citeruðum Kgs. E. 5. og Farml. 8., 22. innfæra hèr silfurmetinn eyrir Eysteins erkibiskups, og telja 8 ortugar og 13 merkur silfurs vera skyldu 26 merkur lögaura, og 25 álnir betur, þar sem þó rèttarbót Hákonar konúngs Hákonarsonar gamla mátti sýna þeim annað sannara, sem eg eptir á minnist. Önnur er vangá hugvits-mannsins Bjarnar á Skarðsá *in voce* „mörk silfurs" af Farml. 22.; þar vill hann skilja „vegna mörk" og „vegið hundrað" silfurs. Villast hvorirtveggja um sömu grillu, orðið „silfurs", því það er svo sjaldan skrifað í

1) þeirra gömlu konúnganna, C. 2) vantar í C.

vorri bók, sem eigi mundi þeim til ásteytíngar orðið hafa, ef þeir hefðu gáð, að „mörk fögaura“ heitir „mörk silfurs talin“. Skal eg nú til minnar sögu röksemdir leiða, og eigi beiðast mèr sè trúað fremur, en mín vitni sýna skyldugt vera.

§ 1.

Mörk silfurs vegin er til þýngdar, sem fyrr var sagt, hálft skálapund eður 16 lóð, hefir hún af því nafn fengið í dýrleikanum, að hún var svo í púnganum, á meðan silfrið var vegið, en lítt eður ekki myntað í Noregi og nálægum ríkjum Dana og Svía konúnga, en eigi að minni meiníng af því, sem skrifar *celeberrimus* Johan Stjernhook *de Jure Sveonum lib. 1. cap. 2. p. 133.*, af því silfrið væri þá þegar markað, ɔ: *signatum*. Minnist eg engin dæmi til í þeirri gömlu dönsku túngu, að „mörk“ í *feminino genere* eigi skylt við „mark“ eður „merki“, því að „mörk“ = *signa* er *neutrum pluralis numeri*, en „merkur“, *femininum plurale*, þýðir alleinasta þúnga hlutanna, nema þegar það, *per tropum metonymiæ*, er eignað *pretiis rerum* (dýrleika hlutanna), sem gildir eins mikið og mörk silfurs vegin eður talin. Eru og einnin „mörk“ og „eyrir“ hjá Norðmönnum miklu eldri, en eg veit nokkur rök eður dæmi til, að hjá þeim væri myntað silfur, eður slegnir silfurpeníngar í brúkun komnir. Er það varla efunarvert, að bæði Norðmönnum, Dönum og Svíum muni farið hafa sem öðrum þjóðum, að liðið hafi nokkur hundruð ára ríkjanna, fyrri en þeir hafi myntað silfur sitt. Um Rómverja vottar Plinius *Nat. Hist. lib. 23. cap. 3.*, að seint myntuðu þeir, og enn þá þegar þeir myntuðu, vógu þeir lengi sinn *assem*, sem þó var af eiri, og eins silfrið á eptir, þá það var myntað, eptir Pyrrhum sigraðan, *conf. Tacit. de Moribus Germanorum, cap. 3.* Mörg dæmi annara þjóða leiðir Dempsterus til sama efnis í sínum *Paralipomenis* við Rosæi *Antiqtt. Roman. lib. 7. cap. 31.*, og meðkennir Joh. Stjernhook, *lib. 1. de Jure Sveonum cap. 11.*, að mjög hafi lítið, eður alls ekki myntað verið silfur í Svíþjóð framan af öldum, *conf.* Barthol. *Antiqtt. Dan. lib. 2. cap. 9.* En eirpeninga nefnir þó Snorri Sturluson hjá Svíum strax eptir Frey dauðan. „Skatt öllum, segir hann, heltu þeir í hauginn (Freys), í einn glugg gullinu, en í annan silfrinu, en í hinn þriðja eirpeníngum“, og peníng nefnir Snorri strax í tíð Óðins: „Guldu menn Óðni skattpeníng fyrir hvert nef“, en sá hefir eflaust af silfri verið. Þó verður því ei neitað, að Snorri

Sturluson skrifar greinilega um Hálfdán konúng milda og matarilla: „Hann gaf mönnum sínum í mála jafnmarga gullpenínga, sem aðrir konúngar silfurpenínga". Nú lætur þetta svo í fyrsta viðmóti, sem muni þá þegar á hans dögum hafa myntað verið gull og silfur í Noregi, og þori eg lítt um það að keppa, þótt mèr virðist það heldur ótrúlegt, og sýnist hitt líkara, að þeir gull- og silfur-penínga hafi með hernaði fengnir verið af öðrum löndum, því að ekki var í þann tíð gull nè silfur fundið í Noregs ríkis landamerkjum, nema tilflutt alleina. Og það vottar Snorri um þenna sama konúng, að hann var hermaður mikill og var laungum í víkingu, og fèkk sèr fjár. Þessi Hálfdán konúngur var föður-faðir Hálfdánar konúngs svarta, föður Haralds konúngs hárfagra, og hafði ekki víðlendara ríki en Vestfold og Raumaríki; hvernig mundi hann þá mynta gull og silfur til slíkrar nægðar, sem áður segir um málagjöf hans, nema það hefði með herfángi tilflutt verið.

§ 2.

Það er ekki til gátu, að bæði í Noregsríki, Danaveldi og Svía hafi myntað silfur margfaldlega innborizt með hernaði þeirra til ýmsra landa, frá ýmsum löndum laungu fyrir tíðir Haralds kóngs hárfagra, svo vel sem á hans dögum. Því kvað Hornklofi svo í Noregskonúnga tali um hirðmenn Haralds konúngs hárfagra:

Í fè ero þeir beðnir málmi húnlenzkum
ok í frægum mækjum, ok mani austrænu.

Hèr nefnir hann „málm húnlenzkan" silfur af Húnalandi með herfángi tekið, og er Húnaland tilnefnt *per synecdochen.* En eigi kann eg vitni til þess að leiða, að fram á miðja ríkisstjórn Haralds konúngs hárfagra hafi nokkurt silfur i Noregi myntað verið. Nú er það líklegt, að þeirra penínga verð eður dýrleiki, sem Norðmenn öfluðu sèr í hernaði, hafi þeim sjaldnar kunnugur verið, en ókunnugur, og fyrir þá orsök í venju leiðzt, að vega silfrið það hertekna jafnan, allt svo lengi sem myntin silfursins var ekki altíð orðin í Noregsríki, og enn þá miklu lengur. Vegnar voru þær 3 merkur silfurs, er Höskuldur Dalakollsson gaf Gilla enum girzka fyrir Melkorku í tíð Hákonar konúngs Aðalsteinsfóstra, sem Laxdæla vottar, og vega lèt Ásbjörn silfur það, er hann gaf Egli Skallagrímssyni í staðinn jarða Ljóts hins bleika; því svo mælir sagan: „Lèt Ásbjörn

lúka upp kistu og reiddi þar úr 40 marka silfurs". „Reiddi" það er „vóg". Vegnar voru þær 30 merkur silfurs, sem Finnur Árnason tók af Þóri hund í bætur fyrir víg Karla og misgjörðir Þóris í förinni til Bjarmalands í Ólafs helga sögu, kap. 151. *ex membrana.* Vegið var og í sundur gull það allt og silfur, er Haraldur konúngur harðráði gaf Magnúsi konúngi góða hálft allt við sig mót hálfu Noregsríki. Þó er það ljóst, að nokkru síðar lèt Haraldur konúngur slá mynt í Noregi til málagjafar. Samt voru vegnar þær 3 merkur, sem Einar fluga galt Halla í frændbóta nafni; og það skilst mèr, að vegnir hafi verið þeir 12 aurar af brendu silfri, er Haraldur konúngur harðráði gaf Haldóri Snorrasyni í málagjöf, síðan Haldór ónýtti þann koparblendna málann. Samt til líkinda því, að á seinna hluta ríkisstjórnar Haraldar konúngs hárfagra muni silfur hafa verið í Noregi myntað, sýnist mèr það merkilegt, er skrifar Ari fróði, pag. 3., þegar Grímur Geitskór, fóstbróðir Úlfljóts, hins fyrsta lögsögumanns á Íslandi, kannaði landið allt, áður alþíng væri sett, að honum fèkk hverr maður peníng á landi hèr; þetta skil eg „myntaðan peníng", þann er menn þektu verð á. Ef nú að treysta má ártali því, er biskupinn sálugi, *Mag.* Þórður, hefir sett á spázíunni, verður þetta *anno Christi 930,* sex árum fyrr en Haraldur hárfagri deyði, eptir *Calculo nobilissimi operis Ser. reg. Dan. nobilissimi Historiographi Thormodi Torfæi lib. 3. cap. 2. p. 241.,* sem telur Harald konúng fæddan 853, samanbornu við Snorra Sturluson, sem skrifar Harald áttræðan hafa fengið ríkið Eiríki Blóðöx, og lifað þrjú ár síðan. Og enn greinir Snorri Sturluson, að þegar Eyvindur skáldaspillir orti kvæði til sæmdar landsmönnum vorum á dögum Haralds konúngs gráfeldar, gáfu íslenzkir honum að kvæðislaunum, hverr bóndi skattpeníng, sá stóð þrjá peninga vegna silfurs, og hvítur í skör, það skilst mèr í sárið, þegar aðgætt voru gæði silfursins. Hér marka eg vigt peníngsins, samanborna við vigt silfurpeníngs vegins, og ætla þetta bendi til, að þá væri innkominn greinarmunur á milli talins og vegins peníngs, ortugar, eyris og merkur, hvar um eg síðar tala greinilegar. Ei verður því neitað, að Eyrbyggja segir, að Snorri goði hafi talið silfur það, er hann galt Berki föður-bróður og stjúpföður sínum við hálfu Helgafellslandi; „var þá talt silfrit og goldit fyrir landit hverr peníngur" stendur í sögunni, og munu þeir myntaðir verið hafa. Þetta

var á dögum Hákonar jarls ens ríka. Líka getur þess Laxdæla, að Þorgeir Hölluson taldi silfrið, þá er hann var veginn í tíð Ólafs helga. Það er að vísu satt, að í Englandi var myntað silfur, þegar Egill Skallagrímsson var í her Aðalsteins kóngs móti Ólafi Skotta konúngi. Þar nefnir sagan „skildíng silfurs", og eptir Egil dauðan nefnir hún enska penínga, sem gátur manna hèldu úr silfurkistum Egils vera; en það fylgir ei eptir, að jafnsnart hafi mynt verið slegin í Noregi; það sýna Noregskonúnga sögur, að mosurbolli sá, er Haraldur konúngur Sigurðarson gaf Steigar-Þóri, var fullur af silfurpeníngum, en þeir voru utan úr löndum að komnir, og eigi slegnir í Noregi.

§ 3.

Af öllu þessu skil eg eigi betur en svo, að framum af öllum öldum hafi lengi verið vegið silfur allt, en síðar, þegar inn komst venja sú að mynta silfur í penínga, hafi þó ásamt þeim lángvarandi viðhaldizt hin forna venja, að vega silfrið að öðruhverju, og svo hvorttveggja tíðkað verið og þá komizt í venju greinarmunur milli talinnar merkur og veginnar, talins eyris og vegins eyris, talinnar og veginnar ortugar. Kann eg eigi að skilja, að neitt af þessu niðurbrjóti mína *thesin*, að orðið „mörk" sè af vigt eður þýngd silfursins komið í fyrstu á verðauralag hlutanna, og er það eí til gátu, að bæði „eyrir" og „ortug" eru þúnga-nöfn í fyrstunni.

§ 4.

Um „eyrir" er það augljóst af vors Kaupab. 5. kap. Þar eru „eyrir gulls", eyrir brends silfurs, stæltur ljár eggelníngur og vegi 18 aura. Einnin í Jómsvíkínga drápu: „Hagl vo hvert eyri."

§ 5.

Sama er um „ortug", að hvort sem um það er í *masculino* eður *feminino genere* talað, því hvorttveggja er títt, þá er það *primo et proprie* vigtar eður púnga þýðíngar, svo sem ljóst er margfaldlega af saktali Frostaþíngsbókar Hákonar konúngs og Gulaþíngsbókar hinnar fornu, þar sem þær skipta frændbótum meðal bauggildis og nefgildismanna. Og segir Frostaþb. að vígbóta saktal alt sè að vegnum aurum talið. Það er enn í Frostaþl. Magnúsar konúngs lagabætis, Landv. b. 11. kap., ákveðið, að til veginna marka silfurs skuli reikna fè bænda og múgamanna, þar sem telur skyldarvopn þeirra, og sýnilegt er af hinni fornu Gulaþb., þar sem segir fjár-skilorð í saktali, og taxeruð er kýr-

in fyir hálfan þriðja eyri silfurs, verður þá kýrin 15 aurar taldir, svo sem ljóst er af vors Kaupab. 5.; þar er eyrir brends (veginn) silfurs fyrir sex aura (talda), það er lögaura, 9 álnum hvern.

§ 6.

Nú segi eg, að nafnið þessa þúngans „mörk, eyrir, ortug" sè fyrst og *proprie* vigtarinnar, og þaðan eptir á *translatum* og *aptatum*, dregið og eignað, verði hlutanna, þegar farið var að mynta silfrið miklu smærra, svo verð þess gæti samboðið þeim hlutum, sem litlu nema og silfurvigtin forna gat ekki til náð sökum of mikils dýrleika svo stórra silfurstykkja. Er þetta nú sagt um uppruna nafnsins, að það heiti „mörk" af þúnganum, en ei af marki, svo sem meint hefir *nunquam sine laude nominandus* Johan Stjernhook.

§ 7.

Legg eg það eina hèr til, að þar sem hann meinar þesskonar *marca selibris*, mörk, sem vegur 16 lóð, eður hálft skálapund silfurs, hafi nokkurn tíma myntað silfur verið, þá meina eg þvert á móti honum, að aldrei hafi svo stórir silfurpeníngar verið slegnir hèr í Norðurlöndum, og því síður geti þess vegna silfurmörk nafn sitt haft af marki eður merki; og sjálfur skrifar *nostra laude major* Stjernhook: „*Marca selibris antiqua erat pure argentea, qualis hodie signata quidem ad usum nuspiam exstat, marca vulgaris vero altera deterior in usu vulgari, disparente altera illa selibri*", það er: mörk sú hin gamla, sem vóg hálft skálapund, var af skíru silfri, og sèst hún hvergi til brúkunar myntuð nú á þessum dögum; en til er í almenníngs brúkun mörkin almenna, miklu lakari en hin, að horfinni þeirri, sem hálfpundið vóg, segir Stjernhook. Eg ætla hún aldrei væri myntuð, en vog skálanna gjörði verðið gott, þegar þúnginn var reyndur, og það eina var mark hennar dýrleika, ef að gæði silfursins voru viðsæmandi.

§ 8.

Samt fyrir því að menn allir voru þeim nöfnum vigtarinnar vanir lángvaranlega, svo að smábörn og almúgi kunnu þann reikníng, voru sömu nöfnin sett á smáu hlutina, sem þá gjörðust í mynt, svo ei skyldi truflast sá einfaldi, og þurfti nú ekki

meira að gaumgæfa, en það alleina, að sjöttúngur ens vegna eyris af silfri hèt nú eyrir talinn á dögum Magnúsar kóngs, og sextugasti hluti af vegnum eyri gulls var enn eyrir talinn. Áður máske silfur og gull hafi dýrra verið, hvar um síðar *comm. 36* og *37.*

§ 9.

Eptir þessum svo nafngiptum smápeníngum voru verðlagðar bæði í Noregi og Svíaríki allskonar fèmætar eigur, kvikar og dauðar; sýnir Njála það. Svo var reiknaður arfurinn, er Hrútur fór að vitja, 7 hndr. merkur, það eru tvö hundruð hundraða og 40*c*, ef taldar merkur skal reikna; en ef vegnar merkur á að reikna, þá eru það 16 hndr. hundr. (önnur saga segir CC marka). Og líka voru sjálf löndin með þeim hætti virð, þó að jörðunum væri nöfnin *apteruð* eptir landskuldarhæð hjá Norðmönnum og Svíum. En hjá oss í þessu fátæka landi þurfti þess einna mest, að gefa svoddan nöfn allskonar eignum, og sèrdeilis vörunni; því að hjá oss var alls engin mynt, nema tilflutt frá öðrum löndum, og neyddumst vèr því til að blífa við *permutationem* og gjalda vöru með vöru, eins og forfeður vorir, hinir gömlu Norðmenn, höfðu tíðkað, svo vel sem þeirra nábúar, Svíarnir, sem Stjernhook vottar *cap. cit.* og *Bartholin ut supra.* En til þess að bæði gætum vèr skilið *pretia rerum* (verð hlutanna) hjá þeim og hjá oss, settu vorir fornmenn sömu nöfnin, mörk, eyri og ortug á vöru vora og eigur allar, kvikar og dauðar, fastagóz og lausafè. Og af því fátæktin var svo stór hjá oss, að allopt nam varla eður eigi nema fullri mörk aleiga þess vesæla, þá gjörðum vèr meðalnafnið, eyri, að mæliþræði, og ánefndum vissa hluti, er heita skyldu eyrir að dýrleika, sem vottar vors Kaupab. opt nefndur 5. kap. Skoði menn Statútu Gizurar biskups, og allra þeirra beztu manna, sem hèr á landi var völ *anno Christi 1096;* hún skal sýna, að þenna mæliþráð, 6 álna eyrir lögaura (það er talinna aura), lètu þeir sèr reglu vera, til að virða landið allt, og alla þá fèmæta hluti, sem í landinu voru, kvika og dauða, nema fólkið alleina.

§ 10.

Þar af er komið nafnið „lögeyrir" hjá oss, að þeir hlutir eigi voru „veginn eyrir" að púnga, heldur sá eyrir, sem lög höfðu skipað svo skyldi kallast. Hjá Norðmönnum og Svíum hèt þessi mynt-

aði eyrir, „eyrir talinn", það er svo kallaður *numeratus*, en ei af þýngdinni, vigt sinni, heldur: *Nos numerus sumus*, það á að heita „vèr smápeníngarnir sèum eyrir hverr", eður mörk eður ortug, og svo hið sama varan hèr á landi. Ætla eg nú rök sýnd til nafnsins uppruna, bæði á vegnum og töldum mörkum, aurum og ortugum.

## § 11.

En af verðsins upphæð á hverju fyrir sig, svo sem þá gilti hjá Norðmönnum og oss, er Jónsbók var útgefin *anno 1280*, er það fáorðast og ljósast að greina, sem vor Kaupab. 5. kap. skýrir, að ein mörk silfurs vegin gilti 6 merkur taldar, það er 48 aura talda eður 288 álnir; hver alin gilti 2 fiska, það eru 4 skálapund af hörðum fiski, en hverr fiskur, það eru 2 skálapund af hörðum fiski, gilti 2 skildínga danska, sem nú tíðkast. Svo gilti hverr veginn eyrir silfurs 6 aura talda, það er 6 lögaura, 36 álnir að verði, en 72 fiska, það er 144 skildínga danska. Ortug eður ortugur silfurs veginn var þriðjúngur af eyri silfurs vegnum, og gilti 2 aura talda, það eru 12 álnir eður 24 fiskar, 48 skildíngar danskir þessarar tíðar. Átta aura þúngi, það eru 16 lóð, voru í hverri mörk veginni, en hverr veginn eyrir voru 2 lóð að þýngd, og hver ortug vegin var að þúnga þriðjúngur vegins eyris, það eru 2 þriðjúngar af lóði vegnu.

## § 12.

Og svo sem allt þetta var eptir *proportion* vigtarinnar niður jafnað á vegnum mörkum, aurum og ortugum, svo var því hverju fyrir sig skamtaður dýrleiki eptir sömu *proportion* (niðurjöfnun), þegar nöfnin „mörk, eyrir, ortug" voru sett í smápenínga, sem kallaðir voru „taldar merkur, taldir aurar, taldar ortugar", að hver mörk talin skyldi gilda 8 aura talda, það er 48 álnir, 96 fiska, 192 skildínga danska þessarar tíðar. Hverr einn eyrir talinn gilti 3 ortugar taldar, það er 6 álnir eður 12 fiska, en 24 skildínga danska þessara tíða. Sèrhver talin ortug gilti þriðjúng talins eyris, það eru 2 álnir eður 4 fiskar, en 8 skildíngar vorra daga. Þessar allar *species* „mörk talin, talinn eyrir og talin ortug" hafa sannlega verið algengin mynt á dögum Magnúsar konúngs lagabætis og föður hans Hákonar konúngs gamla. Það má sjá af Rb. Hákon-

ar konúngs bak við Heiðsivjaþíngs og Frostaþíngsbækur Magnúsar konúngs um þriðjúngs fallið; þar stendur: „8 ortugar og 13 merkur silfurs, slíkt sem fellur af konúngs steðja.“ Hèr segir„það falli af konúngs steðja“; *ergo* var það myntað.

§ 13.

Alin hver, svo kölluð eptir *ulna*, vaðmáls, sem þá gjörðist hèr á landi og gilti sama verð í þá daga, kostaði 2 fiska, það er hálfa ortug eður 4 danska skildínga, og var þessi síðasta tegundin alleina *in permutatione* brúkanleg, en átti ekkert nafn meðal myntarinnar, það eg hefi kunnað að finna.

§ 14.

Þó var álnatal hjá Norðmönnum altítt þar innan lands, það er ljóst af hinum forna kristinrètti, sem stendur í sumum Heiðsivjaþíngsbókum Magnúsar konúngs, og þó er að vísu eldri en þær. Þar telur kap. 47. 12 álnir að legkaupi, og 9 álnir, *item* 4 álnir og 3 álnir að legkaupi, *confer* sama Kristinrèttar kapp. 34. 44. 46., sem verðhæð auranna *definerar* með álnatali. Svo gjörir og hin forna Gulaþíngsbók í saktali því, er hún hefir næst fyrir framan Þjófabálk, er hún misjafnar auraverð með álnatali. Þar nefnir hún 12 aura sex álna eyris í bótum eptir höld, og aptur 6 merkur tólf álna eyris í höfuðbaug í hölds gjöldum; *item* aura tvo þriggja álna eyris, laun stafna - smíðar á sýknum dögum sunnudaga í millum í útgerðarbálki. Sýnir allt þetta vafalaust álnatal Norðmanna[1].

§ 15.

Vor á meðal var þetta álnarnafn eignað og *apterað* öllum allra hluta dýrleika, svo sem ótal dæmi sanna[2], eigi alleina í Sturlúngasögu, heldur í Statútu Gizurar og Grágás margfaldlega, og í sjálfri Jónsbók nokkrum sinnum, svo sem í Kóngsþegnsk. 1. kap. og Kaupab. 15. Helzt og sú *praxis* allt til þessa dags, að með álnatali er allskonar landaura verðhæð reiknuð, allt eins nú á tímum, síðan verð vaðmála vorra er upp stigið, svo að nú[3] gildir hver einmæld[4] vaðmáls alin hálfa þriðju talda alin verðaura, svo sem kallað var í þær

1) frá [ á bls. 344 vantar í C. 2) sýna, C. 3) enn, A. 4) einmælt, C.

mundir, er lögbókin gjörðist, og þaðan af fyrri, á meðan hver mæld alin vaðmáls gilti eigi nema eina alin verðaura, það er hálfa ortug talda.

§. 16.

En það sem eg hefi hèr nefnt, að alin hver verðaura gildi 2 fiska, það er 4 skálapund af hörðum fiski, nefnist aldrei í vorum lögum, hvorki þeim ýngri nè eldri, á þá lund, að efalaust sè það marka skuli verðaura hæð eður dýrleik, fyrr en, ef svo má skilja Rèttarb. Ólafs konúngs annó 1381 eður 1382 um tolla af Íslands förum í Björgvín. Þar stendur í mínu exemplari bak við gamla danska version af Heiðsivjaþíngs bók: „att aff hvert 1[1] hndr. Fiske skal giffve 6 Fiske, aff hver Aske Ljuse 2 Stycke Ljuse, siden aff Packe Vadmell og allskone Vare hvert effter sitt Naffn og Tall till rett Regenskab". Áður *in præmissis* vænist sama fororðníng, að í tíð konúnganna, sinna forfeðra, hafi svo verið siðvenja, og[2] þeir sèu þá við, er minnist, að svo hafi Magnús konúngur skipað, það er að skilja Magnús konúngur Eirikson; en þetta skilst mèr heldur um vigt og tölu fisksins, heldur en um verðlag eður dýrleika hans þar í Björgvín, sem næsta má víst kalla, að eigi muni verið hafa sama þar og hèr á landi; því hvar fyrir skyldu þá kaupmenn sókt hafa fiskinn híngað með stórum kostnaði yfir torsókt haf, ef hann seldist eigi betur þar, en hann var keyptur hèr? Þó það gengi að sönnu vaðmálunum með því móti, að þeirra verð var sama hèr og í Noregi, og fluttust þó ærin hèðan og þángað, hefir gróðinn á þeim alleina staðið af hinni norsku vörunni, sem tekin var fyrir vaðmálin, að hún hefir selst hèr á landi dýrra, en þar var hún fengin; og meðkenni eg mig eigi vita, nær þetta fiskvirðis nafn sè fyrst í brúkun komið. En það er af Statútu Gizurar biskups ljóst að ráða, að í þann stað hafi á þeim dögum kölluð verið hálf alin, það sem nú kallast fiskur. Líkast þækti mèr, að þetta fisknafn *pro mensura pretii* sè fyrst hjá oss í tíðkan komið, þegar framandi þjóðir, aðrir en Norðmenn (og kannske Noregskonúnga þegnar af Orkneyum) tóku til að höndla hèr á landi framar en sjálfir Norðmenn, svo sem framan af gjörðu Enskir og Írar fram yfir 1467. Það árið drápu engelskir hirðstjórann Björn Þorleifsson, sem Hvítfelt kennir *in Christ.* I. [ og urðu þar af missættir Dana konúngs og Englands kon-

1) 7., C. 2) að, A.

úngs; því lagðist af siglíng og kaupskapur Enskra hèr á landi, en jókst þar á mót Hamborgara og Lýbikumanna meir og meir, og varaði yfir 130 ár. Með kauphöndlan þessara þjóða sýnist mèr líkast fiskatal í kaupskapar reikníngínum hjá oss innkomið[1], því að þeir, sem fluttu hèðan heila skipsfarma skreiðar, en vissu ekki til álnatalsins, er þá þegar var *solo nomine* alin, því vaðmálið gilti meira, muni metið hafa sína smámuni mót heilum og hálfum fiski, og sè þannig í venju leidt fiskvirðið og fiskvirðis nafnið.

§ 17.

Aður hefi eg bevísað af Kaupab. 5. kap. mismun dýrleikans, sem nú er sagður á vegnum og töldum eyri, og er þá sjálfsagt, að svo hafi hvert eitt átt öðru að svara, mörk, eyrir og ortug, sem eg hefi grein á gjört. En um þúnga merkurinnar er mèr samþykkur sá frægi Stjernhook, og vitnar það hið sama með honum og mèr dagleg raun og ósundurslitin venja, sem enn í dag varir hèr í landi, *conf.* Chr. Ostersens *Glossarium in voce* „Mark“ pag. 553. Þar nefnir hann „Mark, Jern, Bly, Vox“, etc. *Item* Lucas Debes *Færöæ cap. 6. p. 279.* Þar segir hann, að 4 merkur sèu 2 skálapund; og þreifanlega ljóst er það af Kristjáns fjórða NL. Kaupab. 29., svo hèr um efar enginn maður hjá oss enn í dag.

§ 18.

En að átta aurar vegnir gjöra skuli mörk vegna, sjá menn ljóst af frændbóta sakatali Frostaþb. Hákonar konúngs og enni fornu Gulaþíngsb., bæði því, er stendur í henni framan Þjófabálk, og því, er hún síðar eignar Bjarna Marðarsyni. Gengur allur sá reikníngur eina leið, að sú sè *proportio* bótanna og baugatalsins; og skal hèr innfæra orðin Gulaþíngsbókar hinnar fornu pag. 189.: „þeir allir, er mörk taka í uppnáminu fyrsta að viganda, þeir skulu taka þriðjúngi minna at bróður viganda, þat verður ortug sètta eyris“. Hèr höfum vèr í fám orðum mörk átta aura, og þar af tvo þriðjúnga 5 aura og þriðjúng eins sètta eyris, sem ortug heitir, er þetta sagt um mörk, eyri og ortug vegna.

§ 19.

Eins gengur, þótt mörk talin vera skyldi, að 8 sex álna

1) frá [ vantar í C.

aurar gjöra mörk, 48 álnir. Tökum þar af 2 þriðjúnga, það eru tvennar 16 álnir, og sjáum þar 32 álnir, það eru 5 sex álna aurar, 30 álnir, og ortug af hinum sjötta, þær 2 álnir, sem voru fram yfir 30 álnir.

§ 20.

Þá er enn nú Laxdæla þess vottur, þar sem fyrst segir hún, að Hákon konúngur Aðalsteinsfóstri gaf Höskuldi Dalakollsyni gullhríng þann, er stóð mörk, og sverð það, er til kom hálf mörk gulls. Og síðan þegar Höskuldur í banasótt sinni vildi hafa gjört Ólaf pá jafnan skilgetnum sonum sínum til erfðar, og fèkk ei af Þorleiki samþykt hans, þá kvaðst Höskuldur gefa Ólafi lög-gjöf sína 12 aura, og því játti Þorleikur. Ánefndi þá Höskuldur fyrr nefndan gullhríng og sverðið í þá 12 aura, sem áður skýrir, að þeir gripir voru hálfönnur mörk. Nú þótt Höskuldur hefði hèr um undirmál, því Þorleikur játti 12 aurum silfurs, en Höskuldur meinti gull, þá er þó sýnileg hálfönnur mörk, tólf aurar; og allir menn vita þetta enn nú í dag um taldar merkur og aura, að þeir eru 8 í mörk hverri.

§ 21.

En það, sem til dýrleikans heyrir um talinn eyrir og ortug, verður ljóst, ef menn athuga Rèttarb. Hákonar konúngs gamla um þriðjúngsfall á sakeyri konúngs, þar sem áður voru 40 merkur og 6 álnir vaðmáls í eyri þann hvern, skipaði hann 8 ortugar og 13 merkur; verður þá hver ortug 2 álnir, að af eru feldir 2 þriðjúngar ennar fertugustu merkurinnar, því að þrennir 16 eru 48. Og svo að menn geti eigi meint, að í þessu þriðjúngsfalli sè upp gefinn einn þriðjúngur, en tveir skuli gjaldast, því stendur í sömu Rèttarbót, að þar sem áður var 15 merkur, skuli síðan 5 merkur gjaldast í sakeyri.

§ 22.

Þetta, sem nú hefir svo þrástagað verið um mörk talda eður mörk lögaura, er sá *scopulus* eður *scrupulus*, sem *Mag.* Lucas Debes, vitugur og gætinn maður, steytir sig á í sinni *Færöa cap. 6. comm. 1. p. 275.*, þar sem hann talar um mörk silfurs, er á Færeyum gángi í sakeyri, og getur eigi fundið í því grundvöll, sem ei var heldur von til, þar sem hann, danskur maður, vildi finna rök til þess af dönsku marka-

tali, því er 6 mark gjörir 1 ríkisdal, en hann er eyrir silfurs veginn hjá þeim gömlu Norðmönnum; en í lögaura-tali Norðmanna gildir ríkisdalur 6 aura talda, og verður svo að dýrleika þrír fjórðúngar úr mörk silfurs talinni; á því að gánga fyrir talda mörk silfurs 1 ríkisdalur og priðjúngur af öðrum í allan þann sakeyri, sem lögbækur Magnúsar konúngs lagabætis skipa, því hann reiknar sakeyri allan til talinna marka, aura og ortuga; gjörir þá einn eyrir silfurs veginn og ein ortug vegin mörk lögaura, sem áður er *demonstrerað.*

§ 23.

Nú vill þetta enn nú fjærri fara því, sem *Mag.* Debes skrifar, að á Færeyjum gángi 2 ríkisdalir í hverja mörk sakeyris. Þetta kemur svo til, að síðan 1280, þá Magnús konúngur gaf híngað í landið lögbókina, þá sem vèr enn nú brúkum, hefir verð silfursins þrisvar stigið niður, frá því sem það gilti á hans dögum, og nú var sagt. Nær sú apturfærsla silfursins hafi skeð í [fyrsta sinni[1], þykist eg ekki nóg skýrlega vita, þótt mèr líkast sýnist, það hafi skeð um það tíma skeið, sem híng að á norðurlöndin tók að berast úr Ameríka miklu meiri nægð silfursins, en vèr vorum vanir, Danir, Norðmenn og Svíar. Hve nær sem það var, þá fèll í það sinn sjöttúngur verðs af vegnum eyri silfurs, svo þaðan í frá gilti hann ekki meira en 5 lögaura, það er 5 aura talda, og sá dýrleiki helzt enn í dag hèr á landi millum allra landsmanna, að ríkisdalur specie gildir 5 aura talda, það er 15 taldar ortugar, eður 30 álnir verðaura, það er 60 fiskar, en 120 skildíngar danskir. En í allan konúngsins og þegnanna sakeyri gengur enn í dag specie ríkisdalur með sama móti, sem lögmálið hefir hann að fornu taxerað, fyrir 144 skildínga danska, 24 skildíngum meir en hann gildir í aðrar skyldir.

§ 24.

Og er enn þá ekki hèr með náð[2] til að koma sèr saman við *Mag.* Debes um saktal Færeyínga; því verður að minnast, að síðan eptir Kristjáns annars tíðir að aflögð voru „sekkjagjöldin"[3], það er tollur sá, sem kóngum bar af allri þeirri vöru, sem hèðan frá landi var útfærð, eður inn híngað, aldeil-

---

1) fyrstunni, C. 2) ráð, C. 3) seglgjöldin, C.

is á þann hátt, sem nú gengur á tollstöðunum í vors allranáðugasta konúngs löndum og ríkjum; þegar, segi eg, sú tíðkan var aflögð á Íslands kaupförum, og vorum konúngum þóknaðist að veita Hamborgurum *privilegia* til að höndla hèr við landið fyrir vissan toll og afgipt af hverri höfn, þá var enn nú enginn viss taxti settur á vöruna, sem færðist híngað til landsins, eður hèðan til Hamborgar, nema sá eini, að hverr sýslumaður í landinu kom til hafna þeirra, sem í hans sýslu láu, strax sem kaupmenn höfðu um búizt, og fengið í land vöru sína. Gjörði þá sýslumaður *accorð* við kaupmenn um taxta vörunnar allskonar, sem fluttist, og yfirlýsti svo taxta þeim opinberlega, og það hèt „að setja kaupin", ɔ: *ordinare commercia, modum ponere commerciis,* viðlíkt svo sem konúngs Kristjáns fimmta NL. 3—4—8 tala um kaupstaðina. Skyldi sú taxeran haldast það sumar. Þegar, segi eg, að svo var komið tíðunum, þá stigu ríkisdalirnir niður í annað sinn hèr á landi, og urðu nú á 50 fiska, það eru 4 aurar taldir og hálf ortug meir, eður ein alin verðaura, eins og gamlir sauðir giltu þá hjá þýzkum kaupmönnum. Þó gilti þessi taxeran á ríkisdölum alleina við framandi kaupmenn, en samt gekk eyrir silfurs veginn þá, sem nú, 5 aurum töldum á meðal landsmannanna. Nú þækti mèr líklegt, að eins hafi mátt ske hjá Færeyíngum, þegar Hamborgarar höndluðu þar á landi, en þó með svoddan mismun, að eins hafi Færeyíngar látið verð silfursins niður stíga sín á millum innbyrðis, sem á millum landsfólksins og þeirra framandi kaupmanna.

## § 25.

Frá því nú að Hamborgarar mistu sína höndlun hèr á landi og Færeyum annó 1604, en í þeirra stað kom hið danska kompaní, gekk 1 ríkisdalur eður veginn eyrir silfurs millum kaupmanna og landsfólksins hèr á 45 fiska, það eru 3 aurar taldir og 2 ortugar taldar, og fjórðúngur úr hinni þriðju talinni ortug, hèlzt það allt til 1684, en ekki voru þá myntaðir peníngar ánefndir í taxta þeim, sem gjörðist *annó 1619.* Þar á móti fengu kaupmenn [vora góðu vöru[1] með slíkum taxta, að þeim var enn þá stór ábatakaup.

---

1) vöru góða, vöru, C.

§ 26.

Nú gjöri eg mèr þá gátu, að um þessa tíma, frá 1604, muni þeir dönsku kaupmenn hafa selt á Færeyum hvern[1] ríkisdal fyrir 24 skinn eptir skildínga tali, að 96 skildíngar gjörðu einn ríkisdal; hafi svo fógetinn og sýslumenn ekki viljað taka hann meira í konúngsins sakeyri, heldur en hann gilti í kaupum og sölum, og eigi gefið gaum að, hvað miklu dýrri var hverr veginn eyrir silfurs, þegar lögmálið skipaði slíkar bætur; og svo nær það heim, sem Debes skrifar, að í hverja mörk sakeyris gángi 2 ríkisdalir, og að 16 skinn gángi í 8 ortugar. En það læt eg öðrum eptir að dæma, hvort Færeyínganna valdsmenn hafi gjört rèttara hèr í, eður[2] vorir landsmenn, að taka hvern veginn eyrir silfurs inn til þessa dags fyrir 6 aura talda í allt það sakfall, sem dæmt er af þeim lögum, er hann hafa svo taxerað, þótt að síðan hafi verð hans mínkað hjá kaupmönnum að fullum þriðjúngi allt frá 1684, að hann er taxeraður fyrir 48 fiska, það eru 4 aurar taldir. Er það skýrlega fyrirboðið í vors Þjófab. 23., að fella það fè og[3] vöru, sem gelzt í sakeyri, og því má eigi sá taxti þessu ráða, sem settur er á milli landsfólks og kaupmanna. En það hann gengur enn nú í millum landsins innbyggjara hjá oss 5 aurum, má svo kalla, að sá fimti eyrir komi í staðinn þess, sem nú um stundir gelzt uppgjald á specie-penínga hjá öðrum þjóðum. Svo gengur og vor á meðal hvert mark danskt[4] á landsvísu 5 álnir, það er hálf þriðja talin ortug, en smærri peníngar eru hjá oss ekki tíðkaðir inn til þessa, svo það megi tíðkan heita.

§ 27.

Nú er þetta um vegna og talda mörk silfurs, veginn og talinn eyri silfurs, vegna og talda ortug silfurs, með svo mörgum rökum *demonstrerað*, að eg vona, að allir *rerum æqui censores* meðkenna verði, að sú glossa, sem háeðla Jens Bjelke, Noregsríkis *cancellarius* undir háloflegri Regjering konúngs Kristjáns fjórða, hefir gjört um þessa þrjá *terminos juris Norvegici*, hafi alls engan grundvöll, þann er standast kunni við rèttskilin lög Magnúsar konúngs lagabætis. Hans *glossam* er að finna *inter terminos legales in vocibus* „otte ortugar och tretten mark Sølv, Ortug Penge, Ortug Land, og Pendings Boel".

1) I, C. 2) en, C. 3) til, C. 4) vantar í A.

Hvað sá herra skrifar, að í hans tíð reiknist 8 ortugar og 13 merkur silfurs almennilega fyrir 7 ríkisdali, þar um tala eg ekkert, þótt mèr þyki[1] furða stór, að þeir norsku lögmenn skuli þá allareiðu allir hafa gleymt svo því gamla máli, að enginn hafi skilið, hvað væri mörk, eyrir og ortug silfurs. Þessi Bjelkans reikníngur segir útþrykkilega, að hálfur sjöundi ríkisdalur sè 13[2] merkur; svo skyldi þá hver mörk vera hálfur ríkisdalur; það er svo fjærri hinum gömlu lögum, að hálfur ríkisdalur er hálfur eyrir veginn, en 3 aurar taldir, og missir þá konúngl. majestet 5 aura talda af hverri mörk lögaura. Því vil eg geta þess til, að Norðmenn kannske hafi fengið þá miskun hjá konúnginum með auðmjúkum bænastað, að mýkja þær fornu sektir, þótt engi viti eg til þess rök. Eður því skyldi þá kansellerinn hafa gjört um þetta *glossam*, svo sem þúngskilið fornyrði? En því neita eg berlega, að í tíð Magnúsar konúngs lagabætis hafi það svo skilið verið, nè í þeim skilníngi sett í hans lögbækur, þær er hann gaf í Noregi, kallaðar í hans formála Frostaþíngs, Gulaþíngs og Heiðsivjaþíngsbækur, eður og stundum Borgarþíngs eður Upplandslög. Merkja þessi 2 síðast töldu nöfnin ekkert annað en Eiðsivjaþíngs, Heiðsævislög, og eru allar bækurnar ein og hin sama, að því einu fráteknu, sem munar um lögþíngismanna tal, og laun til hvers lögþíngis úr ýmsum fylkjum. Svo þverneita eg einninn, að nokkurn tíma hafi átt eður mátt skilja mörk silfurs, eyrir og ortug í vorri íslenzku lögbók, sem fyrr greindar Bjelkans *glossæ* mæla, því að vora bók gaf Magnús konúngur oss einum 6 árum síðar, en hinar voru Norðmönnum gefnar, og eru þær norsku bækurnar mæður og *fons* vorrar bókar að öllu því, sem þessa lands hættir gátu þolað þeim að líkjast, og eiga því allir þeir *termini juris*, sem hvorartveggja hafa aldeilis eins, í hvorumtveggja aldeilis eins að skiljast.

## § 28.

Því segi eg án allrar gátu og efasemdar, að 8 ortugar og 13[3] merkur silfurs, sem Magnúsar konúngs lögbækur ákveða í sakeyri sèu, eptir silfurtaxta þeirrar aldar, 17 ríkisdalir, 4 mörk, 10 skildíngar og 2 hvítir danskrar myntar þessara tíða, allt reiknað *in specie* til talinna marka, aura og ortuga silfurs, svo sem þá gilti silfur hjá Norðmönnum.

---

1) sýnist, A. 2) 8, C. 3) 8, C.

| | | | |
|---|---|---|---|
| 106 aurar | eður: | 13 merk. 8 ort. | 48) 640 (13 mk |
| × 6 (álnir) | | = 13⅓ mark | 16 álnir afgángs, |
| 636 álnir | | × 8 (aurar). | sem gjöra 8 ortugar. |
| + 4 álnir | | 104 aurar | |
| = 640 álnir | | + 2⅔ aur. = 2 aur. 4 áln. | |
| | | 106 aurar = 17 rd 4 mk specie. | |
| | | × 6 áln. | (sem hvert mark gildir eyri). |
| | | 636 | |
| | | + 4 áln. | sem verða að 32 hvítum |
| | | 640 áln. | (eptir þeirrar aldar silfurtaxta). |

Það sem í Kristjáns fimta háloflegrar minníngar Norskul. 5 – 12—5. p. 850. stendur, að sá, sem skýtur síldreka, skuli sekur við kónginn um 14 lóð silfurs, það skil eg fyrir konúnglega miskun, að hann hafi með slíkri náð mýkt þau fornu Noregskonúnga lög og síns háloflega föðurföðurs konúngs Kristjáns fjórða, sem í sinni lögbók, Llb. 61., skipar við slíku lögbroti 8 ortugar og 13 merkur silfurs, eins og sú sekt er ákveðin í þeim fornu lögbókum Magnúsar konúngs lagabætis, öllum, þar sem þær höndla um sama lögbrot, því eg dirfist ei að trúa, að þeir norsku lögmenn, sem voru á dögum 1680 og 1687 hafi vogað að undirrètta konúnglega *majestet*, að 14 lóð silfurs væri sektarhæðin forna, 8 ortugar og 13 merkur silfurs, og ekki get eg trúað, að þeir, svo vitugir menn, hafi látið kansellerans Bjelkes *glossam* villa sig svo geysilega frá sönnum grundvelli þeirra fornu laganna, hvern eg hefi nú þreifanlega sýnt. Allt hið sama meina eg um NL. 5—12—10.; þar standa 14 lóð silfurs af konúnglegri mildi skipuð í staðinn fyrir 8 ortugar og 13 merkur silfurs, sem í Kristjáns fjórða og hinum öllum fornu lögum, svo vel sem í vorrar bókar Rekab. 4. eru lagðar við, ef nokkur sker hval undan festum. Og enn er hin sama konúngleg náð í NL. sömu bókar sama kapítula, art. 9. Þar skipar 3 lóð silfurs konúngsins sök fyrir illa festan hval, í staðinn þess að Kristjáns fjórða NL. Llb. 61. leggur við því 3 merkur silfurs, það eru 8 lóð silfurs eptir tíðum Magnúsar konúngs lagabætis, sem áður er *demonstrerað*. En hinar gömlu *membranæ* og ásamt þeim sú danska *versio* af Heiðsivjaþíngslögum hafa hèr allar 4 merkur silfurs, [ það er 10 lóð silfurs [1]

1) frá [ vantar í

og ein vegin ortug silfurs, eður 2 mörk dönsk vorrar tíðar. Eg vil hèr ekki tala um þau 14 lóð silfurs, sem í NL. 3—14—9. hefir konúnglegri *majestet* þóknazt að skipa þann sekan til kóngdómsins, sem byggir tveimur sama leigumála, því sú kóngsins sök er eigi skipuð þar við í Kristjáns fjórða NL. Llb. 5., og eigi heldur í Magnúsar konúngs lögum, svo þessi sakeyrir er eptir nýu konúnglegu boði.

Þegar eg nú allra undirdánugast hugleiði þetta, þá renni eg auga til sama lögmáls Kristjáns fimta NL. 5—3—26 og 43. [ *item* NL. 1—22—17. Í þessari síðustu grein er konúngs landnám 3 lóð silfurs, í staðinn þess sem Magnús konúngur skipaði 3 merkur silfurs, og er það merkileg konúngsins náð, að eptir gefa af hinni fornu sekt þrenna fimm aura talda. Er enn sem fyrr, að eg skil þetta fyrir konúngsins náð, en þori ekki að geta til þeirra norsku lögmanna, að þeir hafi látið Bjelkens *errores* villa sig í þessu, enn þótt því beri saman við hans ráðlausu *glossam* um 8 ortugar og 13 merkur. Sami er þánki minn um „lóð silfurs“ fyrir „mörk“, NL. 3—12—21. og 22. *ibidem art.* 22. kvintín silfurs fyrir 2 aura, það er 1 lóð Sølv. *Ibidem art. 9,* „1 lóð silfurs“ í staðinn fyrir „mörk“; *eod. art.* 1 Lod Sølv, *pro* 2 aurar; *art. 2.* halvt Lod Sølv *pro* 2 aurar; *art. 12.* 1 lóð silfurs; kap. 14. *art. 1.* 2 lóð silfurs *pro* 4 aurar; 5—11—14. Lod Sølv *pro* mörk; *ibid.* hálft lóð *pro* hálf mörk; *ibid. art. 12.* sama kap. 2 lóð silfurs fyrir mörk [1].

## § 29[2].

Björn á Skarðsá segir, að átta ortugar sèu 2 dalir, og svo mikið af enum þriðja, að eigi vantar nema eina ortug til ens þriðja, en þetta má með engu móti skilja um ortug lögaura, eður talda ortug, því að 2 ríkisdalir eru (eptir þeirri öld) 12 aurar, eður hálf önnur mörk lögaura. Ef nú þar til leggst svo mikið af hinum þriðja ríkisdalnum, að ei skortir á hann nema eina ortug til vigtar, þá gjöra hans tveir þriðjúngar, það er 4 m℔ dönsk *in specie,* hálfa mörk verðaura, svo þá er sektin orðin fullar 15 merkur, sem fjærri er ásetníngi lögmálsins, svo sem af því er augljóst, að það bætir 8 ortugum ofan á 13 merkur, og sýnir þar með, að 8 ortugar gjöra ei fulla mörk, miklu síður 2 merkur, sem verða vildi eptir reikníngi Bjarnar.

---

1) frá [ vantar í C. 2) § 30, C.

En að vog verða 2 ríkisdalir og tveir þriðjúngar ens þriðja 8 vegnar ortugar, sem ekkert kemur við sektarhæð þessari, því hver ortog vegin gildir 2 aura verðs, og 8 vegnar ortugar 16 aura, eður 2 merkur í lögaura tali, og þar í er þessi vangá Bjarnar fólgin, að hann saman slengir talinni og veginni ortug.

§ 30.

Það, er Kristen Ostersen í sínu *glossario in voce* „ortug" skrifar um 8 ortugar og 13 merkur hjá Norðmönnum, er á engu bygt, nema *erroribus* kansellerans Bjelke, um hverja eg áður talað hefi. En það sama *glossarium* talar um „ortug" í þeim józku lögum, að hún hafi verið $7\frac{1}{2}$ skild., mismunar að eins um hálfan skildíng frá því, sem eg hefi um „ortug talda" sagt og *demonstrerað*. Kann því tvent að valda: 1) ríkjanna greiníng eður *diversitas monetæ*, 2) breytíng tímanna frá því Norskulög útgengu 1274 til þess Ostersen kallar „de Dage", sem ei er víst að sè strax 1240, þá Valdemarr konúngur gaf þau józku lögin; kynni vera laungu síðar.

§ 31.

Hvað um silfurmetinn eyri er að segja, *item* um 12 álna eyri, [9 áln. eyri[1] og 3 álna eyri, kemur alls ekki vorri lögbók við, því hún meinar alltíð 6 álna eyri talinn en ekki veginn, þar sem hún ákveður hæð sakeyris. Þó til að gjöra nokkra minníng hinna auranna, er með fám orðum af þeim sagt *in vocula* „eyrir", og þar undir eins grein á gjör, hvernig í vorri bók eru nokkur dæmi til, að „aurar" merki lausafè, en „eignir" fastagóz.

§ 32.

Því einu vil eg hèr við auka, að eg hefi meint, og enn nú meina, það hin vegna mörk silfurs, sem nú hefi eg svo margt umtalað, væri sú lóða mörk, sem Hvitfelt svo þrávalt nefnir, en ekki það, er kansellerinn Jens Bjelke *in terminis legalibus juris Norvegici voce* „Mark Guld" segir, að 16 rbd. sèu „Een Lodde Mark Sølv", og ekki sè eg, að hann leiði til þess nokkur rök. Eður hvernig skal það heita „lóðamörk silfurs", sem er heilt skálapund silfurs?

1) frá [ vantar í A.

§ 33.

Hann skrifar *ibidem*, að 1 mörk gulls sè hjá Norðmönnum 1 „rósenobel", og vænist að því norskum brèfum. Þau væri gott að sjá. En ef það er satt, þá hefir Sverrir konúngur ekki metið dýrt [sýslumann sinn[1] Ívar dápa og sveit hans, er þeir í Sogni drepið höfðu, Sverriss. kap. 79, og hann lèt sèr lynda, að þeir bættu 15 mörkum gulls, kap. 82. Eg skal meðkenna fáfræði mitt; eg hefi meint, að hver mörk gulls vegin mundi gilda 24 hndr. í landaurum, og hver talin mörk 4 hndr. landaura, og mundi Sverrir kóngur hafa tekið bætur af Sygnum 4 hndr. hundraða fyrir sýslumanninn og sveit hans. Ef að þetta er ekki rètt, þá veldur því vanskilníngur minn á hinni fornu Gulaþíngsbók og Frostaþíngsbók Hákonar konúngs Hákonarsonar, og lögbókum Magnúsar konúngs lagabætis, sem mèr skilst að allar vitni þetta, hvað sem þau brèfin, er kansellerinn Bjelke vænist, segja kunna.

§ 34.

Það sè eg, að Chr. Ostersen, *glossarii sui p. 553. vocula* „Mark", meðkennir, að „Lodemark Sølff" sèu 16 lóð silfurs. Hvað hann framar segir *ibidem* um ýmislega breytíng myntarinnar, kemur eigi þessu máli við, allra sízt þar hann tekur ekki lengra fram þessum sínum reikníngi, en til þess að dalanna nafn var á lopt komið *anno 1519*, að Hvítfelt segir *in Christ. Sec. p. m. 1137.*, eður, sem aðrir skrifa, *anno 1520*. En að vísu vænist Ostersen *in voce* „Lodemark", að það hafi heitið einslags gömul mynt, sem gilt hafi $\frac{15}{16}$ hluti af ríkisdal, ɔ: 90 skildínga, *conf. ejusd. pag. 484* síðast *in voce* „Lawarff".

§ 35.

En hvernig þessu megi hvorutveggja samankoma við[2] það, sem Ostersen skrifar *in* Fuld Mandebod, pag. 306—307, læt eg öðrum eptir að dæma; mèr hefir það eigi fundizt auðvelt, *vide nostrum* „Manngjöld" og „þegngildi". Það sè eg, að Sælandslög, *lib. 2. cap. 13. 14.*, láta gilda 40 merkur til konúngs og 40 merkur til erfíngja, ef nokkur vegur á gefin grið og festarbætur. Í þeim kapitulum nefnir eigi „Mark Sølff", og engin er þar skýríng á, hvað sú mörk hafi gilt. Sömu

1) sýslumenn sína, C. 2) að, C.

lög *lib. 3. cap. 10.* ákveða bætur fyrir manndráp 15 merkur silfurs. Það ætla eg sè þegngildi til konúngs, og skuli lúkast at þrennum sölum, sem þar segir; en „gjörsum", það eru manngjöld til frænda, eru þar að auki. En kap. 11. sömu bókar stendur útþrykkilega, að 15 merkur *(non adjecto:* Wolff) sè 5 merkur silfurs; þetta skilst mèr 15 merkur taldar, eru þá 3 danskar merkur taldar 1 mörk vegin, en hjá Norðmönnum er 1 mörk vegin 6 merkur taldar, sem fyrr segir. Svo hin danska talin mörk verður tvíklif að dýrleika við norska mörk talda, viðlíkt sem Ostersen færir dæmi til á öðrum hlutum, að ríkisdalir, þegar[1] þeir komu fyrst í brúkun, gilti hverr 3 mörk, og hafa[2] þá danskir haft þesskonar markatal, eins og Lýbskir hafa enn í dag; eru slíks ótal dæmi. En þetta markatal á ríkisdölum kemur að mínum þánka alls ekki við hina gömlu dönsku mörk, eður norsku, sem hèr er eg um að tala. Það er augljóst þreifanlega af Sælands l. *lib. 3. cap. 11.;* þar er tröppugángur sektahæðar í sáramálum, að fyrir ben hvert, sem ei hylst með þumalfíngurs breidd, skuli bæta 6 aura, ella synji fjögra manna eiði; fyrir ben, sem liggur við merg eður himnu, bæti hálfa mörk (það skil eg 4 aura) ella synji þriggja manna eiði; fyrir ben hvert, sem í mundlaug skellur, 2 aura; fyrir ben hvert, er maður má sjá, $2\frac{1}{2}$ ortug, ella synji eins eiði, og ortug silfurs nefna sömu lög *lib. 5. cap. 20.*

## § 36.

Um það, er híngað til hefi eg talað um taxta silfurs og gulls, bið eg þess sè geymt, að eg meina þann taxta í hvorutveggja, sem Magnús konúngur setti, þá er hann gaf oss sína lögbók. Og með því eg efast ei, konúngurinn hafi gjört oss sama taxta, sem öðrum sínum þegnum í Noregsríki, þá meinar fáfræði mitt, að sá dýrleiki muni þá áður lángar stundir hafa verið yfir allan Noreg, þar eð eg ekki veit sögurnar greina[3] breytíng þar á silfurs verði nè gulls, allt fram yfir upphaf ríkis Sverris konúngs.

## § 37.

Hvað áður hafi þar um lög verið hjá Norðmönnum, þori eg ekki að segja, þó mèr þyki mjög líklegt, að verð silfurs-

1) vantar í C. 2) vantar í C. 3) nýa, add. C.

ins hafi þar áður hærra verið, vegna þess að Íslenzkir, áður þeir komu undir Noregskonúng, höfðu nauðsyn til að líkja sitt verðaura tal eptir Norðmönnum, þar eð allur kraptur vorra kaupferða var mest fólginn í einíngu við þess ríkis kaupmenn. Nú segir Grágás Kb. 3., að eyrir silfurs sè at mörk lögaura, það er fjórðúngi dýrra silfur, en Magnús konúngur setti. Kynni[1] þessu ollað hafa, 1) *raritas* silfursins hèr á landi, sem eg þó ekki meina, 2) að landsmenn vorir hafa eigi svo strax *reformerað* vor lög skriflega, þó þeir hafi kannske *in praxi* látið silfursins verð niðurstíga, eptir því sem það gekk og gilti í kauphöndlun við Norðmenn.

[ Hèr innfellur sá athugi, að Stjernhook *de jure Sveonum lib. 2. cap. 4. citerar* af Vestgotalögum þrælaverð ákveðið, *duas oras aureas aut duas marcas argenteas.* Þetta má sannlega talað vera um veginn eyrir gulls og vegnar merkur silfurs, og hefir þá gull hjá Vestgautum verið fimtúngi ódýrra heldur en hjá Norðmönnum, sem þó má undarlegt sýnast hjá nábúum; þó eru dæmi til þess enn í dag, og á mismun myntarinnar hjá Dönum og Svíum. Er og það hèr merkilegt, að verð þrælanna hjá Vestgautum hefir víst verið, og þeir fjórðúngi dýrri en hjá oss undir Úlfljóts lögum. Þá voru þrælsgjöld 12 aurar silfurs, *puta*: vegnir, en hjá Vestgautum 16 aurar, en í Grágás metfè eyrir gulls. Hjá þeim, 8 aurum vegnum, en hjá Norðmönnum, 10 aurum vegnum. Hefir svo hvert lóð gulls gilt hjá oss 5 rd., en hjá þeim 4 rd. *Item* segja Vestgotalög Kirkjub. 5. § 2. „Ligger Kirkjugarder alder open, that är thriggja marka sak; ligger halfer open, that är tolf ora sak; ligger thridjunger open, that är säx ora sak". Hèr er marka og auratal Vestgautanna þreifanlegt að vera eins og vort er. *Conf.* sama bálks 13. pag. 9., *item* kap. 19. § 1. *pag. 11*[2].

## § 38.

Annað segir Grágás *cap. cit.* „og það lögsilfur, er meiri hlutur er silfurs en messíngar". Eigi mundu þeir hafa fundið sèr gagnlegt að setja þetta í lög, ef ei hefði svo gengið hjá Norðmönnum í þær mundir, og hefir að vísu verið á því athugi stór, hvað gott silfrið væri. Því segir Snorri Sturluson,

---

1) öllu, add. A. 2) frá [ vantar í C.

að vorir landsmenn keyptu smiði til að skíra silfrið, það sem af var gjörður feldardálkurinn, er þeir skenktu Eyvindi skálda spilli, og stóð hann þá 50 merkur. *Ergo* var hann veginn.

Það er annað vitni um athugasemd á gæðum silfursins, sem Ólafs helga saga mælir, þegar konúngurinn sendi Karl hinn mærska til að heimta skatt af Færeyum, að þeir Leifur og Karl ráku fyrst þann eina sjóð silfurs[1] aldeilis, en um annan játti Leifur, að gánga mætti í aðrar skuldir, og vildi þó ekki taka í konúngsins skatt, en hinn þriðja sjóð[2] vildu þeir báðir taka, og kölluðu gott silfur, en samt þóktust þeir þurfa vigtar við. *Ergo* var vafi á um myntina.

Hvað um gull og þess vigt er að segja, *definerar* ekki vor lögbók framar en svo: „það er stenzt elding". Mèr skilst það, sem ekki lèttist, þó það sè smelt einu sinni. Hversu gott gull það sè nú reiknað, vísa eg til gullsmiðanna.

Það er að vísu merkilegt, sem Chr. Ostersens *glossarium in voce* „Mark" p. 553., og *ibidem in* „Lødie Mark Guld" talar um gullsins mismun, en sú *accuration* eður granskygni er fremur, en vor lögbók gjörir grein á. Verðum vèr því að hlýða gætni þessarar aldar, þótt einfeldni fyrri tímanna lèti taxtann enn rúmari[3].

## [4] Nemur pro tekur.

*(fragmentum).*

Erfðatal 9. og 12. „Nemur hinn nánari". Gulaþb. forna Kristindómsb. um greftrun í kirkjugarði: „Ef hann býr svo ófarla í fjalli eða svo utarla í eyum, og nema hann þær nauðsynjar, að hann má eigi lík færa fyrir sæ úförum eða fyrir fjalli", etc. Mannh. 31.: „Þegar hann fær sèr sjálfur matar og klæða eða vopna, þá er hann þegar rèttnæmur". Uppnæmur, uppnæmt hey, Llb. 12. *item:* Ef „þjófssök nemur um fundið fè", Þjófab. 14. *Inde:* „Það nemur því ekki". Saknæm verk, orð, etc.

## [5] Nunna,

*Nonna, Nic. Helvad in Martyrolog. 28. Febr. scribit:*

---

1) vantar í C. 2) hlut, C. 3) meiri, A. 4) vantar í B og C. 5) vantar í B og C.

„*Nonna* er et ægyptisk Ord, og tyder saa meget som *casta* paa Latin, *dedicata virgo*". Erasm. Rotterod. *de Copia Verborum sub commate „Peregrina": „Nonnus et Nonna pro sancto et sancta, quæ vocabula sunt Ægyptiorum, quod olim illic monachorum examina sanctimoniæ nomine commendarentur"*.

## Óðal, óðall.

*(Fragmentum).*

*Quod quis* autt, ótt *antea nemini possessum occupavit, ac occupatum deinceps possedit,* aðall, aðili, *vel* aðalmaður, ɔ: *primus vel auctor factus culturæ tum primum occupati agri, antea ab omni ævo vacui, et in solitudine jacentis, erectorumque ibi ædificiorum structor, ac finium occupatione descriptorum dominus, quos proinde occupationis jure possessos suis posteris reliquit, qui et idem porro territorium possederunt, et occupatoris sedem* óðal, aðalból, höfuðból, *vacuum occupatum ex solitudine cultum,* ɔ: *principem domum (instar metropoleos) ut primatum obtinentem coluerunt,* aðalsmenn, *auctoris culturæ progenies, ac totius familiæ primates, adjacentiumque intra occupatos terminos agrorum et villarum domini et* óðalsmenn, ɔ: *a vacui tempore justi possessores dicti habitique, hoc ipsum ad natos in eadem occupationis jura nepotes paternum avitumque soli agrique dominium propagarunt. Hæc origo vocis* óðal, óðalsmenn, aðall og aðalsmenn *nobis authentica est, quoadusque veriora docemur.* Hávamál p. m. 24.: „*Fimbulfambi* heitir sá, er fátt kann segja, það er ósnoturs aðal. Af aldöðli; þessi *ablativus* er af „óðall", og sá *nominativus* er *antiquissimus,* eins og „hagall", „vaðall", etc. Þú hefir verið meðall til þess. Árrisull, hússgaungull, víðförull, fáförull, fetill, betill, góubeitlar. Hèr heyrir inn að tala um óðals kapítula, sem Kristjáns fjórða brèf 1622 talar um eptir undirrètting landsmanna. *Vide notas Antonii Thysii in Just. in lib. 2. cap. 1.*

## [1] Óðal.

Magn. kon. brèf: *Þá hæfir honum at skoða um óðul sín ok annara manna, at hann haldi engra manna óðulum, með*

1) vantar i C.

*lögum sóktum, ok kunni sjálfs síns óðulum með lögum að brigða.*

Kristindb. 3. *Hvert þeir mistu fleiri óðala sinna.*

Mannh. 4. *Hafi fyrirgjört fè ok friði, landi ok lausum eyri ok jafnvel óðalsjörðum.*

1. Erfð. *þau óðul, sem meiri eru, etc.*

Óðal hefir þar af nafn dregið, að auð aldeilis eignuðust þeir löndin, er fyrstir bygðu. Auðn heitir óbygt land, autt land, þegar hinir fyrstu menn í hvert land komið hafa, og sèr bólstaði tekið. Heita því þeir bólstaðir óðal eður auðal[1], óðul eður auðul, að þau auð aldeilis, auð með öllu, alauð komu í eign þeirra, er fyrstir numu, þ. e. tóku þá auðn sèr til eignarhalds. Af sama uppruna eru orðin hjá oss í almennilegu tali: auðfengið, auðfundið, auðgert, auðnæmt, auðnumið, auðsèð, auðsókt, auðvelt, hverjum gagnstæð eru: torfengið, torfært, tornæmt, torsókt, torvelt. Það auða mátti erviðislaust taka, en hitt torveldlega, það er með erviði. En skyldsemi bóktsafanna *ó in* óðal og *au in* autt, auðæfi og ótal öðrum orðum, er öllum svo kunnug, að hana efar enginn. Svo er nafnið Óðinn og Auðunn allt hið sama, sem bæði sýnir Snorri Sturluson og Edda. Meðkenna það og hálærðir menn í öðrum löndum, að óðal og *allodium,* það er eigin eign að lángfeðga eignum, erfðum fengin, *vide Jac. Ritteri Jus feudale cap. 3. § 3. p. 28.,* sèu sömu ættar og uppruna, svo velsem að bæði sèu í náskyldsemi við orðið „auður“, *substantivum,* þá það merkir „auðæfi“, góz og peninga. En eg vil gjarnan læra, hvaðan auður, fyrir ríkdóm, góz og garða, hafi sitt nafn annarstaðar af dregið, en af þeim stóreignum og óðulum, sem þeir skömtuðu sèr sjálfir, og settust í opin og alauð lönd, og þar eignuðust óðulin auð með öllu og allskonar landgæði opin og öndverð fyrir ekkert. Og nú vona eg þeirra samþykki og sannsýni muni mínum óðalsrökum og uppruna samsinna.

[2] Um orðið „lendur maður“ hefi eg margt það skrifað, sem híngað lúti og styrkja megi þessa sögu mína. Nú af því, þegar fram liðu stundir, eitt hundrað ára eptir annað, gátu menn ekki minni til alls slíks rekið; þókti mönnum þó alltíð við það loða nokkur sæmd, að mega með rèttu teljast óðalsborinn, það er, að vera skilgetið afkvæmi þeirra, sem óð-

---

1) vantar í B. 2) § 2, B.

ulin höfðu numið, og eiga svo rètt til að halda þeim, eður leysa til sín, ef úrættis gengin voru; þá hafa konúngarnir framan eptir öldunum, einir eptir aðra, skipað í lögum, hvað lángt fram menn skyldu rekja sinn rètt til óðalanna, og þar að auki sett í lögin fleiri röksemdir, sem skyldu gilda lögmætan óðalsrètt, heldur en þann einn, að hafa óðulin að erfðum tekið eptir sitt foreldri. En þótt sögurnar geti þess ýmislega, svo sem eg hefi skrifað um „lendur maður", þá vil eg það ei *repetera*, fremur en svo sem lögbækur skýra, þær eð Noregs konúngar hafa þar gefið, og síðan vorir Danmerkur og Noregs konúngar umbætt hafa. En þótt eg verði undir eins að játa fátækt mína á þeim [gömlu] norsku lögbókum, hefi eg enga þeirra, þá sem eldri sè en Gulaþíngsbók þeirra Magnúsar konúngs og Ólafs konúngs, sem eg ætla sè Ólafur kyrri, hann andaðis *annó 1093*, og Magnús konúngur, son Erlíngs skakka. Hún segir svo í óðalsbrigðum: „Nú skal þær jarðir telja, að óðilum skuli fylgja. Sú er ein, er afi hefir afa leift[1]. Sú er önnur, er goldin er í mannsgjöld. Sú er hin þriðja, er í branderfð var tekin. Sú er hin fjórða, er í heit launað er. Sú er hin fimta, er drykkjulaun er, ef hann þiggur af kóngi. Sètta barnfósturslaun, hverr sem gefur. Sjöunda, ef maður skiptir óðalsjörðu sinni í aðra jörð, þær skulu óðilum fylgja, allar þær, er í óðalsskipti hafa komið með bræðrum og með frændum þeim, allar aðrar aurum".

[2] Hèr sjáum vèr sjö greinir óðalanna; en þeim til undirvísunar, sem það ei áður vita, vil eg segja, að branderfð sú, er hèr nefnir, er í sömu bókar erfðatali hin sextánda: „að maður tekur mann á hönd sèr að ljúfu og að leiðu, og fæðir hann til brands og til báls, kveður að fornu máli", segir þar. Ætla eg þetta tala um fósturbarn það, er maður líður með ljúft og leitt, inn til þess að fósturbarn andast; en það er brand nefnir og bál, skil eg að vera ættað frá bruna-öld, þá brend voru lík manna. Eg veit ei, hvort nokkrir vilja skilja það, er brand nefnir, megi kannske tala um karlmann þann, er svo er þroskaður, að hann geti borið brand í hendi, það er vopn og herklæði í orustum. Það hèr nefnir heiðlaun, er efalaust málagjöf af konúngi; því máli, sem konúngar gefa, heitir heiðfè í Eddu. Drykkjulaun eru veizlulaun af konúngi þegin. Það hèr stendur síðast: „allar aðrar aurum", merkir allskonar jarð-

1) leidt, B. 2) § 3, B.

góz, annað en nú var talið, sè fráskilið óðalsrètti, og reiknist með lausafè, það heita hèr aurar, eins og í vorum Lbr. 2. kap.: „Nú vill hann ei við aurum taka", *vide nostrum* „eyrir". Þessi lögbók gjörir löghefðina, þá sem óðalsrètt megi skapa, allt frá sjötta manni til sjötta manns, og lætur það heita nóg til að eigna þeim óðalborinna rètt, þótt ei yrði skil fyrir gjörð, hvernin hinn fyrsti var að því gózi kominn; en eigi ákveður hún aldur þessara 6 feðga, kynni það þó að muna meir en litlu. Mèr þykir ei ólíklega viðhorfa, það skyldi vera að minnsta kosti tólfrætt hundrað ára, og eru þá 20 ár ætluð hverjum; það getur varla [ skemri stund [1] verið.

[2] Þessu næst tel eg Frostaþíngsbók Hákonar konúngs Hákonarsonar, hún er gjörð eitthvað [ millum 1220 og 1240 [3]. Hann hefir skapað óðalshefðina tveim liðum styttri. Þar segir: „Engum manni verður jörð að óðali, fyrr en þrír lángfeðgar hafa átt, og kemur undir hinn fjórða samfleytt. Nú kynni það enn að vera, að til þessa þyrfti stórt hundrað ár, og því hafa Norðmenn látið sèr vænt um þykja Rèttarb. Magnúsar konúngs lagabætis í hans NL· Lbr. 2. kap.: „Nú skal þær jarðir telja, er óðali skulu fylgja. Sú er ein, er vottar í rèttarbótum herra Magnús konúngs hins kórónaða, er hann gaf öllum Noregsmönnum, að ef jörð liggur 60 vetra eður lengur undir sömu lángfeðgum, þá verður þeim, er hefir [4], sú jörð að óðali, svo að þá má eigi undan þeim brigða. Sú er önnur, ef maður þiggur af konúngi, nema hann hafi með öðru skilorði gefið. Sú er hin þriðja, er þrír lángfeðgar hafa átt, og kemur undir hinn fjórða samfleytt. Sú er hin fjórða, er menn skipta óðalsjörðum sínum, en ei óðulum annara manna, og verði það þá hvers óðal, er í það skipti fær". Þetta er skrifað eptir hans Frostaþíngsbók. Allt er hið sama, það er hans Gulaþíngs og Heiðsivjaþíngsbækur segja: „Undir sama ættlegg 60 vetur eður lengur". Þessar norsku lögbækur Magnúsar kóngs allar sameiginlega í þeirra Lbr. 16. segja: „Nú finnur maður fólgið fè, hafi konúngur þriðjúng, og sá þriðjúng, er til hauga-óðals á að telja, og sá þriðjúng, er finnur, ef hann heldur uppi að lögum; eigi hálft konúngur en hálft óðalsmenn, ef eigi er að lögum lýst. En ef eigi er sá til, er til hauga-óðals á að telja, þá eignist sá jörð, er á þann þriðjúng. Ef maður hittir fè í

1) skemra, B. 2) § 4, B. 3) hèrum — eður, B. 4) hófst, A.

óðalsjörðu sinni, hafi hann tvo hluti, en kóngur þriðjúng. En ef sá maður hittir fè í jörðu sinni, er eigi er óðalsmaður, hafi hálft, en kóngur hálft". Þetta gjörir sýnilegt, að nafnið „hauga-óðal" meinar þá öld heiðinna tíða, er siður var að heygja dauða menn, viðlíkt sem hin forna Gulaþb. um branderfðina víkur á fornmæli [1] þau, er geta bruna-aldar, sem fyrr er sagt, en hún var næst [2] fyrir hauga-öld, sem Snorri Sturluson vottar. En þegar þessi kapítuli er með aðgætni hugleiddur, er það að sönnu af honum ljóst, að óðalsjarðir greinir hann skýrlega frá öðrum jörðum; en eigi þykist eg af honum skilja kunna, að hann gjöri mismun á hauga-óðulum og öðrum óðalsjörðum, þeim sem áður eru til óðalsrèttar ánefndar, og ætla það sannast, að þótt hèr standi sú gamla glósa, hauga-óðal, muni þar með skiljast eiga þær allar jarðir, sem áður hefir hún í 2. kap. greint að óðal heita skuli. Og hèr við bleif nú óðalsrèttur og óðalshefð allt til 1604, að sál. kóngur Kristján fjórði endurbætti þær lögbækur Norðmanna, sem Magnús kóngur lagabætir hafði gefið þeim annó 1274. Er það sýnilegt af öllum bókunum, að Norðmönnum hefir þókt óðalshefðar rèttar aðdrögin of laung, og þar fyrir með sínum auðmjúklegum bænastað öðlazt af kónginum þá náð, að nú urðu þau enn stytt til helmínga, en þeirra rèttur aukinn að helmíngi, svo að nú skipaði hann, það skyldi óðal heita, sem legið hafði undir einn ættlegg í 30 ár eður lengur, eður tveir af foreldrum nokkurs átt hefðu, og nú væri komið í þriðja lið um 30 ár alls, en hitt lèt hann blífa við Magnúsar kon-úngs lög, *vide* Kristjáns fjórða NL. Lbr. 1. kap.

Hèðan er það, sem Chr. Ostersen í hans *glossario* talar um óðal, pag. 582., löghefð pag. 347. Hans *fundamenta* í þessu taka ekki lengra en svo. Sá góður maður hefir ekki í höndum haft mörg merkileg gömul áhöld af norskum lögum. Hvað um óðalsrètt hèr í landi sè að tala, vil eg skrifa það fáorðast, að í öllum Lbrþ. í Grágás er hans aldrei getið, og er það augljós vottur, að eigi skyldu [3] fornmenn vorir hann í lögum hafa, þá stund þeir voru sínir eigin herrar; og allmisjafnt er í sögunum, að þeir hèldi sèr [4] mjög fast við óðöl sín, nema stöku stórættir; en á goðorðum voru þeir hálfu fastheldnari, og fóru þau þó

1) fornyrði, B. 2) vantar í B. 3) vildu, al. 4) sig, A.

laungum úrættis með ýmsu móti, *vide* þíngfararkaup. Strax sem landið var komið undir kóng, kom hèr inn lögbók Hákonar kóngs, sem vèr köllum Hákonarbók, en sumir hafa kallað Járnsíðu; færði hún með sèr óðalsjarða nafnið, svo það er af henni sýnilegt, að hún ætlar til, mismunur skuli vera á óðalsjörðum, og öðruvísi tilkomnu jarðagózi. Þó er hún um það mjög fáorð, og byrjar Landabrigði sín, eins og [eptir á[1] gjörði Jónsbók. Er það mjög óskýrt í þessari Hákonarbók, hvað um óðalsrètt halda skuli, og meztöll hennar landabrigði standa orðrètt í vorum Landabrigðum.

[2] Nú varaði þessi bók hèr á landinu í 17 ár alleina, til þess að Jónsbók innkom, og kann eg engar sögur, að á þeim 17 árum hafi hèr á landi neinar óðalsþrætur með lögum sóktar eður dæmdar verið. Nú er það kunnugt, að Jónsbók nefnir óðal í þeim öllum greinum, sem eg hefi hèr að upphafi minnzt, og þar að auki síðast í fjórðu erfð í þeim prentuðu lögbókum, með þeirri *nóta,* að sumar bækur hafi eigi þá grein. Eg vil meðkenna, að eg eigi minnist mig hafa sèð þá lögbók fyrir *Reformationem* skrifaða, [sem þá grein hafi. Eru nú mèr í höndum 5 lögbækur ágætrar elli, að vísu 300 ára, og 4 aðrar gamlar bækur, skrifaðar fyrir *Reformationem,* eflaust fyrir 1500. Í engri þessara 9 stendur sú grein, og enn þá ekki á einni þeirri pergamentsbók, sem eg á skrifaða eptir *Reformationem,* líkast um það skeið, sem lögbókin var fyrst prentuð; en 2 kálfskinnsbækur, sem eg hefi, eptir *Reformationem* skrifaðar[3] þær hafa þessa grein, eins og hinar prentuðu. [4] Nú verður því ei neitað, að í Magnúsar lagabætis Frostaþíngs, Gulaþíngs og Heiðsævisþíngslögum öllum stendur þessi grein síðast við hina fjórðu erfð, og þaðan er hún í Kristjáns fjórða norsku lögbækur þriðju erfð innkomin. Hvað er þá hèr til að segja annað en það, að greinin muni kunna[5] í hinni fyrstu Magnúsar konúngs lögbók staðið hafa *annó 1280*, það sýna norsku lögbækurnar; en að vorir landsmenn flestir allir að vísu muni ei hafa viljað við henni taka, og þar fyrir sè hún úr þeim afgömlu lögbókum útilátin, því að landsmenn vorir hafi viljað láta jarðagóz allt, hvert sem það var tilfengið að erfðum, kaupi eður gjöf, jafnan rètt eiga, eins á meðan að gilti rèttarbót Hákonar kóngs, sem menn hafa kallað Möðruvalla rèttarbót

1) síðan, B. 2) § 5, B. 3) frá [vantar í A og seinna innsett í B. 4) § 6, B. 5) sannlega, B.

og dateruð er 1313, svo sem áður og síðar, eins og fastar eignir allar hafi menn hèr óðul kallað, með hverjum rètti sem þær voru tilkomnar. Þar af hafa deilurnar orsakazt hèr á landi um Hákonar konúngs rèttarbót næst áður nefnda, að sumir vildu, en sumir ekki vildu jarðagóz úr móðurætt barns fallið undir föður, eður úr föðurætt barns [ fallið undir[1] móður, skyldi festast lengur undir þann ættlegginn, sem ei var það frá komið, heldur en um föður eða móður tíð alleina. Og átti þetta að vísu hèr að gilda, frá því Kristján annar annó 1507 útgaf sína fororðníng, inn til þess vor allranáðugasti kóngur nú regjerandi gjörði þar á nýa skipun annó 1711. Svo að eigi get eg af öllu þessu undanförnu *concluderað,* að vorir landsmenn hafi mismun gjört á föstum eignum, hversu lengi þær hefðu fyrr undir þann ættlegg legið, nema alleina hvað höfuðból snertir 1. erfð, og rèttarb. Eiríks konúngs um arfarètt sona og sonasona til höfuðbóls.

[2] Hvað eg skuli tala um það, er menn margtítt kalla hèr óðals kapítula, þyki mèr mjög ískyggilegt; eg hefi það víða sèð á pappír, en aldrei á pergamenti, nema í alls einni bók, sem skrifuð er að vísu laungu eptir *Reformationem;* og þó stendur það þar á því blaði, sem næst er saurblaðinu allra síðast í bókinni með þessari yfirskript: „Þenna kapítula vantar í Landab. 7. kap“. Opt hefi eg um þenna kapítula talað við assessor Árna Magnússon, og hefir hann mèr sagt, að aldrei hafi hann þann kapítula á pergamenti lesið, fyrr en á hèr nefndri minni bók; og eptir henni hefir hann látið útskrifa, alleina vegna þess að á því eina pergaments-blaði[3] hefði sá kapítuli fyrir hann borið; veit eg ekki annan mann, þann er fleiri pergamentsbækur eigi af vorri lögbók, heldur en hann, margar góðar merkilega. Hvar af skyldi þá komið, að hann hefði þann kapítula aldrei á pergamenti sèð, fyrr en hjá mèr? Skuli það vera rètt, sem menn tala um þenna kapítula, að hann sè meintur í Kristjáns fjórða brèfum 1622 og 1646, að vanti í vora lögbók, þá er víst furða, að hann skal svo sjaldan á pergamenti finnast. Það er gátulaust, að eigi stendur hann í Frostaþíngs, Gulaþíngs nè Heiðsævisþíngs lögum Magnúsar konúngs lagabætis, og enga á hann skyldsemi við þær. Allt hans orðatiltæki virðist mèr nýlegt, og engin hefi eg þau lög

---

1) til, B. 2) § 7, B. 3) brèfi, B.

sèð, að hann sè samkvæmur. Þeir sem útvegað hafa konúngsins brèf 1622, hverjir sem voru, ábyrgist um, ef þeir hafa sagt konúnglegri majestet, að sá kapítuli hafi lög verið í Noregs konúngsríki eður hèr á landi. Eg vil ei fleira þar um skrifa; en síðan bæði konúngsins brèf 1622 og 1646 eru til vor komin, þá er vor undirdánugasta skylda þeim að hlýðnast, svo sem vèr og gjört höfum, jafnvel þó vèr bæði höfum lesið og skilið hinn forna óðalsrètt Norðmanna, svo sem nú er hann fyrir sjónir leiddur.

[1] Eptir allt þetta, síðan að konúngs Kristjáns fimta, háloflegrar minníngar, norsku lög útgengu annó 1687, þá þurfum vèr ei gruflandi eptir að gánga, hversu hans konúngleg majestet hefir, enn þá fremur en hans sálaði herra föðurfaðir Kristján fjórði, aukið óðalsrèttinn í sinna NL. 5—3—1. 2. 3, og það allt hið sama upp aptur staðfest, útskýrt og með konúnglegri náð í ljósari skorður sett í, sömu bókar kap. 5., öllum 7 artt., að nú verður óðalsrèttur og lögleg óðalshefð 20 ára tími, með slíkum skilorðum, sem hèr nefndur hefðar kapítuli fyrirskipar.

[2] Sá athugi, sem þar af kynni rísa, að dómarar hèr á landi hafa svarið konúnginum eptir þessa lands lögum að dæma, og konúngurinn þeim svo befalað, er þá læknaður ef þeir vita það, sem nú hefi eg svo margort[3] um talað, að engin sèu þessu landi gefin konúngleg lög um óðalsrètt og löghefð, önnur en nú eru töld, og því höldum vèr slíka 20 ára hefð fyrir löghefð, svo vel til óðalsrèttar, sem annara hluta, enn sem komið er, þar eð hann[4] hefir hjá oss, síðan vèr komum undir konúnglegt vald 1262, skrikað á slíkum fótum upp og niður, svo að vèr höfum ekkert víst haft[5] á að halda þar um í vorri landslagabók, fremur en það sem stendur í niðurlagi vors Landslb. 26. kap. um 20 vetur eður lengur átölulaust, og það hefir svo lengi stuðzt við orð *recessins* Kristjáns þriðja art. 50, sem öllu ber saman, jafnvel þó sá sálugi herra Kristján þriðji gjörði þá fororðníng fyrir Danmerkur ríki, sem að var stór hagur vorum Landsleigubálki, er sèr átti víst í Danmörku dóm að líða.

## [6] Óðalborinn.

*Primorum occupatorum prognatus, natus in jura occu-*

---

1) § 8, B. 2) § 9, B. 3) opt, A. margopt, B. al. margort, 4) al. hún. 5) vantar í B. 6) vantar í B og C.

*pationis de vacuo*, sem enginn hefir land numið frá öndverðu, *cum in istiusmodi occupatione quædam imago sit, et plus quam umbra primi parentis Adami in vacuam totius orbis possessionem a deo immissi, cujus ineffabilis dei benignitatis memoria etsi primum obfuscata ac tandem exstincta fuerit apud posteros, verisimile tamen est, diutinam ejus memoriam in complures progenies dimanasse, lateque per orbem fuisse celebratam, cumque maneret illa superstite penes ejus memores occupatores occupationis gloria, atque perpetuatione illa gloria radices ageret, mansit honos occupantium propagatus, etiamsi creatoris memoriam impietas deleverat.*

## [1] Óknytti.

Mannh. 2. *þeir menn, er at slíkum óknyttum verða fundnir*[2], *at þeir hlaupa burt með eiginkonur manna.*
Farml. 14. *Ef Noregskonúngs menn berjast, eður gjöra aðra óknytti.*

Hvað Björn á Skarðsá hefir skrifað um „óknytti", lasta eg ei. Hann vill draga það af „nýtur" eður[3] „ónýtur", og kalla „ónýt verk". Satt er það, að Hafliði Másson í Sturl. *lib. 1. cap. 8.* kvað Már Bergþórsson, bróðurson sinn, lengi hafa verið ónytjúng, það var, þegar Hafliði spurði, að Már hafði vegið Kneiti bónda í Ávík á Ströndum, þíngmann Hafliða. *Item* sama þætti Sturl. 14. kap., þegar Hafliði gaf öxina Grími frá Múla í Saurbæ (þeim er á eptir vo Ólaf[4] Hildisson), mælti Hafliði við Grím: „Eigi vil eg eggja þig fram til ónýtra hluta. Satt er það, að hvorki þetta víg var minna en skóggángssök, þó efa eg, að „óknytti" hafi þann uppruna, sem Björn þeim eignar

[5] Hitt segi[6] eg, að allmörg orð vorrar túngu hafa það ættarmark, að þar sem *simplex* eður ósamsett eru *masculina* eður *feminina* (karlkend eður kvennkend orð), þar eru *composita neutrius generis.* Svo er „maður" afmenni, „hvalur" íllhveli, „drós" ódræsi, „vættur", óvætti, „dáð" ódæði". Sum halda kenníngunni, en skipta þó meiníngunni til ílls, með því að breyta niðurlaginu upp á *i*, eður auka *i* við sitt fyrra niðurlag, svo sem: „hlutur" óhluti, „ráð" íllræði, „tó" ótæti.

---

1) vantar í C. 2) kendir, B. 3) og, B. 4) Máf, B. 5) § 2. B. 6) sè, B.

[1] Það er og kunnugt öllum, að knöttur heitir í leik, það er menn hentu og köstuðu sín í millum, og ætla eg það væri jafnan trèknöttur; eg veit ekki, hvort hann hefir verið yfirklæddur með skinnum, og stoppað hár undir af hestum eður nautum[2]. Sýnist mèr, sem þaðan muni dregið „óknýtti", *neutr. sing.*, þegar einhver illmenni hafa í staðinn [ þess rètta knattar[3] tekið og haft í leikinn eitthvað skaðvænlegt, járnknött eður steinknött, [ og þaðan mætti kominn orðskviðurinn „að hafa grjótið í gamninu[4]. Svo sem nú þvílíkt tiltækis verkfæri[5]. heitir að slíkum rökum óknytti [ svo ætla eg[6], að *per metonymiam efficientis pro effecto* hafi kölluð verið óknytti *in plurali* íllverk þau, er með slíkum vondskap framin voru, og síðan hafi sami *tropus amplificeraður* verið til allskonar merkilegra skálkapara, *ratione synecdoches speciei pro genere.* Sýnir Mannhelgi það, að ekki eru [ að eins smá íllvirki meint[7] með óknytta nafni, eður hverr mundi glæpur stór heita, ef sá væri lítill, að hlaupa í burt með eiginkonur manna? En við það má ei dyljast, að svo sem góðir menn hafa skemtan[8] af sæmilegum íþróttum, knattleik svo vel sem öðru, svo hafa og vondir menn gleði sína og unan af stórglæpum, þegar þeir eru orðnir þeim að vana.

[9] Knyttilegt högg og snoppúng kalla menn enn í dag, það er ósnýkilega þykir tilslegið.

[10] „Smáknytti" nefna menn og almennilega það, sem öðru nafni eru „pilta-pör" kölluð, og heldur þykir glettleikur með fylgja, þótt eigi nemi þau ógjörníngs nafni. Get eg eigi skilið, að þetta smáknytta heiti sè dregið af „nýtur" eður ónýtur, sem Björn vill um „óknytti" segja, en það veit eg, að „smáknytti" og „óknytti" eru sömu ættkvíslar, að orðsins uppruna, og orðið"[11] knyttóttur" er, og í málinu enn eru á meðal almennings sömu merkíngar, sem „pöróttur", það er „glettleikinn", hrekkjóttur[12], og kann eg eigi að sjá, að „knyttóttur" muni við „nýtur" skylt eiga; en að „knyttóttur" sè í ætt við „óknytti", get eg eigi leidt í efa.

[13] Svo skilst mèr þá, að „smáknýtti" sèu þau brögð gletti-

---

1) § 3, B. 2) nauta-húðum, B. 3) knattarins þess rètta, B. 4) frá [ vantar í A. 5) verkfæris tiltæki, A. 6) frá [ vantar í A. 7) alleina merkt, A. 8) lyst, B og C. 9) § 5, B. 10) § 6, B. 11) § 7 í A og B byrjar svo: knyttóttr er og til enn nú í málinu. 12) hrykkjóttur, B. 13) § 8, B.

verka, er sambjóði gráglettum þeirra, er með rèttan knött í knattleik óþyrmilega fara, og svífast ei svo til að slá, að ílla komi við, en hafa þó ekki „grjótið í gamninu", það er: þeir hafa ekki tekið knattaskipti, og ekki brugðið járni nè steinum fyrir sig í leikinn, í stað hins rètta knattar. En þó koma til „óknýtti", þegar þeir af íllmennsku taka skaðvæn[1] efni eður verkfæri, og fleygja þeim að mönnum með ásetníngi til að skaða þann þeir leika við, sem áður er um talað.

[2] Svo segir Grettissaga:

Hörð frá eg heldur að yrði
hervopn at Rifskerjum,
mest því at margir lustu
menn slippir hvalklippum.
En málmgautar móti
mjög fast hafa kastat
(oss lízt ýman þessi
óknyttin) þvest[3] - slittum

Hval-klippi eru kölluð enn í dag á Vestfjörðum, það sama sem aðrir kalla litlar[4] þjósir "*pro*" „fjósir". Hèr er nú til sýnis óknyttinn *adjectivum*, og svo kveðið að bardaga þeim, er menn börðust með hval-klippum og þvestis slittum í staðinn rèttra fólkvopna. Segir kapítulinn fyrir framan, að barizt var með öllu því er til fèkkst, og einn var lostinn [í hel[5] með hvalrifi; því kann eg ei betur að skilja, en allt þetta vitni mína ráðníng áður sagða um óknytti rètta að vera.

Því verður eigi neitað, að þar sem vor bók og Frostaþíngsbók hafa í Mannh. 2. „óknytti", þar segir Heiðsivjaþíngsbók: „þeir menn, er að slíkum ónýtum lutum verða fundnir[6] að þeir laupa brott með eiginkonur manna". Svo les *membrana* assessors Árna Magnússonar frá Sigurði lögmanni, og eins mitt exemplar frá Holti í Önundarfirði eptir sèra Jón Jónsson. En eg ætla þetta vera *glossam exscriptoris*, sem það hafi hèr sett eptir sínum skilníngi í staðinn fyrir „óknytti", sem eptir mínum fimm ágætum *membranis* og sex öðrum pergamentis bókum á að vera „óknytti" eður „úknytti".

## [7] Ónytjúngur

Heitir sá er vinnur óþarfa, það er vond verk, sem óunn-

1) slagvæn, A. 2) § 9, B. 3) þver, A. 4) litlir, B. 5) frá [ vantar í A. 6) kendir, B. 7) vantar í B og C.

in skyldu vera og öðrum falla illa. *Vid.* Sturl. *lib. 1. ca p. 8.*

## [1] Orlendis.

Mannh. 8. *En ef fè er eytt og verði hinn óði heill, þá fari hann orlendis.*

Svo lesa Staðarfells *membrana* assessors Magnússonar, *item* mín frá Leirárgörðum, svo Frosta og Gulaþíngsbækur Magnúsar konúngs. *Membrana* frá Arnarbæli segir „orlandi", en mín gamla *membrana* frá Bólúngarvík og önnur af Snæfellsnesi lesa „erlendis". Það er ekki vert að andsvara heimsku þeirri, er nokkrir sèrvitríngar láta til sín heyra, að „erlendis" skuli hèr merkja „erlandi" = á erli verandi, ráfandi á kirkjur eða til helgra staða, og sè dregið af „erli" eður ónæði sífeldu, er á þeim manni skal liggja fyrir slis það, er hann henti manndráp í æðinu, því að óvizka sú er á engum rökum bygð, og sýnir það eitt skilmerkilega, að þeir, sem babba slíkt, hafi lítið lesið. Glósan „erlendis" er svo tíð í Grágás, að stórerviði væri að telja, og merkir allstaðar „úr landi", eður „utanlands". Eins merkir hún í Statútu Gizurar biskups annó 1096 um tíundargjörð í *apographo* Staðarfells *membranæ.* Þar segir: „En ef vöxtu ber undir mann af fè þess, sem orlendis er". Og svo menn dragi þar af allan efa, að hèr í vorrar Mannh. 8. á það að skiljast „úr landi", þá lesi menn Frostaþíngsbók Hákonar konúngs hèr um. Hún segir með skýrum orðum, kap. 31. „Ef maður verður óður, svo að hann brýzt úr böndum, og verður hann mannsbani, hann skal fara af landi", þar sem Hákonarbók híngað gefin segir „orlendis". Og þar sem Statúta Gizurar biskups áður nefnd á *membrana* frá Arnarbæli segir: „þótt það sè í görðum erlendis", þar segir Kristinrèttur Jóns erkibiskups og Staða-Árna biskups á sömu *membrana:* „Þó at hann eigi . . . eður garða utanlands".

## Orkneyar, Orcades.

Farml. 8. *Orkneyum eður Dýflinni.*

Nihil hic difficultatis est, quod officere possit veram juris nostri sententiam indaganti, norunt enim omnes, Orcadas intel-

1) vantar í B og C.

ligi insulas ad septemtrionem Scotiæ sitas, et forte nonnihil hypicorum versus aut boreæ lybicum. Sed video celeberrimum virum, Georg. Buchananum Hist. Scot. lib. 1., etymon vocis desiderare. Scribit enim de Orcadibus: „Harum de nomine inter scriptores veteres et recentiores satis convenit, rationem autem nominis nemo, quod adhuc sciam, explicavit". Ex mox: „Si ex sermone conjecturam faciemus, et olim et nunc quoque gothica lingua utuntur, prout hæc Thormodus Torfæus Orcadum suarum lib. 1. cap. 1. p. 1. exscripsit". Et paulo infra eodem libro et capite pag. 4., rejecta Cambdani sententia, quem Orcadas quasi „Argath" dictas, idque quasi supra Gothas interpretatum refert Thormodus, orginem nominis veriorem quæsiturus, cum, inquit, constet indigenas insularum ab antiquissima memoria gothica lingua usos esse, ex eadem lingua ratio quoque nominis petenda erit, quæ etiam quærenti se ultro offert. Fit nempe in hac historia mentio sive villæ sive monumenti, quod *Orka-haugur*, ɔ: tumulus Orchii sive Orcadis adpellatur, forte quod insularum eponymus loco etiam sepulcri nomen de suo reliquerit. *Orka* lingua danica antiqua robur denotat, et hinc verbum *að orka* = posse, viribus pollere, illum ab hac radice nomen contraxisse, deque suo insulis indidisse, malo credere, quam eas id immediate hac significatione sortitas esse. Sed ut fidem nobilissimi viri nolim quidem in dubium vocare, fateor me non advertisse nomen loci *Orka-haugur* in comitum orcadensium historia, et optarem locum exscripsisset Torfæus, qui tamen nec ipsi sibi hoc etymo satis fecisse videtur, cum protinus subjicit: „Sed nec insularum natura notationem vocis *Örk* respuit, quod eremum significat, cum in vastissimo oceano tanquam eremo sparsæ sint, quas ritu Cycladum per oceanum dispersas Adamus Bremensis tradit. Fateor ego vocem *Örk* his temporibus Danis eremum significare; an vero vetus illa Danorum lingua, maximæ parti septemtrionis quondam patria ac communis, vocem *Örk* pro eremo agnoscat, testibus indiget, ego id non observavi; id vero quivis concedit celeberrimo viro, ex indigenarum lingua etymon esse deducendum. At

vero *Orka-haugur* ubi situs sit, nullis monstratur indiciis, nullis testibus, nec *Örk* pro eremo veteribus Danis usitatum probavit Torfæus, quod tamesti probasset, quis *Orkneyar* inde dictas crederet, quod per vastum oceanum sparsæ sint? Posceret nempe idiotismus linguæ veteris, *Arkar-eyar* dici ab *Örk*, non *Orkneyar*. Vereor igitur, sine dubio sententia est nobilissimi et doctissimi viri, nobisque faventissimi Arnæ Magnæi, antiquitatum danicarum in illustri Havniensium academia professoris antiquitatum peritissimi, qui me annis abhinc aliquot monuit, phocarnm quamdam speciem *Orkn* dici veteribus, quod se notasse retulit in tabulis ædis sacræ cujusdam: *Hún á orknadráp þar, etc.*, id est: illi (ædi sacræ) competit jus phocarum occidendarum in istis locis; hinc *Orkneyar* deducere volens, nomen templi excidit. Sed cum hæc monita observarentur memoria, offendi in historia Bernonis athletæ de *Hítardal* carmen hostis ejus Theodori Kolbeini filii, quo queritur se fuisse petulanti Bernonis carmiue læsum ob phocæ morsum, quo bestia femur Theodori vim inferentis vulneraverat. Versus Bernonis integer superest, phocam diserte nominans his verbis:

*Sár fèkk mörva mýgur*
*misleitur af selreitum.*

ɔ: Vulnus accepit a phoca saucia, qui pallidus intestinis adipe refertis immejit (sit honos auribus). Putida dicteria in hostem jactari fero; Theodori vero retorquentis dicterium, et casum excusantis versus mutilus est, reliquiæ tamen phocam evidenter *orkn* vocant:

*En höfunk orkn of skemdan*
*ár á mínu sári.*

Sed nos phocæ gravem plagam inflixinus, protinus ac illa me vulneravit.

Tertium argumentum suppeditat Speculum regale, phocarum species enumerans his verbis: *Þá er annað kyn, er orknselar heita, og verða þeir 5 álna lángir eður 6 álna, þeir lengstir verða"*, ɔ: Secunda phocarum species *orkn* dicitur longitudine ulnarum 5 aut 6 ad maximum. Hanc igitur

phocarum speciem *orkn* insulis nomen dedisse crediderim, adeoque *Orkneyar* verto phocarum insulas. Romani vero longo postea tempore originis pariter ac linguæ gothicæ ignari ex *Orkneyar* Orcades formarunt. Sed objicies forte, non esse frequentem in Orcadibus istam phocarum speciem. Respondeo: satis esse ibidem ab eponymo vel unum id genus individuum inventum esse, cum eponymus ille primum advenerit, quod ex infinitis exemplis planum est: *Kjalarnes, Álptanes, Hvaleyri, Hrútafjörður, Borðeyri, Kambnes, Dagverðarnes, Seltjarnarnes, Húnavatn,* quorum quodlibet ex uno saltem casu nomen obtinuit, et ab una quidem unius navis carina *Kjalarnes,* quam per fluctus procellosi maris ejectam in littus occupatores offenderunt; ab uno individuo, balena, *Hvaleyri* simili fato inventoribus obvio, cum primum adpellarent; olores plures fuere, a quibus *Álptanes,* et horum quidem omnium testis est *Landnáma;* Arietes, a quibus *Hrútafjörður,* et asserem seu tabulam ligneam, a qua *Borðeyri, Vatnsdæla* indicat. Pectinis deperditi, a quo *Kambnes,* et prandii, a quo *Dagverðarnes, Laxdæla* meminit. Phocam, a qua *Seltjarnarnes,* traditio prædicat; catulos ursinos, a quibus *Húnavatn, Vatnsdæla* transmisit ad posteritatem. Stultum foret omnium numerum inire velle, cum id genus infinita sint. Quid igitur mirum, si Orcades ab una saltem phoca nomen sortitæ sint? Phocarum vero quandam speciem *orkn* dici, tribus exemplis probavimus, quorum postremum eandem speciem satis dilucide depingit. Cum igitur *orkn* literam *n* habeat, non est, quod ad dialectum anglicam vel scoticam confugiat celeberrimus Thormodus, ut *Orcanay* vel *Orcanoy* horum temporum excuset, operis sui pag. 4., ne suæ derivationi ab *Orka-haug* et *Orka,* viri nomine, nomini sit obstaculo. Quid vero antiquissimis nostris historicis anglica vel scotica dialecto opus est, aut quibus tandem rationibus probatur, nos umquam a nativa sua dialecto in ejusmodi nominibus ad peregrinas deflexisse? Illi vero *Ari Fróði, Snorri Sturluson, Sturla Þórðarson* unanimi consensu scribunt *Orkneyar* numquam omissa littera *n*, sic *Laxdæla*, sic *Eyrbyggja*, sic *Egilsaga*, sic *Oddur og Gunn-*

*lögur múnkur* in *Ólafs sögu Tryggvasonar*, sic *Karl ábóti* in *Sverrissögu*, id quod nostræ thesi opitulatur, quam itaque pro vera habemus, donec meliora docemur. Sed posito, quod scribit Thormodus Orcad. lib. 1. cap. 2. pag. 7. Orcadas innotuisse annis ante Christum natum 385, cultasque ante Christi nativitatem 268, et concesso, linguam gothicam nomen Orcadibus indidisse, quod eadem pagina Thormodus asserit, ut et superius fecerat ejusdem libri cap. 4., non dissentiente Buchanano Hist. Scot. lib. 1.,uti Thormodus allegat, pag. op. 1., necessario fatendum est, aut linguam septemtrione propriam fuisse prius quam Odinus dux Asarum in hæc regna borealia infunderetur, aut infusionem illam Odini totidem ante nativitatem Christi annis contigisse, quot gothicæ linguæ cognitionem septemtrioni attribuere velis. Thormodus vero negat constantissime Serie Dynast. lib. 2. cap.2. pag. 106, pag. 113. et pag. 124., imo in Serie Dynastarum tota totus hoc agit, et fundamentum infallibile statuit, infusionem illam Asarum in hæc regna borealia exaltari non posse supra 90um annum ante Christi nativitatem, quæ diserte scripta legas Ser. Dyn. lib. 3. cap. 2. pag. 226., hanc fundamentalem thesin tam validis rationibus superstruxit, ut convelli eam posse vix crediderim. Quis autem facile hæc conciliabit, nomen Orcadum gothicum esse, Orcadas 385 annis ante Christi incarnationem cognitas, et 268 annis ante partum virginis cultas, Odinum 70 annis ante nativitatem Christi in Saxoniam et cetera orbis arctoi regna venisse? Odinum linguam gothicam primum invexisse, evidentibus sane scriptorum testimoniis non destituimur, Snorronis Sturlæsonii in Eddæ prologo et Rimbeglæ, quam ipse Thormodus advocat Ser. lib. 3. cap. 2. pag. 264., qui diserte docent gothicam linguam cum Asarum infusione invectam esse; Sturlæsonius his verbis: *þeirra túnga Asíamanna var eigin túnga um öll þessi lönd* (horum ex Asia profectorum lingua propria facta est his omnibus regionibus), quas, paucis interjectis, nominat Norvegiam, Sveciam, Daniam, Saxoniam, Angliam. Et Rimbegla: *Er það með sönnu að segja, að túngan kom með þeim norður híngað, er vèr köllum norræna, og gekk sú túnga*

*um Saxland, Danmörk, Svíþjóð, Noreg, og um nokkurn hluta Englands. Höfuðsmaður þessa fólks var Óðinn,* ɔ: ipso Thormodo interprete pag. 266.: vere autem traditur linguam, quam norvegicam appellamus, unacum illis in septemtrionem venisse, quæ lingua per Saxoniam, Daniam, Sveciam, Norvegiam et aliquam Angliæ partem se diffudit; hujus populi princeps fuit Odinus, quod etiam Thormodus non obscure fatetur Ser. lib. 2. cap. 4. pag. 128. „Mutationem", inquit, „ab hoc Odino invectam si accuratius inspexerimus, maximam eam variamque deprehendimus". Et mox: „nimirum quod novam linguam intulerit". Eamdem thesin non approbat modo, sed docet ac inculcat Stephanius in Saxonem p. m. 112. His undique pressus quid respondeam? Vix invenio ni si lectoris in Thormodi celeberrimum nomen benevolentia acceptare velit, quod equidem vere responderi persvasum habeo, nempe vetustissimam illam Orcadum memoriam scatere fabulis inter multa vera commixtis, quod antiquitatibus compluribus commune, ex quarum caligine difficulter erueris, quod tuto credas, et a falso discernere possis. Magna vero verisimilitudine creditur Orcadas simul cum Scotia habitata cognitas esse; an vero, simul ac cognitæ sunt, Orcadum nomen acceperint, Thormodus noster non expressit, idque non diserte negamus. Sint igitur cognitæ quidem Orcades quantocumque voles ante natum Christum tempore, sed alio certe nomine, quod penitus obsoletum ex hominum omni memoria sit, ex quo Gothi haud multo post Odini infusionem vetustissimos Orcadum incolas aut omnino deleverunt, aut crudeliter attritos in abjectissimam servitutem redegerunt. Ab his autem novis occupatoribus, qui veteres exciderant et everterant, funditur novum et inauditum prioribus nomen Orcadum Orcades accepisse statuimus, damnato ad æternam oblivionem veteri nomine. Nec exempla carent in hoc casu Orcades, cum eadem fata et Saxonia experta sit, et Svedia, per novos irruptores, oblitis antiquissimis nominibus. De Saxonibus testem Petrum Albinum Niveomontanum laudat Thormodus Ser. Dyn. lib. 2. cap. 2 pag. 111. De Svedia testis irrefragabilis Edda Snorronis

est, prout Codex regius nobis illud nobile monumentum conservavit. Sic enim Edda í *kenníngum*, ɔ: florum poeticorum copia: *Gotnar eru kallaðir af heiti konúngs þess, er Goti er nefndur, er Gotland er við kent. Hann var kallaður af nafni Óðins, og dregið af Gautr, nafni Óðins, en Svíþjóð af nafni Sviþris, það er og heiti Óðins*, ɔ: *Gotnar* (promiscua plebe præstantiores) viri dicuntur, denominatione ducta ex nomine proprio regis cujusdam, qui Goto *(Goti)* vocatus est, a quo et Gotlandia dicta, ex Odini nomine Gautus derivato vocabulo, Svedia vero de nomine Sviþrir, quod et Odini nomen est. Conf. Thorm. Ser. lib. 3. cap. 3. pag. 244., et in addendis pag. 497. Hic videmus, ut terrarum regnorumque prisca nomina plane evanuerint, novis majori gloria substitutis. Nec opinor quisquam crediderit Svediam, quæ nunc dicitur, anonymam fuisse ad Odini usque tempora. Eadem prorsus fortuna ignoratur, quid olim nominis habuerit Norvegia, prius quam celebratissimus ille Quenlandiæ Bothniæque regis filius Nor illam subjugavit, deletis aut in potestatem redactis antiquis possessoribus, datoque ad æternam laborum memoriam nomine, *Norvega* appellavit, id est Noris viam, quam emensus fuerat dum sororem Goam ante triennium raptu sublatam requirit, vid. Hist. Olai Tryggv. impressam lib. 1. cap. 175. et 176., ut et Origines norvegicas his consentientes. Deprehendes complura, quorum vetustissima nomina nominibus novis obscurata sunt, omni dehinc industriæ investigabilia. Idem Orcadibus accidisse nullus dubito, nec ambigo, quin vera Buchananus et Thormodus, magni nominis viri, collimarint statuentes vocem Orcades gothicæ originis esse, quam ab initio hujus commatis probabiliter indagasse videor, etsi primos conceptus solertia Arnæ Magnæi excitavit. Nihil vero nobis officit, quod post natum Christum Orcades Romanis in ore scriptisque fuerint, cum Gothorum vis et arma terrentis in morem se prius in septemtrionem infudissent, et ad instar æstus maris per tot florentissima regna late diffudissent. Sed nec sic quidem mederi possumus iis, quæ Thormodus ejusdem operis eadem 7. pagina scribit: „Verum“, inquit, „cum nomen insularum ante horum Saxonum

innkomu, þykist eg um það þriðja konúngsbréf nærri *demonstrative* ráða kunna, að þessi lögþíngisdómur sè genginn annaðhvort hið fyrsta ár, sem Jón Jónsson var lögmaður, eður ári næst þar eptir, 1575; og lesið hefi eg það brèf með eigin hendi Guðbrands biskups, og annað með eigin hendi Jóns lögmanns Sigurðssonar, er bæði kölluðu um uppruna gjaftollanna, að þeir hefði samþyktir verið til að umflýa smásekta tiltal, en þau brèf eru nú ei [mèr í höndum[1]; hafði eg þá ekki fengið í sinni, að skrifa um þessi fornyrði, og gaf því ekki gaum að *notera* ártal þeirra brèfa, nè *excerpera* þeirra *formalia.*

[2] Fyrir þessara svoleiðis uppsprottinna gjaftolla millikomu lögðust af þær sífeldu og endalausu klaganir sóknarmannanna, það er lènsmanna og umboðsmanna sýslumannanna og prófastanna, sem almúgann höfðu lángvarandi hrakið og þvíngað um alskonar smávæg afbrigði laga, en þriggja marka sektir, þjófnaðarmál og þau öll, sem stærri voru, tókust ei af heldur, en voru sókt sem að fornu, annaðhvort af málseigendum sjálfum, sýslumönnum eða umboðsmönnum þeirra, og svo hið sama prófköstum og umboðsmönnum þeirra, eður þeim, sem biskupar skipuðu þau erindi, og í Statútu Gizurar biskups eru með ýmsum atkvæðum við biskup kendir og sóknir af hans hálfu. Lesi menn þá ótal fornaldardóma, er hèr á landi flækjast um hendur manna; mig skal furða, ef eigi skal að minnsta kosti fimta hvert mál meðal þeirra vitna þetta svo ljóst og þreifanlegt, að menn megi báðar hendur á festa, og ekki er það hèr í landi [svo afgamalt[3], að fákunnugum sè talsmaður settur, nema í þeim *processum* alleinum, sem þeir konúnglegu *commissarii,* Friðrik Friis og Jörgen Wind, gjörðu hèr á landi anno 1618. Var það ei að undra, þó þeir, danskir menn, formeruðu sinn rèttargáng eptir dönskum lögum og *praxi,* sem þeir voru vanir, hversu sem sá *modus procedendi* var ólíkur vorum lögum og *praxi* hinna fornu tíða, sem þeir var alls ókunnug. En engin veit eg dæmi til, nð fyrr sè þess í vorum dómabókum getið nokkurstaðar (*nota* Oddeyrardóm), og ekki leiddu vorir landsmenn það í venju fyrr en mörgum árum síðar, einkanlega síðan anno 1683, að Heiðemann var hèr landfógeti. Hitt hefir frá aldöðli verið títt, að málseigendur hafa fengið sèr sjálfir umboðsmenn til allskonar mála varnar og soknar.

---

1) mèr í minnum, B. 2) § 27, B. 3) 60 ára gamalt, B.

Kann eg eigi að skilja, hvað nú vantar á fulla *demonstration*, að embætti sýslumanna hafi að fornu verið bæði að sækja málin (það er, að stefna þeim undir lög), og dæma þau öll, sem konúngsins eður þegnanna rèttur lægi nokkur við, og einhverr gaf sakir á, eptir því sem Mannh. 23. og Kaupab. 9. og 10. takmarka leyfi það eður skyldu. Svo meina eg og mig með skilmerkjum og rökum sýnt hafa, að öll hafi sömu verið lènsmannanna, sem öðru nafni hètu umboðsmenn eður sóknarmenn sýslumanna, verk og skylda, og enn í dag vara leifar þess um upptekt stórmæla, sem bygðarfleyg eru og rèttarbót Hákonar konúngs talar um, innfærð í þíngbókina 1695, og þar fyrir utan mörgum alkunnug að fornu og nýu.

[1] Ef að kannske nokkur vill mèr segja, það lènsmenn sèu sýslumennirnir sjálfir, því að í Farml. 14. stendur: „Sæki sá konúngs umboðsmaður, sem þar hefir lèn"; *item ibidem* litlu síðar: „Bæti þeim konúngs umboðsmönnum, sem þar hafa lèn yfir", þá svara eg: Hèr nefnir aldrei lènsmann, heldur lèn, það er konúngur hefir veitt sínum umboðsmönnum *immediate*. Þeir einir kölluðust [2] lènsmenn, er af sýslumönnum tóku [3] sinn myndugleika, hinir aldrei, það eg hefi getað aðgætt híngað til; en þótt svo væri, þá liggja þar til sömu svör, sem áður eru sögð um konúngs sóknara og sóknarmenn sýslumanna, umboðsmenn konúngs og sýslumanna umboðsmenn, og kemur þá sá [4] kapítuli allur [5] öllu því, sem hèr hefi eg um skrifað, merkilega til liðs og staðfestíngar, því hann skipar greinilega konúngs umboðsmönnum sókn á konúngsins rètti, en það verður ei efað, að þeir sjálfir voru [6] dómarar, sem rèttinda vald konúngs var í hendur fengið. Það á og hèr að marka, að þar sem hinar þryktu bækur nefna hèr „umboðsmann konúngs", þar hafa 6 mínar allra beztu og elztu *membranæ* „sýslumann konúngs" í báðum stöðum. Vilji nokkur segja, að konúngs sóknarar og umboðsmenn hètu þeir alleinir, sem höfðu *jurisdiction* að eins, en gjörðu konúngi sjálfum reikníng alls sakeyris, *vide* landstjórnarbrèf Hákonar konúngs 1302: „Allar sýslur köllum vèr undir oss", *etc.;* hèr til svara eg: Þá voru þeir þó samt bæði [7] sóknarar sakeyris og dómarar. En kannske menn segi: „lènsmenn og sóknarmenn sýslumanna gjörðu ei meir en stefndu", og látist draga það af rèttarbót Hákonar konúngs um mála-

1) § 28, B. 2) kallast, B. 3) taka, B. 4) þessi, B. 5) gjörvallur, B. 6) ei, add. A. 7) vantar í A.

rekstur handgenginna, þá svara eg: Árnesíngaskrá niðurbrýtur öll[1] þessi og *demonstrerar*, að þeir gjörðu sýslumannsverk, og voru bæði sóknarar að konúngs rètti og dómarar.

## Rèttur á sèr.

Mannh. 23. *Engan á kóngur rètt á þeim manni, sem engan á sjálfur á sèr.*

Ibid. 30. *Maður hverr fulltíða, sem gengur húsa á meðal og þiggur ölmusu, hann á engan rètt á sèr, þó hann sè nauðugur burt rekinn, meðan hann gengur á vonarvöl.*

Þjófab. 10. *Ef maður leggst undir fènað manns og drekkur, sá maður á engan rètt á sèr.* Í Þjófabálki leggur Járnsíða það til: *þó að menn berji hann eður taki klæði af honum.*

Vígsl. kap. 97. *Fellur sá óheilagur, er fè hefir tekið fyrir þeim manni, er fè það átti, er þjófstolið var á þeim vetvángi.* Samhljóða Jónsb.

Þjófab. 2. *Ef þjófur vill verjast, þá fellur útlægur,* ɔ: óheilagur, *nempe*, ef hann verst í það sinn, sem hann skal takast með fólanum.

Vígsl. kap. 108. *Á þeim vetvángi eigu menn að hefna þræls, er hann fellur, en eigi lengur en sva.*

Eyrbyggja kap. 28.: „Kvaddi Arnkell sèr bjargkviðar og færir það til varnar, að þrælarnir voru teknir með kveiktum eldi til bæar brennu“, þá færði Snorri goði það fram, að „þrælarnir voru óhelgir á þeim vetfángi; en að þèr færðuð þá inn á Vaðilshöfða og drápuð þá þar, það hygg eg, að eigi væri þeir þar óhelgir“. *Confer* NL. 6—12—4 og 5. um þann, sem drepinn verður í hórusæng. Þetta verður allra ljósast, ef hugleiddur er Mannh. 30. Þar er ákveðið, hvar í hann, sem heill[2] gengur á vonarvöl, eigi engan rètt á sèr, þó hann sè nauðugur burtrekinn. En þegar hann fær sèr sjálfur matar og klæða og vopna, eður frændur hans, þá er hann þegar rètt-næmur, og það segir Mannh. 23., að á slíkum tilgjörðum og að slíkum kríngumstæðum á konúngur engan rètt á þeim mönnum, er í sömu tilfellum engan eiga rètt á sjálfum sèr, eins og um drápið í hórusænginni tala Norskulög *loco citato*, að þar er hann óhelgur, en strax sem[3] hann kemst úr sænginni, þá skal hann sækjast með lögum og vera friðhelgur til dóms, og[4]

---

1) vantar í A. 2) vantar í A. 3) vantar í A. 4) heldur, B.

síðan, þegar hann verður dæmdur, [heldur hann[1] lífi, limum og landsvist sinni, en bætir brot sitt fèbótum við konúng og þegn. Svo hið sama hinn, er leggst undir fènað manna, þá er hann óhelgur, meðan hann er að verkinu, og í þeim sama stað, er hann drýgði það háðuglegt íllvirki; komist hann þaðan heill, þá má hann ekki refsast, nema með lögum og dómi.

Allt þetta sýna[2] *per consequentiam* allar áður skrifaðar greinir laganna, bæði hinna[3] fornu og nýu, og svo hið sama Gulaþíngsbók hin forna í Leysíngslögum um skuldarmann: „Engan á konúngur rètt á skuldarmanni, þar sem sjálfur hann á engan rètt á sèr". Les þann kapítula allan; hann sundurskilur greinilega, hvar og í hverjum tilfellum skuldarmenn eigi rètt nokkurn eður engan.

## Rèttarfar.

*(Ágrip af innleggi lögmanns Vídalíns mót Brynjólfi Þórðarsyni á alþíngi 1713 um „fullrètti".* Vide supra *„Hálfrètti og rèttur á sèr")*.

Eg tilbýð Monsr. Brynjólfi með athuga að gegnum lesa allan Mannhelgisbálk, skal hann allur sjálfum sèr í því samhljóðandi verða, að fullrètti manna skuli stíga eptir því hærra og lægra, sem sökin er til, og þeir eru menn að nafnbótum eður mannvirðíngum, sem málin eiga, þau er mannhelgis rèttur umtalar. Þykir mèr því líklegt, að rèttsýnir menn og dómendur muni ekki láta þann hègóma villa sig, sem hèr í landinu er í almennu tali, að Erlendur lögmaður Þórvarðsson skuli hafa sett vissan taxta á fullrètti allra manna, svo sem til dæmis biskups 15 merkur, lögmanns 12 merkur, prófasts 9 merkur. Því að fyrir utan það að einn lögmaður hefir ekki vald til að setja lög, heldur til uð dæma lög þau, sem konúngurinn hefir sett og skipað, þá er hitt (ef það væri satt á Erlend lögmann) grundvallarlaus heimska og lögleysa, þvert og berlega móti Mannhelgis rètti, sem allstaðar skipar, að þegnsins rèttur skuli með dómi metast, að fráteknum Mannh. 24., þar sem graðúngur hefir unnið á manni, þar ákveður lögmálið rèttarhæðina. Skoði Msr. Brynjólfur Mannh. 1. kap., að af fè veganda dæma 12 skynsamir menn, löglega tilnefndir af rèttaranum, slík gjöld eptir laga skilorði, sem þeir sjá rèttast fyrir guði, eptir atvikum og málavextir eru til, erfingjum hins

1) frá [ sleppt úr B. 2) sýnir. A. 3) hinar, B,

dauða. Ef hann vill svara mèr, þetta sè talað um gjöld eptir veginn mann, en ekki um rèttarfar við einhvern lifanda, þá svara eg: Vildi lögmálið ekki *definera* vígsbætur, og í svo vissan máta setja vissan taxta á konúngsins þegna eptir nafnbótum, heldur skipaði, það skyldi með dómi metast eptir málavöxtum, hvað miklu síður mun það þá ýmislegar og misjafnar tilgjörðir viljað hafa sett á vissan taxta, svo að ei væri metnir málavextir? Það er öllum kunnugt, að kvenna legorð á að metast með tvennum bótum. Þær einu bætur heita rèttur þess, sem giptíngamaður er konunnar eður ektamaður; aðrar heita ráðspjöll, Mannh. 31. Þær skulu dæma 12 skynsamir menn, svo sem þeir sjá að hann er vel sæmdur af, er rèttinn á að heimta. Nú vil eg ráðleggja það msr. Brynjólfi, að læra það af konúnginum Magnúsi lagabæti, hversu þessi rèttur eigi að dæmast. Þar gjörir Mannh. 2. kap. ljósa grein á: „Ef maður stendur mann á konu sinni með löglegum vitnum, gjaldi sá full manngjöld bóndanum, slík sem hann er maður til, er konu lá, ef hann væri saklaus drepinn, en hálf manngjöld fyrir móður, dóttur eða systur. Skulu þessi manngjöld dæma 12 menn“.

Nú ef sýslumaður liggur sýslumanns konu, þá verður rèttur sýslumannsins, þess er átti konuna, full manngjöld eptir sýslumann; en ef almúgamaður liggur sýslumanns konuna, þá verður rèttur sýslumanns ekki hærri en full manngjöld eptir almúga mann. Þar á móti, ef einn almúgamaður stendur sýslumann á konu sinni, þá verður rèttur almúgamannsins full manngjöld eptir sýslumann, eður ef prestur liggur bóndakonu, gengur það eptir sama máta. En ef böðullinn liggur bóndakonu, þá fær þó bóndinn ekki hærri rètt, en dómur dæmir eptir böðulinn full manngjöld; og heitir allt þetta rèttur eða fullrètti þess, er konuna átti, þá sem legin var. Við þessum gjörðum liggur 6 marka sekt við konúng, þar sem konan er gipt; en þar sem konan er ógipt og þegninn tekur hálf manngjöld, þar er konúngs sök bætt með 3 aurum. Ætla eg, að eigi sèu þeir heilskygnir, sem ekki kunna að sjá, að hèr gengur fullrèttið upp og niður. Ráðspjöllin eru hèr fyrir utan, þau verða þar eptir metin, sem sá er að mannvirðíngum, sem orðið hefir fyrir þvílíkri svívirðíngu. Mannh. 3. segir: „Fullrètti þeim, er fyrir ráni og hernaði varð, eptir 12 manna dómi“; þar tekur konúngur 10 merkur, það er lángtum hærra en fyrir legorðið 3 aurar. Mannh. 5.: „Bæti honum eptir 12 manna dómi slíkan rètt, sem hann er maður til“. Hèr tekur konúngur 13 merkur.

Mannh. 2.: „Bæti eptir lagadómi fullum bótum“. Viðlík orð eru aptur ítrekuð í sama kapítula í þeirri grein, sem vantar í þær þryktu lögbækur. Mannh. 13.: „Synji vilja síns með sèttareiði, eða bæti eptir dómi og atvikum“. Mannh. 14.: „Skal hann bæta fullrètti þeim, er hann brá að, eptir 6 manna dómi. Þar tekur konúngur 3 aura“. *Ibidem:* „Fullrètti þeim, er hann skaut að, eptir 6 manna dómi; þar tekur konúngur 3 aura“. *Ibidem:* „Bæti þeim, er hann lagði, eptir 12 manna dómi, sem þeir sjá að hann sè vel sæmdur af, er lagði hann“. Mannh. 15.: „Bæti þeim, sem hann beit, eptir því sem 12 menn dæma, og þeir vilja svara fyrir guði, að hann er vel sæmdur af, er bitinn var“.

Ekki mun msr. Brynjólfur nè aðrir nær komast til að finna í Mannhelgis rètti, hvað hátt að vera skuli fullrètti manna, heldur en nú var sagt í þessum greinum, „svo sem dómendur vilja svara fyrir guði, að hann er vel sæmdur af“, og áður er sagt af Mannh. 14.: „Þeir sjá að hann sè sæmdur af, er lagður var“; og enn áður er sagt af Mannh. 31: „eptir því sem þeir sjá að hann er sæmdur af, er átti rèttinn að heimta“.

Öllum yður er kunnug *generalis regula* Mannh. 27., „að tempra skuli dóminn eptir málavöxtum, *etc.*, hvort misgjört er við saklausan mann, eður fyrir litlar sakir. Mannh. 20. segir hinum fullrètti, er bundinn var eptir 12 manna dómi; hèr tekur konúngur 5 merkur, svo að hèr er konúngs sökin meir en þrettánföld við þá 3 aura sekt, er Mannh. 14. skipar, og þó skal þegn hafa fullrètti bæði hèr í 20. kap. og þar í 14.; og væri það ekki heilvita manna að *disputera,* auk heldur að dæma, að þegnsins rèttur væri jafn í hvorutveggja þessu. Mannh. 21. segir með berum orðum: „þeim, sem fyrir varð, bæti fullrètti eptir 12 manna dómi“, hvort sem er eitt högg eða fleiri. Þar tekur konúngur eina mörk, ef höggið er eitt, en 13 merkur, ef þau eru fimm. Mun þá nokkur til ætla, að almúga bóndi, sem höggin fær, skuli taka einar 3 merkur, og hinn, sem eitt höggið fær, og svo 3 merkur; þó skipa lögin ei nema eitt fullrètti þegnunum. Enginn sèr hèr bókstaf þann, er segir, að fullrètti þegns skuli margfaldast, svo sem eg hefi heyrt margan nefna; tvöfalt og þrefalt fullrètti mun aldrei í lögum finnast, því að þótt honum yrði dæmdar 30 merkur, þá heitir það að mínum skilníngi eitt fullrètti. Svo kallar Sturlúnga saga í 4. þætti 2. kapítula 60 hndr. meir en 2 lögrètti.] En vort lögmál segir með ljósum orðum í Mannh.

22.: „Hvervetna þar sem dómur vægir, eptir málavöxtum, þeim er misgjört hefir, og fellir rètt þess, er fyrir vanvirðu varð, þá ber betur rètturum kóngdómsins að fella eptir því kóngs sakeyri, ef þeir vilja rètt með fara", *etc.* Hèr er það ljóst, að lög gjöra ráð fyrir, að auka skuli þegnsins rètt eptir málavöxtum, og þar vill konúngurinn láta sinn rètt niðurstíga; hverr vill þá trúa, að aldrei megi fullrètti þegnsins hækka, þótt að hækki sekt við konúngdóminn? Mannh. 23. skipar að bæta eptir 6 manna dómi, en konúngi hálfa mörk. Það á sannlega að vera, þegar fullrètti er þegni til handa, því konúngurinn tekur hèr 4 aura. En Mannhelgi 14. skipar tvisvar fullrètti, þar sem konúngur tekur ei nema 3 aura. Og enn þá hèr í sama kapítula skipar tvisvar bætur eptir 6 manna dómi, en konúngi 2 aura. Mannh. 24.: „Bæti þeim, er fyrir varð, eður hans erfíngjum, 10 merkur, og uxa eður graðúng á ofan". Mun ekki þetta vera rèttur þegns fyrir það, að hann fæðir einn grip? En mun ekki almúga bóndi fá þennan rètt, þó hann sè nafnbótalaus? Og er það meir en 3 merkur í Erlendar lögmanns dómi. Síðan er þrisvar hèr í Mannh. 24. haft: „eptir dómi", og í þessum eina stað af allri Mannhelgi er rèttarhæð þegnsins ákveðin, sem fyrr var sagt, því að skynlaus skepna, graðúngurinn, á hèr hlut að málinu. Mannh. 25. kap. talar um þá hluti, sem ei eru smávægi. Hann segir tvisvar sinnum: „eptir 6 manna dómi"; einu sinni segir hann: „fullrètti eptir laga dómi"; í rèttarbótinni segir hann: „Skuli eptir dómi gánga bæði sektir við konúngdóminn, og rèttur þeirra, er talað er til", og enn segir hann: „Fullrètti eptir 6 manna dómi". Mannh. 26.: „Bæti eptir 6 manna dómi", og enn aptur: „Bæti eptir 6 manna dómi, en kóngi 3 merkur"; og enn aptur: „Sekur 4 mörkum við kóng, en bæti hinum rètti sínum eptir 6 manna dómi". En því mun eg *repetera* þenna kapítula? Msr. Brynjólfur mun hafa lesið hann með athygli. Mannh. 28.: „Þá skal hann bæta bónda hennar slíku, sem 12 menn dæma, löglega tilnefndir". Hèr er að gæta, að þessi sakaráberi hefir ekki staðið hann á konu sinni með löglegum vitnum, svo sem áður er umtalað Mannh. 2., og þarf því 12 manna dóm að meta þann er misgjörði, en Mannh. 31. höfum vèr áður hugleidt. Það er hið hæsta rèttarfar ákveðið 12 aurar, og kallar ekki lögmálið fullrètti fyrr en svo. Sè þaðan í frá hækkað fullrètti eptir málavöxtum og stærð

misgjörðarinnar, svo sem nú hefi eg með rökum *demonstrerað*. Og enn segir þessi Mannh. 31.: „Gjaldi slíkan rètt fyrir þá konu, sem 12 menn vilja dæmt hafa".

Svo er þá í öllum Mannhelgis rètti sett til dómsins atkvæða að meta rèttarins hæð eptir málavöxtum, og hún aldrei framar niðurskorðuð, en nú hefir sagt verið, kann og aldrei með lögum fyllilega niðurskorðuð að verða *per naturam rei*, svo lengi sem ekki er búið að upphugsa allra handa misgjörða atferli og kríngumstæður, sem líkast er að engum takist, meðan heimur stendur. Er svo ljóst af svo mörgum að framan *citeruðum* Mannhelgis greinum, að „fullrètti" skuli hækka og lækka eptir málavöxtum.

## [1] Ráða (fè sínu til fulls eyris).

Grág. Erfðaþ. 3., ɔ: að ráða kaupum sínum, að maður taki fullvirði fyrir það, er hann lætur úti, og líði ekki höllun í viðskiptunum, eins og bókin segði: Taki fullan eyri, ɔ: andvirði fullra aura á móti því, hann selur.

## [2] Ribbaldi.

Rèttarb. Hákonar k. *Sökum þeirra stóru ribbalda og annara landhlaupara, er segja sig skuli fara pílagrímsferðir,* etc.

Vèr höfum enn glósu þessa í tíðkan, og þó ekki alltíða. Er mönnum kunnugt, að hún merkir óstýriláta menn, þá er gjöra að eigin þótta sínum, og hripsa af öðrum með ofdirfð. Lætur það allnærri þessari merkíngu, er mælir Sverris saga kap. 37.: „Þar til að Erlíngur jarl var fallinn, þókti það hæðilegt, ef maður var kallaður Birkibeinn, en þaðan frá þókti það nafnbót, og þeir mikils verðir, er svo hètu, og þeir hinir sömu, sem verið höfðu verkmenn ræníngja og ribbaldar". Systkyna börn þessarar glósu höfum vèr enn: ofbeldi, það er ránglegar framferðir og ofríki. Heitir og enn hjá oss „baldinn", óstýrilátur og þvermóðugur, það kallaði Grettir „bellinn"[3], þá er hann kvað um Björn þann, er feldi hans kastaði í bjarnarhíðið í Salteyu á Hálogalandi:

---

1) vantar í B og C. 2) vantar í B og C. 3) beldinn, A.

Baugs olli því bellinn
baldur, er nú skal gjalda.

Og svo sagði Gunnhildur konúnga-móðir við Eirík blóðöx í Jórvík á Norðymbralandi um Egil Skallagrímsson: „Hann hefir drepið vini þína og frændur, og þar á ofan son þinn, en nídt sjálfan þig. Hvar vita menn slíku belt við konúngmann? Það er, með ofdirfð og þvermóðsku í stríð við annan framfarið. Og svo kvað Hallfreður um fall eður hvarf Ólafs konúngs Tryggvasonar. Ólafs saga *lib. 2. cap. 95. p. 301.*

Sagður var mèr, nè meira
munomk stríð of bíða,
lýðum firður og láði
landvörðr fyri sæ handan.

Væri oss, þótt eirir
elds þeim svikum beldi,
heila líkn, ef hauka,
háklifs, jöfurr lifði.

Mèr er sagður landvörður firður lýðum og láði fyrir handan sæ, mun eg ofbíða meira stríð, það er sorg; þótt eirir elds hauka háklifs honum beldi þeim svikum, væri oss heila líkn, ef jöfurr lifði. Háklif hauka kallar skáldið hönd, eld hennar gull; eirir gulls kallar hann þann, sem eirir, það er, unir yfir og liggur á því í rósemi, og er þetta meint til Sigvalda jarls, er Hallfreður segir að beldi þeim svikum, það er, olli þeim með ódygðar þverúð og íllmennsku. Að belda, sem þau sögðu nú strax Gunnhildur og Hallfreður, er nú úr venju fallið, en af því, og að rífa og hripsa úr höndum manna, hafa ribbaldar nafn dregið. Það heitir „að belli", þegar hart kemur hörðu á móti, svo að smellur við, svo sem að mælti Steindór á Eyri, þá er hann barðist á Vigrafirði við Þorbrandssonu, og hjó á háls Freysteini bófa, svo að buldi í horninu, er gekk niður undan þófahettunni, saumað um háls Freysteini, og tók við högginu. „Ball þèr nú, bófi", sagði Steindór. „Freysteinn svaraði: Ball víst, þó hvergi meir, en til hugðir," *vide* Eyrb. kap. 47. Sama er ættin þessa, sem ribbaldanna, því að í viðureign þeirra við hina, sem þeir hripsa frá, er það líkast, að högg belli hvorumtveggja. Og enn í dag segjum vèr, þegar gjöld misgjörða koma niður á einhvern, að það belli á honum. Sperling *in voce* Konning, *pag. 54. 55. Rex, inquit, ribbaldorum inter Francicosos aliquando viguit, cujus officium erat, cum suis stipatoribus petulantem turbam et fecem populi arcere ab aula vestibuli. Carolus sextus, post annum 1387, hoc non ferens, duos reges in eadem aula, nomen ipsi mutavit, et ex „roi de ribauds" factus est „prevost de l'*

*hostel".* Hèr vill hann „ribbalda" kalla *petulantem turbam et fecem populi,* og lætur það allnærri því, er áður er sagt, því hvað munu þeir ekki hripsandi prakkarar vera, sem í sínu blygðunarleysi dirfast að trana sèr fram á stór-herra hofgörðum, leitandi tækifæris að gripla, hripsa og stela?

## Riddari.

Llb. 18. *Ef i er ort riddara jörð.*
Kpb. 24. *Riddara kona tveggja aura kaupi.*

[1] Það er mönnum kunnugt, að „riddari" er ein nafnbót, sem konúngar og *pótentatar* gefa sínum trúum þènurum, til sæmdar þeim sem gefin verður, og hans afkvæmi þaðan af æfinlega. Sá hugvitssami og aðgætni Björn á Skarðsá dregur þenna titil eður nafnbót af reið eða rit, en það er misgáð af honum, þegar það skal svo skiljast, sem það í áður *cíteruðum* lögmálsins greinum merkir, nafnbót og sèrlegan heiðurstitil þeirra, sem konúngar hafa með stórri náð upphefja viljað; því að riddara nafn hefir tvenna merkíng, [þá einu[2], sem sagt er, að það er heiðurstitill, þá aðra, [að það merkir[3] alla þá, sem stríða í orustum; og eptir þessari seinni merkíng orðsins hefir Björn rètt tilsagt, að það er dregið af „reið", og merkir þann hlut af heilum her, sem á hestum berjast; eru þeir nú kallaðir á danska túngu Rytterе, Rytteri, og optast með franskri glósu Cavalleri[4], á latínu *„equitatus",* þar með aðgreindir frá fótgaunguliði, sem nú er kallað Infanteri, og á latínu *„peditatus".* Er þetta enginn sèrlegur sæmdartitill fram yfir nöfn þeirra, sem undir síns herra merkjum stríða fyrir lönd og lýði, nema hvað *pótentatarnir* gefa þessum meiri mála (Sold, Gaze), til þess að hverr fóðri sinn hest, og hafi hann vel haldinn til reiðar.

[5] Allt þetta votta fornar sögur og nýar, sem hvert barnið kann uppá fíngurnar; en ei minnist eg, að Noregs konúnga sögur geti þess, að riddaralið hafi þar tíðkazt í orustum, nema vilji menn svo kalla, þegar Magnús konúngur berfætti reið á[6] herlið Ínga Svíakonúngs á náttarþeli á Gautlandi, sem vottar Snorri Sturluson og Noregs konúnga sögur, en ekki greinir þar, að orustan hafi skeð á hesti, þótt hitt sè skýrt, að Magnús

1) § 1, B. 2) það eina, B. 3) frá [ vantar í B. 4) Chavallerie, B
5) § 2, B. 6) í, A.

konúngur og her hans riðu til orustustaðarins; og ætla eg víst, að þeir hafi á fæti barizt. Á fæti barðist Hákon konúngur Aðalsteinsfóstri, þegar hann feldi Gamla[1] konúng, son Eiríks konúngs blóðaxar, og svo hið sama, þegar Hákon konúngur Aðalsteinsfóstri fèkk sitt banasár. Á fæti var Ólafur konúngur helgi á Stiklastöðum, Magnús góði á Hlèskógsheiði, Haraldur harðráði á Englandi, þá hann fèll, Magnús berfætti, þá hann fèll á Írlandi. Á fæti var barizt, þá Hákon herðabreiður feldi Ínga konúng Haraldsson. Á fæti var Erlingur jarl móti Sigurði Markúsarfósta, á fæti Gregoríus Dagsson, þá er hann fèll, á fæti, þegar Sverrir konúngur og Magnús konúngur börðust við Hírtabrú, en Magnús sat einn á hesti; á fæti Sverrir konúngur, þá Erlíngur skakki fèll, á fæti Sverrir og Magnús konúngur á Íluvöllum, þegar Magnús flýði; á fæti, þegar Sverrir konúngur barðist í Osló við bændaherinn[2], en hann sat á hesti; á fæti, þegar Hákon[3] konúngur og Skúli hertogi börðust í Osló, en þeir sátu báðir á hestum, því þó höfðíngjar sjálfir væru annars[4] stundum á hesti, og kannske fleiri[5] með þeim, var orustan ávallt[6] háð á fæti af öllum meginhernum; og nær því síður riddara nafn hèr heim, að[7] það skal af [ reið eður ritt[8] dregið vera, svo þessi merkíng orðsins „riddari“ á ekkert skylt við lögbókina, sem setur riddara nafnbót, sem upphaflega var sagt.

[9] Nú á þar til að koma, að grein sè á gjör, hvernin riddara nafn sè fremri heiðurs titill orðinn, heldur en að merkja þá alleina, sem á hesti sitja í orustum. Bið eg lesarann þolinmæði hafa[10], þótt eg skrifi nokkuð lángort, og get þess fyrst, er hjá Rómverjum var riddaranafn, *equestris ordo,* æru-titill. Er of lángt hèr að greina, hversu Rómverjar deildu lýðinn; skal því það eitt af því segja, að hjá þeim var þrefalt stand, sèrdeilis *senatores,* ráðherrarnir, *equestris ordo,* riddararnir, og *plebs,* borgaralýðurinn.

[11] Hèr af kemur ekki þessu máli við nema *ordo equestris,* riddarastandið, það var hærra að virðíngu, en borgaralýðurinn, og ekki jafnt sem ráðherrarnir. Nú var þó ekki þetta riddarastand hjá þeim metið eptir því, sem hverr hafði til unnið með einhverjum heiðursverðum verkum í stríðstíð eður ófriði, heldur eptir því, sem þeir voru auðugir af fè, því sá skyldi

1) Gauta, A. 2) múginn, B. 3) Magnús, B. 4) vantar í B. 5) fáeinir, B. 6) alltíð, B. 7) ef, B. 8) rið eður rit, B. 9) § 3, B. 10) vantar í A. 11) § 4, B.

hjá þeim vera *eques*, riddari, sem ætti 400,000 *sestertios*, það segir Ber. *in Notis* yfir *Julium Cæsarem* [ *Suetonii* 12500 [1] krónur, kap. 33.

[2] Þegar nú á meðal Rómverja var einn svo ríkur, skyldi hann vera riddari, *eques*, og var þá ekki metið, hvað annað [3] hann hafði sèr til sæmdar unnið, [ en afla fjárins, þá skeði hann þessi sæmd, að þá var hann að allra virðíng metinn og heiðraður framar en *plebeii*, það er nafnbótalausir almúgamenn. Þessum heiðri fylgdi sú æra hjá Rómverjum, að sá sem með fjárafla hafði til þess unnið [4], fèkk upp á skenk hest, sem hann átti að ríða í herfarir allar, og skyldi hann sjálfur ala hestinn þaðan í frá. Svo segir *Rosinus*. En *Livius* skrifar, *lib. 1. cap. 43.*, að ríkum ekkjum hafi verið upp á lagt, að láta fè til hests-eldisins í tíð *Servii Tullii*, fimta konúngs Rómverja. Síðar á öldum var þeim og gefinn einn gullhríngur, sem sjálfur skyldi hann bera þaðan í frá. Hvorugt gekk í arf, hesturinn nè hríngurinn, ef ei var ríkdómur barnanna svo mikill, að sá heiður mætti við haldast fyrir ríkdóms skuld. Var svo þessi sæmd eigi gefin nè skömtuð, eptir því sem þessir riddarar voru gagnlegir regjeríngunni, heldur eptir því sem þessir riddarar voru auðugir til, og svo gekk það til ofan allt á aldir á tíð keisaranna.

[5] Þar kom niður á tímana næst eptir dauða *Antonini Veri* keisara, að lítið var að þessu gætt, [ sem er of margort [6] hèr að skýra, hversu þá veltust hlutirnir um hrygg lángar stundir, svo eitt var upp, en annað niður ; [ og eg, svo sem bóklaus maður ], læt það allt hjá líða, inn til þess að svo er komið málinu, að eg þykist að nýu geta [7] fundið fót og uppruna þess riddarastands og sæmdar, sem vor lögbók talar um. Verð eg nú um stund að hverfa til baka í historíunum, svo eg geti eptir fáorða *repetition* tímanna gjört á því grein, hvílík og hvernin tilkomin sè þessi riddara nafnbót.

[8] *Anno Christi 73* lagðist Titus Vespatianus um borgina Jerúsalem, og vann hana þann 8. Ágúst árið sama, sem vottar *Cluverus in Historia universali* og Chr. Matth. *in Theatro hist.* Svo lá hún í auðn, til þess Adrianus keisari bygði borg í sama stað, sem hann kallaði *Æliam Capitolinam*, og reisti kirkju

---

1) Setonn. 12590, B. 2) § 5, B. 3) vantar í B. 4) frá [ vantar í B. 5) § 6, B. 6) og er af mörgum orðum, B. 7) getað, B. 8) § 7, B.

*Jovis Capitolini*, þar sem staðið hafði Jerúsalems musteri, *anno Chr. 129.* Stóð síðan þessi borg undir heiðinna manna valdi 180 ár; þó bjuggu þar nokkrir kristnir menn saman við heiðíngja. Þar eptir, þá Constantinus Magnús var orðinn keisari og hafði við kristni tekið, lèt hans móðir Helena niðurbrjóta musteri[1] Veneris af Kristí gröf, og byggja þar í staðinn kristna kirkju *anno Chr. 309*[2]. En þegar Constantinus hafði sigrað ofsóknara kristninnar í austurálfunni ár 313, lèt hann bjóða og leyfa kristna trú í Jerúsalem, og kallaði borgina þá[3] nýu Jerúsalem, og hèlzt kristnin við undir hans og hans eptirkomenda valdstjórn til þess anno 615. Þá inntók sá persiski Cozroe Jerúsalem, en Heraclíus keisari vann hana aptur 628, sem vottar hinn danski Pflug í hans Danske Pillegrim. Þá unnu *Saraceni* borgina, það eru Mahómetistar; þeir þreingdu mjög kristnum, sem undir þeirra valdi lifðu; [var Heraclius þá enn[4] keisari, sem Cluverus skrifar. Nú hèldu *Saraceni* borgina lángar stundir 460 ár, en þó var samt[5] margur kristinn maður undir Tyrkjanna valdi búandi, og var patríarkinn af Jerúsalem þeirra formaður, eins og síðan verið hafa *patriarchæ* í Konstantinópel, Jerúsalem, Antiochía og Alexandría formenn kristinna, sem undir Tyrkjans valdi búa. En af því að þeir kristnu máttu svo lítið undir valdi Mahómetista og Tyrkja, þótt þeir hefði þar friðland fyrir sig, og mætti sinni trú halda, þá gjörðust kristnum háskalegar og erviðar þeirra pílagríms-reisur til Kristí grafar og þeirra heilögu staða, sem í páfadóminum þókti þó mikið á ríða. Því kom patríarkinn í[6] Jerúsalem, og einn sem hèt *Petrus Eremita.* páfanum Urbano öðrum til að skrifa híngað í norðurálfuna, að stórir herrar, þeir sem ekki sæti að ríkjum, prinsar, konúnganna náttúrlegir synir, greifar, barúnar og slíkir úngir herrar vildu með sínni makt safna liði, og vinna það heilaga land undan heiðinna valdi undir kristin yfirvöld og frelsa svo þá þreingdu kristni, sem þar bjó, af ánauð heiðíngjanna. Skyldu þessir herrar helga sig guði til þessa erindis, og annaðhvort vinna mikinn sigur, sèr sjálfum til jarðneskrar sæmdar og ríkis, eður falla með heiðri í heilagri orustu, sem gjörð væri fyrir guðs dýrð. Tóku þeir svo páfans (eður biskupanna eður páfans legáta) blessan og einkenni á sinni klæðadragt; var

1) templum, A. 2) 300, A. 3) vantar í A. 4) þá var Her. enn, B. 5) vantar í B. 6) til, B.

það merki fyrst af öllu hvítur kross á hægra brjóstinu, en klæðin voru svört, eptir því sem tíðkuðu þeir kristnu hospítals-bræður, sem í Tyrkjanna regjeríngar tíð höfðu stiptað sánkti Jóhannesar klaustur í Jerúsalem fyrir [ vegfarendur og pílagríma[1].

[2] Síðan gjörðist krossinn rauður, og var hann þá settur á skjöld þeirra tilkomandi herra, sem saman höfðu valizt til að vinna landið með hernaði frá Tyrkjanum. Og þetta ætla eg verið hafi það fyrsta riddara-vopen, og voru þeir vígðir undir það af Jerúsalems patríarka, svo sem til annars geistlegs stands[3] og reglubundins lífernis. Hèr af er það, sem í sögunum stendur, að krossast til Jórsalaferðar, *item* að krossast til útferðar, *vide* Knytlinga sögu kap. 87[4]. Fylgdu því stór páfans fyrirheit um aflát allra þeirra synda, sem greinir í fyrr sögðum kapítula.

[5] Þeim[6], sem krossuðust til þessa stórvirðínga-stands, tókst þeirra ásetníngur misjafnlega, sem von var. Sumir fèllu í orustum, og urðu þeir helgir menn; sumir fengu sigur, og eignuðust víða í Jórsalalandi og Asíaríki stór völd; voru svo landvarnarmenn kristinna mót heiðíngja ágángi, og þegar slíkt lukkaðist mörgum stórherrum vel, stiptuðu þeir þar ýmisleg klaustur og hospítöl, en aðrir fýstust meir til slíkrar sæmdar, og varð þetta svo títt, að víða, þar sem kristnir *pótentatar* áttu heiðna nábúa, tóku prinsar, konúnga synir, greifar og barúnar[7] að gjöra í þá líkíngu, og gjörðust nú margir *ordines* þessara guði helguðu riddara bæði í Grikklands eyum og í Spanía, þegar *Saraceni* gengu þar á kristna menn, og síðan í Þýzkalandi og í Pommern og Praussen móti Vindum, Eistlendum og Kúrum. Eignuðust þeir svo víða[8] lönd og ríki, að makt þeirra varð stór og fræg um alla kristnina og heiðin lönd, sem kristnum voru nálæg, því þeir skyldu guðs riddarar vera, að útbreiða kristni hans og varðveita kristna pótentata. Var allur þessi vopnaði skari geistlegt fólk og ókvæntir menn lengi fram eptir öldum, en svo sem þeir fjölguðu, svo fjölguðu merkin ýmislega, eptir því sem páfarnir og patríarkarnir vildu þessa úngu herra, þeim til sæmdar, merkt og einkent hafa.

[9] Ekki man eg mig hafa lesið, að hèðan úr Európa gjörð-

1) vegfarandi pílagr. A. 2) § 8, B. 3) embættis, B. 4) 108. 5) § 9, B. 6) þeir, A et B. 7) barónar, B. 8) vantar í B. 9) § 10. B.

ust menn til þessarar herferðar á Jórsaland fyrir *anno Chr. 1090*, þegar Robertus, prins af Englandi, *Wilhelmi Bastardi filius secundus*[1], lèt sig krossa til Jórsalaferðar, og með honum þeir engelsku herrar, Baldvin og Gottfried, sem sagan af *Anshelmo Cantuariensi* og Thomasi erkibiskupi greinir, ásamt mörgum herrum þeim, er Cluverus telur pag. 513. Fengu þeir þann æskilega sigur, að þá Jerúsalem var enn af Tyrkjunum unnin, urðu þar kristnir konúngar undir 60 ár samfleytt, *vide Helvici Chronolog. pag. 127.* og *129. columna penult.* Síðan getur Knytlíngasaga kap. 108[2], að Eugenius páfi hafi beðið menn að krossast til Jórsalaferðar, að vinna eður lið veita Jerúsalem; þá voru þeir Danakonúngar, Sveinn, sonur Eiríks eimuna, og Knútur, son Magnúsar konúngs; það verður eptir Hvítfelds kroniku, samanborinni við Knytlínga sögu, *anno Chr. 1147, vide* Hvítfeld *Tom. 1. pag. 150. rubricata et pag. 155, et pag. 162, confer Helvici Chronolog. pag. 130. et*[3] *132. de Innocentio Quarto.*

[4] Þótt að einhverr segja vildi, að þessi riddaraher hafi laungu fyrr kominn verið allt híngað í Praussen, því að Noregskonúngatal segir um Ólaf helga, meðan hann var í hernaði og ei að ríki seztur, að hann hafi átt orustu fimta sinn í Kinlimafirði við riddaraher, og haft sigur, þá efast eg[5], það nái hèr til, því að það vildi vera fyrir anno 1016. Þá kom Ólafur digri til ríkis, en Praussen, sem þá kallaðist[6] Austur-vindar eður Sámland *(vide nostrum* Samland), var heiðið allt fram á daga Magnúsar konúngs blinda og Haralds gilla, sem vottar Snorri Sturluson, þá hinn heiðni Rettebur, Vindakonúngur, vann Konúngahellu í Noregi. Sýnist mèr því rèttara, að skilja þenna riddaraher, sem Ólafur digri barðist við, fyrir *equitatum*, það er ríðandi stríðsher, herlið á hestum, heldur en meina það hafi verið her aðalsmanna, því að svoddan riddarar, sem voru að eins ríðandi herflokkar, er á hestum börðust, voru þá og laungu fyrr altíðir í Þýzkalandi og þess öllum grensum, som Snorri vottar um *Ottonem* keisara, þá hann herjaði á Danavirki: „Keisarinn hafði mikinn riddaraher, en miklu meiri fótgángandi her“.

[7] En hve nær sem þessi riddara heiður byrjaðist fyrst, þá er það víst, að allir þeir riddarar voru geistlegir að þeirra

1) 21, A. 2) 87 báðar. 3) vantar í B. 4) § 11, B. 5) hvort, add. A. 6) kölluðust, B. 7) § 13, B.

standi, og skyldu lifa svo sem klaustramenn, þess á millum sem þeir voru í ófriði og orustum *occuperaðir*, og máttu þeir eigi kvongast, heldur en aðrir geistlegir á þeim öldum. En þó hefi eg eigi lesið, svo minnist, að þeir, sem kvæntir voru, hafi forlátið konur sínar, og ekki getur þess í *Frossardi Epitome*, sem Sleidanus gjört hefir, þar eð vottar *libro 1. pag. 65.*, að anno 1362 hafi konúngurinn af Cypro beðið *Urbanum* páfa og *Johannem Valesium*, Frakka konúng, að veita kristnum lið á móti *Saracenis*, og hafi konúngurinn og margir af hans aðalsmönnum krossazt látið. Þó fór konúngurinn ei sjálfur í þá herför. Lið mun hann sent hafa fyrir sinn viðtekinn riddara kross. En konúngurinn af Portúgal *anno Chr. 1466* útvegaði þessum[1] riddurum páfans leyfi til hjúskapar, og voru þó frá skildir sánkti Jóhannis riddarar, sem flestir meina að sè þessa riddarastands elztur *ordo* eður regla.

[2] Hèr um er margt og greinilegt í þeim danska pílagrím, sem hans *autor* Oge Pflug hefir af ýmsum *scribentum*[3] samandregið, og lesa má í sömu bók allt frá pag. 897 til pag. 944. Og allt fram á regjeríngartíð Friðriks annars Danakonúngs voru stórar provinzíur undir þeim praussisku hermeisturum; þeir voru í fyrstunni af slíkum[4] geistlegum riddurum í Líflandi, sem Resenius skrifar í Friðriks annars kroniku, og víða getur Hvítfeld þessara riddara. Svo sem nú að páfinn og[5] þeir jerúsalemsku patríarkar vígðu slíka riddara flesta, fyrr en þeir gengu í orustur, og gáfu[6] þeim bæði merki, reglur og titil, áður en til var unnið, svo þetta var altítt og frægt orðið, svo gjörðu í þá líkíng konúngar og *pótentatar* sínum trúum þènurum, þeim sem þeir vildu til heiðurs hefja, sumum fyrir framkominn stórtrúskap og þènustu með ráð eður dáð, annaðhvort í stríðstíð og bardögum, eður í friðstíð með hollum landstjórnar ráðum, að þeir gáfu þeim riddara titil og þar með einhver einkenni heiðurs og aðalsæmda þeirra, sem þessir riddarar færa skyldu á skjöldum þeirra, og er það nú kallaður aðalhjálmur og skjöldur; fylgdi því með fyrsta riddara titillinn, svo sem votta brèf þeirra Björns Jórsalafara, Torfa í Klofa, Hannes Eggertssonar; og aðalsbrèf hið síðasta endurnýaði Kristján fjórði anno 1619, og ótal mörg sem sjá

---

1) þeim, A. 2) § 14, B. 3) documentum, B. 4) svoddan, B. 5) vantar í B. 6) gaf, B.

má í Hvítfelds kroniku, að konúngarnir segja: „Með vorum[1] riddurum og sveinum".

En síðan *pótentatarnir* hèr á norðurlöndum lètu riddara nafnbótinni fylgja riddarabandið og Baabenet[2] af gulli gjört, eru þau fyrri riddara Baaben[3] ei jafnfræg sem áður, og er það nú kallaður aðalshjálmur og skjöldur að eins, en fylgir ei riddara titill nema gullvopenum alleinum; þó sýnist sem fyrst í stað, þá hèr í Danmerkur ríki uppkomu þau gulllegu vopen, muni samt riddara titillinn fylgt hafa hjálmi og skildi. En til aðgreiníngar þessum[4] hærra riddara titli se í venju leidt, að kalla þá, sem þau gulllegu vopen [öðlazt hafa[5], *equites auratos* eður forgylta riddara, svo sem hinir sèu að vísu riddarar, en eigi forgyltir. En nú eru tvö tíðkanleg í vors allranáðugasta konúngs ríkjum, sem er það forgamla riddara[6] vopen, Elephanten, sem er fíll af gulli gjörr í bláu bandi, og hið ýngra, *Dannebrogen*, sem er kross af gulli í hvítu bandi. Þetta síðarnefnda riddara vopen var fyrst stiptað í Danmörk af þeim sáluga arfaherra konúngi Kristjáni fimta[7] anno 1671 þann 8. Október. Voru þann dag 10 danskir herrar með þeim riddara heiðri prýddir, sem Happelíus skrifar í sinni kroniku, og svo í öðrum löndum.

[8] *Anno Chr. 1274* segir Árna biskups saga, kap. 14., komið hafi brèf Gregorii páfa híngað í norðurlönd, að menn vildu krossast til Jórsalaferðar; hafi þá Eðvarður Englands konúngur og margir aðrir dýrlegir höfðíngjar krossazt, það er, eptir mínum skilníngi, gjörzt sti. Jóhannis eður Maríu riddarar, því að þeir tveir *ordines* voru þá í venju komnir. Nú þótt eg ei[9] kunni af historíunum að bevísa, að Eðvarður kóngur hafi þá farið í þá herför, og líkast heima setið, skil eg svo söguna, að hann hafi sent lið sitt og mikinn styrk til að vinna það heilaga land, svo[10] sem þá kölluðu þeir Jórsalaland, og með því tillagi öðlazt riddara titilinn, svo sem segir Hákonar saga anno 1258: „þá bjó konúngur af Spanía her sinn út í heiðnina, og fýsti hann mjög Hákon konúng að fara með sèr og leysa svo kross sinn, er hann hafði tekið, því að þar var til leyfi páfans, að þar skyldi leysa kross, sem til Jórsala væri farið". Þetta skilst mèr, að páfans leyfi var svo, að með því að senda her sinn út til Jórsala skyldi mega leysast kross, þ. e. riddara merkið og titillinn, eins og að fara sjálfur út í

1) vantar í B. 2) vopenið, A. 3) vopen, A. 4) þeim, A. 5) höfðu, B. 6) vantar í B. 7) fjórða, A. 8) § 16, B. 9) vantar í B. 10) vantar í B.

þetta heilaga stríð. Árið eptir, anno 1275, segir fyrr greind saga, híngað í landið komið hafi þau sömu páfans boð: „Fylgdu þeim prèdikanir Árna biskups fyrir mönnum um þær aflausnir, sem herra páfinn hafði þeim heitið, sem þessa ferð færi og berðist til frelsis því helga landi; svo og[1] að páfinn tók alla krossaða menn í sitt vald og vernd og Petri postula; skipuðust menn og allvel við hans (Árna biskups) kenníngar, og tóku nýnefnda krossa á klæði sín“, etc.

[2] Nú verður mèr *objicerað:* Þá urðu, eptir þinni *thesi*, svo margir menn riddarar hèr á landi, sem krossinn tóku; þó getur sagan ei, að neinir hafi farið herförina. Eg svara hèr til: Slægð Árna biskups yfirtalaði vilta og einfalda menn, að páfans lofanir allar haldast mundi, ef þeir gæfi fè, þó ei yrði skilmálinn fyltur að fara þessa ferð; en vesæll og framalaus lýður þessa lands skildi ei, hver heiður var í því fólginn, að öðlast með þessu krossmarki riddara nafnbótina, og voru sáttir, er þeir trúðu krossinum fylgja mundi páfans vernd og blessan, og líkast að Árni biskup hafi það sjálfur[3] ekki skilið, þar hvorki hann nè aðrir vorir landar, sem þá voru til, höfðu framazt annarstaðar en í Noregi, og var enn þá ekki í Noregi riddara nafnbótin tíð orðin; því að það er rètt, sem Björn á Skarðsá skrifar eptir[4] Árna biskups sögu, kap. 20., að *annó Chr. 1277* gaf Magnús konúngur lagabætir lendum mönnum sínum barúna nöfn og herra, en skutulsveinum riddara nöfn og herra; þá fyrst varð sú riddara nafnbót altíð í Noregsríki, það er einum þrem árum fyrr, en lögbók vor kom[5] híngað.

[6] Hèr verður mèr svarað: Það segir Árna biskups saga, kap. 20., að annó 1277 hafi Magnús konúngur lagabætir gefið lendum mönnum sínum barúna nöfn og skutulsveinum riddara nöfn. Hvernig kemur það þá til, að í Frostaþíngsbók standa barúnar, og í Heiðsivjaþíngsbók bæði í Landvb. 4., *item* í Kaupab. 1.[7] í báðum þeim? *Item* í Llb. 19. um landnám? *item* í Kaupab. 12. í Frostaþ. b., Heiðsivjaþ. kap 7.? En þær voru útgefnar [ og lögteknar[8] anno 1274 báðar saman á Gulaþíngi, Jónsmessu sjálfa, á 11. ári ríkis Magnúsar konúngs. En riddarar standa í Hirðskrá, kap. 4., en hún sýnist gjör vera 1274, því það er síðast ártal í henni. Hvað á nú til að segja?

1) vantar í B. 2) § 17, B. 3) vantar í B. 4) út úr, B. 5) er komin, B. 6) § 18, B. 7) 5, B. 8) frá [ vantar í B.

Það sýnist líkast, að [1] annó 1273 *in solennitate*, þegar Magnús konúngur gaf Eiríki syni sínum konúngs nafn og Hákoni hertoga nafn, hafi konúngur gefið fáum einum af sínum vildustu lendum mönnum barúna titil, og þeim yppurstu skutulsveinum riddara nafn, en annó 1277 hafi konúngurinn gjört þann heiður hvorumtveggja í þeirra standi almennan, svo að þaðan í frá skyldu allir lendir menn heita barúnar og allir skutulsveinar riddarar, sem áður hvort um sig ekki veizt hafði, nema stöku mönnum [2] í hverri stèttinni; og má af vorum Llb. 18. kap. ráða skýrlega, að sá heiðurs titill hefir eigi þá í fyrstunni, og nokkuð fram eptir öldunum, verið jafnhár að virðíngu, sem síðar gjörðist; því að landnám riddara er þrem aurum lægra, en merkismanns, stallara eður barúns, og einum tveim aurum hærra, en landnám hölds. Svo er það ljóst af Hirðskrá, að skutulsveinar hètu með rèttu hirðstjórar, og áður er sagt, að þeir sem annó 1274 hètu skutulsveinar, þeir sömu hètu riddarar annó 1277 og upp þaðan.

[3] Nú verð eg aptur til þess að hverfa, sem fyrr er sagt, að sæmd þessarar riddara nafnbótar hefir svo stórum vaxið, síðan konúngarnir gáfu með henni þau gullegu vopen, að nú er hún [4] stigin upp yfir barúna titilinn, sem áður voru fyrir ofan riddara, svo lengi sem þeir hètu allir riddarar, sem þegið höfðu aðalhjálm og skjöld, og þar á ofan eru enn þá meðal þessara forgyltu riddara aðrir hærri en aðrir. Svo er í Danmörk „Elefanten“ [5] hærri en greifarnir, sem ei hafa greifa lèni, en greifarnir þó fyrir ofan „Dannebrogen“, [ en „Dannebrog“ þó hærri en barúnarnir [6], sem þó hafa fríherra lèni. Allt þetta bevísar Kristjáns fimta forordníng annó 1699, 4. [7] Febr., og síðan Friðriks fjórða forordníng 11. Febr. 1717. *Aureum vellus* er hærra en „Hosebaandet“ [8], sem fátt veit eg af að segja, og það fátt, sem eg veit, er mèr of hátt um að skrifa; en því hefi eg þessa minnzt, að íhugað verða megi, það [ nú má eigi [9] dæma slíkra forgyltra riddara landnám eptir vorri bók lægra en barúna, svo sem opinbert er af áður cíteraðri forordníngu; heldur verður nú sá riddara heiður, sem lögbókin umtalar, eptir því metinn að verða, sem þá var fólginn í aðalhjálmi og skildi; um hvern heiður að skýra sèrdeilis hvert eitt það aðalsbrèf, sem konúngarnir útgefið hafa þeim eður

1) vantar í B. 2) manni, B. 3) § 19, B. 4) hann, A. 5) Elefantenen, B. 6) frá [ vantar í A. 7) 11, B. 8) hosu-bandið, A. 9) eigi megi, B.

þeim, er þann heiður hafa þeir veitt í það sinn, en almennilega, svo að til allra náir þeirra, sem slíks heiðurs njóta mega; tala þar um dönsku lögin Kristjáns fimta hálofiegrar minníngar, *lib. 1. cap. 2. art. 2.* og NL. *lib. 1. cap. 2. art. 9.*, *item* sama konúngs fororðníng af 11. Febr. 1670.

[1] Þessir *ordines* riddara standsins eru þeir helztu[2], sem fyrir mèr [ orðið hafa:[3]

1. *Sti. Johannis* riddarar, stiptaðir *anno Chr. 1113.* Þeirra vopen var rauður kross. Árstalið segir Alsteð pag. 2188, Vaabenet[4] sá danski Pílagrímur[5].
2. *Ordo cruciferorum, confirmeraður anno Chr. 1197,* sem vottar Alsted p. 2181. En ske má, þessir sèu *stæ. Mariæ* riddarar; þeirra vopen var hvítur kross á svörtum klæðum hægra megin á brjóstinu. Hann gjörðist síðan rauður, sem vottar sá danski Pílagrímur, pag. 898. Vel kynni ske, að þessi *ordo* væri jafngamall hinum næst áður setta. Þessara *Cruciferorum* getur Cluverus margfaldlega í sinni *historia universali,* og svo Hvítfeld, *Tom. prim. pag. 150.* Þar segir Hvítfeld, að *anno 1188, 1189* hafi margir herrar tekið þenna riddara kross, en getur ei um litinn.
3. *Equites Rhodii,* eður Die Rhodiser-Herren, eru ein grein af *sti. Johannis* riddurum, sem með tíðinni komust[6] víða um lönd.
4. Þegar þeir mörgu stór-herrar af *Europa,* og flestir af Þýzkalandi voru fjölgaðir í Jerúsalem, þá hófst anno 1191 sá jerúsalemski Þýzkra riddara *ordo* undir einum „Hermeister", sem hèt Henrik Walpott, konfirmeraður af Celestino páfa [það] sama ár.
5.[7] Og af þessum *ordine* er sú grein, sem kom[8] norður híngað í Þýzkaland, í Praussen, og voru kallaðir „þeir Þýzku hermeistarar" *teste* Hvítfeld, p. 155. Tom. 1.
6. Anno 1204 stiptaði Innocentius 3. Sverðbræðra - Orden; þeir komu frá Gyðíngalandi og voru ein kvísl af hinum áður töldu riddurum. Þeirra Vaaben[9] var tvö rauð sverð og ein rauð stjarna á hvítri kápu; þeir numu staðar í Líflandi. Þeirra fyrsti meistari hèt Vinnó; hann dó 1223, *teste* Hvítfeld, p. 162.; *v. Cluv. Histor. universal. p. 554.*

---

1) § 20, B. 2) sèrlegustu, B. 3) hafa borið, B. 4) vopenið, A. 5) Pílegrim, A B. 6) komu, A. 7) vantar í B. 8) komin er, B. 9) vopen, A.

Hann hefir ártalið 1208, en Alstedius setur 1217 ár þeirra innkomu til Líflands.

7. Af þessum tvennum, þeim þýzku hermeisturum og þeim líflenzku sverð-bræðrum, voru það *reliquiæ*, sem áður er getið að Resenius minnist í *Friderici 2.* Chronicu, og voru hvorirtveggja frægir herrar.

8[1]. *Anno 1328* var í Portúgal stiptaður nýr riddara-*ordo*, þeir voru kallaðir Christi riddarar, og allir þessir skyldu verja kristinna pótentata ríki fyrir ágángi heiðinna, en brjóta heiðin lönd til kristinnar trúar, *v.* Alst. *p. 2184.*

9[2]. *Ordo equitum aurei velleris* segir Cluver. pag. 669. stiptaður sè af hertoganum *Philippo Burgundiæ duce anno 1430,* þegar giptist prinsessan Ísabella af Portúgal. Aðrir skrifa, að þetta riddara stand hafi keisarinn Sigismundus innsett nokkru fyrri. Helvicus setur árið 1428. En *Christianus Matthiæ in Theatro Historiæ, pag. 678,* greinir ei, hvað hann meinar, þar hann talar um *Sigismundum* þessum orðum: „*Insignitos ornamentis novis in sublimiorem imperii ducem ordinem traduxit, idque in synodo Constantiensi*“[3] Hún endaðist 1416. Hvort heldur nú að *Philippus Burgundus anno 1430*, eður keisarinn Sigismundus, 1428, eður fyrr hafa stiptað þetta riddara stand af Gull-reifinu, þá er víst, að sá *ordo* nú á þessum öldum[4] er efstur eður með þeim efstu metinn. Vaabenet[5] er sauður af gulli gjör, og kalla menn það í líkíngu gullreifisins, sem Jason sókti til *Colchos.*

10[6]. *Ordo equitum sti. Michaelis* er stiptaður af *Carolo 7mo*, Frakklands konúngi, annaðhvort ár 1430 eður 1431, sem Cluverus vottar. Vaabenet[7] er hálsband af gulli, og nistið í hálsbandinu, sem á miðju brjóstinu skal hánga, er *sti. Michaelis* líkneski af gulli gjört, sem vottar Resenius í *Frider. 2di chronicu pag. 60.*

11[8]. *Ordo equitum periscelidis*[9] er stiptaður af Eduardo 4to, Englands konúngi. Hann kom til ríkis 1461; en 1465 tók *Carolus Audax* hertogi af Burgundien þetta riddara stand, þegar hann fèkk til ekta systur kóngs *Eduardi,* sem vottar Cluverus, *pag. 669,* og því skyldi þar á millum það riddara stand innsett vera. Vaabenet[10] er gullegt hosu-

---

1) 7, B. 2) 8, B. 3) constantinensi, A. 4) dögum, B, 5) vopenið, A. 6) 9, B. 7) vopenið, A. 8) 10, B. 9) periscillidis, A; periscellidis, B. 10) vopenið, A,

sigling hans. „Ölver (hússkarl Þóris hersis í Fjörðum) [tók[1]] róðrarferju, ok voru þar á 12 hússkarlar Þóris". *Mox:* „Egill rèðst til þrettándi, því skipskostur var ærinn". Svo sýnist og, að róðrarferjur hafi verið þau tvö skip, sem Sturlusynir, Snorri, Þórður og Sighvatur, lètu sækja, og Rosmelíngar (eg ætla að eigi að vera Rosmhvelíngar af Rosmhvalanesi) áttu í Hvítá, er þeir Snorri vildu berjast við kaupmennina af Orkneyum; Sturl. *lib.* 3., *cap.* 45. En skip þeirra sömu Orkneyínga, er þar er og svo ferja[2] kallað, er gátulaust að var hafskip það sama, er þeir höfðu siglt út híngað. Um það talar sagan *loco citato:* „Kaupmenn voru úti á Seljueyri, ok höfðu hirt far á skipi[3], ok lögðu út í álinn ok lágu þar við strengi. Sturlusynir lögðu at ferjunni ok vildu höggva strengina, en kaupmenn höfðu reyrt járni ok vörðust drengilega með skotum ok grjóti, [ok[4]] fengu Sturlusynir ei at[5] gjört, ok urðu frá at víkja, en þeir Þorkell sigldu á haf, ok urðu aptrreka um haustið á Eyrum[6]". Má þar af sjá, að róðrarferjur voru það, er Sturlusynir höfðu, að þeir börðust ei um borð nè stafna sakir borðhæðar-munar á ferju kaupmanna. Það er enn til merkis um stærð sumra þeirra[7] skipa, sem ferjur[8] kallast, sem segir í Noregskonúngatali, þegar Hárekur úr Þjóttu sigldi gegnum Danaher í Eyrarsundi, og hafði tekið af skipi [sínu[9]] segl og mastur og annan búníng, en breidt grá tjöld yfir, og lèt svo róa í nokkrum rúmum, þá sögðu varðmenn Knúts konúngs, að síldarferja[10] mundi; en eptir á, þegar segl Háreks var upp komið og búníngur allur, segir: „Gekk þá skeiðin fram í sundit". Af þessu merkist, að það var eigi fyrir vaxtar sakir skipsins auðþekt til að sjá, þá af var búníngurinn, hvort skipið var heldur skeið eður ferja.

8. Galeiður. Þeirra skipa man eg ei að í vorum sögum getið sè norðar en [út[11]] við Spán, og í miðjarðarsjónum. Segja það bæði Snorri Sturluson og Noregskonúnga-sögur, að þegar Sigurður konúngur Jórsalafari sigldi fyrir *Spanien* (ɔ: *Hispaniam*), bar það [að[12]], að víkíngar nokkrir, er fóru að fèfaungum, komu á móti honum með galeiðuher, en Sigurður konúngur lagði i orustu [við þá, og hóf þar hina fyrstu orustu[13]] við heiðna menn, og vann af þeim 8 galeiður. Líka getur Noregskonúnga-

1) [ ] vantar í B. 2) B. ferir. 3) A. hert-skipum. 4) [ ] vantar í B. 5) A. við. 6) B. Eyrunum. 7) B. þessara. 8) B. ferir. 9) [ ] vantar í B. 10) B. fari. 11) [ ] vantar í B. 12) [ ] vantar í B. 13) [ ] vantar í B.

tal um þessa orustu, og að Sigurður konúngur vann 8 galeiður af heiðnum mönnum, en það telur þá hans þriðju orustu verið hafa. Það segja líka Noregskonúngasögur um Harald Sigurðsson, sem síðan varð konúngur í Noregi: „Þá nótt, er hann fór síðast af Miklagarði, tóku [þeir[1]] (Haraldur og hans Væríngjasveit) tvær galeiður; skipuðust Væríngjar þar á, ok reru út í Sæviðarsund. En er þeir komu[2] þar, sem járnrekendr[3] lágu um þvert sundit, þá mælti Haraldr, at menn skyldu skipast til ára á hvorritveggja galeiðunni, en þeir, sem ekki reru, skyldu allir hlaupa aptr í skipit, ok hafa húðföt sín með sèr eðr annan þúnga. Rendu þá galeiðurnar upp á rekendurna, ok þegar er festi ok skriðit tók af, þá bað hann alla menn hlaupa fram á skipit. Þá steypti galeiðunni þeirri, er Haraldr var á, ok stökk sú[4] af járnunum [við riðin, en önnur sprakk á járnunum[5]], ok týndist þar margt manna[6], en sumir voru teknir af sundi". Með þessu komst Haraldur af Miklagarði; fór svo inn í Svartahaf. Snorri Sturluson kveður svo að: „Önnur sprakk, [er reið[7]] á[8] járnunum", og segir hann eins þennan atburð allan, bæði um galeiðurnar og aðra hluti. Sýnist mèr því ljóst, að eigi hafi þessar[9] galeiður stórskip verið, er þeim steypti svo fljótt bæði aptur og fram við þann þúngamun, er menn kunnu svo í einni svipan að hræra um skipið, fyrst aptur og síðan fram, svo nær sem hendi skyldi veifa; en laung hafa þau að sönnu verið, ella kunni riðið ei að verða svo mikið, sem til þessa þurfti. Hvorki skýrir Snorri nè sögurnar fremur af þeim skipum nè vexti þeirra. Nafnið er enn nú tídt á skipum þeim, er í miðjarðarsjónum[10] brúka bæði kristnir menn og Tyrkjar; er þeim skipum bæði siglt og róið, og er sá róður meðal Tyrkjanna hafður til að áþjá kristna fánga nú á þessum dögum. En hvort form þeirra eður smíðislögun sè þar fyrir öll hin sama nú á dögum, svo sem þá var, þykir mèr ei með öllu víst, þó nafnið haldist. *Laude nostra major Gerhardus Vossius, Instit. orator. lib. 5., cap. 11., sect. 7. p. m. 38.*[11], lætur *naves longas*, lángskip, og galeiður vera hið sama, og kallar *galeidam* öðru nafni *galeam* eða *galeonem*. Kann eg eigi að skilja, að af þessum skipum verði ráðið, hvað það sè sessum skip að telja eður áhöfnum skipa, og gjöri mèr því ekki framar áhyggju um galeiður eður vöxt

1) [ ] vantar í B. 2) A. láu. 3) B. innrekendur. 4) B. stukku. 5) [ ] vantar í B. 6) A. margir menn. 7) [ ] vantar í B. 8) B. af 9) A. slíkar. 10) Báðar: Miðjarðarsjó. 11) B. 308.

nè skipan þeirra, því mèr sýnist, að bæði *Homerus* og *Herodotus* geti miklu stærri skipa, sem eptir á skal sýnt verða, þá um liðsfjöldann getur, og eru[1] þeir þó svo miklum mun eldri, sem öllum er kunnugt. Og ef *eikosoros, Hom. Od.* 9., 322, væri efalaust sama og *eikosieres*, þá er það tvítugsessa.

9. Hafskip. Þessi glósa á ekki meira skylt við eitt skipaform heldur en annað, því að þetta nafn eiga þau öll saman, sem fyrir vaxtar sakir eru svo stór, að þeim má yfir haf sigla landa á milli, og er þeirra vaxtarmunur svo geysilega mikill, að hin smæstu sýnast þá líkari bátum en hafskipum, þegar þau eru þeim stærstu mjög nærri.

10. Herskip. Þetta nafn nær mjög víða niðri, og það ei á hafskipum alleina, heldur og á þeim, sem eru miklu smærri, svo sem hèr eptir mun sagt verða um skútur [og[2]] karfa, skeiður og lángskip, kneri og kugga, kaupskip og snekkjur.

11. Karfi. Þau skip, er svo heita, voru mjög misjöfn að vexti. Eitt hefi eg dæmi til, að karfi sè kallaður bátur sá, er að ferju var hafður yfir á. Svo segir Ólafs saga Haraldssonar eptir Flateyarbók, kap. 83., um för Sighvats skálds frá Ólafi konúngi til Rögnvalds jarls á Gautlandi: „Síðan fóru þeir[3] til Eyðaskógs, ok fengu ilt far yfir ána, eykjukarfa nokkurn[4], ok komust nauðuglega[5] yfir ána. Þá kvað Sighvatr:

Lèt ek til Eyðs, því at óðumst
aptrhvarf, dreginn karfa,
vèr stiltum svá, valtan,
vátr, til glæps á báti;
taki hlægi-skip hauga
herr, sák-at ek far verra,
lèt ek til hafs á hrúti
hætt, fór betr en ek sætta[6]“.

---

1) A. voru. 2) [ ] vantar í B. 3) Báðar: fóru þeir austur. 4) Báðar: einn. 5) Báðar: naumlega. 6) Sjá Fornmannasögur, Kh. 1829, 4. bindi, bls. 185. Vísuna hefir sitt handritið með hverju móti, þannig:

| A: | B: |
|---|---|
| Læt ek til liðs, en óþum | Læt ek til Eiðs en óþum |
| apturhvarf dreginn karfa | apturhvarf dreginn karfi |
| vær stiltum svo valtan | vær stiltum svo valtan |
| vátur til glæps á báti; | vátur til glæps á báti |
| taki hlæis skip hauga | taki hlægisskip hauga |
| herfák ek far verra | her sákek fara verra |
| læt ek til heims á hrúti | læt ek til heims á hrúti |
| hætt fór betur en mættak. | hætt fær betur en mættak. |

Annað mitt *exemplar* af Ólafs sögu, *apographum nobilis membranæ*, segir hèr: „Fóru þeir austr til Eyðaskógs ok fengu ilt far yfir ána ok komust naumlega[1] yfir", svo að hún úti lætur orðið „eykjukarfa einn", og ei hefir hún þessa vísu Sighvats. Nú sýnist mèr heldur en ekki til gátu, hvort þetta muni rètt skrifað eptir *membrana*. En um *autoritatem* Flateyarbókar *dispútera* eg ekki; það er þeirra verk, sem betur kunna. Hitt finn eg, að Frostuþíngsbók segir: „Nú ef ár falla við þjóðgötur, þær sem ei eru stórskipum færar, þeir skulu gjöra veg færan, er jarðir eigu tvo vega[2] at, ok gjöra brú yfir, ef þeir hafa afla til, eðr flota ok tog í bæði lönd, eða prám, eða Æikkju, nema öðruvísi hafi fyrr verit". Og enn segir Sæmundar-Edda í Harbarðs-ljóðum, p. 58.: „Þórr kvað: Stýr þú híngað Æikjunni, ok mun þèr stoðna kenna, eðr hverr á skipit, er þú heldr við landit?" Þetta hvorttveggja samanborið sýnir berlega, að æikja eður eikja er[3] skip það, sem á ferjustöðum er haft til flutníngs yfir ár, sund eður voga. Mætti ske þau hefði nafn af því, að þau í flutnínginum koma í staðinn eykja, það er hestanna, því varla munu þau eintrjáníngar verið hafa, svo þau hafi nafn þar af, að þau sèu af einni skógareik smíðuð. En hversu sem því[4] er varið um *etymon* þeirra eður nafnsins uppruna, þá mundi eg tvíllaust ætlað hafa það vera *synecdochen speciei*, er Sighvatur í vísunni nefnir karfa, eins og hann kallar þar sömu ferjuna bát, skip, far, hrút, ef eigi stæði fyrir framan eykjukarfi nefndur. Nú fyrir utan þennan[5] vonda bát man eg mig ei lesið hafa getið annars karfa minna en þess, er átti Rögnvaldur, son Eiríks konúngs blóðaxar, í Egils sögu Skallagrímssonar: „Rögnvaldr konúngsson átti karfa einn; reru 6 menn á borð; hann var steindr allr fyrir ofan sjó; hann hafði með sèr 10 menn eðr 12, þá er honum fylgdu einart". Þar um talar sama saga, þá er Egill sótti til hafskipsins frá vígi Bergönundar og ráninu á Aski í Fenríng: „Reri utan í móti þeim Rögnvaldr konúngsson ok þeir 8 saman á karfanum þeim hinum steinda; ok síðan er Egill sá skipit, þá kendi hann þegar. Hann stýrði sem beinst[6] á þá, ok er skipin (karfinn Rögnvalds og farmabáturinn Egils) rendust á, þá kom borð skútunnar (farmabátsins, sem Egill fór með) á kinnúng karfans; hallaði honum svo, at sjór rann inn á bæði borð ok fyldi skipit. Egill hljóp þá upp ok greip kesju, hèt á

1) B. nauðuglega. 2) B. hvorttveggja. 3) B. sè. 4) A. þessu. 5) B. þann. 6) B. beint.

menn sína, at þeir skyldu engan með lífi láta burt[1] komast, þann er á karfanum var". Annan stærri karfa nefnir sama saga miklu fyrri, þar eð segir af Þórólfi, bróður Egils: „Þeir (Björn af Örlandi og Þórólfur Skallagrímsson, er þeir fóru inn[2] í fjörðu til Þóris hersis; þar var Eiríkur blóðöx á fóstri) höfðu karfa þann, er reru [á borð[2]] 12 menn eðr 8, ok höfðu nær 30 manna. Skip þat höfðu þeir fengit um sumarit í víking; þat var steint mjök fyrir ofan sjó ok hit fegursta". Og síðan: „Skipit (þessi sami karfi) flaut tjaldaðr fyrir[3] bænum". Síðan, er Eiríkur blóðöx friðaði fyrir Þórólf hjá Haraldi konúngi, kallar Eiríkur þennan karfa ágætan grip og dýrgrip. Þriðja karfann nefnir Grettissaga, kap. 20.: „Hann (Þorfinnur [í Hamarsey fyrir[4]] Sunnmæri) lèt setja fram karfa, er hann átti; reru 15 menn á borð; þá voru á karfanum nær 30 manna". Og síðan kap. 21.: Þar (í naustinu, sem berserkirnir komu að) stóð inni karfinn Þorfinns hinn stóri; hann settu aldrei færri menn á sjó en 30". Og enn aptur kap. 22.: „Þeir sáu, at skip mikit lá á sandinum, ok bera skjótt kennsli á, at þat var karfi hans hinn stóri". Alt þetta samanborið sýnir glögt, hvað misstór skip að karfar hafa verið, og það með, að þeim var róið að endilaungum borðunum, svo sem áður segir, að Sverrir konúngur lèt gjöra á byrðíngum, og lágu ekki árarnar yfir skipið þvert, svo sem á lángskipum, hvar um síðar talar; en að karfar hafi og í herskipaflota brúkaðir verið, sýnir Sverrissaga, kap. 156.: "Konúngr lèt taka karfa nokkurn, er Önundr ófriðr átti, ok lèt draga út um eyrarnar þverar; gekk þar mikill mannfjöldi umhverfis svo þykt, at ekki mátti sjá til skipsins, ok þegar kom at sjónum, sá Nikulás biskup skipit, bað hann sína menn ljósta í árum sem harðast, ok takit undan sem þèr megut"[5]. Og síðan, er biskup hafði undan dregið, segir sagan: „Önundr sá, at honum mundi ekki þetta hlýða (að taka biskup), ok sneru aptr við svo búit, ok fengu ekki meira af Nikulási biskupi, en kveif hans höfðu þeir (Birkibeinar) til jartegna". Hèr er að merkja, að biskup var á lángskipi tvítugsessu, og það átti Önundur að sækja, *item* hitt, að ei var karfinn borðhár, að ekki mátti sjá hann upp yfir mannfjöldann, er gekk umhverfis. Er það og enn að merkja, að slík skip munu mjög hafa skjót verið undir

1) B. undan. 2) [ ] vantar í B. 3) B. tjaldið yfir. 4) B. Þorfinnur frá Sunnmæri. 5) Sjá Fornmannasögur, Kaupmannah. 1834, 8. bindi, bls. 377. Handritin lesa grein þessa með litlum orðamun.

árum, er karfi var helzt til þess valinn, framar en önnur skip. Og ljóst er, að ráðið var þetta skip til bardaga, því eigi mundu biskupsmenn á Rauðsúðinni hafa kyrrir fyrir setið, og má þessi karfi hafa verið ærið stór, og hvergi minni, en karfinn stóri Þorfinns bónda. Ólafs helga saga *ex membrana*, kap. 40., getur karfa þess, er sýnilegt er að verið hafi fullkomið lángskip ok sessum talið, en eigi róið að endilaungu borði; þar segir: „Hann (Ólafur konúngur) gaf Katli á Hrínganesi karfa tvítugsessu, ok flutti hann karfann upp eptir Ræimelfi *(lege* Raumelfi), alt í Mjörs". En hvar af svoddan skip hafa það nafn, að heita karfar, er fyrir mèr vandskilið. Eg ætla það efalaust af einhverju smíðislagi slíkra skipa, því er körfu *(corbi)* hafi líkt verið, muni skipin hafa fengið nafn, eins og drekar voru kölluð skip af orma eður dreka höfði og sporðamyndum fram og aptur. Snorri Sturluson segir um herför Magnúsar konúngs góða til Danmerkur: „Magnús konúngr hafði þá Vísund hinn mikla, er Ólafr konúngr faðir hans hafði gjöra látið; hann var meirr en þrítugr at rúmatali; var á framstafni vísundarhöfuð, en aptan sporðr". Svo segir Njála, kap. 75., þegar Þráinn Sigfússon drap Kol, útlaga Hákonar jarls, og færði jarli höfuð Kols: „Jarl þakkaði honum verk sitt. Eiríkr kvað meira vert en orða einna. Jarlinn svaraði, at svo væri, ok bað þá gánga með sèr. Þeir gengu þángað, sem jarl hafði gjöra látið skip gott, þat er ei var gjört sem lángskip. Þar var gammshöfuð á ok búit mjök. Jarl mælti: Þú ert skrautmaðr mikill, Þráinn! ok hafið þit svo báðir verit frændr (þið Gunnar). Vil ek nú gefa þèr skip þetta, en skipit heitir Gammr, þar skal fylgja með vinátta mín". Svo hafði bæði Vísundurinn og Gammurinn nafn af höfðinu. Það er nú til vitnis hèr um, er segir Ólafs helga saga, kap. 38.: „Ólafr konúngr hafði þat skip, er Karlhöfðinn hèt; þar[1] var á framstafni karlshöfuð, ok [hafði[2]] Ólafr konúngr sjálfr þat skorit". Hèr á það skylt við, og sèrdeilis við karfann, er skrifar *Gerhardus Vossius* eptir *Festo de Analog., lib.* 1., *in addend. ad pag. 35. num. 23.: „Corbitæ dicuntur naves onerariæ, quod in malo eorum pro signo corbes solebant expendi"*. Þetta segir: *corbitæ* eru kölluð farmaskip, af því að út af mastri þeirra er venjulegt að hengja körfur fyrir merki.

Lyptíng heitir á skipum húskorn aptan, það sem nú er

1) B það. 2) [ ] vantar í B.

Kahytte kölluð. Sýnist mèr á sögunum, að hún hafi verið á lángskipum alleina og þeim öðrum, er sessum telja mátti; en af því karfarnir ekki voru tíðum svo stórir, og þó prýði-skip, þá muni lyptíngin á þeim hafa gjör verið með karfarformi, og karfa kölluð verið, og skipin svo af henni nafn fengið. Er það gátulaust, að flestöll skip fornaldar hafa nafn haft, annaðhvort af byggíngarformi, svo sem bússur, drómundar, galeiður, lángskip, knerir, kuggar, skútur, eins og nú á dögum heita þau: Fleite[1], Galiot, Spegelskib[2], *etc.*, eður af *insignibus* eður merkjum þeim, sem á þau voru máluð eða úthöggvin, framan eður aptan eður hvorttveggja, svo sem Ormurinn lángi, Vísundurinn, Drekarnir, Snekkjurnar, Gammurinn, og nú á dögum *Elefantinn,* norska Ljónið, *etc.* Votta slíka hluti dæmin ótalföld í fornsögum, svo sem þjórsmyndin á skipi því, sem konúngsdótturina *Europam* færði frá *Phöniciu* til Kríteyar, og þvílíkt annað, sem *natalis comes Mytholog., lib. 8., cap.* 23., *p. m.* 918, um talar, og er þetta snemma á öldum til tekið. Skal eg gjöra tímabilið ótæpilegt, og geta þar næst þjórshöfuðsins á skipi Þórarins, sonar Þorkels úr Alviðru, sem Landnáma *p. 352*[3] greinir að út kom í Þjórsárós, og fèkk áin þar af nafn sitt eptir skipinu. Sýnir þetta, að framan að öllum öldum alt til vorra daga hafi sú tiðkan á verið.

12. Kaupskip. Þetta skipsheiti eiga saman bæði knerir og kuggar, sem brádt skal sagt verða og sýnt með rökum, og líka á þetta nafn heima hjá ferju og bússu, sem áður er greint. En að það sè hèr fyrir utan sèrdeilis skipsform eður bygging, sem hin nöfnin ekki nái[4] til, veit eg ekki; því öll kaupskip ætla eg með rèttu kallast eiga einhverju þessu tilgreinda skipsnafni.

13. Kjöll eður Kjölur er skipsheiti, ei alleina almennilegt, svo sem í Völuspá: „Kjöll ferr austan", því hèr kynni það að vera *synecdoche membri,* heldur einslags skipum eiginlegt, sem sýnir Orkneyíngasaga, *cap.* 108.: „Er þeir Sveinn Ásleifarson komu hart nær suðr undir Dýflin, þá sigldu þar af hafi kjölar tveir, er komnir voru af Englandi ok ætluðu til Dýflinnar; þeir voru hlaðnir enskum klæðum, ok var þar á gæzka mikil. Þeir Sveinn lögðu at kjölunum, ok buðu þeim til bardaga. Lítil varð vörn enskra manna, ok ræntu þeir þar[5] hverjum peníngi; þeir, sem voru á kjölunum, nema enskir menn,

1) A. Fløyte. 2) B. Speigilskip. 3) báðar p. 62. 4) B ná. 5) B þá.

höfðu ígángsklæði sín ok nokkrar vistir, ok fóru síðan með kjöluna". Og síðan í sama kap.: „Hann hafði tekit af kjölunum vín mikit ok mjöð enskan".

Af öllu þessu er ljóst, að kaupskip hafa þessir kjölar verið, en hvort allstór, er til gátu[1], því að hafið á milli Englands og Írlands eru einar 12 vikur sjáfar, eptir mæli sjókortanna. Það er og eigi glögt af því að ráða, sem áður segir í þessum kapítula, að Sveinn hafði í herför þessa 5 róðrarskip og öll stór, þó eg eflaust [meini[2]], að þau róðrarskip hafi minni verið en lángskip; því að sá titill, að heita róðrarskip, er ávalt í þá meiníng[3] tillagður í öllum þeim dæmum, er hèr verður getið, að gjöra þar með aðgreiníng frá hafskipum og lángskipum. Lúta[4] því til þess allar líkur, að kjölur muni smá kaupskip verið hafa, og líkast ekki fær í stórhöfum. Þó mætti það gjöra stóran athuga um vöxt þeirra[5] skipa, er kjölar hètu, sem Þormóður skrifar *in serie dynastarum Daniæ, lib. 2., cap. 10., pag. 205*[6], af *Jacobi Varæi Antiqtt. Hybernic. cap. 2.*, að *Nennius* tali um það, *Partholanus* einhver, og *Nemethus* og loksins þeir synir einhvers herfaramanns úr *Spanien* hafi farið til Írlands búferlum eða landnámsför 120 kjölum *(cuilis)*, það sè skipum svo kölluðum. Er það öllum kunnugt, að hafið frá Spanía til Írlands er geysimikið og hætt mjög fyrir stórsjó, því skyldu þeir 120 kjölar engin smáskip verið hafa. En hèr liggur það svar til, að sjómenn þeirrar aldar voru áræðismenn, sem[7] Grettis-saga, kap. 62., kveður að þeim, er voga skyldu í gljúfrið[8] undir forsinn hjá Sandhaugum, og nú kalla danskir voghálsa, og þoldu vosbúð furðu-vel, altamir á sjótrjám, svo sem Norðmenn, er híngað til landsins[9] færðu konur og börn og kvikfè á misjafnt stórum skipum, þótt knerir ættu að heita [og[10]] kaupskip; er því líkast, að svo hafi kjölirnir verið allmisjafnir[11]. Eg efast ei um, að sama slags skip, sem kjölir hètu[12] og nú var getið að *Varæus* kalli *ciulos*, sèu og þar meint, sem í Sachsens Spiegel *lib. 3., Art. 44. fol. m. 214. b.*, nefnir í textanum þeim þýzka Kylen, og *in glossa fol. m. 205.* der Kyel. Þar hefur sá latínski texti *galeidas*, og skyldu því kjölirnir vera sama slags skip sem galeiður, um hverjar áður

---

1) B. en hversu stórir til gátu. 2) [ ] vantar í B. 3) B. minníng. 4) B. láta. 5) A. þessara. 6) A. 185. 7) B. en. 8) B. undir gjálfrið. 9) B. lands. 10) [ ] vantar í A. 11) B. misjafnir. 12) A. heita.

er talað. Þormóður *Orcad. lib. 1., cap. 5., pag. 7.*, kallar *ciulos* vera *myoparones*[1]. Það ætla jeg nær, að kalla svo skerbáta og slúffur, heldur en galeiður; en það liggur hèr svar til, að þótt skipin, hverslags sem þau eru, eigi nafnið saman, þá er vaxtarmunur sama nafnsins yfrið stór að fornu og nýu, því að form skipanna ræður nafninu, en eigi vöxtur þeirra.

14. Knör. Þau skip voru allstór[2] og haffærandi; heita þau í sögunum ýmist kaupskip eður knerir, svo segir Egils saga Skallagrímssonar: „Þórólfr (Kvöldúlfsson) átti skip mikit; þat var lagt *(intellige:* lagið[3]) til hafs *(intellige:* að fara yfir haf og bera [af[4]] stórsjó [í[5]] höfum); þat var vandat at öllu sem mest, steint mjök fyrir ofan sjó; þar fylgdi með segl stafat með vendi bláum ok rauðum. Allr var reiði vandaðr mjök á skipinu; þat lèt Þórólfr búa“. Og síðan: „Skipi [því[6]] lèt hann halda vestr til Englands at kaupa sèr klæði, etc.“. Um þetta sama skip segir Hárekur[7] Hildríðarson við Harald konúng: „Knörr sá, er mestr var á Hálogalandi, var búinn á Sandnesi“. Aptur segir sama saga, þegar þeir Kvöldúlfur og Skallagrímur bjuggust til Íslands snemma um vorið: „Bjuggu þeir Kvöldúlfr skip sitt; þeir höfðu mikinn skipakost ok góðan, bjuggu tvo knöru mikla, ok á hvorum 30 manna“. Um þessa Íslandsfarar-knöru segir Landn. *cap. 18.*[8], *pag. 39.*: „Bjuggu þeir Grímr ok Kvöldúlfr kaupskip ok ætluðu til Íslands“. Og síðan þeir höfðu drepið þá Hallvarð og Sigtrygg og Guttormssonu, segir Landnáma *pag. ead.*: „Þar tóku þeir knör þann, er Haraldr konúngr lèt taka fyrir Þórólfi“; það er sama skipið, sem hèr var næst áður frá sagt. Síðan lètu þeir feðgar eptir sitt hið minna skip, sem þeir áður höfðu, en Kvöldúlfur stýrði því, er þá var nýfengið af þeim Hallvarði. Síðan þegar þeir voru komnir til Íslands, kallaði[9] Skallagrímur þar Knararnes, er fyrst bar hann farm af skipi. Ketill hængur, er hann fór fyrst til Íslands eptir dráp Hildríðarsona, tók knöru tvo, þá er hann fèkk mesta (Egils saga); þeim lenti hann í Rángárósi, er sjálfur hann stýrði; Landn. Sunnl. fjórð., kap. 3., *pag. 329*[10]. Svarfdæla segir, kap. 3., að Þorsteinn mælti við Þórólf bróður sinn: „Vilda ek þú keyptir okkr lángskip tvö, en þú haldir kneri okkrum í

1) B. mynoparones. 2) A. öll stór. 3) B. lagað. 4) [ ] vantar í B. 5) vantar í B. 6) [ ] vantar í B. 7) B. Haraldur. 8) Báðar: kap. 8. 9) B. kalla. 10) Báðar: 151.

kaupstaði, sem þú ert vanr". Hèr á að gæta þess, að Þórólfur var vanur að fara í kaupferðir [með þennan knör. Enn segir sama saga, kap. 4.: „Knör þenna, er ek hefi keypt, ætla ek þú skulir halda í kaupferðir[1]]", og mörg eru þess dæmi, svo of lángt er upp að telja. Enn segir það *appendix* Landnámu, p. 389[2], að knör tók upp undir Eyafjöllum, þann er var 26[3] rúma, og hvelfdi á lopti. Sama getur kristindómssaga, kap. 14., nema hún segir 27 rúm, og skuli það hafa verið það ár, sem G i s s u r[4] biskup andaðist, það var 1118; en trautt munu rök verða sýnd, að í þann tíð hafi hèr á landi hafskip önnur verið, en kaupför alleina; og ætla eg svo skýrlega sýnt, að knerir og kaupskip sèu alt hið sama. Eru þar á ofan mörg [þau[5]] örnefni hèr á landi, sem við knöru e r u k e n d[6], svo sem K n a r a r n e s í ýmsum stöðum, og K n a r a r b r j ó t u r, skerið í[7] strauminum á Hvamms-fjarðarmynni. Það á og ekki hèr að gleymast, að knör þessi, sem seinast var getið, er greindur að rúmatali.

15. K u g g a r voru stór kaupmannaför, eins og þeir, sem Norðmenn kölluðu austurfararkneri. Sverrissaga, kap 86., bls. 209., segir: „Gestir (Magnúsar konúngs) höfðu fleyit mikla (í bardaganum við S o g n s æ[8]); þat er austrfararskip". Til þessa austurfararskips og þeirra tveggja íslenzku kaupfara, sem hètu K á p a n og V a l l b ú s s a n, er Magnús konúngur tók í Konúngahellu til þessarar herfarar, mun hann hafa meint kap. 89.; hann sagði: „Kaupskip þessi en s t ó r u[9], er vèr höfum þar, má lítt róa á". Um svoddan kugga talar Sverrissaga, kap. 103.: „Suðrmenn (þeir eru í sama kapítula kallaðir þýðverskir, það er þýzkir, í öðru hverju orði) hlupu til skipa sinna, er þeir höfðu siglt til Björgvinar, ok lögðu kuggana út á voginn alla saman". Um þá kaupmenn og skip þeirra talar Sverrissaga, kap. 104.: „Þýðverskir menn, sem híngað e r u[10] komnir með stórskipum". *Item* segir Sverrissaga, kap. 113., um hernað Eiríks jarls, bróður Sverris konúngs: „Þeir urðu missáttir við Saxi, ok unnu af þeim kugga tvo, ok tóku þar ógrynni fjár". Enn segir Hákonarsaga *capite ultimo:* „Hann lèt grafa út djúp við Skeljastein, svo nú má fara kuggum, en áðr mátti varla[11] smáferjum". Ei hefir það í öðrum sögum fyrir mèr orðið, er

1) [ ] vantar í B. 2) Báðar: 179. 3) A. 25. 4) B. Gísli. 5) [ ] vantar í B. 6) B. kendist. 7) B. á. 8) A. Sognbæ. 9) B. fornu. 10) B. voru. 11) B bætir við: fara.

um kugga gjöri frekari grein að vexti þeirra eður smíði, og eigi sè eg, að þar af fáist undirvísan um spursmál vort, hvernin menn skuli skip sessum telja eður áhöfnum skipa; það[1] alleina sje eg hèr af, að í herskipaflokk hafi þá kuggar komið, er þá vann Eiríkur jarl áðurnefndur, og henti það kaupskip tíðum.

16. Lángskip. Margt er um það athugavert: 1, að þetta nafn á heima við fleiri slags skip en eitt, því að bússur sumar voru lángskip, drekar allir voru lángskip, skeiðar allar voru lángskip, skútur sumar voru í lángskipa-flokkum, snekkjur allar voru lángskip. Hèr á móti er þess að gá, að ekki voru öll lángskip bússur, og eigi öll drekar, ekki öll skeiðir, og eigi öll skútur, og eigi öll (að eg meina[2] snekkjur. 2, Mismunur vaxta lángskipanna var furðu-mikill, og æ voru þau sessum talin eður rúmum, þó eigi sè þess jafnan getið. En því jók meir á vöxt þeirra, sem lengra sótti fram á aldir, svo sem þar af má sjá[3], að Ormurinn [lángi[4]] var mesta skip í sinni tíð; þar allnærri skeiðin mikla Haralds konúngs, en miklu borðhærri lángskip Baglanna 1206, og þó allra stærst Kross-súðin Hákonar konúngs, sem hann bygði 1253. 3, Það sýnist mèr ekki nauðsynjalaust, að geta hèr þess, er sögurnar benda til um þau smáu lángskipin; tel [eg[5]] það mest til marks þar um, er Haraldur konúngur harðráði lèt á einni nóttu draga lángskip sín yfir eiðið um botn Limafjarðar vestur í haf, sem vottar Snorri Sturluson og Noregskonúngasögur. Það annað, að ekki hafa þau 3 lángskip og ein skúta Magnúsar konúngs Erlíngssonar rist djúpan sjó, er hann lèt leggja að eyrunum utan Niðarósbæ, en menn hans stigu fyrir borð strax sem niður kendi, og tók þá sjór undir hendur þeim. Hvar[6] væri nú á dögum svo grunn lángskip að finna, sem bera skyldu menn, vopn og vistir? *v.* Sverrissögu, kap. 62. Nú þótt mèr verði sagt, að skip Haralds konúngs hafi lèttiskip verið, svara eg, að það voru þó herskip, er færðu mannfarminn með vopnum og vistum og herfángi miklu, og fóru hafið alt frá Jullands vestursíðu til Noregs; en hvað sem er um þeirra vöxt að mæla, eru lángskipin 3 tilnefnd í fyrr sagðri grein Sverrissögu. Og lángskip tvítugsessa var karfinn Ketils á Hrínganesi, færður upp eptir Raumelfi [alt[7]] í Mjörs, og mun hún ekki jafnan

1) A. því. 2) A. muna. 3) B. er ljóst. 4) [ ] vantar í B. 5) [ ] vantar í báðar. 6) A. Hvað. 7) [ ] vantar í B.

alldjúp, svo þessarar aldar hafskip um fara megi. 4, Það var og eigi víst á að ætla, þótt rúmatal eður sessar væri jafnmargt, að þar fyrir væri skipin aldeilis jafnstór, því á öðrum voru rúmin[1] meiri en öðrum, sem allvíða finnst í sögunum, og svo ei gjörist eg þar um of margorður, læt eg vitni Snorra Sturlusonar gilda. Hann segir um Trönuna, lángskip Ólafs konúngs Tryggvasonar: „Lèt Ólafr konúngr reisa lángskip mikit á eyrunum við Nið; þat var snekkja". Síðan: „Var þat þrítugt at rúmatali ok stafnhátt, ok ekki mikit í sèr; þat skip kallaði hann Tranan[2]". Síðan segir Snorri um Orminn skamma: „Rauðr hafði dreka mikinn ok gullbúinn; var þat skip þrítugt at rúmatali, ok mikit at því". Síðan: „Þat skip var miklu meira ok fríðara en Tranan; fram var drekahöfuð, en aptr krókr, ok fram af króknum[3] sporðr; þat skip kallaði hann Orminn". Hèr á að merkja: Tranan var þrítug, og svo þetta skip þrítugt, og þó miklu meira en Tranan. *Item:* Það er kallað dreki af höfðinu og sporðinum, sem áður er sagt, og eins þá, að konúngur kallar það Orminn, sem alt er hið sama og drekinn. Um Orminn lánga segir Snorri Sturluson: „Lèt hann (Ólafur konúngur) reisa skip mikit innundir Hlaðhömrum; þat var miklu meira en önnur skip, er þá voru í landinu". Og síðan: „þat var á lengd 4 álnir hins átta tigar, er graslægt var". Síðan: „Mæltu þat allir, at aldrei hefði sèð lángskip jafnmikit". Síðan: „Var þat dreki, ok gjör eptir því sem dreki sá, er konúngur hafði af Hálogalandi (ɔ: Ormurinn skammi, um hvern næst áður talar), ok var þetta skip miklu meira. Konúngr kallaði þat Orminn lánga". Á Orminum voru 4 rúm hins fjórða tigar, segir hin þrykta Ólafssaga, *pag.* 219.[4], en Snorri Sturluson segir: „fjögur rúm hins sjötta tugar; höfuðit ok krókrinn var alt gullbúit; svo voru borðin há, sem á hafskipum;" *vide infra* „Skeið", þar um hið mikla skip Haralds konúngs Sigurðarsonar. Maríusúðin Sverris konúngs var þrjú[5] rúm hins fjórða tugar, og mikið að því; Sverrissaga, kap. 73[6]. Um það talar Sverrir konúngur kap. 80.[7]: „þykir mèr þat vænst, at fáir munu sèð hafa meira lángskip á vatni fljóta". Lángifrjádagur hèt skip Skúla hertoga; það var fjögur [rúm[8]] og 30, sem vottar Hákónarsaga, *anno* 1239. — Man eg

1) B. men. 2) B. Trönuna. Fornm. S. 2. b., bls. 50., kap. 169. 3) B. bætir við: var. 4) Báðar: 230. 5) Báðar: tvö. 6) Báðar: 64. 7) A. 70; B. 7. 8) [ ] vantar í B.

ekki þess getið, að eitt skip sè fleiri sessum talið, nema það strax var mælt, að Snorri segir um Orminn lánga; því það er varla vert að fá sèr til orða, sem mælir sagan af Hálfdáni Eysteinssyni, kap. 24., um það mikla lángskip, [er[1]] átt skyldi hafa víkíngurinn Ragnar, og kallað var Slóði. Sagan segir, að það hafi verið tíræett að rúmatali, og síðan strax þar hjá, að það hafi verið lángskip mest á Norðurlöndum, næst Orminum lánga. Þetta niðurbrýtur sig sjálft. Slóðinn tíræður að rúmatali, Ormurinn 54 rúm, og [þó[2]] skal Slóðinn vera minna skip en Ormurinn; er því ekki vert að svara heimsku þessari; því hann, sem diktað hefir söguna, hefir ekki skilið, hvað væri rúmatal á lángskipum, og ekki hugleidt, að hann gjörði þetta tíræða skip minna en Orminn. Eitt vil eg honum svara, að hann ekki hefir gætt, hvað ómögulegt væri svo laungu skipi að snúa í orustum, hvort sem víkja skyldi til hægri eður vinstri handar, fram eður til baka, og dettur svo þessi sagan um sjálfa sig. Annað geysi-mikið [láng[3]]-skip fornaldar nefnir sama sagan, kap. 12., að Úlfkell snillíngur skuli átt hafa dreka sjötugan að rúmatali, og er það í mínum þánka eins ótrúlegt, sökum óbærilegs erfiðis, að snúa slíku skipi. Styrkir það og þessa mína þánka, sem mælir sagan af Ólafi helga, þegar Knútur [Dana[4]] konúngur hinn ríki var í herför mót Ólafi konúngi og Önundi Svíakonúngi, og stífluflóðið úr ánni helgu rak þann danska flotann [út[5]] af höfninni f r a m[6] á rúmsjó; þar segir, kap. 146.: „Drekann mikla, þann sem Knútr konúngr var á, rak út með strauminum; v a r ð  e k k i[7] auðvikit með árunum svo stóru skipi“. Þegja vil eg um Gnoð, því rúmatal hennar er ekki skrifað í sögunni af Ásmundi berserkjabana og Egli einhenta. Sjá menn, að það er diktur eptir *Homeri Ulysse* og *Polyphemo*. Um Krosssúðina, sem Hákon konúngur lèt byggja 1253, greinir ekki rúmatal eður sessafjölda; en það, er skrifar Pètur Clausson, *p*. 5. og 6., í Ínga konúngs Bárðarsonar *chronico* um þau ýkja-stóru Baglanna lángskip, kann eg ei að skilja betur en svo, að stærð þeirra sú geysi-mikla hafi mest verið af hæð þeirra frá sjómáli, og muni þau hafa verið 24 rúm að sessatali; því hann segir: „T j e l d í n g i n[8] var 35 álna laung“; sýnist mèr það nær, að sambjóði 24 rúmum, en 48 rúmum; ætla eg þær 24 árar, sem hann telur *ibidem* millum austurrúmanna, hafi út

1) [ ] vantar í B. 2) [ ] vantar í B. 3) [ ] vantar í B. 4) [ ] vantar í B. 5) [ ] vantar í B. 6) B. út. 7) B. var ei. 8) B. Tjedingin.

legið um port til þess gjörð á [skips[1]]-síðunum, og verið[2] 12 á hvort borð millum hinna, sem hann telur ofan á 48, ɔ: að mínum skilníngi 24 á borð, ein á borð í sèrhverju rúmi, svo sem á öðrum lángskipum. Lángskip, tvítugsessur og stærri, þó fyrir innan þrítugt, voru jafnan talin með stórskipum. Sverrissaga, kap. 51., greinir Skeggjann, skip Magnúsar konúngs, sex[3] rúm og tuttugu; Bússuna, sem og er kölluð Höfðabússan, hálfþrítuga, ɔ: 25[4] rúm. Ólafssúðin, skip Sverris konúngs, var hálfþrítug, Hárknífurinn 23 rúm. Noregskonúngatal kallar skeiðina Erlíngs Skjálgssonar mikið lángskip; hún var þrítugsessa, sem Snorri Sturluson vottar. Gullbríngan og Rauðsíðan í Sverrissögu mikil lángskip, báðar tvítugsessur, kap. 75. og kap. 159., og ótal eru slík dæmi; *vide* Snekkju *et* Skútu. Þá eru enn lángskip fimtánsessur; svo segir Snorri Sturluson: „Tíðinda-Skopti (mágur Hákonar jarls hins ríka) fór með fimtánsessu skipaða millum búa sinna“; *item* að Erlíngur jarl fór með skútu fimtánsessu, sem áður er getið, þar sem talar um byrðíng. Eins tala Noregskonúnga-sögur um form[5] og skipavöxt Erlings jarls. Hákonarsaga, *anno* 1233, eptir höfðíngja-þíngið í Björgvin, er lögmenn allir dæmdu Hákoni konúngi Noregsríki, og Hákon konúngur fann síðan níðínginn Nikulás biskup í Túnsbergi, greinir, að konúngur gaf honum lángskip, fimtánsessu, með öllum reiða. Og eins eru þau skip sessum talin, er þrettánsessur heita. Hákonarsaga, *anno* 1239, þá Varbelgir (menn Skúla hertoga, er þá hafði látið sèr gefa konúngsnafn) rændu á Hálogalandi, segir svo: „Varbelgir tóku þar mikit fè, ok þrettánsessu, er Guttormr hafði átt“. Aptur í sama kapítula segir svo: „Algauti var eigi til kominn, ok lá hann öðru megin nessins með þrettánsessu, ok þar lá byrðíngr Bollasona“. Þessi síðarnefnda þrettánsessa sýnist að vera sama sem hin fyrri, er næst áður getur, og eigi hefi eg alt til þessa getað fundið smærri skip sessum talin, því að[6] Orkneyíngasaga greinir ekki sessatal lángskipa þeirra, sem hún segir að Íngi konúngur gaf jarli Rögnvaldi, lángskip [tvö[7]], heldur lítil og einkar fögur, og gjör mest til róðrar, og voru allra skipa skjótust[8], kap. 74. Þessum litlu lángskipum sigldu þó jarlarnir Rögnvaldur [og Haraldur[9]] frá Björgvin

1) [ ] vantar í B. 2) B. voru. 3) Báðar: 7. 4) B. 40. 5) B. þá för. 6) B. það. 7) [ ] vantar í B. 8) A. flötust. 9) [ ] vantar í B.

til Hjaltlands og brutu þar, og það sýnir, að þau hafi nokkurn veginn haffær verið[1]. Það, sem vísa sú, er í Eddu eignuð er Brennu-Njáli, en í Noregskonúnga-sögum Haraldi konúngi Sigurðarsyni, nefnir 4 rúm:

Senn jósu vèr svanni
sextán að brim[2] vexti,
dreif á hafskip húfa
húm, í fjórum[3] rúmum,

get eg ekki svo skilið, að það telji öll rúmin í hafskipinu, heldur að í þeim stórsjó hafi verið ausið í fjórum rúmum, þar sem ei var venjulegt að ausa meir en í tveimur; því hitt getur ei staðizt við hafskipavöxt, sem eptir á mun sýnt verða; en það eg sagði mig eigi minnast smærri skip sessum talin, en þrettánsessur, sýnist mèr að vitni Gulaþingsbók hin forna, Útfararb. *p. m.* 246; þar segir: „Nú er þeir koma heim, þá kalla þeir til manntals ok fá eigi, þá skulu þeir af kili höggva, ok skemma svo skip þeirra, sem þeir eigu manntal[4] [til[5]], gjöri eigi skemmra, en sessum má selja; en ef þeir eru færri, en þeir megu eiga þrettánsessu, þá skulu þeir fara á þíng, ok bjóða sik í tal með öðrum mönnum". Hèr er þeim boðið, að stytta skipið[6], þó eigi meira en svo, að sessum megi telja. En ef þeir eru of fáliða til, að fara með þrettánsessu, þá skulu þeir ei stytta skipið meir; *ergo* voru þær smæstar sessum taldar. Það, er skrifar *Isaacus Vossius, inter summa numina eruditionis Europææ primus numerandus, de structura triremium,* leiði eg flestalt hjá þessu máli, og að vísu það alt, er hann talar um þau skakkreitis uppstígandi[7] sæti róðrarmannanna[8], sem hann hefir afrissað *pag.* 104, 108, 112, 119; því að svo framt þau skip í Miðjarðarhafinu hafa svo bygð verið, sem hann segir, þá er hitt víst, að vor skip norður hèr í Danmörk[9], Noregi og Svíþjóð[10], í Austursjónum og hèr á norðvesturhöfunum, hafa aldrei [gjör[11]] verið með þeim hætti, og mjög efa eg, hvort sá hálærði og hávitugi *Isaacus Vossius* hefir hèr svo glögglega sèð, sem annars sáu hans furðu-vitug augu og skilníngur. En það er hann talar um lengd áranna innan skips og utan, samt og hvað nærri[12] keipnum róðrarmenn sitja mætti,

1) B. þau nokkurn veginn haffær verið hafa. 2) B. en briám. 3) B. fiðrum. 4) B. manntalið. 5) [ ] vantar í B. 6) B. bætir við: en stytta. 7) A. uppástígandi. 8) B. róðrarmanna. 9) A. bætir við: og. 10) B. Svíaríki. 11) [ ] vantar í B. 12) A. nær.

*pag.* 96, 97, 98, er alt með stærstu gætni, svo sem von e r[1] af þvílíkum manni, þótt mèr virðist hann skamti róðrarmönnum sæti þrengri, en n a u ð s y n[2] krefur; *vide infra num.*

17. P r j á m a. Þau skip eru kunnug öllum enn í dag; eru þau breið mjög í botninn og af geysi-þykkvum viðum gjörð, til að bera stórþúnga og flutnínga yfir sjáfarsund og þvílík stórvötn, þau sem lygn eru, svo sem Mjörs í Noregi, eður Vænir í Gautlandi, eður Lögurinn í Svíaríki. Þær eru og m j ö g[3] tíðar í Hollandi, þar sem eptir stórvötnum eður gröfum eru farmar færðir, og gánga þó hestar fyrir prjámunum á vatnabökkunum, svo þar hafa prjámur hvorki segl nè árar, sem þeim er annars hvorttveggja tídt. Nú eru og slíkar p r j á m u r[4] orðnar alltíðar í sjóorustum, helzt ef barizt er nærri landi.

18. S k e i ð. Eg hefi áður sagt, að skeiðir allar v o r u[5] lángskip; sumar voru og drekar, svo sem áður er getið, þar sem talar um bússu, og segir af hinu mikla skipi, er Haraldur konúngur Sigurðarson lèt gjöra eptir Orminum lánga. Um það talar svo Snorri Sturluson: „Er hann (konúngurinn) var búinn, hèlt hann út úr ánni Nið drekanum“. Þar um kvað Þjóðólfur:

> Skeið sá ek fram á flæði[6],
> fagrt sprund, úr á hrundit.
> Kendu hvar liggr fyrir landi
> laung súð drekans þrúða.

Og enn kvað Þjóðólfur:

> Vestr rèð úr Nið næsta
> nýrri skeið at stýra
> úngr, en árar drengja,
> allvaldr, í sjá falla.

Þá kvað Þjóðólfur enn um sama skip:

> Sogs veit, áðr en sliti,
> sjáfaung úr mar straungum,
> her þar er heldr til vara
> hár sjö tigum ára.
> Norðmeðr róa á naðri
> negldum strauminn heglda,
> út er sem, unnar, líti
> arnarvæng úr járni.

Vísurnar hefi eg skrifað bæði eptir Snorra Sturlusyni og Nor-

---

1) B. var. 2) B. þörfin. 3) B. mikið. 4) B. orustur. 5) B. væru. 6) Vísubrot þessi eru mjög bjöguð í B.

egskonúnga-sögum, svo sem eg hefi þózt geta skilið. Hèr á að merkja það: þetta mikla skip heitir bæði d r e k i og s k e i ð og n a ð u r ɔ: ormur; og um sama skip segir Þjóðólfur: „Orms glóu söx und farmi". Það annað, sem hèr má ekki gleyma, er það hann segir þessu skipi róið sjö tigum á r a[1], en áður *in voce* „bússa" er greint, að það var hálffertugt að rúmatali; verða þá tvær árar í hverju rúmi, það er ein á hvort borð, sem eptir á mun sagt verða. Ekki var skeið Erlings Skjálgssonar dreki; því sagði Sveinn Danakonúngur, er hann sá skeiðina: „Hræddr er Ólafr konúngr nú, er hann þorir ei at sigla við höfut"; Ólafs saga Tryggvasonar, k a p. 248., *p.* 301[2]. Og eigi getur, að Sveinn jarl Hákonarson lèti höfuð vera á skeið sinni, sem hann stýrði þá sjálfur, er Ólafur konúngur Haraldsson barðist við jarl og fèkk sigur; Ólafs saga helga k a p. 5 5[3].

19. S k ú t a. Þau skip voru enn þá yfrið ó j ö f n[4] vexti. Eru skútur kallaðar farmabátar þeir, er hafskipum fylgja, sem áður er sagt *in* „b á t u r" og „k a r f i". L a g n a r[5] skútur nefnir Egils saga Skallagrímssonar: „Hann (Skallagrímur) fór opt um vetrinn í síldfiski með l a g n a r s k ú t u[6]". Það skilst mèr hafa verið svo kallað, því síldarnetin hafa verið lögð af þeim, og dregin má ske upp á þessar skútur. Ólafs sögu Tryggvasonar seinni partur segir, kap. 41.: „Ólafr konúngr fèkk Háreki úr Þjóttu skútu góða; reru á borð 10 menn eða 12". Skútu, og á 30 manna, hafði Björgólfur frá Torgum, þá hann sótti Hildríði, dóttur Högna í Leku. Og svo segir Egla, þegar Egill fór af Gulaþíngi: „Skútan flaut við stýrislykkjur milli skipsins (það er kallað kaupskip) ok landsins, ok lágu þar árar í hömlum". Síðan: „Þá mælti Egill, at þeir skyldu allir hlaupa í skútuna aptr, sumir ræntu kaupskipit", og strax: „voru þeir þá 1 8[7] á skútunni". Þessi margnefnda skúta var farmabáturinn. Skútu og [á[8]] 30 manna hafði Bárður Brynjúlfsson úr Torgum, þá hann bað Sigríðar Sigurðardóttur á Sandnesi í Alost. Hvorttveggja vitnar Egils saga Skallagrímssonar, og er ekki víst þær skútur hafi allmiklu stærri verið en skipsbátar þeirra Kvöldúlfs og Skallagríms, um hverja sagt er *in* B á t u r. Róðrarskútur einar hafði Sverrir konúngur til orustu við Baglana fyrir Þórsbjörgum; því sögðu menn hans, að tvítug-

---

1) B. árum á. 2) A. k. 85., p. 280. B. k. 35., p. 28. 3) Báðar: kap. 39. 4) B. jöfn. 5) B. lángar. 6) lángskútur. 7) B. 13. 8) [ ] vantar í B.

sessan mundi seinfær við róðrarskútur; Sverrissaga, kap. 143[1]. Skútur voru flest þau skip, er Sverrir konúngur hafði til orustu við eyarskeggja í Flóruvogum[2], og þó nokkur af þeim tvítugsessur; Sverrissaga, kap. 120.[3]. Líka voru til skútur tvítugsessur, sem vitnar Snorri Sturluson, eptir það Eiríkur jarl Hákonarson varð að leggja úr lagi fyrir Tiðinda-Skopta; [þar segir: „Þorleifr spaki (fóstri Eiríks) gaf honum (Eiríki) skútu tvítugsessu með öllum reiða, vistum ok tjöldum[4]]“. Haffærandi skyldu skútur þær vera, um hverjar Sverrir konúngur segir kap. 76.[5]: „Gánga á skútur ok sigla vestr til Orkneyja eðr alt til Suðreyja“. Mun það af öllu þessu sýnast, að skútur hafi verið því formi líkastar, sem nú eru farmabátar, Chaluppér, eður prjámur, og þó með svo stórlega misjöfnum vexti, sem framanskrifað sýnir. En þar sem lèttiskútur eða hleypiskútur eru í sögunum kallaðar, munu þær hafa verið á annan hátt mjög til gángs lagaðar, svo sem eru Joller og[6] skipherrabátar. Kynni og vera, að skútur hafi sitt nafn af því, að fram og aptur hafi í þeim verið þilfar nokkurt, svo sem skútar til að sofa undir, eður hirða það ekki skyldi vökna, eins og nú er að sjá á hafskipa farmabátum.

20. Snekkja. Eg hefi áður skrifað: snekkjur allar voru lángskip. Tranan var snekkja þrítugsessa *ut supra.* En þótt Þjóðólfur í kvæðum sínum um drekann mikla Haralds konúngs segi: “Neytir þá til þrautar þengill snekkju strengja“, [þá er[7]] líkast það sè *synecdoche speciei.* Enn segir Ólafs helga saga, kap. 113.[8]: „Ásbjörn (*postea* selsbani) átti lángskip; þat var snekkja tvítugsessa“. *Item* Egils saga Skallagrímsonar: „Þeir Þórólfr [Kvöldúlfsson og Eivindur lambi] höfðu þángað (til Haralds konúngs) snekkju tvítugsessu, er þeir höfðu haft í víkíngu“. Og enn Sverrissaga, kap. 117.[9]: „Hann (erkibiskup) fer með snekkju tvítugsessu ok 90 manna“. Egils saga Skallagrímssonar, þegar Eiríkur [konúngur[10]] elti hann á skipum eptir Gulaþíngs-deilur, segir fyrst[11]: „Egill sá, at ófriðr var at þeim kominn; voru þat 6 lángskip“. Síðan: „Þeir, er eptir þeim Egli reru, sóttu ákaft, tóku tveir eina ár“. Síðan: „Þeir Egill hleyptu skútunni í þat [it[12]] grunna sundit, en snekkjurnar

1) Báðar: 128. 2) A. Stóruvogum. 3) Báðar: kk. 107., 108, 109. 4) [ ] vantar í B. 5) Báðar: 67. kap. 6) B. eður. 7) [ ] vantar í B. 8) Báðar: 110. 9) Báðar: kap. 105. 10) [ ] vantar í B. 11) B. fyrr. 12) [ ] vantar í B.

flutu þar eigi“. Ólafs helga saga mælir svo, kap. 104[1]: „Konúngr hafði 5 skip ok 300 manna; var á góðr byr, ok töldu snekkjurnar ekki lengi fjörðinn fyrir vindinum[2]“. Þá sigldi hann inn eptir Þrándheimi og tók af lífi Ölver [af[3]] Eggju. Mundu þessar tvær síðustu greinir koma mèr til að meina, að lángskip öll væru snekkjur, ef ei væri svo til orða tekið [um[4]] Trönuna: „lángskip mikit; þat var snekkja“. Og um skipið Ásbjarnar selsbana: „lángskip, þat var snekkja tvítugsessa“. Því hvar fyrir skyldi tilgreint, að skip þessi voru snekkjur, þá búið var að segja: „þat voru lángskip“, ef öll lángskip hefðu mátt snekkjur kallast? Því gjöri eg mèr þá gátu, að snekkjur hafi haft lítil drekahöfuð, og sè nafn þeirra dregið af „snakkur[5]“, svo sem nökkvamaðururinn kvað í sögu Ólafs konúngs Tryggvasonar: „Snákr skríðr þar er brim blikir[6]“, og mun snekkja vera lítill dreki.

21. Nú eru taldar þær nafngiptir skipa, sem fyrir mèr hafa orðið á vora [túngu[7]] í þeim sögum, sem ritaðar voru um daga Sverris konúngs, og síðan mestalt fram á konúngsdómstíðir Magnúsar konúngs lagabætis. Mun því öllum öfundslausum mönnum auðsèð, að ekki sèu önnur efni líkari til, að skilja rètt orðatiltæki og málfæri þeirrar aldar, en þessar sögur, sem nú hefi eg til vitnis kallað um nöfn og vöxt skipanna. Og svo því ljósari megi síðan verða mínar *illationes* um sessatalið, vil eg enn framar skýra nokkuð um borðhæð og rúmanöfn á lángskipum, sem altíð skyldi sessum telja.

22. Svo segir Sverrissaga, kap. 143.: „Þeir (Baglar) höfðu þar 7 skip ok öll [geysi[8]]-stór. Birkibeinum þótti vera mikill borðamunr, ok svo var, því at ei tóku skipstafnar[9] þeirra Birkibeina lengra[10], en víggyrðlar þeirra Bagla“. Nú er þess að gá, að Birkibeinar höfðu í það sinn engin stærri skip en róðrarskútur, svo að Sverri konúngi þótti lángskip tvítugsessa mundi ekki samfært við svo smá skip, *ibidem;* og þó var ekki borðamunur meiri á þessum smáskútum og hinum geysi-stóru lángskipum Baglanna heldur en svo, að stafna skútanna bar jafnhátt víggyrðlum. Hvað mundi þá, ef ei hefðu víggyrðlar

---

1) Báðar: 102. kap. 2) Báðar: fóru snekkjurnar ekki seint fyrir vindinum. 3) [ ] vantar í báðar. 4) vantar í B. 5) A. Snákur. 6) A. brún blekar; B. brún blekkir. 7) [ ] vantar í B. 8) [ ] vantar í Fms. 8. b., bls. 339. 9) Fms. l. c. skúturnar. 10) Fms. l. c. hærra.

verið? Því sannlega juku víggyrðlar borðhæðina hvergi minna en alin.

23. Um Orminn lánga er áður sagt af Snorra Sturlusyni, að svo voru borðin há, sem á hafskipum. Nú er það víst, að Járnbarðinn Eiríks jarls muni ekki smáskip af lángskipum verið hafa; þó má sjá af Snorra Sturlusyni, að eigi rèð jarl til uppgaungu, nema þar sem lægst var borðið, miðskipa, alt svo lengi sem borðin gjörðust eigi auð að vörninni. Og svo segir í Ólafssögu hinni þryktu vísa sú, sem eignuð er Markúsi lögsögumanni, að viðir væri feldir á Orminn til uppgaungu. Trúi þar um hverr [því[1]], er trúlegt þykir. En það marka eg hèr í mót, er sama saga greinir, kap. 90., *p.* 293[2], að áður viðirnir væru feldir á, gekk Eiríkur jarl upp við fimtánda mann, þá Hyrníngur konúngsmágur rak hann ofan aptur. Mèr finnst og, sem vísa sú hin þrykta, *cap.* 93., *pag.* 296—97., sè varla með fornskáldasmíði eða jafnlík öðrum kvæðum Markúsar. Mátti og fyrr vera borðamunur ýkja- mikill, en stórviðu skyldi þurfa til, að halla drekanum, áður upp mætti gánga. Það er og varla líklegt, að Eiríkur jarl hefði síbyrt til höggorustu við svo stóran borðamun, og þó votta það bæði Snorri og hin þrykta saga, að jarl lagði síbyrt við Orminn. En hitt er ljóst af fyrr innfærðum orðum Snorra Sturlusonar, að ei hafi á lángskipum borð verið venjulega svo há, sem á hafskipum, ella væri það ei með stórmerkjum talið um vöxt Ormsins lánga. Svo greinir[3] og Snorri Sturluson, að hinn fjölkunnugi maður[4], sem Haraldur Gormsson Danakonúngur sendi í hamförum til Íslands, sagði hafið eigi fært lángskipum. En hitt er altíðara en vitna þurfi til, að Noregs í millum og Hjaltlands eður Orkneya fóru lángskip nær árlega að kalla þær stundir. Og má þar ekki dyljast við um fall Haralds konúngs Sigurðarsonar á Englandi, [Magnúsar konúngs berbeins á Írlandi[5]] og andlát Hákonar konúngs gamla í Orkneyum 1263[6], einum 17 árum áður en lögbók Magnúsar konúngs kom út híngað. Fóru allir þessir konúngar lángskipaflotum frá Noregi, og svo áður Haraldur konúngur hárfagri, þá er hann vann Orkneyar í fyrstu.

24. Það var nú strax ritað, að Ormurinn lángi var svo borðhár sem hafskip. Virðist mèr því[7] vert, að hugleiða, hvað

1) [ ] vantar í B. 2) Fms. 2. b., k. 252., bls. 323. 3) B. Sögurnar. 4) B. hann fjölkunnugur maður. 5) [ ] vantar í B. 6) A. 1293. 7) B. það.

djúp þau voru á þeim öldum, svo menn ekki villi sjálfir sjálfa sig í því, að meta[1] borðhæð og dýpt þeirra eptir hafskipum þessara[2] tíma. Svo segir Ólafs helga saga eptir *membrana*, þar sem talar um siglíng Þormóðar Kolbrúnarskálds til Grænlands: „Í þann tíma var byttuaustr, en eigi dæluaustr; var Þormóðr niðri í kilinum, ok sökti í byttunni, en Gestr tók við upp á þiljunum, ok bar út fyrir borðit austrinn. Þormóðr var ekki styrkr maðr at afli, ok seldi hann ekki lángt upp bytturnar, ok varð Gestr at seilast lángt, áðr hann fengi náð. Gestr mælti: Sel þú upp lengra bytturnar, auðvirðit". Þetta sýnir, að mannhæð ein er frá kjöl[3] undir þiljur; þó var skip þetta knör, og líkast ei alllítill tilætlaður yfir þvílíkt haf. Hvað munu[4] þá lángskip þrettánsessur grunn verið hafa? *vide supra num. 11.*, að karfinn Önundar ófriðar var ekki borðhár.

25. Rúmanöfn á lángskipum og hafskipum hafa fá fyrir mèr orðið, nema austurrúm, fyrirrúm, klofarúm við siglu, krapparúm og þriðjarúm. Austurrúm voru tvö á þeim stóru lángskipum. Sverrissaga, kap. 91., segir: „Stafnar Magnúsar konúngs skipa horfðu at[5]; lá Skegginn at fremra austrrúmi, en þá hvert at öðru fram, sem rúm höfðu". Síðan[6]: „Ok þeir Munan Gautsson lögðu ok skip sitt at landi, hljópu þar upp, ok báru stórt grjót út á Maríusúðina alt um fyrirrúmit ok fram til austrrúms, ok fengu þeir allilt slag, er þar bygðu. Frambyggjar urðu mest fyrir atsókn Heklúnga ok vopnaburðinum; mæltu þeir sín í milli, at fyrirrúmsmenn skyldu þá launa konúngi mjöðinn eða kyrtilsklæðin fögru. Þá hètu skutbyggjar á stjórnbyrðínga, at þeir skyldu fram róa; gjörðu þeir svo, drógu fram skipit, svo at Skegginn lá þá við hit eptra austrrúm; höfðu þá allir bakbyrðíngar ok fyrirrúmsmenn yfrit at vinna, því at þá lágu 14[7] skip á annat borð Maríusúðinni". Nú þótt eg sjái, að *Bartholin Antiqtt. lib. 2., cap. 1., pag. 248, 249,* hafi þá bók haft eptir að rita, sem þetta les öðruvísi, þá ætla eg mig þó skilja þetta rètt, því að fyrirrúmin voru og tvö á öllum lángskipum, sem síðar skal sýna[8]. Kap. 89. segir sagan: „Fór konúngsskipit (ɔ: Skegginn Magnúsar konúngs) næst suðrlandinu", en þeir fóru inn eptir Sognsæ, *ergo* var suðurlandið á stjórborða Magnúsi konúngi. En kap. 88. segir: „lá konúngsskipit

1) B. mata. 2) B. þeirra. 3) B. bætir við og. 4) B. mun. 5) Báðar bæta við: „á fremra austurrúmi", en sleppa: „lá — austurrúmi". 6) Þessa grein hafa handritin með nokkrum orðamun. 7) B. 9. 8) B. sagt verða.

(Maríusúðin) utarst[1] við ströndina" (*nempe:* þá syðri, *prima hostibus obvia, non vero ab littore remotissima)*; því að bornar voru út skutfestar af hverju skipi, en snúið út framstöfnunum *(ibidem)*. Síðan: „Var þá þegar blásit; tóku Birkibeinar at róa út öllum skipunum í móti, ok æptu þegar heróp"; svo drógu nú Birkibeinar flota sinn frá sjálfu suðurlandinu. Þá segir kap. 91.: „Maríusúðin reist lángan krók[2], er þeir skyldu snúa henni"[3] (út á móti flota Magnúsar konúngs; því Birkibeinar ætluðu til, að horfa stafni hennar við Heklúngum, þó það tækist ekki, því Heklúnga bar svo óðum að). „Þá renna saman skipin; kom Magnúsar konúngs skip (Skegginn) á hlýrit (aptanvert við kinnúnginn) á bakborða Maríusúðinni (áður hún var búin að snúa sèr), ok sló flatt við Maríusúðinni (því þat (Skegginn) varð ei svo fljótt stöðvað á skriðnum, og rendi nokkuð aptur með, þar Maríusúðin hefir bifazt fyrir árásinni, er stafninn stakk á hana nærri flata); stafnar Magnúsar konúngs skipa (þeirra stóru, sem tengd voru) horfðu á fremra austrrúm" (svo lángt aptur með Maríusúðinni[4]). Sló í fyrstu flötum Skeggjanum, og hafa þeir svo strax með forkum rètt hann við, svo stafn hans horfði á hlið Maríusúðinni[5], og hin[6] skyldu komast að stórskipin[7], sem á bakborða Skeggjanum höfðu rent að Maríusúðinni. Er hèr af að sjá, að Maríusúðinni hefir aldrei orðið snúið til fulls, og því komust Heklúngar á hana flata, og svo hvert fram, sem rúm hafði. Ógreidt tókst Birkibeinum atlagan[8]; var svo sem Maríusúðin yrði á millum þeirra (því þeir höfðu allir legið á stjórnborða við Maríusúðina fyrir innan hana á firðinum, og áttu á þá síðuna að sækja fram hjá því stóra skipinu, áður stafnar þeirra gætu horft í mót flotanum Heklúnga, sem allur var á bakborða við Skeggjann, er næst fór suðurlandinu *ut supra,* en Maríusúðin varð sein að snúast, því hún risti lángan sjókrók *ut supra,* en þeir hinir (Birkibeinar) á smærri skipunum máttu ei bregða sína tilætlaða röð í framróðrinum. Mun það og ei hafa verið áræðilegt smáskipum Birkibeina, að róa fram á bakborða Maríusúðinni mót Skeggjanum og öðrum stórskipum Heklúnga; þar fyrir bauð[9]

1) Báðar: fyrst. 2) Báðar: reisti lángan sjó-krók. 3) Báðar: áður henni varð snúið. 4) Fms. 8. b., kap. 91., bls. 222, hefir greinina þannig: „þá rendu saman skipin; komu skip Magnúss konúngs fram á hlýrit, ok sló Maríusúðinni flatri við, en stafnar Magnúss konúngs skipa horfðu at". 5) A. Maríusúðarinnar. 6) B. hann. 7) B. stórskipi. 8) B. atlaga. 9) B. bað.

Sverrir konúngur þeim[1], að róa út um hið mikla skip (Maríusúðina), og leggja þar að, er smærri skip Heklúnga voru, og vita, hvað þeir gætu þar að gjört, *etc.* Munan Gautsson (hann hafði [Hreininn[2]], eitt af stórskipum Magnúsar konúngs, kap. 91.), lagði skip sitt að landi; hlupu þeir upp og báru stórt grjót út á Maríusúðina, (ɔ: sóttu sèr grjót til að grýta, [og grýttu[3]] því síðan á Maríusúðina) alt um fyrirrúmið (það fremra) og til hins aptara austurrúms (þaðan frá sem Munan lagði nú skip sitt að Maríusúðinni; gátu þeir ei kastað grjótinu af hans skipi lengra aptur eptir Maríusúðinni, en til hins aptara austurrúms, því þeir áttu að kasta skakkreitis til, fyrir framan stafna þeirra [skipa[4]] Magnúsar konúngs, sem aptur lengra höfðu stöfnum stúngið að Maríusúðinni), og fengu þeir ilt slag frambyggjarnir (allir framan siglu á Maríusúðinni, og allir, sem grjótið náði til aptur að eptra[5] austurrúmi). Urðu þeir (frambyggjarnir) mest fyrir aðsókn Heklúnga, því þar komu skipin Mugnúsar konúngs fyrst að, og stóð þar Heklúnga stafn við stafn, alt svo lángt aptur, sem Skegginn lá aptast. Mæltu þeir (Heklúngar) sín á milli, að þeir[6] fyrirrúmsmenn (í fremra fyrirrúmi á Maríusúðinni) skyldu launa Sverri konúngi mjöðinn og kyrtilklæðin. Þá hètu skutbyggjar (á Maríusúðinni, sem sáu, hversu þúngt að veitti fèlögum þeirra fram á skipinu, en þóttust eigi geta við komið, að duga þeim) á stjórnbyrðínga (á Maríusúðinni, því á hitt borðið varð ei árum við komið fyrir skipum Heklúnga), að þeir skyldu róa fram (Maríusúðinni). Þennan róður hafa stjórnbyrðíngar gjört með árum þeim, sem bakbyrðíngar voru vanir að róa, og út lágu á stjórnborða; en bakbyrðíngar hafa á sína síðu skotið forkum við skipstöfnum Heklúnga, og dregið[7] þar með Maríusúðina þeim megin, annars hefði stjórnbyrðíngaróður alls engu megnað[8], nema þrýst skipinu inn í flota Baglanna, til stærsta meins Sverri konúngi og hans mönnum. Þessa beiddust bakbyrðíngar, svo skutbyggjar gætu sínu liði og vörn við komið, og þeir (stjórnbyrðíngar) gjörðu svo, drógu fram skipið (Maríusúðina), svo að Skegginn lá við hið eptra austurrúm fyrir aptan siglu, en þángað til hafði hann legið við hið fremra austurrúm framan siglu. Höfðu þá allir bakbyrðíngar (á Maríusúðinni) og fyrirrúmsmenn (hèr má skilja hvort eð vill, eptra fyrirrúm, sem þá tók fyrst alvarlega við

1) þá. 2) [ ] vantar í B. 3) [ ] vantar í B. 4) [ ] vantar í B. 5) B. aptara. 6) B. þessir. 7) A. sig. 8) B. orkað.

aðsókn Heklúnga, eður fremra fyrirrúms menn, er lengi höfðu við staðið, eður hvorttveggja) ærið að vinna, því að þá lágu (stúngu stöfnum að) 14[1] skip (Heklúnga) á það borð (bakborð) Maríusúðinni.

Ætla eg nú rètt þýddan þennan kapítula Sverrissögu; og til vitnis, að tvö voru austurrúmin, segir Sverrissaga um orustuna fyrir Norðnesi, kap. 54.: „Þá lá Guðlaugr stallari hans (Sverris konúngs) með hálfþrítugu skipi, ok hafði eigi lengra fram lagt, en til hins eptra austrrúms. Þá kallaði Sverrir konúngr ok mælti: þrífist sá aldrei, er svo leggr fram hálfþrítugu skipi! Guðlaugr kvaðst eigi róa mega. Konúngr tók þá pálstaf einn, ok stakk við kinnúnginum á skipi Guðlaugs, at þeir skyldu draga fram (skip Guðlaugs) með skipinu (Ólafssúðinni, sem Sverrir konúngur var á). Þeir gjörðu svo, ok komust til fremsta (fremra, því annars ætti hitt að vera aptasta, og hvergi veit eg, að þrjú væri austurrúmin) austrrúms". Litlu síðar: „Var engi maðr sá á skipi Guðlaugs fyrir framan siglu, at eigi blæddi". Svo segir og herra Pètur Clausson um hin stóru skip Baglanna, *pag.* 561., að 24 árar voru millum austurrúmanna.

26. Fyrirrúm. Eg hefi nú opt[2] sagt, að þau voru tvö, annað fyrir framan siglu, annað fyrir aptan siglu, strax fyrir framan lyptínguna. Um hið fremra fyrirrúmið[3] ber Snorri Sturluson vitni, þegar Magnús konúngur góði barðist fyrst á skipum[4] við Svein Úlfsson. Þar segir svo: „Þeir börðust um stafna, ok máttu þeir einir höggum við koma, er í stafni voru, en þeir lögðu kesjum, er í fyrirrúmi voru, en allir þeir, er aptar stóðu[5], skutu smærri[6] spjótum eðr gaflokum eðr vígörfum, en sumir börðu grjóti eðr skeptiflettum, en þeir, er fyrir aptan siglu voru, skutu bogaskoti". *Ibidem* um Svoldarorustu: „Mest var vörn á Orminum ok mannskæðust[7] af fyrirrúmsmönnum ok stafnbúum, því [þar[8]] var mannfólkit mest valit ok hæst borðin; en er mannfallit tókst á Orminum, þá fèll liðit fyrst um mitt skipit[9]", *confr.* Ólafs sögu Tryggvasonar [þryktu[10]], *pag.* 292.[11], og næst er því eg ætla þetta fyrirrúm merkja muni fleiri sessa en einn, því Snorri Sturluson segir,

1) B. 9. 2) B. alt; C. áður. 3) C. fyrirrúm. 4) B. á skipunum; C. af skipunum. 5) B, C. voru. 6) C. snæri. 7) C. mannhættust. 8) [ ] vantar í C. 9) B, C. miðskipið. 10) [ ] vantar í B, C. 11) Sjá Heimskr. Leirárg. 1804, bls. 358.

þá hann nafngreinir mikilmenni á Orminum við heimanbúníng Ólafs konúngs: „30 menn voru í fyrirrúmi", en þar af er ljóst, að Snorri meinar þar fyrirrúmið framan siglu, að hann nefnir [fyrst[1]] stafnbúa, síðan um söxin og rausnina (ɔ: þar sem borðin hækka fram eptir), þar næst í fyrirrúmi, svo hann gengur þar aptur eptir Orminum. Þetta verður ljóst af því, er skrifar Snorri Sturluson um skipan herskipa Haralds [konúngs[2]] hárfagra. Stafnbúar voru mest vandaðir, því að þeir höfðu merki konúngs; aptur frá stafnrúmi til austurrúms, það var kallað á rausn.

Enn segir svo Sverrissaga, kap. 56[3]., um orustuna fyrir Norðnesi: „Magnús konúngr gekk fram á skip sitt, ok barðist í fyrirrúmi *(Nota!* þar[4] var barizt um stafna) ok var allákafr; hann gekk svo nær[5] Birkibeinum, at hann hljóp öðrum fæti út á borðit, ok ætlaði at ná með sverði[6] til [eins[7]] manns". Um hið aptara[8] fyrirrúm leiði eg fyrstan til vitnis Snorra Sturluson, þar hann[9] talar um Svoldarorustu. Hann segir svo: „En er þyntist skipan á Orminum til varnarinnar, rèð Eiríkr jarl í annat sinn til uppgaungu á Orminn; varð þá enn hörð viðtaka. En fyrir því, at þá var [svo[10]] mjök[11] fallit lið á Orminum, at víða voru auð borðin, tóku [þá[12]] jarlsmenn víða upp at gánga, en alt þat lið, er þá stóð uppi á Orminum til varnar, sótti aptr á skipit, þar sem konúngr var". En áður segir Snorri: „Ólafr konúngr [Tryggvason[13]] stóð í lyptíng á Orminum"[14]. Og síðan: „Kolbjörn[15] stallari gekk upp í lyptíngu til konúngs; þeir höfðu mjök[16] líkan klæðabúnað[17] ok vopna. Kolbjörn var ok[18] allra manna mestr ok fríðastr. Varð[19] nú enn í fyrirrúminu en snarpasta[20] orusta". Ljóst er, að þetta fyrirrúm var aptan siglu. Svo segir Ólafs konúngs Tryggvasonar saga[21] prentaða: „Þorsteinn uxafótr var í fyrirrúmi aptr við lyptínguna" (kap. 93., *pag.* 267). Og enn segir Orkneyíngasaga um Magnús (eptir á eyajarl), kap. 26., er menn brutu upp vopn sín og bjuggust til orustu: „Settist Magnús Erlendsson niðr aptr [í fyrirrúmi[22]] ok vopnaðist[23] ei". Noregs-

1) [ ] vantar í B, C. 2) [ ] vantar í A. 3) Allar: 50. kap. 4) C. þá. 5) B, C. nærri. 6) A. ná höggi til; B, C. ná til. 7) [ ] vantar í allar. 8) C. aptasta. 9) A. sem. 10) [ ] vantar í allar. 11) B, C. mikið. 12) [ ] vantar í C. 13) [ ] vantar í B, C. 14) A. hefir þessa grein í (). 15) Allar: Þorbjörn. 16) B, C. mikið. 17) Allar: klæðabúníng. 18) Allar: var Kolbeinn og. 19) Allar: var. 20) B, C. harðasta. 21) A. Ólafs saga Tr. s. prent. 22) [ ] vantar í A. 23) A. vopnast.

konúngasögur eptir deilu konúnganna[1], Eisteins og Sigurðar Jórsalafara, um Sigurð Hranason: (Sigurður Hranason) „nam ei fyrr staðar, en hjá skutbryggju[2] á skipi Sigurðar konúngs". Og strax: „Varðmaðr gekk af bryggjunni, en Sigurðr út á skipit í fyrirrúmit". *Nota!* Hann gekk að skutbryggju og kom í fyrirrúmið; *cfr.* Hákonarsögu, *anno* 1218, þá Gunnólfur hjó hönd af sèra Eilífi; samanber Noregskonúnga-tal um fall Erlíngs Skjálgssonar: „Þá gekk Ólafr konúngr aptr í fyrirrúmit"; *nempe:* konúngurinn gekk[3] framarlega upp á skeiðina, þegar hrökk aptur eptir (eins og segir um Orminn lánga), og gekk svo aptur eptir skipinu til tals við Erlíng, er hann varðist úr lyptíngunni [á skeiðinni[4]]. Svo segir Ólafs saga Haraldssonar, kap. 169[5].: „Var Erlíngi veitt atsókn, bæði úr fyrirrúminu ok af öðrum skipum". Síðan: „Þá mælti Ólafr konúngr: Viltu á hönd gánga, Erlíngr? Þat vil ek, segir hann[6]. Þá tók Erlíngr hjálminn af höfði sèr ok lagði niðr sverðit ok skjöldinn, ok gekk fram í fyrirrúmit" úr lyptíngunni, því þaðan hafði hann varizt og stóð einn uppi. Ætla eg nú bevísað með rökum, að fyrirrúmin hafi tvö verið, annað fyrir framan siglu en aptan rausnina, annað fyrir aptan siglu framan sjálfa lyptínguna, og í því eptra[7] fyrirrúmi skilst mèr að Eiríkur [jarl[8]] hafi barizt og fylkt[9] um sig með skjaldborginni í Svoldarorustu.

27. Krapparúm var á skipunum næst fyrir framan eptra fyrirrúmið; þess getur Ólafs saga Tryggvasonar, kap. 251., *pag.* 320[10], *item* Snorri Sturluson[11] í Svoldarorustu: „Einar þambaskelfir var á Orminum aptr í krapparúmi". Hvorttveggja þetta skýrir enn þá ljósara Hákonarsaga, *anno* 1263.; þar segir: „[Hákon konúngr hafði mjök valit lið á skip sitt; þessir voru í fyrirrúmi[12]]: Þorleifr ábóti, sèra Askatín, 4 prestar, klerkar konúngs"[13], og enn telur þar 5 með nafni og síðan [enn[14]] fleiri. „Þessir voru í krapparúmi"; þar telur 9. „Í þriðja rúmi var Sigurðr Ívarsson," *etc.*, telur 6 og leggur til: „ok enn fleiri herbergismenn konúngs. „Þessir voru í stafni", nefnir 5 og segir; „enn fleiri skutulsveinar"; víðast[15] voru 4 menn í hálfrúmi. Það er ljóst, að fyrirrúm, sem hèr[16] nefnir, er aptur á skipinu næst fyrir

---

1) B. konúngs, C. konúnga. 2) A, B. skutbyggjum C. skutbryggjum. 3) B. kom, C. fór. 4) [ ] vantar í B, C. 5) Allar: kap. 178. 6) Allar: kvað Erlíngur. 7) B, C. aptara. 8) [ ] vantar í B, C. 9) B. filgt. 10) A, B. kap. 89, C. kap. 80. 11) Heimskr. k. 126., bls. 356. 12) [ ] vantar í A. 13) C. klerkar 2. 14) [ ] vantar í B, C. 15) B. síðast, C. síðan. 16) C. þar.

framan lypting, því hann gengur fram eptir skipinu. Aptur sýnir það þessi grein, að krapparúm hefir verið næst fyrir framan það aptara fyrirrúmið.

28. En það, sem hèr nefnir hið[1] þriðja rúm, hefir verið næst fyrir framan krapparúm, af hverju eg ræð, að hèðan frá hafa rúmin nafngipt verið eptir töluröð sinni fram til hins eptra austurrúms að vísu.

29. Klofarúm segir í[2] Farml. 7. útþrykkilega að við siglu verið hafi; *vide infra* „Tjaldan á skipum".

30. Um stafnbúa, söxin og rausnina á lángskipum er auðsýnilegt, að til rúmatals eður sessatals heyri, og skýrir það Snorri Sturluson í fyrrgreindum sögum, er af orðum hans kunna[3] þessu máli til upplýsíngar að vera, bæði um borðhæðina og rúmatalið. En svo sem bæði Snorri og Hákonarsaga telja aptur eptir skipinu stafninn, söxin, rausnina og þá fyrirrúmið (fremra), svo má líklegt sýnast, að rúmin hafi þaðan frá nafngipt verið eptir töluröð, alt til hins fremra austurrúmsins, og líkast virðist mèr, að tala sú hafi gengið framan[4] eptir skipinu alt aptur að siglu, þegar eg ber saman orustu Magnúsar konúngs [hins[5]] góða, sem fyrst var hèr til vitnis kölluð, við það, er Snorri talar um skipan á Orminum, og hitt, að Hákonarsaga telur rúmin að aptanverðu fram til siglu, sem strax var leidt fyrir sjónir.

31. En um liðsfjölda á skipum þeim, er sessum skyldi telja, verður ekki[6] víst á kveðið; því bæði var skipanna mismunur svo [geysi[7]]-stór, og í annan stað mesti munur á, hversu vel skipuð voru þau herskip, er annaðhvort fóru í víkíngu eður hernað, hvort sem það var leiðángurslið, eður hirð konúnga, eður sveitir lendra[8] manna. Sýna dæmin alt þetta. Álfs[9] rekkar voru aldrei fleiri en 60 menn á skipi, sem vottar sagan af Hálfi konúngi og rekkum hans. Áki, faðir Pálnatóka, hefir til heimboðs á Gautlandi 2 skip, einn dreka, en[10] annað snekkju og á 200 manna. Ólafs saga Tryggvasonar *lib. 1., cap.* 123., *p.* 129. *a*[11]. [Sigurður sendimaður Pálnis hefir 1 skip og á 60 menn í konbónaför; *pag.* 140. *a*[12]][13]. Sveinn Saum-Æsuson fær af föður sínum 3 skip og [á[14]] 100 manna ɔ: 40 á skipi, *p.* 144., og

1) C. það. 2) í vantar í B, C. 3) B, C. kann. 4) B, C. fram. 5) 6) B, C. ei, 7) [ ] vantar i B, C. 8) B. lenzkra. 9) C. Hálfs. 10) A. og. 11) Fms. 11. B. bls. 45. 12) [ ] vantar í C. 13) Fms. 11. b., bls 47. 14) [ ] vantar í B.

önnur 3 skip mjög[1] búin, *ibidem*[2]. Stórt hundrað er hèr alstaðar talið; það er þreifanlegt af þessari sögu[3] um Jómsborg og Jómsvíkínga. Vagn hafði 100 manns; var tekið við 80. Strútharaldssynir 100, og var tekið við 60[4]. Vesetasynir 100, og var tekið við 60; en heim fóru 60 af þeim 80[5] af[6] Strútharaldssonum, 40 af Vagni; *cfr.* Snorra Sturluson, þar sem hann telur herskipafjöldann hvorratveggja jarlanna í Jómsvíkínga[sögu og[7]] bardaga. 2 skip og 160 manna höfðu Hildríðarsynir, er þeir vildu hafa tekið Þórólf af lífi. 80 manns á tvítugsessu Þóris hunds, er hann fór til Bjarmalands; Ólafs helga saga, kap. 129[8]. 80 manns á tvítugsessu Háreks úr Þjóttu, þá er hann brendi inni Grankel, kap. 163,[9] [í Ólafs helga sögu[10]]. 40 voru vígra manna á skipi Þorgríms trölla, en 20 á skipi Þorgeirs Hávarðssonar; Ólafs helga saga, kap. 119. Þetta voru kaupskip [tvö[11]]. Ólafur Tryggvason, eptir á Noregskonúngur, hafði 6 stórskip, og á 300 manna, þá er hann fór með Burisleifi mági sínum til liðs við *Othonem* keisara að vinna Danavirki, sem vottar Þormóður Torfason eptir Oddi múnk í *Trifol. cap.* 10., *p. m.* 42.; eru þá 60 manna[12] á skipi, ef vèr[13] teljum tólfræð hundruð, sem eflaust á að vera, en 50, ef tíræð hundruð eru talin[14]. Sverrissaga segir talda 270 manns á Maríusúðinni, kap. 81.[15]. Ólafur konúngur helgi, þá hann barðist við Svein jarl Hákonarson, hafði 100 manna á skipi sínu, sem segir í sögu hans, kap. 55.[16]. En þá er hann sigldi frá Niðarósi inn í Þrándheim, og tók af lífi Ölver á Eggju fyrir blótskap, hafði hann 5 skip og 300 manna, kap. 104.[17], það eru 60 menn á skipi, ef ver teljum tólfræð hundruð, en 70, ef tíræð eru talin. Eins voru skip hans mörg og eins liðsfjöldi, þá er hann fór á Hálogaland, að kristna þar, og gjörði þá lenda menn Hárek í Þjóttu og Þóri hund í Bjarkey, kap. 100., 101.[18], það er á fjórum 62, en 63 [á öðrum fjórum[19]], ef átta voru skipin og tíræð hundraðatalan; en ef skipin voru 9, þá verða 56 menn á hverju af 5 skipum, en á fjórum 55 menn. En ef hèr skyldi tólfræð hundruð telja og átta skipin, þá eru

1) A. eins. 2) Fms. 11. b., bls. 27. 3) B, C. þessum sögum. 4) A. 40. 5) Allar: LXXX; rèttara C. 6) A. bætir við: þeim. 7) [ ] vantar í A. 8) Allar: kap. 144. 9) Allar: kap. 175. 10) [ ] vantar í B, C. 11) [ ] vantar í A. 12) A, B. menn. 13) A, B. vær. 14) A. Tíræðt hundrað er talið; B. tíræð hundruð er talið. 15) Allar: kap. 70., 71. 16) Allar: 39. 17) Allar: 107. 18) Allar: kap. 100. 19) [ ] vantar í A.

75 menn á skipi; en væri skipin 9, þá væri á 6 skipunum 67[1], en á þremur skipunum 66 menn. En þetta er [alt[2]] svo meint, ef jafnt hefði verið manntalið á hverju skipi, sem líkast er að ei muni verið hafa, heldur á sumum færri, en fleiri á sumum. Sverrissaga, kap. 117.[3], talar um snekkju tvítugsessu og á 90 manna, og kap. 120.[4] um lángskip og á 90 manna. Aptur kap. 135.[5] segir forræðarinn Nikulás biskup þunnskipað, „einn maðr í hálfrými, þar sem mest er". En segir Sverrissaga, kap. 158.[6]: „Fjórir spentu hverja ár á konúngsskipinu". Orkneyíngasaga, kap. 82.: „Haraldr jarl Madaðarson var farinn upp á Katanes með tvítugsessu ok 80 manna". *Ibid.* kap. 87.: Haraldr jarl byrjaði ferð sína út í Orkneyjar á jólum; hann hafði 4 skip ok tíu tygi manna"; þá voru[7] 25 menn á skipi, og því ætla eg það eigi hafi[8] lángskip verið. [Alt þetta sýnir, að furðu-stór munur hafi verið[9]] á mannfjöldanum og vexti skipanna. Ólafs saga Tryggvasonar í fyrra parti, kap. 108.: „Fengu jarlarnir Sigmundi Brestissyni hvorr eitt lángskip ok 40 manna á hvoru skipi". *Item* kap. 110.: „Hafði Sigmundr 300 manna ok 5 skip vel skipuð", það er 60 manna á skipi, ef tíræð hundruð eru meint, en 72[10] menn á skipi, ef hundruðin eru tólfræð, sem eg eigi tvíla. Og enn segir Örvaroddssaga: „Þeir Oddr ok Hjálmar höfðu frá Svíþjóð 2 skip ok 60 menn á hvoru". 30 voru menn á skútu þeirri, er Finnur Árnason hafði, þá er Ólafur konúngur Haraldsson sendi hann að boða leiðángur af Hálogalandi, kap. 151. *ex membrana*[11]. Noregskonúnga-sögur um Eistein konúng Haraldsson gilla, þá er hann tók Harald jarl Madaðarson: „jarl hafði þrítugt skip ok á 80 manna". Hèr hefir verið mjög þúngskipað[12], setið[13] maður við ár, sem Sverrir konúngur bauð einhverju sinni, og einir 20 menn að auki. Egils saga Skallagrímssonar: „Arinbjörn hafði skipakost góðan; bjó hann um vorit 3 lángskip ok öll góð; hann hafði 300 manna; hann hafði húskarla sína á skipi sínu, ok var þat allvel skipað; hann hafði ok marga bóndasonu með sèr. Egill rèðst til farar með honum". Svo segja bæði Snorri Sturluson og Noregskonúnga-sögur, að 44 menn voru á hverri Vinda snekkjunni, er Rettibur Vinda-

---

1) B, C. bæta við: menn. 2) [ ] vantar í B, C. 3) Allar: kap. 105. 4) Allar: kap. 109. 5) Allar: kap. 121. 6) B, C. 124.; A. 144. 7) B, C. verða. 8) B, C. hafi ei. 9) [ ] vantar í B, C. 10) C. 62. 11) Fms. 4. b., bls. 325. 12) C. þunnskipað. 13) B, C. sæti.

konúngur hafði til Konúngahellu, og 2 hestar. Í tíð Haralds konúngs gilla var það eins hèr á Norðurlöndum og út í heimi, og ei með stórum mismun[1]. *Homeri Iliade,* π ɔ: 16., *p. m.* 396., segir verið hafa 50 menn á hverju skipi, sem *Achilles* hafði[2] til Trójumannabardaga. *Idem, Iliade* β ɔ: 2., *p. m.* 41., segir 120 manns hafi verið á hverju því skipi, sem *Bæotii* lögðu til í þá herför. [3]Reiknar *Spondanus* allan Grikkjanna skipaflota samantalinn eptir *Homero* 1186 skip, en greinir þar eigi liðsfjöldann; getur þess[4] og undir eins, að þar í sè misgreiníngur milli skrifaranna[5]; *cfr. Vossium instit. orat. lib. 4., cap. 8., sect. 10., p. m.* 149. Eptir *Plutarcho* skrifar *Spondanus* skipatöluna 1200, en liðsfjöldann 120,000; verða þá 100 manns á hverju skipi, ef að öll skyldi jafnstór og jafnskipuð, sem ei hefir verið, heldur stór munur liðstölu og skipunar á jafnmörgum[6] skipum. *Clinias*[7] *Atheniensis,* son *Alcibiadis,* hafði 200 manna á skipi sínu, segir *Herodotus lib. 8.*[8]*, cap. 17., p. m. 469.* Það segir *Christ. Matth. Theatr. Hist. p. 61.* eptir *Menandri*[9] *translatione* af annálum þeirra[10] í *Tyro,* að *Salmanassar* konúngur af *Assyria,* sá eð eyðilagði Ísraelsríki [í Samaría[11]], 2. Reg. 17., v. 4., 5., 6., hafi fært stríð á móti *Tyrus*[12] á 60 skipum með 800 róðrarmönnum; og skuli þar með skiljast [alt það lið[13]], sem á þeim 60 skipum var, [svo sem eg tvíllaust meina[14]], þá verða 13 menn á hverju af 40, og 14 [á hverju[15]] af 20 skipunum, og lætur það eins og *Ostersen* skrifar *in voce* „Hafnelaug" *in Glossario p. m.* 350[16] um 12 menn á herskipum þeirra gömlu leiðángursmanna í Danaveldi. *Confer eundem in* Landvarneskib *et* Langskib, *pag.* 482, *et* Leding, *pag.* 498; en hann villist mikillega í því, er hann í þessum orðum skrifar um Noregs landvarnarskip. Þar í móti hafa skip *Tyriorum*[18] sannlega miklu stærri verið, en skip *Salmanassaris*[19], er þeir börðust við 60 skip áðurnefnd á 12 skipum og fengu sigur, sem *Christ. Matthiæ* vottar *loco citato* eptir sömu annálum, svo alt þetta geldur samkvæði því, er eg hefi úr vorum sögum greint og

1) A. og svo stórum mismunur; B. og stórum mismun. 2) B. hafi. 3) A. Og. 4) B, C. greinir þar. 5) A. scribentanna. 6) B, C. jafnstórum. 7) A. Elinias; C. Choas. 8) B, C. lib. 1. 9) B, C. Meleandri. 10) B, C. þeim. 11) [ ] vantar í C. 12) A. Tyris. 13) [ ] vantar í C. 14) [ ] vantar í C. 15) [ ] vantar í C. 16) C. 150. 17) B, C. þar þvert í móti hafa Tyriorum skip. 18) A, B. Salmanassa.

*concluderad*[1], að vöxtur skipanna misstór og misjöfn skipan[2] láti þó öll að því, að ekki skyldi færri en 40[3] manns á herskipi, en á vel-flestum hafi 50, 60 eður 70 verið, nema þegar konúngar vildu því betur skipað hafa, eður höfðíngjar hersins væri því fleiri[4], sem sín eigin skip og nokkur fá (sínum skipum sèrdeils til fylgdar valin) lètu bæði að vexti og mannfjölda fremur út búa, sem alls eru dæmi nóg [af Svoldarorustu, herför Ólafs helga og Önundar Svíakonúngs móti Knúti konúngi, orustu Sverris konúngs við Magnús konúng á Sognsæ þeirri síðustu, svo vel sem orustu Sverris konúngs fyrir Norðnesi og ótal öðrum, eins á þeim dögum sem vorum[5]]. [6]Kemur svo þar til, að af öllum framanskrifuðum greinum segi eg um síðir mína *illation*, hvað það sè, er svo lengi leita eg eptir, [skip[7]] sessum að telja. Hefi eg öndverðlega í þessum margyrðum bevísað af landsleigubálki hinnar fornu Gulaþíngsbókar, að eigi megi skip öll sessum telja, og því er nú af öllum framantöldum[8] [skipa[9]] nöfnum og vexti þar fyrst á að líta, sem skip eru talin, að mannmergð, tveggjamannafar, þriggja-, fjögra-, fimm-mannafar.

32. Þar næst eru róðrarskip árum talin, sexæríngur, áttæríngur, teinæríngur,[10] tólfæríngur, og ekki lengra fram. Hafa þessi fjögur næstnefndu skip sitt nafn af samantöldum öllum þeim árum, sem róið var á bæði borð. Síðan eru þau skip, sem þá eru [nokkuð[11]] stærri, talin eptir því sem margir róa á hvort borð, svo sem áður er sýnt um karfana og róðrarskútur. Man eg þau eigi smærri talin, en karfann Rögnvalds konúngssonar, er Egill Skallagrímsson steypti, og eigi stærri, en karfann stóra Þorfinns bónda; honum reru 15 menn á borð, og heyra hèr ei til þeir karfar, sem í lángskipatal komu, svo sem skip Ketils á Hríngunesi.[12] Á þessum öllum skipum, er svo eru talin, var róið að endilaungum borðum, svo sem Sverrissaga greinir kap. 154.[13] um byrðínga þá, er konúngurinn lèt höggva í sundur og auka að kili; þeim skyldi róa að endilaungum borðum, það er: af hverri þóptu skyldu liggja tvær árar útbyrðis í sjó, sín á hvorn veg, eins og á sexæríngum og tólfæríngum enn í dag, og hafa þessi skip engin verið ýkja-breið

1) B, C. concludera. 2) B, C. skip. 3) A. 60. 4) B, C. færri. 5) [ ] vantar alt í B og C. 6) B, C. 32. grein. 7) [ ] vantar í C. 8) B, C. framanskrifuðum. 9) [ ] vantar í B, C. 10) B. teinahríngur. 11) [ ] vantar í B, C. 12) Húngunesi. 13) Allar: kap. 140.

nè borðhá, þar sem árarnar lágu útbyrðis, þeim megin er sá sat, er hverri reri.

33. Hèr eptir koma þau skip, sem svo voru borðhá, að árarnar þurfti svo lángar, að mjög óhægt, eður næsta ómögulegt væri, að stýra þeim til róðrar, ef sá, sem þeim reri, skyldi sitja við keipinn á það borðið, sem þessar árar lágu út í sjóinn, og urðu því árarnar að liggja yfir þvert skipið, svo þeim yrði stýrt í róðrinum; sátu því þeir róðrarmenn á stjórnborða, sem reru þeim árunum, er út lágu á bakborða, en hinir, sem á bakborða sátu, reru þeim árunum, er út lágu á stjórnborða; því segir *Vossius de structura triremium, pag. 97.*: „Reyndin og náttúran sjálf kennir, að magnlausir sèu róðrarmennirnir (á stórskipum aðskilja), ef þeir sitja of nærri keipunum"; [og áður hefir hann sagt *pag.* 96.: „Því hægra er róðrarmönnum að stýra árinni, sem þeir sitja fjær keipnum[1]"]. Og fyrir því, að með svoddan móti var ómögulegt, að af sömu þóptu lægi 2 árar í sjó, því þar hefði hvor hindrað aðra, þá var rúmum skipt í tvent, og voru 2 þóptur í hverju rúmi, og þóptustæði hvert kallað hálfrými[2]. Því segir í Eddu[3]: „þópti er hálfrýmis-fèlagi," það er sá, sem situr á sömu þóptu. Voru svo hverjar[4] tvær þóptur taldar fyrir einn sess og eitt rúm, fyrir þá grein, að ef eigi fylgdi sú önnur árin, sem róið var í hálfrýminu, þá var sessinn eður rúmið einhent, að eigi lá útbyrðis af því rúmi eða sessi nema ein árin öðruhvoru megin, meðan ekki kom til annar vængurinn eða armurinn af hinu hálfrýminu. Því segir Frostuþingsbók í Landvarnarbálki: „Leysi þeir skip úr festum, og sækir maður ei hálfrými sitt". Hèr af má sjá, að menn hafa verið til hálfrýma niður skipaðir. Voru menn á lángskipum misjafnt margir í hálfrými, eptir því sem þau voru vel skipuð, og varla færri en tveir, og svo sýnist verið hafa á snekkjunni Eiríks konúngs blóðaxar, þeirri[5] er Egil elti[6] Skallagrímsson eptir þræturnar á Gulaþíngi. Þar segir, að tveir tóku hverja ár, þar sem þrír menn voru í hálfrými á Ólafssúðinni fyrir[7] Norðnesi, Sverrissaga, kap. 54[8]. Fimm menn voru í hálfrými á Maríusúðinni, er[9] barizt var á Sognsæ, þegar[10] Magnús konúngur fèll, kap. 91.[11] Fjórir menn spentu hverja ár á skipi Sverris konúngs, sem sagan vottar kap. 158.[12] um orustuna

---

1) [ ] vantar í C. 2) C. hvert kallað var hálfrúm. 3) B, C. því segir Edda. 4) B, C. hinar. 5) B, C. þeim. 6) B, C. eltu. 7) B. frá. 8) Allar: kap. 50. 9) „er" vantar í B; C. þá. 10) B, C. þá. 11) Allar: kap. 70. 12) Allar: kap. 144.

við Bagla á Strindsæ í Þrándheimi. 30 menn voru í fyrirrúmi á Orminum lánga, segir Snorri Sturluson, *vide supra num. 22.* Víðast voru 4 menn í hálfrými, segir Hákonarsaga, *vide supra Nr.* 27, og hversu þar er manntalið misjafnt í rúmunum. En víst er það, að á lángskipum meðallagi stórum gat einn maður róið árum þessum[1], sem ljóst er af boði Sverris konúngs, kap. 91.[2]: „Sitr maðr við ár, ok annarr í hverju hálfrými". Getur það fullvel saman komið við lengd áranna með því móti, að allur þriðjúngur af lengd árarinnar væri[3] innanborðs, svo sem *Isaacus Vossius de structura triremium, pag.* 98., skrifar[4] vera skuli, það er[5] fyrir innan keipinn, þann er hún studdist við, þegar til kom átak róðrarmannsins, er þá sat út við hitt borðið á sömu þóptunni; annars sýnist það mundi ómögulegt verið hafa, að einn maður skyldi róa svo lángri ár. Mèr verður sagt: Þeirrar aldar menn voru[6] miklu sterkari, og gátu því róið svo laungum árum, þótt þeir sæti við keipinn, þann sem árin lá út. Eg svara: Mun það trúlegt[7], að sá, sem hafði tvær álnir af 16 álna lángri ár, hafi stýrt 14 álnum sömu árarinnar utanborðs, þar sem 5 af þeim 14 skyldu taka á sig sjó, en 4 liggja frá borðstokki til sjómáls, og með svoddan móti gjöra svo harðan og hvatan atróður, sem sögurnar kenna þá hafi gjörzt? Trúi því hver eð vill, eg trúi því eigi; því er hitt að vísu rèttara, að fjarlægð þeirra róðrarmanna frá keipunum, þar sem árin lá út, olli því, að þeir gátu sínum geysi-laungum árum stýrt, svo hart, svo hvatt[8], svo hraustlega, sem sögurnar greina og bardaganna[9] nauðsyn krafði. Hyggi menn að voginni, hversu það litla pundaralóð loptar því þýngri byrði framhlutans, sem því er lengra þokað aptur eptir pundaraskaptinu. Hyggi menn að því, er skrifar hinn hálærði *Vossius de structura triremium, p.* 107.: „Það er, segir hann, eilíft lögmál í vigtarkunstinni, að einn maður, sem situr 20 feta frá keipnum, megnar eins miklu, sem 20 menn, þeir er sitja einu feti frá keipnum. Því segi eg: gjöri tilraun hver er vill, á sjó eður landi, og skulu þeir þreifa á sannindum sögu minnar. Aptur verður mèr sagt: Hálfrými áttu[10] að skilja frá keipnum inn á miðja þóptuna[11]. *Respondeo*: Þá mega

1) B, C. þeim. 2) Allar: kap. 70. 3) B, C. var. 4) B, C. skipar. 5) B. því að. 6) B, C. væru. 7) B, C. trúanlegt. 8) B. og hvatt; C. og hvasst. 9) B, C. bardaga. 10) B, C. að hálfrými ættu. 11) B, C. þóptu.

þau skip y f r i ð b r e i ð v e r i ð h a f a[1], að 16 menn sátu til róðurs á einni þóptu, 8 hvoru megin að, og höfðu þó allir rúm handleggjum sínum, til að beygja þá og rètta til róðursins. Skal nú að þeirra vild ætla hverjum 1½ á l n a r[2] rúm til þessa; minna getur það e k k i[3] verið; þá verður skipið 24 álnir á breidd. Hverr trúir því um lángskip þeirrar aldar? Látum oss hèr hugleiða þær 20 álna laungu árar Baglanna, sem herra *Pètur Clausson* segir frá í sögunni af Ínga konúngi Bárðarsyni *anno* 1206, *p*. 561., og þeim á r u m æ t l a[4] menn í hálfrými. Eg læt það gott, [að átta[5]] menn hafi kunnað slíkum árum stýra, en [þeir[6]] þurftu 12 álna rúm á þóptunni, og það viljið þèr kalla helmíng skips breiddar, og á hitt borðið alt eins á sömu þóptu, svo sem strax var sagt. Eg læt mig forundra, að vitugir menn vilji svo dæma; hvar sjáum vèr slíka breidd á orlogsskipum þessarar aldar? Þó skyldi slíkar *moles* með árum hræra! Því m u n d u þ a u e k k i[7] b r e i ð s k i p heita, heldur en l á n g s k i p, ef þau voru svo vaxin? Hvað mun þá lengdin á þeim verið hafa? Um farmaskip segir *Isaacus Vossius p*. 98., að þeirra breidd skuli vera fjórðúngur lengdarinnar, og að því hófi skyldi þessi Baglanna skip verið hafa 96 álna laung, en 24 álna breið eptir farmaskipalögun, og heita þó lángskip, um hver *Vossius* segir þeirra lengd hafi verið sexföld eða meir við breiddina. Nú vill Ormurinn lángi breiður verða. Þar voru 30 menn í fyrirrúmi *ut supra;* þóptan fyrir þá alla til róðurs niðursetzta verður 45 álnir, svo nú er lengd kjalarins á Orminum einar 20 álnir fram yfir breiddina, og [þó[8]] hèt hann Ormurinn lángi. Þetta sýnast mèr hlæilegar forynjur.

Svo sem nú að eptir slíkri *thesi* er þetta að mínum þánka ómögulegt, svo ætla eg hitt augljóst og nú bevísað með rökum, að tvö hálfrými (það er: tvær þóptur) gjöra eitt rúm, svo er og hitt opinbert, að rúmatal á skipunum og sessatal er alt hið sama, svo sem allar sögurnar brúka þetta hvorttveggja mjög á víxl, og Edda lætur skipið heita Sessrúmnir; er þar hvorttveggja saman í einu orði, sess og rúm.

Ef að þetta er nú ekki nóg, hver er [þá[9]] meiníng í þeim

1) A. hafa yfir máta breið verið. 2) B, C. tveggja álna. 3) B, C. ei. 4) A. skipum átta m. í h. B. skipum ætla m. í h. 5) [ ] vantar í C. 6) [ ] vantar í B, C. 7) C. mundu ei. 8) [ ] vantar í C. 9) [ ] vantar í C.

greinarmun, er sögurnar gjöra á skipum [þeim[1]], er sessum má telja, og hinum, er þær segja að róið var að endilaungum borðunum; *vide supra.* Eg skil eigi þann greinarmun, að ef eptir yðar *thesi*-skal og vera svo róið á skipum sessum töldum, að frá hverjum keip og þóptusporði skuli árar í sjó liggja, hvað eru endilaung borðin, ef ei er það? Nú fyrst sögurnar gjöra þau skip, er sessum má telja, fráleit og fremri hinum, sem róið var að endilaungum borðum, mun þá ekki ljóst, að [2] þeim, sem sessum talin voru, skyldi ekki róið að endilaungum borðum, heldur svo, að þurð v a r ð[3] í r ó ð r i n u m[4], það er útgáng áranna sumstaðar á hvort borð, og það, svo sem eg hefi nú sagt mörgu sinni, að annarhvor keipur og annarhvor þóptuendi var árarlaus á hvort borð fyrir sig. Vil eg þess af vitugum mönnum vona, að þeir með góðgirnd og röksemdum hugleiði mínar ástæður, og á meðan þeim er ekki hrundið, *applicera* eg þær til míns erindis.

Tvítugsessur eru öllu tíðara um lángskip að segja, *item* skip hálfþrítug, þrítug og hálffertug, svo fimtánsessur og þrettánsessur, sem áður hefi eg greint með rökum. Þ a ð[5] segir og lögmálið, að þau skip sèu löglaung, er slíkum sessum telja megi, er tvær þóptur gjöra einn sess. Fylgir þá eptir, þó þau sèu borðhá, að árar allar liggi yfir þvert skipið, svo sem áður er sagt. Verður þá kjölurinn graslægur á þrettánsessum 26 álnir þeirrar aldar eptir þeirri *proportion*, að hvert rúm sè nær h á l f u m f j ó r ð a þ u m l ú n g i[6] skemmra, en á Orminum lánga voru rúmin. Í honum var kjölurinn graslægur fjórar álnir hins átta tigar, sem Snorri vottar og áður er sagt, en rúmin 34; koma svo tvær álnir og ekki fullur hálfur fjórði þumlúngur af lengd kjalarins á hvers hluta rúmanna. Felli eg þann hálfan fjórða þumlúng af rúmalengd annara skipa, svo sem Ormurinn hafi verið geysimikill, eins í því og öðru. En ef vèr nú tökum það rúmatal á Orminum lánga, sem Snorri Sturluson [setur[7]] 4 rúm hins sjötta tigar, *vide supra* lángskip *Nr.* 16, og kjölinn graslægan 74 álnir, og leggjum þar til lotin á því yfirburðar-lángskipi, þegar menn telja framlotin alt frá því, er rausnin hefst og fram um söxin, alt til stafnbúarúms, og lyptínguna alt aptur frá eptra fyrirrúmi, mun hver þessi hlutur verða öðrum að hófi líkur, og alt sambjóða við *magnificence* þ e s s a[8] skips og *comparation* hinna smærri lángskipa, hvers að sínum

1) [ ] vantar í C. 2) A. bætir við: á. 3) B, C. var. 4) A. róðurnum. 5) B, C. því. 6) C. hálfum fjórðúngi. 7) [ ] vantar í C. 8) C. þess.

vexti. Ef það þykir ekki nóg, sem áður hefi eg sagt, til að minka rúmin við þann skamt á Orminum, þá fellum enn af hverju rúmi 3 þumlúnga, það verður af öllum kjölnum á þrettánsessunni 2 álnir minna[1] 1 þumlúngur; er hann þá eptir 24 álnir, og hvert rúm nærri 7 þumlúngum styttra, en það var á Orminum. En nú er kjalarlengdin [orðin[2]], svo sem almenn og gömul munnmæli segja, að það skuli heita haffært skip, að kjölurinn sè 24 álnir; aðrir vilja segja 20 álnir, og sèu þá meintar 20 álnir þær, sem vèr nú brúkum, þá verður ei miklu styttri kjölur sá, en 24 álnir hinnar fornu aldar, þegar lögbókin var út gefin; *vide* „Alin“ og „Meðalalin“.

Svo skrifar herra *Pètur Clausson in* Magnús konúngur Eiríksson *anno* 1337: „Var der fem mænd udi Norge, som hafde slaget vedde, at vilde segle til Skotland udi en liden Baad, 20 alen lang, hvorpaa de gafve sig til Søes; men der de komme ud, bleve de af Storm og uvæyr saa forslagen, at de langt om sider kom ind under Island meget afmattet[3] og syge; dog blev de alle med livet.

Áður hefi eg sagt, að eigi hafi eg fundið smærri skip sessum talin[4] en þrettánsessur. Vilji menn þess krefja, að þau hafi[5] nokkur smærri verið, eður finna rök til þess, þá brýtur það ekki þessa mína *thesin;* því rúmanna eður sessanna vöxtur mætti þá fyrir þann mun stærri vera, og koma í einum stað niður kjalarlengdin, 24 [álnir[6]] þeirrar aldar eður 20 álnir vorra tíða[7]. En mèr skilst svo grein hinnar fornu Gulaþíngsbókar innfærð *supra Nr.* 16[8], að eigi sè von til smærri skipa sessum talinna, en þrettánsessna. Og svo sem nú hefi eg um þetta margorður verið, þá má eg ekki hjá því gánga þegjandi, sem Ólafs saga Tryggvasonar prentaða, kap. 81., *p.* 173.[9], segir á Orminum lánga verið hafa tvær árar hins sjötta tugar, þá bæri því[10] saman við rúmatal Snorra, og tel eg það skrifarans misgá[11], að ei er svo; því þá náir alt heim það, er nú hefi eg hèr um skrifað, því að venjulegt var, að tvær árar, og ekki fleiri, væri í hverju rúmi, jafnvel á þeim allrastærstu lángskipum, svo sem áður er sagt og bevísað með vísu Þjóðólfs um hinn mikla dreka Haralds konúngs Sigurðssonar, að þar voru 70 árar á hálffertugu skipi. Og eins segir nökkvamaðurinn í

---

1) C. bætir við „en“. 2) [ ] vantar í C. 3) B, C. afmættet. 4) A. smærra — talið. 5) A. skuli hafa. 6) [ ] vantar í B. 7) B. vorar lengdir á þessum tíðum. C. vorrar lengdar á þ. t. 8) B, C. 21. 9) Sbr. Fms. 2. b., bls. 219. 10) B, C. það. 11) C. misgáníng.

vísu sinni um árafjöldann á Orminum skamma[1] í hinni þryktu Ólafssögu, kap. 46., *pag*. 185.[2]:

Leika barðs á borði
byrhreins fyrir, þèr einum
gramr mun á foldu fremri
fár, sextigi ára;

en drekinn[3], sem konúngur stýrði, var þrítugur að rúmatali, sem Snorri Sturluson vottar og fyrr var sagt. Nökkva hefi eg því ei með skipum talið, að hvar[4] sem eg veit þeirra getið, sýnist mèr allar þær frásögur muni diktur einn og engin sannindi, en það hindrar þó ekki, að þessi næstritaða vísa sè vottur góður síns efnis; því að sá, sem hana kveðið hefir, hefir svo talið um hlutina, sem hann vissi að sambauð efninu og háttum aldarinnar. Enn viljið þèr segja: Rök þessi[5] eru ekki sterk nóg til þess, að 2 þóptur skuli teljast fyrir eitt rúm. Eg svara því: Fyrst þèr viljið, að vöxtur þeirrar aldar manna hafi verið stærri, en nú sjáum vèr, hvar skyldu þá yðar stóru menn hafa fengið legurúm á skipunum? Og nú ætla eg yður verði andsvarafátt. Enn látum vera svo sem mín *thesis* segir *in* „alin" og „meðalmaður", að þeir hafi ekki stærri verið þá en nú, samt verður þó alls ómögulegt, að húðföt þeirra, svo margra manna, fái rúm í skipinu, ef yðar *thesis* skal vera rètt, að eina þóptu megi telja fyrir hvern sess. En ef þèr vilduð mína *thesin* álíta, þá verður rúmið bjarglegt, að 2 þóptur af skipslengdinni gjöra eitt rúm[6]. Hyggið að, mínir herrar! rúmatali á Orminum lánga, og tökum hið stærsta, sem Snorri skrifar, 54 rúm, eður ef yður líkar betur það, sem hin prentaða Ólafssaga segir, 34 rúm[7]; hvort heldur þèr viljið, skuluð þèr þó[8] aldrei finna ráð [til[9]], að húðfötin geti komizt niður á þiljunum, nema þèr viljið samþykkja mèr, að tvær þóptur megi eitt rúm gjöra. Á þiljunum, segi eg, því að á þeim skyldu húðfötin standa [um nætur[10]], og voru tjöldin þá til skjóls fyrir sjódrifi og veðrum; *vide nostrum* „tjaldan á skipum". Er nú allri minni viðleitni til þess kostað, að finna rök hin[11] sönnu þessa máls, og bið eg mèr[12] verði sýnd önnur rèttari, ef eigi mega þessi gilda.

---

1) B, C. lánga. 2) Sbr. Fms. 2. b., bls. 181. 3) B, C. dreki. 4) B. hvað. 5) B, C. þín. 6) B. eitt sess; C. einn sess. 7) C. 64 rúm. 8) C. samt. 9) [ ] vantar í C. 10) [ ] vantar í B, C. 11) C. rökin. 12) B, C. nú.

## Sifjaður, Sifjar, Sifskapur, Sifja - spell.

Þíngfb. *3.* k. *[Svo með sökuðum sem sifjuðum[1]].*
K. E. *7.* *[Þó svo, at hvorki sè getinn í hórdómi, nè frændsemis - spjöllum, nè[2] sifjaspjöllum[3]].*
K. E. *10.* *[Svo um sakaðan sem sifjaðan[4]].*
Kvennag. *6.* *[Ef þau skiljast fyrir þann sifskap, er karlmannsvöld hafa til komit[5]].*
Sjötta Erfð. *[Ei í hórdómi getnir, nè frændsemis - spjöllum, nè sifja - spjöllum[6]].*
Þjófab. *19.* *[Hvorki sakaða nè sifjaða[7]].*
R. B. H. K. Innfærð í 6. erfð.: *[Barn sitt, þat er hún gat í frillulifnaði, og ei í hórdómi getið eðr sifjaspellum[8]].*
R. B. E. K. *[Hvorki sakaða nè sifjaða, þeim sem um skal dæma[9]].*

Það er víst, að sifjar eru mægðir, nema guðsifjar, þær k u n n a[10] og að vera mægðalaust að l í k a m s[11] - venslum. En að sifjar merki bæði frændsemi og mægðir, minnist eg ekki að rök megi skýr t i l l e i ð a[12], þótt Björn á Skarðsá hafi svo viljað skilja orðið s i f j a ð u r í fjórum framanskrifuðum greinum. Mægðamerkínguna vottar Edda; hún segir: „Mágar heita sifjúngar". *Item* Sæmundar-Edda í Sigurðar kviðu Fáfnisbana: „Þyrmda ek sifjum", segir hann um Gjúkasonu, því hann átti Guðrúnu, systur þeirra; og í Grípisspá Sæmundar-Eddu segir Sigurður, þá er [hann[13]] þóttist vita víst að mægjast Gjúkúngum:

Munu synir Gjúka
á sifjugum mèr
eggjar rjóþa?
Enn seg þú Grípir.

Þá er enn í Sæmundar-Eddu, Helga kviðu Haddíngjaskata, það, er mælti Dagur Högnason, bróðir Sigrúnar Högnadóttur, konu Helga Haddíngjaskata, er Dagur hafði þá vegið:

Einn veldr Óþinn
öllu bölvi,

1) [ ] vantar í B. 2) C. eður. 3) [ ] vantar í B. 4) [ ] vantar í B. 5) [ ] vantar í B. 6) [ ] vantar í B. 7) [ ] vantar í B. 8) [ ] vantar í B. 9) [ ] vantar í B. 10) A, B. kynnu. 11) C. líkamans. 12) A. til verða. 13) [ ] vantar í A.

því at með sifjúngum
sakrúnar bar.

Síðan þegar Atli hafði fengið Guðrúnar Gjúkadóttur eptir Sigurð Fáfnisbana dauðan, þá heitir hann sifjúngur Gjúkúnga í kviðunni grænlenzku. [1]Og þótt einhver vildi segja, að alt sè þetta skáldskaparmál, þá er Grágás skýr í Festarþætti, kap. 4. Hún mælir svo: „Eigi skulu skyldri sifjar með þeim, ef hann hefir konu átta áðr, eðr hún bónda, en at fimta manni. Guðsifjar skulu ok eigi vera með þeim". *Item* kap. 45.: „Þat eru sifjaslit enn meiri, ef maðr liggr með sifjúngum tveim, eðr þeirri konu, er bræðrúngr hans hefir barn við getið. Þat varðar[2] skóggáng". En áður segir sami þáttur, kap. 3.: „Þat er nýmæli, at jamnáit[3] skal byggja sifjar ok frændsemi, at fimta manni hvort". Svo gjöra og þær svensku lögbækur, *Landslagh., Kirkeb.* 15., aðgreiníng á millum *[Sifskap spjeld, Gudsifjalags spjeld* og *frændsemis spjeld*[4]*]*, [og í *Västgothalagh. Giftobalken*, kap. 3., sundurgreiníng á frændsemi og sifskap[5]]; *cfr. Upplandslagh., Kirkeb.* 15., *[Sudermannlagh. Kirkeb.* 15.[6]], *Västmannlagh. Kirkeb.* 19.[7], *[Östgoth. lagh.*[8] *Kirkjub.* 23, § 4[9]], og ljóst er það [hvað[10]] frá öðru skilið í vorrar bókar Konúngs E. 7. og almennilegs erfðatals sjöttu erfð [áður ritaðri[11]]. En þótt rèttarbótin, sem í sjöttu erfð er innfærð, eigi nefni þar[12] frændsemisspjöll, og eigi heldur nefnir rèttarbót Hákonar konúngs um arf Pèturs Hálfdánarsonar sifjaspjöll, þar þó öllum þykir skylt, að skilja frændsemisspjöll [í báðum[13]), og sifjaspjöll í báðum, þá þori eg ekki samt að segja, að orðið „sifjaðr" í lögmanns eið og lögrèttumanns þýði bæði mága og frændur, eður og í Þjófab. 19., eður rèttarbót Eiríks konúngs. [14]Hitt segi eg, að af öðrum greinum laganna megi það skýrlega ráða, að frændur megi [þar[15]] ekki nefnast til dóma eður eiðvætta, sem fyrirboðið er að nefna mága, og sá, sem skyldast til með eiði sínum rètt að dæma á millum mága sinna, skyldast og [til[16]] að dæma rètt á millum frænda sinna, hverjir sem á móti hverjum[17] málstað eiga, og munu svo

---

1) B. § 2. 2) C. ver. 3) B. jafnit. 4) C. Sippskapspelld, Gudsipjolagsspelld, frændsemisspelld. 5) [ ] vantar í B. 6) [ ] vantar í C. 7) C. Christeb. cap. 19. 8) B. Västg. l. 9) [ ] vantar í C, 10) [ ] vantar í A, B. 11) [ ] vantar í B; C. áður inn færðum, 12) A, B. það. 13) [ ] vantar í C. 14) B. § 3. 15) [ ] vantar í B. 16) [ ] vantar í B, C. 17) B. honum.

flestir virða, að þar dæmi hver[1] mál frændkonu sinnar, er hann dæmir mál bónda hennar, eður mál frænda síns, þar eð [hann[2]] dæmir málefni konu hans, nema hjónin eigi málefnið saman, sem eigi er tídt, hvað betur fer[3]. Og með sama hætti verður *per consequens* [(það er röksemdir, sem af öðrum uppruna framfljóta[4])] svarað til þess, sem rèttarbæturnar um arfatekjuna hverja fyrir sig gleyma að ánefna önnur frændsemisspjöllin, önnur sifjaspjöllin. Samt fylgir það ekki á eptir, að orðið sifjar merki frændsemi, meir en orðið mægðir merkir blóðskyldu[5], og mun það enginn segja. [6]Það, er minn góði Björn á Skarðsá segir: „Vèr gegnum eigi guðsifjum papista", skilst mèr ei að gjöra útskýríng á orðum lögbókarinnar[7], og eiga þau svo að skiljast, sem Magnús konúngur og hans eptirkomendur hafa til ætlað, þótt vèr höfum það eigi fyrir reglu, sem gagnstædt er vorri evangelisku religíón, síðan hún er inn komin, og hefði betur verið, að Björn og aðrir löghyggnir menn hefðu víðar auga til rent í bókinni, þar sem eru leifar pápiskunnar; mundu þá margir hafa vaknað við ýmsa þvílíka hluti, sem enn nú sofa, og annaðhvort eigi skilja slíkt eður látast eigi skilja, þótt með skýrum rökum áminntir sèu. [8]En þar[9] eg skrifa um fornyrði lögbókar, þá má eg hvorki nè vil undanfella, að minnast á þessar[10] guðsifjar, til að skýra[11], hvað þær merktu[12] í páfadómsins myrkrum, því eg efast ei, að þær sèu[13] í lögbókinni meintar, þar sem sifskap nefnir eður sifjaspell, því að [með[14]] ljósum orðum eru þær með hjúskaparmeinum taldar, eigi alleinasta í Grágás, sem fyrr segir, heldur og í kristinrètti þeirra Jóns erkibiskups og Staða-Árna í kapítula þeim, er svo byrjar; „Þat er fyrirboðit af guðs hálfu, at nokkurr maðr hafi guðsifja sinn at líkamslosta". Síðan telur hann guðsifjar, sem í ærið margar kvíslir greinast[15], og of lángt er hèr að inn færa. Þeirra get eg einasta[16], að prestsins barn mátti[17] við engan þann líkamslosta drýgja, sem presturinn hafði skírt. En niðurlag kapítulans hljóðar svo: „Hefir maðr guðsifja sinn at líkamslosta, þá skulu þau skiljast ok gánga til skripta, ok

1) C. maður. 2) [ ] vantar í B. 3) C. að betur er. 4) [ ] vantar í B; C. fljóta. 5) B. merkja blóðskuldu. 6) B. § 4. 7) C. bókarinnar. 8) B. § 5. 9) C. þar eð. 10) B. áminnstar. 11) A. sýna. 12) A, C. meintu. 13) C. eru. 14) [ ] vantar í C. 15) B. greinir teljast. 16) B. getur einna; C. get eg einna. 17) B. börn máttu.

gjalda hvort þeirra 3 merkur biskupi". [1]Hèr leggur hann jafna sekt á guðsifjaspell, sem hann hefir í fyrirfarandi kapítula lagt við frændsemisspjöllum þrímenninga. Hvernig verður þá efað, [að[2]] Magnús konúngur hafi viljað láta þessar guðsifjar varðveita? Hèr á landi gekk [nú[3]] þessi kristinrèttur í þær mundir, en litlu fyrr í[4] tíð Hákonar konúngs Hákonarsonar [var[5]] hans kristinrèttur í Frostuþíngsbók[6] einum lið strángari; þar stendur, *lib. 2., cap. 9.*: „Þær eru allar jamnar guðsifjar; slíkar liggja þar bætr við, ef maðr tekr guðsifju [sína[7]], sem hann taki frændkonu sína eðr bræðrúngu, bæði við guð ok [við[8]] erkibiskup". Það er eigi til gátu, að sá sem í þá daga fengið hafði sèr eiginkvinnu, og síðan, er þau höfðu lifað í hjúskap eina nótt eður lengur, prófaðist svo, að hann hefði[9] legið með hennar þrímenníngi eður nánari, og vissi hann frændsemi frillu sinnar og eiginkonu nýfenginnar, þá skyldi hann[10] skiljast við konuna, því hann var henni sifjaður, það er mægður í þriðja lið eður nær, og með slíkum hætti er nú sifskapurinn, er Kvennag. 6. nefnir, „at karlmannsvöld hafi[11] til komit". [Grágás býður þennan hjónaskilnað útþrykkilega í Festarþ., kap. 54.[12]]. Nú vil eg spyrja: Ef einhverr í þann tíð hefði fengið dóttur prests til ekta, og síðan reynzt[13], að hafa áður getið barn við einhverri þeirri konu, sem sami prestur hafði skírt, og vissi sá nýkvænti það, þá er hann fèkk prestsdótturinnar[14], mundi hann ei hafa neyddur orðið[15] af bikupum þeirrar aldar, að skiljast við hina nýfengnu prestsdóttur, sökum guðsifja þeirra, sem voru á millum kvennanna? Mèr skilst, að svo mundi, og sú sè[16] laganna meiníng. [En þakki menn guði, að nú er sú páfans[17] villa burt liðin, síðan evangelisk *religio* kendi mönnum rèttari vegu[18]]. Þótt mèr kann ske yrði svarað, að Heiðsivjaþíngsbók, sem átti Sigurður lögmaður Björnsson og nú á *assessor* Árni Magnússon, sýnist að greina sifskap og mægðir, — hún segir í Mannh. 9.: „Fjórmenníngar at frændsemi ok nánari, bæði at sifskap ok mægðum, skulu eigi eptir renna, nema vili"; og eins stendur þessi grein

---

1) B. § 6. 2) [ ] vantar í C. 3) [ ] vantar í B, C. 4) C. fyrir. 5) [ ] vantar í A. 6) C. Frostuþ. bálki. 7) [ ] vantar í A. 8) [ ] vantar í B. 9) B. hafði. 10) C. skyldi hann þá. 11) A, B. hefðu. 12) [ ] vantar í C. 13) C. minnst. 14) A, C. prestsdótturina. 15) B. mundi hann ei neyddur orðinn. 16) A. og sè; C. og svo sè. 17) C. páfanna. 18) [ ] vantar í B.

í því exemplari, sem eg á frá Holti í Önundarfirði á pappír, og líkast er fyrr nefndri *membranæ* í öllu, nema bókstaferan orðanna; — þá svara eg þeirri *objection*, að eg efast ei, að sú grein muni afbökuð vera, því að: 1, Frostuþ. b. Magnúsar konúngs segir í þessari sömu grein: „Fjórmenníngar ok nánari, bæði at frændsemi ok mægðum, skulu ei eptir renna at lögum, nema vili"; 2, segir vor Jónsbók þessa grein í Mannh. 7.: „Fjórmenníngar eðr nánari at frændsemi eðr mægðum eru ei skyldir eptir at renna, nema vili"; 3, gjörir það misþánka[1] til Heiðsævisþ. b. í fyrr sagði grein, að *sifskapr* er í henni ritað[2] með *y*, aldeilis á móti bókstafan þeirra ágætustu[3] pergamentsbóka, bæði af lögbókunum og Eddu *codice regio* og *codice Wormiano*, svo hið sama[4] ágætri *membrana* Sæmundar-Eddu, sem í öllum áður skrifuðum greinum þeim, er af henni tilleiddar voru, skrifar altíð sifjar[5], en syfjar aldrei, og þá enn í mót öllum áður cíteruðum 5 lögbókum Svíaríkis, og skilst mèr það merkilegur vottur um svo gamalt orð, sem sifjar[6] er. Á því [sannarlega[7]] þessi áminst[8] grein Heiðsævisþíngsbókar[9] að lagfærast eptir Frostuþíngsbók, sem og er eptir ágætri *membrana* þeirri, er eg eignaðist frá Leirárgörðum af sonarsyni Árna lögmanns Oddssonar[10].

## Með Skjalla og Skin[11].

Að ólestu fóðrinu, *quod per tropum dicitur* skjalli, eptir himnunni, sem liggur undir eggskurminni; hún heitir skjalli, *unde* skjallahvítt, og skin, að ólestri yfirhúðinni, hvort sem hún er á klæðum eður vopnum, því á henni er skinið, meðan hún hefir sinn rètta glansa óbrjálaðan, og sá glansinn er hið sama, sem hèr í lögmálinu meinast með skýlunni; þegar hún er lest eður lömuð með höggi, heitir það skýlihögg.

## Skinndráttur[12].

Mannh. *13.: Nú gengr maðr til leikfángs eðr skinndráttar.*

Hefir verið einhvers konar skinnleikur, til að reyna afl og

1) A. og gjörir það meir þánka. 2) A. ritaður. 3) B. elztu perg. b. og ágætustu. 4) A, B. bæta við: með. 5) C. sipjar, -sypjar. 6) C. sipjar. 7) [ ] vantar í B. 8) C. ánefnd. 9) C. í Heiðsævisþ. b. 10) B. Á því þessi Heiðsifjaþ. lagagrein að lagfærast eptir Frostuþíngsbók, sem eg eignaðist af sonarsyni Árna l. O. 11) vantar í B, C. 12) vantar í B, C.

fimleika, kann ske yfir um bekk eður bálka, s... eður síki, fen eður fángahellu, öllu heldur en togast yfir elda, sem Björn á Skarðsá meinar. *Vide Ser. Thorm. lib. 1., cap. 3.*, sögu af Villhjálmi sjóð, kap. 24., af Gesti Bárðarsyni, kap. 3., Laxdælu, Ísfirðíngasögu, kap. 14., Ólafs konúngs sögu, kap. 123.

## Skjóla, Katlamáls-skjóla[1].

Kaupab. 5.: *Járnketill nýr ok óeldr ok vegi 4 fjórðúnga, ok liggr í 8 skjólur fyrir 15 aura. Þat er katlamálsskjóla, ef trè er sett í lögg, ok taki öðru megin á þröm upp, 7 þumlúngar meðalmanni í naglsrótum.*

Menn vita það enn í dag, að skjólur heita keröld þau, er þvertrè liggur yfir, fast á endum báðum með einhvers konar hlekk, sem í völtum leiki, svo trèð má liggja flatt þess í milli sem skjólan er borin; en um þetta þvertrè halda menn, þá er bera skal skjóluna. Það heitir nú allratíðast fata og fötu-trè, en í Austfjörðum eru það enn skjólur kallaðar. Nú er það ekki spurt, hvað skjóla sè, heldur hvað mikið tekið hafi fata sú, er skjóla var kölluð; því sýnilegt er af þessari grein Kaupabálks, að viss hafi mælir verið á þeim, er *proprie* hètu skjólur. Það er víst, að nú eru svo kallaðar bæði smærri fötur og stærri, kann ske og í þá daga, en þó ei *proprie* nema þær, sem vissan mæli höfðu að halda. Á einni prentaðri lögbók, er Oddur Jónsson átti, sem hèlt Reynistaðarklaustur, hefi eg sèð skrifað, þó ei með hendi Odds (að mig minnir): „8 skjólur eru 7 fjórðúngar". Síffrutala var á sjö og átta; engin fylgdu því fleiri rök. Nær því er, að ljóst sè hèr af sjálfum texta bókarinnar, að hún vill ekki þessa katlamálsskjólu gjöra sömu og búskjólu, Kaupab. 26. Þar stendur með ljósum orðum: „Búskjóla sú, er í liggr hálfr annarr fjórðúngr", og hefir það hèr á landi almennilega kölluð verið skjóla lángt fram á tíma. Á *membrana* einni, sem eg hefi, stendur bak við á saurblaði tíundargjaldsreikníngur, sem af bókinni má ráða skrifaður sè um það bil, er Snjólfur Rafnsson hafði sýslumaður verið í Múlaþíngi; það var meðan Hans konúngur ríkti, frá 1483 til 1513. Í þeim tíundargjalds reikníngi stendur: „6 merkur skyrs í alin, 5 álnum skyrskjóla, það er búskjóla, hálfur annar fjórðúngur". En þetta

1) Vantar í B, C.

gjörir enga upplýsíng katlamálsskjólunni. Skyldi sönn vera sú nóta, sem eptir *marginali* af Odds Jónssonar bók hefi eg hèr áður inn fært, þá skyldi hver skjóla taka $17\frac{1}{2}$ mörk af katlamálsskjólunum, og ketillin alls 7 fjórðúnga. En skyldi hèr búskjóla meinast, þá ætti ketillinn að taka 12 fjórðúnga, og getur það torveldlega komið saman við fjögra fjórðúnga þýngd ketilsins, því sá, er taka skyldi 12 fjórðúnga, vildi verða miklu þýngri.

## að Skolla,

ɔ: hylla uppi. Hávamál: „Opt úr skörpum belg skilin orð koma, þeim er hángir með ham ok skollir með skrám ɔ: á honum hamurinn, klæðin fara flakalega og er illa í hag komið, og hyllir uppi skrámurnar, það eru örin, sem hann hefir í orustunni fengið (þú skollir við ský uppi).

## Skreppa.[1]

Noregs k. sögur, *p. m. 204.*; *„þá fór Auðunn ok mataðist undir hallarveggnum, sem siðr er til pílagríma, meðan þeir hafa ei kastat staf ok skreppu“.*

Ibidem: *p. 200. Ek skal kæra um óðinndælu mína sjálfs; mèr er horfin hein ok heinakilf, nál ok skreppa ok alt skjóðu-skrúð, þat er betra er at hafa en missa“.*

Item: *Snorri Sturluson um Sigurð ullstreng: „þú vart svo hræddr, sem mús í skreppu“.*

*Notare videtur* litla skjóðu, *unde in* barngælum: „Grýla kallar á börnin sín, þegar hún fer að sjóða: Komið híngað öll til mín, Lángleggur, Skreppur og Skjóða“! Að skreppa er að hlaupa í sín fylgsni. Skreppfinnslegur, *similis Finnorum, qui in* skreppur *ɔ; latebras suas effugit.* Skreppfinnur = mannafæla.

## Skrúð, Skrúðklæði.[2]

Framf. b. 13[3]: *er fyrst um skrúðklæðaburð og búnað;*
aptur: *Treyja með kaprúni af skrúði.*
*ibidem.:* *Bera einn skrúðkyrtil.*

---

1) Vantar í B, C. 2) vantar í C. 3) B. vitnar einúngis til Frf. b. 13. og Kpb. 6.

Og enn aptur: *Ef nokkurr ber skrúðklæði.*

Kaupab. 6.: *Skrúðklæði skorin ok óskorin.*

Orðið skrúð hefir svo margar merkíngar, að þær ekki mega saman slengjast við þá, er bókin meinar.

1, Merkir það alla þarflega hluti, sem að búsgögnum lúta, svo sem mælir kristinrèttur Þorláks og Ketils biskupa á Staðarhóls *membrana:* „Manni er rètt, at fara til sels, þótt drottinsdagr sè, með byttur eða[1] sleða eðr andvirki sitt, þótt meira sè en hálfvætt, hvatki sem er, þat er hann þarf í gegn at hafa skrúði því, er hann vill úr[2] selinu færa eptir helgina". Sama merkíng er þess í Halla-þætti í Noregskonúnga-sögum. Þar stendur: „Nál ok skreppa ok alt skjóðuskrúð, þat er betra er at hafa en missa". Og við þessa merkíng þætti mèr ei ólíkt skylt mundi eiga „Fáskrúð", eyan í Fáskrúðsfirði austur, og „Fáskrúð" sker fyrir Vatnsnesstánga þeim, er að vestanverðu gjörir Húnafjörð, *item* áin í Hvammssveit. Hefir eyan fiskiverið eitt, skerið selveiði, en áin lax alleina til prýði[3].

2, Virðist mèr það merkja *ornamenta* öll og daudt *inventarium* kirkna, hverju nafni sem heitir. Í Grágás, þar sem talar um kirkjubruna Llb. 52., þar segir: „Þat skrúð hennar alt, sem hvern dag þarf at hafa", og er þetta nær hin sama merkíng, sem áður var talin.

3, Merkir það allan búníng þann, er menn hafa á sèr, svo sem kvað Haraldur konúngur Sigurðarson [um brynju sína í Noregskonúnga-sögum þann dag, er hann fèll á Englandi[4]]:

| | |
|---|---|
| Fram gaungum vèr[5], | Hjálmar skína, |
| í fylkíngu, | hefka ek mína; |
| brynjulausir | nú liggr[6] skrúð vort |
| undir blár eggjar. | at[7] skipum niðri. |

Eins segir Snorri Sturluson. Híngað lýtur það, er Rögnvaldur jarl kvað við Rögnu, þá er faldað hafði með hrosstaglinu, í Orkneyíngasögu:

Skrýðist brúðr, við bræði
bengagls, merartagli.

4, Merkir skrúð alls konar prýðiklæði þau, sem til sèrdeilis skarts heyra, og þá helzt, er af þeim má[8] ráða stand þess

---

1) A. byttum á sleða. 2) A. þarf at. 3) B. fiskiverið eitt til prýði, skerið selveiði, o. s. frv. 4) [ ] hefir A. í eptir vísunni. 5) A. vel. 6) A. liggja. 7) A. á. 8) B. og þá helzt er af þeim að ráða.

og virðíngu, er skrúðann ber. Svo kallar Sverrissaga vígsluskrúð Magnúsar konúngs, þegar Sverrir konúngur elti hann úr Björgvin, og fèkk allan skipastól hans og konúnglegar gersemar [kap. 78.[1]]. Er þessi merkíng[2] hvað ljósust í draumi Sigurðar konúngs Jórsalafara, hjá Snorra Sturlusyni í Noregskonúnga-sögum: „Það sýndist mèr, sagði Sigurðr, sem gengi út úr kirkjunni hinn helgi Ólafr konúngr, frændi vor, ok skrýddr konúngsskrúði". Hèr á það við, er vèr köllum messuskrúða, og að biskupar og prestar skrýðist fyrir altari, og á engin þessara merkínga eiginlega við ásetníng bókar[3] vorrar, þó að þessi fjórða sè því nærskyldari, en þrjár hinar fyrstu, því að:

5, meinar bókin með orðinu skrúð alls konar framandi landa klæðnað, hvort sem er ull-klæði[4], silki eður flöiel, stoff eður taft, sars eður perican[5], *etc.*, hverju nafni sem heitir, það er til dýrindakostnaðar horfi framar því, er hèr á landi gjörist. Þessari minni sögu til vitnis leiði eg fyrstar Noregskonúngasögur, þar sem Hreiðar heimski svaraði Þórði bróður sínum: „Ei ferr þú sjáandi eptir, ef þú ætlar, at ek láti skrúðklæði koma á minn búk. Þórðr mælti: Skerum til klæða þèr vaðmál dugandi. Nær er þat, sagði[6] Hreiðar"! Hèr eru[7] það *opposita disparata*, skrúðklæði og vaðmál. Samkvæði geldur Grettissaga, kap. 58. Þar mælti oflátúngurinn Gísli við förunauta sína, áður þeir skyldi ríða fram hjá Grettisbæli í Fagraskógarfjalli: „Nú skulum vèr allir ríða í litklæðum í dag". Og litlu síðar í sama kapítula[8]. „Þrír menn riðu sunnan yfir Hítará[9], ok skein á skjölduna ok skrúðkæðin". Hèr lætur sagan litklæði og skrúðklæði vera hið sama. En hvort eg skuli meina sokkinn Þorgilsar skarða verið hafa saumaðan af klæði, eður prjónaðan af lit útlenzkum, þar sem Sturlúngasaga, *lib.* 8., kap. 11., segir: „Þorgils fèkk skrúðhosu ok skinnhosu", læt eg aðra dæma. Það er oss kunnugt, að af hvers slags efni sem klæðin eru gjörð, þau sem mjög eru slitin, segir alment máltæki, að þau sèu fornborið skrúð, hvort sem þau eru af ull eða silki eða hvers slags efni. Það er enn til merkis, að fleira heitir skrúð en ullklæði, sem að segir Orkneyíngasaga, kap. 106., eptir það Sveinn Ásleifarson hafði rænt kjöluna og sigldi heimleiðis: „Þeir gjörðu til ágætis sèr, er

1) [ ] vantar í B; A. kap. 69. 2) B. en þessi merk. er. 3) A. bókarinnar. 4) B. það er ull, klæði. 5) A. eður sars; sleppir: perican. 6) B. segir. 7) B. Hèr er nú. 8) B. et mox ibidem. 9) A. Hvítá.

þeir lágu í höfnum, at þeir tjölduðu enskum klæðum[1] yfir sèr. En er þeir sigldu í Orkneyjar, saumuðu þeir klæðin framan á seglin, svo at þannig var til at sjá, sem af skrúði einu væri gjör seglin; þetta kölluðu þeir skrúðvíkíng". Kalla eg það líkast, að fleiri slags klæðnaðarefni hafi þeir ensku menn á skipunum haft, en ullklæðin ein. Þar fyrir utan sýnir alt það, er um hina fjórðu merkíngu þessarar glósu er áður skrifað af tignarklæðum konúnga og messuskrúða, að fleiri slags klæðnaður, en ullklæðin ein, merkist undir skrúðklæðanafni. En fyrir því að þau betra slags vaðmál og einskeptur eður tvískeptur, sem hèr á landi gjörast, bera lángt af gæðum þeirra varníngsklæða, er kaupmenn færa tíðast híngað, og mörg hver eru hærum líkari en skrúði, þá efa eg mjög, að þau eigi með skrúðklæðum að teljast, og víst eru þar ei undir skilin segldúkstreyur og buxur sjómanna, þótt vorir landsmenn bæru. En hvergi minnist eg fyrirboðið, að landsfólk vort megi kaupa lit á vaðmál sín, eður önnur hèr gjörð ullklæði, af framandi þjóðum. Það er gátulaust, að skart á að merkjast með orðinu skrúð, það er til prýðis og fegurðar ætlað sè, svo sem segir Ólafur Hvítaskáld í skáldu: „*Metaplasmus* kallast í skáldskap sá löstr, er *barbarismus* heitir í alþýðu[2] máli, ok þykir hann stundum fegra skáldskap. Svo hit sama er *solecismus* í skáldskap settr fyrir skrúðssakir, ok er hann þá kallaðr *schema*". En segir sama bók um *hypallagen:* „Þykir hún jafnan ljót *figura,* þó at hún finnist í skáldskap sett fyrir sakir skrúðs eðr nauðsynja". Hèr á skrúð enn að merkja fegurð, þótt hann kveði svo að, að figúran þyki ljót. Verður það ei efað, að skrúð skuli prýði merkja, þar sem Skálda íslenzkar *schema lexeos.*

## Skuldskeytíng[3].

Kaupab. 23.: *Nú heimtir maðr skuld at manni, ef hann er innanhèraðs, ok skuldskeytir hann við annan mann, þá hefir hann lokit þeirri skuld sèr af hendi.*

Þetta er mèr svo þúngskilið, að eg eigi sè ljóst, hvern orðið „hann", næst eptir skuldskeytir, á að merkja, hvort heimtanda fjár eður gjaldanda; leita því úrræða hjá þeim gömlu

1) B. tjöldum. 2) B. alþýðlegu. 3) vantar í B, C.

pergamentsbókum, og finn á meðal þeirra mismun ýmislegan. *Membrana* frá Staðarfelli segir orðrètt eins og hinar frá Bolúngarvík: „ok skuldskeytir við annan mann", eins og segja mínar 3 *membranæ* fyrir *Reformationem.* Í öllu þessu verður *vocula* „hann" að merkja *debitorem,* sem skuldskeyttur sè af *creditore,* sem er heimtandi, til að gjalda öðrum en sèr; verður þá greinin öll flókin og bágskilin. *Membranæ* frá Leirárgörðum og Arnarbæli hafa: „skuldskeytir hann hann við annan mann", eins *membrana* úr Hèraði austan. Getur hið fyrra „hann" merkt *creditorem,* en það seinna *debitorem,* og verður það sama þýðíngin sem áður í þeim prentuðu; og enn hafa þá sömu meiníng *membrana* frá Snæfellsnesi (hún segir: „skuldskeytir[1] hann þann") og önnur *post Reformationem:* „skuldskeytir þann". Verður þetta alt, að *debitor* sè meintur, bágt og ógreidt, þá framar, er greinin er skoðuð til málsloka. En ef í þeim *membranis* frá Leirárgörðum og Arnarbæli, ásamt hinni þriðju úr Fljótsdalshèraði, er hið fyrra „hann" skilið fyrir *debitorem,* en það síðara fyrir *creditorem,* þá verður öll greinin ljós og auðskilin, og þann skilníng confirmerar sú ágæta *membrana* frá Desjarmýri. Hún segir: „Skuldskeytir hinn hann við annan mann". Frostuþíngsbók Magnúsar konúngs segir: „Skuldskeytir hann hinn við annan mann". Heiðsivjaþ. b.: „Skuldskeytir hann það undir annan mann". Í hvorutveggja þessu getur hvortveggja meiníngin við höfð verið, og þó sú nær, að „hann" merki *creditorem.*

## Skuldahjón, Skuldahjú[2].

Kg. Þegnsk. kap. 1.,

þar sem þessi orð standa bæði, gjörir á þeim útskýríng svo fulla, að minnar þarf ekki við. „Skuldahjú (skylduhjú) hans; eru þat þeir menn allir, er hann á með skyldu fram at færa, ok þeir allir verkmenn, sem þar þurfa at skyldu fyrir at vinna". Er sú kapítulans grein öll orðrètt skrifuð út af Vígsl., 25. kap., p. m. 326. En þar sem Björn á Skarðsá vill sundur greina skuldahjón og skylduhjón, það er eigi grundvallað á texta þeirra gömlu og góðu lögbóka, sem á bókfell eru skrifaðar, af hverjum eg hefi nú fimm við höndina, allar merkilega góðar, sem allar lesa „skuldahjón" eður „skulda-

1) A. skuld er. 2) vantar í B, C.

hjú", sem eru þeir menn allir, sem hann á fram að færa, og eins les Grágás í áður nefndum Vígslóða-kapítula. Hefir Björn smíðað sèr þá meiníng, að skuldahjón heiti þeir, er maður á fram að færa, en skylduhjú þeir verkmenn, er maður kaupir til fyrirvinnu bús síns, af því, er hin þrykta lögbók segir skylduhjú, þar sem hinar gömlu segja skuldahjú og skuldahjón, og eins heitir það hèr í upphafi greinarinnar, jafnvel í þeim prentuðu bókum, skuldahjón, og svo kalla sögurnar skuldalið börn og kvinnur og alla rèttráðna heimilismenn, frjálsa og nauðga, svo sem eg hefi sýnt um orðið „hreppur". Hefir Björn, að ætlan minni, skort haft á gömlum *membranis*, og fylgt hèr hinni þryktu lögbók, svo sem orðið „þjósir" ber vitni; *vide* „fjósir" og „þjósir"; og líka má það ráða þar af, sem hann skrifar um þessi skuldahjú: „Það er mælt", segir hann, „að það sèu skuldahjón eður hjú, er karlmaður og kona sèu til fyrirvinnu á 60 hundruðum". Skilst mèr svo, að hann skrifi þetta svo sem munnmæli, þau er menn halda fyrir reglu, eins og eg hefi sagt um 20 eður 24 álna lángan kjöl í haffæru skipi. En munnmæli þessi um hjúafjöldann á 60 hundruðum munu dregin af einum kapítula Kaupabálks í ágætum gömlum *membranis*, hverra nokkrar á *assessor* Árni Magnússon. Eina átti Sigurður lögmaður, og er hún nú hjá Sigurði syni hans lögþíngisskrifara; ein er í minni eigu, og ein á Skriðu-klaustri hjá Þorsteini Sigurðssyni. Kapítulinn hljóðar svo: „Nú af því, at maðr verðr förumaðr", *etc.* *Codex* Sigurðar lögmanns: „margr verðr förumaðr". Og að þessi kapítuli hafi þá staðið í bókinni, er hún var híngað gefin 1280, er það til vitnis, að rèttarbót Eiríks konúngs skipar hann úr bókinni *anno* 1203[1], og hann ekki fyrir lög að gánga, því eigi munu vitni til, að hann hafi verið nú aptur skipaður í landið; því er ekki þörf að *disputera* hèr við Björn um hans meiníng yfir þetta 60 hundraða bú, nema svo sem um billegheit, þegar virða skal fè til skatts hjá bændum, sem opt veitir[2] á vordags-manntalsþíngum. En af því að svoddan er mjög ýmislegt, eptir háttalagi jarðanna, þar ein er mest upp á útigáng komin, önnur upp á heyskap, þriðja upp á sjáfarafla, þá er alt svoddan undir virðíngu skynsamra manna, og engin sú regla yfir að gjörast, sem þann mismun fái jafnað. Það er og ekki minn ásetníngur, því nú tala eg einkanlega um rèttan

1) Líklega 1303. 2) Má ske: verður.

skilníng orðanna, sem einhver fyrnd er á í texta bókarinnar; en það eina vil eg hèr til segja, að mèr sýnist sem Björn hafi mistekið, eður heldur að segja munnmæli þau, er hann hefir sína skýrslu yfir sagt, að sú er ekki kapítulans skipan, þess sem til forna stóð í bókinni, að tvö verkahjú, karlmaður og kona, skuli uppvinna nauðsyn alla þess bús, sem er 60 hundruð, heldur hitt, að sá, sem á 100 hundraða og sjálfur vinnur í búi sínu daglega þjónustu, skal þó skyldugur, að taka sèr verkahjú tvö að minnsta kosti, karl og konu, því að sýnilegt er, að ella mundi bú hans að mörgum þarfindum vanrækt líða; en konúngurinn vill, að alt guðslán sè vel hirt, og enginn rèttfenginn afli spiltur af vangæzlu nè fèsíkni. Er svo kapítulans ásetníngur, að fèlausir menn skuli fá sèr atvinnu og aflavon með þeim hætti, sem bæði sè gagnvænlegur hjúum og húsbónda, en ákveður ekki, hvað hver skuli megna að vinna, sem ekki var heldur mögulegt sakir mismunar verkamanna, karla og kvenna, sem ljóst er af Kaupab. 25.

## Skýlihögg[1].

Llb. 19., Farml. 15., 16.

Það högg, er lestir skjól eður skýlu á yfirhúðinni á viðnum, eður bikið eður hefilhúðina ɔ: slètthefilsfarið á innviðum skipsins. *Vide etiam* Ólafs Tryggvasonar sögu, kap. 63.[2], *part.* 2., *pag.* 230. Hèr til legg eg Grettlu, kap. 60.:

| | |
|---|---|
| Sýndust gild | þó frá ek mín |
| Grettis handa | miklu stærri |
| skýli-högg | eggja-spor |
| á skjöld koma; | ýtum sýnast. |

Hèr kallar Hallmundur skýlihögg Grettis hafa komið á skjöldruna, því þau hafa rofið yfirhúð þeirra, og lýti gjört á skýlu þeirra eður fegurð, hvort sem þeir hafa málaðir verið á trèð sjálft, eður með leðri máluðu eður málmspaungum yfir dregnir.

## Skýrsla.

Noregskonúnga-sögur[3]: *Haraldr gilli gjörði skýrslu til faðernis sèr. Voru sjö plógjárn glóandi gjörð, ok skyldi hann yfir gánga; leiddu hann 2 biskupar.*

Ínga, móðir Hákonar konúngs, bar heitt járn 9 fet; síðan

1) Vantar í B, C. 2) Fms. 2. b., bls. 218. 3) Fms. 7. b, bls. 164., hefir greinina nokkuð öðruvísi.

var látinn vetti á höndina, og við bundinn til viss tíma; þar eptir var upp leyst í biskups nærveru og fannst hún skýr. Ketilstak *ethnicorum* á hèr við úr Eddu, *item* kristinrètti gamla við Heiðsævis lögbók, kap. 44.: „Karlmaðr skal gánga til Aronisjárns (plógjárns), en kona til ketilstaks".

## Skömm á sèr[1].

Mannh. 25.

Grág., Vígsl. kap. 105., p. m. 426.: *þar eru orð þrjú, er svo mjök versna málsendar manna, er skóggáng varða öll: ef maðr kallar mann ragan, eðr stroðinn eðr sorðinn, ok skal svo sækja, sem önnur fullrèttisorð; enda á maðr vígt í gegn þeim orðum þremr. Jafnlengi á maðr vígt um orð sem um konur, ok til ens næsta alþingis hvorttveggja, ok fellr sá maðr óheilagr, er þessi orð mælir, fyrir öllum þeim mönnum, er hinum fylgja til vettvangs, er þessi orð voru við mælt.*

Njála kap. 124.: *Tók Skarphèðinn til sín slæðurnar, en kastaði brókum blám til Flosa, ok kvað hann þeirra meirr þurfa. Flosi mælti: Hví mun ek þeirra meirr þurfa? Skarphèðinn mælti: því þá, ef þú ert brúðr Svínafellsáss, sem sagt er, hverja hina níundu nótt, at hann geri þik at konu*[2].

*Conf.* Reykdælu, kap. 30., orð Þorkels háks við Guðmund ríka, þegar Guðmundur hrapaði í mjólkurketilinn, áður Þorkell yrði feldur. Sæmundar-Edda, Loka-senna. Óðinn kvað:

Átta vetr vartu
fyrir jörð neðan
kýr mjólkandi ok kona,
ok hefir þú þar
börn of borit.

*Vide* kristind. sögu, kap. 4. *Suetonius in Cæsare: Gallias Cæsar subegit, Nicomedes Cæsarem. Ecce, Cæsar nunc triumphat, qui subegit Gallias, Nicomedes non triumphat, qui subegit Cæsarem, cap. 49., p. m. 78. Västgothalagh. Rättlosa B. 10.: „Jak sa at madher sardh thik". Chr. 5.*

---

1) Vantar í B, C. 2) Í handritinu er þetta nokkuð rángfært.

*NL. lib. 6., kap. 13., art. 15. Gen. 19.*, v. *5., 8. Levit. 18.*, v. *22.* og 10., v. 13. *Rom.* 1. v. 26., 27.

## Skjøde[1]

(*in epistola* til sèra Guðmundar Vernharðssonar).

Fornaldarsiður var það og lög í Noregi, að sá, er öðrum seldi jörð, að hann skyldi taka mold úr þeirri jörð, er hann seldi, við fjögur horn eldstóar og í öndvegissæti, og þar sem mætist akur og engi, og þar sem mætist holt og hagi. Þessa mold skyldi seljandi bera í höndum sèr og kasta í skaut ɔ: kjöltu kaupanda; þá var jörðin honum skeytt, ɔ: í skaut hans afhent. Þetta kennir hin forna Gulaþíngsbók í Óðalsbrigðum. *Hinc liquet*, að „Skjøde" er rètt verterað afhendíngarbrèf, *tabula insinuationis, literæ cessionis, literæ traditionis.*

## Snápur[2].

Mannh. 17.: *Margr snápr svarar, at þeir dæmi ekki utan lög.*
Mannh. 31.[3]: *„Heiti snápr æ síðan", og því heitir þessi rèttr snápsgjöld.*

Eg vil ekki gjöra hèr margort um hègóma þann, er minn góði Björn á Skarðsá skrifar um þetta; hefir honum allopt[4] tekizt betur. En um grundvallarlaust óvit það, er eg hefi þar fyrir utan heyrt ýmsa menn tala um þessa *voculam,* vil eg þegja, svo að ei skuli slíkir draumórar að athlátri[5] verða. Eg efa ei, að orðið snápur sè með öllu sömu merkíngar, sem gikkur, narri, þurs, dári, nautheimskur asni, og leiði til þess fyrstan vott Eddu; hún[6] segir í mannkenníngum og titlum, p. m. 319.: „Heitir ok óvitr maðr fífl, afglapi, gassi, ginnúngur, gaur, glópr, snápr, fóli, ærr, óðr, galinn". Hvað skortir nú til, að snápur heiti á vort almennilegt[7] mál: gikkur, narri, glópur? Og þegar það kemur fram í legorðslýsíngunni [(Mannh. 31.)[8]], þá merkir[9] það gikkur og narri, sá eð fyrir sín dárleg gikksstykki hvergi sè með dánumönnum hæfur nè teljandi. Og enn mælir Edda svo *in figuris*: „Þokumenn[10] eru þeir kall-

---

1) Þessi skýríng er tekin eptir handriti, sem er í eigu háyfirdómara Sveinbjörnsens, A, B, C. hafa hana ekki. 2) Vantar í C. 3) B. Mannh. 13. 4) A. alloptast. 5) B. athlæi. 6) B. sem. 7) B. almennings. 8) [ ] vantar í B. 9) B. merki. 10) A. í Fimris þokum.

aðir, er alla peninga sína neyta upp í ofáti og ofdrykkju, og bera þeir það nafn sakir snápskapar síns, því að þeir sjá ei satt ljós rèttrar framferðar, og lifa að eins til þess, að eta, sem sitjandi í myrkvastofu [og[1]] þoku. Nú er hèr enn[2] vottur glópskapar og dárlegleika. Þá er og Eyrbyggja, kap. 48.[3], þegar heimamaður Snorra goða átti að draga leistabrækurnar af Þóroddi Þorbrandssyni, eptir bardagann á Vigrafirði, og hugði eigi að því, að spjót stóð í gegnum brækurnar og fótinn á millum leggsins og hásinarinnar; mælti Snorri þá, að hann, sem átt hefði að draga brækurnar, væri eigi meðalsnápur[4], [að hann hefði eigi athugað slíkt. Þetta er sýnilegt að segir heimskan mann snáp[5]]. Á sömu leið horfir Sturlúngasaga, *lib.* 8., *cap.* 2., *p. m.* 375.: „Talaði Geirmundr þá fæst[6] um, at honum þótti drykkr sinn falsaðr; þá bar Björn ker at Geirmundi, en hann drap við hendinni, ok sló upp í fáng honum, ok fór drykkrinn niðr í hálm. Björn reiddist við ok varð málóði, kvað Geirmund vera snáp mikinn“. Hèr er það þurs eða gikkur; *cfr.* Ólafs sögu Tryggvasonar, *lib.* 2., *cap.* 29., *p.* 117., orð Hákonar jarls um Ögmund ditt[7]. En svo sem eg áræði[8] varla að segja, hvaðan mèr sýnist *etymon* þessarar óvirðingar-nafngiptar, svo víla eg ekki að neita því, sem Björn á Skarðsá hèr um skrifar, að snápur hafi nafn af snúníngi; eður hver mun skyldsemi þeirra sín á millum[9]? Það veit almenníngur, að hundar snapa, þegar þeir daunsna eptir matarvælum, og snöp heitir það, er svo er jörð hulin snjó og áfreðum, að útigángspeníngur fær ekki fóður sitt, nema hann snapi eptir því, svo sem hundar eptir molum. Hèr af kemur „að snópa“, það er með valtrar vonar lángri dvöl að bíða þess, sem eins er óvíst og hundi einum[10] að geta nasað upp molana. Er hvorttveggja þetta svo alment, að allir skilja, en *permutatio vocalium ó* og *á* er svo tíð hjá þeim gömlu, að eigi kemur tölu á: Ólafur-Álafur, oln-alin, Hákon-Hókon, honom-hanum, váðir-voðir, várum-vorum, *etc;* sèrdeilis í þessari glósu „snópir“, en í Hávamálum „snapir“:

Snapir ok gnapir,  
er til sævar kemr,  
ærna[11] aldinn marr;

1) [ ] vantar í B. 2) A. einu. 3) Eyrb. Kh. 1777, kap. 45., bls. 242. 4) B. væri eigi snápur. 5) [ ] vantar í A. 6) B. flest. 7) Fms. 2. b., bls. 70. 8) B. áræðist. 9) B. þeirra í millum. 10) B. hundunum. 11) A. orma.

(yfrit gamall hestur)

svá er maðr,
er með mörgum kemr,
ok á formælendr fá.

[*Confer* Sigurdrífumál:

gnapir æ grár jór
yfir gram dauðum[1]].

Þetta ætla eg sýni, að dæmi sè sagt upp á heimskan mann, að hann snópir, snapir og gapir, það er: stendur á vindsvölu bersvæði, þar sem upp á gnapir golan og veðrið, og hèðan ætla eg að s n á p u r hafi nafn fengið. Það er enn í Lokasennu, er sýnir, að s n á p u r merkir málugan gikk, sem fari með kvissögur og óþægðar-frèttaburð eða róg á millum manna. Þar kveður Loki við Byggver:

Hvat er þat it litla,
er ek lauggva sè,
ok snapvíst snapir?
At eyrum Freys
mundu æ vera
ok und kvernum klaka.

Hann kveðst sjá það „lauggvast", það er annðhvort að tyllast á tær og trana sèr fram, svo sem ker það, er löggum stendur á stokki, eður það er að ausa fram öllu því, er í huga kemur, svo sem ker það, sem hallað er á lögg, svo að líka renni af því dreggjarnar, og er hvorttveggja *metaphora competens nasutis ardelionibus*. Þennan segir Loki snapvísan snópa, og hann muni undan kvernum (ɔ: úr leyndum) klaka [upp á Frey[2]] [eins og fugl[3]], og liggja í eyrum honum með alls konar mælgi, meinsögum og málæði. Ætla eg nú ekki skorti rèttar nótur og kenniteikn þess narra, sem af dárlegri heimsku lýgur því á sig, að hafa legið með kvennmanni, og sýnir í því fólsku sína, að vilja gjöra henni smán og sneypu; og það skilst mèr Björn á Skarðsá hafi rètt skrifað, að sneypa og snápur sèu systkin að skyldsemi, því að snápur sá, er vænist á sig legorðið, fær að launum snápsnafnið og sneypuna við það áfasta þaðan í frá, lífs og liðinn. Því hafa þeir norsku lögmenn í Kristjáns fjórða Mannh. 25. *paraphraserað* yfir þetta orð og sagt: „Og bliver dertil med Mindremand", eptir ásetníngi lögmsálsins að sönnu í þessum stað vorrar Mannh. 31., en eigi eptir *etymo*, eður *vi*

1) [ ] vantar í B. 2) [ ] vantar í A. 3) [ ] vantar í A.

*vocis*, því að vísu eru ekki allir gikkir „Mindremænd", eður, svo sem nú kallast, ærulausir, og fjærri fer, að eg þori svo að *vertera* orðið „snápur" í vorrar Mannh. 17. En sá kapítuli er af Kristjáns fjórða norsku lögum útilátinn, og í hans stað alleina stuttur *paragraphus* í þeirrar bókar Mannh. 15. Samt hafa þeir fyrri norsku lögmenn *translaterað* hann í dönsku, og stendur hann í minni *manuscripta* Heiðsævislaga *versione*, *cap. 18.*: „Icke efterdi som manghe Daarer have sagt, at de ey andet dømme end Lov". *Consenterar* sá *interpres* mínum framanskrifuðum *argumentum*. En um legorðslýsingar-snápinn segir hann í Mannh. 30.: „hede saa Mand des værre". Skil eg ekki betur en svo, að í Mannh. 17. sè það rètt sagt: „Eigi svo sem margr fávís maðr eðr margr heimskíngi segir, at þeir dæmi eigi utan lög"; en í Mannh. 31.: „heiti snápr æ síðan", skilst mèr: heiti æfinlega gikkur, glópur og narri, sem hvergi sè með dánumönnum talinn, því að hèr skal nafnið festast við honum til sneypu, en hinum er unt að læra betur og vera síðan frí við glósuna.

[1]Það samsinnir þessari minni útskýríng yfir margnefnda glósu, sem Oddur Gottskálksson lögmaður, og síðan biskuparnir, Guðbrandur og Þorlákur, hafa sett orðið „snápur", þar sem þeir, *Act.* 17., v. 18., *vertera* hákyrði spekínganna í Atenuborg við sti. Pál. Gríski textinn segir þar σπερμολογος. *Erasmus Smidius verterar* það: *„blaterator"*, *Beza*: *„garrulus"*, *Svaning:* „Ordgydere", og á spáziunni: „Sladrer". *Luther:* „Lotterbub", *Nürnbergenses:* „Plauderer". Síðasta *edition* dönsku biblíunnar: „Ordgydere", eins og áður *verteraði Svaning*, svo að alt lýtur þetta til eins, að biskuparnir og lögmaðurinn eru mèr samþykkir um merkíng orðsins „snápur;" þykist eg því hafa ærin vitni.

## Spáfarar.

Mannh. 2.: *Spáfarar allar ok útisetur.*

Í glósu þessari: „spáfarar", er fólgið allur sá hluti heiðindómsins, er lýtur að frèttaleitan heiðíngjanna, með hverjum hætti sem verða, svo sem Hákon jarl gjörði, er hann sigldi frá Danmörk og feldi blótspán, áður hann herjaði á Svíaríki, og vitraðist honum svo sem hann mundi hafa[2] . . . . að berjast, sem segir í Noregskonúnga-tali. Og hjá Snorra Sturlusyni af

1) Hèðan og alt að niðurlagi vantar í B. 2) Hèr vantar í báðar.

Íngjaldi illráða: „Eptir um vorit fór Grannmar konúngr til Uppsala at blóta, sem siðvenja var til í móti sumri, ef friðr væri; fèll svo **spáin**[1], sem hann mundi ekki lengi lifa". Svo um andsvör þau, er frèttin gaf á Reiðgotalandi, að lètta skyldi hallæri, ef blótað væri þeim ypparsta sveini, Heiðrekssyni, kap. 10., og með ferð Önundar í Landnámu, *p.* 99.[2], til að verða fyrri en Eiríkur í Goðdölum, að nema landið millum jöklanna, sem Eiríkur hafði sèr ætlað. Sama er um Helga magra, er hann gekk til frètta við Þór um bústað sinn, Landn. *p.* 107.[3] Uppruna slíkra spáfara norður hèr í heiminum skýrir Snorri Sturluson: „Óðinn tók höfuð Hænis ok smurði urtum þeim, er eigi máttu fúna, ok kvað yfir því galdra ok magnaði svo, at þat mælti við hann, ok sagði honum marga leynda hluti". Af hinum sömu rökum var spádómur Þorbjargar litlu- völu í sögunni af Eiríki rauða, **kap.** 10.[4], og svo hið sama Þórhildar Vaðla - ekkju í Ljósvetníngasögu, kap. 33., sem áður er getið *in voce* „Forneskjuskapur". Það heyrir og híngað alt, er eptir á mun sagt verða um orðið „vekja upp tröll", og það dæmdi Ólafur konúngur sig illa gjört hafa, er hann gekk til að heyra það, er Finnurinn **spáði**[5], sem segir í sögu hans, *lib. 1., cap.* 160.[6], *p.* 228. Þó fór ekki konúngurinn spáför, það gjörði Finnurinn; Guðmundur ríki fór ei heldur, það gjörði Þorhildur.

## Spyrja til garðs[7].

Þjófab. 6.: *Œsta sèr liðs til eptirfarar, ok spyrja til garðs manns.*

Það er að rekja sporin alt að garði, og svo hafa það skilið þeir norsku lögmenn, sem eptir konúngsins skipun gjörðu þá þryktu *version* af Kristjáns fjórða háloflegrar minníngar norsku lögum. Þar segir í Þjófab. 6.: „Følge paa Sporet til den Mands Gaard, som Sporet tilligger. Önnur *versio manuscripta* einhvers dansks lögmanns, en við aldur komin: „begjere af dennem, at de følge sig paa det Fodspor og ransage; komme de til nogen Mands Gaard", *etc.* Kemur þetta í einn stað niður, og sýnir skýrlega, að rètt hafi eg til sagt; benda og lögin sjálf til þess í öndverðum kapítulanum: „Sèr hann mannafarveg frá"; og enn þá laungu seinna í sama kapítula segir: „í útihúsum eðr útifylgsnum þeim,

1) B. spánn. 2) Landn. III., kap. 8. 3) A. pag. 20. Landn. III., kap. 12. 4) B. kap. 6. 5) B. sagði. 6) B. kap. 183. 7) Vantar í B, C.

er lykkjuspor liggja til, ok frá húsum þeim, er menn eru í". Til er og orðið „at spyrja" sömu meiníngar, og nú er sagt, í Ólafs helga sögu eptir Flateyarbók, kap. 20., í jarteiknaþættinum; þar stendur: „Verða þeir varir þess, at hann (hertekinn fángi) var horfinn, ok svo hvat um er; fara þá eptir honum með sporhundi, er þeir voru vanir at spyrja þá upp, er undan komust, ok finna hann í skógi, þar eð hann lá". En síðar í sama kapítula, þegar sami fánginn hafði sloppið í annað sinn, segir: „Fyrst slógu menn lausum hundunum", og síðan: „Nú villast hundarnir faranna"; *cfr.* svensku *Stadts L.*, Erf. b., kap. 6.: „skiljast menn lifandi" *„och spörjas dödhe"*, veit enginn hvor lengur lifði. Þetta „spörjas" sýnir berlega að merkir: finnast eptir röktum sporum.

## S t a k k a[1].

Llb. 39.: *Hafi sá stökku, er stytti,*

lesa þær elztu *membranæ* 6, er nú hefi eg. 5 hefi eg *membranas,* er lesa „stöku", en allar þessar 11 og ein ýngri, þó fyrir *Reformationem,* lesa sameiginlega „stytti". Spurníngin er, hvað að sè s t a k a eður s t a k k a; mig gildir eins, hvort lesið er, því eg sè af góðum bókum, sem eru *accuratissima apographa nobilissimarum membranarum,* að þær skrifa í mörgum stöðum *ck,* þar sem vèr nú *pronuncerum k,* og er hvorttveggja tídt í Eddu. Eg hefi engan heyrt hèr um að gagni tala, nema *assessor* Árna Magnússon; hann vildi þetta draga af því, sem nú köllum vèr geitstökur ɔ: geitskinn, hafurstökur, og þetta hafði af honum numið Þorsteinn Sigurðsson, beggja okkar áhaldssmiður við jarðabókina. Eg lasta eigi þessa þýðíng, og hafa síðan orðið fyrir mèr í *prologo* Snorra-Eddu, *codice Wormiano,* og svo þeim prentuðu „bjarna-stökur", ɔ: *pellis ursina, item* í Ólafs helga sögu um Þórodd Snorrason, fánginn á Jamtalandi, „reinstökur", ɔ: *pelles rangiferorum, p. m. 348.,* og er þetta eins í báðum mínum Ólafs-sögum. Sè þetta nú ólastað; en nokkuð þykir mèr ískyggilegt, hvort lögin skuli þá tagl-styttu hryssu kalla hèr eintómis hrosshúðar-nafninu. Það er ljóst af þessum kapítula og Llb. 30., að mikið hafa menn á þeim tímum metið á hestum taglprýðina, en varla þykist eg skilið geta, að þeir hafi taglhöggvið hross, þó rófa væri

1) Vantar í B, C.

skert, lagt að jöfnu við hrosshúðir af flegnar. Sè eg, að svarað verður: Menn álykti það ei hèr með. Nærri sýnist mèr því, og mjög lætur þann veg. Minn þánki er, að það, sjálft orðið, sem vjer köllum skinnin, geitstöku, hafurstöku, bjarnstöku, hreinstöku eður hreinstökku, sèu alt *tropi*, breytt meiníng, dregin af klæði því, sem s t a k k u r heitir að fornu og nýu, og sè sama sem maður segði h a f u r s t a k k u r, b j a r n s t a k k u r, g e i t s t a k k u r, h r e i n s t a k k u r, og ei minnist eg mig heyrt eða lesið hafa þessa *vocem* s t ö k u brúkaða, svo hún merki skinn, nema áfasta *(compositam)* við það, sem segir til undir eins, hvaða skinn merkja skuli, og það eigi nema í fyrr sögðum fjórum orðum, svo mikið sem híngað til hefi eg *observerað*, en vel má ske að fleira. Það er satt, að Ólafs saga Tryggvasonar, *lib 2., cap. 52.*, segir um Þorkel dyrðil: „Þorkell dró þá af stökuna"; það kemur svo til, að strax áður er það nefnd h a f u r s t a k a, en stafan prentuðu sögunnar met eg að engu. Nú er mönnum það kunnugt, að klæði það, er vèr köllum s t a k k, tekur ei lengra niður en á knè, og eru þó s í ð s t a k k a r kallaðir, og mátti það tíðum heyra til gamals fólks í barndæmi mínu, að það kallaði þá knèsíðu kjóla, sem nú brúkast, en þá voru ei alltíðir orðnir, ýmist s í ð k j ó l a eða s í ð s t a k k a. En stakkur er eigi hjá oss í brúkun, sá er sèrdeilislega svo heiti, nema sjómanna-skinnstakkur, sem á að taka á upprèttum manni jafnlángt niður sem lendar og ekki lengra, svo að eigi sè á honum setið, og það ætla eg *proprium* sè, að stakkur heiti þess konar fat, að ekki taki lengra niður, og eigi beygist undir lendar á sitjandi manni. Í Sturlúnga-sögu, *lib.* 5., *cap.* 23., þegar Úrækja drap Odd Álason á Hrafnseyri, hafði Þorbjörn Jónsson, einn af mönnum Úrækju, þófastakk fyrir brynju, og tók hún ógjarna, þó hríngabrynja væri, lengra niður á bakið, en jafnt lendum, en spángabrynjur aldrei, sem bæði má af sögunum sjá, og af *Speculo Regali*, þar sem það skýrir frá herklæðum. Noregskonúngatal segir um kappa Haralds konúngs hárfagra, að þeir höfðu vargstakka fyrir brynju, og voru því Úlfhèðnar kallaðir; af hverju ljóst er, að stakkur, með tilkynníngunni v a r g s t a k k u r, merkir *pellem lupinam*, loðið úlfskinnið, og eins, þegar það er í kvennkenníngarformi, h a f u r s t a k a, *etc., pellem caprinam*, hafurskinnið með hárinu, svo að eins mætti kallast b j a r n s t a k k u r, g e i t s t a k k u r, h r e i n s t a k k u r, svo

sem vargstakkur, og sè því staka *translatum* af nafni klæðisins *ut supra*.

Áður hefi eg sagt, að eigi minnist eg mig lesið hafa „stöku", svo að skinn merki, nema *compositum* (samanfelt við annað); stakkur út af fyrir sig er í sögum víða. Vás-stakk eður vos-stakk hefir Snorri Sturluson um hinn únga mann, sem að Þorgils hástaði reri til fiskjar í veg fyrir Harald konúng Sigurðarson: „Hann (úngi maður) kastaði yfir sik vás-stakkinum". Alment máltak er: „Stakkur og kápa bætist ekki lengi"; *item:* „Valt er að geta, hvað undir hvers stakki býr"; *item* að taka mann í stakk sèr = *virum fortem induere.* „Stakkrinn, sem hún var í", segir sagan af Illhuga gríðarfóstra. Svo sem nú áður er sagt, að stutt klæði, eður ei lengri en mælt var um síðkjóla, eru stakkar, en kápa síð yfirhöfn, og hefi eg rök til leidt, að húðin á skepnunum sè stakkur kölluð, og í kvennkenníngarformi stakka eður staka að breyttri meiníng; vil eg hèr nú skilja húðina á hrossinu fyrir stakk þess, en taglið sídt á jörðu fyrir kápu þeirra eður yfirhöfn, því menn vita, hvað mikið skjól hrossunum er að tagli sínu, í þá líking, sem mönnum er að kápu eður yfirhöfn. Hèr af álykta eg, að þegar taglið með rótinni er höggvið af hrossinu, er kápa þess frá því numin, en stakkurinn einn eptir, eða vilji menn segja, kápan er nú svo stytt, að hún er orðin að stakki; og til þessa þykir mèr mjög benda orðið „stytti", sem eiginlegt er klæðnaði, en húðin er þar með ekki stytt og jafngóð sem áður; ætla eg því hrossið taglhöggna, svo rófa fylgir, vera hèr kallað stökku *in feminino* af *habitu,* af búníngshætti, að hún er stakki klædd, síðan kápan var frá numin. Og þó eg geti mjög fá dæmi til þess leidt, að stakka kvennkend hafi verið *substantivum adjective usurpatum,* þá er það þó til í Upplandslögum Svíanna, Erfðat., kap. 5.: *„Heiti æ horstakka",* *item* í þeirra *Sudermanna Lagh, Giftíngabálk,* kap. 4.: *„Heiti sidhan konathor horstakka".* Og í þeirra *Västmanna Lagh,* Erfðab. 13.: *„Heite sidhan horstakka konathor".* En að stakkur karlkent, við annað *compositum,* hafi verið *substantivum adjectivi loco* brúkað, sýnir Hákonar saga Hákonarsonar; þar heitir Magnús blástakkur, sá sem gjörðist höfðíngi Ribbúnga, þegar Knútur var sáttur við Hákon konúng, 1227, og aptur sama saga eptir Flateyarbók, kap. 49.: „Þar uppfæddist Áslákr smjörstakkr". Hann kall-

ar *Petrus Undalinus* í sinni *version* sundstakk, en hin Hákonarsaga *nobilioris membranæ* nafngreinir eigi sveitarhöfðíngja. Og enn í Sverrissögu, þegar drottinssvikarinn Nikulás biskup og Hreiðar réðu fyrir Böglum, kap. 123., heitir Bjálfi skinnstakkur annar sveitarhöfðíngi Sverris konúngs í steinborginni í Þrándheimi. *Petrus Undalinus* í „Norges Beskrivelse", *pag.* 110, telur einslags fisk, er hann kallar „Blaastack", sem eflaust er dregið af lit fisksins. *Item* eru í vorum skröksögum ótal Grástakkar, svo kallaðir af klæðalit sínum. Svo eru og þess konar nöfn, bæði karlkend og kvennkend, hjá oss margtíð af búníngsháttum og klæðasniði og af limalagi með ýmsu móti dregin, bæði af *substantivis in formam adjectivorum,* og sjálf *substantiva* margfaldleg *adjective usurpata,* svo sem eru: bak: slèttbakur, nú kallaður slèttibakur, í Eddu, Gunnar grjónbakur í Sverrissögu, kap. 139. Faldur: Sveipinfalda, tröllkonuheiti í Eddu. Enni: Þórarinn filsenni, son Þórðar gellis, í Laxdælu. Fax: Faxi í Landnámu og Faxaós; Faxi, Faxabrandur í Vatnsdælu, Freyfaxi í Hrafnkels goðasögu, glófaxi. Flekkur, Flekka, sauður; flekka mórend í Örlygsstaða-bardaga. Hali: Hallbjörn í Ólafssögu, „Hala hagráðug"; *item:* „þú vart Hala fyrir hildíngs skipum", Sæmundar-Edda, Helga kviða Hundíngsbana; lánghala, tóa; stutthala, bragarháttur. Hattur: Snorri bláhattur í Sturlúngu, *lib. 6., cap. 12.;* Ólafur samihattur, samtíða Æra-Tobba á Suðurnesjum. Hetta í Bárðarsögu. Höfuð: Eyólfur brúðhöfði, síðast í Svarfdælu. Höttur: Síðhöttur, Óðinsheiti í Eddu. Hatta, kýr og ær. Hjálmur: Hjálmar í Örvaroddssögu, Hjálma, kýr. Hnakkur: Egill skyrhnakkur, Sturl. *lib. 7., cap. 46.* Stelpuhnokki altídt, stelpuhnykkja. Hökull: hekla, yfirhöfn altíð í sögunum; Hekla, eldfjallið alkenda, því hún er klædd jökulhökli; „höklar á fjöll", sagði sèra Sigurður í Hrafnsey 1710. Horn: Björn sviðinhorni í Landnámu, Þórunn hyrna í Landnámu og Eyrbyggju. Hundur: Þórir hundur í Ólafs helga sögu. Hyndla í Hyndluljóðum. Kápa: kápa, sauður, ær kápótt; Blákápa, stjúpa Þrandlaugar í skröksögum. Kjaptur: Starkaður Bjarnason, er kjapti var kallaður, í Sturlúngu; Hengikjaptur, sá sem gaf Fróða konúngi kvörnina..... Grotta í Eddu; Rángkjaptur í gamalli sögu:

Ólafr muðr,

ætlarðu suðr?
Vel mun þèr veita
með meri þína feita;
ræð ek þèr, Rángkjaptr,
at þú snúir heim aptr!

Gulkjapta, Gullkjapta, flagðanöfn í sögu af Vilhjálmi sjóð; Hengikjapta í Eddu. Kinn: kinni, höggvinkinni í Landnámu; Grímur loðinkinni; *vel* kinna: Kinna, kýr kinnótt. Krókur: Þórarinn krókur í Landnámu; Krækla í sögunni af Gesti Bárðarsyni; Krækill, Krækla. Kúfur, Kúfa. Mön: Mani í Landnámu, *a quo* Manavík; Mana í sögunni af Sörla sterka. Mold: Moldi, hríngur Eivindar skáldaspillis; Molda, systir Brönu; Moldi, hestur. Nef: Ketill flatnefur, hvers getið er í mörgum Íslendíngasögum; Jón mörnefur, lögmaður í Þrándheimi, í Noregskonúnga-sögum; Arinnefja í *fabula* af Egli einhenta; Þorsteinn rauðnefur; Hrólfur nefja, faðir Hildar, konu Rögnvalds Mæra-jarls; Arnór kerlíngarnef í Landnámu. Rass: brunninrassi og hólkinrassi í Landnámu; kastinrassi í Grænlands annálum; Kjalrassa, tröllkona í sögu af Vilhjálmi sjóð. Rófa: Kastrófa, Mjórófa, Vasrófa. Serkur: Egill ullserkur hjá Snorra Sturlusyni. Silfur: Silfri, *a quo* Silfrastaðir; Silfra, bókarnafn, *nobile inter artis professores;* Silfra, gjá hjá Þíngvelli. Skinn: hrokkinskinna; svo kallaði Ólafur Tryggvason Sigríði stórráðu; *nota* bókarnafn Þormóðar Torfasonar *in serie regum.* Skjöldur: Skjöldur Danakonúngur, Skjalda, kýr. Skott: Skotti; Sveinn skotti, nafnkunnugur þjófur á dögum feðra vorra. Skotti, hestur, Skotta, hross. Skrokkur, skrukka. Sokkur: Sokki; Einar Sokkason; Sokka, hross; flórsokka enn í dag, sú sem hefir óþrifið fótabragð. Stertur: Bjarni bikstertur, dauður fyrir 60 árum; Fretsterta peð í ridddaraskák. Strokkur: strykkja. Stoð: stedda; „Þar var staddi á steddu“, sagði Grettir um Söðulkollu. Strompur: Jón strompur á Suðurnesjum fyrir 50 árum; Strympa. Tönn: tanni, Gullintanni heitir Heimdallur í Eddu, því tennur hans voru af gulli; Tanna, Grottintanna tröllkonuheiti í Eddu. Sama er *ratio denominationis* ótalföld, jafnvel á sjálfum konúngunum í fyrndinni. Án hrísmagi í Laxdælu. Árni gullskeggur í Sturlúngasögu. Bjarni húslángur í Landnámu. Björn járnsíða Svíakonúngur. Einar grjónbakur, erkibiskup í Niðarósi. Erlendur gapamuður, hirðmaður

Sigurðar konúngs Jórsalafara. Guðrún bermaga á vorum dögum. Gunnsteinn meyufretur í Landnámu. Haraldur hilditönnn Danakonúngur. Haraldur gullskeggur í Snorra Sturlusyni. Haraldur blátönn Danakonúngur. Haraldur gráfeldur Noregskonúngur. Haraldur gullkampur í *fabula* af Hemíngi Áslákssyni. Ragnar loðbrók Danakonúngur. Saxi bláspjót, Hákonarsaga, *p.* 40., 1227. Sigurður munnur, faðir Sverris konúngs. Sigurður kápa í Jómsvíkínga-þætti. Þórarinn stuttfeldur í Noregskonúnga-sögum. Þórður ístrumagi, *ibidem*. Þórir haklángur hjá Snorra Sturlusyni. Þórir járnskjöldur í sögu Hrólfs Gautrekssonar. Þorkell dyrðill í Ólafssögu, *lib.* 2., *cap.* 77.; dyrðill, dýrðlegt yfirklæði, sem gjörir mann tignarlegan; *vide* Ólafs sögu Tryggvasonar. Sigurður ormur í auga Danakonúngur. Þórir leðurháls í Landnámu.

Nú þótt margt sè þetta af skröksögum, þá sýnir það, að svo var altíð málhneigíngin í þá daga, og er slíkt margt að telja; hvar fyrir má þá ekki þetta sterthöggna hross stökku kalla, síðan hún er svo stuttklædd orðin, og hefir fengið stakk í staðinn kápu?

Kunnugt er hið danska *adjectivum* „stakket" = stuttur; það er og kunnugt, að vor norræna og gömul danska er alt hið sama mál; því má þá eigi líklegt sýnast, að það danska *adjectivum* sè dregið af „stakkur"? Eg segi heldur *adjectivum* af *substantivo,* en *substantivum* af *adjectivo,* því vèr vitum, að stakkur fyrir stutt klæði er gömul góð danska; en hitt veit eg eigi, hvort það *adjectivum* „stakkaður" hafi til verið í fornu máli; þó þykir mèr mjög líklegt það hafi verið í tíðkan, og sè úr því orðið „stakket", svo sem til er brynjaður, falladur[1] (sem skáldin segja faldinn), fiðraður, fjötraður, hjálmaður, skóaður, skúfaður. Það er ljóst, að þeir norsku lögmenn, sem Kristjáns fjórða Norskulög hafa sett á dönsku, hafa haldið þetta *deriverast* af „stakket" *adjectivo,* eða „stakk" *substantivo,* því þeir setja hèr: „stakrumpet"; og einhvern tíma, þegar eg um þessa stökku talaði við *assessor* Árna Magnússon, þá mintist hann á þetta *adjectivum,* en hvorugur okkar kom í það sinn upp á orðið „stakkur"; og síðar, er við hèr um töluðum, þótti honum nær, að draga þetta af „stökku", svo sem það merkir skinn, *ut supra*. En eg, eptir

1) Máske: faldaður.

lánga umþenkíng og þau rök, sem áður hefi eg sagt, meina „stakka“ fyrir „skinn“ sè *tropus*, dregið af „stakkur“. Vilji menn nú kalla þetta hègóma einan, þá bið eg mèr sýnt verði, að „stakka“ eður „staka“, óáfest við annað, nokkurn tíma merki „skinn“, í þann tíma sem lögbók gjörðist, og væri eg þá nær, að láta af minni meiníng; en svo lengi þykir mèr ekki nær, að *paraphrasera* hèr yfir með þessum orðum: „hafi sá húðina, er stytti“, heldur en eptir mínum þaunkum: „hafi sá það stakki klædda hross“. Að stytta sig heitir enn í dag, að hefja upp og með því móti stytta klæði sín, sem áður voru síð; er það og kunnugt, að vel mega hross að gagni stóru vera, þótt þau sèu sterthöggvin, svo sem sýnir margur hestur í öðrum löndum, að þeir eru taglhöggnir, og af tveir þriðjúngar rófu. Þykir mèr því ekki líklegt, að það sè kallað „stakka“, eins og húðin alleina væri þá eptir, en þó í lögunum sè slíkt með stórlýtum á hrossunum talið, líka einna mest fyrir sakir útigángs á vetrum, sem eigi má taglsins missa, því að taglið er þá hjálparklæði og verja hrossanna. En það er ekki bevísað enn nú, að s t a k a aleitt merki „skinn“; ætla eg víst, að mín framantöld líkindi vegi meira, og gjöri það víst, að „stakka“ eigi það jafnan að lesast, eins og „vargstakkur“. Legg eg það enn nú mínu máli til styrkíngar, sem að mælir hin forna Gulaþíngsbók í Þjófabálki: „En ef stelr leysíngi manns eðr ambátt einni alin, þá skal skera af henni annat eyrat; en ef hún stelr annat sinn, þá skal skera af henni annat eyra; en ef hún stelr hit þriðja sinn, þá skal skera af henni nefit. Þá heitir hún stúfa ok núfa, steli æ sem hún vill“. S t ú f a skal ambáttin heita fyrir það, að stýft er af henni nefið. N ú f a skal hún heita fyrir það, að limurinn sá, sem af var stýfður, var nefið, en hvorki tá nè fíngur, eins og vèr köllum á þessum tímum „hnúfu“ eður „núfu“ nefið á söðlinum, með tilkenníngunni h n a k k - h n ú f a. Hvað getur að nafngiptinni og rökum hennar líkara verið, en ambáttin s t ú f a, og stuttklædda hrossið s t a k k a, sem hèr um talar?

Nú mun það óskylt þykja, að eg undir eins *notera* þann misgáníng og áræði, er sèra Stefán Ólafsson í sinni *version* á formála Eddu hefir eptir sig látið. Þar stendur í *originalnum*, sem heill er *in codice Wormiano*, og eptir því *exemplari* þryktur, um Þór þann, er nefndur formáli lætur vera son *Mennons* konúngs og dótturson *Priami*: „Þá er hann var 12 vetra,

hafði hann fult afl. Þá lypti hann af jörðu bjarnstökum öllum senn". *„Annos natus duodecem perfecti roboris erat id ætatis; allevavit ab humo totas simul ursorum exuvias"*. Fyrri hluturinn segir afl Þórs, að hann 12 vetra gamall var svo sterkur sem rosknir menn fulltíða. Seinni hluturinn greinir vöxt hans, að svo var hann þá hár, að þegar hann tók í bjarndýrshúðina (líkast til miðja), þá gat hann rètt höndina svo hátt, að engin löpp eða skækill húðarinnar snerti jörðu. Beri menn nú saman reisu Þórs, sem Edda lætur vera son Óðins, þegar hann átti að lypta af jörðu kettinum Útgarðaloka, skulu menn sjá, að sami er hátturinn, að mikla vöxt Ása-Þórs með tilraun þeirri. Því sagði Útgarðaloki: „Köttrinn er heldr mikill, en Þór er lágr ok lítill". Hefir sèra Stefán ei þessa gætt, og meint, að afl Þórs ætti líka þar af að merkjast, að hann 12 vetra gamall lypti af jörðu bjarnstökkum öllum senn, og þess vegna til ráðið, að setja hèr inn orðið *„decem"*, tíu, bjarnstökkum, svo sem glósan „öllum" skyldi meina hèr tal skinnanna, þar hún á að merkja stærð þeirra og skiljast „heilum", alt, svo stórt, sem hvert bjarndýrs skinn var. Eins og vèr segjum: „Hann át allan brauðleifinn", eins hitt: „Þá lypti hann af jörðu í senn öllum bjarnstökkum", ɔ: heilum bjarnstökkum, svo enginn hemíngur nè loppur (fíngur) nam jörðu. Vildi eg óska, að sá nafnfrægi Þormóður Torfason lagfært hefði þann misgáníng sèra Stefáns, og eigi látið hann í sinni ágætu bók, *Series reg. Daniæ, lib.* 2., *cap* 3., innfærast og dreifast til eptirkomendanna. Nóg er, að vangá sú og ofdirfð sèra Stefáns á því, að innfæra glósuna *decem*, einu sinni[1] prentað í Eddu *Resenii, cap.* 3., þar skarpsýn augu Þormóðar sáu ljóst, að það orð *„decem"*, tíu, átti ekkert ættarmót við skilgetinn Eddubókmála. En orðlofs mun eg biðja þurfa, ef að eyk enn nú við þeim smávægum athuga, sem af dýraskinnum eður húðum, og þar af gjörðum nafngiptum og klæðnaði fornaldarmanna, hafa fyrir mèr orðið, og láti það því ólesið hver eð vill. Mannanöfnin eru Bjálfi, Hèðinn og Hýði. Mannsnafnið „B j á l f i" höfum vèr hèr áður af Sverris sögu og Ínga konúngs Bárðarsonar; annað er til í Egils sögu Skallagrímssonar strax í upphafi; var sá Bjálfi dótturmágur Úlfs hins óarga, og systurmágur Hallbjarnar hálftrölls. Sama vottar Landnáma, *cap.* 18. En vottur þess, að mannsnafnið B j á l f i sè af einhverju skinni skepnanna dregið, er Ólafs saga Haralds-

---

1) Máske: er.

sonar, bæði eptir gamalli *membrana* og Flateyarbók, um bardagann á Stiklastöðum: „Ólafr konúngr hjó til Þóris hunds um þverar herðarnar; sverðit beit ekki, en svo sýndist, sem dust hryti úr hreinbjálfanum“. Nokkru síðar segir Flateyarbók, kap. 195., orð Þóris hunds: „Vèr höfðum keypt af Finnum, 12 mötunautar, at þeir gjörðu oss þá bjálfa, er ekki beit járn á. Ermi var skömm á bjálfanum, er ek hafði“. H ý ð i var bróðir sammæddur Sverris konúngs, sem sagan vottar, og allir vita, að h ý ð i kallast húð, og þaðan er að h ý ð a einhvern og a f-h ý ð a, og síðan *per tropum* b j a r n a r h ý ð i, fylgsni það, sem björn leggst í um vetur, og honum gengur þá í stað húðarinnar, sem um sumarið skýldi honum. H è ð i n s - nafn er og svo kunnugt, að ekki þarf vitna við, meðan til er í Eddu sagan af Hèðni og Högna, og Hèðinn sá, er Kaupa-Hèðinn var kallaður, og Gunnar nefndist eptir, þá er hann fór stefnuförina til Rúts um fè Unnar Marðardóttur, sem Njála vottar. Einn var Hèðinn faðir Bergþóru, kvinnu Njáls, og bar Hèðinn son þeirra nafn hans, sá er auknefndur var Skarphèðinn. Þá er og Úlfhèðinn Gunnarsson lögsögumaður, samtíða Ara fróða; *Sched., p. 4. et 6.* Til var enn á vorum dögum Bjarnhèðinn á Suðurnesjum, og lifa þeir enn nú synir hans, Brandur og Eyólfur. En að h è ð i n n heiti dýrskinn loðið, sýnir fyrst Noregskonúnga - tal um vargstakkana og kappa Haraldar konúngs hárfagra, sem áður er sagt að af úlfaskinnunum höfðu nafn sitt Ú l f h è ð n a r. Þá í annan stað draumur Brennu-Flosa í Njálu, kap. 123., er hann þóttist staddur að bænum Lómagnúpi, og sjá þaðan til núpsins, að hann opnaðist, og gekk maður úr honum, og var í geithèðni og hafði járnstaf í hendi. Svo stendur og í Eyrbyggju, kap. 16., þegar þeir Arnkell goði og Þórarinn svarti leituðu Odds Kötlusonar, og voru frá horfnir í fyrsta sinni, mælti Arnkell: „Hvort mun Katla ei hafa hèðni veift um höfuð oss“? ɔ: Mun ekki Katla sveipað hafa loðskinnum að höfði voru, og vilt svo fyrir oss sjónir? Getur Njála, kap. 10., þeirra galdra Svans í Bjarnarfirði, þá er hann vildi bjarga Þjóstólfi, að Svanur tók geitskinn eitt og vafði um höfuð sèr og mælti: „Verði þoka, verði skrípi, verði undr mikil, *etc.*“ En þótt Arnkell láti sem skinninu sè veift að höfði þeim förunautum, skiptir litlu, því sú var önnur aðferð galdranna, sem Vatnsdæla sýnir, kap. 38., þá er Gró veifði gizkanum, áður en aurskriðan fèll yfir bæ hennar. Þar segja sumar

sögur: gizka eður dúki; sumar segja: „Veifði dúk þeim, er hún hafði knýtt í gull mikit“. Eg efa ei, að þetta sè grein böguð, og orðið „eða dúki“ sè *glossa* þess, er ei hefir skilið, hvað g i z k i væri; en þeir, er skrifa „dúki þeim“, hafi tekið *glossam* hinna, en slept orðinu „g i z k a“; ætla eg, að g i z k i sè geitskinn, og orðið úr „gitskinn“, því að *z* gildir *ts* svo vel sem *ds*, og g i t s k i n n er skrifað í ágætri *membrana assessors* Árna Magnússonar í Njálu, þar sem segir aðferðir Svans, sem fyrr var getið, og aðrir skrifa geitskinn, svo að alt er hið sama, g i t s k i n n og g e i t s k i n n. Nú gjöri eg g i t s k a eður g i z k a *diminutivum* af g e i t s k i n n, eins og „húski“ *pro* „húskarl“, „s ö l s i“ *pro* „s i l ú n g u r“, s ö l s a b e k k u r í Eddu *pro* s j ó r, „s k i k i“ *diminutivum* af „s k i n n“, og þar af annað *diminutivum* „s k æ k i l l“, eins og *ocellus* af *oculus*, „k r æ k i“ af „k r ó k u r“, og sè g i z k i = g e i t s k i k i. En þó í sögunni standi, að Gró hafi knýtt í gizkann gull mikið, og einhver segi geitskinn ei sèu líkleg til umbúða að gulli, liggur það til svars, að sú öld var eigi mjög hispurssöm um slíka hluti, og minnst mundi þá Gró um svoddan hirða, er hún var til þess ráðin, er fram kom, að drepast undir skriðunni. Og ei þótti Hákoni jarli silfurhirzlan ósæmileg, þar sem hann klæddi skrínið hafursbelgnum, er Þorkell dyrðill færði síðan Ólafi konúngi, sem sagan vottar, *lib.* 2., kap. 52., og ekki fælir mig frá þessum þánka bæarnafnið Gizki, allfrægt í Noregi af húsbóndanum, svo sem vottar[1] ....., því eg hefi fyrir satt, að það sè vafalaust af g e i t s k i n n i dregið, vegna land-formsins einhverrar líkíngar við húð geitanna, eins og jörðin Kálfskinn í Eyafirði, þar sem Guðmundur ríki fyrir bón Ólafs konúngs niður setti Hrærek konúng blindaðan, og eru þvílík bæanöfn alls ekki auðvirðileg meir en slotið *Byrsa* í Kartagóborg og Skinnastaðir hèr á landi, eður hverr mun slíkt telja. Yfirhafnanna skyldsemi hèr við er sögð *in vocula* „s k i k k j a“, og skal alt þetta, ef nokkur gefur gaum að, lúta til þess, að sterthöggna hrossið, stakka, hafi nafn fengið af stakkinum, það er stuttum klæðum.

1) Sjá Fms. 4. b., bls. 317., 6. b., bls. 357.

## Stakkgarður[1].

Llb. 9.: *Úr hlöðum eðr stakkgörðum*[2].

Llb. 37.: *Ei æja þar, sem stakkgarðar eru nær.*

Það er [nú[3]] að mestu niðurfallið, að menn kalla heystakk það, sem heyhlaði heitir í Llb. 30., og hlaði í Llb. 11. En [að[4]] svo hafi það að fornu kallað verið, sýnir Egils saga Skallagrímssonar, þar sem greinir af deiluefnum þeirra Þorsteins Egilssonar og Steinars, sonar Önundar sjóna. Þar segir: „Fyrir sunnan Hafslæk liggr mýri, er heitir Stakksmýri; standa þar yfir vötn á vetrum, en á vorin, er ísa leysir, þá er þar útbeit svo góð nautum, at þat var kallat jafnt ok stakkr töðu". Og aptur sýnir það Svíanna Upplandslög, Vidherboabalk, kap. 10.; þar segir: „Korn i dyss sätja, alla Hö i Stakk, och gårdh om sätja". Og enn segir Grágás, Landabr. 46.: „Nú á hann í heystakkgörðum þeim hey, er hann hugði [ei[5]] þurfa mundi". Og þar sem hèr er töðustakkur úr Egilssögu og heystakkur úr Grágás, þarf eigi til þess fleiri votta; en dæmin eru meir en alltíð úr sögunum, að hey voru sótt í stakkgarða, eður stóðu í stakkgörðum, eður gefin við þá, svo sem segir Ljósvetníngasaga, kap. 10., Eyrbyggja, þá Arnkell goði var veginn, sagan af Þórði hræðu, kap. 22.; og enn höfum vèr stakksnafnið eptir á fiskihlöðum, sem stakkar kallast. Og af stórklettum eður smáhömrum, sem skaptir eru í líkíngu slíkra hlaða, hafa nöfn sín fengið jarðirnar Stakkaberg á Skarðsstsrönd, Stakkhamar í Miklaholts-hrepp, og Stakksfjörður á Suðurnesjum, að fornu heiti fjörðurinn, sem gengur inn milli Hólmsbergs að sunnan, en að norðan Brunnastaðatánga, og standa Njarðvíkur við fjarðarbotninn. Hefir þessi Stakksfjörður nafn af hamri þeim, er stendur við sjóinn milli Njarðvíkur og Voga; er nú sá hamar kallaður Stapi, en að fornu Stakkur, svo sem ráða má af „Fjarðatali kríngum Ísland".

## Stekkur[6].

Llb. 48.: *Nú verðr lamb mismarkat í stekk.*

Allir skilja, hvað stekkur þýðir, því að glósan er í daglegu máli töluð um sauða-kúgilda og lamba kró, sem á vor-

1) Vantar í C. 2) B. heigörðum. 3) [ ] vantar í B. 4) [ ] vantar í B. 5) [ ] vantar í B. 6) Vantar í C.

tíma er brúkuð um sauðburð fyrir ásauð og únglömb. [1]Sumir kalla „stekk“ lambakró alleina, en rèttina, sem fullorðna fèð er í, kalla þeir stekkjarkvíar, og veit eg engin rök til þess. [2]Stekkur er í Grágás, Llb. 11., aldeilis í sömu meiníngu, sem enn nú tíðkast; svo er og eins í Eddu, þar sem talar um deilíng ársins[3]: „annar mánuðr sumars heitir eggtíð ok stekktíð“, svo þar er meiníng öll hin sama. Því er glósan gömul og góð norræna; en hvaðan hún upprunnin sè, þykir mèr ei áræðilegt að geta.

[4]Það er kunnugt, að „stía“ heitir að taka lömb frá mæðrunum í stekknum, og setja þau í króna til næturvistar, og öll frábægíng er með því orði nafngipt að stía, stjaka[5] ɔ: frábægja; þar af er *frequentativum* að stjaka; af því ætla eg að stekkur sè orðinn frástíunar- og frástjökunar-girðíngin, bæði kví og kró. Eins og hvía, hvekkja, hvekkur; að hvía er að hljóða, sem merhryssur leikfullar í stöðu; að hvekkja er með óforvöruðum ertíngum og tilgjörðum að koma öðrum til slíkra ósvinnu-skrækja, og hvekkur heitir sjálf ertíngin. Eins er að hrjá, hrekja, hrekkur, stía, stjaka, stekkur. Svo skyldi þá stekkur vera frábægíngargerði.

## Stendur mann, stendur fè[6].

Mannh. 2.: *Ef maðr stendr mann á konu sinni með löglegum vitnum.*

Þjófab. 4.: *Nú stendr maðr fè sitt þjófstolit í hendi öðrum manni.*

[7]Þar eru margar smáglósur, sem eg teikna í þetta kver alleina fyrir þeirra *æquivocationem* eður *polysemeiosin*[8], sem gjöra megi þær myrkar með tímanum, þó nú sèu þær í almenníngs-máli, og er þessi ein af þeim, en tekur þó heldur að gjörast ótíðari en að fornu; þó[9] segja menn almennilega, að einhverr sè staðinn að verki, og því[10] helzt, er eigi skyldi.

[11]Hèr í báðum fyrr sögðum greinum Jónsbókar merkir orðið „stendr“ sama sem „hittir“ eða „finnur“, svo sem

1) B. § 2. 2) B. § 3. 3) B. add. að. 4) B. §. 4. 5) B. frástía 6) Vantar í C. 7) B. § 1. 8) A. polyhremeiosin. 9) B. svo. 10) A. þá. 11) B. § 2.

ljóst er af Frostuþíngslögum Hákonar konúngs gamla, Mannh. 52.: „Stefni til þíngs[1] síðan, hvar sem hann stendr hann; en ef hann stendr hann eigi, þá stefni hann[2] þíng af þíngi". Þar í staðinn segir Jónsbókar [Mannh.[3]], 10. kap.: „Ef hann hittir þann mann, er svo heitir", og í Kaupab. 3.: „Hvar sem han hittir þann, sem gjalda á".

[4]Sama er merkíng þess í Grettissögu, kap. 72., í vísu Ásdísar, þegar níðingurinn Þorbjörn aungull kastaði höfði Grettis fyrir fætur henni, en hún kvað:

„Ef styrviðr hefði staðit
stálafrey í eyju,
verit hefði lofs um lýði
lètt, ósjúkan Gretti".

Verið hefði lètt til lofs um lýði, ef orustuviður hefði staðið stálafrey Gretti ósjúkan í eyunni. Eins er það í Noregskonúngasögum um Harald konúng gilla og Magnús blinda: „Haraldr konúngr fór austan um Víkina, [ok[5]] gaf góðan frið öllum mönnum, [nema mönnum[6]] Magnúsar konúngs, þá lèt hann ræna eðr drepa, hvar sem hann stóð þá". Þar segir Snorri Sturluson: „Hvar sem hann fann þá". Eins í Sturlúngasögu, *lib.* 3., *cap.* 12.: „Önundr Þorkelsson á Laugalandi kallaði, at Björn (þjófur eða þjófsnautur í Ólafsfirði) hefði at engum óskilum þar staðinn verit".

[7]Mismunar að vísu, en þó er í skyldsemi hèr við sú merkíng, er stendur í Frostuþíngsbók Hákonar konúngs, Mannh. kap. 12.: „Hvar sem maðr er staðinn, ok fær hann sár af manni"; hèr segir það „staddur".

[8]Skyld er og hin þriðja merkíng, svo nær má hana[9] sömu kalla; þó er í henni *forma constructionis passiva,* [en[10]] samt *diversa* frá næst áður sagðri[11], sem líka [er[12]] *passiva.* Þessa sjáum vèr í Grettissögu, þar sem Þóroddur Skaptason lögsögumaður var heilræða beiddur[13] af Þórhalla úr Forsæludal, um hvarf sauðamanna sinna; svaraði [hann[14]] honum, kap. 34.: „Hvað stendr þig"? Það er: Hvaða vandræði hafa þig hitt[15]? Hvað er þèr tilfallið? Hvað hefir þig ratað? Og er enn nú tídt að segja: Hvað hefir þig staðið? *pro:* Hvað hefir þig hent?

1) B. honum þíng. 2) B. stefni honum. 3) [ ] vantar í A. 4) B. § 3. 5) [ ] vantar í B. 6) [ ] vantar í A. 7) B. § 4. 8) B. § 5. 9) B. hina. 10) [ ] vantar í A. 11) A. sögðu. 12) [ ] vantar í A. 13) A. heilræða beiddi. B. heilráða. 14) [ ] vantar í B. 15) A. í hvaða vandræði hefir þú hitt.

Í hvað vandræði hefir þú ratað[1]. Þetta segir rèttarbót Magnúsar konúngs lagabætis: „Þótt maðr hitti í þau óbótamál".

[2]Sú er hin fjórða merkíng og *modus construendi* þ e s s a o r ð s[3], sem mest *differerar* frá áður töldum, er segir í Grettissögu, k a p. 54.[4], orð Skapta lögmanns Þóroddssonar, þegar Grettir bað hann ásjár: „[Með[5]] því ek skal heita lögmaðr í landinu, þá stendr mèr eigi, at taka við skógarmönnum ok brjóta svo lögin". Hèr sjá allir, að það merkir: „sómir mèr eigi", sem hann kallar: „stendr mèr eigi"; *danice*: det staaer ham ikke an, anstaaer ham[6] ikke.

## Stjórnborða[7].

Farml. 24.

Öllum er það kunnugt, að það heitir á stjórnborða, sem fram liggur frá hægri hendi stýrimanns, er hann situr undir stjórninni aptur í skut skipsins og horfir fánginu til framstafnsins; það veit og hverr maður, að höndin hægri er flestum mönnum tamari til allra verka og lagkænari en sú vinstri; heitir og þar fyrir hægri hönd á vora túngu, að hún er mönnum hægri, ɔ: mjúkari, hægari, tamari; því mundi þá ei líklegt, að stjórnborða sè þar af kallað það, sem til hennar veit, að undir hennar hægri, mjúkri og smiðlegri hagræðíng stýrisins er stjórn skipsins fólgin.

Veit eg þar eru nokkrir, sem vilja kalla þetta „s t j ó r b o r ð a", og draga nafnið af því, að á þá síðu framstafnsins, er stjórinn dreginn ávalt eður alloptast. En eg þykist það ekki svo skilið geta; því hvorki minnist eg í sögunum með stórskipum sè kallaður stjóri, heldur akkeri, og ekki finn eg í *membranis* skrifað s t j ó r b o r ð a, heldur s t j ó r n b o r ð a. Þar á ofan segja menn enn í dag, þeir allir sem danska túngu mæla og mælt hafa, það eru Danir, Norðmenn og Svíar: „Styrbord", en vita þó engir af stjóra að segja öðrum en akkerum. Ofan á alt þetta segir Frostuþíngsbók. í Rb. og Gulaþíngsbók, Kb. 25.: „Skal stýrimaðr sá, er næstr hvílir borði á stjórn". Hèr heitir n æ s t b o r ð i á s t j ó r n sama sem á s t j ó r n b o r ð a, hvar af ljóst er, að af stjórn og stýríngu skipsins er það stjórnborða kallað, en eigi af stjóra; heldur ætla eg, að stjórinn hafi sitt nafn

1) B. hann staðið, hann hent, hann ratað. 2) B. § 6. 3) B. þetta orð. 4) A. kap. 5. 5) [ ] vantar í B. 6) B. hannem. 7) Vantar í B, C.

af því dregið, að hann heldur og stýrir framstafni skipsins í mótviðri, meðan hann ræður, þar sem hin reglulega stjórn stýrimannsins horfir honum þá undan vindi, ef byr fellur að óskum.

## Stokkur[1].

Mannh. 2.: *þat er óbótaverk, ef maðr vegr mann innanstokks.*

Það væri líkast, að Björn á Skarðsá hefði rètt skrifað um þetta (Hann segir: „Stokkur, þversylla eður[2] þverslá sú, sem öndvegissúlurnar ofan í gánga"), ef það væri víst, að öndvegissúlur merkti dyrabranda, en eg kalla það heldur efanlegt og vandskoðað, því svo segir Eyrbyggja um Þórólf, *cap.* 5.[3]: „Þar lèt hann reisa hof, ok var þat mikit hús; voru dyrr á hliðvegginum ok nærr öðrum endanum; þar fyrir innan stóðu öndvegissúlurnar, ok voru þar í naglar, þeir hètu reginnaglar. Innar af húsinu var hús í þá líkíng[4], sem nú er saunghús í kirkjum, ok stóð þar stalli á miðju gólfinu ok altari"[5]; *vide* „öndvegi" bæði Bjarnar og mitt, og mun þá næstum auðsætt, að öndvegissúlur eigi sèu dyrabrandar, sem margir ætlað hafa, heldur stólbrúðir þær, sem standa skyldu sín á hvora hönd þeim, sem sat í hinum æðsta sess í veizlustofum. Því [6]tvíla eg eigi að segja: Stokkur er hvert máttartrè, sem greypíngum er fest[7] í húsi eður skipi eður einhverri[8] trèsmíði. Svo heitir öldustokkur á skipi, og hástokkur og borðstokkur, búnkastokkur og bálkastokkur[9], þar sem skip eru bygð, máttartrèn, sem undir kjölnum[10] liggja, meðan skipið er smíðað, sem segir[11] Snorri Sturluson um Orminn lánga; það kalla nú Danskir „Bankestokke".

[12]Af slíku heita stokkaker þau, er greyptar slár halda saman í staðinn fyrir girðið; pallstokkar hjá oss öllum kunnir[13], [14]rúmstokkar og jötustokkar, en í húsum aurstokkar, og í orðskviðnum stokkar og steinar. [15]Og svo segir Eyrbyggja, kap. 21.[16]: „Hann (Þorbjörn kjálki) átti lokrekkju mjög sterka, gjörva með timbrstokkum, ok brutu berserkir þegar upp, svo at af gengu nafirnar[17] fyrir utan".

---

1) Vantar í C. 2) B. þversilli; om.: eður. 3) Eyrb. Kh. 1787, kap. 4., bls. 10. 4) A. í líkíng, B. á líkíng. 5) Báðar: stallr á miðju gólfi sem altari. 6) A. það. 7) B. fast. 8) B. einhverju. 9) A. bakkastokkur, 10) B. kjölinn. 11) B. sýnir. 12) B. § 2. 13) B. alkunnir. 14) B. add. svo sem. 15) Om. B. 16) Sjá Eyrb. Kh. 1787, kap. 25., bls. 118. 17) Báðar: nafrarnir.

Egils saga Skallagrímssonar: „Þórólfr (Kvöldúlfsson, er Haraldur konúngur bar eld að húsum hans) bað menn sína brjóta upp þilin ok ná gaflstokkunum, ok brjóta svo skjaldþilit; en er þeir náðu stokkunum, þá tóku svo margir á, sem fengu haldið, ok skutu endunum út í hyrníngunum svo hart, at nafrarnir gengu frá at utan, ok hlupu upp veggina, svo þar varð útgángur mikill". Hèr sjáum vèr, að gaflstokkarnir á timburstofu Þórólfs lágu ofarlega. Og enn segir Egilssaga um hernað þeirra á Kúrlandi[1], þá Egill varð fánginn: „Húsit var gjört at veggjum af timbrstokkum stórum"; *item* í sömu sögu[2] heita stokkar lausir viðir, sem hafðir voru til eldíngar, en eigi klofin skíði, svo eg víla nú ekki að segja, að stokkur, sá í Mannhelgi talar um, sè það hvert yzta trè af máttarviðum í grind hússins, sem með greypíngum er fast, svo sem eru anddyris-aurstokkur, sá er gengur um þvert, yztur viða við jörð, og anddyris-bitinn, sá yztur liggur á stöfum útidyra-grindarinnar, svo að í þessa báða stokka, bitann og aurstokkinn, eru þilin greypt, en þeir í og á meginstafi grindarinnar. Svo segir Rekab. 13.[3]: „Ok sè þá borinn annar endi um stokk eða stein". Svo er þá innanstokks alt það, sem fyrir innan er dyraumbúníng í einhverju húsi því, sem er á[4] heimili manns, og heitir enn nú svo í dagglegu máli það alt innanstokks, sem í húsum er, þar[5] er menn hafa eigur sínar inni aðrar en kvikfè: Hann er auðugur innanstokks; þar er ekkert innanstokks; stórríkur að gángandi fè, en snauður innanstokks. Svo segir Njála, kap. 5.: „Rútr fèkk henni (Unni Marðardóttur, konu sinni) ráð yfir innanstokks ok líkaði öllum vel", og skil eg einnig hèr með úthýsi þau, sem nú kalla menn skemmur og útibúr að fornu, og svo trèvirki þau eður grjótvirki þau, er menn hafa við bæinn heima og hjallar eru nú kallaðir.

[6]Nú verður spurníngin [um[7]] skipanaust og hjalla[8], sem standa lángt frá bæ manna við sjó, eður utangarðs í[9] holti eður hæð, fyrir þerrissakir, hvort það skuli heita innanstokks, ef þar verða víg eður áverkar; og enn verður sama spurníng um sætur-hús[10] og sjóbúðir, fjárhús í útihögum og veiðiskála á fjöllum, tjöld[11] manna á reisum, eður í kaupstöðum, eður við veiðivötn, eður á grasafjalli, eður í skógi, þar sem menn liggja

1) A. Englandi. 2) B. sögunni sömu. 3) B. 3. 4) Om. B. 5) B. þeim. 6) B. § 3. 7) [ ] Om. B. 8) B. hjallar. 9) B. á. 10) A. tóptarhús. 11) B. tjald.

til timburhöggs, eður til kolagjörðar, eður til eldiviðarfángs, eður til fiskjar í verstöðum. Jydske Lov, 2. b., kap. 32., eignar eyum öllum og líka þessum stöðum[1] heimilisrètt og heimilisfrið, og mjög svo lúta þar til Kristjáns fimta Norskulög, *lib.* 6., *cap.* 9., *art.* 1., svo vel sem þau dönsku lögin, *l. c. art. eodem,* þó á [hèr[2]] eigi að gleymast *art.* 4. sama kapítula. En hvað kaupstaðatjöld, skógaryrkju, grasafjöll eður engisyrkju snertir, *vide* sama *lib. et. cap., art.* 24. En hvað sem um mannhelgisrètt[3] er að segja í þessum stöðum, þá misjafnar vor Llb. 30. og 49. mjög svo[4] brennugjöld í almenníngi og annarstaðar, og svo gjöra bæði Frostuþíngs og Gulaþíngs lög[5] Magnúsar konúngs í þeirra 26. og 61. kap., en það mun eigi þar fyrir mega misjafnast í mannhelgissökum; *confer* Skaanske Lov, Orbodhemal, kap. 1.; þau telja fjárhús manna til heimilisfriðar, svo sem láfagarða og kornhlöður, og jafnan rètt[6] gjöra þau nýu lögin *lib.* 6., *cap.* 14., *art.* 5., fjárhúsum sem bæarhúsum[7] fyrir ofríkis og hernaðar verkum.

Þarf hèr ekki lángort um að tala; mannhelgi sjálf er hinn vissasti vottur, hvað um[8] þetta framanskrifað eigi að skiljast, þar eð hún segir: „Á töðuvelli úti eðr innangarðs, þess er hverfr um akr eðr eng, at heimili sjálfs hans, ok á veg til ok frá“.

## Svíþjóð.

Farml. 8.: *Ef maðr rýfr skipan undir stýrimanni í Danmörku eðr í Gautlandi eðr í Svíþjóð.*

### § 1.[9]

Það er ljósast[10] af að segja, hvað hèr sè meint fyrir Svíþjóð, sem stendur í lögum Svíanna, *Landslagh. Konungsbalk.,* 1. kap.: „Svearikes rike är afhedhna värild samankomit af Svealand och Götha. Svea kallades nordan skogh och Götha sunnan skogh. Tvenna äro Götha i Svearike, Östgötha och Wästgötha“. Það, sem hèr kallar „Svea nordan skogh“, er Svíþjóð í vorum Farmannalögum, svo vel sem í fornsögunum öllum, meint og kallað.

---

1) B. eigna þessum stöðum og plázum. 2) A. Om. 3) B. rèttir. 4) A. 59 og. 5) A. bækur. 6) B. rèttinn. 7) A. sem bændur hafa. 8) A. add. alt. 9) Greinaskiptin eru tekin úr B. 10) B. ljóst.

§ 2.

En ekki get eg meint, að kaupferðir farmanna vorra hafi lengra gengið í Svíþjóð, en á þá síðu, sem veit að Austursjónum, og kannske upp eptir Lögnum, þar sem nú er Stokkhólmur, eður hið lengsta upp eptir Fýri til Uppsala. Hitt sýnist mèr ótrúlegt, að þeir hafi siglt norður í Botnsfjörð til Gestrekalands eður Helsíngjalands, þótt það og heyri til Svíþjóðar, því sektarhæðin, 2 merkur, ef rofin er skipan í Svíþjóðu, sambýður ekki þeirri vegalend og fjarlægð hèðan eður frá Noregi að reikna, allrasízt þá saman er borin fjögra marka sekt, ef á Gautlandi er skipan rofin; því að Gotland, nú Gulland kallað, liggur vestar, en rètt suður frá Botnsfjarðarmynni, nokkrar mílur frá fastalandi, svo þeir, sem inn í Botnsfjörð sigla vilja til Gestrekalands eður Helsíngjalands, skulu sigla fram hjá[1] Gotlandi, áður þeir komast inn í fjarðarmunnann.

§ 3.

En hvaðan Svíþjóð hafi nafn dregið, kennir Edda eptir *codice regio:* „Gotnar eru kallaðir af heiti konúngs þess, er Goti er nefndr, er Gotland er við kent; hann var kallaðr af nafni Óðins ok dregit af Gaut[2], nafni Óðins; en Svíþjóð af nafni Sviðris, þat er [ok[3]] heiti Óðins". *Conf. Thorm. Ser. dyn. lib. 3., cap. 3., p. 224.*

§ 4.

En hver að sè merkíng þessa nafns Óðins, Sviðrir, munu flestir gátu kalla, þótt eg segi. Þormóður *in Addendis ad Seriem dynast., p. 497.*, segir það merki *Schytham*[4], eður einn úr *Schythia,* því að vorir gömlu sagnameistarar kalla *Schythiam* Svíþjóð hina miklu, eður köldu Svíþjóð. Það er víst, að Svíþjóð hina miklu og köldu Svíþjóð kölluðu vorir elztu *scribentar* ekki *Schythiam* alleina, heldur mikinn part af *Asia septemtrionali,* sem þeir höfðu spurn af, og er helzt með því meint suðurhluti af *Tartaria,* svo sem lengst austur vissu vorir fornmenn[5] til mannabygða, alt suður til *Mare Caspium,* sem Ari fróði vottar hjá Snorra Sturlusyni. En *Schythiam* kölluðu þeir Tyrkland, sem af Eddu *prologo* má ráða, þó hann[6] tali mjög *confuse* þar um.

---

1) B. frá. 2) B. Gauts. 3) [ ] vantar í A. 4) B. Schythiam. 5) A. formenn. 6) B. hún.

§ 5.

Vil eg nú ekkert tala hèr um merkíng orðsins *Schythia*, hvort það sè dregið af σκυθρος, það er: ygldur, grettur, reiðilegur, sem *Schrevelius* vill, eður af Σκυθα, syni *Herculis*, sem *Herodotus* skrifar *in Melpomene*, það er *lib. 4., cap. 6.*[1] *& 10.*, eður σκυτος, húð eður skinn, af því þeir hafi skinnum klæddir verið, sem nokkrir vilja. [*Joh. Messenius in speculo* vill draga þetta nafn af s k y t a ɔ: skotmanni, þar svenskir hafi verið miklir skotmenn[2]].

§ 6.

Hitt vil eg berlega segja, hvað sem orðið *Schythia* þýðir, að nafnið S v i ð r i r er ekki dregið af *Schythia*[3], það lætur að öllu svo fjærri stöfuninni, að eg sè engin bókstafa-skipti leidd fyrir ljós, sem slíka *permutation* (það er breytíng) samþykki; og fjærri sè, að S v i ð r i r þýði y g l d a n, i l l ú ð l e g a n nè s k i n n i k l æ d d a n; uppruni þessi er [allur[4]] annar í Asíamanna-túngu þeirri, sem Óðinn færði í Norðurlönd, og [er[5]] hjá oss í henni kyn þ e s s[6] alt og ætt enn [í dag[7]] í daglegu máli.

§ 7.

Merkir S v i ð r i r *sapientiæ magistrum*, það er s p e k í n g eður vísdómsmeistara þann, er öðrum kennir vísdóm og speki, snild og góðar framferðir. „S v i ð r“ *adjectivum* og „s v i n n r“ er alt hið sama; skilur almenníngur, að s v i n n u r er v i t u g u r, siðgóður, framsýnn, og þ a ð a n[8] er dregið nafn Óðins S v i ð r i r, því að hann færði norður híngað í löndin margar íþróttir, vísdóm, snild og kunstir, sem Snorri Sturluson vottar skýrt og merkilega.

§ 8.

Hitt er öllum kunnugt, sem nokkuð vita til vorrar gömlu túngu, að bókstafurinn *þ* eður *dh, ɔ: d aspiratum*, breytist í norrænunni margfaldlega í *nn*, svo sem eg hefi sýnt[9] *in voce* „Jól“ af Noregskonúnga-sögum.

Breðr í Bjarkey miðri
ból þat, er ek veit góligst

1) B. 9. 2) [ ] om. B. 3) B. Schytha. 4) [ ] om. A. 5) [ ] om. A. 6) A. það. 7) [ ] om. A. 8) B. þar af. 9) A. sagt.

Það er: brennur í Bjarkey miðri bær sá, er eg veit góðlegastan, ɔ: beztan. Svo var kveðið, þá Þórir af Steig brendi bæ Viðkunns Jónssonar. Og hjá Snorra Sturlusyni um Finn Árnason, fánginn eptir Nizarorustu, kvað Þjóðólfur:

Varð sá, er vildi-t forða
víghjartr snöru hjarta,
í fylkíngu fánginn
Fiðr Árnason miðri,

*pro* Finnur Árnason. Þorsteinn[1] holmuðr, ɔ: holmunnur, son Skapta lögsögumanns[2] og dótturmágur Guðmundar ríka, í Njálu, kap. 130. Sigurður muðr, Noregskonúngur, faðir Sverris konúngs, og í þessum öllum er *ð* fyrir *nn*. Sjálft orðið, sem nú er vort umtalsefni[3], hefir Snorri Sturluson í öndverðu Háttatali[4] Eddu, þar [svo[5]] stendur:

„Sviðr lætr sóknarnaðra
slíðrbraut jöfurr skríða".

S v i ð r j ö f u r r, ɔ: s v i n n u r j ö f u r, lætur sóknarnaðra (svo kallar hann sverðið) skríða slíðurbraut; og nú ætla eg, að eigi megi við dyljast, að s v i ð r og s v i n n u r sè alt eitt og hið sama orð, og að *þ* eður *d aspiratum* sè í öllum þessum dæmum við haft í staðinn fyrir *nn*.

§ 9.

Stundum gengur þetta *vice versa* (það er þvert á víxl), að *nn* er við haft í staðinn fyrir *þ* eður *dh*, svo sem kennir vísa Skúla Þorsteinssonar hjá Snorra Sturlusyni um Svoldar-orustu:

„sunnr fyrir Svoldarmynni
sárlauk roðinn bárum"[6].

Það er ýmist skrifað s u þ r eður s u n n r, en hvort sem skrifað er, þá krefur bragarhátturinn, að *pronuncera* það „s u n n r", svo að haldist kveðandi og sneiðhendan við „m y n n i", munnann árinnar Svoldar. Annað dæmi sýnir vísa Haldórs hins ókristna, og svo hjá Snorra Sturlusyni, um sama efni og bardaga[7]:

„Gerðist snarpra sverða
(slitu drengir frið lengi),
þar er gullin spjör gullu,
gángr of[8] Orminn lánga.

Dólgs kváðu[9] fram fylgja
fránleggs[10] vita[11] hánum
sænska menn at sennu
sunnr ok danska runna".

1) B. add., hol-muður. 2) A. lögmanns. 3) A. umræðuefni. 4) Báðar: háttalagi. 5) [ ] B. om. 6) A. sár rauk voðin bárom. 7) B. um sama bardagann. 8) A. af. 9) A. kunda. 10) Fms. 2. b., bls. 318., fráns legg; Heimskr. Leirárg, 1804., fráns legg bíta. 11) Vinna A. bíta Fms. 2. b., bls. 318.

Fyrri hluti vísunnar er ljós með öllu og þarf ei útskýríngar; þann síðari á svo að skilja: Hánum *(pro* honum, ɔ: Eiríki jarli) kváðu (menn) fram fylgja at sennu (deilunni, orustunni) sunnr (suður þar fyrir Svoldur) runna frán (glansandi) vita (elds eður eldsloga[1]) dólgs (óvinar eður fjanda) leggs (jötunsins eður tröllsins leggjar, ɔ: Þórs, sem er allra jötna dólgur; en viti hans eður eldur hans og ljós eru sverðin, sem inn voru borin í höll Óðins til að lýsa, þegar Ægir sat að gestaboðinu). Sænska menn ok danska runna sverða segir Haldór honum Eiríki fylgt hafa sunnur (suður þar) at sennu (Svoldarorustu). Þriðja dæmi gefur önnur vísa sama skáldsins, Haldórs ókristna, hjá Snorra [Sturlusyni[2], um skiptin eptir Svoldar-orustu:

„Hjálmfaldinn bar hilmi
hríngs at[3] miklu þíngi
(skeiðr glæstu þá þjóðir)
þángat Ormrinn lángi.

En sunnr[4] at gný gunna
glaðr tók jarl við naðri;
áðr varð egg at rjóða
ættgóðr[5] Hemíngs bróðir".

Hvort sem menn skrifa hèr suðr eða sunnr, þá er þreifanlegt, að framberast á „sunnr", svo kvæðið standist við „gný gunnar". Fjórða dæmi gefur Einar Skúlason í Velleklu hjá Snorra Sturlusyni um Hákonar jarls ríka liðveizlufür til Danaríkis:

„Hitt var auk, er eykir
aurborðs á vit norðan
unz *(corr.* und) sigrunnum svinnum
suðr Danmarkar runnu".

„aurborðseyki" kallar hann skip, er norðan úr Noregi runnu und svinnum sigrunnum suðr á vit Danmarkar. Hèr verður nú enn að *pronuncera* „sunnr", svo hendíngin verði jöfn við „runnu". Fimta dæmið gefur Haustlaung, kvæði Þjóðólfs hins hvinverska, í Eddu, um hvarf Iðunnar, konu Braga:

„Urðut bjartra borða
byggvendr at þat hryggvir,
þá var Ið- með jötnum
-uþr nýkomin sunnan".

**Bjartra borða byggvendr** kallar hann Ásana, og segir þá af því hryggva, að þá var Iðuþr, Iðunnr, Iðunn, með jötnum nýkomin sunnan, og verður hèr fyrir bragarháttarins og kveðanda-raustar sakir að *pronuncera* *þ* í uþr eins og væri

1) B. loga. 2) [ ] vantar í B. 3) A. af (corrige: at). 4) Báðar: suþr (sunnr). 5) Fms. 3. b., bls. 12. ótrauðr.

það *nn*, sem klíngja skal mót hendíngunni[1] „sunnan", og bar engi nauðsyn til, að þessi *nobilissimæ antiquitatis codex regius* skrifaði hèr *þ in* uþr; því er sýnilegt, að sú *pronunciatio* milli *þ* og *nn* hefir í ótalfaldan máta verið *reciproca* og *indifferens* í miðatkvæðum orðanna, þegar *vocalis* var næst áður og næst eptir. En í fyrstum atkvæðum og síðustum veit eg þess engin dæmi, og ei heldur þegar *consonantes* standa næst fyrir eður eptir *þ* eður *nn*.

§ 10.

Og skal nú sýna dæmin, hversu að *nn* eru sett fyrir *dd*, eptir því sem[2] hentar kvæðanna snilli, til að klíngja á hendíngunum, svo sem Þorbjörn hornklofi kvað um hernað Haralds konúngs hárfagra hjá Snorra:

„Grennir þraung at gunni
gunnmás[3] fyrir haf sunnan,
sá var gramr[4], ok gumnum,
geðvörðr, und sik jörðu".

Grennir gunnmás þraung at gunni und sik gumnum ok jörðu fyrir sunnan haf; sá gramr var geðvörðr. Hèr kallar hann hrafninn gunnmá[5], orrustumá[6], en konúnginn grennir gunnmás[7], það er fæðslugjafa hrafns eður húngurdeyfi hrafns, því gráðr heitir húngur hrækvikinda, og þar af gráðugur, sá sem etur eins og soltinn hrafn og úlfur, en sá heitir græddir þeirra, sem svalar gráði hrafns og úlfs, sem snart skal eg sýna. Þennan græddi varganna, sem gaf þeim nægð af dauðum val til fæðu, kallar skáldið í þessari vísu grenni, svo þar kemur *nn* í staðinn fyrir *dd*, sem standa í „græddir", og rètt eiga við, því það er af gráði og græðgi dregið. Eins kvað Arnór jarlaskáld um hernað Magnúsar konúngs hins góða í Danmörku, að vitni Snorra Sturlusonar:

„Hlóð, en hala tjáðu
hirðmenn ara grenni[8],
auðarþorn fyrir örnu
úngr valköstu þúnga".

Úngr auðarþorn hlóð þúnga valköstu fyrir örnu, en hirðmenn tjáðu aragrenni hala. Aragrenni eða aragreddi kallar hann konúnginn, sem saddi gráð arnarins; honum segir hann

1) B. á mót hendíngunni. 2) A. sem þá. 3) A. gunnmars; B. gunnmáfs. 4) A. grams. 5) A. gunnmar; B. gunnmáf. 6) A. orrustumar; B. orrustumáf. 7) A. gunnmars; B. gunnmáfs. 8) A. grennir.

að hirðmenn hafi tjáð hala, það er veitt góða fylgd, svo sem halinn, *cauda animalium* (rófan á skepnunum), skilst ekki við búkinn, nema frá sè höggvinn. Og híngað heyrir það, er Úrækja Snorrason sagði við Sturlu Þórðarson: „Skammr er nú hali okkarr", þegar þeir voru fángnir fluttir norður, eptir það Gizur og Kolbeinn úngi sviku þá við Hvítárbrú í Borgarfirði, sem Sturlúnga segir[1], *lib.* 6., *cap.* 36. Þriðja dæmið upp á *nn* fyrir *dd* er hjá Snorra Sturlusyni, þar sem[2] talar um viðurbúnað Sveins konúngs Úlfssonar til sáttarstefnunnar við Harald konúng harðráða. Sá er ekki nefndur, er vísuna kvað, en eigi ólíklegt það hafi verið Þjóðólfur, skáld Haralds konúngs:

„Út hefir á lið litið
lofsnjallr Dana allra
hinn[3] er hvern vág sunnan
hrafngrennir lykr stöfnum".

Vísan er ljós, og þreifanlegt, að hann kallar Svein konúng lofsnjallan hrafngrenni að öllum sömu röksemdum sem fyrr segir, og skil eg eigi þörf, að telja vitnin fleiri, þótt ærin sèu að finna.

§ 11.

En hitt vil eg nú sýna með jafnmörgum dæmum, hvernin eptir aðaluppruna glósunnar tíðka skáldin *dd* í sama orðinu. Svo kvað Einar skálaglamm í Vellekln um vörn Hákonar jarls fyrir Danavirki, sem Snorri vottar:

„Þrymr var loks, þar er lögðu   arn-greddir varð, odda,
leik miðjúngar þriðja   andvígr[4], saman randir.

Þrymr varð loksins, þá er þriðja oddaleik miðjúngar lögðu randir saman. Arngreddir varð andvígr; og er nú vísan ljós. Annað dæmið hefir og Snorri, sem Hallfreður kvað um hernað Ólafs Tryggvasonar á Skotlandi:

„eyddi úlfa-greddir
ógnblíðr Skotum víða".

Þriðja dæmið er í vísu Þjóðólfs, sem Edda segir[5] í hræfuglatali:

„Geirsoddum lætr græddir
grunn hvert stika sunnar,
hirð þat er hans skal varða,
hrægamms, ara sævar".

Hrægamms græddir lætur stika geirsoddum hvert grunn að sunn-

1) B. kennir. 2) B. add. hann. 3) A. hann. 4) A. andvígt. 5) B. setur.

an, eður sunnar, þat er hans hirð skal varða sævar-ara; svo kallar hann skip: örn sævar, en konúnginn hrægamms græddi, eins og hinir kölluðu[1] úlfa-græddi og arngreddi, alt af sömu rökum, sem fyrr er sagt[2]. Sjá nú[3] heilskygnir allir, að orðið er sjálft hið sama, sem þeir enu fyrri[4] kölluðu grenni gunnmás[5], ara-grenni og hrafnagrenni.

§ 12.

Að öllu þessu hugleiddu skil eg [eigi[6]], hversu það megi fyrir mèr hrakið verða, sem fyrr hefi eg ritað, að sviðr og svinnr sè alt hið sama, Sviðrir og Svinnrir hið sama[7], svo eg þykist það nú *demonstrerað* hafa með sterkum[8] bevísingum, að Svíþjóð heiti að nafni Svinnþjóð, *composita* af sviþr, svinnr = *prudens, sapiens, [honeste moratus[9]]*, og þjóð = *gens, populus, natio*, svo það heitir Svíþþjóð, áður en burtslept er hið fyrra *þ* til málfegurðar og mjúklætis við heyrnina, það er vitug þjóð, framsýn þjóð, siðprúð þjóð, eptir nafnsins hljóðan.

§ 13.

Og enn er það einn vottur sögu minnar, að þjóðin heitir að fornu og nýu á alla danska túngu svenskir með bókstafnum *n*, sem í orðinu „svinnr" á aðalsæti, og þaðan er komið í orðið „svenskir", svo sem heiti þeir svinnskir eður vel siðuð þjóð, forsjáls herra þegnar, vitugur landslýður. Bókstafinn *d* hafa þýzkir enn í dag í nafni þessa konúngsríkis, og eru það leifar af Sviðrisnafni.

§ 14.

Hitt, að menn hafa þá Svía kallað, svo að hvorki stendur n nè *d* í nafninu, er myndað af Svíþjóð, síðan búið var að sleppa því fyrra *þ* í burtu, *propter evphoniam*, svo mjúkara lèti hljómur orðsins við eyrað. En allir sáu og skildu[10], að „þjóð" var orðsins seinni hluti út af fyrir sig heill, og sköpuðu því af fyrra hlutanum, sem í samsetníngunni var áður vanaður um *þ*, heilt nafn þjóðarinnar og kölluðu Svía, svo sem í öllum túngum heimsins er til gengið ótalfaldlega með ýmsu móti.

1) A. sumir köldu. 2) A. sýnt. 3) A. hèr. 4) B. fremri. 5) A. gunnmars; B. gunnmárs. 6) [ ] vantar í A. 7) B. alt hið sama. 8) A. stórum. 9) [ ] vantar í B. 10) A. sjá og skilja.

§ 15.

[*Messenius l. c.* vill, að Svíþjóð sè *quasi Sveonum posessio nuncupata.* Þessa meiníngu hefur *M. Olaus Petri,* sem *Messenius in suo Speculo, cap.* 8., greinir[1]]. Það er vert að merkja, hvað einhver Svíanna skrifað hefir í þýðíng fornyrða á bak við landslögin, útgengin 1665, að Svíþjóð[2] merki svo stórar eigur, sem allra fyrst sèu uppteknar með sviðjandi. Ef það er meint sviðu eður brennum[3] þeim, er menn ruddu merkur[4] til bygða sèr, þá er sögn hans hègómi, og hefir honum mikil yfirsjón orðið, að breyta svo fögru nafni þess mektuga konúngsríkis í aflagisljóta þýðing. Hann hefir skrifað nafn sitt *C. A;* hvort það eigi að vera *Claudius Akermann,* þori eg ekki að segja; hitt er ljóst, að hann tekur *occasion*[5] hèr til af Uppsalaauð, en hvað kemur það hèr við? Hann hófst laungu eptir Óðin dauðan, sem Snorri Sturluson vottar *in* „Freyr“. En að Óðni lifanda hèt ríkið Sviþþjóð, það er Svinnþjóð, vitug þjóð, siðlát og veglát þjóð, af svinnu, svinnsku, það er vísdómi og hæverskum siðum Óðins og veglæti hans, ɔ: *decora magnificentia.*

§ 16.

Af áður skrifaðri villu þess svenska manns, hverr sem hann var, hefir *Ove Pflug* í sínum danska Pílagrím, *pag.* 45., látið færa sig afvega í *derivation* nafngiptar þess yfrið fræga gamla konúngsríkis, þvert frá rèttum rökum þeim, er hinir gömlu sagnameistarar kenna og nú hefi eg leidt fyrir ljósið.

§ 17.

En ef það skyldi satt, sem þessir tveir vilja, að Svíþjóð hafi[6] nafn af sviðnum eður af brendum skógum, því mundi þess þá ekki getið vera, að þar hafi skógar af brendir verið, til að ryðja fyrir bygðum, fyrr en komið er alt fram yfir dauða Agna konúngs, sem Snorri telur 12. konúng, þá Óðinn er fyrstur talinn? Vottar Snorri [Sturluson[7]] [það[8]] um Brautönund, að hann ruddi merkur til bygða, og síðan segir hann af Íngjaldi illráða: „Fyrir því at Óðinn var höfðingi í Svíþjóð, voru þeir einvaldshöfðíngjar, er at Uppsölum sátu, of alt Svíaveldi, til þess er Agni dó; síðan kom ríkit í bræðraskipti, svo sem fyrr er ritað.

1) [ ] vantar í B. 2) B. Sviðjóð. 3) A. svinnum. 4) A. merki. 5) A. occasum. 6) B. hefði. 7) [ ] B. om. 8) [ ] A. om.

Eptir þat dreifðist ríkit ok konúngsdómr í ætt, svo sem þær greindust, en[1] sumir konúngar ruddu marklönd stór ok bygðu þar, ok juku þannig ríki sitt". Væri það engin nýúng, ef svo[2] hefði þar af aldöðli venja verið, svo að þessi einn athugi niðurbrýtur sviðu gjörvalla frá þjóðarinnar nafns uppruna.

§ 18.

Og enn vil eg spyrja, hvar af Svíþjóð hin mikla og kalda Svíþjóð, það er alt Garðaríki suður og norður, skyldi sitt nafn hafa? Mundu þar og alstaðar skógar hafa af brendir verið fyrir bygðum? Fjærri fer eg trúi því, og allra sízt vottalaust.

§ 19.

Hitt er miklu sannara, að Óðinn, sem úr Tyrklandi flúði fyrir óförum, er spádómar hans höfðu vitrað honum að yfir *Schythas* mundi falla, diktaði fyrir fáfróðum mönnum hèr á norðurlöndum, að þar suður og austur væri Ásgarður hinn forni, og ríki þeirra guðanna, sem Edda segir að Óðinn Friðleifsson kendi Gylfa[3] konúngi, og því var eigi að furða, þótt hann lèti þær þjóðir heita vitugar og veglátar þjóðir af Sviðrir, nafni Óðins Börssonar.

§ 20.

Sama er til þess orsök, að Svíþjóð hina miklu kallaði Óðinn Friðleifsson öðru nafni Goðheima, af þeim gömlu guðunum; en Svíþjóð, sem af honum sjálfum fèkk nafnið, kallaði hann og þeir Æsir, er honum híngað[4] fylgdu, öðru nafni Mannheima, sem hvorttveggja kennir Snorri Sturluson, bæði í sinni ágætu historíu um Óðinn, og í Eddu, og þó allra ljósast, er bæði þau hans merkilegu *opera* verða samanborin.

§ 21.

Og að öllum þessum rökum er og reynist merkíng nafnsins þessa konúngsríkis Svíþjóð[5]: vitug þjóð, veglát þjóð og vísdóms[6] - lýður. Svo vildi Sviðrir, *id est*[7] Óðinn, sína þjóð til heiðurs sèr og henni kalla láta; *cfr.* Snorra Sturluson *in* „Sveigðir". Millum hans og þeirra stunda, sem ríkið kom í bræðraskipti, þeirra sem að merkur ruddu fyrir bygðum, telur

---

1) A. þá. 2) A. sú. 3) B. Gylfir. 4) A. seinast. 6) B. þessa konúngsríkis nafnsins Svíþjóð (þýðíng). 6) B. velsiðaður. 7) A. og.

Snorri Sturluson sjö konúnga. Þá fór Sveigðir í Tyrkland, og til Svíþjóðar hinnar miklu, að leita Goðheima, og kom heim aptur og til Svíþjóðar (ɔ: Mannheima) eptir fimm ára dvöl í miklu Svíþjóð, og hafði þar fundið marga frændur sína, en Ásgarð hinn forna fann hann ei nè Goðheima. Hèr sjáum vèr Svíþjóð hina miklu og Svíþjóð hina nýu, sem Óðinn Friðleifsson hafði nafngipt, og sjö konúngatíðir þaðan frá, áður getið sè skóga ruðnínga nè brennu fyrir bygðasetníng eður bygðarauka meðal Svíanna.

# T.

## Tjaldan á skipum[1]

er altídt í sögunum; uppi hèldu þessum tjöldum tjaldásar eptir endilaungum skipunum, og skapar það hugur minn, að tjaldása-endarnir hafi festir verið, annar á brandinum fram á skipinu, en annar við mastrið, sem þá hèt sigla. Voru brandarnir stengur upp af skipsstöfnunum, sem ljóst er af Sverrissögu. En með endilaungum borðunum voru tjöldin fest á milli tilgjörðra fellínga, svo að smá-ásar, sem sköpt, fèllu inn í greypíngar þar til gjörðar innan við borðstokkana; urðu svo tjaldskarirnar í þessum greypíngum fastar, og voru þær greypíngar kallaðar **klofar**; *vide* Ólafs Tryggvasonar sögu, *lib.* 2.: „Þorsteinn uxafótr finnr hurðu; hún var greypt í stokk, ok hnigin ei alt í klofa"; *confer* sögu Hrólfs Gautrekssonar, kap. 30.: „Rak hann hurðina í klofa ok mælti: Nú veit ek, at þit komizt ei á brott". Báðar segja sögurnar: „í klofa", það er greypíngin, sem Ólafssaga greinir; sýna báðar, að þá var aptur lokað, er hurðin var rekin eður hnigin í klofa, en þá er opið hús, er hurðin er hnigin í gátt, sem vottar sagan af Án bogsveigi, kap. 5. Egils saga Skallagrímssonar: „Kvöldúlfr bað menn gánga hit ytra með borðunum ok höggva tjöldin úr klofum", það er, að höggva sundur smá-ásana, sem tjöldunum hèldu föstum með borðunum og fèllu inn í þær tilgjörðu greypíngar. *Ex.* Farml., kap. 23.

---

1) Þessa þýðíng vantar í B, C.

# Tíund, Tíundargjöf.

Framfb. 9., 12.

Erfðat. 28.: *Hverr maðr má gefa fjórðúngsgjöf af fè því öllu, sem honum hefir aflazt, etc.; en tíundargjöf af svo miklu fè, sem hann hefir at erfðum tekit, bæði í landi ok lausum eyri, etc.; en af fjórðúngsgjöf eðr tíundargjöf skal þat fyrst taka, er maðr gefr guði fyrir sálu sinni.*

Þessi bókarinnar orð eru svo ljós, að engan get eg í þeim vafa sèð, ef menn ekki gjöra leik til, að dikta hann, og hefir það eigi vantað. Engan veit eg þann, sem efað hefir, að fjórðúngsgjöf væri fjórði partur[1] af því fè, sem manni hefir aflazt, og eins ætla eg, að allir, sem eigi eru rángsleitnir, muni sjá þreifanlegt, að tíundargjöf sè tíunda hvert hundrað eða tíundi hluti[2] af erfðagózi. Hitt er fyrir mèr furðanlegt, að nokkur maður hafi tekið á sig þá djörfúng, að dæma það tíundargjöf skyldi vera fimta hvert hundrað af því fè, sem maður hefir að erfðum fengið, og aldrei gat[3] eg í mínum skilníngi fundið átyllu til, að uppgötva, hvað slíkir dómendur hafa mátt ætla sèr til grundvallar um þetta fimta hvert hundrað eður fimtúng eigu manns í tíundargjafar-nafni, fyr en Sigurður lögmaður Björnsson kendi mèr (en ekki svo sem þeim samþykkjandi, það eg eptir tók), að ástæða þeirra væri [það[4]], að af 5 hndr. gjörðist skiptitíund, og því skyldi tíundargjöf heita fimta hvert hundrað. Kom mèr í stans þvílík hræðileg ofdirfð manna og meir en grundvallarlaus rángsleitni, og sè eg ei nauðsyn, að skrifa fleira mót heimsku þeirri svo blygðunarlausri. Hitt er nær og[5] miklu nauðsynlegra, að gjöra grein á, hverr að sè [rèttur[6]] grundvöllur tíundar vorrar, samt og, hvað og hversu menn skuli fè til tíundar virða. Eg vil hèr gánga þurrum fótum fram hjá uppruna tíundarinnar, sem kenna Mósislög, [og jafnvel hjá annara þjóða tíund[7]], alt þar til eg hefi sýnt form og máta vorrar tíundar, sem þó er hinum samkvæm í því, að tíund skuli vera tíundi hluti ávaxtanna af höfuðstóli[8] hvers þess manns, sem á 10 aura skuldlausa, þá sem hann hefir ávöxt af; því aldrei til ætlar vor tíund, að höfuðstólinn skuli skerða með tíundarútlátunum; það er af því þreifanlegt, að nafnið

1) B. hlutur. 2) B. hlutur. 3) B. get. 4) [ ] vantar í B. 5) B. mèr lög. 6) [ ] vantar í B. 7) [ ] vantar í B. 8) A. höfuðsummu.

sjálft kallar þetta tíund eða tíunda hlut. Nú væru það 12 álnir af hundraðs höfuðstól, 6 álnir af 60 álnum eður 10 aurum, 1 hndr. af 10 hndr., 2 hndr. af 20 hndr., og svo framvegis; ef af ávaxtarlausum höfuðstól skyldi tíund gjalda, fylgdi það eptir, að ár eptir ár skyldu menn ávalt aptur færa tíund sína um jafnmikið, sem af höfuðstólnum var goldið í umliðins árs tíund, þángað til maður yrði fèlaus á fáum árum, og má það enginn ætla landsmönnum vorum hinum gömlu, að þeir hafi svo dárlegir verið, þegar tíundin var hèr stiptuð fyrst, að fortölum Gizurar biskups, sem vottar Kristindómssaga, kap. 12., og *Schedæ* Ara fróða, *pag.* 4. Hitt játuðu þeir, að gjalda tíund af öllu því, sem leiga eður eigið gagn eður ávextir gengi af, eins og mælir stiptan tíundarinnar í statútu þeirri, sem *anno* 1096 gjörði Gizur biskup með allra beztu og vitrustu landsins formanna ráði, að „hverr sem varðveitir ómagafè, þat sem hann, er varðveitir, tekr ávöxtu af, þá skal hann þann hluta ávaxtarins tíunda, sem undir hann berr". „Tíunda", segir hann, ɔ: tíunda hluta af honum útsvara, en ekki skerða innstæðu[1] eða höfuðstólinn. Eins mælir hún [um[2]]: „Ef vöxtu berr undir mann af þess manns fè, er útlendr er, þá skal hann þat fè svo tíunda, sem vöxtu b e r i[3] undir hann af ómaga-eyri". Hèr sjá allir heilskygnir [menn[4]], að af ávöxtunum skuli lúka hinn tíunda hlut, en ekki af því, sem ávaxtarlaust er, og var það strax sýnt, hvað órímilegt, fráleitt og skynsemdarlaust það væri, ef annara[5] ávaxtarlaust fè skyldi tíundast, því það upp æti strax [allan[6]] höfuðstólinn, svo sem nú var sýnt. Sjá allir skynsamir menn þessa máls þreifanleg rök, en þ ó[7] verð eg að geta þrálætis þeirra, sem fyrir íhugunarleysi[8] standa upp á annaðhvort ógrundvallaða venju um þriðja hvert hundrað í dauðum aurum, eður orð statútunnar rángfærð frá hennar ásetníngi. Vil eg venjunni síðar svara, en nú orðum grundvallarins. Þau mæla svo: „Menn skulu tíunda fè sitt alt lögtíund", *et mox,* „fyrir utan hvers dags búníng skuldlaust". Eg segi það alt sitt fè, sem honum er svo gagnlegt, sem hvers dags búníngur; af honum hefir hann hvern dag gagn, og er hann því til samjöfnunar tekinn, að hitt alt, sem daglega[9] ɔ: með degi laungum árið um kríng, gefur

1) B. innstæðueyri. 2) [ ] vantar í A. 3) A. ber. 4) [ ] vantar í B. 5) B. að meina, að. 6) [ ] vantar í A. 7) B. þá. 8) B. athugunarleysi. 9) A. daglegast.

ávöxtu, skal tíunda, að klæðunum[1] einum fráskildum, því maður kann ekki hinna ávaxtanna að njóta nè þá[2] hirða, nema klæddur sè; og gengur klæðaslitið til að ná ávöxtunum, því er það alleina frígefið af öllum gagnsmunum eigunnar, og skýrir[3] svo berlega, að gagnið og ávöxturinn er það, sem tíunda skal; en hitt, sem engan ávöxt færir og enga gagnsemd um árið, er hèr alls ekki til tíundar skipað. Það væri og *alogon* (skynsemdarlaust), að heimta tíunda hlut ávaxta af því, sem engan ávöxt gefur, og áður hefi eg[4] sýnt, að eigi getur það tíundast, nema höfuðstóllinn upp etist, sem aldrei er skipað. Hvaðan mundi ómagafè og þess manns fè, sem utanlands er, hafa þau *privilegia,* að ávöxtinn alleina[5] af þeirra fè skal tíunda, ef að eg skal [minn[6]] ávaxtarlausan höfuðstól tíunda? Skoði menn þessi *absurda;* að lögmálið skyldi svo misjafna þvílíkt í sama landinu. Og svo allir skuli þreifa á, að aldeilis með sama móti á maður að tíunda sitt eigið fè, eins og ómagafèð, *nimirum* ávextina alleina, þá stendur það hèr *specialiter* tilgreint: „Skal hann þann hluta ávaxtarins tíunda, er undir hann berr, svo sem þat fè, er hann átti áðr“. Nú bið eg menn hugleiði, hvað lögmálið segir um innstæðu-eyri, að hann er full 5 hndr. í því fè, sem maður má vöxtu og nytsemd af hafa, Erfðat. 21., og gætum undir eins Erfðat. 22., hversu þurðar innstæðu-eyrir, ef eigi verða fjármunir þeir, sem vöxtu og nytsemd má af hafa, [full 5 hndr.; hugleiðum þar næst, að af innstæðu-eyri 5 hndr., sem maður má vöxtu og nytsemd af hafa[7]], skulu gánga 10 aurar í árlega leigu, Erfðat. 22. Berum þetta[8] saman við Kaupab. 15. Hann segir, at 12 álnum vaðmáls (þeirra tíða, er hver alin vaðmáls gilti eina alin eptir Kaupab. 5.) skuli leysa 2 fjórðúnga smjörs, eður 4 lambafóður, og það sè málnytu-kúgyldis leiga, [ei skuli hærri leigu taka[9]], eins sè rètt, að byggja geldfjár-kúgyldi 12 álnum. Þótt nú *pars adversa* vildi segja, að þessi lög Magnúsar konúngs lagabætis, híngað komin í landið 1280, sèu 184 árum ýngri en statútan um tíundargjaldið, gjörð, sem áður segir, *anno* 1096, og kunni því ekki tíundargjörðin að vera *funderuð* í optnefndri 12 álna leigu, eður ávöxtum af hundraði hverju, sem eg stend upp á, þá bið eg þeir góðu menn lesi Grágásar Llb. 1. Þar stendur með ljósum orðum: „Maðr skal eigi selja fè sitt dýrra á leigu, en 10

1) B. klæðum. 2) A. þau. 3) B. sýnir. 4) B. add. það. 5) A. allan. 6) [ ] vantar í B. 7) [ ] vantar í B. 8) B. ber nú. 9) [ ] vantar í A.

aurar sè leigðir eyri til jafnlengdar". Nú er það kunnugt, að Grágás var þá lög hèr á landi, er statútan gjörðist, og því segi eg vafalaust, að upp á slíka 12 álna leigu af hundraði hverju sè tíundargjörðin *funderuð*[1], og það meira er, að úr þessum áður *citeraða* Grágásar kapítula hafi þeir, sem eptir skipan Magnúsar konúngs lagabætis gjörðu Jónsbók, innfært margnefnda 12 álna leigu af hundraði í vors Kaupab. 15., sem þar af er sýnilegt, að kúgylda-leigan er eigi *defineruð* í þeim norsku Frostuþíngs, Gulaþíngs og Heiðsævis lögum Magnúsar konúngs lagabætis, þar sem talar um leigufè í þeirra Kaupab. 14.; og að slíkum rökum, sem nú eru sögð, þreifum vèr á 12 álna leigu eptir hvert hundrað. Leggjum þau 5 saman, þá fáum vèr leiguna, 5 $\times$ 12 álnir, það eru 60 álnir, það köllum vèr 10 aura; þá eru þeir nú til af 5 hundraða innstæðu-eyri, sem hinn úngi maður skal eiga, svo fè hans þurði[2] hvergi. Gjörum nú tíund af 5 hundruðum; hana skipa lögin einn eyri, það er sá tíundi eyrir, sem gelzt í leiguna af 5 hndr., þegar hvert þeirra er leigt 12 álnum, sem strax var sýnt; gaungum síðan beinleiðis fram að allri tíundargjörð, og skiptum þaðan í frá, og skulum vèr þreifa á, að eptir slíkri *proportion* (það er jöfnunar og misjöfnunar niðurraðan og skamti) gángi öll tíundar-útsvörun, að mönnum sè ætlaðir 12 álna gagnsmunir [á 12 mánuðum af hundraði hverju, því sem til tíundar skuli teljast. Eg segi 12 álna gagnsmunir[3]], því að, hvort eg eldi sjálfur eldsgögn mín, eður eg leigi þau öðrum, þá upp ber eg gagn þeirra. Sama er [að segja[4]] um búsgögn, kistur, smíðatól, amboð, og alt það af þessu, sem eg hefi 12 álna gagn af á ári, er eg skyldugur að tíunda og leggja saman, þángað til að eg hefi[5] mitt gagn, fulla 2 aura, áður eg telji þessa dauðu hluti til tíundarvirðs[6] hundraðs. Held eg þá í mínum sjóði 9 aurum gagnsins af slíkum 5 hundruðum, en geld hinn tíunda eyri gagnsmunanna í tíundina, svo sem áður er *demonstrerað*. Þèr viljið segja: *Per has tuas*[7] *theses* skal hvert málnytu-kúgyldi tíundast[8] fyrir 1 hndr. og $\frac{2}{3}$ annars hundraðs, því að af því gengur 20 álna leiga. *Respondeo* af Kaupabálks 15.: 2 fjórðúngar smjörs giltu þá 2 aura, og 4 lambafóður í sama máta 2 aura; *adeoque* á það eins í dag að virðast í *respectu* tíundanna, svo sem það gilti, þá tíundanna *fun-*

1) A. formeruð. 2) B. þurfi. 3) [ ] vantar í B. 4) [ ] vantar í B. 5) B. add. í. 6) B. tíundarvirðts. 7) B. duas has. 8) A. tíundað.

*datia* gjörðist. Lítum nú með g æ t n u m[1] augum, reiðilaust og óvildarlaust, til þessa grundvallar, sem eg hefi sýnt, og uppástend að verið hafi g r u n d v ö l l u r[2] fornaldarmanna, þá sjáum vèr, að ketillinn, sem eg byggi fyrir eyri, og stórkeraldið, sem eg byggi fyrir annan eyri, verða bæði samanlögð 1 hndr. til tíundar; og sá minn ketill, sem eg elda sjálfur, og stórkeraldið, sem matseljan á mínu b ú i[3] hefir til að hirða í matinn, hvorttveggja á sama vexti, sem það, er eg bygði öðrum, gjöra annað tíundar-hundraðið. Af 10 rbd., sem á rentu standa, fær eigandinn hálfan ríkisdal á ári, það eru 2 aurar eptir taxtanum, og því eru [þeir[4]] 10 rbd. 1 hundrað tíundarvirt. Sá, sem nú á ketil í búi sínu, þann er hann fær ei á leigu bygt óhættum s k u l d u n a u t[5], og sè þó hundraðs-v i r ð i[6] eptir taxta konúngsins, og stórkeràld með sama móti, og 10 rbd., sem enginn vill upp á rentu taka, s á s e m e i g a n d a[7] sè óhættur skuldunautur, hverr er maður svo ágjarn, að hann dirfist, að heimta tíund af þessu þrennu? Það er þó 4½ hundrað á landsvísu. Mèr verður svarað: Það skal fella til þriðjúnga, og telja 2 hndr.[8] til tíundar. *Ponamus: ergo* eru það 30 aurar, þar af er tíundi hlutinn 3 aurar, ɔ: 18 álnir, og svo mikið skerðir nú höfuðstólinn, það er innstæðueyrinn, árið fyrsta; annað árið er nú ekki fult 2 hundruð; þá eru eptir einir 27 aurar til að tíunda. Nú finnst aldrei í tíundanna *fundatiu* púnktur nè pryk, sem skipi tíund af minna fè en 10 aurum, og því verða nú undan að falla þeir stöku 7 aurar; verður svo árið annað ekki nema 1 hndr. til tíundar. Tökum af þeim 20 aurum tíunda hlut, það eru 2 aurar, þá eru eptir 18 aurar, og að sömu rökum, sem strax[9] var sagt, eigi skylt, að tíunda nema 10 aura hið þriðja árið. Tökum af þeim tíunda hlut, það er 1 eyrir; nú eru eptir 9 aurar e i n i r eptir yðar *thesi,* og ekki s k y l t[10] að tíunda þá eptir *fundatiunni;* er svo maðurinn, sem af hálfu fimta hundraði, feldu til þriðjúnga, hefir goldið eina 6 aura, eptir yðar *thesibus* samanbornum við *fundatiuna,* á einum þrem árum genginn úr tíund, og enn aptur *per easdem vestras theses* á enn nú meir en fullgilt[11] tíundarhundrað, *nempe* 4 hndr. 24 álnir í ávaxtarlausum dauðum aurum. Þèr viljið segja: Þau 4 hndr. 24 álnir, sem e n n[12] hefir hann

1) B. aðgætnum. 2) B. hugur. 3) B. búri. 4) [ ] vantar í B. 5) A. skuldunautum. 6) A. verður. 7) B. svo sami eigandi. 8) Hálft annað hundrað, alia msca. Máske rèttara 2½ hnd. 9) A. fyrr. 10) A. skyldugt. 11) B. fullgjört. 12) B. nú.

óskert eptir, skuli tíundast fyrir 1 hndr. felt til þriðjúnga, en það eina hundrað 24 álnir, sem þá er afgángs, metist ekki til tíundar, því það vantar 36 álnir upp á þrenna 10 aura[1]. Látum þetta svo. *Ergo* skal hann af einu hundraði ávaxtarlausu tíund gjalda, það eru 2 aurar af 20 aurum, og eru nú eptir af höfuðstólnum 4 hndr. að viðlögðu því eina hundraði, sem áður mátti ekki tíundast. Og enn tíundar [hann[2]] árið þriðja 1 hndr., og verður [enn[3]] tíundin svo sem fyrr 2 aurar af höfuðstólnum. Fer nú [svo[4]] fram eptir *proportion*, að hann tapar árlega 2 aurum af hverju tíundar-hundraði síns ávaxtarlausa höfuðstóls, alt svo lengi hann á 3 hndr. ávaxtarlaus, þau er þèr skipið að fella til þriðjúnga[5] og tíunda fyrir 1 hndr. Hugleiðið nú sjálfir, hvernig þessar yðar *theses* niðurbrjóta sjálfar[6] sig, sem vonlegt er, því að þær eru að mínum skilníngi á engum grundvelli bygðar, svo lángt er frá, að þær standi á laga-grundvelli. Þèr viljið svara: Þetta er meira en tíund, sem lög skipa. Því neita eg berlega, að frá tekinni[7] þeirri, sem að[8] er skiptitíund, því hún er frek í álögunum[9], og þó aldrei jafnfrek[10] sem þessi; en upp frá því skiptitíund nemur, þá er hún *perpetuo* allur tíundi hluti ávaxtanna að reglulegu gagni eður leigu, og aldrei meiri eður minni; *excipe* meiri tíund í Grágás og höfuðtíund Svíanna, *de quibus infra.*

Sèu nú[11] lögtíundir allur tíundi hluti gagns eður ávaxta, svo hlýtur yðar tíund af dauðum aurum gagns- og ávaxtarlausum, til þriðjúnga feldum, *necessario* að vera svo sem nú hefi eg reiknað, annars nær hún með engu móti nokkurstaðar heim undir nokkurt tíundarnafn. Og er svo skattur eður *contributio* af yður *præter legem et contra legem* skipuð grundvallarlaust, og til yfirhylmíngar slíku ránglæti sett á hana tíundarnafn fyrir utan alla röksemd. Þèr viljið segja: Hèr skal tíunda 3 hndr. dauð sem[12] 1 hndr. kvikt. *Quæritur*[13]: Hverr gaf yður lof til þess? Þèr munuð svara[14]: Fornir alþíngis-dómarar. Eg svara: Aldrei fyrr en vèr vorum undir konúnglegt vald fyrir laungu komnir, og höfðu svo lögmenn ekkert vald að dæma nè skipa svoddan hræðileg þýngsli upp

1) B. 10 álna aura. 2) [ ] vantar í B. 3) [ ] vantar í A. 4) [ ] vantar í B. 5) B. þriðjúngs. 6) A. add. sjálfar. 7) B. frá talinni. 8) B. ei. 9) B. frett í lögunum. 10) B. jafnfrett. 11) B. Svo sem nú lögt er. 12) B. eins og. 13) B. Quæro ego. 14) B. viljið segja.

á konúngsins land og þegna, allra sízt að það er með öllu grundvallarlaust og sjálfu sèr ólíkt. Til dæmis: 60 rbd. eru eptir yðar *thesi* 5 hndr. til tíundar, *atqui*, þeir eru[1], ef á lögrentu[2] standa, eptir minni *thesi* 6 hndr.; svo tekur þá yðar *thesis* 2 fiska og $\frac{2}{5}$ fisks árlega frá þeim, er tíund skulu taka.

Þá er um eldsgögn, búsgögn, kistur, amboð og þess konar, sem alt er til gagns haft, [selt[3]], eður á leigu sett[4], yðar *thesis* óþolandi, þeim er tíund eiga[5] að taka, því af 15 hundruðum slíkum gjörið þèr 5 hndr., og dragið svo frá tíundunum 2 aura árlega í svo litilli tíund; þar í mót skipar yðar *thesis* þá ólögmætu tíund af gagnslausum og ávaxtarlausum aurum, *exempli gratia* borðsilfri, kvennsilfri, skipum þeim, sem aldrei koma á sjó fyrir vanefnum eiganda, en enginn vill til leigu taka, eldsgögnum og búsgögnum, og tómum kistum, sem enginn vill leigja. Smiðjur 3 alfærar með smíðatólum öllum, allar í byggíngu, virðir yðar *thesis* 1 hndr. til tíundar, en mín *thesis* 3 hundruð[6]. Hverr hefir nú betur gætt að þeirra hlut, sem tíund eiga að taka? Klæðishempu kvenna með [silfri og svo[7]] niðurhluta þeirra og upphlutspils og forklæði með öllum sínum búníngi virðið þèr til 20 rbd., en koman klæðist þeim þrisvar á ári, og slítur stóru ómaki til að hirða þau; eg met þau alls ekki. Eikarkistu vel umvandaða[8], sem þau geymir, metið bæði þèr og eg 2 hndr., eg til tíundar, en þèr ekki til tíundar nema 10 aurum; eg fyrir það hún hirðir gripi konunnar, og tel það 18 álna gagn í 12 mánuði, þèr fyrir það, að hún er dauður gripur. Hugleiðið nú sjálfir, hverr á fastara gundvelli standi! Aðra jafngóða kistu, þá er stendur tóm í 12 mánuði, virðið þèr eins til tíundar, en eg einskis, því hún er gagnlaus.

Biðja vil eg yður, mínir herrar! þar sem þèr standið svo *rigorose* upp á beran bókstaf statútunnar, segið mèr, hver gaf yður lof til að fella dauða aura til þriðjúnga[9] í tíundargjörðinni? Ekki statútan, ef að þeir gjöra 12 álna gagn á ári. Hverr þá? Alþíngisdómar, munuð þèr segja. *Respondeo:* Þeir höfðu aldrei vald til þess, síðan 1262, að landið kom undir konúng; mundu og aldrei slíkir dómar gjörzt hafa, hefði lögmenn gefið sèr tóm að hugleiða grundvöll tíundarinnar, þann sem eg nú sýnt hefi. Sá loflegi Rafn Oddsson skildi vel það, hann svaraði *Gesandtinum*

1) B. eru þeir. 2) B. lögrèttu. 3) [ ] vantar í B. 4) B. selt. 5) A. om. 6) B. þrem hundruðum. 7) [ ] om. A. 8) A. umvenda. 9) B. þriðjúngs.

Loðni lepp, sem undraðist, að hèr á landi væri [eigi[1]] daudt fè tiundað, og hugði að eins mundi það eiga hèr að tíundast, sem gagnlaust væri; en Rafn vissi það betur og sagði því, að góð[2] væri tíund vor af lögleigu fjár alls[3] eður rentu, eður eigin gagnsmunum árlegum[4], en eigi sú, að tíunda það, sem engin væri gagns [von[5]] af[6]. Sá Rafn og, hvað framandi landa tíundargjörð[7] vildi fátækt þessa lands óbærileg verða, hvar um síðar skal rök[8] sýna. Þótt vèr enn nú skoðum yðar tíundar[9]-reglur, og tökum[10], sem áður [er[11]] sagt, ketilinn, stórkeraldið og 10 rd., sem ekkert fæst á leigu bygt, og það sè nú að yðar vild tíundað, segið þèr fyrir 2 hndr.[12], þá skal tíundin af því vera $3\frac{3}{5}$ fisks. Svo mikið rýrnar þá höfuðstóllinn, og fer nú [svo[13]] fram í 10 samfeld ár; þá hefir hann goldið 36 fiska, það er 18 álnir af $2\frac{1}{2}$ hndr.[14], sem hann hefir ekkert af haft nema mæðuna, að varðveita það, og leigja húsið fyrir ketilinn og keraldið, þó hann beri jafnan á sèr peníngana. Og látum húsaleiguna ekki stíga meira en 2 álnir á 10 árum[15], þá á hann nú eptir 1 hndr. 40 álnir til tíundar að þeirra dómi, og er nú tíundin *formeruð* á saman hátt, sem um skiptitíund er rètt að mæla. Nú viljum vèr skoða þetta $2\frac{1}{2}$ hndr. eptir því tíundarformi, sem er fyrir innan[16] skiptitíund, þá verður hann búinn að eyða 30 álnum höfuðstólsins á 10 árum. Hvernin er[17] nú [þessi[18]] yðar tíundargjörð komin að[19] tíundarnafninu? Tíund ávaxtanna er það engan veginn, því þeir eru engir; tíund höfuðstólsins er það engan veginn, því hún væri miklu meiri. Af hverju er það þá tíund? Af alls engum hlut, sem til er millum himins og jarðar, er það tiundi[20] hluti. Það er að mínum þánka yðar *extraordinaire* skipan, að hverr, sem á $4\frac{1}{2}$ hndr. ávaxtarlaust, skuli vera skyldugur að tapa 20 álnum á 10 árum, ella vera sekur 12 mörkum á hinu fyrsta árinu, svo sem fyrir tíundarhald; en þær 12 merkur eru 4 hndr. 96. álnir[21], svo nú vinnst ekki sjálfur höfuðstóllinn til sektarinnar, *adeoque* er maðurinn alls fèlaus orðinn á einu ári, fyrir það hann ekki vildi tapa 20 álnum á 10 árum, eður, svo framt þèr viljið tíund rèttu nafni nefna eptir minni *demonstrata thesi,* fyrir það hann ekki

1) [ ] vantar í B. 2) B. gáð. 3) B. fjárhalds. 4) B. árlega. 5) [ ] om. B. 6) B. að. 7) B. tíundargjöf. 8) B. add. á. 9) B. thesis. 10) B. add. það. 11) [ ] vantar í B. 12) $2\frac{1}{4}$ hndr. alia mss. 13) [ ] om. A. 14) B. et alia mss. 2 hndr. 15) B. aurum. 16) B. mann. 17) B. add. þá. 18) [ ] om. B. 19) B. af. 20) A. tiundar. 21) A. 16 álnir.

vildi tapa 2 aurum árlega af hverjum 3 hndr. síns ávaxtarlausa höfuðstóls. Þèr viljið svara: Aldrei fellur meir, en ótíundað er. *Regero*[1]*: atqui* hèr er ótíundað hálft fimta hundrað, en sektin er á tíundarhaldinu 4 hndr. 96 álnir[2], sem strax var sagt. *Ergo* er forbrotið alt það ótíundaða, 4 hndr. 60 álnir, og er hann nú heppinn, að þeir ekki krefja af honum þeirra 36 álna, sem sektin var meiri en allur höfuðstóllinn. Gjörið nú góðgjarnlega, og hugleiðið reiðilaust, hvert að stefna þessar götur yðar *theseos*. Ef þèr segið: Það var ekki nema hálft annað hundrað, sem ótíundað var, og því skal ekki taka meira en hálft annað hundrað upp í tíundarhaldssektina[3], þá svara eg: Þetta er stór góðgirnd yðar. En eg, sem tíundina á að heimta, svara því, sem satt er, að það, sem nú kallið þèr hálft annað hundrað, vitið þèr sjálfir að var hálft fimta hundrað í ávaxtarlausum dauðum aurum, og það alt er ótíundað; því er það alt forbrotið upp í 12 marka sektina.

Hvað er [nú[4]] undanfæri *absurdissimæ theseos vestræ?* Bið eg, að þèr, heilögu menn! leiðrèttið mig með hógværum anda, ef þèr finnið rök til, að eg fari vilt; en ef eg sýni yður sannleikann þessa máls, hvar fyrir látið þèr yður [þá[5]] mislíka? Mun yður þykja þetta þrástagað, og skal því ekki lengur [hèr um[6]] við yður *disputera,* fyrr en eg hefi fengið yðar andsvör, þau er þessar mínar *theses convellera.* En sjálfum yður vísa eg til að lesa annara landa tíundarreglur, og sèrdeilis NL. 2., 22., 1., 2., 3., og DL. 2., 23., 1. *et* 2., og hugleiðið undir eins kvikfè og fiskirí vort af sjó og ferskum vötnum, eggver vor og fuglaveiði, dúntekjur og skipaleigur; þá veit eg, að þèr allir eruð svo skygnir, að þèr sjáið, hvað fátækt þessa lands mundi þúngt verða, að þola þá tíundargjörð, sem áður greind dönsku og norsku lög befala. Eg vil ekki tala um þá skelfilegu tíund, sem Jón erkibiskup skildi sèr í þeirri sáttargjörð, sem á millum Magnúsar konúngs lagabætis [og áður nefnds erkibiskups[7]] gjörðist ár 1277 á Lárenzíusmessu í Túnsbergi. Hún ætla eg kosta mundi margra fátækra manna líf, ef að hún skyldi við gángast á þessu vesala landi, sem guð láti ekki ske! Og þó hefir ekki sú guðlausa ágirnd Jóns erkibiskups skilið sèr tíund af því dauða fè, sem ekkert er gagn af nè ávextir. Eg vil og þegja um Svíanna tíundargjörð; hún kemur

1) A. Negero. 2) A. 16 álnir. 3) B. sekt. 4) [ ] om. A. 5) [ ] om. A. 6) [ ] om. A. 7) [ ] omitt B.

oss ekki við, sem betur er, en geta mun eg hennar að nokkru strax hèr eptir; og er eg þar um óefaður, að þèr, guðs[1] vinir! rennið svo vídt auga til þess, er nú hefi eg við yður talað, að þèr hyggið vel fyrir, að ekki verði stiptuð hjá oss strángari tíundargjörð, en híngað til verið hefir. Sjái miskun drottins fyrir voru ráði[2].

[3]Þessu næst er að tala um meiri tíund. Það kemur mèr helzt til að nefna meiri tíund, sem Grágás talar um hafi verið allur tíundi hluti lausafjár eigu manns, að Magnús konúngur setti það í lög, að menn skyldu mega gefa tíundargjöf úr öllu lausagózi, og af þeirri tíundargjöf skyldi fyrst lúka sálugjafir, svo það alt gengi til veraldlegra auðæfa, þeim er maður gefa vildi, sem af þeirri tíundargjöf yrði um fram sálugjafirnar. Leiði eg það til líkinda þessu, sem Grágás mælir í Festarþætti, kap. 55.: „Skal biskup hafa fjórðúng, sá er yfir fjórðúngi er, en annan fjórðúng tíundar skal gjalda til Þíngvallar; síðan skal sá, er gjalda á, ráða fyrir þeim tveim fjórðúngum tíundar við ráð hans, er þá eru eptir. En ef maðr gjörir ei tíund ena meiri, þá ver þat fjörbaugsgarð". Nú sjá menn hèr af, að í Grágás er það skyldugt, að gjöra þessa meiri tíund eitt sinn á æfi sinni, sem ljósara verður af Erfðaþ. 11.: „Tíunda á maðr fè sitt til sálubóta sèr, ef hann vill. Eigi á hann optar at tíunda hinni meiri tíund fè sitt, en um sinn, fyrir ráð skaparfa síns. Nú berr fè undir þann mann síðar, eðr vex honum fè, þá á hann at tíunda, sem hann gjöri hina meiri tíund um sinn af öllum aurum sínum, þeim sem á. Ef maðr gjörir ei ena meiri tíund af fè sínu, þá á hann at gefa sálugjafir, jamnmikla aura, sem hann hefði tíundat alt fè sitt um sinn enni meiri tíund. En þat eru sálugjafir, ef maðr gefr þeim mönnum, er eigi eigu at gegna þíngfararkaupi, ok þurfa fè sitt eðr verk til ómagabjargar at hafa". Eg segi hèr af sjáist, að þessi tíund sè skylduverk; en í lögum Magnúsar konúngs er það leyft verk, en eigi skyldað. Mèr sýnist og, sem Grágás tali þetta alleina um lausafè, því bera skal hundrað í lögrèttu og fjórðúng einn til Þíngvalla á móts við þann, sem biskup tekur. Og á lausafè alleitt er höfuðtíund skilin, bæði í Vestgotalögum og Brynjólfs biskups statútu. Sè eg, að mèr verður svarað, að lögtíundin gjaldist hèr bæði af landi og lausum eyri. *Respondeo:*

1) A. góðir. 2) A. landi. 3) það, sem eptir er af ritgjörð þessari vantar í B.

*Respectu* til rentunnar en ei höfuðstólsins. *Iterum objicitur:* Magnús konúngur leyfir að gefa fast og laust. *Respondeo:* Leyfir víst, en skipar ei; þar er og hvorki skilið biskupi nè konúngi, svo sem í Grágás *reipublicæ,* fjórðúngur til Þíngvallar. Það er og hèr þýngra, að með ráði biskups skal gefandi lúka tveim fjórðúngunum, en í lögunum ná hèr ekki biskups umráð til. Það er og merkilegt, er hèr stendur í Grágás, að „hann skal af öllum aurum sínum gefa ena meiri tíund", og enn stendur hèr, að „hann á at gefa sálugjafir, jamnmarga aura". Í þessum hvorumtveggja stað merkir *vox* „aura" lausafè alleina, en ei fastar eigur; *vide nostrum* „Eyrir", þar sem það er *contradistinctum* frá föstum eignum. *Objicitur:* Því munu það eigi fastar eignir og svo verið hafa, eður hvernig mundi annars slíkt jarðagóz komið undir stólana? *Respondeo:* Þeim er vel fyrir sèð með Framf.b. 8., og komu mest fastar eignir undir þá fyrir blóðskammir og bannsetníngar og *confiskationir* í sektagjöldum, og það æ því meir, sem á leið, inn til *Reformationem.* Og enn svara eg hèr til, að ef þessi meiri tíund skyldi verið hafa af föstum eignum, þá hefði á hundrað árum allur fjórðúngur lands undir stólana komið. Og enn þá: Ef það var af fasta-eign, hvað gjörðist þá af þeim fjórðúngi, sem til Þíngvallar skyldi gjaldast? Að öllu þessu hugleiddu sýnist mèr líkara, þessi meiri tíund hafi verið af höfuðstól lausafjárins öllum, hverr tíundi peníngur; og enn er það til líkinda, að hundrað skyldi í lögrèttu bera, og það kallast 5 aurar af hverjum fjórðúngi tíundar; og það enn, að svo mikið sem lögtíund nemur, kvittast af hinni meiri tíund, sem alt sýnir Grágás í Festarþætti 55.: „Þar er menn skulu gjöra tíund ena meiri af fè sínu fyrir ráðahagssakir, þá skal af því tíundarfè bera í lögrèttu hundrað álna, ok er þá sem 5 aurar gjaldist af hverjum fjórðúngi tíundar; því maðr skal ok gjalda lögtíund hvert ár af fè sínu, jamvel þá sem áðr, þótt hann gjöri ena meiri tíund. En þat vár, er hefr gjald ennar meiri tíundar, skal niðr falla jammikit af hverjum fjórðúngi þeirrar tíundar, sem maðr geldr í fjórðúng lögtíundar. En af því tíundarfè, er þá verðr eptir, skal biskup hafa fjórðúng, sá er yfir fjórðúngi er; en annan fjórðúng tíundar skal gjalda til Þíngvallar. Síðan skal sá, er gjalda á, ráða fyrir þeim tveim fjórðúngum tíundar við ráð biskups, er þá eru eptir. En ef maðr gjörir ei tíund ena meiri, þá verr fjörbaugsgarð". Alt þetta er um lausa-

fè skilið og skipað, en ei um fastar eignir. Að síðustu gæti það varla verið, að aldrei hefðu biskupar, svo ágjarn flokkur, átt við einhverja landsmenn vora deilur um hina meiri tíund, skyldi hún af fasta-eign gengið hafa, og einhvers staðar yrði þess að geta, hvað gjört hefði verið af þeim föstum eignum, sem til Þíngvallar skyldi bera, ef sá fjórðúngur hefði verið fastagóz. Til dæmis af þeim, sem átti eitt hundrað hundraða, komu strax 3 hndr. í hvern hluta tíundar, og hefði það orðið að draga saman um síðir. Eður hvar eru þau 24 hndr., er Snorri Sturluson átti, er hann galt 8 hndr. í tíund ena meiri til Þíngvallar? Það verður enn stórt spursmál, að þótt menn setji það víst, að þessi höfuðtíund eða meiri tíund hafi verið alleina tíundi hverr penníngur af lausafjár-höfuðstól manna, hvað þá varð af þeim fjórðúngi, sem til Þíngvallar var goldinn, *id est: qui publico datus est,* hvort hann hafi lagður verið til klaustra eður kirkna, eður hvað af honum gjört; því *opera publica* hafa hèr á landi aldrei verið nema brúrnar á Jökulsá austur tvær, önnur hjá Brú á Jökuldal, önnur þar, sem nú er; þriðja brúin á Hvítá í Borgarfirði, sem getur í Sturlúngu, þar sem Kolbeinn úngi og Gizur Þorvaldsson sviku þá Sturlu Þórðarson og Úrækju. Þó sýnist mèr, að sú brú hafi af verið, þegar Hinrik biskup reið til Hellufundarins á móts við Hrafn og Sturlu, *lib.* 6., *cap.* 16. Fjórða brúin sýnist verið hafa yfir sogið í Grafníngi, þar sem nú eru bæanöfnin Efribrú og Neðribrú í Grímsnesi. Brúr hafa og miklar verið í nokkrum stöðum í Helgafellssveit heim til klaustursins, og nokkrar til enn í Flóanum, þó mèr þyki líkast, að brúrnar í Helgafellssveit og Flóa hafi gjörzt af þeirra sveita mönnum alleinum, en ekki *publico,* nema vilji menn *statuera* þær hafi í fyrstu gjörðar verið *sumtu publico,* en þeim síðar við haldið af sveitunum sjálfum.

Þriðja grein er um Svíanna höfuð-tíund.

Svo mæla Wästgothalaghen, Kyrkjubalk, kap. 28., § 2.: „En hvor, som ärwer Fadher älla Modher lösa penninga, hvad thet är hälder Madher älla Kona, maganda Madher älla owormagi, tha skal han gjalda Howud-tiunda innan trittiunda Dagha epter Fadher älla Modher Döderdagh af them penningum, som han hafver, epter them och öngum öðrum. § 4.: Aff them öllum lösum penningum skal Howudtiunda göra, utan aff

Korni, forethy ther tiundas hvart år aff". Hèr af má sjá, að hverr tíundi peníngur eigi í þessa höfuðtíund að gánga, eins og tíunda hvert skeppi af korninu, er bar að gánga; en þó sýnist mèr það muni vera eiga hverr tíundi peníngur rentunnar alleina, en eigi höfuðstólsins, svo sem öll eiga mannsins stæði í peníngum upp á rentu *12 pro cento, centum* tólfrædt, eins og þá gekk víðast í Noregi. Og aptur færir mig upp á þessa þánka það, sem eptir fylgir í sama kapítula Vestgotalaganna. En þótt þessi glósa sýnist aptur niðurbrotna, þegar hugleidt er, að Svíanna árleg tíund gengur eigi alleina af korni og jarðarávöxtum, heldur og af öllum kvikum skepnum, fiski, gæsum, hænum, kiði, lambi, kálfi, fugli, þótt hana taki prestur einn af því kvika; *vide* Landslagh, Kb. kap. 7., Wästgothalagh, Kyrkeb. kap. 14.; hvernig kemur þá til, að korn eitt er hèr *exciperað?* Orsökin er, að höfuðtíundin meinar dauða aura alleina og tíund af þeirra rentu, sem aldrei gjörist þar ella. Nú er kornið og allur jarðarávöxtur dauðir aurar, og því er það frá höfuðtíundinni frá skilið, að það er búið að tíunda árlega. Wästgothalagh, Kyrkeb. 28., § 9.: „Ärwa Börn epter Fadher älla Modher til fulla sex marker, tha skal hwart thera göra hina thritigu pänninga; ärwa the minnna, än til sex markir, gjaldi allena thritigu pänninga, hvat the äro hälder flere älla färre". Ef að þessir 30 peníngar skulu hèr reiknast eins og þeir eru reiknaðir í Vestgotalögum þessum í þíngmálabálkinum, í 15. kapítula, þá eru það $7\frac{1}{2}$ fiskur höfuðtíund af 2 hundruðum og 8 aurum; ber þessari höfuð tíund nærri saman við statútu Gizurar biskups 1096, á meðan hún var ekki skiptitíund. Þar segir: „Sá, er á 40 (6 álna aura), skal 3 álnir", það eru 6 fiskar; en áður hefir sama statúta skipað, að sá, sem á 10 aura, skal gefa alin. Nú skipar þessi af 8 aurum hálfan annan fisk. Þótt eg gángi nú sem næst, að koma þeim saman, þar sem eg skipti svo í sundur 6 mörkunum; þetta skal verða ljósara:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| af 10 | aurum | 1 alin | $\frac{1}{5}$ | ávaxtanna; |
| - 20 | — | 2 álnir | $\frac{1}{6}$ | —— |
| - 40 | — | 3 — | $\frac{1}{8}$ | —— |
| - 60 | — | 4 — | $\frac{1}{8}$ | —— |
| - 80 | — | 5 — | $\frac{1}{5}$ | —— og vantar einn fimtúng; |
| - 100 | — | 6 — | $\frac{1}{10}$ | ——. |

Hèr hið fyrsta nær tíundarnafnið heim með rèttu, svo að þess-

ar 6 álnir eru tíundi hlutur ávaxtanna af 5 hundr., þegar 12 álnir eru reiknaðar af hverju hundraði, sem áður greinir; verður skakkinn hèr misjafn að handahófi framan til í tíundargjaldinu, áður en hún nær heim rèttu nafni á 5 hundraða tíundinni, þegar fyrst gjörist skiptitíund. Skuli þetta vera rètt *conjecterað* um höfuðtíund Svíanna, þá er sú *intentio* í höfuðtíundinni, að svo skuli tíunda í henni daudt fè, eins og utanlands gengur tíund af kvikfè og afla öllum, fiski og jarðargróða, tíunda hvert lamb, kálfur, kið, fyl, fiskur, heyhestur, skeppi, rúg, bygg, hveiti, grjón og baunir, og hverju nafni sem heitir jarðar ávöxtur og kvikfjár, að gjalda í höfuðtíund tíunda hvern peníng af rentunni. Nú þar sem vor tíundargjörð er að öndverðu á þann grundvöll sett, að svo skuli tíunda daudt fè, það er ávöxt gefur, sem kvikfè, eins og alt stæði á leigu, 12 álnir af hverju hundraði, og tíundin, upp frá því að skiptitíund nemur, eigi að vera allur tíundi hluti þeirra leigna eður ávaxta, þá get eg ekki skilið, hvernin vorir biskupar hafa getað smíðað sèr orsök til, að láta vora landsmenn þar á ofan gjöra hina meiri tíund, nema hún eigi að vera tíundargjöf af höfuðstól allrar lausafjáreigu manna, og sè *fundamentið*, svo sem ráða má af Grágás, til sálubótar úr *purgatorio*, og nægði það guðlausri páfans ágirnd, til að villa vesalan lýð og ólærða menn í snörur þeirra satans erindsreka. Hafa og framandi þjóðir eigi skilið glögglega, hversu grundvölluð var tíund hèr á landi, og í hverju stæði mismunur hennar frá annara landa tíund, sem ráða má af tali því, er þeir settu saman, sá loflegi Loðinn leppur og Rafn Oddsson, blessaðrar minníngar, *anno* 1281, hèr í lögrèttu, sem fyrr er ritað.

Hèr við á að *confererast* statúta Brynjólfs biskups að Skorum; svo heitir biskupsstóllinn á Vestra-Gautlandi, *anno* 1281.: „Um Howodtinda är swa skipat, at hwilkin mann, sum ärwir äftir fadur sin äller moder helt bu, han skal göra howodtinda äftir thredju sadh“. Síðan segir: „Wilja ther allir skiljas at, tha göri fyr än skiptis howodtinda, sva ungur sum gamal, utan mö göri igh fyr än gifftis. Ärwir man lösha pänninga, tha göri howodtinda, taghir annan ärwir och eigh optari aff them pänningum, utan kyrkja wighis äftir thet tind är. Och thet undirstandum wir medh them mannum, sum jordeghandi äru, och eigh medh land-

bom, sum vidh thenne tinda haldas eigh firi kyrkju wigsl. Qwinnan skal eigh howodtinda, fir än hun gifftis, och karman eigh fyr än är femtan ara gamal. Far madher sik låglika kono, ther skulu göra howodtinda äftir thridja sadh aff them pänningum, är ther tha hawa. Ärwa ther äftir fadur äller moder, tha luki swa howodtinda, sum fyr är sagt". Eigi greinir hèr, hvað þessi höfuðtíund sè mikil; hitt er skýrt, að hún er eigi nema af lausum peníngum. En þegar kirkja vígjast skal, þá skulu jarðeigendur gjöra höfuðtíund, þótt áður gjört hafi; það skil eg af landskuldum þeirra tíunda hvern peníng, en eigi af höfuðstóli fastagózins; og eins skil eg það um hjón þau, er saman koma, að á þriðja ári skulu þau gefa tíund allrar sinnar rentu og ávaxtanna; því mun til tekið „eptir þriðja sáð", að þá eru afla-peníngarnir, sem af hinum fyrri afgángs-jarðarávöxtum urðu, komnir á rentu, eður í sjálfu búinu til þarflegra hluta gengnir.

Í fjórðu grein verður að bera saman mismun vorrar tíundar og annara landa, og minnast, hvað óbærilegt mundi verða þeirra tíundarform. 60 ær með lömbum, allar gildar að aldri og burðum, eru 10 hndr. til tíundar; þar af gjaldast hjá oss 2 aurar í tíund, það eru 24 fiskar, en utanlands 10 fráfæru-lömb, eru 50 fiskar; er svo tíundin þar meiri en hèr 26 fiskar. 10 kýr, allar gildar, eru 10 hndr.; tíundin þar af 2 aurar, en utanlands einn kálfur, hann 12 vikna gamall, vel alinn, er 20 álnum, það er 40 fiskum, þá hið fyrsta er hann af mjólkinni, og þó hafa þeir dönsku prestar heimtað, að bændur skyldu lengur ala þeirra tíundarkálf. Það er sýnilegt af Friðriks fjórða forordníng af 24. júní 1701, *pag.* 56.: Bønderne skal herefter ikke være pligtige at føde Præsternes Tiende-Kalve hos sig længer end de kan fødes med Foder, og ikke mere Mælk behøve". Og nú eru 16 fiskar um fram vora tíund, og þar á ofan sá afarkostur, að þennan tíundarkálf skal bóndinn ala, hvort sem honum er hægt eður óhægt. Vestgotalögin, Kirkjubálks 19., § *ultimo,* gjöra þann fóðurtíma bóndanum styttri; þau skipa, að tíundarkálfur og grís megi gjaldast 9 nátta; mundi hann þá ekki tveim aurum og líkast varla meir en 8 eður 9 álnum? En þar á móti skipa sömu lög *ibidem,* að gjalda tíundarlamb og kið að miðju sumri, og er það bóndanum þýngra, en sambjóði vorum fráfærutíma. Enn er tíund útlandanna tíunda hvert kið; en oss er kunnugur taxti bókarinn-

ar á geitunum, svo sem hann stendur í Kaupab. 6.; þar eru 10 geitur 1 hndr. og 80 álnir; það verður til tíundar eptir vorum reglum fyrir hálft annað hundrað, því að hinar stöku 20 álnir metast eigi; tíundin þar af hjá oss eptir skiptitíundarformi verður 6⅔ fisks, en kiðlíngurinn, svo sem fráfærulamb, 5 fiska; munar svo þetta um 1⅔ fisks á svo litlu. En ef að fleiri væri geiturnar, þá fer sem áður segir um ásauð.

Tíunda hvert fyl er og af þeim í tíund goldið; þar tíundast ekki þeir geldu hestarnir, nè hrossin, þau sem ýngri eru en fylin, og kynni oss það bærilegt að vera. En af því vèr tíundum hestinn geldan eptir leigunni, svo sem málnytu-kvikfè, og svo hrossin úngu, svo sem svari tíunda hlut af því, sem verð þeirra stígur upp árlega, þá er oss óþolandi, að gjalda folaldið, sem ekki getur þrifum haldið, nema það hafi móðurmjólk 12 vikur, eður hið minnsta 10 vikur. Missum vèr þá gagn hrossins mikinn part á þeirri stundu; en nú er fylið 15 álnum, ef það er meri, 20 álnum, ef hestur væri, 12 vikna hvort um sig. Þetta fyl, ef goldið verður í tíund af 10 hrossum, sem hvert sè 15 aurum, en öll til samans 6½ hndr., sýnir, að tíund hin rètta þar af er 15⅗ fisks; eru þá með folaldinu fram yfir vora tíund goldnir 14⅖ fisks. Hestarnir og únghryssin kunna ei þann ójöfnuð að jafna hjá oss, því þau eru þar fyrir utan tíunduð, sem strax var sagt. Er nú þetta sagt um kvikfènaðinn, en lítum fram á dauða hluti, sem þar tíundast. 120 fiskar vegnir tíundast utanlands 12 fiskum vegnum, en hèr alls ekki. Af laxi og silúngsveiðum og alls konar fiskifángi gengur utanlands í tíundirnar tíundi hlutur aflans; svo hið sama tíunda hvert egg, tíundi hverr dúnfjórðúngur, tíundi hverr fugl, sem veiddur verður. Hèr inn fellur sú beþenkíng, að ekkert hey skuli tíunda, eptir þeirri grein laganna, *lib.* 2., *cap.* 20., *art.* 1.: „Af hvis ikke saaes, deraf gives Intet til Tiende", og tel eg það gott; en þar í staðinn er að líta það, er síðar kemur, *art.* 2.: „Udi de Egner og Steder, som ikke saa rundelig saaes Korn som andensteds, der skulle de give Smør, Fisk og andet". Þetta bindur í sèr egg og dún og fuglveiði alla, hvað sem menn vilja tala til andsvars fyrir drykk eður osta, lýsi og hákallaskrápa. Sjáum í norsku lögum ostatíundina; mundi hún ekki verða oss þúng af mjólk vorri, sem matseljur handtèra? Allir þessir fyrr taldir dauðir hlutir tíundast hjá oss alls ekki. Hvað sárlega mundi

þá ríkum og fátækum í þýngt verða, ef að slík tíundargjörð skyldi hjá oss við gángast?

Sú er fimta grein, er ei mun gleymast mega, það mèr verður svarað, að landskuldir af föstum eignum ekki sambjóði mínum *thesibus* um 12 álna leigu af hundraði hverju, sem heita skuli tíundarvirð hundruð. *Respondeo:* Renni menn auga til landskuldanna, sem enn í dag gjaldast á Vestfjörðum, af þeim flestum jörðum, er menn kalla í lögleigu standi, og hið sama til fasteigna þeirra, er í Austfjörðum liggja, sèrdeilis í Múlasýslu. Í þessum tveim fjórðúngum landsins skulu menn finna allvíða, ef ei alstaðar, hundraðslandskuld af 12 hndr. jörðu í hönd landsdrottins, að frá teknu, þar sem þær eru niðurstignar síðan 1708. Þar að auki eru 4 tíundir, þær löglega teknar og samanlagðar í eitt af 12 hndr., eru $14\frac{2}{5}$ álnar. Nú hafa ránglátir heimtarar tíundanna, fyrst og fremstir allra þeir katólsku biskupar, og síðan hinir í þeirra líkíng, tekið í hvern stað *a)* 3 álnir af 10 hndr., *id quod justum est; b)* 1 alin af 2 hndr., þar sem þeir áttu að taka $\frac{3}{5}$ áln.; *c)* þeir of goldnu $\frac{2}{5}$ áln. fjórum sinnum teknir gjöra $\frac{8}{5}$ áln.; það er heil alin og $\frac{3}{5}$ álnar. Í þessar svoleiðis með raungu teknar fernar fjórar álnir urðu 16 álnir í staðinn fyrir $14\frac{2}{5}$ álnar. Brestur þá einar 8 álnir til þess, að 12 álna landskuld sè af hundraði hverju, því tíundin, sem af hverri jörðu gelzt, þar sem hver jörð liggur, var og er landskuld til hússbóndans. Skilja það allir, að ekki á leiguliðinn að tíunda fè landsdrottins fast nè laust, svo það ekki komi til afreiknings. Þessar einar 8 álnir virðist mèr líklegast að muni fallið hafa, þegar landsdrottnar, tóku til að leggja kvaðir á landsetana, *ex. gr.* dagsverk, skipsáróður, hestlán, *et id genus,* samt og fyrir þá grein, að landsdrottnar smámsaman settu kúgyldi *tamquam inventaria* með jörðum sínum, því að öndverðu voru alls engin kúgyldi föst við jarðirnar, og að vísu enn þá ekki 1280, þegar Jónsbók var út gefin. Er það til ómótmælanlegs vitnis hèr um, að enginn bókstafur finnst í henni, sá er talar um leigukúgyldi, sem æfinlega skyldi jörðunum fylgja; en skýr eru lög um hin, sem hverr einn má halda og laus láta, eptir því sem þeir hafa máldaga á gjörvan sín í milli; *vide* Kaupab. kap. 15., 16. Þegar nú áður *citeruð* grein af Grágás, Llb. 1., um eyrisleigu á ári af 10 aurum hverjum, og þar með *combineruð* sú almenna *vocula* „lögleiga“, eru við þetta samanbornar, skil eg ekki hvað skortir til bevísíngar þar upp á,

að af jarðarhundraði hverju hafi þá gengið 12 álna leiga, er *fundatian* gjörðist um tíundirnar.

Nú verður mèr svarað, að þótt í þessum austur- og vesturfjórðúngum landsins sèu slíkar leifar hinna fornu landskulda, er eg svo kalla vil, þá sèu suður- og norður- fjórðúngarnir eins sterk bevísíng þar á móti. Eg svara, að þau landskuldargjöld hafi frá hinni fornu lögleigu niður stigið eptir afstaðna pestina, sem hèr gekk um landið 1350 og önnur aptur 1401., og síðan bólan mikla 1430, þegar eptir þvílíkt mannfall, sem svo hvað á fætur öðru þrisvar yfir dundi á 80 árum, fengust jarðirnar varla eður ekki bygðar. Skamt er á að minnast, hversu niður hafa stigið landskuldir jarðanna, síðan bólan feldi hèr svo margan 1707 og 1708. En af því að þeir heilögu feður, katólsku biskuparnir, vildu með engu móti láta sínar inntektir til þurðar gánga, þótt landsdrottnar mistu sinna landskulda, þá við hèldust hinar fornu tíundir af föstum eignum, svo sem þær höfðu í öndverðu með svardögum eiganda virðar verið, að vitni Kristindómssögu og tíundanna *fundatiu*, sem fyrr er getið. En í þann stað, er landskuldir stigu svo mjög niður, er það sýnilegt, að landsdrottnar hafa stundum á lagt leigu kúgyldi sín, að festa við jarðirnar, þótt það hafi sumum tekizt framar en summum, en metnaður þeirra og ákomin venja hefir því valdið, að nú um stundir er fyrir sunnan og norðan víðast lögleiga kölluð hundraðslandskuld af 20 hundraða jörðu, hvort sem henni fylgja 6, 5, 4 eða 3 kúgyldi. Hinir landsdrottnarnir í austur- og vestur- fjórðúngunum hafa tvíllaust með mjúklátri ágirnd yfirtalað sína leiguliða til að taka við kúgyldum og láta þau *perpetuerast*, þótt að hin forna landskuld hèldist að miklu leyti. Það er ljóst af annálum Björns á Skarðsá, að 1430 voru kúgyldi nokkur *inventarium* með Möðruvalla-klaustri; en um uppruna kvaðanna þori eg ekki víst að ákveða. Ábótar virðist mèr líkast til að höfundar þeirra sèu, því að á eignum þeim, er til klaustranna liggja, hafa þær *perpetuerast* framar en á öðrum gózum. Það, sem Sturlúngasaga nokkrum sinnum minnist á kvaðir verðslegra manna, svo sem sauðakvöð og hestakvöð og hvað annað þess konar, sýnist mèr flest eður alt lúta til goðorða og goðanna rèttar, en ekki til landsdrottna- rèttar; *vide nostrum* „Þíngfararkaup“. Þess heyra menn allvíða getið, að ýmsir láti virða fastaeignir nú á dögum, þegar þeir vilja þær hafa niðursett frá tíundargjaldi. Hitt heyra menn og, að

það lukkast allmisjafnt, hvort þeir, eð tíundirnar eiga að taka, láti sèr lynda, að þær skuli þurða eptir þeim nýu *taxeríngum;* en hvergi hefi eg fengið að heyra, hvílíka grein þeir, sem nú virða jarðir, gjöra fyrir því, á hverjum grundvelli þeir hafa sínar jarða-*taxeranir* bygðar. Það er víst, að ekki finnast þeir í hverju húsi, sem hafa skyn á, að virða jarðir löglega; eg vil engum góðum manni til óvirðíngar tala, þó er það víst, að glaður yrði eg, ef fyrir mèr væri nefndir þeir 12 menn á öllu landinu, sem kynnu fastar eignir eptir lögum að virða; en eg þykist nú sýnt hafa, hversu lausafè skal virða til tíundar. Því einu skal hèr við auka, að eg bið alla góða menn, það þeir varist, að treysta brèfi því, sem Páll nokkur Bjarnason, er var í Hreppum austur, fèkk í hendur *assessor* Árna Magnússyni, þá er hann var í Kommissionens erindum hèr á landi. Brèfið var skrifað á pappír um virðíng á föstum eignum, og er að vísu diktur, varla eður ekki 30 ára gamall.

## Torrek.

Þjófab. 1[1].: *Lýsi torreki sínu.*

Það, sem Björn á Skarðsá hefir skrifað um uppruna þessarar glósu, að það skyldi vera svo sem „torfrek" eður „torfrakað"[2] af manni, er hègómi og ólíkt því flestu, sem sá hugvitsmaður hefir skrifað; en hitt, er hann segir um merkíngu þess, eru sannindi[3], því torrek er missir sá, er ei mun auðveldlega bætast; er það svo kallað af því, að þess mun torveldlega rekið verða, það er: eigi sè hægt að rekja feril til þess, hvað af sè orðið, eður hefnd eður bætur fyrir að fá. Vitni til þess, að „torrek" þýði „missi", er Snorri Sturluson síðast af Hálfdáni svarta. Þar segir höfðíngja þann, er Haraldur hárfagri gisti hjá um veturinn, og aðrar sögur kalla Dofra, hafa mælt: „Furðumikit torrek gjörir faðir þinn sèr at, er ek tók vist nokkra hjá honum í vetr". Sonatorrek kallar Egill Skallagrímsson kvæði það, er hann orkti eptir dauða Böðvars, það er „sonamissir"; og svo segir Sighvatur eptir Ólaf konúng helga, kap. 238.:

| | |
|---|---|
| Fúss læzt maðr, ef missir | en fullhuginn fellir |
| meyjar faðms[4], at deyja; | flóttstyggr, sá er varð[6] drottinn, |
| keypt er ást, ef eptir | várt torrek[7] lízt verra, |
| oflátinn[5] skal gráta; | vígtár, konúngs[8] árum. |

1) B. 6. 2) B. torfrekað. 3) B. sannyrði. 4) A, B. holds. 5) A, B. aflátinn. 6) Ann. Fms. l. c. 7) Afrek, Fms. l. c. 8) Konúng, ibid.

Fyrri hluti vísunnar er ljós, og svo hinn seinni, ef rètt eru sett orðin: en flóttstyggur (sá er varast að flýa) fullhuginn, sá er varð (varðveitti svo sem hirðmaður) drottinn (konúnginn) fellir vígtár (tár[1] yfir vígi konúngs); árum (þènurum) lízt (sýnist) vort torrek (vor, konúngsmanna, missir) verra, en þeim, sem missa konu sína.

Nú er það sýnt, að torrek er „missir", en að það sè af uppruna þeim, sem fyrr er sagt, sjá menn, ef þeir hugleiða Vafþrúðnismál; þar segir:

> Úlfr man gleypa
> alda föðr,
> þess man Viðar reka.

Og svo sagði Eiríkur konúngur blóðöx við Egil Skallagrímsson, þá er hann flutti höfuðlausn sína: „Er þetta engin sátt við mik nè sonu mína, þá eð rèttar síns vilja reka". Híngað í átt lýtur orðið í bókinni hèr í sama kapítula, „að spyrja til garðs" *(quod vide)*, því það er að rekja sporin, og svo segir Ólafs saga helga um víg Þorgríms tröllа: „Líkast er, at mikill reki verði at gjörr um vígit". Og enn segir Eyrbyggja orð Arnkels goða um eptirmál eptir víg Vigfúsar í Drápuhlíð: „Meiri von er, at reki verði at gjörr þessum málum, þèr til huggunar".

Hitt er öllum kunnugt, að *particula* „tor" er *præpositio inseparabilis*, og merkir *difficultatem*, óauðveldni; hèðan er[2]: torfæra, torvelt, torsókt, tornæmur, tormerki, og í Ólafs helga sögu kallar Þormóður sig Torráð á Grænlandi, það sem Sveinn konúngur [Úlfsson[3]] kallaði sig Vandráð, eptir Nizár[4] orustu, bæði hjá Snorra Sturlusyni og í Noregskonúnga-sögum. Torbænan kallar Sigurðarkviða í Sæmundar-Eddu ójákvæðinn:

> Vilkat ek[5] mann trauðan
> nè torbænan
> um ora sök
> aldri[6] týna.

Eigi vil eg tregan mann nè ójákvæðinn láta missa líf sitt fyrir vorar sakir. Torgæta hluti kallar Hákonar saga Hákonarsonar, *anno* 1255, og aptur *anno* 1262, þá hluti, sem óauðfengnir væri. Torleiði kallar Egils saga Skallagrímssonar, þá Arinbjörn hersir bað honum lífs[7] í Jórvík og griða af Eiríki

1) B. tári. 2) A. hinc. 3) [ ] om. B. 4) B. Niðaár. 5) B. vildak. 6) B. aldrei. 7) B. bað hana um líf.

konúngi blóðöx, og kvað hann farið hafa yfir mörg höf og torleiði[1] heiman frá búum sínum.

## Treya[2].

Framfb. 13.: *Má bera eina treyju með kaprúni af skrúði.*

Mönnum er það kunnugt enn í dag, hvað treya var kallað hèr á landi almennilega inn til þess fyrir 20 eður 30 árum, að karlmannatreyur lögðust af, þegar tóku að gjörast síðkjólar, inn til þess nú fyrir 10 eða 20 árum komu hèr aptur í brúkun undir síðkjólunum treyurnar, en höfðu þá fengið framandi nafn, og eru nú kallaðar vesti, hvort sem þær eru síðar eður stuttar; *vide* „Kyrtil“. Björn á Skarðsá segir, að treya hafi nafn af *tres* (þrír), því hún sè þriðja klæði. Það er að sönnu ei með öllu ólíklegt, helzt þegar athugað verður, að margtídt sè skáldunum að skrifa *treis* fyrir *tres*, en þó get eg eigi tekið þá ættartölu, fyrir gilda, á meðan eigi leiðast til þess fleiri rök. En svo gamalt er orðið treya, að það er margtídt í Sturlúngasögu, og í *Speculo regali* er „bryntreyan“. Mun mönnum ei sýnast eg rati nær til, að leiða orð þetta í ætt, þótt eg segi það sè bagað af *„thorax“*, og hafi bókstafirnir fengið sætaskipti, eins og *corpus* kroppur, *hors* hross, *ars* rass, *Conrad* Koðrán, svo sè orðið af *thorax, throax, troaz, troia,* treya.

## Tröll.

Mannh. 2.: *Vekja tröll upp ok fremja heiðni með því.*

§ 1.

Hèr merkir orðið tröll eptir sinni náttúru anda óhreina, uppvakta drauga, *evocatos manes, immundos spiritus et spectra omnis generis,* sem Snorri Sturluson segir um Óðinn: „Stundum vakti hann dauða menn upp úr jörðu, eðr settist undir hánga (ɔ: hengda menn); því var hann kallaður draugadrottinn eðr hángadrottinn“, um hverja fjölkýngi talar Vegtamskviða og Rúnakapítuli, og allra skýrast, bæði af þessum tilnefndu vitnum og mörgu fleira, *Barthol. Antiquitt., lib.* 3., *cap.* 2., og að orðið tröll hafi allopt[3] þessa merkíng, sýnir Ólafs saga Tryggvasonar: „Konúngsmenn höfðu heyrt orð á

1) „og torleiði“ hefir [illegible] í endanum. 2) Þessi skýring er tekin eptir A einni. 3) B. alltídt.

því liggja, at í Naumudal væri meiri trölla gángr ok úvætta[1], en annarstaðar í Noregi"; *et mox:* „Menn máttu þar varla halda bygðum sínum fyrir tröllagángi". Síðan: „Sáu þeir þar tröll mörg sitja við eld, ok töluðu sín á milli". Síðan: „Þá tók einn til orða af þeim óhreinu öndum ok segir svo: Bygð mín var í Gulardal, *etc.*" Síðan: „Þá segir annarr fjandi[2]: Ek tók á mik fagrar konu ásjónu". Síðan: „Þá mælti hinn þriði óhreinn andi[3]: Ek tók[4] á mik fagra mynd kurteysrar konu". Síðan: „Konúngr mælti: Bað ek hann (biskupinn) at sjá, hvort fótrinn væri heill af tilkomu þess fjanda, er svo sýnilega[5], en þó með slægð sinni, hafði gengit í vor herbergi með sjónhverfing náttúrlegs líkama". Síðan: „Eptir þat ferr Ólafr konúngr á land með hit bezta lið sitt, ok fór um allar nálægar bygðir með krossum ok helgum dómum, ok dreifði vígðu vatni um björg ok hamra, dali ok hóla, ok hreinsaði með helgum bænum ok guðs fulltíngi alt þat, er þeir fóru, af [6]illum vættum ok óhreinum öndum". Alt þetta sýnir, að tröll og óhreinir andar merkir hèr hið sama, og óhreina anda nefnir Snorri Sturluson, þar sem hann drepur á þessa frásögn[7]. Eins er að sjá í Sturlúngasögu, *lib.* 3., *cap.* 36., að tröllkona sú, er sótti að Snorra nokkrum í Skálavík á Vestfjörðum, og Guðmundur prestur Arason, eptir á biskup, kom til hjálpar fjarlægur, var sjónhverfing allein, því bæði hvarf hún í jörð, og Guðmundur var á sömu stundu sýnilegur á Hofi í Vatnsdal. Eins er að sjá af Ólafs helga sögu, þar sem hann var kominn[8] yfir Sefsurð[9], og náttaði í selstöðu þeirri, er Gresúngar[10] heita, en bændur sögðu honum, að eigi mætti[11] sofa fyrir tröllа gángi og óvætta, kap. 171.[12] Segir þar að vísu, að um miðnætti, er menn voru í svefni, lèt á stöðlinum heldur illilega: „Svo brenna mik bænir Ólafs konúngs, at ek má eigi lengr hèr vera, ok verð ek nú at flýja ok koma hèr aldrei síðan". En þó þetta tröll talaði þannig, þá var það ekki meira en slíkt, sem áður er innfært úr Ólafs Tryggvasonar sögu; er[13] óhreinum öndum eignað bæði orð og gjörðir. Svo segir Helga kviða Hundíngsbana önnur: „Hèðinn fór einsaman heim úr skógi jólaaptan,

---

1) B. tröllatal og úvættagángur. 2) B. fjandinn. 3) B. þá segir fjandinn þriðji. 4) C. brá — fagri. 5) A. ósýnilega. 6) B, C. add. öllum. 7) C. frásögu. 8) A. láu verkamenn. 9) A. Refsurð. 10) A. Gimníngar; B, C. Grænúngar. 11) A. mundi mega. 12) Allar: 184. 13) B, C. og.

ok fann tröllkonu; sú reið vargi ok hafði orma at taumum, ok bauð fylgd sína". Um hana segir síðan: „Fylgjur[1] hans (Helga) höfðu vitjað Hèðins, þá er hann sá konuna ríða varginum. Þar um kvað Helgi:

Reið á vargi,
er rökkvat[2] var,
fljóð eitt, er hann
fylgju[3] beiddi.

Alt þetta, vargurinn fyrir reiðhest[4], ormar fyrir tauma, og að það voru fylgjur *(genii[5])* Helga, sýnir ljóst, að þetta hafi andi verið og sjónhverfíng ein, þó heitir það tröllkona. Dæmið er um uppvakníngu drauganna ljóst í Hervararsögu, kap. 7.[6], þá er hún sótti sverðið Tyrfíng; en svara má [því[7]], að eigi sèu þeir [þar[8]] tröll kallaðir, heldur draugar. Satt er það, en meinvættir heita þeir[9] í sama kapítula, og lætur það nærri tröllsnafninu. Vilji menn hafa tröllsnafn útþrykkilegt á uppvakníngi, þá segir Vegtamskviða, síðan Óðinn hafði úttalað við völvuna, er hann vakti með nágöldrum:

Erattu vala[10]
nè vís kona[11],
heldr ertu þriggja
þursa móðir.

Hvað er tröll, ef eigi er þetta? Hèr á það heima, sem segir um Jómsvíkíngabardaga, svo sem *Bartholin, Antiquitt. libr.* 2., kap. 1., hefir innfært: „Þar kemr, at hann (Hákon jarl) heitir á fulltrúa sinn, Þorgerði Hörgatröll; hann veitti henni mikit ákall af öllum hug". Og aptur: „Gengr Hákon jarl fram í trausti Þorgerðar Hörgatrölls ok Yrpu, systur hennar". [Enn aptur: „Hann (Hákon jarl) kallar þá enn fast á Þorgerði Hörgatröll ok hennar systur Yrpu"[12]]. Og litlu síðar: „Sèr Hávarðr höggvandi ok margir aðrir tvær tröllkonur standa í lyptíngu á skipi Hákonar jarls". *Et mox:* „Fyrir þessum fjandakrapti ok galdri fèll fjöldi liðs af Jómsvíkíngum". Eptir á: „Mælti Sigvaldi jarl: [13]Nú er eigi við menn at berjast, heldr við djöfla at eiga". *Mox:* „Aldrei strengdum vèr þess[14] heit, at berjast við djöfla, eðr þvílík úvætti". Í Jómsvíkíngaþætti prent-

---

1) B. fylgi or. 2) C. rekvið. 3) A. fylgja. 4) B. reiðhestinn. 5) [ ] vantar í A, B. 6) Báðar: kap. 6. 7) [ ] om. A. 8) [ ] om. A. 9) Báðar: þær. 10) A. væla. 11) Manns kono. 12) [ ] vantar í C. 13) B. en add. 14) A. það.

uðum í Skálholti í Ólafssögu, *pag.* 154. *et* 155., er Þorgerður að vísu nefnd Hörgabrúður, en í öðru orðinu[1] tröll og flagð, og svo Yrpa hið sama; er það enn vottur, að tröll, djöflar, flögð, óvætti talast hèr til skiptis um sömu tröllin, sem eigi voru líkamlega til staðar í orustunni, heldur í sjónhverfíngum og fjandakrapti, og þar sem þær eru hèr óvætti kallaðar, þar heita Arngrímssynir „meinvætti" og „draugar" í Hervararsögu, sem strax var sýnt, svo að óvætti, flögð, meinvætti, tröll, draugar, djöflar segjast til skiptis um sömu djöfla, og svo segir í Jómsvíkíngadrápu:

Þá frá ek elit illa
æsast Hörgabrúðar.

Og síðan í sömu drápu:

Örum rèð sèr snörpum,
sú var raun görpum,
flagðit forljóta
af fíngrum skjóta.

Hèr heitir[2] hún bæði Hörgabrúður og flagð, en það er óefað, að hún var dauð fyrir meir en hundrað árum. Var sú trú fornaldar að andar, bæði vondir og góðir, mætti klæðast holdi, eður gjöra með sjónhverfíngum á sèr holdlegt skin um lengri stund en skemmri, svo sem vottar dæmi Gláms og Kárs hins gamla, kunnug öllum af Grettissögu, kap. 20.; og híngað heyrir það, er Eyrbyggja segir um apturgaungu Þórólfs bægifótar; [3]hann var tekinn dauður úr dysinni; var hann þá enn ófúinn og hinn tröllslegasti að sjá; hann var blár sem hel, og er þeir vildu hræra hann, fengu þeir hvergi rigað honum; lèt Þóroddur þá færa undir hann brot. Og eigi síður sagan af Þiðranda, syni Síðu-Halls, um þær tvennar 9 dísir, sem menn trúðu Þiðranda banað hefði[4].

§ 2.

Nú er í annari grein tröll það, er ekki merkir óhreina anda, heldur holdlega menn, *a)* annaðhvort yfirmátalega[5] stóra, og heita það jötnar og risar, eður *b)* ekki stærri en aðra[6] menn, og þó með einhverjum fjandakrapti meingaða, eður *c)* hvorttveggja, bæði yfirmáta stóra og með fjandakrapti trylda[7].

---

1) C. öðrum stað. 2) A. segir. 3) B. er. add. 4) B. hafa. 5) B, C. yfirfljótanlega. 6) A. aðrir. 7) B. fyllta.

*a*, Um þá stóru menn, sem fyrir vaxtar sakir, en eigi annara hluta, voru tröll kallaðir, eru dæmin í sögunni af Katli hæng um Bruna jötun, Finnakonúng, og Rafnhildi, dóttur hans, móður Gríms loðinkinnu; hana kallaði Hallbjörn, faðir Ketils, tröll, en þó var sjálfur hann kallaður hálftröll. Annað er í sögunni af Örvar-Oddi um Hildi risa og Hildi, dóttur hans, er Örvar-Oddur svaf hjá um veturinn, og gat við henni Vigni, þann er Ögmundur Eyþjófsbani drap í glímunni síðan; alt voru þó þetta menn og höfðu manneðli, því báðar þessar konur gátu börn við mennskum mönnum, og er ætt Ketils hængs hèr á landi kunnug af Landnámu, og til hans[1] telur Einar þambaskelfir ætt sína í Ólafs helga sögu í Flateyarbók. Svo segir og Edda í Bragaræðum, eptir fall Hrungnis jötuns, að Magni var sonur Þórs og Járnsöxu. Hann kallar sjálfur Óðinn gýgjarson, það er tröllkonuson, því[2] „gýgur" heitir kvennmaður á meðal þeirra holdlegu stórvöxnu tröllanna, og er nafn þessarar Járnsöxu með tröllkvenna-heitum talið: „Hrímgerðr, Hæra, Herkja, Fála, Imd, Járnsaxa, Ima, Fjölvör". Og enn getur þessara tröllkvenna-barngetnaðar, við mennskum mönnum í Sæmundar-Eddu um Hrauðungssonu, í formálanum fyrir Grímnis-málum: „Sèr þú Agnar fóstra þinn, hvar hann elr börn við gýgi í hellinum?" Svo talar um giptíng slíkra tröllkvenna með jötnum í Harbarðs[3] ljóðum:

| | |
|---|---|
| Miklar mannvèlar | Harðan jötun ek hugða |
| ek hafða við myrkriður, | Hlèbarð vera, |
| þá er ek vælta | gaf hann mèr gambantein, |
| þær frá verum. | en ek vælta hann or viti[4]. |

„Gambanteinn" var kvistur eður grein af viði, blótaður eður trúaður þeirrar náttúru, að mannhylli og ástsæld fylgja skyldi; *vide* Landnámu og Sæmundar-Eddu, Skírnisför. Og þótt mèr verði svarað[5], að þvílíkt úr Eddu sèu ýkjur eintómar og diktur skálda, svara eg, að diktur slíkur var þó gjör eptir trú fornaldar, og hafa þá orðin rètta merkíng sína, þótt hlutirnir sèu annaðhvort uppdiktaðir með öllu, eður ýkjum blandnir[6], og á[7] það hèr að bevísa, að tröll merki stundum holdlega menn geysi-stóra framar almenníngi, og það meina eg þessi tilleiddu vitni segi[8] skýrlega, hvort sem sögurnar eru sannar eður ósannar. Það er og eigi vorra sagna alleina, að segja margt af slík-

1) C. á hennar. 2) A. en. 3) A. Harbacs. 4) B. örviti. 5) C. menn segi. 6) B, C. blandaðir. 7) A. bætir við: á. 8) B, C. segja.

um stórmennum; allar heimsins historíur eru fullar af slíku. *Herodotus libro* 4., *cap.* 82., talar um spor *Herculis,* sem í *Scythia* sè sýnt á einu bergi, nær tveggja álna lángt. Hann talar og um skó eður töplu *Persei* sonar *Danais*[1], sem geymd skuli vera í þeim stað á Egyptalandi, er *Chemnis* heitið hafi, og skuli taplan tveggja álna laung, *libro* 2., *cap.* 91., og tel eg slíkt með ýkjum, eins og *Homerus, in Odyssea, libro* 9., segir af *Polyphemo,* og eptir honum *Virgilius, Æneidos libro* 3., og læt eg það fara; en hitt tel eg með sannindum, sem *Josephus Flavius* skrifar um risana, *libro 5. Antiquitt., cap. 2.,* [og[2]] það er *Plinius, libr. 7., cap. 2.,* segir í *India* finnist þeir menn, að sèu 5 álna háir, þótt það megi og verið hafa stuttar álnir í brúkun *Indorum; item* það, er *Curtius, lib. 8., cap. 14., comm.* 13.[3], segir um yfirburða-vöxt *Pori* konúngs, og hvað *laude nostra major Freinshemius* hefir yfir þá grein skrifað af ýmsra frægra *scribenta* bókum, og það meira er, ritníngin sjálf, *Gen.* 6., 4.[4], Num. 13., v. 9., 13., 29., 34., Deut. 3., 11., Josv. 15., 13., 14., 1. Sam. 17., v. 4., 2., Sam. 21., 16., 17., 18., 19., 20., 21., talar um slíka furðu-stóra menn og afkvæmi þeirra; kallar hún þá risa á vora norrænu. Og af því að Óðinn og hans selskapur var úr *Asia* til vor kominn híngað í *Europam,* og með þeim þær mörgu furðu-sögur af risum og tröllum, sem Edda greinir, trúðu vorir fornmenn[5], að austur í heiminum mundi mikill fjöldi og heil þjóðlönd af slíku fólki, en fengu þaðan sönn tíðindi, að þar hèti[6] *Russia.* Hugðu þeir landsnafnið af svoddan furðuvaxtar-mönnum dregið vera, og mundu þar byggja risar alleina. Mynduðu þeir sèr því af nafninu *Russia* „Risaland", og aptur af Risalandi „Jötunheima", því að risar og jötnar merktu hjá þeim, eins og oss, allopt alt hið sama; eins mynduðu þeir sèr af *Samojeder* „Smámeyaland", og er slíkt spart að telja. Skildu þeir og undir Jötunheimanafni, ásamt *Russia, Tartariam* alla þar norður í heimsbygðinni og alt híngað til Garðaríkis, svo[7] þar felast inn í bæði Geirrauðargarðar, Glæsisvellir og Útgarðar, með öllum fleiri dikt og ýkjum sagnanna, sem hèr að lúta.

Nú þótt einhverr vildi svara mèr, að sú grein, sem Þormóður *in Grönlandia, cap. 5., citerar* úr *scriptis* móðurföður míns, og móðurfaðir minn hefir útskrifað úr 16.[8] kapítula sög-

---

1) B, C. Danoes. 2) [ ] om. B. 3) C. comm. 3. 4) A. Gen. 5.—6. 5) A, B. formenn. 6) A. úr því landi. 7) C. Gandvíkur; þar. 8) C. 15.

unnar af Samsoni fagra, gjöri sitt hvort, Risaland og Jötunheima, þá svara eg þar til, að sama saga, kap. 18., lætur Skrímni konúng ráðið hafa fyrir Jötunheimum; en kap. 22. heitir ríki sama Skrímnis tvisvar Risaland og tvisvar Jötunheimar; og við landamæri Risalands og Smámeyalands setur sami 22. kap. Geirrauðargarða, svo að í þessum kap. eru það *synonyma,* Risaland og Jötunheimar, og styrkja mína sögu, það framast menn vilja gefa gaum að þessari *fabula.* Skuli þessir kapítular, 16.[1] og 22., forlíktir verða, sýnist mèr það liggja næst, að eitthvert stórt hèrað[2] af Risalandi megi sèrdeilis nafni kallað hafa verið Jötunheimur, en þó með sama Jötunheima-nafni allopt kallað verið alt Risaland, eins og nú á vorum tíðum kalla ýmsir[3] alla *Russiam Moskow,* þar þó *Moskow* heitir *peculiariter* eitt stórt hèrað og höfuðborgin í því víðlenda ríki *Russia.* Það er ljóst af Samsonssögu, 16. kap., liggur Smámeyaland norður af Risalandi, og áfast við það, en allir vita, að norður af Rússlandi liggur *Samojeder*[4], og enginn, trúi eg, efar[5], að *Samojeder*[6] og Smámeyaland sè hið sama. Eg neita því ei, að á fornri pergamentstöflu *in bibliotheca Havniensis academiæ* standi Risaland skrifað svo sem partur af Grænlands-óbygðum, norður undan Íslandi; en sú tafla er í mörgu svo vilt, að ekki nemur lagi, og kann því hèr af ekkert *argument* að byggjast. Vorir fornaldarmenn hafa í mörgum greinum stórlega mistekið til *in geographicis,* og þarf að lesa þeirra skriptir með góðri[7] gætni[8], ef menn ei skulu villa sig. Er það til dæmis, er nú var sagt, að Geirrauðargarðar liggi, í Samsonssögu, kap. 22., á landamæri milli Smámeyalands og Jötunheima; en í Þórsdrápu Eilífs Guðrúnarsonar lætur hann Geirrauð og hans ríki liggja við Gandvík. Þar segir:

> þá er gjarðvenjuðr gjörðist
> Gandvíkr skotum ríkri[9],

sem Snorra-Edda vottar. Skáldið talar um Þór, er hann átti við Geirrauð. Svo skil eg þá ei, að Jötunheimar og Risaland kunni annars, en vera hið sama, þegar „jötunn“ merkir „tröll“, og orðið „tröll“ merkir geysi-stórvaxna, og þó holdlega menn. En hèr við má ekki saman slengja þeirri merkíngu orðsins „jötunn“,

1) 18? 2) A. stór-hèrað. 3) A. að menn kalla tíðum ýmist. 4) A. Samoes og Smámeyaland; C. add. sè hið sama. 5) A. og trúi eg að ofan. 6) A. Samoe. 7) B. stórri. 8) C. aðgætni. 9) A. ríkja.

sem það merkir alla hina fornu[1] innbúa norðursins, þá sem ekki voru af Ásanna slekti, þeirra er Óðni fylgdu; *vide nostrum* „Jól". En til þess menn athugi glögglega þessa *fabulam* af Samsoni fagra, bið eg hugleidt verði, það hún kap. 19. í niðurlaginu kennir, að Sigurður, eptir á konúngur í Jötunheimum, [illegible] son Goðmundar á Glæsisvöllum, var um jólin með Skrímni, Risalands eður Jötunheima konúngi; en kap. 20. segir hún, að á átta dag jóla rèð Skrímnir honum að finna Goðmund föður sinn, og bauð skip og menn til ferðarinnar. Sigurður játaði, en kvaðst fyrst finna vilja fóstra sinn, og lèzt aptur mundi koma til Skrímnis að miðjum vetri. [*Ergo* voru ekki þar jól að miðjum vetri[2]], því Sigurður átti lánga leið að fara tvívegis til Króks og Kræklu fósturforeldra sinna, er bjuggu fyrir vestan Smámeyaland, hátt upp við fjallgarð, sem ráða má ljóst af 17. kap. sögunnar. Því skilst mèr, að þessi jötnanna jól hafi verið veturnáttablót þeirrar aldar; annars hefði Sigurði verið alls ómögulegt, að fara tvívegis svo lánga leið. Er það til merkis um vegalengdina, að Goðmundur konúngur, þegar hann hafði gist um veturinn á Smámeyalandi, og tók þaðan með sèr konuna, móður Sigurðar, kap. 17., þá ól hún barnið á sjóreisunni milli Smámeyalands og Glæsisvalla. Látum Goðmund hafa sezt í veturvist á Smámeyalandi hálfum mánuði fyrir vetur, og setið þar til þess hálfur mánuður var af sumri, þá verður þó Sigurður ekki meira en 7 mánaða fóstur, og getur þó [sagan[3]] einkis, sem að því lúti, að Sigurður hafi ótímaburður verið. En þótt menn vildu láta svo verið hafa, þá er hitt þó vottur vegalengdar, að Goðmundur konúngur settist um kyrt á Smámeyalandi til veturvistar[4], sem ei hefði skeð, nema lángleiði hefði þess krafið, og því verða fyrrnefnd jötnanna jól að hafa verið [illegible] veturnætur, þar eð Sigurður, sem með Skrímni drakk jól í Jötunheimum, skyldi eptir þau afliðin fara tvívegis yfir Smámeyaland alt[5], og aptur ná til Skrímnis að miðjum vetri. Nú verður mèr enn sagt, að *author* [sögunnar[6]] nefni hèr átta dag jóla, og kunni því ekki meint vera veturnátta-blótveizlan, hún hafi verið þrínætt alleina, svo sem allar stórveizlur heiðíngjanna, og líka sjálf miðsvetrar-veizlan, svo sem eg hefi sagt *in voce* „Jól" að vitni Snorra Sturlusonar. [Eg svara, að um miðsvetrar-blótið hafi eg það

1) B, C. fyrri. 2) [ ] em C. 3) [ ] vantar í B, C. 4) B, C. veturgistíngar. 5) B. aptur. 6) [ ] vantar í B, C.

sagt, eptir kenníngu Snorra, en um sumarmála-blótið og veturnátta-blótið hafi eg það ekki skrifað[1]; þær tvær veizlurnar mega hafa verið svo lángar eða stuttar, sem rök finnast til, og steytir það hvergi mínar *theses*. Annars mætti hèr[2] segja, að *author* sögunnar, sem efalaust hefir kristinn verið, og líkast engelskur, hafi ekki verið fróður um jólahalds-lengdina, sem heiðnir tíðkuðu fyrir norðan *mare Balthicum*, og hafi því myndað söguna í líkíng þeirra jóla, sem kristnir menn hèldu, þótt af heiðnum mönnum væri sagt, og um þeirra veturnáttaveizlu[3] væri að tala. Eg segi hann kristinn mann verið hafa, því stund þá alla, sem heiðnin varaði hèr á Norðurlöndum, rituðu menn engar sögur; þær stóðu þá allar í minni fróðra manna, eður í kvæðum skáldanna, og eins voru þá lög öll og landsrèttur [heiðíngjanna[4]] norður hèr, að menn lærðu þau utanbókar, svo sem aðra fræði, og af því hètu þeir fróðir menn og fræðimenn, er vel kunnu lög eður sögur eður hvorttveggja. Og þar eð eg sè, að móðurfaðir minn, og eptir honum[5] biskupinn *mag.* Þórður og síðan *assessor* Þormóður hafa þessa margnefndu Samsons fagra sögu til vitnis leidt *in geographicis*, sem *Grönlandia* Þormóðar ber vitni, kap. 5., 24., 25., þykir mèr ísjárvert, að fordæma hana aldeilis í þeirri grein, þótt hennar annað efni sè eintómar *fabulæ*. Er henni og það til málbóta, að Hervararsaga[6], kap. 1., sýnir berlega, að Jötunheimar sèu svo víðlent ríki, að eitt þess hèrað sèu Glæsisvellir. Skyldi þá og Smámeyaland vera annað hèrað eður fylki af Jötunheimum, þótt Samsonssaga gjöri það að konúngsríki. Er það og ljóst af Hervararsögu, sama kap. 1., að jötnar og risar sèu alt hið sama. Hún bendir og til þeirrar merkíngar *vocis* „jötunn", að það merki alla þá norðursins innbúa, sem eigi voru af Ásum komnir, og allopt blandar hún tröllsnafninu við risa nöfn og jötna. Og ætla eg hèr með nóglega bevísað, að tröll merki með svoddan hætti líkamlega menn og kvinnur, alleina fyrir vaxtarstærðina tröll kallaða[7].

## § 3.

*b,* Hinir aðrir mennskir menn að vexti og öðru mannseðli, sem [þá[8]] voru tröll kallaðir, höfðu það nafn, af einhverri fjöl-

1) Frá [ B, C. Eg svara, að um miðsvetrar-blótið og veturnátta-blótið hafi eg það ekki skrifað. 2) C. það hèr eflaust. 3) C. veturnátta-veizluna. 4) [ ] vantar í A. 5) B. hann. 6) C. sögn. 7) A. kallað. 8) [ ] om C.

kýngi eður fjandakrapti, sem þeim jók megn yfir náttúru manna, eður sýndi þá í annara skepna líki, svo sem voru hamramir menn, Þórólfur og Dúfþakur í Landnámu, Sunnlend. fjórð. kap. 3. Oddur Arngeirsson[1] af Slèttu norður var hamramur svo mjög, að hann gekk heiman úr Hraunhöfn (hún er norður á Slèttu) um kvöldið, og kom um morguninn eptir í Þjórsárdal til liðs við Þuríði systur sína, er Þjórsdælir vildu grýta hana í hel fyrir fölkýngi og tröllskap, Landn., Norðlend. fjórð., kap. 20., og Loðmundur hinn gamli mjög tröllaukinn, sem segir í Landnámu; sýnir hún, hvílík verið hafi fjölkýngi og tröllskapur Loðmundar, Austfirð. fjórð., kap. 5.; *item* Þrándur af Íngjaldshóli, sem gekk þaðan á degi og til Sælingsdalstúngu, svo sem Eyrbyggja vottar, kap. 61., og kveður svo að hans máli: „Hann var kallaðr [eigi[2]] einhamr, á meðan hann var heiðinn, en er hann var skírðr, tók af honum[3] tröllskap, sem öðrum, er skírðir voru". Sama slags voru þeir bræður Sveinúngi og Gunnsteinn í sögunni af Droplaugarsonum. Þar segir svo: „Þat höfðu þeir fyrir satt, at þá mundi Sveinúngi hafa tryllzt, ef þeir hefði austmanninum náð". *Item* nokkru síðar: „Mælti Helgi Droplaugarson við Gunnstein: Hvort ætlar fjandi þinn at hamast á oss? Gunnsteinn svarar: Eigi mun ek tryllast á þèr, en halda mun ek þèr, þar til þú hefir sagt með röskleik, hvort þú hefir mein gjört bróður mínum". Svo kallaði Bárður digri Þorvald tasalda[4] tröll í Ólafssögu, því honum þótti máttur hans ekki mennskur, þótt vöxturinn væri meðalmanns. Hugði Bárður, heiðinn maður, það af fjandanum vera, svo sem á öðrum þeim, er tröllauknir voru kallaðir. Kemur þetta tröllsnafn á slík efni fyrir það, að svoddan væri fengið með fjandakrapti og fjölkýngi, svo sem vottar Snorri Sturluson um íþrottir Óðins: „Óðinn kunni svo at gjöra, *etc.*, at hans menn fóru brynjulausir, ok voru galnir sem hundar eða vargar, bitu skjöldu sína, en voru sterkir sem birnir eðr graðúngar; þeir drápu mannfólkit, en hvorki eldr nè járn orktu á þá; þat er kallaðr berserksgángr"; og af því slíkt voru rök til alls þessa tröllskapar, þá heita þeir og tröll, sem fara með slíkar konstir. Því sagði Katla, móðir Odds, í Eyrbyggju, kap. 20.: „Mun Geirríðr tröllit þar komit"? Og má sjá það af Eyrbyggju, kap. 16., hvílík verið skuli hafa meðferð þeirra tröllkvenna: "Gunn-

1) A. Arngrímsson. 2) [ ] vantar í B. 3) C. honum sem öðrum. 4) B. taskalda.

lögr kom ekki heim um kveldit, ok var umrætt, at hans skyldi fara at leita, en eigi varð af. Um nóttina, er Þorbjörn sá út, fann hann Gunnlög son sinn fyrir dyrum; var hann þá vitlaus; þá var hann borinn inn, ok dregin af honum klæði; var hann þá allr blóðrisa um herðarnar, en holdit hlaupit af beinum; lá hann allan vetrinn í sárum, ok var margrætt um hans vanheilsu; flutti þat Oddr Kötluson, at Geirríðr mun hafa riðit honum, segir, at þau hefðu skilit í stuttleikum um kveldit, og þat hugðu flestir menn, at svo væri. Þetta var[1] um stefnudaga; reið Þorbjörn í Máfahlíð, ok stefndi Geirríði um þat, at hún væri kveldriði, ok hún hefði valdit þessu meini Gunnlögs". Samhljóðar[2] við þetta lögmál Svíanna, Västgothal. Rättlosabalk, kap. 10.: „Kona, jak sa, att thu reit á kvigrindum och i trolls ham, tha alt var jamrift, natt och dagher[3]". Hèðan er það, að enn í dag heitir í dönsku máli „Trolddom, Troldmand og Troldkvinde", fjölkýngi, fjölkýngismaður og fjölkýngiskona[4], en því er alt svoddan við galdur kent í voru máli á þessum tímum, að yfirsaungvar allir og formálar til slíkra hluta voru framdir í ljóðum þeim, er galdrar heita, svo sem vottar Snorri Sturluson, og merkir orðið „galdur" ljóðmæli þau, er maður kveður við raust, svo sem segir í Hávamálum: „Þann kann ek galdr at gala". Og í Laxdælu, kap. 37., þegar Kotkell gjörði seiðinn á Hrútstöðum: „Fögr var sú kveðindi at heyra". Miðreitis á öldum hèt galdur sèrdeilis þeir yfirsaungvar (það er yfirlestrar, hvort sem ljóð voru eður eigi) forneskju-átrúnaðar, sem til lækníngar mönnum eður heilla gjörðir voru, svo sem segir Kristinrèttur Þorláks og Ketils biskupa: „Þat er galdr, ef maðr kveðr at sèr eðr fèi sínu", það skilst mèr til heilla sèr eður fè sínu; og flest alt er þess konar af þeim 13 tegundum galdranna, er telur í Rúnakapítula, að þeim skuli til happs[5] og heilla, er numið hefir, og svo þær allar greinir, er telur í Sigurdrífumálum í Sæmundar-Eddu. Þó segir Snorri Sturluson, þegar hann hefir talið bæði það[6] og annað það, er fordæðuskapur heitir í lögum: „Allar þessar íþróttir kendi hann með rúnum ok ljóðum þeim, er galdrar heita", svo þar eru meingjörðir og undir galdra-nafni. Svo er og tröllsnafn öðrum kvik-

---

1) A. fór; B. vor. 2) A. Samhljóða. 3) Hèr ber handr. ekki saman, og eru víst öll rángfærð. 4) A. alls kyns fjölkýngismaður og fjölkýngiskvinna. 5) B. hofs. 6) B. slíkt.

indum gefið, þeim er af einhverjum óhreinum anda [voru[1]] meint að stjórnast, þótt holdlegar skepnur væri að öðru eðli. Því sagði fóstra Þórodds í Eyrbyggju, kap. 63.[2], er hún heyrði kálfshljóðið Glæsis: „Þetta eru tröllslæti, sagði hún, en ei annars kvikindis“.

§ 4.

*c)* Þau voru[3] tröll hin þriðju, skepnur holdlegar, er bæði höfðu vöxt yfir mennska menn, og þar með slíkan fjandakrapt, allan af fjölkýngi sinni, sem[4] áður var frá sagt. Svoddan voru þau tröll á Heiðarskógi, sem Ólafs saga Tryggvasonar talar um, *lib.* 2., *kap.* 13.[5] Grettissaga, kap. 62., eignar tröllum fè, og er það holdlegra manna; þar segir og, að Grettir hjó hönd af tröllkonunni; það mátti ei ske af vofum[6], því þær eru ei holdlegar. Í sama kap. veit konan ekki, hvort[7] hana bar yfir ána maður eða tröll. Þá var hún í þeirri trú, að tröll hefði hold og bein, sem[8] manneskjur. Og líkamligur maður skyldi sá jötuninn vera, sem Grettir drap þar í hellinum, því iður hans flutu ofan eptir ánni; samt talar þar um, að Grettir var mjög laginn til að koma af reimleikum og apturgaungum; það lýtur að tröllum þeim, sem lögbókin nefnir. Þótt mèr verði svarað því, að sögur þær, er eg hefi vænzt að vitni, sèu diktur einn[9], eða mjög ýkjaðar[10], þá andsvara eg sem fyrr, að um merkíng orðsins sè minn ásetníngur skil að gjöra, eptir því sem trúað[11] var á fyrrum öldum, og ríður mèr því hèr[12] ekki neitt á sannindum sagnanna, því orðin hafa sömu merkíng, hvort sem talað er um uppdiktaðan hlut eður sannindi. En ekkert af þessum tröllsnöfnum, sem nú er sýnt að holdlega menn merkt[13] hafi, nær heim í Mannh. 2., heldur sú allein merkíngin, er fyrst var rituð, sem um anda talar og sjónhverfingar, það er, að[14] djöflar sýna sig í líkíng ýmsra líkamlegra skepna. Jötnar og risar af eintómis vexti voru sjaldan þursar kallaðir, nema ef svo skyldu menn Eddu skilja, sem eg þó eigi gjöri. Þó á hèr að minnast þess[15] af skipverjum Skallagríms, sem Þórir þurs er nefndur, og við hann eru kendir Þursstaðir[16] á Mýrum, ekki Þjóðstaðir, sem mèr hefir sagt verið að biskupinn *magister* Brinjólfur hafi viljað kalla þá jörð; en eg trúi laust þeirri sögu, því lesið mundi

---

1) [ ] om. B. 2) Báðar: 68. 3) A. þau eru. 4) C. add. næst. 5) Þáttur Þorst. Uxaf., kk. 9.—10. 6) A. töfrum; C. vopnum, ef. 7) A. hverr. 8) B, C. add. aðrar. 9) C. einar. 10) B. íknar. 11) A. talað. 12) B, C. nú hèr út í. 13) B. þýtt. 14) A, B. þær er. 15) B, C. þann. 16) A. þursastaðir.

hann hafa, að Þursstaði kallar Egilssaga; mætti þykja líklegt hann hafi verið einn af [þeim[1]] skipverjum Kvöldúlfs, er hamaðist, þá þeir feðgar drápu Guttormssonu, er þeir Hallvarður[2] og Sigtryggur vildu fært hafa til Haralds konúngs, áður þeir Kvöldúlfur og Skallagrímur feldu þá, sem sagan greinir, en þótt ei sèu til þess rök greind, því hann hafi verið þurs kallaður, og hann eigi heldur nafngreindur, þar sem segir: „Fleiri voru þá förunautar hans, er þá hömuðust".

Því vil eg hèr við auka, hvar af sprottnar sèu þær athlægisverðu skröksögur, sem enginn trúir, nema smábörn og þeir af almúganum, sem eru jafn-vanvitugir[3] smábörnum[4]; það er, þegar nátttröllin dagaði uppi, urðu þau að steinum; standa þeir steinar flestir á fjallabrúnum, eður hæð einhverri, en allfáir og[5] þó nokkrir á láglendi, og eru margir til sýnis á ýmsum stöðum[6] hèr á landi. Tilefnið og sannindin hèr um eru þetta, að einstakir klettatindar og háir einstakir steinar, sem í náttmyrkrinu[7] og þokunni hylti uppi, og sýndust hrærast, þegar menn horfðu lengi á þá, svo sjónin tók að skjálfa, reyndust vera klettar eður björg, þegar dagsljósið rak myrkrin í burtu, eður heiddi[8] frá þokuna, og með þessu móti voru það tröll í dimmunni, meðan þau sýndust hrærast, en urðu að steinum, *id est*[9], reyndust steinar, þegar dagurinn sýndi sannleikann. Ekki skortir sömu dæmi í *fabulis* annara landa, þótt eg innfæri hèr ekki nema það eitt, er af öðrum ber í Sæmundar-Eddu af Hjörvarði og Sigurlínu, er sumir kalla Helga kviðu Hundíngsbana aðra, þegar Helgi Hjörvarðsson rak hernað *in mari Balthico;* þar talar[10] tröllið Hrímgerður Hatadóttir lengi við þá Atla og Helga, þar til að dagur rann, þá varð hún að steini, og er[11] samtalsins niðurlag þetta. Atli kvað:

> Dagr er nú, Hrímgerðr,
> en þig dvalda[12] hefir
> Atli til aldrlaga.
> Hafnarmark þykir
> hlægiligt[13] vera,
> þars þú í steins líki stendr.

---

1) [ ] omitt. C. 2) B, C. Haraldur. 3) A; jafnvitugir. C. jafnvitrir. 4) A. smábörnunum. 5) B. om. og; C. en; 6) B, sögum. 7) A, C. náttmyrkrum. 8) B. heiddu. 9) A. og. 10) A. taladir. 11) C. var. 12) A. þú dvaldist. 13) A. hægiligt.

Er það gátulaust, að af átrúnaði fornaldar-almúga sè þessi *fabula* diktuð, eins og hinar, sem hèr í landi eru í munni[1] manna. En þó ætla eg þetta mál um Hrímgerði sè þá[2] rètt skilið, að hún var komin til viðleitni að hefna föður síns, eða fá bætur af Helga fyrir víg Hata jötuns, og þótti það ei með öllu óvænt um nóttina, meðan hún sá ekki glögglega herskipaflotann. En þegar dagsljósið sýndi henni afl og búníng herskipanna, fèll hún í stans og ráðaleysi um alla framkvæmd föðurhefndanna; og það ráðaleysi er meint, þar eð segir hún yrði að steini, rètt á sama[3] hátt og skáldin grísk og latínsk hafa diktað um *Medusam* og *Gorgones*, að þeir, sem fèllu í *stuporem*, það er stans og ráðaleysi[4], urðu að steinum; *vide Nat. comit. Mythol., libr. 7., cap. 11. et 12.* En það er almúgi (sem ekki skildi meiníngu spekínganna í þessum greinum, og ekki gaf gaum að því, er litlu fyrr var sagt, um dimmu næturinnar[5] og þokunnar) trúði, það holdlegir menn eður tröll mundi að steinum orðið hafa, sýnist mèr líklegt[6] að hafi sinn [fyrstan[7]] uppruna af afspurn þeirri, sem borizt hefir að eyrum heiðíngjanna um kvinnu Lots, er varð að salt-steini; *Gen.* 19.[8]

Þar sem eg hætti við um tröll að skrifa, *quatenus* sú *vocula* merkir *spectra omnis generis*, innfellur mèr það, er *anno* 1719 á Draungum *in hospitio nimbis et imbribus potentissimo* varð tiltalað um svoddan fyrirburði; minti mig þá, að eg hefði eitthvað þvílíkt lesið *in Herodoto, sed lapsu memoriæ in personis et circumstantiis hallucinatus sum.* Nú vil eg þá mína vangá leiðrètta, og vísa til historíunnar *in Herodoto Melpomeni, cap. 13., 14., 15., editionis, quæ Francofurti prodiit in folio 1608, de Aristeo quodam Castrobii filio,* sem eptir sinn skyndilegan dauða var sèður nokkrum sinnum og talaði við menn, 1, strax eptir dauðann, 2, svo 7 árum síðar, 3, 340 árum þar eptir, svo þá er hann kominn í sama tröllatal, sem Þorgerður Hörgabrúður.

## Túlkur[9].

Farml. 7.: *Stýrimaðr skal leiðsögumann til fá, en allir túlk.*

Öllum er það kunnugt enn í dag, að túlkur heitir sá, er

---

1) A. mynnum; C. minni. 2) C. það. 3) B, C. saman. 4) C. add. að þeir. 5) B. C. dimmunnar náttúru. 6) C. líkast. 7) [ ] om C. 8) hèr endar A og C þessa ritgjörð. 9) vantar í B, C.

samræðu þeirra, sem hvorigur skilur annars túngu, þýðir hvorumtveggja og saman dregur svo þeirra mál og erindi, að hver skilur annars vilja, eptir túlksins útskýring og undirvísun, því hann skal kunna túngu beggja saman talanda, ella getur hann eigi túlkur verið. Svo segir Laxdæla um Ólaf pá, er hann kom til Írlands: „Ólafr mælti ok svaraði á írsku", og strax: „Ólafr kvað þat lög vera, ef enginn væri túlkr með kaupmönnum". Svo segir og *Genes.* 42., 23., að Jósef talaði við bræður sína fyrir túlk, þá er hann lèt, sem ei skildi hann þeirra túngu. Er og þetta orð enn nú með Svíum í brúkun, að hjá þeim heitir „at fortolka"; það kalla Þýzkir verdolmetschen[1], þegar úr einhverri túngu er nokkru snúið í annað mál, og er það sýnilegt ættarmót. En hvaðan orðið túlkur hafi sinn uppruna, er vandi að segja, og tel eg enga óvirðing, þótt eigi geti eg skil á því gjört. Eður hverr vildi vænta, enn síður krefja, þess af nokkrum manni, að sýna *etymon* eður uppruna sannan sèrhvers orðs, sem fellur í tal með mönnum í heilli túngu? Björn segir „túlkur" sè dregið af „tali"; eg lofa það ei nè lasta. En ef það er nokkrum til vilja, að eg segi gátu mína, þá er hún, að það muni dregið af „þulur", sem þylur, það er: útþýðir fyrir báðum þeim, er hvorigur skilur annan, og er þá eins *formerað* þaðan, og „hólkur" er dregið af „holur"; og af „túlkur" er dregið að túlka til sín og túlka frá öðrum á þann hátt, sem túlkurinn með sinni ræðu lokkar þá saman, sem áður ekki skildu hvor annan. Vèr höfum nú á öld í daglegu máli „að forþýða fyrir mann", það er með góðum tillögum að mýkja mál hans við annan, og helzt æðri mann. Það sama kallar Arinbjörn í Egilssögu Skallagrímssonar, þegar hann vildi friðþægja fyrir Egli við Eirík konúng blóðöx í Jórvík *(Eboraco)* á Norðimbralandi: „Ek mun túlka mál þitt", það er: eg mun forþýða fyrir þig, mýkja svo mál þitt, að Eiríkur konúngur láti sèr vel skiljast afbatanir þínar, eins og túlkurinn kemur því til leiðar, að hvor skilur annars þánka, þar sem þó að hvorigur skilur annars túngu.

## Tvímánuður.[2]

[Mánaðar, hálfsmánaðar og tveggja mánaða stefna[3]].

Llb. 42.: *Ef maðr ferr heim í húshaga fyrir tvímánuð.*

Því er nú svo komið vor á meðal, að allfáir menn vita, hvað

1) A. verdolmerscher. 2) Tekið eptir A, B. 3) [ ] vantar í B.

tvímánuður er, og heyrt hefi eg þá, er vildu innbyrla mèr og öðrum, að tvímánuður væri annar mánuður sumars, og þá aðra, er hèldu hann vera fyrsta mánuð í sumri. [Nú þóttust hvorirtveggja bæði kunna lög og skilja fornyrði[1]]. Sá var þriðji, er nefndi fyrir mèr [bæði[2]] tvímánuð og þrímánuð; þóttist hann þeirra fróðastur, og svo mikið vissi hann, að tvímánuður var eptir midt sumar, og hafði [hann[3]] þetta numið af einhverjum þeim, er með litlum athuga lesið hafði rím sèra Odds Oddssonar, sem var á Reynivöllum, móðurfaðir Jóns Eyólfssonar vice-lögmanns. Hefir nefndur sèra Oddur þau mánaðanöfn sum, er eg hefi hvergi lesið, nema í því eina rími, sem eg hefi eignazt *fragment* af, og var það hans *autographum*, svo sem þeir sögðu mèr, er lifað höfðu samtíða börnum hans. Hann kallar þann seinmánuð, sem einmánuður heitir enn í dag á almenníngstúngu, og svo í Jónsb., Llb. 54., Grág., Lbr. þ. 13., og í sögunum, Sturl., *lib.* 10., *cap.* 7., og Ljósvetníngasögu, kap. 38.; *vide* „Einmánaðar-samkoma". En fjórða mánuð sumars kallar sèra Oddur einmánuð, og síðan tvímánuð og þrímánuð. Nú tel eg það furðu, að svo mjög voru þessir tveir lögvitríngar ógætnir, að þeir eigi gáðu þess, að Llb. 42. hefir tvímánuð fyrir selvistar[4] *termin*, og því mátti hann hvorki vera fyrsti nè annar [mánuður[5]] í sumrinu, og ei hinn þriðji, sem ljóst er af sama kapítula. Það undrar mig stórlega, að Björn á Skarðsá hefir ekki tvímánuð meðal fornyrða í þeim tveim *exemplaribus* af skrifi hans, sem fyrir mig hafa borið. Nú er hèr með ekki grein á gjör[6], hvað að sè tvímánuður, þótt hann standi [nefndur[7]] í Hólmverjasögu, bæði í 3. og 10. kap., og í Grettissögu, kap. 32., svo sem öllum alkunnur[8] tími. Er sú regla fáorðust, til að vita þann rètta inngáng tvímánaðar, sem í gamla-stýl skyldi vera: „að tvímánuðr kom daginn fyrir Máríumessu fyrri, nema á varnaðar-ári, þá kom hann á þriðjudag[9] næstan eptir". Nú síðan sá nýi-stýll er innkominn, þá er reglan þessi: „Tvímánuður kemur á þriðjudag, aldrei fyrr en 21. Ágúst, það er deginum fyrir Symforianusmessu, og aldrei síðar en 27. Ágúst, það er deginum fyrir drottníngar Lovísu fæðíngardag; [á þeim dögum verður einn þriðjudagur; hann er æfinlega fyrstur í tvímánuði,

1) [ ] vantar í A. 2) [ ] om. B. 3) [ ] om. A. 4) A. selstöðu. 5) [ ] om. A. 6) B. gjört. 7) [ ] om. B. 8) B. alkunnugur. 9) B. þriðjudaginn.

nema varnaðar- ár sè, þá kemur tvímánuður á þriðjudag þann 28., það er á drottníngar Lovísu fæðíngardag[1]], deginum fyrir sjálfan höfuðdaginn". Nú upp á það eg sýni rök og skilmerki hèr til, þá skal eg byrja þar mánaðatalið á þorra og gói, sem enn í dag er öllum kunnugt, þó eg meini sannlega, að þeir heiðnu forfeður vorir í Noregi og hèr á landi hafi byrjað ár sitt með jafndægrum á vorin; en það er gátulaust, að frá þeim eru mánaðanöfn þau hin gömlu til vor komin, svo sem vottar Ólafs saga Tryggvasonar, af Þorra konúngi og Gói, dóttur hans. Og heiðið var þá þetta land, er Grímkell, faðir Harðar, fèkk Signýar, og Illugi rauði Þuríðar, dóttur Grímkels, í Hólmverjasögu, kap. 3. og 10., þó var til hvorstveggja þeirra konfángs ákveðin brúðkaupsstefna að tvímánuði, og sama nafn hefir hann hjá Norðmönnum haft, eins síðan þeir tóku kristni. Það sýna Gulaþíngslög hin fornu, þar er tvímánuður selvistartakmark, eins og hjá oss, svo og í Gulaþíngs og Frostaþíngs bókum Magnúsar konúngs lagabætis, Llb., kap. 38. Röð og nöfn mánaðanna eru þessi: Þorri kemur á föstudag; hann skal telja þrítugnættan, og endast hann laugardag að aptni. Gói kemur sunnudag; hún er og þrítugnætt, og endast mánudag að aptni. Einmánuður kemur þriðjudag; hann er þrítugnættur, og endast miðvikudags- k v ö l d i ð[2] [síðasta í vetri[3]]; þennan kallar sèra Oddur seinmánuð eigi með rèttu, það mig skynjar. Sèra Þórður Sveinsson í rími því, sem hann hefir með eigin hendi skrifað í Skálholti *anno* 1665[4], kallar þennan mánuð vetrar-einmánuð, [en síðan kallar hann fjórða mánuð sumars sumar-einmánuð[5]]; segir hann í gamla daga kallaðan Óðinsmánuð; læt eg öðrum eptir, að upp leita rök til þess, ef nokkur eru til; fyrir mig hafa þau ekki b o r i ð[6], svo eg minnist; en furða væri, a ð h a n n[7] hefði svo skrifað heima þar hjá svo hálærðum manni, sem biskupinn *magister* Brynjólfur var, ef engin væri til þess átylla. Þó er ekki að neita því, að stórlega hefir sèra Þórði mistekizt í því, er hann í sama rími skrifar um inngaungu tvímánaðar, og það meira er, að alt frá því hann endar á raungu takmarki sinn annan sumarmánuð, þann er hann kallar skerplu, eins og sèra Oddur, þá veður sèra Þórður í reyk um inngáng allra mánaðanna, og hefir sá góði mann hvorki vitað upphaf þeirra nè endíngardaga, eptir

1) [ ] om. A. 2) B. kvöld. 3) [ ] om. B. 4) B. 1655. 5) [ ] om. A. 6) B. komið. 7) B. var hann.

norrænu missiristali fornaldar, en sèra Oddur hefir allra þeirra inngaungu og útgaungu vikudaga bæði vitað og ritað rèttilega, og altíð skiptir rím hans mánuði hverjum í helmínga tvo fimtánnætta. Til dæmis: Þorri gengur inn á föstudag, svo hans fyrri helft fylgja æ þrír föstudagar; þorra seinni helft kemur á laugardag, svo henni fylgja ætíð þrír laugardagar, og svo um sèrhvern mánuð árið um kríng, eptir þeirra inngángs-vikudegi, svo það verður hjá honum nær því alt í sínum skorðum, þótt ein misgætni fljóti þar á milli, sem litlu síðar verð eg að geta. En þar sem rím sèra Þórðar hefir í því svo ramlega vilzt, er hann skrifar um árið Norskra og inngaungu þess mánaða, þykir mèr ei ómaksvert þar um að *disputera* mörgum orðum. Hans rím hefir og *divulgerað* þá villu, að veturinn komi[1] á föstudag, þvert á móti lögbókunum, bæði Jónsbók og Grágás, og á móti þeim gömlu rímmeisturum. Samt er ekki sèra Þórður höfundur að þeirri stóru vangá, því að rím það, er prófasturinn sèra Jón Árnason hefir í góðri vinsemi lèð mèr, og í mörgu hefir líkindi til góðrar elli, setur á rímspillisári vetrarkomuna á 17. dag *Oktobris*, sem efalaust vill vera föstudagur næstur fyrir Lúkasmessu, því að E skal vera *dominicalis* á rímspillisári. Eg sagði þetta rím hafa mörg líkindi til góðrar elli; þau eru það: Hann hefir ekki gyllini-tal, nema hið forna; það annað, að rímstokkurinn sjálfur [hefir[2]] ekki neitt dagatal *calendarii Juliani*, heldur sunnudags-bókstafinn alleina með *calendis, nonis* og *idibus*, svo sýnilegt er, hann hefir tilætlað við þá merkidaga að miða dagatalið, svo sem gjörðu lærðir menn á fyrri öldum; það þriðja, að hann setur sólarmerkjanna *termin* á dagatal *calendarii Juliani*, miklu síðar, en samboðið geti næstliðnum þremur *seculis*; og ljóst er, að ekki getur það hvorttveggja staðizt, upphaf töflu 1616, og sól fyrir steingeit 18. *Desembris*. Hann hefir og aðrar fornar rímreglur, þær eð niðurbrjóta þessa vangá hans um inngaungu vetrar, og setja hana í rèttan stað á laugardegi, hvar af þreifanlegt er, að rímstokkurinn sjálfur og aðrar fornar rím-reglur[3] sèu skrifaðar eptir forgömlu rími; en það[4] veturinn skipar á föstudag, hafi skrifarinn tekið eptir nýgjörvíngum, sèr samtíða, þegar hann *anno* 1633 skrifaði sitt exemplar, og er það vottur til, að þá þegar hafi nokkrir komnir verið í þá villu. En hversu sem þessu er varið, og

1) B. kæmi. 2) [ ] om A. 3) B. hinar fornu reglurnar. 4) B. þá er.

hversu mjög sem[1] vor góði sèra Þórður hefir vilzt um inngáng mánaðanna, þá hefir hann samt athugað, að ártal Norðmanna skortir einn dag á lengd við *annum Julianum*, og tvo þegar hlaupár er, og segir hann rètt, að sú er orsök til sumaraukans, er Þorsteinn surtur fann, sem vottar Ari fróði, *pag.* 4. og 5.; og er það enn til merkis, að þá hafi mitt þrítugnætta mánaðatal í brúkun verið hèr á landi, að sumaraukinn og allar þar að húígandi *observationes* um varnaðarár og rímspilli eru til þess gjörðar, að eigi skyldu þrítugnættu mánuðirnir úr skorðum gánga, svo sem enn í dag vottar þorri, gói, einmánuður, miðsumar og vetrar-koma; segir Ari fróði [það skýrlega, *pagg. citt.*, er þessu mínu máli skal vitni bera[2]]. Sumarmánuður fyrsti kemur fimtudag; hann heitir í Eddugau kmánuður, því þá koma sumarfuglar, og sáðtíð öðru nafni; hann skal telja þrítugnættan og endast föstudag að aptni; þennan kallar sèra Oddur hörpumánuð, og heyrt hefi eg fleira gamalt fólk svo kalla. Annar mánuður sumars kemur laugardag; hann heitir í Eddu eggtíð og stekktíð; hann er og þrítugnættur og endast sunnudag að aptni; þennan nefnir sèra Oddur skerplu, og nokkrir fleiri kalla svo. Þriðji mánuður sumars kemur mánudag; hann heitir í Eddu [sólmánuður vegna lángdægris, og[3]] selmánuður, því þá skal í sel færa búsmala; hann endast þriðjudag að aptni; honum fylgja þær 4 nætur, sem sumar er lengra en vetur, það eru miðvikudagur, fimtudagur, föstudagur og laugardagur. Þennan kallar sèra Oddur stuttnættismánuð, og leggur við hann aptan[4] 5 daga, til að fylla þar með *annum Julianum*, og furðar mig þann misgáníng á svo góðum og gætnum *computista*, sem hann hefir verið, því að sá fimti dagurinn, sem hann eykur hèr, náir engu vikudagssæti í þrítugnættu mánaðanna reglum, og þó lætur sèra Oddur alla þá, eins hèðan frá á árinu, svo sem á þeim sex, sem nú eru taldir, hafa sinn rètta og vissa vikudag sinnar útgaungu, svo að[5] ómögulegt er að staðizt geti, því sá eini dagur, sem þetta ártal skortir við *annum Julii*[6], veldur því, að allir tímar ársins, sem á vissum vikudögum standa, færast upp eptir mánaðardagatali *anni Juliani*, svo að þar sem þorri kemur eitt árið á föstudag, 23. Janúarí í þessum nýa stýl, þar kemur hann árið næsta eptir föstudag þann 22. Janúarí, og hið þriðja 21., en hið fjórða 19. vegna hlaupársins; þá skýtur sum-

---

1) B. hvað mjög sem. 2) [ ] om. B. 3) [ ] om. B. 4) B. aptanverðan. 5) hvað, alia mscta. 6) Juliani?

araukinn honum niður aptur á þann 25. Janúari. Eins fer um sumarkomuna, að hennar fimtudagur þokast[1] frá því næsta *termini* 25. Apríl eptir nýa-stýl, alt upp á þann 19. Apríl, þá kippir sumaraukinn þeim[2] fimtudegi niður í sitt fyrra sæti. Sama er um vetrarkomu laugardaginn[3] og allra þrítugnættu mánaðanna inngaungur[4], en á þeim eru búskaparhættir þessa lands allir grundvallaðir, og svo það alt, sem í lögbókinni snertir mánaðatal með einhverjum hætti, hvar um litlu síðar skal með rökum tala. Hefði nú þann eina dag ekki vantað í það þrítugnætta mánaðarím, þá hefðu hèr þvert á móti inngaungur[5] þessara gömlu mánaða færzt niður eptir vikudagatalinu, eins og þær óhræranlegu hátíðir í *calendario Juliano*, þar sem jóladagur og nýarsdagur, eitt árið á sunnudegi, verða næst eptir á mánudag[6], *etc.*

Af þessari vangá sèra Odds, svo lærður skynsemdarmaður sem hann var, kemur það, sem eigi gat brugðizt, að þar sem í sjálfum rímstokk hans verður B föstudagsbókstafur, en[7] D sunnudagsbókstafur, þar[7] fellur fimti dagurinn[9], sem hann eykur við sinn stuttnættismánuð, upp á sunnudagsbókstafinn D, svo sem vonlegt var, en fyrsti dagur hins fjórða sumarmánaðar upp á E, sem þá er mánudagsstafur; samt[10] skrifar hann þess mánaðar inngáng á sunnudegi, svo sem rètt er og samkvæmt öllum þessa[11] tímatals reglum.

Fjórði mánuður sumars kemur sunnudag; hann heitir í Eddu heyannir; hann skal telja þrítugnættan og enda mánudag að aptni. Þennan [kallar[12]] sèra Oddur einmánuð órètt, að eg meina.

Fimti mánuður sumars er tvímánuður, sá er allur þessi *discours* rís af. Svo kallast hann á einni *membrana* í *bibliotheca* vors allra-náðugasta konúngs, og þann *paragraphum* eður *appendicem* nefnir sama *membrana* „bókarbót", og sá er annar grundvöllur alls þess, sem eg um þessi mánaðanöfn og inngaungu skrifa í þessum fornyrðum, en annar er Edda, bæði eptir *codice regio* og *[codice[13]] Wormiano*, sem nú á *assessor* Magnússon, en sál. dr. *Olaus Worm* eignaðist af móðurföður mínum, sèra Arngrími. Þriðji grundvöllurinn eru *Schedæ* Ara

---

1) Þetta orð vantar í báðar; en B segir í neðanmálsgrein, að það sè í sumum handr. 2) þeim om. A. 3) B. laugardaga. 4) B. inngáng. 5) A. inngángur. 6) B. mánudegi. 7) B. og. 8) B. þá. 9) A. fimtudagurinn. 10) B. þó. 11) A. þess. 12) [ ] vantar í B. 13) [ ] om. B.

prests fróða, áður *citeraðar pag.* 4., 5. Regluna af þeim gamla stýl hefi eg úngur lært af[1] því, er með penna *nóterað* var á þryktri lögbók, er átti Oddur Jónsson, klausturhaldari á Reynistað, og nú mun hjá örfum hans; en regluna eptir nýa stýl hefi eg *formerað* til samkvæmis við vetrarkomu, þá er prófasturinn sèra Jón Árnason á Stað í Steingrímsfirði hefir sett í rími sínu, að lagfærðu því, er hann, ásamt mörgum öðrum nú á öld, lætur veturinn koma á föstudag, á móti lögbókinni og þeim gömlu rímmeisturum öllum, er kunnað hafa mánaðatalið óbagað, og hugleidt atkvæði lögmálsins, er þar að lúta, sem[2] snart skal *demonstrerast.* Þessi margnefndi tvímánuður kemur þriðjudag, sem áður er sagt; hann kallar Edda kornskurðarmánuð; hann skal telja þrítugnættan, og enda miðvikudag að aptni. Þennan nefnir sèra Oddur tvímánuð, bæði í sjálfu ríminu og þess útskýríngu, og það hefir hann, ásamt þorra og gói, þriðja mánaðarnafn óbagað.

Sjötti mánuður sumars kemur fimtudag; hann heitir í Eddu haustmánuður; hann skal telja þrítugnættan, og enda föstudag að aptni. Þennan kallar sèra Oddur þrímánuð.

Vetur kemur laugardag, og heitir hinn fyrsti mánuður í vetri gormánuður, bæði í Bókarbót og í Eddu; hann skal telja þrítugnættan, og enda sunnudag að aptni. Þennan kallar sèra Oddur vetrarmánuð.

Annar mánuður í vetri kemur mánudag; hann heitir í Bókarbót ýlir, en í Eddu frermánuður; hann skal telja þrítugnættan, og enda þriðjudag að aptni. Þennan kallar sèra Oddur skammdegismánuð.

Þriðji mánuður [í vetri[3]] kemur miðvikudag; hann heitir í Bókarbót mörsugur, en í Eddu hrútmánuður; hann skal telja þrítugnættan, og enda fimtudag að aptni, þá er þorri gengur inn deginum eptir á sínum föstudegi. Þennan kallar sèra Oddur Kristmánuð, og höfum vèr nú gengið árið um kríng að vikudaga-tali, svo þar í skortir engan, en bótina við því, sem einn dag brestur upp á lengd ársins við *calendarium Julianum,* svo sem eg hefi áður sagt[4] um þriðja sumarmánuðinn, kennir Bókarbót með þessum orðum: „Í þvísa tali þarf at auka hit sjöunda hvert sumar viku, en ef hlaupár verða tvö á þeirri stund, þá skal auka it sètta; *cfr.* Ara fróða, *pag.* 4. og 5. En hvaðan þeir hafi dregið sínar nafngiptir, einmánuður,

1) B. á. 2) B. og. 3) [ ] om. A. 4) B. sýnt.

síðastur í vetri, og tvímánuður, annar fyrir framan þann fyrsta vetrarmánuð, kunna menn margs til að geta, því að hvorki er ólíklegt, að heiðnir menn hafi byrjað ár sitt með jafndægri, þá þeir sáu, að sól gekk svo mjög híngað til vor norður, að dagar tóku að gjörast lengri en nætur, og hin fyrsta einmánaðarkoma nær alt upp á sjálf jafndægrin, 20. Marz. Þar á mót kann tvímánaðar seinasti hluti að ná ofan allt að jafndægri, þegar[1] sumarauki hrindir honum niður eptir sumrinu, svo sem hvorttveggja skeði 1714. Þá kom einmánuður 20. Marz, og var þá jafndægurt einu sinni, en tvímánuður vegna sumaraukans ekki fyrri en 28. Ágúst. Urðu þá jafndægur annað sinn þann 23. Sept., þrem nóttum fyrr en tvímánuður endaðist á því ári. Það er enn, að varnaðarár snertir ei nema 9 mánuði ársins, og er tvímánuður annar í þeirra tölu, en einmánuður níundi, og verður hann þá stakur. Það er þriðja, ef árið er byrjað á einmánuði, þá verður tvímánuður annar sá, er hefst á sama vikudegi, sem áður hafði sá fyrsti byrjazt, og gjörir það síðan hverr eptir annan þeirra þriggja, er næst eptir hann koma, haustmánuður á fimtudag, eins og gaukmánuður, gormánuður á laugardag, eins og eggtíð, frermánuður á mánudag, eins og selmánuður, þótt mörsugur og þorri verði hvor sèr um vikudag; en af þeim tveimur, er hvor byrjast á drottinsdag, fylgir sinn hvorum eptir, einmánuður gói, en tvímánuður heyönnum. Samt get eg ekki því neitað, að mèr sýnist öll þessi gáta standa á veikum fæti, svo sem gjarnt er *etymologiis*. Það sýnist mèr líkast, að einmánuður heiti svo af því, að hann er þá einn eptir vetrarins, en tvímánuður, af því þá eru tveir eptir af sumrinu. Leiðir mig það helzt í þennan þánka, að eg sè þær aldir, ekki síður enn nú, hafa nafnkennt tíðirnar af bili þeirra frá eptirkomandi tíðum eins gjarnan, sem af þeim undangengnu. Svo segir vor lögbók Lbr. 10.: „sjö nóttum fyrir sumar". og Llb. 46.: „Laugardaginn áðr en 4 eru vikur til vetrar"; og svo segir í Njálu, þegar Gunnar skyldi sækja heimboðið í Túngu til Ásgríms Elliðagrímssonar: „Líðr nú sumarit til átta vikna", það er til leiðar (*vide* Leið og Leiðarþing, og hversu Grágás í þeim greinum, sem þar hefi eg fram leidt, mælir bæði leið og dómsstefnur við vetrarkomuna). Og ekki get eg öðruvísi skilið Víga-Glúmssögu, kap. 24., þegar Glúmur skyldi færast undan vígi Þorvalds

1) svo B.

króks, segir eiðurinn skyldi unninn um haustið að fimm vikum; þá bauð Már mönnum. Þetta skilst mèr fimm vikum fyrir vetur. Eins get eg að tvímánuður hafi sitt nafn fengið til varnaðar búmönnum, að þá væri tveir einir mánuðir til vetrar, og bæri því[1] nauðsyn til, að gæta sumar[2]-útrèttínga. Einmánuður þar á mót til huggunar í vetrarstríði bænda, að sumarið færi þá í hönd að einum mánuði liðnum[3].

En svo menn sjái, það er ei nauðsynjalaust þeim, er lög eiga að dæma hèr á landi, að vita þetta mánaðatal glögglega, nè heldur þarflaust öðrum konúngsins þegnum, sem allir eiga að njóta laga, hvort sem þeir eru andlegrar eður veraldlegrar stèttar, þá bið eg, að fyrir utan þá grein bókarinnar, sem áður er hèr innfærð, vilji menn hugleiða eptirfylgjandi greinir bókarinnar: Framfb. 10.: „Síðan sólu er selt um sumar, en degi um vetr". Llb. 16.: „Hann skal gjöra þar kol, ok hafa burt flutt fyrir vetrnætr hinar næstu". *Ibid.:* „Bera saman lim ok fauska ok stofna í köstu fyrir vetrnætr hinar næstu". Llb. 45.: „Sól skal um sumar, en dagr um vetr flutningi ráða". Llb. 46.: „Laugardaginn áðr 4 vikur eru til vetrar". Llb. 49.: „Ef hrútr eðr hafr kemr í fè manns fyrir vetrnætr". *Ibid.:* „Lýsi at kirkju sinni á hverjum tveim mánuðum til samans". *Ibidem:* „Eignist hann at þriðja hausti, ef hann hefir at lögum lýst". Llb. 50.: „Nú kemr sá til, er sauði á, eðr hans löglegr umboðsmaðr, áðr tveir mánuðir eru af vetri". *Ibidem:* „Hann eignist á þriðja hausti". *Ibid.:* „Ef maðr kemr seinna eptir fèinu, en tveir mánuðir eru af vetri". *Ibid.:* „Nú kemr eigandi, eðr hans umboðsmaðr, áðr þrjú sumur eru úti". *Ibid.:* „Ef sauðir koma í fè manns eptir vetrnætr". Llb. 5.: „Ef leiguliði kemr ei til jarðar, þá er sjö vikur eru af sumri". Llb. 8.: „Fimmti dagr, er sex vikur eru af sumri, er hinn fyrsti fardagr". Fml. 3.: „Ei eru bændr skyldir, at fá griðmönnum eyki, fyrr en sex vikur eru af sumri, ok eigi síðar, en fjórar vikur lifa sumars". Nú má ekki gjöra slíkt að furðu, þó að vorir hinir heiðnu formenn skömtuðu sitt ár í þrítugnætta mánuði, því líkast er, að bæði mánaðaskiptin og aðra speki hafi þeir af Óðni numið. Svo segir Snorri Sturluson um hann og innbyggendur þessara norðurlanda: „Af honum numu þeir allar íþróttir, því hann kunni fyrstr flestar allar". En það vitum vèr, að Óðinn og selskapur hans var úr Asía til vor kominn. Hitt lærum vèr af

1) B. þeirri. 2.) A sinna. 3) Hèr endar B. þessa ritgjörð.

*Scaliger de Emend. temp.,* að bæði egypzkir, sýrlenzkir, ebreskir, Persar og allar þjóðir austurálfunnar hafa deilt sitt ár í 12 þrítugnætta mánuði, en aukadögunum, sem gengu þar af, hafa þær þjóðir inn skotið í árið með ýmsu móti, og það hafi ollað því, að sýnzt hafi, meðan eigi var grant athugað, svo sem hver þjóðin hefði mánaðatal ólíkt annari, svo sem kennir *Alsted* eptir *Scaliger Encyclopæd., libr. 17., Uranometr., part. 3., reg. 13.,* og í sama kap. leggur hann það til, að *Chaldæi* og egypzkir hafi inn skotið fimm aukadögum við endíngu þess síðasta mánaðarins. Eg segi fimm aukadögum, því svo töluðu þeir. *Herodotus in Euterpe, cap. 4.,* skrifar útþrykkilega, egypzkir hafi fyrstir manna deilt árið í 12 þrítugnætta mánuði, en skotið fimm aukadögum inn, öllum í einu. Hvað er nú líkara voru rími, nema hvað mismunar um þann eina daginn? En þótt að vorir formenn alt fram til Þorsteins surts eigi gættu þess staka dagsins, sem árið hafði fram yfir heilar vikur, og því síður aukastundanna, sem *Sosigenes,* egypzkur stjörnumeistari *Julii* keisara, leiddi fyrir ljósið einum 54 árum fyrir Krists fæðíng, og keisarinn, eptir hans undirvísan, skipaði síðan eptir sínar nýu rímreglur; meðkennir *Scaliger,* að ei hafi sólarárið með þeim 6 stunda auka fyrr í tíðkan verið. Hvernin mátti þá Óðinn færa það híngað í norðurlönd með sinni komu 20 eður 30 árum fyrr en þær hálærðu þjóðir suður í löndum höfðu það upp tekið? það meira er, að sumar þjóðir töldu sitt ár lengra en 354 daga eptir túnglinu, og urðu því að auka þriðja hvert ár heilum mánuði þrítugnátta, svo sem vottar *Alsted libr. 8 cap. cit., reg. 13.* Mèr verður svarað, að þótt vorir heiðnu fornaldarmenn hafi talið sína mánuði þrítugnætta með fjórum aukadögum, og síðan aukavikunni, sem Surtur kenndi, þá fylgir það ei eptir, að í tíð Magnúsar konúngs lagabætis hafi það mánaðatal haldizt; með kristindóminum hafi *calendarium Julianum* strax inn komið til vor og þessi mánaða-lengd. Eg svara: *Calendarium Julianum* var alleina viðtekið í þeim erindum, sem að kristindómi lutu eður ártíðum helgra manna, og þeirri grein, sem aukastundirnar kendi til hlaupárs innsetníngar, en ei hafi þeir Danir eður Norðmenn, sem reistu suður um Þýzkaland, *Italiam* og Frakkland, áður lært þeirra 6 stunda þekkíngu hjá kristnum þjóðum, og verið búnir að kenna sínum löndum hlaupárs-reglurnar. Og þó nam ekki þetta *Julii Cæsaris* rím meiri staðar en svo, að þá höfðu menn bæði hèr og í Noregi sitt

kristindóms-ár, *annum ecclesiasticum*, með tvennu móti, það eina miðað við ártíðir helgra manna, eptir *calendario Juliano*, og hófst þó ekki tala sú með *Januario*, heldur með jólum kristinna manna, svo sem Kristinrèttirnir, bæði norskir og hèr á landi gjörðir, útvísa berlega. En Kristinrèttur í Frostuþíngsbók Hákonar konúngs byrjar helgra daga reikníng með páskum, og lætur hvorttveggja fjærri *calendis Januarii*. Það annað kristindóms-ártal sitt hófu þeir með níuviknaföstu-inngángi eptir páska-öld *Dionysii*, og prykstafa-töflu þeirri, sem taflbyrðíngur er kölluð. Vilji menn segja, að það hafi byrjazt með *Adventu*-sunnudegi hinum fyrsta, læt eg það í sínu gildi, þótt eg meini það hjá Norðmönnum og oss laungu síðar inn komið, og þykist ei sjá rök til þess í helgitali Kristinrèttanna. Sjáum vèr þá, að mánaðatal *calendarii Juliani* rèði hèr engu, nema náttatali milli helganna, sem páfarnir stiptað höfðu, svo lángt var frá, að það væri viðtekið *in annum politicum*. Landstjórnar- og búskapar-árið, það bleif að öllu við hina fornu venju, sem Ari fróði skýrir frá, nema því einu, að menn lærðu glögt að innfæra hlaupársdaginn fjórða hvert ár, ef hann hefir eigi verið áður nógu kunnur orðinn á þeim frekum þúsund ára tíma, sem hann hafði viðgengizt um öll þau lönd, er vald Rómverja, og síðan hinna keisaranna kristinna, bæði í Miklagarði og svo fyrir vestan fjall, *Caroli Magni* og hans eptirkomanda, til náði. Getur það enginn sagt, að hjá oss hafi þrítugnættu mánaða reglurnar allar staðið við sama mund sumarauka og rímspilli, þar sem enn í dag haldast þær fyrir þann eina tilgáng, en engan annan, og snerta svo *calendarium Julianum* alls ekki, fremur vorn *annum civilem* eður búskaparár í neinni grein, fram alt til *Luthers Reformation* var til fulls viðtekin hèr í landi. Þá hið fyrsta tóku menn að skrifa daga mánaðanna *Juliani anni* á brèfum sínum og gjörníngum; en þángað til voru slíkir hlutir allir taldir og miðaðir, annaðhvort við árstíðir helgra manna, svo sem smábörnum er kunnugt, eða við vikudaga vors búskaparárs-mánaða, svo sem: sunnudaginn fyrstan í þorra, mánudaginn þann annan í gói, þriðjudaginn í miðjan einmánuð, miðvikudaginn annan í sumri, fimtudaginn næstan eptir midt sumar, föstudaginn seinastan í sumri, laugardaginn í annari viku vetrar. Er þetta svo kunnugt, að hlægilegt mundi þykja, að *citera* slíkra brèfa óteljandi fjölda, sem öllum flækjast um hendur. Það er meira,

að enn þá framan af dögum þeirrar evangelisku kirkju varaði um stund hin forna venja, að dagatalið var mælt við heilagra manna messudaga, svo sem konúngs Kristjáns þriðja brèf eigi allfá útvísa. Sjá menn eitt af þeim bak við hinar þryktu lögbækur, *daterað á sancti Galli confessoris* messudag, 16. Október 1551, en hin eru inn til þessa dags engin sèn nè fundin, er í kathólskra tíð segi 1., 2., 3., 12., 19., *etc.*, Janúar, Febrúar, *etc.* Játa eg því, að allmörg finnast til þess dæmi, að við gjörníngabrèf ýmisleg eru dagarnir í latínu skrifaðir: *Pridie kalendas, 2. nonas, 4. idus Januarii, Februarii, Martii, etc.*, og í *monumentis* ýmsum eptir dauða menn, líka nokkrum sinnum í sögunum um stórtíðindi, og einna mest um orustur og fall stórhöfðíngja, en það er annaðhvort af fordyld sögumeistarans gjört, alleina fyrir lærða menn, eður það er gjört fyrir sálumessu framliðinna, sem prestar þeirrar aldar áttu að minnast, sèrdeilis þar, sem fè var lagt til kirkju, til þess að sálumessur eigi fèlli niður, og gjörir enga bevísíng til þess, að þar fyrir væri dagatal nè mánuðir *calendarii Juliani* viðtekið í vorn *annum politicum*, landstjórnar-árið, sem enn er þar af ljóst, að *idus*, *nonæ* og *kalendæ* hafa ekkert nafn á vora túngu, og ekkert sæti í málinu, nema í munni lærðra manna. En hitt er ótalfalt, að dómar og statútur, sáttmálar og *contracter* allrahanda, jafnvel ártíðir helgra manna og sagnanna stórtíðindi eru merkt og miðuð við sumar og vetur, þorra og góu, einmánuð og tvímánuð, eptir *anno civili* almúgans. Skoði menn lögin sjálf, Llb. 12., sem selför og fráfærur miðar við sumarkomu. Skoði menn Llb. 46., 47., 49., 50., 54., sem allir miða tímana við sumar og vetur, þorra og einmánuð, sem alt stendur á þrítugnættra mánaða tali, fráleitu *calendario Juliano!* Eður hvar til skyldi sú varúð öll, og allar þær reglur, sem um sumarauka, rímspilli eður varnaðarár eru gjörðar með svo stórum athuga, ef að þrítugnættu-mánuðirnir skyldu ei þar með varðveitast í sínum skorðum óhrærðir og óbifandi vegna landstjórnar- og búskapar-ársins? Hugleiði menn, hvort ei kunni bóndans aleiga að ríða á fardaganna lögmáli, en þeir ríða á þrítugnættu mánuðunum. Hugleiði menn, hvað verða vill um eign og heimild til sauða, ef veturnátta takmarkið og þorra skeikar! En það er byggt á þrítugnættum mánuðum, og ekkert er til í lögbókinni mánaðatal eður hálfs mánaðar, annað en þrítugnætt alleina; þar af er sú margtíða fimt lögbókarinnar, sjöttúngur eður þriðjúngur. En

alt annað tímatal, sem lögbókin ákveður, greinir hún í vikur eður nætur eður dægur; dægur greinir hún Mannh. 2., 6., 10., Llb. 33., 45., Rekab. 4., Fml. 21.; þíng þrínætt Llb. 39.; „þriggja nátta frestr at fá til ferju, þá hin fyrri fyrnist", Llb. 45. Fram hjá fimtarstefnu geng eg í þetta sinn. Sjö nátta frestur er í bókinni, Erfðat. 18., Lbr. 10., Kaupb. 10., Fml. 19., 25., 3., Þjófab. 13. Fjórtán nátta í Llb. 37., og Rèttarb. Eiríks konúngs í Kaupab. 3. í þeim þryktu bókum; en í Grágás og Kristinrètti þeirra Þorláks og Ketils biskupa er þessi fjórtán nátta frestur margtíður, og sjö nátta fresturinn sífeldur í Grágás allri. Í engri þessara þriggja bóka hef eg fundið, að fjórtán nætur kallist hálfur mánuður, eður þar, sem einu sinni er hálfs-mánaðar-tími fyrirskrifaður, sè í annað sinn um sama efni 14 nætur svo ákveðnar, að með samburði greinanna verði ráðið, að 14 nætur kallist hálfur mánuður nokkurn tíma. Mèr verður *objicerað*, að rèttarbót Eiríks konúngs: „Þeir prestar hafi prófastsdæmi", *etc.*, *lege* 15, skipi hálfs-mánaðar-stefnu til skuldalúkníngar, og síðan aðfararþíng, þegar sækjandi vill, þar á mót skipi rèttarbót sama konúngs, innfærð í þær prentuðu bækur, Kaupab. 3., heimstefnu á 14 nátta fresti, síðan þíngstefnu, og síðan aðför, og því sè hálfur mánuður hinnar fyrri rèttarbótar 14 nætur hinnar síðari, *adeoque* alt hið sama. Eg svara: Menn villa sig hèr með samslengíngu tímanna og athugaleysi þess forna texta bókarinnar, og orsök landsmanna beiðslu um rèttarbótina.

1, er það ekki víst, hvor rèttarbótin fyrri útgefin sè; ártal þeirra, sem í Kaupabálk er innfærð, höfum vèr í *membranis* þeim allra-beztu 1293. Hina hefi eg aldrei sèð með ártali; þar sem hún er heil og óslitin, þar er sýnilegt af hennar *lege* 20., að hún er í fyrstunni gefin Noregs innbyggjurum, þótt það ekki sjáist af þeim sundurslitnu pörtum hennar, sem þryktir eru bak við vora lögbók; samt hafa þó vorir fyrri menn ekki tekið rángt til í því, að halda hana fyrir lög hèr á landi, því að hún, þar sem heil er, vottar sjálf að vera gefin öllu Noregsríki, og líkara sýnist mèr, að hún sè gefin síðar, en hin, sem vèr höfum, muni laungu síðar innfærð í Kaupab. 3., líkast eptir 1400. Þar fyrir meina eg svo, að þessi, sem ártalið vantar, sè síðar útgefin en hin, að hún er sækendum skulda sinna miklu inndælli, en sú *dateraða* 1293. Og hefðu vorir landsmenn ekki þessarar með þurft, ef hin hefði útgengin verið, þar sem þeir þó meðtóku þá ártalslausu, og þektu fyrir þessa lands lög, svo

sem eins lims af Noregskonúngsríki. Ef að þetta kynni bregðast, og væri sú ártalslausa rèttarbót útgefin fyrr en 1293, þá er það óefanlegt, að *ministri* Eiríks konúngs hafa gleymt að senda hana híngað, og hún því verið hèr ókunn, því aldrei hefðu vorir landsmenn annars beðið um þau lögin, sem sækendum rèttra mála væri torveldari, ef þeir hefðu vitað þau auðveldari, og þetta bið eg menn fyrst hugleiða.

2, Skoði menn texta bókarinnar óumbreyttan, aldeilis svo, sem hann var útgefinn af Magnúsi konúngi; og með því eg veit hann er ekki í hverju húsi að finna, þá skrifa eg hann hèr inn eptir þremur *membranis*, þeim sem eg hefi elztar sèð af vorri lögbók. Eina þeirra á *assessor* Árni Magnússon, aðra á eg, og hefir hann mèr sagzt engar vita þeim eldri; þriðju átti Þorsteinn Sigurðsson, nú sýslumaður í Múlasýslu, fyrir fáum árum, en nú hefir hann fengið *assessor* Árna Magnússyni þá bók til eignar, og er hún með mótlíkum ellimerkjum. Í þessum öllum hljóðar textinn svo: „Ef maðr á fè at manni, þat er váttar vitu, þat er við er gengit, þá skal sá, er skuld á at heimta, krefja fjár síns með vátta tvá, hvar sem hann hittir þann, er lúka á, ok gjöra honum til hálfs mánaðar stefnu. En ef ei er goldit at þeirri stefnu, þá skal sækjandi stefna þíng, ok krefja þar enn skuldar sinnar, sem vitni vitu. Nú er vel, ef hann greiðir þar eðr umboðsmaðr hans, eðr innan hálfs mánaðar forfallalaust. En ef þá verðr ei greitt, þá skal sækjandi nefna svá marga menn, sem honum þykir þurfa, at fara til heimilis þess, er skuld á at gjalda, ok virða honum þar fè sitt ok fullrètti eptir lagadómi af fèi þrjóts“. Það er til ómótmælanlegs vitnis, að þessi textinn sè rèttastur, og þær elztar *membranæ*, er svo lesa, að þær norsku lögbækur Magnúsar konúngs, Frostuþíngs, Gulaþíngs og Eiðsifjaþíngs lög eru að öllu samhljóða, og lítill að eins orða-atvika-munur, sem þó hvergi víkur hèr frá meiníngunni vorrar bókar. Því mega menn ekki steyta sig á þeim lögbókum, þótt vel gamlar sèu, sem hafa þessa grein nokkuð blandaða af næst áður skrifuðu, *original*-textanum og rèttarbótinni; eru þær þó margar, jafnvel skrifaðar í tíð Magnúsar konúngs Eiríkssonar; samt hafa þær flestar „hálfan mánuð“, en ekki 14 nætur, og því bið eg enn skynsamir menn athugi, hvernig þessar 14 nætur koma til í staðinn hálfs mánaðar. Það auðsýna *præmissa* Eiríks konúngs fyrir þeim mörgu rèttarbótum, sem hann gaf í einu brèfi 1293, meðal

hverra þessi er ein, að landsmenn vorir hafi sent til hans Þorlák lögmann, og hafi lögmaðurinn fært með sèr fyrir konúnginn það alt uppteiknað, er landsmenn vorir óskuðu og konúngurinn síðan samþykti með þessu rèttarbóta-brèfi. Nú þar sem þeim hefir sýnzt vitafjár-sókn eptir forna textanum erviðleg, þar hún kostaði fyrst kröfuna, síðan hálfs mánaðar heimstefnu, síðan þíngstefnu, en hún var eflaust tilætluð fimmnætt, svo hèr, sem í Noregi, og ljóst má ráða af vors Llb. 1. kap. (*vide nostrum* „Fimt"), og eptir þá þíngstefnu enn nú hálfan mánuð, áður atför mætti ske, svo nú eru liðnir 35 dagar í málssókninni, áður sækjandi fái rètt; þá hafa vorir landsmenn *formerað* sína bæn til konúngsins eptir Grágásar-lögum. Hún hefir hèr til ætlað 14 nætur í síns Llb. 5. kap., og nú er áunninn einn dagur framar en áður var, en þíngstefnu að 5 nátta fresti hafi þeir skapað eptir bókinni, sem þá var 13 ára gömul, og þaðan strax af þínginu atförina, svo nú var áunninn sá hálfur mánuður, sem textinn gaf áður frest milli þíngsins og atfararinnar; verður nú svo *prócess*-tíminn allur 19 nætur, þar sem áður var 24, og þetta gjörðist til hagnaðar með rèttarbótinni. Af þessu öllu sjá þeir allir, sem heilskygnir eru, að þessar 14 nætur úr Grágás, komnar fyrir auðmjúkan bænastað landsmannanna, í staðinn hálfs mánaðar, gjöra til þess enga bevísíng, að hálfur mánuður sèu 14 nætur, þar sem sitt er úr hvorum stað til komið, og eptir konúnglegu valdi og miskun betrað lögmálið, svo að í þessum eina burttekna degi, sem hinum fimtán dögunum millum þíngs og atfarar. Er þetta því breytíng laganna, *reformatio legis*, en eigi það, að hver grein útleggi hèr aðra, svo að fyrir öllu þessu standa mánuðirnir þrítugnættu í sínum skorðum eins eptir sem áður. Sama er um vikutal svo vel í Grágás sem í Jónsbók, að eg hefi enga þá grein getað *observerað* alt híngað til, sem annaðhvort skýrlega, eða *per consequens* kalli tvær vikur hálfan mánuð eður 4 vikur mánuð, og tel eg víst það aldrei finnast muni; það meira er, að bókin sjálf aðgreinir vikna tal og mánaða, þegar saman er borinn Llb. 42., að „í sel skal fara, þegar 2 mánuðir eru af sumri". Hèr ætlar hún 4 daga mismun til þess athuga, er hún skipar Llb. 48. um lamb mismarkað í stekk, að á þeim 4 dögum skuli menn gætt hafa, hver lömb móðir mörkuð eignar hverjum, og gróa skuli nýmörkuð eyru, svo síður grandi mýbit, þegar á fjall koma. Helzt sú venja enn í dag, að lömb eru mörkuð

nokkrum dögum fyrr en á afrètt eru rekin, og svo hin, að færa frá í níundu viku sumars í meðalári. Önnur er grein í Lbr. 9.: „Fimmta dag viku, er fjórar vikur eru af sumri". Hèr vill bókin eigi kalla mánuð, því að föstudaginn einn skortir á, að fullur sè hinn fyrsti sumarmánuður þrítugnættur. Eins gjörir hún í Llb. 22., að setja takmarkið til opnunar engigarða, þegar 4 vikur eru til vetrar, og eins í Llb. 46. takmark beitar í afrètt sunnudaginn þann, er laugardaginn áður eru 4 vikur til vetrar. Í hvorugri þessari grein vill hún kalla mánuð, því þá eru liðnir af haustmánuði fimtudagur og föstudagur, er garðinn skal opna, eptir Llb. 22., og þriðji laugardagurinn, þegar í afrètt má beita eptir Llb. 46.; og þar með sýnir sama grein skýrlega, að hún tilætlar vetrar-inngaunguna á laugardag, þá liðnar sèu þær ákveðnu 4 vikur, svo hvar sem á er litið gætilega, ber öllum saman til þess, að mánaðatalið skuli þrítugnætt vera. Nú ef mánaðatal *calendarii Juliani* skyldi gilda hjá oss í landstjórnarárinu, þá yrðu mánaðar-stefnur og hálfs-mánaðar-stefnur mislángar eptir mislengd mánaðanna, stundum 28, stundum 30 nætur, og stundum 31, eður 14 og 15 í hálfs-mánaðar-stefnum, einu dægri meir en 15 nætur, og $14\frac{1}{2}$ dægrum í *Februario*, þegar hlaupár er, og er þvílíkt *absurdum*, fráleitt og athlægi lögum að eigna. Mèr verður svarað, að helgidaga skuli telja frá í stefnufresti, og með því móti verður þessi mín *objectio* magnlaus með öllu. Eg beiðist mèr verði sýnd rök til þess af sjálfum lögunum, að þau skipi helgidaga úr stefnufresti að telja. Eg beiðist, að mèr verði sýnd dæmi til, að fyrir 100 árum hafi nokkur löghygginn maður haft það sèr til varnar, eður *disputerað* fyrir alvöru. Eg efast um, hvort það sè 60 ára gamalt hèr á landi, og ekki veit eg betur, en að það sè lögvilla, en svo var hún nú fyrir 20 árum mögnuð og algeng orðin, að eg í fyrstunni efaði mig, hvort eg mundi rètt skilja það fyrir lögvillu, er eg heyrði svo margan tala, og þeir tóku fyrir gott, sem lög áttu að kunna. Hitt var ljóst, þá eg vildi því mótmæla, mundi þíngheimurinn allur á móti rísa, þar sem flestir af þeim voru af hinum yfirtalaðir, eg vil ekki segja fullviltir orðnir, og margir höfðu dæmt svo ætti að vera. Lagði eg því alla stundan á, að rannsaka þetta, og hefi eg ekki getað fundið til þess í lögum nokkurn grundvöll, orð, púnkt nè bókstaf alt til þessa dags, og skil ekki betur, en sú helgra daga frátekt í stefnufresti sè með öllu heimska. Hún heyrist og ekki heldur

nefnd í Danmörk eða Noregi, þar sem menn óttast að verða til athláturs, ef þeir fara með það, sem á engum fótum stendur í þeim greinum, sem öld þessi veit grundvöll til, og ei er fyrir elli sakir þeim ókennt og framandi. Hefi eg um orðið „Fimt" sýnt með þreifanlegum rökum, að lögmálið ætlar til, að þar sè enginn dagur feldur undan í stefnufresti, en þó bannað sè á löghelgum þíng að halda, til að dæma mál og segja lög í þrætum. Mèr verður sagt, að þegar stórhátíðir Kristi innfalla um árið, sè bannað að halda þíng. *Respondeo*: Eiga þær tíðir úr stefnufresti að teljast, því að verjandi kunni að þurfa í stefnufrestum að leiða gögn sín einhver með lögsóknum? Hèr til svara eg, að ef svo bæri til, þá sèr dómarinn forföll hans, að eigi hefur hann mátt að sèr koma gögnum sínum eptir rèttarbót Hákonar konúngs, sem þær þryktu lögbækur hafa innfært í Þíngfb. 9., *conf.* Kristjáns fimta Nl. 1., 13., 15.

Aptur vilja þeir segja: Lögmálið nefnir vikur særra daga. Eg svara: Það talar bókin um eiðsfrest, en um stefnufrest aldrei, og má því með engu móti saman slengja; þar með er stór-athugavert, hvað þar meini bókin, er hún nefnir vikur særra daga (*vide nostram nótam* vikur særra daga). En *consequentia* af eiðfrestinum til stefnufrestsins getur eigi staðizt fyrir mótmælum laganna, sem um „Fimt" eru sögð og sýnd, og *praxi* allra lögvitra fornmanna, nè neinu því, sem annarstaðar í vors konúngs ríkjum tíðkast daglega, bæði að fornu og nýu. Hvað er þá eptir, sem á lögum sè bygt, og með nokkru móti geti það sýnt, að hálfur mánuður sè fjórtán dagar, eður mánuður 28 dagar? Mèr verður svarað, að svo kalli almenníngur. Eg spyr: Eptir hvaða rökum? þó að einhverr skynsemdarmaður svari mèr, að það sè *mensis apparationis lunæ,* sem menn kalla, það er tími sá, sem mögulegt kynni vera að menn sjái túngl frá einni kveikíngu til annarar, og það sèu nær 28 dagar. Því segi eg: Ef þetta sker nokkurn tíma, þá er það að vísu svo sjaldan, að líkast í 100 árum ber það einu sinni til, eður varla tvisvar, því að þótt þeirri vandskildu gaungu túngls kunni svo að hátta nokkrum sinnum, þá er furðanlega sjaldfengið hèr á norðurlöndum, að um kveikíngartíma og slokníngartíma sama túngls verði lopt svo skýrt, að deili sjáist mánans um 28 daga, og munu flestir segja svo, að eigi hafi það sèð augu þeirra. Má það hèr ekki gilda, þótt menn sjái það eina túngl mjög brádt eptir kveikínguna, og

síðan annað mjög lengi fram, nærri því svo örtúngla verður, því að mismunur gaungunnar þess himinljóss gjörir þetta svo vandskilið, að hálærðum stjörnumeisturum orsakast af því margur og merkilegur athugi, svo það er ekki við hóf almúgans, nè þeirra, er jafnlítið hafa lært sem eg, að geta fest sinn fót á svo skjátlanda grundvelli. Þótt einhverr vildi segja, að Frostuþíngsbók Hákonar konúngs, Mannh. 54., láti sjö nátta stefnu vera helmíng hálfs-mánaðar, þá svara eg: hún gat ekki í stefnufrestar-miðuninni skipt í helmínga þeirri fimtándu nóttinni hálfs-mánaðarins, og því varð hún að gjöra annan partinn 7 nætur, en annan 8, lèt því heldur vera 7 *pro arbitrio legislatoris,* það var nær fimtinni. Þar í móti er eins *pro arbitrio legislatoris* í dönsku lögunum fyrsti stefnufrestur 8 dagar, annar þar næst 14 dagar, og er þar ekki gætt helmíngs-jöfnunar. Aptur verður mèr sagt, að almúginn kalli 28 daga mánuð, af því það sèu 4 vikur. Eg svara: Þetta er nær að vísu, og þar fyrir er, að vorir konúngar hafa liðið almúganum svo að kalla sín á millum, það er þeim líkar og ekki kemur lögum við, undir mánaðarnafni, því ef það skyldi mánaðarnafn í lögunum, þá yrði mánuðir ársins 13, og sjáum vèr, að það vill lögmálið ekki samþykkja; það lætur ársins mánuði vera 12 mánuði alleina; Þgfb. 1., 5., Kgs. þsk. 2., Erfðat. 21., 22., Lbr. 6., Llb. 1., 2., 21., 45., Rb. 2. Eins gjörir 12 alleina ársins mánuði Frostuþíngs, Gulaþíngs og Eiðsifjaþíngslög Magnúsar konúngs í Þgfb. 1. og Erfðat. 28., hvor um sig, Kaupab. síðasta, eins Hákonarbók Þgfb. 1., eins Kristinrèttur Þorláks og Ketils biskupa um kirkjudagshald og máldagalýsíng, *item* veiðar á 16 stór-helgum og um imbrudaga. *Item* Kristinrèttur Jóns erkibiskups og Staða-Árna um tíundarhald í tvenna tólf mánuði og um kirkju-máldaga-lýsíng, *item* um imbrudaga og skriptargáng árlega. Forni Kristinrèttur, sem stendur í Eiðsifjabók á *membrana*, sem átt hefir Sigurður lögmaður, og nú á *assessor* Árni Magnússon, og svo mín Eiðsifjaþíngsbók frá Holti í Önundarfirði, báðir þessir Kristinrèttir í 26., 31., 33. og 38. kap., eins Frostuþíngsbók Hákonar konúngs í Þgfb. 5. um Eyrarþíng, *item* í hennar Kristinrètti 1. bók., kap. 7., um fylkiskirkju-gjörð; eins Gulaþíngsbók hin forna í Kristindómsbálki um ölgjörð og biskupsreiðu, og þessi vitnan alt eins, sem af sjálfri Jónsbók hefi eg til leidt, tíu saman ætla eg sè ómótmælanlegur vottur, til þess nægur, að sýna, það lögmálið

þekkir engan mánuð annan en þrítugnættan, og engan hálfan mánuð annan, en fimtánnættan, og vill þá tölu jafnan hafa meint og skilið, hvar sem hún hefir mánuð eða hálfan mánuð, eða tvo mánuði. Skyldu menn athuga, að það er ekki almúgans verk eður þegnanna, að setja reglur landstjórnarársins; það er verk þeirrar veraldlegu valdstjórnar, konúngsins alleina, og þeirra, sem af honum verða þar til skipaðir. Og nú er það sýnt, hversu Magnús konúngur skipaði mánuðina 12 að eins, en ekki 13, í árinu. Eptir konúngsins orðum í lögmálinu eiga menn sig að rètta í landstjórnar og rèttargángs sökum öllum, hvað sem almúginn sýslar eður kallar eptir sínu viknatali. Viknatalið bannar enginn; það er gott í sinni röð og vigtugt nóg, en það er ekki til þess ætlað, talið nè skipað, að það skuli mánaðatal lögmálsins skamta, nè úr skorðum færa í nokkrum rèttargángi. Þótt mèr verði sagt, að landstjórnarbrèf Hákonar konúngs, *daterað* 9. Sept. 1302, kalli 40 vikur 9 mánuði, þar hann segir: „Skal drottníngin í öruggri varðveizlu 9 mánuði hina næstu eptir fráfall konúngs með sæmilegum konum, að sannlega verði víst, hvort hún er barnshafandi eður ei“, þá svara eg, að þeir hálærðu menn, sem grundað hafa náttúruna, kenna, það megi vel ske, að kona gángi með sitt fóstur fulla 9 mánuði þrítugnætta, og jafnvel nokkuð á hinn tíunda mánuð; *vide Plin. lib. 7., cap. 5., p. m. 137., 138.*, og vitum vèr almenníngstal, að eðlilegur tími kvennmannanna sèu 9 mánuðir, *nempe* þrítugnættir, og hitt jafntídt í almennings-máli, að það sèu 40 vikur, það eru 9 mánuðir þrítugir, og 10 dagar hins tíunda. Það segir og tíma reikníngur kennimanna og *theologorum*, að frelsarinn hafi verið í móðurlífi 270 daga, ef vèr teljum bæði 25. *Martii* og 25. *Decembris*, en degi skemur, ef vèr sleppum öðrum hvorum þessara daga, svo það eru fullir 9 mánuðir þrítugnættir, og 5 eða 6 dagar tíunda mánaðar. En þótt rímið Blanda kalli þá stund ei meir en 230 daga, þá eru það fullir 9 mánuðir, því tólfræð hundruð á þar að skilja; gjöra svo þessir sömu 9 mánuðir ekki fullar 40 vikur, sem og ekki heldur tala *theologorum* áður sögð, svo að af þeim 9 mánuðum, sem Hákon konúngur nefnir, verður ekki *demonstrative concluderað*, hvort hann hafi meint 40 vikur, eða 9 mánuði þrítugnætta, en það er að mínum dómi miklu líklegra, að hann hafi meint lengsta tíma, sem kvennmannseðli væri mögulegt sitt fóstur að bera, og

eru það 10 þrítugnættir mánuðir að sögn flestra spekínga, þótt þeir finnist og, sem telja þá stund fulla 11 mánuði; og því krefur ekki þessi fororðníng Hákonar konúngs, að drottníngin skuli þá strax hafa fóstur alið, heldur að geymslan skuli svo lengi vara, að síðan geti ekki fóstur hennar verið kóngsins barn, þótt fæðast kynni. Það tel eg síðast rök og skilmerki sögu minnar, að mánuður dregur nafn af mána, himinljósi því, sem vorum augum var kunnugast, sem er máninn eður túnglið, og er skamtur mánaðar lengdarinnar gjörður eptir nýi þess niðum, sem næst mátti. Nú verður það 28 dagar[1], 12 stundir og 44 mínútur, sem vottar *Alstedius pag.* 1034., það er meir en hálfur þrítugasti dagur, og heitir hjá lærðum mönnum *mensis lunæ synodicus* frá einni kveikíngu til annarar, því að svo varð næst komizt, að líkja þeim við túnglsins gáng, og gjöra millum mánaðanna jöfnuð óskakkan. Eg veit eigi, hvort þeir hafi jafnframt þessu gjört sèr í hug, að af því að þennan þrítugnætta mánuð skorti 11 stundir og 24 mínútur upp á fulla 30 daga, þá mundi þeir mega styrkja sitt þrítugnætta mánaðatal við meðalhóf þess mánaðar sólarinnar, sem hjá lærðum mönnum heitir *mensis solaris inæqualis*, hann er stundum 29, stundum 30, stundum 31 dagur, sem *Alsted* kennir *p.* 1034.; Vísa þar fyrir til lærðra manna þeim tvennum athuga: 1, hvort meðalhófið þessa sólmánaðar, 30 dagar, kunni að *applicerast* til styrkingar túnglsins þrítugnættu mánuðum. 2, hvort líklegt megi sýnast, að vorra heiðnu lángfeðga *ruditas* (fáfræði) norður hèr hafi kunnað sèr þennan *mensem solarem inæqualem* í nyt að færa. Og hjer hjá bið eg hugleidt sè, að tvent hefði mátt hjálpa þeim til gætninnar, það fyrst, að þeirra feður höfðu, sem fyr er sagt, numið af Óðni og selskap hans, sem kominn var úr nábúaskap þeirra hálærðu þjóðanna austur í heimi, það annað, náttúru-skynsemd vorra formanna sparaði enga gætni nè ástundan í slíkum hlutum. Það auðsýnir dæmi Þorsteins surts, sem Ari fróði vottar, og Stjörnu-Odda, sem bæklíngurinn Blanda skýrir frá, hvað glöggt talið hafi, hvar í átt sólstöður vera skyldu eptir svo og svo lángan tíma, og hvað mikið vaxa skyldi og mínka gángur sólar fyrir og eptir jafndægur árlega. En hvað sem er um alt þetta, munu fáar þjóðir, jafnólærðar sem vorir heiðnu formenn voru, hafa sitt ár skamtað og í skorður

---

1) 29 dagar?

sett með jafnstórri gætni, sem nú hefi eg sagt og sýnt um vora þrítugnættu mánuði.

Nú er enn sú *observation* eptir, að ártal vort, mánuðir, vikur og dagar er nóttum talið, og sýnir það elli þess merkilega, því að svo skrifar hinn mikli *Grotius de Verit. Relig. lib. 1., p. m.* 43.: *Antiqui moris retinentissimæ gentes tempora per noctes numerabant,* það er: þjóðir þær allar, sem á elztu venju fastheldnastar eru, hafa náttatal á tímunum. Og báðir þeir hávísu menn, *Mornæus de Verit. Relig. cap. 9., p. m. 169,* og *Grotius de Verit. Relig. libr. 1.,* litlu fyrr en hann setur næst áður *citeraða* grein, virða svo mikils andsvar *Thaletis,* eins af þeim sjö nafnfrægu Grikklands spekíngum, að báðir innfæra þeir það til síns máls bevísínga. Hann var spurður, „hvort fyrri hefði verið, nóttin eða dagurinn", og svaraði: „Nótt ein varð fyrri en dagurinn yrði"; það er að skilja: myrkur var, áður en guð í upphafi skapaði ljósið. Segir *Mornæus,* að *Thales* hafi lært í Egyptalandi, og *Grotius,* að hann hafi þetta numið af gamalli speki, svo að báðir þessir hávísu menn eigna þennan lærdóm elztu heimsins öldum, svo sem hann skuli hafa sinn uppruna af minníng heimsins sköpunar.

Nú eykst það hèr við, sem skrifar *Hesiodus* í sinni *Theogene, p. m. 130. et 131.;* þar segir hann, að *Æther* og Dagur sèu synir nætur, en faðir þeirra sè *Erebus,* því að þegar sólin hefir verið undir jörðinni um nóttina, lýsir *æther* fyrri en dagurinn skíni, svo að nú eru þessi rök til þess, að reikna tímana náttatali. Veit það og híngað, er Edda segir, að dagur er son nætur, svo alt þetta bendir til, að náttatalið sè af slíkum rökum elzt og rèttast eptir heiðíngjanna speki. Er því líklegt, að mann frá manni framan eptir öldum hafi slíkt tímanna náttatal ofan komið til vorra heiðnu forfeðra. Það votta lög þessa lands forn og ný, að svo hafi vorir kristnu forfeður talið, og hægt væri að útreikna það af bókinni og Kristinrèttunum. Því tel eg það rètt, sem skrifar sèra Oddur gamli á Reynivöllum: „Nóttin er fyrri en dagurinn í flestöllu rímtali". Og undrar mig stórlega, að Bókarbót *codicis regii* segir: „Dagur kemur fyrri en nótt alls missiristals íslenzks", því að öll mín framanskrifuð *argument* mótmæla þessu, og það ekki sízt, að þegar frá talin eru næstliðin 100 ár, hafa flestir menn stefnufrest og lögsóknir miðað við náttatal alloptast. Eg efa mig, hvort eg skuli hèr til gamans rita skröksögu þá, er eg hefi

heyrt, að maður nokkur í Svarfaðardal norðanlands skuli á hausttíma um dagsetursskeið hafa verið í sauðaleit í afdal nokkrum, sem gángi út af bygðinni; þar skuli hann hafa heyrt tröllkonur tvær, sína úr hvorri hlíðinni, mælast við yfir um þveran dalinn, hvernig falla mundi vetur sá, er þá fór að hendi, og hafi þær nefnt fyrsta vetrarmánuð frosta, annan skugga þriðja ljósbera, fjórða blóta, fimta svan eður svanna, sjötta einbera. Söguna sagði mèr prestmaður, sem enn er á lífi. Engin greindi hann nöfn sumarmánaðanna, og rèð svo, að hinn fyrsti hefði nafn af veðuráttu, annar af skammdegi, þriðji af hækkun sólar, fjórði af þorrablóti, fimti af snjó úti á jörðu, ef hann skyldi svanur heita, en ef hann hèti svanni, þá af góu; hinn sjötti af því, að hann væri þá einn eptir af vetrinum.

*Nota ad responsa et observationes* prófastsins sèra Jóns Árnasonar, *nunc episcopi Skalholtini*:

Hvernin er mögulegt, að *conservera* sumarkomuna á 19. og 25. *Aprilis*, nema sumaraukinn haldist? Hvað er varnaðarár annað, en *observatio* um þorra, o. s. frv. komu, sem sumarkomunni kippir um heila 7 daga? *Adeoque: quicquid conserverar* sumarkomu, *conserverar* alla þá þrítugnættu mánuði.

# U.

## Urgur[1].

Rekab. 3.: *En ef urgur eru i fjósum, þeim er útslitr, þá helga þær þeim, er hval átti i fyrstu.*

Margir hafa margt um urgur talað, hvað orð þetta merki, og leiði eg hjá það að innfæra, af því eg hefi ekkert skriflegt um það[2] lesið, nema það eitt, er Björn á Skarðsá skrifar. Hann segir svo: „urgur ɔ: þumur; urgur hafa sitt nafn af „ari“ eður „urníngi“; það mega og heita festarstúfar þeir, sem af sjálfum hvalnum hafa skornir verið.

§ 2.[3]

Alls ekki skil eg, að urgur megi þumur heita, og engin

1) tekið eptir A. B. 2) B. þar um. 3) greinaskiptin tekin eptir B.

veit eg rök til þess, en eg meina þess ekki með þurfa, að festarnar sèu af sjálfum hvalnum skornar, til þess að þær heiti urgur, heldur muni alls konar festar, þær sem til ætlaðar eru, að festa eður hepta burtflot og fráleysíngu þess, er þær festa, urgur kallast.

§ 3.

*Anno* 1704 var eg í *Commissionens Affaires* austur á Kirkjubæarklaustri. Morgun einn, er eg var að skrifa upp klausturssins byggíngar, var þar í bæardyrunum staddur fátækur húsgángsdrengur, sem batt mannbrodda á fætur sèr; snjór og frost var komið í öndverðum *Octobri*. Þegar drengurinn vildi festa á hinn síðari fótinn mannbroddana, sagði hann: „Nú er týnd urgan mín!" Eg leit við honum og spurði: „Hvað er urgan þín?" Hann tók til mannbroddanna öðru megin og í ólarstúfinn, sem þar [í[1] var til að leggja annars vegar [upp[2] um ristina, að binda mannbroddana, og sagði: „Það er önnur frá þeirri arna". Eg spurði hann, hvort þessar ólar, bæði utan og innan fótar, hèti urgur; hann kvað já við því. Síðan spurði eg þar á bænum strax eptir því sama, og játuðu allir það vera[3] satt. Hefi eg nú[4] þaðan í frá margan mann í Austfjörðum uppalinn hèr um spurt, og segja allir sama, að enn nú í dag heiti þar í almennu[5] máli urgur þær ólar, sem hafðar eru í mannbroddum, önnur utan, önnur innan fótar, til að binda upp um ristina og festa mannbroddana á fæturna[6].

§ 4.

Efa eg því ei, að urgur í hvalfjósum sèu festarstúfar, og lúta mjög svo lögmálsins orð í þann veg, að svo sè, því að hèr segir: „þá helga þær þeim, er hval átti í fyrstu", og í Rekab. 1. stendur: „helgar þar festar hval, en mark við;" og enn í Rekabálks 3.: „þó at út taki hvalinn, ef sumr festarstúfr er á landi, en sumr í hval, þá á sá hval, er áðr átti". Þar á ofan er að finna í fornvísum, að urgur merki festar. Knytlíngasaga, kap. 57., segir:

Ör vísi bað oddum læsa
urga strönd. . . . . .

Mildr konúngr bað læsa strönd urga oddum (festa - oddum), ɔ: akkerum, bað læsa akkerum í ströndina, því akkerin eru[7] oddar urganna, festanna.

1) vantar í B. 2) vantar í A. 3) A. væri. 4) B. enn. 5) B. almennings. 6) B. fætinum. 7) A. sèu.

§ 5.

*Item* Noregskonúnga-sögur um orustu Hákonar konúngs herðabreiðs í Elfi austur[1]:

Mörg flutu auð á urga
(álm sveigði lið hjálma),
rauð flugu stál, í stríðri
stafn-blóðug skip móðu.

Mörg skip flutu auð í stríðri móðu, blóðug á urgastafn, ɔ: blóðug á festastafninum, framstafninum[2], sem festarnar gánga af. Hjálmalið sveigði álm; rauð, ɔ: blóðug, stál flugu. Og svo segir Sæmundar-Edda, Helga kviða Hundíngsbana, 2., *p. m.* 113:

Urgan stafn
hef ek opt búit,

framstafn, festastafn eður festum bundinn stafn, *nempe* þegar tengd voru skip í orustum, segist Atli hafa verið[3] stafnbúi konúngs.

§ 6.

Ætla eg svo með þessum *argumentis* bevísað, að urgur [í fjósum[4] sèu festar, [eður[5] festarstúfar. En þeir, sem vilja, að urgur í fjósum merki skutuljárn eður ífærur, gæta þess ei, er lögmálið segir Rekab, 8., að þó menn skjóti hvali í vökum með þíngbornum skotum, þá eigi þeir eigi heldur en aðrir menn; og þess er segir í Rekab. 5., hvað lögmark er á hvalskeytum, af hverju ljóst er, að ómarkað skot helgar engum hval nè hvalfjósir[6], og ekki þíngborið skot, þótt í vökum skjóti, því síður, þótt einhverr skjóti dauða hvalfjós í fjörunni, nema hann setti skotið eintómis í fjósina til einkennis, og er þá meira vogað skutlinum, en fjósin er verð. En festur helga bæði hval og fjósir, og svo gjöra urgur, því þær eru festur eða festarstúfar.

## Útisetur.

Mannh. 2.: *Spáfarar allar ok útisetur.*

Það greina ekki sögurnar, svo eg minnist mig lesið hafa, hvílík atferli og[7] *ceremoniur* heiðnir menn, eður þeir illa kristnu, tíðkað hafi í sínum útisetum. Samt er enginn efi á því, að þessar útisetur gjörðust altíð eður alloptast um nætur, og mest á stór-

---

1) sjá Fms. 10. b., bls. 266. 2) vantar í A. 3) B. vera. 4) vantar í A. 5) vantar í A. 6) A. hvalfestar. 7) B. að.

hátíðum, til þess að þeir, sem úti sátu, skyldu þá vísir[1] verða þess, er þá forvitnaði fyrir sjálfa sig eður aðra, og lètust þeir fá spádóm sinn af reikandi öndum, sem þeim skyldu birtast sýnilegir, og mæla við þá ókomna hluti. Getur Snorri Sturluson þess fyrst og glöggvast um Óðin sjálfan, það hann hafi setzt undir hánga, sem fyrr er sagt *in vocula* „Vekja tröll" og „Spáfarar"; en síðar í kroniku sinni skrifar hann um Hákon konúng herðabreið: „Svo segja menn, at Gunnhildr, er Símon hafði átt, fóstra Hákonar konúngs, lèti sitja úti til sigrs Hákoni[2]; en svo gekk frèttin, að [þeir[3] skyldu berjast við Ínga konúng um nótt, en aldrei um dag, ok þá mundi hlýða". Þórdís Skeggjadóttir hèt sú kona, er úti sat. Hèr um talar Erlíngur skakki síðar, þar sem segir um Sigurð Markúsarfóstra: „Gjörðu þeir þau verk með fjandakrapti ok fjölkýngi ok níðíngsskap". *Et mox*: „Hefir þessi flokkr leitað sèr þeirra heilla at tilvísun fjölkunnugra manna, at þeir skyldu um nætr berjast, en eigi undir sólu". Sama segja Noregskonúnga-sögur. Annað dæmi segir Orkneyíngasaga, kap. 57.: „Um kvöldit (atfángadags jóla), er menn höfðu drukkit, gekk jarl (Páll Hákonarson) at sofa ok flestir menn, en Sveinn brjóstreip gekk út ok sat úti um nóttina (jólanóttina) að vanda sínum". Og síðar í sama kapítula: „Sveinn brjóstreip mælti fyrir munni sèr um jólanótt við drykkju, svo at nokkrir menn heyrðu, ok svo jarl: „Sveinn mun Sveini at bana verða, [ok Sveinn skal Sveini at bana verða"[4]. Þar um sagði Eyvindur, hirðmaður jarls, við Svein Ásleifarson: „þat mun fjandinn hafa mælt fyrir honum um nóttina". Í mínu *exemplari* stendur: „fyrir munn honum", og er það eflaust rángt, því Eyvindur sagði, hver andsvör Sveinn brjóstreip mundi af fjandanum fengið hafa þá stund nætur, sem hann sat úti til frèttanna; og nokkru síðar, er biskup þakkaði fyrir víg Sveins brjóstreips, og kvað það landhreinsun verið hafa. En kap. 55. segir sama: „Sveinn brjóstreip var mikill maðr vexti, svartr ok úhamíngjusamlegr; hann var forn mjök, ok hafði löngum útisetur"[5]. Hèr á það skylt við, er Krukks-spá segir svo tíðum: „Jón lá úti eina jólanótt eðr nýársnótt", *etc.*, og eru þess leifar enn á vorum tímum í frásögum, að[6] ýmsir hafi legið á krossgötum jólanótt, nyárs-

---

1) B. vissir. 2) konúngi, add. A. 3) frá [ vantar í B. 4) frá [ vantar í B. 5) B. úti setið. 6) A. sem.

nótt, þrettándanótt og þess konar[1], sem nú eru gamanyrði tóm og fylgir engin alvara.

## Útferð.

Erfðat. 24.: *því, sem þarf til útferðar eptir þvílíkan mann eptir siðvenju.*

Útferð merkir hèr, sem Björn á Skarðsá hefir rètt sagt, allan umbúnað að líki þess framliðna, og kostnað allan til greptrunar og líkfylgdar, sem sæmilegt er eptir þess framliðna mannvirðíng, sem hann hafði, meðan hann var lífs; felst og undir sama bæði hríngíngar og líksaungvar og tala yfir þeim dauða á grafarbakka. Í Hákonarsögu heitir það líkferð *anno* 1240: „Síðan var búin líkferð hertogans, ok var hún hin sæmilegasta.

## Út, Útfært, Úthöfn, Útferð.

Erfðab 24.: *Nú andast vor landi utanlands, hvar sem það er, þá skal sá taka fè þat, er hann er skyldastr þeirra manna, er útfært eigu; nú er engi frændi til, þá skal fè taka til úthafnar mötunauts hans, sá er út ætti.*

Framf. b. 13.: *þeim mönnum, er utan hafa farit, er lofat at bera þau klæði, er þeir hafa út sjálfir, meðan þau vinnast.*

Allir skilja þessar glósur, því orðið „út" er enn í sömu brúkun, að það merkir vestur í átt frá Noreg og híngað til lands. *Item* eru mörg orðtæki hèr þeirrar merkíngar, að út segir vestur í átt, Land., *pag.* 65., kom út síð landnámatíðar, segir um ýmsa. *Item*: sá og sá lýsti utanferð sinni eður fór utan, ɔ: vestan hèðan; *item* útkomu, því þeir komu út híngað, ɔ: vestur híngað, þaðan er útnorður, útnyrðíngur, útsuður, útsynníngur. Ari fróði, *pag.* 3.: „Þá er Ísland var víða byggt, þá [flutti[2] maðr austrænn fyrst út lög híngað úr Noregi"; austrænn maður heitir hèr austmaður ɔ: norskur, og svo heita allir Norðmenn í lögunum Austmenn. Austræna heitir enn hjá oss austanátt, en útræna vestan-átt, norræna túngan norska; Eystri-hreppur heitir í Árnes-sýslu og Ytri-hreppur, en ei vestri hreppur, þó er hann vestari og *contra distinctus* austari hrepp. Eystri-

---

1) etc. add. B. 2) vantar í A.

landeyar og Ytri-landeyar í Rángárþíngi. Kristinrèttur forni, kap. 1.: „Ef barn fæðist í úteyum". *Item:* „bóndi er skyldr at ala þá menn 5, er utan eru komnir" ɔ: úr eyunum, „og barnit sjötta; þeir skulu færa þá menn aptr út, er barn færðu til skírnar ok utan færðu". Hèr sýnist sem „út" merki frá landi, í hverja átt sem eyan liggur, og kynni vera í þá meiníngu sagt út híngað til Íslands, því það er umflotið. Svo heitir „inn til lands" úr eyum, hvar í átt sem liggja, en þó sýnist, að útsuður og útnorður með sínum ættlið lúti meir að hinni fyrri skýríngu „út", er það merkir vestur, allrahelzt þar sem Grænland, Vínland og Ísland hið mikla voru kunnug oss og Norðmönnum.

## Útlægur,

ɔ: utan laga, sá sem laganna frið og frelsi hefir af sèr brotið, og gjört sig óhelgan mann, sem eigi megi laga njóta, nema til þess eins, að verða gripinn og fángaður, til að missa lífið, hvar sem hann náist, en falli ógildur, sem úlfur, björn og melrakki, hvort sem hann fær sár eða bana, óalandi, óferjandi, óráðandi öllum bjargráðum, sem Grágás *definerar* skógarmann. Þeir heita á dönsku friðlausir menn, og svo er merkíng þessa orðs alstaðar í Jónsbók. En í Grágás og Kristinrètti þeirra Þorláks og Ketils biskupa merkir útlægur þann fèsekt á að gjalda, og er dregið af að útleggja, útileggja fè-bætur fyrir sig; það er svo tídt í báðum þessum bókum, að ei er hægt að telja „útlægr 3 mörkum". Þar í mót heita þeir skógarmenn í þessum báðum bókum, sem í Jónsbók heita útlagar.

# V.

## Vagn.

Llb. 20.: *Hvað sem bilar at vögnum eða sleða.*
Grágás Lbr. þ. kap. *37., pag. 540.: Ef maðr fer of skóg annars manns með sleða eðr klyfbera eðr við bönd eðr vagn, ok bilar reiði hans.*

Að muni hèr einhvern tíma vagnar verið hafa, sýnist af þessu ráða megi, en ei stendur þessi glósa í Eiðsævis eða

Frostaþíngslögum, og meir kalla eg líklegt, að hún sè hèr með ásettu ráði innfærð, um fram það, er þær ákveða af reisumanna[1] plöggum, þó minnist eg hvergi vagna getið í trúverðugum sögum, þeim er gjörzt hafa hèr á landi, nema í aleinni Víga-Glúmssögu, kap 23.; þar segir um Helgu, systur Glúms, að hún kom til Þverár að vitja Þorvalds tasalda, sonar síns, eptir bardagann við Espælínga; lèt hún hefja hann í vagn, og búa hægilega[2] um; og er hún kom heim, fægði hún sár hans, *etc.* Bústaður hennar var á Laugalandi, skamt frá Þverá. Ei er glögt af sögunni að ráða, hvern árstíma það var, en þíð sýnist Eyafjarðará verið hafa; má þó vel ske, að ísalög eður klaki hafi gjört vagnleið færa til Laugalands. Og í Njálu, kap. 91., þar segir Hróðný, friðla Njáls, er smalamaður sagði henni víg Höskuldar Njálssonar: „tak þú hest minn ok akfæri; hann gjörði svo". Síðan mælir sagan á allmörgum pappírsbókum: „Síðan lögðu þau hann á vagn, ok fóru með hann til Bergþórshvols;" þar segir *membrana* Árna Magnússonar: „síðan tóku þau líkið og lögðu í vágarnar (*id est*: vögurnar), ok óku til Bergþórshvols". Svo að þessi mismunur bókanna gjörir efasamt alt, hvað í þeirri grein skal í bevísínganafni leiðast um vagnana. Ei er nær það hafi vögur verið, og má þeim víða viðkoma, þar sem vagnhjól fá einskis orkað, og ei má sleðum aka. Vagnabúr heitir enn í dag[3] í biskupsstólnum Hólum, og vagnbraut heitir í Akraskjölum í Skagafirði, það sem í öðrum er akbraut kallað, svo[4] hvortveggja þessi nöfn, „vagnbúr" og „vagnbraut", ásamt sögunni gjöra líklegt, að vagnar[5] muni hafa hèr til verið, líkast um vetur á hjarni og ísum, meir en um sumar fyrir veganna[6] mishæðar sakir og óslèttlendis. *Membranæ* mínar fjórar þær elztu og fimta *apographum* Staðarfells-*membr.* hafa hèr allar „vogum" eða „vagum", og víða eru vagur enn nú hèr á[7] landi, sèrdeilis til að aka heyum af votengi. Á og þess að gæta, að „vagnabúr" gæti eins heitið af „vagum"[8], „vögum", sem af „vögnum", því *genitivus pluralis* er hinn[9] sami. Slèttlendið frá Kolbeinsárósi heim til stólsins kynni að líða vagnferð í vetrarhjarni og svo ísalögin[10] í Skagafirði. Eg get ekki fengið af mèr, að leiða hèr til vitnis söguna af Gunnari Keldugnúpsfífli, kap.

---

1) A. reisumannanna. 2) A. hæglega. 3) A. enn nú. 4) A. svo at. 5) B. vagn. 6) B. vaganna. 7) B. í. 8) [ ] vantar í B. 9) B. hèr. 10) B. ísalögu.

6.: „Lögðu þeir (Þorbjörn, faðir Gunnars, og Helgi, bróðir hans) hann (Gunnar sáran) í vagn, og óku honum heim“. En með því að saga þessi er svo dárlega og þussalega[1] uppdiktuð, að vísu um alt það, er segir af Gunnari utanlands, að hún er smánarlegs aðhláturs verð í vitleysu þeirri, þá kann eg af engum að óska það fyrir satt að halda, sem hún segir hèr á landi skeð, þótt það sýnist mögulegt að vera. Það er enn að merkja, að ef í Akraskjölum mætti lesa „vagnbraut“, þá kynni það af „vögum“ dregið að vera, svo vel sem af „vögnum“. En akneyti, sem hèr hafa tíð verið, ætla eg mest hafa sleðum ekið og stórviðum á vetrarhjarni. Það stendur í Llb., 21. kap.: „Ef viðr vex um þjóðbraut þvera, svo at þar má ei aka eðr klyfjar bera, þá höggvi sá er vill“. En þessi *vocula* „aka“ getur eins merkt sleða ferð sem vagna, og á sleða fór Áskell goði eptir Eyafjarðarárbökkum, þegar hann fèkk banasár í sögunni af Vemundi kögur og Vígaskútu, kap. 16.

## Vansi.

Þíngf. b., 5.: *Fái einhver vansa eðr ólut af manna-völdum, etc.*

Svo er þetta skrifað í þeim þryktu lögbókum. En orðið „vansi“ stendur ekki í þeim 6 elztu og beztu *membranis*, sem nú hefi eg í höndum. Þrjár ýngri, en þó fyrir *reformationem*, hafa þetta orð. Aðrar þrjár, sem eptir *reformation* skrifaðar eru, hafa það ei, og ber þeim hèr saman við elztu bækurnar. Í minni tíundu *membrana* er hèr stór *lacuna*. Og að hugleiddu öllu þessu, þættist eg mega leiða hjá mèr um þennan vansa að tala, þó til þess eg mælist alls ekki undan, segi eg: Orðið vansi hefir uppruna sinn af *particula* „van“, sem, bæði þá hann stendur aleinn og *in compositione*, merkir altið *defectum*, það er þurð, skort, brest á því, sem vera skyldi; svo er „vanvizka“, „vanmáttur“, „vanheiður“, „vansemd“, og eins er það enn í dag í daglegri brúkun þessara daga danskrar túngu, sem vitna *voces: vanartig, vanvittig, Vanære*, og í hversdaglegu tali enn „andvana“ ɔ: öndu firtur; „handarvani“ í guðspjallinu. Svo segir í Hávamálum: „vanur vegur“ ɔ: *confligit etiam, qvi aliqvo corporis membro orbatus est.* En atkvæðið seinasta í orðinu „vansi“ er *adjectum*, ɔ: viðurauki, til að skapa heilt *substantivum masculinum* úr *particula* „van“. Svo heitir þá vansi alt hið sama, sem *membranæ* gömlu láta sèr nægja.

1) A. þusslega.

*Óhlutur,* það er skortur þess, sem manni ber með rèttu, sem er friðhelgin á lögþíngum. Alkunnugur er orðskviðurinn: „Svo er of sem van", *item:* „Van og of fær aldrei gott lof".

## Vekja tröll upp.

Mannh. 2.

Það var trú í heiðni, að menn kynni með göldrum, það er yfirsaungum og vissum *ceremonium,* að vekja dauða menn, svo sem af margra þjóða sögum kunnugt er, og líka af sjálfri ritníngunni um Sál konúng, 1. Sam. 28., frá 8. til 20. v., og hefur lengi elt eptir af þeim átrunaði, hvort sem hann er nú slokinn til fulls eður ekki. En því hrósar Rúnakap. Sæm.-Eddu. Hèr á það heima, sem Snorri Sturluson skrifar: „Óðinn tók höfuð Mímis, ok hafði með sèr heim, sem fyrr var sagt, ok sagði þat honum tíðindi úr öðrum heimum, en stundum vakti hann upp dauða menn úr jörðu, eðr settist undir hánga", því var hann kallaður draugadrottinn eða hángadrottinn, svo sem áður er með mörgum rökum sýnt *in voce* „tröll". Eg veit ekki, hvort híngað eiginlega heyra skuli bænaákall Hákonar jarls í Jómsvíkíngasögu, þegar hann tilbað Þorgerði Hörgabrúði, og þar kom, að tröllin gjörðust ófreskum mönnum sýnileg í bardaganum, því lítt mun hann í þann tíð hafa tóm haft til atferla þeirra, sem þar heyra til, þó má ske, að það hafi bætzt við Þorgerði með því, ef satt væri, að hann hefði þá blótað syni sínum; en það efar Snorri Sturluson. Hitt efar enginn, að af öllu hjarta hafi jarl í það sinn ákallað Þorgerði, sem var hans guð, og gat enginn heiður stærri verið. Hèr kemur það alls ekki við, sem ýmsar segja sögurnar um þá, er í hauga brutust til fjár, svo sem Grettir í Kárshaug í Ármanns-eyu, kap. 20., Hörður í haug Sóta, í Hólmverjasögu, kap. 14., Miðfjarðar-Skeggi í haug Hrólfs kraka Danakonúngs, í Landnámu, *pag.* 88., því að allir þessir sóttu til fjár, en enginn til galdraverka, þótt sögurnar láti, að haugbúarnir hafi gletzt við þá, og draugarnir verið bæði þeim sýnilegir og þreifanlegir. Nær lætur það ætterni til galdra, sem Hervararsaga greinir kap. 6., þegar hún sótti sverðið Tyrfíng í haug föður síns í Sámseyu, því þótt engin sèrleg tilfelli sèu þar til nefnd, þá eru þó ljóðmælin Hervarar í skyldsemi við særíngar annara galdrakvæða, og tók hún eigi sverðið, fyr en Ángantýr seldi það af höndum.

## Vígslöngur.

Þormóði Kolbrúnar-skáldi var smíðuð öxi að bæn hans og fyrirsögn; hún var slètt öll frá hamri til eggjar, og var enginn eggvölur fyrir henni; hún var herðugóð og snarpeggjuð; þær axir kölluðu menn vígslöngur (*vide* sögu Þorgeirs og Þormóðar).

## Vika og[1] laugardagur.

Viknamælir hefir lögbókin á tímunum í Landsl. b. 5., 8., 22., 45.,[2] Farmannal. 3., og er það tímatal alt frá heiðindómi[3] til vor komið. En hvað mun hafa frædt þá heiðnu ólærðu[4] menn á því, að telja árið í vikum? Varla er það[5] af þeim hèr á Norðurlöndum þess væntandi, að þeir hafi vitað svo til plánetanna gaungu, að láta vikurnar skiptast eptir þeirra tölu; því að[6] þótt þeir hafi eignað sunnu þann fyrsta dag og mánanum annan, þá höfum vèr ei í vorum *Antiqvitetum* fleiri daga nöfn eptir himinsljósunum[7], heldur strax hinn þriðja dag[8] ásunum[9], það er guðunum, eignaðan í þeirra máli, og hvern svo af öðrum; hvað skal þá til hins geta?

Það er ljóst af *Schedis* Ara fróða, *pag.* 4., að vikum hafi þeir heiðnu talið; svo segir hann: „Það kunni enginn segja þeim, að degi einum var fleira, en heilum vikum gegndi í tveim missirum". Eg get eigi fundið rök hèr til á svo alls ólærðum þjóðum, sem engan bókstaf kunna. Mèr verður sagt, að Óðinn heiti Rúnhöfði í Eddu, og svo hið sama sèu honum margs konar rúnir eignaðar í Hávamálum, Rúna-kapítula og Vegtamskviðu. Þar segir:

Rúnar muntu finna<br>ok ráðna stafi,<br>mjög stóra stafi,<br>mjög stinna stafi,<br>er fáði Fimbulþulr[10]<br>[ok gjörði ginnregin[11],

ok reist hroptur rögna,<br>Óðinn með ásum,<br>en fyr álfum Dáinn,<br>Dvalinn ok[12] dvergum fyr,<br>Alviðr jötnum fyr,<br>ek reist[13] sjálfr sumar.

Síðan telur hann 18 greinir rúnanna. Vegtams-kviða segir:

Nam hann vitugri<br>valgaldur kveða,<br>leit í norður,

lagði á stafi,<br>fræði tók þylja,<br>frètta beiddi,

1) Vantar í C. 2) 46 C. 3) heiðnum dómi C. 4) vantar í C. 5) vantar í C. 6) vantar í C. 7) himinljósum C. 8) vantar í A. 9) á . . . . C. 10) A. þuli 11) frá [vantar í C. 12) með í C. 13) reisti í A.

| unz nauðugri | unz nauðug reis *varia* |
| --- | --- |
| nás orð kveða. | násorð of kvað. *lectio* |

Eg gef því makt, að *umbra qvædam literarum*, það er glíuskin af lærdómi, hafi með Óðni komið híngað á Norðurlönd, en þær rúnir flestar eða allar verið[1] til galdra brúkaðar, og varla til annars, fyr en seint á öldum, svo sem ljóst er af áður skrifuðu. En þær greinir galdranna voru í þann tíma speki kallaðar eða vísdómur, svo sem bæði sýnir[2] Rúnakapítuli og Sigurdrífumál, svo vel sem áður *citeruð* Vegtamskviða:

Nam hann vitugri
valgaldr kveða, *etc.*

En hvergi fæ eg sèð í nokkurri grein þeirra mörgu rúna getið neins plánetanna, nema sólar og mána, sem augun sjá, og ekki trúi eg, að þeir *Jovem, Martem, Venerem* nè *Mercurium* þekt hafi frá öðrum stjörnum, nè *Saturni* - nafn heyrt með eyrunum, því alt það Snorri getur um mánann, *Saturnum* og hans sonu, eignar hann ásum einum, svo sem *obscura nomina* [(ókend nöfn[3]) hèr í Norðurlöndum, og[4] alls ókunnug öllum fornmönnum, jafnvel eptir Óðin, svo sem áður, alt þar til lærdómur tók að kvikna norður hèr í yztu bygðum veraldar. Getur Snorri þessara framandi guða, svo sem þeirra, af hverjum æsir hafi sèr dæmi tekið til að stipta sinn guðdóm. Eru þær *fabulæ* á svo stóru ríngli, að eg þykist ekki geta fest hendur á, og ætla það smíði hálærðra manna kristinnar aldar, að skapa ásum guðmagn eptir plánetunum, og þeim guðum suðurlanda, sem heiðnir þar í heimi gáfu sömu nöfn, eður heldur að segja, eptir hverjum þeir nafngiptu plánetana. Sè eg engin rök til, að Týr skuli heldur vera[5] *Mars,* en sjálfur Óðinn, nè Óðinn heldur *Mercurius* en *Mars.* Eg vil ekki tala um, að Óðinn skuli sól vera; það sýnist mèr nær gánga Frey og Baldri, og ætla þó hvorugan meintan fyrir sólina, sem ljóst er af hennar vikudagsnafni, og þeirra, Freys og Baldurs, fjarlægð frá vikudaganna nöfnum. Sýnist mèr því líklegast, að þeir norður hèr hafi *per traditionem majorum* alt frá Babel haft sitt viknatal; en þeir við Babel hafi frá sjálfum Nóasonum haldið því af minníng sköpunarinnar og drottins hvíldardags. Mun sú *traditio* með Óðni til vor komin austan úr heimi, en til hans forfeðra frá *Ebreis* eða Gyðíngum, ef eigi fyrr, þá með þeim tíu kynkvíslum Ísraels,

1) vantar í C. 2) segir í A. 3) frá [vantar í C. 4) vantar í A. 5) vantar í A.

sem *Salmanassar* konúngur í *Assyria,* eptir það hann hafði *Samariam* eyðilagt, herteknar færði til *Cholchos* og *Iberos,* svo sem *Scaliger de emend. temp. lib.* 5., *p. m.* 208, nefnir þær þjóðir, sem hin danska biflía 2. *Reg.* 17., v. 6, kallar *Halah* og *Habor.* Dregur *Scaliger* sína sögu af *consonantibus Ebræorum* í hvorutveggja þessara þjóða nöfnum, og þar með af því, að þær hafi tíðkað umskurnina fram alt að *tempora Herodoti,* það er að skilja, herleiddu kynkvíslirnar, en ekki þeir *Cholchi* og *Iberi,* sem innfæddir voru og ekki aðkomnir annarstaðar, og var þetta nóg til að kenna viknatalið í[1] Tyrklandi, því að á vesturlöndum tíðkuðu Rómverjar sitt mánaða og daga tölu skipti með *Calendis, Nonis* og *Idibus; vide Macrob. Saturnal. lib.* 1., *cap.* 14 *et* 15. Og til þreifanlegs vitnis, að ei hafi *Julius* keisari tilætlað viknatal í sínu *Calendario,* þá eru þar 8 bókstafir, til að merkja þeirra *Nundinas,* það er torgdag, níunda hvern, svo sem *Petrus Glaceonius*[2] *Tolitanus* hefir þá *Fastos,* það er rím-árs og mánaða dagatal, útgefið, og svo *Paulus Manubius* með sínum *notis,* og báðir vænzt, að *Julius Cæsar* hafi þá *Fastos* með slíkum 8 torgdagastöfum uppfesta látið *in foro Romano, p. m.* 945. Alt eins hefir *Rosinus Antiqvitt. lib.* 4., *cap.* 2., *Julianum Calendarium ederað,* og í sama máta Davíð *Chytræus* 1578, er að því vænist áðurnefndum *Paullo Manubio.* En það *Calendarium,* sem *Dempsterus* í sínum *Paralipomenis ad Rosini Antiqvit., lib.* 4., *cap.* 4., *p. m.* 250 innfært hefir, er efalaust miklu ýngra, og af kristnum mönnum með 7 vikudagastöfum fyrir 8 torgdagastafi reformerað. Það vænist og margfaldlega *veteri Calendario,* sem er efalaust æskuteikn. Það lætur sól fyrir hrútsmerki, það er jafndægur, 8. *Martii,* en fyrir krabba, það eru sólstöður, þann 19. *Junii,* en teiknar hvergi merkin á þeim síðari 6 ársins mánuðum, og sýnir það æsku þess ríkuglega. Efa eg því eigi, að sá sjö vikudaga-bókstafa-stuðull í ríminu, sem vjer köllum sunnudagsbókstafi, hafi með kristindóminum allra-fyrst í rímstokkinn komið[3], og með honum viknatalið í það rómverska ríki, líkast til á þeirri Nícænisku ráðstefnu, þegar páskareglurnar voru gjörðar, *Anno Christi* 325, og sýnilegt er[4], að vikudagatal *Andreæ Schotti,* sem úr hans *Electis* hefir *Screvelius* aukið við *Hachiorum*[5] *edition* af *Rosini Antiquit., p. m.* 955. aldeilis að kristinna manna venju; og ekkert

1) á í C. 2) C. Glacconus. 3) C. innkomið. 4) vantar í A. 5) Hachionum A.

nafn á vikan á latínskri túngu, því var hún eigi í tíðkun hjá Rómverjum. Engin færa *Lexicographi* dæmi til, að orðið *septimana* fyrir viku hafi í latínu máli tíðkað verið, og ekki vill *Gerhardus Vossius* þekkja þá merkingu glósunnar *septimanæ, libro de vitiis serm.*, ei heldur *Olaus Borrichius, cogit. de ling. lat., p. m.* 35, og ekkert forsvar leggur henni *gazophylaceum Konigs,* þótt hennar geti svo sem [ófeðraðrar[1] og mótmæltrar af *Vossio.* En ekki heldur hjá Grikkjum ἕβδομας í vikunafni, nema af *Maccab. lib.* 2., og er það á meðal Gyðínga, og annað af *Galino,* sem var í broddi lífs síns, heiðinn maður, 140 eptir híngaðburðinn, og er það í læknismeistara merkisdaga-reikníngi þrennar sjöundir að kalla, og snertir að engu valdstjórnarárið kristinna[2] [nè heiðinna manna[3], og ekki snertir það heldur heiðindóm norðurálfunnar, sem að skrifar *Salmasius de lingva Hellenistica*[4] *p.* 171[5] eptir einhverjum ónafngreindum *Theologo.* Sjöunda hvern daginn heiðrar afkvæmi ebreskra manna, því að þetta er um Gyðínga talað og öllum kunnugt[6]. En á hverjum tíma[7] sá ónefndi *Theologus* lifað hafi, greinir ekki sá mikli *Salmasius.* Hèr eru dæmi nóg, að Grikkir skiptu mánuðum sínum í þrjár *decades* (þrenna tíu daga)[8], sem *Alstedius* sýnir *lib.* 17., *pag.* 1036, og svo *Scottus* í áður cíteruðum *Electis, p. m. 955*[9], og kölluðu fyrsta þriðjúnginn umgángandi mánaðar, annan miðs mánaðar, og þriðja líðandi mánaðar, mjög líkt því, sem eg hefi áður sagt *in voce* „tvímánuður" um helmíngatal sèra Odds í vorum þrítugnættu mánuðum, hvað alt mèr sýnist að því lúta, að þær einar þjóðir hafi vikum talið, sem annaðhvort hafi verið mjög austan úr heimi, eður af[10] einhverri siðblendni við Ísraelíta hafi það tímatal í tíðkan fengið, alt þar til kristindómurinn magnaðist alvarlega vestur hèr í suðurlöndum, Grikklandi[11] og *Italia,* á dögum *Constantini magni,* meir en 300 ára eptir Kristí fæðíng. Það er ekki fyllilega ljóst af Snorra Sturlusyni, hvort hann telur eptir sinni öld og venju kristinna manna, eður eptir heiðnum sið, daganöfnin, þar hann segir um Hákon Aðalsteinsfóstra: „Tók hann það ráð, að fara leynilega með kristni; hèlt sunnudag og frjádag [í[12] föstu". Hitt er víst, að strax eptir nefnir hann höggu[13] nótt að fornum heiðinna sið, og víst ætla

1) vantar í C. 2) C. kristninnar. 3) vantar í C. 4) A. Salm. Hellenisticus 5) A. 177. 6) C. alkunnugt. 7) C. tímum. 8) vantar í C. 9) A. 355. 10) C. að. 11) C. Grikklands. 12) vantar í A. 13) A. hoggo.

eg hitt[1] muni svo líka, því enginn efi er á, að frjádagsnafnið hafa öll þrjú kóngaríkin, Danir, Norðmenn og Svíar, frá Óðni þegið, og svo Þýzkaland alt, sem enn í dag hefur það ásamt sunnudags- og mánudags-nafninu í sinni túngu; en það vottar Snorri ljósum orðum, að allir sjö vikudagar hinna heiðnu Norðmanna voru virkir hjá þeim; þegar fyrst hefir hann sagt, að Hákon konúngur Aðalsteinsfóstri bað Þrændur heilagt[2] að halda sjöunda hvern dag, en fasta sjöunda hvern, mælir hann: „knurruðu bændr um þat, er konungr vildi taka vinnur af þeim, at við þat mætti landit eigi byggjast; en verkalýðr og þrælar kölluðu, at þeir mættu eigi vinna, ef þeir skyldu eigi mat hafa". Eg sè það hálærðir menn í öðrum löndum, þeir sem hafa nægð bókanna, bæði í *propriis* og *publicis bibliothecis*, og[3] þar með daglegt samtal við sína líka, en með brèfum til allra þeirra í Evrópu, sem þeir girnast, hafa þó haft erfiði fyrir, að finna grundvöll sanninda í þessu spursmáli, hvaðan heiðnir menn hafi haft sitt viknatal. Segja þar um hver það[4] honum líkar; sumir láta það heita, að heiðnir menn hafi haldið sjötalið fullkomið, og því framar öðru tali heilagt. Hvað er þetta fyrir upplýsíng? því er sú tala meir fullkomin en hver[5] önnur? og[6] hvar fyrir heilög? var ekki tugatalið[7] nær til fullkomnunar. Þá hèldu *Pythagoras*[8] fullkomna *og Aristoteles*[9] með sínum lærisveinum. Var ekki þrítal eitt hið helgasta, svo vel hjá heiðnum sem kristnum mönnum? Er ekki þeirrar[10] helgi margföld minníng um alla *Æneiden?* og hjá öðrum ótalföld, sem *Sperling de*[11] *Bapthismo Ethnicorum* sýnir nær[12] á hverju blaði. Eg kann eigi sjá, að það megi virðast ótrúlegt, sem áður hefi eg sagt, að eptir lángfeðgasögu, mann eptir mann, hafi sköpunarverksins minníng, jafnvel í þoku komin hjá heiðíngjum[13] og trufluð fram úr hófi, kunnað að varðveita viknatalið alt ofan til Óðins, og mögulegt væri það einnig norður hèr, fyrr en hann kom til, því að þótt orsökin fyrsta til viknatalsins væri gleymd, þá hefur óslitin venja þeirra, sem orsökina vissu, kunnað að haldast við af eintómis vana hvers eptir annan frá barnæsku. En skyldi þetta ekki vera rètt á hitt, þá skil eg ekki, hvaðan þeir, svo alls ólærðar þjóðir, hafi sitt viknatal dregið, nema ef ske mætti, að gætilegasta íhugun vaxt-

1) vantar í C. 2) vantar í C. 3) vantar í A. 4) A. sem. 5) vantar í C. 6) vantar í C. 7) A. tugatala. 8) C. Pythagorer. 9) vantar í C. 10) C. þeirra. 11) vantar í C. 12) vantar í C. 13) A. heiðíngjunum.

ar túngls og þurðar, er þeir sáu að á hverjum sjö dögum eptir hvarf sitt hafði hálfnað sinn vöxt og fylt hálfan hríng, en á hinum[1] sjö bætti við því, er skorti á kríngluna fulla, skert hana síðan aptur á hinum þriðju sjö, og það til hálfs hinn veginn, og loksins á hinum fjórðu sjö dögum eydt hennar ljósi til fulls, svo þá[2] var máni þeim horfinn, og kom þó strax á eptir með sama skamti, og það óaflátanlega. Þó sýnir það *Macrobius Saturnal., lib. 1., cap. 15., p. m. 240,* hversu mjög að þessi *observatio* af sjón ný-útsprúngins mána vildi skjátla og skekkja mánaðatalið og lengdina fyrir *Romulo,* og því heldur viknaskamtinn hjá vorum ólærðu fornaldarheiðíngjum. Skoði þeir, sem eru jafnólærðir og eg, almanökin ár eptir ár, þá munu þeir finna þann margfalda mismun, sem þar er teiknaður um útsprúngu túngls, fyllíngu og skerðíngu og kvartera skipti; vona eg, að þá muni þeir flestir með mèr dæma, að ómögulegt hafi það[3] verið bóklausum heiðíngjum, viknatalið eptir vexti og rýrnan túnglsins að finna og halda. En köllum það verið hafa mögulegt, ekki síður en Blanda segir, hversu Stjörnu-Oddi, maður heiðinn og alls ólærður, hèr á landi taldi til, í hverri átt að sólstöður skyldu verða eitt ár eptir annað. Og þó vèr tökum annaðhvort af þessu fyrir gott, þá er viknatalið alleina þar með fundið, en alllángt frá, að þar með sè bevísað, það norðurálfunnar yztu bygðir, Danir, Norðmenn og Svíar, hafi í heiðni meint plánetana með Týrs og Óðins, Þórs og Freyu nöfnum; það get eg eigi látið mèr *persvadera* (það er[4] telja trú um) að satt megi vera.

Alt það, er skrifar *nostra laude major Hugo Grotius de verit. relig. Christ., lib. 1., Commate 16.*[5], *pag. 40 et 41 editionis Amstelodamensis 1684,* eptir þeim *scribentum,* sem þar *citerar* hann, og með sínum eigin hálærðu *notis* leiðir til vitnis um viknatal ýmsra suðurálfunnar þjóða, fylgir alt mínu máli, að til allra þjóða sè það komið[6], annaðhvort af eptirleifum heimsins sköpunar minnis, eður af því, er[7] suðurheimurinn vissi til venju Gyðínga. Og því fremur verður mín *thesis* líkleg, að allt frá *Babel* sè viknatalið híngað norður í heiminn komið laungu fyrr en[8] Óðinn. En það, er eg hefi sagt, að í landstjórnarári Grikkja eða[9] Rómverja hafi það viknatal aldrei komið fyrr en með kristindóminum, vitnar með mèr fyrst

1) C. öðrum. 2) vantar í C. 3) vantar í C. 4) C. eða. 5) 6 í C. 6) að add. A. 7) vantar í C. 8) C. fyrir. 9) A. nú.

og framast rímtal þeirra, sem fyrr er getið, og þar jafnframt sá nafnfrægi *Isac Casaubon* í sínum *notis* yfir *Svetonii Tiberium, cap. 30.*[1], *p. m. 366,* þar eð hann greinilega víkur því til *usus vitæ qvotidianæ* (til heimilisbátta-venju), eins og eptir á sýna vil hjá vorum fornaldarheiðíngjum og kristnum[2], þegar um bað og baðstofur skal tala; og berlega neitar *Casaubon,* að Grískir og Rómverjar hafi viknatal í sitt missiris[3]-tal innfært, fyrr en á dögum *Theodosii* keisara. Eg óska hann hefði greint, hver þeirra meintur væri. Enn er eg, sem fyrr segir, á þeirri[4] meiníngu, að með páskareglunum sè viknatalið inn komið í rím kristinna manna, því þá skyldi gæta sunnudagshelgarinnar. Það sem bæði *Grotius* og *Casaubon citera* hèr orð *Josephi Flavii contra Appionem, lib. 2., p. m. 1081,* að engin sè sú Gyðínganna borg og engin annara þjóða, sem eigi hafi í venju leitt sjöunda daginn, er Gyðíngar helgan halda, er ekki heldur mèr á móti, þar eð engin orð *Josephi* láta þá alla viknatalsins þekkíng frá Gyðínganna þjóð út flotið hafa. Ef hann hefði sagt: Frá þeirri ebresku þjóð eða *Noah*-sonum, þá væri það enn betur, svo framt orð hans eiga að skiljast um allan heiminn.

Mèr sýnist ekki lítilsvert, að vèr minnumst þess, sem[5] *Josephus* skrifaði undir *Vesputianis*[6] og *Domitiano,* sem öllum er kunnugt, og vottar *Voscius de hist. græc. lib. 2., cap. 6., p. m. 188., 189.,* þar eð alt frá tíðum *Alexandri* mikla höfðu Gyðíngar skattgildir verið fyrst undir Grikki og síðan undir *Romanos,* kunni því ekki að bregðast, að helgihöld Gyðínga kunnug yrðu þeim herrum, er yfir þeim drottnuðu. Allir eru sömu þánkar mínir um það, sem *nóterað* hafa þeir nafnfrægu menn, *Casaubon* af *Justino lib. 36.* og *Tacito,* og *Terrent.* af *Juvenal. Satyr.* 6., báðir in *Sveton. Octav. August. cap.* 67., *p. m.* 273., því að alt það andar á þá leið, að veik og í hálfgátum hafi verið þekkingin á helgum Gyðínganna, ei alleina á dögum *Augusti,* heldur og *Juvenalis,* og þar fyrir hafi þann tíð ekkert víst viknatal verið í því rómverska ríki, svo vídt sem landstjórnarárið snerta mætti[7]. Það votta þeir hálærðu og víðfrægu *scribentar, Josephus Scaliger,* og eptir honum *Spanhemius,* að austurálfan, *Chaldæi, Arabes, Persæ,* og í suðurálfunni Egypzkir hafi viknatal haft um lángan aldur fram

1) C. 32. 2) A. Christjanis. 3) C. missira. 4) C. þessari. 5) A. það. 6) Vesputiano. 7) C. mátti.

að telja; svo kemst *Scaliger* að orði hèr um, *lib*[1]. *de emend. temp., lib. 1., cap. 6.*: *Primum systema ex diebus dicitur septimana, res qvidem*[2] *omnibus orientis populis ab ultima usqve ætate usitata, nobis autem Evropæis vix tandem post Christjanismum recepta,* ɔ: fyrsta safn[3] af dögum samanlagt er kölluð vika, og er viknatalið að sönnu í venju leidt og tíðkanlegt hjá öllum þjóðum austurálfunnar, það lengst menn rekja minníng[4] til fram í aldir; en hjá oss, sem í norðurálfunni búum, fèkk viknatalið naumlega viðtöku um síðir, eptir það vèr höfðum við kristni tekið. Enn segir *Scaliger*[5] *lib. 4. eiusdem operis, p. m.* 161.: *Julius Cæsar* vissi ekki brúkun paktanna, meir en hann vissi brúkun Gyðínganna viknatals. En áður á sömu blaðsíðu hefur hann sagt: „*Numerus aureus plane inventum est Christjanorum post consessum Nicænum*“, það er: gyllinitalið[6] hafa kristnir fyrst uppfundið eptir þá Nícænisku ráðstefnu. Svo að[7] alt þetta, þá íhugað er, gjörir ljóst, að *Scaliger* vill ekki Rómverjum eigna neina glöggva þekkíng, og enn síður tíðkun viknatölunnar; og það segir *Alstedius, p.* 1042, að kristnir hafi fyrst gyllinital innfært í rímin, en þótt hann eigni *Metoni* stjörnumeistara, að hann hafi það fyrstur fundið. Það er af *Schonbornio* eptir *Hermite Trismegistro*[8] eignað *Babyloniis,* að hafa fyrstir nafngipt vikudagana eptir plánetunum; læt eg mèr og vel skiljast, að slíkir spekíngar og stjörnulistarmenn hafi slíkt gjört eptir rökum[9] sinnar *Astrologiæ* um stjórn plánetanna á þann hátt, sem *Brunsmann* í sínu „*Stædsevarende Calendario*“ og *Schonbornius in Compendio Eccles.* kenna, svo sem þau *excerpta* eru mèr af hálærðum manni og góðum vin í hendur gefin. En hvað mundu vorir heiðnu fornaldarmenn vita af plánetum öðrum en sól og mána, og af[10] engum hinna [get eg skilið þeir hafi vikudagana nafngipt[11]. Það sem *Helvaderus* í sínu *Calendario fol. 203*[12] b[13] skrifar eptir *Dithmaro Meursburgensi, lib. 1. annal. ex vita Hinrici Aucupis, pag. 12.,* um upprunann af týrsdagsnafni, að það sè seinna[14] atkvæðið af *Martis,* er athlægisvert en ekki svara. Það sjá allir, sem vora túngu kunna, að hègómi sá er með öllu grundvallarlaus. Um vangá[15] hans, að slengja sam-

1) vantar í A. 2) vantar í C. 3) A. nafn. 4) C. minni. 5) Scaligerus C. 6) C. gyllinital. 7) vantar í C. 8) C. Trisgemisto. 9) C. rótum. 10) vantar í C. 11) C. get eg þeir hafi skilið vikudaganna nafngipt. 12) C. 263. 13) C. 6. 14) vantar í C. 15) vantar í C.

an Frygg og Freyu við föstudagsnafnið, er nokkuð vorkunarmál. En það, er hann segir um húsguðanna nöfn ýmisleg hjá þeim Dönsku, og *per conseqvens* hjá Norðmönnum og Svíum, sem og til hverra hluta hver hafi tilbeðinn verið, og af þeim til hins sama hjálpar vonað, læt eg vera við sitt verð, og þykir til þess skorta vitni fornaldar. Laugardeginum eignar hann dýrkun þeirra smáguða, og trúi eg því laust; sýnist mèr það[1] skapað eptir siðum Rómverja um dýrkun *Larium* og *Penatum*. Líkara þætti mèr, að smáguðir þeir, sem hann nefnir, mundu sömu ættar, sem landvættir vorra gömlu heiðíngja. En það er sami *Meursburgensis* skrifar um ákall heiðíngjanna norður hèr í optnefndum þremur kóngaríkjum, á *Saturno, Jove, Marte, Venere et Mercurio,* trúi eg alls ekki, fyrr en hann leiðir til þess skilmerk rök og vitni, og held það dikt eintóman. Uggir mig, að þessum *scribent* verði það, sem *Casaubon* tekur mönnum vara fyrir hjá *Christ. Math. theat. hist., lib. 4., p. 281.*: „Ekki er eg *Plinio* samþykkur", segir hann, „þar hann getur til, að *Druidæ* (svo hètu spekíngar og kennimenn hjá heiðíngjum á Þýzkalandi fyrr á öldum) sè dregið af grísku, heldur vil eg fylgja forsjálu ráði *Strabonis,* sem neitar, að í nafngiptum bóklausra þjóða megi leita að grískum uppruna-rökum". Hefir *Meursburgensis* og fleiri lærðir menn steytt fót sinn á þeim steini, að vilja skapa vorum heiðnu fornmönnum sömu siði og sömu guði, sem lærðir heiðíngjar höfðu suður í löndum, svo sem þá þeir láta Óðin vera sól, *etc.*, sem fyrr hefi eg getið. Það er víst, að bæklíngur sá, sem Blanda heitir, *cap.* 24., þar sem talar um vikudaga nöfn[2] heiðinna fornaldarmanna, segir oss kalla *Martem* Týr, en *Mercurium* Óðin, *Jovem* Þór, en *Venerem* Freyu, og segir eptir þessum plánetum nafngiptir vikudaganna; en *cap.* 9., um missiristal, lætur þessi bæklíngur sem hann muni gjör, en Járnsíða var útgefin, ɔ: fyrir 1262. Hèr til svara eg, að það ei muni orsakalaust, er sami bæklíngur í formálanum kveðst af því Blanda skuli kallast, að hann blandi saman bóktali og íslenzkri ljóðæsku, skyldu tali og óskyldu, og svo tel eg í þessu skeð vera um ásanna[3] nöfn og plánetanna. Sè eg engar þeirra[4] *rationes* þær, er minn skilníngur fær[5] gripið að nokkra *demonstration* innfæri, allfáar *probabiles* (það er, sem líklegar heita megi); því sýnist mèr villa[6] þessi svo til komin, að þegar vor kristni

1) muni add. C. 2) vantar í C. 3) C. ása. 4) C. fleiri. 5) C. fái. 6) tala.

var svo framt mögnuð, og vorir menn tóku[1] að stúdèra nokkuð til gagns, og fengu þekkíng plánetanna og vikudaganna nafna, sem suður í löndum voru kend við þá, hafa þeir *argumenterað* svoleiðis: Miðvikudagur er *dies Mercurii* suður í heimi, Óðinsdagur á norðurlöndum er miðvikudagur, *ergo* er Óðinn *Mercurius. Respondeo*: það fylgir ei á eptir; því nú eru 7 *termini in argumento*, 1, miðvikudagur, 2, *dies Mercurii*, 3, suður í heimi, 4, Óðinsdagur, 5, á norðurlöndum, 6, Óðinn, 7, *Mercurius. Atqvi* Óðinsdagur á norðurlöndum er *dies Mercurii* suður í heimi, *concedo*. En ef þeirra *illation* skyldi sönn vera, þá ætti með öllum sömu rökum og rètti *Janus* Rómverja að vera meintur, þar sem vorar sögur nefna Þorra konúng; því mánuður þeirra *Januarius* átti, meðan varaði gamli stýll, það sæti á tímum ársins, sem vor mánuður þorri átti hjá oss. Svo skyldi og *Februus*, guð Ítaliskra, vera meintur, þar sem vorar sögur nefna Gói, dóttur Þorra konúngs[2], og sjá allir, hvað þreifanlegur hègómi þetta er, og nær alls [á[3] engum grundvelli, svo sem hitt ei heldur um plánetana, að því er eg fæ skilið. Er það nú öllum auðsèð[4], sem athuga vilja, að í staðinn þess, sem slíkir góðir og lærðir menn *inferera* vilja, að Óðinn sè *Mercurius*, áttu þeir að hafa sagt: Vorir fornaldar heiðíngjar, sem voru ólærðar þjóðir, þektu ekki þá guði suðurheimsins, af hverjum þar voru nafngiptir plánetarnir og vikudagarnir, nema sól og mána; því gáfu vorar norðurlanda-þjóðir nafnakenníngar vikudögunum til þeirra guða, sem hèr voru dýrkaðir, og settu Óðinsdag í miðja viku, svo sem í æðstan sess; því Óðinn var æðstur þeirra guða. Neitar og *Cæsar* berlega, að Þýzkir hafi heyrt aðra guði nefnda en sól og mána, nema *Vulcanum, lib. 6. de bello Gallico, p. m.* 230. Eg sè það, að hálærðir menn nú á dögum vilja hafa Óðin, guð heiðinna[5] á norðurlöndum, hèr vera skuli meintan sólina, svo sem skrifar *assessor* Þormóður eptir *Verelio* og *Stiernhielmio in Serie Dynast., lib. 2., cap. 3., p. m. 114, 115*, og sjálfur sýnist Þormóður því samþykkur[6], *pag.* 117, svo sem hann og meðgengur það berlega, *p. 122* og *124. Barthol. Antiqt. Dan. lib. 2., cap. 9., pag. 472,* getur þess að vísu, að svo hafi *Verelius* skrifað, og lætur ekki fjærri, að hann *approberi* þeirri sögu, þó ekki sè það með öllu greinilegt; þykist Þormóður enn þá gjöra vel,

1) til add. C. 2) vantar í A. 3) vantar í A. 4) C. auðsært. 5) C. heiðíngja. 6) C. samþykkja.

að hann lætur þann Óðin, sem dýrkaður skyldi hafa verið í stað sólarinnar, vera þann gamla Óðin, son Börs, er Óðinn Friðleifsson opinberaði Gánglera. En hverjar bevísíngar þeir kunni til þess að leiða, veit eg alls ekki, aðrar en þær, sem Þormóður framtelur[1] *pag.* 115 og 117, og get eg ekki skilið þær nógar[2] vera, til[3] að bevísa það norðurálfan hafi nokkura þekkíng haft á nokkrum Óðni, fyrr en Óðinn Friðleifsson kendi Gylfa konúngi sögurnar af Óðni, syni Börs, sem Edda greinir í Gylfaginníng. Eða hvað þurfti Gylfi þar um að fræðast af Óðni Friðleifssyni, ef Óðinn Börsson var áður nafnkunnugur guð[4] norðurlanda. Eg skil ekki betur, en þetta niðurbrjóti sig sjálft með öllu, og engan gaum gef eg að sögunni af Sturlaugi starfsama, þar sem hún í nokkru víkur frá öðrum betri sögum; er hún full af vitlausum ýkjum og skröksemdum, sem á engum fótum standa, en hefir stolið sèr ýmsra manna nöfnum úr trúverðum[5] sögum, til að blekkja menn á skrökvi sínu. Koparstykki það, er *Bartholin* innfært hefir *pag.* 473, skilst mèr að vera skuli það[6] *schema Eddicum*, sem hann og Þormóður eignar *Verelio* að hafa leidt fyrir ljósið. Það sýnir Óðinn á thróni sínum í þá líkíng, aldeilis sem Edda skýrir frá, að Hár, Jafnhár og Þriði birtust Gánglera; og greinir Edda það ekkert, sem nokkuð þvílíkt eigni þeim gamla Óðni, syni Börs, svo sem þeir ei heldur vilja honum þetta bílæti eigna, heldur Óðni þeim síðari, Friðleifssyni. En að mynd sólarinnar á bak við þetta Óðinsbílæti, máluð eður úthöggin, skuli vera nokkur líkíng eða minníng Óðins Börssonar, sè eg engin rök tilleidd með neinum púnkti, og fjærri fer, að eg trúi því. Hitt virðist mèr af því sýnilegt[7], að sólin hafi þeirra guð verið, og að vísu eldri guð en Óðinn, það er laungu fyrri dýrkaður fyrir guð hèr allra-norðast í heiminum; því stendur hún á bak við Óðin, að hennar guðdómur er eldri og fyrri kunnur. Lítur og öll frásaga Hárs frá sólunni í þann veg, að mýja heldur guðdómi hennar, og eigna sjálfum Óðni og ásum krapta þá, sem sólin hefir, ef því mætti við koma. En þegar Óðinn Friðleifsson sá, að það mundi torvelt, að afstýra með öllu þeim forna átrúnaði á sólina, hefir sá djúpsetti slægðarmaður látið sèr lynda, þótt sá átrúnaður hèldist við, þegar hann að eins gæti sinn guðdóm stiptað á þann veg, sem honum tókst að gjöra. Skuli eigi þetta rètt, og sè þar sólin meint,

1) A. framleiðir. 2) C. nóg. 3) vantar í C. 4) þessara add. A. 5) A. trúverðugum. 6) vantar í C. 7) C. rímilegt.

sem þeir dýrkuðu Óðin, því stendur þá nafn Óðins við miðvikudaginn? Þótt mèr verði sagt, að við Óðin Friðleifsson sè miðvikudagurinn kendur, en Óðinn, sonur Börs, eigi sunnudaginn, svara eg, að Óðinn Friðleifsson eignist allan þann guðdómsheiður, sem áður hafði hann í Gylfaginníng eignað Óðni Börssyni, og skyldi því nafn hans hafa þar sæti numið [í[1] vikudögunum[2], sem hann átti rúm sitt (svo sem í nafni sólar), og þar með enginn dagur síðan við Óðin kendur, ef sólin var þar og meint, sem hann var nefndur og dýrkaður þeirri dýrkun, er fyrst hafði hann eignað þeim gamla Óðni Börssyni. Sè eg nú ekki, hvernig þeir hálærðu menn greiða hèr úr sínum eigin *thesibus*, sem og eigi er von, því að allar þessar eru bygðar á *falsa hypothesi*[3], sem er, að Óðinn sonur Börs hafi hèr nokkurn tíma dýrkaður verið, áður en Óðinn *secundus*, Friðleifsson, gjörði nafn hans kunnugt. Og þó menn vildu því trúa (sem lángt er frá eg geti því trúað), þá afbrýtur sagnaskorturinn allar vændir bevísínga þar upp á, þ a r e r[4] vèr höfum alls engar sannar sögur af þessu kalda norðri, þær er taki lengra fram, en til Óðins Friðleifssonar, sem sjálfur Þormóður gengur við og leiðir Rímbeglu til vitnis, *lib. 3., cap. 4., pag. 264.* Eg vil þegjandi gánga fram hjá *Stiernhielmii*, sem Þormóður eptir *Verelio* innfærir, *lib. 2., cap. 3., pag. 114,* því að *Computus Runicus* er mèr ekki í hendi. Þó vil eg h è r[5] það innfæra, að orðin þessi: „Ó ð i n n  b e t e r  h e s t a  s í n a  í  b e l g  b u n d i n n“, segja á latínu: *„Odinus pascit eqvos suos in follem inclusus“.* Hèr segi eg með fullri djörfúng, að vitni þess, sem skrifað hefir orðalistina Svíanna bak við Vestgótalögin, að í beitarmálum heitir sá í belg bundinn, sem af girðíngum nágranna sinna er svo landþraung haldinn, að hann náir hvergi frjálsum rekstri kvikfjár síns til almeníngs, og er orðatiltæki þetta tekið af Vestgauta-*lagh.*, Bygðab. *cap. 5., comm. 2., p. m.* 34[6], og vildi eg glaður sjá, að það með fögrum rökum heimfært yrði til hesta sólarinnar, ef hún skal v e r a[7] meint þar með, sem Óðinn er nefndur. Svo er um *Martem*, ef hann skuli norðurálfan hafa meint fyrir Týr, *Jovem* fyrir Þór, *Venerem* fyrir Freyu. Eg bið þá hálærðu menn vorkunar, að eg get þetta með engu móti skilið, og ætla það af skarpvitrum lærdómi þessara góðu manna sprottið hafa, en aldrei hafa komið í hug

---

1) C. á. 2) þar add. C. 3) (raungum grundvelli) add. A. 4) C. þar eð. 5) vantar í A. 6) C. 37. 7) vantar í A.

vorrar ólærðu norðurálfu í hennar heiðingdómi. Eður því mundi þá[1] Óðinn sjálfur einn mestöllu ráða skyldu í orustum? Veit eg Edda segir Týr ráða sigri mjög í orustum, og á hann sè gott að heita hreystimönnum. Hún segir um Ull, að hann hefir hermanns-atgerfi, og á hann sè gott að heita í einvígi. En allfá munu dæmin í sögum gefast, að á þessa tvo ása hafi heitið verið, en hin mýmörg, að heitið var á Óðin, og honum var[2] víðast eignað þetta vald; en sögurnar af því svo fullar, að traudt má tölu á koma. Óðinn hafði heitið[3] Hjálm-Gunnar sigri, þá er[4] Brynhildur feldi hann, sem vottar í Sigurdrífumálum. Óðinn var, sem þá nefndist Hrani[5], er hann bauð herklæðin Hrólfi kraka, en hann þáði eigi, og þótti Böðvari bjarka, þegar hann hugði betur að, sem þeir hefðu sigri neitað. Óðins leitaði Böðvar í orustunni seinustu, þá Hrólfur kraki fèll, og kendi Bjarki honum ósigurinn, og vildi hann fyrir það pínt hafa, sem hvorutveggja vottar í sögunni af Hrólfi kraka. Og ekki dylur það *Saxo Grammaticus, lib. 2., p. m. 37.*, þar sem hann getur þeirrar síðustu orustu Hrólfs kraka, að Óðinn vilji hann sjálfur *Martem* kalla, [en ekki *Mercurium*[6], þar sem[7] hann verterar kvæði Böðvars bjarka:

*Et nunc ille ubi sit, qvi vulgo dicitur Odin*[8],
*Armipotens,* ———
*Dic mihi Ruta.* ——— *Ad hæc Ruta:*
*Adde oculum proprius et nostras prospice chilas*[9]
*Ante sacraturus victrici lumina signo,*
*Si vis præsentem tuto cognoscere Martem. — Tunc Biarci:*
*Si potero horrendum Friggæ spectare maritum,*
——— *Letra neqvaqvam sospes abibit.*

Það er: „Segðu mèr Rúta: hvar er nú Óðinn, máttugur í orustum?“ Rúta svarar: „Sjáðu í gegnum handkrikann undir hönd mína vinstri, en áður skaltu marka geyrinn Gúngni[10] og Þórs-hamar fyrir augum þèr (það er sigurmerki), ef þú vilt að óhættu sjá orustuguðinn“. Enn mælti Bjarki: „Ef eg gæti sèð hinn illúðlega faðmbúa Friggjar, skyldi hann aldrei heill frá Hleðru[11] koma“. Hjer sjáum vèr Óðin nefndan *Martem*, og ektamann Friggjar. Óðni hafði sig heitið Eiríkur hin sigursæli, Svíakonúngur, sèr til sigurs[12] á móti bróðursyni sínum, Styr-

1) Á. fyrir sigur. 2) vantar í C. 3) A. er. 4) A. lofað. 5) vantar í C. 6) A. Grani. 7) frá [vantar í C. 8) vantar í C. 9) C. Othin. 10) C. chelas. 11) vantarí C. 21) C. Hleiðru.

birni Svíakappa, sem sá þáttur vottar; *vide* Snorra Sturluson [*in* Hákon Aðalst. s. og Ól. sögu prentuðu[1], *lib. 1., cap. 22., p. 21. Item* Snorra Sturluson um andlát Óðins, og Eddu um smíðar[2] dverganna, Ívaldasona, *pag. Cod. Reg. 212., 214., et Cod. Vorm. 243, 245, et in impr. Mythol. 59,* Háfamál, *Stropha* 1., Sigurdrífumál, *pag.* 161. Kem eg ekki tölu á þvílík dæmi, og því skyldi þá Týr vera kunna *Mars,* þar[3] Óðinn ræður sigri? Skuli Þór *Jupiter* vera, því er þá Óðinn, hinn [almáttki[4] ás, í eiði heiðíngjanna? Eður því er Freyr og Njörður ákallaður í eiðnum, en hvorki Þór nè Týr? *vide*[5] *Crymog. lib. 1., cap. 7., pag. 77., Stjernhok de jure Svenonum, lib. 1., cap. 2., et* Landnáma *pag. 318.* Vel er það satt, að Freyju eru eignaðar listir *Veneris;* það er og gjört um Sjöfn og Lofn; en hvað gjöra nú þessir hálærðu menn af *Saturno,* ef hinir allir meina plánetana og þá heiðnu suðurálfunnar guði? Vilji þeir hálærðu menn leyfa mèr að segja, hvað *barbare* eg skil þá fornu *barbariem* heiðindómsins norður hèr, þá er það mála sannast, [að[6] eg ætla þeir ekkert hafi þekt[7] til nokkurs[8] guðdóms *Martis,* nè *Mercurii,* nè *Jovis,* nè *Veneris,* og ekki vitað nöfn þeirra nè[9] krapta, svo sem áður hefi eg sagt eptir *Cæsare,* en sól og mána sáu þeir, og þektu þeirra verkun; hin öll þeirra *numina* ásanna ætla eg þeir hafi trúað hefði það guðmagn í sjálfum sèr eður enn[10] öðrum guðum, sem þeir mundu blóta, *vide* Eddu, og trúðu víst, að það megnaði hver þeirra, sem Edda segir, eður og meira, annaðhvort sjálfir, eða þá sem meðalgángarar hjá sínum líkum, ásunum þeim fornu, sem Hár kendi Gylfa konúngi að í Ásgarði hinum forna drottnað hefði, áður en þessir nýkomnu æsir gáfu sèr þeirra nöfn, sem Edda kennir, og því sè Óðinn talinn midt í vikunni á millum Týrs og Þórs, að hann var göfugastur allra þeirra guða, sem vottar í Grímnismálum:

Askr Yggdrasils,
hann er æðstur viða,
en Skiðblaðnir skipa,
Óðinn Ása,
en jóa Sleipnir.

Og enn segir Edda: „Óðinn heitir Allföður, því hann er faðir allra guða“. Og í öðrum stað segir hún: „Óðinn er æðstur og

---

1) frá [vantar í C. 2) vantar í C. 3) A. að. 4) C. almáttugi. 5) vantar í C. 6) vantar í C. 7) C. þeinkt. 8) vantar í A. 9) vantar í C. 10) vantar í A.

elztur ásanna;[1] hann ræðr öllum hlutum, ok svo sem önnur goðin eru máttug, svo[2] þjóna honum öll, svo sem börn föður". Skýrlega segir Snorri Sturluson, þar sem hann talar um íþróttir, makt og tign ásanna: „Óðinn var göfugastr af öllum", og strax á eptir eignar Snorri[3] honum vald og sigur í orustum. Voru æsirnir þegar eptir andlát sitt orðnir ósýnilegir guðir, þótt að Óðinn birtist mönnum nokkurum sinnum fyrir stórtíðindum, einna helzt fyrir orustum, svo sem Hrólfi konúngi kraka og mönnum hans, og Örvar-Oddi nokkrum sinnum, meðan þeir voru á lífi, Garðar og Stirmir[4] fóstbræðrum, og Herði í Hólmverjasögu með Bjarnarnafni, áður Sótahaugur yrði brotinn. Þór og nokkurum sinnum, sem vottar hin prentaða Ólafs konúngs saga, og þó sjaldnar en Óðinn. Annars voru þeir ósýnilegir guðir allir, nema sól og máni; þau hafa sannarlega bæði verið guðir þessara heiðnu[5] norðurlanda, áður en Óðinn kæmi, svo sem vottar grein *Cæsaris* áður rituð[6], og mun Óðinn ei hafa sèð sèr færi á, að steypa þeim úr tölu guðanna, heldur látið þá í sínu forna gildi, þegar hann að eins fèkk sínum guðdómi á lopt komið með listum þeim, sem Edda skýrir. Er nú vikudögunum öllum fengið nafn hið heiðna, nema þeim sjöunda einum. Til þess kann eg engin rök, nema þá átyllu, sem *Stephanius in notis ad Saxonem Grammaticum p. m. 114*[7] eptir *Johanne Vasthovio Gotho de idolis borealibus in præfatione operis de vitis Sanctorum* kennir, að sólu og túngli hafi þeir eignað þá fyrstu daga vikunnar, Dísi (*corrigo*[8] Týr) þriðja, Óðni fjórða, Þór hinn fimta, Frigg (*emendo* Freyu) sjötta, *flammæ*, eldinum, sjöunda.

Nú þótt eg sjái þessi *scribent Vasthovius* hafi gjört Týrsdag að Dísardegi[9], og síðan *confunderi* Þór og Þorra, þá hugleiði eg hèr upp aptur *locum Cæsaris* áður *citeraðan*, að Þýzkir á hans dögum hafi trúað á sól, eld og mána, hverra guðdómlega hjálp þeir þóttust sjá og finna þreifanlega, en ekkert hafi þeir vitað af öðrum guðum, og ekki kunnað þeirra nöfn; því gjöri eg mèr það líklegt, að satt muni *Cæsar* skrifa og svo *Vasthovius*, þótt eg eigi viti, af hverjum rökum hann hafi sagt, að heiðnir hafi sjöunda vikunnar dag eldinum eignað; hefir á tíð *Cæsaris* ekki verið svo lángt suður uppkominn nè magnaður átrúnaður á Óðin, þá rètt nýdauðan, eða kann ske

1) C. allra guða. 2) C. þá. 3) A. hann (Snorri). 4) C. Skírnir. 5) vantar í C. 6) A citeruð. 7) C. 144. 8) C. corrige. 9) C. Dísudegi.

lifandi, nè á hina ásana. En eldurinn hefir verið gamall guð *septentrionis,* áður en Óðinn kom norður híngað. Legg eg nú það hèr til, sem merkilega lærður maður, prófasturinn sèra Jón Árnason í sendibrèfi sínu minnir mig á, að *Mag. Ericus Pontoppidanus* hafi skrifað *in observationibus philologicis,* að heiðin öld hèr á norðurlöndum hafi á laugardögum tilbeðið eldinn, og skil eg það samhljóða *Vasthovio,* og enn nú tek eg mèr það til styrkíngar í þessari trú, að ótalföld eru til þess líkindi í sögunum, að heiðnir menn höfðu stóran átrúnað á eldinum, bæði suður um heim þegar[1] á Trójumanna tímum, og síðan hjá Grikkjum og Rómverjum um *focum Vestæ* og *focum diis penatibus sacrum,* og hèr á norðurlöndum, því að efalaust hafa vorir landnámsmenn frá sinni fósturjörðu, Noregi, híngað flutt og af feðrum sínum numið, að fara eldi um land sitt, og með því móti að helga það sèr og sínum eptirkomendum. Hèðan af[2] arinn, arineldur og arinhella, og húshelgin þar fyrir innan, og alt hvað eldsins *numen* og helgi snerta má eður sýna kann í vorum sögum öllum, þeim sem í heiðni gjörðust, eður af heiðinna manna siðum eða átrúnaði skýra. Eldar Helga magra við árósana í kríng um Eyafjörð; eldarnir til landnámsvíddar eptir ráðum Haralds konúngs hárfagra; tunduörin, sem Önundur vos[3] skaut yfir Jökulsá í austurdölum Skagafjarðar; og er slíkt ei[4] að mínum þánka furðulegt, þar sem flestar allar[5] heiðnar þjóðir hafa keim haft af þeim átrúnaði, sumar meira sumar[6] minna, bæði að fornu og nýu. Sýna það og dæmin, að af *focorum laribus sacrorum numine* (það er af heilagleik eldstónna, sem húsguðunum helgar voru) væru það meintar *reliqviæ* vera, þegar fornmenn þóttust sjá elda brenna af fè í haugum drauganna, svo sem í Grettissögu, *cap.* 20., og í Hervararsögu um Arngrímssònu á Sámseyu. Og þó það væri af öðrum rökum átrúnaðar[7], þá var ei Ásmundi undir Núpi grunlaus eldur sá, er honum þótti brenna í augu sèr, þaðan sem nú stendur kirkjan á Þíngeyrum, svo sem *traditio* segir. En hitt er í Sturlúngasögu, *lib. 1., cap. 3.,* um ljós það, er skein í augu Geirmundi heljarskinn, þaðan sem nú er kirkjan á Skarði á Skarðsströnd, svo að í hvorutveggja þessu var ótti fyrir eldsins guðdómi.

Það er merkilegt um fornmenn vora, svo sem aðrar heiðnar

1) C. og það. 2) vantar í A. 3) vantar í C. 4) vantar í C. 5) C. flestallar. 6) A. sumir. 7) átrúnaður A.

þjóðir út um allan heiminn, hvað innanhússhelgin var sterk [á[1] eldinum. Of mörg eru hin fornu dæmin; en geta verð eg þess eins[2], er frá alda-öðli viðtekið stendur þó enn í hinum kristnu lögum Magnúsar konúngs lagabætis[3], Landsl. b. *cap. 25.:* „þrír eru arineldar[4] at lögum", *etc.* Þegar vèr nú hugleiðum þá þrjá arinelda, þá sjáum vèr, að hver fyrir sig er *focus sacer* (heilög eldstó)[5], og gjöri eg ekki gátu af, að af þessum arin[6]-eldum er uppsprottin *vocula Arildstid,* það er arineldstíð, frá því fyrsta menn fóru eldi og arni til þess staðar, svo sem Grágás kveður að orði í Landabr. þ. *cap. 14.*, og ásamt með[7] henni Austgautalög Svíanna, Bygðab. *cap. 3.*, það er: settu þar bygð í fyrstunni[8], þegar eldurinn hafði helgað þeim land, og honum til hvílu var búinn til[9] arinn, það er eldstóin og hlóðirnar af grjóti gjörðar, svo sem kvað Egill Skallagrímsson um Arinbjörn:

En Grjótbjörn
umgnegðan[10] hefir
Freyr ok Njörðr
at fjárafli.

Hèr kallar hann Grjótbjörn Arinbjörn, því að arinn, ɔ: eldstóin, var af grjóti; en í næstu vísunni áður kallar hann Bjóða björn birkisótta, það er eldstóabjörn, því að arinn, eldstóin, er bjóði (bjóðandi) birkisótta, eldsins, því eldurinn er sótt birkisins, sem brent verður í eldstónni. Klíngir svo þetta gjörvalt saman hvað við annað, að arineldur er sá heilagi eldur, sem húshelgina gjörði. Nú lít eg enn á hina fornu Gulaþíngsbók, þar eð hún segir í Kristinrètti: „hvert það hús, sem reyk reykir". Sjáum nú á vorum dögum konúnganna fororðníngar *„om hver Fyrstæð";* munu það ekki vera *residua* af arineldunum fornu? en arineldarnir, sem fyrr segir, helgir frá alda-öðli? En löndin, höfuðbólstaðir og útjarðir allar, með öllu því, er þeir numið höfðu til eignar sèr, eigendum heilög[11] frá arineldstíðum. Eg bið lærða menn að hugleiða, hvað hinn almáttugi guð talar eptir mannlegum plagsið með túngu *Esaiæ, cap. 31., v. ult.,* er hann segist hafa sinn eld og ofn í Jerúsalems-musteri, það er: búa þar og eiga þar heimili, svo sem *biblia Nurinbergica* votta[12] *Lutherus* hafa það skilið, og

1) C. í. 2) vantar í C. 3) C. lagabætirs. 4) C. Arinseldar. 5) vantar í C. 6) vantar í C. 7) vantar í C. 8) C. í fyrstu. 9) vantar í C. 10) A. greiðan. 11) vantar í C. 12) C. vitna.

lofar hinn almáttugi, að láta sig ei þeim rètti ræna, sem allur kapítulinn vottar. Hèr eru þó eldur og ofn heimilisrèttar og heimiliseignar merki[1], sjálf[2] þau sömu, sem heiðíngjarnir norður hèr töldu sèr af arineldinum. Svo að þessi arineldarèttur sýnist hafa gengið vídt og breidt um veröldina, eg meina svo vídt sem hún er bygð. Hvað er þá undarlegt, að arildstíðir sèu arinelds-tíðir? Það höfum vèr enn [í dag[3] í vorri túngu, að hella sú, sem liggur undir útidyra-þrepskildi, heitir arinhella, því að fyrir innan hana var[4] húshelgin sjálf af þeim helga arni[5]. Sjáum hvað Mannh. 2. *cap*[6]. segir: „Ef maðr vegr mann innan stokks", *etc.* Svo er þá landnáms-helgin með eldi fengin [og húshelgin með eldi fengin[7], og nú ber öllu saman, að *numen ignis*, guðdómur eldsins, eptir trú heiðinna skyldi þetta gjörvalt helga. Hvað er þá að undra, þótt eldinum væri eignað niðurlag vikunnar, þar sem upphaf hennar var helgað sólunni, og annar dagur mánanum? Þessa þrjá guði þóttust heiðíngjar sjá fyrir augunum, og altíð þreifa mega á þeirra hjálp. Eg ætla það sè ekki rángt til tekið, að híngað leiði eg það, sem Háfamál segja:

Jörð tekr við öldri,
en eldr við sóttum.

Skoðum hvað enn í dag gjörir fávís almúgi, þegar hann þykist var verða við einhverja fjársótt[8] á gripum[9] sínum, þá er eldurinn borinn á gripina, svo að sumir brenna af þeim hárið með eldinum; munu þetta ekki leifar hins forna átrúnaðar, að eldur taki við sóttum? Hèðan[10] er að bera eld í stekk og kvíar og eins[11] peninga-hús, einkanlega þau, sem nýgjörð eru; helzt sá siður enn í dag hjá velflestum almúga eptir óumbreyttri venju fornaldar, sem efunarlaust er sprottinn af fornum átrúnaði. En þótt eg viti, að skynsamir menn, sem enn nú leyfa eða skipa sínu þjónustufólki slíka hluti, segja það tilefni, að ormar, sem í auðum tóptum liggja og nýhrærðri jörðu, kunni að granda kvikfè og[12] setjast í[13] klaufir þess, þvílíkt illyrmi skuli fyrir eldinum rýma, *vide Volfg. Franzii hist. animal., part. 4., cap. 1., p. 7.,* þá er þó gátulaust, að ekki fimtugasti hver gjörir það af þeim tilgángi, heldur svo sem eg hefi sagt af fornri venju, en venjan sè af átrúnaðinum forna. Það er meira en

1) vantar í C. 2) C. en ekki sjálf. 3) vantar í C. 4) A. er. 5) A. arinn. 6) vantar í C. 7) frá [vantar í A. 8) C. fársótt. 9) C. kindum. 10) C. Hèr af. 11) A. ýms. 12) vantar í A. 13) C. á.

of lángt, að innfæra hèr það, er hálærðir menn í öðrum löndum skrifað hafa um átrúnað heiðíngjanna suður og austur í heimi, þann er þeir höfðu á eldinum, og svo það, er sumir heiðnir *scribentar* skrifa þar um, þá vil eg biðja, að ef nokkur lærður maður les þetta, vilji hann renna auga til, hvað *Herodotus* skrifar um *Persas in Thalia, cap. 16.*, og *in Eroto, cap. 82*[1]; *Xenophon* um samtal *Socratis* við *Evtydemum, p. m. 800 og 801*[2]; *Cato*[3] *de re rustica, lib. 2., p. m. 418*[4]; *[Florus. lib. 1., cap. 2.*[5], *Com. 3., p. m. 18; Justinus lib. 2., cap. 1., p. m. 34*[6]; *Ortelius in Cappadocia, notante Thysio ad Justinum, lib. 1.*[7], *cap. 4., p. m. 40.; Rosinus antiqvit. Rom. lib. 2., cap. 12., p. m. 150., et Dempster in idem caput p. m. 152., 153., Antiq. Thysii notis in Sallustii bell. Catil. p. m. 35., 36. et 159.; confr. Polydor. Virgil. de Inventione Rerum, lib. 5., cap. 7., p. m. 362.* En hvernig heiðíngjarnir þeir hinir elztu næstu eptir flóðið sèu fyrst í þá villu komnir, að hafa eldinn fyrir guð, læt eg þeim eptir að greina, sem sýna vilja grundvöll[8], *ortus* og *progressus idololatriæ* [ (uppruna og framfarar skurðgoðadýrkunarinnar[9]), og er það ekki við mitt hæfi[10], að leiða til þess önnur líkindi, nè eldri en þau, er af *Moesis* bókum læra[11] má og eptirkomandi tímum, sem ritníngin skýrir. Verður því ekki neitað, að það drottins undur og dásemdir, sem hann gjörði meðal Ísraelsfólks, muni spurzt hafa og hljóðbærar[12] orðið meðal heiðíngjanna, sem alt í kríng um þá bjuggu, og hvað mest á meðal *Kananitanna*, sem stukku fyrir *Josua* víðs vegar um ýmsar heimsins álfur. Það er kunnugt, að andskotinn hefir á ýmsa vegu [á[13] meðal heiðíngjanna látið apinjulátum, svo sem vildi hann gjöra líkíng eptir guðs furðuverkum; nú vitum vèr, að ritníngin er full af því, hvað margfaldlega vor[14] sanni guð gjörði sín undrunarverk sýnileg fyrir mönnum með eldi. Svo logaði runnurinn, en brann þó ekki, *Exod. 3., v. 2.* Eldstólpinn hvíldist yfir sáttmálsörkinni á næturnar, *Exod. 13., v. 21*[15], og *cap. 40., v. 38*[16]. Í eldi og reyk birtist drottinn á fjallinu *Sinai, Exod. 19., v. 18.; Devt. 4., [ 5.,*[17] *v. 11.* Dýrð drottins var að sjá því líkast, sem einn brennandi eldur efst á fjallinu fyrir aug-

---

1) C. 828. 2) C. 43. 3) C. Columella. 4) C. Cap. 2. 5) frá [ vantar í C. 6) C. 48. 7) C. 2. 8) vantar í C. 9) frá [ vantar í C. 10) C. hóf. 11) C. ráða. 12) C. hljóðbær. 13) vantar í C. 14) C. hinn. 15) C. 31. 16) C. 28. 17) vantar í C.

liti[1] *Israeli*[2] barna, *Exod. 24., v. 12.* Eldur gekk út frá drottins ásjónu[3] og fortærði brennioffrinu [því feita, sem Aron hafði lagt á drottins altari[4], *Levit. 9., v. 24.* Eldur gekk út frá drottni og brendi *Nadab* og *Abihu,* [sonu Aronis, sem báru annarlegan eld fyrir drottin[5], *Levit. 10., v. 12.* Eldur af steininum brendi fórn *Gedeonis, Jud. 6., v. 21.* Í eldsloganum, sem af hellunni upp gekk og uppbrendi[6] fórn *Manoah*[7], upp fór engill hins mikla ráðs frá augsýn *Manoah* [og hans kvinnu[8], *Jud. 13., v. 17, 18, [19, 20*[9]; *vide Bibl. Nurnberg.*, og þeim samhljóða biskups Vídalíns postillu, *Domin. 2. Adv., pag. 21., lin. penult.* Eldur af himni brendi fórn *Eliæ, 1. Reg. 18., v. 24. [et 28*[10]. Eldur gekk fyrir[11] drottni í jarðskjálftanum, *1. Reg. 10.*[12], *v. 12, 13.* Eldur af himni brendi fórnina, sem Davíð offraði á altari því, sem bygt var í láfagarðinum, [sem Davíð keypti af *Arnan Jebusiter*[13], *1. Chron. 22., v. 26*[14]. Eldur af himni brendi slátrunar-offrið [og brennioffrið á drottins altari[15] í vígslu musterisins, [sem Salómon bygði[16], *2. Chron. 7., v. 1.* Með eldlegum túngum sýndi drottinn sína dásemd á postulunum á hvítasunnu[17], *Act. 2. v. 3.* Svo meinar og *D. Lassenius,* að fórn Abels hafi eldur af himnum uppbrent, og *citerar* sömu meiníngar *Theodosionem*[18], *Hieronimum, Lutherum et Hunnium; vide Lassenii Mscr. adversaria in voce Abel,* svo sem sá guðsmaður *dicteraði* af þeim *viva voce* fyrir 6 þýzkum stúdentum og mèr hinum sjöunda, *anno*[19] 1686. Eptir þvílíkum drottins furðuverkum ætla eg djöfullinn hafi apað sig með plantan heiðins átrúnaðar, og er því ekki að kynja, þótt bæði hafi sá átrúnaður víða dreifzt og sterkur orðið; *vide [et confr. Christ*[20]. *Theat. Hist. in Nimrodo, p. m. 18.* Merkilegt er það, sem skrifar *Salmasius de lingva Hellenistica, pag. 368,* um þann gamla guðdóm eldsins austur í heimi. Það segir hann, að þann spekíng, er öll veröldin nefnir höfund allrar[21] galdraspeki, *Zoroastrem,* hafi Persarnir á sína túngu kallað *Zardust* og *Zaradust,* það skuli merkja vin eldsins, svo sem eldurinn væri guð, og spekíngurinn hefði sinn allan vísdóm af þeim guði. Þótt menn

1) C. augum. 2) C. Ísraels. 3) C. drottni. 4) frá [ vantar í C. 5) frá [ vantar í C. 6) C. fortærði. 7) C. Manoha. 8) frá [vantar í C. 9) frá [vantar í C. 10) frá [vantar í C. 11) C. frá. 12) C. 19. 13) frá [ vantar í C. 14) C. 23. 15) frá [vantar í C. 16) frá [ vantar í C. 17) C. add: dögum. 18) C. Theodosium. 19) vantar í C. 20) frá [ vantar í C. 21) vantar í C.

vildu segja, að þessi[1] átrúnaður ei hafi kunnað að berast híngað norður í heim fyrr en með Óðins tilkomu, sem var svo lángt að[2] austan, þá svara eg, að allar þjóðir hafa þaðan austan[3] sinn fyrsta uppruna, þótt ekki verði skýrleg grein á gjör, hvað snemma þessi norðurlönd hafa bygzt fyrir norðan Austursjóinn, þá eru ærnar stundir til, að innfæra þennan[4] átrúnað, þótt ei hefði hann fyrr hèr komið en eptir *Mósis* tíðir. Er alkunnugt stóryrði gömlu *scribentanna*, að *Moses*, lögmaður Gyðínganna, væri eldri en guðir Grikkjanna; því er tóm nóg, að guðdómur eldsins væri norður hèr gamall orðinn laungu fyrir Óðins híngaðkomu, einum 70 eða hæst 80 árum fyrir Krists fæðíng, og sannarlega hefir eitthvað stórmerkilegt til þess borið, að svo margar þjóðir heiðíngjanna, sem nú hefi eg með vitnum sýnt að á eldinn trúðu, höfðu hver með öðrum guðdóm eldsins í heiðri og hávegum. Mèr verður sagt, að slíkir vitnisburðir komi ekki til gagns mínu máli um hinnar heiðnu norðurálfu átrúnað á eldinum. Eg svara: Það er til dæmis og líkinda leidt. En svo eg nefni einhver vitni norður hèr í heiðninni, þá bið eg menn að lèsa þau, er fyrir mig hefir[5] samantínt *Barthol. Antiqvit. Dan., lib. 2., cap. 2., pag. 272, 273, [274, 275, 276*[6], og það áður hefi eg hèr[7] innfært um landnáms-eldana, og með slíkum vitnum trúi eg mig bevísað hafa eldsins dýran guðdóm hèr í norðurálfunni um þá alla stund, sem hún var heiðin. Minnist eg þess enn[8] aptur, er fyrr var *citerað* eptir *Pontoppidano*, „að eldurinn hafi á laugardögum tilbeðinn verið", og hitt, sem hann vill þar af *inferera*, „að dagurinn skuli þar af heita logadagur", og á dönsku þessara tíða *„Luedag"*[9], skilst mèr engan veginn, og víst hefur það aldrei Norðmönnum í hug komið; það sýnir þreifanlega þvottdagsnafnið, sem Norðmenn og vèr höfum haft og haldið um aldur og æfi. *Synonymum grammaticum* það er alls sömu merkíngar[10] og laugardag, og [efalaust sýnir[11] það sama þá stund alla, sem vor og þeirra túnga var óumbreytt í sínum forna [dönsku[12] túngu blóma[13]. Og þótt oss vanti sterkari vitni til þess, að sjöundi vikudagurinn hafi eldinum helgaður verið, þá með því eg engin mótmæli veit, þau

---

1) A. slíkur. 2) vantar í A. 3) vantar í C. 4) A. slíkan. 5) A. add. þau. 6) frá [vantar í C. 7) vantar i C. 8) vantar í C. 9) C: að dagurinn skuli í dönsku þessarar tíðar kallast Luedag. 10) C. meiníngar. 11) frá [ vantar í C. 12) frá [ vantar í A. 13) A. sínu forna blómi.

er hrindi *Vasthovio*[1] og *Pontoppidano*, en slík líkindi fylgja sögu þeirra, þá hefi eg hana fyrir satt, þángað til eg læri rèttara. Nú er hèr með ekki sagt, hvað dagurinn heitið hafi hjá þeim heiðnu mönnum; en fleiri munu kalla hitt ei ólíklegt, að laugardags- og þvottdags-nafnið sè með kristindóminum til vor komið[2]. Eg svara: það kynni vel líklegt að sýnast, því kristnir menn mundu þá[3] á laugardaginn búa sig til helgihaldsins að morgni, og því fægja hús sín og klæði, ker og krúsir, dúka og diska, svo sem sèra Hallgrímur minnist á í sínu *Diario* um laugardags-nafnið, þótt eg sleppi því, er þar talar hann um *Phariseanna* eða hinna levítisku kennimanna þvotta[4] undir sabbats-daginn, því þeir áttu að ske hjá þeim deginum áður, sem nú[5] er vor frjádagur, og geta svo ekki náð til að gefa laugardeginum nafn, sem hjá þeim hèt *sabbatum*, það er hvíldardagur, en ekki þvottdagur, þótt Oddur lögmaður Gottskálksson, Guðbrandur biskup og Þorlákur biskup hafi það kallað þvottdag, af því *sabbatum* Gyðínganna átti þann sess meðal vikudaganna, sem sæti vorra þvottdaga-samband, og sýnir það enn merki til þess, að vorir landsmenn, eldri og ýngri, hafa rækt nöfn vorrar túngu á vikudögunum, en ekki gefið gaum að framandi túngna daganöfnum, sem af *Marte, Mercurio, Jove* [og[6] *Venere*, oss ókunnum plánetum, dregin væru[7]. En biðja vil eg menn hugleiða, að fleiri eru hreinlátir en kristnir menn einir, og þar sem það er nú satt gjört, að vorir heiðnu fornmenn töldu sitt ártal í viknatali, hvað er þá ólíklegt, að þeir hafi niðurlag vikunnar valið hreinlæti[8] sínu, til að fága það alt, sem umliðna viku velkzt hafði. Sagt verður mèr[9]: Þig skortir vitni. Eg svara: [Fyrst svo er[10], þá skal eg þó[11] leiða líkindi til míns máls. Það höfum vèr ótalfaldlega í sögunum, að menn tíðkuðu bað, og einna mest eptir aflokið stórerfiði; sýnir það dæmi berserkjanna í Eyrbyggju, þá er Styr vo þá, að ráðum Snorra goða; sýnir það Jómsvíkíngasaga, þá er Sigvaldi jarl kom heim frá Jómsvíkíngabardaga; sýna það allmörg dæmi Sturl. s.[12]; sýnir það Grettissaga, þá er Þorbjörn ferðalángur mælti feigum munni um dauða Ásmundar hærulángs; því þótt Þorbjörn færi með ósannar frèttir, þá hefir hann svo til ætlað, að trúað skyldi verða, en mátti þess ei vænta,

1) C. Vestovio. 2) C. innkomið. 3) vantar í C. 4) C. þvotti. 5) vantar í A. 6) vantar í C. 7) C. nefndir eru. 8) A. heimili. 9) vantar í C. 10) frá [ vantar í C. 11) vantar í C. 12) C. Sturlúngu.

ef ei hefðu þá böðin alltíð verið. Sýnir það hin forna venja hèr á landi, að á hverjum bæ heitir baðstofa, og það er öllum fimtugum mönnum kunnugt, að alt fram til barnæsku þeirra varaði sá siður, einkanlega hjá fyrirmönnum, að á hverjum laugardegi um[1] veturinn var baðstofa kynt til híbýlabótar. Og svo menn eigi geti dulizt við þetta, er það í lögum sett, Landsl. b. *13. cap.*, at „ef fleiri menn búi[2] í húsum saman, þá skulu þeir elda hús að manntali, en ei að jarðarhöfn, því at hjón þurfu eldíngar, en hús eigi". Hverr getur þetta annar eldur verið, en baðstofukyndíngin síðast í hverri viku, [sem hjúin þurfa skulu, og eptir manntali skal til kosta? eða hverr mundi vænta, að lög skipuðu fyrir, hvað opt bóndinn etur heitan mat eður kaldan, eður um nokkra þess konar eldíng? mun það og enginn meina, að landsmenn vorir hafi fyrstir þennan baðkyndíngarsið upp tekið, heldur numið af forfeðrum sínum, Norðmönnum, eður hvað mun það annað, sem hinar fornu norsku Frostu.þ. og Gula.þ lögbækur telja með arineldum, það er hjón skulu hafa til híbýlabótar, þar sem eldur er talinn bakstureldur og soðníngareldur? og er spart að telja, hvað opt sögurnar geta baðanna. Þess er vert að minnast, hversu Magnús k. Erlíngsson flúði klæðfár til skipa sinna úr baðinu á Bensteini, af ótta fyrir Birkibeinum, Sverrissaga, *cap.* 40.; það sýnist verið hafa laugardaginn fimta eptir páska, því að freka viku mundi þurfa til þeirra sýslana, sem þaðan frá gjörðust, þángað til þeir Sverrir k. töluðu saman á mánudaginn í gagndögum, og urðu þá ásáttir, að berjast deginum eptir á Ýluvöllum, sem og varð. Laugardaginn í annari viku lángaföstu voru Birkibeinar í baði í Niðarósi, þá er Magnús k. yfirfèll þá óviðbúna, *cap. 40.* Laugardaginn næstan eptir var það, er Sverrir k. latti sína menn að gánga skjótt að Heklúngum til bæarins í Niðarósi, og bað þá dvelja til þess flest liðið væri í baðstofum, *cap. 63.* Og er það þreifanlegt vitni til þess, að sú var þá altíðust flestra venja, að baðast á laugardögum. Nú gjöri eg þá *illation:* af því síðasti dagur vikunnar var helgaður eldinum hjá þeim heiðnu Norðmönnum, og með eldsins tilkomu gjörast böðin mönnum til heilsubótar[3], böðunum fylgja þvottar[4] og laugar líkamanna[5], þá hefur þessi vikudagurinn við laugir og þvotta kendur verið, einnig[6] hjá þeim heiðnu mönnum,

1) C. á. 2) C. búa. 3) frá [ vantar í C. 4) C. sem þvottar. 5) C. líkamans. 6) C. eins.

sem á vora túngu töluðu hèr á norðurlöndum, svo sem hjá þeirra kristnu eptirkomendum. Og þar sem hvorki Danir, Norðmenn nè Svíar breyttu þar fyrir hinna vikudaganna nöfnum, sem við heiðna guði kendir voru, þótt menn tæki kristna trú, því skyldu þeir þá heldur breytt hafa laugardags-nafninu? En þótt vorir fornmenn hèr á landi, síðan þeir tóku kristni, gjörðust svo *religiosi*, að þeir burtköstuðu nöfnum heiðnu guðanna frá sínum vikudögum, þá er þar um lítið eyland að tala, sem vèr eigum hlut að, á móts við stærð og venju heilla þriggja konúngaríkjanna[1], sem lètu þau fornu og heiðnu vikudaga-nöfnin við haldast. Eður hvað er til líkinda, að Danir, Norðmenn og Svíar hafi breytt laugardagsnafninu frá siðvenju feðranna, sem heiðnir voru, þar sem þeir lètu sèr sóma, að hinir vikudagarnir mættu kallast eptir heiðnum[2] sið. Eg kann engin að sjá þar til líkindi. Sè eg Þýzkir láta þau[3] blífa við hina[4] fyrstu 2 dagana, og svo[5] hinn sjötta; að þeir vilji meina týrsdag og þórsdag með sínum *Diensttag* og *Donnerstag*, sè eg ei bevísað, og ei trúi eg því vottalaust; að þeir hafi sína *Mittwoch* og *Sonnabend* frá alda-öðli svo kallað, læt eg hvern trúa sem vill. Það sè eg, að segir Þormóður *in Serie Dynastarum, lib. 2., cap. 2., p. 112*, eptir *Petro Albino Niveomontano*, að *Westphalir*[6] kalli *Godenstag*, og *citerar* til þess *Fol. 36*[7]. þeirrar bókar, sem fyrrnefndur *Petrus Albinus* kalli *Novæ Saxonum Historiæ Progymnasmata; vide Seriei pag. 107.* Hvort það hafi verið sameiginlegt fleirum þýzkrar þjóðar lýðum, er þar með ekki sagt, en Edda vottar skýrlega, að *Westphalen* hafi Baldur, son Óðins, eignazt. Er ei til gátu, að *Godenstag* og Óðinsdagur[8] er alt hið sama, svo sem *Gvilhielmus* og *Wilhelmus*, og líkast að svo vídt meðal Þýzkra, sem Óðinn var framast í heiðni dýrkaður, hafi þeir *Godenstag* kallað. Það er kunnugt, að þegar *Carolus Magnus* hafði brotið hina þýzku þjóð til kristni, þá gjörði hann mánuðum *Calendarii Juliani* þýzk nöfn; *vide Alsted in Computo, pag. 1035, 1036, Christ. Math. Theat. Hist. in Carolo Magno, pag. 469*, og hafa þau þó sum af sjálfum Þýzkum ýmislega breytt verið frá hans dögum. En að hann hafi vikudaganöfnunum[9] breytt[10], eða Þýzkir eptir hans dag með kristninni, veit eg eigi; og ekki virðist

1) C. ríkja. 2) C. heiðinna. 3) C. það. 4) vantar í A. 5) A. add.: við. 6) A. Westuali. 7) A. 69. 8) A. Óðinsdag. 9) C. vikudaganna nöfnum. 10) C. umbreytt.

mèr það trúlegt, þar[1] sól, máni og Freya nafngipta enn nú hjá þeim sína daga. Og þótt einhver vildi segja, að[2] sól og máni hafi ekki nafn gefið vikudögunum *tanqvam numina* [(þ. e. eptir því sem þau voru guðir haldin[3]), heldur svo sem plánetar, þá svara eg, að ei sè Freya pláneti, og hafi þó sjötti dagurinn nafn sitt[4] af henni. Mèr verður sagt, að með Freyunafninu sè meintur plánetinn[5] *Venus*. Eg svara: það er hægt að segja, en hvort það er hægt að bevísa, er mèr enn nú ekki sýnt, og ekki trúi eg því bevísíngalaust. En þar svo margir hálærðir menn á þessum dögum[6] vilja það nú endilega sagt hafa, þá munu fleiri fallast á þeirra trú, þótt eg geti það eigi, og því bið eg þá orlofs að spyrja: hvers átti þá *Saturnus* að gjalda hjá heiðíngjum norðurlanda, að þeir lètu engan sinna guða í hans nafni sjöunda vikudagsins nafni ráða? Þótt þeir segi, það hafi samlega verið, en sè *exciderað* með kristindóminum eður öðrum tilfellum[7], svara eg: hvar fyrir heldur hans en hinna, sem hjá kristnum haldast við? Eg trúi *Cæsaris* vitni, að þeir ekkert hafi til suðurlandanna guða vitað; og það meira er, að *author* Blöndu, einn af trú mótparta minna, sem fyrr greinir, segir berlega *cap.* 24.: „*Feton* heitir *Saturnus;* þeirri stjörnu er enginn dagur eignaður að norrænu máli, og er sá kallaður laugardagur, er á öðrum löndum heitir *Saturnus*-dagur“; „á öðrum löndum“ segir hann, það er þeim, sem eigi tala norrænu, og því hvorki með Dönum nè Svíum, er allir töluðu norrænu, það er: danska túngu. En hvað um þetta[8] kann sagt að vera, leiði eg hjá mèr, *ne sator ultra crepitam*[9]. Um vandskilin orð vorrar lögbókar er mitt erindi, og hvað eg kunni af Dönum, Norðmönnum og Svíum til þess færa. Það hefi eg sýnt, að eptir aflokið erfiði tíðkuðu þeir böðin; það er kunnugt, að lítt voru þeir í heiðni fróðir á lækníngar; það er kunnugt, að líkamans-hreysti var hjá þeim í hæsta gildi; það er kunnugt, að til heilsu-bótar og viðhalds skyldu böðin vera; það er kunnugt, að eptir aflokið erfiði voru þau bezt til heilsubótar, svo sem eptir gömlum reglum skrifar *Alsted Encyclopæd. lib. 17. de Medicina, Sect.*[10] *1., cap. 4., Reg. 7., p. m. 1781.* Það er kunnugt og nú með rökum sýnt, að þau voru hjá Norðmönnum og oss reglulega á hverjum laugardegi, og það viður-

1) C. add. ekki. 2) vantar í C. 3) frá [ vantar í C. 4) vantar í C. 5) C. meint plánetan. 6) A. öldum. 7) kristnum mönnum C. 8) C. þýzka. 9) A. crepidam. 10) A. § 1.

kennir *Sperling de baptismo etnico, cap. 6., p. 112, 113,* að svo hafi fleiri þjóðir gjört, og enn haldist sú venja. Og fyrst þetta var tídt heiðnum mönnum norður hèr, svo vel sem þeim kristnu síðan, hvað er þá líkara, en laugardagurinn hafi nafn að fornu og nýu sama af baðanna þvotti[1] og laugan líkamans, eins og hinir vikudagarnir halda sínum nöfnum alt frá heiðnum tíðum inn til vorra tíma[2]? Og rètt er það, sem *Sperling* mælir hèr um, að laug sè *proprie* varmt vatn eður bað[3] í vörmu vatni, hvort með því hjá Norðmönnum kann ei fást, nema það sè með eldi vermt, hvað er þá undarlegt, að þeir hafi daginn eldinum helgan tilkosið að njóta baðanna, líkamanum til styrkíngar, svo vel heiðnir sem kristnir? já enn fremur, heiðnir vegna átrúnaðar á eldsins guðdómi, sem til baðanna var frekasta meðal. Og svo sem hann hèt laugardagur í öllum þremur, Dana, Norðmanna og Svía, konúnga[4]-ríkjum, sem nú er sagt[5] með rökum og vitni Blöndu, svo hèt hann og fyrir sömu grein þvottdagur hjá Norðmönnum, svo vel sem hèr á landi; það sýnir hin forna Gulaþ. bók Ólafs kyrra um sunnudags-helgi: „Hinn sjöunda hvern dag er heilagt", segir hún, „ok köllum vèr þann sunnudag, en þvottdagr fyrir skal heilagr at nóni". Hèr á landi þarf það ei vitna við; svo eru leifar þess[6] miklar hjá oss enn í dag, og í Kristinrètti þeirra Þorláks og Ketils biskupa er það hið tíðasta laugardags-nafnið, að hann er þvottdagur kallaður. Og sannarlegt þykir mèr, að vorir heiðnu fornmenn hafi leyft verkmönnum sínum, frjálsum og ófrjálsum, þriðjúng dagsins síðasta í hverri viku[7] til baðanna, svo þeir mætti því hressari rísa til verkanna með nýrri viku. En vikan hefir efalaust nafn sitt þar af fengið, að þegar hún var enduð, skyldi víkja til nýrrar dagatölu[8], sem hófst á sunnudaginn, en ekki skil eg hún hafi nafn af vöku, þótt eg sjái það hafi skrifað vor hálærði biskup í sinni dægra-stytting, *cap. 9., p. 2.*

## Virki.

Mannh. 3.: *Hvert sem þeir hlaupa í hella eðr hólma eða virki.*

Svo heita allir manngjörðir veggir, garðar og skansar, sem hafðir eru til varnar mót ofsókn og ófriði. Svo segir Snorri Sturluson: „Dánavirki er svo háttað, at firðir tveir ganga inn í landit, sínu megin landsins hvor; en milli fjarðarbotna höfðu

---

1) C. þvætti. 2) C. tíða. 3) vantar í C. 4) vantar í C. 5) C. sýnt. (6 C. þar til. 7) C. vikunni. 8) A. vikudagatölu.

Danir gjört borgarvegg mikinn af torfi, grjóti ok viðum, ok grafit dýki djúpt fyrir utan, en kastalar fyrir borgarhliðum". Hèr sjáum vèr, að fyrst heitir virkið borgarveggur, síðan heita hliðin á þessum vegg borgar-hlið, og skansarnir við hliðin heita kastalar.

Önnur grein er í Orkneya-sögu, 79.: „Skutu þeir Rögnvaldr jarl (á *Galicia*-landi í Jórsalaför) þá hart á virkit, en eigi mátti annari atsókn við koma; kastalamenn stóðu laust á vegginum". Hèr er nú sami varnarskansinn ýmist kallaður virki og kastali. Vita menn, að „kastali" er dregið af latínu *castellum*, en það er *diminutivum* af *castrum*, sem *obsoletum* er orðið *in singulari*, en ekkert tíðara en *castra in plurali*, herbúðir. Svo sem nú að herbúðaveggir alstaðar eru og hafa verið af torfi, grjóti og viðum, og hafa þó kastalar fengið nöfn af þeim, svo hafa og virki þvílík öll, mönnum til varnar gjörð, fengið nafn af „verki", svo sem ljóst er að sjá af Grág. Llb. *cap.* 16.: „Þat er túngarðr, er töðuvöllr gengr út at garði; þar á sá kost, er völl á, að gerða einn, ef hann vill, ok taka þá utangarðs verkit", það er torf og grjót, verkefnin öll til garðsins. Og *ibid.* segir: „taka þar efni garðabóta, er þeir taka garðvirki". Borgarvirki er enn til sýnis hèr á landi; það er að norðan og vestan þverhögginn klettur, af náttúrunni gjörr, og að sunnan nokkurn part, en sumpart mannhlaðið; að austan er manngjörr grjótveggur, og þar hafa dyrnar verið. Segja svo *traditiones*, að Barði Guðmundsson í Ásbjarnarnesi hafi það gjöra látið fyrir væntandi ófriði Borgfirða, síðan hann hafði hefnt Halls bróður síns, og skuli þar frá sagt í Heiðarvígasögu. Barði setti varðmenn til í tveim stöðum, annan á Þóreyarnúpi, ef Borgfirðir riði Tvídægru, annan á Rauðanúp, hvort sem þeir riði Arnarvatnsheiði ofan í Víðidal, eður Vatnsdal; skyldu varðmenn í þessum stöðum vita kynda. Svo fór sem hann sagði, að Borgfirðir komu (hvorn veginn er ei getið); gekk Barði þá í virkið og fylgdarmenn hans, en Borgfirðir settust um það, sóttu að nokkrum sinnum og fengu ei aðgjört, ætluðu þá að svelta virkismenn, og sátu í hálfan mánuð um virkið, en hinir höfðu vistir ærnar. Sneru Borgfirðir frá við svo búið. *Relatio* Guðbrands Arngrímssonar eptir *traditio* segir þetta vera í Heiðarvígasögu; aðrir segja, að svo hafi þrengt að matfaungum virkismanna, áður hinir viku frá, að enginn væri kostur eptir, nema eitt mörsiður; og í seinasta sinn, er Borgfirðir sóttu að, hafi

einhver af virkis-mönnum kastað þessu mörsiðri ásamt grjótinu út í flokk Borgfirða, svo sem til varnar virkinu; þar af hafi Borgfirðir dæmt, að gnógt vista væri í virkinu, og því horfið frá, og sè þaðan orðtækið: „að kasta út mörsiðrinu“. Þetta sagði mèr Bjarni heitinn Guðmundsson, dótturson Steingríms prests Þjóðólfssonar. Sömu *relatio* um mörsiðrið sagði Gísli í Melrakkadal Þorvaldi Ólafssyni; Gísli dó 1672 eða 1673, og skyldi þetta standa í Heiðarvígasögu; *inde* Mördísarvatn, Mördísarhæðir af Heiðarvígum þeim. En þetta virki er fulla bæarleið frá Ásbjarnarnesi. Virkið í Reykholti, virkið á Hrafnseyri, virkið á Grund í Eyafirði, virkið á Hvammi í Hvammssveit, virkið á Bakka í Öxnadal, og virkið á Sauðafelli, eru til grunna niður fallin; allra þeirra getur Sturlúngasaga. Virkisins á Óspakseyri getur Eyrbyggja, en virkis þess, er þjófarnir höfðu gjört á fjallvegi fram frá Forsæludal, getur Vatnsdæla. Sýna fyrrgreindar allar sögur greinilega, hversu þau öll virki voru gjörð til varnar mót ófriði, sem eg upphaflega sagði. Jarðborgir kallaði Þorgnýr, lögmaður Svíanna, virki þau, er Eiríkur konúngur Eymundarson hafði gjöra látið í herförum, líkast til aðsóknar meir en varnar; *vide* Ólafs h. sögu, kap. 163.

## Vísa.

*Ex* Eyrb. *cap.* 15. (Þórarins Máfhlíðings):

Skalat údrukkin ekkja
(ek veit at gat þeitu
hrafn á hræva efni)
hoppfögur at því skoppa,
at ek herdyggvar hyggja
(hèr er fjón komin ljóna)
(Haukr unir hörðum lauki
hreifa stríðs) á kvíðu[1]

(Skalat) eigi skal (hoppfögur) fögur í hóp manna ekkja (skoppa at því) gjöra skop að því, (údrukkin at ek hyggja á kvíðu) að mèr sè í huga harmur (herdyggvar) hördygðugrar, það er ..[2] (ɔ: Auðar konu minnar) (hreifa) handar (sem af Auði var

1) Eyrbyggja, ed. Arnam., Kpmh. 1787, kap. 19, les vísuna þannig:

Skalat öldrukkin ekkja
(ek veit at gat beitu
hrafn af hræva gefni)
hoppfögur af því skoppa,
at ek hjördöggvar hyggja
(hèr er fjón kominn ljóna.
Haukr unir hörðum leiki
hreifa stríðs) á kvíðu.

2) ekki læsilegt.

höggvin) „hjördyggvar", „hjördöggvar" hjördaggvar *legendum esset* „hreifa" handarinnar. Og er þá, að mèr sè harmur í hug af orustunni, sem Auður misti höndina; „veit ek, at hrafn gat" (fèkk) „þeito", „peitu", *alii legunt* beitu, ɔ: offyllr af kæfa, ɔ: hræanna þeirra feldu. „Hèr er komin fjón", fjandskapur, flokkadráttur, „ljóna", göfugra manna, „haukur stríðs", svo kennir hann sig undir hörðum leiki.

## Vo, voglatan,

ɔ: voveifleg glatan, sem maður getur ei aðgjört, Grág. Llb. 30.; *item* Völuspá: „Hvárt var þá sólskin of sumar eptir veður öll válynd"? ɔ: voðalega lynt. Ólafs s. Tr. s. um Þorvald tasalda, *cap.* 14., *p.* 40., sagði Bárður digri: „Eg hefi trúat á mátt minn og megin; nú varð mèr váljugr (voljugur) at því í fyrsta sinni". Eyrb. segir um kálfinn Glæsi: „skerit vobuðu þessa, mælti fóstra Þórodds". Grettissaga, *cap.* 36.: „Þá er öðrum vo fyrir dyrum, at öðrum er inn um komit". Hávamál: „Ef hann veit sèr í vo veru". „Eg vil ekki eiga það í vo". „Vofir yfir". Sverrissaga, *cap.* 133.: „Brá þá leiðangrsmönnum vo fyrir grön", ɔ: þeim varð bilt við, stans, fèllust orð og hendur. Ól. s. þrykta: „það er volítið, þó vèr seiðum". *Hinc*: vofur.

## Volaður, sá sem á í vo.

Það er alt til gátu, hvort hann muni af nokkrum laðorð þiggja mega, það er, að honum verði matur eða drykkur boðinn.

## Vopnatak

heitir, að halda upp vopnum, þegar maður samþykki nokkuð, bæði dóma og aðra *Contracter*.

## Vænist (at vænast).

Þjófab. 4.: „*Nú stendr maðr fè sitt þjófstolit í hendi öðrum manni, en sá vænist heimild at, ok kallar kaup sitt.*

„Vænist" segir von er til; *vide* ávani. Orðtak er, at væna menn lygi, segja von til, að lygi sè tóm og skuli reynast saga hans. Og að væna einhvern stuldi, segja von, að stolið skuli reynast, það um er talað. „Eg vænist vottum", ɔ: eg sè von votta, og lofa að leiða vitni, en þó nú sèu þau ekki við.

## Vætt.

Kaupab. 2.: *Átta fjórðunga vætt.*

Kaupab. 26.: *Tvær 9 fjórðunga vættir.*

Því er hèr tilgreint, hvað margir fjórðúngar gánga skuli í hverja vætt, að þar með væru vættir þessa lands aðgreindar frá þeirri norsku vætt, sem í þann tíma var 28 merkur og hálf mörk og þriðjúngur úr mörk betur, það er, að hana vantaði upp á 29 merkur einn sjöttúng úr mörk, eður[1] eins ríksdals þúnga, og þriðjúng úr annars ríksdals þúnga, eins og ljóst er af Frostuþ. bók, síðasta *cap.* Kaupab., *p. m.* 188[2]. Og með því vor bók greinir þetta 8 og 9 fjórðúnga vættamál, en getur hvergi þeirrar norsku vættar, sem nú var greind, og í þann tíma var í öllum Noregi brúkanleg, þá er ljóst, að[3] hún meinar 8 fjórðúnga vættir, þar sem hún í Kaupab. 6. telur fyrst 8 f. vætt gamalla sauða ullar, og vætt ullar með 20 ám[4], því annars hefði verið grein á gjör, hvaða vætt hèr skyldi skilja, svo sem stór nauðsyn var á, ef strax hefði átt að skipta meiníngu frá þeirri tilgreindu 8 fjórðúnga vættinni.

## Vörusmíði.

Kaupab. 6.: *Flatt smíði nýtt, vörusmíði nýtt.*

Það er víst, að vörusmíði merkir þá smíðisgripi, sem gjörðir eru til sölu með svo miklum hagleik, að þeirra verð er metið eður á að metast eptir art hagleiksins og smíðisins verki, meir en eptir efni því, sem smíðisgripurinn er úr gjörður. Sè eg, að Björn á Skarðsá, svo vel sem allir þeir, er eg hefi við talað um þetta orð, hafa viljað skilja það um þá gripi alla, sem af járni gjörast. En eg sè eigi, hvar fyrir ekki megi skiljast fyrir þetta vörusmíði skápar úthöggnir af snikk-verki, koparsmíði það alt, sem mjög er vandað, svo sem ljósastjaka, og látúnssmíði grafið eður drifið, *item* silfursmíði, svo sem víravirki, sigurverk, drifið borðsilfur og grafið með miklum hagleik, svo vel sem þeir gripir af járni gjörast, skrár og lásar, eður þess konar hlutir, sví soddan alt verður þó metfè að vera, engu síður en eirkatlarnir, sem hèr eru þó metfè kallaðir, eður skorin klæði og hafnarvaðmál, ásamt öðru, sem kapítulinn upp reiknar. Eður því skyldu ei þau gröfnu og búnu drykkjarhorn þeirrar aldar, svo og reiðskapur allur, búin sverð, spjót,

1) B. og. 3) B. p. 181. 3) vantar í B. 4) *item* vætt veturgamalla sauða ullar, og 3 vættir mjölnægs matar, add. A.

skildir og brynjur, eiga hèr heima hjá öllum smíðisgripum, sem kapitulinn upp reiknar, og vopn alls konar? Svo mat Þorgils Oddason öxina, þá er Þórður Raufeyaskáld í Hvammsdal mælti til að kvæðislaunum, fyrir 2 merkur, Sturl. *lib* 1., *cap.* 15., *p.* 15., og var hún þó af flatsmíði. Og Frostoþ. I. skipa, að marka skjöldu, svo straffa megi smið, ef falskt finnst, í *p.* 41. Landvarnarb.; ætla eg, að þeir hafi ýmist átt að koma í reikníng með flatsmíði, ef þeir voru ekki meir vandaðir, eður vörusmíði, ef búnir voru.

# Þ.

## Þíng[1] (gripir kvenna).

Kvennag. 6.: *Skulu henni lúkast[2] þíng sín og heimanfylgja.*

Þær þryktu lögbækur segja: „Skulu henni lúkast síðan þíng sín og heimanfylgja“. Þetta „síðan“ er of aukið, og hafa það engar hinar góðu og gömlu *membranæ;* afmyndar það málið og svarar engu. En við þær gömlu og rèttu *pergamentis*-bækurnar samhljóða með öllu Frosto-, Gula- og Heiðsæfis-lög Magnúsar konúngs, sem að eru óbrigðul kenniteikn[3], að svo eigi að standa og lesast. Er hèr á það að líta, að í þessari grein bókarinnar merkir glósan „þíng“ gripi kvenna, kvennskart og klæðnað þann, er afbrigði nokkur sè á, og ei hafi komið í þann þriðjúng heimanfylgjunnar, sem í þess konar fè er leyft að gefa, Kvennag. 1. Sýnist og, að bókin sjálf gjöri svo ráð fyrir í Kvennag. 2., sem nokkrir muni þeir gripir, er ei hafi metnir mundir[4] verið þeim í hendur, sem konu fær; eða því mundi hún ella vera svo granskygn að þeim skilorðum um þá lèðu gripina, sem þar er getið? Í annan stað merkja þessi þíng lítilfjörlega smáhluti, sem giptíngarmenn ógjarnan í reikníng setja, [og eru þó þarfleg kvennaþíng; tel eg slíka hluti[5]: pallkistil, kniplaskrín, fíngurbjörg og skæri, nálar, þráð og prjóna, snúð og snældu, skautakefli og klæðnað hversdaglegan, þann er hennar standi sambjóði. Þvílíkt alt eru þau kvennaþíng, er hèr skipar bókin henni skuli lúkast, auk heimanfylgjunnar, eptir mann hennar látinn. Það er fáorðast með

1) B. add. pro. 2) B. lúka. 3) B. er óbrigðult kenniteikn. 4) B. og myndir. 5) frá [vantar í A.

því móti, að skýra, hvað hèr skuli merkja kvenna-þíng, sem áður hefi eg sagt af Kvennag. 1., alt það, sem meira er en þriðjúngur sá, er í klæðum og gripum má til mundar (það er tilgjafar) reikna; því í mót tilgjöfinni skulu tveir þriðjúngar heimanfylgjunnar ætíð ætlast þeim til þarfa og afla, er konu fær, og þar að auki, þar sem konum kunna skildir að vera ávextir af vissum hluta fjár þeirra; *vide* gagngjald. „Skal hann eigi leigja fè þat, er hún á í gripum," segir Grág., Festarþ. 50. Sjá menn það á Grettissögu, *cap.* 58., að slíkir hlutir heita þíng, svo vel í þá daga, sem enn nú á þessum tímum. Þar segir af Gísla þeim, er vildi hafa ráðið Gretti afdögum[1] undir Fagraskógarfjalli: „Gísli kastar vápnum af sèr, ok hefr á rás út með fjallinu. Grettir gaf honum tóm til, at kasta því, er hann vildi, ok í hvert sinn, er Gísli sá ráðrúm til, kastaði hann einhverju klæði". Síðan segir eptir skilnað þeirra: „Grettir sneri aptr, ok tók upp þing þau, er Gísli hafði eptir kastað, ok færði heim til sín". Það, sem hèr eru nefnd[2] vopn og klæði fyrst, heita síðan þíng hans (Gísla), og[3] svo segir Kristinrèttur þeirra Þorláks og Ketils biskupa af *membrana* frá Arnarbæli: „Maðr á ok at fara með þing sín ok með mat, þótt meira vegi en hálfa vætt, þat er hann skal á þingi hafa". Þar segir *membrana* frá Leirárgörðum: „Föt sín ok mat ok tjöld eiga þeir at hafa". Og eins segir *apographum membranæ* frá Staðarfelli, svo það heitir í öðrum föt og tjöld, sem í öðrum heitir þíng[4]. Enn segir Grettissaga, *cap* 54., um varníngspokana Hallmundar á Kjalvegi: „Gretti leizt vel á þing hans". Og svo kvað Óttar svarti í Ólafs helsa sögu, *cap.* 106., eptir *membrana* þegar Ólafur konúngur sendi þeim Sighvati hnoturnar:

> Hnetr sendi mèr handan
> hrandat arinbranda,
> var þat, er ek man meiri
> mín þing, konungr hingað[5].

---

1) vantar í B. 2) B. greind. 3) vantar í A. 4) sín add. B. 5) N. F. Fr. Fl., útg. Kmh. 1830, 5 B., bls. 176, þannig:

> Hnetr sendi mèr handan
> handleggjar týr branda,
> ár var þat er ek man meiri
> mín þíng jöfri, híngat.

Konúngur sendi mèr handan híngað hnetur. Hrandat (ɔ: hratt at, ekki kastaði hann) arinbranda (ɔ: eldiviði, því hnotur voru og hafðar til eldiviðar, svo sem gjörði Sigurður konúngur Jórsalafari, gestur í Miklagarði); var það, er eg man mín þíng meiri, eg man það eg hafði átt betri þíng, betri gripi; og enn í dag varir hjá oss orðskviðurinn: „Það er mikill munnur, hvar maður kemur sèr og þíngum sínum". Glósan er í sömu merkíngu enn nú alltíð í dönskunni þessara tíma: *Ingen Ting; alle de Ting, man i Verden eier og haver.*

## Þíng (samkoma).

„Þíng" merkir eiginlegast alls konar mannfundi, þótt engir sèu dómar áttir eður málasóknir. Þar af kemur það, að kirkjusóknir heita þíng enn nú í daglegu máli og svo alfornu, bæði í Kristinrètti þeirra Þorláks og Ketils biskupa, og í Kristinrètti Árna biskups. *Item* í Grágás, Landsl. b. 62.: „Prestar skulu segja til heimilis síns at kirkjusóknum, ef þeir hafa þing". Svo og í Jónsb. Llb. *cap.* 34.: „stefni sá, er bú á, kirkjusóknarþing". *Item* Noregs-konúngasögur, *p. m.* 135.: „Finnr Árnason átti þing við bændr í Þrándheimi eptir víg þeirra Einars þambaskelfis ok Indriða". „Þíng" segir hann, *id est* samkomur og sáttaumræður, því að við samkomur þær allar, er þíng skulu heita, skal altíð vera umræða einhver og *disceptatio* eður ráðagjörð nokkurs konar. Eins kölluðu þeir *synodos* þeirra geistlegu biskupaþíng, svo sem sú lánga statúta Jóns erkibiskups í Niðarósi kallar sig sjálfa biskupaþíng, og þíng eintómis. Líka kallaði sú öld samtal alt, það er nokkuð væri lángort, „þíng", svo sem vottar sagan af Gísla Súrssyni, þá er Þorkell var veginn, bróðir Gísla, *cap.* 28.: „Sveinninn kastar niðr sverðinu, grípr upp staf sinn, ok hlaupa þeir með Hallbirni; urðu göngumenn næsta at gjalti; þeir hlaupa upp hjá búðinni, er Börkr tjaldaði. Menn drífa þá at Þorkeli, ok þykjast ei vita, hverr verkit hefir unnit. Börkr spurði, hverju gegndi þyss sá ok kliðr, er var hjá Þorkeli. Ok er Hallbjörn ok göngumenn hlaupa upp hjá búðinni 15 saman, svarar sá yngri sveinninn, er Helgi hèt, en sá hèt Bergr, sem vígit hafði vegit: Ei veit eg, hvat þeir þinga, en þat hygg ek, þeir þræti um,

---

Fært til rètts máls og útskýrt í 12. B., bls. 109:

Týr handleggjar branda (gulls ɔ: konúngs) sendi mèr híngað hnetur handan; það ár (sú tíð) var er ek man jöfri mín þíng meiri.

hvort Vesteinn hafi átt eptir dætr einar, eðr hefði hann son átt". Eins er það í Grettissögu, *cap.* 50., þegar Ísfirðíngar ætluðu að hengja Gretti, en að fundinum bar Þorbjörgu digru (hèr segir hennar orð): „hvat þingit þèr, eðr hverr er þessi hinn hálsdigri, er hèr sitr". Allraljósast verður það af Harðbarðsljóðum í Sæmundar Eddu, *p. m.* 62.:

Lèk ek við ina lindhvítu,
ok löng þing háðak;
gladdak ina gullbjörtu,
gamni mær undi.

Það sem hèr segir: „löng þing háðak", er að skilja: Eg átti lángt samtal við meyuna. Hèðan er það, sem enn nú tala danskir: *at tinge*, *percolloqvi de pretio rerum*, og alls konar slíkar *conventiones*. Það sýnir áður skrifuð *stropha* úr Harðbarðsljóðum, að gamanræður og *amors*-tal og læti við kvennmann kallar hún þíng, *conventus*, *conventiones in amoribus*, og svo kvað Magnús konúngur berbeinn:

Hratt skulum heimför kvitta;
hugr er minn í Díflinni,
en til Kaupangs-kvenna
kem ek austr í hausti;
unak því, at ei synjar
ingin gamanþinga;
ærskan veldr því, er írskum
ann ek betr en mèr svanna.

Þjóðólfur, skáld Haralds harðráða, kallaði þíng samsæti dætra Þorkels geysu, þegar þær með selskapssystrum sínum gjörðu háð að hernaði Haralds konúngs í Danmörku, og skáru atkerin af osti, er þær kváðu að halda mundu herflota Haralds konúngs, sem vottar Snorri Sturluson og Noregskonúnga-sögur:

Skáru jast or osti
eybaugs Danameyjar,
þat angraði þengil
þing, akkeris hringa;
nú sèr mörg í morgin,
mær hlær at því færi,
ærnan krók or járni
alvalds skipum halda.

Eybaugs, eyabaugs er *vocativus* eyjahríngs. Danameyar skáru akkerishrínga úr jastosti (úr osti þeim, sem með jasti, það er

öli eður víni, var ystur). Það þing ángraði þengil (Harald konúng). Seinni hluti vísunnar er öllum ljós. Noregskonúngatal les hèr í fyrsta orði: „Skáru oss or osti", og mætti það fullvel standast; en merking orðsins „þing" er hèr þreifanleg, sú sem eg hefi hèr sagt.

Svo er og *„at dagtinge"* og *„Dagtingning"* aldeilis sömu ættar; *Conf. celeberrimi Joh. Stjernhoch. de jure Svecorum, lib. 1., cap. 2., pag. 26.;* en þar er með fullu þing *pro judiciaria disceptatione,* er Þjóðólfur, skáld Haralds konúngs harðráða, grundvallar sína *metaphoram* um hernað konúngs á Upplöndum, í Noregskonúngasögum, *p. m.* 234.:

liþr báðo sèr liþs,
logi þingaði hring um
nauðgan dóm,

ɔ: eldsloginn þíngaði hríng um nauðúngar-dóm. En alt svo stór sem er þessi *metaphora* Þjóðólfs, þá ber hún þó af, er í Sæmundar-Eddu stendur í Helga kviðu Hundíngsbana:

er á asklimum
ernir sitja,
ok drífr drótt öll
draum-þinga til.

Hèr heita það draumþíng, er fyrir mann ber í svefni, og alloptast sannast, að menn dreymi til dagláta, hvern eptir iðju sinni og standi sínu. Margtidt er skáldunum, að kalla orustur geirþíng, því að oddur og egg eru þar dómarar. Svo kvað Þormóður Kolbrúnarskáld, þá herinn gekk að Stiklastaða-bardaga:

er at geirþingi göngum
gunnreifir með Óleifi.

Og svo *demonstrerað,* að þíng merkir alls konar samkvæmi til merkilegra erinda, og er nafn þess dregið af „þinnig", „þingat", „þangat", *a conveniendo,* þegar fleiri koma þingat, þangat til samans; það sýnir Sæmundar-Edda í Helga kviðu Hundíngsbana með þessum orðum:

Kominn væri nú,
ef koma hygði
Sigmundar bur
frá sölum Óðins.
Kviðek grams þinnig,
grennast vánir,

er á asklimum
ernir sitja.

„þinnig“ segir hún þángað, eins og „hinnig“ híngað, til samtalsins við Sigrúnu.

Eins segir Kórmakssaga, að hann kvað um Sigurð jarl, er aleinn hèlt blótveizluna:

Hafit maðr ask nè æskis
afspring með sèr hingat
ske færindi at færa.

Enn mælir svo Gulaþíngsbók forna í Kristinrètti: „En ef maðr kemr heiðinn á land várt, ok hefir hann þat í sínu máli, at hann vill þingat fara, sem kennimenn ero, ok láta sig skíra úr heiðnum dómi, þá skal hann fæða, ok láta einn í mötuneyti vera“. Þá er enn aptur sami Kristinrèttur: „Nema það sè með þeim orkymlum borit, at þannig horfi andlit, sem nakki skyldi, eða þingat tær, sem hælar skyldo“. Sama bók í Kaupab. um heimstefnu: „er hann nefni heimili sitt, þá skal hánom“. Aptur í sama *cap.*: „þá skal þingat, sem erfingi hans býr innan fylkis“. Enn aptur sama bók um markteig: „Þingat skal hann þá hafa um eiðfærslu, njóti hinn votta sinna fyrir kirkjodyrom, at hann stefndi hánum þingat til“. Noregskonúngatal um dráp Jómsvíkinga: „Þorkell leira rís upp, ok ljóp ernlega þingat, sem Vagn var, ok vildi drepa hann“.

## Þíng (vorþíng)[1].

Landslb. 12.: *Ætli*[2] *fyrst hrossum bónda traðgjöf til sumars, sauðfè og geitum til fardaga, mjólk-kúm til þings.*

Margir tala margt um, hvaða þíng þetta[3] skuli vera, og halda það nú flestir, jafnvel þeir, sem þykjast[4] vita meir en alþýða, að hèr skuli meinast alþíng, og þykjast þeir enn þá gjöra vel, er það leggja til, að alþíng hafi þann tíma verið fyrr á sumrinu, en gæta þess ei, sem bæði segir Hákonarbók og þessi lögbók, „at hefja skyldi þingit á Pèturs[5] messu og Páls“. Nú skal eg ekki margyrða[6] að svara þeim hègóma, sem sjálfur fellir sjálfan sig og hvergi[7] getur staðið saman við þeirra sögu[8]. Er það víst, 1) að þetta þíng, sem Llb. *cap.* 12. meinar, á að vera síðar en vorir fardagar, því að[9] lögmálið

1) vantar í B. 2) B. Atli. 3) B. hvað þetta þíng. 4) A. látast. 5) B. Petri. 6) „til“ add. B. 7) A. hvorki. 8) A. sögn. 9) vantar í A.

skipar fyrst hrossin af gjöfinni á sumarmálum, þar næst sauðfè og geitur í fardögum, og síðast kýrnar, þegar hefja skyldi þetta þíng. 2) er það víst, að ekki skyldi það þíng vera í sjálfum fardögum, því þá væru kýrnar ekki[1] taldar í annari reglu en sauðfè og geitur. 3) [er það víst, að[2] ei skyldi það þíng vera fyrir fardaga; það sýnir kapítulinn. 4) er það víst, að ekki skyldi þá ætla kúm fóður, er skyldugt var í sel að færa úr húshaga, því það væri ómögulegt að vænta; selhagar skyldu þá grónir á fjöllum uppi, er kúm þyrfti fóður í bygð að ætla; og enn ómögulegra, að verða flytja hey til sels, og mega ei gefa þau við vetrarhús sín, ef ei væru grónir selhagar. Nú er það ljóst af Llb. 24.[3], að skylt er í sel að færa, þegar 2 mánuðir eru af sumri, það er í 9. viku sumars, því alt mánaðatal skal vera þrítugnætt eptir tilætlun lögbókarinnar, eins og áður hefi eg sýnt með rökum um orðið „tvímánuður“, og þar má lesa, að hverju öllu hugleiddu það eptir fylgir, að þíng þetta, sem Llb. *cap.* 12. talar um, skuli vera fyrr á vorin, en skyldugt er í sel að fara. Á þess hèr að gæta, að þegar lögbókin kom híngað *anno* 1280, voru liðin ein 17 ár frá því, er Grágás gekk hèr fyrir lög, og þess vegna öllum í fersku minni, það sem eptir hennar boðorðum hafði verið lángvarandi venja. En alla þá stund, sem Grágás gekk hèr fyrir lög, voru árlega vorþíng haldin, eitt í hverjum tólftúngi landsins, eður heldur að segja þrettánda hlut; því að fyrir norðan voru fjögur, og í sumum tólftúngum voru vorþíngin 2, síðan Dýrafjarðarþíng var upp tekið á Vestfjörðum, *vide* Sturl. *lib.* 4., *cap.* 15., og þíngið í Straumsfirði á Mýrum, sem Eyrb. vottar, *cap.* 61. Öll þessi vorþíng voru niðursett á vissan dag, svo þau voru óhræranleg að öðru en [því, sem[4] sumarið hrærðist, því að takmark þeirra var miðað við sumarkomuna. Og með því þíngið, sem takmarka skyldi fóðurskamt kúanna, hlýtur að hafa verið ávalt[5] í[6] vissan tíma, og mátti ekki vera fyrr en eptir fardaga, en gat ekki verið eptir það búsmali skyldi[7] kominn í sel, þá segi eg, að þetta þíng, sem lögbókin talar um í Llb. 12., sè vorþíng það, sem eptir Grágás hafi[8] haldið verið um alt landið, og var þá öllum kunnugt nær vera skyldi. Nú mælir svo Grágás, Ómagab. *cap.* 3., *p. m.* 64.: „þeim mönnum öllum skal bjóða, at koma til skiptisins, sem hlut eigu í ómaganum, ef

1) A. ei. 2) frá [vantar í B. 3) alii 42. 4) frá [vantar í B. 5) B. altíð. 6) A. á. 7) B) var. 8) alii hafði.

þeir eru samhèraðs, ok koma til, er 8 vikur eru af sumri". Og sama er *repeterað* í sama *cap.* nokkru síðar, *p.* 68. Og enn segir Grágás, Ómagab. 33.: „Ef innanhreppsmenn vilja á þingi lýsa um þessi mál (ómagamál), þá skulu þeir hafa lýst fyrir helgina", *et cap.* 34., *p. m.* 118.: „Eigi skal maðr sækja ómagasakir, ef hann kemr eigi drottinsdag til þings eðr fyrr". En svo segir Kristinrèttur þeirra Þorláks og Ketils biskupa á *membrana, cap. 12.*: „Goði skal ei síðar koma til þings þváttdaginn, en hann hafi tjaldat búð, þá sól er skapthá, ok sè þá búin at ganga til lögheIgi[1]. Útlægur er hann, ef hann vinnr lengr"; *p. m.* 48. Af áðurtöldum greinum Grágásar hèr við samanbornum er það ljóst, að þetta vorþíng átti að vera í 8. viku sumars, en Kristinrèttur sýnir, að ekki máttu goðarnir fresta lengur að helga þíngið, en til laugardagsins, sem hèr ákveður, og því segi eg, að sá laugardagur í 8. viku sumars er sá takmarkaði tími vorþíngsins, og þetta sama vorþíng er það þíng[2], sem Llb. 12. *cap.* skipar takmark kúafóðursins. Mèr verður svarað, að þær greinir úr Grágás, sem hèr hefi eg tilleidt, byrji vorþíngið tveimur dögum áður. Því svara eg svo, að bændur þeir, sem áttu smá-erindum að skipta með sèr, máttu gjöra það við öndvert vorþíngið að búaráði[3], svo ekki þurfti goðans nálægðar við, og skyldu þeir hafa mega til þess fimtudaginn og föstudaginn í 8. sumarvikunni, en á mánudaginn[4] skyldi þíngið hefjast fyllilega, því þá skyldi goðinn gánga til þínghelgi, og helga þíngið, það er: lýsa griðum og setja þíngið, sem nú köllum vèr. Átti þetta vorþíng að standa til þess, er lýkur hina 8. viku sumars, sem ráða má af Grágás, Llb. 19.: „Hvort hann hefir virða látið fèit eðr eigi, eðr brugðit af marki, þá skal hann segja þat vorit næsta þar eptir, í þingbrekku á vorþingi því, er hann eigi[5] sjálfr, þá er sóknarþing er fast, ok vísa til heimilis síns þeim mönnum, er fè þat eigu, þá er átta vikur eru af sumri". Hèr segir hann skuli lýsa kvikfè því á þínginu, en bjóða eigendum til meðtöku, þegar þíngið líður og hann skyldi heim kominn. Og þyki þetta ei nógu ljóst, þá lesi menn Grágás, Llb. 43., *p. m.* 247.: „Eigi skal dómr vera þær vikor 6, tvær fyrir alþingi ok þingvikor tvær ok tvær eptir þing hinar næstu". Grág. Ómagab. 7.: „Svo skal vanda tíð, at eiðfæra ómaga heima í hèraði, sem til þess,

1) alii: þínghelgi. 2) B. vorþíng. 3) A. búarnaði; B. varnaði. 4) alii: laugard. 5) A. heigi.

at eiga hreppadóm; eigi skal fara um langaföstu nè um löghelgar tíðir, ok eigi þær vikor 6, tvær fyrir alþingi ok þingvikor 2 ok tvær eptir þing hinar næstu". *Confer* Vígsl. *cap.* 71. *et* 72. Þar skýrir, hvað nær alþíngi stefna megi þángað sökum þeim, sem ei hafa greiðzt á vorþíngi. Ætla eg mig nú með rökum sýnt hafa sannan grundvöll, hvaða þíng það sè, sem Llb. 12. meinar, og að hvorki megi þar skiljast alþíng það, sem er, síðan landið kom undir konúnglegt vald, ei heldur hið gamla alþíng, sem hèr var tídt að fornu, þótt það væri nokkuð fyrr. Og með því ske má, að eigi hafi hverr maður athugað takmarkaða tíð hins fyrra alþíngis, þá vil eg hèr grein á gjöra[1]. Alþíng hið forna skyldi byrjast altíð á fimtudag, þá 10 vikur voru af sumri, og hófst hin 11. sumarvika; skyldi þá[2] þíngið standa 14 daga samfelda, og endast á miðvikudagskvöldi, þess er endar hina 12. sumarviku. Hèr af er það, er Grágás mælir í Festarþ. *cap.* 2.[3]: „Borit skal vera fèit í lögrèttu drottinsdag þann fyrra í þingi". Og aptur í Festarþ. *cap.* 12.: „Miðvikudag í mitt þing[4] i bónda-kirkjugarði." Og enn aptur *cap.* 18.: „Föstudag þann, er fyrri er í þingi". Hèr sjáum vèr föstudaga tvo og sunnudaga tvo, og miðvikudag í miðju þingi[5]. Stemmir[6] þetta saman við þrítugnættu mánaðatöluna, sem hèr var áður á minnzt, og betur skýrir frá orðið „tvímánuður". [Og enn samhljóðar þessu Grágás, Landsl. b.[7] *cap.* 63.: „Nú tekr maðr sèr vist til tveggja missira, og er í því þingi 2 vikor fyrir alþing, ok 2 eptir þing, ok 2 um þingit; ok svá þótt hann fari brott úr vistinni, ok er þar lögheimili hans ok þingvist, sem hann var þær 6 vikor"; *cfr.* áður *citeraðan* Ómagab. 7.[8], og Landsl. b. 43. úr sömu lögum. Á hvorutveggja minnist *Crymogæa* móðurföður míns, sèra Arngríms, *libr.* *1.*, *cap.* 7., *p.* 75.: „Frá fardögum, þá 6 vikor eru af sumri, eru 4 vikor til alþíngis hins forna", og vitnar hann það eptir gömlu rími, en lengd þíngsins eptir Grágásar Landlb. 43., sem áður er hèr getið. En *Crymogæa* kallar það Kaupab. 40.; mun það vera bókþrykkjarans vangá, sem alla þá grein íslenzkunnar herfilega afmyndað hefir. Allraljósast verður þetta af *Schedis* Ara fróða. Hann segir *pag.* 7., að „ári fyrr, en kristni var lögtekin hèr á landi, var það í lög leitt, at menn skyldu koma

---

1) hún er svo, add. alii. 2) alii svo. 3) Kmh. útg. 1829, 9. 4) B. add. og. 5) alii: þínginu. 6) A. et B. stendur. 7) Kmh. útg. 1829, Kaupab. cap. 59. 8) Kmh. útg. 1829, Kaupab. cap. 54.

til alþíngis, þá 10 vikur eru af sumri, en áður komu þeir viku fyrr[1]". Þegar nú hugleidt er, að alþíng frá *anno* 999 hófst, þá 10 vikur voru af sumri, þá verður tvent ljóst, fyrst, að alþíng hófst á fimtudag, sem áður er sagt, því það var mælt við sumarkomuna, og það annað, að vorþíngi skyldi lokið vera, þegar byrjaðist hin 9. vika sumars, eptir áður skrifaðri grein Grágásar Landsl. b. 43.: „Eigi skal dómr vera þær vikör 6", *etc.*, og Landsl. b. 63.; áður innfærð er og Ómagab. 7.; ætla eg svo verði ei neitað, að vorþíng hófst á laugardaginn í 8. viku sumars og endaðist[2] á miðvikudag þann, er endar þá 8. sumarviku. Hefir svo alþíngistíminn annað sinn verið færður nokkuð ofan eptir sumrinu, þegar Hákonarbók kom inn í landið, *anno* 1264, því að hún setur þíngið á Pètursmessu, sem eptir gamla stýl aldrei varð fyrr en hálfellefta, og aldrei síðar en hálftólfta vika væri af sumri. Og enn nú stendur eins af sèr þíngtíminn í *collation* við sumarkomuna, síðan nýi stýll er innkominn *anno* 1700, og þíngið er sett í Seljumannamessu, 8. júlí, en sumarkoman veltur á sinni viku, 19. og 25. *Aprílis*, eins og áður valt á 9. og 15. *Aprílis*. Þótt menn vilji segja mèr, að Sturl. *lib.* 6., *cap.* 26., geti þess, að Úrækja stefndi systursyni sínum, Einari Þorvaldssyni frá Vatnsfirði, til Þorskafjarðarþíngs raunarstefnu um heimildir á Staðarhóli og öðrum löndum í Saurbæ, þá 5 vikur voru af sumri, þá svara eg: 1, Þíngið var um heimildir á löndum, og kemur því eigi við vorþíng þeirrar aldar, því að vorþíng voru sóknarþíng til alls konar málaferla. 2, Bókin sjálf *demonstrerar*, að þíngið í Llb. 12. *cap.* á að vera síðar en fardagar. 3, Sýnir það Sturlúnga, *lib.* 5., *cap.* 38., að Þórður Sturluson fór heiman annaðhvort frá Bjarnarhöfn eður Öndverðareyri laugardaginn í 6.[3] viku sumars inn í Fagurey; þar var hann fram yfir helgina, og lèt á mánudaginn hengja þar mann; síðan fór hann inn í Hvamm, og ætlaði að finna Sturlu bróður sinn þar í fardögum; þar beið hann Sighvats[4] nokkra stund, en hann kom ekki þar það sinn, og þaðan fór Þórður, svo sem hann hafði ásett, til vorþíngs í Þórnes. Alt þetta sýnir, að tímanum ber saman öllum[5], til þess að vorþíngið verði í 8.[6] sumarvikunni, [sem nú er með mörgum orðum þrástagað. Híngað heyrir það, er Vígslóði segir *cap.* 120.: „Ef maðr vegr skógarmann nokkurn,

1) frá [vantar í A. 2) B. endast. 3) A. 5. 4) A. Sighvata. 5) vantar í A. 6) A. 7.

þeirra fjögra, er hin meiri gjöld eru á, ok skal þá lýsa sök þá at lögbergi á hönd goðum þeim öllum í þingin fornu, þau er þá voru í þeim fjórðungi, sem hann er í, er þingin voru óslitin, ok þriðjungsmönnum þeirra öllum til skógarmannsgjalda þrjár merkr lögaura". Segja þessi orð útþrykkilega, að þótt í þær mundir, er bókin var rituð, tækju að gjörast fleiri þíng en þrjú í fjórðúngi, þá skyldu þó þessi skógarmannsgjöld, svo sem merkileg *executio* genginna dóma, leggjast jafnt á hendur öllum þeim tólftúngi landsins, sem að hinu elzta þíngi hvers tólftúngs ætti rèttargáng að sækja. Er því síður undarlegt, að svo nafnfrægur rèttur, sem þessi tólftúnganna vorþíng voru, mætti vera hafður fyrir takmark fóðurs ætlunarinnar, jafnvel þó að á þeim þá væri stór umbreytíng orðin, er landið kom undir konúnglegt vald, því að samt voru þau landslýð öllum í fersku minni, svo vel sem oss eru nú þær fornu jólatíðir og aðrar hátíðir, jafnvel hræranlegar, þótt að sá nýi stýll hafi gjört á þeim *reformation* vor á meðal síðan 1700. Og þeim mun heldur var vorþíngin hægt og glögt að minnast, að þau voru við sumarkomuna og fardaga takmörkuð. En það brjálaðist hvorugt, heldur stóð í sömu tíð, sem að fornu, svo sem vottar Landslb. 8. *cap.* vorrar lögbókar, samanborinn við Grágásar Landslb. 57. *cap*[1]. Í öllu þessu sýnist mèr að upplýsíng gjöri bæklíngur sá, er *Author* kallar Blöndu; hún er um rímtal gamalt, og mælir svo. „Frá sumarmálum[2] skulu vera[3] 6 vikur til fardaga; skal fimtudagur vera fyrstur í fardögum, og eru þá 4 vikur til alþíngis". Það sýnir þessi grein, að bæklíngur þessi er áður gjörr, en híngað væri komin Hákonarbók, því að með henni kom alþíngið á Pèturs messu og Páls; varð hún aldrei byrjuð fyrr en í 11. viku sumars; en þessi regla lætur þíngið ætíð hefjast á fimtudegi þeim, er byrjar hina 10.[4] sumarviku. En rím það, er sèra Arngrímur vænist í sinni *Crymogæa, lib.* 1., *cap.* 7., *p. m.* 75., að segi: „frá fardögum eru 4 vikur til alþíngis hins forna", ber með sèr, að það hafi gjört verið, síðan inn kom Hákonarbók. En segir sami[5] bæklíngur Blanda: „Það er missiristal, þá er rímspillir er, að um þíng skal Jónsmessa vera þriðjudag". Gætum nú, að[6] sumarkoma verður á rímspillisári jafnan 10.[7] *Aprilis;* teljum hann og þar til 49[8] daga, þá eru 10 vikur af sumri endaðar á miðvikudagskvöldið

1) frá [vantar í A. 2) B. sumarvikum. 3) verða taldar B. 4) alii 11. 5) vantar í B. 6) al. add. hin fyrsta. 7) alii: 9. 8) B. 69.

þann 18. *Junii,* en alþíng þeirrar aldar hefst með hinni[1] 11. sumarvikunni, fimtudag þann 19. *Junii;* verður þá Jónsmessa [á[2] þriðjudaginn [næstan eptir[3], það er 24. *Junii,* sjötti dagurinn í alþíngi þeirra tíma, næstur fyrir miðvikudaginn í midt þíng. Annað dæmi í Sturlúngu *lib.* 1., *cap.* 19., um deilur þeirra Hafliða Márssonar og Þorgils Oddasonar; þar segir: „Ríða menn á þing hinn næsta dag fyrir Jóns messu *Baptistæ*"; hefir þá sumarið gengið inn á fimtudaginn 14. *April,* og endazt [hin tíunda vika[4] sumars á miðvikudagskvöldið, þann 22. *Junii,* en fimtudagurinn í 11. viku sumars og fyrstur dagur í þínginu verið 23. *Junii,* næstur dagur fyrir Jónsmessu, sem sagan greinir. Eins og nú að af öllu því, sem um „leið" og „leiðarþíng" hefi eg skrifað, sjáum vèr, að lögbókin hefir þann *terminum,* eg meina bæði *voculam* og tímann tekið af hinni fornu venju, sem hèr hafði[5] tíðkazt, áður landið kom undir konúng, og þá var öllum í fersku minni, og þar fyrir gjörir bókin enga skýríng á því framar, og hvergi nefnir hún leið í þeirri meiníng, nema í þeim eina stað; því skyldi þá ólíklegra vera, að hún fyrir sömu *rationes* meini vorþíngið, þar sem nú er frásagt, Llb. 12., þar sem það öllum var eins kunnugt og leiðin[6]?

## Þíngfesti.

Grág. Llb., *cap.* 61.: *Þíngsókn, Varnarþíng.*

## Þíngmannaleið.

Þingfb. 1.: *Færir sèu at þingmanna-dagleiðum.*

Það munu flestir landsmenn vorir þykjast vita nógu glögt, hvað að sè þíngmanna-dagleið, en mèr sýnist eptir reynd og kunnugleika, að þíngmanna-dagleiðar-skamturinn sè yfrið-máta misjafn; það get eg ei betur skilið en svo, en fornaldarmenn vorir, þeir eð sköpuðu og lètust skamta þíngmanna-dagleiðir vorar, hafi það gjört af handa-hófi, þar lengri, sem góðir vegir voru og í bygð mátti reisa; þar skemri, sem vegir voru vondir eður torveldir fyrir brattleika sakir upp og ofan; svo hið sama, þar skemri, sem yfir háskaleg vötn eður ferjur skyldi reisa, þar lengri, sem nær var alþíngisstaðnum; þar skemri, sem lengra var til alþíngis; þar lengri, sem áfángastað mátti kjósa hvar menn vildu; þar skemri, sem ei kunnu hagar að fást,

1) A. þeirri. 2) vantar í A. 3) vantar í B. 4) B. hina 10. viku. 5) A. hafi. 6) alii: leiðirnar.

nema i vissum stöðum; svo menn verða þángað að keppa, hvort sem hægt er eður óhægt, og þess vegna þar lengur að hvíla gripi sína; og nær þetta allvíða heim yfir Sunnlendínga-fjórðúng og syðsta hlutann Austfirðínga-fjórðúngs, alt undir Lómagnúpssand; það nær og heim í Vestfirðínga-fjórðúngi öllum, að jeg meina. Í Norðlendínga-fjórðúngi nær það og víða til, norður alt undir Vöðluheiði og í Fnjóskadal; hvort að í Múlasýslu og eystri hluta Skaptafellsþíngs og í Þíngeyarþíngi sè það með sama slag, þori eg ei fyrir víst að ákveða, því eg hefi ei reist yfir þann hluta landsins; annars er þess ei að dylja, að í nokkrum stöðum Norðurlands sýnist mèr svo sem kapp og metnaður fyrri manna hafi gjört þíngmanna-dagleiðirnar lengri en hófi hæfir; því að sá ætti með rèttu þeirra skamtur að vera, sem að þeir, eð lögþíngið sækja, og svo hið sama fjórðúngsþíngin fornu, færa mættu lög-klyfjar að óskemdum gripum, með því móti, að þeir sèu á ferð 5 eyktir, það eru 15 klukkutímar, en hafi 3 eyktir til að setja tjöld að kvöldi, hvílast um nótt, og búa sig úr tjaldstað að morgni. Skuli menn nú slíkan dagreisumæli meta saman við mílnatal og dagreisuskamt í öðrum löndum út um heiminn, þar sem vegir eru slèttir, klif og brekkur sniðið af, brotin björgin, fyltar gryfjur, til þess að reisandi menn skuli áfram komast, þá verð eg þó að meðkenna, að það, sem fyrir mig hefir borið af hávitugra og hálærðra manna skrifum, að þessum hlutum lútandi, mismunar ærnu. *Celeberr. Isacus Voss. de emendat. longitud., p. m.* 155., segir: *Iter diei Procopius stadiis ducentis et decem includit.* Þessi *Procopius,* nafnfrægur *Scribent,* lifði *temporibus Justiniani; vid. Gerh. Voss. de scriptoribus Græcis, lib. 2., cap. 22.* Svo skyldi þá þíngmanna-dagleið eptir þessum reikníngi vera 26,250 málfaðmar. Áður skrifar *Isac. Voss. eiusd. operis p.* 144.: *Notum qvidem unum circuli maximi gradum qvinqvaginta stadia, sexaginta vero passuum conficere millia.* Nú eru 15 þýzkar mílur í einum *grad, adeoque* eru 4000 faðmar í hverri þýzkri mílu. Nú er það kunnugt, að þær þýzku mílur og dönsk míla vorrar aldar eru næsta því sama, en ein dönsk míla 12000 danskar álnir, þær 12000 danskar álnir gjöra 6000 skref, þegar vèr mælum tvöfalt skref. Nú hefir Christ. 5. *anno* 1698, þann 10. jan., *definerað* danskan faðm 3 danskar álnir, þær gjöra vorrar álnar, sem nú höfum vèr, 3 áln. 1. kvart., og einn þriðjúng fjórtekinn úr öðru. Svo mikið hefir

vor alin lengzt frá dögum Magnúsar konúngs lagabætis, að þá var full hálf fjórða alin í málfaðmi; *vid. nostrum* „alin“ og „meðalmaður“. Berum nú þetta saman áhyggjusamlega, þá finnum vèr, að 4000 danskir málfaðmar, ɔ: 12000 danskar álnir, gjöra eina þýzka mílu. Nú er það kunnugt, að 5 danskar mílur eru í Danaveldi kallaðar að vera full dagleið, þá er færa skal hlöss eða *plaustrorum onera*, hvað þá fremur, ef á hestum skyldi færa klyfjar, hálft áttunda danskt lýsipund (það heita hjá oss 12 fjórð. baggar, og lögklyfjar að öðru nafni); þar fyrir, að öllu þessu hugleiddu, get eg ei nær komizt en svo, að 20,000 málfaðmar skuli vera þíngmanna-dagleið, svo skömtuð, að ætla megi gripum eptir hófi, að geta farið eins lángt seinasta daginn sem þann fyrsta.

Þótt vèr nú enn framar álítum það, er skrifar *Isac. Voss., variæ observat., cap. 8., p. 40., de magnitudine urbium Babylonis et Nini (sic ille vocat qvam nos Niniven appellamus) spatium millium qvinqvaginta, id qvod ibidem trium dierum iter statuit, erit iter diei 16,666⅔* málfaðmar. *Media igitur erit via inter Procopii iter diei et hoc Vossii incedentes, tanto confidentius asserimus* þíngmanna- dagleið 20,000 málfaðma. *Data opera ne hos numeros turbem, præterea qvod ex Nubiensi notat Voss. de emendat. longit., p. 155., definiens 540 milliaria Italica unius diei iter, sed et id præteribo, qvod idem Voss., eiusd. operis p. 161., de parasanga notat, nimirum ducentas nonaginta duas parasangas conficere passuum millia 1095, adeo, ut subductis rationibus constet parasanga 3⅔ milliaribus. Præteribo itidem, qvod celeberr. Johannes Stenbochius in Hafniensi academia 55., Theologiæ Professor regius, Alectorophoniæ suæ, qvam juvenis edidit, p. 12. notat; Parasanga, inqvit, putatur constare 39 stadiis, ut ex Budeo forum Romanum id allegat; stadium, inqvit, definiente Plinio, efficit 120 nostros passus, hoc est pedes 628. Foret igitur parasanga 3600* mílur, *et qvodlibet milliare mille passus. Nostrum vero* þingmannaleið, *hæc postrema quum nihil illustrent, notare volui non ut fundamenta nostræ theseos, sed ut animum lectori (si qvem nactus fuero) commoveant ad hæc nostra examinanda et emendatione sua illustranda.*

## Þjóðans-barn.

Hávamál: *þagalt ok hugalt skyldi þjóðans-barn.*
*ibidem*: *þú gáir eigi þings nè þjóðans máls*, ɔ: fólksforíngja.

## Þjóðnýtur, Þjóðsmiður, Þjóðskáld, Þjóðgata.

## Þrep.

Llb. 31.: *Í öxl meðalmanni af þrepi.*

Öllum er kunnugt, að þrep er kallað enn í dag stallur á vegg ofan eður neðan, og að þrepa inn fyrir segist alltidt um trèsmíði og járnsmíði. En hvað hátt þetta þrep hafi verið á eður við garðinn, er bágara að finna rök til. Eg meina það þrep eigi sè annað en flagbarmurinn, sem út undan veggnum stendur, því svo er líklegt tilætlað hafi verið, að eigi skyldi stínga flagið alt inn undir garðinn sjálfan, heldur vera bil nokkurt af óskertum jarðvegi frá undirstöðu garðsins og út að flaginu, og það sè þrepið, sem hèr nefnist.

## Þröm.

Kaupab. 5.: *þat er katlamálsskjóla, ef trè er sett í lögg, ok taki öðru megin á þröm upp 7 þumlúngar meðalmanni í naglsrótum.*

Þröm er enn í *usu*, þar sem um gil og gljúfur talar, gilþröm, og merkir barminn á gilinu, *sic* þröm á Bug fram af Blöndudal, því hún stendur á gilbarminum. Ólafs h. saga, *cap.* 178:

> Öll var Erlings fallin
> ung fyrir norðan tungur,
> skeið vann skjöldungr auða,
> skipsókn við þröm Bóknar,

við barminn á eyunni.

## Þýzkir, Þýzkaland.

*Philippus Cluverus geograph. lib.* 3., *cap*, 1., skrifar, að Þýzkir hafi frá alda-öðli altíð, það lengst verður minni til rekið, kallað sjálfa sig *Tevtiske;* það vill hann draga af því guðsnafni *Tevth*, sem hann segir í flestöllum túngum austurálfunnar merki guð, skapara himins og jarðar, og þaðan sè

gríska $\vartheta\varepsilon o\varsigma$; hann segir og þeir gömlu þýzku heiðíngjar hafi sagt þennan þeirra guð *Tevth* af jörðu fæddan, og hans son mann, *lib. 3.*, *cap. 6.*, og *citerar Tacitum. Item* eptir *Cæsare de bello Gallico*, að *Galli* kalli sig komna af *Dite patre;* hèr er nú ljóst að sjá, að *Cæsar* hefir gjört úr *Tevth Ditem*, eins og Þýzkir úr *Tevtiske* hafa gjört *Deutiske*, og síðar *Daytiske*, og vor þýzka, og síðan þýðverska; en *Tacitus* hefir blandað fyrir þeim málinu, og sagt guðinn *Tevth*, af jörðu kominn, átt hafa son þann, er þeir kölluðu mann, í staðinn fyrir það, að þýzku heiðíngjarnir hafa þá verið komnir á þá trú, að *Tevth*, það er sá almáttugi guð, hefði getið manninn við jörðinni, svo sem móður, í staðinn þess, er guð sköp manninn af jörðunni. Í sama kapitula segir *Cluverus*, að *Aschenus*, sonur *Gomer*, sonar *Japhets*, sonar Nóa, sè forfaðir þjóðanna fyrir norðan Grikkland, Þýzkra, Franskra, Spanskra, svo vel sem Enskra, Írskra, Skotta, og allra fyrir sunnan austur-sjóinn norður í Líf-land; *vid. Genes. 10., v. 3.* Segir *Cluverus*, að Ebreskir og, að mèr skilst, allar túngur austurálfunnar kalli og hafi kallað Þýzka og þeirra *genus Ascenazim;* og sè það satt, þá er ef-inn af. Hann skrifar og, að allar þessar þjóðir hafi Grískir kallað *Celtas*, og heldur hinn sama uppruna allra þeirra, og að þeir í fyrstunni hafi allir haft eina túngu, hverju öllu samhljóð-ar það Þormóður *in serie reg. Dan., lib. 2., cap. 4.*, skrifar eptir *Stringh. de Angl. origine.*

# Æ.

## Æra.

Þessi glósa er ekki tíð í gömlu norrænu máli, og hvergi minnist eg hún standi í sögum nè lögum, fyrr en á dögum Hákonar konúngs háleggs og Magnúsar konúngs lagabætis, í *epilogo* Möðruvalla-rèttarbótar *anno 1313*: „Gefi guð yður þessa vora skipan og alla aðra svo í nyt að færa, og að geyma, að guði sè heiður í, en oss til æru, sjálfum yður til æfinlegs gagns og fagnaðar utan enda“. Og aptur í *epilogo* rèttarbótar sama konúngs þeirrar, er svo byrjar: „Skylda vor og ástsemd, *etc.*, *anno 1316*: „Gefi guð yður svo þessar rèttarbætur að halda,

að Jesús Kristur hafi tign og virðíng af, en vær sæmd og æru, en sjálfum yður snúist til náða og nytsemdar[1]". Hèr í báðum þessum greinum merkir *vocula* „æra" *gloriam et laudes*, það er heiður og hrósun, meir en alleina *civilem integritatem, qvæ sit criminis expers et nulla laboretinfamia nullaqve culpa pellascat.* Þeir heita í lögum og sögum skilríkir menn[2], valinkunnir menn, dugandi menn. Hitt, að kalla þá ærlega menn, er síðar inn komið í þá dönsku túngu, og með henni til vor.

## Æsta.

Erfðat. 25.: *Æsta þingmenn*[3] *liðs.*

Llb. 42. [og 56.:[4] *Æsta bændr liðs,* og í Gulaþíngsbók hinni fornu um taksetníng, og allvíða.

Enginn efi er á, að þetta merkir sama, sem beiða með alvöru, svo sem þreifanlega ljóst verður af Llb. 10., 15., 34.; Kaupab. 3. Mèr virðist orðið segja, að háfum hljóðum skuli kalla bændur til liðveizlunnar, svo þeir æsist til þess, eins og vopnað lið er fram æst og eggjað með hrópi; það sè eg, að í herópi er það tíðast; það sè eg og, að í Söðulkolluvísum, Grettiss. 49., merkir þetta orð „æsta" hátt að kalla eður mæla, og með fullri einurð, því svo bauð Grettir konunni, sem hann talaði við í Deildartúngu, að segja þeim, er eptir honum reið, sinn tilætlaða náttstað:

æstu, at ek mun gista
orðrakkr á Gilsbakka.

Skil eg þetta svo, sem Grettir hefði sagt: Let þú ekki manninn eptirreiðar, eður fram eggja þú manninn eptir að ríða, og seg honum einarðlega, hvar hann kunni mig að finna. Nú er glósan úr tíðkan niðurfallin, að því sem nú á dögum tala menn eður skrifa.

# Ö.

## Öfundarbót.

Farml. 19.

Er *manifestum,* að fullrètti í peníngasökum og öfundarbót er með öllu sama, svo og Farml. 18.; *vid. Igjeld* og *Tvigjeld.*

1) B. nytsemda. 2) vantar í A. 3) til add. B. 4) vantar í B.

## Ökulskúaður.

er af ökla dregið. Hökulskór þeir, eð taka meir en neðan undir ökla. Hákonars., *anno 1240.*

## Öndvegi.

Andvert eður öndvert heitir það, er í móti[1] horfir. „Öndverðr[2] horfir þú við í dag, Erlingr", sagði Ólafur konúngur digri. Erlingur sagði: „Öndverðir[3] skulu ernir klórast", sem sagan vottar *cap. 178.* Svo heitir og andskoti sá, er skotvopn sendir móti einhverjum; anddyri það, sem[4] öllum stendur opið, svo sem orðtækið hljóðar: „það er[5] opið og öndvert[6]". Andspænis heitir það, sem á móts við annað er spanið (það er: sett eður staðfest). Andstreymi, mótstraumur, eins og forsteymis það, sem er undan straumi. Svo heitir þá öndvegi það sæti, það[7] er öndvert eður andvert horfir, svo sem nú er tídt, að fyrirsæti [eður höfðíngja[8]-sæti horfi eður sjái til dyranna, síðan Ólafur konúngur kyrri setti það[9] á þverbekk fyrir gafli, svo sem votta Noregskonúngasögur. „Þat var forn siðr í Noregi (svo ok í Danmörk ok Svíþjóð þar, sem voru konungsbú ok veizlustofur, *add. fragmentum rerum Norvegicarum*), að konungs-hásæti var á miðjum langpalli; var öl um[10] eld borit", segir Snorri Sturluson, „í veizlustofum; sat þar drottning til vinstri handar konungi; var þat kallat konungsöndvegi; þótti þat sæti vegsamlegast út í frá hvorntveggja veg, er næst[11] var öndvegi, en úveglegast þat, er næst var dyrum, en dyrr voru á báðum endum stofunnar; skyldi þá konúngshásæti vera á þeim bekk, er vissi mót sólu. Annat öndvegi var á hinn úæðra bekk, ok[12] skyldi þar sitja hinn æðsti ráðgjafi konungs fyrir hans ádrykkju, ok þótti þat mest virðing, að sitja fyrir konungs ádrykkju". Og litlu síðar: „Ólafr konungr lèt gjöra hápall[13] um miðjar veizlustofur, ok setti konungshásæti á miðjan þverpall". Hèr sjá menn; að þá urðu stofurnar eindyraðar, sem áður höfðu tvídyraðar verið; þessi breytun[14] gjörðist frá 1066 til 1092; þau ár eru upphaf og niðurlag ríkis Ólafs kyrra, og er líkast hann hafi breytt öndverðlega á tímum sinnar stjórnar. [Menn kynnu vilja segja[15], að slíkir stórherra-siðir[16] hefðu ei náð til vorrar

1) A. mót. 2) A. andverður. 3) A. andverður. 4) er B. 5) vantar í B. 6) A. andvert. 7) vantar í B. 8) frá [ vantar í A. 9) A. þau. 10) öllum B. 11) B. næstur. 12) vantar í B. 13) A. hásæti. 14) A. breytni. 15) frá [ B. Menn kunna að segja. 16) B. slíkra stórherra siðir.

fátæktar. Eg svara: titlíngur og óðinshani búa hreiður sín með sama formi, sem ernir og svanir. Og sjá má það af Sturlúngasögu, *lib. 1., cap. 13.*, að svo var sköpuð og á sama hátt skipuð drykkjustofan í Reykhólum, sem hinar fornu tvídyruðu drykkjustofur Norðmanna. En síðan urðu stofur hèr á landi breyttar eptir því formi[1], sem Norðmenn lærðu af Ólafi konúngi[2] kyrra, og hefir það form drykkjustofanna verið[3] hjá oss alt[4] til þessa tíma, að háborð eru fyrir þverum gafli. En það er nú[5] fyrst á þessum 30 árum sumstaðar tekið til að breytast upp á danska vísu; samt eru þó hinar fornu stofur enn nú á flestum stöðum, þar sem meiri menn fyrir ráða. Mèr verður sagt, að öndvegin fornu á lánghliðar-bekkjum hafi ekki[6] öndverð verið þeim, er inn gengu um dyrnar á gafli drykkjustofanna[7]. Eg svara af áður *citeruðum* Noregskonúngasögum: Þau horfðu öndvert[8] á móti sólu. Svo heitir enn í dag öndvegis-veðurátta, það eru blíðviðri, svo sem þeim er af sólu hlýindavon, er bygð eiga þar, sem sólarhiti horfir í fáng manni, svo sem í hinum fornu öndvegum. Vilji menn segja: Þetta nær[9] ei til á öndvegi því, sem var á úæðra bekk; það horfði ei á móti sólu. Eg svara: Það var ekki[10] kallað öndvegi, nema í þá líkíngu[11], að[12] það var æðsti sess á þá síðuna, og öndvert[13] höfðingjanum, sem sat í því rètta öndvegi á [hinum æðra bekknum[14]. Það er sýnilegt af Eyrbyggju, þar sem talar um hof Þórólfs Mostur[15]-skeggs, að af því hafi öndvegið nafn, sem eg upphaflega sagði: „Á Hofstöðum", segir hún, „lèt hann reisa hof, ok var þat mikit hús, ok voru dyrr á hliðvegginum ok nær öðrum endanum; þar fyrir innan stóðu öndvegissúlurnar[16], og voru þar í naglar; þeir heita reginnaglar". Hvort sem nú þessir reginnaglar skulu heita guðanna naglar, eður skuli þeir heita aðalnaglar eður magnnaglar, þá er þó hèr af sýnilegt, að öndvegissúlurnar hafa verið stólbrúðir tveim megin við hinn[17] æðsta sess, hvort sem öndvegið skal meinast í hofunum eður drykkjustofunum. Þær fornu stofurnar, sem hafa öndvegið fyrir miðjum gafli, eptir sið Ólafs konúngs kyrra, hafa jafnan það borð og bekki skör

---

1) B. í það form. 2) vantar í A. 3) A. varað. 4) A. inn. 5) A. Er það nú. 6) A. ei. 7) B. gólf drykkjustofanna. 8) A. andvert. 9) B. náir. 10) B. ei. 11) A. líking. 12) vantar í B. 13) andvert A. 14) frá [ A. hinn æðra bekkinn. 15) A. Mostrar. 16) A. súlur. 17) B. þann.

hærra, en hin borðin standa, sem með hliðveggjum[1] eru tveim megin, og það til þess, að höfðíngjar og fyrirmenn skuli því heldur sjá yfir borðsitjendur, hvort sem heldur[2] eru heimamenn eður gestir, og því eru þau þverborð „háborð" kölluð.

## Öreigi.

Kvennag. 4.

Það er ei í vorri lögbók ákveðið útþrykkilega, hversu fèlítill sá skuli vera, sem heitir öreigi; en mjög lýtur á þann veg Rèttarbót Hákonar konúngs, sú er í þeim þryktu lögbókum stendur innfærð í textann Framfrb.: „En ef þau hafa með minna fè saman komit, en þau ættu til 3 hundraða bæði saman", *etc.*, „að þeir menn skuli kallast öreigar", Kvg. 4., og allir þeir, sem hjúskap binda með minna fè. Skamtar Grág. þeim þó enn minna fè en 3 hundruð, enda lætur hún hjúskap þeirra ei saklausan í Festarþ. 15., *p. m.* 137.: „Ef þeir menn ganga saman, er minni fè eigo en 1 hundrað lögaura, 6 álna aura, fyrir utan hversdagsklæði, sèu ómagalausir menn, þat ver þeim fjörbaugsgarð, nema kona sè eigi barnbær", *etc.*; les allan þann kapítula, hversu þau eru af landi gjör, og sá bæði sekur og skyldur að annast ómaga þeirra, sem giptíngarleyfi gaf. Og nú segir Grág., Festarþ. 25., *p.* 147., um þau hjón, er svo gengu saman, að kona var mundi keypt, og átti bóndi mörk eður meiri fè, þau æxla fè úr öreigð, þá leggja lög fè þeirra saman; svo að hèr kallar hún það í öreigð, þótt átt hafi mörk eður meira fè lítið eitt, og víst yfir eitt hundrað, bæði saman. Þvílíka fátæklínga skil eg að vor lögbók öreiga kalli, Kvg. 4., og fátæka menn, er leigukúgildi, sem fyrir þeim deyr, skulu gjalda á 3 árum leigulaust, Kpb. 16., jafnvel þó sú miskun lögmálsins nái og til þeirra, er mist hafa fjár síns, þótt auðugri hafi saman komið í hjúskap, en öreigar slíkir. En það er ljóst, að ei gefur Kpb. 16. þessa miskun nema þeim einum, er þörf hafa til við leigufè að hjálpast, sem umtalar Kpb. 15. Sýnist mèr af framanskrifuðum greinum, sem ei verði gjörður á því vafi, að öreigar heiti þeir allir í Kpb. k. 4., sem eiga minna fè en 3 hundruð bæði saman, þegar þau binda sinn hjúskap. En í Kpb. 7. nær það ei niður, nema verða megi í þeim fyrra póstinum, ef sá maður á í hlut, sem ómegð hefur fram

---

1) B. veggjunum. 2) vantar í B.

að færa, og dáið fyrir honum leigukúgildi, skal betala eptir Kpb. 7. Annars finn eg hvergi í bókinni greint, hvað öreigi sè kallaður í þessum greinum Kaupb. 7. Í Grág. segir Llb. 8.: „Ef sá maðr andast, sem öreigi er, ok er engi maðr skyldr at gjalda skuldir hans; þá var hann öreigi, ef hann átti ei eptir mörk eðr meira fè, ok voru þó skuldir meiri en svo, ok er erfingi skyldr at bjóða til skuldadóms eptir hann, ef hann hefir átt eptir mörk eðr meira fè“. Er það hèr fyrst að athuga, að þessi kapítuli Grágásar talar um skuldalúkníngar eptir dauðan mann, er vor lögbók gefur boðorð um í Erfðat. 18. og 19., og Kpb. 8. En þessi Kpb. 7. talar um kaupunaut einhvern, þann er á lífi sè, og þó öreigi. Samt mætti það heita gott af Grágás að læra, hvað öreigi sè og kallast megi, ef eigi lægi við sú áhyggja, að hún gefur dauðs manns arfa kvittun frá skuldadómi, þótt eptir hann sè 47 álnir lögaura; hví munu þær eigi skulu skiptast milli skuldunauta, svo vel sem 49 álnir, ef þær voru eptir eður meira fè? Mun það eigi hèr undir fólgið, að þær 47 álnir skulu gánga til, að búa um lík hins dauða og gjalda presti líksaung og kirkjubónda legkaup, eptir því, sem skilt er í Kristinrètti þeirra Þorláks og Ketils biskupa, er þá gekk hèr um tíð Grágásar? Þar segir *p. m.* 12.: „Sá, er lík færði, á að hafa sína aura af fè hins andaða“. Og litlu síðar: „En ef fè vinnst til sums, en ei til alls, þá skal til þess fyrst hafa, at búa um lík, en þá skal kaupa líksöng, en legkaup skal síðast reiða“. Lýtur og híngað það, er bókin segir í Erfðat. 24.: „Sá, sem tekr fè eptir dauða menn utanlands til at færa erfingjum út híngað, á engu af því fè lóa, nema það, sem þarf til útferðar eptir þvílíkan manni eptir siðvana“; *vid.* „útferð“. Sè eg, að mèr verður svarað: Hvað skyldu heldur 47 álnir standa heldur fyrir þessum kostnaði en 48 álnir eður meira? Eg svara: það skyldi á einhverju því staðar nema, sem nærri lèti hinum nánasta útfararkostnaði; en þá strax, er mörk fjár var eptir, skyldi gjöra skuldunautum kost á, að skoða bú hins dauða, og sjá til, hvort af útfarargjörðinni mætti nokkuð afgángs verða. Nú þótt eg eigi segi þetta fyrir efalausa útskýríngu þessum Grág. Llb. 8., þá ætla eg það þó verði svo líklegt, að eigi megi síðan af þessari grein Grágásar skapa það óbrigðult, að sá skuli kallast öreigi í vorum Kaupab. 7., sem lífs er, og hefir undir sínum ráðum mörk fjár um fram hversdagleg klæði sín. Sè eg víst, að Björn á Skarðsá hefir viljað hafa

þessa grein til leiðarvísis, og lætur hann af sèr merkja, að eigi væri allfjærri, að kalla þann mann öreiga, er minna fè á en 10 aura, því hann sè ei skyldur tíund að gjöra, því er það sama, á meðan Grág. gilti, frá *anno* 1096 að statúta Gissurar biskups gjörðist um tíundargjaldið; en eg get ei fundið ástæðu til þess í lögunum, að manni þeim, sem lífs er, og heill og verkfær, og stendur í skuldum við annan, skuli líðast, að halda mörk nè 10 aurum fyrir sínum skuldunaut að hans óvilja; frátek eg þann öreiga, sem ómegð hefir að annast, sem fyr er sagt, Kaupab. 16., eður megi vera hross til að flytja börn sín á, sem ei mega á hreppa segjast eptir Rèttarbót Hákonar konúngs í Framf.b. 2., eður matvæli, sem hann neyðist til að gefa konu og börnum til lífs-bjargar, til þess önnur efni fást kunna, og er það *ex jure gentium* hver, sem ætti mat þann, er ei mætti annars fást mega að gjöf nè láni, en um hvern þann annan mann, er engin þvílík efni frelsa, kann eg eigi að skilja það öreiga-nafn í Kaupab., og ekki get eg hann skilið nema svo, að sá er og heitir þar öreigi, sem ei á fyrir skuldum þeim, er hann á öðrum að gjalda, eins þótt hann hafi meðferðis í sínum vörzlum 1 hundrað hundraða og 5 aura, og þó hann hafi í sínum vörzlum 1 hundrað, og standi til annara í skuld um 21 eyri, þá er hann öreigi; svo og, ef hann á öðrum hálfa mörk að gjalda, og hefir eigi nema 20 álnir, þá er hann öreigi. Nú hefir hann eina 5 aura, en á að gjalda skuldir mönnum hálfa mörk, þá er hann eigi öreigi talinn í þessum Kaupab. 7. kap., sem hann allur sýnir, þegar hugleidt er gaumgæfilega, að svo lengi sem hinn skuldbundni maður hefir einn peníng eptir, auk hversdagsklæðnaðar, þá má hann ekki þverskallast að lúka sína skuld, þá sem verður að lögum til sagt, eptir *Contract* og eindaga hans og þeirra í millum, er þá eiga fè að honum. En hversu mætti þá annars *creditor* taka sinn *debitor*[1] í gæzlu og færa til þíngs, sem hèr gjörir ráð fyrir? Er þetta í mínum þánka svo ljóst og auðsèð, að eigi krefur fleiri bevísínga, en með sèr færir þessi Kaupab. 7. kap., svo sem nú var á minzt, og Kaupab. 2., 3. og 4. kapp. Og þar á ofan gánga svo lög um alt Danmerkur og Noregs ríki, bæði að fornu og nýu, hvar sem *creditor* vill svo fast að halda. Hefir öreigi nafn af því, að hann er úr eigi, úr þeirra tölu, sem eiga fè nokkurt, eins og örsauði (mun ei rèttara: örsnauði?) heitir í

1) A. creditor.

Grág. Llb. 22. sá, sem í Jónsbók heitir sauðlaus, Llb. 47., og örviti í Lokasennu í Sæmundar-Eddu, *p. m.* 75.: „ærr ertu Loki oc örviti"; *et p. m.* 79.: „aulr ertu Loki, svá at þú ert örviti". Örbyrgð og örbyrgur sá, sem er úr byrgð, ei er borginn, ei er byrgur, ei hefir bjargefni, bjargleg efni. Örendur sá, sem úr er önd. Örverpi (um fuglana), úr varpi, *effeta volucris, et per tropum* um mennina, sem Ófeigur kvað í Bandamannasögu:

Karli hverjum
kemr at örverpi.

Eins öræfi vetra í Vafþrúðnismálum, ɔ: vetratal fram úr æfi. Öræfisfjöll, ɔ: svo laung yfir að fara, að meiri tíma kostar en manns æfi (Eg hefði sagt óbygðir þær, sem engum manni er æfi sín í alandi). Hefir það í öllu glapið sýn fyrir Birni, svo vel sem öðrum, að þeir hafa ei sundur greint þann öreiga, sem *respectu* til búskapar og hjúskapar er svo kallaður, frá þeim, í skuldalúkníngum á svo að heita. Það hefir og líka sjónir vilt fyrir mönnum, að þeir eru í almennings-máli kallaðir öreigar, sem enga tíund gjöra. En það segir þá fèlausa í tíundarreikníngum, það er, þeir koma ei í þeirra tölu, sem gjöra skulu tíund, en eru þó ei þar fyrir með öllu fèlausir, þegar til skuldalúkníngar á að sjá. Eg set enn til dæmis: hann skal eiga 9 aura og 5 álnir, og gjörir þó enga tíund; annar hefir jafnmikið fè, 59 álnir. Hann er í skuld við 9 menn, og á að gjalda eyri hverjum þeirra; mun hann eigi verða að láta sína 9 aura, og nægjast með að eiga sínar 5 álnir, sem afgángs urðu skuldlausar?

## Örvarþing.

Mannh. 10.: *þá skal á örvarþingi fram koma náttstaðr manns*[1], *ok skal bóndi sverja, at hann var at hans um nóttina, ok hann kallaði sik svo*[2]. *Víglýsing skal ok fram koma* (*á þingi*).

Eg skrifa þessa grein eptir *membranis*, því þær prentuðu eru hèr sárlega afbagaðar[3]. *Item* segir í Mannh. sama 10. kap.[4]: „En ef maðr er lostinn eða særðr, svo at hann má ei mæla, skeri hann örvar upp, þegar er hann má mæla, en þá skal þat örvarþing jafnfullt, sem samdægris væri örvar upp skornar. En ef hann verðr dauðr, þá skeri erfingi örvar upp [ok láti þing stefna[5], en sýslumaðr, ef ei er erfingi nær".

1) alii manna. 2) alii í nafn. 3) B. sèrlega aflagaðar. 5) B. item síðar í sama Mannh. 10. 5) frá [ vantar í A.

Þessi síðari grein sýnir algjörlega[1], að sú hafi lögtekin venja verið, að samdægurs, sem víg var vegið[2] í einhverjum stað nærri mannabygðum, eður nokkur maður særður stórum sárum, skyldi ör[3] upp skera, og senda í bygðina, til að stefna[4] mönnum saman. Er það líklegt, að því væri ör skorin, að kalla menn á þennan fund, að hún skyldi sýna það um víg eður sár ætti samkoman að vera, og að liðs væri þörf til eptirfarar, að hepta eður höndla veganda til rannsóknar og lagadóms[5] á málinu. Verður alt þetta ljóst af Hákonar konúngs lögbók, sem hèr gekk næst fyrir þessa, og menn kölluðu Járnsíðu. Hún segir svo í Mannhelgi, *p. m. 29.:* „Örvar eru þær þrjár, er fè liggr við. Ein ör at dauðum manni, önnur at sárum hinum meirum, þriðja er maðr er aflimaðr. Erfingi skal örvar skera samdægris, er hinn[6] lætr líf sitt, eðr hinir skilríkustu návistarmenn, ef ei er erfingi við, fyrir vottum, ok hafa þing þrínætt, þar sem víg er vegit, eða á grafarbakka; þá megu þeir dóm dæma". Þessi greinin sýnir bæði þíngfrestinn, þrjár nætur, og þíngstaðinn, þar sem víg var[7] vegið, eður á grafarbakka, þar sem hinn vegni er[8] jarðsettur, og eru alt þetta einkenni örvarþíngsins. En hvað þeir hafi átt á þessu örvarþíngi að dæma, eru tilefnin sýnileg, víglýsíngin, saga hins sára, sjónarvitni og náttstaður, sem alt heyrir til rannsóknar og undirbúníngs að eptirmálum[9]. Skýrir það og Frostuþíngsbók í þessum sama Mannhelgis-kapítula, er hún hefir grein vorrar bókar[10] orðrètta alt til: „samdægrs væri örvar upp skornar"; þá setur hún þessi orð: „En ef hann liggr lengr en þrjár nætr mállaus, þá stefni sýslumaðr þing (eg trúi, örvarþíng), ok rannsaki eptir þeim, er gjörði"; og síðan hefir hún orðrètt eins og vor lögbók. Því átti víst örvarþíng rannsóknarþíng að vera, og þetta sýslumannsþíng örvarþíng, því hann á örvar upp að skera, ef ei eru þeir nær, er fyrr telur[11] til þess. Og enn fleira, það er upplýsa má vora lögbók um örvarþínganna skipan og háttu, er að sjá í fyrrnefndri Hákonarbók fram að þessum orðum: „En engi maðr verðr at máli felldr, nema ör eðr maðr stefni honum þing". Og sèst, að öllu því hugleiddu, nær vegandi mátti dæmast útlagi á örvarþíngum, og nær eigi. Hvað það sè, sem Hákonarbók kallar „meiri sár", lærum vèr af Grágás, sem[12]

1) B. augljóslega. 2) A. gengið. 3) A. örvar. 4) A. safna. 5) B. lagasóknar. 6) B. hann. 7) B. er. 8) B. var. 9) B. á eptirmálinu. 10) fyrst að framan. add. B. 11) B. tekur. 12) B. hún.

segir í Vígslóða, kap. 7., [*p.* 297, 298[1]: „Þau eru hin meiri sár: heilund ok holund ok mergund. Þat er heilund, er rauf er á hausi til heila, hvort sem hann er högginn eðr rifnaðr eða brotinn; en þá er holund, er blóð má falla á hol úr sári; en þá er mergund, er bein er sundr [til mergjar[2], þat sem mergr er í"; *cfr.* Vígsl. *cap.* 59., *p. m.* 371. Nú hefi eg því grein á gjört um hin meiri sár, að Mannh. 10. kap. skýrir ei glögt frá, hversu mjög sár[3] maður megi örvar upp skera, og þarf alt það *per consequentias,* það er af samtengíngu röksemdanna, sem af íhugun ræðunnar fljóta, upp að götva; en það er líkast, og[4] af Mannh. 21., 22. og 23. ljóst, að ekki megi þegar örvarþíng stefna, þótt maður fái skeinu litla, skinnsprettu eður blóðvöku af vopnum eður lurkum, heita það þó sár í Vígsl. kap. 59.: „Þat eru sár, ef þar blæðir, er á kom, en drep, ef annarstaðar blæðir"; *cfr.* Vígsl. kap. 6., *p. m.* 97., *et* Vígsl. kap. 81. *p.* 395. Þar á móti, ef maður verður lostinn svo hann lærbrotnar eða fótbrotnar, eður gengur blóð upp af sprúngnum inniflum, *etc.*, og má hann eigi bera sjálfan sig harmkvælalaust, þá má hann þegar örvarþíng stefna eptir vorrar bókar Mannhelgi, og samhljóðar því Vígsl. kap. 10. um beinbrot, og kap. 12. um áverkadrep. En hvernig menn skyldu þessar örvar að[5] dauðum, sárum og aflimuðum mönnum[6] þekkja frá herör, kann eg eigi grein á að gjöra aðra en þá, að ör þessi til örvarþíngs, fyrir vottum upp skorin, og sagt, bæði hvað um væri að sýsla, og hvar örvarþíng vera skyldi, og hver sekt við lægi, muni af einum[7] manni borin hafa verið, og svo skilst mèr Hákonarbók, Mannh. *p. m.* 30. Þar segir: „Fyrir vottum skal hann örvar upp skera; sá skal örum fylgja, er á eru lagðir". En herör fór yfir land með sterkri fylgd, sem vottar Frostuþ.b. í Landvb., *p. m.* 35.: „Skulu þeir, er sönn hersaga kemr til, skera upp herörvar, ok láta fara landsenda í millum. Sú ör skal fara á landi þjóðgötur, minnsta lagi með þriðja mann fulltíða, en á sjó með skipi skipuðu; hún skal fara með þjóðleið bæði nætr ok daga. Trè-ör skal skera í byggðir út ok í fjörðu inn ok eyjar út, ok bera með vottum, ok beri hverr öðrum, en öllum mönnum, er ör kemr til húss, þá gjörir honum stefnu til skips við sjó, en safnaðs á landi". Af öllu þessu sjáum vèr, að slík meðferð var herboðs-örvar einkenni svo glögt, að þar varð eigi misskilníngi við komið, er

1) frá [ vantar í B. 2) frá [ vantar í A. 3) A. mörg sár sèu að. 4) vantar í B. 5) A. af. 6) B. dauðum mönnum og aflimuðum mönnum. 7) vantar í A.

aldrei skorti formælendur og votta; en það er víst, að raung er þeirra meiníng, sem ætla þessar örvar hafa verið með þvílíku formi, sem nú eru þíngboð brúkanleg; því svo segir Hákonarbók, *p. m.* 53.: „Ef þar sker ör, er þingboð skyldi". Og svo segir Hákonarsaga[1], *p. m. 40*[2].: „En er þingboðit (sem Rögnvaldur, Bagla sýslumaður, sendi Foldúngum) fór um byggðina, sneru bændr því í herör, ok stefndu saman hverjum manni, er vopn mátti bera". Er það og sjálfsagt af nafninu, að þetta heitir ör, því hún er gjörð sem skotörvar eður pílur, en þíngboð vort er skapað eptir atgeir og exi norrænni, optast eptir hálfþynnum, en sjaldan eptir breiðaxar-formi, nema því stærri vanvizka smiðsins valdi; *vide* „Skyldarvopn"; þar segir um atgeira, breiðaxir og hálfþynnur.

## Öxarþærur.

Rekab. 6.: *þat skal vera þorskr flattr, álnar í öxarþærum.*

Eg vil leiða hjá mèr, að tala hèr[3] um það, er Björn á Skarðsá hefir skrifað um öxarþærur eður auxarþærur, því að hann lifir í guðsríki; en væri hann í þessa heims lífi, mundi eg spyrja[4] hann eptir, á hverjum rökum það væri bygt, er hann segir: „þær" eður „þjó" er lær á[5] manni og[6] dýrum. Að „þjó" heiti lendarnar[7] á mönnum og „þjóknappar", er almenníngi kunnugt, en að þeir sèu nokkurn tíma fyrr á öldum nè síðar kallaðir „þær" eður „þæri" eður „þærur" af öðrum, en Birni á Skarðsá, veit eg engin dæmi til, og svara því hèr upp á, sem skrifar *Bartholin. Antiquitt. Dan. lib. 2., cap. 13., p. 580.,* eptir *Verelii Notis in* Hervarar-sögu, kap. 1., um það, er *Mag.* Brynjúlfur hafi[8] sagt um Ódáinsakur og Glæsisvelli, innfært af *Stephanio* í *Notas ad Saxonis lib. 4., pag. 104:* „*crederem viris eruditis, si antiquitatis testimonio niterentur*"; það er: eg vildi trúa lærðum mönnum, ef þeir leiddu vitni fornaldar til sögu sinnar; og svo vildi eg Birni hèr um trúa, ef vottar styddu sögu hans; en nú á eg til gátu, í hverju gildi vitugir og lærðir menn vilja kalla mín vitni þau, er sögðu mèr, hvað þærur heita.

[9]*Anno* 1704 var eg ásamt *assessor* Árna Magnússyni austur á Þykkvabæarklaustri í Álptaveri í *Commissionens* erindum,

1) Anno 1217 add. B. 2) vantar í B. 3) vantar í B. 4) B. hafa spurt. 5) A. af. 6) A. eður. 7) B. lendavöðvarnir. 8) B. hafði. 9) B. hefir hèr: § 2.

og eptir það eg hafði um daginn skrifað jarðabókina, talaði eg við almúgann um ýmsa hluti og þeirra tilstand. Þar komu til mín kotúngar tveir, sem báðu mig að heyra misgreiníng sinn, er þá skildi á um skuldaskipti. Eg gjörði svo, og reiknuðust þeir nú[1] við. Meðal annars mælti sá eini (nöfn þeirra man eg ekki): „Ekki reiknar þú þærurnar, sem eg fèkk þèr". Eg spurði: „Hvað er það, sem þú kallar þærur?" Hann sagði: „Það voru sauðar-þærur". Hinn sagði: „Það voru þærur af á". Eg spurði enn, hvað þeir kölluðu sauðar-þærur eður ær-þærur. Þeir undruðust, er eg skildi ekki þetta, og sögðu mèr svo báðir greinilega frá, að þærur hèti skammrifin af sauðarkrofinu með bógunum, sem slátrunarmenn láta fylgja brínguhollinum, og suðaustur á landinu[2] eru kallaðar steilur, en norðanlands skammrif og bægir (ɔ: bógar). Eg spurði síðan sýslumanninn Ólaf Einarsson og aðra skynsama menn þar austur um þetta sama, og sögðu allir eitt þar um[3], að svo væri. Tók eg svo eptir bændum þessum, að bógarnir mundu eiga vera fastir á skammrifjum þessum á þann hátt, sem norðlenzkir kalla "handakerlíng", þegar krofið er[4] sundur höggvið, og bógarnir, fastir við skammrifsbrækurnar, standa út eins og höndur á dauðum kroppi. En hjá þeim í Álptaveri skyldi, svo sem eg eptir tók, krofið frá höggvið, svo eigi loði saman nema bógur og brínga. Af þessu *concludera* eg, að svo sem það heita þærur á krofinu, sem næst er fyrir aptan hálsinn, þegar búið er að kljúfa það upp, og út standa bógarnir, eins og á útbreiddum faðmi, svo heiti og þærur á flöttum fiskinum það, sem næst er fyrir aptan kverkarnar, þegar fiskurinn flattur breiðist út, og sè það því kallað í öxarþærum, sem er út á bæði þunnildisnefin á flöttum þorskinum[5], líkast til af því, að hnakki fisksins þar inn frá eru axlir hans, og heita axlir á mönnum „öxar"; því mega þær þá ekki hafa sama nafn á fiskinum? Auxar nefnir fornskáldið Einar Skúlason axlirnar á sjálfum sèr, sem Edda vottar í gullkenníngum, næst eptir Grottu-saung, *p. m. 45. Cod. Reg., item p. 269. Cod. Worm.:*

Frá ek at Fróða meyjar
fullgóliga mólu,
lætr stillir grið gulli,
grafvitnisbeð, slitna.

Mjúks bera mínar auxar
meldr þann við hlyn feldrat,
konúngs dýrkar fè fenju
faugr hlýr bragar stýri.

Frá ek at Fróða meyjar mólu grafvitnisbeð fullgóliga, ɔ: góð-

1) vantar í A. 2) A. landi. 3) A. til. 4) B. ekki. 5) A. fiskinum.

lega, vel, allvel (eins og í Noregskonúnga-sögum af Magnúsi berbein: „Breðr[1] í Bjarkey miðri ból þat, er ek veit góligst“). Stillir lætur gulli slitna grið (ɔ: rjúfast grið, því hann rekur það frá sèr, eins og segir í Hákonarsögu, *anno* 1247: „Ok þar sat seggja drottinn gulli grimmr á gjafstóli). Þann meldur mjúks (ɔ: mjúkláts, hógværs, lítilláts) konúngs (Fróða) bera mínar auxar (ɔ: axlir) feldrat (á feldi mínum, ɔ: á kápu minni settan) við hlýn (til hlunninda mèr); fè fenju dýrkar (ɔ: dýrleg gjörir) bragarstýri (ɔ: bragarstjóra, ɔ: skáldinu, sjálfum mèr) faugr hlýr (ɔ: fagra gjörða með gullinu hlýrana á mèr, ɔ: armana báða). Nú er það sýnt, að þærur eru fremri gánglimir á sauðum og öðrum ferfættum skepnum, þegar þeir, áfastir við herðarnar, standa út í loptið. Nú er það sýnt, að öxar heita herðar og axlir á mönnum. Nú er það sýnt, að herðar og axlir þorsksins er hnakkinn fyrir aptan höfuðið; því munu þá ekki armar hans, sem þaðan frá strekkja sig og terrast lengst á breiddina, þærur heita mega[2], svo vel sem á ferfættum skepnum? Verið hefi eg þar staddur, sem þjónustustúlka, kölluð frá mat sínum nýlega niður sezt, mælti: „Nú gagnast mèr ekki að eta tæruna mína!“ Eg spurði hana: „Hvað er tæran þín?“ Hún sýndi[3] mèr fiskstykkið, sem henni hafði verið gefið; það var framan af fiski[4], hnakkinn og þunnildið með nefinu. Kallaði hún þunnildisnefið tæru, og sagði það svo kallað í Dýrafirði, þar sem hún var upp alin. Og sè það svo, sem hún sagði, þá er ljóst, að rètt hafi eg skilið, að þærur eru[5] þunnildisnefin, þar sem hin sterku máttarbein minnstuugganna rètta sig lengst fram og mættust í kverksigatoppnum, áður en fiskurinn var sundraður. Nú þótt eg ei hafi fundið þá vestfirzka menn aðra, er svo hafi kallað, þá er það hennar sögu til líkinda, sem skrifar Jón Ólafsson Austindíafari[6], vestfirzkur maður, í sinnar reisubókar [kap. 29[7]., að þegar ferskum fiski, fengnum á hafinu, var í marga staði skipt á meðal sjúkra[8] skipverja, sem lánga stund ei höfðu ferskan mat smakkað, segir Jón, að sèr hafi hlotnazt öxarþærubeinið. Hvar mundi þess eiga að leita á sundruðum og soðnum fiskinum, ef það ekki skyldi vera það sterka bein, sem gengur beggja megin fram[9] í kverksigann, og verður sitt í hverju þunnildisnefi, þá fiskurinn er flattur? því dálkurinn var það ekki, og ekki sporð-

1) A, B. Bræður. 2) A. skuli. 3) A. sagði. 4) A. fiskinum. 5) A. eður.
6) A. Vestindíafari. 7) frá [vantar í A. 8) B. veikra. 9) A. fram lengst.

urinn, ekki bakugginn, og ekki eyruggarnir; allir þessir[1] limir fisksins hafa þau nöfn, sem hèr hefi eg greint, en[2] enginn af þeim öxarþæru-nafnið, og allrasízt get eg trúað [því, að[3] það hafi sá ugginn verið, sem einstakur er fyrir aptan sjálfa gotrauf fiskanna[4]; hann hefir bein svo smá, að varla mundi Jón hafa gefið honum[5] beinsnafn *in singulari;* skal það og að vísu vera sá einhverr limur fisksins, sem sinn[6] sè hverju megin, því að *pluralem* hefir lögmálið, er það segir: „í öxarþærum"; því eru allir einstakir uggar og limir þorskanna með rèttu frátaldir. Það mega og ekki eyruggarnir vera, því að bæði hafa þeir annað nafn, sem fyrr segir, og þar með standa þeir upp á miðri hlið fiskanna, en öxarþærur skulu þá vera yztar hverju megin, er hinn flatti þorskur er á borðið út lagður til sjónar; það sýnir allur *contextus* og ásetníngur laganna, því að öxarþærurnar skulu takmarka álnarmælinn á báðar síður. Hèr við bætist enn nú athugi sá[7], að sjaldfenginn mun þorskur sá, að fráteknum fyrirtaks-fiskum, er flattur sè[8] álnar á breidd annarstaðar, en út á þunnildisnefin, þótt vèr, svo sem vera ber, með rèttu gjörum alin þeirra tíða sjöunda hlut styttri, en nú er alin vor; *vide nostrum* „alin" og „meðalmaður". Er það og ekki lítilsvert, að aðgætt verði, hvaðan þessi grein[9] er í vorn Rekabálk inn komin, og sýnir Grágás það í Rekab. 16.; þar stendur: „Þat skal þorskr vera, álnar í öxarþærum, ok heitir sá fiskr gildingr". Hvaðan munum vèr fengið hafa vissa fjögra marka eður tveggja skálapunda þýngd á gildum fiski, annarstaðar en af *praxi veterum,* venju fornmanna, alt frá Grágásar tíðum? Hvað segir þessi gildíngur Grágásar annað en það, er nú köllum vèr gildan fisk? Tökum gildan fisk flattan[10], og mælum hann út á þunnildisnefin á þá alin, er sè sjöunda hlut styttri en vor alin, þá munum vèr finna, að þetta láti mjög nærri. Mèr verður sagt: þessi[11] þorskur skal vera hrár og flattur strax úr sjó dreginn, því er valt að gizka, hvað þúngur hann verður, þá hertur er. Eg svara: tökum þorsk meðalfeitan, slægjum hann[12] og afhöfðum, vegum síðan, áður úr honum sè tekinn dálkurinn; ef hann þá vegur stífar 16 merkur, mun hann[13] vega 4 merkur, þegar hann er fullharður, og hefir ratað svo góðan þerri, að ekki hafi rýrnað af votviðrum

---

1) B. þeir. 2) A. og. 3) frá [ vantar í B. 4) B. gotraufina á fiskinum. 5) vantar í A. 6) vantar í A. 7) B. sá athugi. 8) A. er. 9) A. alin. 10) B. flatan. 11) A. að þessi. 12) B. þann. 13) A. hann þá.

þá[1] stund, sem hann átti að þorna. Ef svo sker, að þetta skjátli[2] nokkuð, sem þó mun ei allmikið verða, þá hugleiði menn, hvað athuginn þurfi glöggskygn að vera um meðalfeiti þorsksins, bæði á fisk og lifur, þá munu allir góðgjarnir menn sanna, að allnærri láti gjörvalt þetta, svo það auðsýni þreifanleg líkindi minnar *theseos*, að sá verði gildur fiskur, þá hertur[3] er, sem vegur fullar 16 merkur slægður og afhöfðaður, og því í lögum til ætlað[4] hann skuli mælast álnar í öxarþærum; og mun sá enginn þorskur finnast minni en gildur þorskur, sem að flattur reynist álnarbreiður fyrir aptan þunnildisnefin[5], að fráteknum beinmegríngum, sem vera kunna stórir að sönnu, en svo magrir, að við herzluna rýrna þeir svo mjög, að vigtin hvergi nemur gildra þorska þúnga. Því ætla eg það rètt *argumenterað*, fyrst: að enginn meðalfeitur þorskur, gildur að eins og eigi fremur, er álnarbreiður, nema út á þunnildisnefin, og: í öxarþærum eru allir meðalfeitir þorskar, gildir að eins og eigi fremur, álnarbreiðir. *Ergo:* í öxarþærum er[6] út á þunnildisnefin. *Majorem demonstrabit experientia, minor ex* Jónsbókar og Grágásar *locis desumta est.*

---

1) A. um þá. 2) B. skjátlar. 3) B. harður. 4) A. til ætlaður. 5) A. þunnildin. 6) A. og.

Með þessum bæklíngi fylgir æfisaga Páls lögmanns Vídalíns, hverri lofað var 1846; á hún að bindast framan við fyrra bindið, þegar það er búið.

---

Óskandi væri, að þeir sem hafa kynnu fullkomnara safn, en það sem eptir er prentað, vildu ljá það fèlaginu, og mundi Stiptprófastur Árni Helgason, forseti fèlagsdeildarinnar á Íslandi, fúslega veita því móttöku, og sjá um að því lèða yrði skilvíslega apturskilað.